Gudbrandr Vigfus[...]

# Íslands Árbækur

## í sögu-formi.

Af

Jóni Espolin,

Sýslumanni í Skagafiardar Sýslu.

## I. Deild.

Kaupmannahöfn 1821.

Prentadar á kostnad ens Íslendska Bókmentafélags af Þ. E. Rangel.

Því Íslendska Bókmenta fèlagi barst sú fregn, at hinn margfródi Sysslumadr Ión Espólín hefdi samit rit eitt, er nefndist "Islands Arbækur í sögu formi"; var þá þess á leit farit, at hann vildi selia rit þetta af hendi til fèlagsins, svo þad mætti á prent gánga. Med stakri gódfysi, oc sem sannur vinr födurlands síns, vard hann vid þessum fèlagsins tilmælum. Þannig er þat nú þess umkomit at gèta lagt fyrir alþýdu auglit, hinn fyrsta hluta ritsins; hefir hann inni at halda þá markverdustu vidburdi, sem skèd hafa á Islandi frá því nokkru eptir hálfnada þrettandu-öld, til byriunar hinnar fimtándu. Deild þessi nær því allagötu fram ad því tímabili, hvar Sturlúnga- oc Árna biskups sögr (hvöriar at kostnadi fèlagsins eru ádr á prent gengnar) hætta, oc má hana því at nokkru leiti álíta sem framhald þessara.

Deild þessi er at vísu, sem nú var á vikit, einúngis byriun árbókanna, enn ber þó med sèr órækar röksemdir fyrir höfundsins margfalda fródleik, hans diúpsæru skarpsyni í sagna - frædis efnum, oc gódu greind á ad nidurrada tilfellunum oc skíra frá þeim, at svo miklu leiti hinu sídarnefnda, eptir ritsins edli, mátti vídkoma. Ordfæri hans oc ritunarmáti eru hvört um sig svo stakliga frábær, at óskandi væri at í þesskonar efnum vildu sem flestir laga sig eptir hans dæmi. Sè framhald rits þessa byriuninni svipat, hvará enginn efi er, þá ber því med rèttu heidursæti í þeirri grein sagnafrædinnar, sem þat vidkèmr. Deild þessari hefir fèlagit hvörki fylgia látit danska nè látínska þýdinga,

Da det Islandske litteraire Selskab havde erholdt Kundskab om, at den lærde Sysselmand John Espolin havde forfattet et Skrift, kaldet »Islands Aarböger i Saga-Stiil«, blev han anmodet om at overlade det til Selskabet, i den Hensigt at det derefter kunde blive bekiendtgiort ved Trykken. Med udmærket Velvillie, og som sand Patriot, har han opfyldt denne Selskabets Anmodning. Man seer sig saaledes istand til herved at forelægge Almeenheden den förste Afdeeling af dette Skrift, der indeholder de merkværdigste Begivenheder som ere foregaaede i Island fra noget efter Midten af det 13 og indtil Udgangen af det 14 Aarhundrede. Denne Afdeeling slutter sig altsaa umiddelbart til det Tidspunkt, hvori Sturlungernes og Biskop Arnes Historier (der paa Selskabets Bekostning allerede ere udgivne) ophöre, og kan i visse Henseender ansees som Fortsættelse deraf. Endskiönt nærværende Afdeling er, som bemærket, ikkun Begyndelsen af Aarbögerne, indeholder den dog umiskiendelige Beviis paa Forfatterens udbredte Lærdom, hans sunde historiske Kritik, og gode Skiönsomhed i at ordne og foredrage Begivenhederne, saavidt dette sidste efter Skriftets Natur har kundet finde Sted. Hans Sprog og Foredrag ere hvert især saa udmærket fortrinlige, at man önsker meget, at han ved deslige Arbeider maatte finde ret mange Efterlignere. Hvis Fortsættelsen af dette Skrift, svarer til Begyndelsen, hvorom man ikke tvivler, fortiener det en udmærket Plads i den Green af den historiske Litteratur som det vedkommer. Selskabet har

mun þess ei heldr giætt verda vid hinar adrar deildir, ef þær at kostnadi fèlagsins gánga á prent; veldr því bædi ritsins stærd, oc hinn töluverdi prentunar kostnadr; þat er einnin at rèttu lagi einúngis ætlat Islandi, iafnvel þó þari hinsvegar sè ei sialdan litid bædi til Danmerkr oc Noregs sögu. Hvad þeim hiálparmedölum vidvíkr, sem höfundrinn brúkat hefir, ritsins sundurdeilingu oc ödru þesshàttar, þá hefir hann siálfr hermt þar liósast frá í formálanum. Enn til þess at ádur tèdir ritsins eiginlegleikar, at nokkruleiti gèti komit undir hinnar dönsku alþydu álit er formálanum, (í þeirri von at höfundinum sè þad ei á móti skapi), snúis á dönsku, oc þannig prentadr bædi á íslendska oc danska túngu. Efnis oc einkanafna-registr má at vísu giöra ritgiörd þessa miklu handhægri, oc hefir því fèlagit ásett sèr at bæta brest þann, sem þessi hin fyrsta deild, í því falli hefr til at bera, iafnframt oc vìrkinu seinna meir verdúr framhaldit.

Kaupmannahöfn í Marts mánudi 1821.

*B. Thorsteinson.*

---

ikke besörget enten dansk eller latinsk Oversættelse af denne Afdeeling; en saadan Oversættelse vil ei heller fölge med de övrige Afdeelinger, hvis de paa Selskabets Bekostning blive udgivne. Aarsagerne dertil ere: Skriftets Störrelse og den med Trykningen forbundne betydelige Bekostning, samt at det nærmest er bestemt for Island, i hvorvel deri tillige er taget Hensyn til Danmarks og Norges Historie. Hvad de Hielpemidler angaaer som Forfatteren har afbenyttet, Skriftets Inddeeling, m. m., da har han selv giort Rede derfor i Fortalen. Men for at det danske Publikum kan blive desto bedre i Stand til at bedömme denne, saavelsom Skriftets övrige Beskaffenhed, har man, i Haab om at Forfatteren ogsaa vil bifalde det, oversat Fortalen paa dansk, og udgiver den saaledes baade i det islandske og danske Sprog. Et Navne- og Sag-Register vil meget bidrage til Brugbarheden af dette Skrift. Selskabet vil derfor være betænkt paa, at see denne Mangel ved den förste Afdeeling, ved Fortsættelsen af Værket, i sin Tid afhiulpen.

Kiöbenhavn Marts Maaned 1821.

*B. Thorsteinson.*



# Formáli.

I slíku verki sem þetta er, af ímsu samandregit, oc mörgu óskilmerkiligu, meiga menn eigi undrast yfir því, þó í fyrsta máta: styllinn verdi þurr; í ödrulagi: þó vissu þá skorti vída sem í mörgum forn-sögum vorum er at finna, hellst Sturlunga Sögu; því hinu þridia: þó nokkrir, sem fleiri skiöl eda skilríki hafa med höndum enn ec, kunni margt framar at finna, edr sannara; því ec hefir fundit mörg sannindi um forn tídindi, er flestum mönnum voru ókunn á XVIIdu öld, oc fyrir því munu eptirkomendr vorir, ef hvör upplysir at ödrum, finna þat margt er ec vissi ei; því fiörda: þó margt í enum eldri frásögnunum sè ómerkiligt, giörníngar oc jardakaup oc margt þvílíkt, því ec vildi sem færst undanfella er ec fann, til þess at heldr yrdi vissa fyrirhöfd hvörir menn uppi voru þá eda þá, þó giörníngarnir siálfir sèu eigi þess verdir at uppi sè haldít. Hefir ec viliad fyrirbyggia þat er ec fyrst um gat, þurrleika stylsins ofmikin, med því at hafa söguform á Arbókum þessum, oc því kalla ec þær *Arbækr* i *Söguformi*, heldrenn Sögr edr einúngis Arbækr; þó mèr hafi eigi tekist at heldr at giöra þær áheyriligar, nema máskè sumstadar, einkum í midri sextándu öld, þá mest samhengi fæst í frásögninni oc söguligast. Hit annat vissuleysid, orsakar skortr sá hinn mikli, er menn hafa á öllum frásögnum á XIVdu oc XVdu öld, enn ec vildi þó ei at heldur þegiandi frammhiá sneyda því er ec fann. Hit þridia oc fiórda gat ec nú um strax hvat olli, oc færdi rök fyrir því ec vildi at mèr væri haldid

# Fortale.

I et Skrift som dette, der er samlet af mange og forskiellige Kilder, maa man ikke undres over, for det förste om Foredraget befindes tört; for det andet; om den Vished som haves i mange af vore gamle Sagaer, fornemmelig i Sturlunga-Saga hist og her savnes; for det tredie: om andre som besidde flere Brevskaber og Hielpemidler end jeg, muueligen kunne giöre flere og paalideligere Opdagelser; thi saaledes har jeg opdaget meget om Oldtidens Begivenheder, som i det 17de Aarhundrede var de fleste ubekiendt, og det er derfor sandsynligt, at vore Efterkommere, hvis den ene efter den anden bestræber sig for at bringe Oplysninger tilveie, vilde endnu finde meget som jeg ikke havde Kundskab om; for det fierde; om adskilligt er anfört, især i de ældste Tider, som ansees for mindre vigtigt, for Exempel om indgaaede Contrakter, Jordeiendommes Afhændelse og deslige, thi jeg ville forbigaae saalidet som mueligt af det jeg kunne samle, for at man med desto större Vished fik at vide, hvilke Mænd til enhver Tid vare i Live, endskiönt disse Forhandlinger i og for sig ikke fortiente at opbevares for Eftertiden.

I Henseende til hvad jeg först berörte, om Foredragets Törhed, da har jeg vel sögt at undgaae den, ved at fremstille Begivenhederne i en fortællende annalistisk Form, af hvilken Aarsag jeg ogsaa kalder dette Skrift »*Aarböger i Saga-Stiil*«, men hverken blot Historier eller Aarböger; imidlertid tör jeg ikke haabe, at det skulde være lykkedes mig, at giöre den underholdende nok; undtagen maaske hist og her, fornemmeligen i Midten af det 16de Aarhundrede, da Beretningerne for denne Tid bedst hænge sammen og ere best skikkede til en slig Fremstilling.

Den dernæst bemærkede Mangel paa historisk Vished, da hidrörer den ganske fra den overhaands store Mangel paa alle Slags Efterretninger fra det 14de og 15de Aarhundrede; men jeg ville paa den anden Side ikke gaae det med Taushed forbi, som jeg har

til góda þat ávant er, því ec ætla þó at mörgum muni margt kærkomit verda þat er lèttvægt þykir; er þad þar dyrt, sem ei fæst annat betra, oc má heimfæra hingat af þeim er gódgiarnir eru, versit látinska: *ut desint vires tamen est laudanda voluntas.*

Nú er svo farit, at hit ágæta bókmennta-fèlag Islands, hefir litit á upphaf Arbóka þessara, oc vyrdir þess ad láta koma út á prenti; enn ec hefi deilt þeim í VI hluti, sem algiörfir teljast, oc út megu koma at sinni. Gengr hinn fyrsti yfir XIVdu ölld eina saman, edr frammi yfir Pláguna miklu, til arsens 1405, oc er sú at vonum ófullkomin miöc í Sagnafrædinni, enn þó fæ ec þar ekki vidbætt. þennan hluta hefir ec sendt fèlaginu, í von um at prentadr yrdi, oc hugsa svo um hina, ef því líkar þat, oc ec endumst til. Annar gengr yfir 15du öld, edr til 1500, oc er sá nokkru liósari, enn þó ei um þann mun sem tíminn er nær, því varla ætla ec jafnmikit myrkr hafi verid hèr á landi í þekkingunni sem þá, oc náliga fæst þá ekkert annat, enn þat sem lesit verdr úr brèfabókum. Hinn þridii hluti gengr yfir öndverda 16du öld til trúarbragda skiptanna, edr til 1550, oc er sá einna söguligastr, oc ei hygg ec at ec munni fá aukit neinu í þessa þriá hluti; enn þá er sídan koma, kynni at mega auka einhveriu, eda máskè vana um sumt þad er ómerkligast er, ef annir mínar, ástædr oc lífdagar leifdu. Hinn fiórdi hluti tekr yfir ofanverda 16du öld, framm yfir harda vetr 1602, oc allt til 1605. Hinn fimti yfir öndverda 17du öld til dauda þorláks biskups; oc hinn 6ti frá 1656 til 1684, þá umskipti allmikil urdu á stiórn í landi hèr.

kunnet opdage. Hvad der er Aarsag til den tredie og fierde Bemærkning, har jeg nyligen berört, og anført de Grunde formedelst hvilke jeg önsker, at det manglende maa holdes mig tilgode; jeg er desuden overbevist om, at det som nogle ansee for ubetydeligt, vil dog være mange kiærkomment; og overalt er det af Vigtighed der, hvor man ikke har andet som er bedre; ingen Velsindet vil her glemme den gamle latinske Regel: *ut desint vires tamen est laudanda voluntas*.

Da nu det hæderlige Islandske litaraire Selskab har henvendt sin Opmærksomhed paa Begyndelsen af disse Aarböger, og anseet dem værdige til at befordres til Trykken, saa har jeg delt dem i 6 Afdelinger, som nu ere fuldendte, og kunde for det förste trykkes. Den förste Afdeling indbefatter det 14de Aarhundrede allene, den gaaer til Enden af den store Landeplage, eller til Aaret 1405; denne er som man let kan giætte i historisk Henseende meget ufuldstændig, men jeg kan dog ikke lægge der noget til. Denne Afdeling har jeg sendt til Selskabet, i Haab om at den bliver udgivet i Trykken; men vil dernæst, hvis det saa behager Selskabet, og mine Kræfter tillade det, tænke paa de övrige. Den anden Afdeling handler om det 15de Aarhundrede, og gaaer til Aaret 1500; den er noget fuldstændigere, skiöndt ikke i det Forhold, som det Tidsrum den omfatter er os nærmere; jeg troer at der neppe nogensinde her i Landet har hersket et saa tykt Vankundigheds Mörke, som i dette Aarhundrede; næsten ingen andre Oplysninger kunne da bringes tilveie, end de som samles af gamle Brevskaber. Den tredie Afdeling omfatter den förste Halvdel af de 16de Aarhundrede til Reformationen, og endes med Aaret 1550; den er mest underholdende. Disse 3 Dele troer jeg ikke kunne fra min Haand blive fuldstændigere; men de fölgende kunde maaske endnu noget foröges, eller og det mindst Mærkværdige deraf udelades, hvis iövrigt mine Embeds-Forretninger, Stilling og Alder tillade det. Den fierde Afdeling omfatter det 16de Aarhundredes sidste Halvdel, tilligemed den haarde Vinter 1602 og gaaer til 1605. Den femte indbefatter det 17de Aarhundrede til Biskop Thorlaks Död; og den siette gaaer fra 1656

Stíllin er at mestu óbreyttr hvörsdagsligr, enn þó meira hneigdr á þá leid sem fornir menn ritudu, at því sem vid vard komit. Enn þad sem ec hefir haft fyrir mèr til at samantaka eptir Árbækr þessar er: í 14du öldinni Laurentius Saga, oc þad sem eg hefi sèd af Flateyar Annál, nokkud af gömlum ættatölum, oc vid þetta ítarlegá samanborit inntak úr brèfum þeim er Assessor Arni sál. Magnússon hafdi safnad; einnin kyrkiu saga biskups sal. Doctor theolog. Finns, oc biskupa æfir Jóns Prófasts Halldórssonar hins fróda födr hans; hefir ec látid hverutveggia þetta leidsegia mèr alla leid í bókinni, enn þó med ítarlegum samburdi vid hitt. Í 15du öldinni hefir ec haft til leidarvísis, auk þess sem ádr er talid, Árbækr sem kallast stutti Annáll, oc Biarnar ad Skardsá, þar med dóma oc brèfabækr ímsar, oc allt med samburdi. Í 16du öldinni allt hid ádrtalda, sem þá var ordid liósara, oc ítarlegra; oc í hinni 17du, þetta hid sama, oc þar ad auki Fitia Annál, oc upphaf á Árbókum Benedicts prests at Hesti, einnin Árbækr Gunnlaugs prests í Vallholti, þar sem þær urdu nyttar, oc Þorláks Markússonar á Siáfarborg; oc at auki, Lögþingis bækr, er eg hafdi undir höndum fra 1650, oc um sumt sagnir fródra manna. Nú má vera at vidburdir mínir í þessu efni komi at allgódu haldi, oc verdi eigi rækir; enn þó vildi ec svo ákiósa, ef verkid verdr prentad, at þat yrdi eptir þeirri einni útskrift er frá mèr siálfum kèmr; því önnur er allareidu til, er skè mætti ec vildi bædi auka oc vana undir prent; oc vinnst þat þó ekki vel, nema ec fái lífs stunda at nióta, synar oc krapta svo lengi, sem annir mínar oc vaxandi pennaleti útheimta tíma til, ad ec fengi þessu komid í

til 1684 da her foregik en stor Forandring i Henseende til Landets Bestyrelse.

Stilen er for det meste simpel og populair, men dog, forsaavidt det lod sig giöre, noget lempet efter de ældres Skrivemaade. De Kilder jeg har afbenyttet, ere: for det 14de Aarhundrede, Biskop Laurentius Historie, det som jeg har kunnet overkomme af de saakaldte Flatöeske Annaler, samt nogle gamle Genealogier; med disse Kilder har jeg nöiagtigen sammenholdt de af salig Assessor Arne Magnusen samlede Diplomer og Brevskaber; ligeledes har jeg afbenyttet salig Biskop Doctor Theologiæ Fin Iohnsens *Historia ecclesiastica Islandiæ*, og de af hans Fader, den lærde Provst Jon Halldorson, forfattede Levnetsbeskrivelser over Biskopperne. Begge de sidstnævnte Arbeider har jeg helt igiennem fulgt, dog efter at have omhyggeligen sammenholdt dem med det övrige. I det 15de Aarhundrede har jeg, foruden det anförte, havt til Veiledning, de Annaler som kaldes *de kortfattede*, samt de af Biörn fra Skardsaa skrevne Annaler; desuden Domme og forskiellige Brevskaber, som nöie ere sammenholdte med hinanden. Igiennem det 16de Aarhundrede har jeg fulgt alle forberörte Hielpemidler, som i dette Tidsrum ere noget klarere og udförligere; de samme Hielpemidler ere brugte i det 17de Aarhundrede; desuden de saakaldte *Fitia Annaler*, og Begyndelsen af de Aarböger som Præst *Benedict* til Præstekaldet Hest affattede; endvidere Aarböger forfattede af Præsten *Gunnlaug* i Vallholti, der hvor de kunne afbenyttes, samt af Thorlak Markusson af Siafarborg; og endelig, Althingsbögerne fra 1650 som jeg var i Besiddelse af, samt for endeel kyndige Mænds Beretninger. Hvis disse mine Forsög, som jeg haaber, skulde befindes nyttige og antagelige, og Trykning af Værket besluttes, önsker jeg meget, at den maa skee efter det Manuskript som kommer fra min egen Haand, da et andet haandskrevet Exemplar er allerede til, hvilket jeg muligen, förend Trykningen, kan faae Anledning paa sine Steder at foröge eller forkorte. Imidlertid vil dette Forehavende ikke lykkes, med mindre mit Liv, mit Syn og min Hilsen, spares i saa lang Tid som andre nödvendige Forretninger, og med Alderen voxende Ulyst til Skriverie, udfordre, til Arbeidets Fulden-

kríng; oc med því þetta er allt undir von, væri þad Arbókunum ábati, ef Fèlagit gæti látit prenta þær jafnódum oc ec hrökk vid at fullgiöra; enn sè þetta ómögulegt, hlítr skadinn at verda hiá mèr um þat sem áfátt er. Eigi verdr um handrit at velia, ef ec hefi siálfr yfirsyn um þau sem til Fèlagsins gánga, oc læt ec mèr lynda, þegar upphaf er tekit á þessu, at þat komi út sem ádr er talit nefnilega VI hlutirnir, hvad sem verdr um þat sem þá er eptir af því sem ec hafi tynt samann, er ei heldr má fullkomid kallast, oc enn sídur má vera án stórrar lögunar, er ec mun eigi tilendast, lengr enn til 1730.

Synist mèr, óþarfi ad ræda framar um rit þetta. Því fátt er annad af því at segia er þad ber eigi med sèr siálft. Lysa sagnirnar, þó þær sèu ófullkomnar, hvörri öld med sinni einkunn; oc vyrdist hin 14da miöc lík Sturlungaöld, ef eins greinilega yrdi frásagt, oc fyrri hluti hinnar 15du, ad því leiti sem mannfæd landsins oc adrar ástædr enn fyrri voru leifdu þá, enn seinni hluti hennar hnígr meir at biskupa ríkinu, oc svo fyrri hluti 16du aldar. Hvörsu sídann skiptist, bera Frásagnirnar siálfar med sèr.

Vidvík í Skagafyrdi þann 21 Augusti 1820.

*J. Espolin.*

delse. Men da alt dette er usikkert, vilde det være en Vinding for Aarbögerne, om Selskabet fandt Leilighed til, at lade dem trykke efterhaanden, som jeg kan blive istand til at fuldende dem. Jeg er fornöiet med, hvis Trykningen ellers paabegyndes, at de fornævnte 6 Afdelinger komme for Lyset, hvorledes det saa gaaer med det övrige som jeg har samlet, vedkommende Slutningen af det 17de og hele det 18de Aarhundredes Historie, hvilket ligesaa lidet som det övrige kan kaldes noget fuldendt Arbeide, da det behöver en stor Forbedring, som jeg dog ikke vil kunne være i Stand til at give det længere end til Aaret 1730.

Det er overflödigt at tale mere om dette Skrift, da ikkun lidet andet kan siges derom, end hvad det selv indeholder. Beretningerne, om de end ere ufuldstændige, antyde ethvert Aarhundredes særegne Karakter; det 14de, hvis man kunde beskrive dets Historie ret nöiagtigen, synes at have megen Lighed med Sturlungernes Tidsalder; det samme er og Tilfældet med den förste Halvdeel af det 15de Aarhundrede, forsaavidt Landets da ubetydelige Folkemængde og andre Omstændigheder, som nu ei *mere* lignede Fortidens, tillode det; men dette Aarhundredes sidste, og det 16de Aarhundredes förste Halvdel ere at henföre til Hierarchiets Tidsrum. Hvorledes det siden den Tid er gaaet, maa skiönnes af selve Beretningerne.

Vidvik i Skagafiorden den 21de August 1820.

*J. Espolin.*

# Fyrsti Þáttr.

Hèr teliast landsmenn sem gengu undir Hákon konúng, segir sídan stuttliga frá deilu Arna biskups hins fyrra oc Rafns Oddssonar; Þar eptir frá upphafi Laurentius biskups, landshöfdingium vid aldamót oc *Krócálfi*. Tími Arna biskups Helgasonar. Frá Iörundi biskupi og Laurentió, athöfnum Audunnar biskups oc frá deilu Laurentii vid Ión biskup Hálldórsson oc biskupsdómi hans. Sídan frá *ödrum* biskupum og höfdíngium oc hardæri er þá giördist. Þar eptir frá ímsum valdamönnum oc ferdum þeirra. Gyrdi biskupi oc bródr Eysteini oc bardaganum á Grund, þar Smidr fèll oc Ión Skráveifa. Fra Þórarni oc Oddgeiri biskupum oc Ióni Scalla. Island med Noregi kèmr undir Dana- konúng, enn eptir á verdaótídindi mikil. Frá Byrni Einarssyni, oc ödrum helldri mönnum; börnum Biarnar; Petri Biskupi oc Vilchin; deilu Biarnar vid Þórd Sigmundarson; andláti Einars prests Hallidasonar, er fyrir ödrum klerkum hafdi verit nordanlands, sídan á dögum Laurentii. Frá Þorsteini lögmanni Eyálfssyni oc ímsu ödru; plágunni miklu, oc því manntióni oc tídindum er þá urdu, oc andláti Vilchins biskups.

## I Kap. Höfdíngiar þá Island kom undir konúng.

I þann tíma er Hákoni Hákonarsyni Noregs konúngi var land svarit af Islendíngum, voru þessir höfdíngiar: Einar Vatnsfyrdíngr son Þorvallds Snorrasonar oc Þórdysar Snorradóttr Sturlusonar oc Vigfús Gunnsteinsson at vestan; Vigfús hafdi opt verit í förum; Asgrímr son Þorsteins Iónssonar í Hvammi, bródir Eyúlfs Ofsa oc Hallr Kvistr, Gudríkr í Eyafyrdi, Hallr af Mödruvöllum, Þorvardr or Saurbæ, Gudmundr frá Hrafnagili at nordan. Ur Skagafyrdi: Geir hinn Audgi Þorvalldsson oc Kálfr oc Þorgeir synir Brands Kolbeinssonar er fèll í Haugsnesi fyrir Þórdi Kakala. Fyrir vestan Vatnsskard: Biarni á Audkúlustödum, Sigurdr úr Hvammi, Illhugi Gunnarsson. XII menn sóru af Vestfiördum oc eru þeir ei nefndir. Þorvardr úr Saurbæ var kalladr grályndr, hann átti son er Þórdr hèt, sá fèkk Ingibiargar Sturludóttr Þórdarsonar, er fyrr hafdi átta Hallr son Gissurar Iarls, er bana fèkk í brennunni á Flugumyri. Kálfr Brandsson átti Gudnyu dóttr Sturlo Þórdarsonar. Þessir vóro þeir höfdíngiar adrir er þá voru uppi, oc umgètr sídarla Sturlúnga sögo: Sveinbiörn bjó í Súdavík, son Sigmundar Gunnarssonar er lengi var í förum med Þórdi Kakala oc Herdysar Rafnsdóttr frá Eyri, er fyrri hafdi átta Eyúlfr Kársson. Son Sveinbiarnar var Eyrikr; enn þeir voru systra synir, Rafn son Odds Alasonar, er þá var einhver mestr höfdíngi, oc Sveinbiörn. Nicolas Oddsson bjó í Kalmanstúngo, kappi gamall Þórdar Kakala, hann átti Gydu Sæmundardóttr af Oddveriaætt; þeirra börn voru Valgardr oc Sigmundr oc Helga; hennar fèck Þorlákr Narfason oc var þeirra son Kètill. Högni son Bödvars Þórdarsonar bjó í Bæ í Borgarfyrdi. Gudmundr Bödvarsson á Stad bródir Þorgíls Skarda. Andréssynir eystra, Kètill í Hytardal son Lopts Pálssonar biskups, son sídar ættmenn Þorleifs Hreims. Þorvardr Þórarinsson hafdi þá drepit Þorgíls, enn hann hafdi lidsint honum at bródr hefndum eptir Odd bródr hans, þau voru börn Odds: Gudmundr Grys oc Rikitza. Sæmarlidi hinn sterki hèt madr, er var med Oddi þá hann var veginn í Gelldíngahollti, enn sídan í förum. Oddr hafdi ádr drepit Rana Konransson í Grímsey, hann hafdi oc gjört Henrik biskup handtekinn oc því dó hann í banni. Þeir voru uppi höfdíngiassynir oc ríkra bænda, þeirra er um er gètid í Sturlúnga sögo, Snorri son Sturlo Þórdarsonar, enn annar Þórdr fór utan oc giördist hyrd-

prestr Noregs konúngs; Þórdr, Ulfr oc Ion Kárin synir Þórdar Kakala, Sturla son Rafns Oddssonar, enn annar var Ión Korpr. Þat veit ec ei hvört sá var fadir Glumbæar Rafns. Hallkatla var dóttir Rafns Oddssonar, hon átti Ión Pètursson; þeirra börn voro Sturla oc Pètr oc Steinun. Giördust þeir bádir seinna Sturla Rafnsson oc Sturla Iónsson handgengnir Noregs konúngi oc voro herradir. Loptr hèt son Gísla á Raudasandi. Oddr oc Þórarinn hèto synir Þorvards Þórarinssonar, enn þó at þeir menn sèo hér taldir, oc margir af þeim hafi afqvæmi átt, þá er sagna vant til at rekja frá þeim ættir, oc verdr náliga engu vidkomit þar um nema gátum einum. Má þó enn til nefna Ión Karl oc Sigmund Eystra syni Ögmundar Helgasonar, sumir nefna Sigurd; oc fèkk hann sídar Þórunnar Einarsdóttr frá Gördum, er Egill Sölmundarson átti fyrri. Örnúlf son Þorvards Örnulfssonar, oc Lopt, Sighvat oc Sturlo sonu Hálfdánar Sæmundarsonar á Kèlldum oc Steinvarar Sighvatsdóttr; eru þessir menn allir nefndir sídla í Sturlúnga sögu.

## II Kap. Höfdíngiaskipti.

Hákon konúngr andadist fyrir vestan haf, eptir er Ísland var gengit undir hann, tók þá ríki Magnús son hans, er kalladr var 1263
sídan Lagabætir. Þat ár var Brandr biskup á Hólum; hann sat 1264
einn vetr, enn þau missiri sem hann deidi, gèck Island til fulls 1267
undir konúngdómin. Iörundr Þorsteinsson hèt sá biskup, er eptir hann kom til Hóla, enn það var vetri ádr enn Gissr Iarl 1268
deydi; hann var þá kominn til Videyar klausturs. Ormr hèt þá hyrdstióri á Islandi; hann deidi vetri sídar, enn Arni biskup 1270
Þorláksson kom til Skálholts; enn um alla þá tilburdi er í þann tíma fóru framm, er bædi nockud ólióst, enn þó þat, sem mest er mark at, talit í sögo Arna biskups, oc munum vèr því vera sem fáordastir, þar til at lokit er Arna biskups sögo, enn sú tíd er þá tekr til mun ærit óliós, þó þat verdi til tynt allt er fengit verdr.

## III Kap. Upphaf Laurentius.

Kálfr hèt madr, systurson Þórarins prests, er um hríd hèlldt Velli í Svarfadardal oc kalladr var Kaggi; hann fylgdi Henriki biskupi

oc Oddr Þórarinsson gjördi hann handtekinn á Fagranesi. Kálfr átti Þorgrímu Einarsdóttir; hún var kynjud frá Illhuga presti Biarnasyni, þeim er uppgaf eign sína Hóla til biskupssetnrs, hann tók síðan heim til sín Haflida prest Steinsson á Breidabólstad, þá er hann hafdi sem minnsta forstödu. Þau Kálfr bjuggo á Efraási í Hialltadal oc voro fèlítil. Þorgríma fór til Þórarins prests á Velli, einhverju sinni er hún var þúngud; þar dreymdi hana at hún þóttist komin til Hóla hátídisdag nokkurn, oc var svo mikil mann-þraung at hon komst ekki í kyrkjuna, þá syndist henni madr einn merkiligr gánga úr kyrkjunni, taka í hönd sèr oc leida fyrir háalltari, oc selia sèr nockud hart í hönd í líndúki, oc mæla svo: þetta skallto Þorgríma eiga oc geima vandliga; hún þóttist syna grip þenna Þórarni presti, oc sem hún leysti til var í knytelskautanum biskups innsigli mikit, oc grafinn á biskups líkneskja, oc þóttist hún vandliga hyrda. Litlu sídar tók hún jódsótt erfida oc fæddi sveinbarn á Laurentii messudeg, þad var lengi líflítit, oc hèt prestr því at þat skyldi Laurentius heita ef lifdi, oc vatnfasta jafnan fyrir Laurentii voku, er hann hefdi alldr oc heilsu til. Sídan lifnadi sveinninn oc var skyrdr med því nafni, oc endti hann sídan heitit. Hann var borinn á því ári er Iörundr kom út med biskupsdóm til Hóla, vetri ádr enn Gissr Iarl deidi; var hann laungum á Völlum med Þórarni presti medan þeir lifdu bádir, oc þar var hann er hèr var komit.

## IV. Kap. Upphaf stadamála.

Arni biskup Þorláksson, er hann var útkominn, hóf hann þegar at kalla til stada í hendr á leikmönnum, oc hefr hann af þessari ákéfd, er hann hafdi vid í því efni, kalladr verit Stada Arni. Hann vakti fyrst tilkall til Hytardals af Katli Loptssyni er þar bjó; gaf hann sic upp fyrir biskupi, oc sídan margir fleyri, enn er biskup sendi menn at taka á móti stadnum, villdi Kètill ej láta, fóru þeir sendifór biskups, Olafr Hiörleifsson ábóti á Helgafelli bródir Arons, Runúlfr Olafsson ábóti í Videy oc Þorgrímr prestr Magnússon; vid þetta reiddist biskup oc bannsaung Kètil á Þorláksmessu sjálfa, eptir þad sór Kètill frá sèr oc sínum erfingium Hytardal oc á líkan hátt lyktadi önnr deila sú er biskup átti þá um Oddastad.

## V Kap. Frá biskupi, Rafni oc Höfdíngium.

Rafn Oddsson giördist nú hyrdstióri yfir landi af konúngs hendi, hann kalladi biskup syna göfugum mönnum rángindi mikil, at bannfæra þá fyrir engar sakir, sagdi þad oc í móti konúngs vilia; vid þad dyrfdust leikmenn, oc kölludu ókunnugt erkibiskupi 1270
med hvörium skildaga kyrkiurnar voro byggdar í fyrstu, því Arni 1271
biskup bar fyrir sic erkibiskups bréf um stada heimtuna. Biskup segir at þetta væri komit undan túngurótum Rafns, oc ástædr þeirra lognar; sagdi kirkiunnar lög banna at leikmenn hefdi stadi med höndum, oc mætti enginn skildagi halldast er þeim væri í móti. Hann fór þá yfir Austurland vísitatíuferd, oc lagdi þar undir sic alla stadi. Þar eptir giördi hann skipanir nokkrar til linunar setníngum hinna fyrri biskupa. Sumarit næsta kom út lögbók sú er Iárnsída var kollud; hafdi Sturla Þórdarson oc Þorvardr Þórarinsson saman ritat hana, at bodi Magnúsar konúngs, var Magnús konúngr af því mjúkr vidfángs Arna biskupi, at hann 1272
lagdi stund á, at frammfylgja lögum hans. Vard nú þíngdeilld í Noregi med leikmönnum oc klerkum, enn ekki gekk þar á klerk- 1273
*ana þó* konúngr sjálfr vildi leikmönnum lidsinna, þar ákærdi Arni biskup Sighvat Hálfdánarson oc brædr hans fyrir halld á Oddastad oc Einar Þorvaldsson um Vatnsfjörd oc fór þad sem segir í sögu hans. Þat sumar fór hann út oc var þá lögtekit um erfdir, eptir því sem segdi í bók Magnúsar konúngs, veitti þar at Rafn Oddsson oc Sturla Þórdarson. Veturinn eptir fór biskup at vísitatíu um Borgarfjörd oc þádi veitslo ágæta at Egli Sölmundarsyni í Reikhollti, er vída gètr sídla í Sturlúnga sögu. Egill var qvæntr oc átti margt barna, enn fyrir því hann var vígdr súbdiáknavígslu, naudgadi biskup honum til at skilja vid konu sína, fèkk hennar þá Sigurdr son Ögmundar Helgasonar. 1274
Eptir þetta fóru Biskupar at semja nya Kristinrètti, oc var lög- 1275
tekinn Kristinrèttr Arna biskups; þá komu fyrst út híngat krossfara bod oc aflát. Voro þá um þær mundir deilr miklar med Arna biskupi oc Þorvardi Þórarinssyni, oc hófust af því at Þorvardr vildi láta hegna bændum nokkrum, enn biskup tók þá í sína vernd, lyktudu þær med því at biskup bannfærdi Þorvard; Gudmundur Bödvarsson var þá andadr. 1276

## VI Kap. Deila biskups oc konúngsmanna.

1277 Annat sumar komu út konúngsmenn Indridi Böggull oc Nicolás Oddsson. Þann hyggium vèr hinn sama, sem í Kalmannstúngu var. Þeir voru hardir á konúngs erindum enn allmótfallnir klerkum, enn ecki var biskup lengi at mjúklæta sic vid konúng, var þat oc hægt, því Magnús konúngr var mjúkr oc giæfr í skapi, oc leiddist honum ófridr. Rafn fór þá utan, Þorvardr Þórarinsson oc Sturla lögmadr Þórdarson. Þeir Indridi Böggull oc Nicolás
1278 Oddsson fóru um land annat sumar, sem þeir höfdu fyrr gjört, þeir mættu presti einum óvarfærnum oc stórlátum, er flegia vildi konúngsbrèfum oc ödru því er þeir átto med at fara í Ölvesá, var hann ærit sterkr, enn þó báro þeir hann ofurlida, kiærdi hann þá fyrir biskupi at þeir hefdi fleigt böggum sínum í ána, enn biskup hèt jafnskiótt konúngsmönnum banni, nema þeir lèti allt vera sem hann vildi; þeir neitudu því skiótt svo illa sem presti hafdi farit, enn þetta er því greint, at af slíku má sjá stórlæti Arna biskups oc ofsa klerkanna. Þá komu út erkibiskups brèf, oc bodudu biskupa utan, enn budo þó at leysa úr banni bein Odds Þórarinssonor, er veginn hafdi verit í Gelldíngaholti, var Jörundr biskup til þess alltregr. Enn frá Rafni Oddssyni er þat at segja, at hann var med Magnúsi konúngi þann vetr, oc giördist merkismadr konúngs, oc hyrdstióri yfir land allt. Þeir urdo lögmenn Þorvardr Þórarinsson oc Lodin af Backa, oc komu þeir
1279 út sumarit eptir med brèfum konúngs oc erkibiskups, sem segir í sögu Arna biskups. Þorvardr átti frú Ragnhildi eckju Brynjúlfs Jónssonar, oc voru þeir herradir bádir, oc svo adrir konúngsmenn, er þá voru í förum. Þat sumar fóru biskupar bádir utan,
1280 oc var Arni biskup vel tekinn med Magnúsi konúngi um veturin; enn um vorit sendi konúngr út Lodin Lepp, oc Jón Einarsson lögmann Islendínga er nokkrir kalla Gelgju. Þeir fóru med lögbók Magnúsar konúngs oc var eigi vel vid henni tekit, var þó Arni biskup þverastr. Þat fèkk Magnús konúngr ej at vita því hann deydi þat ár, oc var sonr hans hinn eldri, er Eyrikr hèt, til konúngs tekinn; honum þrengvudu biskupar til at vinna eida þeim oc þeirra valdi til styrkíngar, ádr hann var krónadr. Þeir Arni biskup oc Lodinn Leppr áttu mikla deilu á alþíngi,
1281 um vidtekt lögbókarinnar, enn um sídir fèkk Lodinn dregit alla alþídu úr fylgi vid biskup oc vard bókin lögtekin, nema IX

mæltu í móti er hellst voru fylgisamir Arna biskupi, fyrir þeim var Loptr Helgason systrsonr biskups, þeir voru hans brædur Arni Helgason, er sídar vard biskup oc Biarni Helgason, enn Agatha abbadys í Kyrkjubæ var systir þeirra. Loptr átti Borghildi dóttr Ejylfs Ofsa Þorsteinssonar oc Þurídar Sturludóttr Sighvatssonar. Lódinn var mjöc reidr Lopti oc mundi ei tiád hafa, þó biskup mælti hann undan höptum, nema Rafn Oddsson oc fleiri höfdíngjar hefdi í milli gengit; fór ej Loptr utan fyrri enn tveim vetrum sídar. Var þat lengi at konúngr vildi ei siá hann, enn þó kom svo um sídir at hann vann konúngi eida oc var í sátt tekinn.

## VII Kap. Leikmenn heimta stadi. Kapp biskups oc Rafns.

Eyríki konúngi syndust þeir eidar óþarfir ríki sínu er hann hafdi unnit biskupum, útlagdi hann þá þessvegna ödruvísi enn þeim þótti vera eiga, oc efldi menn til laga móti yfirgángi þeirra, sem *hann* mátti. Var hann af því kalladr Eyríkr Prestahatari; fór 1282
Rafn Oddsson á fund hans oc var med honum einn vetr, enn 1283
um vorit fór hann út híngat af konúngs hendi, oc med honum annar madr herradr Erlendr Olafsson hinn sterki edr hinn digri; hann ætla menn Norrænann verit hafa í födrætt, enn módr kyn átti hann Islendskt; þeir höfdo konúngsbréf med at fara, þau er skipudu leikmönum forrád kirkna sinna. Heimtu þeir þá stadina med forgángi Rafns oc kom vid þat stans á biskup í fyrstu, þar til er Runúlfr ábóti í Veri rèdi honum þat, at láta í engu til slaka. Um vorit eptir vard samkoma med biskupi oc Rafni í Brautarhollti, færdu þeir þar fram ástædr sínar sem segir í Arna 1284
biskups sögu, oc lèt biskup ei af svari sínu, enn Rafn og leikmenn tóku þó ei at sídr undir sic flesta stadina. Sturla Þórdarson hafdi alldrei til sín látit taka um stadamál, oc andadist hann á þessum missirum, enn eigi vard af sætt Rafns oc biskups at helldr, þó margs væri í leitat. Asgrímr Þorsteinsson hafdi verit vin biskups mikill, bródir Eyúlfs, oc fyrir þá sök gipti hann Lopti Helgasyni systrsyni biskups frændkono sína Borghilldi, sem fyrr segir, enn um sídir þoldi hann ei ofríki biskups, oc giördist med þeim óvinátta mikil, oc var nú komit allt þar til er biskup

bannfærdi hann. Nokkru sídar tók Asgrímr banasótt, er hann var staddr nærri Skálholti, beiddist hann þa aflausnar oc fèkk
1285 hana, oc svá göfugliga greptran er hann var úthafinn, þó med þeim hætti, at Eyúlfr sonr hans mykti biskup ádr med stórum giöfum; Ormr Klángsson frá Haukadal var vid jardarför Asgríms, hann var af ætt Klángs sem drepinn var í Reikhollti, frænda Gissurar jarls, hann hafdi biskup einnig fyrir sökum, sem segir í sögu hans. Hóf nú biskup at nýu at setja leikmenn útaf kirkiu, því hann þoldi ei ríki Rafns. Fór þá Rafn í Skálhollt oc vard þá biskup at iáta giörd konúngs oc erkibiskups, á málum þeirra, oc leyfa leikmönnum tídir. Þó var þat iafnskiótt á eptir, at hann kúgadi Sæmund Sturluson til at sleppa Gardastad, oc fèkk hann Biarna Helgasyni systrsyni sínum, mundi þó meira atgiört hafa, nema þau tídindi hefdi komit frá Noregi, um sumarit, at þá væri enn erkibiskupslaust, oc konúngr væri klerkum hinn þverasti. Hann setti þa Þorvald Helgason prófast yfir Vestfyrdi, enn því eyrdi Rafn illa, oc lèt stefna klerkum fyrir veraldligan rètt aptr ímóti; þat líkadi biskupi verst. Hittust þeir um haustit í Stafhollti oc vard ekkert af sættum. Þá tók Sigurdr úr Hlíd Mödruvelli í Hörgárdal, undir sicí-erfdaskyni. Gètit er oc þar nyrdra Gudmundar Hallssonar í Skridu, oc at Landa-Hrólfr fann land vestr frá Islandi.

## VIII Kap. Frá stadamálum oc dauda Rafns.

Um sumarit eptir vildi ei Arni biskup til þings koma, sendi þa Rafn til hans Jón lögmann Einarsson, oc fleyri menn, oc dugdi
1286 ekki. Þá fór af Rafns hendi Erlendr Higri oc Þorsteinn Vendilsson nórrænn madr, oc stefndi Erlendr biskupi oc Biarna Helgasyni fyrir Rafn oc konúngsmenn. Því skeytti biskup ekki, þó hèt hann sídan at leggia allt á konúngs oc erkibiskups dóm, ef hann fengi bætr fyrir þat, er Erlendr stefndi honum at ólögum. Þá fengu þeir bádir konúngsbód til utanfarar, Rafn og biskup. Vard Rafn þess ei búinn, enn biskup giördi sem fyrir var lagt, um fyrirgreidslr, oc ávann med því vingan konúngs. Enn þetta var hit fyrsta útbod af Islandi. Arni biskup vísiteradi vestra um haustit; þá bannfærdi hann Eyrík Mardarson, er ec hygg verit hafa son Mardar hins sterka Eyrikssonar þess er átti Borghilldi systr Eyúlfs Ofsa, oc drepinn var í Hvammi af mönnum Þórdar Kak-

ala. Hafdi Eyríkr tekit undir sic Hollt, oc Selárdal, oc hval á Eyrar kirkiu reka, oc látit byrta tilskipanir Rafns. Biskup bannfærdi oc Clemenz nokkurn, er tekit hafdi Núpstad. Hina sömu medferd hafdi hann oc vid Einar Vatnsfyrding, og Þorgrím Einarsson fyrir líkar sakir. Ekki er getit miöc um vidskipti biskups oc Sveinbiarnar í Súdavík, enn sva er sagt í ættartölum at Sveinbiörn hafi ei látit hlut sinn. Rafn fór þá med heimsókn at Þorvaldi Helgasyni er biskup hafdi sett yfir Stad, enn biskup fèkk niósn oc rèdi Þorvaldi at flya. Ekki vard af sættum þó þeir Rafn oc biskup fyndist, enn hvergi lagdi Rafn hendr á biskup, þó hanns menn eggiudu hann á þat, nè heldr at biskup forbodadi Rafn, þó honum væri þat rádit. Eptir þat rak Rafn Biarna Helgason frá Gardastad, oc fèkk hann aptr Sturlu syni Sæmundar 1287
Sturlusonar. Enn önnur misseri þraungvadi Rafn Þorvaldi Helgasyni til at sleppa Hollti; fóru þá enn heitíngar milli hans oc 1288
biskups. Þat sumar fyrir alþíng komu út konúngsmenn, Olafr Ragnheidarson oc Sighvatr Hálfdánarson á Grund; fór Rafn til fundar vid þá oc vildi leida Olaf á sitt mál, enn Loptr Helgason *giördi* biskup vid varan; reid hann þegar á þíng, oc komust á *grid* med þeim Rafni oc biskupi, til þess er konúngr oc erkibiskup skyldu umdæma med þeim. Ætladi þá biskup utan, enn þá kom út Iörundr Hóla biskup; hann hafdi utan farit oc Þorvardr Þórarinsson. Þeir höfdu erkibiskups brèf, er ónyttu öll þau konúngsbrèf er Rafn hafdi útvegat leikmönnum. Arni biskup fór þá utan, oc Rafn á ödru skipi. Biskup fann Iörund erkibiskup, oc fèkk af honum ásökun fyrir þat hann hafdi ei bannfært Rafn oc Erlend oc þeirra fylgiara, enn Runólfr áboti í Veri hafdi sysslu biskups medan hann var utan. Sva segia sumir menn at á því sumri lèti Eyrikr konúngr þann mann er Hrólfr hèt, oc kalladr landa Hrólfr, leita landa fyrir vestan Ísland. Eyríkr konúngr fór þá herför í móti Dönum, oc fór Rafn í þá för med honum. Hann hafdi verit hinn mesti herfara madr, medan hann var úngr. Hann vard sár á fíngri, os skeytti ekki sárinu, oc 1289
ætludu sumir menn, at örin mundi eytrud verit hafa, oc dró þat hann til dauda. Var hann þá hálfsiötugr at alldri, oc þykir valla röskvari madr verit hafa edr einardari.

## IX Kap. Frá Laurentius.

Þá er Rafn andadist hafdi Þórarinn prestr á Völlum dáit fyrir VI vetrum. Laurentius frændi hans var þa XVI vetra, enn Kálfr dó af harmi eptir Þórarinn prest módrbródr sinn; voro eptir hann litlir peníngar oc óhægir, oc tók Iörundr biskup Laurentius til Hóla, því hann var námgiarn, oc giördist hann sva mikill námsmadr, at brádum óx virdíng sú er formennirnir höfdu á honum, enn af því vard honum öfundsamt, oc kölludu skóla - klerkar adrir, er þeir sáu hann, at þar færi biskupsefnit, oc slíkt annat, enn hann hirdti þat at engu, oc var med lestra sína; fóru fram vígslr hans, hver eptir adra, oc því fliótara sem hann nam betr enn ádrir. Vígdist hann til prests þá hann var XXII vetra, oc vard skólameistari á Hólum. Giördist hann sva skiótr at dikta látínu vers sem madr talar hradliga, oc var þetta ein misseri oc þau, er Rafn Oddsson andadist sem fyrir segir.

## X Kap. Arni biskup tekr stadi.

Eptir andlát Rafns komst Arni biskup ei út híngad samsumars, lèt hann þá stefna Erlendi lögmanni Olafssyni utan; fundust þeir í Noregi, oc hafdi Erlendr tekit lausn ádr, enn þo skildu þeir ósáttir. Fór Erlendr út til Islands, oc fèkk alla Vestfyrdi í lèn
1290 af konúngi; var þad þá eitt syssla konúngs oc hyrdstiórn. Giördist nú deila med Erlendi oc Runúlfi ábóta umbodsmanni biskups; fór ábóti med klerka oc lèt reka leikmenn hvervetna frá stödunum. Þeir komu í Hiardarhollt, þar hafdi Biörn bóndi Drumbr Dugfússon verit grafinn í kirkiu at bodi Rafns, var hann þó í banni, enn fyrir því at vitnadist, at hann hefdi synt á sèr ydrunar merki, voru bein hans uppgrafin oc leyst. Þá er sagt at bóla
1291 hafi gengit í landi hèr, annat sumar eptir; þykiumst vèr ei vita med fullum sannindum at þat hafi skèd fyrri. Þá kom út Arni biskup, oc lagdi undir sic stadi, þá er enn voru eptir í leikmanna höndum, oc þó ei at konúngs bodi helldr erkibiskups.

## XI Kap. Frá stadamönnum oc Laurentius.

A hinum næsto missirum, þá er Laurentius prestr var hálfþrít- 1292
ugr, gaf Iörúndr Hóla biskup honum beneficinm nordr á Hálsi í
Fnióskadal; var hann þar eitt ár, fèll honum lítt búskapr til fiár,
oc fór hann aptr til Hóla. Var þar þa rádsmadr Haflidi prestr
Steinsson, og vard med þeim Laurentius in kærasta vinátta,
svoat Laurentius vottadi þat sídar at hann hefdi sèr trúastr ordit.
Konúngsmenn komu út um sumarit, er hann var nyrdra, þórdr
Hallsson á Mödruvöllum, oc Kristophor Vilhiálmsson, oc höfdo
brèf konúngs, at leikmenn skyldu taka stadina. Hvöttust þeir þá
enn upp oc giördist þorvardr þórarinsson formadr; ráku þeir nú 1293
klerka af stödunum, oc settust leikmenn á þá. Sigurdr bóndi á
Hlíd settist á Mödruvelli, oc vildi ei burt víkia, þó Iörundr bisk-
up bydi hanom; sendi þa biskup Laurentius prest med bannsetn-
íngar-brèf at lesa fyrir Sigurdi, ef hann vildi ei gánga af stadn-
um. Laurentius gèck nordr Hèdinsskard vid annan mann um 1294
vetrinn, oc hafdi ferd erfida. Hann fann Sigurd bónda, oc byrti
honum eyrindi sitt, oc qvad hann þyngra mæta mundu ef hann
*vildi* eigi gánga til hlídni oc sátta. Sigurdr tók því þúngliga, oc
lètst ei mundi hirda hvad hann segdi. Hátídisdag hinn næsta
eptir las Laurentius prestr brèf biskups í kór eptir gudspiall í
messu, sva hátt oc skyrt at allir heyrdu, sem voro á kyrkiunni,
oc var þat bannfæríng yfir Sigurdi, oc útsetníng af kyrkiu, enn
Sigurdr hafdi mörg þúng heitunarord í móti, oc lá vid at Laur-
entius oc fylgdarmadr hans fengi ei út at komast úr kyrkiunni.
Reid Sigurdr þá med fiölmenni til Hóla, oc qvad biskupi ei hlída
mundi at ofþyngia konúngsmönnom í slíku, oc spurdi hvört hann
hefdi bodit Laurentius presti at bannfæra sic. Biskup segir at
Laurentius hefdi giört á annan veg, enn hann hafdi bodit.
Sættust þeir biskup oc Sigurdr, oc hafdi Laurentius fyrir sitt starf
óvild eina, bædi Sigurdar oc biskups. Vard þetta sundrþykkis
efni med þeim biskupi, enn aldrei var biskup iafnblídr til Laur-
entius sídan, enn frændr biskups leitudu á hann med ímau móti.
þá sat herra Pètr af Heidi á Hólum um vetrin, med honum tók
Laurentius sèr far utan at sumri, oc komst í kiærleika vid hann.

hiá Ióni Flæmíngia. Prestr þakkadi honom mióc, oc tók sídan at læra lög af Ióni, brautst Ión vid, at tala Norrænu, enn gat þó lítt; giördist med þeim vinátta. Þess ímillum sendi erkibiskup Laurentius at tala eyrindum sínum til kórsbrædra, oc þótti honom hann einardr, fèkk því til hans kærleika mikin.

Þetta sumar fór Þorvardr Þórarinsson utan, þá setti Iörundr Hóla biskup Reynistadar klavstr, oc þá var Egill Eyúlfsson borinn, enn Landa-Hrólfr dó. Enn Arni biskup tók nú at gánga á
1296 leikmenn um stadamál. Deydi Þorvardr í Noregi, enn leikmenn afsóru sèr sídan stadina at biskups vilia, XII saman. Þann vetr á lángaföstu *dominica lætare* kalladi erkibiskup Laurentius í kapellu sína, oc gaf honom óbedinn Olafskyrkiu þar í bænum, er lavs var. Ión Flæmíngi bad hann þá flytia vid erkibiskup, at hann fengi Maríukyrkiu í bænum er laus var. Hann qvad þat ei verda mega er hann kynni ei Norrænu at mæla. Ión qvadst kunna sem honom þarfnadi. Skipum nú sva til, segir Laurentius, sem nú sè kominn föstuinngángr, verdit þèr þá at tala fyrir sóknarfólki ydru, hvörnig þat skal halda lángaföstuna. A þenna hátt, sagdi Iön Flæmíngi: nú er kominn lentinn, hvern mann kristinn komi til kyrkiu, giöri sín skriptinn, kasti burt konu sinni, maki enginn suck; *nonne sufficit domine*? Þá hló Laurentius prestr, oc mælti: ekki skilr fólkit hvat lentinn er. Þetta sagdi hann erkibiskupi, oc vard at gaman mikit, enn Ión fèkk nokkra hlutdeild, þó ei fengi hann kyrkiuna. Vaxa nú deilr erkibiskups oc kórsbrædra, sva at erkibiskupi var stefnt á páfafund. Fór hann til París á Fracklandi, oc tók þar sótt, enn sendi mann á páfafund med sín málefni, oc fèkk aptr virdíngar sínar, oc var hálft ár í brottu. Enn er Iörundr erkibiskup kom heim, lagdi hann meiri virdíng á Laurentium prest enn ádr, oc skipadi honom at geyma offr hins helga Olafs konúngs, oc vera pænitentiarius, því honom þótti hann hafa vel farit med sínum eyrindum, medan erkibiskup var í burtu. Nockru sídar gèck Laurentius prestr eptir bodi erkibiskups hátídisdag einn uppá kór í Nidarósskyrkiu, þá kórsbrædr stódu þar allir. Las hann í hámessu hátt oc sniallt brèf Iörundar erkibiskups, er Ión Flæmíngi hafdi samsett, var á því banni lyst yfir Sighvati, Eylífi oc Audunni Ravda fyrir margar oc stórar sakir, skyldi oc messa oc embætti nidrfalla ef

þeir gengi ei frá. Þá svaradi Sighvatr Landi: ecki þarftu at hrópa sva hátt Islendíngr! því vèr heyrum hvad þú segir. Gengu þeir þá allir út af kyrkiunni oc heim, enn ecki var Laurentius óhætt út at gánga frá þeim degi, fyrir þeim oc sveinum þeirra, oc þoldi hann af þeim margan mótgáng, meinyrdi oc spott.

## XIII Kap. Endir stadamála. Höfdíngiaskipti.

Sumarit eptir dauda herra Þorvards Þórarinssonar, kom út Gudmundr Skálldstikill med konúngs umbod nordanlands. Stefndi Eyríkr konúngr þeim XII mönnum utan, er svarit höfdu stadina á vald Arna biskups. Þá fóru utan ádr Þorlákr lögmadr Narfason oc Erlendr. Þorlákr var af ætt Þorleifs Beyskalda í Hítardal, oc hafdi verit lögmadr fyrir VI vetrum. Þórdr hèt brodir hans, oc voro þeir bádir herradir. Guttormr var oc Narfason, fadir Ións Skráveifu. Þeir voru kalladir Kolbeinstadamenn. Snorri Narfason ætla ec at væri bródir þeirra. Þorlákr hafdi lögsögu nordan oc vestan, enn Haukr hafdi haft suunan oc austan II ár. Hann var sonr Erlendar lögmanns Sterka, vitr 1297
oc frædimadr mikill. Arni biskup fór utan med þeim mönnum, er utan voru stefndir, oc urdu þær lyktir á stadamálum, sem segir í sögu hans, at leikmenn fengu þá eina stadi, er þeir áttu fullan helmíng iardanna siálfir, oc þar skyldi biskup eigi tilkalla. Vor hit næsta andadist Arni biskup í Biörgvín, oc var þar grafinn. Hefr ekki einardari madr verit, eda kappsamari í fyrirtæki sínu. 1298
Þarmed var hann madr skarphygginn, enn hèr er því fátt af hönum greint, at saga hans er fullskyr annarsstadar, enn vèr vildum hellst hefia at telia um þat, sem óliósara er. Vetri sídar andadist Eyríkr konúngr, oc átti hann engan son. Tók ríki í Noregi Hákon Hálleggr bródir hans, annar son Magnúsar konúngs. 1299
Hann skarst þegar í deilr Iörundar erkibiskups oc kórsbrædra. Urdu þá kórsbrædr at gánga frá vilia sínum, oc til hlídni vid erkibiskup, enn Laurentius prestr var sídan med fridi í Nidarósi um II vetr; þó ræktu körsbrædr iafnan fornan fiandskap, þá er þeir fengu því vidkomit. Hollta Biarna bussu braut vid Færeyar oc týndust L menn.

## XIV Kap. Höfdíngiar um aldamót.

1300 Þá er full þrettán hundrud ár voru lidin frá híngatburdi Krists, voru þeir höfdíngiar á Islandi, sem um sè gètit: Þorlákr Narfason oc Þórdr brodir hans. Þorlákr var fadir herra Kètils hyrdstióra. Þorleifr Beyskaldi forfadir þeirra var Þorláksson, enn sonr Þorleifs var Kètill fadir Herdysar er Páll biskup átti. Hans son var Þorlákr, er vèr ætlum vera födr Kètils prests, födr Þorleifs Hreims; voru þetta ættnöfn þeirra frænda. Sonr Þorleifs eda sonarson hèt Isleifr, hans son var Þorlákr í Hítárdal. Guttormr oc Snorri Narfasynir ætla ec væri brædr Þorláks lögmanns. Snorri Markússon hèt einn mikilsháttar madr, hann hygg ec væri son Markúsar á Melum. Þat vitum vèr ei, hvert Einar Vatnsfyrdíngr lifdi þá enn. Sveinbiörn Sigmundsson bió í Súdavík, hans son var Eyríkr. Biarni á Audkúlustödum var fadir herra Kolbeins er þar bió sídan. Biarni hèt oc fadir Gissurar Galla; Gissor var þá vel þrítugr, hann hafdi nafn Gissurar iarls. Þorvaldr Geirsson bió í Audbrekku; hann ætla ec væri son Geirs ens Audga Þorvaldssonar. Þá voru enn uppi Vermundr Kögr, sem Svalbards ætt er frákomin; Eyulfr son Asgríms Þorsteinssonar; Örnúlfr son Þorvards Örnúlfssonar; þeir Helgafynir Loptr oc Arni er sídan vard biskup oc Biarni; Oddr oc Þórarinn, synir Þorvardar Þórarinssonar, þeir voru herradir bádir; var Oddr í förum oc hafdi þá konúngs vald; Rafn Iónsson, er sídar var kalladr Glaumbæar Rafn. Ekki er gètit ættar hans, enn þat ætla ec víst, at hann hafi verit af ætt þeirra Rafns Oddssonar. Iörundr Þorsteinsson var þá biskup at Hólum, oc Þórdr Narfason tók lögsögn, at því er menn hyggia í stad Þorláks, oc Þorsteinn í stad Havks, þvíat miöc var þá stopult um vald konúngsmanna hèr. Havkr fullgiördi Landnámasögu, oc var þat köllut Havksbók. Vid hann er kènndr Havksnavtr, enn þat vita menn ógiörla hvat er. Svo segia sumir menn at Islendíngar hafi þá sendt menn á fund Hákonar konúngs, oc samit vid hann skilmála; hafi þá oc utan farit Þorlákr oc Ión Einarsson er fyrr var lögmadr. Vígdr var þá Höskuldr ábóti til Þingeira. Þeir menn eru nefndir í Arna biskups sögu umfram þá er hèr eru ádr taldir: Eyúlfr Andresson brodir Þórdar sem Gissr iarl lèt drepa, Snorri Ingimundarson, Páll oc Kètill synir

Kètils Loptssonar í Hítárdal, Olafr Arnason oc Brandr Gudmundarson er tóku Stad á Snæfellsnesi, Skúlasynir sem tóku Stad undir Hrauni, Thómás Svartsson sem tók Selárdal. Gètit er oc herra Snorra hins Digra, er til sætta gèkk vid Runúlf ábóta undir eins oc Þorgrímr Einarsson oc Thómás Svartsson, enn daudir voru þessir sumir, er hèr var komit. Atli hèt bródir Sveinbiarnar í Súdavík. Hans dóttir var Steinun er Havkr Erlendsson átti. Þá komu út heldri menn: herra Oddr Þorvardsson Þórarinssonar, Philippus Loptsson af Oddveria ætt, oc Svartr Þorleifsson; hann var fadir Þorleifs á Reykhólum.

## XV Kap. Frá landshöfdíngium.

Laurentius prestr var þann tíma enn utan. Þá var elldgángr mikill í Heklufialli, oc kom á eptir hallæri oc fiárfellir. Manndaudi vard oc nokkr árit eptir, mest fyrir nordan land; tiáist at dáit hafi V hundrud oc flest í Skagafyrdi oc Fliótum. Þá vard 1301
landskiálfti fyrir sunnan, sandfall mikit oc hallæri; hröpudu margir bæir. Um sumarit kom út Alfr úr Króki med hyrdstiórn, oc var herradr, enn med lögsögn kom út Lodinn af Bakka oc Bárdr Högnason; lèt þa Þórdr Narfason af henni, enn Snorri Markússon var vid; var þá talat um skattgiald til Hákonar konúngs, oc gèkk allt óskipuliga. Snorri heldt lögsögunni þat ár, enn Lodinn oc Bárdr fóru utan sumarit eptir. Gudmundr Sigurdsson var lögmadr í þeirra stad, oc Havkr iafnframt Snorra, at því er ráda má, enn Alfr úr Króki hafdi hyrdstiórn nordan oc 1302
austan; var hann miöc illa þokkadr oc rógbar sídan landsmenn fyrir konúngi. Þá deydi Olafr Hiörleifsson ábóti á Helgafelli bródir Arons, oc var hann þá afargamall. Hafdi nú verit biskupslaust í Skálholti nökkra vetr, sídan Arni Þorláksson dó, þvíat Iörundr erkibiskup kom fáu vid, sakir fiandskapar vid kórsbrædr í Nidarósi, enn nú er hann hafdi fengit virdíngar sínar, þá vígdi hann til biskups í Skálholti, einum vetri edr tveimr eptir hard- 1303
indin, Arna son Helga Loptssonar oc Asbiargar Þorláksdottir systr Arna biskups ens fyrra, enn bródir Lopts er deildi vid þá kon-

úngsmennina, kom hann þó ei út til stólsins þat sumar oc ekki hit næsta, enn Iörundr Hóla biskup hafdi þá, er þetta var, Mödruvelli siálfr, sídan Sigurdr bóndi í Hlíd sleppti; oc setti þar klaustr. Hann hafdi med kènníngum sínum oc fortölum fengit frú Hallberu Þorsteinsdóttir, er sídan vard abbadys at Stadarklaustri, oc margar adrar ríkar qonr til at stirkia þann stad med miklu fè, oc var Katrín þar fyrst abbadys ádr enn Hallbera, enn á Mödruvöllum var príórs klaustr; lagdi biskup þar mikit fè til, oc var ábóti siálfr, enn skipadi rádsmann yfir stadin. Teitr hèt hinn fyrsti príór, oc lèt Iörundr biskup þetta sumar smída þar kyrkiu kostuliga oc hefia faung at henni. Þat it sama sumar var utan stefnt Iörundi biskupi, oc Runúlfi ábóta í Veri, herra Þórdi Hallssyni á Mödruvöllum, herra Sighvati Hálfdánarsyni oc mörgum ödrum virdíngamönnum oc bændum. Er ekki gètit um utanfarir þessara manna, oc er líkast at biskup hafi hvörgi farit. Er þat trúligast at þær stefnr hafi leidt af rógi Krókálfs, þvíat svo var fyrir laungu lokit stadamálum, at þau hafa ei því valldit.

## XVI Kap. Frá höfdíngium oc hellst Krókálfi.

Þessa stund alla var Laurentius prestr i Noregi í allgódu lyfirlæti erkibiskups. Árni biskup Helgason var oc í Noregi. Laurentius gat son er Arni var nefndr vid Þurídi Arnadóttr í Borgund, þat
1304 er á Mæri. Þat segia sumir at þat sumar hafi menn giört samþykkt í Skálholti *in translatione Thorlaci*, oc sendt Hákoni konúngi. Qvedit þat á, at allir lögmenn oc syslumenn skyldu vera Islendskir, oc engar utanstefnr; einnin um syslu rekstr valdsmanna, at þeir sèu fullvedia, fari á siálfra sinna kostnad oc lysi brèfum sínum; þat þridia: at engar nyúngar eda álögr vilii þeir framar enn forn þegnskylda krefii; fiórda um kaupmanna skuldir at einn eyrir leysi annan, oc hve at skuli fara ef þeir giöri rángt eda lida; í fimta máta at lögmenn sèu æ sömu, oc almúgin samþykkir, enn ef nokkut yfirsiáist, bæti eptir bestu manna rádi; siötta: at enginn sè sá lènsmadr eda syslumadr, sem undir nokkrar nyar álögr gengr, nema þær sem lögteknar eru; i siöunda máta: at óskyla oc dómsrofa menn falli í sektir, oc at sídustu:

um refsíngu þeirra er þet'a riúfa, edr hve miklu sektast skuli. Annat sumar eptir, þá er skip gengu ámilli landa, urdu mörg 1305 tídindi, oc vard engri skipan ákomit, þeirri er dygdi. Þá kom út Arni biskup til stóls síns í Skálholt, oc voru þá stadir fengnir prestum í vald í hans biskupsdæmi, enn Hákon konúngr tók Rómaskatt af Islandi; komu oc út brèf hans um imsa kyrkiuháttu, oc um afgiald af hvalveidi á helgum dögum. Abóti kom þá út til Videyar Andres Drengr; hann var ádr múnkr í Þykkvabæ, enn annar bródir þadan Gudmundr Þorvardsson vard ábóti at Helgafelli. Sveinn Þorsteinsson, er sumir kalla Svein Þórirsson, oc var herradr, flutti konúngsbrèf um hvalveidina; hann er oc nefndr Sveinn Lángr. Hafdi hann kært af hendi fátækra manna í Skagafyrdi, at Iörundr biskup hefdi, móti fornum rètti oc gamallri veniu, er sídst sómdi forstiórum heilagrar kyrkiu, tekit af þeim hvölum, er bændr fluttu til lands á helgum dögum, til XIV hundrada, oc þar med fimtúngin af þeirri veidi, er á voru fiórar vættir. Þat baud konúngr Iörundi biskupi at lúka aptr fátækum mönnum, innan hálfs mánadar, eptir þat konúngsbrèfit var fyrir hönum lesit; enn ef hann giördi þat ekki, baud konúngr sysslumönnum sínum oc handgengnum mönnum, at taka svo mikit fè biskups, sem hann hefdi tekit af fátækra fè, oc svo mikin ávöxt, sem gódir menn siá at a megi gánga, sídan tekit var frá bændum. Þat sama sumar kom oc Krókálfr út aptr hingat, oc voru honum skipadir tveir hinir sömu landsfiórdúngar sem ádr. Hafdi hann med sèr mörg konúngsbrèf, oc margar nyúngar um landit, med svo þúngum bodskap, at hvör leikmadr í landinu skyldi gèfa konúngi alin af hvöriu hundradi sem hann ætti. Hann hafdi einnin fleiri adrar fáheyrdar beidslur, oc kalladi marga góda bændr útlæga þræla. Þoldu Nordlendíngar þat illa, oc giördu honum adför á Hegranessþíngi, enn lausíngiar oc strákar bördu á skiölduna med ópi oc háreysti. Vard þá Alfr svo hræddr, at hann vissi ei hvört hann skyldi hafa sic, enn þat vard honum at lidi, at herra Þórdr Hallsson á Mödruvöllum lèt bera skiölldu yfir honum, oc koma honum sva undan; fór Alfr med honum nordr yfir heidi. Bóndi einn lítill, enn mikill ángrgapi, sá er Bergr hèt oc kalladr Arndill, var fremstr af lausíngium þessum,

at sækia at Alfi. Hann hlióp um qvölldit til Hofs á Höfdaströnd; þar var Iörundr biskup at skyldu-gistíngu, oc sat yfir bordi; Bergr gengr í stofuna, oc fleygir sèr nidr til fóta biskups, oc mælti; allt á Guds valdi oc ydru herra! Biskup mælti: hvat stendr þic Bergr. Hann svarar: oc hefi ratat í herfiligan glæp; ec drap á Hegraness þíngi Krókálf í dag. Hversu vannstu á honum? segir biskup. Ec lagdi hann ígègn med spióti, segir Bergr, oc byd mic til þeirra skripta, sem þèr viliid á mic leggia, herra! Stattu upp Bergr, segir biskup, ekki hefir þu vegit Krókálf, oc lifir hann enn; far upp undir bord, oc tak til matar; ei mun ec fordast at samneyta þer at sinni, þvíat enginn manndrápari ert þu! missynist ydr þat herra! sagdi Bergr; aukist hafa enn nú vandrædin; drap ec annan mann lika. Biskup mælti: þegi þú! oc liúg engri heimsku uppá þic. Vèr vitum at þú ert enginn ofhugi, heldr hyggium vèr þic vera hverium manni blaudari, er karlmennsku þarf at reina. Í því kömu menn í stofuna, er á voru þínginu um dagin, oc sögdu Alfr lifdi, oc ekkert víg hefdi Bergr þar unnit, enn vid komu þeirra tók Bergr til fóta, hlióp út í kyrkiu oc inní kór, oc fól sic undir tialldi, þartil er biskup kom oc gat talat kiark í hann, svo hann gèkk út med ödrum mönnum, oc þótti þadan af maþr heimskari enn ádr. Er þetta sagt til merkis um vit Iörundar biskups, þvíat hann var hveriummanni vitrari oc glöggvari um allt, er þá var á Islandi; enn af Krókálfi er ekki sagt meira, oc fór hann utan.

## XVII Kap. Lagt af alþing.

Næst þar eptir giördi vetr mikin, oc kom þá ísinn mikli; þá
1306 fór oc kynia sótt um land allt. Segia sumir verit hafi bólusótt, oc dæi margt fólk þat sem yngra var enn fertugt, svo |at sumstadar eyddust bæir, enn sumstadar lifdi einn eptir. Þá fór Arni biskup í Skálhollti yfir Vestfyrdínga fiórdúng. Þeir komu út um sumarit af konúngs hendi Haukr Erlendsson oc Sveinn Lángr. Hittast lögmenn á alþíngi Haukr oc Gudmundr Sigurdsson oc Snorri Markússon, enn Bárdr Högnason fór utan. Vard þá deila mikil, þvíat sín lög söru hveriir um skattgialld til konúngs; lagdist þá

af alþíng fyrir þriótsku sakir, oc lá nidri sídan nokkr sumr. Þá deildi Ión Einarsson lögmadr gamli, sem útkom med bókina á dögum Magnúsar konúngs, oc hún hefir nafn af fengit at heita Iónsbók; oc sva Runúlfr ábóti, er umbodsmaþr var fyrrum Stada Arna biskups. Sumir segia þau misseri dæi einnin Snorri Sturluson, oc hefir hann þá verit sonr Sturlu lögmanns Þórdarsonar, er at Stadarhóli bió eptir hann. Gissr Galli vo þá mann er Hallvardr hèt.

## XVIII Kap. Vísitatores koma út.

Sumar et næsta kom út af konúngs hendi Ivar Vigfússon Hólmr. 1307
Hann átti Astu dóttur Klings Teitssonar bródurs Gissurar Iarls Þorvalldssonar, oc Þorgerdar systr Arna biskups Þorlákssonar, enn módir Þorláks var Sølveig dóttir Ións Loptssonar. Höfdu Ivars ættmenn lengi sídan völld á Islandi. Enn þat er at segia frá lörundi erkibiskupi at hann hafdi capítulum med kórsbrædrum, oc ödrum lærdum mönnum; var þá áliktat, at erkibiskup *skylldi* senda vísitatórem til Islands, oc var Laurentius prestr kalladr best til fallinn, er hann var klerkr gódr, oc íslendskr *siálfr*. Erkibiskup samþykkti þat, oc segir Laurentius þá fyrir ætlan. Hann qvadst skylldr at giöra vilia erkibiskups, enn talldist þó undan; lètst vera vanfær til þess, oc ei hafa vanat at prèdika Guds eyrindi; bad því erkibiskup at senda med sèr bróþr Biörn af prèdikara lífnadi, til at tala fyrir mönnum; qvad hann fúsan til Islands, ef hann hefdi iafnt valld sèr. Biskup mælti: þetta sèr þú ekki svo glöggt til nytsemdar þèr sem hæfir, því tvískipt ríki eydist opt skiótliga, oc er skialldan samþykkiligt, oc svo mun fara í þessari grein. Muntu, síra Laurentius! þess mest ydrast; er þú tekr prèdíkara bródir þèr til samlags, því þeir verda skialldan traustir í málaferlum eda fèlagskap. Kórsbrædr fylgdu þessu miöc, oc þó mest af grályndi vid Laurentius; samþykkti erkibiskup því at lyktum, at þeir Biörn voru skipadir vísitatores bádir, med iöfnu valldi til Islands, oc tóku þar upp á hit sterkasta brèf til eyrindagiörda sinna. Syndi þó erkibiskup Laurentius þá alúd framar hinum, at hann gaf honum III membr-

anas, eþr brèf med innsigli sínu undir, oc ei neitt áritit, enn sá sem þau voru gèfin mátti rita þar á þat er hann vildi, vinna þó ádr eiþ, at hann skal þar ekki árita, þat er þeim er til skada er útgèfr, edr hans kyrkiu. Þann eid sór Laurentius erkibiskupi leyniliga, sva at II voru vid trúnadarmenn erkibiskups; voru þat þau fals brèf, er sídar var kallat hann hefdi upplogit hèr í landi. Iörundr erkibiskup ritadi ástsemdarbrèf bádum biskupum Iörundi oc Arna, at þeir væri vísítatóribus gódviliadir oc til stodar hvör í sínu umdæmi. Urdu þeir vísítatóres vel reidfara, oc komu út á Eyrum nokkru fyrir Þorláksmessu um sumarit; ridu í Skálhollt oc tók Arni biskup vid þeim blídliga; voru-þeir þar nokkra hríd. Næsta dag fyrir Þorláksmessu, mælti Laurentius prestr vid bródr Biörn, at hann skyldi búa sic vid at prèdika á morgun, oc hellst af verdleik hins helga Þorláks biskups, því þá kæmi í Skálhollt mikit fiölmenni af öllu Islandi. Þat afsagdi bródr Biörn med mörgum spottligum ordum; qvadst helldr ætla at fara í qvölld til aptansaungs uppá kór, oc banna biskupum oc öllum klerkum at síngia eda prèdika af þessum manni Þorláki, fyrr enn þat er lögtekit af erkibiskupi oc öllum biskupum í Nidaróss kyrkiu umdæmi; hættu, sagdi Laurentius prestr, oc lát ei uppkoma hjá þèr slíka fyflsku, svo hinn helgi Þorlákr hefnist ei á þèr; skyldu þeir svo í stytting, enn bródir Biörn bydr Byrni steikara sínum at matbúa fyrir sic kiöt um qvölldit; þótti flestum þat fráleitt annara manna sidveniu. Enn sem gánga skyldi til aptansaungs, sendi bródr Biörn til Laurentius prests, oc bad hann koma til sín sem skiótast; var hann þá lagstr í sæng med hástunum, oc qvadst svo tekinn sárum stíng allt til hiarta, at hann mundi deya innan skams, ef ei aflètti. Laurentius prestr segir; þat var ei at undra, er þú mæltir svo spottliga oc óvirduliga til hins helga Þorláks. Biörn qvad sic ydra þess nú stórum, oc hèt at bæta glópsku sína, oc trúa þat satt at vera er honum var sagt af heilagleika oc jardteiknum Þorláks biskups, oc at giördri bæn oc heiti batnadi honum svo at hann prèdikadi fyrir öllum um morgunin af Þorláki biskupi oc hans lofligu líferni, oc sagdi med liósum greinum frá þessum atburdum.

Eptir Þorláksmessu hófu þeir at vísítèra um sudrland oc Vestfiördu. Skodadi Laurentius prestr miöc at embættisgiörd presta,

oc reyndust margir lítt lærdir; var einn þeirra Eilífr prestr er bió vestr í Gufudal; hann kunni lítit í messusaung, oc í sèrhvörju sem þeir prófudu hann. Laurentius prestr prófadi hann á *Canticum audite* oc kunni hann ei at lesa *audite* rètt. Þá mælti hann: ei má ec vid því giöra, at þid prófit mic á hinu vandasta. Audsèt er þat, segir Laurentius prestr, at sialldan hefir þú lesit *feliciter*. Af honum tóku þeir messusaung oc allt prestligt embætti, þartil hann lærdi betr, svo hann yrdi messufær. Voru oc fleyri prestar er þeir tóku af messusaung fyrir kunnáttuleysi. Vísitèrudu þeir Skálhollts biskupsdæmi um sumarit, oc var þeim ei veitt mótstada, þvíat Árni biskup var spaklyndr oc lítilátr; komu þeir þá til klaustra oc allra hinna stærri kyrkna, oc ridu sídan nordr til Hóla á fund Iörundar biskups um haustit; tók hann vid þeim álitliga, þó blídligar vid bródr Byrni, oc var hann um vetrin á Hólum eptir bodi biskups, enn Laurentius prestr reid nordr at Mödruvöllum, oc sat um vetrin med herra Þórdi, í gódu yfirlæti. Þá hafdi verit vígdr Lodmundr ábóti í Veri, oc var borinn Einar son Haflida prests oc Þorleifr Svartsson. Guttormr Narfason var þá lögmadr nordan oc vestan. Hann samþykkti rèttarbætr Hákonar konúngs, med Snorra Markússyni. Þeir frændr Iörundar biskups höfdu allt í skimpi vid Laurentius, oc 1308
brugdu honum um hina fyrri æfi sína, oc at Iörundr biskup hefdi tekit hann af fátæki, látit kènna honum oc manna, enn nú þættist hann hafa valld yfir honum, oc at afsetia hann af biskupsdómi, eptir erkibiskups valldi.

## XIV Kap. Solveigarmál. Settr spítali.

Þorvaldr Geirsson bió í Launguhlíd í Hörgardal oc Solveig Iónsdóttir kona hans; med þeim voru fáleikar miklir. Hildibrandr Iónsson á Bæsá prestr þeirra hafdi opt talat í med þeim sama oc sinnt henni meir. Þat bar til um vetrin á skírdagsqvelld, at Solveig vildi gánga til tída at Bæsá, oc ein kona med henni, þá drukknudu þær bádar i Hörgá; fannst líkami Solveigar, oc færdi Þorvaldr hana til Múkaþverár; oc gaf þángat mikit fè med í sálugiöf, enn til Bæsár XII álnir í legkaup. Þat kærdi Hildibrandr

prestr fyrir Iörundi biskupi, enn hann giördi þar engan veg á; fór hann þá at Mödruvöllum, oc kærdi þat fyrir Laurentius, þóttist eiga offrit oc líkaminn ætti leg, at Bæsá. Vid þat giördi Laurentius prestr Þorvaldi áminníng, oc skipadi líkaman aptr at Bæsá, nema at hann fengi samit sva vid prest, at líkit mætti friálsliga liggia at Þverá. Hildibrandr fór til Þverár oc krafdist líkamans oc sálugiafarinnar, fèkk þó hverigt. Krafdist hann þa laga af Laurentius í umbodi erkibiskups, áminnti því Laurentius Þórir ábóta oc brædurnar í klaustrinu at giöra sáttmál vid Hildibrand, enn láta likit laust ella. Þeir tóku því þúngliga, oc budu sic undir dóm Iörundar biskups. Nokkru sídar einn helgann dag fór Laurentius prestr til Þverár oc upplas á kór úrskurd sinn at líkami Solveigar ætti legstad at Bæsá, enn fyrirbaud saung oc messu-embætti at Þverá, medan líkit væri þar í kirkiugardi. Abóti lèt ei sídr syngia í kyrkiunni enn ritadi þegar til Hóla, oc greindi frá því forbodi. Þá sendi Iörundr biskup oc bródir Biörn Sniólf prest Sumarlidason nordr til Þverár, oc ritudu þat at þeir giæfi orlof til, at súngit væri í kyrkiunni, þar til þeir kæmi nordr oc prófudu málit. Enn er Sniólfr prestr kom at Þverá, sendi hann eptir Laurentius oc beiddist úrskurdar brèfs hans, þat las Laurentius, oc er hann hafdi nær útlesit, þreif ábótinn til þess, oc adrir fleyri, slitu þat í sundr oc frá því innsiglit; enn þeir Laurentius prestr oc hans menn voru dregnir oc hrundnir út af kyrkiunni oc kyrkiugardinum, var oc vant at siá fyrir, hvörium hrakníngum hann hefdi mætt, ef herra Þórdr hefdi ei þar verit kominn med honum, oc veitt honum stirk á brott at komast án stærri meingiörda. Eptir Iónsdag ridu þeir Iörundr biskup oc bródr Biörn nordr til Mödruvalla, oc kölludu þángat fyrir sic Þórir ábóta oc Hildibrand prest; sömdu þeir ímilli þeirra þannin; at líkami Solveigar skyldi mega vera med friálsu á Þverá, enn prestr var leiddr af med litlu fè, þvíat þat var raunar at Iörundr biskup rèdi einn öllu í Hóla biskupsdæmi; vildu allir sitia oc standa sem honum var liúft. Var ekki Laurentius qvaddr at sáttmálinu, þó kom hann á fundin, oc var bródir Biörn honum miöc fráhorfinn, enn vildi allt láta vera, sem Iörundr biskup áqvad; afsagdi hann at vísitèra nordr-biskupsdæmit, oc hrekiast þar um óbygdir, fór hann utan snemma um sumarit at rádum

Iörundar biskups, oc þá af honum gódar giafir. Kom hann til Nidaróss Maríumessu hina sídari, oc hafdi med sèr brèf oc bodskap Iörundar biskups til erkibiskups oc kórsbrædra; offlutti hann miöc fyrir Laurentius, oc qvad hann hafa mörg brèf erkibiskups upplesit á Islandi, er hann lètst ekkert af vita hvörsu hann hefdi at komist. Iörundr biskup sendi oc utan um sumarit Gudmund prest Hallsson med mikla peninga oc brèf til erkibiskups oc kórsbrædra; voru á þeim brèfum margar álasanir vid Laurentius, kom Gudmundr prestr undan honum til Noregs, oc var þeim fluttníngi best trúat, sem biskup sagdi. Þat sumar kom út Haukr Erlendsson oc Bárdr Högnason med konúngs eyrindum, oc med rádi herra Hauks setti Árni biskup í Skálhollti þá lærdra manna spítala at Gaulveriabæ í Flóa, átti hvör prestr at giallda mörk til hans, er vígdist, oc hèldst þat lengi sídan. Þá var vígdr til ábóta at Helgafelli Þórdr Gudmundsson, er ádr var kanúki í Videy, sunnudagin næstan eptir Mikiálsmessu. Voru þá landskiálftar fyrir sunnan land, fèllu VIII bæir, dóu menn nokkrir oc fènadr.

## XX Kap. Laurentius hraktr.

Eptir skilnat þeirra á Mödruvöllum bródr Biarnar oc Laurentius prests, þóttist hann í vant efni kominn; voru eptir ógiörd öll eyrindi þeirra í Héla biskups umdæmi; kènndi hann þat hellst Iörundi biskupi, því hann vissi þat var ímóti hans vild at syssla hans væri visítèrut, því margt fór þar óskipuliga, sídan Iörundr biskup eldtist miöc, enn fyrrum hafdi hann verit allmikill skörúngr, hafdi hann fyrir því tillagit at visítatóres færi sem skiótast í brott. Sumir vinir Laurentiusar rèdu honum at fara utan samskipa med bródr Byrni, einkum Haflidi prestr Steinsson er honum var inn tryggvasti (þá átti Haflidi prestr son vetrgamlan er Einar hèt oc sídar vard merkiligr madr) hann sagdi Laurentius hentast at hitta erkibiskup oc kórsbrædr, iafnsnemma oc Biörn, enn bad hann varast sem mest at giöra mikit ímóti Iörundi biskupi, því þó Laurentius væri klerkr gódr, mundi honum ei lagit verda at sigra hans hamíngiu. Þetta þótti honum hann giöra af

prestr fyrir Iörundi biskupi, enn hann giördi þar engan veg á; fór hann þá at Mödruvöllum, oc kærdi þat fyrir Laurentius, þóttist eiga offrit oc líkaminn ætti leg, at Bæsá. Vid þat giördi Laurentius prestr Þorvaldi áminning, oc skipadi líkaman aptr at Bæsá, nema at hann fengi samit sva vid prest, at líkit mætti friálsliga liggia at Þverá. Hildibrandr fór til Þverár oc krafdist líkamans oc sálugiafarinnar, fèkk þó hverigt. Krafdist hann þa laga af Laurentius í umbodi erkibiskups, áminnti því Laurentius Þórir ábóta oc brædurnar í klaustrinu at giöra sáttmál vid Hildibrand, enn láta likit laust ella. Þeir tóku því þúngliga, oc budu sic undir dóm Iörundar biskups. Nokkru sídar einn helgann dag fór Laurentius prestr til Þverár oc upplas á kór úrskurd sinn at líkami Solveigar ætti legstad at Bæsá, enn fyrirbaud savng oc messu-embætti at Þverá, medan líkit væri þar í kirkiugardi. Abóti lèt ei sídr syngia í kyrkiunni enn ritadi þegar til Hóla, oc greindi frá því forbodi. Þá sendi Iörundr biskup oc bródir Biörn Sniólf prest Sumarlidason nordr til Þverár, oc ritudu þat at þeir giæfi orlof til, at súngit væri í kyrkiunni, þar til þeir kæmi nordr oc prófudu málit. Enn er Sniólfr prestr kom at Þverá, sendi hann eptir Laurentius oc beiddist úrskurdar brèfs hans, þat las Laurentius, oc er hann hafdi nær útlesit, þreif ábótinn til þess, oc adrir fleyri, slitu þat í sundr oc frá því innsiglit; enn þeir Laurentius prestr oc hans menn voru dregnir oc hrundnir út af kyrkiunni oc kyrkiugardinum, var oc vant at siá fyrir, hvörium hrakníngum hann hefdi mætt, ef herra Þórdr hefdi ei þar verit kominn med honum, oc veitt honum stirk á brott at komast án stærri meingiörda. Eptir Iónsdag ridu þeir Iörundr biskup oc bródr Biörn nordr til Mödruvalla, oc kölludu þángat fyrir sic Þórir ábóta oc Hildibrand prest; sömdu þeir ímilli þeirra þannin; at líkami Solveigar skyldi mega vera med friálsu á Þverá, enn prestr var leiddr af med litlu fè, þvíat þat var raunar at Iörundr biskup rèdi einn öllu í Hóla biskupsdæmi; vildu allir sitia oc standa sem honum var liúft. Var ekki Laurentius qvaddr at sáttmálinu, þó kom hann á fundin, oc var bródir Biörn honum miöc fráhorfinn, enn vildi allt láta vera, sem Iörundr biskup áqvad; afsagdi hann at vísitèra nordr-biskupsdæmit, oc hrekiast þar um óbygdir, fór hann utan snemma um sumarit at rádum

Iörundar biskups, oc þá af honum gódar giafir. Kom hann til Nidaróss Maríumessu hina sídari, oc hafdi med sèr brèf oc bodskap Iörundar biskups til erkibiskups oc kórsbrædra; offlutti hann miöc fyrir Laurentius, oc qvad hann hafa mörg brèf erkibiskups upplesit á Islandi, er hann lètst ekkert af vita hvörsu hann hefdi at komist. Iörundr biskup sendi oc utan um sumarit Gudmund prest Hallsson med mikla peninga oc brèf til erkibiskups oc kórsbrædra; voru á þeim brèfum margar álasanir vid Laurentius, kom Gudmundr prestr undan honum til Noregs, oc var þeim fluttníngi best trúat, sem biskup sagdi. Þat sumar kom út Haukr Erlendsson oc Bárdr Högnason med konúngs eyrindum, oc med rádi herra Hauks setti Árni biskup í Skálhollti þá lærdra manna spítala at Gaulveriabæ í Flóa, átti hvör prestr at giallda mörk til hans, er vígdist, oc hèldst þat lengi sídan. Þá var vígdr til ábóta at Helgafelli Þórdr Gudmundsson, er ádr var kanúki í Videy, sunnudagin næstan eptir Mikiálsmessu. Voru þá landskiálftar fyrir sunnan land, fèllu VIII bæir, dóu menn nokkrir oc fènadr.

## XX Kap. Laurentius hraktr.

Eptir skilnat þeirra á Mödruvöllum bródr Biarnar oc Laurentius prests, þóttist hann í vant efni kominn; voru eptir ógiörd öll eyrindi þeirra í Héla biskups umdæmi; kènndi hann þat hellst Iörundi biskupi, því hann vissi þat var imóti hans vild at syssla hans væri visítèrut, því margt fór þar óskipuliga, sídan Iörundr biskup eldtist miöc, enn fyrrum hafdi hann verit allmikill skörúngr, hafdi hann fyrir því tilagit at visítatóres færi sem skiótast í brott. Sumir vinir Laurentiusar rèdu honum at fara utan samskipa med bródr Byrni, einkum Haflidi prestr Steinsson er honum var inn tryggvasti (þá átti Haflidi prestr son vetrgamlan er Einar hèt oc sídar vard merkiligr madr) hann sagdi Laurentius hentast at hitta erkibiskup oc kórsbrædr, iafnsnemma oc Biörn, enn bad hann varast sem mest at giöra mikit ímóti Iörundi biskupi, því þó Laurentius væri klerkr gódr, mundi honum ei lagit verda at sigra hans hamíngiu. Þetta þótti honum hann giöra af

vináttu vid Iörund biskup, oc lèt sèr skyldast at framqvæma erkibiskups bodskap, hvörsu sem ödrum líkadi; hlíddi hann meir þeirra rádum, er honum rèdu til at taka at sèr allt vald til at visítèra, oc fara fram móti Iörundi biskupi. Fyrir þat vard hann eptir í Nordlendínga fiórdúngi, oc tók at visítèra, enn enginn vildi þá sinna honum. Skutu allir sínu máli undir dóm Iörundar biskups svo Laurentius nádi engri yfirferd; reid hann þá heim til Hóla, oc krafdi biskup at bióda upp gistíngar fyrir sèr, biskup qvadst þess ei skylldr, þar sem hinn annar, sem Laurentius væri iafn í öllu valdi, væri á brott farinn. Þar eptir fór Laurentius prestr, helgan dag einn, uppá kór í Hóla kyrkiu, oc taladi hart af mörgum ósidum er framfæru í Hóla biskupsdæmi, oc mest heima á stadnum bædi í hórdómum oc frændsemisspiöllum. Sneiddi hann í því uppá nokkra frændr biskups, er menn vissu, at ei höfdu stadit skriptir opinberar. Lyktadi hann sva rædu sína, at hann bad menn at láta af öllu slíku, oc snúast til betrunar; voru þá giörd at honum mikil óhliód; veittu frændr biskups honum eptir messuna mörg hadungarord oc bríxli, urdu oc fleyri greinir med honum oc biskupi oc snèrist at lokum til fulls fiandskapar, oc fyrir því at hann kom engu áleidis vid landsmenn enn hafdi svo mikit mótfall biskups, tók hann sèr far nordr á Gáseyri, enn ádr þeir lögdu í haf, reid hann heim til Hóla. Iörundr biskup giördist þá miöc ellimódr, sat laungum heima oc visítèradi ekki. Mæltust þeir Laurentius prestr þá vid; las hann fyrir biskupi brèf eitt, er margar greinir voru í oc hellst um hiúskaparmál, sem fram hafdi farit í Hóla-biskupsdæmi af vanrækt oc ólögligum framferdum biskups; vil ec því ei leyna fyrir ydr, herra! segir hann, at þessa luti alla mun ec kunngiöra herra erkibiskupi. Þá mælti Iörundr biskup: þess bid ec þic, síra Laurentius! at vid leggium nidr öll okkar málaferli, oc ritum sáttgiarnliga hveriir med ödrum; vær fram med ydr til erkibiskups, enn þú skèr í sundr brèf þetta oc sver þann eid, at þú skulir vera oss hollr oc trúr. Veit ec, segir Laurentius, at svo mikill er ríkdómr ydar, yfirvald oc höfdíngskapr, at þèr megit mic sigra oc undirleggia, enn ekki held ec þa eid minn þann er ec sór herra erkibiskupinum, at ec skyldi honum öll sannindi segia af málaferlum oc framferdi biskupanna á Islandi; enn ádr

hann lauk þessum ordum, spratt Iörundr biskup upp, oc nádi Laurentius ei fleira vid hann at mæla; fór hann þá til skips oc lèt út; hann fèkk lánga útivist, kom til Nidaróss nær mikiálsmessu, hrakinn miöc. Iörundr erkibiskup hafdi um sumarit stefnt þeim Iörundi biskupi oc Laurentius utan, enn um þann tíma fèkk hann þúngan siukdóm oc lagdist í kör; tóku kórsbrædr hinir hellstu í Nidarósi öll völd oc stiórn af honum, oc fengu honum adeins tvo sveina, oc steikara einn. Voru þeir fremstir Eylífr Korti, hann var þá officialis, oc Audunn Raudi. Utráku þeir alla adra hans vini oc þiónustumenn enn mintust forns fiandskapar vid Laurentius prest, er hann upplas fordum bannsbrèfi erkibiskups yfir þeim, oc var nú sú rádagiörd þeirra, er hann kæmi til Nidaróss, at grípa allt hans fè, brèf oc skilríki, enn setia hann siálfan í fiötr, oc láta í myrkvastofu. Enn sem Laurentius prestr var landfastr, lèt hann setia sic á báti frá kaupskipinu, inn til bæarins, var hann iafnskiótt sem hann stè uppá bryggiuna handtekinn af sveinum kórsbrædra, er þar til voru settir, oc er hann vildi briótast úr höndum þeirra, hliópu þar at miöc margir menn vopnadir, oc bördu hann ímist eda drógu *milli* sín óþyrmiliga, þartil er þeir komu at hinni svívirdiligustu myrkvastofu þar í bænum, er þeir kölludu Gulskytni; þar var bædi kalt, fúlt oc dimt; var honum þángat innsteypt oc aptrlæst þegar med járnhurdu sterkri; fèll hann fyrst í óvit oc sat þar svo II nætr, vid lítin oc dapran kost, enn fè hans allt dæmdu kórsbrædr upptækt oc fallit undir Nidaróss kyrkiu. Bókum hans vard undankomit med þeim hætti, at prestar nokkrir íslendskir eignudu sèr þær, enn brèf hans oc skilríki tóku þeir öll til sín oc sögdu at þar væri ámedal erkibiskups brèf þau er hann hefdi aldrei útgefit, enn Laurentius prestr hefdi komist yfir innsigli hans, oc giört falsbrèf undir hans nafni oc farit med til Íslandz. Fèkk Laurentius hvörki komit fyrir sic vörnum eda vitnum, oc fèll þat þó þyngst at hönum var syniat at siá edr hitta Iörund erkibiskup, er þá lá í kör, oc sem innibyrgdr af valdi kórsbrædra. Sögdu þeir hann væri svo reidr Laurentius, at hverki vildi hann sià hann nè heyra. Eptir svo nætr var hann hafdr inn fyrir kórsbrædr í herbergi nokkurt, oc settr á gólfit med fiötr á fótum.

báru þeir hellst á hann tvær sakir; þá fyrst at hann hefdi falsat brèf erkibiskups oc farit med til Islands, enn þá adra at hann hefdi svallat út offri hins heilaga Olafs konúngs, þá hann var þess medtökumadr þar í bænum. Voru þá oc applesin brèf Iörundar biskups, er hann hafdi utan sendt honum til áklögunar; bádu þeir hann nú 'ópíndan medkènnast þessar sakir allar, enn hann neytadi því þverliga; at lyktum settu þeir honum tvo kosti, þann fyrri at standa þar í Noregi slíka skript sem officialis setti honum, enn hinn at fara út aptr til Islands undir vald Iörundar Hóla biskups, oc vera í vardhaldi þángat til, hann qvadst þann kiósa mundi er þeir ætludu sídur, enn þat var at fára út til Islands undir vald Iörundar biskups, oc var þat afrádit. Var hann þá færdr í annat herbergi oc var þar á gluggi, svo at hann sá til at lesa tídir sínar, oc var hann þar í fiötrum um vetrinn. Eylífr Korti var þá officialis í Nidarósi sem fyrr segir, þvíat Sighvatr Landi var dáinn.

## XXI Kap. Skálhollts-kyrkia brann.

1309 Þennan vetr vard sá atburdr í Skálhollti atfara-nótt næstu fyrir Pálsmessu, á Þorra, er þá bar á laugardag, at elldíng logandi laust í stöpulin á Skálhollts-kyrkiu, þá er stiarna var í austri, med svo mikillri ákèfd, at kyrkian var öll brunnin þá er stiarna var komin í landsudr. Þar brunnu XIV silfrbollar, oc margir dyrgripir í gulli oc silfri; tiölld, bekkiarklædi, rekkjubúnadr, salún, blæur oc margra manna eignir svo náliga var ei eptir nema kol oc aska; einin klukkr oc bækr, oc mestallr húsbúnadr stadarins. Kaleikum vard biargat, XVIII höklum, hinum bestu bögulum, skríni hins heilaga Þorláks med hans helgum dómi, oc ödru skríni litlu; *episcopalia* brunnu, þótti flestum undr á hvörsu litlum tíma þat allt brann. Var þá farit um allt Island, at bidia til kyrkiugiördar, oc tóku flestir menn þar allvel undir; gaf Iörundr Hóla biskup öll episcopalia, enn Arni biskup fór utan þá, er hann mátti at útvega kyrkiuvid. A þeim missirum var vegian herra Kolbeinn Biarnason Andkylíngr, enn hann vo Karlamagnús Magnússon fyr-

ir slím *). Þá vard Gissr Galli handgenginn konúngi oc hyrdmadr, oc var veginn Flióta-Biörn.

## XXII Kap. Laurentius kèmr út.

Fiórum nóttum fyrir Tíbúrtius messu um vorit andadist Iörundr erkibiskup; var þá aptr kosinn Eylífr Korti kórsbródir; hann var mikill höfdíngi oc vinsæll. Var þá Laurentius prestr færdr í skip um sumarit fiötradr oc sendr Iörundi biskupi af kórsbrædrum, oc brèf med honum; enn iafnskiótt sem kaupmenn komu í haf, brutu þeir af honum fiötrana. Byriadi þeim vel oc tóku land á Gáseyri í Eyafyrdi. Fór Laurentius prestr heim til Hóla, oc er hann kom í þat herbergi sem biskup sat í, fèll hann á knè fyrir honum; hafdi þá Iörundr biskup ádr fengit brèf kórsbrædra, oc at hann þyrfti hvergi at fara, er erkibiskup var dáinn. Stód hann upp móti Laurentius, setti hann hit næsta sèr, oc var hinn blídasti vid hann, oc bad hann hvíla sic þar um VII nætr, enn er þær voru aflidnar, kalladi biskup hann til sín í skrúdahús, oc adra kènnimenn, oc lèt upplesa þar brèf Eylífs erkibiskups oc kórsbrædra. Þá spurdi Laurentius prestr, hvörn veg hann vildi giöra á máli hans? Biskup svarar: ekki treystumst vèr til at gèfa þèr messusaung, sakir framferdis kórsbrædra, enn þú skalt at friálsu vera med mèr, oc á Íslandi hvar sem þú vilt, svo í Skálhollts biskupsdæmi sem hèr, máttu mikla nytsemd giöra med læríngu þinni. Laurentius mælti: enginn hlutr þykir mèr þyngri, enn hafa ekki messu-embætti; ekki færd þú þat, segir biskup, oc gèkk út af herberginu. Nóttina eptir dreymdi Laurentius at hann þóttist standa yfir lestrar-kór á Hólum, oc halda á einni oblátu svo hátt sem í messu, oc var markat á hana *α* oc *ω*. Þann draum sagdi hann af hliódi adkomandi presti nokkrum gömlum oc vitrum. Hann rèdi svo: þú munt um sídir yfirskipadr þenna kènnimannakór er hèr verdr; merkir *α* oc *ω* upphaf oc endir, oc svo sem þú varst hèr í fyrstu settr yfir kènnslu skóla, svo munt þú hèr enda æfi þína, skipadr í hit ædsta vald oc heidr. Laurentius

*) Sjá Karlamagnúsar Annál í Sturlúngu 2 B, 11 deild bls. 126.

mælti: þegi þú, prestr minn! því svo sem ec er nú fyrirlagdr, þá munu óvinir mínir tilætla at aldrei verdi ec heidurs madr, oc mun draumin eiga nokkur annar enn ec; ei er gètit fleyri orda þeirra. Fór Laurentius skömmu sídar frá Hólum til þíngeyra, þvíat Gudmundr ábóti baud honum at kènna þar brædrum oc klerkum, enn treystist þó ei til at halda hann þar sökum Iörundar biskups. þadan fór hann á Breidabólstad til Haflida prests Steinssonar vinar síns, tók hann vid honum ágíætliga sem biskupi, svo at heimamenn Haflida prests undradi þat; enn hann mælti: þat munu nokkrir menn fá at reynnast, at svo sem síra Laurentius er nú fyrirlitinn af öllum, mun hann verda iafnmikilsmetinn, oc verda mun hann biskup á Hólum. Ur Vestrhópi fór hann sudr í þykkvabæ; hafdi þorlákr ábóti bodit honum þángat til sín at kènna brædrum, oc urdu margir af þeim gódir klerkar; dvaldist hann þar lánga hríd.

## XXIII Kap. Arferdi oc höfdíngiadaudi.

þessi misseri hafdi andast Höskuldr ábóti á þíngeyrum enn Gudmundr tekit vid, sem adr er nefndr, hann var vitr madr. Var þá drepsótt mikil fyrir nordan land, oc svo á hinum næstu bólnasótt, svo mikil, at menn fúnudu ísundr, oc mikill mandaudi 1310 um alt Skálhollts biskupsdæmi, qverkasótt oc stíngasótt edr tak. þá vard víg Karla Magnúsar, þorsteins Finnbogasonar oc Orms Steypis oc deidi Magnús Arnasen er kalladr var skraut-Mángi. Um sumarit kom út Arni biskup í Skálhollti, med kyrkjuvid þann er hann fèkk oc margar gèrsemar, er Hákon konúngr oc drottníngin oc margir hinir bestu menn í Noregi gèfit höfdu til Skálhollts stadar, hafdi Arni biskup þá mikit vald, er Hákon konúngr hafdi gèfit honum; var þat allra manna mál at enginn biskup hefdi farit meiri sæmdarför til Noregs enn hann, sídan Island var kristnat. Gissr Galli heimti Finnskatt fyrir Noregs konúng oc Valtyr bródir pretta-Páls. þá komu brèf Clemens páva til Eylífs Korta erkibiskupsefnis á Nídarósi á messudag Fabiani oc Sebastiani, oc kallar hann biskupana til sín fyrir þá sök, at hann vill eiga almenniligt þíng um alla kristnina sakir margra stórmáls-

synia. I þeim brèfum baud hann biskupum at prèdika almenniligar naudsyniar Iórsalalands, oc leida til alt fólk at gèfa því hinu heilaga landi ölmusr sínar til frelsis, gaf hann þartil svo stór aflát, at slik höfdu alldrei komit nordr híngat; þvíat Soldán af Babylon hafdi herjat Cyprum oc Armeniam, oc voru brèf þessi send híngad í land; var þá mikil óöld hvervetna. Þá var reyst hit næsta sumar hin mikla kyrkia í Skálhollti, oc markar enn 1311
fyrir grundvelli hennar, hefr hún verit mest trèhús á Islandi, oc þoldi ekki vöxt sinn sem sídar syndist; vard þat ár landskiálfti svo mikill at fèllu fimmtygir bæja oc einn betr, oc svo mikit mirkr í Austfiördum at menn sáu hvergi til vegar á sió edr landi, enn vída öskufall um laud; kom þará eptir óárau. Bárdr Högnason deydi þá, er fyrr var lögmadr. Þat sumar kom út bodskapr kórsbrædra í Nídarósi, at þeim mislíkadi stórum er Laurentius prestr væri velhalldinn, þar sem hann ætti at vera í skriftum, fyrir því treystist ekki Þorlákr ábóti í Veri at hallda hann lengr, oc hafdi hann þar verit II vetr; baud honum þá til sín i Dal undir Eyafiöllum Hallr son Sigurdar Seltiarnar oc Valgerdar er var systir herra Þórdar Hallssonar á Mödruvöllum, oc var hann þar um veturin, enn sidir þeirra voru miöc ólíkir, oc nam 1312
Laurentius þar ei yndi; var hann miöc áhyggiusamr um vorit um vist sína, hvar verda mundi, fèll þá eittsinn á hann svefnhöfgi lítill er hann var í sæng sinni oc dreymdi þegar, at madr kom at honum í kènnimannsbúnadi, oc mælti: þú ert at vísu í miklum þrautum, enn þat eitt ræd ec þèr, oc mun hagr þinn snúast til betrunar, les þú daglega tídir af heilögum anda, oc gleim því alldrei, mun þá miskun Guds hugga hrigd þína oc leysa þína qvöl; sídan hvarf madurinn honum. Laurentius prestr þakkadi Gudi þessa vitran, hóf þegar tídahalld þetta, oc hèllt þat sídan dagliga medan hann lifdi. Fám nóttum sídar fèkk hann brèf frá Þóri ábóta Haralldssyni á Þverá nordr, baud hann honum til sín at kènna brædrum oc klerkum um XII mánudi, hafdi hann þartil orlof Iörundar biskups, því hann vildi heldr at Hola biskupsdæmi hefdi not af lærdómi hans, enn adrir, fór Laurentius prestr þángat nordr oc var vel vid honum tekit. Sumar giördi þá óþerrasamt miöc, heyadist hvergi þat telja mætti fyrir Maríumessu fyrri, enn lítit fyrir þá sídari, oc mundu engir menn iafnlitla

heybiörg, urdu þá margir at lóga öllum nautpeníngi sínum oc málnytu, oc var kallat Baulnhaust. Skèdi þá fráfall stórmennis: andadist herra Christópher Vilhiálmsson, herra Erlendr sterki fadir Hauka, herra Þórdr Hallsson á Mödruvöllum oc herra Loptr Hálfdánarson bródir Sighvats á Grund. Ekkèrt var alþíng oc margt á þeim árum óskipuligt. Giördi hinn mesta snióavetr eptir, hallæri oc fiárfellir um allt land, urdu margir öreigar sem ádr
1313 áttu gott bú, voru svo mikil frost at fraus fætr undan saudum oc hestum þó fullfeitir væri; þá var kalladr hrossafellirsvetr, landskiálfti svo mikill at fèllu XVIII bæir. Fór sótt um land med ímsum háttum, sú var ein at ekki tók leingra enn um bríóstit, þá sótt kalladi Grímr úngi hettusótt, sumum kom þroti í bríóst sem ein hella væri; á Brígittardag um veturinn andadist Iörundr Hólabiskup, hafdi hann þá biskup verit VI vetr hins Vta tugar. I þann tíma var mikill uppgángr Kodráns prests, Hranasonar, þann hyggium vèr verit hafa son Hrana Kodránssonar er Oddr Þorarinsson drap í Grímsey; hann hèllt sèr miöc fram, því hann hafdi gengi mikit af Eylífi erkibiskupi, tók hann fyrir því at sèr öll völd Hólabiskupsdæmis, þegar er Iörundr biskup var fráfallinn, því at hann var honum skipadr til adstodar medan hann lifdi, enn Iörundr biskup siálfr hafdi skipat, skömmu fyrir sinn dauda, Þorstein prest Illugason er kalladr var Skardssteinn officialem yfir Hólabiskupsdæmi, kalladi Kodrán prestr hann því ógilldari sèr, at hann væri alleina af lídbiskupi skipadr. Gissr Galli fèkk þá Þurídar Augmundardóttr Þórdarsonar frá Bæ, enn herra Ulfr af Dúnga oc menn hans fóru at honum á Gáseyri, oc særdu hann, svo hann lá XII mánudi,

## XXIV Kap. Frá Kodráni oc Laurentio.

Iörundr biskup hafdi á dögum Vermundar ábóta tekit frá Þíngeyraklaustri biskupstíundir fyrir vestan Vatnsdalsá, er Ión biskup hinn helgi tillagdi því klaustri oc haldist höfdu sídan, oc lagdi Iörundr biskup klaustrinu aptr Hialltabakka, tók sá er eptir hann kom þá jörd, aptr frá Þíngeyrum oc urdu þar deilr af. Iörundr biskup var manna vitrastr, sneiddi sic hiá deilum, enn bar þó

iafnann hærra hlut af hvöriu máli, hann var happsæll oc vinsæll, ör oc stórmannligr; hann lèt byggia kyrkiu á Hólum, oc kostadi miklu til; var hún at léngd vel L álnir, frammkyrkian XIX álna breid enn XIII álnir oc III þumlúngar at hæd, kórinn XVII álna breidr, stöpullinn XVII álna breidr oc iafnlángr, hún stód nær C vetr, þartil á dögum Pèturs biskups Nícolássonar; miöc audgadi Iörundr biskup Hólakyrkiu af skrúda oc klukkum, gulli oc brendu silfri oc mörgum gèrsemum, enn stadin at löndum; hann hèllt kènnsluskóla á Hólum oc tók marga til læríngar; Oblaudr prestr Hallvardsson frændi hans var skólameistari oc biskupi harla kær, hafdi hann verit í Norégi, oc í kærleikum vid erkibiskup, ætla sumir sè hinn sami oc meistari Oblaudr at hvers rádi Stada-Arni biskup samdi þann dómahátt, er hann sendi út híngat med Gnúpi presti Hallssyni um skriptir stadamanna. Iörundr biskup var miöc þúngfær er hann elldtist, oc hafdi þá Kodrán prestr Hranason verit skipadr hans *Coadjutor* af Eylífi erkibiskupi. Enn er andlát Iörundar biskups spurdist at Múnkaþverá oc klukkum var hríngt til sálutída, var Laurentius prestr staddr í múnkastofunni med ödrum oc stód upp til kyrkiugaungu, greip hann þá skyndiliga smáþarmaverkr er aldrei skildi vid hann sídan. Litlu sídar kom Kodrán prestr Hranason til Þverár, oc lèt þar sem annarstadar upplesa brèf sín oc spurdi formenn at hvörr þeirra Þorstèins prests þeim syndist helldr at ætti at vera Officialis, svörudu þeir allir því er hann vildi heyra, oc qvádu honum bera, fyrir því at erkibiskups tilskipan gengi fyrir lídbiskups; þá spurdi hann Laurentius er ytstr sat af prestunum oc þagdi, hvad honum syndist, því þú kannt vel kyrkiulög, sagdi hann; Laurentius vildi þat hiá sèr leida oc vísadi til kyrkiulögbóka heim á Hólum, qvad þær liósast úrskèra. Kodrán prestr leitadi því fastara eptir, þar til er Laurentius sagdi svo: at eptir sínum skilníngi væri vald Kodráns prests daudt oc maktarlaust, þarsem Eilífr erkibiskup setti hann til adstodar Iörundi biskupi medan hann lifdi, enn Þorstein prest skipadi Iörundr biskup skömmu fyrir andlát sitt Officialem Hólakyrkiu, þartil annar biskup kæmi; þarvid reiddist Kodrán prestr oc valdi honum mörg vond ord oc mælti: verd úti vondr falsari, engin lög skaltu hèrum segia, rak

hann sídan úr stofunni oc fyrirbaud Þóri ábóta at halda hann lengr; fór þá Laurentius vestr til Þíngeyra oc tók Gudmundr ábóti vid honum feginsamliga, oc var þar þá skóli settr, oc kènndi Laurentius látínu Gudmundi ábóta oc mörgum ödrum. Þessir voru hellstir hans lærisveina: Þórdr son Gudmundar lögsögumanns, Einar son Haflida prests Steinssonar, Olafr Hiallta-son fátækr madr oc vard sídan gódr klerkr, oc sídan lengi skólameistari á Hólum, oc sá er hann unni fremst af öllum, Egill diákni Eyúlfsson, honum lagdi hann allan hug á at kènna látínu oc adra bókvísi, svo at Egill vard *versificator*, frama-madr hinn mesti oc biskup sídast.

## XXV Kap. Audunn verdr biskup, Kètill hirdstióri.

I þan tíma var med Hákoni konúngi Gissr Galli Biarnason, konúngr sendi hann til Finnmarkar, at heimta skatt af Finnum, er þeir höfdu lengi halldit, oc tókst honum þat giptusamliga, svo at Finna konúngr sættist vid Hákon konúng, margir voru þá adrir íslendskir menn í förum oc giördust handgengnir. Kètill fór einn utan son Þorláks lögmanns Narfasonar fra Kolbeinstödum í Haukatúngum oc giördist handgenginn oc herradr. Þorsteinn prestr Skardsteinn fór utan um sumarit oc Sniólfr prestr Sumarlidason oc sögdu dauda Iörundar biskups; vann Þorsteinn fyrir erkibiskupi mál sín vid Kodrán prest sem Laurentius hafdi ætlat, þá var tekit upp alþíng aptr, at bodi Hákonar konúngs, enn á Katrínarmessu um haustit var Audunn raudi kórsbródir vígdr til biskups á Hólum af Eylífi erkibiskupi, eptir kosníngu kórsbrædra; á iólum deidi Lodmundr ábóti í Veri. Á þeim tíma iókust miöc hardindi
1314 í landi veturin eptir, oc vard mannfall af sullti svo mikit fyrir sunnan land á fátækum mönnum, at CCC líka komu til Strandarkyrkiu; fyrir nordan land var oc hallæri mikit, oc vedr ofsahörd, enn batnadi frá páskum, rak þá fra hafísin oc vard grasvöxtr gódr, þá braut feriu Árna biskups í Skálhollti fyrir austfiördum. Um sumarit kom út herra Kètill Þorláksson med kóngsbrèfum oc nymælum, hafdi hann hyrdstiórn oc hèllt henni lengi sídan; var vígdr Þorlákr Loptsson ábóti í Veri, þó segir svo at hann hafi ádr ábóti verit, er Laurentius var med honum; þá kom

oc út Þorstein prestr oc Sniólfr prestr med páfabod at gialda skyldi tíundir af öllum kyrkiueignum á Islandi XII álnir af hvöriu hundradi um þriú ár, oc skyldi þat sendast útan til ad frida Iórsalaland; þeir voru oc skipadir officiales af Audunni biskupi yfir Hólabiskúpsdæmi, enn hann siálfr dvaldist í Noregi, oc er ei gètit fleyri tídinda á þeim missirum.

## XXVI Kap. Frá Audunni biskupi.

Vorit þat hit nærsta fór Audunn biskup raudi frá Noregi oc lèt 1315
í haf, hann kom út á Seleyri vid Borgarfiörd, oc reid nordr Sand til Hóla, voru þar fyrir flestir hinir göfgari prestar nordanlands, oc tóku vid honum ómetnadarsamliga, hann var miöc reidstyrdr oc þúngfær, enn þeir Kodrán prestr oc Sniólfr prestr höfdu allt í flæmíngi oc fannst honum fátt um þeirra vidtökr. Audunn biskup lèt sveria sèr eida i sínu umdæmi, hann var í mörgum hlutum hinn mesti höfdíngi oc rausnarmadr, lèt hann fyrstr manna giöra ofn-badstofu hèr á landi, oc flytia sunnan af Seleyri timburstokka til hennar, er hann hafdi at utan haft med sèr; þá var þurka sumar mikit sem spillti grasvexti, oc öll VII samfelld ár voru þá hèr hardindi, oc um öll lönd voru þá mikil hardindi oc manndaudi, hvar sem tilspurdist, svoat sumstadar aleit ekki á XV árum. Þá var þat um haustit at Audunn biskup lèt, eptir áeggian Hákonar konúngs, leita legstadar Gudmundar biskups, fyrst í Hóla kyrkiukór oc fannst hann þar ekki, fyrr enn biskup sendi eptir Kolla smid, kom Kolli oc midadi glöggt á eptir sögu Iörundar biskups í framkyrkiunni, fannst þar kista Gudmundar biskups oc bein hans, voru fótleggirnir audkènndir af haútum oc brotum er hann hafdi þolat, lèt Audunn biskup giöra nya kistu at beinum hans oc fagurliga umbúa med grind umhverfis, oc setia innarliga í kyrkiu fyrir framan krossin mikla, giördist þá þartil mikil sókn á Gudmundar degi oc mikil áheit um allt Island, saung biskup þá siálfr sálumessu oc sálutídir oc heidradi miöc Gudmund biskup, enn ádr var hans minníng engin giör, framar enn annara biskupa, oc vissu menn ei því hvar leg hans var. Uppteknádagr heíid Gudmundar biskups er VI *Calendas Novembris*, þat er II

nóttum fyrir allraheilagra messu. Audunn biskup var trúmadr, því ádr hann kom til stóls á Hólum, var ei helldr haldinn upptökudagr hins heilaga Ións biskups, súngnar tídir at eins, enn ekki heilagt; hann var miöc gèstrisinn bædi vid vini oc óvini, svo hann átti opt stefnr vid þá heima á Hólum, oc er honum var tilsagt at máltídartími væri, mælti hann til mótstödumanna sinna: gaungum til matar oc kunnum ekki matin þess at ydr mislíkar vid mic. Sigradi hann opt marga med því, þá hann hafdi veitt þeim med glædværd oc örlæti. Sættust þeir vid hann oc lögdu öll mál í hans vald; allt sitt embætti framflutti hann sæmiliga; rödd hans var svo há oc fögr at mikil lyst var á at heyra, var hann bænahaldsmadr mikill, oc las þridiúng Davídspsaltara hvörn dag, oc vatnfastadi fyrir allar postulamessr oc Maríumessr, oc margar biskupamessr, fylgdi hann öllum tídum á lángaföstu, iólaföstu oc hinar stærstu hátídir. Audunn biskup hèldt skóla á Hólum, var Egill prestr Eyúlfsson þar skólameistari oc Ión prestr; Kodránsson eptir hann, þá Egill fór utan med biskupi; þessir voru presta synir þar til læríngar í þann tíma oc urdu allir framamenn, Einar son Haflida prests Steinssonar, Þorsteinn Hallsson, Ión Kodránsson er sídar vard prestr oc skólameistari oc vèr hyggium son Kodráns prests Ranasonar, Páll Þorsteinsson oc Þormódr Kètillsson; hann stadfesti einnin stiptun oc giöf Iörundar biskups á Reynistadar systra klaustri med brèfi er hann giördi þarum; enn þó at hann væri vel at sèr um marga hluti, var hann ókunnugr landsku er hèr var, oc margir hlutir þeir fyrir honum taladir af sumum mönnum er ei var þörf á, urdu fyrir því missættir oc ágreiníngar med honum oc ímsum mönnum; þegar hit fyrsta haust visíteradi hann vestr sveitir, oc vígdi þá kyrkiu á Þíngeyrum, var þar þá Laurentius prestr oc gaf biskup engan gaum at honum í þat sinn, enda gaf Laurentius sic ei fram; enn er biskup kom heim rak hann Skúla prest Illhugason rádsmann á brott oc tók af honum allt sitt fè. Þá hafdi verit um sumarit lögtekit á alþíngi þat er herra Kèiill kom út med af rèttarbótum; á þeim vetri giördist mikit missætti med biskupi oc þeim prestum Kodráni oc Sniólfi, hèldu þeir bádir saman ímóti honum, þartil er hann tók bædi stad oc embætti af Kodráni presti, enn hann skaut sínu máli til erkibiskups. Sniólfr prestr gékk þá til hlýdni

vid biskup oc þádi af honum Greniadarstad; stód þat svo um hríd. A Gregóriusmessu um veturin komu flestallir hans mest- 1316 háttar prestar til Hóla er voru i biskupsdæminu, var Kodrán prestr þar einn; enn er komit var at gudspialli lèt biskup nidurfalla messuna, því hann taldi Kodrán prest í banni fyrir þær sakir; fyrst at hann hefdi látit brædr á Mödruvöllum hafa veraldligt rád oc eidt þar miklu fè er hann vildi at Kodrán prestr bætti aptr; þat annat er hann hefdi tekit at sèr officialis störf ólögliga eptir andlát Iörundar biskups; í þridia máta giört samblástr móti sèr; voru oc fleirstir hinir meiri prestar í mótgángi vid biskup, nema Hafl̄idi prestr Steinsson oc gaf biskup honum gódar giafir. Hafl̄idi prestr var í þann tíma mikilsháttar madr, hafdi hann verit capellu prestr Eyriks konúngs i Noregi oc lengi rádsmadr á Hólum oc Þíngeyrum. Þeir Audunn biskup oc Kodràn prestr skildu ósáttir, fór Kodràn prestr utan til Noregs oc kom ei aptr, var hann haldinn af mörgum hinn merkiligasti klerkr.

## XXVII Kap. Athafnir Audunnar biskups.

Um vorit lèt Audunn biskup reysa stofuna á Hólum oc med hinni sömu giörd oc forman, hefir hún stadit sídan fyrir utan iárnbita einn er Biörn biskup lét úrtaka, oc eru timburstokkar miklir í veggium öllum, var hún þá er þetta var ritit átta vetrum yngri enn fimhundrud tyræd; hann hafdi oc út med sèr steinsmidiu oc í fialli því sudr frá stadnum er Raptahlíd heitir, fann hann griótberg er hann lèt heimfæra, höggva oc kanta, þaraf lèt hann giöra háaltarit á Hólum, holt innan med iárnhurdu fyrir, svo at í mátti örugt geima dyrgripi kyrkiunnar oc stadarins fyrir eldgángi, af því grióti lèt hann giöra grádr allar kríngum alltarit oc murinn at kyrkiunni oc ofnin í timburstofunni; háaltarit lèt hann færa í húfuna oc penta oc mála alla innan, sem lengi sá liós merki til, hann lèt oc smída biskupsherbergin, svo at eigi voru slik hèr á landi, fèkk hann einnin til stólsins hinn sæmiligasta skrúda oc hökul skínandi, oc þó stadnum væri þetta kostnadr mikill, vottar þat þó rausn hans oc höfdíngskap. Um sumarit kom út Snorri Narfason oc hafdi þá lögsögu, þá tók Audunn

biskup ábótadæmi, at Þóri ábóta á Múnkaþverá, gèta menn til at valldit hafi skulldir þær hinar miklu er hann safnadi yfir klaustrit, fór ábóti utan sídan. Tveim nóttum eptir krossmessu um haust brann klaustr oc kyrkia at Mödruvöllum í Hörgárdal, med klukkum oc öllum skrúda, höfdu brædr komit heim um nóttina druknir nedan af Gáseyri oc farit ovarliga med liós, kom þat fyrst í reflana, enn sumt í skrúdakistuna, oc þadan kom mest eldurinn, tók Audunn biskup alla brædr þadan í burtu, oc skipadi sumum á prestvist, bródr Þorgeir í Lögmannshlíd, bródr Þórd á Mödruvöllu fyrir þíngapresta, enn bródr Þorbiörn oc Iörund heim til Hóla, þar dóu þeir. Bródir Ingimundr fór utan oc vard bródir at Helgisetri í Noregi; ávoxtu alla af klaustrinu tók biskup undir Hólastad, oc urdu ákiærur af þessum tiltektum sídar, þá tók oc Audunn biskup Hialtabakka undan Þíngeyra klaustri oc fèkk presti þeim er Ióngeir hèt, enn hèllt þó undir Hólastad biskupstíundum fyrir vestan Vatnsdalsá, vard þar af mikit sundurþykki med biskupi oc Gudmundi ábóta oc brædrum á Þíngeyrum, því ábóti kærdi á Hólastad um tyundirnar, er hann sagdi klaustrinu ætti iafnan at fylgia eptir giöf hins heilaga Ións biskups er hann setti þat í öndverdu. Þá var Laurentius prestr á Þíngeyrum oc hèldt med brædrum, skaut ábóti sínu máli til erkibiskups; Laurentius var þá vígdr til múnks, oc Arni sonr hans úngr, er út var kominn fyrir II vetrum, var hann ritari mikill oc gódr klerkr, hèldt bródir Laurentius reglu hins heilaga Benedicti med gódfysi oc gèkk aldrei útaf klaustrinu nema ábóti bydi honum fyrir orsakir; þagnartíma hèldt hann svo ríkt at hann mælti ekki um nætr, þá *summum silentium* edr hellsta þögn stód yfir, þótt ábóti bydi honum hiá sèr at sitia, hann kèndi sífeldt látínu, ritadi oc las bækr, kom þá til Þíngeyra hinn kærasti vinr hanns Bergr Sokkason er hann hafdi ádr kènnt at Þverá, oc var hinn hellsti klerkr umfram flesta menn hèr á landi, med klausturligu framferdi, mælskumadr hinn mesti, saungmadr oc prèdikari, setti hann saman margra helgra manna sögr á norrænu, med mikilli snild oc vard sídan ábóti á Múnkaþverá, var Þíngeyra klaustr þá skipat ágiætliga lærdum mönnum. Þá giördist Egill prestr Eyúlfsson skólameistari á Hólum oc var í miklum kærleikum vid Audunn biskup oc svo bródir Laurentius sem ádr er sagt;

var brödir Laurentius á Þíngeyrum alla þá stund sem Audunn var biskup. Enn skèdi þat á þeim missirum at þá var borinn Magnús son Eyríks hertoga oc Ingibiargar döttr Hákonar konúngs háleggs. Giördi þá Hákon konúngr í þann tíma Islendska menn at riddurum, Eyrík son Sveinbiarnar í Súdavík, oc annan Gudmund oc enn fleyri þó vèr kunnum þá ekki at greina. Hákon konúngr útgaf oc þá rèttarbót sína um kyrkiulög eda kristinrètt. Þá gèkk siór á land upp lángt yfir þat er venia var til.

## XXVIII Kap. Frá Arna biskupi.

Sumarit eptir fór Arni Helgason biskup um Vestfiördu, hafdi 1317 hann þat tvisvar farit ádr, vígdi hann Eyrarkyrkiu í Bitru oc gaf siálfr til V hundrud í vöru, þar var oc tillaginn skiædatollr oc osttollr um alla Bitru oc málsmiólk undan öllu fè í millum Gudlaugshöfda oc Borgarháls, hèldst sá osttollr lèngi sídan nær þrem hundrud vetra. Arni biskup giördi þá máldaga kyrkiunnar í Túngu í Steingrímsfyrdi, enn vígdi Kalldadarnes kyrkiu VI calendas *Augusti*.. Þá brann klaustr í Hólmi. Slíkt er eigi svo miöc undanfeldt í frædabókum þeim er þann tíd voru ritadar, enn minna talit um veraldliga höfdíngia oc landstiórn almúgans edr ættir manna, svo at sic megi á glöggva, ætla ec at miöc margt hafi þó tilborit þat er merkiligrá var enn kyrkiuvígslr oc húsbruni. Gissr Galli bardist í utanför, vard sár oc tekinn sídan, enn leistr árit eptir.

## XXIX Kap. Frá biskupum.

Um vorit, er skip gengu, var utanstefnt biskupum bádum Arna 1318 Helgasyni oc Audunni rauda til kènnimannafundar í Noregi af Eylífi erkibiskupi, einnin var utanstefnt herra Katli hyrdstióra, Snorra Narfasyni lögmanni oc herra Hauki, alls VI mönnum handgèngnum auk lögmanna oc VI bændum hinum hellstu. Þá lèt Audunn biskup giöra máldaga allra kyrkna í Hólabiskupsdæmi, þá er enn eru uppi. Þeir Egill prestr Eyúlfsson oc Grímr Ofeigson skyldu fara utan med eyrindi hans, oc urdu þeir apturreka.

Utan fór Gudmundr ábóti á Þíngeyrum med kærumál til biskups fyrir Hialltabakka, enn Eylífr erkibiskup tók seint hans máli sakir fornrar vináttu vid Audunn biskup; visítèradi, Audunn biskup um haustit vestr-sveitir, oc kom til Þíngeyra, læstu þá brædr klaustri oc kyrkiu, oc giördu enga *processionem* i móti honum, oc ei nádi hann vid þá at mæla, var þá Biörn prior fyrir klaustri, höfdu brædr þarfyrir fiölda bænda at veria klausrit fyrir biskupi ef hann vildi ásækia, enn hann syndi engin lykindi af sèr; matr var þó mönnum hans tilreidu, enn eigi öl. Nu leid svo af vetr hinn nærsti, giördi þá óvild med Audunni bi-
1319 skupi oc Sniólfi presti Sumarlidasyni á Greniadarstad, fyrir því at Sniólfr prestr vildi ekki taka þángat einn mann, er biskup skipadi þángat, lèt biskup sveria at siö presta skylda væri á Greniadarstad, oc setti hann útaf samneyti kristinna manna; enn Sniölfr gaf lítt gaum at því oc fór utan um sumarit.

## XXX Kap. Konúngaskipti.

Um vorit andadist Hákon konúngr Magnússon Háleggr, var hann sidarstr konúngr í Noregi þeirra er í karllegg væri taldir at lángfedga tali fra Haraldi hinum Hárfagra, tók þá ríki dóttrsonr hans Magnús Eyríksson barn at aldri, oc var hann einnin Svíakonúngr, hann var kalladr Magnús Smekk; fleyri dóu þá merkiligir menn, Haflidi prestr Steinsson, oc var Einar sonr hans þá XII vetra oc Kodrán prestr Ranason. Þá var vèginn Ión í Bolúngarvík, giördist heldr agasamt í Nordurlandi fyrir nyúngasakir Audunnar biskups, hafdi hann at áeggian sumra manna heimt skiptitíund af hvöriu einu hundradi oc þadan af meira á móti fornri veniu, höfdu einhleypíngar oc lausíngiar söfnud fyrir honum í Höfdahólum, oc var búit vid þeir mundu leggia höndr á hann, enn Rafn bóndi Iónsson í Glaumbæ oc adrir gódgiarnir menn oc vitrir gengu í milli oc játadi Rafn fyrir hönd biskups, at hann skyldi engar nyúngar á þeim giöra um tíundargialld. Enn er menn komu til alþíngis um sumarit, tóku leikmenn sic saman úr Nordurlandi, at þeir ekki vildu gánga undir nokkrar nyúngar Audunnar biskups; reid þá herra Grímr Þorsteinsson nordr

til Hóla at bón manna med mörgum mikilsháttar mönnum, oc ræddu þeir vid biskup hèrum, enn hann linadist ekki vid ord þeirra, oc vard þat af, at þeir gengu til hlídnis vid hann sem í sökum voru; fóru þeir nú utan um sumarit, Arni biskup í Skálhollti, herra Kètill oc Snorri lögmadr, enn þeir höfdu lögsögn, (hyggia vitrir menn at verit hafi í umbodi Snorra oc Hauks), Grímr Þorsteinsson oc Erlendr Hauksson, hann bió at Upsum í Svarfadardal oc hafdi lögsögn fyrir nordan. Audunn biskup hugdi oc at fara utan um haustit, enn vard apturreka í Húsavík. Þá sendu oc nordlendíngar brèf til Hákonar konúngs, því þeir höfdu ei frètt andlát hans, um ímsar nyúngar Audunnar biskups, oc þeir vildu ei undirgánga hans valld, oc bádu hann tilsiá at vandrædi mætti afstyrast; enn þat brèf kom til hins únga konúngs; hafdi herra Erlendr Vidkunnsson verit skipadr dróttseti yfir allt Noregsríki, at rádi Eylífs erkibiskups oc allra nordmanna, medan konúngrinn væri í barnæsku; segia þat sumir at þá var saminn hinn forni sáttmáli Islendínga vid Magnús konúng Eyríksson fyrir medalgungu Gunnars rádsveins; var fyrst áqvedit: at II hafskip komi híngat hvört ár, hladin af öllum naudsynligum giædum, tvö nordanlands oc tvö fyrir sunnan, eitt á Austfiördu oc eitt á Vestfiördu; þat annat: at íslendskir sèu lögmenn oc syslumenn oc hafi ei lögmenn sysslr; þykiast þeir lausir ella frá heitum sínum vid Magnús konúng, ef hann lætr ei haldast þann hinn forna sáttmála, er íslendíngar sóru Hákoni konúngi Gamla, þá fyrir XVI oc XL vetrum; skreid oc miöl flytiest ei meira, medan hallæri er í landinu, enn kaupmenn hafa til matar sèr; utanstefnr sèu ei framar enn lögbók vottar; sóknarmenn sèu sem bændr kiósa, oc sè svo rád fyrir þessu giört oc öllu ödru, at sálu virdugligs herra Hákonar konúngs sè til eylífs fagnadar, iúngherra Magnúsi til heidurs enn öllum íslendíngum til fridar oc fagnadar bædi í brád oc lengd.

## XXXI Kap. Daudi Arna biskups. Hardindi. Utkoma Kètils.

Þessi misseri vóru hafísar fyrir Austfiördum oc Sídu oc óáran á 1320
korni, enn um veturinn nær þorrakomu, á Agnesar messu dag

deydi Arni biskup Helgason frá Skálhollti í Biörgvín í Noregi, hafdi hann biskup verit í XV vetr eda XVI; hann var hógvær madr, fridsamr oc gódgiarn oc leitadi ei á menn med bannfæríngum, gèkk fyrir því allt spakliga í hans sýsslu. Þann vetr var hallæri mikit oc ofsahörd vedr, láu hafísar vid land, var þá kallat ísavor oc dóu menn úr sullti; var þá Audunn biskup upphafsmadr at því at heitit var á páskadagin á hinn heilaga Ión biskup, at hvörr skattbóndi um Skagafiörd skyldi gèfa klippíng honum til líkneskiugiördar, enn Rafn bóndi Iónsson í Glaumbæ játadi fyrir at gánga; vard þá svo skiót skipan á um vedurátt, at strax á páskadagin, er Ións skrín skyldi útbera *in processionem*, fèll nordanvedrit í logn, svo eptir hámessu var kominn á þeyr, tók af allan snió, enn hafís rak brott; vard grasvöxtr gódr um sumarit; þó varadi ekki bati sá lengi sem enn mun heyrast. Þá deidi herra Sigurdr er Hákon konúngr Magnússon hafdi giört at merkismanni sínum, einnin Ión Murti, enn þótt vèr vitum ógiörla hvöriir menn þeir voru. Um sumarit kom út aptr herra Kètill hyrdstióri oc Snorri lögmadr, oc lèt Kètill sveria Magnúsi konúngi land oc þegna á Islandi. Kom þá andsvar konúngs uppá þat brèf er íslendíngar kærdu nyúngar Audunnar biskups, oc telr konúngr þá Kètil oc Snorra oc Hauk Erlendsson fyrsta oc svo marga adra er þau vankvædi hafi fyrir sic borit, oc bannar biskupum allan ágáng vid þegna sína, enn bydr sínum mönnum at halda vid rètt sinn; tóku þeir nú vid lögsögn aptr Haukr oc Snorri.

## XXXII Kap. Andlát Audunnar biskups.

Egill prestr Eyúlfsson var í miklum kærleikum vid Audun biskup, hann sagdi honum oc syndi, hve mikill styrkr honum var ef Laurentius bródir á Þíngeyrum helldi eitt med honum, oc med fortölum sínum kom hann því til leidar, at biskup sendi Egil prest vestr til Þíngeyra, oc þadan fór bródir Laurentius med honum til Hóla, tók biskup honum sæmiliga oc baud vináttu sína, enn Laurentius hèt þá aptr hlydni oc hollustu. Audunn biskup átti dóttr er Olöf hèt, Þorsteinn hèt bóndi hennar, oc

voru þeirra synir Þorsteinn Raudr oc Eysteinn Raudr; eptir þat átti Olöfu Klement bóndi, þeirra son var Vígleikr. Eysteinn Raudr var med Audunni biskupi módurfödr sínum, oc fór hann med Laurentius vestr til Þíngeyra til læríngar, lærdi Laurentius honum svo at hann vard mikill framamadr oc hèldt sídar lengi Mariukyrkiu á Þrándasnesi, er módr-fadir hans hafdi haft. Arla sumars hafdi komit út Bergr Iónsson í Austfiördum med mörgum brèfum til Audunnar biskups, sendi biskup hann þegar sudr á Eyrar, at taka sèr far um sumarit; þar fór Audunn biskup utan oc med honum Egill prestr Eyúlfsson oc Ormr prestr Þorsteinsson er kosinn var til Skálholts eptir Arna; var þá biskupslaust á Islandi um hríd, enn Þorsteinn prestr Skardsteinn var Officialis í Hóla biskupsdæmi. Audunn biskup kom í Þrándheim um haustit, tók Eylífr erkibiskup vid honum med fagnadi, oc sat hann þar um veturin; um öll iól hèldt Audunn biskup ágiæta veitslu, oc var erkibiskup marga daga í bodi hans, enn snemma á iólum tók biskup kránkleik fyrst í fótin oc knèd, oc sídan um allan búkin, þyngdi honum æ því meir sem læknar leitudu fleiri medala, enn þó var svo mikil karlmennska hans, at hann sat oc gladdi gèsti sína sem hann kèndi einkis meins. A einn dag veitslunnar eptir Maríu mynni, þakkadi hann fyrst gudi oc Maríu Gudsmódir fyrir alla velgiörnínga sèr veitta, sídan bad hann alla nálæga menn fyrirgèfníngar, oc at bidia fyrir sèr til Guds, qvadst innan fárra daga framfara mundi af þessu lífi; öllum hinum bestu mönnum gaf hann sæmiligar giafir, bad þá sitia veitsluna hvad sem yrdi um sinn hag, gèkk sídan á brot med studníngi til rekkiu sinnar oc giördi alla skipan fyrir sèr; kaus hann sèr legstad at Maríukyrkiu þar i bænum, þar sem hann nædi ekki at liggia at Maríukyrkiu at Hólum er hann var biskup til; oc er hann var óleadr, kom Eylífr erkibiskup til hans, oc spurdi hvörr honum þækti best fallinn til biskups eptir sic á Hólum? hann svaradi: margir eru sæmiligir kènnimenn á Islandi, enn því vilium vèr svara Gudi at þar er enginn betr tilfallinn enn bródir Laurentius á Þíngeyrum, fyrst fyrir þá grein, at hann hefir þiónat vel oc gódfúsliga undir heilagri reglu, þarmed er hann hinn mesti klerkr til kyrkiulaga, roskinn oc einardr til allra mála, svo 1321

hann mætti ei láta undandraga heilaga kyrkiu med valdi, þann rètt, sem hún á at hafa; þurfa oc nordlendíngar á Islandi at hafa þann biskup yfir sic, er bædi sè stiórnsamr oc velkunnandi at hyrta óhlidna menn oc þriótska; enn þótt erkibiskup teldi hvörsu mótstædiligr Laurentius prestr hefdi verit þeim fyrrum, þá hann las yfir þeim bannsbrèf Iörundar erkibiskups, þá sagdi Audunn biskup meiri naudsyn heilagri kyrkiu, enn þá meingiörd er Laurentius hefdi þeim veitt; væri oc makligast at vèr bættum vid hann med þessum heidri ef vèr höfum hónum ofþyngt í nokkru, er hann oc ekki þess kunnandi, þótt hann giördi bodskap síns herra; mælti Audunn med svo mikilli áhyggiu, at hann tárfelldi oc allir nærstaddir med honum oc lofudu miöc ord hans; fèkk hann alla þiönustu oc andadist næsta dag eptir Agnesarmessu; snèru þá frændr hans oc vinir veitslunni upp í erfidrykkiu, oc var almæli manna at ei hefdi verit á Islandi slíkr höfdíngi fyrir margra hluta sakir, sem Audunn biskup, oc liggr hann at Mariukyrkiu í Nídarósi; hann var VIII ár biskup ekki full eda VII vetr oc nokkut lengr, oc lykr þar frá honum at segia.

## XXXIII Kap. Frá Skurd-Grími.

Þann vetr hinn sama deydi Ormr prestr Þorsteinsson er í biskups kosníngu var til Skálhollts oc vard hann ekki vígdr; var þá kosinn aptr Ormr Steinsson, hann vildi ei vera biskup, oc hèt at ganga til Róms oc dó á þeirri leid; þá var óáran mikil á Islandi þat vor oc manndaudi af sullti; enn er frèttist til Noregs lát Orms Steinssonar var kiörinn oc vígdr til Skálhollts Grímr Skútusson ábóti í Hólmi, var hann biskup III mánudi, oc er kaupmenn láu í höfnum oc bidu byriar um sumarit dó hann; hafdi hann þá stund eydt fyrir Skálholltskyrkiu III hundrud hundrada med stórveitslum oc ödru óhófi; enn sumir segia þarmed hann lèti drepa III hundrud fiár, var hann kalladr Skurd-Grímr oc vildu menn ei telia hann med biskupum í Skálhollti. Um vetrinn hafdi verit unninn hvítabiörn mikill á Ströndum sá er drepit hafdi oc etit VIII menn í Heliarvík. Þau misseri var Gudmundr Sigurdarson lögsögumadr med Snorra Narfasyni, hann var fadir

Þórdar er Laurentius kèndi, oc at sunnan oc austan á Islandi enn Snorri var at nordan oc vestan, oc bió at Skardi á Skardsströnd, því er þat eigi miöc ólíkligt at hann hafi verit af ætt Skards-Snorra Narfasonar, oc má þó verit hafa bródir Þorláks lögmanns.

## XXXIV Kap. Laurentius kosinn til biskups.

Eyláfr erkibiskup stefndi kapitulafund á Nidarósi um biskupakosníngu til Hóla, vildi hann ei annat enn kiósa bródr Laurentius þángat med samþykki kórsbrædra, oc var þeirri kosníngu at súngnum tídum oc hríngdum klukkum lyst, á kór i Nidaróss kyrkiu. 1322
Þá var fyrir nokkru útkominn Gudmundr ábóti á Þíngeyrum oc hafdi fengit rèttíngu af erkibiskupi á málum sínum vid Audun biskup; hann fór skömmu eptir alþíng oc tveir brædr med honum priór Biörn oc Laurentius at heimbodi til Holtastada; þar bió þá frú Gudrún Þorsteinsdóttir módir þeirra Þorsteins oc Benedicts Kolbeinssona. Þess er nú vant at taldar verdi ættir til slíkra höfdíngia sem þetta frændlid var, enn þat má ráda at verit hefr hit göfugasta fólk, er þá var í Nordurlandi, hygg ec hellst at frú Gudrún hafi verit ekkia herra Kolbeins Audkylíngs Biarnasonar. (Þat er gáta ein at hún hafi verit systir frú Hallberu er abbadís var at Stad í Reyninesi, oc önnr sú, þó nokkru óvissari enn hin, ef á mætti auka, at þær hafi verit af ætt Þorsteins Iónssonar í Hvammi, enn Kolbeinn madr Gudrúnar borit nafn Kolbeins Arnórsonar edr Kolbeins Kaldalióss; má þarum hver ætla sem vill). Þeir ábóti voru at bodinu sem áqvedit var, enn er þeir ridu heimleidis, mætti þeim vid Blöndu madr nokkr er sagdi þeim útkomu frú Málmfrídar á Mödruvöllum, (ei veit ec hvert hún var ekkia herra Þórdar Hallssonar, enn adra konu hafdi hann átt, oc ei er hennar gètit ádr) med henni var spurt út lát Audunar biskups, oc at aptr væri kosnir til biskupa Ión Halldórsson bródir af prèdikaralifnadi til Skálhollts, enn Laurentius prestr til Hóla; oc er þessi var fráridinn mælti prior Biörn: muntu ei kosinn til biskups bródir Laurentius? hann svarar: giör mèr engan dáraskap, svo margir kanúkar í Nídarósi hafa mic svo

miöc nidurlagt sem öllum er kunnigt, at ec vænti ei at þeir muni mèr nokkut til heidurs giöra; tveim dögum sidar fèkk brødir Laurentius brèf frá frú Málmfrídi, þar stód f., at hún hefdi heyrt því lyst í Kristskyrkiu í Nidarósi, at hann var kosinn til biskups á Hólum; vid þessi tídindi vard hann miöc hugsiúkr oc áhyggiufullr, skipti þó ei um sæti í kór edr kyrkiu edr adra háttu sína. Skömmu sídar kom Egill prestr Eyúlfsson út á Gáseyri, oc flutti at Þíngeyrum á Olafsmessu hinni sídari bródir Laurentius tvö brèf Eylífs erkibiskups med hángandi innsiglum hans, var þat innihald hins fyrra, at erkibiskup gaf honum upp sakir þær allar er hann hafdi giört á móti heilagri Nidaróss kyrkiu, erkibiskupinum oc kórsbrædrunum, oc heimfærdi þá grein af kyrkiunnar lögum, at klausturgánga sè sem önnr skírn, svo at hvad hellst madr hefir giört í móti Guds lögum, þá gèfst honum þat upp, iafnskiótt sem hann gengr undir heilaga reglu; þá var inntak hins annars at Eylífr erkibiskup med rádi allra kórsbrædra kaus hann til biskups á Hólum; med allri biskupstign, rètti oc valdi, oc at hann kæmi sem fyrst á erkibiskupsfund eptir vígslu. Bródir Laurentíus þakkadi þá Gudi, med öllum þeim sem nærstaddir voru, oc Guds módr María, slíka tign oc virdíngu sèr fátækum oc fyrirlitnum veitta af hans mildi, enn ei fyrir vináttu, aud nè fèmútu, ritadi þá þegar til Kètils hyrdstióra yfir Islandi oc Þorsteins prests Illhugasonar officialis, at þeir kæmi til hans sem skiótast, giördu þeir svo, oc ridu sídan med honum frá Þíngeyrum heim til Hóla á Laurentíus messudag; var biskups kosníngunni lyst á kór i Hólakyrkiu at súngnum tídum oc hríngdum klukkum, oc leiddi herra Kètill biskupsefni til sætis; þareptir lèt Laurentíus biskupsefni líta á stadarfèn oc þótti miöc auendligt til koma, oc stórum hafa þverrat sídan Iörundr biskup skildi vid; tók hann þá Skúla prest Illhugason aptr til rádsmanns, er verit hafdi á dögum Iörundar biskups, oc skipadi rádna menn oc roskna yfir öll stadarbú, bædi heima oc á útbúum, oc vildi hafa alla hina sömu skipan sem Iörundr biskup hafdi, qvadst hann ei vilia hlutast til dagligra verka, nema kiallara, fatabúrs oc kènnimanna; Maríumessu fyrri prèdikadi hann siálfr oc giördi þá sæmiliga veitslu, enn at því loknu reid hann þegar nordr í sýslu sína, fyrst at Mödruvöllum, þar voru þá ei nema II prestar med rádsmann-

inum oc II diáknar, vildi hann þar enga skipan á giöra, fyrrenn hann fin'di erkibiskup; sídan reid hann til Múnkaþverár oc var þar formannslaust, skipadi hann brodir Berg Sokkason prior yfir klaustrit, enn Þórir ábóti var þá í Noregi; hann dó ári seinna at Greniadarstad, þar var þá Ión prestr Kodránsson oc hèldt stadin af Þorsteini presti officiali, þvínærst snèri biskupsefni heim til Hóla.

## XXXV Kap. Vígdr Ión biskup. Frá Laurentíus.

Um haustit hinn 1ta dag Agústi mánadar var bródir Ión Halldórsson vígdr til Skálhollts; hann var merkiligr madr, klerkr mikill oc sæmiligr prèdikari; hafdi hann lengi framast til lærdóms í París oc Bónónia, oc taladi svo miúkliga látínu sem módrmál sitt; sat hann í Noregi um veturin, enn Laurentius biskupsefni var heima á Hólum oc skipadi þar til skólameistara Olaf diákna Hialltason; tók hann til at skygnast um framferdi manna lærdra oc leikra, oc áminnti alla at láta af liótum lifnadi oc raungum sidum, enn giördi at því sinni ekki framar at. Var sá vetr hardr oc svo vorit allt til Iónsmessu, þá vísiteradi Laurentius vestrsveitir; kyrkian í Hvammi í Vatnsdal átti tvo hluti í heimalandi, 1323 enn þridiúng átti Finnbiörn bóndi Sigurdarson oc fór þó med alla iördina, þótti biskupsefni kyrkian illa haldin af Finnbyrni, oc vildi fá presti nokkrum kyrkiuhlutan til medferdar; þat vildi Finnbiörn ekki oc horfdist til deilu mikillrar med þeim, enn med þeim hætti sefadist, at Finnbiörn seldi Laurentius sinn þridiúng fyrir LX hundrud; veitti biskupsefni aptr til vilia honum Egli syni hans Grímstúngnastad, oc færdu þeir fedgar þángat búnat sinn, enn Hvám veitti hann frú Gudrídi oc frú Þurídi til þess er hann kæmi aptr fra Noregi. Gudmundr ábóti á Þíngeyrum fór á fund biskupsefnis oc kærdi fyrir honum mál sitt, enn hann qvadst enga skipan þará giöra, fyrenn hann væri biskup ordinn, baud þó af sinni hendi at leggia málit í giörd, oc samdist svo med þeim, at biskupsefni tók vegna Hólakyrkiu oc sín, Ión prest Kodránsson, enn ábóti oc brædr, klaustursins vegna, kusu Sands-Orm er þá var prófastr á Vestfiördum oc hèldt Hollt í Önundar-

fyrdi, var sú giörd þeirra at klaustrit skyldi hallda Hialtabakka, sem Iörundr biskup hafdi tilsagt, allt þartil er erkibiskup giördi fyllri skipun þará, oc þótti brædrum tillagit lítit.

## XXXVI Kap. Utkoma höfdíngia.

Um sumarit kom út Ión biskup Haldórsson á Eyrum oc fór heim í Skálhollt, giördi hann þareptir vígslr af badum biskupsdæmunnum, því biskupslaust hafdi verit um þriá vetr; vígdi hann Pál prest Þorsteinsson oc Olaf prest Hialltason oc enn fleyri adra. Þá kom út eitt skip er átti Benedict Kolbeinsson oc annat Sigmundr Fótr Eyúlfsson; segia sumir at ei kæmi fleyri þat sumar. Þeir fengu þá sysslr af konúngi: herra Kètill Þorláksson, oc fyrir nordan herra Eyríkr Sveinbiarnarson riddari; herra Eyríkr átti Vilborgu dóttr Einars Vatnsfyrdíngs Þorvaldssonar, enn módir Einars Vatnsfyrdíngs var Þórdís dóttir Snorra Sturlusonar; þeirra son var Einar.

## XXXVII Kap. Laurentius vígdr oc kèmr út.

Laurentius biskupsefni bióst nú til utanferdar, hitti hann Sniólf prest Sumarlidason nordr í Eyafyrdi vid skip, hann hafdi iafnan verit hans óvinr; mæltust þeir fátt vid oc stutt, oc vildi Sniólfr enga lotníngu veita honum, at skilnadi mælti Laurentius: viltu nokkut minnast vid mig síra Sniólfr? hann svarar: engan Iúdaskoss vil ec kyssa þic! oc skildu þeir svo í styttíngi; fór Sniólfr prestr utan á Glódinni, enn biskupsefni á Krabbanum, oc med honum Arni sonr hans, Egill prestr Eyúlfsson, Stephán prèstr, Eyríkr raudi, Adalbrandr diákn oc nokkrir skipsveinar; lètu þeir út à Gáseyri á Barthólomæusmessu, sigldu uppá skèr nordr vid Hálogoland svo undan gékk kiölrinn, vard mönnum biargat oc miklum hluta vadmála; Egill prestr flaut á siglutrènu til lands, enn biskupsefni komst í bátin oc tók út vos mikit; sídan fór hann sudr til Þrándheims, oc er hann kom fyrir Eylíf erkibiskup fèll hann til fóta honum oc bad uppgiafar á misgiördum sínum vid hann; erkibiskup stód upp í móti honum, reisti hann upp oc

bad hann vera velkominn, qvad þat allt uppgèfit vera, svo sem stadit hefdi á brèfi því, er hann sendi til Islands, og bad siálfr fyrirgèfníngar, ef hann hefdi í nokkrum hlutum ordit affara vid biskupsefni. Sídan sagdi Laurentius honum frá hrakníngum sínum, oc at hann væri peníngalaus þángat kominn; erkibiskup harmadi skada hans oc baud honum med sveina sína à sinn kost um veturin, oc þat þádi biskupsefni giarnan, oc sat hann til bords nærstr erkibiskupi í gódu yfirlæti. Egill prestr sat á rádsmannsstóli, hiá Arna Vada systursyni Eylífs erkibiskups, var hann hinn kærasti vin Laurentii; biskupsefni kaus Stephán Hauksson til at þióna sèr vid bord, því hann var íslendskr oc hinn mesti meistari á hagleik, sylfurgröft oc uppkast; lèt Laurentius hann búa Iónsbolla Hóla biskups, oc grafa þar á látínuvers er hann hafdi diktat. Öll vandamál Hóla biskupsdæmis bar hann fyrir erkibiskup oc hafdi hans rád vid hvervetna; þat var eitt hit hellsta er bródir Ingimundr Skútuson kærdi á Hólakyrkiu um Mödruvalla mál; Laurentius svaradi því at klaustrit hefdi brunnit af vangiætslu brædranna, fyrir því þóttist hann ei skyldr at smída þeim upp annat klaustr, enn erkibiskup sagdi svo: at þat klaustr sem í fyrstu var sett á æfinliga at standa, ef sèrlig forföll ei banna, hafdi oc inventarium klausturins tekit verit til Hólastadar, oc fyrir því muni Hólabiskup ega klaustrit at byggia af nyu, enn ef brædr verda sannprófadir at vangiætslu sinni, rekist þeir í hardara klaustr; munum vér, sagdi hann, skipa *judices delegatos* út til Islands at dæma um þetta mál. Þat qvad Laurentius sèr vel líka. Gudmundr ábóti á Þíngeyrum hafdi oc ritat til erkibiskups um tíundarmálit, fyrir því sagdi erkibiskup svo til biskupsefnis: oss hefir hermt verit at þèr hafit lögliga haldit, þá þèr vorut múnkr á Þíngeyrum, at klaustrit ætti tíundir þessar, látit mic því eiga þat til ydar at frètta, herra Laurentius! at þèr skiptit vel vid klaustrit; hann svarar: viljit þèr, herra! stadfesta þat sáttmál sem vær Gudmundr ábóti oc brædr á Þíngeyrum giörum vor á medal heima? erkibiskup qvadst þat giarnan giöra mundi; voru oc fleyri ágreiníngar er tilfèllu á dögum Audunar biskups, er Laurentius hlaut úr at greida med vitrleik sínum oc þó med óhægindum. Um vorit kom Stephán prestr nordan af Háloga- 1324

landi med fè Laurentií er hann lèt þar eptir at hyrda um þat; gallt hann þá erkibiskupi veitíngarnar svo honum líkadi vel, oc var hann vígdr af Eylífi erkibiskupi á Iónsmessu baptistæ at vidstöddum Audfinni biskupi af Biörgvín oc Vilhiálmi biskupi af Orkneyum, veitti þá oc erkibiskup Egli presti Greniadarstad, qvad hann fallinn undir sic af vanrækt Audunar biskups. Skildi Laurentius biskup vid hann oc kórsbrædr med blídu, lèt í haf oc kom út á Eyrum á Bartholomæusmessu sama dag oc hann fór utan hit fyrra sumar; þat eitt skip kom til Islands á því sumri; urdu honum allir fegnir, þá hann kom aptr heim til Hóla; þau skip ráku öll aptr til Islands er ætludu utan þat sumar. Þá fór Ión biskup Halldórsson yfir Vestfiördu oc tók valld oc ábóta stètt af Þórdi ábóta at Helgafelli, enn vígdi aptr ábóta vígslu Þorstein Þorvaldsson; var borinn Hákon son Gissurar galla.

## XXXVIII Kap. Frá Laurentíus biskupi.

Á allra heilagramessu saung Laurentius hina fyrstu biskupsmessu sína á Hólum, var sú hin hellsta hans ástundan at vanda sem fagurligast framferdi sín siálfs, öllum sínum undirgèfnum til eptirdæmis, var hann svo stadfastr um kyrkiuvist oc tídkan, at hann fylgdi iafnan öllum tídum, nætr oc daga, vetr oc sumar, svo at eigi bar honum þat til at hann lèti slíkt hiálída; allar stórhátídir saung hann messu siálfr oc prèdikadi merkiliga oc gódfúsliga, med miklum tárum oc vidurkènníngu svo at opt var meiri grátr hans enn ordagrein, einkum í lágusaungum, svo margir er vidstaddir voru, snèrust til betrunar frá misverkum sínum; þá er hann kom í skrúdahús eptir messu, ávítti hann opt klerka sína fyrir þat, er honum þótti vanrækiliga hafa ordit í saung eda lestri eda ödru, hverki vildi hann láta teigla nè tvísyngia, kalladi slíkt bikarskap, helldr slèttan saung eptir nótum á kórsbókum; setníng um hríngíngar vildi hann láta vera sem á dögum Iörundar biskups, at hríngia um midnætti um vetr; um óttusaungshríngíngar klæddist hann, eptir þat gèkk hann í stúdium sitt, oc mátti þar enginn til hans koma, enn eptir saungstundina kom hann út til annara manna, var þá andlit hans optast

voru af tírum, lagdi sic sídan í sæng sína oc las þar enn sallt-ara vid liós, þar til á hann fèll svefnhöfgi. Þegar hríngdi *prima* las hann inni medan hann klæddist oc þvodi sèr, sídan hlíddi hann formessu, eptir messuna gaf hann blessan oc gèkk nokkra stund um kyrkiu hvern dag sem komast mátti, þareptir sat hann í Consistorio edr málstofu oc gègndi málum manna oc eyrindum þeirra er til stadarins komu, fram til þess er hríngt var til *tertiam*, þá gèkk hann aptr til kyrkiu oc var sídan úti til umskodunar hvörsu framfór; undir *nonam* þar nærst gèkk hann til borda oc sátu at med honum klerkar hans oc merkiligir gèstir; plagadi hann þá alla iafnan vel med ágiætu haldi, oc um hinar stærstu hátídir giördi hann dyrar veitslar, oc drakk iafnann eitthvört kèr til presta sinna umkríng. Þá er gódir gèstir komu til hans, var sæmiliga drukkit, enn um hátídir allar ómælt sem hver vildi hafa, oc var þar til hins sama at ætla hvört sem nokkurt skip var vid Island edr ekki; Iólaveitslr hèlt hann allar sæmiliga prestum oc klerkum, proventu mönnum öllum, brita oc rádakonu oc öllum heimamönnum med miklum kostnadi, svo allir höfdu nógan fögnud; um páska var veitt hófsamliga oc um allar stróhátídir, oc svo mikla forsiá hafdi Laurentius biskup at afla til drykkiarfánga, at hvar sem þau mátti fá, hafdi hann iafnan hlut í Islandsförum tveimr eda þremr, oc voru lestrekar hans Ivar leifr oc Eyríkr raudr í förum at flytia; átti þá optast Hólastadr nokkut í þeim skipum sem til Islands komu; voru hinir hellstu hans trúnadar menn at kiallara, fyrst Kètill Hallsson, sídan Einar diákn Haflidason prestr frá Breidabolstad er honum þiónadi trúliga medann hann lifdi; giördi hann vel vid gèsti sína, svo at allir þeir er meira voru vyrdir, sátu vid bord hans siálfs oc máttu drekka sem þeim líkadi, enn skyldi þó at engum halda. Daglega reikadi hann fyrst eptir máltíd, gèkk sídan í stúdium sitt, las oc teiknadi á vaxspiöld þat er hann vildi úr bókum edr sèr til minnis; ritadi Einar diákn þat sídan í eina bók; í herbergi biskups mátti enginn koma án ordlofs, var því loku-sveinn skipadr hvörn dag at geyma herbergianna; enn er rökkva tók las Einar diákn fyrir honum helgra manna sögr á norrænu eda látínu, þartil er hríngt var til aptansaungs, gèkk þá biskup um fyrstu

hríngíngu til kyrkiu oc las sálutídir, enn frá aptansaungnum til bords oc lèt klerk nokkurn lesa *lectionem* fyrir bordi sínu; at qvöldi um badferdartíma reikadi hann um gólf, þar til hann gèkk til sængr oc svaf fram til saungs; aldrei kom hann inní stad, nema þá hann vard þess vís, at dansleikar voru hafdir á qvöldum, lèt hann þá bera fyrir sèr skridliósin í stóru stofu, oc bannadi alla dansleika þar heima á stadnum. Hann vandlætti miöc vid lærda menn í hans biskupsdæmi, um hárskurd, klædaskurd oc lifnat þeirra, at þeir hefdu engar sundurgiördir oc hellst um þá er í meinum oc hórdómum voru saman; klædnat hafdi hann iafnan sem múnkar, kufl med skrúd ytstan klæda, því þótt hann væri af svartmúnka lifnadi, hélldt hann þat hann ætti at halda þat klædasnid er hann var af reglu-lifnadi undir kosinn; klerka oc diákna er lesa eda syngia áttu í heilagri kyrkiu lèt hann svo fræda oc typta, at þeir giördu allt sem best oc fagurligast, oc ættu þeir sem lesa skyldu, hátídliga at reynast um qvöldit ádr fyrir skólameistara oc taka hyrtíngu fyrir þat er áfátt var; presta, diákna oc klerka lèt hann saman kalla fyrir allar stórhátídir, oc giöra fyrir þeim fagra sermóna, hversu þeir skyldu haga sèr á sèrhvörri hátíd. Valþiöf prest setti hann *lectorem chori*; oc kèndi honum saungnám, Olaf prest Hialtason setti hann skólameistara til at kènna *grammaticam*, oc tók marga til kènnslu bædi gódra manna sonu oc fátækra manna börn, oc hèldt skólann vel oc merkiliga medan hann var biskup; gaf hann því Olafi presti Vallnastad, at hann sagdi svo, at þann stad skyldi iafnan halda sá er skólameistari væri á Hólum, var Valþiófr prestr capelán hans, enn hinn sami messudiákn þiónadi honum iafnan, Einar Haflidason er hann ann mest allra sinna þiónustumanna. Laurentius biskup gaf ölmueur miklar; hvern tíma, sem hann saung messu, lèt hann taka V ölmusumenn, oc gèfa nógan mat í eina máltíd, skipadi hann at XII ölmusumenn skyldu veru heima á Hólum oc útbúum stadarins, bædi til fædis oc klædnadar, oc þar med skyldu V fátækir menn takast um lángaföstu oc fram yfir páskavikö; á Mikiálsmesso skyldi rádsmadr nidursetia XX hundrud í vöru oc vadmálum, enn gèstamadr útskipta á vetri fram yfir hvítasunnu oc fyrir hátídisdaga, fátækum oc þeim er biskup vísadi til hans; var kosinn til gèstamans Þorsteinn Þor-

leifsson, góðgiarn madr oc skynsamr; offr þat er gafst stadnum í vadmálum, vöru eda klippingum lèt biskup bera í herbergi sín oc gèfa fátækum, ætludu menn þat mundi ei vera minna enn X hundrud á ári; þat sem fèll i sakeyri um allt prófastsdæmi hans í Skagafyrdi gaf hann einnin fátækum, blindum oc vanfærum oc þeim sem ádr höfdu í búi verit, enn til at reka prófastsdæmit skipadi hann presta oc launadi þeim starf þeirra; þegar prestar voru fátækir oc fèngu ei lèngr þiónat embætti sínu sakir elli edr veikinda, þótti honum óhæfiligt at þeir færi á húsgáng eda rekstr, fyrir því setti hann spítala fátækra presta á Kvíabekk í Olafsfyrdi, oc keypti þar til hálft landit af Arnoddi presti, enn kyrkian átti hálft, þótti þar hægt at afla til blauts fiskiar oc búdarverdar opt á ári, sem vel var hendt gömlum mönnum, lagdi hann þar til yfrit fè í iördum, qvikfiám oc búshlutum, oc svo vanhaga fè þat er audugir menn lètu úti í skriptir fyrir meinbugi oc ólögligar barneignir, hann baud oc at prestr hvöru í biskupsdæminu legdi þar til hálfa mörk á hverium þremr árum; oc fyrir hans bón iátudu bændr um Olafsfiörd oc vída um Fliót lambselldi þángat árliga, svo þau urdu L, vard þetta mikit fè, oc komst brádt undir gódar nægtir kosts oc qvikfiár fyrir hans forsiáliga rádstöfun; setti hann til rádsmans yfir spítalan fróman prest oc reyndan Biörn Önundarson er fyrrum var lærisveinn hans at Múnkaþverá, oc sídan lèngi rádsmadr á Mödruvalla klaustri, voru margir gamlir prestar á spítalanum ádr Laurentius fèlli frá; hann var vandlætíngasamr í sysslu sinni oc stiórnsamr í umvandan oc hyrtíngu þeirra hluta er í móti Guds lögum voru, giördi hann engan mun ríkra oc fátækra, helst um qvennamál oc tiúndargiörd oc annat slíkt. Prestaefni prófadi hann ætíd siálfr í líferni oc kunnáttu, saung oc lestri, ádr hann veitti þeim vígslr, sagdi þær oc óleyfdar þeim sem börn ættu í venum, oc ekki vildu tilsegia, oc þeim sem opinberir urdu at því setti hann skriptir miklar, oc lèt þá lèngi missa embættis.

## XXXIX Kap. Frá Laurentius biskupi oc ríkismönnum.

Gissr Galli Biarnason bió þá í Vídidalstúngu, hann var ríkr oc mikilhæfr, oc ei allra færi vid hann at skipta, edr um vid hann

at vanda. Biskup efadi tíundargiörd hans oc nefndi fyrir þat til III presta oc III leikmenn at virda fè hans, enn baud honum at nefna iafnmarga ímóti, vildi Gissr þat ekki í fyrstu, oc var hardt í horn at taka, þar til er hann sá at biskup vægdi ekki fyrir honum; fór þá svo at fèn voru vyrdt XL hundrudum meira enn hann hafdi giört tíund af. Þorsteinn bóndi Kolbeinsson var óqvæntr; hann tók Gudrúnu Illhugadóttr oc lagdi í sæng hiá sèr opinberliga, voru þó á med þeim fiórmenníngs mægdir. Þeir frændr voru vinir biskups, oc bad hann Þorstein því heimugliga láta af þessu órádi; enn sem þat tiádi ei, áminnti hann, oc lèt sveria méinbugina; samt hèllt Þorsteinn uppteknum hætti, þar til er biskup bannfærdi þau bædi. Þá gèkk Þorsteinn til hlídni, oc sættist vid biskup fyrir umtölr frú Gudrúnar Þorsteinsdóttr módur sinnar oc Benedicts bródr sins. Þá er Rafn bóndi Iónsson í Glaumbæ edr Benedict bóndi Kolbeinsson urdu berir ad hórdómum, edur syfiaspellum, tilsagdi hann þeim ad koma til Hóla oc standa skriptir, vóru þeir þá sem adrir skriptamenn leiddir á Biarnfela á skyrdegi oc svo á öskudegi þá meira brutu. vildu slíkir menn miklu helldr láta úti stórfè enn þola þann kinnroda oc augliósa hnekkíng, er biskup giördi þeim til vidvörunar at falla ei optar þannin. Enn sem þeir höfdu tekit lausn, lèt hann þá sitia hiá sèr um páskir at ágiætum veitslum oc virdíngum, vard hann af því ástsæll med ótta, svo flestir allir hinir meiri menn áttu vingott vid hann hèr á landi bædi lærdir oc leikir, enn margir tóku vörulán af Hólastad oc settu aptr á pant gull oc sylfr, eignadist biskup þat, ef ei kom borgun fram í áqvedin tíma.

## XL Kap. Frá Sniólfi presti.

Herra Eyríkr Sveinbiarnarson hafdi þá sysslu fyrir nordan land, honum leigdi biskup Flugumyri um fiögr ár fyrir XII hundrud árliga, lauk hann þau í húsabót oc ödru er stadnum var til þarfa; sídan var herra Eyríkr í Vatnsfyrdi oc þar andadist Vilborg kona hans; þá kom út Sniólfr prestr Sumarlidason, hann var ofláti mikill, hèldt sic vel at mat oc klædum; hann hafdi brèf frá nokkrum kórsbrædrum í Nidarósi til Laurentius biskups,

oc beiddu þeir hann at hann tæki vel vid Sniólfi, enn fyrir því at hann vildi enn þá enga virdíngu eda lotníngu sýna biskupi, gègndi biskup ei hans eyrindum, fór þá Sniólfr prestr til Ións biskups í Skálhollti oc baud honum sína þiónustu, enn hann tók því ei helldr oc rádlagdi honum at audmykia sic fyrir Laurentius biskupi, sínum yfirmanni, qvadst vilia rita med honum, oc med því Sniólfr prestr fèkk hvörgividtöku, fór hann aptr nordr til Hóla, oc laut Laurentius med knèfalli; þá mælti biskup: hvörsu ólíkr ertu nú síra Sniólfr ordinn siálfum þèr, oc frá því sem þú varst nærst; hann svarar: þvíat kiarkteinninn er nú burt úr hálsi mèr; stód biskup upp í móti honum, setti hann hiá sèr oc veitti honum þann dag, oc gaf honum Háls í Fnióskadal, því at annat beneficium var ei laust; þó leitadi hann opt á biskup sídan med ofmetnadar ordum, helst vid drykkiu at Múnkaþverá, er biskup var á visítatiu sinni; giördist Sniólfr prestr miöc drukkinn oc spratt upp med bríxlum oc meinyrdum vid Laurentius biskup, hafdi hann þá mikla þolinmædi vid, oc svaradi èngu, oc gèkk hann á brott eptir Maríumynni, enn Sniólfr fèkkst heldr sterkt vid drykkin, þvíat um nóttina tók hann þau harmqvæli er öllum ofbudu, bólgnadi hann svo upp at hann var gyrdtr líndúki, oc lá vid at springa, bad hann þá biskup at koma til sín, oc tilgèfa sèr illyrdi sín, þat giördi biskup, las yfir honum oc lagdi til gód rád, vid þat batnadi Sniólfi presti oc meinyrdti hann biskup alldrei sídan. I þann tíma dó herra Sæbiörn oc Ivar nef.

## XLI Kap. Lögtèkinn dyridagr.

Ión biskup Haldórsson í Skálhollti hafdi þá verit hèr einn vetr er hann tók ábóta-stètt af Andresi dreng í Videy, oc vígdi þángat aptr til ábóta Helga Sigurdarson, Ión biskup kom fyrstr hèr til lands med *festum corporis christi*, þat köllum vèr hinn dyradag, þá hátíd hafdi Urbanus páfi hinn IV sett fyrir LX árum, lèt Ión biskup lögtaka hann um sumarit á alþíngi um allt Skálhollts biskupsdæmi, at haldast skyldi fimtudagin næstan eptir Trinitatis, oc hafa þá allan hátídar messusaung oc tídagiörd, giördi þá Laurentius biskup þat einnin at hans dæmi, med samþykki allra nord- 1325

anlands, oc baud at halda þann dag sem hina stærstu hátíd; voru þá kærleikar miklir med þeim biskupunum, oc var þá allra manna mál, at ei mundi verit hafa á Islandi meiri látínu klerkar eda lærdari biskupar samtídis enn þeir; Laurentius biskup vígdi þá priór Berg Sokkason til ábóta á Þverá, heimti biskup þar skuld hundrad hundrada, at Þverár klaustri eptir reikníngi Audunnar biskups, oc galt Bergr ábóti landit at Gudmundarstad fyrir XX hundrud oc V jardir adrar, medtók þær Stephán prestr Gunnlaugsson í umbodi biskups. Um vorit eptir kom Gudmundr ábóti
1326 á Þíngeyrum oc Benedict Kolbeinsson med honum nordr til Hóla á fund Laurentii biskups, oc töludu um tíundarmálit, baud biskup ábóta tvo kosti, at kiæra þat fyrir erkibiskupi í Nidarósi, edr leggja í sitt umdæmi, oc þat kaus ábóti med gódra manna rádi, at biskup skyldi einn skèra úr, oc skipa þar um sem hann vildi fyrir Gudi tilsvara, oc Þíngeyra klaustri væri skadlaust; biskup qvadst vita at svo mikit vald hefdi hvörr Hóla biskup yfir Þíngeyra klaustri, at seint edr aldrei mundu ábótar þar fá tíundir af Hóla biskupi, samt vildi hann nú svo nidursetia þrætu þessa, at Hóla biskupar, eptirkomendr sínir, syndu ekkèrt ofurvalld klaustrinu, fyrir því lagdi hann í stad tíundanna klaustrinu iördina Hvamm í Vatnsdal oc Hundastad oc giördi þar brèf um; voru vid þann giörníng Egill prestr Eyúlfsson oc Skúli prestr oc Benedict Kolbeinsson, þat sáttmál samþykti Eylífr erkibiskup sídar; biskup gaf oc próventu Kálfs bródr síns XL hundrud til Þíngeyra klausturs, oc vard honum þat allt til ágiætis.

## XLII Kap. Mödruvalla brædra mál.

Sumarit fyrir hafdi komit út bródir Ingimunds Skútuson med brèf oc bodskap erkibiskups um Mödruvalla mál, enn á þessu sumri kom ekkèrt skip út, lögdu þó öll til hafs frá Noregi, var þá vínlítit í Skálhollts biskupsdæmi; svo vída lagdist af messusaungr í burtsaungum. Þat sumar var lögtekin Magnúsar-messa Eyajarls fyrir iól, enn leyft at vinna Vta dag í iólum, oc midvikudaga fyrir ióiaföstu oc lángaföstu; vedr voru hörd, brant kyrkin á

Breidabólstad í Fliótshlíd, hvarf Markarfliót eina dagstund. Þá hóf bródir Ingimundr mál sín, oc voru þeir skipadir dómendr af erkibiskupi, Jón biskup Halldórsson oc Þorlákr ábóti í Þykkvabæ, oc at þeir skyldu semia med Laurentius biskupi oc brædrum, ridu þeir Jón biskup oc ábóti sunnan um sumarit oc nordr, oc settu stefnudag á Mödruvöllum á Olafsmessu hina fyrri; þar kröfdu brædr sem lifdu, Ingimundr, Þórdr oc Þorgeir, klausturs af Laurentius biskupi, sem þeir voru tilvígdir, því nærst kærdu þeir at biskupar Audunn oc Laurentius hefdi tekit klaustrit oc allar þess innrentr undir Hólastad, enn þeim væri skipat á vist sem ödrum veralldar mönnum, oc kröfdu dómendr at giöra sèr lög af þessu; Laurentius biskup svarar; at bædi hefdi klaustrit brunnit, oc þeir verit á vist skipadir fyrr enn hann var til biskups kiörinn, baud þó at láta smída klaustr aptr, af þeim faungum, sem hann mætti fliótast oc framast, oc taka þar inn med kost oc klædi svo marga brædr, sem voru á dögum Jörundar biskups, skipa príór yfir lifnadin oc rádsmann yfir stadin, enn Hólabiskup siálfr skyldi vera ábóti þeirra, svo þat klaustur sè í öllum greinum sem þat var sett af Jörundi biskupi; gengu brædr at þessu bodi hans, med rádi oc tillögum Jóns biskups, oc hinna bestu manna er þar voru vidstaddir, oc var sá sáttmáli stadfestr med handlögum, brèfum oc innsiglum dómendanna, oc þeirra er sök áttu saman med fullri vináttu; giördi Laurentius biskup þeim öllum sæmiliga veitslu at Hólum á Olafsmessu sídari; ridu sídan bádir biskupar oc Þorlákr ábóti til Rafns bónda í Glaumbæ, þadan til Þíngeyra, þadan at Breidabólstad í Vesturhópi oc þádu í hverium stad gódar veitslr oc ágiætar giafir, sidan skildu biskupar med blídu. Lèt Laurentius biskup þegar fá til trèsmidi oc draga at vidu úr ímsum stödum, svo klaustrit vard byggt skiótliga oc vel, lagdi hann því til heiman frá Hólum skrúda oc postula-klukkr, sídan voru brædr innteknir, oc klausturregla sett oc sáttmálit giörvallt fullendt; um haustit var bródir Þorgeir skipadr príór, enn Þorkèll Arngrímsson rádsmadr. Þat haust á Símónsmessu aptan útgaf Jón biskup í Skálholti skipan sína oc úrskurd um afgiöf hvala, sem í land verda fluttir edr veiddir á helgum dögum, oc svo adra helgra daga veidi, ef hún verdr meir enn hundrad, þá skal hún skiptast í fióra

stadi, sem önnr skiptitíund, enn hvar sem er hundrat eda minna, hafi fátækir einir afgiöf af. Hann hafdi litlu sídar útgefit adra um bannsektir, telr hann þar XXIV sakir er madr fellr í bann af siálfu verkinu, oc er þat lángt rit oc samit med miöc vöndudum stíl; Valdamenn héldust þann tíma hinir sömu í landi hèr.

## XLIII Kap. Enn frá sama.

Um veturin eptir rufu brædr á Mödruvöllum allt sáttmálit vid
1327 Laurentius biskup; reid bródir Ingimundr á lángaföstu sudr í Skálhollt, enn hafdi þó ádr sínt óhlydni Hólabiskupi; vissi enginn hans eyrindi, enn þat var raunar at hann bar þann róg í eyru Jóni biskupi, at Laurentius hefdi ei haldit sáttmál þeirra, því trúdi Jón biskup oc sendi mann med brèf á föstu um veturin nordr til Laurentius biskups, kom hann nærri passións-sunnudegi til Hóla, oc flutti brèfit, var þat stutt oc fiordat, segir hvad Ingimundr hafdi flutt oc Jón biskup mundi fyrir þá sök koma hlióta nordr at sumri, oc leggia dóm endiligan á málit; Laurentius biskupi brá miöc vid, oc sendi Pál prest Þorsteinsson sudr til biskups med annat brèf lángordt, segir þarí at hann vænti ekki þess at hann mundi leggia svo skiótan trúnad á óprófada sögu Ingimundar, innfærdi oc í brèfit lögmálsgreinir uppá þat, at þeir Jón biskup oc Þorlákr ábóti, hefdi nú ei lengr valld at dæma yfir því máli at lokinni sáttargiörd; vid þat vard Jón biskup afarreidr, ritadi ekkèrt aptr enn qvadst skyldi dæma um málit sem ádr, sendi hann þá Þórd diákn son Gudmundar lögmanns, þann er Laurentius hafdi mentat fyrrum, oc annann diákn med, oc fylgdarmann hinn þridia nordr til Hóla, komu þeir á Trinitatis sunnudag, oc fann Þórdr Laurentius biskup í skrúdahúsi, þá hann afskryddist, eptir þad er hann hafdi súngit hámessu, oc qvadst hafa brèf Jóns biskups at lesa fyrir honum; biskup qvad þat eitt brèf vera mundi at hverki sèr nè Hólakyrkiu, mundi bati í vera, oc bannadi honum at lesa þar nokkurt stofnubrèf, enn sem Þórdr ætladi at lesa brèfit, gèkk biskup til bords oc allir hans klerkar, voru oc diáknar þessir vid bord hans um dagin velhaldnir; um morgunin eptir formessu fóru þeir til bords oc lètu södla hesta sína, oc um hámessu eptir Offertorium var Þórdr kominn fyrir Maríualtari, oc

hóf at lesa upp stefnubrèfit; biskup sat í sæti sínu oc mælti: fyrirbyd ec þèr Þórdr! at lesa hèr nokkurt stefnubrèf, eda at giöra nokkurt rugl í heilagri messu; vid þat hlióp upp Valþióf prestr, oc þreif í brèfit med Þórdi, oc vildi hnykkia ví af honum, enn biskup bannadi þat, oc bad færa Þórd útaf kyrkiunni, svo hann giördi ekkèrt háreysti í henni, oc svo var giört oc kyrkjan læst, las Þórdr þá brèfit í stöplinum oc negldi sídan framaná kyrkiuhurdina, reid sídan sudr oc sagdi Jóni biskupi frá, oc afflutti miöc fyrir Laurentius biskupi; Hóla klerkar litu á brèfit oc var þat á látínu ágiætliga stílat, var þat inntak í: at Jón biskup oc Þorlákr ábóti stefna Laurentius biskupi, nordr at Mödruvöllum um ádrtalit mál nærri *translationem Benedicti*. Fyrir stefnudagin komu þeir Jón biskup oc Þorlákr ábóti at sunnan oc herra Kètill oc margir adrir mikilsháttar menn, oc höfdu med sèr kost oc öl; Laurentius biskup hafdi oc látit þar sæmiliga fyrirbúa, oc hina fremstu presta sína vera þar fyrir, enn hann byriadi visítatíu sína nordr oc sat í Laufási fram til stefnudagsins, voru þessir prestar hans hinir helstu med honum: Þorsteinn prestr Illhugason (Skardsteinn), Egill prestr Eyúlfsson, Jón prestr Kodránsson, Eyríkr prestr bolli oc enn fleyri; hèllt hann rád vid þá, hvert hann skyldi koma til stefnunnar edr ei, oc sem hann kom ekki í fyrstu, med því hann sagdi þá endat hafa sitt dómvalld med sáttmálinu fyrra, stludu þeir svo hardt at ganga, at búit var vid at þeir mundi afsetia hann biskupstign sinni, sem fyrir óhlýdni vid erkibiskup, þóttist hann þá vita, at nokkurn skada mundu þeir giöra sèr edr Hóla kyrkiu, ef hann kiæmi ekki, oc fór því at rádi vina sinna, yfir fiörd til Mödruvalla, fundust biskupar, oc vildi Laurentius mynnast vid Jón biskup, enn hann veik sèr undan, oc spurdi, hvert hann héfdi bodit at leggia öfluga hönd á diákna sína í Hólakyrkiu oc draga þá út? Laurentius biskup kènndist þat at hann hefdi bannat Þórdi at giöra nokkurt rugl í heilagri messu, oc sèr hefdi óliúft verit, at heyra stefnubrèfit at því sinni; Jón biskup qvad sèr hefdi flutt verit at Valþiófr prestr oc Sigurdr snidill steikari hans, hefdi fremstr lagt hendr á sendimenn sína, oc fyrir því taldi hann þá báda í banni, oc ei vill hann þeim samneyta fyrr enn þeir væri leystir, enn med því Laurentius kènndist ekki, illa

[illegible]

hann hefdi þat skipat, qvadst hann ei mundi því framfara vid hann siálfan um sinn; vildi Jón biskup ekki annat, enn hann oc hans menn hefdi herbergi útaf fyrir sic at matast í um qvölldit, oc fyrir því var Laurentius biskup í annari stofu med sína menn; um morguninn er þeir voru setstir í dómsæti, hóf Jón biskup mál sitt oc taladi lengi á látínu, sagdi hvar málum þessum var komit, oc baud Laurentius biskupi at svara fyrir sic, hann svaradi á norrænu oc mælti: vita menn þat herra Jón! at þèr talit svo miúkt, látínu sem ydar módr mál, þó skilr almúgi þat ekki, fyrir því tölum vèr svó lióst, at allir sem nálægir eru megi skilia, oc er þat fyrst mín tala, at ec vil hálda alla þessa sáttargiörd, sem vær urdum hèr í fyrra sumar ásáttir um, oc ef prófast at ek hafi hana í nokkru rofit, vil ek þat giarnan bæta. Jón biskup sagdi at hann oc Þorlákr ábóti vildu fast á því standa, sem regla hins heilaga Augustini bídr, at brædr í hans klaustri hefdi öll rád yfir klaustursins fè öllu, svo at þeir þyrftu ei at sækia í annara hendr, hvad hellst sem vidbæri, eins oc ölmusumenn veraldarmanna, oc þat qvadst hann mundi úrskurda, oc þó Jörundr biskup hefdi þetta klaustr í fyrstu fagurliga stiptat, byriadi þó at umbæta þat er áfátt syndist; taladi biskup margt hèr um med snilld mikillri, svo at flestum syndist þat lög er hann mælti, hardnadi hann því meir í sinni rædu, sem þeir biskuparnir töludu fleyra hèrum, oc sem Laurentius biskup hafdi fengit útgaungu leyfi til rádfæríngar vid menn sína, oc sá hversu horfdi, þóttist hann vita, þó þessir dómendr úrskurdudu brædrunum öll veraldlig rád yfir klausturs fènu, kynni þó svo verda at erkibiskup ónytti þann dóm, enn stadfesti hit fyrra sáttmálit, kom hann svo inn aptr, oc spurdi þá Jón biskup at hvörri sætt hann vildi gánga? Laurentius biskup qvadst þann kost mundi upptaka sem flestir mundu virda sèr til lítilmensku, enn þat er, at ec vil, vegna fridar, svo vèr ei deilum illdeildum, játa því at brædr á Mödruvöllum hafi rád yfir klaustr-fè oc veraldligum hlutum, ef erkibiskup vill þat samþykkia. Þessu játudu brædr oc var sú samþykkt giörd med handtökum oc brèfum; afhendti Laurentius biskup Þorgeiri príór þá þegar allt stadarins fè bædi fast oc laust; skildu biskupar med miklli blídu, oc lagdist sá ordrómr á at Laurentius biskup hefdi farit mioc halloka fyrir sunnanmönnum; hèllt hann fram visitatíu

sinni nordr eptir; oc sem hann var á Greniadarstad med Egli presti Eyúlfssyni hinum kærasta vin sínum, brá hann honum á einmæli, oc qvadst una illa vid sátt þessa, at brædr á Mödruvöllum útsöi med glatri oc heimsku öllu því fè er Jörundr biskup gaf undan Hólakyrkiu, oc þat fyrra sáttmálit sè ónytt giört, oc med því hann trúdi Egli presti best af öllum sínum mönnum, qvadst hann hafa hugat at senda hann nú í sumar med brèfum sínum til Eylífs erkibiskups, ef hann vildi nokkra leidrètting giöra á Mödruvallamálum; Egill prestr qvadst vera allra manna skyldastr til at giöra hans skipan, enn kèndi sic miöc vanfæran til at fara med þessum málum, er svo miklir herrar oc dyrir klerkar hefdi úrskurd álagt, oc siálfr Laurentius biskup hefdi stadfest med innsigli sínu, þartil er biskup baud honum undir skyldu hlídni vid sic, oc þat hann hefdi verit lærisveinn sinn, þá mælti Egill prestr: dyrt er drottinsordit; oc qvadst fara skyldi, gladdist þá biskup, ritadi erkibiskupi allar ástædr sínar, sendi honum allan *processum* oc hvörutveggiu sáttargiördina, oc þar med gódar giafir; fór Egill prestr med einum sveini utan á Gáseyri; byriadi þeim vel oc kom á fund erkibiskups oc var med honum á hans kosti, enn sem Jón *biskup* frètti utanferd hans, grunadi hann at nokkut mundi undirbúa um Mödruvallamál, fyrir því sendi hann einn hinn hellsta prest sinn Arngrím Brandsson á fund erkibiskups med brèfum oc giöfum, oc bad hann stadfesta hit sídara sáttmálit, tók erkibiskup oc vel vid honum oc hèlldt á sínum kosti.

## XLIV Kap. Frá Jóni biskupi.

Jón biskup fór um sumarit um vestfiördu oc giördi vígslr at Reikiahólum, hann skipti oc prófastdæmi í Þorskafiardarþingi frá Hrútafiardará til Horns, oc frá Klofníngum til Bards; í þeirri umreid gaf hann út í Vatnsfyrdi í vikunni eptir Maríumessu fyrri, sitt máldaga oc umbodsbrèf yfir rekum Skálholltsstadar á Vestfiördum, telr hann þá upp, oc hversu þeir sèu flestir undir stadin komnir, nefnir hann þar þessa menn, er reka hafi átt eda goldit vestra: Jón Sighvatsson, Gudmund Skálld, Brand oc Bergþór sonu Einars Andmanns, Þorgrím Einarsson, er ec ætla þann er gètr í sögu Arna-

biskups Þorlákssonar, Gudlaug Oddsson *), (mega þessir menn sumir andadir verit hafa er hèr var komit); Tilskilr hann at umbodsmadr stadarins færi biskupstíund heim úr Arneshrepp í Skálhollt, enn helmíng spiks hvala, sem reka á Arnes rekamörkum, oc tíundarhvala sem þángat eiga at greidast skuli hann hafa fyrir starf sitt, oc salta nidr stadarins hlut óskaddadan oc flytia í Hrútafiardarbotn, abyrgist fyrir handvömmum þeirra er medfara, oc sendi skyr ord í Skálholt nær vitia skal, enn þá hvali sem ósalltandi eru, skal hann hafa fullt valld at selia med vitordi skilríkra manna, oc kaupa þarfyrir adra betri hvali; Trekyllisey legir hann I hundrad enn Avíkurland fyrir mark; alla hvali sem uppreka á stadarins rekaströndum skal umbodsmadr til sín flytia, hafa af þridiúng spiks, enn Skálhólltsstadr tvo hluti, oc fara med sem fyrr segir. A þeirri ferd vígdi Jón biskup *in festo Cosmi et Damiani* kyrkiuna í Snælíngsdalstúngu oc skipadi hennar máldaga.

## XLV Kap. Frá Mödruvalla brædrum oc biskupi.

Þá er brædr á Mödruvöllum höfdu fèngit öll rád yfir klaustur sínu, fóru þeir med engri forsiá, hlutadist þá til med þeim bóndi sá er Uppsala-Hrólfr hèt oc adrir bændr í Eyafyrdi, voru setr fiölmennar oc kostnadarsamt á klaustrinu; Laurentius biskupi mislíkadi þat miöc, enn brædr qvádu hann hafa afhendt þeim öll forrád; þótti honum þá verit mikit komit þeim í hendr. Um veturin eptir jól reid Þorgeir príór sudr í Skálhollt, gisti hann at
1328 Reykium í Skagafyrdi med Þorleifi presti er þá var hinn mesti hörpuslagari, þar hvurfu um nóttina öll þau brèf er hann ætladi at flytia Jóni biskupi Haldórssyni frá brædrum, Laurentius biskupi til afsökunar, kèndi hann þetta í fyrstu Laurentius biskupi oc Byrni presti Ófeigssyni, er þá hafdi prófastsdæmi í Skagafyrdi, at fèngit hefdi drengi til at færa þau biskupi; oc þó príór kiæmi í Skálholt med þenna flútníng, kom honum til einkis; tók þó Jón biskup vel vid honum, oc sendi aptr med honum gullbrædan kaleik oc hökla tvo, er hann gaf kyrkiunni á Mödruvöllum til syndalausnar sèr, enn Augustíni klaustri til heidurs; enn þess leid vet-

*) Gudlaugr Oddsson man verit hafa bródir herra [illegible].

urin, frètti Laurentius biskup at eydt mundi kost oc heyi á Mödruvöllum, reid hann þá nordr þángat eptir páskir, var þar fyrir fiöldi bænda med vopnum, Uppsala-Hrólfr oc fylgdarmenn hans, var engin *processio* giörd móti biskupi oc ei vard af qvedium brædranna vid hann, gèkk hann fyrst til kyrkiu oc sídan til stóru stofu til máltídar, sátu brædr á annan bekk, oc höfdu kost oc öl öllu frídara enn biskup oc hans menn, oc eigi mæltust þeir vid, var biskup þar um nóttina, oc reid sídan til Þverár, þar þág hann ágiæta veitslu at Bergi ábóta Sokkasyni vin sínum, enn giördi ord á at aptr mundi hann koma til Mödruvalla eptir II nætr; reid hann aptr þángat oc var þá bænda múgurinn á brottu, gèkk biskup á Capitulum, oc bad Þorgeir príór giöra sèr reiknìng á stadarfènu, qvadst ei vilia svara því Gudi at brædr eyddu því lengr; þeir neitudu því þverliga at standa honum nokkurn reiknìng; lèt þá biskup lærda menn taka lykla af þeim, þó naudigum, oc líta á kost oc hey, oc var klaustrit óbyrgt af hvörutveggia; skipadi hann þá rádsmann yfir klaustrit bródir Steinþór Sokkason (menn hyggia bródir Bergs ábóta), enn hafdi príór Þorgeir naudigan med sèr heim til Hóla, qvad hann í óleyfi sínu farit hafa í annat biskupsdæmi; tók hann undir sitt valld oc Hólakyrkiu alla stiórn á klaustrinu. Þat þótti mönnum enn snarrædi, oc mikit rádist ádr erkibiskups úrskurdr kiæmi, enn hann qvad sèr líkast þykia, at hann mundi stadfesta hinn fyrra giörníngin um sáttina, oc svo hefdi sic dreymt.

## XLVI Kap. Lyktir klaustur mála.

Nú verdr at segia frá sendimönnum biskupa at þeir sátu med Eylífi erkibiskupi um veturin á rádsmannsstóli vid einn disk oc sváfu í einu lopti, hafdi þó hver sinn svein oc sína ydiu lagdi hver fyrir sic. Arngrímr prestr lagdi sic um veturin eptir organs smídi oc saung hiá meistara nokkrum, enn mælti fátt vid erkibiskup um málit, kom hann út sídan med organid; enn Egill prestr kom sèr í tal vid erkibiskup sem optast, syndi honum med brèfum oc innsiglum bestu manna í Hólabiskupsdæmi, hversu trúliga Laurentius biskup hefdi haldit hit fyrra sáttmálit í öllum greinum, oc

flutti þat mál sem best, kom hann því svo med viturleik sínum oc dyggvum flutníngi, at erkibiskup samþykkti oc stadfesti med rádi kórsbrædra í Nidarósi, it fyrra sáttmálit med Laurentius biskupi oc brædrunum, enn ónytti hit sídara. Kom Egill prestr út á Eyrum oc heim til Hóla á Laurentii vöku, afhendti þegar biskupi bréf oc sendíngar erkibiskups, oc voru sylfurskál mikil oc kyrkiulaga bók; vard hann vid þat gladr oc þakkadi Gudi, oc Egli presti flutníngin allansaman á málunum, lèt hann snúa látínu brèfi því á norrænu svo allir skilia mætti, oc var þat sídan lesit í kór fyrir brædrum á Mödruvöllum; fèkk Laurentius biskup af málum þessum hina mestu virdíngu enn öfundarmenn hans kinnroda oc óvirdíngu; tók hann þá klaustrit á Mödruvöllum fullkomliga undir sitt valld, oc hèllt brædr þar at öllu eptir skipan Jörundar biskups, er hann setti þar í fyrstu, enn bændr þá er stadit höfdu móti biskupi med brædrum, sókti hann til sekta oc helst Uppsala-Hrólf, hann bannfærdi hann at lyktum, oc í því stód Hrólfr medan biskup lifdi þadan af.

## XLVII Kap. Frá ímsu.

Þau misseri brann trèvirkit allt af Krists kyrkiu í Þrándheimi, hrapadi múrinn vída, oc fórust margir dyrgripir, ritadi þá Eylífr erkibiskup þenna atburd biskupum á Islandi oc var bedit fiár um land allt henni til uppbyggíngar, gáfust þá stórfè; kom ut á Eyafirdi Bergr lestreki Eylífs erkibiskups oc færdi Laurentius biskupi mytr, þat best var sídan á Hólum, oc budka tvo med balsamum; sat Bergr á Hólum um veturin, oc sendi biskup aptr med
1329 honum XXX pakka vöru, var þá med þeim hin blídasta vinátta. Bergr var umbodsmadr erkibiskups oc Biarni selhryggr; þeim var lokin, oc í skip lögd, sú VI ára páfa tíund, sem fèll af Hólabiskupsdæmi á dögum Audunnar biskups, oc collectores yfirskipadir, voru þad þeir Þorsteinn prestr Illhugason skardsteinn oc Sniólfr prestr Sumarlidason. Þá hafdi í þann tíma dáit Þorsteinn Þorvaldsson bóti á Helgafelli oc var vígdr þángat Þorkèll Einarsson kanúki frá Videy; þá deydi oc Hallbera Þorsteinsdóttir abbadís at Stad í Reyninesi, hin göfugasta kona; þóttust menn siá margyg

af landi sudr fyrir nesium; þá vard deilusamt á alþíngi um sumarit, er þó ei þess gètit med hverium atburdum var; þeir voru lögsögumenn Haukr Erlendsson oc Snorri Narfason, lèt Snorri skèra vebönd í sundr, er umhverfis vóru dómhringinn, þat þótti mönnum miöc fáheyrdt, oc vard honum þat saknæmt; sá madr var fóthöggvinn þau misseri er Asbiörn dettiás hèt; þá lèt Laurentius biskup smída kyrkiunni á Hólum tvo texta kaleik oc skrín, ágiætlega búit, kom oc út líkneski Gudmundar biskups oc var flutt heim til Hóla; Einar gullsmidr smídadi þat er biskup lèt smída af gripum þessum; (ógiörla vèit ec hvört hann er sá Einar gullsmidr er lytíngsætt er frátalin, enn ef svo er, þá eru lidir úrfelldir.)

## XLVIII Kap. Frá Laurentius biskup.

Um haustit visítèradi Laurentius biskup vestr sveitir, oc var at Kúlu at brullaupi Ións oc Ingirídar (ekki er meir gètit hvad manna þau voru, svo mikilsháttar) voru þar margir merkiligustu menn á landinu oc fanst þeim mikit um prèdikun biskups, sem hann hafdi þar. Þá giördi um Mikiálsmessu stórhríd oc svo mikit sniófall, sagdi biskup þat mundi boda hardan vetr, vard þat upphaf hallæris, oc fyrir því at lítt var heyat bad hann Skúla prest rádsmann, at leggia frá margan fènat, enn þat var ekki giört, þó biskup mynti á þat optliga, gèkk þó opt eptir þat hann mælti, enn þótt vetr sá væri vída allgódr, fèll nidr á lángaföstu fènadr stadarins af megurd oc sullti, enn hvítadaga hríd 1330
giördi seinna, sem enn mun sagt verda.

## XLIX Kap. Frá Arna Laurentius syni.

Arni son Laurentius biskups var hinn mèsti klerkr oc versificator, oc kèndi mörgum látínu, hafdi hann farit utan med födr sínum, þá hann vard biskup, oc aptr út híngat, bad Laurentius biskup, biskup Ión Halldórsson at vígia hann til prests, oc þat hafdi hann giört fyrir V vetrum, hann fór jafnan í Visítationem

med födr sínum, hafdi innsigli hans oc brèfagiördir, oc svaf í hinu sama herbèrgi; enn marga skapraun hafdi Laurentius biskup af hans framferdum, er miöc vóru ólíkar sæmilegum klausturmanna sidum. Eptir iólin fèkk bródir Arni svo harda sótt oc lá lengi, at hann hèldt valla vitinu, fór fadir hans til hans oc bad fyrir honum, oc er honum lètti nokkut, ámynti biskup hann fagurliga, at hann skyldi ydrast síns hins vonda framferdis, qvadst skyldi bidia fyrir honum at honum batnadi, ef hann hèti því gudi at fara aptr í Þíngeyra klaustr þá sín misti vid, því þar mætti hann giöra mikit gott med læríngu sinni, enn ef hann færi til Noregs aptr oc legdist þar í ofdrykkiur oc óhóf, mundi Hólakyrkia med öllu missa hans mentunar; iátadi bródir Arni þessu, medan hann komst vid, oc batnadi honum, enn þó efndi hann midr heitit; gèkk því hagr hans sem fadir hans gat til.

## L Kap. Fráfall Laurentius biskups.

Þá bar Maríumessu í föstu uppá mánudag í efstu viku fyrir páskir. Um nóttina fyrir kènndi Laurentius biskup kránkleika, svo hann fór ekki til ottusaungs, sem hann var vanr; fór sóttin vaxandi hvörn dag, dró því miöc af mætti hans, med því hann neytti nær einskis matar enn fastadi vid þurt alla lángaföstu at mestu; gèkk þó dagliga til kyrkiu med studníngi Einars diákns. A páskadagin sat hann í sæti sínu, lèt syngia sèr messu í skrudahúsi oc gefa sèr Gudslíkama, sem þeir at ordi qvádu. Um dagin sat hann at bordi med prestum sínum, enn vid qvöldit þyngdi honum, reikadi hann þó um stund í timburstofunni, oc allir fóru til svefns, sídan lagdist hann nidr í pallin, medan hann sendi út Einar diákn, at vita hvar stiarnan var; oc er hann kom inn aptr, mælti biskup: dreymdi mic nú: ec þóttist halda í hendi mèr laungu heilags manns beini, oc hugdi at þat skyldi ec geima í skríni, er ec hafdi látit búa, enn hardindi hafdi ec þá í hendi, því beinit er hardt, oc mun merkia sótt mína. Annan dag í páskum gèkk hann í studíum sitt, miöc kránkr; settist í sæti sitt, oc fèkk Einari diákn þann hinn eina lykil, sem hann hafdi siálfr at einni kistu mikilli, því lykla hafdi Einar diákn at

öllum kistum ödrum í fatabúri; þar tók Einar upp eptir bodi biskups oc breiddi á gólfit L penínga af gulli, tvær silfr-rósir er vógu XVIII merkr, XXIII silfurspæni, XXV sylgiur, III nisti brotasilfurs, oc nokkra enska penínga; vog þat allt VI merkr hins Vta tugar oc tvo aura; þvínæst kaleik, silfurbellti, linda III oc X fingurgull; þá mælti hann til Skúla rádsmanns: þetta hef ec samandregit oc aflat Hólastad, sumt fyrir biskups tíundir mínar, sumt hefir ec keypt, enn sumt hafa vinir minir gèfit mèr; hefir þú Skúli vel sèd fyrir peníngum stadarins, er nidurfallnir eru af hor oc húngri, svo at einginn hefir not af, enn þetta fellr ei nidr, nema því sè útsóat af mönnum; sídan lèt hann leggia þat allt nidr eins oc ádr var. Audgadi hann med þessu stadin oc kyrkiuna at Hólum; oc mörgum ödrum gripum, klædum, lèreptum, drykkiarfaunguin oc iördum. Hann keypti Biarnastadahlíd oc setti þar bú; þvínæst sendi hann bod eptir Þorsteini presti Illhugasyni á Breidabólstad oc Egli presti á Greniadarstad, oc bad þá koma sem skiótast þeir mætti; kom Þorsteinn prestr um helgina eptir oc giördi biskup þá þegar sitt testamentum oc alla skipan, því hann qvadst mundi framfara úr þessari sótt, skipadi hann svo fyrir at Þorsteinn prestur skyldi vera officialis; klerkar sem voru á stadnum oc voru VIII eda IX sem biskup hafdi tekit af fátæki oc suma af húsgángi oc látit kènna latínu oc saltarasaung, skyldu hafa þar bord oc svo allir ölmusumenn á stadnum, oc stadarbúum, vera samt til þess er annar biskup kæmi. Gaf hann hveriu klaustri X hundrud; Þorsteini presti fíngur-gull oc XX stikr klædis; öllum kórsprestum sæmiligan kyrtil. Skúla rádsmanni XV stikr klædis. Diákna hverium 17 álnir lèrepts; Sölva-brita V hundrud; rádskonu VIII álnir klædis; Þorsteini gèstamanni I hundrud, Sigurdi steikara ílag nordurá Myrká; öllum mönnum á stadnum gaf hann nokkra mynning. Bródur Arna syni sínum skipadi hann aptur í Þingeyra klaustur, oc med honum XV hundrad, at auk klæda hans oc bóka. Einari diákn Haflidasyni, gaf hann XV stikr klædis, XXX stikr lèrepts oc alklædnat med skrúda oc tabert, kyrtla tvo med hettur, qvad hann þó betr af sèr makligann, fyrir trúliga þiónustu, fyrir því at hann væri sá einn af öllum lærisveinum sínum er aldrei hefdi giört sèr í móti, oc baud Þorsteini pre-

sti at senda hann til Skálhollts til prestvígslu, skyldi hann sídan vera kórprestr á Hólum þartil annar biskup kæmi, oc var Einar prestvígdr á því ári; fór nú þetta framm á mánadagin sèm nú var talit, enn á þridiudagin, veitti Þorsteinn prestur biskupi oleun; giördi biskup þá iátningu fyri honum med miklum tárum oc fögrum ordum, med tók guds líkama, oc lèt lesa fyrir sèr expositiones Gregorii, oc Augustini bænir. Forbod sitt yfir Uppsala Hrólfi oc fylgdarmönnum hans, qvad hann standa skyldi þartil annar biskup kæmi, nema þeir sverie á dóm heilagra kyrkiu, þá skuli officialis leysa þá, dvínadi nú miöc máttr hans, enn ei þornudu tár á kinnum honum, á föstudagin kom Egill prestur, oc vard biskup honum miöc feiginn; reys upp í sæng sinni oc fadmadi hann, mæltu þeir tveir einir marga hluti saman. A laugardagin bar Einar diákn inn refla hina sæmilegustu oc tvo drykkiustúta edr minnishorn er biskup gaf Egli presti hverutveggia, honum gaf hann einnin vígslugull sitt, oc voru í helgir dómar af beini Ións biskups Ögmundarsonar, oc er han dró gullit af hendi sèr, enn Egill prestr vildi taka vid af hönum, mælti hann: ekki fær þú þat fyrr enn ec er daudr, því þá manstu mic heldr; sídan lèt hann giöra brèf oc insígli til erkibiskups, bad hann vígia Egil prest til biskups eptir sic, oc qvad betr henta kyrkiunni á Hólum oc lærdum oc leikum í biskupsdæminu, íslendskan biskup enn norrænan, því hönum væri lendska öll kunnugri; svo skipadi hann um útför sína oc alla hluti, at Þorsteinn prestr vottadi, at einkis manns framför hefdi hann sèd svo merkiliga sem Laurentiusar biskups, andadist hann á Magnusarmessu Eya iarls, enn þat er hinn 16di dagr Aprilis mánadar, þá hann hafdi III vetur hins 7da tugar oc hafdi biskup verit nær VI árum; lykur nú þar þeirri frásögu er menn hafa liósasta á þeim mannsaldri, því at um Laurentius biskup er í öndverdu ritat greiniliga, vel oc skinsamliga af klerki nokkrum, enn helst til litit er þó gètit annara veraldlegra efna| er iafnframt fóru fram; er mikils vant at iafngreinilig verdi nokkr frásögn hèdanaf um lánga tíma; þverra mikklu meir frásagnir því meira sem framlídr, enn at þær aukist, þartil komit er fram um plágurnar þær hinar miklu, þvíat allr lærdómr, gód háttsemi oc velfarnan í

landi þvarr einnin miöc er stundir lidu, enn þó verdr þat at tína sem til má fá.

## LI Kap. Frá nafnkunnugum mönnum.

I þan tíma er Laurentius biskup deydi, voru þessir höfdíngiar uppi á Islandi, Ión biskup Halldórson í Skálhollti oc þorsteinn prestr officialis nyrdra, Egill prestr Eyúlfsson oc Sniólfr prestr, andlègir, oc ábótar nafnkèndastir: þorlákr í Veri, Gudmundr oc Bergr Sokka synir. þessir voru valdamenn: herra Kètill þorláksson hyrdstióri, herra Eirikr Sveinbiarnarson, er syslu hafdi fyrir nordan, herra Erlendr Hauksson; þessir vóru enn stórbændr oc mikilsháttarmenn: Rafn bóndi Iónsson í Glaumbæ, Benedict oc þorsteinn Kolbeinsson, Gíssr galli Biarnarson í Vídidalstúngu, þordr son Egils Sölmundarsonar í Reikhollti, Sturla son Snorra lögmanns, Gisli bóndi Philippusson í Haga, ei er gètit ættar hans, enn ef gátr má vid hafa, þá hygg ec helst hann hafi átt ætt saman vid Gisla Marcusson á Sandi; nefndir eru enn Ión bóndi þorvaldsson á Kyrkiuhóli, Ión bóndi í Hvammi oc Isleifr bóndi í Asgardi, Brandr Einarsson á Höfda; þá vóru enn prestar nefndir: Ión Kodránsson oc Páll þorsteinsson Gudbiartr sonr Vermundar kögurs, er ættir eru taldar til; vóru þá oc uppi enn margir göfugir menn, þótt lítt fari sögr af; þá kom út bónabrèf páfans til biskupanna í landi hèr, i því beiddi hann sèr fiár oc fulltíngis á móti Rómverium; Ión biskup Halldórsson fór um vestfiördu um sumarit oc vígdi kyrkiur í Selárdal, oc at Stad á Reykianesi oc í Budardal, hann var þá einnin at brúdkaupinu mikla i Haga, er Gisli Philippusson gipti Katrínu systir sína, vóru þar miöc margir bodsmenn, herra Eirikr, herra Kètill, Snorri lögmadr oc enn fleiri virdíngamenn, ei er gètit hverr fengit hafi Katrínar, enn ei er alls ólikligt, þat hafi vera mátt fadir, edr födurfadir þeirra Odds lepps oc Sigurdar fóstra, er sumir kalla Iörund oc sumir Sigurd, því þeirra ættmenn biuggu sídan i Haga, oc höfdu nöfn eptir Gisla oc Philippus, voru oc þeir brædr þórdarsynir, enn þórdr hèt sonr Katrínar; Snorri misti þá lögsögnina fyrir því er hann lèt skèra sundr vebódin hit fyrra

sumarit, enn Grími var fèngin hún aptr fyrir nordan oc vestan; tiá sumir hann verit hafa í Stafhollti. Þá var giör vitnisburdr Stephàns prests Gunnlaugssonar um þat hvat hann hafdi tekit í umbodi Laurentius biskups í skuld Bergs ábóta Sokkasonar til Þverár klausturs, eptir reikníngi Audunnar biskups.

## LII Kap. Frá Egli biskupi.

1331 Veturin eptir var hallæri mikit um allt land oc fèll peníngr unnvörpum, var kalladr fellivetr hinn mikli; undirbió oc hvítadaga hrídin, oc lítill grasvöxtr er undan hafdi gèngit. Egill prestr Eyulfsson hafdi farit utan um sumarit, oc var þenna vetr í Noregi, enn á trínitatis hátid var hann vígdr til biskups á Hólum af Hákoni biskupi í Biörgvin, því Eylifr erkibiskup var ei tilfær fyrir vanheilsu sakir, kom Egill biskup út um sumarit nordur á Gáseyri, oc heim til Hóla á mariumessu fyrri, saung hann hina fyrstu biskupsmessu sína á mariumessu sidari; tók hann med biskups embættinu ágiætt sidferdi í föstum oc bænahalldi, át einmælt hvern dag, oc drakk ei nema yfir bordi litla máldrykkiu, í allri hegdan var hann sidgódr madr oc ógiarn; vildi ei þiggia í visitatiu sinni, er þó var vani biskupa, hann var vetri betr enn hálffertugr, er hann vígdist, oc hafdi borinn verit á því ári er Reinistadar klaustr var sett, vetri fyrr enn Þorvardr Þórarinsson deydi. Egill biskup var ölmusugiarn, lèt hann af prófastsdæmi sínu skipta fè í þriá stadi, gaf einn þridiung kyrkiunni, annan fátækum mönnum, hinn þridia erfíngium sínum, sakeyrir sá er rádsmadr hans hafdi tèkit, baud hann hveriumm manni skyldi aptur skilast; hann var stiórnsamr, lèt iafnan dóm hafa ríkan oc fátækann; vitr oc hinn mesti forsiónarmadr í andligum oc veraldligum hlutum. Hóla kyrkiu audgadi hann at bókum oc skrúda, föstu oc lausafè, hann hèldt oc látínu-skóla á Hólum; Þorsteinn prestr Illhugason fèkk Greniadarstad, er Egill biskup lèt lausan. Þau missiri segia sumir, at Pètur Halldórsson tæki lögsögn med herra Hauki oc Grími. Þá vard mordvíg í austfiördum, Gunnlaugr nokkr hvildi med eiginkonu Þorvardar Þormódssonar, myrdu þau hann sídan oc voru qvíksett bædi; annarstadar

segir sva: at sá madr væri myrdtr er Torrádr hèt, oc þeir qvik-settir sem at vóru. Þá baud Magnus konúngr íslendíngum, at bæta um vadmálagiörd; sá madr var enn vegin er Þorvaldr Hösk-ulldsson hèt.

## LIII Kap. Tilburdir.

Þessunæst andadist Snorri lögmadr Narfason, oc drukknadi Sturla 1332
sonr hans, Ormr hèt son Sturlu, þa vard Gudrun abbadys at Reinistad; þat sumar fór herra Kètill utan oc herra Eyríkr, var þá sótt mikil, eldsuppkoma úr austuriöklum oc landskiálftar; um haustit á Mikialsmessu, vo Þorleifr Þordarson, prest er Þorbiörn hèt, er hann stód skríddr fyri altari, enn undi sèr þareptir siálfr, þat segir sumstadar at yrdi tveim vetrum seinna; þá and-adist hinn annann dag Novembris Eylífr erkibiskup, oc hèt sá Páll er eptir hann var vígdr til þess embættis. Egill biskup keypti í þann tíma reka mikla undir Hóla kyrkiu af Þorsteini bónda Kolbeinssyni oc svo af Kolbeini Þordarsyni göfugum manni, iafnmikla reka keypti Páll rádsmadr at Reinistad fyri XL hundrud í fríd-um oc ófrídum peníngum, af þeim fedgum Benedict Kolbeinssyni brédr Þorsteins, oc Kolbeini syni hans. Arnór frosti bió þá at Frostastödum, Þorarna hèt kona hans, af þeim keypti biskup Frostastadi oc Skála, eru ritadir fyri giörníngnum, Þorvardr, Kol-beinn, Einar, Gudmundr prestr, Örn, Sveinn, Vermundr oc ei nefnd fedra nöfn þeirra, enn Brandr bóndi á Höfda, gèkk í borg-un fyri kaupit af biskups hendi; þat vottudu prestar Einar Hall-idason oc Gudmundr, enn Eyulfur oc Eyríkr diáknar; Rafn Iónsson í Glaumbæ, oc Ión Biarnason vitnudu um handsöl Þór-örnu til biskups, oc Kolbeins prests at Frostastödum.

## LIV Kap. Frá biskupum oc ödru.

Um sumarit kom út herra Eyríkr Sveinbiarnarson med krosstídir, 1333
þad var bænahalld af pínu krists, er Iohannes pávi hafdi sam-sett, fylgdu því mikil aflát; þat skip kom þá eitt út hingat. Þá fór Ión biskup Halldórsson um Vestfiördu, oc vígdi kyrkiuna at

Kyrkiubóli vit Skutulsfiörd á Ólafsmessu hina seinni, oc gaf til þeirrar kyrkiu at því er hann kalladi gudi oc henni til heidurs, oc þeim til syndalausnar, er þángat sækia oc í skilum stædi vid gud oc heilaga kyrkiu XX daga aflát æfinlega á kyrkiuvígsludagin, Marteinsmessur fiórar, oc báda messudaga Ións postula; hann samþykkti oc skilmala þann, er Marteinn prestr Þórarinsson, giördi fyrir sic oc sína eptirkomendr í millum Eyrar kyrkiu í Skutulsfyrdi oc Ións bónda Þorvalldssonr á Kyrkiubóli, um saungva oc tídaoffur, oc útgaf þar brèf um, í Selárdal hin 29a Augusti mánadar, var þetta máldagabrèf stadfest sídar af Þorarni bi-
1334 skupi; hit næsta sumar kom út Vigfús prestr med brèfum af Páfagardi, er sendibodi páfans hafdi til Noregs, oc voru biskupar bádir, Ión oc Egill, stefndir utan til Noregs um reikning páfatyundar, fór Ión biskup utan, enn Olafr prestr, er ætladr var til ferdar Hóla kyrkiu vegna, vard strandaglópr; hönum var þá gèfin Greniadarstadr, enn Oddastadr var gèfinn Arngrími presti Brandssyni. Þá lagdi Bergr ábóti Sokkason af Þverá, var kallat fyri litilætis sakir, enn þángat var vígdr Biörn Þorsteinsson. Þau misseri andadist herra Haukr lögmadr Erlendsson, hinn ágiætasti madr oc hinn vitrasti; þá kom út herra Kètill.

## LV Kap. Frá Ióni biskupi oc landskiálfta.

1335 Ión biskup Halldórssón kom út aptr á Eyrum er hann hafdi verit einn vetr utann, var þá, eptir brèfunum hans krafit fiórdungs kyrkna tyunda; enn Sniólfr prestr Sumarlidason var þá med Hákoni biskupi í Biörgvin, oc hafdi umbod páfans sendiboda, at taka þann reikning af biskupum á Islandi, fór hann til Islands um sumarit med þeim eyrindum, kom hann út oc heimti þá tyund allasaman oc fór med til Noregs oc afhendti Páli erkibiskupi, hafdi hann þartil umbod Egils biskups oc allra lærdra manna í Hóla biskupsdæmi. Þat sama sumar fór oc Egill biskup utan, þá komu til Islands V menn frá Noregi, austurvid Stafafell á skipi tvitugu at áratali; voru þeir miöc ad þrotum komnir, oc höfdu vediat um at sigla skilldi til Skotlands á báti þessum, enn
1336 hrakti undir Island, fóru þeir samsumars utann; annat sumar fór

Ión biskup Halldórsson um Vestfiörðu, oc vígdi kyrkiu í Vatnsfyrdi, af því ætla menn, at hann hafi sinn þridiung syslu sinnar yfirfarit hvört ár; ekki gaf Egli biskupi til Islands þat sumar; þá giördi vatnshríd svamikla at dón hross, naut oc sauðfè á Rangárvöllum, oc um Skálholts sveit, svoat hundrudum skipti á hverium tveim dægrum. Þaráeptir um veturin, er aflidu iól, kom snióhrìft svomikil, at menn komust ei til fiárhúsa, oc lagdi marga bæi undir í sveitum, enn hús fèllu fyrir sunnan land, oc fèngu margir af stór-skada; af þeim snió lagdi ofan bæ undir Staðarfelli oc austur í Skardi, hefr þat eittsinn miöc laungu sídar vidborit um þá bæi báda. Grímr lögmadr dæmdi þá, at Hollti í Saurbæ um landamerki á milli Sælingsdalstúngu oc Leysingiastada; ekki er gètit annara tídinda þá, nema þeirra, at Egill biskup kom út um sumarit, oc sagt at þá hafi dáit svo mikill fugl, at eidst hafi öll fuglabiörg á Vestfiördum, enn mikinn fiölda rak af hnídingum vestra, þá voru ógurleg sniófölll um alla norðurálfu, hvern vetr eptir annan; annat sumar fór Ión biskup Halldorsson á Þingeyri í Dyrafyrdi, oc herra Kètill annarstadar. Þá gaf Gudmundr áböti frá sèr Þingeyra klaustr, oc vard múnkr at Þverá. *Ión* biskup andadist í Noregi á Kindilmessu, er hann hafdi biskup verit XVII vetr, þat var eitt af skipunum hans at giallda skylldi mörk til spitalans í Gaulveriabæ hvör prestr er hann vígdist, hefr hann verit einn hinn rögsamligasti útlendra biskupa; þá giördist Stephan áböti at Þverá, var þá í fardögum landskiálfti hinn mikli, svo at vída í sunnlendínga fiórdungi hröpudu bæir, enn fiöllinn hrundu nidr; als fell L bæa, oc kom upp hver í Henglafiöllum X fadmar á hvern veg þar ádr var slètt iörd, mönnum oc fènadi flègdi til iardar, enn hús fèllu mest um Skeid, Flóa oc Holtamannarepp, hús tók úr stad, oc lètust nokkrir menn oc gamalmenni, iörd rifnadi vída til undirdiúpa, spratt upp heitt vatn oc kaldt, oc sprúngu hamrar í sundr; er mælt ur diúpunum hafi stadit ódaun oc fíla, svo dyrum oc fuglum yrdi at bana, annar iardskiálfti kom sídar svo at mönnum oc fènadi flègdi til iardar, ónyttust hús vída oc eyddust bæir um Skeid, Flóa, oc Holtamannarepp, rifnadi vída iörd í diúp dyki, med upprennanda vatni. Þat frèttist þá til Islands, at risi einn, undarlega 1337 1338 1339

mikill, hafi vègin verit nordará Mörkum í Norègi af víkverskum manni, er Heliódórus hèt, oc tveimur ödrum, höfdu þeir heitit fyrir sèr Rómgaungu er þeir sáu hann, enn eigi er þad trúligt, at hann hafi verit XV álnir; þá var kiörinn til biskups í Skálhollti, Ión Indridason, brédir af Sello í Noregi, var hann vígdr á Iacobsmessu, oc lèt í haf dagin eptir, kom út í Hvalfyrdi Barthólómæusmessu aptan, fór í Skálhollt dagin eptir höfuddag Ións skyrara, voru þá lidnir X tugir vetra, frà því er barist var á Örligstödum, þar þeir Sighvatr oc Sturla fellu; þá dó Arni Olafsson á Leirubakka oc Eiólfr Gammur Brandsson.

## LVI Kap. Mannalát.

1340 Veturin eptir var svo gódr at enginn mundi þá slíkan, fundust egg undan fuglum í Flóa nær midri gón, oc aptr sídar á einmánudi; þá vard Biörn Þorsteinsson frá Þverá ábóti at Þíngeyrum; um sumarit kom út Aslákr körsbródir, af Nidarósi, var hann sendr af Páli erkibiskupi til at visitera allt Island oc bióda yfir almenníng, svo biskupana sem adra, ef þörf til væri; þá urdu mannalát af stórmenni, deydi herra Kètill Þorláksson hyrdstióri, af hönum hygger Ión prófastr Halldórsson, Narfa á Kolbeinstödum, kominn, edr at vísu hans ættar, födr Erlendar, áttu þeir lángfedgar allir Kolbeinstadi, einninn deydi herra Eyríkr Sveinbiarnarson, hans son oc þeirra Vilborgar var Einar bóndi, hann átti Helgu sem köllut var Grundar Helga, ei er talin ætt hennar, oc ei svamikit sem födurnafn, enn ef gátr mætti vid hafa, þá er ei allsólíkt, at hún hafi verit sonardóttir, eda dóttr dóttir herra Sighvats Hálfdánarsonar, því hann átti Grund eptr Steinvöru Sighvatsdóttr módr sína, enn líkindi, at Helga hafi verit borin til Grundar, þvíat Einar bóndi átti allt kyn vestra, var þeirra son Einars oc Helgu, Biörn er sídar var kalladr iórsalafari, misklíd var þá nokkr med Egli biskupi oc Rafni í Glaumbæ, þó sömdu þeir um landamerki milli Þverár í Skagafyrdi oc nokkura Hóla iarda, báru þarum vitni Þorvardr Grímsson, Ión Biarnason oc Páll Þorsteinsson prestr, enn Bryniólfr Biarnason, Geir Þorsteinsson, oc Einar Gislason bændr mikilsháttar at Vídivöllum; enn
1341 annat sinn giördu þeir samníng at verá, oc Þverá þat á ödrum

missirum, Egill biskup oc Rafn bóndi, um landamerki milli Þverár, Egilsholts oc Selhaga, þat vottudu prestar Ión Kodránsson, Þorvardr Grímsson oc Páll Þorsteinsson, Pètr Halldorsson lögmadr oc leikmenn fleyri. Þá var, Sigurdr, Girídarson, Stirkár í Nesi á uppstigníngardag, sá Stirkár var mikilsháttar madr, oc kominn í karllegg frá Örnólfi brodr Ingólfs landnámamanns, finnast lángfedgar hans í landnámu.

## LVII Kap. Fráfall oc skipti höfdíngia.

Ión biskup Indridason í Skálholti vard ei lánggiædr, hann andadist um vorit á Gudmundardègi er hann hafdi biskup verit II vetr, oc nokkru sídar Egill biskup Eyúlfsson Hóla biskup um sumarit, einni nóttu fyrir Festum Hippolyti, þat er hinn XII Augusti mánadar, þá hann var vetri betr enn hálffimtugr oc hafdi setit X ár at Hólum, vard hann mörgum hármdaudr, þvíat nybreytni mörg utlendra biskupa oc ókunnigra hèr í landi, kom á eptir; var þá skipadr officialis í Skálholts umdæmi, Sigmundr prestr Einarsson, enn í Hóla biskupsdæmi, Einar prestr Hallidason, er fyrr var med Laurentio, fór þá Ión Sigurdarson bródir einn utann til vígslu, voru nú jafnmörg ár lidin frá því er Island byggdist fyrst oc til þad hèr var komit, oc frá því oc þartil er þetta var ritat; vetr sá er afleid, hafdi verit hinn snióamesti sunnanlands, hafdi lagt á snemma á hausti oc hèlst til sumars, var hvervetna hinn mesti fiárfellir, vilia þó sumir telia hann tveim vetrum seinna; um sumarit kom út med hyrdstiórn, Bótólfr Andrèsson, af konúngs hendi, oc átti at skipa yfir alla leikmenn, greinir menn þó á oc segia sumir þeir Aslákr hafi bádir komit út sama sumar á Eyrum. Þá deydu þeir Biörn Þorsteinsson ábóti á Þíngeyrum oc Snorri Dalr. Þessunæst urdu lögmannaskipti i landi, tóku lögsögn Pètr Halldorsson oc Þordr son Egils 1342
Sölmundarsonar í Reykholti eptr Grím Þorsteinsson, því Grímr fór utan oc var þar herradr, sundurþykkia var þá mikil med Þorláki ábóta oc brædrum í Veri fyrir margar greinir, ætladi ábóti utan um sumarit, enn þat vard ekki framgengt; fór hann

þá til Videyar med rádi Sigmundar officialis, oc var þar sem flóttamadur. Bótólfr hyrdstióri fèkk þá Steinunnar dóttr Rafns bónda Iónssonar í Glaumbæ, var bod inni í Glaumbæ oc mikit vidhaft oc bodit mönnum um alt Island; litlu sídar drukknadi Rafn bóndi austur í Þiórsá oc hafdi verit hinn göfugasti madr; enn þau Bótólfr oc Steinunn áttu son er Rafn hèt, þá lèt Þorsteinn Gunnhylltíngr oc Ión Hallsson aflima Arnór Þórdarson, oc var sidann Þorsteinn veginn.

## LVIII Kap. Biskupar nýir. Ill tídindi.

Nú var vígdr Ormr Asláksson korsbródir af Nidarósi til biskups á Hólum af Páli erkibiskupi, kom hann út um sumarit vid Þiórsársand hiá Háfi næsta dag fyri Mariumessu sídari, oc braut skipit í spón, tyndist þaraf mikit fè oc drukknudu XVIII menn, var þann dag svo mikill siáfargángr af vedri, at siór gèkk lángt upp um búdir allar á Eyrum, reid hann til Hóla oc fángadi skömmu sídar III brædr á Mödruvöllum, oc járnadi, fyrir sakir er hann gaf þeim, eyddi hann brádlega Hóla-kyrkiu fè, því er Egill biskup oc adrir höfdu audgad hana med, lagdi hann ærit mikla peninga af Hólastad med Bratti nokkrum, fátækum, svo hann fèkk Oddnyar ríkrar konu, oc veitti biskup siálfr brúdkaup þeirra
1343 heima á Hólum med miklum kostnadi, þókti mönnum slíkt fátídt; var þá þúngr vetr, oc kom upp elldr í Heklufialli um vorit, med svo miklu sandfalli, at dó fènadr, naut oc saudir um Rángárvöllu, þá var önnur elldsuppkoma í Hnappavalla-jökli; þridia í Herdubreid, allar jafnsnemma, var þad med svo miklum fádæmum af öskufalli, at eiddust margar sveitir nálægar; var öskufall um Borgarfiörd oc Skaga, oc hvervetna þar í milli, var svo mikit myrkr um daga sem á vetrarnóttum, fèll þá mikill nautpeníngr sunnanlands, oc urdu margir snaudir, oc gèngu frá eignum oc ódulum. Þá selldi Benidict Kolbeinsson, reka til stadar í hönd Páli stadar rádsmanni at Hialtabakka XIta dag Iòla; frú Kristín var abbadís oc samþykkti þar um vitnisburd Þorgeirs priórs á Þíngeyrum oc Eyríks klerks. Ión Sigurdarson, var nu einnin vígdr til Skálholts af Páli erkibiskupi, kom hann út til Islands,

austur í Reidarfyrdi, næsta dag fyrir Matheusmessu um haustit, þá hann kom í Kyrkiubæ, andadist Agatha abbadís Helgadóttir, systir Arna Helgasonar, er fyrrum var biskup í Skálhollti, oc var kosin aptr til abbadísar, systir Iórun dóttir Hauks lögmanns Erlendssonar, enn ekki var hun vígd at því sinni; þar var nunna ein er Katrín hèt, á hana var þat sannat, at hun hefdi gèfit sic fiandanum med brèfi, oc misfarit med vígt braud, er þeir kölludu Krists líkama, varpat því aptr um nádhúsdyr, oc lagst med mörgum leikmönnum, oc var hun brend, sumir segia tvær væri þær nunnur sem brendar voru, oc önnr fyri þat hun mælti ovyrdugliga til páfans, er klettr í Skaptá brattr skamt frá Kyrkiubæ, oc ei nema einstígi upp at gánga, oc flötr á hönum ofann, oc tvær þúfr, oc segia bændr þar sen leiddar þessar nunnr bádar, oc sè annat leidit jafnann grænt, enn annat grænki aldrei, á þessari ferd hyggia vitrir menn, at Ión biskup hafi samit mál daga nokkra kyrkna fyrir austann, allt austurfrá Hofi í Alptafyrdi, hafa oc giörfir verit máldagar Marinkyrkna tveggia, oc at Raudabæ í öræfum, oc á Breidumörk í þilkvabæ tók Ión biskup III brædr fángna, er barit höfdu á þorláki ábóta sínum, oc hrakt hann á brott, urdu þeir oc berir at saurlifi, enn sumir at barneignum, þeir hètu, Eysteinn, Magnús oc Arngrímr var Arngrímur settr í tájarn enn Eysteinn í hálsjárn, Eisteinn var velmenntr oc hit mesta skálld, oc verdr enn gètit sídar, urdu þeir badir biskupar Ión oc Orınr, brátt óvinsælir, oc fór þá miöc margt til vesnunnar í landi; kom út um sumarit herra Grímr þorsteinsson, oc sègia sumir hann væri riddari, var hönum skipud hyrdstiórn oc Vestfyrdir, oc sudurland allt til Helkundu heidar, eininn at skipa lögmenn, nordan oc sunnan; þessir menn deydu nafnkènndir, Finnr Ögmundarson, Ión prestr Kodránsson, oc frú Vilborg Einarsdóttir í Vatnsfyrdi, er Eiríkr Sveinbiarnarson hafdi átta.

## LX Kap. Menn er uppi voru.

A þeim dögum voru uppi þeir menn er ættartölr vorar byriast á þó lítt sè af þeim sagt; þorsteinn Eyúlfsson á Urdum, um hann sèt verdr eki greint; enn gèta mèga þeir til er vilia, at Ey-

slèttu, tíunddist mestallr fiárhlutr, enn menn hèlldust. Þá útgaf Ormr biskup in festo Marci brèf sitt, er hann stadfesti med giöf á Hialtabakka til Þíngeyra klausturs, enn fráskildi ímisleg hlunnindi oc lagdi til Hóla kyrkiu, oc tók af diákna vist í Hvanimi; hann skípti oc jördum vid Þórstein Kolbeinsson, Túni vid Túngunes, vitnudu þeir þat á Evstachii dag bródir Arngrímr oc Eyríkr prestr at Þverá í Skagafyrdi, enn slíks er því gètit, at helldr mêgi vita hverjir menn uppi voru, þeir biskupar Ormr oc Jón Sigurdarson urdu æ hardari vid landsmenn, svo þeir þóktust valla mèga undir búa, oc hit sama giördi hyrdstiórinn Holti Þorgrímsson, svo at náliga hefr alldrei meiri ánaud verit á Islendíngum enn þá, med margri óáran oc misferlum; höfdu nordlendíngar á alþíngi, helst leikmenn, samtök á móti Ormi biskupi, at þeir vildu hafa fornann vana enn eingar nyúngar, lögdu vid V hundrada sekt, ef nokkr hèlldi þat ekki; oc samþyktist því
1347 öll alþyda; sidann setti Orm biskup Hegraness þing, band at halda allann fornann landsrètt, utann at tíundir lúkist þar sem eignir liggi; því neitudu bændr oc öll alþida, oc æptu á móti; fóru bádir biskupar þá enn utan á einu skipi, oc var þá biskupslaust, fèkk þà Ormr sterkt verndarbrèf af Magnúsi kóngi Eyríkssyni, oc kom ei aptr at sinni. Þá giördist Arni Vadi erkibiskup í Nidarósi; sumar hit sama fór utann Arni Kètilsson, oc var þá bólusótt svo mikil í landi, at ènginn mundi þvílíka, hun tók náliga hvern fertugann oc yngri, oc marga elldri menn, drukknadi þá einninn hálfr fimti tugr manna; fyrir sunnann land, Snorri Kètilsson andadist á sudurvegum; um veturin giördi snióa mikla oc ísalög, oc mundu þá engir jafnmikinn vetr, gèkk oc
1348 bólna sóttin yfir, mátti gànga af ystu nesium yfir fiördu oc flóa, var ridit úr Seilu oc fra Nesi vid Seltiörn uppá Kialarnes, oc til Videyar af Akranesi; á Hvaleyri var oc gèngit af Alptanesi oc ridit yfir Stakksfiörd, þar á eptir var graslevsis sumar mikit, skèdu þá mörg ótídindi í útlöndum oc hrundu fiöll í landskiálftum; þá kom út þat sumar, Jón biskup Sigurdarson í Hvalfyrdi med verndarbrèf Orms Hóla biskups, oc Eyríkr prestr Þorsteinsson, ridu þeir nordr oc settu þing á Hólum, kom þar samann fiöldi bænda úr nordurlandi, villdu þeir med ingu móti leggia mál sitt undir Jón biskup, oc ekki sættast vid Orm, sleit svo

þeim fundi, reid Ión biskup sudr aptr Kiöl oc í Skálhollt, tók hann sótt, er hann kom heim, oc lá fram til Magnúsarmessu fyri Iól, oc do sídan; var hann biskup V vetr oc vard fiunm harmdaudr; hafdi hann komit mörgum hvalrekum undir Skálhollts stad. Þá deydi oc Holti hyrdstióri, oc vard ei tregadr, oc Stephan ábóti á Þverá; enn Ión Guttormsson er oc ætla son Guttorms Narfasonar á Kolbeinsstödum, oc sídan var kalladr Skráveifa, var dæmdr á kongs nád fyrir illvyrki nokkurt. Þat segia sumir, at Ormr biskup hafi út komit þessi missiri, oc giört vígslur af landi öllu, enn farit jafnskiótt utan aptr.

## LXIII Kap. Frá ótídindum oc ödru.

Þessunæst kom í Noregi plágan mikla, sú er gèkk yfir oc eyddi löndin, enn ègi kom hún út híngat. Þá andadist Arni Vadi erk- 1349
ibiskup oc allir adrir biskupar í Noregi, enn Salomon biskup í Osló vígdi til Skálhollts, Gyrdir Ivarsson, ábóta af Ións kyrkiu í Biörgvin, enn Gilbrict til Biörgvinar, vóru nálægir Ormr Hóla biskup, oc Jón biskup Skalli af Grænlandi, þeir einir biskupar lifdu þá í Noregi, oc urdu þar um veturin. Sá vetr var snióa- 1350
mikill hèr í landi, oc er sumradi, var þó mikit frost um hásumar. Þá kom elldr í Knappafellsjökli, oc var myrkr svo mikit at ekki sá vegu um middegi. Kom þá ekkert skip af Noregi sökum mannfædar af plágunni, oc var sú plága köllut Svartidaudi. Pètr giördist þá lögmadr hèr, oc þeir Ión Þorsteinsson bádir, enn Olafr Biarnason tók hyrdstiórn. Þá deydi Þorlákr Loptsson ábóti í Veri, Þorsteinn Snorrason á Helgafelli, oc Bergr Sokkason, enn Arngrímr giördist ábóti á Þíngeyrum, oc Haflidi á Þverá. Voru þá tímar daufligir, oc drupu nidr öll lönd, svo at ei hafa nád sèr aptr sídan um suma hluti. Þau missiri hlióp Knappafells jökull í Öræfum austr, oc tók af Raudabæ oc Breidumörk, oc allt litla hèrad, eyddust á einum morgni XXXX bæa, enn VIII stódu eptir, oc komst enginn madr undan af þeim sem eyddust, nema prestr oc diákn frá Raudalæk, er þar nu eydiból framundan Sandfelli; kyrkian stód um flódit allt, oc var þó giör af trè

einu, sídan var hún flutt til Sandfells, oc er mælt, at þar siáist enn vída merki til bæa. Þau missiri segia sumir at herra Grímr dæi. Var borinn Ión Hákonarson, Gissurarsonar Galla. Olafr hèt
1351 sá er vígdr var til erkibiskups í Nidarósi, eptir Arna Vada; komu þá skip af Noregi til Islands hit annat sumarit eptir pláguna; oc kom út Olafr hyrdstióri Biarnason í Grunnasundsnesi á skipi því, er Gydusúdin hèt; honum var skiput hyrdstiórn yfir land allt, oc sysla fyrir austan Þiórsá oc á öllum Austfiördum; höfdu þá hyrdstiórarnir jafnan syslur oc adrir mikilsháttar konúngsmenn, oc sem mest undir, enn hrads stiórnin í sveitúnum, gèkk sem mátti, lètu margir þat nóg vera, ef þeir fengu tekit giölldin sem mest, oc sumir med kúgun oc ofbelldi. Iafnframt kom út Gyrdir biskup austr hiá Reyni oc Ivar Hólmr med hönum, var Ivari skiput sysla fyrir vestan Þiórsá, oc svo um Vestfiördu alla, vóru þeir fluttir á báti, oc gengu þar á land, oc fór Gyrdir biskup heim í Skálhollt. Ormr biskup kom þá oc út í Hvalfyrdi, med brèf Magnúsar konúngs, oc utan-stefnr til margra hinna göfúgustu manna í Nordurlandi, er samtök höfdu giört í móti hönum, hafdi Ormr miöc rógborit nordlendínga vid Magnús konúng Smekk Eyríksson, var hann hönum jafnan fylgisamr; voru þessir tilnefndir: Benidict bóndi Kolbeinsson, oc Kolbeinn son hans, Nicolás í Flattúngu, Arni á Sylfrastödum, Geir á Seilu, sumir nefna Gísla, Magnus á Svalbardi, hann var son Brands Eyríkssonar, Eynarssonar, Gudmundssonar hins dyra, Sigurdr mágr hans, Pètr lögsögumadr, oc Kálfr bródir hans, vóru þessir menn svo miklir ovinir Orms biskups, at hann forbodadi þá, enn þeir lutu hönum ei at helldr; ei veit ec hvada manna Sigurdr var mágr Magnúsar á Svalbardi, nema hann hafi verit sá er þar bió eptir hann, Biarnarsonar á Einarstödum Sæmundarsonar oc fadir Þórdysar (ef svo er, hefir hann verit miöc gamall, þá hann vard fadir at Þórdysi) er fylgdi Þorkèli presti Gudbiartssyni, oc hefr hann þá verit allúngr er þetta var, enn annar mágr Magnúsar var Þorsteinn Eyúlfsson frá Urdum, hann fèkk Arnþrúdar dóttr hans. Ormr biskup var á Þíngeyrum á Laurentiusmessu, oc vígdi þar bródir Arngrím til ábóta, var oc Arngrímr um þann tíma officialis, [1] oc reid á landamerki Bakka oc Lækiar, [2] er Skúfr Pálsson keypti at Gudrúnu Rögnvalldsdóttr; um þat vitnudu þeir Ión

Þorkellsson, Vandrádr Biarnason, Hermundr Arnórson, oc Ión Þorkèllsson, at Miklabæ í Oslandshlíd. Þá fèkk Þorsteinn Gunnarsson, Einari presti Haflidasyni, Hóla á Skagaströnd, med rekum oc ummerkium. Eyríkr hèt bródir Magnúsar á Svalbardi, er fyrr var gètit, hann átti Ingirídi, dóttur Lopts Þórdarsonar oc Málmfrídar Arnadóttur úr Askey í Noregi, af Askeyar ætt hinni miklu, oc var kalladr Eyríkr hinn ríki af sumum, þeirra dóttir var Sophia, hennar fèkk Guttormr sòn Örnúlfs Iónssonar í Stóraskógi oc Herdysar, oc vóru þeirra börn, Ión oc Loptr. Oddny hèt systir Magnúsar oc Eyríks, frá henni var Elín sú er átti Ara son Sigurdar priórs í IVa eda Vta lid.

## LXIV Kap. Frá landshöfdíngíum.

Ormr biskup sat á Hólum um veturin; giördi þá hallæri mikit á 1352
sió oc landi, oc sídan sótt mikla, deginum eptir Magnúsmessu, seldi Ormr biskup Bödvari presti Þorsteinssyni, undan Hólastad, hálft Bard í Fliótum, Saurbæ, oc hálfa Dali, fyrir Lambanes oc Hvanneyri, med öllum hlunnindum, oc gaf honum XX hundrud i kaupbætir, er hann vard hönum umskylldugr, vóru vottar at, Þórdr Eyúlfsson, Ión Þorleifsson oc Eyríkr Skídason, enn Bödvar lukti Ormi biskupi, þridjúng í Ulfsdölum í reikníngsbrest á Brigidarmessu. Ormr biskup sendi þá marga menn oc lèt handtaka fióra sveina Kolbeins Benedictssonar, setia þá í fiqtra oc flytia heim at Hólum, oc setti III kárínr hverjum þeirra, eptir þat gèkk Kolbeinn til sætta vid biskup um sumarit. Fóru þeir menn allir utan, er konúngr hafdi utan stefnt, oc tiádu hönum á adra leid enn Ormr biskup hafdi giört. Þá tók Þórdr Egilsson aptr lögsögn, sumir segia, sá Þórdr væri Eyúlfsson, oc má þat vel vera, at hinn hafi ei verit tilfær; er oc þess gètit, at Þorsteinn Eyúlfsson, hafi þá lögsögn fèngit fyrsta sinn, vard hann sídan nafnkunnugr madr, enn fra uppruna hans er ekki sagt, þótt vèr höfum ádr nokkurs tilgètit. Þorsteinn átti Arnþrúdi dóttr Magnúsar Svalbarda, sem fyrr segir, oc eigi allfá börn; Sumarlidi hèt sonr hans, oc Arnfinnr fadir Eyulfs riddara, Solveig í Vatnsfyrdi

oc enn kona Rafns Bótúlfssonar, sem seirna verdr vidgètit. Gyrdir biskup fór þat sumar um sunnlendínga fiórdung, sem máldagar votta, Reinivalla kyrkiu í Kiós, oc Garda á Akranesi; setti hann einna fyrstr biskupa krists ár á giörninga sína, hann aftók Benidicti edr múnkareglu í Videy aptr, oc setti Kanúkareglu Augustini sem fyrr hafdi verit; giördist þá ábóti Biörn Audunnarson, enn Eyúlfr Pàlsson var vígdr til þykkabæar, oc Asgrímr til Helgafells. Ekki fór Ormr biskup þat sumar utan.

## LXV Kap. Frá Olafi hyrdstióra oc biskupum.

Svo bar vid litlu sídar, at Olafr Biarnarson hyrdstióri hafdi fángat nokkra menn, enn þá fór til sá madr, er Guttormr hèt
1353 Asgrímsson, oc annar Elldjárn, oc leistu þá úr fiötrum; fyrir þat voru þeir dæmdir oc hálshöggnir á alþíngi eptir. Giördist þá sundurþykkia mikil med þeim Olafi hyrdstióra oc Gyrdi biskupi, oc bródr Eysteini Asgrímssyni, hans er fyrr gètit, þá er hann var í málunum, oc ætla menn, at Guttormr hafi verit brédir hans, átta þeir fiölmennan sáttarfund í Skálhollti, næsta dag fyrir þorláksmessu, oc urdu sáttir at kalla; fór Olafr þá utan oc Ivar Hólmr; enn Gyrdir biskup fór um Rángarvalla sysslu, oc þær sveitir; giördi hann þá máldaga um Skards kyrkiu á Landi, oc gaf Sæmundr í Skardi kyrkiunni þar hálfa Skards-skóga, ef ei hefdi fylgt ádr; voru þar vid, bródir Eysteinn, Eyúlfr prestr Pálsson, Ormr prestr Hakason, Sigurdr prestr Hallsson, oc svo þórdr Egilsson, er lögsögumadr hafdi verit; þá segia sumir menn at Gyrdir biskup hafi vígt ábótana at Videy oc Helgafelli, er fyrr gètr; þá báru þeir Arngrímr ábóti, Einar prestr Hialltason, þorleifr prestr Bergþórsson, Bödvar prestr þorsteinsson, oc Einar Gilsson, um þat, at Ormr biskup hefdi ridit á landamerki, milli Ennis oc Lækiar, Bakka oc Grafar. þat sumar, komu þeir menn út, er utan höfdu stefndir verit af Ormi biskupi, med brèf oc bodskap konúngs, at hann vill at biskupar fremji engar nyfingar á þegnum hans, oc baud Ormi biskupi, at leysa þá. Vor-
1354 it eptir, keypti Ormr biskup eignarhluta í Spákonufelli, fyrir XXX hundrud vöru oc hafnarvoda, af Ormi presti þorkèllssyni oc er

því þessa gètit, at þat vita menn seinast um hans athafnir í landi hèr. Þá fór Gyrdir biskup yfir Vestfiördu, hann útgaf á Kolbeinsstödum skikkunarbrèf sitt til sóknarmanna á Stad á Ölldu-hrigg, oc á Kolbeinsstödum um tíundir prests oc kyrkiu, at þær lykist af jördu hverri, til þeirrar kyrkiu sem jörd á sókn til, eptir Kristinnrètti, enn ei til eignarmanna jardar, qvadst ei vilia þola þat bændum lengr, edr at þeir gialldi tíundir út; þá giördi hann máldaga kyrkiunnar undir Stadarfelli, med samþykki Örnúlfs Iónssonar, gaf síden Örnúlfr oc Guttormr sonr hans þeirri kyrkiu. XIIta Calendas Iunii, skipadi hann máldaga kyrkiunnar í Felli í Kollafyrdi, med samþykki Vermundar Gudlaugssonar, er Fell átti; voru þar vidstaddir: bródir Eysteinn, Þorsteinn prestr Pálsson, Hálfdán prestr Guttormsson, Gudmundr Snorrason, oc enn fleyri; einnin Selárdals kyrkiu, skyldi hún ega tíunda hvern ovalin fisk af hverium fiskimanni í Kópavik, er ut rèri, oc svo af skipum; hann samdi þá oc Prestbakka kyrkiu máldaga. Þá dó Oddr Svartsson.

## LXVI Kap. Höfdíngiar miöc í förum.

Ivar Hólmr var í förum í þann tíma, hann kom út um sumarit med hyrdstiórn yfir allt land, oc hafdi keypt skattin, oc öll konúngs mál um þriú ár, var þar eptir gengit ólinliga vid landsmenn, er þannin var tilfèngit; þá fór Olafr, er fyrr var hyrdstióri, oc Gudmundr Snorrason, bródir Orms lögmanns, pilagrímsferd út til Compostellam til hins heilaga Iacobs, tyndist þat skip oc menn, oc er mælt, at lík Olafs oc Gudmundar, hafi fundist upprekin í Þydskramanna landi þar Siótún heita. Þá kom upp elldr í Trölladíngium, eydilögdust margir bæir í Mydal af öskufalli, oc sá elldin af Sniófellsnesi. Um haustit fór Ormr biskup utan í Hvalfyrdi, enn setti Arngrím ábóta á Þingeyrum officialem; enn þótt nordlendíngar yrdi fegnir, er Ormr biskup fór, afsögdu prestar í Hóla biskupsdæmi, at veita Arngrími ábóta nokkra hlídni, því hann var borinn hinum verstu sökum, var hann því afsettr officialis embætti, oc svo ábótadæmi, oc játadist undir prèdikara lifnat, enn Þorsteinn prestr giördist officialis. Þá 1355

var miöc hardr vetr frá áttadegi, voru snióar oc blotar, fiúk oc nordanvedr, hèlldust þau hardindi til sumarmála, oc vard mikill fellir, því þeir mistu allan útigángs peníng sinn, er eigi gátu biargat; kom eigi mikill bati fyrr enn undir alþíng, sá þá hit fyrsta bregda lit á jördu til grass. Þá var ritadr máldagi Helgafells kyrkiu. Um sumarit fór Gyrdir biskup utan, oc Andrès Gíslason úr Mörk, oc var þá biskupslaust í landi hèr, enn officialis var þá skipadr yfir Skálhollts biskupsdæmi, Snorri prestr Þorleifsson, er kalladr var Klyngir. Gyrdir biskup kom út sum-
1356 arit eptir í Hvalfyrdi. Þat hafdi þá viðborit á þrettánda nótt Jóla, at klerkar í Skálhollti, lögdu hardliga hendr á Sigurd diákn Arngrímason, er Acolytus var at vígslu, oc fèkk hann af því bana, Sokki subdiákn, var hellst til þess nefndr, vard þó alldrei víst hver banamadr hans var, sídan var nokkra hríd látit af at síngia í kyrkiunni. Arni Þórdarson, oc Jón Guttormsson fóru þá utan, oc Þorsteinn Eyúlfsson frá Urdum, þeir lögdu saman vid Andrès Gíslason, at leita hyrdstiórnar út hèr, enn þeir töfdust á Hialtlandi vetrarlángt, þar fèll Jón Guttormsson í stórmæli, oc var dæmdr á konúngsnád af Hiölltum, enn ei kunnum vèr at segia, hversu gèkk; ekki kom Ormr Hóla biskup út, enn þó fèkk hann af Magnúsi konúngi áminníngarbrèf hit þridia til nordlendínga, fyrir óhlídni þeirra vid hann, oc tók konúngr hann enn í fulla vernd þeim á móti; enn á allraheilagramessu um haustit, lèst Ormr biskup, oc vard hann engum harmdaudr á Islandi, svo um þat sè gètit, nema Arngrími ábóta; hann var biskup XIV vetr, oc lengstum erlendis í þeim eyrindum, at ákiæra undirmenn sína; er ei þess gètit, at hann hafi bætt stadin, prydt eda audgat kyrkiuna, halldit læríngarskóla, sem forveriar hanns, nè bætt eda styrkt Kristindóminn, enn sóat helldr miklu kyrkiu fè til óþurftar, oc er egi meira frá hönum at segia.

## LXVII Kap. Visitatóres oc hyrdstiórar koma út.

Jón Skalli Eyríksson, hafdi verit kanúkr edr ábóti í klaustri nokkru í Noregi, enn vígst sídan til biskups á Grænlandi, vita menn ei med vissu hvört hann hefr þángat farit, enn þat er

lióst, at hann var þá í Noregi, er Ormr biskup deydi; fór hann þá þegar á páfagard, at fá biskupsdóm á Hólum; þókti hönum hann betri enn sá, er hann var til vígdr, oc kom hann skiótt 1357
aptr. Enn sumarit eptir andlát Orms biskups, kom út Eyúlfr prestr Brandsson, kórsbródir af Nidarósi, oc bródir Eysteinn, er fyrr var gètit; vóru þeir skipadir af Olafi erkibiskupi, visítatóres yfir allt land; sögdu þeir þau tídindi út híngat, at Ión Eyríksson væri aptr kominn af páfagardi, oc at Olafr erkibiskupi gaf hönum oc skipadi, med sèrligu páfans atqvædi, biskups stólinn á Hólum, qvádu því líst verit hafa á kór í Kristskyrkiu í Nidarósi; fóru þeir yfir allt land kyrkiunnar vegna, öfludu ocheimtudu penínga, af leikum oc lærdum, urdu brátt nokkrar ágreiníngar med Gyrdi biskupi, oc sendibodum þessum. Þá kom oc út Andrès Gíslason úr Mörk oc Arni Þórdarson, med hyrdstiórn yfir sunnlendínga oc austfyrdínga fiórdúngum; enn Þorsteini Eyúlfssyni frá Urdum oc Ióni Guttormssyni Skráveifu, voru skipadir Vestfyrdir oc Nordurland; höfdu þessir fiórir leigt allt land af konúngi um III sumr, med sköttum oc skylldum, heimtudu þeir konúngs vegna, fè oc penínga, hvar sem þeir fèngu eda nádu, oc svo allir þessir, áttu þá landsmenn, at standa undir hinu þyngsta ánaudar oki. Skipudu visítatóres Arngrími ábóta aptr ábóta stètt sína, oc fóru hverki at heiti hans, nè annari ófrægd er á hönum lá, enn biskupslaust var þá at Hólum; þeir dæmdu kyrkiunni á Greniadarstödum, frálsan veididrátt netíaveida oc laxastaungun í Laxár ósi, í máli milli Bödvars prests Þorsteinssonar oc Illhuga Þorsteinssonar, oc var þat á öndverdum vetri. Madr var þá qviksettr, er játad hafdi á sic samrædi med tveimr kúm; oc vo Ión Murti Nicolásson mann oc vard alldrei sektadr.

## LXVIII Kap. Frá bródr Eysteini oc útkomu Ións biskups.

Þau missiri hin nærstu, tók Sigurdr Gudmundarson lögsögn 1358
fyri sunnan oc austan eptir Þórd. Þá fór Gyrdir biskup um Borgarfiörd, oc samdi máldaga Reykhollts kyrkiu, vóru þá oc Saudar í Dyrafyrdi stadr giör. Mioc þróadist á þann tíma óvilld med þeim Gyrdi biskupi oc bródr Eysteini, oc fóru margar þúng-

ar greinir á milli, svo at dró til fulls fiandskapar, orkti Eysteinn níd um biskup, oc setti hönum stefnu á erkibiskupsfund, hugdi sídan utan at fara, enn biskup lýsti banni yfir hönum; margar frásagnir skröklígar oc fádæmaligar, eru um þeirra vidskipti, enn ekki ætla ec þær hendíngar fullsannligar vera, er mælt er at hverr þeirra hafi orkt á annan, því hættir þeir voru þá valla uppkomnir, nema Eysteinn hafi fundit háttin af hendíngu edr hittni einnri, þá er biskup skylldi hafa orkt á hann oc qvedit; «Gyrdir kembir gula eik», enn Eysteinn vidfundit; er oc sagt at Eysteinn hafi mælt um hest biskups; «fast-gyrdr merar son», enn biskup ætlat, at hann hafi sic svo kallat, þat er þó enn ósannara, at Eisteinn hafi dreginn verit í dyblissu, því hann var ei svo miöc undir valldi biskups, at svo mætti verda, oc ei er þat í rit fært helldr; enn vanþekkíng manna, oc hleypidómar um biskups valldit, fór svo miöc í vöxt í þann tíma, oc sidan, at margar sagnir óskynsamlegar eru smídadar af þessari deilu þeirra; þá er biskup hafdi bannfært Eystein, gèkk hann til sátta, oc urdu þeir allgódir vinir, hafdi biskup hann jafnan í störum metnadi, fyrir oc eptir óvilld þeirra, svo hann var talinn fyrstr þeirra er vidstaddir vóru í öllum giörníngum hans; var Eysteinn manna best at sèr; hann orkti ydrunar drápu sèr til uppreistar, er hann hafdi níddan Gyrdir biskup, er þat qvædi kallat Lilia, oc var qvedit til lofs Kristi oc Mariu, oc var allra qvæda best oc er enn til, enn því var spillt af ordfæri oc qvedskap á hinum seinni tímum, er menn þóktust vilia bæta þat í meiníngunni, oc var þat þá svo í flestra manna höndum, ádr þat fèkkst rèttara oc svo sem Eysteinn qvad, var þat svo miöc vyrdt, at málsháttr sá er þaraf kominn, at öll skálld villdu Liliu qvedit hafa. Um sumarit kom út Ión biskup Eyríksson á Benidicts bátnum, oc braut hann í spón, hèlldust menn allir, oc reid Ión biskup heim til Hóla, tóku nordlendíngar sem best vid honum, oc lagdi Ión prestr Hallsson officialis innsigli í hönd hönum, án lærdra manna ráds; var einkis skilríkis af hönum krafit fyrir biskupsdæminu, enda sindi hann engin, því allir gáfu sic undir hans hlídni, lærdir oc leikir. Ivar Hólmr var þá út hèr oc var tilnefndr af alþidu, oc Biörn Olafsson annar, at samþykkia vegna landsmanna, nokkrar greinir, vid visitatóres; þá keypti Þorsteinn bóndi Eyúlfsson, er

einn var af hyrdstiórunum, oc þá bió at Vídimyri, Reppisá í Olafsfyrdi, af Skeggía Oddssyni; ei ætla ec Þorsteinn væri herradr, edr þeir hyrdstiórarnir, oc helldr lagdist þat af í þann tíma. Þá voru sniókomr miklar oc hrídir um Mikiálsmessu; höggvinn var þá Turni Starkadarson eptir dómi.

## LXIX Kap. Frá biskupum, höfdíngium oc ímsu.

Þridia dag páska þar nærst eptir, hèldt Gyrdir biskup Synodum heima í Skálhollti, oc gaf út skipanir sínar um giallddaga á hey- 1359
tollum oc prófasta skylldu, messu-sóknarpresta oc klædaeign, matgiafir, oc enn fleyra; enn litlu sídar um vorit, tók Ión biskup Eyríksson at vísítèra, oc giördi brèf á Þíngeyrum á Pètronellæ degi, þat er hinn XXXI Maii mánadar; þar stadfesti hann brèf Orms biskups, um burttöku prests skylldu úr Giliá medan Arngrímr væri ábóti; annat brèf var giört um laxveidi í Laxá, er hann dæmdi Þíngeyra klaustri nærsta dag eptir. Gissur Galli gaf þá reka á Vatnsnesi Ióni biskupi til móts vid Stein bónda at Asgeirsá oc Þíngeyra menn, tveimr nóttum eptir Hallvardarmessu; voru þar vottar, Eynar prestr Haflidason, oc Gudmundr prestr Einarsson; þat sumar tók Ormr Snorrason, bródr Gudmundar sem drukknadi, lögsögn eptir Sigurd; þá kom út Ormr lángi í Hvalfyrdi á Olafssúdinni, átti hann þat skip siálfr, hafdi egi skip komit meira hèr til lands, hladit med jafn gagnsamt fè. Ivar Hólmr fór þá utan; Gyrdir biskup skipadi oc bródr Eystein officialem yfir Vestfiördu, enn hann bióst til utanferdar siálfr, oc lagdi út med Andrèsi Gíslasyni í Mörk á kaupskipi litlu, enn er þeir komu nær úr landasyn, sökk skipit med öllum farmi austurundan Vestmanneyum, enn menn allir komust í bátinn, tók hann nær XL manna, enn ádr hafdi hann valla borit hálfan þridia tug, oc var þat mikil dásemd Guds, svo at þeir komust allir á land med lífi; enn kistu þá rak heila upp á Eyrum, er í var sylfr Skálhollts kyrkiu oc dyrgripir oc pontificialia Gyrdirs biskups; eignadi biskup oc þeir ed med honum voru frelsi þetta hinum heilaga Þorláki. Veturin nærsta þar eptir giördi hardan, oc

1360 var ei komin sandgródr á Jónsmessu, voru kulldar oc nædingar sífelldir, hugdu menn stædi af hafís er lá vid land, oc eigi fór burt fyrr enn á Bartholomeusmessu; hrídir voru miklar á Páskum. Frá Laurentiusmessu voru mörg vedr hörd til veturnátta oc var mannfall mikit vid Myvatn í hardrètti; dó þar hálfr hinn níundi tugr í þrem kyrkiu sóknum; þá selldi Jón Skalli Hóla biskup *in octava sancti Stephani* jördina á Holltastödum, Brandi bónda Asbjarnarsyni oc konu hanns Gudnyu Sölmundardóttur fyrir Flugumyri med öllum hennar hlunnindum; enn á Þorláksmessu um sumarit, mæltust þeir vid biskuparnir Gyrdir oc Jón Skalli í biskupsbadstofunni í Skálhollti, oc reiknudu med sèr vinsamliga um fiár skipti forveriara þeirra Orms oc Jóns Sigurdarsonar biskupa; taladi Jón biskup eptir gull-kaleiknum, sem Ormr gaf Jóni biskupi Sigurdarsyni frá Hóla kyrkiu oc vog nær tvær merkr, qvadst ei vilia hanns missa frá sinni kyrkiu hversu sem annar reikningr færi med þeim, enn Gyrdir biskup heimti af Hóla kyrkiu þau XXIII hundrud er Ormr hafdi tekit til láns af Skâlhollts stad oc ólokin væru; samdist svo med þeim med rádi þeirra er nær vóru staddir, af bádum biskupsdæmunum, at gullkaleikrinn skylldi aptr leggiast til Hóla oc XX hundrud koma í móti, og þar med hèt Jón biskup at giallda þau XXIII hundrud er um var rædt; sidan skilldu þeir oc voru ásáttir fyrir sic oc eptirkomendr sína um allt millifarit; voru þessir prestar med er samþykktu, Flosi Jónsson, Þorleifr Narfason, Snorri Þorleifsson Klyngir, Runúlfr Hildibrandsson oc Magni Jónsson af Skálhollts umdæmi; enn af Hóla biskupsdæmi, Þorsteinn Hansson, Bödvar Þorsteinsson, Þorleifr Bjarnason oc Marteinn Þiódúlfsson. Þá ritadi Jón biskup í eina bók allar kyrkiu eignir í Hóla umdæmi. Þá tókust ferrád Jóns Guttormssonar í Nordurlandi, oc giördi hann margar óspektir, því var hann Skráveifa kalldr, söfnudust nordlendingar í móti hönum hiá Þverá í Vesturhópi nær þriú hundrud manna oc bönnudu hönum yfirreid, hann reid þá sudr oc treystist ekki vid þá.

## LXX Kap. Utkoma Smids og stórmenni talit.

Um sumarit kom út Smidr Andresson med hyrdstiórn, hyggia menn verit hafa bródir Bótólfs er fyrr var hyrdstióri, hann var

óeyrinn oc ódæll; Arni Þórdarson bad hann giöra vináttu vid sic, því at hönum þókti ei óhætt vid Jón Guttormsson, oc þá hèt Smidr oc voru gjördir svardagar med þeim, endti þó Smidr illa sem sídar segir, þvíat Jón bar róg í milli, enn Smidr veitti Jóni at því at hann tók lögsögn nordan oc vestan; Jón var miöc óvinsæll, illr vidfángs enn lítt hugadr í þraut. Þessir voru þá adrir höfdingiar uppi af leikmönnum sem um sè gètit, Arni Þórdarson, Þorsteinn Eyúlfsson á Vídimyri, Gissr Galli í Vídidalstúngu hanns son hèt Hákon fadir Jóns; Benidict bóndi Kolbeinsson oc Kolbeinn sonr hanns, oc enn fleyri af þeim höfdingium er Ormr biskup lèt utan stefna fyrrum. Ivar Hólmr Vigfússon, Einar bóndi Eiríksson Sveinbjarnarsonar, hann bjó þá at Grund í Eyafyrdi, Magnús Brandsson á Svalbardi oc Eiríkr, Örnúlfr Jónsson oc Guttormr sonr hanns í Stóraskógi, Einar Gíslason nyrdra; Sæmundr austur í Skardi, hann hygg ec væri af Oddveria ætt, Vermundr Gudmundarson í Ædey, oc enn fleyri, Rafn son Bótolfs hyrdstióra Andressonar var frumvaxta; einnin þeir er ættir eru frá talldar, Jón lángr oc Gudmundr fadir Ara hinns ríka oc Rafns, Ormr Sturluson Snorrasonar lögmanns Narfasonar var enn, Olafr Baggi Bergþórsson oc Ragnhilldar Steingrímsdóttir; enn af prestum voru þessir helstir auk þeirra er nefndir eru vid sátt biskupanna, Einar prestr Haflidason á Breidabólstad, Þorsteinn Pálsson, Hálfdan Guttormsson, Þorleifr Bergþórsson, Sölvi Brandsson. Ormr Snorrason lögmadr er enn ótalldr oc Þorvalldr prestr Grímsson, bródir Eysteinn var þá oc uppi oc mikilsvyrdr; sá madr bjó at Krossi er Ormr hèt, at hönum fór Markús Barkadr Mardarson, kona hanns oc synir, oc særdu hann, fyrir þat lèt Arni Þórdarson dæma oc höggva Markús, oc þat gaf Smidr Arna at sök; þaraf giördist ósátt med mönnum þeirra Arna oc Smids oc Jóns Guttormsonar, oc bördust þeir á alþingi, var þá róstusamt í landi. Þá var elldr í Trölladyngium.

## LXXI Kap. Daudi Gyrdirs biskups oc frá klerkum.

Um haustit fór Gyrdir biskup utan á Olafssúdinni med Ormi lánga oc med hönum Helgi ábóti af Jóns kyrkiu í Björgvin, átta

prestar sæmiligir oc adrir vildismenn; þeir voru nær nyu tugum alls; gengu þá hörd nordanvedr; frèttist sidan ekkert til þess skips oc hugdu menn farist hefdi vid Færeyar med allri áhöfn oc svo mönnum; hafdi Gyrdir biskup verit í X vetr; bródir Eysteinn fór þá oc utan á skipi, þeir komu seint um haustit vid Hálogaland, og voru menn miöc at þrotum komnir oc mest af drykkleysi; kom bródir Eysteinn heim til Helgasetur í Þrándheimi nærri
1361 Kyndilmessu, enn deydi á lángaföstu fyrir passións sunnudag, þó telia nokkrir andlát hanns fim vetrum sidar skèd hafa. Snorri prestr Þorleifsson Klyngir var þá officialis í Skálhollts biskupsdæmi, enn Flosi prestr Jónsson rádsmadr. Snorri prestr kiærdi á Vermund Gudmundarson um ærgiölld úr Ædey til Vatnsfiardar kyrkiu, stód þá Einar bóndi Eyríksson fyrir Vatnsfiardar kyrkiu máldaga, oc er þá sem hann hafi haft þar bú oc verit stundum siálfr at, þó Helga kona hanns væri sem optast á Grund í Eyafyrdi. Þá giördist fyrst óþokki med nordlendingum oc Jóni biskupi Skalla; enn á Tiburtiusmessu, þat er XIV dagr Aprílis mánadar var lagdr sáttarfundr nordr á Hólum milli biskups oc Eyfyrdinga, þar var vid staddr Snorri prestr Klyngir frá Skálhollti officialis og margir höfdingiar, þar var Smidr hyrdstióri oc vard engum sáttum á komit, rida þeir frá fundinum Stephán prestr oc Gudmundr prestr, vóru oc nordlendingar miöc ósáttir vid Smid fyrir þá sök, at fyrst er hann kom út hingat í Grindavík, hafdi hann ridit nordur um land, oc kallat hina helstu bændr þar útlaga. Þorsteinn prestr Hállsson er verit hafdi officialis, reisti sic þá í móti Jóni biskupi, oc lèt alla presta millum Yxnadalsheidar oc Reykiadals handleggia sèr hlídni; komu þeir heim til Hóla á Katrínarmessu, oc afsögdu Jóni biskupi hlídni; prestar oc leikmenn úr Eyafyrdi kölludu hann Grænlendínga biskup enn ekki sinn, oc tóku Þorstein prest sèr til formanns.

## LXXII Kap. Bardagi á Grund.

Nú kèmr Jón Skráveifa svo rógi sínum, at Smidr tekr Árna Þórdarson fángin oc hèldt hönum svo, þat þókti Árna hardt at taka órèttindi af Smid fyrir engar sakir nema illmæli ófundarmanns síns, ætla ec oc at þeir höfdingiar flestir hafi verit med Eyfyrdingum á

fandinum á Hólum nema Smidr oc Jón med biskupi, oc med nordlendingum var Þorsteinn Eyúlfsson; skaut því Arni sèr frá dómi Smids, oc máli sínu til kóngs, enn Smidr lèt drepa hann í Lambey daginn fyri Jónsmessu, oc var lík hanns flutt í Skálhollt oc þar jardat; þá kom út Ivar Hólmr oc Andrès Gíslason. Eptir alþíng, reid Smidr nordur í land, oc med hönum Jón lögmadr Guttormsson oc Ormr Sturluson Snorrasonar lögmanns Narfasonar frændi Jóns oc adrir fleyri menn er fylltu flokk hans, oc söfnudust menn á móti hönum á Grund, þar var þá Þorsteinn Eyúlfsson oc enn fleyri; Smidr var kominn til Grundar fyrri, þar bjó þá Helga kona Einars bónda Eiríkssonar, hann var ei heima, oc má vera hann hafi vestra verit í Vatnsfyrdi. Þat var á seliumannamessu; svo er sagt at fátt karlmanna væri heima á Grund oc fátt manna um Eyafiörd er þá Smid bar at, oc hafi Helga sendt eptir smalamönnum, enn þat er ósannara at smalamenn hafi verit enn gódir bændr sem eptir var sendt. Smidr var stráklyndr oc qvennsamr, oc heimti konur til sængr, hvar sem hann kom, oc svo einnim á Grund; tók Helga því líkliga oc baud konum þeim er þiónudu þeim til sængr at snúa um annari brókinni, því menn brúkudu þá lángbrækr, enn er þeir voru drukknir oc höfdu lagt sic til svefns, komu menn þeir er til vóru fengnir, oc sóktu at þeim; þat er þó sannast at segia, at þat var ei fyrr enn um morgunin á midium morgni sem atlagan tókst; hrukku þeir skiótt vid, oc er mælt at hörd yrdi vidtakan þó þeir væri óvidbúnir, þó trúum vèr því framar sem qvedit er af þeim manni er samalldri þeirra var, at þeir hafi nád vopnum sínum oc bríngabrynium oc ordit hardr bardagi oc lángr, nær um tvær stundir; var ei audunnit at þeim; Smidr var frækinn oc vopnfimr, oc er á þá gèkk, hliop hann uppá skálabitan oc svo af hverium bita á annan med vopnum sínum, oc var ei audsóktr; urdu margir sárir af hverutveggium, enn sumir fèllu; vard þat um sídir at höfut var höggvit af Smid oc hraut í mjólkr skèmmu Helgu ofaní trog eitt, segia sumir menn at hún hafi ei viliat spilla láta mjólkinni oc qvedit á, at saman skylldi slá öllu til grautar giördar. Þar fèll oc Jón Guttormsson Skráveifa, oc er mælt þeir hafi lostit hann járnreknum kilfum til bana, er hann skreid út um kamarsaugat, hann hafdi gèfit Kolbeinsstada kyrkiu hálft Lón í testamenti sínu, oc heldr

hún því sídan. Ormr Sturluson komst til kyrkiu. Þessir menn fèllu med Smid oc Jóni: Jarpr Jónssön, Jón lángr, Björn Magnússon, Gudmundr Andrèsson og Þorvardr Helgason; enn af nordlendíngum Andrès Ormsson, Steinn Brinjúlfsson, Magnús, Björn Þórdarson, Gudmundr Halldórsson oc Einar. Þorsteinn Eyúlfsson hafdi gengit vel fram. Ormr Sturluson þádi líf oc Þorgeir Egilsson og þeirra menn nokkrir, enn þá var nær dagmálum er bardaganum lauk, flutti Ormr med sèr aptr vopn oc hesta oc reydtygi þeirra sudr er fallit höfdu, enn lík Smids var flutt til Hóla; fylgdarmenn hans er mælt at heygdir hafi verit í Helguhól hiá Grund enn ei veit ec sann á því, er þat líkara þeir hafi þó fengit gröft at kyrkiu, sá madr qvad þetta um Grundar bardaga er Sniólfr hèt.

Miöc eggþunn öx
í jardarföx
sveik lída líf
sneid hilldar hlíf
dreif hrotta hregg
á heilavegg
gaf ei hvíldar hlíd
hardfengit lid,

Sonr Kolbeins sitt
sverd reiddi frítt
var Þorsteins vigr
vel lángr og digr
med hverium hann
hugarprydi vann
afl skorti ei
í örfa þey,

Frág ec stæla storm
mög Sturlu, Orm
þá er kysti kyrr
kyrkiu dyr
qvad hann þurfa þess
at, þylia vers
þó er bænin best
hönum byrgdi mest.

Jón skreiddist skiótt
skráveifa fliótt
kamars augat út
vid ærna sút
sú lióta leid
lèdist virdum greid
þeim er fylgdu þann
þreklausan mann.

Smidr vardist vel
fèkk vyrdum hel
hanns brandrinn breidr
þá er bardist reidr
hönum fylgir fast
í fleina kast
sveit hvergi hrædd
hríngserkium klædd.

Kylfu héyrdi haugg
hiálmgridr taugg
vel hvöss oc hrein
rètt holld sem bein
vid þúnga þraut
þegn falla hlaut
hèr hneit hagr
hèr fellr bragr.

Eptir þetta keyptu Eyfyrdíngar ferju af Þverárstad oc fóru utan, Þorsteinn prestr Hallsson, Stephán prestr oc Gudmundr prestr lágr, Þorsteinn Ejúlfsson oc Olafr Pètursson, er göfugastir voru af Eyfyrdingum, komu þeir vid Hálogaland oc greip Hreidar Darri menn oc skip, oc færdi leikmenn til konúngs í halldi, ætla menn verit hafa í hefnd eptir Smid, enn Þorsteinn prestr Hallsson andadist oc allir hanns kompánar. Magnús konúngr hafdi stefnt Jóni biskupi Skalla utan um sumarit, oc fór hann utan, oc lagdi fram fyrir konúng brèf páfans Innocentii VIta med því nafni fyrir Hóla biskupsdæmi, lèt konúngr hann sveria sèr trúnadar eida oc vard hann í Þrándheimi um veturin, enn fèkk engan lèttir í málum sínum af Olafi erkibiskupi. Þat haust gaf Snorri prestr Klyngir officialis XV *calendas Septembris* skipan sina út um ost toll til Videyar; þá brann kyrkian í Haukadal í þann tíma med öllu því er þar var inni.

## LXXIII Kap. Frá Þórarni biskupi oc ímsu.

I þann tíma sprakk framm Knappafells jökull oc hlióp ofan í Lómagnúps-sand oc tók af vegu alla; var oc elldr ógurligr í Heklufialli; giördi þá vetr mikin oc vard hallæri oc mannfall mikit. 1362
Um sumarit kom út Þorarinn biskup norrænn er vígdr var til Skálhollts oc Jón Eiríksson Hóla biskup á hinu sama skipi; komust þeir biskupar á land fyrir Mikiálsmessu, enn sídan braut skipit í spón fyrir Snæfellsnesi; fór Jón biskup heim til Hóla, oc hèldu Eyfyrdíngar vid hann samri óhlídni sem ádr; voru vígaferli, sá madr er Nícolás hèt vo þann er Ali hèt, oc segia sumir þá hefiast Kisamál. Þá var Þorsteinn Eyúlfsson fánginn í Hallandi; enn er Hákon konúngr son Magnúsar smekks fèkk Margrètar dóttir Valdimars konúngs frá Danmörku; leystu þeir fedgar Magnús konúngr oc Hákon konúngr Þorstein úr fángelsi frá Audbergishúsi í Hallandi, oc sættust vid hann um allar sakir, aftöku Smids oc adra hluti. 1363
Ekki var þat seirna enn hèr segir at Þorsteinn kom út, oc má vera at lausn hanns hafi skèd um haustit er Þórarinn biskup var út kominn, ef rètt er ártal á sölubrèfi þeirra Hiallta oc Kètils Gudmundarsonar á jördunni í Eistafelli til Bödvars prests Þorsteinssonar, mánudag'n í föstu inngáng, þessi missiri, fyrir þat hann

skyldi gânga í skulld fyrir þá til Þorsteins lögmanns um XV kú-gylldi. Þórarinn biskup fór um haustit eptir í Vestfiördu oc giördi máldaga kyrkiu á Briámslæk oc á Saurbæ á Raudasand, enn í Vatnsfyrdi stadfesti hann dóm hinn XIIta *calendas Septembris* edr XXta Augusti; föstudagin eptir Þorláksmessu vígdi hann kyrkiu í Asgardi, stadfesti oc máldaga Jóns biskups Sigurdarsonar um Kyrkjubóls kyrkiu í Skutulsfyrdi VI dag Septembris, edr sem þá var kallat octava Januarii; nærsta dag eptir Olafsmessu hina seirni dæmdi Oli prestr Svarthöfdason, er menn hyggia verit hafa í Odda, eptir brèfligri tilsögn Þórarins biskups, um fiöru oc reka-merki milli kyrkiu á Breidabólstad oc Hollti undir Eyafiöllum, enn allt þetta er talit at siá megi, at ekki skèdi Grundarbardagi seirna enn 1361. Þvívat biskupar Þórarinn oc Jón skalli, kómu ei út seirna enn hèr segir 1362, enn Þorarinn biskup mátti ei starfa í slíku þat haust it sama er hann kom út. Þat ætla ec víst at Oli prestr Svarthöfdason væri af ætt Dugfússona, því at Svart-höfdi Dugfússon hafdi átt son þann er Oli hèt, oc ætla ec væri fadir Svarthöfda födr Ola prests; á því sumri drukknadi Katrín Philippusdóttir á Haga af skipi med Þórdi syni sínum oc þremr mönnum ödrum; fær þat vel stadist at Þórdr, er þá mundi verit hafa um þrítugt, hefdi fadir verit Odds lepps oc Sigurdar fóstra, oc þeir þá úngir, þó sumir halldi annan Þórd födr þeirra, er eigi vita af þessum. Andrès Gíslason fór þá utan oc Ormr Snorra-son, Magnús Jónsson oc Þorgeir Egilsson. Arngrímr ábóti á Þíngeyrum var þá dáinn fyrir vetri sidan, oc giördist þar Gunn-steinn ábóti; hann var vid er Benidict bóndi Kolbeinsson giördi
1364 sitt testamentum, oc gaf margt Þíngeyra klaustri. A alþíngi um sumarit eptir var lögtekin Mariumessa á jólaföstu. Þá kom út af Hialtlandi skip eitt í Önundarfjörd er færeyíngar áttu, var á því Arni Svæla Færeyínga biskup, oc vard hann sæhafi, sátu þá III biskupar á landi hèr. Þá kom oc út Þorsteinn Eyúlfsson oc Olafr Pètursson med völldum, hafdi Þorsteinn lögsögn af Magnúsi konúngi fyrir nordan oc vestan, enn Olafr sysslu oc stærri mál, sumir segia oc Þorsteinn hefdi sysslu fyrir austan oc sunnan oc hin stærri mál, enn lögsagnarmadr sá er Olafr hèt, oc ádr hafdi lögsögn sunnan oc vestan, lèti frá sèr oc hefdi Þorsteinn hana þess á milli, enn sidan væri lögtekit, at sami madr væri lögmadr

oc hèradsdómari. Þá deydi Biörn Audunnarson áboti í Videy, enn Ión vard áboti þar aptr; enn seint á þeim missirum deydi Þórarinn biskup, oc giördist Snorri prestr Klyngir officialis í Skálhollts umdæmi; voru þá lidnir tíu tygir vetra frá því er Islendíngar sóru Noregs konúngi skatt, oc hefr sú ölld einna verst verit á Islandi, oc hellst medan Magnús konúngr Smekkr rèdi löndum; Giördi þá vetr mikin oc lángan. Þá var veginn Ión Benidictsson oc qviksettir Selbelgia synir, oc þá hafdi ordit víg Snorra Þorleikssonar.

## LXXIV Kap. Konúngaskipti oc frá valldamönnum.

Þessunæst vard Magnús konúngr fánginn, oc hafdi ekki ríki síd- 1365
an í Noregi, enn Hákoni syni hans dæmdist land allt. Þá voru lesin upp stefnubrèf konúngs til ríkismanna at vitni Þorsteins Eyúlfssonar, Ivars Vígfússonar oc Benidicts Kolbeinssonar, einnin verndàrbrèf Ións biskups Eyríksonar frá Hákoni konúngi, oc vitnisburdr Þórarins biskups um heimilld hans fyrir Hóla stól, enn hann krafdi Olaf Pètursson hyrdstióra sèr til adstodar; Bödvar Þorsteinsson oc Þorvardr Grímsson prestr, vitnudu þá einnin um páfatyund á dögum Audunnar biskups, at hún hefdi afhendt verit Sniólfi presti Sumarlidasyni oc Þorsteini presti Illhugasyni, oc í skip lögd; einnin á dögum Egils biskups, hefdi hún farit til Noregs med Sniólfi presti, oc hann afhendt Páli erkibiskupi. Voru þá vígaferli, Ión Klafi vo þann mann er Arnbiörn hèt, Atli Hörd, enn Arni Erlend. Andres Gíslason fór utan um sumarit; lètu þeir af hyrdstiórn Þorsteinn oc Olafr, enn Andres tók hana 1366
annat sumar er hann kom út aptr oc med hönum Ormr Snorrasson er fyrr var lögmadr, þó hèldt Þorsteinn lögsögninni. Ivar Hólmr hafdi ádr komit út, oc hafdi umbod yfir páfa tyundir; Þorgeir oc Magnús voru oc valldamenn med þeim Andrèsi. Þá er sagt elldr hafi komit upp í Öræfum oc eydt LXX bæum, hafi ei eptirlifat nema ein gömul kona oc kapall; var þá hardt í landi.

## LXXV Kap. Frá Oddgeiri biskupi, Nicolási oc fleiru.

Snorri prestr Þorleifsson Klyngir hafdi officialis starf í Skálhollts biskupsdæmi sem fyrr segir; hann giördi einn giörníng um lambselldi, er Ögurs bændr vildu ei af hendi láta, Þordr oc Sigurdr sonr hans, vid Vatnsfiardar kyrkiu, enn Einar bóndi Eyríksson taladi eptir; enn á því sumri kom út biskup til Skálhollts, menn ætla norrænan verit hafa oc hèt Oddgeir Þorsteinsson. Þann tíma var Nicolás Broddason hèr í landi, oc sagdist vera lögmadr á hinum nærstu missirum, enn hann reyndist landrádamadr; út er
1367 sagt at komit hafi Ivar Gallti oc þá dáit bródir Eysteinn. Þá fór Þorsteinn Eyúlfsson lögmadr utan, oc ætladi á fund Magnúsar konúngs þar sem hann sat fángian, enn er hann kom til Noregs var hann hertekinn af Lybskum oc fluttr til Lybiku, oc sat þar sídan, þartil er Albert, er Svíar höfdu tekit fyrir konúng yfir sic, baud at láta hann lausan. Andrès Gíslason fór oc utan, enn kom þó aptr híngat, enn lögsögn tók Einar Gílsson í stad Þor-
1368 steins. Þat sumar er Þorsteinn vard laus, fór Oddgeir biskup um Vestfiördu, oc vígdi kyrkiu í Lángadal, enn visitèradi Lundar kyrkiu. Þá tyndist Narfi Þorleifsson oc vo Ión Grárófa bónda
1369 einn qvelld fyri Mariumessu. Annat sumar eptir á Þorláksmessu, leiddi Einar prestr Haflidason, er þá var rádsmadr Hóla kyrkiu, tvö svarin vitni, Þorvard prest Grímsson oc Odd Grímsson at því, fyrir dómi Ións biskups heima at Hólum, at Risamyri hefdi verit halldin Hóla kyrkiu eign meir enn fyrir XL árum, at vitni Skúla rádsmanns á dögum Audunnar oc Laurentii biskupa, oc fyrir þat úrskurdadi Ión biskup hana undir Hóla kyrkiu, enn Einar prestr hafdi adr stefnt Magnúsi Grímssyni um; sídan fór Ión biskup utan á páfa fund, oc fèkk styrktarbrèf af Urbano páfa hinum Vta med því nafni, med hans innsigli fyrir biskupsstólnum á Hólum. Einar prestr Haflidason var officíalis á medan; hit sama sumar fór Ivar Hólmr utan; þá deydi Ión ábóti í Videy, oc Gudny abbadys á Reynistad, enn þángat vígdist Oddbiörg. Þorsteinn Eyúlfsson hafdi þá verit í halldi hiá hertoga Henrik, er menn hyggia Iárn-Henrik Holsetu jarl, því hann var mikill óvinr Noregs konúngs; enn þetta sumar kom Þorsteinn út, oc hafdi lögsögn yfir allt land, oc hèllt því um hríd. Giörast nú miöc

myrkvar sagnirnar í þennan tíma öllu meir enn fyrri. Ión Kyrtill sat fyrir Páli Þorsteinssyni oc særdi menn hans; oc þá var veginn Eyúlfr Bútason.

## LXXVI Kap. Utkoma Ións biskups oc Þorgauts.

Föstudagin nærsta fyri Barnabæ messu, önnur missiri, þat er 1370 hinn XI dagr Iúnii mánadar, vígdi Oddgeir biskup Hvalsness kyrkiu med þeim máldaga at kyrkian ætti fiórdung í heimalandi, enn Biörn bóndi Olafsson oc Salgerdr kona hans, gáfu kyrkjunni jörd á nordr nesinu, oc þá visitèradi hann Hvams kyrkiu í Haga á Bardaströnd; eigi var þess helldr gètit hvör þá bió í Haga. Þá kom út um sumarit Ión biskup til Hóla, oc gengu allir Eyfyrdingar til sætta vid hann lærdir oc leikir, er þeir sáu brèf hans. Þá vard landskiálfti í Ölvesi svo mikill at fèllu XII bæir; Þorgautr bóndi kom út med hyrdstiórn af konúngs hendi yfir allt land; sá madr fèkk þá oc konúngs sysslu er Skúli Þórdarson hèt; enn Ión Gudmundarson vard ábóti í Videy; Ormr var þá lögmadr; þá var oc uppi Lytíngr bóndi Einarsson í Húnavatns þíngi, enn þat veit ec ógiörla, hvört hann var sonr Einars gullsmids, hann samdi vid Þíngeyra klaustr um veidi; þau misseri var borinn Olafr son Hákonar konúngs oc Margrètar drottníngar er sídar vard konúngr kiörinn yfir öll nordrlönd; þá var höggvinn Ión Klafi eptir dómi, oc dó Gissr Galli, var hann vetri meir enn tyrædr; þá var veginn sá madr er Valgardr hèt.

## LXXVII Kap. Frá ímsum atburdum.

Vetr hinn nærsti var aftaka hardr um allt land, oc mest fyrir 1371 nordan; þá giördi Ión biskup Eyríksson giörning vid Dálk bónda um landamerki millum stadarins á Miklabæ oc Reykia í Túngusveit; um sumarit fór Oddgeir biskup utan; er ekki þess gètit at stórum yrdi þá til tídinda, nema lát Ivars Hólms Vigfússonar er hyrdstióri hafdi verit oc lengi valldamadr, son hans var Vigfús

Hólmr; þá deydi einnin Hafliúi ábóti á Þverá; eptir hann kom Arni Iónsson oc Klófa Gissur drukknadi; enn sá madr var tekinn
1372 af fyrir mordvíg er Hrói hèt; þareptir giördi annan vetr hardann jafnt sem hinn fyrra; kom þá út um sumarit Oddgeir biskup í Hvalfyrdi oc Andrès Sveinsson med hyrdstiórn; var þá tekinn af Klófa Oddi fyri mörg illvyrki; þá handlagdi Kètill Grímsson Þorsteini lögmanni Eyúlfssyni allan vidarreka á Hrúteyar strönd á Hornströndum fyrir ólögliga peninga medferd nokkra millum Hvalár oc Daugurdardalsár; vottudu þat Iörundr Biarnason, Þorsteinn Hallsson, Þorgils Iónsson at Hvammi á Vatnsnesi; giördi nú hinn þridia vetr jafnhardann sem hina fyrri, oc mundi þá engi-
1373 inn madr adra jafn-strónga hvern eptir annan, var nær engin grasvöxtr; lágu hafísar vid land fram til Barthólomæusmessu, oc fèllu fátækir menn af húngri um allt land, svoat mörgum hundrudum sætti; þá fór fram vitnisburdr Marteins Þiódúlfssonar oc Þórdar Þórdarsonar, presta Bryniúlfs Biarnasonar oc Asgríms Snorrasonar um Olúfar parta; þat vóru rekar nokkrir, er Benidict Kolbeinsson gaf med Ingibiörgu dóttr sinni stadnum í Reyninesi; er þar seinast gètit Benidicts med sönnu svo at vèr vitum, oc hafdi hann verit hinn mesti höfdingi einn þá í ölld; Þorgautr hyrdstióri fór utan um sumarit med Skúla Þórdarsyni; Biarni Kolbeinsson vo þann mann er Þorkèll hèt, oc dó Klofa Þorbiörn. Þau missiri deydi Olafr erkibiskup í Nidarósi, oc kom Þrándr til erkibiskups tignar eptir hann ári seinna; þá giördist Erlendr príór
1374 á Mödruvöllum. Þat sumar kom út Þorgautr hyrdstióri, er hann hafdi utan verit einn vetr, oc lèt taka Einar Dínt úr Þíngeyra klaustri til fánga, hann prófadist mordíngi sidan oc var qviksettr; þat var þá venia um þá er myrdu menn, enn bótum vard komit fyrir víg; utan fór þá Andrès á Sunnefiu súdinni, þat skip týndist í hafi oc hvört mannsbarn af; hans son var Gísli er sídar deilldi vid Vígfús Flosason; giör voru þá brèf um reka Hóla kyrkiu í Olafsfyrdi, oc um fè hennar undir umsión Gunnsteins ábóta; þá var Oddgeir biskup í landi hèr, því at vetr hinn næsta er kall-
1375 adr var hvalavetr, *in festo Iulianæ virginis* edr hinn XVa dag Febrúarii mánadar er samin máldagi Krysivíkr kyrkiu; sá vetr var nærsta hardr svo at peníngr var at þrotum kominn á lángaföstu; hètu menn fyrir sèr nordanlands med samþykki Ións biskups Skalla

á Gudmund biskup til árnadarords; at gèfa eina alin af hveriu hundradi, oc fara med á páfagard, at tekinn yrdi upp helgr dómr Gudmundar biskups; skipadist vid þat heit svo vel, at enginn fiárfellir vard; á Kyndilmessu útgaf oc Ión biskup heitbrèf lærdra oc leikra, at menn hèlldi heilagrar Mariu gètnadardag á Iólaföstu árliga, oc fasta vid þurt, var þetta allt giört med einu brèfi, oc samþykktu Ormr Þorkèllsson, Bergr Þorsteinsson, Ión Gunnarsson, Ormr Þórarinsson oc Haukr Illhugason prestar; fóru utan med fè þat Sigurdr Loptsson oc Þorsteinn prestr Brynjúlfsson; er sagt at Nordlendíngar hafi litlu sídar risit á móti Ióni biskupi, oc hann farit utan um sumarit á Mariubollanum, eignadi sèr þá konúngr skipit, er þó ei gètit fyrir hveria sök, enn ec ætla heit þetta lögtekit, oc ferd Ións biskups, oc ýfingu Nordlendínga miklu fyrri skèd hafa; þá er um er gètit ádr lögtekning Mariumessu á jólaföstu oc sídan verndarbrèf Ións biskups oc vitnisburd Þórarins biskups hönum til góda, er þat allt af sumum talit þessi missiri, oc hin nærstu skèd hafa; enn þó at Nordlendíngar væri honum ervidir, þótt eì sè at siá at hann hafi á þann hátt framfarit sem Ormr biskup er fyrir hann var, þá hygg ec hann hvörki verndarbrèfa nè vitnisburda leytat hafa frá því er hann hafdi sínt Eyfyrdingum páfabrèf þat er hann sókti út, oc þeir voru alsáttir vid hann; þessi missiri fór Oddgeir biskup um Vestfiördu sem gètr máldagi kyrkiu at Haga á Bardaströnd, hann var giör á Pètursmessu *in vinculis* oc *in octava sancti Laurentii* edr í messuvikunni; útgaf hann í Hytardal brèf sitt um ómaga vist í Hytardal; eptir því er Ión prestr Hallsson oc Biörn Iónsson hafa borit fullnadar vitni fyrir sèr um ættartölu Olafs Þorlákssonar, teljandi mann fyrir mann frá Þorleifi Hreim, er fyrstr eignadist ómagavist af Katli presti födr sínum, svo þar hefr alldrei qvennknè í milli komit, utan hvör lángfedga tekit eptir annan, því skipum vèr, segir biskup, fyrrnefndum Olafi þá ómagavist í Hytardal sem Þorlákr fadir hanns Isleifsson hafdi um sína daga, svo at Olafr skal taka útlukt af svomiklu sem vani er til á hverium XII mánudum, eda skipa þann ómaga í, sem ei er þyngri enn kyrkiunnar máldagi vottar vera egi; skal þessi skipan standa medan ei verdr próf sannara leidt um ómaga vistina; nú verdr ei talit frá Olafi þessum á vorum dögum, enn þat er lióst at

Ísleifr födr fadir hans hefr verit sonr eda sonar- sonr Þorleifs Hreims oc heitit i ætt Gissurar jarls. Þá selldi Arni ábóti á Munkaþverá oc Conventu brædr, Gudmundi bónda Sigurdarsyni hlut þann í Skridulandi í Yxnadal, sem Gróa Oddsdóttir hafdi gefit klaustrinu med sèr í próventu, vottudu Biörn prestr Bergsson oc Broddi Arnbjarnarson; Þorsteinn lögmadr Eyulfsson fór utan um sumarit; er oc þess gètit at veginn hafi verit Þorsteinn bóndi nokkr, oc hèt sá Snorri Uxafótr er vo; þá deydi Þorgautr hyrdstióri, enn Sigurdr Gudmundarson, er fyrrum hafdi lögmadr verit, hafdi þá lögsögn fyri sunnan; þá var oc veginn Páll Hoppr; giördi
1376 þareptir vetr svo hardan med snióhrídum oc frostum at enginn mundi þvílíkan; féllu fátækir menn af hardrètti um allt land svo mörgum hundrudum sætti; þá kom Þorsteinn Eyúlfsson út aptr, oc hafdi lögsögn nordan oc vestan, enn Nicolás Broddason er sic hafdi sagt lögmann vera, var dæmdr oc höggvinn eptir dómi; þa er mælt at Ión biskup Eyríksson kæmi út í Vestmanneyum, oc lèt lesa brèf sín á alþíngi, þat er ec ætla fyrri skèd hafa sem ádr segir, oc þar veit ec rök til at þat er sannara, því Benidict Kolbeinsson er þá gètr, ætla ec hafi dáin verit er hèr var komit; þó segia sumir hann hafi lifat tvo vetr eda þriá sidan oc Ivar Vígfússon var þat at vísu; þar med ætla ec at Olafr Pètursson hefdi eigi nú hyrdstiórn í nordurlandi, enn þó lifdi hann miöc laungu hèreptir.

## I XXVIII Kap. Vèginn prestr oc frá nefndarmönnum.

Oddgeir Skálhollts biskup útgaf um sumarit á Þorláksmessu í Skálhollti vígslu brèf Vallaness kyrkiu; var í þann tíma veginn Ni-
1377 colás prestr Þorsteinsson á Pètursmessu í kyrkiu í Hollti í Önundarfyrdi; reid Oddgeir biskup vestr oc hreinsadi kyrkiuna, oc hvarf svo aptr; á þessari leid gaf hann út í Vatnsfyrdi stadfestíngu uppá einn dóm Ións ábóta í Videy um hvalskipti á almenníngum, hvar er Vatnsfiardar kyrkia á rekaítak. Vetr var þá svo hardr at fènadr var at þrotum komin á lángaföstu; rak vestr hiá Helgafelli VI hundrut smáhvali er hnídíngar heita, enn sídan rak þar LXXX; þá selldi Ión biskup Eyríksson á Hólum med

rádi þorsteins-prests Iónssonar rádsmanns síns, Gísla bónda Gíslasyni, jördina at Höfda fyrir jördina í Lambanesi oc at Reykium *in passione domini*; enn Valgardr bóndi Loptsson, Bryniúlfi bónda Biarnasyni Mánaskál fyrir Vallá hina synnstu á Kialarnesi. þess er því gètit at ec ætla þann Brynjúlf vera hinn sama er gètr á dögum Egils biskups, oc kann vera fadir hafi verit þeirra Biarnar oc Benidicts, er miklir ríkismenn voru fyrir nordan land eptir þessa tíd; þat sumar var land svarit konúngi, oc eru þá tilnefndir hinir hellstu menn, Oláfr Pètursson er hyrdstióri hafdi verit, þorsteinn Eyúlfsson, Eyríkr Magnússon oc Gunnlaugr Magnusson er sídar hafdi sysslu í Borgarfyrdi; enn af prestum voru þá fremstir taldir í Hóla biskupsdæmi, Einar prestr Haflidason, Marteinn þiódúlfsson, þorsteinn Iónsson oc þorsteinn Steinmódsson; gètit er oc leikmanna nafnkunnugra í Húnavatnsþíngi, Odds Einarsonar oc þorsteins Hallssonar; þá andadist Snorri prestr þorleifsson Klyngir oc Eyúlfr Pálsson ábóti í Veri; þá vóru eptir víg Halldórs Kolbeinssonar oc Halls Sölmundarsonar; Halldór var veginn á þíngey í Borgarfyrdi á þíngi lögmanna þorsteins oc Sigurdar, enn Hallr seinna, oc hygg ec væri ei á þessum missirum.

## LXXIX Kap. Dómr Ións biskups.

Laugardagin nærstan fyrir Laurentii messu dæmdi Ión Hóla biskup at Svínavatni, þíngeyra klaustri oc kyrkiu til æfinligrar eignar, svomikin hluta í Hafnar löndum á Skaga sem Kolbeinn bóndi Benidictsson átti, því þar kom fram svarit, at þá er Kolbeinn bóndi ætladi at rída til Austfiarda oc var stíginn á hestbak, hafdi hann lyst giöf sinni þessari at hún skylldi vera testamentum sitt, enn í þessari ferd var Kolbeinn veginn á sunnudag í Austfiördum af Bödvari Iónssyni frænda sínum, oc var þat skèd fyrir ári einu eda tveimr; voru vid þenna giörning Gunnsteinn ábóti af einni álfu, enn Biarni Kolbeinsson oc Hallótta Pálsdóttir módir hans af annari, enn þorsteinn prestr Gunnarsson oc Ivar Kolbeinsson sóru, er svo at siá sem Biarni hafi verit sonr Kolbeins, enn ei verda nú á vorum dögum ættir til hans talldar, má þad

synast at margra manna ættir þeirra er þá lifdu hafi nidr fallit oc lidit undir lok í plágunni miklu; var þá í þann tíma miöc stílun á brèfum oc skipunum oc hreint málfæri hinnar fornu norrænu tekit til at spillast frá því er verit hafdi á dögum Ións biskups Halldórssonar oc Laurentii, oc spilltist þó meira sídar.

## LXXX Kap. Lögmannaskipti.

1378 Þau hin næstu missiri vóru þeir enn lögmenn Sigurdr Gudmundarson oc Þorsteinn Eyúlfsson, því þá hèlldu þeir almenniligt þíng at Þíngnesi í Borgarfyrdi; enn þá litlu sídar tók Klofa Biörn lögsögn, oc er ekki meira frá hönum sagt; þá sègir sumstadar at Hákoni konúngi væri svarit land á alþíngi, oc at Grundar Helga oc Biörn sonr þeirra Einars bónda Eiríkssonar færi fyrsta sinn til Róms, hann var sídar kalladr Biörn jórsalafari. Þá giördist Runúlfr Magnússon ábóti í Þykkabæ, enn Gudmundr Arason at Helgafelli. Þá lauk Narfi Sveinsson Reyniness-stad XXX hundrud fríd, þar var Oddbiörg abbadys, enn Brynjúlfr Biarnason rádsmadr; Arngeir prestr Iónsson selldi oc Audunni presti rádsmanni á Mödruvöllum Torfuvík oc Gunnarstadi stadnum oc klaustrinu til handa; vottudu þeir Bergþór bóndi Höskulldarson, Þorvardr Gudvardsson, Bardi Sturluson.

## LXXXI Kap. Hákon konúngr oc Oddgeir biskup deya.

1379 Annat vor eptir, þrem nóttum fyrir Hallvardsmessu edr hinn XII Maii mánadar, vígdi Oddgeir biskup Engeyar kyrkiu heilögum krossi, gaf húsfrú Margrèt Össurardóttir kyrkiunni XXX hundrud í Engeyar landi; einni nóttu sídar vígdi hann kyrkiu í Laugarnesi; þat sumar fór Oddgeir biskup utan oc Arni er verit hafdi ábóti at Múnkaþverá, enn þángat kom aptr Þorgíls; fyrir því vígdi Ión biskup Skalli Gudmund Arason til Helgafells, Asgrímr var dáin er þar hafdi ábóti verit; einnin deydi Ión Gudmundarson í Videy oc Gísli er eptir hann var skipadr, enn þángat var vígdr Páll Kiarni; Andrès hyrdstióri Sveinsson fór þá oc utan. Þá selldi Arngeir prestr Iónsson príór Erlendi á Mödruvalla klaustri

Áland í Þystilfyrdi á Geysladag, vottudu prestar Asgrímr Gudbiartsson oc Ögmundr Asgrímsson, Eyúlfr Glúmsson oc Þorkéll Olafsson leikmenn; Einar prestr Haflidason officialis úrskurdadi um landàmerki milli Hvamms oc Móbergs, enn Gudbiartr prestr Eyúlfsson keypti Sæfarland í Reykiadal af Hallvardi Hallkèllssyni oc húsfrú hans, þat vottudu þeir at Miklabæ í Blönduhlíd, Ión prestr Biarnason oc Biörn Brynjúlfsson. Madr sá vakti óspektir stórar eptir brottför Oddgeirs biskups er Vigfús Flosason hèt, enn ekki hafa menn liósar sagnir af hanns athöfnum. Svo sagdi Einar prestr Haflidason, at þá hafdi Þorleifr Svartsson dâit, oc voru þá stök víg. Þá urdu þau tídindi hinum næstum missirum at Hákon konúngr Magnússon deydi, tók þá ríki sonr hans Olafr 1380 úngr at alldri, oc hafdi Margrèt drottníng módur hans forrád öll fyrir hönum, þvíat hún var hinn mesti skörúngr. Bóla gèkk þá yfir á landi hèr oc sótt mikil. Tyndist í hafi Þorlákssúdin skip Skálholltsstadar, enn menn allir komust af á báti til Grænlands med stórri jartteikn Guds. Þá var dæmt mál Þorsteins prests Iónssonar oc Biarnar prests Þorgrímssonar um stádarfè med Grenjadarstad; útnefndi Marteinn prestr Þiódúlfsson, í umbodi Ións biskups, presta þessa í dóm: Þorleif Bergþórsson, Asgrím Gudbiartsson, hann var fadir Gudbiarts prests Flóka í Laufási, Þorkèl Eyríksson, Þorleif Hákonarson, Ión Illhugason oc Sigmund Gudmundarson. Fór þá fram oc próventukaup milli Oddbiargar abbadísar á Stad oc Ións prests Biarnasonar. Þorleifr Nef vo Þorlák Hvarm, oc þá er sagt at Sigurdr Gudmundarson 1381 dæi. Þá lagdi at hrídir V vikum fyrir vetr oc snióa stóra, svo fè fennti; giördi vetr hardan, enn sumarit eptir var grasvöxtr svo lítill, at einginn mundi jafnlítinn, enn regn svo mikit er áleid, at vída hlupu skridr, þar sem enginn vissi dæmi at fyrri hefdi fallit, oc spiltist andvirki manna til ónytis; var þá sótt mikil í landi oc haustit kallat slátrshaust. Islendíngar unnu þá eida Olafi konúngi únga. Giördust lögmenn Þorsteinn Eyúlfsson at nyu oc Rafn son Bótólfs hyrdstióra oc Steinunnar dóttr Glaumbæar Rafns. Hann fèkk Ingibiargar dóttur Þorsteins oc var þeirra dóttir Steinun. Þau missiri keypti Guttormr Örnúlfsson í Stóraskógi hálft Stadarfell at Örnúlfi bónda födr

sínum, með samþykkt húsfrúr Herdýsar módr sinnar. Þat framfór af Hiardarhollti, oc voru Narfi Sveinsson oc Erlíngr Teitsson vottar, at þeir deilldu um veidi í Midá, Þorsteinn í Snóksdal oc Guttormr Örnúlfsson; veitti Þorsteinn Guttormi áverka, oc lètst hann af því nokkrum dögum sídar; hef ec þat heyrt at Loptr hafi hefnt födr síns er hann kom út. Þá dó Þorleifr prestr Bergþórsson, Eyríkr ríki Magnússon oc Hákon Gissurarson Galla, oc Bryniúlfr ríki Biarnarson fadir Benidicts oc Biarnar, oc tyndist Grímr prestr í Hvítá. Þá vard Halldór prestr Loptsson rádsmadr á Hólum. Deydi Þrándr erkibiskup í Nídarósi oc Oddgeir Skálhollts biskup, med þeim hætti at hann fèll ofaní skipslúku, enn sumir segia ofaní skipsbátin oc hausbrotnadi, hafdi hann biskup verit í Skálhollti XV vetr, oc var grafinn at krists kyrkiu í Biörgvin. Páll prestr var þá officialis; enn Vígfús Flosason var þá í banni oc skrifadr á páfagard fyrir margföld afbrot; fór hann utan oc eigi lèngra enn til þess hann fann Henrik er biskup skyldi vera á Grænlandi, oc þóttist sídan hafa tekit af honum lausn allra sinna mála.

## LXXXII Kap. Andlát Einars bónda Eiríkssonar.

1382 Annat vor eptir fimtudagin næstan eptir páskaviku giördi Einar bóndi Eiríksson í Vatnsfyrdi sitt testamentum. Gaf hann stórmikit fè til kyrkna oc gètur þar Indrida prests Kópa oc fleiri manna; enn vid þat testament voru staddir Skèggi prestr Elldjárnsson oc Helgi prestr Elldjárnsson, Þorvardr Gudmundarson oc Þorvardr Snartarson leikmenn. Talit er at þá hafi drukknat Þorleifr prestr Þorbiarnarson; oc fannst fyrir Austfiördum skip Hákonar Iónssonar med IX tugum manna; hygg ec þann Hákon hafa verit sonarson Gissurar Galla. Var þá endir á Kisamálum, vann sysslu Oddr, enn flokkar elfdust oc fridleysi; urdu þadanaf misferli mikil Vígfúsar Flosasonar; þá kom út Andrès hyrdstióri at nyu med hyrdstiórn af hendi Olafs konúngs únga, oc er mælt at lèti sveria honum land. Fátt vita menn annat þá til tídinda, nema þat er Ión Arnason gaf Halldóri presti hálfa iördina á Kristnesi, oc vottudu þarum prestar at Hólum hinn 6ta jóla-
1383 dag; enn hinn 4da *Calendas Aprilis* þar eptir drukknadi Einar bóndi Eyríksson med fleirum mönnum röskum; þar voru med

þeir Helgi oc Krákr Pálssynir; tók Biörn sonr hans vid arfi, hann fèkk oc sídar Grund eptir Helgu módr sína, oc giördist höfdíngi; hann átti Solveigu dóttr Þorsteins lögmanns Eyúlfssonar, oc voru þeirra börn Þorleifr oc Kristín, er sídan komu frá ættir stórar. Michael hèt danskr madr, sá er verit hafdi *poenitentiarius* í páfa gardi, hann vígdist þar til biskups í Skálhollt oc kom út á þessu sumri, oc var fluttr í land vid Myrdal austr, oc X menn med honum, enn skip þat er hann var á, átti húsfrú Margrèt Össurardóttr; ei er gètit hvat manna hún var þó ætla ec hana norræna verit hafa, oc at líkindum kona Ivars Hólms. Skipit rak undan er biskup var á land kominn oc tyndist af hvört mannsbarn, fannst rekinn vid Hialltland oc Færeyar. Þá rak oc undan fiögr Islandsför til Grænlands, oc urdu þar tvo vetr med heilu oc höldnu, var á þeim Biörn bóndi Einarsson úr Vatnsfyrdi oc Sigmundr Hvítkollr. Grænlendíngar undrudust ágiæti Biarnar oc atgiörfi, oc guldu honum oc hans mönnum til vidurhallds öll giölld af Eyríksfyrdi; þar fèkk hann oc hval er í var skot Olafs úr Ædey oc var steipireidr, tók Biörn einnin skotmanns hlutin, oc hèt at giallda Olafi er hann kæmi til Islands. Þá vard Henrik biskup á Grænlandi eptir Alf; oc voru þar tvö klaustr.

## LXXXIII Kap. Narfi lögmadr. Sælsmál.

Þau missiri hin næstu sat Michael biskup heima í Skálhollti; 1384
þá finnst þat at Vidvík væri gèfin til Hóla, enn ei veit ec sann
á því; sumir sègia Nicolás Broddason væri þá tekinn af eptir 1385
dómi, oc yrdi Ásgeirsármál. Enn annat sumar þar eptir tók Narfi Sveinsson vid lögsögn af Þorsteini, var hann skipadr af Ögmundi dróttseta, sègia þó sumir ei væri fyrri enn tveim vetrum sídar. Deydi í þennan tíma Gunnsteinn áboti á Þíngeirum oc kom eptir hann Sveinbiörn Sveinsson; var þá oc afsettr Þorgils áboti at Þverá, enn vígdr aptr þángat Hallr. A jólanótt ridu þeir Eyríkr Gudmundarson oc Gudmundr Ormsson heim at Þórdi Jónssyni oc tóku hann, var hann sídan högvinn eptir dómnefnu; Eyríkr Gudmundarson hugg ec hafi verit sá er hèr hafdi völld

mikil á þeim mannsalldri; enn Gudmundr Ormson er ókunnari; vera má hann sé så sem Gudmundar ætt er frá komin, fadir Ara á Reykhólum, oc þá nokkut vid alldr, því at Ormr hèt son þess Gudmundar, bródir Ara, oc læt ec þar um hvern ætla sem vill; Ión Snorrason hèt madr er höggvinn var. Eptir þat deydi Nicolás erkibiskup oc kom eptir hann Vinaldr. Þá urdu
1386 hèr á landi sysslu deilr miklar, oc margar nyúngar giörvar af Michael biskupi. Þraung mikil hafdi verit giör á þingi at Gudmundi Ormssyni, enn sídan stálu oc sæntu menn hans vída fyrir sunnan. Þá gaf Þorsteinn Eyúlfsson Arnfinni syni sínum jardir oc rekapart hans í Hollti í Svarfadardal, giördi þá oc testament sitt, oc gaf mikit fè mörgum kyrkium, oc nokkut fátækum, oc svo til sálumessna, alls LXXX hundrud auk jarda. Brandr Ormsson handlagdi þá til Olafs Kolbeinssonar tólf fedmínga torfskurdar árliga á jördunni Bakka í Yxnadal; vottudu þat Rafn Bótólfsson lögmadr oc Ión Biarnarson. Biörn Bryniúlfsson seldi þá Gissuri Þorbiarnarsyni Helluland oc Asgrímsstadi í Hegranesi móti Skídastödum í Laxárdal; enn Ión Hóla biskup Eyríksson gaf Biörn qvittan, med rádi Einars prests Haflidasonar officialis vid Hóla oc Hvamms kyrkiur, fyrir tilkall er hann hafdi veitt um hval oc reka. Þá var Sölmundr prestr í Hytárdal, enn fyrri hafdi þar verit Einar Arnason, eru þeir fyrir því nefndir, at ei er víst um presta þá er fyrri hèldu stadi álèngdar. Þorkèll prestr Sæll kom út híngat um sumarit, oc Halli Magnússon, at heimta *subsidium pallii* edr kórkápu fè til handa erkibiskupi í Nídarósi. Hófust mál med þeim Þorkèli Sæl oc Einari presti Haflidasyni á Breidabólstad, er þó eigi glöggliga sagt med hvörium hætti voru. Einar prestr var þá miöc gamladr, oc fór Arni sonr hans utan, oc vann til handa födr sínum öll málin fyrir erkibiskupsdómi. Þá fóru þeir oc utan Eyríkr Gudmundarson oc Gudmundr Ormsson er ádr er gètit, oc skipadi dróttsetinn Eyrík at vera hyrdstióra, enn Narfa Sveinsson lögmann, oc þótti mönnum vera nylunda. Margt fólk í Skagafyrdi dó þá af hval.

## LXXXIV Kap. Margrèt tekr ríki.

1387 Sumarit eptr fór Michael biskup til Austfiarda, oc tók völld af Þorgèrdi Abbadys í Kyrkiubæ, enn vígdi aptr í hennar stad

Halldóra Runúlfsdóttir, oc var hún svipt valldi skömmu sídar. Þá deydi Olafr konúngr úngi í Norègi, oc var hann sídastr allra Noregs konúnga. Tók þá Margrèt drottníng módr hans undir sic öll ríki, oc er á þann hátt Noregsríki, oc svo Island komit undir Dani; giördust þá er framlidu stundir minni afskipti konúnganna af Islandi, enn verit hafdi, oc þá konúngarnir ríkari, ef þeir skárust í nokkut. Þat sumar tók Þorsteinn Eyúlfsson vid hyrdstiórn af Andrèsi oc med honum Eyríkr Gudmundarson er út kom, var þó Eyríkr talinn fyrir; hyggia fyrir þat vitrir menn at Þorsteinn hafi adeins haft um veturinn. Þá kom oc út í Hvalfyrdi Biörn bóndi Einarsson oc Sigmundr Hvítkollr. Svo er sagt at Biörn færi þrisvar útí lönd, oc kona hans med honum til Róms; hann var kalladr Iórsalafari sídar. Fundr vard med Sumarlida Þorsteinssyni oc kaupmönnum í Hvalfyrdi, enn sídar elfdist Sumarlidi at flokkum oc framferdum. Vetrinn eptir var þat á midvikudagin næstan eptir þrettánda í jólum, at Gils Gíslason 1388
fèkk Ión biskupi Eyríkssyni til fullrar eignar Höfda á Höfdaströnd oc Bæ med rekum oc gögnum, enn biskup fèkk honum aptr siálfum til ábúdar oc ágóda medan hann lifdi As í Hegranesi oc Gárd, enn þær jardir skyldu þá vera Hólakyrkiu eign, enn ef biskup svipti Gils þeim fyrri enn hann vildi sleppa, þá tilskyldi hann sèr aptr sínar jardir. Þórdr prestr Þórdarson, sem átti jörd á Einarstödum á Skagaströnd, oc Eyríkr Þorbiarnarson sem jörd átti á Harrastödum í sömu sveit med módr sinni oc konu lögdu milli sín til helmínga áskilnad um landmerki. Þá var á alþíngi, er því nærst vard, upplesit mótmælisbrèf þúngt ámóti Michael biskupi, oc var þarí margt ósæmiligt atkast til hans; fór hann af þeim sökum utan, oc bródir Þorsteinn Snorrason oc margir prestar, enn Ari prestr Gunnarson í Reykhollti var skipadr officialis yfir allt Skálhollts biskupsdæmi. Þat sumar kom meira vín til Islands enn menn mundu fyrri; urdu þá margar hrydiur oc vígferli med mönnum, oc var vèginn Eyríkr Gudmundarson hyrdstióri, oc þó ei gètit hvörr vo, edr hvörsu þat bar at. Tók Þorsteinn Eyúlfsson vid hyrdstiórninni allri saman. Mælt er at þá yrdi hin þridia utanferd Biarnar Iórsalafara, oc fór med honum Andrès Sveinsson, er hyrdstióri hafdi verit;

þá vóru sysslndeilr oc vígaferli, oc tyndist Gudmundr Ormsson um nótt í Færeyum undarliga.

## LXXXV Kap. Kynia tídindi.

Ari prestr Gunnlaugsson hèldt einn vetr officialis embætti, enn sídan andadist hann; var þá bædi vant biskups oc officialis í Skálhollti, oc allr kristindómr þar lítt standandi, fiölldi presta burtreknir af landinu, enn hinir flestu embættislausir er eptir
1389 voru; þá tók hyrdstiórn Vígfús Ivarsson Hólmr, hèt Gudrídr húsfrú hans, at því er vitrum mönnum hefir skilist, Ingimundardóttir. Þá keypti Arnfinnr Þorsteinsson at Kristínu Oddsdóttr erfda hlut hennar í Hálsi í Svarfadardal; veit ec ógiörla hvört sú Kristín er edr ei, sem sídar fylgdi Lopti Guttormssyni. Þórdr Sigmundarson fór þá utan, oc voru særdir menn í Dyrafyrdi, oc qviksettr Hallsteinn Pálsson fyrir IIII mord; dó Arni prestr í Reykhollti oc margir menn. Andadist á þeim missirum frú Oddbiörg abbadys á Reynistad, enn Gudmundr Þorsteinsson var höggvinn eptir dómi, oc lètst Ivar Krókr af drykkiuskap. Hófst nú mikil ótíd einkum í Skálhollts biskupsdæmi, vard vetr hardr, oc vorit svo hardt oc kaldt, at valla voru saudgrös á Pètursmessu.
1390 Vígfús hyrdstióri hafdi verit í Færeyum um vetrin, oc kom hann þá út. Sumar var regnasamt, oc andvirki manna ónyttust, oc hellst um haustit; urdu svo miklir vatna-vextir, at úr hófi gèkk oc enginn mundi slíka, enn fiárskadar stórir, oc tóku vötn oc skridr vída bæi oc menn af, enn margir bæir fèllu af landskiálftum. Logadi Hekla med miklum undrum, oc Lómagnúpr oc Trölladyngia allt sudr í sió, oc vestr at Selvogi, oc allt Reykianes, brann þat hálft af, oc stendr þar eptir í sió framm Dyptarsteinn oc Fuglaskèr, oc er þat allt elldbrunnit griót sídann; einnin logadi Sídujökull, oc mörg önnur fiöll, oc sveitir heilar eyddust af elldgángi, brann oc vída elldurinn í siónum, oc brenndi land af sumstadar, hrundu brunnin fiöll, oc hlupu med brunaskridum í sió nidr; var landfarsótt á mönnum oc drepsótt á peníngi oc urdu miklir manntapar á Snæfellsnesi oc vídar. Markús Þórdarson í Skógum var veginn af Sæmundi er átti dóttr hans,

oc Magnús Sturluson vo Guttorm. Tók skrida Launguhlyd í Hörgárdal, oc þar inni Rafn lögmann Bótólfsson oc heimafólk allt, konu hans oc X menn, nema dóttr. hans Steinunni, hún fór til Grænlands; sprakk jördin í sundr oc hlióp vatn upp í stofunni, oc sökkti bænum oc kyrkiunni; margir bæir féllu þá oc skèmdust í Vatnsdal oc vídar. Þau missiri lèt Michael biskup Skálhollts biskupsdæmi laust í Danmörku, oc hafdi hann verit til lítilla nytsemda; Vígfús Ivarsson lèt oc af hyrdstiórn; enn andadist Gudmundr Arason ábóti á Helgafelli oc tók Þorsteinn Snorrason vid, enn Ingibiörg Örnúlfsdóttir giördist abbadys at Reynistad; Gudmundr prestr Iónsson keypti þá í umbodi Steinmódar prests Þorsteinssonar hálfan Hvamm í Eyafyrdi fyrir Vargá af Hákoni bónda í Hvammi. Elldrinn hèllst í Heklu oc fleirum jöklum hinu sami árit eptir, oc landskiálfti svo mikill fyrir sunnan land um Grímsnes oc Flóa oc Ölves at XIV bæi skók nidr at mestu, rifnadi vída jörd oc kom upp vatn, dóu nokkrir menn undir húsum, oc tók landskiálftinn til Hölltavörduheidar. Mikil oc frædilig umskipti urdu af þessum ódæmum öllum saman á landi hèr, þau er alldrei rædst bót á. Þá andadist Ión biskup Eiríksson Skalli á Hólum, hafdi hann þar biskup verit í XXX IIIár, enn alls VIII edr IX ens fimta tugar, frá því hann vígdist til Grænlands; var yfir leidi hans lèngi legsteinn lítill af marmara, oc er þat fágiætt í landi hèr. Þórdr prestr var þá rádsmadr Hóla kyrkiu, enn Einar prestr Haflidason officialis yfir allt Hóla umdæmi; þá voru votvidri, oc ónyttust hey manna, oc eigi lètti enn hardindunum; var þá vígdr til Hóla út á páfagardi Pètr Nicolásson danskr prestr eda kanúki at bodi Bonifacii páfa hins IXda med því nafni, oc fór þat fram ádr Ión biskup dó. Sègir þat eitt brèf, at Ión biskup hafi keypt jörd á Ulfstödum af Andrèsi Bagga Bergþórssyni oc Ragnhilldi Steingrímsdóttr konu hans í páskaviku vetri seinna enn hèr var komit, oc þat vottar Einar prestr Haflidason, Þórdr prestr Þórdarson, oc Einar prestr Snorrason, oc ber þá eigi saman um andláts ár hans. Enn þessi missiri fèkk Sölvi prestr Brandi syni sínum Svertingsstadi oc hálfa Sydri Steinstadi at Þingeyrum, var Einar prestr Haflidason hinn fyrsti vottr. I þann tímá voru ævErkar med Sumarlida Þorsteinssyni oc Runúlfi Pálssyni oc þeirra mönnum; var Runúlfr mikill kappsmadr.

1391

Sumarlidi hèlldt Hollti vegna födr sins móti hyrdstióra, þegar Þorsteinn hafdi ei hyrdstiórn. I þann tíma var tekinn af Sæmundr Steffánsson, enn vèginn Þorvardr Iónsson af Halli Eyríkssyni frænda sínum. Svo sègia sumar skrár at hyrdstiórn væri þá tekin af Þorsteini Eyúlfssyni, enn hann yrdi aptr lögmadr nyrdra oc vestra.

## LXXXVI Kap. Frá Byrni Einarsyni oc hèlldri mönnum.

Þá kom út Biörn bóndi Einarsson oc Solveig kona hans úr Iórsala ferd, enn úr þridiu Rómaferd; er mællt hann kæmi at Gunnbiarnareyum, oc farit fyrir því ei á land, at stúlka nokkr bendti honum fra því; var þar med honum Sigurdr Fóstri Þórdarson skálld hans, oc skylldi iafnan skèmta med nokkru nyu hvern sunnudag, þridiudag oc fimtudag; qvad hann þá Skída-rímu, oc segir svo í nidurlagi hennar, at skèmtan skuli bída sunnudagsins, er þat köllut hin fyrsta ryma er qvedin hafi verit á Islandi; mælt er oc at hann hafi qvedit Skaufhalabálk oc Barnagælr, oc er mikil ætt frá honum komin. Biörn var hit mesta stórmenni í öllu, oc ei voru adrir fremri honum á landi hèr í þann tíma, svo vèr vitum med sanni at sègia; hann hefir ritat sagnir, oc eru þær nú undir lok lidnar, at midr fer; hann lèt giöra skip til helmínga vid Skálhollts kyrkiu, oc á því fór Solveig kona hans utan. Þá voru í þennan tíma þessir menn uppi mestháttar af konúngsmönnum oc leikmönnum: Þorsteinn Eyúlfsson hyrdstióri, Narfi Sveinsson, Rafn Brandsson, Vígfús Ivarsson Hólmr, Biörn bóndi Einarsson Iórsalafari, Sigmundr Hvítkollr, Þórdr Sigmundarson á vestfiördum, Sumarlidi oc Arnfinnur synir Þorsteinns Eyúlfssonar Runúlfr Pálsson, Páll Þorvardarson á Eydum, Ión Hákonarson Gissurarsonar Galla, Sigurdr Kollsson, Gísli Svartsson á Reikkólum bródir Þorleifs födr Olafs Tóna; Þorleifr var dáinn enn Olafr lifdi er hèr var komit; Þórdr Sigurdarson Oddr oc Sigurdr Fóstri Þórdarsynir; Oddr var kalladr Lèppr; Lytíngr bóndi Einarsson; þeir Gudmundarsynir Ari, Ormr oc Rafn; þeir voru allmikilhæfir menn; Guttormr í Stóraskógi son Örnúlfs Iónssonar var dáinn er hèr var komit; hann er sagt at verit hafi mikilhæfr oc

éeyrinn, hann átti Sophíu dóttir Eyríks ríka, oc voru synir þeirra Ión oc Loptr þá frumvaxta; Þorsteinn í Snóksdal er sídan var kalladr kyrkiu-Þorsteinn. Arni hét madr nordlendskr Einarsson fadir Þorleifs í Audbrekku; ei þori ec at segia at þat hafi verit Arni son Einars prests Haflidasonar. Þá var oc uppi sem ættir eru frátaldar: Finnbogi Iónsson Lángs, enn Isleifr Belltislausi ætla ec þá væri úngr; hann var því svo kalladr at annara manna bellti var ei honum til hæfis. Af klerkum voru þessir fremstir: Einar prestr Haflidason; hann lifdi þá einn af lærisveinum Laurentius biskups, Þorsteinn Snorrason, Þórdr Þórdarson, Steinmódr Þorsteinsson; þeir tveir fyrir nordan, oc Sveinn prestr Magnússon, Asbiörn prestr Olafsson í Reykhollti, Páll Marteinsson oc eptir hann Páll Grímsson á Gilsbakka; oc sem ættir eru frátaldar: Gudbiartr prestr Hóki í Laufási son Asgríms presta Gudbiartssonar; hann var haldinn fiölkunnugur þvíat sidir manna voru ei gódir, enn hiátrú oc hleypidómar óxu. Af leikmönnum má enn telia Biörn oc Benidict Bryniúlssonu, er ríkismenn voru fyrir nordan land.

## LXXXVII Kap. Frá Kristínu oc drukknun Þorleifs.

Þorleifr oc Kristín voru börn Biarnar Iórsalafara oc Solveigar Þorsteinsdóttr sem fyrr segir; Kristín var lengi vanheil oc lá í kör, enn Þorleifr bródr hennar vildi qvongast nordr í Eyafyrdi. 139a
Um vetrinn hugdi Þorleifr at rída nordr oc hafdi hesta í elldi á Melgrasseyri oc Hamri, enn ætladi at fara þángat á skipi med sveinum sínum. Þann dag er hann skyldi af stad fara, gékk hann til hvílu systr sinnar, at qvedia hana; var hún miöc þúngliga halldin. Hann mælti: þá viltú nú trúa draumum þínum systir at þú munir lifa mic? hún mælti: ætlat hefi ec þat bródr minn allt til þessa, enn nú mun Gud ráda, hvört vid siáumst optar; hann vard gladr vid, bad henni gódar nætr oc gékk til skips med förunauta sína, enn þann dag drukknadi Þorleifr oc þeir allir saman. Hinumegin fiardarins bar svo vid at förukona nokkr fór med siónum frá Hamri út ad Melgrasseyri, sá hún

nybreitni nokkra á steini edr skéri skamt frá landi, enn þagdi þar yfir allt til qvölds, þá kom þetta upp fyrir henni: hvad mun skrimslit fagra hafa gért af sèr, sem ec sá á steininum í dag? þat var fagrraudt med vænu manns áliti oc gullbaug á hverium fíngri; þat bendti med hendinni, enn ec skildi ekki hvat þat mælti fyrir hrædslu sakir. Enn er heimamenn heyrdu þetta, brá þeim miöc vid; grunadi þá um júngkæran, fóru til oc fundu hann daudan, var lík hans flutt í Vatnsfiörd, enn vid þennan atburd allansaman brá Kristínu á þann hátt, at hún reis jafnskiótt úr rekkiu oc vard heil. Gipti fadir hennar hana þá Ióni Guttormssyni frá Stóraskógi, oc buggu þau í Hvammi, enn seinna bió hún í Vatnsfyrdi, oc kölluð Vatnsfiardarkristín, oc var hin nafnfrægasta kona, Loptr Guttormsson bródir Ións fór utan, oc þiónadi konúngi oc þádi af honum nafnbætr sem sídar segir. Var mál med Runúlfi Pálssyni oc Páli Þorvardssyni á Eydum oc hèldt Runúlfr peníngum þó Páli væri dæmdir. Þá deildu þeir fedgar Vígfús oc Narfi á Kolbeinsstödum, oc vard sár madr sem hliép á milli þeirra. Dó þá fiöldi Islendskra manna í Noregi.

## LXXXVIII Kap. Frá Pètri biskupi.

Þau missiri er Ión Guttormsson fèkk Kristínar vóru ferdir þeirra vestra Þórdar Sigmundarsonar, Sigurdar Kollssonar, Gísla Svartssonar á Reykhólum oc Þórdar Sigurdarsonar. Þá kom út um sumarit Pètr biskup Niculásson á Pètrsbollanum oc med honum Árni son Einars prests Hafliđasonar; hafdi hann gengit sudr til Róms; braut bollan milli Krysivíkr oc Grindavíkr; heldust menn allir, enn tyndist mestr fiárhlutr; reid biskup þegar um haustit heim til Hóla oc med honum Ión prestr Magnússon, bródir einn danskr er Enis hèt, herra Sveinn, Mattheus prestr skyldr biskupi, Sveinn diákni, Pètr Gammr skrifari oc einn smásveinn, voru þeir allir danskir; Þorsteinn klerkr norrænn, Ión Slèttr oc Ormr Hialltlendíngr; fóru þeir utan sídar Mattheus prestr oc Þorsteinn klerkr oc herra Sveinn. Hèldt þá enn herra Sveinn officialis umdæmi, oc allri virdíngu sinni, oc var í hinum mestu kærleikum vid biskup, enn Þórdr prestr hèldt Hólarádum. Heldr var

sitt med þeim biskupi oc Steinmódi presti Þorsteinssyni, þó hèldt hann öllum sínum heidri oc störfum, oc alla presta lèt biskup halda völldum sínum; þótti þá biskupsdæmit vel standandi. Halldór prestr Loptsson hafdi gengit til Róma er verit hafdi rádsmadr á Hólum; hann hafdi komit út aptr hit fyrra árit med Byrni bónda Einarssyni oc Þórdi Arnasyni. Sat Halldór prestr á Heynesi, oc hafdi þá jörd af Michael biskupi oc fengit af honum prófastsdæmi milli Botnsár oc Geirhólms þó biskup væri í Danmörku. Þeim völldum öllum hèldt hann fyrir sunnan land enn hafdi þá prófastsdæmi um Eyafiörd sídan Ión biskup Skalli hafdi honum veitt, oc einnin ámedan hann var utan. Þat segia sumir menn at Einar hafi heitat sonr Biarnar Iórsalafara oc fengit þá hyrdstiórn, enn þat hyggium vèr ei vera. Pètr biskup saung á Mikiálsmessu hina fyrstu biskups messu sína, var þá mikit fiölmenni á Hólum, oc hèldt biskup öllum sæmiliga veitslu. A þeim missirum lagdi Biörn Brynjúlfsson Olafi syni sínum Akra hvörutveggiu oc fleyri jardir í Skagafyrdi á móti systrum hans Sigrídi oc Málmfrídi; vottudu þat á Magnúsmessu Lytíngr Hialltason, Dadi Bryniúlfsson oc IIII adrir; þykir mer alllíkligt at Olafr sá hafi verit fadir Þorsteins Lögmanns Olafssonar er sídan bió at Ökrum. Leid nú svo af þessi vetr, enn um vorit lagdi Þórdr prestr Þórdarson af Hólarád, því fækkadi med þeim biskupi; tók Ión prestr Magnússon þá vid rádum, oc hèlldust öll stærri völld, Um sumarit giördi Pètr biskup vígslur af Skálhollts biskupsdæmi því Michael biskup hafdi laust látit sem ádr segir; enn Þorsteinn áboti oc officialis Skálhollts hafdi veitt Olafi presti Kolbeinssyni Stad á Ölduhrigg, enn Gunnari presti Gílssyni aptr Reykhollt, þar hann hafdi verit; Páli Grímssyni Gilsbakka, Vígfúsi Sveinbiarnarsyni Mela, Steinmódi Þorsteinssyni Garda, Ióni syni Þórdar Skrepps Kálfafell oc Ióni Ref Miklaholllt, Oddi presti rádsmanni Breidabólstad, oc hèldt hann þó Vallanes oc tók ávöxtu af, enn Sigurdr prestr Sigurdarson var þar. Vermundi presti veitti hann Selárdal enn Oddi presti Þorsteinssyni Stafafell, þvíat Michael biskup hafdi eptirlátit allt í óskipan enn margir prestar dáit í sóttini. Um vorit lagdi Einar prestr Haflidason af sèr officialis starf, oc skipadi Pètr biskup þat aptr Ióni presti Magnús-

syni. Þá lèt oc Hallr at Þverá af abótadæmi. Þat sumar vard grasvöxtr mikill enn urdu lítt tödr. Þá keypti Halldór prestr Loptsson hálft Kristnes af Þorvaldi Vasa Ögmundarsyni, enn Erlíngr Snorrason galdt Pètri biskup jörd sína Rófuhvol; vottudu þat þeir Ión prestr Magnússon oc Þórdr prestr Þórdarson at Hólum *in festo Nerei et Achillei*; þat var í sakeyri fyrir trè er Erlíngr hafdi tekit fyrir stadnum, oc heitir sumstadar Konuhvoll; enn Arni Einarson galdt Mödruvallastad X hundrud fyrir ílag sem stadrinn átti í jörd at Aslákstödum í Krækllngahlyd. Halldór bóndi Asgrímsson keypti hálft Marbæli at Þurídi Iónsdóttr oc dætrum hennar Gudrúnu oc Biarteyu oc Ingvildi. Þá sættust þeir Pètr biskup oc Steinmódr prestr Þorsteinsson enn á Remigiidag sem er hinn Xdi Octobr heima á Hólum stadfesti Pètr biskup giafabrèf Orms biskups um Hialltabakka oc Kleyfar til Þíngeyra klausturs.

## LXXXIX Kap. Frá Vilchín biskupi.

Vilchín edr Vilhiálmr hèt priór einn danskr, hann fór á páfagard eptir Skálhollts biskupsdæmi, þá er Michael hafdi aflátit, sem þá var sidr, oc var vígdr; segia sumir hann væri vígdr í Róm, enn sumir af Vínalldi erkibiskupi í Nidarósi er hann kom aptr, hann kom út í Hvalfyrdi á Henriksskipinu, oc þykir mèr lióst at þeir hafi sannar er segia þat hafi verit á því ári er Pètr biskup giördi vígslurnar fyrir sunnan, enn hinir er segia þat væri ári seinna, þvíat Vilchín biskup vard landfastr á Barthólómæusmessu, þat er hinn XXIVdi Augusti mánadar, oc var þá Pètr biskup í Skálhollti. Vilchín biskup reid í Skálhollt, oc med hönum Ión prestr Þórdarson, er utan hafdi verit VI vetr oc haldit krosskyrkiu, oc Gudmundr prestr Þorsteinsson oc Höskulldr prestr Iónsson; honum veitti biskup Breidabólstad; giördi Vilchin biskup svo ágiæta veitslu í Skálhollti, at enginn mundi þvilíka hèr á landi, sökum fiölmennis oc alls kostnadar. Þar var Pètr Hólabiskup oc hit mesta mannval af öllu Islandi; stód sú veitsla VII daga, oc var veitt svo ríkmannliga, at hverr drakk sem hann lysti nótt oc dag, oc var ei drukkit annat enn þyska

öl, oc enn dyrara; var stofan sú hin mikla þrísett milli gátta af höfdíngium, enn á krossmessu um haustit saung Vilchín biskup hina fyrstu biskupsmessu sína í Skálholti, fór hann þegar um haustit at visitèra sysslu sína, oc allt vestr á Reykianes; hann visitèradi þá Biarnarhafnar kyrkiu oc Stadarfells oc Garpsdals-kyrkiur.

## XC Kap. Kíf á Vestfiördum.

Þetta sumar var óvild med þeim Byrni Einarssyni Iórsalafara oc Þórdi Sigmundarsyni; fylgdi Þórdi Oddr Leppr Þórdarson, Sigurdr Kollsson, Gísli Svartsson, Þórdr Sigurdarson, oc má þat vera at þeir hafi engan flokk haldit hit fyrra sumarit; Sumarlida Þorsteinssonar er gètit oc ætla ec hellst hann hafi fylgt Byrni; þeir hittust á Iátmundar konúngs messu undir Núpi í Dyrafyrdi, þar vard bardagi, oc lètust nokkrir menn; segia sumir II dæi; hèt annar Hrómundr Iónsson, hann fèll, unnu III á honum; Oddr Iónsson hèt annar hann dó sídar; Biörn komst í kyrkiu, hann sat sídan heima í Vatnsfyrdi, oc fiölgadi ekki mönnum, sem ei væri um at vera, enn Gísli Svartsson mágr Þórdar fór til hans. Eptir þat reid Biörn um land, oc kom at sèr hinum bestu mönnum öllum, enn margir urdu sárir af mönnum Biarnar. Um þær mundir eda vetri ádr höfdu þeir deilt Gísli Andrèsson oc Vígfús Flosason er fyrr er gètit at óspektum; reid Gísli í Krossholt at heimta penínga sína af Vígfúsi, enn hann var fiölmennari oc kúgadi Gísla til at gèfa sic qvittan. Þorsteinn Eyúlfsson var þá enn lögmadr þessi missiri er frá hefir verit sagt um hríd. Segia menn at rekit hafi hval í Gvendarlón med eitt auga á baki aptr vid bægslit; var hann sodinn oc etinn oc dóu þaraf hundrad manna; þó lifdu sumir.

## XCI Kap. Andlát Einars prests Haflidasonar.

Seint um haustit tók Einar prestr Haflidason sótt oc fèkk alla þiónustu, sem kristnum manni heyrir; hann andadist þann XXI

December mánadar, þá hann skorti einn vetr á nírædan, oc hafdi halldit Breidabólstad einum vetri fátt í fimmtyu oc verit rádsmadr Hóla; hafdi hann verit alla stund mikit fyrir öllum prestum ödrum í Nordrlandi, oc vard öllum gódum mönnum harmdaudr; lèt Arni sonr hans flytia hann til Hóla med sæmiligri fylgd; stód þar yfir grepti hans Pètr biskup oc margt annara manna. Var Breidabólstadr þá veittr Ióni presti Magnússyni; þá er sagt at drukknat hafi Olafr Tóni Þorleifsson í Steinúlfsdalsá.

## XCII Kap. Frá ímsu oc Pètri biskupi.

1394 Um vorit eptir tók Pètr biskup at visitèra kyrkiur í fyrsta sinni í biskupsdæmi sínu, oc ritadi upp allt fè þeirra fast oc laust í eina bók er Pèturs Registrum heitir. Þá tók Steinmódr Þorsteinsson aptr vid Hólarádum oc prófastdæmi í Skagafyrdi; hann hèldt oc Greniadarstad oc prófastdæmi um Þíngeyarþíng. Hèldt Pètr biskup skóla á Hólum, oc var Bödvar diákn skólameistari. Um sumarit kom út á Eyrum Iussi oc Ormr bádir danskir, fóru nordr til Hóla oc voru þar med biskupi. Lodinn Skèggiason hafdi gèfit próventu sína um vetrinn frú Ingibiörgu Abbadys á Stad í Reyninesi med iördunni Heidi á Skördum oc ítökum, enn Sumarlidi Þorsteinsson giördi Benidict Brynúlfsson qvittan um saudarverd at Vík í Sæmundarhlíd á Gudmundardag; teliumm vèr því slíkt svo smátt, þegar nafnkunnugir menn áttu í hlut, at siá megi þat þeir voru þá uppi oc skiptust vid. Þá veitti Pètr biskup Þorsteini presti Þorsteinssyni Grímstúngna stad, Ióni Þorvaldssyni Hóla í Vestrhópi, Byrni Asláksyni Hof á Skagaströnd, Þorsteini Skèggiasyni Stad í Hrútafyrdi, Þorsteini Teskli Laufás; var oc fleyra sem heldr þótti lausrædi vera; giördist mikil auda á stadarfè at Hólum; þá lèt oc biskup efna til hafskipsgiördar skip, er hann tók af Þorsteini lögmanni Eyúlfssyni fyrir LX hundrud; hann lèt einnin Hólaferiuna gánga á Sniófellsnes, var hún þá forn oc lestist fyrir Beruvík oc var þar uppsett. Þat bar vid at hann var í nordr visitatiu sinni at Ormr hinn danski sveinn hans vo Gissr Liósa annan biskupssvein, saklausan fyrir framan biskupsstofuna í klaustri á Mödruvöllum, drottins dagin næstan

eptir Maríumessu sídarí, oc er hann lysti víginu, nefndi hann sic Nicolás Ormsson, oc qvadst med því nafni skyrdr hafa verit enn fermdr med Orms nafni; ei er frá þeím tídindum framar sagt, edr hversu fór. Enn á Iónsmessu postula segia sumir, adrir nefna til IV í jólum, fèll nidr Hólakyrkia hin mikla sú er Lörenndr biskup hafdi byggia látit, oc stöpullinn med allt í grunn; brotnadi hvert trè, oc vard engu undan bieirgat, nema líkneskium oc helgum dómum; vard undir pilltr einn, diákn at vígslu; segia menn at sú kyrkia er Pètr biskup lèt aptr byggia hafi stadit II hundrud oc XX vetr, oc væri sú er fèll á ofanverdum dögum Gudbrands biskups. Mörg önnur tídindi hafa ordit í þann tíma, enn sumt þat er hèr gètur, oc verda ei uppspurd, því at menn hafa náliga engar sagnir af þeirri öld, nema þat er fundist hefr í brèfa bókum, oc þó enn færra eptir pláguna hina mikla.

## XCIII Kap. Frá Þorsteini lögmanni oc Þórdi.

Þorsteinn Eyúlfsson hafdi þá enn lögsögn; rida þeir Vígfús hyrdstióri, oc hann oc Biörn Einarsson Iórsalafari til fundar vid Þórd Sigmundarson oc ætludu þeir hyrdstióri oc Þorsteinn at setia nidur deilur; rídu þeir Glámu oc voru saman XC menn alvopnadir; þar var med Halldór prestr Loptsson, Ión Hákonarson oc Sigurdr Hvítkollr, er ei gètit at vandrædi hafi aukist, heldur komist á sættir, enda hafdi Þórdr engan afla á móti; hann hafdi L manna oc var þar Sigurdr Kollsson, Gíslr Svartsson Þórdr Kollr Sigmundarson, Oddur Leppr Þórdarson, Sigurdr Skalli enn þeir Þorsteinn oc Biörn mágar, vard Þórdr utan at fara oc VII menn adrir, Þórdr gyptr ádur dóttur sína Ára er kalladur var Gudbrandsson enn ec hygg vera Ara Gudmundarson er sídan var at Reykhólum; þá urdu víg nokkur oc áverkar. Þá er Vígfúsi hyrdstióra eignut samþykkt um vinnufólk bak vid lögbókina. Verdur nú sem gliósust frásögnin á nokkrum missirum næst fyrir pláguna, oc má synast hún hafi skotit myrkva á þau; má þó telia þat er menn vita. Höldu nú allt til þessa, þó mörg ókiör gèngi yfir, haldist vid sádverk í landi oc mörg atorka framar enn at vonum, oc var enn allmann-margt í landinu, þó

stórum hefdi fækkat á tveimur hinum nærstu mannsöldrum, er at óáran hafa strídastir verit þessu landi.

## XCIV Kap. Frá Vilchin biskupi.

1395 Sumar hit nærsta er nú var frásagt reid Vilchín biskup til Austfiarda í visitatiu sína; styrkti hann oc leidrètti sidu manna oc kristnihald hvar sem hann kom; þá keypti Halldór prestr Loptsson hálfa jörd á Grund í Eyafyrdi af Byrni Einarsyni enn Halldór bóndi Arngeirsson seldi Pètri biskupi Bakka oc Læk í Vidvíkur þíngum fyrir ytri- oc sydri Brekku í Oslandshlíd; þat vitnudu Steinmódr prestr Þorsteinsson rádsmadr, Þórdr prestr Þórdarson,
1396 Halldór prestr Loptsson. Þar eptir giördi Vilchín biskup tilskipan sem hönum syndist þörf á um presta oc kyrkiur; hann reid hvört ar í sysslu sína. Páll Gaddur Gudmundarson særdi Ión bónda Hákonarson í þíngreid, komst hann í kyrkiu á Eydum austur oc var borinn út þadan sofandi af þremur mönnum í dularklædum oc höggvinn sídan í Húnavatns þíngi. Pètr biskup lèt upprita Inventarium Hóla kyrkiu þá hann fór utan oc tók þá vid Steinmódr prestr rádsmadr, þat var önnur missiri: hin þridiu kom hann út oc seldi þá Halldór Loptsson prestr Bödvari diákn
1397 Ögmundarsyni jörd í Krossanesi fyrir iörd á nedsta Skridulandi; þau missiri sameinadi Margrèt drottníng nordurlönd öll undir Danmörku; þá var önnur visitatiu ferd Vilchíns biskups, oc vígdi hann Landarkirkiu; gètit er þa Gudridar Ingimundardóttr konu Vígfúsar hyrdstióra Ivarssonar, oc at hann hafi ánafnat henni V hundrud í sinn gard; vitnudu Þorsteinn Eyúlfsson lögmadr, Arni Einarsson, Gunnlaugr Magnússon er sysslu hafdi í Borgarfyrdi, oc Einar Olafsson; fleiri manna er enn gètit.

## XCV Kap. Aftaka Gunnlaugs bónda.

Gunnlaugr bóndi Magnússon, sá er nú var gètit, hafdi í frammi hardrædi mörg oc heimsóknir vid bændur, bar þat þá til, vetri
1398 eptir þat er öll Nordurlönd lögdust undir Dani, at hann syndi þeim mestan ofsa oc yfirgáng, var þá Ión Afbragd laminn af hans

mönnum í Borgarfyrdi, svö hann fèkk bana af. Þat hit sama haust fór Pètr biskup utan, oc þá qvittadi Ión Hákonarson, Halldór prest Loptsson fyrir Grundarverd oc Hollt; fyrir þessar tiltektir var Gunnlaugr bóndi höggvinn önnur missiri í Reykhollti, oc sveinar hans tveir Þorsteinn oc Biörn, enn Sigfús hinn þridii 1399
flydi til Bæar, var þá Bæarkyrkiu lokat fyrir hönum, oc hann höggvinn sidan í hinum sama mánudi, er þó ei þess gètit, hvör fyrir þeim aftökum hafi stadit.

## XCVI Kap. Frá ímsu.

Þá er Pètr biskup var utan farinn, voru þeir officiales Þórdr prestr Þórdarson, oc Steinmódr prestr Þorsteinsson; þeir veittu Þorsteini Svart kirkiu helming í Knappstödum oc Húnstödum í Fliótum, enn seldu hönum hálfa Knappstadi. Biörn Iórsalafari hafdi þá oc iardaskipti vid Arna Einarson, fèkk hann hönum allmargar iardir í Hvolhrepp, Fliótshlíd oc Averiahrepp fyrir adrar í Húnavatnsþíngi, voru þar med ytri Borg í Vídidal, oc hálft Asbiarnarnes, framfór þat í Hvalfyrdi, oc voru vóttar Hösk- 1400
uldr prestr Iónsson oc Gísli Andrèsson; annat sumar var dæmt 1401
á alþíngi um vistarrád hiúa. Þá fór Vilchín biskup utan, oc kom aptr med höldnu; fór þá utan Solveig Þorsteinsdóttir kona Biarnar Iórsalafara, á feriu þeirri er hann hafdi byggia látit, at helmíngi, vid kyrkiuna í Skálhollti, fórst henni vel; urdu þá í þann tíma margir fyrir-burdir oc draumar fyrir stórtídindum þeim er á eptir komu, þat var eitt at mönnum heyrdist þetta qvedit í kyrkiu-gardi á Sydumúla.

Vögum vèr oc vögum vèr
med vora byrdi þúnga.
upp er komit þat ádur var
í öldu Sturlúnga, í öldu Sturlúnga.

Þá dæmdu XII menn Byrni bónda Einarsyni hálfan Dalsskóg frá Magnúsi Haflidasyni at Diúpadal í Eyafyrdi, einni nóttu eptir Benidictusmessu, enn Steinmódr prestr Þorsteinsson úrskurdadi stefnu Biarnar, próf oc dóma lögliga kyrkiunnar vegna.

Einar prestr Þorvardsson arfleiddi þá med leyfi Iárngèrdar oc Gudrúnar systra sinna börn sín Magnús, Arngrím, oc Gudrúnu at Þíngeyrum í Vatnsdal, vottadi Þórdr prestr Þórdarson oc adrir. Þórdi presti hafdi Benidict Bryniúlfsson fyrir laungu gèfit Gaukstadi oc Foss á Skaga. Þorsteinn lögmadr úrskurdadi ættleidínguna lögliga. Ottar Biarnason seldi þá Ormi Snorrasyni XX hundrud er hann átti í stadnum í Reyninesi, enn Asbiörn Gudmundsson galt húsfrú Þorgèrdi Olafsdóttr konu sinni, Gnúp oc Alvidru í Dyrafyrdi oc Fiallaskaga. Pètr biskup var þá utkominn, oc var þat á presta stefnu hans at Miklabæ, *in festo Iohannis Baulacensis Episcopi*, þá er kallat var fiórda ríkisár Eyríks af Pommern, er Margrèt drottníng hafdi tekit til ríkis med sèr yfir öll nordurlönd, at hann byrti Þorsteini Eyúlfssyn lögmanni, brèf Magnúsar konúngs Smecks, med hans hángandi ínnsigli, var þat verndarbrèf Hólakyrkiu; krafdi biskup Þorstein lögmann úrskurdar á því, hvört kyrkian á Hólum ætti at niótti þeirrar nádar edur ei, í því siálfrar hennar málí er þá var kæra til Ións Grímssonar, enn Þorsteinn lögmadr sagdi þat med fullum úrskurdi, at Ión Grímsson væri skyldugr til at lúka Hóla kyrkiu hálfaukin rètt sinn fyrir brèfsins sakir, med slikum penínga vexti oc sölum, sem Ión prestr Magnússon officialis hafdi dæmt henni einfaldan rètt, oc konúngsbrèfit óbrygdanligt, þartil rèttr Noregs konúngr kallar þat aptur; er þetta hinn sídasti giörningr Pèturs biskups, oc svo Þorsteins er menn hafa sèd.

## XCVII Kap. Plágan kèmur med Einari.

1402 A ödrum missirum fór Vígfús hyrdstióri Ivarsson utan; þá giördi Þórdr prestr Þórdarson reikníng vid Valdysi Helgadóttir barnamódur sína, oc fékk henni til eignar Litluey oc Ytri ey, oc fleiri brèf vóru þá giör; þá kom út um sumarit Hvala Einar Heriúlfsson á því skipi, er hann átti siálfr; þar kom út á því skipi í klædi, at því er sumir menn sciga, svo mikil brádasótt at menn lágu daudir innan þriggia nátta, þar til heitit var þremr lofmessum med sæmiligu bænahalldi oc liósbruna; þá var oc heitit þurraföstu fyrir Kyndilmessu enn vatnföstu fyrir Iól, salt-

srasaungum, Mariusaungum oc at gèfa hálfvætt sylfurs til Hóla, til at búa med skrín Gudmundar hins góda, er sídan mælt ad flestir nædi at skriptast ádurenn dóu; gèkk drepsóttin um haustit fyrir sunnan land, med svo mikilli ógn oc ákèfd, at aleyddi bæi vída enn fólk var ekki siálfbiarga eptir í mörgum stödum þat er lifdi, oc þó XII eda XV færi med einn til graftar eda tvo í fyrstu, komu stundum lífs ei nema IV edur V, deydi Alexius prestr Saarthöfdason fyrstr af prèstum oc siö sveinar hans í Botnsdal, þá hann reid frá skipi; ætla menn sè hinn sami, er fyrrum var í Odda, oc kalladr Ali eda Oli. Þat var tídska med klerkum sumum, at snúa nöfnum sínum á látínskan hátt. Þar eptir dó bródir Grímr kyrkiuprestr í Skâlhollti, oc svo hvör at ödrum heima presta. A Ióladagin siálfan deydi Höskulldr prestr Iónsson rádsmadr á stadnum; aleyddi þá stadin at lærdum mönum oc leikum, fyrir utan Vilchín biskup siálfan, oc tvo leikmenn er eptir lifdu; þat er í sögnum, at Grundar Helga hafi búit á Grund er plágan kom fyrst í Nordurland, oc at hún hafi fiöll upp oc hafi þá verit at siá svo sem reyk nidri í sveitunum, enn þat er ekki möguligt at segia med sanni, at þeirri sögn sè trúandi, því allt svo lángt var þá sídan Helga hafdi á Grund verit, oc barnabörn hennar fullordin at alldri oc mönnud, at hún hefdi þá verit ærit gömul ef satt væri, þó má þat siá, at eigi er þar mistekit til af þeim er þessa sögu flytia, hinnar seinni plágunnar, oc verdr ei ætlat um adra enn þessa, nema önnur hafi gengit fyrr á landi hèr, enn þat verdr ei sannat. Þeir mistaká miöc er þat herma, at eptir þessa plágu hina miklu, hafi vestan-menn byggt Nordurland, oc kosit iardir þar sem þeir vildu, því þat er med sannindum sagt, at þessi hin fyrri plága gèkk um allt land, ei sídr á Vestfiördum enn annarsstadar, oc var hún sem endahnútr á landplágum þeim, er iafnan höfdu vid borit sídan eptr daga Arna biskups Þorlákssonar. Þennan tíma deydi Vinaldr erkibiskup í Noregi, oc svo margir göfugir menn hèr á landi af plágunni, Pètr Hóla biskup, Þorsteinn Eyúlfsson lögmadr, er verit hafdi hit mesta mikil-menni, Páll Kiarni ábóti í Videy. Sveinbiörn Sveinsson á Þíngeyrum, oc enn fleiri; er þat mælt at Rafn Brandsson yrdi lögmadr eptir Þorstein.

## XCVIII Kap. Mannfallsárit fyrra.

Þá voru hin nærstu missiri þvílik, oc var kallat manndauda árit
1403 mikla edr plágu árit, deydi þá Þorsteinn ábóti á Helgafelli, Runúlfr ábóti í Þykkvabæ oc VI. brædur, enn adrir VI lifdu, Haldóra Abbadys í Kyrkiubæ oc siö systr enn sex lifdu eptir, þángat vígdist aptr Gudrún abbadys Haldórsdóttir, eyddi þann stad þrisvar at mannfólki, svo at um sídir miólcudu systurnar búfénadin þær til voru, oc kunnu flestallar lítt til sem von var; kom þar til kyrkiu hálfr átti tugr hins siöunda hundrads brád-daudra líka, svo talit vard, enn sidan gat einginn talit fyrir fiölda sakir, þá eyddi þrisvar stadin í Þykkvabæ at mannfólki, svo at ei voru eptir nema tveir brædur, er heima væri oc einn húskarl stadarins, oc bar hann fyrir þá mat oc adra er tilkomu; þá dó oc Gísli Svartsson á Reykhólum, Jón Guttórmsson í Hvammi, er átti Kristínu dóttr Biarnar Einarsonar Iórsalafara oc höfdu þau verit saman XI ár; erfdi sídan Loptr foreldri sitt er kalladr hefr verit hinn ríki; Þórdr Sigmundarson á Núpi í Dyrafyrdi; Páll Þorvardsson à Eydum, oc Sesselia Þorsteinsdóttir kona hans, hann hafdi haft hyrdstiöra umbod um hríd; hann kalla sumir födr Ións prests Pálssonar enn adrir nefna Pál Brandsson; þat er lióst at Páll Þorvardsson var fadir Ingibiargar er Loptr Gudmundsson átti, en ei veit ec hvert Sesselia kona hans var dóttir Þorsteins Eyúlfssonar edr ei; fleiri deydu hinir heldri menn. Var þá vígdr Vermundr ábóti til Helgafells; þeir deydu þá fyrir nordan land: Þórdr prestr Þórdarson oc Steinmódr prestr Þorsteinsson oc Halldór prestr Loptsson rádsmadr, allir hinir göfugustu prestar oc audugir, Halldór prestr giördi ádur testament sitt oc gaf bædi klaustrum oc kyrkium, enn Valdys Helgadóttir barnamódir Þórdar prests gaf Yttriey Þíngeyra kyrkiu. Steinmódr prestr hafdi átt sonu oc dóu þeir, þá hafdi hann ættleidda, enn módir þeirra var systr húsfrú Margrètar Eyríksdóttr á Borg er Benidict Bryniúlfsson átti, þau áttu Siáfarborg oc Espihól oc margar iardir adrar, oc þar med erfdi Margrèt systursonu sína; ekki lifdu þá eptir nema þrír prestar Nordanlands, þrír diáknar oc einn bródir á Þíngeyrum. Vída lifdu menn eptir frændlausir, er sagt at sá madr er Sölmundr hèt hafi erft alla bænda eign í Fliótahlíd, enn ei veit ec

giörla hvört var í þessari plágu edr hinni sídari er sveinn fanst á bæ er Ivar hèt oc kalladr sídan hinn fundni, sem Ivars ætt er frá kominn; tvö úngmenni lifdu í Adalvík oc Grunnavík er gyptust sídan, Ögmundr Iöturkúfur oc Helga beinrófa.

## XCIX Kap. Lyktar pláguna.

Vetr sá hinn nærsti var kalladr manndauda vetur hinn sídari; 1404
eyddi þá enn stadinn í Skálhollti at þiónustu fólki; dóu þrír prestar oc mestr hluti klerka, tveir prestar lifdu eptir, bródir Þorsteins kyrkiu prestr oc Þórarinn prestr Andrêsson Capelán Vilchíns biskups; lifdu varla L prestar eptir í öllu biskupsdæminu, gèkk plágan þá sem mest nordanlands enn þá lètti henni af móti páskum; var þessi köllut Plágan mikla oc var hún en fyrsta í landi hèr, enn almenningr nefnir hana stundum Svartadauda, enn þótt hann væri fyrir laungu geingin í útlöndum; ætla ec þat ekki fiærri fara, er sumir mæla, at fyrir þá plágu hafi verit hundrat þúsundir manna tólfrædt í landi hèr oc ei dáit minna enn tveir hlutir. Á því ári er gètit Höskuldar Runúlfssonar, hann seldi Ióni Sighvatssyni jörd at Hvoli í Vesturhópi vid Tungufelli í Svarfadardal; ætla ec Runúlf, er gètr á dögum Olafs biskups, hans son verit hafa. Plágu árit gaf Einar Þorbiarnarson Kèlduland Hóla kyrkiu oc Ingiridr kona hans. Eptr pláguna kom snióvetr hinn mesti; vard svo mikill hrossafellir oc saudfiár fyrir sunnan, at traudt mundu 1405
menn þvilíkan, átti stadurinn í Skálhollti um haustit þriú hundrud hross roskin enn ótal þrèvetr oc yngri, enn um vorit lifdu eigi fleiri á stadnum oc öllum stadar búum fyrir ofan heidi en XXXV klifbær en XXIV hestar voru at auki er Vilchín biskup átti siálfr sumarstadna oc gengu í Hestfialli; höfdu þá biskupar optast í þann tíma XII útbú oc var eitt á Utskálum í Gardi enn hin í Arness syslu oc Rángárvalla, oc var þat kallat fyrir ofan heidi; lagdist þá vída í audn mikill hluti sveita oc dvínudu miöc nytsemdaverk, sádverk, saltgiörd, sagnarit oc annar manndómr.

## C. Kap. Andlát Vilchíns biskups.

Þá tók vid rádum í Skálhollti Oddr prestr Iónsson er þá hèllt Breidabólstad í Fliótshlíd, enn Vígfús prestr Þorbiarnarson lèt

laust; skipadi Vilchín biskup III officiales yfir biskupsdæmit: Vermund ábóta á Helgafelli yfir vestfyrdinga fiórdung til Botnsár, Odd prest Iónsson yfir sudurland austur til Lómagnúps sands oc Þórarin prest Andrèsson allt til Helkúndis heidar oc stód svo þriá vetur sídan; hann vígdi þá bródr Biarna Andrèsson til ábóta í Videy; sídan fòr Vilchín biskup utan um sumarit í Hvalfyrdi oc med hönum Biörn bródir Einarsson í Vatnsfyrdi, Narfi Sveinsson lögsögu madr sunnan oc austan á Islandi oc bródir Ión Hallferdar son oc urdu vel reidfara; hafdi Vilchín biskup verit hinn mesti skörúngr oc nytsemdarmadr allra útlendra biskupa, bædi vidrètti hann kristindómin oc leidrètti sidu manna; vid hann er kènd hin hellsta máldaga-bók Skálhollts biskupsdæmis, þarí innfærdi hann alla máldaga er hann oc hinir fyrri biskupar giördu oc allar eignir kyrkna er þá voru. Hann lèt byggia tornid út til brædra þá hann var priór, hann lèt oc byggia stöpulin í Skálhollti allan frá grundvelli oc fimm þorlákshöfut med klárt sylfr oc lagdi þarí siálfr hans helgan dóm, hausin heilan oc öll beina brotin, hann hafdi oc út Mariu bílæti hit minna í Mariu stúku oc Olafs konúngs bílæti er stód fyrir framan kór í Skálhollti; hann lèt giöra í Kyrkiubæ austur sæmiliga refla kríngum alla stóru stofuna oc lagdi allan kostnad þar til oc voru engir fyrri slíkir, oc gaf þá kyrkiunni; hann gaf oc sæmilig messuklædi med öllum reidskap Skálhollts kyrkiu oc þarmed dalmadiku er höfd var á krossmessur bádar jafnan sídan, því hann saung fyrst messu á krossmessu um haustit er hann kom út híngat; hann lèt oc byggia í Noregi skipit Bússu er köllut var biskups Bússan oc fórst henni jafnan vel; leysti hann allar stadarins skuldir svo Skálhollts kyrkia var skuldalaus á hans dögum. Vilchín biskup andadist í þessari utanferd öndverdan vetr í Biörgvín í Noregi; giördi Biörn bóndi Einarsson útför hans sem best hann mátti, stódu þar yfir greftri hans Askèll, er þá var erkibiskup ordin í Nidarósi oc lídbiskupar oc margt annat stórmenni, hafdi hann hèr biskup verit XII eda XIII vetr, enn um hina næstu þriá var biskupslaust eptir hann í Skálhollti, oc höfdu officiales umrád öll, þeir þrír er hann hafdi setta, hvör í sínu umdæmi.

# Prentvillur.

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| Bls. | 2 | Línu | 1 | konng les konúng. |
| - | 7 | - | 5 | Ejylfs l. Eyúlfs. |
| - | 8 | - | 20 | sicí-erfdaskyní l. sic í erfdaskyni. |
| - | 11 | - | 21 | á kyrkiunui l. í kyrkiunni. |
| - | 15 | - | 17 | I I l. XI. |
| - | 16 | - | 20 | Helgasynir l. Helgasynir. |
| - | - | - | 30 | ann l. enn. |
| - | 18 | - | 19 | yfirlœti l. yfirlæti |
| - | 19 | - | 21 | a l. af |
| - | 23 | - | 26 | XIV l. XIX. |
| - | 28 | - | 4 | applesin l. upplesin. |
| - | 35 | - | 1 | þorstein l. þorsteinn. |
| - | 38 | - | 1 | at l. af. |
| - | 40 | - | 7 | klausrit l. klaustrit. |
| - | 41 | - | 19 | II l. VI. |
| - | 44 | - | 1 | heilūga l. heilagri. |
| - | 51 | - | 20 | stróhátídir. l. stórhátídir. |
| - | - | - | 25 | trúnadar; menn l. trúnadar-menn. |
| - | 52 | - | 31 | veru l. vera. |
| - | 53 | - | 16 | hvöru l hvör. |
| - | 56 | - | 27 | bródis Ingimunds l. bródir Ingimundr. |
| - | 59 | - | 4 | ví l. því |
| - | 62 | - | 15 | Snælíngsdalstúngu l. Sælíngsdalstúngu. |
| - | 64 | - | 32 | báti l. ábóti. |
| - | 67 | - | 28 | hundrud l. hundrad. |
| - | - | - | 31 | hundrad l. hundrud. |
| - | 68 | - | 9 | heilagra l. heilagrar. |
| - | 72 | - | 8 | sanugva l. saungva. |
| - | 74 | - | 15 | körsbrædr l kórsbrœdr. |
| - | - | - | 35 | verá, oc þvera l. þverá oc var. |
| - | 75 | - | 33 | ofr. l. fór. |
| - | 80 | - | 25 | manna; fyrir etc. l. manna fyrir sunnan land. |
| - | 82 | - | 22 | Flattungu l. Flatatúngu. |
| - | 89 | - | 5 | Turni l. Tumi. |
| - | 90 | - | 30 | kalldr l kalladr. |
| - | 96 | - | 3 | Raudasand l. Raudasandi. |
| - | - | - | 13 | þvívat l þvíat. |
| - | 97 | - | 24 | Hórd l. Hörd. |
| - | 113 | - | 14 | Böki l. Flóki. |
| - | 115 | - | 20 | Brynúlfsson l. Bryniúlfsson. |

Á næstlidnu sumri barst þessi önnur deild *Islands Árböka* því íslendska bókmentafèlagi, send því frá höfundinum Herra Syslumanni *Espolin* med eptirfylgiandi formála, sem hèr, eins og sá fyrsti, er á dönsku útlagdr. Til at vanda prentunina svo vel sem möguligt yrdi, eru þriá leidrettíngar próf tekinn af sèrhvörri örk (tvær af ötulum Theólógi *Hannesi Stephensen*, og hitt þridia af mèr siálfum). — Verk þettad mun best hrósa sèr siálft, oc gèt eg því þess med ánægiu, ad þess *þridia deild*, er nær yfir öndverda 16du öld til trúarbragda skiptanna, er fèlaginu þegar til handa komin. Oska hliómm vèr þess: ad vinir vísinda og norrænrar sagnafrædis stydji útgáfu þess framvegis, svo at fèlagid verdi ad nockruleiti skadlaust fyri þartil gengin prentunar-kostnad, enn rithöfundurinn siálfur gledjist af þeirri skèmtun og notum er þad veitir almenníngi, og sem reyndar eru þau einustu laun fyrir allt sitt ómak, sem hann vildi sèr á skilia.

Kaupmannahöfn, í Marts mánudi, 1823,

*Finnur Magnússon.*

I næstafvigte Sommer modtog det islandske literære Selskab nærværende anden Afdeling af *Islands Aarböger*, fra Forfatteren Hr. Sysselmand *Espolin*, tilligemed fölgende Fortale, som her, ligesom den förste, er bleven forsynet med dansk Oversættelse. For at Trykken kunde blive saa korrekt som muligt, ere tre Korrekturer blevne læste (nemlig to af Stud. Theolog. Hr. *Hannes Stephensen* og en af mig selv). Skriftet vil best tale for sig selv, og det er mig en sand Fornöielse at melde: at dets *tredie Afdeling* (som indbefatter den förste Periode af det 16de Aarhundrede, til Reformationens Fuldendelse) allerede er kommet Selskabet til haande. Gid sande Venner af Videnskaberne og den nordiske Historie saaledes ville fremdeles understötte Udgaven af dette Værk, at Selskabet seer sig nogenlunde skadeslöst for Trykkeomkostningerne, men Forfatteren selv kan glædes ved den Underholdning og Nytte, som det yder Almeenheden, og sandeligen vilde være den eneste Belönning, som han önskede at betinge sig for sit betydelige og ufortrødne Arbeide!

Kiöbenhavn, i Marts Maaned, 1823.

*Finn Magnusen.*

# Formáli.

Þat er talid í formála hinnar fyrstu árbókar hveriar hellstar sèu uppspretr at því, sem samann er ritid í þær, allt á hina XVIIdu öld ofarlega, oc því gèt eg þess eigi. Enn þess má gèta, at sá hluti tídar er þessi bók tekr yfir, edr XVda öldinn, synist alla-miög frábrugdinn hinni XIVdu at háttum; má þat finna at í XIVdu öld voru miög líkir hættir ef jafnlióst væri frásagt, því sem var í Sturlunga tíd; oc nær því framar sem lengra leid á hana; því fyrst í stad, eptir þat konúngs ríkid kom, aflagdist nockud forn venia, yfirreidir oc vígaferli, enn iókst aptr er stundir lidu, oc lítill ótti tók at standa af konúngunum, enn biskupar giördust útlendir, oc meiri ferdamenn enn klerkar. Hèllst oc í þeirri öld allr, þó hún hörd væri, atferli fyrri manna nockud, um sád- oc malltverk oc ritgiördir. Enn í hinni XVdu öndverdri kom plágann mikla, fèll þá allr forn dugnadr, oc allt atferli af fólksfæd, enn sumir menn urdu sva audugir, at þeirra gætti einna samann í landinu, oc þurftu ei at ástunda fornra manna ydn, þó mann-folkid fiölgadi nockud aptr, því fèd vann fyrir. Vid þat aflagd-ist allr áhugi til annars frama enn auds, oc giördist vanþeckíng mikil um allt þat er ádr vär, oc hyrduleysi á því at teikna upp þat er á þeirra dögum skedi, oc hverskyns lærdómsleysi, enn rostr urdu þá at eins, er ríkismönnum, frændum edr mágum liar samann um fiár edr arfadeilr, oc efldust þær því meira, sem þeir fiölgudu meira, oc urdu fiærskyldari. Tókst þá oc af allr nor-rænn háttr í landi hèr, því norræna siglíngu þraut, oc voru þá fyrst enskir med gripdeildum hèr vid land, enn seinna tídkudust kaupfarir Hansastada er kalladir voru. Biskupar festust oc urdu innlendir, þegar framleid á öldina, komu þeir þá betr vid rád-gyrni sinni, oc má þat ætla at þó þeir væri ei all rèttlátir, heldr

*)

# Fortale.

I Fortalen til Aarbögernes 1ste Deel ere allerede Værkets Kilder anviste, til henimod det 17de Aarhundredes Udlöb, og derför ommeldes de ikke her. Kun erindrer jeg Fölgende: Det Tidslöb, som denne Bogens Deel indbefatter, nemlig det 15de Aarhundrede, synes, i Henseende til dets Aand og Daad, at have været meget forskielligt fra det 14de. Man vil finde, at dette sidstnævnte Sekel, hvis man kun havde lige tydelige Underretninger derom, meget maa have lignet Sturlungernes Old, og at denne Lighed blev des större jo mere det nærmede sig sin Ende. Först efter Kongemagtens Indförelse aflagdes meget de gamle Vaner, Hærfærd og Drabsgierninger; men de tiltoge igjen efterhaanden, da Ærefrygten for Kongerne formindskedes, men Biskopperne vare Udlændinge, som snarere maatte ansees for Eventyrere end Klerke. Var end det hele Aarhundrede haardt, bevarede det dog nogenledes de Gamles Flid ved Agerbrug, Saltvirkning og Skrifter; — men tidlig i det 15de indfaldt den gruelige Pest; blandt det ubetydelige Folketal forsvandt de Gamles Daad og Virksomhed, skiönt nogle Enkelte erhvervede (ved Arvegangsretten) saa megen Rigdom, at kun de selv havde noget at betyde i Landet, uden at de behövede at tye til Forfædrenes Flid, da den tiltagende Folkemængde atter tillod det, fordi de dog alligevel havde overflödigt Udkomme. Saaledes aflagdes al Stræben efter anden Forfremmelse end Rigdom, hvorved en almindelig Uvidenhed om alt det som för havde været udbredtes; alskens Lærdom forsömtes; og ingen skiöttede om at optegne de Begivenheder som tildroge sig i deres Levedage. De bestode ogsaa mest i de Feider som opkom blandt de Rige, Frænder eller Svogre, om Gods eller Arv, og disse Trætter formeredes, i samme Forhold, som Slægtningernes Antal blev större, men Slægtskabsgraderne fjærnere. Selv de norske Skikke aflagdes i Landet med den norske Handels Aftagelse, hvorimod Engelsmændene först indfandt sig til at handle eller plyndre, men fortrængtes mere og mere af de saakaldte Hansestæders Kiöbmænd. I Aarhundredets senere Hælvte fik Landet indfödte Biskopper som havde fast Bopæl, hvorved deres Herskesyge fik större Raaderum; vistnok vare de ikke alt for retfærdige, ligesaalidet som Fleer-

enn flestir þeir adrir forrádamenn er einir leika vid oc hafa allt í höndum, oc eigi sídst hid rómverska klerkavald, er trúarbrögdinn hafdi med fram fyrir vopn, hafi þeir þó aptrad ímsum ósidum oc hrydium, er ella hefdu ordit í svo þeckíngarlausi öld. Enn þat hid helsta er hèr er at siá, er undirstada þess rèttar sem biskups-stólar oc klaustr höfdu til jardeignanna í landinu, oc var sá rèttr þar bestr sem landsmenn gáfu þær siálfviljugir, þó af óvitrlegum röksemdum væri, oc tölum biskupa oc ábóta. Vígaferli hafa mörg verid í þessari öld, oc miklu fleiri enn frá er sagt, oc svo rán oc gripdeildir, enn þô miklu færri enn í hinni fyrri, var oc mannfólkid miklu færra, hefir þá oc árad miklum mun betr, ac verid fátt um landplágr. Sè nú litid á allar ástædr þessar, oc annat atferli þá í öld, oc at ekkert var á bækr sett frá því árla í henni, nema verid hafi sögr nockrar, er múnkar diktudu med litlu mannviti hèr sem annarstadar, oc at sídustu at mannfall mikid gèkk yfir land þetta ad nyu, efst í öldinni, sem vida giördi aleydu, þá er ei undarlegt þó at lítid verdi til sagna fengid úr öld þessari. Er þat styttst af at segia, at í henni tyndu frædimenn sagnafrædi, skáld fornum smeck, bændr akrvinnu atferli, leikmenn hinu fyrra frelsi, oc landsbúar kaupferdum, enn biskupar urdu sem konúngar, ádr henni lauk. Enn þar var á mikill munr, hve sidleysi vard minna eptir hana hálfnada, bædi nockud svo af biskupa ríkinu sem fyrr segir, oc svo allraheilst af tilhlutun Dana konúnga, eptir þat er Aldinborgar ætt festist í ríki.

*J. Espolin.*

heden af eneraadige og mægtige Herskere, især af den romerske Geistlighed, som ogsaa kjæmper med religieuse Vaaben — men dog maa vi formode: at de have afskaffet mange Uskikke og forebygget mange Voldsomheder, som ellers vilde have fundet Sted i en saa uvidende Tidsalder. Det vigtigste som man i övrigt kan opdage i dens Historie, ere Grundene for den Ret som Bispestole og Klostre havde til de faste Eiendomme i Landet, — hvoriblandt frivillig Overdragelse var den gyldigste, skiönt den fremledtes af daarlige Indbildninger, samt Bispers og Abbeders Overtalelser. Ellers ere vist mange Drab, Ran og Voldsomheder (som langt fra ikke alle ommeldes) blevne udövede i dette Aarhundrede, dog ei saa mange som i det næstforegaaende; nu var ogsaa Folkemængden meget mindre, ligesom Veirlig og Tid i det hele synes at have været bedre, men Landeplager sjelden at have indfundet sig. Overveier man disse Omstændigheder og andre Aarhundredets Særkjender; at det (naar dets förste Aar undtages) neppe har frembragt Skrifter af nogen Betydenhed, uden maaskee nogle Munkesagn, som ei vare fornuftigere her end i andre Lande, og endelig: at en dræbende Pest hærgede hele Island ved Seklets Udlöb; saa at mange Böygder bleve ödelagte i Bund og Grund — saa kan man ikke undres over at vi kun have lidet at fortælle om dets Begivenheder. I al Korthed kan man sige, at da forfaldt Oldtidens historiske Kundskab blandt de Lærde, Smagen blandt Digterne, Agerbruget blandt Bönderne, Lægfolk berövedes deres gamle Friheder, men Landet Handel og Söfart, hvorimod Biskopperne kom til en hartad kongelig Anseelse. Dog aftog Usædelighed meget i Aarhundredets senere Hælvte, dels ved Bispemagtens Haandhævelse, samt dels og især ved gavnlige Anordninger, givne af Danmarks Konger af den Oldenborgske Stamme.

*J. Espolin.*

---

**Prentvillur í Itu Deild Arbókanna, auk þeirra fundnu, sumpart ordsakadar vid illa hönd aflestrar handritarans, edur óskilmerkiligi ordaskipti (leidrèttar af höfundi sjálfum):**

| | | | |
|---|---|---|---|
| Bls. | 2 | línu 18 | les Sidarla í. Línu 35 les Kódransson |
| — | 4 | — 1 | oc Oddur les er Oddur |
| | | — 4 | mun eiga vera: Haflidi prestur Steinsson |
| | | — 7 | á Velli, einkvöriu sinni er hún var þúngud, les: á Velli. Einhvöriu sinni er hún var þúngud, þá |
| | | — 26 | þessari les þeirri |
| — | 10 | — 10 | þat les því; med les vid |
| — | 15 | — 28 | Hállegur les Háleggur |
| — | 16 | — 25 | þeirra Rafns les Herra Rafns |
| | | — 33 | til, þingeyra les til þíngeyra |
| — | 18 | — 6 | qonr les konur |
| | | — 11 | faung les saung |
| | | — 29 | giöri les giöra |
| — | 20 | — 15 | ofhugi les ofrhugi |
| — | 21 | — 30 | samhykkti les samþykkti |
| — | 22 | — 15 | (og vídar) bródr les bródir |
| — | 25 | — 3 | ofsluttr les afsluttur |
| — | 29 | — 9 | beir les þeir |
| | | — 24 | færd les fær |
| — | 30 | — 32 | á Nidarósi les í Nídarósi |
| — | 36 | — 16 | Jón prestur; Kódransson les Jón prestur Kodransson |
| — | 37 | — 2 | hans les hinir |
| | | — 18 | les frædibókum |
| — | 41 | — 12 | oc þeir vildu les at þeir vildu |
| — | 43 | — 5 | honum svo les hann svo |
| — | 44 | — 7 | heilagri les heilagrar |
| — | 48 | — 27 | Hálogolund les Hálogaland |
| — | 49 | — 28 | lögliga les lögligt |
| — | 50 | — 29 | bikaraskap les leikaraskap |
| — | 51 | — 9 | framfór; undir nonam les framfór, undir Nonam |
| — | 54 | — 18 | Biarnfelo les Biarnfeld |
| — | 56 | — 21 | Hundastad les Hundastapa |
| — | 59 | — 23 | at gánga les ad atgánga |
| | | — 34 | fremstr les fremstir |
| — | 62 | — 27 | til afsökunar les ásökunar |
| — | 63 | — 1 | Kost les Kosti |
| — | 71 | — 22 | prestur les prestar |
| | | — 27 | Kolbeins prests ad Frostastödum les Kolb. pr., ad Fr. stödum |
| — | 73 | — 18 | fór Jón biskup Haldorsson les fór utan Jón biskup Haldorsson |
| | | — 28 | mönnm les mönnum |
| — | 74 | — 1 | hafi les hefdi |

Bls. 74 línu 34 prestur les prestar
— 75 — 5 þá var les þá vá edur vo
— 77 — 14 grænki aldrei, á þessari ferd etc. les grænki aldrei; á þessari ferd
— 78 — 7 Olafs Jona les Olafs Tóna
— 82 — 10 hrads stiórnin i sveitunum gèkk les hèrads stiórnin í sveitunum gèkk sém mátti
— 29 Biarnarssonar les Biarnarson
— 87 — 8 erkibiskupi les erkibiskup
— 88 — 24 af ordfæri les at ordfæri
— 90 — 26 Hansson les Hallsson
— 91 — 14 Gislason les Gilsson
— 20 Steingr dóttir les St. dóttur
— 97 — 6 Smekkr les Smekk
— 18 prestr les prestur
— 100 — 8 Arni Jónsson og Klofa Gissur etc. les kom Arni Jónsson; og Klofa Gissur drúknadi, enn sá madur var tekinn af etc.
— 16 Marteins þiódólfssonar og þórdar þórdarsonar, presta Brinjúlfs Biarnasonar etc. les Mart. Þs. og Þordarsonar presta, Brynjólfs Biarnasonar etc.
— 29 Sunnefu les Sunnfu
— 101 — 14 skèd hafa; þá er um er gètit etc. les skèd hafa, þá er um er gètid etc.
— 21 sókti
— 105 — 11 tídindi hinum les tídindi á hinum ib. stók les stöku
— 106 — 2-3 vottar, at þeir deilda les vottar at, þeir deildu etc.
— 109 — 32 vigferli les vígaferli
— 111 — 18 frædilig les hrædilig
— 116 — 4 biskup les biskupi
— 12 Steinmódr prestur þorst. son enn á Remigiidag etc. les Steinm. pr. þorsteinsson, enn á Remigiidag
— 119 — 11 mörg-önnur tídindi les mörg önnur meiri tídindi
— 16 niótti les nióta
— 123 — 9 Botnsdla les Botnsdal
— 26 mistaka miög er þat herma les mistaka miög til er þat herma
— 124 — 20 Gudmándsson les Guttormsson
— 125 — 4 Jöfurkúfur les Töturkúfur
— 126 — 4 Helkundis les Helkundu
— 7 bródir les bóndi.

# Annar Þáttr.

Hèr segir frá Byrni Einarssyni oc Vatnsfyrdíngum; Reykhólamönnum; Lopti Ríka oc hans ættmönnum oc ímsum ödrum; Árna biskupi Olafssyni; hverir höfdíngiar þá voru uppi, oc frá ránum Enskra; Jóni biskupi Vilhiálmssyni oc Jóni Gerrikssyni; Þorvardr Loptsson fer at Jóni biskupi oc dreckir hönum; frá börnum Lopts; oc orrustu vid Mannskadahól; Loptr deir. Frá Gottsvin oc Gottskalk biskupum, oc upphafi Sveins Spaka; daudi Þorvards; frá Marcello biskupi oc Torfa Arasyni oc ímsum höfdíngium; Olafr Rögnvaldsson verdr biskup, oc giptast dætr Margrètar á Mödruvöllum; fra Þorleifssonum oc deilum Olafs biskups vid Jón prest Pálsson; frá Sveini biskupi; drápi Biarnar Ríka, oc hefndum Olufar; Skúlamálum oc Lopti Ormssyni; mál Olafs biskups vid Runúlf Höskuldsson oc Jón Snorrason; heimreid at krossi, oc dráp Magnúsar Jónssonar;

A

oc frá málum Sigmundar prests oc Jóns Broddasonar; Sveinn biskup deir; frá Brandi oc Finnboga; Olafi biskupi, oc vidreign Þorleifs Biarnarsonar oc Andresar Gudmundarsonar; upphaf Hvassafellsmála, og vidreign Olafs biskups vid Hrafn Lögmann; Ætt Stephána biskups oc Ögmundar, oc brúdkaup Jóns Sigmundarsonar; daudi Olufar Loptsdóttur, oc borin Jón Arason; upphaf Eggerts ættar, oc frá ödrum höfdíngium oc fráfalli Magnúsar biskups; Steinsmál oc bardagi í Vídey, oc frá stefnuförum Olafs biskups; endir Hvassafellsmála, oc frá ödrum málum oc giörníngum; kèmur plágann seinni, og Olafr biskup fer utan, samt frá upphafi Biarna Þorleifssonar; Gottskálk verdr biskup, enn Páll Jónsson er veginn à öndverdri Eyri af Eyríki Haldórssyni, med ödru fleira er þá vard til tídinda.

---

## I. Kap. Hefiast ættstudlar.

Biörn bóndi Einarsson er kalladr var Jórsalafari bió í Vatnsfyrdi, hann var hid mesta göfugmenni, oc mest háttar madr á landi hèr, eptir pláguna miklu, þó hann hefdi ei hyrdstiórn eda lögsögn, svo at þess sè gètid; Biörn gipti Kristínu dóttr sína í annad sinn, vetri eptir pláguna, þeim manni er Þorleifr hèt, hann bió í Audbrecku, oc var Arnason (Einarssonar) hún var hin mesta rausnar kona, oc köllud sídan Vatnsfiardar-Kristín, oc er mikil ætt frá henni kominn, var bod inni í Videy, oc stód fyrir því Vigfús Ivarsson Hólmr hyrdstióri; Biörn fór sídann utan med Vilchin biskup, oc Snorra lögmanni oc Jóni múnk Hallfredarsyni, oc stód fyrir útför Vilchins biskups í Norvegi, med hinni mestu rausn; hann giördi þá testamentum sitt, oc gaf þar í mörgum mikid fè, qvadst hann heitid hafa at heimsækia hinn heilaga Jacob í Compostella á Spáni, oc fór hann út til Róma frá Norvegi, var þá nyöndud Sólveig Þorsteinsdóttir kona hans. Ari hinn Ríki Gudmundarson, þess er Gudmundar-ætt er vidkènd bió at Reykhólum, þau vóru systkyn hans Ormur oc Rafn oc Þorbiörg er eignadist Gudna son Odds Lepps. Oddur Leppur Þórdarsson bió ad Osi á Vestfiördum, Loptur son Guttorms Örnúlfssonar bió ad Skardi vestra, oc erfdi frændr sína, hann var riddari at nafnbót, oc var sídann kalladr Loptur hinn Ríki — þat hef ec sèd at Loptur ætti son vestra, er Þorsteinn Hökulángr hèt, en engann veit ec sann á því — Loptur fèkk Ingibiargar dóttur Páls Þorvardssonar á Eydum, oc fór ad búa á Mödruvöllum í Eyafyrdi; en sat þó stundum ad Skardi, oc ödrum stórbúum sínum, reid hann á millum búa med miög marga sveina; Loptur var skáld mikid; þessi voru börn þeirra Ingibiargar, Þorvardr oc Eyríkr, Oluf og Sophia, Loptur hèldt vid Kristínu Oddsdóttr, oc var hún gipt manni í Eyafyrdi; synir þeirra Lopts vóru Olafur, Skúli, Ormur oc Sumarlidi; hann hèt eptir Sumarlida syni Þorsteins lögmans Eyúlfssonar. — Fleiri voru þá höfdíngiar uppi, sem ættir eru frátaldar. — Dadi hèt madr í Dölum, son hans hèt Ari, annarhvör þeirra fedga var kalladr Dalaskalli. Asgeir hèt ríkur madr, oc var Arnason; annar Sumarlidi; hann erfdi alla bændaeign í Fliótshlíd; þessir vóru þeir þá uppi fyrir nordan land, Arni Einarson, Benedict

Brynjúlfson, Isleifr Beltislausi, Finnbogi son Jón Lángs; hann bió at Asi í Kèlduhverfi oc var sídar kalladr hinn gamli; dættur hans voru Þórdís, módir Sveinbiarnar prests Þórdarsonar, oc Þórun er sídar fylgdi Jóni presti Pálssyni, Hallr hèt son hans, annar Jón, þridie Oddur, fiórdi Gísli, er ec hygg födurfödur Gísla prests Finnbogasonar, þess er vo Þórarinn Steindórsson; Gunnlaug oc Iárnbrún vóru en dætr hans oc lètu þau öll börn eptir, þó ei verdi nú frátalid — Jón prestur Pálsson, var úngur í þenna tíma, hann giördiz rádamadr á Hólum er hèr var komid edr litlu sídar — lengi vóru klaustur ábótalaus oc abbadísa eptir pláguna, oc þó var meira verdt at fèllu nidr flestar nytsemdir med mannfólkinu; var þá oc fátt ríkismanna uppi, en þeir sem vóru, urdu audugir miöc; biskupslaust var þá í landi.

## II. Kap. Nyr hyrdstióri oc lögmenn.

1405 Þau missiri er Vilchin biskup deydi, kom út Ivar Hólmr Vigfússon med hyrdstiórn; Gudrídr hèt kona hans, þau voru bædi 15 vetra; er þad ei lióst hvert Ivar hefr verid sonr Vigfúsar hyrdstióra edr frændi hans annar — þat var sumarit eptir mannfallit mikla aflidit — þá seldi Þórgils Jónsson Benedict Brynjúlfsyni Kyrkiuból í Lángadal; Backa tvo, Brecku oc Eyri jardir í Isafyrdi, fyrir Hól, Rafnstadi oc Gardshorn í Fúlukinn; þá var snióa-vetrinn mikli; svo varla lifdi eptir tíundi hluti qvikfiár á Islandi. Rafn
1406 Brandsson er mælt þá væri lögmadr, hönum afhendti Logi prestr
1407 Styrsson Grenjadarstad. Önnur missiri giördist Oddur Leppar Þórdarson lögmadr, hans son, var Gudni á Hóli í Bolúngarvík, enn Sigurdr Fóstri var brádir Odds, hans son var Philippus er Hagamenn eru frá komnir. Þá gaf Arni Einarsson Höskuld Runúlfsson qvittann um andvirdi Grísarár, þau missiri andadist Vigfús Ivarsson Hólmr, oc gaf Gudrídur Ingimundardóttir fyrir sál hans, oc Erlendar sonar þeirra, Hóla í Grímsnesi med 5 kúgildum, med samþykki Ivars sonar síns annars. Margrèt hèt dóttir þeirra Vigfúsar Hólms. Um þær tídir fór Biörn Bóndi Einarsson frá Rómi, oc til Feneya, þadann til Jórsalalands oc grafar Drottins, oc syktist þar, en adrir segia til Spánar, at heimsækia hinn Helga Jacob í Compostella, oc at hann yrdi þar siúkur oc dveldi þad ferd hans um

hríd. Ogiörla vita menn hvad þá leid um biskupa í landi hèr, enn líkast at engin hafi þá enn ordin verid.

## III. Kap. Biskupar koma.

Annat sumar kom út Jón biskup, er ábóti hafdi verit at múnklífi í Börgvín, oc var vígdr til Skálholts; saung hann sína fyrstu messu heima á stadnum á Mariumessu seinni, var þá veitt hinn sæmiligasta veitsla, oc sagt ad stadid hafi fyrir henni Vígfús bóndi Ivarson hyrdstióri yfir allt Island; enn ef þat er satt, þá hefur hann ei dáit hid fyrra árit, ei heldr Ivar hyrdstióri haft þau völd einn, oc er líkara hann hafi verit sonur Vigfúsar, oc haft hyrdstiórn med hönum, lèt þá Oddr prestr Jónsson laust sit Beneficium Breidabólstad, en hèldt þó stadin til næstu fardaga med öllum ávöxtum; en Jón biskup veitti þat Þórarni presti Andrèssyni. Þat hyggia menn at Beinir hafi verit biskup á Hólum um þær tídir, enn þá var uppteiknad inventarium klaustursins at stad á Reyninesi, er Biörgúlfr prestr Illhugason lèt þar rádin laus, en systir Þórun Ormsdöttir oc Þurídur Haldorsdóttir medtóku stadinn til forráda, voru vottar þess reiknings tilnefndir af Loga presti Styrssyni Officiali heilagrar Hólakyrkiu, bródir Aśbiörn Vígfússon oc Höskuldr prestr Hákonarson, Geir Arnason, Olafr Eyúlfsson oc fleyri. Um vorit eptir hóf Jón Skálholts biskup visitatiu sína, reid hann fyrst nordur til Hóla sem hann hafdi heitit, því at engin biskup var þar þá. Beinir biskup var annattveggia dáin eda utanfarinn, giördu Nordlendíngar hönum sæmiligar veitslur af eiginligum gódvilia. Þá biuggu í Audbrekku Þórleifur Arnason oc Kristín Biarnardóttir, þau giördu biskupi ágæta veitslu heima at sinu med hinni mestu virdíngu til blídskapar oc bytíngar. Reid Jón biskup þadan til Austfiarda, oc austan hid sydra. Rafn Gndmundarson bródir Ara tók þá lögsögu nordan oc vestan, hann var alvörugefinn oc rèttdæmur, fyrir hönum var þat svarit á Hólavadi í Vatnsdál, at Þórdr prestr Þórdarson, er andadist í pláguni, hefdi at reiknudum annara manna peníngum tíundad XII hundrada, vottudu þat at Þíngeyrum Biörgulfr prestr Illhugason oc Gudmundr Landbiartsson. Sigurdr Þórvaldsson kèndist at hann hefdi selt Olafi Hallssyni hálfa jörd at Brúarlandi í Deildardal. Um haustidi

1408 (margin, beside first line of chapter); 1409 (margin, beside "fleyri. Um vorit eptir...")

urdu rádamanna skipti í Skálholti; lèt Oddr prestr Jónson laust, en Gudmundr prestr Þórsteinsson tók vid um Michaelsmessu, en á Jólum eptir lèt hann af stadar rádum at bodi biskups, oc tók vid Vigfús prestr Þorbiörnsson, er verit hafdi fyrir Odd prest, þótti mönnum þessi rádabreytni kènna mikillar óstadfesti biskups, því at engin sök nema gód var Gudmundi presti gèfinn.

## IV. Kap. Frá ímsum mönnum.

Þat hafdi ordit fyrir tveim vetrum um Steinunni dóttr Rafns lögmans Bótólfssonar, er inni vard til í Launguhlíd, at hún var gift þeim manni, er Þórgrímur Sölvason hèt, er Kolgrímr nockr á Grænlandi komst yfir hana med fiölkíngi, svo at bóndi hennar lifdi; var hann brendr eptir dómi, en hún vard ei med jafnri sinnu oc ádr. Gudrún Styrsdóttir átti Snorra Torfason, hann hafdi farit til Norvegs sumarid eptir snióa veturinn mikla, ætladi hann
1410 út aptur en rak til Grænlands, oc dvaldist þar 4 votur, til þess er hèr var komid, fór hann þá til Norvegs, en siglíng var lítil frá Norvegi út híngad, oc dvaldist hann þar enn lánga hríd, enn Gudrún giptist Gísla Andrèssyni, þrem vetrum ádr enn Snorri kom út. Sá Vigfús hafdi átt í deilum vid Vigfús Flossson ádr, en er Snorri kom út sídann á kaupskipi litlu, brant skipid fyrir austan land, vard mannbiörg, en tyndist mikit af fiárhlut; oc er Gudrún frètti útkomu mans síns, reid hún í móti hönum, oc tók hann blídliga vid henni. Ei er þat satt at þá hafi framfarid dómur Þórsteins lögmanns Eyúlfssonar, um lögferiu á Jökulsá at beidni Steinmódar prests Þorsteinssonar, því þeir vóru bádir daudir, en þessi missiri er Rafn Gudmundarson hafdi lögsögn haft einn vetur, mánadag hinn næsta fyrir Gregoriusmessu, gaf Jón biskup úrskurdarbrèf um máldaga milli Krossholts oc Akra kyrkna; taldi hann þar at Gudrún Styrsdóttir hefdi fyrir sig borid giördir Vermundar ábóta á Helgafelli, þá hann hafdi officialis starf, eptir giördum Gyrdis biskups; stadfesti Jón biskup skipanir biskups, Snorra prests Klíngirs, Ola prests Svarthöfdasonar oc Vermundar ábóta, þá útnefndi Rafn lögmadr Gudmundarson sex manna dóm í milli Þórleifs bónda Arnasonar, oc Þórkèlls bónda Bergþórssonar, at Hrafnagili, um arf eptir Þorkèl Bergsson oc Gudrúnu Þórgilsdóttur, oc

er at siá sem hann hafi syslu haft í Eyafyrdi. Þessar stundir fór Biörn Einarsson af Spáni, gègnum Valland oc Flæmíngialand oc til Englands at heimsækia hinn heilaga Thomas, þadann fór hann til Norvegs; en þat sumar nú stód yfir, sigldi hann af Norvegi oc bar til Hialtlands, vóru þar um veturinn, en sumarit eptir kom hann út híngad, oc fór heim í Vatnsfiörd: eignadi hann Vatnsfiörd sèr oc sínum erfíngium, hvad sem biskupar mæltu, og ritadi bók um ferdir sínar, enn sú er nú undir lok lidinn á vorum dögum. Þá stódu yfir Oddamál, er þó ei gètid hversu þeim hagadi; en Stadrinn í Odda var dæmdur af Vigfúsi presti Þorbiarnarsyni at tólf prestum, oc allt hans fè undir nád Jóns biskups en hann siálfur dæmdr til Pafa at fá aflát oc lausn, fór hann utan þá þegar, en á ödru sumri ætladi hann út á Svalaskipinu; þat forgèkk um þíngtíma hèr vid land, oc voru á því 140 manna af þeim komust einir 13 menn lífs á land, oc dóu þó fiórir seinna. Þau missiri keypti Þorleifur bóndi hálfann Hleidargard at Sigurdi Jónssyni.

1411

1412

## V. Kap. Konúngaskipti.

Þat ár hit sama andadist Margrèt Valdemarsdóttir í Danmörk, endadi þar ætt hinna fornu Danakonúnga, er Lángfedgum áttu at telia til Sveins Ulfssonar enn at ættstudli vóru ódalbornir til Danmarkar, allt frá Sigurdi Hríngi; tók þá Eyríkur af Pommern einnsaman vid allri stiórn því at hann var sonr Mariu dóttir Ingibiargar Valdemarsdóttur, en fadir hans var Vartislafr hertogi, Bugislafsson Vartislafssonar, Bugislafssonar, Biarnimssonar hertoga, Bugislafssonar Bugislafssonar hins Gamla, Vartislafssonar Svantiborssonar Bugislafssonar bródr Rettiburs, sem fèll fyrir Magnúsi konúngi Góda á Hlyrskógaheidi, oc Anadrachs Vinda konúngs. Eyríkr konúngur var giörfugligur at siá oc brautst í mikid, enn hagadi illa, vard hann bædi óvinsæll oc óhappsamur, enda var hann útlendr í Danmörk, oc vesnadi vid þat stiórninn. Hin næstu missiri er sagt at Þorleifur Arnason oc Kristín Biarnardóttir hafi setid í Vatnsfyrdi, þat ritar Biörn á Skardsá. Biörn Einarsson lifdi þó, oc þat hygg eg at Kristín hafi optar verit í Vatnsfyrdi, enn Þorleifur nyrdra, því þat var þá tídt um ríkisfólk, at sitt höfudból oc ódal hèldt hvert hióna, hygg ek hana Vatnsfiardar Kristínu hèlldr kallada, oc fyrir því talda vera eina,

1413

saman, enn eigi Þorleif med, at hún hafi þar stórmannliga byggt oc hyst, eru þó líkindi at Biörn fadir hennar, oc adrir lángfedgar í Vatnsfyrdi, hafi ei allill húsakynni eptir skilid, svo miklir höfdíngiar sem þeir vóru. Ari hinn Ríki bió á Bardaströnd; hans börn vóru Gudmundr er sídar átti Helgu Þorleifsdóttir oc Kristinar, oc Oluf er Sumarlidi Loptsson fèkk. Biörn oc Arni, Einar, Solveig, Helga oc Gudny, voru börn Þorleifs Arnasonar oc Kristinar, en þat sumar er nú er gètid, föstudaginn fyrir Þorlákamessu, gaf Jón biskup stadfestíngar brèf um Videyarkyrkiu máldaga, sem Biarni í Videy bar fyrir biskup um fiórdúng hvalreka í Krysívík oc helmínga vidar oc hvalreka í Hraunslandi í Grindavík, oc en fleyri reka; innsigludu þat brèf bródir Jón biskup, Vermundr ábóti á Helgafelli, Biarni ábóti í Videy, Vígfús Ivarsson hyrdstióri yfir allt land, (oc synist þat enn sem ósannara sè, þat sem ádur segir um andlát hans), Oddur Jónsson, Einar Hauksson rádsmadr í Skálholti; Þorsteinn Svarthöfdason, Liótur Andrèsson, Páll Biarnason prestar. Skömmu sídar dó Jón biskup oc var hann fimm ár at stóli. Þá var Þórnn Ormsdóttir príórissa á stad í Reyninesi, en Biörgúlfr prestr Illhugason gaf klaustrinu L hundrud í forgift fyrir Steinunni dóttr sína, oc Sigrídi frændkonu sína, or hann gaf í klaustrid undir reglu hins heil. Benedicti, vitnadi þat bródir Jón officialis heilagrar Hólakyrkiu, og systir Þórnn príórissa.

## VI. Kap. Arni biskup vígdr med völdum.

Arni hèt madr oc var Olafsson hann var skyldr konu Ara bónda Dadasonar Dalaskalla, oc seldi hann Ara Snóksdal, en hafdi keypt af Gudna oc Sigurdi sonum Odds Lepps lögmans, bródir hans var Þorkèll prestr Olafsson í Reykholti, oc er frá hönum ætt komin. Arni var kanúki eda múnkur nockurstadar; en um pláguna hafdi hann verid í Norvegi med Hákoni Sigurdarsyni á Giska, hinum velbornasta manni í allar ættir, er bezt var oc ad sèr giör fyrir flestra hluta sakir allra manna er þá voru í Norvegi; hann átti Sigrídi dóttur Erlendar Philippussonar í Oslo, hins merkiligasta manns af öllum bændum í Norvegi fyrir flestra hluta sakir; hann vildi aldrei riddari verda, þó konúngr siálfur bydi hönum, trúdi betur íslendskum mönnum en ödrum Norrænum oc hafdi þá jafnan í sinni þiónustu. Þeir mágar Hákon oc Erlendur dóu

bádir, þrem vetrum eptir pláguna hèr í landi, þá Oddur Leppur tók lögsögn; var þá bródir Arni med Sigrídi Erlendardóttur, oc fór med henni til Róms, þar var hann settr pænitentiarius öllum norrænum mönnum, oc sá þar marga fásèna hluti oc fornar menjar. Húsfrú Sigrídur giptist aptur, þrem vetrum eptir dauda þeirra mága í Norvegi, Magnúsi Magnússyni velbornum manni Sænskum, oc rèdi því Margrèt drottníng; því Magnús hafdi þiónad henni, oc var þá sveinn óbreittr, var drottníng siálf at brúdkaupi þeirra í Oslo, oc margt annad stórmenni, var þá bródir Arni kapellán Magnúsar, er sidann bió í Giska, en svo voru þá kalladir húsprestar eda skriptafedr stórhöfdíngia, oc var þat at Enskum sid, en fyrrum kölludust kapellánar þeir sem geimdu helga dóma; enn er Margrèt drottníng deydi, sóktu þeir Magnús Magnússon oc bródir Arni prestur heim Eyrík konúng af Pommern, er þá rèdi öllum Nordurlöndum, fundu þeir hann í Helsíngiaborg oc fengu gódar vidtökur. Litlu sídar spurdist làt Jóns Skálholts biskups, oc fór bródir Arni út til Róms, oc fann Jóhannem Páfa hinn 23ia med því nafni, hafdi hann þá verid rekinn úr Róm af Ladislafi konúngi á Púli, oc hertekin mörg hundrud Rómveria, var svo mikill styrialdar yfirgángr þar í þann tíma at lidsmenn konúngs oc hyrdmenn tóku klaustra nunnur oc adrar konur oc meyar, oc lögdust med þeim, jafnvel inní Pèturskyrkiu siálfri, oc stölludu þar hesta sína, en drucku af kaleikum í vínhúsum oc ölbodum. Þá er Páfin var á brott rekinn var svo mikill sólarhiti at margt dó af þorsta oc ofurhita á flóttanum, ádr þeir komu til Florentz, þar var bródir Arni frá Pètursmessu til Maríumessu fyrri, frá Florentz fór hann til Lybiku, oc var þar eptir Páfans bodi vígdur til biskups, hinn 10da dag Octobris mánadar, enn ádur hann fór af Danmörku hafdi hann fengid hyrdstióra vald af Eyríki konúngi yfir allt Island. Kom þá út híngad um sumarid, frá Norvegi lítid kaupfar, þat braut fyrir austan land, tyndist mikit af fè, enn menn komust af. A því komu út brèf Arna biskups til Biarnar bónda Einarssonar, at hann skyldi hafa hyrdstiórnar umbod hans um land allt.

## VII. Kap. Frá Lopti bónda.

Loptr bóndi Guttormsson sat laungum at Skardi á Skardströnd, segia menn at hann hafi verid riddari at nafnbót, oc hafi hvítan fálka

í blaum feldi til einkennis edalskapar síns. Einhveriu sinni nálægt þessum tíma, er mælt svo bæri vid, er hann sat at Skardi, at þángad kom, med födur sínum, úngr sveinn er Illhugi hèt, oc kalladr sídar hinn Svarti; hann hafdi prikaleik á gólfinu vid annan sveinn, oc tókst svo til fyrir hönum, þá er Loptr reikadi á gólfinu, at hann sló prikinu ófyrirsyniu utann á fót Lopti; vard hönum vid þad miöc dátt í fætinum, settist nidr oc mælti: þú slær ógiætiliga piltur; þat er ennþá ecki úti fyrir þèr, þú munt giöra mèr til meira, ádur en þú deyr. Fadir Illhuga bad sem miúkligast fyrir son sinn, oc afsakadi vilia hans oc ásetning í þessu; en Loptur bóndi svaradi fám ordum, oc var heldr þrámæltur á hinu sama, þó vard ei meira af at því sinni, en rætast þótti spá þessi, sem sídar mun greint.

## VIII. Kap. Frá biskupum; oc andlát Biarnar.

1414 Í þann tíma vígdist Jón biskup Tóvason til Hóla; hafdi Logi prestr Styrsson verid officialis fyrir nordann eptir pláguna oc eptir hann Jón Þorfinnsson, enn þá hyggia menn at Beinir biskup hafi verit; nú er hèr var komit, hafdi Jón Hallfredarsson áboti í Veri haft þat umdæmi í tvo vetur, oc ætla menn hann settan verid hafa af Arna biskupi. Jón biskup Tóvason var um nockra hríd med Eyríki konúngi af Pommern í miklum kiærleikum, en stundum í ödrum stödum, gaf Eyríkur konúngr hönum oc Hólakyrkiu,
1415 ári seinna en hann var biskup ordin, hin fimta dag Septembris, verndarbrèf sterkt, oc bidr alla menn í Hóla umdæmi at styrkia hann oc vyrda, kallar hann andligann födr sinn, oc hótar þeim reidi oc refsíngum, eptir tólf manna dómi, er á móti bricti, oc eykur fullrètti biskups oc kyrkiu tvöfaldliga. Um þennan tíma edr litlu ádr, seldi Finnbogi Jónsson Einari Bergþórssyni, Sökku oc Skáldalæk í Svarfadardal, fyrir Klifshaga, Hafrafellstúngu oc Þverá í Öxarfyrdi, voru vid, Arni Einarsson forsagnar vottr, Höskuldr Runólfsson oc Stephán Gunnlaugsson. Þá kom út Arni biskup Olafsson á þeim kreara, er hann hafdi giöra látid, hafdi hann svo mikid vald, sem enginn hafdi fyrr haft nè hefur sídan verid; í fyrstu var hann biskup yfir Skálholts stipti, þarnæst hafdi hann af Eyríki konúngi hyrdstiórn yfir allt land med sköttum oc skyldum

oc öllum konúngsrètti, einnin umbod Jóns biskups yfir öllu Hóla biskupsdæmi oc Hólakyrkiu fyrir nordann, med öllu því er þartil heyrir, hann var einnin af Askèli erkibiskupi skipadur Visitator yfir allt land, oc hafdi umbod klaustursins af múnklífinu í Biörgvin um tíund í Vestmannaeyium, er Arni biskup Þorláksson hafdi gèfid undan Skálholts biskupi; hann hafdi oc einnin umbod margra kaupmanna um skuldir, kom hann fyrst vid land austur hiá Þvottá, gèkk þar af skipi vid nockra menn, en skipid gèkk til Hafnarfiardar med heilu; reid hann vestr um, þar til hann kom í Skálholt á Pètursmessu, þadan reid hann jafnskiótt uppá þíng, oc lèt lesa brèf sín í lögrèttu; játudu allir menn hönum hlídni, lærdir oc leikir, fyrir nordan oc sunnan, saung hann hina fyrstu messu á Þorláksmessu heima í Skálholti, enn litlu sídar reid hann heimann, oc fyrst ofann til Sanda, oc þadann nordr um land til Hóla, tóku allir Nordlendíngar hann yfir sig, leikir oc lærdir, med gódum vilia oc veittu hönum hlídni, sem rèttum biskupi sínum. Þá handlögdu þau Benedict Brynjólfsson, oc Margrèt Eyríksdóttir þat fè allt er Margrèt erfdi, eptir sonu Steinmódar prests Þorsteinssonar, oc voru þar vottar at, á Múnkaþverá, Jón prestr Biarnason, Loptr bóndi Guttormsson oc adrir. Kom Arni biskup aptr í Skálholt med miklum fiárafla, bædi í brendu silfri, smiöri oc slátrum, oc fyrir því at í þann tíma aflagdist miög sígling hingad frá Norvegi, tókst upp aptr siglíng oc kaupstefna til Englands, lágu sex skip þat sumar í Hafnarfyrdi, fór Vigfús bóndi Ivarsson, er hèr hafdi haft hyrdstiórn, á einu þeirra til Englands, oc hafdi med sèr ei minna enn LX lestir skreidar, oc mikit af brendu silfri oc gèrsemum, en af því at hans er svo opt gètid, sídan hann var sagdr dáin, ætla eg hellst at dauda ár hans sie eigi rètt, nema tveir Vigfúsar Ivarssynir af hinni sömu ætt hafi hyrdstiórar verid, á hinum sömu dögum. Þá lèt Jón ábóti Hallfredarson vyrda Mel í Midfyrdi, því hann var enn officialis nyrdra; en Þorleifur Arnason hafdi þá syslu í Hegranessþíngi, oc útnefndi XII manna dóm at Ökrum í milli Asgeirs Arnasonar oc Sveins Hallvardssonar, um skuldir þeirra oc kúgildamál, Asgeir var fadir Jóns er fèkk Kristínar, dóttr Gudna Oddssonar á Hóli vestr, Sveins gètr oc sídar; Þorleifr svaradi Grenjadarstadar kyrkiufè, því at henni gáfust X hundrud eptir Arna Einarsson. Þessi missiri er Arni biskup kom

ût, andadist Biörn bóndi Einársson Jórsalafari, er hann var staddr vid Hvalfiörd, var lík hans flutt í Skálholt oc þar jardad, oc hafdi þótt hinn mesti höfdíngi.

## IX. Kap. Frá Arna biskupi oc ödrum mönnum.

1416 Hin næstu missiri gèck dómr Rafns lögmans Gudmundarsonar at Torfustödum í Midfyrdi, um arf eptir Helga Jónsson, Vídidalstúngu alla, oc fallna vera hálfa jördina Þorleifi Marteinssyni, eptir Margrèti dóttr sína, konu Helga, enn hálfa Þorleifi Arnasyni eptir Gudnyu systr Helga. Ari Gudmundarson handlagdi þá at Reikhólum Arna biskupi Olafssyni til eignar XXII hundrud, sem Magnús Hallsson var skyldugr Ara, fyrir jörd í Hiardardal, vottadi Þorkèll prestr, bródir Arna biskups, Audun Salómonsson oc Þorkèll Magnússon, at Stafholti; biskup samþykkti oc í Skálholti Proventu giöf Arna Helgasonar til Helgafellsklaustrs, jörd á Látrum í Adalvík oc at Höfda í Grunnavíkurþíngum, giörda vid Vermund ábóta, vóru vottar biskups, Loptr Guttormsson, Gunnar Gudmundarsonar oc en fleyri. Arni biskup var yfirlætismadr mikill, hann lèt þá smída stèttarkèr mikit þat vóg IX merkur silfrs, oc margt annat fleyra, var silfur þá miklu fágiætara oc
1417 dyrara í verdaurum enn á vorum dögum. Önnr missiri var giört monstrantium oc silfurbolli sá er vóg XI merkur, oc kalladr var *Gèstum blídr*. Þann vetur lèt Arni biskup giöra fiögr altari í Skálholtskyrkiu, um fram þau er ádr voru; vída lèt hann bæta kyrkjuna oc stadinn, þótti þó mörgum giört af hrapadi edur flyti. Þá var hèr á landi Avent Sasse, oc bad um penínga fyrir hinn Heilaga Antonium, vikust þar allir vel undir, sem ætíd, þá nokkud skyldi gèfa til helgra manna, var vetur þessi kalladr *Bónavetur*, var fyrst kóngsbón er Arni biskup fylgdi, þá syslumansbón, þá prófastsbón, oc margar adrar kröfur oc beidslur biskups vid almúgan. Sat biskup stundum at Hólum enn stundum í Skálholti; þá hann var ekki í reidum sínum yfir land, á hvítasunnuhátíd var hann á Hólum, oc giördi þar brèf um Proventu giörning vid Astrídi Jörundardóttir; þá var oc giört kaupbrèf, med samþykki Astrídar þeirrar, millum Arna biskups oc Sveins Hallvardssonar bónda hennar, þar med seldi Sveinn biskupi jördina Borg oc Ira-

fell í Túngusveit bádar fyrir fimmtyu hundrud, enn Arni biskup fèkk hönum aptr Ríp í Helgranesi fyrir fiörutyu hundrud oc tyu kúgildi, oc gaf Sveini stadfestíngarbrèf, þá var andadr Vermundr ábóti á Helgafelli. Þessi missiri dæmdi Rafn lögmadr Gudmundsson Magnúsi presti Bödvarssyni Bard í Fliótum til eignar; gètid er þá oc Þorgríms Sölvasonar, manns Steinunnar Rafnsdóttur oc at Jón Þorvaldsson Vasi keypti jörd á Lángalandi í Fliótum. Arni biskup sættist þá vid Lopt Guttormsson oc Hall Olafsson um peninga reikning, lukti Loptur biskupi, vegna Halls, jörd at Stadarhóli í Saurbæ fyrir sextyu hundrud, oc önnr sextyu hundrud skyldi Loptr taka undir siálfum sèr, er biskup qvitteradi hann fyrir þá peninga, er hann var konúngi skyldugr í reikníng vegna Ingibiargar konu sinnar, sídann Páll Þorvardsson fadir hennar hafdi umbod af Vígfúsi Ivarssyni. Þá handlagdi Þorkèll Magnússon Arna biskupi, jördina Bakka í Bæarþíngum, enn Kolbeinn Þorgilsson jörd í Þíngnesi, vottudu Audun Salomonsson, Þorsteinn Olafsson, Snorri Torfason oc fleyri, en Ingibiörg Loptsdóttir handlagdi Magnúsi Jónssyni, oc Ingunni konu hans, Grund í Eyafyrdi, Dvergstadi, Eyarland, Kotá, Hrafnstadi í Kraklingahlíd oc Snartastadi í Gnúpasveit, voru vottar at Grund, Kálfur prestr Jónsson, *Loptr* Guttormsson oc adrir; ei er þess gétid hvör sú Ingibiörg var, oc hefur þó verid rík kona oc fyrir því at Biörn Jorsalafari hafdi átt Grund, veit eg ei ödruvís vera meiga, enn at hún edr madr hennar hafi at þeim keypt, en Loptur edur Eyríkur sonr hans er sídar átti Grund, aptur at Magnúsi. Þá er vetr sá hin næsti leid af, kom sumar á skyrdag, giördi þá svo harda hríd med 1418
snió oc stormi frá dagmálum til hádegis at vída braut ensk skip, ei færri en hálfan þridia tug, fórst fè oc menn en brotinn keyrdi upp í ímsum stödum. Um sumarid á Laugardagin nærstan eptir Þorláksmessu, gaf Arni biskup í Skálholti, umbodsmadr heilagrar Hólakyrkiu oc visitator yfir allt Island, Pál Runúlfsson med öllu qvittann, friálsan, lidugann oc ákærulausan, fyrir sèr oc eptirkomendum sínum, oc svo kóngs hyrdstiórum oc umbodsmönnum, med því hann hafi giört sèr fullann reikníng, af Ryseyri, landskuldum, kóngssyslu, oc umbodi biskups er Páll hafdi millum Jökulsár oc Nordfiardar. Þá reid Arni biskup um Austfyrdínga-fiórdúng allan fram á vetur oc hid nyrdra um Nordlendínga-fiórdúng; gaf hann á Laugardagin næstan fyrir allra heilagra messu at Asi í Axar-

fyrdi Finnboga Jónssyni (Lángs), sveini sínum, qvittunarbrêf fyrir sextyu hundrudum, sem Finnbogi var hönum skyldugur, qvedr svo at ordi: *hann hefr blifvet i voro fullo oc öllo minni.* Dóttr Finnboga var Þórun er fylgdi Jóni presti Pálssyni oc önnr Þordys, oc önnr börn hans eru nefnd ádr. Frá Asi reid Arni biskup, um Hóla biskupsdæmi vestr um, þá til Borgarfiardar oc heim í Skálholt, oc hafdi aflat stórfiár sem optar.

## X. Kap. Utanför Arna biskups.

1419 Annat sumar, þá er sumir segia ad skyrdags hrídinn yrdi, fór Arni biskup utan í Vestmanneyum, á hinum sama kreara er hann siálfr átti, oc þar hafdi legit aptrreka um vetrin, kom hann med heilu fram til Biörgvinar, oc var þar fyrir Jón biskup Tóvason búin til íslandsfarar, fundust þeir þar bádir oc at skilnadi gaf Arni biskup Jóni biskupi krossinn Glæsi, oc önnur þíng fleyri; þau þóttu varla gèfin vera, at Jóni biskupi vyrdtist sídar; en af Arna biskupi er þat at segia, at hann kom ekki út aptur. Þat er mælt at Arni biskup hafi mestur íþróttamadur verid á flesta hluti; hann syndti yfir um Hvitá millum hamranna vid feriustadinn, batt hestin vid fót sèr oc hafdi svo á eptir, hann reid á degi frá Skálholti, á hiarni um vetrinn nordr Kiöl at Hólum í Hialtadal, var um morguninn í Skálholti vid óttusaung, en kom til Hóla fyrir aptansaung, þá hríngt var til Salve Regina. Af slíkum íþróttum hans oc fimleikum er sá málsháttr kominn, þá er nokkrum vinnst ófimliga, edur ósnotrliga; *þitt var enn ekki Arna biskups.* Hann var fyrir örleikssakir kalladar hinn Mildi; en ei var hitt med minna móti hví hann var fengsamr, var hann ei sídr ríkmenni oc yfirlætismadr enn biskup. Segia frædimenn vorir sumir, hann hafi dáid vetri eptir utanför sína, oc verid svikin af hyrdmönnum Eyríks konúngs fyrir öfundarsakir, enn þat er sannara er Jón prófastr Haldórsson segir at hann lifdi en um hríd, oc hyggia menn haft hafi umbodsmenn sína yfir biskupsdæminu lengi.

## XI. Kap. Frá Jóni biskupi, fleyri mönnum oc ráni.

Þat er nú þessunærst at segia, at Jón biskup Tóvason kom út hingat, oc tók land med heilu í Þerneyarsundi, kom þar út med

hönnum herra Hannes Pálsson oc margir adrir danskir, reid biskup frá skipi oc gisti ad Reykholti, at Þorkéls prests Olafssonar, bródur Arna biskups, sídan fór hann nordr til Hóla, oc giördi þar sæmiliga veislu. Þótti hönum Arni biskup hafa sneidt um fyrir sèr, oc stefndi þegar eptir veitsluna Þorkéli presti til Hóla um reikníngskap fyrir svo lángann tíma, sem han hefdi haft prófastsdæmi í Húnavatnsþíngi oc fleyri greinir adrar, og hugdi sva at vinna upp skada sinn á frændum Arna biskups. Um haustid skipadi Jón biskup Hólakyrkiu til æfinligrar eignar, jardirnar Valþiófstadi oc Arnarstadi í Gnúpasveit, segir at Jón prestr Pálsson hafi lukt þær sèr í þá peninga, sem hann hafi brotligur ordid vid sic oc Hólakyrkiu í hans málaferlum; en Jón prestur Biarnason hafi lukt þessar jardir ádr Hólakyrkiu í hennar peninga oc biskups tyundir, oc afhendt Jóni presti Pálssyni, þá hann var rádsmadr; sídan hafi Jón ábóti Þorfinsson, er samþykktr var officialis Hólakyrkiu fèngit þær Jóni presti Pálssyni, fyrir XXX hundrud í rádsmans kaup hans; oc fyrir því at biskup segir þat vera móti kyrkiulögunum, at fá í burtu jardir kyrkiunnar fyrir lausafje án naudsynia, þá skuli jardir þessar þar eptir vera óbrygdanlig eign Hólakyrkiu, undir banns áfelli fullt; var brèfid giört á Hólum midvikudaginn fyrir *Simonis* oc *Judæ*, enn vard þó ágreiníngr um sídar á dögum *Olafs* biskups Rögnvaldssonar. Þá er þetta var, voru lögmenn Oddr Þórdarson, Leppr oc Rafn Gudmundarson; er svo sagt ad Oddr hafi látid aftaka átta menn hins þridia tugar, karla oc konr fyrir óbótamál. Um þær mundir fór Þorleifr Arnason útann á skipi sínu at konúngsbodi, komu enskir menn á skipi miklu at hönum vid Færeyar oc rændu hann. A Sylvestri dag, þat er hin sídarsti í árinu, nefndi Jón biskup sex menn í dóm, um Proventu Astrídar Jörundardóttir, sór hún fyrir biskupi at hún hefdi gèfit Vallholt med sèr Hólakyrkiu í Proventu, til æfinligrar eignar en aldrei samþyckt at sú Proventa seldist edr gengi í adra stadi; fyrir því dæmdu þeir at Astrídr skyldi fylgia Proventunni, þar til menn vita hvort Arni biskup edr hans eptirkomendr vildu lúka Hóla kyrkiu fyrir jördina, en fái kyrkiann enga peninga edr sè skadlaus, verdi Proventann enginn, nema Vallholt dæmist aptr Hólakyrkiu med jafnmörgum kúgildum sem gèfit var í fyrstu, þá skyldi giörníngrinn standa í öllum greinum, vóru þessir dómsmenn, herra Hannes Pálsson er þá var hèr í landi, Jón prestr Biarnason, Ari prestr

Þorbiarnarson, Kálfr prestr Jónsson oc Pètr prestr Kollason, er þá voru einhverjer fremstir prestar fyrir nordan land, oc Þorsteinn
1420 Olafsson, er sídar var lögmadur oc bió at Ökrum. Eptir um vorit, reid Jón biskup í visitatiu sína, setti hann Jón Biarnason af Officialisdæmi, en skipadi Ara prest Jónsson á stadin á Hólum. Þá dæmdi Rafn lögmadr Gudmundarson át Hrafnagili um hálfa Grund í Eyafyrdi, milli Þorleifs bónda Arnasonar oc Magnúsar bónda Jónssonar á Múnkaþverá, sem keypt hafdi Grund af Ingibiörgu Loptsdóttr, voru dómsmenn helstir, Loptur Guttormsson, Gamli Marteinsson, Olafur Eyólfsson; Höskuldr Runólfsson, seldi þá oc Arnfinni Þorsteinssyni Túngufell í Svarfadardal fyrir Lund oc Nefstadi í Fliótum, oc fleyri urdu giörníngar. Kom út um sumarid Hannes Nystadr med hyrdstiórn oc hafdi med sèr konu sína Margrètu Össurardóttr oc hennar módr Gudrídi, er þat lióst at hafi verit önnur Margrèt, en sú er uppi var fyrir fiörutyiu vetrum. Þá komu enskir menn oc tóku Hannes Pálsson hyrdstióra, oc drápu mann hans Tidecke Becker, oc særdu marga adra, þeir komu oc á Skagafiörd, med þremr skipum oc gengu upp med fylktu lidi til rána, bördu Jón prest Pálsson rádsmann, í nærveru biskups, oc drápu Jón Iba kóngsmann, oc giördu mörg illvyrki, sá hèt Ríkardr er fyrir þeim var; þeir ræntu oc vid Vestmannaeyar nyiu lestum fiska, oc giördu en fleyra illt.

## XII. Kap. Hverir höfdíngiar uppi voru.

Í þann tíma voru þessir höfdíngiar í landi hèr, Oddr oc Rafn lögmenn, Loptr hinn Ríki Guttormsson, Ari Gudmundarson á Reykhólum, Gudni son Odds Lepps, Arnfinnr Þorsteinsson Eyólfssonar oc Eyólfr sonr hans, Þorleifur Arnason í Vatnsfyrdi, Ari Dadason, Finnbogi Jónsson Gamli í Asi, Asgeir Arnason, hann átti Gudfinnu Þorgrímsdóttir, þeirra son var Jón; Benedict Brynjólfsson, Þorsteinn Olafsson, Philippus son Sigurdar Fóstra, oc svo þeir menn er ádr eru nefndir Magnús Jónsson, Gamli Marteinsson, Höskuldr Rúnólfsson oc fleyri, enn af prestum þeinna fremstir, Jón Biarnason, Ari Þorbiarnarson, Ari Jónsson, Jón Pálsson, er rádsmadr hafdi verid, oc þá enn á úngum árum, Þorkèll Gudbiartsson Flóka, oc urdu þeir tveir sídan hinir nafnkunn-

nstu fyrir nordan land. Þann vetr hinn næsta giördi hardann, oc 1421
er haft til merkia um árferdi at *Qvæda-Anna* lánadi Þingeyra-
klaustri sex vættir smiörs, þá kom upp eldr úr hafi fyrir Reykia-
nesi, oc var vedrátta hörd, braut kyrkiu á Mödruvöllum í Hörgár-
dal af strídum stormi. Þá lènti Jón Hóla biskup med brèfi sínu,
er giört var á Hólum fimtudaginn fyrir Dominicam Passionis, Hof
á Höfdaströnd med öllum gögnum þess oc giædum, er fylgia áttu
at fornu oc nyu, fyrir utan Portionem Ecclesiæ, systrunum; skyldu
þær meiga liá stadinn oc selia til leigu, hverium sem þær vildu
um aldr oc æfi. Höskuldr Rúnólfsson seldi þá Arnfinni Þorsteins-
syni jardir í Svarfadardal, en Þorlèifur Arnason seldi Asgeiri Arna-
syni med samþycki Kristínar Biarnardóttr konu sinnar, er í Vatns-
fyrdi bió, Hvamm í Hvammsveit, Kyrinastadi, Glerárskóga oc Leys-
ingiastadi fyrir hálfa Audkúlu í Svínadal oc fleyri jardir, fór þat
fram at Glaumbæ í Skagafyrdi, en kaupvottar hinir helstu voru
nefndir Þorsteinn Gudmundarson, Biörn Amundason, Gudmundr
Þordarson oc Mâr Hallsson, en slíkt er talit þó þat sè ei all-
merkiligt, þegar formenn voru at nockru merkilegir, því at sagnir
eru þó þá ærid óliósar, oc þær allar óvissar sem ei eru brèfadar,
nefni eg þó ekki adra giörnínga smærri. Hannes Pálsson fór þetta
sumar utan.

## XIII. Kap. Frá ránum oc ödru.

Sumarid eptir kom Hannes út aptr med hyrdstiórn oc Balthazar 1422
med hönum, þeir komu vid Vestmanneyiar, oc fylgdi þeim Jón
áboti Hallfredarson; hann vildi ei þar á land fara med þeim oc
ætladi ad leggia inní sund, tyndist hann þar med skipinu oc mönnum,
þeim er á vóru; hèt sá Jón er eptir hann giördist áboti á Þyckvabæ.
Komu þá Enskir med ránum, hètu þeir Ravlin Beck oc Jón Persy,
er gengu upp á Bessastödum, oc drápu þènara Hannesar Nystads
oc eiddu gardin. Þá gaf Jón Hóla biskup Steindór Andrèsson qvitt-
ann um tiltal til hans um hálft Brúarland í Oslandshlíd. Þar eptir
giördi vetr hardann oc lángann at vedráttu, því þá var hardt ár 1423
um allan nordrheiminn; kölludu menn kyniavetur, var krefda
mikil oc adrar kynjasóttir, mikid mantión oc skipa enn fiski ár

lítit. Enskir eiddu þá Olafsfiörd, oc Hrísey oc brendu þar kyrkiu, þeir rændu oc kyrkiu í Húsavík oc brendu, einnin rændu þeir at öllu kyrkiu í Grímsey, oc tóku strandhögg mikil hvervetna um land, en hertóku margt fólk oc þiádu, oc syndu margann óiöfnud svo giördu þeir einnin í Færeyium. Jón Tovason Hóla biskup tók þá sótt, er hann leiddi til bana, hafdi hann verid fióra vetr hèr í landi, en átta vetr biskup; hann skipadi Michael prest Officialem, en Þorkèl prest Gudbiartsson rádsmann heima á stadnum, oc giördi af mikit sundrþykki med lærdum oc leikum, vildu flestir allir prestar hafa Jón prest Biarnason at Officiali, en Ara prest fyrir rádsmann, fylgdu því margir bændr um Skàgafiörd oc vídar; kærdi Michael, er þá hafdi Breidabólstad oc prófastsdæmi í Húnavatnsþíngi, at Ari prestr Þorbiarnarson oc Þorkèll prestr Gudbiartsson bæri sig ofurrádum oc stefndi þeim fyrir erkibiskup í Nidarósi med làtinu brèfi lángordu; var Michael prestur þessi Jónsson norrænnmadr; þeir vitnudu oc, Loptr bóndi Guttormsson oc Hermann prestr Jónsson, at Michael hefdi fyrir kyrkiuhurd at Saurbæ í Eyafyrdi, krafit Ara prest Þorbiarnarsson er þar saung þá, at heyra brèf sitt, oc svo látid Adam Jacobsson lesa þat fyrir honum. Hannes Pálsson hyrdstióri, oc nockrir med bönum, fylgdu því at Michael hefdi Officialis starf, oc svo lyktadi at þat gèkk fram, en Jón prestr Pálsson var skipadr rádsmadur stadarins. Þá giördi Ingibiörg Loptsdóttir Magnús Jónsson qvittann fyrir umbod sitt, en Balthazar hyrdstióri lèt gánga tólf manna dóm oc dæma Gudrídi Sæmundardóttir jörd í Skardi í Landmannahrepp, er hún hafdi fyrirbodit Jóni presti Þórdarsyni at selia, fór sá dómr fram á þíngvelli, er Þorsteinn Olafsson stadfesti dóminn sama ár oc dag, oc er hann þá kalladr lögmadr. Næstu missiri seldi herra Asbiörn
1424 ábóti à Þíngeyrum Einari bónda Bessasyni ytri Ey á Skagaströnd, en Sveinn Bergþórsson oc Gudny Jónsdóttir kona hans Lopti bónda Guttormssyni Asgeirsár tvær í Vídidal, vottudu þat hyrdstiórinn Balthazar af Damme, Olafr Loptsson, Abraham Gudnason, oc en fleyri at Mödruvöllum í Eyafyrdi. Olafr Haldórsson seldi Grími Egilssyni hálft Brúarland í Deildardal; en systir Þórum priórissa á stad, leigdi Hof fyrir sextan vættir skreidar. Þá fór oc fram vitnisburdr Gunnlaugs Teitssonar, (er ec hygg verit hafa födur Teits hins ríka í Biarnanesi), oc Sigurdar Þorbiarnarsonar, at þeir hefdi nær staddir verit vestr í Króksfyrdi fyrir vestann Borg þann

vetur er Hrafn Gudmundarson reid á Reykhóla næst eptir pláguna, oc at þeir brædr Hrafn oc Ari hefdi þá sættst um arf sinn. Þetta sumar gengu Enskir upp á Bessastödum, særdu oc handtóku marga kóngsmenn, en drápu Andrès Olafsson, oc tóku af hönum silfurbelti, þeir rændu Olaf Nicolásson sex lestum fiska oc en fleyri menn. Brand Haldórsson nordr á Bardi í Fliótum tók Jón Selby enskur víkingr, oc lèt hann kaupa sic út med fiórum lestum, er svo at siá sem ei hafi allmikil verid vörnin fyrir þé menn hefdu vopn, er þanninn fór fram hvört ár eptir annad, oc svo vída um land.

## XIV. Kap. Miklar óspektir.

Nærstu missiri fèck Þorleifr Marteinsson, Niculási Broddasyni 1425
Máfahlíd vestra, þá var miöc agasamt í landi oc gèkk flest öfugt oc óheyrilega af stiórnleysi, en vetr hardr oc lángr, oc mikill fellir á hrossum oc saudfè. Fyrirmenn gögnudust lítt, mentir allar miöc aflagdar, en þekkíng oc sidir manna sem fánytast verda mátti alment. Skutu sveinar Hannesar Pálssonar hyrdstióra, mann til bana í kyrkiugardinum á Helgafelli, oc var bædi saurgut kyrkian oc klaustrit; kyrkian med öfundar blódi, oc stód hún sidan saunglaus meir enn fióra vetur, en klaustrit brotit. Sveinarnir komust útan med Martteo skipara, enn hyrdstiórarnir giördust miöc óvinsælir Hannes oc Balthazar; þeir vóru teknir af Enskum vid Vestmanneyar um sumarit oc fluttir til Englands; hörmudu fáir þat, kom Balthazar þó snöggvast út híngat aptr oc var samþycktur til hyrdstióra, en fór þá þegar aptr alfarinn; var þá hyrdstióralaust, oc biskupslaust, enn Enskir drápu marga kóngsmenn útlendska oc svo Islendínga, oc hertóku marga, oc giördu mörg spillvirki, hèt sá Jón Persy er einna mestr víkingr var; ekki gagnadist mönnum þá fiskiveidi nè kaupskapur, því þeir spilltu veidarfærum oc vörum, oc giördu landsmönnum nálega allt þat illt er þeir máttu.

## XV. Kap. Biskupa scipti, oc tilburdir fleyri.

Svo er sagt at Jón Jónsson hafi heitid biskup oc verid enskr, er vígdur hafi verit til Hóla, oc komit út hit fyrra sumarit í Hafn-

arfyrdi, ridit sídan til alþíngis oc þadann í Skálholt, því at Nordlendíngar vildu ei taka vid honum, vígt þar fióra presta oc nockra diákna oc farit svo utan, en þat þykir vitrum mönnum sannligra at hann hafi setit á Hólum þennann vetr, en hverki súngit biskupsmessu nè veitslu haldit, fyrir því at um sumarit hefur hann brèf giört vid Svein Haldórsson um reiknínga Rípur kyrkiu, en
1426 annat sumar bió hann sig til utanferdar, oc hyggia menn hann sett hafi Jón, ábóta úr Þykkvabœ, fyrir officialisstarf á Hólum, því hann hefur samit skilmála med Þórunni Ormsdóttr príórissu oc Biörgólfi presti Illhugasyni. Hin sömu missíri lèt Rafn lögmadr Gudmundarson gánga tólf manna dóm, fimtudaginn fyrir allra Heilagra messu, at Þorkèlshvoli í Vídidal, um jardamál milli Jóns Jónssonar oc Arnbiarnar Einarssonar, um Saudá hálfa, Adalból, Bessastadi, Oddstadi, Bálkastadi oc Vídimyri í Skagafyrdi, voru fyrstir dómsmanna Lafrants Hávardsson oc Eyólfur Lodinsson, en þat sumar er þar vard nærst, ber flestum samann um,
1427 at Jón biskup hafi út komit med Enskum oc Nordlendíngar enn eigi tekit hönum blídliga, hafi hann svo hvorfit til Skálholts, oc þadan farit utan, en sett ádr Jón prest Pálsson fyrir Officialem, þá hyggia þó sumir hann hafi súngid fyrst biskupsmessu, oc sett biskupsveitslu, hinn áttunda dag Septembris á burdardegi Mariu, en svo er ólióst um þær tídir, at hinir vitrustu menn oc fródustu hafa náliga ekkerrt mátt finna med röksemdum. Þat vita menn at Þorsteinn Olafsson hafdi þá hyrdstiórn oc syslur fyrir nordan oc vestan, oc dæmdi at Hvammi í Hvamsveit um Asgeir Arnason oc Jón son hans, hyggia menn Þorsteinn hafi búit á Ökrum því hann var fadir Akra-Kristinar, oc eigi gamall madr er hèr var komit, oc því hef eg þess tilgètid at Olafr son Biarnar Brynjólfssonar er Akra átti, hafi verid fadir hans; má þar hvör af hafa sem vill. Vígfús Ivarson hyggia menn hyrdstiórn fyrir sunnan haft hafa, en ei veit eg rök fyrir því. Þat vita menn oc, at þessi missiri dæmdi Rafn lögmadr Gudmundarson um arfatökur, oc at Illhugi Biörgólfsson gaf med sèr í Proventu jörd á Ibishóli, fyrir fiörutyiu hundrud, til Reynistadar, systr Þórunni Ormsdóttur, oc Þorsteinn Einarsson med sèr Skálá í Slèttuhlíd Brandi bónda Haldórssyni á Bardi; sá Brandr átti Rögnu Rafnsdóttr, en eg veit ógiörla víst, hvert fadir hennar var Rafn Brandson, er fyrr var lögmadr, edr Rafn Gudmundarson edr nokkr annar madr. Arit

nærsta er ei annara tídinda gètid, en at Jón prestr Pálsson var 1428
Officialis fyrir nordan, oc deydi Biarni Andrèsson âbóti í Videy, þá var giör tólf manna dómr vid Vallalaug, er Rafn lögmadr Gudmundarson samþyckti; þar dæmdust börnum Einars Hallssonar Silfrastadir í Blönduhlíd, giördist oc giörníngr um jardaskipti í Skagafyrdi milli Þórdar bónda Þorsteinssonar oc Gunnlaugs bónda Gudmundarsonar, oc at Þórólfr bóndi Þrándarson seldi Flatatúnga Kristinu Biarnadóttr fyrir Bægisá hina sydri í Yxnadal, einninn at Sveinn Biarnarson oc Gudmundur Þorláksson, sem áttu vegna qvenna sinna at giöra upp kyrkiu í Vididalstúngu, hètu at eins at leggia til Ornamentum sem kyrkian átti ádur hún brann, en handlögdu hústrú Kristinu Biarnardóttr í Vatnsfyrdi jardirnar Vatnshorn oc Gauksmyri í Línakradal, fyrir því hún tókst á hendr at láta byggia kyrkiuna, voru þar vottar at Arni Einarson oc Gudni son Odds Lepps, oc en fleyri. Eptir um vetrinn, nóttina nærstu 1429
eptir laugardagin fyrsta í Þorra, brann kyrkian oc klaustrit allt á Múnkaþverá, um midnætti, á halfri eykt, oc allt þat fè sem í var kyrkiunni oc klaustrinu, oc tveir klerkar til ólífis oc bródir Þorgeir hinn þridje svo miöc, at enginn hugdi annat, en hann mundi fá skiótan bana, lá hann allann vetrin fram til páska, oc vard aldrei samr til líkamansburda sem hann var ádr. Þann vetr þridiudaginn í páska víku, dæmdi Jón prestr Pálsson officialis at Hólum, um barneignir Brynjólfs Egilssonar oc Margrètar Sigurdardóttir, var þat hin fimta barneign þeirra; þá fór Vígfús hyrdstióri Ivarson utan, oc fór fram vitnisburdr at Gördum á Akranesi, um þat er hann hefdi mælt vid Gudrídi konu sína, at Gudrún Sæmundardóttir frændkona hans ætti inni hiá þeim Hof oc Brantarholt oc en meira fè; en sumstadar segir, at hann hafi þá giörst hyrdstióri yfir land allt, höfdu þeir frændr miöc lengi haft hèr völd, oc er ærid vant at greina þá hvern frá ödrum, en þat hygg eg at þessi Vígfús, væri fadir Ivars oc Margrètar. Jón biskup Jónsson kom þá enn út til Hóla, er mælt frá Englandi kæmi, reid hann litlu sídar vestr at Helgafelli oc hreinsadi þar kyrkiu, sakir þess áfellis er fyrr er gètid at hún hlyti; sidann hreinsadi hann kyrkiugard í Reykholti, hafdi þar oc víg ordid; hann vígdi oc bródir Niál til ábóta til Helgafells, en Þorgeir til Þverár, er brunnid hafdi um vetrinn, hafdi hann ádr haft forrád klaustrsins er þat brann oc þótti öllum þat ei misrádit, at hann yrdi þar

ábóti, hann stadfesti oc giöf biskupa til Reynistadar klaustrs, Jörundar, Audunnar oc Jóns, systrunum til eflíngar; sídan er hans eigi gètit, oc ætla menn hann hafi þá þegar utan farid, oc dáit eda látid af biskupsdómi; var þá sigling mikil milli Englands oc hèr, oc kom þá híngad til Hóla hit sama sumar, at því sem mælt er, Jón biskup Vilhiálmsson; hönum afhendti Jón prestr Pálsson Officialis dæmi, oc tók þar fyrir fulla qvittan at hann hafdi því starfi vel af lokit, veitti Jón biskup Miklabæar stad Steinþóri nockrum, fyrir milligaungu Lopts ins ríka, oc skèdi þat fyrir Jacobsmessu, má því vera at þessi Jón biskup sè heldr enn hinn fyrri, sem stadfesti giöfina til Reynistadar, en hvört Steindór þessi hefr verid fadir Sigmundar prests er sídar hèldt Miklabæ, edr annar madr veit eg ógiörla. Glæsibæ veitti Jón biskup Vilhiálmsson Jóni smid Gudmundarsyni á Thómasvöku.

## XVI. Kap. Frá Lopti oc börnum hans.

Loptr bóndi Guttormsson hinn ríki bió í þann tíma á Mödruvöllum í Eyafyrdi, oc voru börn hans miöc frumvaxta; hann hèldt miöc ríkt vid Kristinu Oddsdóttir, oc voru þeirra synir Olafur, Ormr, Skúli oc Sumarlidi; Loptr var þó í vináttu vid Jón biskup
1430 Vilhiálmsson, oc veitti biskup hönum Sandanesstad úm þriú ár, en Laufás Helga Biarnasyni, fyrir bón Lopts oc Ingibiargar konu hans. Loptr orkti Háttalykil hinn dyra til Kristinar; þat skèdi nær þessum tídum, at Illhugi sá er fyrr var gètid, kom at Skardi med födr sínum, er Loptr var þar; var madr svo þroskadur oc mannadr vel, at hann var þiónustumadr Lopts oc komst í kiærleika vid Olöfu dóttr hans, á æsku árum hennar, áttu þau fyrst döttur er Astrídr hèt, enn ekki mátti hún kalla Olöfu módr sína, oc lèt hún hana frá sèr veatt, sídan son er hèt Sigvaldi, hún eignadi hann þiönustu meyu sinni, enn þó vóx hann upp med henni; en laungu sídar er Oluf var at kyrkiu, oc gèkk til skripta inn í kórinn, fyrir prest, lagdi hún af á medann, eptir veniu, skart sitt oc qvennsilfur, á kistu eda stock fram í kyrkiunni, var Illhugi, med ödrum sveinum hennar, þar nálægur, oc skodudu skartit oc silfrit til gamans sér, þá mælti hann ófyrirsynia: *Pilltar! ætli þèr ecki hann sè mikilsháttar sem á yfyrir fylgikonu hana þá þarna;*

þat ord fór lengra en hann vardi, svo hann rèd af at forda sèr oc flya; en sveinar Olufar spurdu hvert ei skyldi fara eptir hönum oc taka hann; hún qvad lítilmannlegt at elltá einn einstædíngsmann, oc vard ei af eptirförinni. Olöf var væn kona oc stórmannlig; hennar fèkk Biörn sonr Þorleifs Arnasonar oc Vatnsfiardar Kristinar, því at þeir brædr voru þá miöc á legg komnir oc voru þeir ættmenn hverutveggi þá ríkastir á landi hèr, en þat sá Oluf seinast til at sem minstar færi sögur af Sigvalda, at hún lèt hönum hlída at taka í brott þiónustu mey sína eina hellstu nákomna Birni, er sumir segia oc at væri laundóttir hans, oc lèt enga eptirför veita hönum, fór hann austr á Sídu, oc jók þar ætt sína sem seinna ségir; hann var mikill madr vexti oc sterkur, hverium manni hærri, ofrhugi í skapi, oc húsa-smidr mikill, var hann kalladur Sigvaldi Lángalíf.

## XVII. Kap. Frá Jóni biskupi.

Eigi var þat lengi ádur þeir ósættust Jón biskup Vilhiálmsson oc Jón prestr Pálsson, oc lysti Jón biskup því yfir kyrkiu í Hólum, at Jón prestr Pálsson hefdi ei viliat koma á sinn fund eptir bodam sinni edr sèr hlídni syna, fyrir þann hugmód er hann hefdi sèr veitt, þá hann kom á prestasteínu biskups med þriátyu menn alvopnada oc tyada sèr til mótþróa; gaf biskup hönum enn siö daga frest til fundar vid sic, enn ef hann kèmr þá ei, skuli hann vissulega bannfærast, fór þat fram oc var Jón prestr bannfærdur, tók þá biskup Grenjadarstad af honum oc veitti Þórkèli presti Gudbiartssyni, því hann lèt tuttugu oc fióra hina bestu menn vitna at Hóla biskupar hefdi ætíd rádit Grenjadarstad oc veitt hann, ádr Jón prestr Pálsson kom út med erkibiskupsbréf fyrir hönum; voru þeir hellstir af Klerkum Asbiörn áboti á Þíngeyrum, Þorgils áboti á Múnkaþverá, Jón prestr Biarnason oc Ari prestr Þorbiarnarson, en af leikmönnum Rafn lögmadur Gudmundarson, Loptr Guttormsson, Arnfinnur Þorsteinsson, hann skipadi oc Hólakyrkiu til eignar Valþiófstadi oc Arnarstadi í Gnúpasveit, er Jón prestr Pálsson hafdi lúkt í sakferli sitt, en tekit vid ádr af Jóni presti Biarnasyni rádsmanni í biskups tyunder; baud hann Þorkèli presti Gudbiartssyni, at taka at sèr þriár ádrnefndar jardir Jóns prests þar nyrdra, oc adra hans peninga, þar til er Grenjadarstadr hefdi

fullt, eptir því sem Þorkèll prestr kærdi at stadinn vantadi; þar med skyldi takast eignir Jóns prests hvar sem þær nædist med því hann væri í banni, eptir þat sættist Jón prestr vid biskup oc borgadi hönum nokkud. Þá gaf Jón biskup qvittann Helga Benedictsson um nyu merka sekt, oc þat brot er hann ófyrirsyniu hafdi í ratad, fyrir þat mannslag er hann vard at skada Þórdi Gislasyni, eptir fornum rètti um þau mál; hann veitti oc Jóni presti Biarnasyni, er fyrr var officialis, stadinn á Mödruvöllum í Hörgárdal, med öllum eignum hans, frídum oc ófrídum um þriú ár oc eigi Jón prestr allan ávöxt þaraf oc hálfann reka enn geymi hálfann Hólakyrkiu; hann skyldi oc leggia í leigu hvert ár tyu kúgyldi, fæda prest oc diákna, oc fæda oc klæda tvo brædur en halda vid klaustrinu. Þá framfór oc úrskurdur Ara prests Þorbiarnarsonar officialis ímillum Jóns biskups oc Finnboga Jónssonar Gamla í Asi í Kèlduhverfi, um biskups gistíngu oc kostnad þar. Enn var þat mánadaginn fyrir Pètursmessu at Hólum at giört var brèf Þorkèls prests Gudbiartssonar, segir hann sig þar í sagt hafa fyrir handabandi Jóns biskups oc Oláfs Eyúlfssonar, at biskup seldi Olafi þann hluta í Höfdahverfi er Hólakyrkia átti, þriátyu hundrud, fyrir Hèdinshöfda á Tiörnesi, en adra þriá hluti XC hundrud segist Þorkèll prestr heyrt hafa af sèr eldri mönnum at reiknadist Beneficium oc hafi tveir prestar haldit, Gudmundr prestr Kón oc Oddr prestr Rafnsson, en hafi leigt Hóla stadar part fyrir þriú hundrud. Þau missiri vígdist Gudrún Haldórsdóttir abbadys til kyrkiubæar oc deydi aptur, kom önnur Gudrún eptir hana. Þá segia menn at gengid hafi bólnasott mikil oc haldist nockur missiri, oc dáit nær átta þúsundum alls.

## XVIII. Kap. Utkoma Jóns Gerríkssonar.

Þá hafdi fyrir skömmu verid sá erkibiskup í Uppsölum í Svíþiód er Jón Gerriksson hèt; hafdi Eyríkur konúngr af Pommern þraungvad hönum þar inn, á móti vilia Capitulans oc landslögum at því er sænskar sögur greina; þóttust þeir hafa frelsi til at kiósa sèr erkibiskup siálfir; er þat svo enn sagt af þeim, at Jón hafi í þeirri tign hagad sèr illmannlega oc órádvandlega, oc dregit undir sic med svikum oc stolid frá erkistólnum oc kyrkiunum þar,

meirum peníngum enn tuttugu þúsundum dúcata, oc verid sídann þadann útrekinn, oc miöc illa hafa Svíar af hönum sagt; en fyrir því at Eyríkr kóngr þrengdi hönum þarinn, oc tók svari hans mót ákiærum þeirra Svíanna, var þat ein hin helsta sök til þess at þeir fèllu frá konúngi; vildi þá kóngur skióta hönum undann þeirra áburdi, oc fyrir þá sök segia menn hann kæmi honum út híngad, er biskupslaust var í Skálholti, en frædibækr vorar segia svo: at hann hafi farid til Englands, oc verit þar um vetur þann er næst afleid oc um gètid var, en á fimtudaginn í páskavíku hafi dáid Einar prestr Hauksson, er rádsmadr hafdi verit í Skálholti, hálft átjánda ár samfleytt; þar um segir svo Annálsritarinn: eigi hefur hèr í landi á vorum dögum vinsælli madur verit, oc almenníngi meir harmdaudi, en sá Síra Einar; hèldu þar til margir hlutir, þó hèr sèu eigi greindir, því vandt er at lofa mann í hendr Kristó; var þá heilög Skálholts kyrkia í þvílíkum hörmum og sútum, sem aldrei vissum vær fyrir verit hafa; fyrst biskupslaust, þá Officialis gamall oc blindur, en misti rádsmanninn, þann henni var bædi haldqvæmr oc hollur. Um sumarit kom út Jón Gerrichsson Skálholts biskup á skipi sínu í Hafnarfyrdi, midvikudagin nærsta fyrir Jónsmessu Baptistæ frá Englandi, fylgdu honum margir sveinar sem lètust vera Danskir, segist Annálsritarinn hlífast vid margt um þá at ræda, en flestir hafi þeir verit landinu til lítillrar nytsemi. Svo segia enn adrir er þar um hafa skrád, at þeir hafi verit þriátyu, oc Irskir, enn svo ódælir oc illir, at biskup rèdi litlu oc stundum engu vid þá, vard hann af því óvinsæll, enn þeir hatadir af mönnum. Med Jóni biskupi komu oc út prestar tveir Mattheus oc Niculaus, fór Niculaus aptur hid sama sumar til Englands af biskups hendi, med margar lestir fiska, því at honum var audaflat skreidarinnar oc annara hluta; var landsfólkit heldur brád-blídt vid biskup þennann. Visiteradi hann á því sumri Krosskyrkiu í Landeyum, er oc þess gètid, at hann hafi nokrar kyrkiur visiterad á hinum nærstu missirum. 1431

## XIX. Kap. Frá Jóni biskupi Vilhiálmssyni.

Þá bió at Skridu í Þíngeyarþíngi Rafn lögmadr Gudmundarsson, hann var rèttdæmur oc einardr, oc hafdi syslu fyrir nordann,

þar kom vogrek nockurt á land, fè af skipi, oc sídann skipbrotid oc nockrir menn, á Hardbak á Slèttu, jörd, Hólakyrkiu, þóttist Jón biskup Vilhiálmsson eiga bædi skip oc fè, oc dæmdi hverutveggia sèr oc Hóla kyrkiu, enn Rafn dæmdi á móti, eptir lögbók um vogrek; sendi biskup honum þá brèf þyckiu-mikit oc hèt honum banni, oc öllum, er þann dóm hefdi med honum gengid, nema þeir leidrètti málid, hèt oc at láta brenna skipsbrotid, ef hann nædi ei sínu máli. Rafn lögmadr vildi ei at láta, oc bannfærdi biskup hann þá. Jón biskup stefndi oc Þorkèli presti Gudbiartssyni um skip þetta oc fè, at hann hefdi keypt helming þess til handa siálfum sèr, en ei haldid því undir biskupinn oc Hóla kyrkiu oc um en fleyri sakir, þar sem hann hefdi þó verid rádsmadur Hólastadar. A pálma-sunnudag var giört oc innsiglad á Hólum, brèf Jóns biskups Vilhiálmssonar, um próventugiöf Sveins Hallvardssonar, gaf hann biskupinum oc Hólastad med sèr allt þat hann átti í eignar-hlutanúm í Ríp í Helgranesi, er hann hafdi ádr keypt af Arna Skálholts-biskupi þá hann hafdi umbod Hóla kyrkiu; enn fyrir því at Jóni biskupi þóttu þeir peníngar oflitlir, fyrir hans æfinligu framfæri, þá hèt Sveinn, biskupi oc stadnum, þiónustu sinni um tyu ár, en at þeim lidnum skyldi hann vera qvittr oc ákærulaus fyrir biskupi oc öllum hans eptirkomendum um þá Próventu peninga; skyldi hann hafa þau sömu hús í stadnum, er Astrídur kona hans hafdi haft, sú er gaf Vallholt med sèr í proventu oc fyrr segir oc leysti Sveinn þiónustuna vel af hendi, en mánadaginn nærstann fyrir sumar, gaf Þorlákur Sigurdarson upp, med samþycki Gudmundar diákna, sonar síns, allt þat tilkall, sem hann kunni at hafa til þess hluta í Ríp, er módur-systir Gudmundar, Astrídr Jörúndardóttir hafdi gèfid honum ádr, því at Jón biskup Vilhiálmsson hafdi lókit þeim fulla peninga fyrir hann. Ari prestur Þorbiarnarson Officialis, dæmdi um kyrkiutyundar hald oc presttyund, er Þorgils ábóti frá Múnkaþverá kærdi til Stepháns Hallssonar. Jón biskup Vilhiálmsson keypti þá skip med fiórum atkèrum, af Vilhiálmi Bæll oc Játmundi Smid, enskum mönnum, fyrir tólf lestir skreidar, skyldu þeir þó meiga sigla því til Englands, en þat vera eign Hóla kyrkiu, voru kaupvottar Jón Einarsson, profastur í Skagafyrdi oc Sigurdr prestur Jónsson, á krossmessu um haust. Þá seldi Stephán Gunnarsson, Arna Einarssyni hálfa Dálkstadi, en Gamli bóndi Marteinsson, Helga bónda Biarnasyni, jörd at Liósavatni. Jón biskup gaf

Sveinbyrni diákn Þórdarsyni þá oc umbod sitt í Þíngeyar þíngi, til at veita stadi oc annat, hefur þó þá Sveinbiörn allúngr verit. Gudni son Odds Lepps misti Þorbiargar konu sinnar, systr Rafns lögmans oc Ara á Reykhólum, Gudmundardóttr, med voveifligum dauda oc skiótum atburdi, giördi hann þá testamentum í Ögri oc gaf fyrir sál hennar mikit fè til Ögurs kyrkiu, Gudmundar hins góda, oc fleyri stada. Gudni bió at Hóli í Bolúngarvík, oc þar var Oddr fadir hans grafinn. Gudni átti þriár dætur, Sæun var ein, hún átti 1 hundrad hundrada í Bolúngarvík oc seldi Vatnsfyrdíngum, fyrir jardir í Skagafyrdi; sídari madr hennar var Bessi Einarsson, þeirra dóttir Þorbiörg átti Dada Arason, Dadasonar Dalaskalla, hún var módir Þórunnar, módr Dada í Snókadal. Kristin hèt önnr dóttr Gudna, hennar fèkk Jón son Asgeirs Arnasonar, þeirra synir voru Gudni í Ögri oc Páll á Skardi, oc Sigurdr prestr Beigaldi í Hytardal. Snælaug hèt hin þridia dóttir Gudna, hún átti Eyúlf riddara son Arnfins Þorsteinssonar, þeirra börn: Gudni, Þorbiörg, Kristin er átti Magnús son Þorkèls prests Gudbiartssonar oc Margrèt er átti Rafn son Brands Haldorssonar er lögsögn hafdi sídar, er frá þeim ætt öllum; er þat kallad stóra ætt sem komid er frá Gudna Oddssyni.

## XX. Kap. Fiárafli Jóns biskups Vilhiálmssonar.

Föstudaginn í fardögum hinum nærstu, dæmdi Jón biskup Vil- 1432
hiálmsson at Saurbæ í Eyafyrdi um Ara prest Þorbiarnarson, at þau sextyu hundrud er Ari prestr hafdi handabandad Jóni presti Pálssyni, at lúka Hóla kyrkiu, þá þeir sættust á mál sín, skyldu lúkast af peníngum Ara prests í Saurbæ, innann siöundar, biskupinum edr hans umbodsmanni í hönd; en qvittan sú, er Niculás Officialis hafdi gèfid Ara presti, skyldi ekkert afl hafa, því Niculás hefdi enga borgun fram koma látid, eptir lofordi; því framar kærdi biskup á Ara prest forsómun oc vanrækt á Officialisstarfi, er hann hefdi honum veitt um tvö ár, oc enganu reikníng fyrir giört, oc ei komit eptir bodan sinni; þessar ákærur settu dómsmenn undir siálfs hans úrskurd, oc dæmdi hann hundrad hundrada af fè Ara prests til handa sèr oc Hóla kyrkiu, oc umbodsmann Ara prests

skyldugan þat at afkenda, hóf hann á þann hátt biskupa þeirra, at um sè gètid hèr í landi, at vera sóknari oc vættisberari oc dómandi sakar siálfur. Þá gaf Jón biskup qvittun um barneignarbrot systur Þurídi Haldorsdóttur; hann lèt oc dæma Hóla kyrkiu jördina Kèlduland, er Ingirídr Bödvarsdóttir í Fornhaga hafdi gèfit henni plágu árit, voru dómsmenn Jón Biarnason, Sigurdr Jónsson, Bergþór Haldórsson, oc en adrir nyu. Þá afkendti oc velborinn kona Margrèt Eyríksdóttir, ekkia Benedicts Brynjúlfssonar, ásamt Magnúsi Benedictsyni syni þeirra, Jóni biskupi oc Hóla kyrkiu, jördina Siáfarborg; vitnadi Magnús Einarsson diákn, Oddr Asmundarson oc en fleyri; var þessi Margrèt dottr Eyríks ríka Magnússonar á Svalbardi, módur-systir Lopts Guttormssonar. Einar Kètilsson hèt madr er, fèkk Jóni biskupi Stafshól á Höfdaströnd. Biskup tók oc Margrètu Biarnadóttr inní Reynistadar klaustr med sextyu hundrudum, at hún væri þar systir. Þorkèll prestr Gudbiartsson handabandadi enn Jóni biskupi í timburstofunni á Hólum, jörd at Hólum í Laxárdal í umbodi húsfrúr Margrètar Biarnadóttr, því Rafn lögmadr Gudmundarson, bóndi hennar, hafdi þá andast oc gaf hún jördina í testamentum fyrir sál hans, enn biskup hèt at láta syngia þriátyu sálumessur fyrir sál hans, innann nærstu fardaga í dómkyrkiunni, oc tvær sálumessr skyldi syngia hvör prestur oc bródir í hans biskupsdæmi, gaf hann svo qvitta sálu oc líkama Rafns af giördu forbodi er fyrr er umgètid. Þá gaf enn Illhugi Biörgólfsson Jóni biskupi oc Hóla kyrkiu þriá hluti í jördinni Hóli á Skaga, fyrir ecki annat en umbun af Gudi oc jómfrú Mariu. Þá framfór oc vitnisburdr Jons ábóta í Þyckvabæ, Höskuldar Runúlfssonar, Arna Einarssonar, oc fleyri manna um þat, at Loptr bóndi Guttormsson, hefdi gèfid fiórdúngsgiöf Sumarlida syni sínum III hundrud hundrada, en erfingiar Lopts Þorvardr oc Oluf samþyckt. Þorsteinn Olafsson á Ökrum var þá lögmadr sunnann oc austann. Jón biskup vígdi þá átta systr í klaustr at Stad í Reyninesi. Mælt er at þá hafi Loptr bóndi Guttormsson haft rádsmensku Hólastadar heima oc á útbúum stadarins um Fliót oc Skaga, oc hafi Jón biskup Vilhiálmsson qvittad hann fyrir, en Loptur skyldi leggia tyu hundrud fyrir kostnad er menn hans höfdu giört, oc þar med skipsbrot er rekid hafdi hit fyrra haustid. Ecki gaf Jón biskup qvitta erfingia Rafns lögmans Gudmundarsonar um fèsektir fyrir brot hans vid Hóla kyrkiu, en þann giörníng er

hann giördi vid þá vottadi Sigurdr prestr Jónsson, Sveinbiörn prestr Þórdarson, dóttrson Finnboga hins Gamla í Asi, oc Jón prestr Gamlason.

## XXI. Kap. Sætt Jóns biskups Gerrikssonar oc Gunnars.

Þau missiri sættust þeir Jón biskup Gerriksson oc Gunnar bóndi Biarnason med þeim hætti at Gunnar tók til sín jardirnar Krók, Hárekstadi, Kleppstyu oc Desey hálfa, fyrir fè kyrkiunnar í Hvammi í Nordrárdal, oc gèck í borgun at giöra kyrkiuna sæmiliga standandi, oc lúka henni í lausafè alla hennar penínga, eptir því sem hún átti at fornu, oc sem voru á dögum Vilchins biskups, tyu kyr, fimtán ásaudar kúgildi, IV hundrud í hrossum oc LXVII hundrud í vöru, oc voru fyrir þaù fè tèdar jardir settar í pant; en fyrir því at þat heiterd var ecki efnt af Gunnari, oc hans eptirkomendum, þá eignadist Hvamms kyrkia jardir þessar oc eru þær innfærdar í máldaga þann er giör var á dögum Magnúsar biskups Eyúlfssonar.

## XXII. Kap. Afgángr Jóns biskups Gerrikssonar.

Þá er Jón biskup Gerriksson reid um land, giördu sveinar hans mörgum mönnum óspektir oc meingiördir, tóku suma til fánga oc fórtu óvyrduliga med ríka menn oc velborna, fyrir litlar tilgiördir eda grunsemdir, eda ef þeir þoldu þeim ecki óspektir oc yfirgáng edr þi þeir komu ei fram vilia sínum oc spellvyrkium er þeir ásett höfdu. Teitur Gunnlaugsson bió þá í Biarnanesi í Hornafyrdi, er kalladr var hinn Ríki, hann vard hellst fyrir ágángi þeirra, oc annar madr Þorvardr son Lopts ins ríka à Mödruvöllum, hinn göfugasti madr oc mikilhæfur, oc voru ei adrir meiri háttar menn þá hèr innlendir, ekki er þat greint fyrir hveriar sakir á þá var leytad, adrar en þær at þeir þoldu illa ofsa biskups sveina, oc rán á peníngum sínum oc sæmdum; voru þeir Þorvardr oc Teitur handteknir bádir oc fluttir í Skálholt oc settir í járn oc myrkvastofu, hafdir til at beria þar fisk oc giöra önnr audvirdiligustu verk med spotti oc brixlyrdum. Um haustid slapp Þorvardr úr vardhaldinu, oc er eigi gètid med hverum atburdum, en Teitr

1433 sat allann vetrinn fram til páska; var þá giör veitsla í Skálholti. Tveir stadar menn voru fengnir til at geyma Teits, oc urdu þeir drucknir oc allir adrir, svo þeir tyndu lyklunum at fiötrunum; kona ein á stadnum fann þá oc færdi Teiti, slapp hann vid þad um nóttina, oc tók hana med sèr, oc komst undan austr í Hornafiörd, sídann gaf hann henni XX hundrada jörd, oc gipti ríkum manni; eptir þat sendu þeir Þorvardr brèf oc bod í milli sín, oc mæltu mót med sèr til at hefna slíkrar smánar oc ofbeldis. Nockru fyrri hafdi Magnús kæmeystari í Skálholti, fyrirlidi biskups sveina, er sumir kölludu launson biskups, bedid Margrètar dóttr Vígfúsar Hólms er lengi var hèr hyrdstióri, oc var honum synjad rádahagsins. Þat gramdist Magnúsi miöc, oc safnadi at sèr lidi af biskupssveinum oc ödrum lausíngium, fóru þeir sudr at Kyrkiubóli á Midnesi, oc ætludu at brenna Margrètu inni; var Júngherra Ivar Hólmr bródir hennar þar fyrir oc skutu þeir hann til bana, oc kveiktu sídann í bænum, fèck Margrèt med skiærum sínum grafid sèr holu, gègnum ónshúsid á badstofunni, oc komist út úr eldinum, reid hún þadann í brott þrèvetru trippi, oc nordur í Eyafiörd, oc hèt at giptast þeim einum er hug hefdi til oc vilia, at hefna bródr síns, oc fiörráda vid sic; er þat frá Magnúsi at segia, at hann beid ekki oc fór utan þegar um sumarid, oc kom aldrei út aptur; en Þorvardr Loptsson giördist til at leysa heit Margrètar, oc reka rèttar, bædi sín oc hennar, med mannhefndum. Þeir Þorvardr oc Teitr kvádu þat á at þeir mundu hittast med flocka sína í Skálholti á Þorláksmessu um sumarid, vissu þeir þá at Jón biskup mundi heima vera, því at á messudag hins heilaga Þorláks var hid mesta helgihald í Skálholti, oc safnadist þá hid mesti fiölmenni þángad. Dró Þorvardr menn samann um Eyafiörd, hrausta oc árædna, var þar fyrirlidi med honum Arni bóndi Magnússon í Dal í Eyafyrdi er Dalskeggur var kalladur (hann hygg ec væri sonr þess Magnúsar er deildi vid Biörn Jórsalafara um Dalsskóg) ridu þeir nordanmenn sudur fiöll, svo ei kom niósn fyrir þeim, komu þeir í Skálholt um nóttina fyrir messudaginn, oc settu tiöld sín utar frá ödrum tiöldum; var svo margt fiölmenni fyrir at ei vard vart vid hverir þeir voru. Teitr oc hans flockur kom at austann á Skálholtshamar öndverdan messudaginn; er þá mælt at Hvítá væri fyrst ridinn á Þengilseyri, enn er biskup spurdi komu Teits, mælti hann at þetta gyldti líf sitt oc sinna

manna, gèkk hann til kyrkiu med öllum klerkum sínum oc sveinum, oc lèt læsa öllum dyrum á kyrkiunni oc stadnum; sídann skríddist biskup oc allir klerkar hans, hvör sínum skrúda, hóf upp messu oc tók í hönd sèr kaleik oc patínu, helgadi oblátu eina oc hèldt á, oc hugdi verda mundi sèr at hlífskyldi, stód hann svo vid altarid oc kènnidómr hans allr oc klerkar í kríngum hann; en er Teitr kom heim med flockinn gáfu nordlendíngar sic í liós, oc fóru svo til kyrkiunnar med vopnad lid hveritveggi, báru þeir stórtrè oc vidu at kyrkiunni, oc komu þeim innundir undirstockana, undu sídann upp svo at hún halladist, greiddu þá inngaunguna nær fimmtyiu. þeir er öruggastir voru, oc var Dalskeggr fyrir þeim, oc er hann sá biskup alskríddann oc presta hans mælti hann: *nú er ecki lítid um dyrdir*; sídann gengu þeir snúdugt innad altarinu, þar biskup stód, oc hèldt á oblátunni, lögdu á hann hendur oc leiddu eda drógu heldur hardfengilliga utar eptir kórnum, prestarnir hèldu honum sem þeir máttu, en þat kom fyrir lítid, sem von var, þar til þeir komu í midia framkyrkiu; þar fèll nidr oblátann, löfdu þö klerkarnir á honum fram í stöpulinn, þar sleppiu þeir oc forðudu sèr innar í kyrkiuna, er þat ecki í sagnir fært, þó þeir hafi fengid nockrar skráveifur; en kyrkiuprestrinn skreid þángad sem oblátan lá á gólfinu, tók hana upp med munninum oc bergdi henni; þar í þeim stad var Jón biskup jardadr sídann, oc þóttust menn, þá er Skálholts kyrkia brann nyutyu oc þrem vetrum seinna, finna nockurn vótt líkkistu hans. Þá er biskup var kominn fram í Stöpulinn, var hann mióc mæddr oc dasadur af stími þessu, oc baud smásveini sínum, at sækia sèr gódan svala dryck inní kiallara sinn, giördi hann þat oc kom þegar aptur med silfurskál mikla fulla miadar, bidu hinir á medann, oc gáfu honum tóm til at svala sèr, oc drecka hana til botns, hyggia menn at þeir hafi fært hann úr biskupsskrúdanum; sídann fór hann med þeim til tialda þeirra oc beiddi sèr lífs, enn fèck ekki. Sveina hans drápu þeir hvar sem þeir nádu oc jafnvel í kyrkiunni eda skutu þá ofann af skammbitunum med bogum eda spiótum, oc dysiudu sídann þar sem kallat er Iragèrdi fyrir vestann Brekkutún; þótti þar lengi reymt eptir, en med Jón biskup fóru þeir útad Brúará, lètu hann í seck, oc bundu stein vid, oc drekktu honum í ánni vid feriustadinn hiá Spóastödum, rak hann sídann upp aptur vid Ullarklett nidur hiá hömrum, oc

var jardadur í Skálholts kyrkiu; voru tveir helst til nefndir er mest gengu fyrir því verki í aftöku biskups oc lètu hann í pokann, oc drektu honum, hètu þeir Jón oc Olafur er mælt þeir yrdu bádir haminngiulausir oc skammlífir, eru þeir nefndir í hendíngum þessum er þar um eru qvednar:

O'áfur illi
Biskupa spillir
Þó giördi Jón verra
Hann sá ráð fyrir herra.

Jón hafdi varpad biskupi í ána, enn þá var svo mikil trú á helgidómi biskupa, at seint mundu þeir svo breytt hafa, at alþídu hefdi þótt þeim rètt kiörinn daudi, med svo miklu stórrædi sem þetta var framid á allan hátt, því þat er satt ad segia, at jafnmikit hefir ekkert verid frádist af landsmönnum hèr, med eindæmi sitt, þegar þess er gætt hve mikill áttrúnadr þá var hafdr á öllu samann, biskupinum er líflátinn var, messunni er vanvyrdt var, hátídardeginum, er mestur þótti náliga allra hátída, er hafdur var til stórræda, oc dómkyrkiunni er brotinn var. Sögdu menn þat um Jón, at þá er hann dó, þoldi hann ecki í jördu oc gèkk aptur, var hann þá grafinn upp oc var med öllu ófúinn, sidann var bundinn steinn vid háls hönum, oc sökkt nidur í stöduvatn eitt er í var silúngsveidi, en um morgunin fannst fiskrinn allr daudr rekinn upp úr vatninu, vard oc ekki vart vid Jón sídann. Hafdi Jón Gerriksson verid biskup nær fiórum vetrum; hafa menn ekki heyrt at nockur hefnd hafi komit fyrir slíkt stórvyrki, oc gengu margir hlutir þá til andsælis í landi hèr, einkum á hinum sídari árum Eyríks kóngs af Pommern, enda var þat oc at vonum, því at konúngrinn misti ríkin oc stiórn var enginn, var oc hinn mesti yfirgángur enskra manna út hèr oc höfdu þeir barist vid Þorleif Arnason í hafi, er hann var í förum.

## XXIII. Kap. Giftíng barna Lopts.

Eptir þetta fèck Þorvardr Loptsson Margrètar Vígfúsdóttr, voru dætur þeirra Gudrídr, Ingibiörg oc Ragnhildur, er sídar verdr gètid; en Teitur hinn ríki bió lengi í Biarnanesi, var hans dóttir Kristín er Þorleifr átti son Arna Þorleifssonar Arnasonar, var þeirra son Teitr í Glaumbæ, en launsonr Teits í Biarnanesi hèt Gunnlaugr. Þau missiri segir sumstadar at Solveig Þorsteins-

dóttir lögmanns Eyólfssonar gæfi Byrni dóttrsyni sínum Vatnsfiörd med samþycki Vatnsfiardar Kristínar módr hans, enn dóttr sinnar; en ef þat er satt, þá fer því miöo fiærri sem annálamenn segia, at hún hafi dáin verid þá fyrir tuttugu oc átta árum, oc þat hafi skèd tveimr edr þremr vetrum fyrir pláguna. Þá dæmdi Jón biskup Vilhiálmsson midvikudaginn nærstann eptir Maríumessu at Hólum, um sátt þeirra Brands Jónssonar oc Magnúsar Benedictssonar, um kyrkiufèn á Hofi á Höfdaströnd, voru tólf dómsmenn oc fyrstir Þorkèll prestr Gudbiartsson oc Sigurdr prestr Jónsson, hygg ec Brandr hafi verid sá, er lögmadr var seinna, oc kalladr er í ættartölum son Jóns prests Pálssonar, en Magnús var son Benedicts Brynjólfssonar sem ádr er gètid. Fleyri fóru giörníngar fram sem gètit sè, en ec mun at eins telia þat, at Oddr bóndi Þórdarson handlagdi Jóni Asgeirssyni Arnasonar, at afhenda þá peninga er Kristínu sonardóttr hans hefdi til erfda fallid eptir Gudna bónda födr sinn, oc Þorbiörgu módr sína, því þaraf sèst at Oddr Leppr hefr þá lifad enn, oc sonr hans Gudni verid andadr, en vottar voru Liótr prestr Helgason, Jón Þórdarson, Oláfr Isleifsson, oc fleyri at Hóli í Bolúngarvík. Þess gèt ec annars at Þorkèll prestr Gudbiartsson oc Sigurdr prestr Jónsson, vitnudu eyd Olafs Eyúlfssonar fyrir biskupi, um þat at engir hefdu búit á Borg sídan plágu vetrinn nema þeir sem tekid höfdu af Benedict Brynjólfssyni oc Margrètu Eyríksdóttir foreldrum Magnúsar. Þá var andadr Þorleifr bóndi Arnason madr Vatnsfiardar Kristínar, oc fèck Ormr Loptsson hins ríka Solveigar dóttr Þorleifs, en Arni Þorleifsson 1434
aptr Sophiu Loptsdóttr, hana er sagt ádr hafi átta Júngherra Ivar Hólmr sá er fèll á Kyrkiubóli, bródir Margrètar sem Þorvardr átti, en adrir nefna Biarna Ivarson fyrri mann hennar. Biörn Þorleifson hafdi fengid Olufar Loptsdóttr, sem fyrr segir, en Eyríkr Loptsson fèck Gudnyar Þorleifsdóttr, þau biuggu at Grund, voru þeirra synir Sumarlidi oc Þorvardr enn Ragnhildr dóttir. Þá var þat á pálma-sunnudaginn nærstan eptir aftöku Jóns biskups Gerrickssonar, at Jón biskup Vilhiálmsson á Hólum, giördi kaupbréf vid Þórd Arnason er hann seldi Geitaberg á Hvalfiardarströnd fyrir Hálsa undir Felli í Slèttuhlíd, med rekum þar til, oc var hann þau ár í landi hèr. Fleyri voru oc giörníngar giördir, oc gèt ec þess at Jón Asgeirsson oc Kristin Gudnadóttir kona hans, samþycktu

löggiafir Odds bónda Lepps, vid Skúla dóttrson sinn, oc at Gudrún Sæmundardóttir vildi ei gèfa qvitt Brautarholt oc Hof, þá hún lá banalegu sína í Brautarholti um sumarid, vid Gudrídi húsfrú Vigfúsar Ivarssonar Hólms.

## XXIV. Kap. Orrusta vid Mannscadahól.

I þann tíma var hèr mikill yfirgángr enskra manna; hefr svó sagt Magnús bóndi Jónsson í Ögri, at landsmenn hèr hafi rádist í móti þeim, fyrir órádvendnis glettíngar, rán oc tiltektir á peníngum manna, diarfstæki til qvenna oc adra áleitni, rádsmadr Hólastadar oc adrir Skagfyrdíngar, oc barist vid þá fyrir utan Mannskadahól oc fellt þá nær áttatyu sámann, enn þat er í sögnum at þá hafi verid rekin hross med hrísklifium, til at ridla flocki þeirra; þeir nádu Hólakyrkiu sem undann komust til frelsis sèr oc fridarbónar, lèt Jón biskup Vilhiálmsson prófastinn í Skagafyrdi Jón Einarsson lesa brèf sitt upp á þíngi vid Vallalaug, oc lysti þar í gridum oc fridi heilagrar Hólakyrkiu, alla þá ensku menn er þá sèu í kyrkiu komnir, oc haldi um kórstodina oc beidist nádar oc grida eptir guds lögum oc kyrkiunnar, segist þeim ei þess meiga synia, eptir því sem Kristinrèttr hliódi, enn skip þeirra þat er þá lægi í Kolbeinsárósi, qvadst hann hálft hafa keypt sèr oc heilagri Hólakyrkiu til handa, en hálft hafi þeir gèfit kyrkiunni, oc allt þat góts er fylgdi, fyrirbídr hann því hverium manni þá at ónáda, edr mein at giöra, en ef nockrir yfirmenn vilia þeim til tala at lögum, konúngdómsins vegna, baud hann þeim innann tólf mánada fram fyrir kóng oc ríkisrád oc svara þeim þar lögum med þessum mönnum; segir þeim til reidu far á skipi med sèr, þó á siálfra þeirra kostnad, en þeim gódum mönnum er af þeim edr sínum mönnum hafi skada fengid vildi hann innann lands bæta med sáttmáli edr dómi, má þat af slíku ráda at menn hans hafi, í fylgi vid hina Ensku, giört nockra óhlutvendni landsmönnum hèr, hvert af hans rádum hefur verid edr ei. Þat má oc skilia, at hann hefur utan farid skömmu sídar. Þá deydi um þær mundir
1435 Þorgils ábóti á Þverá, en sídann var þángad vígdr Einar son Isleifs Beltislausa, er lengi var ábóti. Systir hans var Þóra Brók módir Elinar sem Ari átti son Sigurdar prests Jónssonar, er hèr

hefr nefndr verid nokkrum sinnum, oc sídan var Prior, þeirra son Jón biskup. Þetta sumar kom út Gottsvin biskup til Skálholts, Danskr edr Norrænn at ætt.

## XXV. Kap. Frá landstiórn.

Önnr missiri var Jón biskup Vilhiálmsson utan farinn; var þat 1436
nálægt fardögum, at Jón prestr Gamlason er þá hafdi rád oc umbod Hóla kyrkiu, giördi kaupbrèf, þrídiudaginn nærstan fyrir Dyradag, vid Halldór Steinþórsson á jördinni í Nylendi á Höfdaströnd, keypti Jón prestr hana undir Hóla kyrkiu fyrir XXV hundrud, voru þat fimm uxar fiögra vetra, sex uxar tvævetrir, þrir kúgildis hestar, átta vodir vadmáls tvítugar oc X kúgildi; var vid kaupit Þorkèll prestr Gudbiartsson officialis, en eigi Jón biskup, hann sat fimm ár at stóli, en biskup var hann nockrum vetrum lengr; er ei annars um hann gètid, en nú er talid, nema fèdráttar til handa Gudmundi Góda, skriptamála er hann setti Þórdi presti oc nockurra smárra atvika, gèkk margt þá öfugliga um Kristni hald oc landstiórn, voru þessir hinir útlendu biskupar ókunnugir oc nyúnga giarnir, óforsiálir, eydslusamir oc fègiarnir, hèldu sig med meira kostnadi, en landit þoldi, oc eyddu opt á stuttum tíma fè stólanna, fóru þeir sumir híngad fyrir fátæktar sakir, en adrír af fèdrætti oc ásælni, oc kúgudu miöc landsfólkit med öllum hætti, en sem þeir voru hatadir af öllum fóru þeir utann oc rægdu landsmenn vid konúng oc erkibiskup, edr þeir komu aldrei aptr. Enn um kristna trú oc sidbætr, lærdóm edr skóla edr almenniliga velferd hugsudu þeir lítt, enda komu þeir því ei vid fyrir flacki sínu í milli landa. Konúngar voru ei í Norvegi, oc jukust ímsar óvenjur vid þat allt í landi hèr, en hellst á dögum Eyriks kóngs af Pommern, svó at þá hefr Kristindómr tæpast stadit hèr í landi sídann biskupar komu híngad, enn allr fiöldi manna trúdi á Hindrvitni, oc stundudu náliga engir góda sidu; voru vígaferli oc ósidir margir, álfatrú oc fiölkingistrú hiá allmörgum, en þeckíng engin á nockrum lærdómi; fèll nidr öll frædi oc fyrir því hefr eckert ritad verid, þat er menn gèti haft frródleik af nema giörnínga brèf; en þessi missiri var giörr kaupmáli Þorvards bónda Lopts-

sonar, oc húsfrú Margrètar Vígfúsdóttr, var máli Margrètar IX hundrud hundrada, oc er at siá sem þau hafi þá fyrst saman komit. Biörn Sæmundarson skipti jördum í Fliótum vid þorstein Magnússon fyrir jardir nyrdra. þar var Olafr Loptsson fyrsti kaupvottr, en Asgrimr Jónsson skipti vid þorkèl prest Gudbiartsson. þorkèll prestr var einn haldinn miöc fiölkunnugr, oc Halla sem þá var í Straumfyrdi.

## XXVI. Kap. Daudi Lopts.

Um sumarid var Einar hyrdstióri í landi hèr son þorleifs Arnasonar oc Kristínar í Vatnsfyrdi. þá deydi Loptr bóndi Guttormsson á Mödruvöllum oc Ingibiörg kona hans; Loptr dó í koti slæmu, oc er sagt at Háttalykilsstúfr hafi fundist á honum daudum, enn hann átti áttatyu stórgarda; þorvardr oc Eyríkr synir hans fengu XIII hundrud hundrada, hvör, en Oluf oc Sophia hálft áttunda hundrad hundrada hvör, var þó nockud ójáfnt skipt er Sophia vard varhluta. Tuttugu fiórdúngar voru lagdir af smiörum í hundrad hvört, oc fengu brædurnir hvör þar í LXXVI hundrud, en hvör systranna XXXVIII hundrud, enn í vyrdíngafè komu tvö hundrud hundrada í brædra hlut, var þat sumt í Mödruvöllum, sumt í Hlíd, sumt í Siáfarborg oc sumt á Márstödum í Vatnsdal; löggiafir hafdi oc Loptr gèfid launsonum sínum fiórum nyu hundrud hundrada; börn Eyríks Loptssonar eru ádr talinn, enn þorvardr átti dætr þriár sem fyrr segir. Oluf átti Biörn þorleifsson, hann var mikill atgiörfismadr, oc tók riddara nafnbót af Danmerkr konúngi oc hafdi biörn í skialdarmerki sínu, þeirra börn voru þorleifr, Einar, Arni oc Solveig. Olafur Loptsson átti Gudrúnu dóttr Rafns lögmans Gudmundarsonar, þeirra son var Jón fadir Torfa, oc annar segia sumir væri þorgeir í Ögri. Loptr var son Orms Loptssonar fadir Pèturs oc annar Gudlaugr. Skúli Loptsson var fadir Gudmundar prests; er frá Lopti kominn hinn mesti ætthríngr.

## XXVII. Kap. Frá Gottsvin biskupi.

1437 Einum vetri eptir andlát Lopts var Gotsvin Skálholts biskup umbodsmadr á Hólum oc fór þar um biskupsdæmid, hann kom at

Stad í Reynínesi oc skipadi Þóru príórissu fyrir abbadys med samþycki systra, hafdi hann oc sidann umsión þess biskupsdæmis. Önnr missiri skipadi hann prófast sinn Þorsteinn Svarthöfdason 1438
til at dæma ímillum Niáls ábóta á Helgafelli oc Páls prests Biarnasonar í Miklaholti, um hval er prestr hafdi tekit at sèr hálfann í Kèblavík, dæmdist prestr skyldugr at skila aptr hálfu verdi, hafdi ábóti sá fengit undir klaustrid Hraunsmúla í Stadarsveit oc Kamb hverutveggia. Biskup nefndi oc í dóm bródr Jón ábóta í Þyckvabæ, Isólf prest Simonarson oc Eyrík prest Oddsson, þeir dæmdu Eyólf Þorhallsson skyldan at halda dóm Síra Jóns Pálssonar yfir honum um kyrkiu reikníng á Skardi á Landi. Annat
sumar á Þorláksmessu skipadi Gottsvin biskup, at bænhús í Hvylft 1439
í Önundarfyrdi skyldi vera hálfkyrkia, oc gaf eignar-madr jardarinnar Einar Jónsson henni fimm hundrud oc önnr fimm hundrud í Ornamentis, oc hèt at láta hana vera svo vel bygda at hún væri tyu hundrud; þar med hèt hann Holtskyrkiu í Önundarfyrdi fimm málnytu kúgildum fyrir tyundir oc lysitolla á Hvylft, er sídann skyldu gialdast þar heima, enn ei Holts kyrkiu. Þat sumar visiteradi Gottsvin biskup Vestfiördu; giördi hann á Hvammi í Hvammsveit þann úrskurd á Bartholomæimessu, um ágreiníng í millum Sælíngsdalstúngu oc Asgards kyrkna, at standa skyldi skipan Gyrdis biskups um giöld af Efriskógum til Sælíngsdalstúngu kyrkiu, en aptr köllud giörd Jóns Geirikssonar er þar stód á móti, því hann hefdi ei vitad af hinni, lèt hann skrifa úrskurdar brèfit á Reykhólum midvikudaginn eptir Egidiimessu med samþycki presta sinna er nálægir voru, Þorkèlls Olafssonar bródr Arna biskups Milda er þá var dáin fyrir ellisin árum, Þorsteins Svarthöfdasonar, Þorsteins Jónssonar oc Lodvíks Hallssonar úr Hóla umdæmi, því at Gottsvin biskup hafdi þá yfirsókn yfir allt land. At Kyrkiubóli í Língadal skipadi hann á Mariumessu seinna bænhús á Langabóli fyrir hálfkyrkiu, gaf Jón Nicúlásson eignarmadr Langabóls henni fimm kúgildi, oc hèt at hún skyldi svo bygd vera at hún væri tyu hundrud, einninn at gèfa Kyrkiubóls kyrkiu fimm hundrud til lysitolla, er þar eptir skyldu takast á Langabóli, má af slíku marka hve mikil stund var álögd í þann tíma at fiölga kyrkium oc efla þær: Þá handfesti Þorkèll Klángsson Einari ábóta á Múnkaþverá Bægisá, vottadi þat Höskuldr Rúnólfsson oc Philippus Ormsson, en slíkt allt verdr at telia af brèfa-

giördum er sagnir engar adrar eru til um árferdi eda annad, oc má þó til nockrs fródleiks koma.

## XXVIII. Kap. Höfdíngiaskipti.

Þá urdu höfdíngiaskipti yfir Nordrlöndum, kom til ríkis eptir Eyrík kóng, Christophor af Bayern, hann var skyldr Eyríki kóngi í módr kyn, systrsonr hans; en fadir Christophors kóngs var Johann son Rúperts keysara, Rúpertssonar hins fastheldna, Adólfssonar hins einfalda, Rodólfssonar hins stama er bródir var Lodvíks keysara af Bayern, voru þeir lángfedgar kynjadir frá Arnólfi illa hertoga er mikill höfdíngi var í tyundu öld. Giördist þá hinn mesti ágreiníngr hèr í landi, hvört menn skyldu halda Christophor fyrir rèttan Norvegs kóng, oc má þat ráda af brèfum þess konúngs er eptir hann var, enn ei er þat hèr í frásagnir fært. Kom þá út brèf Olafs Niculássonar fèhyrdis í Biörgvin, er þá nefnir sig hyrdstióra hèr, þar í bad hann Vestfyrdínga oc Nordlendínga gialda greidliga konúngsskyldr sveini sínum oc umbodsmanni Karli Stagenberg. Þá andadist Jón Hallfredarson ábóti á Helgafelli, en kom aptr Þorsteinn; Jón Gamlason er fyrr var prestr, var þá ábóti á Þíngeyrum. I þann tíma lögdu þau Þorvardr Loptsson oc húsfrú Margrèt Vígfúsdóttir á Mödruvöllum helmíngafèlag at fengnu fè oc ófengnu, átti hvert er lengr lifdi fiórdúngsgiöf úr annars helmíngi. Þat dæmdi lögmadr gyldt á alþíngi, oc er hann kalladr Helgi Gudinason. Þorvardr vard eigi gamall, oc lifdi Margrèt eptir hann í miög mörg ár, sem enn mun sagt verda.

## XXIX. Kap. Frá klerkum.

1440 A hinu fyrsta ári sínu keypti Þorsteinn ábóti á Helgafelli undir klaustrid, Ulfarsfell oc Hrísa fyrir Borg, Klofavelli oc Gröf, en fèkk at giöf nockud af sydra Skógarnesi; þá var Sigurdr prestr Jónsson prior á Mödruvöllum oc lèt Þorlák Kláungsson sveria um landamerki á Meirahamri, þá er sagt at Jón biskup Vilhiálmsson hafi dáit. Föstudaginn fyrir Jónsmessu Hólabiskups, edr hinn 23ia Aprilis mánadar giördi Gottsvin biskup brèf á Hólum um sáttargiörd milli Jóns prests Pálssonar, er biskup kallar þá Officialem

sinn oc rádsmann yfir biskupsdæminu oc Þorkèls prèsts Gudbiartssonar, er framfór þar í Stórustófunni í vidvist hinna mest háttar manna nordanlands, gaf Jón prestr Pálsson Þorkèll prest qvittann um alla peninga adtekt af sínum eda Grenjadarstadarjördum, oc allann ovinskap þeirra á millum fyrir Guds skuld, biskups Gottsvins, frúr abbadísar á Reynistad oc margra Dánumanna, skyldu þeir sídann vera gódir vinir, oc kysstust trúliga. A þeim sama stad útgaf Gottsvin biskup, þridiudaginn nærstan eptir *festum Barnabæ*, Sveini Hallvardssyni qvittunarbrèf um þiónustu hans oc proventupenínga, oc kallar Svein fullnægt hafa Hóla kyrkiu, eptir brèfi Jóns biskups Vilhiálmssonar. Þá giördi hann skickun til Jóns ábóta á Þingeyrum, Sigurdar priórs á Mödruvöllum oc fiögra presta fyrir nordann, at taka reiknîng af Jóni presti Pálssyni, sín vegna, fyrir rádsmanns oc Officialisstarf, oc svo hve mikit af biskupsskyldum uppborit hafi, en brèf þar um var giört þrem vetrum seinna; bídr hann þessum elskuligum sonum sínum, sem rèttligast at taka þann reiknîng undir hærstu bannspínu oc giöra *transscriptum* af hverutveggia reikníngskapnum med allra þeirra opnu brèfi oc innsiglum, oc senda sèr innann tveggia mánada, ef hann yrdi þá í landi hèr, en gèfa Jóni presti Pálssyni qvittunarbrèf ef reikníngar væri sem þeim bæri, qvadst hann siálfr gèfa qvittunarbrèfid ef hann verdi utan farinn, skal Jón prestr sveria bókareyd fyrir rádsmensku sína ef biskup verdr í landinu, en ella fyrir eptirkomandi Hóla biskupi med kóngs oc erkibiskups samþycki, ætla menn at Jón prestr Pálsson hafi verid Officialis í þriá eda fióra vetr er þetta var, en sex edr siö alls, oc hafi Gottsvin biskup haft umbod Jóns biskup Vilhiálmssonar medann hann lifdi, en erkibiskups þadann af nockra hríd, oc giördi hann enn fleyra í Nordrlandi þetta sumar, dæmdi ytri Ey í Höskuldstadaþíngum Þíngeyra klaustri, oc enn annad ómerkilegra; fór hann ekki utan sem hann giördi rád fyrir, framfóru þá fleyri giörníngar, oc var eitt vitni um þat er Kètill prestr Narfason ættleiddi börn sín á Kolbeinsstödum fyrir kyrkiu dyrum, sunnudag nærstan eptir Mikialsmessu, Jóna tvo, Gudrúnu, Oddnyiu oc Herdysi, enn XXX hundrud lagdi Kètill prestr Erlendi bródr sínum í arflausn, þar af skyldu fiu mtán leggiast Erlendar vegna, fyrir Hall Grímsson honum til kènslu. Þat ætla menn víst at Narfi fadir þeirra brædra Vigfússon hafi verid sonarsonr herra Kètils hyrdstióra Þor-

lákssonar, en hvad af Katli presti þessum er komit, edr börnum hans er hèr eru greind vita menn ei, en Erlendar Narfasonar, oc hans ættmanna, mun sídar gètid verda.

## XXX. Kap. Frá prestum fremstu.

Um þær mundir edr nockru ádr eda sídar, tók Þorkèll prestr Gudbiartsson vid Laufási, oc hèldt hann lengi sídann, var hann haldinn í frekara gyldi af prestum oc fiölvitr. Jón prestr Pálsson var þá einn fremstr presta fyrir Nordanland oc hinn þridii Sveinbiörn prestr Þórdarson í Múla, um hann er þat sagt: at hann ætti fimmtyu börn vid fylgikonum sínum, er hann kèndist vid, oc er hann kalladr *Barna*-Sveinbiörn í ættatölum. Þessir voru nafnkèndastir sona hans, Sigurdr, Þorsteinn, Arni, Hallgrímr.
1441 Jón prestr Pálsson seldi Byrni Jónssyni Sólheima á Asum fyrir Böggverstadi oc Brimnes í Svarfadardal, en sídann þær jardir aptr LX hundrud Jóni Finnbogasyni, XXX hundrud fyrir Reyki í Olafsfyrdi, en önnr XXX fyrir sárabætr, er Jón prestr vard honum skyldugr, fyrir Svein Þorkèlsson, sonu hans tvo oc mág, fór þat fram at Hólum í Hialtadal sunnudaginn eptir Marteinsmessu. Jón prestr Pálsson átti stundum í málaferlum.

## XXXI. Kap. Gottskálk verdr biskup.

1442 Nockru sídar var vígdr biskup til Hóla Gottskálk Gottskálksson edalmadr Norrænn, oc gaf Christophor kóngr hönum verndarbrèf sitt, er svo sagt í ættatölum, at fadir hans hafi heitit Gottskálk Cheniksson, oc hafi þeir frændr verid miklir menn oc stórmannlegir, hafi bródir Gottskálks biskups heitit Benedict, en hans son Rögnvaldr, hans synir Olafr biskup oc Niculás fadir Gottskálks biskups hins sídara, en adrir telia nockud ödruvísi. Gottskálk biskup hlaut at gèfa til hinnar postulligu fèhyrdslu í Róm, þriátyu gullstikki edr rosenoblur, til at ná biskupstign, enn eigi kom hann út at því sinni. Þá gaf Biörn Jónssón Mödruvalla klaustri hlut í Uxnadalsheidarskógi, oc tók Sigurdr priór á móti, þá var Haldóra abbadís á Kyrkiubæ, hafdi systir Margrèt Þorbergsdóttir þar á klaustrinu verid í Norvegi, undir reglu hins heilaga Benedicts,

oc lagt síðann Kyrkiubæar klaustri LX hundrud fyrir sic, oc verid þar fimm ár, en Gottsvinn biskup kom henni inná Reynistád, oc setti þá kosti at systr skyldu hvert er vildu halda hana fyrir hundrad á ári, eda leggia þat hundrad Reynistedar klaustri. Nockrir giörníngar fóru þá fram, oc var einn at Sveinbiörn oc Vigfús Oddssynir fengu Hákoni Jónssyni til eignar, arfahluta sinn í Kyrkiubóli í Skutulsfyrdi, oc svo nockr jardakaup er ec tel því eigi, at menn eru lítt nafnkèndir er þar áttu hlut at. Vetri sídar var Barbara 1443
abbadís at Stad í Reyninesi; henni seldi Gudmundr Biörgólfsson oc Ragnheidr Þorvardsdóttir kona hans, Skídastadi fyrir L hundrud, gèkk þar fyrir Skard á Reykiaströnd XXX hundrud; en þat er ábrast skyldi kènna fyrir syni Gudmundar til prests, samþykkti þetta Gottsvin biskup. Þá hèt oc Ulfhildr Kètilsdóttir Barbáru at gèfa Reynistadar klaustri allar bækr sínar hvert sem hún yrdi þar nunna edr ecki. Þá giördi Gottsvin biskup ámynníngu á Marteinsmessu um óst tollinn til Videyar klaustrs, oc brèf sitt til Nordlendínga um reikníngskap Jóns prests Pálssonar; eigi fór Gottsvin biskup þau missiri utann, oc eigi kom Gottskálk biskup út til Hóla. Þau missiri segia menn at eignir Gudmundar hins ríka í Reykhólum Arasonar hafi fallit hálfar undir Christophor konúng, oc hafi hann átt þá fimmtyu hundrud hundrada, en þó ei gètid fyrir hvöriar sakir verid hafi, nema þat er ráda má, at Gudmundr hafi farid fram med ófbeldi miklu vid menn, sem þá var sumum ríkismönnum tídt, oc eigi minnst þeim Reykhóla mönnum er storfengir voru. Andrès hèt launsonr Gudmundar er sídar verdr gètid oc ættmanna hans.

## XXXII. Kap. Frá biskupum.

Sumarid eptir visiteradi Gottsvin biskup Vestfyrdíngafiórdúng oc 1444
dæmdi at hver skattbóndi í milli Kleifa í Seidisfyrdi oc Kiálkafiardar skuli gialda eyristoll Holts kyrkiu í Önundarfyrdi. Þá visiteradi hann Kolbeinstada kyrkiu, oc var hún metin fyrir LX hundrud, oc kyrkiubót sú er Erlendr bóndi Narfason lèt giöra fyrir fimtán hundrud. Þat sumar kom út Gottskálk Hóla biskup, var þá giört samþykktarbrèf eptir allra heilagra messu, voru þar

í Einar ábóti á Þverá Isleifsson; Jón ábóti á Þíngeyrum, Sigurdr priór á Mödruvöllum, Jón prestr Pálsson Officialis oc XI prestar adrir, oc játtu sig yfirlesid hafa þau brèf oc skilríki sem Gottskálk biskup hafi fyrir stólnum á Hólum, oc samþycktu hann fyrir biskup sinn oc fullkominn formann, oc hètu honum hlídni oc trúleik sem rèttum biskupi. Þorvardr Loptsson sagdi sig þá hafa seldt Byrni bónda Þorleifssyni, mági sínum, Reykiahól í Fliótum, fyrir Egilsá oc Þorbrandsstadi í Nordrárdal, en Skúli Loptsson seldi Hallsteini Höskuldarsyni Þíngnes í Borgarfyrdi, fyrir Byaskèr á Rosmhvalanesi oc Hraunhafnarbacka vestra, voru þau kaup giör at Hesti.

## XXXIII. Kap. Frá Sveini presti oc Erlendi.

Sveinn hèt prestr einn, þat er sagt hann hafi fyrst verid förusveinn, oc bródir hans med honum er Oddr hèt, oc at þeir hafi verid Snorrasynir, enn þat er sannara at þeir voru Pètrssynir, oc er þeim var úthyst einhveriu sinni, svo þeir urdu úti í fiúki, gróf Sveinn þá í fönn, oc þæfdi Odd þar um nóttina svo hann skyldi ei kala, Oddr reiddist vid, en Sveinn reiddist aldrei oc mælti; þar kèmr, at ec verd biskup í Skálholti, en þú Oddr Baccalaureus í Stafholti fyrir mín medöl. Sveinn var kyrkiuprestr í Skálholti, hann var miöc nærgætr um vedr, lífs stundir manna oc adra hluti, oc fyrir því kalladr Sveinn Spaki, ætludu menn at hann skyldi hrafnamál, enn sumir at andi nockr í hrafnslíki mælti vid hann. Þat var einhveriu sinni at hann var sendr at messa á Torfustödum fyrir ofann Skálholt. Erlendr hèt son Erlendar bónda Narfasonar á Kolbeinstödum, hann var þá úngr sveinn, oc reid med honum, oc er þeir komu á hólana fyrir sunnann Hrosshaga, hlióp á hvassvidrisfiúk, oc lögdust þeir fyrir; sveinninn qvadst aldrei komast þadann med lífi; en prestr bad hann bera sic vel, því gott kèmr hèr á eptir, oc verdr önnr ockar sæli, þá ec er biskup ordinn í Skálholti, en þú fær dóttr Þorvardar hins ríka á Mödruvöllum nordr, oc húsfrú Margrètar Vigfúsdóttr. Erlendr mælti: þat má vel skè at þèr verdid biskup í Skálholti, enn þat aldrei at ec fái svo ríka oc velborna konu jafn fátækr sem ec em hiá henni. Efa þú aldrei Guds myskun, sagdi prestr, því svo mun verda sem ec segi, oc þat til merkis, at þá þú ridr til kaupa,

mun koma slík hellisk úr, at menn muna valla þyckiast muna slíka. Nær morgni lètti upp hrídinni, oc fóru þeir til Torfustada; en sídann efldist Erlendr oc mannadist vel, oc kom at því sem Sveinn mælti þó laungu sídar væri.

## XXXIV..Kap. Frá biskupum.

I þann tíma var Steinmódr ábóti í Vídey; oc þat segia menn at þá hafi Gottsvin biskup verid í landi hèr á hinum nærstu missirum, oc hefr hann biskup verid tyu ár at vísu edr allt at tólf, en ekki er gètid dauda hans nè útfarar oc hafdi Steinmódr eptir hann Officialisstarf. Fimmtudaginn eptir Mikialsmessu, útnefndi Gottskálk Hóla biskup sex presta dóm at Mödruvöllum um Odd prest Þorkèlsson at hann hefdi ecki synt biskupi Collationsbréf sitt fyrir Bægisá oc fyrir því haldid stadinn lengi med órèttu, var hann dæmdr skyldugr til at afhenda stadinn med peníngum hans, ef ei fengi synt skiallega veitíngu af rèttum formanni, svara portion af prestatyundum, oc tólf álnum ófrídum eptir hvört hundrad lausafiár, oc í jördu eptir stadarins dyrleika, oc lögleigum eptir hvört fridt kúgildi, sídann hann vard þar prestur, en þriátyu mörkum til heilagrar Hóla kyrkiu, oc taka lausn oc skriptir af biskupi, var einn í þessum dómi Sigurdr priór, Þorkèll prestr Gudbiartsson, oc enn fleyri. Þá seldi Einar ábóti á Þverá Gottskálk biskupi klaustrsins hlut í Laxámyrarósi, fyrir laxveidi í Deildará, enn Torfi bóndi Arason seldi Skúla bónda Loptssyni Hvalnes á Rosmhvalanesi, Nes oc Melaberg oc Gègnishól í Skagafyrdi sem sídar var kalladr Kríthóll, fyrir Þyckvaskóg í Breidafiardardölum, Midskóg, Þórólfstadi, Smirlahól, Gilialand oc Ymiaberg. Torfi var sídann riddari at nafnbót, en engir menn voru þá herrar kalladir eda frúr, sem fyrr hafdi verid, nema biskupar, ábótar oc abbadísir. Torfi átti Akra-Kristínu dóttir Þorsteins lögmans Olafssonar, ei veit ec ætt hans, en sèd hef ec födr hans nefndan Ara hinn Stóra. Einar Þorleifsson seldi Eyríki Loptssyni Audbrekku í Hörgárdal födrleyfd, sína oc Steinsstadi í Yxnadal, fyrir Skard í Lángadal oc fiórar jardir adrar, oc fór þat fram á Grund í Eyafyrdi. 1445

## XXXV. Kap. Daudi Þorvards.

1446 Um þær mundir eda litlu sídar andadist Þorvardr bóndi Loptsson á Mödruvöllum, enn eptir hans dauda kaus Margrèt húsfrú kona hans sèr tvö hundrud hundrada í föstu oc eitt hundrud hundrada í frídu en fimtyu handrud í vyrdíngafè í fiórdúngsgiöf; alls fèkk hún tyu hundrud hundrada oc XI hundrud oc tuttugu oc nyu kúgildi, oc erfíngiar þar í móti; var allt fè eptir Þorvard IX hundrud hundrada í frídu oc LX hundrud betr, enn í vyrdíngafè þriú hundrud hundrada, í tiöldum, reflum, bordbúnadi oc sængum, oc enn áttatyu hundrud í ödru, en jardir allar at auki. Þorvardr átti dætr þriár eptir sem ádr segir. Þá segia menn at Einar Þorleifsson bródir Biarnar, sem átti Olufu Loptsdóttr, hafi hyrdstiórn haft. Þá var kaupmáli giör Olafs Geirmundarsonar oc Sigrídar Þorsteinsdóttr at Hródnyarstödum í Laxárdal, lagdi hvört þeirra til kaups tvö hundrud hundrada, oc má af því siá at Olafr var eigi fátækr; hann var bródir Sigurdar Geirmundarsonar, en dóttrsonr Olafs Tóna, hann er einninn kalladr Olafr Tóni, oc hafdi Straumfjardar-Halla fóstrad hann, hèldu menn hann fiöl-
1447 kunnugann miöc, fleyri voru þá giörníngar giörfir. Pètr hèt íslendskr madr oc var Pètrsson, hyrdmadr Christophors konúngs; hann kærdi þat at Þórvardr Loptsson hefdi haldit fyrir sèr medann hann lifdi med valdi oc ofríki, nyu jördum í Eyafyrdi, en sídann húsfrú Margrèt kona hans; gaf konúngr honum brèf sitt uppá, at hann mætti þær jardir taka, nema húsfrú Margrèt syndi lögliga, at þær væri eign barna sinna, oc leggi þat undir VI manna dóm innann hálfs mánadar at heyrdu brèfi; baud konúngr hyrdstiórum, lögmönnum oc öllum ödrum á Islandi, hann þar til at styrkia, en ef húsfrú Margrèt Vigfúsdóttir vill því ei hlída, skyldi hún mæta hinum þyngstu sektum at lögum; vitum vèr ei hvörsu þeim málum hefr lokit, en þat má ætla at þó hyrdmadr konúngs hafi mátt fá sitt af slíkum ríkismönnum, þá muni adrir flestir allir hlotid fyrir at vægia, oc margr mist síns í þann tíma, en kotúngnum verit hardkeyptara giört enn á vorum dögum. Þeir höfdu þá jardaskipti í Þíngeyarþíngi, Gottskálk biskup oc Þorkèll prestr Gudbiartsson, oc svo Þorkèll prestr vid Biörn Sæmundarson, fram fóru oc vitnisburdir Sveinbiarnar prests Þordarsonar oc Halls

prests Arnasonar um Valþiófsstadi í Gnúpasveit, er Hóla stadr oc Jón Pálsson höfdu umdeilt.

## XXXVI. Kap. Konúngaskipti.

Eptir um vetrinn á þrettánda í Jólum, andadist Christophor konúngr í Helsíngiaborg, var þá skotid um ríkis kosníngu til Gerhards hertoga í Holsetulandi, en hann taldi á elli sína, oc önnr vanqvædi, oc skaut til Þiódreks í Aldinborg; hann var greifi einn, oc átti Heidvígu dóttr Gerhards hertoga, oc fyrir því var hann kalladr hinn Hamíngiusami, því at Gerhardr hertogi oc Járn-Heinrekr fadir hans, oc allir þeir lángfedgar höfdu verid hin mestu mikilmenni, en Þiódrekr var Gerhardsson Konrádssonar Jóhanssonar, Jóhanssonar, Kristiánssonar, Kristiánssonar annars, Kristiánssonar hins orustusama, Elmarssonar Elmarssonar hins fyrra er fyrstr var greifi í Aldinborg þeirra kynsmanna, Hagonssonar höfdíngia í Frislandi. Kristián hèt son Þiódreks oc Heidvígar; hann var giörfugligr madr oc vinsæll, var hann til konúngs kosinn í Danmörk, oc eignadist sídan ríki á öllum Nordrlöndum, hafa hans ættmenn sídann haldit Danmark oc Norvegi. Þá andadist oc Aslákr erkibiskup í Nidarósi. 1448

## XXXVII. Kap. Frá ímsu.

Þann tíma gaf Gottskálk biskup á Hólum, qvittunarbrèf fullkomid Jóni presti Pálssyni; fyrir Officialis oc rádsmansdæmi Hóla kyrkiu oc prófasts embætti í Hegranessþíngi, kallar hann hafa giört sèr rèttann reikníngskap af öllu fè því, oc fulla penínga goldit; hann samþyckti einninn þat Collationsbrèf, sem Askèll erkibiskup í Nidarósi hafdi gèfid Jóni presti fyrir Grenjadarstad medann biskupslaust var á Hólum. Þá gáfu þeir oc út vitnisburd sinn, Jón prestr Pálsson á Grenjadarstad, Sigurdr prestr Jónsson, Illhugi Biörgólfsson, oc Steinþór Jónsson oc átta leikmenn adrir, at þeir heyrt hefdi af eldri mönnum sèr, þat biskupstóll oc kyrkian á Hólum, ætti æfinligann osttoll hvert ár, af skattbónda hverium á milli Hrauns, á Skaga, oc Hrauns í Fliótum; Illhugi var gamall, oc vitnadi at

svo hefdi verid eptir pláguna miklu; eru þat fiórtán merkr smiörs edr fiórdúngr osts; hafi sá tollr luktr verid í þeirra dögum, af siálfum þeim oc ödrum mótmælislaust þá er hans var vitiad af stadarmönnum er fluttu hann heim. Ætla vitrir menn at því hafi verid í óveniu at gialda hann, sökum fiærveru eda stuttrar hèrveru hinna fyrri biskupa. Þá var sá ábóti á Þyckvabæ er Kolbeinn hèt, hann lèt dæma klaustrinu hálfa Dyrhólaey. Gudmundr Olafsson rádsmadr í Biörgvin seldi Gottskálk biskupi jörd sína Skridulanl í Yxnadal, er sídann kalladist Efstaland, en Þorkèll prestr Gudbiartsson, Asgrími Jónssyni, Lundarbrecku í Bárdardal fyrir Höskuldstadi, Hól í Reykiadal oc Haga í Grenjadarstadarsókn. Hin
1449 nærstu missiri vard þat til tídinda, at andadist Eyríkr af Pommern er fyrr hafdi verit konúngr, oc var kosin Olafr Þrándarson til erkibiskups í Nidarósi enn þó skipadr frá því aptr. Gottskálk Hólabiskup var þá umbodsmadr oc administrator Skálholts biskupsdæmis, hafdi Aslákr erkibiskup skipad hann þar til, eptir dauda Gottsvins oc bón Islendínga, oc visitatorem yfir allt Island, bædi at siá um klaustr oc hvad er tilfèll í hans forveriara tíd, oc þat allt útrètta er biskupi byriadi, fyrir því gètr Gottskálks biskup vída í Skálholts máldögum. Hann lèt presta í öllu Hóla umdæmi taka samann Rómaskatt, nagla fyrir hvert höfud, oc var þat mikit fè. Þá dæmdi hann oc jördina Ytriey í Höskuldstada þínghá undir Þíngeyra klaustr oc Jón ábóta, fyrir þat er Asbiörn ábóti á Þíngeyrum hafdi ádr sellt þá jörd undan klaustrinu fyrir lausafè, enn þat syndist biskupi oc dómsprestum hans ónaudsynlegt, var ei heldr fyrir því kaupbrèfi innsigli Asbiarnar heldr Sveinbiarnar ábóta er var fyrir Asbiörn, oc daudr þá brèfid var giört; þat er oc mælt at Gottskálk biskup hefdi brèf fyrir at veita hina bestu stadi á landi hèr, tvo fyrir sunnann oc tvo fyrir nordann land; hann keypti þá XV hundrud í Asi í Vatnsdal af Jóni Þorkèlssyni fyrir Sydstahvamm á Vatnsnesi enn önnr XV hundrud af Sigmundi presti Steindórssyni fyrir Hól í Svartárdal; Olafr Loptsson seldi Asgrími Jónssyni Hafralæk í Adaldal er Rafn lögmadr Gudmundarson mágr hans hafdi átt. Þar var einn kaupvottr Sveinbiörn prestr Þórdarson. Fleyri fóru oc fram slíkir giörníngar, var oc vitnad um fè oc giafir Odds lögmans Lepps Þórdarsonar, oc var lesid eitt brèf um þat, at hann hefdi gèfit Arna Skálholts biskupi, þá fyrir þriátyu oc fiórum árum, alla sína peninga í próventu, oc

þær jardir er hann hefdi erft eptir Skúla bródr sinn, enn konúngrinn hefdi Skúla gèfid. Þá keypti Þórdr Helgason at Haldóru systr sinni part úr Stadarfelli á Medalfellströnd, þar þeir frændr biuggu sídann.

## XXXVIII. Kap. Marcellus verdr biskup.

Eptir dauda Gottsvins biskups, gèck margt miöc andsælis í Skálholts biskupsdæmi; tók Biörn Þorleifsson er þá var kalladr hinn Ríki, Skálholtsstad undir sig, hann var uppgángsmadr mikill oc hafdi konúngshylli, oc hafdi keypt af konúngi hálfar eignir Gudmundar á Reykhólum med allgódu verdi, er þat miklu sannara at hann hafi keypt enn Loptr, sem laungu ádr var dáin enn þær fèllu. Biörn rédi stadinn oc reitti sem honum syndist; ritudu þá Islendíngar erkibiskupi, oc kærdu fyrir honum slíkann yfirgáng, var oc fyrir þá sök Gottskálk biskup settr yfir stiptid, sem fyrr segir; en nú er hèr var komid var vígdr til biskups þángad sá madr er Marcellus hèt, þískr at ætt, hann var jafnann í erindagiördum Kristians konúngs oc kom ei út híngad, enn hafdi hèr umbodsmenn sína, oc var Gottskálk Hólabiskup hinn fyrsti þeirra. Gottskálk biskup fór þá utann, er hann spurdi dauda Asláks erkibiskups, oc var í Danmörk med Marcellus biskupi, þá hann var kosinn til erkibiskups í Nidarósi, enn þat vard þá ekki, oc fèck Marcellus þá Skálholt enn Gottskálk biskup galt út fè þat til páfastóls er fyrr er gètid; gaf þá Marcellus honum brèf sitt, at vera fullkominn umbodsmadr sinn yfir Skálholts umdæmi í fráveru sinni, oc stadfesti þat Henrik Calleisen er þá fèkk erkibiskupsdæmit, gaf oc þá Kristián konúngr mildilegt verndarbrèf Gottskálki oc Hólakyrkiu, oc þar med biskupi leifi at halda kaupfari sínu til Norvegs, þar sem hann mátti, var þat giört sunnudaginn fyrir Andrèsar Postula messu. Marcellus biskup var med Kristiáni konúngi, oc var mikilsháttar madr, oc vyrdtr miöc af konúnginum, oc trúnadar madr hans í insum erinda giördum, fyrir því hafdi konúngr viliad koma honum til erkibiskupsdóms, þó þat yrdi ecki; hann var legatus páfasætis yfir öll Nordrlönd oc almenniligr samansafnari allra inntekta oc ávaxta hinnar postullegu fèhyrdslu af þeim löndum, skipadr þar til af postullegu sæti. Gottskálk biskup 1450

hafdi umbod hans, oc þó ádr skipadr yfir allt land í andligum efnum sem fyrr segir, oc leift at veita Odda og Hytardal sydra, en Grenjadarstad oc Breidabólstad nyrdra, af hinum audgustu prestaköllum; hann gaf Gunnar bónda Jónsson í Sælíngsdalstúngu qvittann um portions reikníng þeirrar kyrkiu fyrir Ornamenta sem Gunnar hafdi tillagt; sá Gunnar var fadir Steinunnar er Loptr Ormsson átti. Gottskálk biskup kalladi sic oc Visitatorem yfir allt land í Ytrieyar dómi árit fyrir, er gèck í milli Jóns ábóta á Þíngeyrum oc Haldórs Hildibrandssonar sem um er gètid, oc nú aptr í hiónabandsdómi hans at Vídvík föstudaginn fyrir Sebastianidag milli Vidnæms Jónssonar oc Helgu Einarsdóttr, oc enn í seinni brèfum. Hann lysti einninn banni yfir Páli Olafssyni bródr at Helgafelli fyrir barneign er hann hafdi í fallid, eptir því sem Niáll ábóti hafdi ádr giört, oc tók aptr þat vilmæli er hann qvadst gèfit hafa fyrir bón Biarnar bónda Þorleifssonar (hins ríka) enn baud Sveinbyrni Conventubródr klaustrsins at lesa þat brèf sitt fyrir bródr Páli, oc senda sèr aptr innsíglad af tveimr mönnum til stadfestu. Sigurdr priór var Officialis Hóla kyrkiu medann Gottskálk biskúp var utann, oc ritadi hann undir jardaskipti Gottskálks biskups oc Þorsteins Jónssonar. Jón Þorkèlsson var ábóti at Helgafelli. Þessi missiri er Gottskálk tók umbod Marcelli biskups, seldi Illhugi Biörgólfsson Gudmundi bródr sínum Sæfárlands reka fyrir annann milli Saudarár oc Gaukstada; þá vitnudu enn prestar nyrdra um èst-tollinn

## XXXIX. Kap. Frá Torfa oc taldir heldri menn.

Þat sumar kom út Torfi Arason med hyrdstiórn yfir land allt, oc var riddari at nafnbót, hafdi Kristián konúngr gèfid honum brèf þar uppá fyrir þiónustu oc trúnad vid sic, oc skiöld oc hiálm, oc biörn í bláum feldi fyrir skialdarmerki, oc hálfann hvítabiörn á hiálminum; var þat út gèfid á Kaupmannahafnar kastala á Andrès postula vöku, því þar var þá en ei fullgiör höfudborg; en svo eru miöc óliósar sagnir þeirra tíma, at þess gètr hvörgi med vissu hvad manna Torfi sá var. Med honum sendi Kristián kóngr rèttarbót hina laungu, oc þar í forbod óloglegra yfirreida, rána oc gripdeilda, óaldа, oc yfirgángs oc lagdi vid sektir stórar, eptir því

sem þá þurfti í landi hèr; gat oc þess at eingan skyldu Islendíngar halda fyrir rèttann konúng annann en Danakonúng sem skèd hafdi á dögum Kristóphórs af Bayern; var oc forbodid at taka nockurn til biskups á Islandi nema konúngsbrèf oc innsigli hefdi fengit, oc svo ríkisráds oc samþycki erkibiskups í Nidarósi. Torfa gaf hverr syslumadr á Islandi 1 hundrad fyrir hvert þíng í syslu sinni í nautum, saudum oc gódum hestum, oc má vera sá málsháttur um Torfalög sè þar af dreginn er sitt leggr til hvör; eru margar sagnir oc rángar um Torfa, oc hafa sumir slengt honum saman vid Torfa Jónsson í Klofa er sídar var. Torfi átti Akra-Kristínu dóttr Þorsteins lögmans Olafssonar, enn Helgi á Ökrum átti hana sídar. Torfi hafdi Vestmanneyar í lèn, oc átti at gialda eptir siö lestir fiska, en þat var sögn Stranda-Kolls at IX lestir fiska voru at fornu í Vestmanneyum oc áttu eyamenn at færa í hvern kaupstad hann vildi, en fèd á land ef fiskrinn var seldr í eyunum; var þat dæmt oc áskilid at ef þeir flyttu meira á haustum af sínum varníngi skyldu þeir selia kóngs umbodsmanni fyrstum, uppá hvert hundrad fyrir tvævett naut edr sex fiórdúnga smiörs. Þessir voru þá uppi höfdíngiar í landi hèr adrir, Biörn bóndi Þorleifsson hinn ríki, hann var yfirgángsmadr oc þá madr audugastr hèr, sat hann þá enn yfir Skálholtsstad; Oluf kona hans Loptsdóttir var þó en meiri skörúngr; Einar Þorleifsson bródir Biarnar er hyrdstióri hafdi verid, Teitr Gunnlaugsson Ríki austr í Biarnanesi, Helgi á Ökrum Olafsson, Jón son Asgeirs Arnasonar, Dadi Arason Dadasonar, Eyríkr Loptsson, Ormr, Olafr, Sumarlidi oc Skúli brædr hans, Olafr Geirmundsson oc Sigurdr bródir hans, Andrès launsonr Gudmundar á Reykhólum, Hallr son Finnboga hins gamla, þó þess sè ei gètid at hann hafi ríkismadr verid, Magnús Benedictsson, Þordr Helgason á Stadarfelli, Brandr Jónsson á Hofi er kalladr er son Jóns prests Pálssonar, Eyólfr son Arnfinns Þorsteinssonar, hann segia menn riddara verid hafa, Erlendr Narfason á Kolbeinstödum, Eyólfr Mokollr hinn éldri í Haga, Philippus son Sigurdar Fostra oc synir hans oc enn fleyri þó ec kunni ei til at nefna, oc svo af hinum yngri mönnum Páll oc Gudni synir Jóns Asgeirssonar, Finnbogi Jónsson prests Pálssonar, Jón son Olafs Loptssonar oc Loptr son Orms, Páll Brandsson. En af klerkum voru þessir merkiligastir, fyrir utan biskupana, Jón prestr

Pálsson á Grenjadarstad, Þorkell prestr Gudbiartsson í Laufási; Sveinbiörn prestr Þórdarson í Múla, Einar ábóti Isleifsson á Þverá, Jón Gamlason á Þingeyrum, Steinmódr ábóti í Vídey, Sigurdr prìór á Mödruvöllum, Olafr prestr Rögnvaldsson frændi Gottskálks biskups, oc Sigmundr prestr Steindórsson, er ádr hefr eitteinn nefndr verid.

## XL. Kap. Frá Gottskálki biskupi.

1451 Gottskálk biskup kom út sumar hid næsta því er hann fór utann á, útnefndi hann þá dóm á prestastefnu Hóla biskupsdæmis at Vídivöllum fimmtadaginn næstan fyrir Hallvardsmessu um kostnad þann, er hann hafdi medan hann var utannlands, oc kallast í kyrkiu lögum Contributiones oc Cathedraticum, dæmdu þar tuttugu oc fiórir dómsmenn, ábótar oc prestr Hóla biskupsdæmis, at Gottskálk biskup skyldi eignast allar kyrkiutyundir af öllum alkyrkium Hóla biskupsdæmis um eitt ár, fyrir ferd hans oc ómaka, en svo var ástadt hvi Cathedraticum var kallat, at þat var forn venia at biskup vígdi hveria kyrkiu er nygiör var, ádr en til nockurs mátti nyta, kom þar þá saman fiölmenni mikit, oc gáfu sumir ærit fè edr offr til kyrkiunnar, en dagr sá var haldinn heilagr, sem hin mesta stórhátíd, oc kalladr kyrkiudagr, var þá hvert ár gèfit offr til kyrkiunnar. I fyrstu fèck biskup nockut af því offri í víglsulaun sín, leiddist þat sídann í vana, þá biskup visiteradi kyrkiurnar, at prestr hver skyldi veita honum kost, fylgd oc flutnìng um sóknina, oc hálft offr þat á ári því sem kyrkiunni gafst á kyrkiudaginn, oc var þat talid visitatiulaun hans, gafst honum þat ei ef hann visiteradi ecki. Sídann komst þat á þann hátt í hefd at prestar skyldu gialda biskupi slíkt hvert ár, hvert sem hann visiteradi edr ecki, oc var þat kallat Cathedraticum. Gottskálk biskup giördi oc kaup þau missiri vid Ingibiörgu Olafsdóttr á XVI hundrudum í Núpi undir Eyafiöllum á Bartholomeusmessu, í vidrvist Steinmódar ábóta í Vídey er vicarius var Skálholts umdæmis, oc kallar hann sic þá en visitatorem yfir land allt; hann hafdi í visitatiu sinni lagt eina kú frá Runa Jónskyrkiu at Midfelli í Reppum. Þá er sagt at Rafn lögmadr hafi dæmt á alþíngi um undanfærslu á óbótamálum, enn ef þat er rètt, þá er vant

at vita hver sá Rafn hafi verit, nema vera skyldi Rafn son Brands Haldórssonar á Bardi er laungu seinna var lögmadr, oc hafi hann haft lögsögn um sinn eptir Þorstein Olafsson á Ökrum, edr nærst fyrir Teit Gunnlaugsson. Þá var giör kaupmáli milli Gudmundar Sigurdarsonar oc Gudnyar dóttr Þorsteins Höskuldssonar, var II hundrud hundrada málinn, en brullaups oc festíngar vottar Einar ábóti Isleifsson, Sigurdr priór Jónsson, Eyólfr Arnfinsson Þorsteinssonar, oc en fleyri. Skúli Loptsson baud erfíngium Gudmundar Gudmundarsonar LX hundrud fríd fyrir Uppsali í Blönduhlíd, enn Kristín Biarnardóttir í Vatnsfyrdi gaf Olafi Jónssyni Reykiarfiörd í Arnarfyrdi, fyrir dyggva þiónustu í tyiu ár; hún deydi um þær mundir.

## XLI Kap. Lögmannaskipti, oc frá biskupum.

Önnr missiri var Helgi á Ökrum lögmadr, hann áti Akra-Kristínu seinna sem fyrr segir, voru þeirra börn Þorsteinn á Reyni í Myrdal oc Ingvildr á Reykhólum. Þá var Jón ábóti Gamlason á Þíngeyrum Officialis Hóla kyrkiu oc prófastr í Húnavatnsþíngi; enn Sveinn Magnússon er nefndr rádsmadr á Mödruvöllum, þó Sigurdr priór þyrfti þess ei vid fyrir aldrs sökum. A Pètrsmessu um vetrinn samþyckti Gottskálk biskup kaup Einars ábóta á Þverá oc Sigurdar priórs á Mödruvöllum á jördum klaustranna Gili oc Vöglum, fyrir Gásir oc tyu kúgildi, en um sumarit sendi biskup utann Olaf prest Rögnvaldsson frænda sinn til Norvegs oc Danmerkr med reiknínga til Marcellus biskups af umbodi hans yfir Skálholts umdæmi oc önnr eyrindi sín, segia menn þá at Marcellus biskup hafi veitt Olafi, á þridiudaginn nærstan eptir passions sunnudag um vetrinn Oddastad á Rángárvöllum, en sunnudaginn eptir Bartholomæusmessu nærst fyrir hafdi Gottskálk biskup gefid fiörutyu daga aflát öllum er gáfu eda sóktu til Vatnsfiardar kyrkiu at bón Biarnar bónda Þorleifssonar. Olafr prestr kom út eptir um sumarit med bréf oc bodskap höfdíngia, fyrst var bréf Kristiáns kónúngs, er hann bad Islendínga veita hlídni Marcello biskupi oc Gottskálki umbodsmanni hans; þarnærst annad frá Marcello, oc stadfesti hann umbod Gottskálks biskups, en bad ei taka

1452 (margin, beside "Önnr missiri")
1453 (margin, beside "cellus biskup hafi veitt")

vid Matheo biskupi er vildi sèr hvervetna innsmeigia, oc ráfadi um Norvegsríki uppheldislaus. Um þat ritadi oc Henrik er þá var vígdr ordinn til erkibiskups, oc stadfæsti konúngr oc hann brèf Marcelli. Ætla sumir menn at þessi Mattheus sè sá er ádr kom út med Jóni biskupi Gerrikssyni oc var þá prestr. Kristían konúngr sendi oc út híngad brèf sitt útgèfid í Kaupmannahöfn á Gregoriidag edr 12ta Martii mánadar oc medkèndi hollustu Islendínga vid sic, bad þá nidr þagga þá er ödruvís giöra, hèt hverutveggium verdugum launum, bad þá hlída Marcello biskupi, oc Gottskálki umbodsmanni hans, qvadst ei Marcellum missa mega, því hann sè gagnsamr sèr oc ríkiunum. Henrik erkibiskup gat þess oc í brèfi sínu frá Biörgvin á Mariudag edr tuttugasta oc fimta Aprilis mánadar, at leikmenn þeir sèu miöc ámælisverdir, sem ræna heilaga kyrkiu eignum hennar oc gaf Gottskálki allt vald til at reka Biörn ríka brott af Skálholti oc krefia reiknings af honum, rentr oc inntektir kyrkiunnar frá því Gottsvinn biskup dó, en bannfæra hann ef hann sè mótþróanligr, er þat sannast at segia atmargr var í þann tíma bannfærdr um minni sakir, oc ætla menn at Biörn hafi þá gèngit til sátta vid Gottskálk biskup, því at ei er at ráda at hann hafi bannfærdr verit. Þá medkèndist oc Marcellus biskup at hann hefdi fengit fullann reikníng Skálholts biskupsdæmis, af Gottskálki, med Olafi presti Rögnvaldssyni oc veitti Olafi þá Oddastad, sem fyrr segir, med því hann sè sannfródr ordinn at Jón prestr Sigmundarson hafi aflagt stadinn. Ætla menn at Gottskálk biskup hafi jafnann verit umbodsmadr Marcelli á medan hann lifdi, en þat er gètr um Steinmód ábóta hyggia menn hann verit hafi vicarius Gottskálks; eigi hèldt Olafr prestr Oddastad lengi, oc var hann eptir þat á Breidabólstad í Vesturhópi. Biörn ríki seldi þá Egli Grímssyni Eyvindarstadi í Blöndudal oc hálfa Reyki í Hrútafyrdi fyrir Sólheima á Asum, Grilli í Fliótum oc Skuggabiörg í Deildardal, þar voru vottar Skúli Loptsson, Oddr Brandsson oc en adrir. Sá Egill var mikilsháttar madr í Húnavatnsþíngi, sem enn mun sagt verda, ocsvo Oddr Brandsson sá er gètid er, má þat vera, at hann hafi fadir verit Einars Oddssonar, nema sá Oddr væri sagdr Pètrsson, Skúli Loptsson var oc í Húnavatnsþíngi; hann seldi þá Sigmundi Einarssyni Silfrastadi fyrir Alfgeirsvelli, Gegnishól oc Ytstagil í Húnavatnsþíngi; enn Gudmundr Biörgólfsson Byrni Þorleifssyni Skard á Reykiaströnd

oc hellst teiginn í Vedramóts jördu; var tekit vitni Illhuga Biörgólfssonar um þat Reynistadarklaustr hafi tekit landskuld af Hofi á Skagaströnd meir enn um hálfann fimta tug vetra. Þá er sagt, at átián þiófar eda ránsmenn, hafi verid teknir fyrir vestann Stadaröxl hiá Stad á Reyninesi í hellir einum er sídann er kalladr Þiófahellir, höfdu þeir rænt konum oc meyum, tygium oc ödrum hlutum, oc borit í hellirinn, en smalamadr á Reynistad komst þángat er þeir sváfu oc bar frá þeim vopninn öll, oc sagdi til þeirra, tók sic þá saman margt lid sveitarmanna oc fángadi þá, oc hafdi heim til stadar, oc geymdu í þriár nætr á medann þíngad var, en þídann voru þeir hengdir þar seytián saman sudr á vellinum, þar sídann heitir Gálgagardr, oc kasadir fyrir sunnan á, þar sem heitir Dysiagil; hinn átiándi fèck líf, hann var átián vetra at aldri oc höfdu þeir hrædt hann til at vera med sèr at ránum oc þiófnadi, ei er þó þess gètid hvör þá hafi syslu haft þar í hèradi.

## XLII. Kap. Frá ímsu.

Sumar þat hit næsta var Teitr Gunnlaugsson í Biarnanesi lögmadr fyrir sunnann oc austann land, sá er ádr var med Þorvardi at aftöku Jóns biskups Gerrikssonar eru börn hans nefnd fyrri. Þá hafdi Jón prestr Pálsson jardaskipti vid Þorvald Jónsson, en Jón prestr Snorrason, prófastr milli Glerár oc Ulfdalafialla, dæmdi í umbodi Gottskálks biskups, Olafs konúngs kyrkiu at Völlum í Svarfadardal oc Magnúsi presti er þar var, lambaeldi um allan dalinn, oc inn til Haga á Strönd, voru dómsmenn Sigurdr priór, Semíngr Magnússon oc en fleyri; eru svo óliósar sagnir þeirra tíma at aldrei hafa verit óliósari á landi hèr, oc mundu menn ekkert vita um þá menn er uppi voru, nema vidhaldist hefdi brèfinn. Þess eins er gètid hin næistu missiri at Sigurdr priór ættleiddi Jón son sinn oc Brandr Jónsson er þá hafdi syslu í Eyafyrdi, oc sídar var lögmadr dæmdi þat lögmætt; sídann fór Brandr utann. Þar eptir er þess gètid, at Einar Arnason hafdi konúngs umbod í Þíngeyarþíngi, vetri seinna, oc at Gottskálk biskup keypti af húsfrú Solveigu Þorleifsdóttr hálfa Núpdalstúngu, friádagin fyrir pálma-sunnudag, fyrir XVII málnytu kúgildi oc VIII hundrud í smiöri, þrettán fiórdúnga í hundradi, voru kaupvottar Þorsteinn

1455 1456 1457

Jónsson, rádsmadr Hóla kyrkiu, Jón Broddason, Þormódr Olafsson; hann keypti oc Steinunnarstadi á Skagaströnd fyrir Haganes vid Myvatn af Asgrími Þorkèlssyni, en Þorkèll prestr Gudbiartsson var kaupvottr oc hygg ec Asgrímr væri sonr hans, en Einari ábóta á Þverá seldi Gottskálk biskup undan Hóla kyrkiu jördina Hardbak á Melrackaslèttu at fráteknum reka, fyrir *Dy* í Grenjadarstada þíngum, klaustr jörd, midvikudaginn nærstan eptir Huberti dag sem er hin þridie Novembris. Torfi Arason hyrdstióri nordann oc vestanlands, medtók þá til eignar XX hundrud í Þorleikstödum í Blönduhlíd af Oddi Asmundarsyni fyrir kostnad oc ómaka er Torfi hafdi útleyst lögmans brèf af Kristiáni konúngi honum til handa. Þann giörníng samþyckti Gudlaug Finnbogadóttir, kona Odds at sydrum Ökrum, ætla menn þat hafi verid til seinasta hyrdstiórnar ár Torfa, oc er ekkert lióst um áfgáng hans eda brottför. Málmfrídr hèt dóttir hans er Finnbogi átti son Jóns prests Pálssonar, oc er þadann ætthríngr mikill enn á vorum dögum.

## XLIII. Kap. Frá Byrni oc dauda Gottskálks biskups.

Eptir þat er Biörn Þorleifsson sleppti Skálholti hafdi hann farit utan oc Oluf kona hans, oc fengit vedr stór, oc rekit til Orkneya, komu þar at þeim sióvíkíngar Enskir, oc tóku þau öll, oc fluttu til Skotlands, enn er þat spurdi Kristián konúngr lèt hann leisa þau út, oc fór Biörn til Danmarkar, oc fèck þar vidtektir gódar af konúngi, því at Biörn var ágiætr madr, hyrdprúdr oc íþrottamadr mikill, er þá sagt at konúngr hafi giört af riddara, oc var hvítabiörn í bláum feldi, oc annat upp af hiálminum skialdarmerki hans. Þá fèkk hann honum oc hyrdstiórn yfir allt Island, oc
1457 hèldt Biörn því medann hann lifdi; var þá mikill yfirgángr enskra kaupmanna á landi hèr, vildu þeir eigi skatt eda toll gialda Dana konúngi, oc fóru fram med ránum oc stuldum oc mörgum illvyrkium, oc vildi konúngr at Biörn hèldi hendi yfir þeim; sídann kom Biörn út; þá gaf Jón son Olafs Loptssonar foreldra sína Olaf oc Gudrúnu Rafnsdóttr qvitt um arf allan eptir þau. Þá andadist Gottskálk biskup á Hólum, hafdi hann biskup verid um þrettán vetr oc haft mikit vald í landi hèr mest alla stund medann hans

sat at Hólum, var hann einhvör hinn mesti skörúngr biskupa í þeirri öld, oc ei áseilinn svo at um sè gètid; eru eigi nefndir afkomendr hans hèr í landi; voru eptir hann Officialis fyrir nordann fyrst Þorsteinn prestr Jónsson oc Semíngr prestr Magnússon, oc svo Jón prestr Pálsson, en Steinmódr áboti í Videy fyrir sunnann. Þá fór fram kaupbrèf at Núpi undir Eyafiöllum á Mariumessu scinni, á XX hundrudum í Núpi vid Sæmund Hallsson oc Ingibiörgu Olafsdóttir, módr hans, fyrir æfinliga Proventu, oc XV merkr, sem synir hennar urdu sekir fyrir þat, þeir bördust þar í kyrkiunni, skyldi þó Sæmundr hafa fulla borgun fyrir sinn hlut í jördunni oc var þat nockru eptir andlát biskupsins; má þat skilia at fleyri víg hafa í þann tíma ordid, því þat eitt var brèfat eda hellst ordlagt af slíkum hlutum er vidridid var kyrkiur eda kallad sèrilagi kristni spell.

## XLIV. Kap. Frá Olafi oc Mattheo.

Mattheus biskup sá cr fyrr var gètid, hafdi fyrir laungu vígdr verid til hvers þess stóls er fyrstr losnadi, hafdi hann því láungum flackad hèr yfir á Nordrlöndum, oc fengit ecki athvarf, hafdi hann ímislig brögd í frammi haft, til at komast yfir einhvería biskupssyslu, en nú er hèr var komit, var hann í landi hèr oc hafdi fengid umbod Marcelli biskups, yfir Skálholts umdæmi; en er Gottskálk biskup var andadr var kosinn til biskups at Hólum Olafr prestr Rögnvaldsson frá Breidabólstad frændi hans, mánudagin nærstan eptir Barnabæ, at prestastefnu at Vídivöllum af 1458
þriátyu prestum, oc fór hann þegar utann, en Jón prestr Pálsson tók at sèr Officialisdæmi, oc er þat frètti Mattheus biskup, vildi hann heldr fá stól nockurn, en hafa umdæmi annars biskups, oc hafdi hann þá oc nockurn rètt til at mönnum syndist, fór hann þá nordr í land um haustid oc kalladi til biskupsstóls at Hólum, en Jón prestr vildi ecki lausann láta, medann Olafr prestr var utann; oc sem þeir deildu um slíkt, kom þat saman med þeim at halda þann giörníng, sem Biörn bóndi Þorleifsson hinn ríki er þá var hyrdstióri giördi med þeim, oc vard hann á þann hátt at heil. Hóla kyrkia oc biskupsdæmi skyldi standa óátalid fyrir Mattheo biskupi oc öllum hans rádum, þar til reyndist hvör biskup skyldi vera, oc játadi Mattheus því; en Jón prestr Pálsson med dánu-

manna rádi er þar voru vidstaddir, hèt því, at ef Olafr Rögnvaldsson kæmi aptr med biskupslegu valdi edr nockr annar Hóla biskup til Islands, þá skyldi hann þegar senda mann med skyru brèfi til Biarnar, svo verda mætti samfundr í Skagafyrdi, at syna þá hver biskupanna sterkara brèf hefdi, enn ef Olafi biskupi, edr þeim ödrum er koma kynni, kæmi ei saman á þeim fundi, oc Mattheus biskup vildi ei yfirgèfa brèf sín oc stefna utann Olafi biskupi edr þeim ödrum af landi, oc vill sá biskup ei utann fara, en Mattheus biskup vill fara, þá skal Olafr biskup sitia at stadnum á Hólum, sem rèttum biskup ber, oc visitera biskupsdæmit; en hefdi hann meiri kostnad enn bæri, þá hèt Eyríkr bóndi Loptsson at gialda þat stadnum af sínum peníngum á nærstu tólf mannudum frá þeirri dagþíngan, ef Mattheus biskup kæmi til, oc hans yrdi stóllinn at rèttum lögum; enn ef Olafr prestr fengi engann framgáng um biskupsvígslu, enn Mattheus fengi ny brèf uppá Hóla biskupsdæmi af hinum heilaga födr páfanum oc erkibiskupinum í Nídarósi, oc samþycki konúngs, þá hèt Jón prestr Pálsson med ödrum dánumönnum þat, at veita Mattheo biskupi enga mótstödu at hann mætti ná stólnum. Olafr Þrándarson fèck þá erkibiskupsdæmi í Nídarósi, enn frá Mattheo biskupi verdr ecki annad sagt, en at hann hèldt umbodi Marcelli biskups fyrir sunnann, oc dó í visitatiu í Teigi, var kyrkiann giör af hans nærverandi prestum fyrir XX hundrud oc bækr fyrir XVI hundrud, oc var þat litlu fyrir jól, en skömmu eptir samfundinn at Asi er um var gètid. Þat segia sumir menn at Vatnsfiardar-Kristín lifdi til þess er hèr var komit, oc dæi þá. Þá er í giörníngum gètid Philippusar Sigurdarsonar í Haga sonar Sigurdar Fóstra, hann var vid er Þórdr Sigurdarson oc Ingibiörg Haldorsdóttir kona hans, gáfu Haldóri Hákonarsyni tilkall sitt í Kyrkiubóli í Valþiófsdal; einninn Haflida oc Biarnar Ivarssona oc Brands Sigurdarsonar í Húnavatnsþíngi, Jóns bónda Asgeirssonar vestra, födr þeirra Gudna oc en fleyri manna, þar er einn Olafr prestr Isleiksson oc er hann vídar nefndr.

## XLV. Kap. Frá Olafi biskupi oc gipting dætra Margrètar.

1459 Olafr erkibiskup vígdi Olaf Rögnvaldsson til biskups á Hólum, en sendi Islendíngum brèf sitt um sumarit; var þat audsært af

því brèfi, at eigi mundi Mattheus Hóla biskupsdæmi fengit hafa þó lifat hefdi, því at erkibiskup vissi þá ekki annat, segir hann at Mattheus hefr ekkert leifi af sèr edr kannúkum í Nidarósi, fyrir biskupsstólum á Islandi, oc at hann er meinsærismadr, því hann lèt sveria Gottskálk biskup at Hólum daudann, mörgum árum fyrrenn þat skèdi, þar med apostata í móti reglu sinni, oc í forbodi oc banni, oc fyrirbaud bædi lærdum oc leikum á Islandi at taka vid honum; var þat brèf útgèfit í Biörgvín *in vigilia Petri et Pauli*; eigi kom Olafr biskup út á því sumri, fór hann til Danmarkar oc fèkk Hegraness syslu af Christiáni konúngi oc dvaldi þat ferd hans. Þá dæmdi Erlendr umbodsmadr Biarnar Þorleifssonar hyrdstióra med XII mönnum at Hraungèrdi, mánadaginn eptir Þorlákemessu, um höfudhögg oc lemstrar-sár; gètid er þá Barbáru abbadísar á Stad í Reyninesi, oc kaups Haldórs Sveinssonar er seldi hálfan Hiardardal fremra í Dyrafyrdi Þorkatli Einarssyni fyrir hlut í Túngumúla á Bardaströnd. Annat sumar kom Olafr biskup út, oc hafdi konúngr lènad hónum Skagafiörd um tyu ár, en hann gafi til fatabúrs konúngs árlega hundrad lètt gyllini; hann samþyckti sölu Barbáru abbadísar til Olafs bónda Grímssonar á hálfu Bréarlandi í Deildardal, fyrir sydra Vatn í Túngusveit, enn Gudridr Oddsdóttir med samþycki Kètils Þórdarsonar bónda síns handabandadi honum til eignar arf sinn eptir Blíg Höskuldsson födrbródr sinn. Þá seldi Jón Þórdarson Byrni bónda Þorleifssyni, Nordtúngu í Borgarfyrdi LX hundrud, fyrir Skuggabiörg í Deildardal oc annad fè, voru kaupvottar á Þíngvelli, Oddr lögmadr Asmundarson á Ökrum, Skúli Loptsson, Gunnar Jónsson í Sælíngsdalstúngu, oc en fleyri menn; fleyri urdu oc giörníngar. Þat hafdi dæmt verid hid fyrra árid, at Teitr Gunnlaugsson í Biarnanesi skyldi halda Christián kóng fyrir sinn rèttann konúng, at forlagi Biarnar Þorleifssonar; en þessi missiri gipti húsfrú Margrèt Vigfúsdóttir á Mödruvöllum dætr sínar oc þeirra Þorvardar Loptssonar allar í senn oc hèldt brúdkaup þeirra, fèkk Gudrídar Erlendr Erlendsson fra Kolbeinsstödum, oc gèkk þat til eptir því sem mælt er at Sveinn hinn Spaki hafi spád; enn Ingibiargar, Páll frá Hofi sonr Brands Jónssonar, hafdi Páll átt adr launson er Grímr hèt, er seinna vard mikill madr. Ragnhildar fèkk Biarni Marteinsson frá Kètilsstödum austr, er sídar var kalladr Hákalla Biarni; þeir 1460

hittust allir laugardaginn fyrir, hiá Miklagardi, var veitsla bædi mikil oc fiölmenn, eru frá þessum mönnum ættir komnar, voru börn Erlendar oc Gudrídar Vígfús hyrdstióri, oc Þorvardr lögmadr oc Hólmfrídr í Dal, en börn Biarna oc Ragnhildar, Erlendr er syslu hafdi eystra eptir födr sinn, oc Ragnhildr kona Biarna Gudinasonar; af Páli er ekki ætt kominn nema frá Grími launsyni hans, sem en mun sagt verda. Þá vard Asgrímr ábóti á Helgafelli.

## XLVI. Kap. Frá Marcello biskupi.

1461 Olafr biskup lèt á ödru ári biskupsdæmis síns, setia alla kyrkna máldaga í eina bók, var þat eigi lengi ádr menn urdu varir þess, at hann var hardr oc fègiarn, en fátt er þó í ritudum frásögnum af honum greint, oc varla annat enn þat er haft verdr úr brèfabókum, sem flestar frásagnir þeirra tída. Þá var hèr í landi Andrès sá er kalladr var Grænlendínga biskup, oc hafdi umbod Marcelli yfir Skálholti, hvörki er gètid farar hans nè komu, en XII prestadóm lèt hann gánga yfir Jóni presti Jónssyni í Runa, er hann segir sig sett hafa ólögliga fyrir Officialem í Skálholti, misti hann fyrir því bædi stad oc embætti, oc allt hans fè dæmt í kyrkiunnar oc biskups vald, þar til hann bætti fullum bótum, en Runa veitti Andrès biskup Júngkæra Þorleifi syni Biarnar hins ríka oc Olafar, oc gaf honum alla penínga þá, er Jón prestr hafdi átt. Ei vita menn at Marcellus biskup hafi sídann rádid fyrir Skálholti; hann var lengi med Kristiáni konúngi, oc hafdi hann í fyrstu viliat koma honum til erkibiskupsdóms, því hann var honum hollari en hinir norrænu erkibiskuparnir, enn Nicolás páfi hinn fimti med því nafni, þrengdi inn á erkistólinn sem fyrr segir Henrik Calleisen útlendum oc afgömlum, oc ókunnum öllum landshætti, nærst eptir Aslák, enn Marcellus fèkk ei frammgáng, tók Olafr skiótt vid eptir hann, enn þá var Marcellus at páfans forlagi gripinn í Kölni, er hann kom af Rómferd, oc settr í fángelsi, en tekit frá hönum allt er hann hafdi, dyrgripir hans oc öll brèf, einnin þau er komu vid konúngs eyrindum; sendi þá konúngr til Róms med ákiæru sína, yfir slíkum skada oc vanvyrdu, enn engin fèkkst þó rètting medan Nicolás páfi lifdi, oc tók þá konúngr upp allt kaupmannafè kölnarmanna, hvar sem hann stód þá. Sídann

sendi kónúngr til Callixtus páfa, er kom eptir Nicolás; oc sagdi marga menn í Þrándheims umdæmi fallna frá páfanum oc hinni rómversku kyrkiu fyrir þetta tiltæki, til Rússa trúar. Kom þá svo um sídir med milligaungu Alphonsi Spánar konúngs, at páfi lèt leidast til, oc baud erkibiskupinum í Lundi at ransaka málid, gaf þó margar þúngar sakir Marcello; þar kom Marcellus biskup á þíngid oc bar af sèr allar sakir, en erkibiskup vildi ei úrskèra, oc vísadi málinu til páfans aptr, fèkk hann þá enga uppreisn medann Calixtus lifdi, oc ei heldr af Pió, er eptir hann kom, oc ætla menn hann dáit hafa í þeim þrautum; hafdi hann forrád Skálholts biskupsdæmis um XII ár, oc vitum vèr ei meira af honum at segia.

## XLVII. Kap. Frá ímsum mönnum.

Dagin eptir Jónsmessu Hóla biskups, sem er hinn þridie dagr Martii mánadar, þá er Olafr biskup Rögnvaldsson hafdi setid einn vetr at stóli sínum, skipadi hann Agnesi til Reynistadar príórissu enn ei abbadís, med þeim skilmálum at hún syndi biskupi alla hlídni oc trúleik, mynki med engu móti klaustrs fèd, skipi siálf engann rádsmann, oc giöri engin jardaskipti án biskups leifis; enn daginn fyrir Philippi oc Jacobi hèt Þorleifr nockr Arnason Agnesi þessari oc öllum systrum þar á klaustrinu, at aldrei skyldi hann taka klaustrid, nè nockud þat því heyrdi til, oc ei hefdi hann slíkt giört, edr væri slíkt at sínu rádi skèd, voru þar at vottar Sigurdr prestr Þorláksson oc tveir adrir, Brandr Jónsson á Hofi, er þá var lögmadr oc fleyri leikmenn. Brandr hafdi lögsögn nordan oc vestan oc er af flestum sagdr sonr Jóns prests Pálssonar. Þá var Bárdr ábóti á Þyckvabæ. Þá seldi Ragna Audunnardóttir Byrni bónda Þorleifssyni XL hundrud í Alptanesi á Myrum, var þar einn kaupvottr Narfi son Þorvalds Þorkèlssonar, er sídar bió at Eyri á Skógaströnd; Haukr Einarsson seldi Byrni Hvassafell í Nordrárdal, Griót í Þverárhlíd oc Hafrafell í Dölum, fyrir hans hlut í Túngufelli í Hreppum oc Minnibrú í Grímsnesi, enn Einar Markusson oc Gróa Jónsdóttr kona hans Olufu Loptsdóttr konu Biarnar, Arnardal í Skutulsfyrdi fyrir Háahól í Bólúngarvík, Þá hafdi Egill bóndi Grímsson, sá er fyrr er nefndr, syslu í Húnavatnsþíngi,

hann lèt gánga sex manna dóm at Sveinsstödum í Vatnsdal laugardaginn fyrir Vor-króssmessu um tyu hnefahögg oc fimtán á búkinn, eitt jardvarp oc fiögr knèskot, oc eitt brióst-högg med fæti, er Þorsteinn Gudleiksson veitti Gudfinnu Jónsdóttr, dæmdu þeir honum fimm aura sekt fyrir hvört höfudhögg oc knèskot oc konúngi hálfa mörk, en fimtán álnir fyrir hvert annat atvik, oc konúngi tólf álnir. Oddr Brandsson var fyrstr af dómsmönnum. Þat sumar á sunnudaginn nærstann fyrir Olafsmessu seinni, var giör kaupmáli, er Andrès son Gudmundar Arason á Reykhólum fèkk Þorbiargar dóttr Olafs bónda Geirmundarsonar, hafdi Andrès til kaups med sèr III hundrud hundrada, enn Júngkæri Þorleifr Biarnarson gaf honum tvö hundrud hundrada, oc hèldt brúdkaup fyrir sextyu hundrud. Olafr bóndi oc Sigrídr Þorsteinsdóttir kona hans gáfu dóttr sinni II hundrud hundrada; vard skömm vinátta þeirra Þorleifs oc Andrèsar, því at eignir Gudmundar hins ríka voru miöc komnar til Biarnar födr Þorleifs, enn Andrès var hinn mesti stórbocki at því er ráda er.

## XLVIII. Kap. Jón Krabbi verdr biskup.

1462 Hin nærstu missiri, þá er lidnir voru fullir tyutygi vetr frá Grundar bardaga, enn eigi fullir sextyu frá plágunni miklu, er en gètid Andrèsar biskups í Skálholti, oc at Júnkæri Þorleifr Biarnarson afhendi hönum stadinn í Hruna, oc tók qvittan fyrir hans medferd, þat vottudu prestar Sveinn Pètrsson Spaki, er þá var Officialis Skálholts kyrkiu, Salomon Magnússon oc Oddr Olafsson. Sveinn var oc meistari at nafnbót, hann vitnadi oc med ödrum prestum um vidskipti Þorleifs oc Stepháns Jónssonar, hafdi Þorleifr tekid at sèr peninga eptir Jón prest bródr Stepháns, er hann hafdi sekr um ordid vid Skálholts kyrkiu, tilskildi Stephán sèr framfæri hiá Þorleifi. Þá seldi Erlendr Gunnlaugsson Biarna Olasyni í Hvassafelli oc Margretu Olafsdóttr konu hans Öxará í Liósavatns kyrkiusókn. Þá var vígdr til biskups í Skálholt Jón Stephánsson Krabbi edalmadr nockr, þó at fáir gèti hans í sagnabókum, hann var ádr vígdr til Stafángrs, en rimdi þadann fyrir Sigfridi biskupi er páfinn þrengdi þarinn; vid hans útkomu lögudust ímsir hlutir, er aflaga höfdu farit, medann enginn rèttr biskup

var; þá gèkk tólf presta dómr á prestastefnu at Eyrarlendi mánudaginn nærstan eptir Pètrsmessu, enn sex prestar sóru at Drángey hefdi heyrt til Hóla kyrkiu þá um XL ár, var dæmt um fferd oc veidiskap Þorsteins Brynjólfssonar á eynni í óleifi Olafs biskups, enn þeir voru fyrstir dómsprestа, Semíngr Magnússon Officialis oc Þorkèll Gudbiartsson. Annann dóm dæmdu þeir hinir sömu, nema Þorsteinn Jónsson í stad Þorkèls Gudbiartssonar, oc dæmdu Drángey Hóla kyrkiu, enn Þorsteinn skyldi svara fyrir hveria ferd til eyarinnar þriátyu mörkum til heilagrar Hóla kyrkiu, oc taka lausn, enn bannfærast ella; fleyra finst enn af giörníngum. Þá segia sumir at Andrès Gudmundarson fengi Þorbiargar oc er þat ósannara, þá voru börn þeirra, Gudmundr undir Felli í Kollafyrdi, oc Biörn, enn Ari var launsonr Andrèsar, er sídar bió á Bæ í Raudasandi, madr lítt varfær oc óvæginn oc stór í broti.

## XLIX. Kap. Fráfall Einars Þorleifssonar oc frá Byrni.

Nú má eigi undarligt þykia, þó ec telie þat nærst er margir telia miklu sídar því þat er miöc margt hèr tynt, er ec veit hvergi í frásagnir fært annarstadar, en sumt ödruvís nidrskipad, oc þyckist ec þó hafa full sannindi fyrir, má þó allt at einu enn um bæta mína vidleitni, oc því heldr ef hún hefur nockru vikid í veg ádr um sumt, enn þat sem nú er nærst er um fráfall Einars Þorleifssonar, er adrir telia miklu sídar skèd hafa. Þat var um vetrinn þann hinn nærsta því er nú er greint, at Einar Þorleifsson er fyrr 1463
var hyrdstióri, bródir Biarnar, er þá bió at Kúlu í Svínadal, átti leid yfir Laxárdalsheidi med sveinum sínum, þeir voru tólf samann; giördi á þá forrádsvedr oc stórfiúk á Sölvamannagötum, oc dóu þá menn af honum á heidinni, enn tveir ridu daudir froenir til stadar í Hrútafyrdi á Andrèsdag, gafz þá upp hestr Einars, en einn hans manna, er Sölvi hèt, syndi svo mikid afrek at hann bar Einar á baki sèr til stadar miög lángann veg, var hann þó miöc kalinn, oc gaf Sölva jörd til sextyu hundrada, dóu flestir af kuldanum er eigi urdu úti, en Einar siálfann leysti sundr í lidum, segia menn at hann hafi átt tvö launbörn, oc gèfit þeim tyu hundrud hundrada í löggiafir, enn Biörn bródir hans arfdi, oc er þat eitt til sannínda um at Einar lifdi þeirra skèmr. Biörn hafdi

þá enn hyrdstiörn, oc var þá mikill ordinn audr hans, hann seldi þá Skúla Loptssyni Meiravatn í Skagafyrdi fyrir Hlíd í Bolúngarvík, oc Henrik Refken medkèndi, at hann hefdi goldid konúnginum fimmtyn lestir skreidar oc hálft annad hundrad oc XIII nobel fyrir fè Gudmundar Arasonar á Reykhólum, þat qvittunarbrèf var útgèfid í Arnarholti í Borgarfyrdi sunnudagin nærsta fyrir Mariumessu oc sannar enn at Biörn enn eigi Loptr keypti Gudmundareignir; margar sagnir eru um Biörn oc Olufu konu hans, sumar sannar sem um þat er Enskir oc Skottar tóku þau er þau voru í förum, oc allt fólk þeirra, en sumar yggiandi sem um Grænlands ferd þeirra, oc at þau hafi brotit skip sitt í óbygdum oc tröll tvö karl oc kèrling þád af þeim giafir oc borgid þeim til manna bygda. Þá var mikill yfirgángr enskra kaupmanna hèr vid land, oc sendi Kristián konúngr brèf sitt Byrni at hann stöckti þeirra áþián med hardri hendi, dyrfdist þá Biörn vid oc tók upp vörur fyrir Englum oc Skottum, elldist hann enn þar vid at fè enn leiddi af lángann óþocka med Englum oc honum sem sídar kom fram. Þessi voru börn Biarnar oc Olufar: Arni, hann fèll á Búnkabergi af Kristiáni konúngi, er hann bardist vid Svía, Einar oc Þorleifr, er gètid hefr verit, hann fèkk Ingvildar dóttr Helga Olafssonar, oc Akra-Kristínar, þá þóttu mein á sem en mun sagt verda; þeirra börn voru Biörn á Reikhólum, Gudny er átti Grím á Ökrum oc Jardþrúdr er átti Gudmund Andrèsson undir Felli, Kristín er átti Eyrík Haldórsson, oc Helga er átti Eyólf Mókoll hinn sídara Gíslasonar frá Haga, Philippussonar Sigurdarsonar fóstra. — Þorsteinn var launsonr Þorleifs — Solveig var enn dóttir Bjarnar hins ríka oc húsfrúr Olufar, hún átti láunbörn vid Jóni Þorlákssyni skrifara, er hún bió at Hóli í Bolúngarvík, en Biörn fadir hennar vildi ei hún ætti hann, hennar fèkk sídann Páll son Jóns Asgeirssonar, þeirra son Þorleifr lögmadr. Solveig Þorleifsdóttr var systir Biarnar, hún átti Örn Loptsson, þeirra synir Einar oc Loptr, en med Sigmundi presti Steindórssyni átti hún Jón oc Bergliótu, Asgrímr var oc son Sigmundar prests bródir Jóns; var þat mestr ættbogi hèr í landi er frá Byrni oc Lopti er komit. Jón Danr á Eyri í Arnarfyrdi var launsonr Biarnar hins ríka, enn Þóra dóttir, er átti Gudna Jónsson, þeirra son Biörn í Ögri, önnr laundóttr Biarnar hèt Þuridr, hennar fèkk Narfi á Byri son Þorvalds Þorkèlssonar, þat

hèt fyrrum Geirraudareyri, enn Narfeyri bygg oc heiti eptir hönum; þat er köllud Vestfyrdínga ætt, er frá Byrni er kominn.

## L. Kap. Frá ímsu.

Um vorit í fardögum afhendti Ormr bóndi Loptsson at skipan Jóns biskups Stephánssonar Krabbe, Sigurdi presti Jónssyni Hytardal, oc þá penínga er fylgdu; sá Sigurdr prestr var son Jóns Asgeirssonar brodir Gudna, Páls oc Orms oc Gudfinnu at Stadarfelli er Þórdr Helgason átti, hann er sagt at kalladr hafi verid Beigaldi, oc átt Beitabergs rètt fulla, á haustum af saudfè, en lógat því er afgèkk rèttinni, oc hafi saudrinn verid XX hundrud. Einar bóndi son Orms Loptssonar skildi vid Reykholt, en Gunnar prestr Gíslason tók vid, er þó getid sídar, at prestr sá hèt Rafn Gilsson, er pantsetti kaleik er vóg átián aura fyrir skuldir biskups, enn adrir segia Jón biskup Stephánsson, hefdi hann í burtu, oc stædi hálfir Audstadir sídann í pant fyrir, þar til er Rafn prestr gyldi kyrkiunni jafngódan, því hann hafdi tekid vid kyrkiunni í ábyrgd sína, þá Loptr bóndi Ormsson afhendti vegna Einars bródr síns er dáin var, oc er eigi liódst hverium þat var at kènna biskupi eda Rafni presti; var þar um ólíkt álit hinna sídara biskupa Magnúsar oc Stephâns Þorbiörn prestr Asmundarson tók vid Gilsbacka, en Gudmundr prestr Narfason lèt lausann; Magnús prestr tók vid Miklaholti, hafdi Helgi verid þar ádr prestr um siö ár, enn Árni Gunnsteinsson fyrir hann; ekki giördi Jón biskup Stephánsson hèr í landi annat þat er teliandi var svo at menn viti, enn Olafr biskup hafdi margt fyrir stafni, þá er þetta var, sem hvert ár sídann; hönum lofadi Þorsteinn prestr Jónsson at lúka Hóla kyrkiu LX hundrud fyrir reikníng rádsmensku sinnar sídann Gottskálk biskup dó, gallt hann XV hundrud í Holti í Hialtabakkasókn, oc hálfann Prestkvamm í Grenjadarstadarsókn, enn X hundrud lètst Olafr biskup mundi uppgèfa fyrir bón abbadísarinnar á Stad í Reyninesi frú Margrètar oc annara; í Gudmundarlóni á Lánganesi keypti þá oc Olafr biskup þá jörd af Jóni Eyólfssyni fyrir at láta kènna syni hans til prests, þar voru vid prestar Sveinbiörn Þórdarson Officialis, Hallr Arnason, Oddr Gudmundarson oc en fleyri, hann hafdi oc jardaskipti vid Odd Þorbiarnarson þar nyrdra, hann lèt oc Brand lögmann Jónsson tiempa sèr alla skatta oc skyldr um

Skagafiörd, enn Olafr bóndi Grímsson hafdi þó jafnframt sysluna. Þá qvittudu dætr Þorvardar Loptssonar allar saman Margrètu módr sína um fiárhald þeirra um tólf mánudi, oc fólu henni á hendr at nyu, þar til voru hinir fyrstu vottar Einar ábóti á Múnkaþverá, oc Semíngr prestr Magnússon. Þá var oc giör samníngr milli Eyólfs bónda Arnfinssonar um arf eptir Gudrúnu systr sína á Grítubakka í Höfdahverfi vid Odd bónda Þorkèlsson, er sagt at sá Eyólfr væri riddari, en svo er at siá sem ekki hafi verid munr giör á edalmönnum oc ödrum gódum bændum í þann tíma nema sá er audr giördi. Örnolfr Einarsson hèt þá syslumadr á Vestfiördum, hann lèt sex menn dæma Deildará á Skálmarnesi Eyólfi Magnússyni Hvestu í Arnarfyrdi, mætti þat skè at sá hefdi verid Eyólfr Mókollr eldri, því födrnafn hans er eigi nefndt í ættatölum, en Philippus Sigurdarson var fyrstr dómsmanna, oc hefr hann þá allgamall verid, því lángt var sídann Sigurdr Fóstri fadir hans var uppi. Philippus bió í Haga, oc voru hans synir þeir Hermann, Gísli oc Olafr er sídar verdr gètid. Þá var Jón Pálsson ábóti at Helgafelli; enn Einar ábóti Isleifsson fèkk Jódysarstadi undir Múnka-
1464 þverár klaustr hin næstu missiri.

## LI. Kap. Frá Olafi oc Jóni presti Pálssyni.

Olafr biskup Rögnvaldsson á Hólum hafdi tekit vid Officialisstarfa af Jóni presti Pálssyni á Grenjadarstad þá hann kom til stólsins oc gèfit hann qvittann at fullu, enn er hèr var komit, hófst med þeim ágreiníngr út af Valþiófstad er Jón biskup Tovason hafdi dæmdann undir Hóla kyrkiu, enn sídann kom sú jörd í umrád Jóns prests Pálssonar, oc hèldt Þórun Finnbogadóttir jördina, fylgikona Jóns prests, oc bió á henni sem eign sinni; steíndi þá Olafr biskup henni fyrir tólf prestadóm sinn at almenniligri prestastefnu á Eyrarlandi í Eyafyrdi, föstudaginn fyrir Þorláksmessu um sumarit, kom ekki Þórun oc enginn af hennar hendi, en biskup lèt sveria þar lysíngu Jóns prests Biarnasonar er fyrr var, at hann hefdi fengid Hóla kyrkiu þá jörd til fullrar eignar, oc at Hákon Kálfsson bió sídann á henni tyu vetr, oc galdt árliga afgiald af til Hóla, lèt þá biskup dæma Valþiófstadi verid hafa oc vera eiga Hóla kyrkiu eign, nema Þórun syni med löggligum vitnum fyrir biskupi

at hún sè med lögum gengin undann Hóla kyrkiu, þeir voru fyrstir dómspresta Sigurdr Jónsson oc Sigmundr Steindórsson. Þvínæst sendi Olafr biskup Olaf prest Þorgeirson í Húsavík til Þórunnar Finnbogadóttr, var hún þá at Grenjadarstad med Jóni presti Pálssyni, til at lesa dóm þennan yfir henni, enn er Olafr prestr kom þángad, oc hóf at lesa dómin sunnudagsqvöldid fyrir Jacobsmessu, fór þeim Jóni presti nockud á milli þar á hladinu, oc kærdi Olafr prestr sídann fyrir biskupi, at Jón prestr Pálsson hefdi tekit til sín, hrifid í brèfid oc viliad af sèr taka, oc blótat sèr med fullri heipt þar til er Þorgils Gunnlaugsson hefdi gripit í brèfit oc þrifid úr höndum sèr oc slitit sundr, oc haft med sèr hinn mesta hlutann oc smá-innsiglinn. Fyrir þetta bannsetti Olafr biskup Þorgils; en forbodadi Finnboga son Jóns prests oc Þórunnar, enn um Jón prest siálfann er ei gètid; messusaung fyrirbaud hann at fremia oc prestsþiónustu á Grenjadarstadar kyrkiu, oc stód nú svo þanninn um hríd, því at Jón prestr Pálsson lèt ei audveldliga sinn hluta, þrútnadi óvild med biskupi oc þeim fedgum. Þau missiri seldi Jón Olafsson Einari ábóta á Þverá Stockahladir í Eyafyrdi fyrir Snartarstadi oc Brekku í Núpasveit, enn Margrèt Gamladóttir handfesti Einari ábóta at hún hefdi aldrei samþyckt at Jón prestr Pálsson ætti neitt ved í Klifshaga, þar var Sveinbiörn prestr Þórdarson einn vottr; margir voru giörníngar giörfir adrir þeir er til hafa verid; þat var einn er þeir brædr Haldór, Hrafn oc Sniólfur synir Brands Haldórssonar á Bardi, skiptu þá jördum med sèr; eitt var kaupmáli Biarnar Sæmundarsonar oc Sniófrídar Biarnadóttr at Myrká, hafdi hann til kaups II hundrud hundrada oc XXX hundrud, enn máli hennar II hundrud hundrada oc XV hundrud; eitt var Proventugiöf Sveins Gudmundarsonar til Olafs biskups, oc eitt vitni Steinmódar ábóta í Vídey oc Jóns Narfasonar at Oluf Loptsdóttir afhendi Gerrik gullsmid þrettán gull nobel oc tuttugu oc þriú í gódu sylfri, vegna Biarnar hyrdstióra bónda síns fyrir Gudmundar eignir. Þá hafdi Brandr Sigurdarson syslu í Húnavatnsþíngi, oc lèt gánga sex manna dóm at Svínavatni á Asum, um þat at Magnús Jónsson skyldi gialda Egli bónda Grímssyni fiártoll af Eyvíndarstadaheidi oc reka þángad, oc allir bændr milli Gaunguskardsár í Skagafyrdi oc Laxár á Skagaströnd, sem eiga tyu lömb eptir úrskurdi Einars lögmans Gilssonar, enn lamb

skyldi gialda af rekatri. Brandr Arnþórsson oc Einar Hallfrædarson hètu þeir er fyrstir voru í dóminum, oc enn fleyra mætti telia þat er ókunnari menn áttu hlut at, oc minna er verdt.

## LII. Kap. Sveinn verdr biskup, oc frá Olafi.

1465 Þessunærst vard þat til tídinda at deydi Henrik Calteisen er fyrr var erkibiskup oc Jón Stephánsson Krabbi í Skálholti. Þá voru luktir Biarna Marteinssyni peníngar Ragnhildar Þorvardsdóttr konu hans, III hundrud hundrada í jördum oc annat, af Jóni Narfasyni á Eydum; oc var kaup Jóns sonar Olafs Loptssonar vid Sigrídi Arnadóttr á Stockseyrarjördu, áttu þeir lángfedgar þá jörd sídan, enn Jón bió í Klofa á landi, oc hafdi syslu þar um sveit oc var hans son Torfi, oc fleyri giördust slíkir giörníngar. Olafr biskup Rögnvaldsson var jafnan fengsamr hvert ár; fyrir honum var þat svarid, at Skúli Loptsson hèldt sydra Vallholt í Skagafyrdi sína eign, þat sór Þorleifr prestr Magnússon rádsmadr á Hólum, oc Jón bóndi Þórdarson í Skagafyrdi er sídar gètr; enn biskup lèt XII presta dæma sèr oc Hóla kyrkiu jördina frá Skúla at Vidvik mánudagin eptir *Octavam Epiphaniæ*, var þar Sveinbiörn Þórdarson Officialis fyrstr dómspresta oc Þorleifr Magnússon rádsmadr; biskup dæmdi oc þat ordtak Arna biskups ekki afl meiga hafa, at hann mætti selia Vallholt; Einar ábóti á Þverá, Hallr prestr Asgrímsson oc Asgrímr prestr Steindórsson oc enn fleyri vitnudu þá at Biörn Sæmundarson handabandadi Olafi biskupi Dattstadi oc Hóla fimtyu hundrud, bádar í borgun fyrir kyrkiufè á Einarstödum í Reykiadal. En þar nærst eptir var meistari Sveinn
1466 prestr Pètrsson hinn Spaki er fyrr gètr, vígdr til biskups í Skálholti; mælt er hann hafi ádr nockru medann hann var prestr, skyrt barn einhveriu sinni, oc sagt því mætti ætla *Brók enn ecki Socka* því flysiúngr mundi verda, oc þótti þat rætast, er þess ádr gètid hvad menn ætludu valda slíkri hans gètspeki. A þeim missirum lögdust undir Þverár klaustr Skinnastada skógar allir. Olafr biskup stefndi presti einum nyrdra Jóni Pètrssyni, fyrir dóm sinn til almenniligrar prestastefnu at Vídivöllum föstudaginn fyrir Jónsmessu Baptistæ, fyrir þat hann hefdi þiónustat Finnboga Jónssom oc heimafólk hans, oc messad yfir þeim í Grenjadarstadar kyrkiu

á móti forbodi sínu; kom prestr ekki á stefnudaginn, oc var hann dæmdr fallinn í bann af siálfu verkinu, skyldi hann gialda III merkr fyrir hvern mann er hann hefdi þiónustad í forbodi biskups, í Grenjadarstadarþíngum, oc sex merkr fyrir hvern þann er samneytt hefdi Þorgilsi Gunlaugssyni medann hann var í banni, oc hafi lokit allt í nærstu fardögum, þar med skyldi hann skyldugr, at fara heim til Hóla, taka lausn oc skriftir af biskupi siálfum, oc missa messusaung svo lengi sem nád biskups oc löginn áqveda, er prestr þessi sumstadar kalladr Jón Olafsson, en Semíngr Magnússon oc Jón Broddason voru fyrstir dómspresta; má þat ei siá af brèfabókum er allar slíkar frásagnir eru afteknar, hve framfór sídann med Olafi biskupi oc þeim frændum Jóni presti Pálssyni oc Finnboga syni hans, um þessi mál hina nærstu tvö vetr, en adra giörnínga ómerkiligri má finna þessi missiri, oc í einum gètr þess, at Arni Sæmundarson hafdi deilt til hálfrar Stockseyrar vid Jón Olafsson í Klofa, en Sigrídr Arnadóttir módir Arna, vann bókareyd at Stærrum Völlum í Landmannahrepp fyrir Oddi lögmanni Asmundarsyni at hún hefdi þá jörd Jóni fengid. Þá var oc kaupmáli milli Hallvardar Asmundarsonar oc Valgèrdar Kenichsdóttr frændkonu Olafs biskups, gaf biskup henni XX hundrud, oc samþyckti at hún ætti Túngu í Núpsdal, er Gottskálk biskup hefdi gèfit henni, oc kiöri hana málakonu, enn Hallvardr er sagt hafi gèfit henni alls III þúsundir gyllina, má ei ágitska hvad manna hann hafi verid ef sú tala er rètt ritinn, enda kynni tölustaf aukid vera, því margt er at í fornum brèfum er skackar þar sem ritit er med tölu einni samann.

## LIII. Kap. Frá Sveini biskupi oc giörníngum.

Hin nærstu missiri, er fyrst gètid atgiörda Sveins Skálholts biskups í máldaga Eyrarkyrkiu vid Alptafiörd, oc hvad Narfi son Þorvalds Þorkèlssonar hafi tillagt kyrkiunni sá er á Eyri bió oc nú er köllud Narfeyri; frá þeim Narfa er kominn ætt mikil, var ein hans dóttir Helga er Grímr átti son Páls Brandssonar lögmanns, oc er þángad talid Mödruvellíngakyn oc Hlídarendamanna. Sveinn 1467

biskup visiteradi þá Vestfiördu, oc skipadi med brèfi sínu á Matthei messudag, at Ögri í Isafyrdi, hálfkyrkiu at Kyrkiubóli í Valþiófsdal oc gialdist tvær merkr af henni presti í kaup; gaf þá þeirri kyrkiu Haldór bóndi Hákónarson í heimanfylgiu hennar jördina Mosdal XII hundrud oc fimm hundrud í frídum peníngum, hann skyldi oc gèfa til Holts kyrkiu í Önundarfyrdi svo mikla peninga sem Narfi prestr Bödvarsson yrdi ásáttr vid Haldór, fyrir tyundir oc lidstolla sem dragast frá Holtskyrkiu til hálfkyrkiu á Kyrkiubóli; qvadst biskup vilia giöra þar IVa marka edr alkyrkiu, oc heima manna gröft þá hann visiteri nærst um Vestfiördu ef Gud vill; Þórd Helgason gaf Sveinn biskup qvittann um forna portion Stadarfells kyrkiu XVI aura, er hann gisti at Stadarfelli en vígdi kyrkiu at Holti í Saurbæ til lofs oc dyrdar Gudi, Mariu oc öllum helgum mönnum, hellst Magnúsi Eya Jarli; þá var greint hvad Oddr bóndi Pètrsson oc Sigrídr Steindórsdóttr kona hans hafi gèfit henni, gaf biskup XL daga aflát öllum þeim er henni gèfa nockud, edr sækia þángad tídir; margir eru þau missiri giörníngar taldir, oc margra manna vidgètid. Gottskálk Gottskálksson gaf Olafi biskupi Efstaland í Yxnadal, er Gottskálk biskup hafdi gèfit honum, oc qvittadi hann um verdit, þar var Sveinbiörn prestr Þórdarson einn vottr; enn Olafr biskup seldi Skúla bónda Loptssyni Ás í Vatnsdal fyrir Uppsali í Blönduhlíd; Biörn Þorleifsson hyrdstióri fèck Brandi lögmanni Jónssyni Bæ í Súgandafyrdi í lögmannskaup hans, enn jardaskipti hafdi Biörn vestra vid Örnólf Einarsson; Eyólfi Arnfinssyni seldi hann Voga á Rosmhvalanesi fyrir fimm jardir á Vestfiördum. Þá gaf Þurídr Halldórsdóttir hálfa Uppsali í proventu med sèr Einar ábóta á Múnkaþverá, hann qvittadi oc Biarna bónda Olason á Hvassafelli um jarda milligiöf, keypti oc jördum vid Þorkèl prest Gudbiartsson. Þá var kaupmáli milli Rafns Brandasonar oc Margrètar dóttr Eyúlfs bónda Arnfinnssonar, hann taldi sèr III hundrud hundrada til kaups, fór þat fram á Grítubacka í Höfdahverfi, oc var Sveinbiörn prestr Þórdarson einn vottr; annar kaupmáli var med Magnúsi Magnússyni oc Sigridi dóttr Jóns Asgeirssonar í Ögri; þridie milli Finnboga Jónssonar prests Pálssonar oc Málmfrídar dóttr Torfa Arasonar, var Akra Kristín Þorsteinsdóttir módir hennar fyrir hennar hönd, oc taldi Finnbogi sèr IV hundrud hundrada, enn hún hálft þar vid, voru kaupinn giör á Ökrum föstudaginn fyrir Mattheusmessu um haustid, oc var Olafr

bóndi Grímsson hinn fyrsti vottr; Hallvardr Asmundarson oc Valgèrdr Kenichsdóttir kona hans seldu Skúla bónda Loptssyni Túngu í Núpssókn í Midfyrdi, fór þat fram at Hólum í Hialtadal.

## LIV. Kap. Fráfall Biarnar hins ríka.

Nú verdr þar til at víkia, er fiandskapr var mikill med Byrni bónda Þorleifssyni oc enskum mönnum, var þat þá einusinni, at þeir áttust íllt vid vestr í Rifi, oc fèll þar Biörn oc siö menn adrir med honum, en Þorleifr sonr hans vard handtekinn, Oluf komst undann med XX menn, oc þó sem naudugligast, því þeir veittu henni eptirför; hún kom til Raudamels ytra, þar bió Olafr bóndi Geirmundarson, mágr Andrèsar Gudmundarsonar, er kalladr var Tóni, eptir módrfödr sínum, hann var fóstri Straumfiardar Höllu, bad hún hann gódra ráda, enn hann vard vel vid, oc tóku þau samann rád sín undir Háahialli, reid hún svo nordr af, enn er þeir hinir Ensku komu eptir, villti Olafr siónir fyrir þeim, svo at þeir snèru aptr vid Hlífarvördu, syndist þeim her óvígr fara í móti sèr, enn þat voru hraunklettar því at þoka var; mælt er at Oluf giæfi honum Snorrastadi, fèck hann oc hiá hinum Ensku hvad er hann vildi, fyrir trúliga vidvörun. Þá var miög agasamt í landi hèr, er Biörn var feldr, svosem segir í stökunni:

rostugt var í Rifi þá ríki Biörn þar dó.

Enskir hiuggu hann í stycki, at því mælt er, oc sendu Olufu, hún mælti: *Ecki skal gráta Biörn bónda, heldr skal safna lidi*; lèt hún leysa út Þorleif son sinn med fè, oc ætla ec þat fyrat hafa verit ádr hun leytadi hefnda. Svo er sagt hún hafi látid taka þriú skip Ensk á Isafyrdi, oc drepa margt manna af, enn sumir segia hún færi siálf til storræda med Þorleifi oc væri í hríngabryniu undir klædum, hún fór oc utann, oc ákiærdi enska menn fyrir Kristiáni konúngi, segia menn at konúngi hafi þótt hún væn oc sköruglig, oc at hún kæmi því til vegar, at konúngr lèti taka fiögr skip ensk í sundinu oc selia í skadabætr, oc fimm ára styriöld yrdi med Dönum oc Englum, einninn at hún hafi einhvöriu sinni haldid fimmtyu menn enska fángna heima á Skardi í Skardsströnd, oc adra fimmtyu þeim til gætslu, oc lèti giöra kyrkiustèttina miklu á Skardi, er hún brulögd sem stræti í borgum utannlands. Oluf var

miög regluföst um kyrkiugaungu, skyldi sá eigi mat fá þann dag, er eigi gèkk í kyrkiu, oc engin skyldi líta út medann messu fór fram nema mikil naudsyn tildragi. Þat er oc mælt hún hafi bedit þess Gud, at láta nockud merki verda þegar hún dæi, oc mikit er sagt af skörúngskap hennar fram yfir allar konr adrar er verid hafa á Íslándi. Þat er mál manna at þau Biörn Þorleifsson hafi audugust verid á Íslandi, bædi at fornu oc nyu oc at eptir Biörn væri LL hundrud hundrada í jördum, oc XII hundrud kúgildi en LXXX hundrud hundrada í vyrdíngafè, þó verdr ei rádit af skiptum eptir Biörn at fè þeirra hafi svo mikid verid, oc mátti þó vera ærid; hefr sagt Jón Olafsson vicelögmadr, at Torfi Arason hafi hyrdstiórn haft at nyu eptir Biörn, en þó hafdi Torfi þá fyrir átta árum giört testamentum sitt í utanför sinni, oc gèfid þar í marga fágiæta hluti mörgum mönnum helst útlendum. Þau hin sömu missiri sem Biörn var veginn, voru skipti giör eptir hann mánudaginn fyrstann í vetri í Vatnsfyrdi, þat giördu XII menn, oc voru þeir fyrstir Jón Asgeirsson oc Haldór Hákonarson tilnefndir af Junkæra Þorleifi í umbodi Olufar, vegna brædra sinna Arna oc Einars, oc systr sinnar Solveigar, fèkk husfrú Oluf helmíng, oc tók í sinn hlut Skard á Skardströnd, Máfahlíd, Bæ á Raudasandi, Siáfarborg í Skagafyrdi oc adrar jardir enn Þorleifr Reykhóla, fengu þeir brædr þá hvör at því sem þat brèf telr meir en IV hundrud hundrada í jördum einum, enn af því er sídar giördist í skiptum eptir Olufu má ætla, at þat sè annad hvert miöc vantalid edr at Oluf hafi haldid mestum eignunum edr oc at þeir brædr hafi þá ádr vid miöc miklu tekid; gèkk oc dómr XII lögréttu manna eptir andlát Biarnar, at Torfastödum í Midfyrdi, um peníngarán oc fiár upptekt á XXXV hundrudum í Sellóni, Klett oc Máfahlíd, er Oluf Loptsdóttir, Þorleifr Biarnarson oc Eyólfr Jónsson í umbodi Jóns bródr síns, kærdu til Arnbiarnar Sæbiarnarsonar, var hann dæmdr til líflåts med hálshöggi, oc þann dóm samþyckti Brandr lögmadr, en dómsmenn voru Bessi Einarsson, sá er átti Sæunni Gudnadóttr Oddssonar, hann hyggia menn verid hafa son Einars Arnasonar, enn bródir hans hafi verid Eyólfr fadir Einars í Dal, er átti Hólmfrídi Erlendsdóttr, er hann af sumum kalladr syslumadr í Húnavatnsþíngi; annar var Gudlaugr Þorkèlsson; þridji Egill Grímsson, er syslumadr hafdi verid í Húnavatnsþíngi, fiórdi Philippus Sigurdarson í Haga, enn adra sá ec ei talda.

## LV. Kap. Skúla mál.

Olafr biskup Rögnvaldsson visiteradi Nordrland þetta sumar, oc var einhveriu sinni staddr at biskupsveitslu at Saurbæ í Eyafyrdi. Skúli Arnason hèt einn sveinn hans, hann átti at skipta vid Hallvard Amundason, svo at biskup var nærri, var sá Hallvardr tengdr biskupi sem fyrr segir, vard honum þat at hann hió á hönd Olafi biskupi svo at blæddi, oc ör sást eptir sídann, í því vóg Hallvardr Skúla. Runúlfr, Sturla oc Bödvar hètu brædr Skúla Arnasynir, voru þeir eptirmálsmenn hans, oc lögdu þeir málid med handsölum vid biskup undir XII prestadóm í Vidvik, oc hètu at bæta fyrir bródr sinn þann hinn vegna. Utnefndi Olafr biskup 1468 presta í dóm föstudaginn nærstann fyrir Geisladag, var Sveinbiörn þórdarson Officialis fyrstr, oc þorleifr Magnússon rádsmadr, var þar Olafi biskupi dæmt tvöfaldt fullrètti fyrir þat hann var í visitatiu sinni, oc hit þridia rèttarfar, fyrir þat hann var húsbóndi Skúla, en þat voru XX merkr oc ein betr í sárabætr, oc þar med LX merkr hærsta fullrètti kyrkiunnar, skyldu þeir brædr hafa lokid biskupi þessa penínga heima á Hólum í nærtsu fardögum; nú þóttust þeir eiga vígsbætr eptir bródr sinn, at Hallvardi Amundasyni, oc útnefndi Jón bóndi þórdarson, er þá var syslumadr í Helgranessþíngi, þó Olafr biskup tæki mest öll giöldinn, tólf manna dóm í Vidvík á sama ári Midvikudaginn fyrir Jónsmessu; hafdi Olafr biskup heitid at gánga í borgun fyrir Hallvard, oc þóttu þeim því bæturnar í vissum skuldastad, handsaladi hvör ödrum þar á þínginu, biskup oc Runúlfr Arnason fyrir sic oc brædr sína, at leggia vígs bæturnar undir þennan dóm, enn er málid var tekid undir próf, lysti biskup því yfir, at Skúli hefdi höggvid sic á höndina, fyrr en hann fèkk banasár sitt, reiknadi hann þar fyrir, oc stód fast á, at Skúli hefdi fallid í hin mestu stórmæli heilagrar kyrkiu edr óbótamál; en þótt dómendr þyrdu ei at takast á hendr at dæma um kyrkiulögin, nè þættust finna liósa lagagrein í veraldlegu lögmáli í slíku tilfelli, dæmdu þeir ekki Skúla ógyldann fallid hafa, heimfærdu heldr til lögbókarinnar orda, þat enginn mætti syndlaust giöra at taka mann af lífi, nema dómari sá, er konúngr hefdi þar til skipad, svo oc allt þat sem lögbók skèr ekki úr, þá skyldu af hveriu máli hafa þat sem lögrèttumenn yrdu allir á eitt sáttir, fyrir því lèttu dómendr af sèr vandanum oc þykkin

biskups, oc viku undir úrskurd Brands lögmanns Jónssonar oc lögréttu manna, um þat hve miklar vígsbætr gialdast skuli eptir Skúla, enn þykist hann ei gèta yfirtekid, þá riti hann til konúngs. Enn sá var úrskurdr Brands lögmans at Hólum í Hialtadal á mánudaginn fyrir Maríumessu seinni: At sökum þess at siálfr biskup hefdi gengid í borgun at gialda erfíngium fullar vígsbætr, oc konúnginum þegngyldi, oc gefit Hallvard qvittann konúngdómsins vegna, med því biskup hafdi sakaföll oc tekiur í Hegraness syslu oc tekid í sátt oc hlídni heilagrar kyrkiu — svo oc eptir rèttarbót Hákonar konúngs, at vandræda menn þá alla sem á kyrkiunnar nádir komast, skuli sektalaust færa meiga til Noregs, eptir lögmannsrádi, enn sá er fullvedia sem bætrnar á at lúka, þá skyldi Hallvardr Amundason vera friálsliga feriandi oc flytiandi til Noregs á konúngs nádir, oc fá aptr landsvist, edr þá vægd sem konúngr vill á hans máli giöra; fríadist svo Hallvardr, oc er ei þess gètid at vígsbætrnar hafi framkomid, oc sannadist þar hid fornqvedna: *at hinn lægri verdr at lúta.*

## LVI. Kap. Sætt biskups oc Jóns prests Pálssonar.

Laugardaginn fyrir Jacobsmessu á þeim missirum, var mikill mannfundr á grundinni fyrir ofann Ródugrund í Skagafyrdi; sá bær er kalladr af Ródukrossi þeim, er þar var reistr eptir Brand Kolbeinsson er hann var veginn þar, þá hann flúdi úr Haugsness bardaga. Þar gèkk samann sætt med þeim Olafi biskupi oc Páli bónda, oc er svo sagt at Páll bóndi Brandsson, hafi vegna Jóns prests á Grenjadarstad sonar síns, oc Finnboga sonar hans handabandad biskupi at öll sú ákiæra, sem hvör þeirra fyrir sig þóttist eiga til jardarinnar Valþiófstada, skyldi med öllu nidrsleginn, oc jardarverdid qvitt, ef þat mætti heldr verda þeirra fedga at lögum; þar med handsaladi Páll bóndi Olafi biskupi XL hundrud, oc þar til at giöra honum veitslu, oc gèfa honum sæmilig þíng, eptir því sem hann vildi giört hafa, skyldu allir þessir peníngar oc veitslann greidd hit seinasta at ödru hausti nærsta þar eptir; þar í mót gaf biskup þá Jón prest oc Finnboga, oc alla þeirra fylgiara qvitta oc ákærulausa, um alla þá penínga oc reikningskap, sem þeir voru biskupinum oc Hóla kyrkiu skyldugir, oc öll

málaferli þeirra, enn vottar at því sáttmáli vóru Einar ábóti á Þverá, Sigurdr prior á Mödruvöllum, Sveinbiörn prestr Þórdarson Officialis, oc Þorleifr prestr Þórdarson rádsmadr oc en fleyri. Þat er þó sannast at segia at nockud má vyrdast undarligt, þótt ec viti enganu athugad hafa, at Páll þessi Brandsson hafi verid fadir Jóns prests Pálssonar, því at svo hefr hann mikilsháttar madr verid, at finnast mætti nefndr eptir edr ádr, er hann lifdi svo lengi, oc ættartölr segia Pál Þorvardsson heitid hafa födr Jóns prests; var oc fordum Páll Þorvardsson á Eydum, er dó í plágunni miklu, enn Jón prestr Pálsson er þetta skèdi, hefr hlotid at vera hálf-áttrædr hit minsta, oc ef hann er fadir Brands lögmans, átt roskinn sonar-son, qvæntann fyrir átta vetrum; hefdi þá fadir hans ordid at vera ef lítat hefdi nær tyrædr madr, oc var líkara, at hann hefdi þá heldr verid undir hendi sonar síns, svo göfugs mans, en stadid siálfr fyrir sáttmálum oc veitsium vid biskup; er ei fiær at ætla at Páll þessi Brandsson hafi verid sonr Brands lögmans, tengdr hinni ríkustu ætt, oc hinn audugasti madr, er þar med hafdi afla Brands födr síns, oc sonarsonr Jóns prests, sem ættartölr segia, edr annar náfrændi hans, má þar um ætla sem vill. LX hundrud segir annarstadar at hann hafi handsalad biskupi, oc Þorleifr Magnússon er ádr nefndr rádsmadr á Hólum, enn ei Þórdarson, er nú lokit þrætu Olafs biskups oc Jóns prests Pálssonar; enn þau missiri er gètid margra giörnínga; húsfrú Oluf handlagdi Örnólfi Einarssyni jardir nockrar, en medkèndist at hafa fengid Magnúsi bónda Jónssyni Galtarnes í Vídidal fyrir fulla penínga, oc Þorleifr qvittadi nefndann Magnús, velborinn mann, um verd Bödvarshóla. Festi oc Sumarlidi Eyríksson Loptssonar Gudrúnu Arnadóttr skiallega til eginkonu sèr í stórustofunni at Kálmanstúngu, en þar um var vitnisburdarbrèf giört sex árum sídar. Þá gengu Reykir í Fnióskadal til Þverárklausts, oc þá stadfesti Sveinn biskup Spaki á Jacobsmessu í skrúdahúsinu at Skálholti kaup á Midfelli í Hrunamannahrepp; hann visiteradi Austfiördu um sumarid, oc á Thomasmessu fyrir jól útgaf hann Haldóri Hákonarsyni qvittunarbrèf sitt, fyrir þau V hundrud sem hann hafdi lukt Holts kyrkiu fyrir aflausn hálfkyrkiunnar á Kyrkinbóli.

## LVII. Kap. Frá Lopti Ormssyni.

Loptr son Orms Loptssonar hins ríka oc Solveigar Þorleifsdóttr Arnasonar, átti vid Steinuni dóttr Gunnars Jónssonar í Sælíngsdalstúngu tvo sonu, Stephán oc Pètr, eru eigi ættir komnar frá Stephání; svo er sagt at Loptr hafi heitid at gèfá Stadarhól fyrir Benificium, ef hann ætti ekki skilgètin erfíngia á Islandi. Loptr
1469 qvændist í Noregi oc gaf konu sinni frú Gunnhildi XX merkr gulls á brúdkaupsdegi (ad því er Biörn á Skardsá sagdi) oc átta gángandi kyr fyrir hvöria mörk gulls edr þeirra verdt, þó er ei gètid um þeirra atqvæmi eda sambúd. Loptr skipadi Gudna son Jóns Asgeirssonar yfir eignir sínar medann hann var utann oc gallt honum X hundrud í kaup á ári. Loptr vard eigi gamall oc tók Solveig módir hans fè eptir hann, enn prestar hèldu Stadarhól; Olafr Oddsson var fyrstr, þá Haldór prestr Tyrfíngsson modurfadir Gudmundar á Hvoli, þá Þórdr prestr Olafsson, er þadann var rekinn af Byrni presti syni Jóns biskups. Pètr son Lopts var fadir Magnúsar Pètrssonar, er mikill ætt er frá kominn oc Ragnheidar módur þeirra Svalbards brædra; verdr Pètrs opt gètid því hann var mikilsháttar madr, oc miklir menn af honum komnir; Gudlaugr hèt enn sonr Lopts Ormsonar, hann átti Önnu dóttr Narfa á Narfeyri systr Helgu er Grímr Pálsson átti; þeirra son var Loptr í Liáskógum, hann mægdist vid Akra menn, oc var hans son Arnór í Liáskógum, þat heitir Liáskóga ætt. Þat ár sem Loptr Ormsson qvændist erlendis kom Sandfellshagi í Axarfyrdi undir Þverár klaustr; þá jörd seldi Einari ábóta Hákon Hallsson Finnbogasonar hins gamla í Asi, hann er sagt búit hafi á Vindheimum, oc var fadir Gísla bónda er sídann gètr. Magnús Jónsson seldi Þorleifi Biarnarsyni aptr Bödvarshóla, enn Haldór Jónsson Eyólfi bónda Arnfinssyni Brimnes í Svarfadardal oc fleyri urdu þá giörníngar. Hid sama ár hafdi Loptr gèfid Gudna umbod sitt oc utannfarid sem hann qvæntist í Noregi, oc skèdi þetta allt á einum missirum.

## LVIII. Kap. Höfudsmadr kèmr, oc frá Runólfs málum.

1470 At lidnum hinum nærsta vetri kom út Henrik Kerker med hyrdstiórn á Islandi, hann hafdi nockr konúngsbrèf; hafdi vetr verid

hardr frá jólum enn hafís lá um land allt fram á sumar. Um þær mundir ætla menn Jón Pálsson ábóta á Helgafelli dáid hafa, oc kom eptir hann Magnús son Eyólfs Mókolls hins fyrra; þá visiteradi Sveinn biskup Vestfyrdíngafiórdúng oc giördi máldaga Hytardals kyrkiu, var hún giör XII hundrud, enn kúgyldi hennar XXX kyr, oc XX ásaudar kúgyldi, med því einu er ródukrossinn á Völlum átti. I þeirri yfirför giördi hann hálfkyrkiuna at Kyrkiubóli í Valþiófsdal at alkyrkiu, oc gaf henni allann kyrkiu rètt, enn Gudi, júngfrú Mariu, oc hinum heilaga Þorláki biskupi til æru, gaf hann þeim öllum, sem til þeirra kyrkiu sækia med godfysi, fremia þar bænir, edr gánga um kyrkiu, oc bidia med Pater noster oc Ave Maria, eda gèfa nockr offr eda peninga kyrkiunni til eflíngar, fiögra daga aflát fyrir hvert þessara gódverka; gètid er þá í giörníngum Narfa prófasts Bödvarsonar á Vestfiördum, oc Halls prests Arnasonar nyrdra í Öxarfyrdi, oc at Sumarlidi Eyriksson qvittadi Þorleif Biarnarson fyrir Kollabæ í Fliótshlíd; enn mánadaginn fyrir Marteinsmessu, at Miklagardi í Eyafyrdi, kærdi Ingibiörg Einarsdóttir fyrir Olafi biskupi Rögnvaldssyni, at Runólfr bóndi sinn Höskuldsson, er ec hygg son Höskuldar Runólfssonar er fyrrüm er gètid, hafdi um lángann tíma legit í hórdómum, oc gètid fimm börn med Haldóru Þórdardóttr, enn hit siötta med Þórdysi Gudmundardóttr, oc sic med öllu smád oc afrækt, svo at hún hefdi enga skyldu af honum fengit, hvörki í samvistum, mat edr fötum, fyrir sic oc börn sín, mínkunarlausa; bad hún biskup rètta hlut sinn, oc skilia sic vid þat hiónaband ef lög leifi, oc hèt biskup med handabandi at halda hreinlífi oc hafa engann mann medann Runólfr lifdi, ef þau yrdi at skilinn; enn eptir um vetrinn á midvikudaginn fyrir Pálsmessu, 1471
kom Runólfr Höskuldarson á prestastefnu í Vidvík, sættist hann þar vid biskup, oc fèkk honum oc Hóla kyrkiu til æfinligrar eignar jardir þessir, Skollatúngu í Yxnahóls kyrkiusókn, Brattavöllu í Arskógsþíngum, oc Hornbrekku í Kvíbekkiarsókn, oc þar til fimtán málnytu kúgildi, oc XXV hundrud í fridum oc fridvyrdtum peníngum, fyrir alla hórdóma sína med Haldóru oc Þordysi; enn allskömmu þar eptir, midvikudaginn nærstan fyrir Pètrsmessu, var Runólfr á Hólum oc gaf þá Hóla kyrkiu jördina Bægisá í Yxnadal med sèr í proventu oc X málnytu kúgildi, oc þar

med XV hundrud í ödrum peníngum frídum oc ófrídum; þar í mót gaf Olafr biskup hann qvittann oc ákiærulausan fyrir allann hugarmód oc órètt er Runólfr giörfann hefdi biskupi oc prestum hans (oc er af því lióst at fleyra hefr í milli farid, enn gètid er), oc svo fyrir allar sakir hans oc hórdóma, Hóla kyrkiu vegna; enn ef nockr brestr kynni verda á lausafiánum biskupi til handa, skyldi Runólfr lúka I hundrad í jördum, fyrir hvert hundrad lausafiár, oc ei sídar enn í nærstu fardögum; Bægisá skyldi biskup þá þegar at sèr taka med landskuld oc kúgildum, sem óbrygdanliga eign Hóla kyrkiu, ef hún gengi af med lögum, skyldi Runólfr svara biskupi LX hundrada jördu jafngódri; skal hann setiast þá þegar hinn sama dag í proventuna oc gánga til bords á Hólum. Runólfr þóttist miöc adþrengdr verid hafa, oc kalladi þetta allt naudúng er hann var friáls madr ordinn, fór hann skömmu sídar frá Hólum, oc hèldt ecki skilmálann, fyrir því lèt biskup fánga hann oc færa heim til Hóla, oc hafdi þar í haldi. Sídann útnefndi hann XII prestadóm at Rafnagili í Eyafyrdi, föstudaginn fyrir Michaelismessu; dæmdu þeir Runólf sem Olafr biskup vildi, rèttiliga fángadann verit hafa, undir kyrkiunnar geymslu oc skriptir, fyrir sáttarof vid biskup oc kyrkiu, oc at hann hefdi gengit til sömu syndar aptr med Haldóru Þórdardóttr, eptir hennar lysíngu, oc legit nakin hiá henni undir einum klædum í kyrkiunni á Backa, var hann þá dæmdr skyldr at hafa alla þá skript oc vardhald er honum bæri, eptir þeirri nád sem biskup synir honum, er eigi þeirra málsloka framar gètid. Sigurdr Biarnarson at Einarstödum í Reikiadal, lúkti Olafi biskupi Túngu í Svalbardssókn. Þá seldi Oluf Loptsdóttr oc Þorleifr son hennar Magnúsi Jónssyni er fyrr gètr, Kross í Landeyum, var Oddr lögmadr Asmundarson þar einn vottr. Magnús átti Ragnheidi dóttr Eyríks Loptssonar á Grund, enn Magnús á Espihóli Benedictsson Brynjólfssonar, fèkk Þorleifi Biarnarsyni júngkiæra, eptir kæru af erfingium Torfa Arasonar, Ingvildarstadi á Reykiaströnd; Magnús Benedictsson var þá vid aldr, hann var madr vel audugr, oc átti sonu marga, þótt ec kunni ei at nefna, fèkk hann sitt höfudból hverium þeirra, var einn Brynjólfr á Espihóli. Þá fór fram vitnisburdr hveriar jardir Oli Biarnason, oc Þóra Sturludóttir gáfu Biarna í Hvassafelli syni sínum til giptíngar vid Margrètu Olafsdóttr Loptssonar, enn Gudrún Rafnsdóttir módir hennar henni, enn Eyríkr Loptsson á Grund

frændi hennar, kiöri hana fyrir málakonu; gètid er oc Arna bónda Höskuldarsonar, er hann skipti fè med börnum sínum í Engey í Kollafyrdi, oc fór utann; oc at Sveinn biskup afleysti Þorleif Biarnarson á Reykhólum oc Ingvildi Helgadóttir af VII barneignum þeirra, því þau þóttu samannvera í meinum. Þá gèkk oc dómr af Brandi lögmanni um Bard í Fliótum, oc gaf Sveinn biskup út brèf til Vestfyrdínga oc strandamanna um vidar tillag til byggíngar Skálholts kyrkiu.

## LIX. Kap. Frá biskupum Sveini oc Olafi.

Vetri sídar hèldt Sveinn biskup fiölmènna prestastefnu í Skálholti 1472 laugardaginn nærstann fyrir Pètrsmessu oc Páls, oc skipadi hann þá margar nytsamligar greinir, ein var um tyund oc lióstolla, ef madr hefr bústad í kyrkiusókn einni, en er heimilisfastir í annari, lúkist þar tyund oc lióstollr sem bú stendr, einninn at vistfastir menn, er prestar oc bændr giöra til sióar um vetr edr vor, lúki lióstolla heima í hèradi hvör í sinni kyrkiusókn, nema þar sem biskup hefr tilgèfit sèrlegt privilegium med brèfi oc innsigli. Þá at hvör madr lúki tyund sína á haust oc vor af öllum peníngum er hann á skuldlausa í fyrirfarandi fardögum, þó at peníngar hans vaxi eda þverri á þeim missirum; einnin baud hann at halda heilagt Mariu vitiunardag med þeim hætti, at á alþíngi megi þó dóma dæma þá sem þarf, lífláta menn at lögum ef þörf giörist, edr adra naudsynliga hluti fremia, þá er ei má missa. Þá gaf Kristín á Ökrum Þorsteinsdóttir Ingivildi Helgadóttr á Reykhólum dóttr sinni tyundargiöf, enn þat var hálft fimta hundrad hundrada. Hrólfr Biarnarson seldi Egli Grímssyni Sídu á Skagaströnd, hafdi Egill þá at nyu syslu í Húnavatnsþíngi, oc tók vitni af Þorsteini Ormssyni, oc lèt gánga sex manna dóm um Miófadal, at hann heyrdi til Mánaskál; þann dóm oc vitni rengdi Olafr biskup med XII prestadómi at Flugumyri oc eignadi Miófadal Skrapatúngu í Höskuldarstadasókn, kalladi bannad at draga kyrkiu mál undir leikmanna dóm; hann lèt oc gánga XII presta dóm at prestastefnu á Eyrarlandi midvikudaginn fyrir *Festum Barnabæ*, um ákæru sína til Sigurdar Biarnarsonar, um kyrkiufè á Einarstödum; einninn vitna þá Biörn Amundason oc Jón Þórdarson syslumann, um land-

amerki milli Geldíngaholts oc Glaumbæar. Jón prestr Pálsson á Grenjadarstad andadist þá gamall miöc, hann var kalladr Mariuskáld, oc hefr kvedid kvædi þau til Mariu undir ýmsum brögum, er enn eru til, oc hinn merkiligasti klerkr hafdi hann verid fyrir nordan land í þeirri öld; veitti þá Olafr biskup stadinn Einari presti Benedictssyni oc setti þó marga kosti, var þat helst at hann skyldi hit skiótasta sækia alla peninga Grenjadarstadar med lögum, greida biskupi hvört ár þridiúng af laxveidi þar eptir máldaga Hóla kyrkiu, lúka Grenjadarstada kyrkiu *Decimam partem* edr tyunda hlut þess afla fiár, er hann græddi af stadarfènu, styrkia biskup med öllum sínum afla vid hvern sem hann ætti í hlut, halda enga fylgikonu heima edr á stadarins kost, oc byggia engum stadinn ödrum oc slíkt fleyra; enn ef hann hèldi ekki skilmála þá alla, skyldi biskup med frelsi taka at sèr Grenjadarstad aptr, svo at enginn mótstada væri giör, fór þat sem von var vid ágengni Olafs biskups, at þat seldist midr út, sem enn mun verda sagt. Jardasala var milli Sveins Þorgilssonar oc Haldórs Hákonarsonar vestra. Bóla var þá mikil oc manndaudi.

## LX. Kap. Frá ímsum, hellst Olafi biskupi.

1743 Þessunærst visiteradi Sveinn biskup Vestfiördu oc vígdi kyrkiu at Raudamel oc í Garpsdal á Augustinidag, þat er hinn 23ie Augusti mánadar oc stadfesti Haga kyrkiu máldaga, er Vilchin biskup hafdi giört, gaf hann þá út hit fyrra brèf sitt um Jón Raudkoll, því annad var ári seinna, oc vitum vèr ógiörla þar um fleyra; er þat eigi all-líklegt at sá hafi verid födrfödr-fadir Brynjólfs biskups er Jón Raudkollr hèt oc var Hèdinsson, því at varla má þat vera, at þessi hafi ei fyrri uppi verid, þó at nöfn fari samann, nema yngri en þrítugr hafi verid er þetta var, en nær siötugr er Simon prestr son hans var borinn. Þá er gètid Steingríms Isleifssonar bródrs Einars ábóta á Þverá, hann seldi honum sylfr *propitiatorium* gyllt fyrir X hundrud í málnytu oc V hundrud í saudum. Eyvindr Eyvindsson seldi Eyólfi bónda Arnfinssyni Skárdsdal í Siglufyrdi, enn Salómon Einarsson fèck húsfrú Olufu Loptsdóttr umbod sitt um nærstu þrenna tólf mánudi, á peníngum þeim er hann átti hiá Einari Oddsyni, oc hafdi erft eptir Sumarlida Gud-

mundarson módr-födr sinn, skyldi Oluf vera sóknari þeirra peninga, oc eiga Hiardarholt í Stafholtstúngum. Sumarlidi Eyríksson lysti Svein son sinn lögarfa eptir Eyrík Loptsson födr-födr hans, enn sic fiárhaldsmann hans, oc er af því lióst at Sumarlidi hefir verid launsonr Eyríks Loptssonar, en Sveinn skilgètin son hans. Andrès Gudmundarson seldi Gudmundi Stephánssyni hálfann Arnarstapa, med samþycki Þorbiargar Olafsdóttr konu sinnar, oc fleyri urdu þá giörníngar ókunnari manna. Olafr biskup hèlt þá Skagafiardar syslu oc gaf Henrik Kerker höfudsmadr hann qvittann um skattinn, enn Jón Þórdarson var sem þegn hans í flestum hlutum. Olafr biskup lèt XII presta dæma Þorstein Ormsson skyldann at hâlda þann dóm, er yfir honum hafdi dæmdr verid haustid fyrir at Flugumyri, en fríann frá dómrofi, því hann hafdi unnid tylftar eyd, at hann vissi ei at brèf hans var falsat; hann lèt oc Kolla Magnússon vitna um teig milli Hóla í Fliótum, Hólastadar jardar oc Reykiarhóls, lèt þá oc lofa sèr Sigurd prèst Þorláksson oc Kolla at giöra upp kyrkiu at Asi í Hegranesi jafngóda sem hún var fyrri. Hann stefndi oc þeim manni er Þorlákr Gíslason hèt, fyrir heimsókn oc húsabrot oc taskanir á Hólakyrkiu jördu Efstalandi, oc bad Olaf prest Þorgeirsson lesa brèfid. Sextán eyda lèt hann sveria um teiginn milli Hóla oc Reykiarhóls, oc dæma ónyta þá þriggia manna eyda oc prófaleidslr er Brandr lögmadr Jónsson hafdi tekit um þat mál, oc teiginn til Hóla, enn Hólakyrkiu í fullrètti sitt LX merkr á hveriu ári ef meir enn hálfrar merkr skadi verdr á teignum. Hann dæmdi einnig í skrúdahúsina á Hólum, at landseti stadarins Þórarinn Þorsteinsson, er ei hafdi goldit leigu eptir sex stóls kúgyldi, skyldi svara eptir hvert þeirra hálfvætt smiörs, einni tunnu skyrs oc einni tunnu syru; var honum oc hægt at hafa í höndum vid menn, er hann rèdi öllu í andligum oc veraldligum málum, enn hafdi ærid fè, oc var bædi kappsamr oc ólatr. Þá veitti sá madr heimsókn at Lángamyri í Húnavatnsþíngi er Þorbiörn hèt oc Eyólfsson, þar um lèt Egill bóndi Grímsson syslumadr Húnvetnínga dóm gánga at Svínavatni; voru þá í þann tíma heimsóknir oc önnr storrædi í fiárheimtum miklu tídari enn hèr verdr frásagt, enda sátu fleyri yfir hlut annara manna, enn nú hefr í manna minni verid.

## LXI. Kap. Jóns mál Snorrasonar.

Jón hèt prestr oc var Snorrason, yfir hann útgaf Olafr biskup at Hólum, fimtudaginn eptir Maríumessu á jólaföstu, afsetníngar brèf fyrir þessar sakir: fyrst at hann sè borinn tveimr mandrápum, oc aldrei viliat hreinsa sic af edr taka skript eptir kyrkiulögum, þarnæst at hann hafi höggvid prest sinn Þorgrím á Fagranesi til blóds fyrir laungu oc aldrei lausn fyrir tekid, en messad oc flutt embætti í slíku bannsvelki, þat þridia at hann hafi sem víkíngr farid med ránum oc gripdeildum yfir Island, oc á nesium sudr um sumarit fyrir, rænt oc gripit fyrir biskupi tvo kapla úr Hóla lest, oc haldit þeim biskupi til skada, án alls hans leifis; þat fiórda at hann hafi í mörg ár verid óhlídinn biskupi í ordum oc verkum med fullri þriótsku oc íllsku, oc þá biskup lèt lesa yfir honum áminníngar oc forbodsbrèf sitt, hafi Jón prestr komid heim til Hóla, deilt á sic oc valit sèr mörg vond ord, fyrir því afsetti Olafr biskup Jón prest med þessu brèfi, *Officio*, *Benificio* oc öllum prestsheidri, út af Hóla kyrkiu oc *sanctitatibus*, oc forbaud öllum prestum at syngia eda lesa yfir honum, eda nockra gudsþiónustu veita honum; þar med setti hann út af öllu samneyti kristinna manna, oc fyrirbaud at hysa hann, edr nockurn styrk at veita, enn bad menn fordast Jón þenna, sem menn vilia fordast reidi Guds, þar til hann bætir sín brot, enn vilie hann þat ei, hèt biskup at bannsyngia hann med prestum sínum med hríngdum kluckum oc steyptum kèrtum; enn Þorbergi diákna sínum baud biskup undir hlidni oc bannspínn, at lesa þetta brèf svo hátt fyrir hverium manni, um allann Skagafiörd at allir mættu þat heyra oc færa sèr þat aptr vitnad oc sannad. Er svo at siá, sem Olafr biskup hafi þolat manni þessum meira enn flestum ödrum, ef honum eru sannar sakir tilfærdar, hvört sem valdit hefr ótti nockr fyrir hardrædum hans edr adrir hlutir.

## LXII. Kap. Arfleidsla Lopts Ormssonar.

Þess er gètid at Loptr son Orms Loptssonar hafdi verit utann, oc Gudni son Jóns Asgeirssónar umbod hans haft í landi hèr. Loptr
1474 lifdi þá enn er hèr var komit oc arfleiddi um vetrin mánudaginn

í Páskaviku, Stephán son sinn til þess fiár er hann gaf honum, voru þat II hundrud hundrada, oc þar ígreind Biarnarhöfn í Helgafellssveit fyrir LX hundrud, Eyrardalr, Svarthamar, Hattardalr í Alptafyrdi, Heydalr, Kèlda oc Reykiarfiördr fyrir LX hundrud, oc LXXVIII. hundrud í lausafè, kugyldum oc ödrum þarfligum aurum, hèldu þessir menn allir á einni bók Loptr, oc Stephán son hans oc húsfrú Solveig Þorleifsdóttr módr Lopts, er játadi oc samþyckti fyrir sic arfleidínguna. Steinun Gunnarsdóttir módir þeirra Loptssona Stephâns oc Pètrs arfleiddi Pètr sídar, oc gengu yfir þat dómar, bædi Þorleifs hyrdstióra er seinna var, Biarnarsonar hins ríka, oc annara, um þat hve gyldar þær arfleidslur voru, enn afqvæmis Pètrs Loptssonar er ádr gètid oc verdr þó meira sídar. Þá tók Gauti erkibiskupsdóm í Nidarósi, oc margir urdu giörníngar á þeim tímum, en ec tel þá er mèr þyckia helst athugaverdir. Einar ábóti keypti undir Þverárklaustr Hróastadi í Fnióskadal,

## LXIII. Kap. Krossreid.

Svo hefr sagt Biörn at Skardsá, at Krossreid hafi verit sex votrum sídar, en hèr var komit, enn hún var at vissu afstadinn haustid ádr en hèr var komit, oc verdr nockud yfirfram at taka. Eyríkr Loptsson hafdi átt tvö börn, Þorvard oc Ragnheidi, átti Ragnheidi Magnús Jónsson mikilsháttar madr, er bió at Krossi í Landeyum; Þorvardr færdi Magnúsi nockud til saka, oc veitti honum heimsókn um nótt med vopnudu lidi, oc Narfi Teitsson; þar var í för Eyólfr Gunnarsson, er kalladr var Lazari, þeir tóku Magnús í sæng sinni drógu út oc drápu, en Ragnheidr fèck ákomr nockrar. Narfi Teitsson lysti á sic vígi, enn qvad Þorvard bodit hafa at veita atgaungu oc höggva, hann skyldi med peníngum bæta; þess er gètid at þeir hafi oc saurgat kyrkiuna, oc fyrir þá sök má ráda at Olafr biskup hafi forbodad þá, oc medal annara Olaf Gunnarsson ádrnefndann oc Eyólf Fúsason enn ei er þar framar lióst um; þeir tóku brèf oc tygi frá krossi, enn sídar gèkk dómr á málinn af Erlendi syni Erlendar Narfasonar á Kolbeinsstödum, er þá hèldt Rángárvalla sýslu, oc átti dóttr Þorvards Loptssonar, voru þeir dæmdir óbóta

menn Þorvardr oc Narfi, oc hálft fè þeirra undir konúng, en hálft undir erfíngia, oc svo annara fylgiara þeirra er ei fengu sic med lögum undann borid, svo halda mætti lífi oc limum; Ragnheidi var dæmdr tvöfaldr rèttr á öllum atvikum, oc tvöfaldt á ákomu hvörri, oc X merkr í tvöfaldt fullrètti, einninn at sinu leiti tvöfaldt á gripi brèfa oc tyga; var húsfrú Oluf Loptsdóttr födrsystir Þorvardar vid dóminn oc voru henni dæmdir til adtekta, medferdar oc umsiónar hálfir peníngar Þorvardar, þar til er Eyríkr Loptsson fadir hans kæmi til, því hann var utannfarinn. Þar var oc vid dóminn Henrik Kerker hyrdstióri, oc Jón bóndi Olafsson Loptssonar syslumadr í Arnessþíngi, gengu þá Skógaeignir austr, fyrir þau mál, undir konúnginn. Þá vard oc um sömu mundir önnr heimreid í Oddgeirshóla, hana giördi Þorleifr Biarnarson, oc þessir menn sumir er í krossreid voru, þar var oc Arni nockr Gudmundarson oc Steinun Sigurdardóttr kona hans, oc heima fólk þeirra í fylgi med Þorleifi, oc var saurgud kyrkia í Oddgeirshólum oc urdu slög oc áverkar, enn ei er gètid hverier fyrir voru heima; oc er hèr var komit gaf Sveinn biskup í Skálholti, oc visitatör yfir allt Skálholts biskupsdæmi, Oddi presti Pètrssyni í Staf-holti Officiali oc bródr sínum, umbod at leisa Þorleif, oc alla hans menn af þeim málum, qvaddi hann oc til at beidast af Þorleifi sæmdar, oc af Ingvildi Helgadóttr barnamódr hans fyrir fiársekt þeirra til heilagrar Skálholts kyrkiu, fyrir þeirra sídustu barneign í frændsemis spellum, oc skriptrofum, oc leisa þau med vægd oc miskun ef þau giöri þat oc betri sic; í því brèfi er þess gètid at Þorvardr hafi þá dáin verid, hvört er hann hefr af manna völdum látist, edr med ödrum hætti í útlegd sinni. Sveinn biskup lysti því oc at hann hefdi leyst Arna Gudmundarson oc Steinunni konu hans oc heimamenn þeirra af fylgi vid Þorleif, oc at hann fyrir þeirra ord, gæfi Þorleifi oc hans fylgdar mönnum sektir qvittar, ef þeir tæki lausn oc skript, en þángat til bannadi hann prestum at fremia nockurt messu embætti yfir þeim, edr í þeirra náveru; má af slíku marka at Sveinn biskup hefr eigi jafnhardr verit sem Olafr Hóla biskup. Þá gèkk enn XII presta dómr Olafs biskups at Vidvík um teiginn er Hóla kyrkia átti í Fliótum; hann fyrirbaud oc leikmönnum at taka nockrar prófaleidslr um eignir Hóla kyrkiu; hann tók oc til proventu Ingibiörgu Þorláksdóttr konu Kolla Magnússonar med hálfri Skálá í Slettuhlíd. Þá seldi Einar ábóti á Þverá Sigurdi prior

Mariuskóg í Skuggabiarga jördu í Laufásssókn, oc einnin Kross í Liósavatnsþíngum fyrir Hróastadi í Fnióskadal, gètid er oc vid jardasölu giörnínga Ingibiargar Hákonardóttr, eckiu Jóns Erlíngssonar, oc Erlíngs sonar hennar, oc annarsvegar Haldórs bónda Hákonarsonar vestra, oc enn fleyri manna.

## LXIV. Kap. Frá Sigmundarmálum.

Sigmundr prestr Steindórsson er ádr hefr nefndr verit, hèldt í þann tíma Miklabæ í Skagafyrdi, hann hafdi átt tvö börn vid Solveigu Þorleifsdóttr systr Biarnar hins ríka, Jón oc Bergliótu; hennar fèkk sídar Olafr Hannesson, enn Jóns mun verda framar vídgètid; þeir voru allir synir Sigmundar prests Asgrímr oc Jónar tveir, þeir frændr voru vasklegir menn. Sigmundr prestr var mikill fyrir sèr oc stórhugadr oc hafdi prófastsdæmi í Húnavatnsþíngi, var hann talinn med hinum fremri prestum fyrir nordan land; honum stefndi Olafr biskup til almenniligrar prestastefnu at Eyrarlandi í Eyafyrdi, mánudaginn nærsta fyrir Jónsmessu Baptistæ undir XII prestadóm biskups, kærdi biskup þar til hans þat fyrst at hann stefnt hefdi presti nockrum í þeim málum er hann var ei dómari yfir, enn Sigmundr prestr vændíst at biskup hefdi sèr þat skipat, var hann þó fyrir þat dæmdr fallinn í fulla óhlídni vid biskup, ef hann fengi eigi leidt tvö lögleg vitni innann mánadar; þarnærst kærdi biskup at hann hefdi ekki lesid í öllum kyrkium síns prófastsdæmis, forbodsbrèf biskups fyrir Gudmundi Þórarinssyni oc Vilborgu Marteinsdóttr, eptir biskups skipan, fyrir þat var Sigmundr prestr fallinn í adra óhlídni vid biskup. Þat var hit þridia, at hann hefdi haldit oc hyst Biörgu Þórdardóttr lengr en XII mánadi heima á Miklabæ í forbodi biskups, fyrir þat var hann fallinn í hina þridiu óhlídni vid biskup oc heilaga kyrkiu. Þat fiórda, at þar sem biskup hefdi veitt honum profastsdæmit um þriú ár, þá hefdi hann haldit þeim biskupstyundum í óleifi hans, oc engann reiknîngskap fyrir giört, fyrir þat var hann dæmdr til at giöra fullann reiknîng undir svarinn eyd innann siöundar, hafa skilat öllum tyundum heim til Hóla innann hálfsmánadar, oc svara biskupi þriátyu mörkum fyrir hvert ár, sem hann hefr þeim rángliga

haldid, enn alla óhlídni oc brèfabrot, oc svo alla heimild sem hann hafdi fyrir Miklabæ, settu dómsmenn undir siálfs biskups úrskurd; var þat nú sem jafnann, at Olafr biskup var siálfr sækiandi sakar oc vottr oc dómari, oc var þat hans atqvædi, at Sigmundr prestr skyldi afsettr sínu Beneficio Miklabæ, upp frá þeim degi æfinliga, oc af embætti um þriú ár, oc taka lausn af biskupi fyrir óhlídni sína, veitti biskup þá Miklabæ Jóni presti Broddasyni, oc var hann Officialis Hóla kyrkiu, því at Olafr biskup fór þá utann, er hann hafdi litlu ádr edr laugardaginn fyrir Mariumessu Magdalenæ, þat er hinn 22 dagr Julí, giört brèf á Hólum um proventu Ingibiargar Kolladóttr, hann hafdi oc dæma látid um landnám oc áverkabót. Þá slóg Sigmundr prestr Steindórsson sèr í veraldar manna sid, oc reiddi sic á ríki fylgikonu sinnar Solveigar Þorleifsdóttr oc bródrsonar hennar Einars sonar Biarnar hins ríka, oc giördi sèr dælt vid Jón prest Broddason. Þá forbodadi Jón prestr Solveigu út af öllu samneyti kristinna manna, fyrir því hún hèldt Sigmund prest er í bann var fallinn, oc hafdi tekit af Halli presti Jónssyni brèf þau er hann skyldi lesa í Flatatúngu kyrkiu, sunnudaginn nærstann fyrir Marteinsmessu, enn Sigmundr prestr sendi þá Asgrím son sinn med vopnada menn oc tyada, því Solveig latti hann ekki, oc skeytti lítid forbodinu, skyldu þeir taka Miklabæ med valdi um haustid, gripu þeir oc ræntu peníngum Jóns prests enn er hann spurdi þat safnadi hann mönnum, oc fór til Miklabæar á fimtudaginn fyrir Simonsmessu, voru þar allar dyr aptr strengdar sterkliga oc tyad lid fyrir innann til varnar, enn med því at Asgrímr sá sic ófærann til mótstödu, qvadst hann þetta at eins giört hafa, at bodum födr síns, oc fèkk hann oc hans lid útgaungu, oc brottfarar leifi, enn hèt þó ádr at veita aldrei mótstödu sidan heilagri kyrkiu, oc Jóni
1475 presti Broddasyni. Eptir um vetrin kom Sigmundr prestr til Hóla, oc sættist á fimtudaginn í ymbradögum á Lángaföstu vid Jón prest, er þá var bædi Officialis oc rádsmadr Hóla kyrkiu, oc sór fyrir honum þat hann skyldi lúka fyrst Miklabæar kyrkiu alla hennar peninga, oc sidann biskupi smátt oc stórt, eptir því sem honum öfludust peníngar til, oc skyldi hann afla þeirra med fullri útvegun, eptir því sem hann mætti, oc aldrei sídan grípa edr grípa láta penínga heilagrar kyrkiu, edr Jóns prests Broddasonar, edr

giöra honum hugmód, vard sú sætt þó ærid skammvinn, sem enn mun sídar sagt verda.

## LXV. Kap. Fráfall Sveins biskups.

Þá er gètid jardaskipta Sigurdar prióra Jónssonar á Mödruvöllum vid Magnús bónda á Espihóli Benedictsson Brynjólfssonar, þá fram-fór vitnisburdr um brèf þau er Solveig lèt grípa af Halli presti í Flátatúngu kyrkiu oc XII presta dómr Sveinbiarnar prests Officialis, um ákiæru Jóns prests Broddasonar til Runólfs Sveinssonar at hann hefdi verid med í fylgi at grípa Miklabæar Beneficium; hann gèkk á Seilu mánadaginn eptir Geisladag, einninn tveir dómar Erlendar Erlendssonar syslumans í Rángárþíngi, lèt hann dæma at Kyrkiulæk í Fliótshlíd mánudaginn fyrir tveggia Postulamessu Simonis oc Judæ, Efradal undir Eyáfiöllum frá Þorleifi Biarnarsyni á Reikhólum til Helga Teitssonar, enn at Fíflholtum í Landeyum mánudaginn nærstan fyrir allra heilagra messu Kollabæ í Fliótshlíd Þorleifi frá Gudmundi Eyríkssyni, oc fleyri urdu giörníngar. Sveinn biskup gaf út brèf sitt um óloknar tyundir til Fellskyrkiu í Kollafyrdi, enn ekki er lióst hve lengi hann lifdi frá því, deginum eptir Marteinsmessu; hann var IX vetr biskup at Skálholti, oc var stadurinn miöc skèmdr at húsum oc peníngar stadarins svo miöc þrotnir, at erfíngiar hans urdu skyldugir um III hundrud hundrada; átti Sveinn biskup Öndverdtnes, Háholt í Eystrahrepp, Önundarhóllt í Flóa, Snorrastadi á Laugardal oc fleyri jardir, oc gengu þær í ofanálag á stadinn; mælt er, at á medal þeirra óordina hluta, er hann sagdi fyri, væri þat, at hinn nærsti biskup eptir sic mundi ei lengi ríkia, annar mundi mest griót flytia at stadnum, oc hinn þridie at honum oc kyrkiunni mestann grenivid, oc mætti því hinn fyrri med rèttu nefnast *Griót*-biskup, en hinn sídari *Trè*-biskup; hefr slíkum hans spásögnum verid skotid sídar inní þat rit er *Krucksspá* er-kallat oc hún bygd þar á. Med hinum fiórda kvad hann koma mundi önnur trúarbrögd í land oc sidaskipti í öllum messusaung oc tídagiördum, helgihöldum oc hríngíngum, oc mundi aukast med hinum fimta oc siötta, oc vil ec þá sagdi hann: heldr vita son minn búa í Höfda hiá Skálholti, edr vera fiósamann á stadnum, enn kyrkiuprest þar; hefr Skál-

holt eflst oc aukist med hefd oc herradæmi, en mun eydast med eymd oc vesælíngskap, oc er land þetta þá komit undir útlendar þiódir. Svo segir Jón lærdi at þat væri máltak hans vid hvern mann: *bródir karl korn mitt!* Petr hèt son Sveins biskups, hann var kalladr *Ríkismannafæla*, oc var fiölkunnugr; húsfrú Haldóru sem átti Múla veitti hann áverka í höfudid, en skammyrdti húsfrú Hólmfrídi Erlendsdóttr í Dal, oc höfdu þær þat bótalaust bádar; hann misti sídann rúnabók sína í Þiórsá, oc gèkk honum þadan af allt öfugt. Pètr fèkk Valgèrdar dóttr Gudmundar Jónssonar Egilssonar, var sá Gudmundr bródir Stephàns biskups, áttu þau dætr fiórar oc voru allar fátækar. Sídar fèkk Valgèrdar Hallkèll oc var þeirra son Stephán prestr í Laugardælum er Hallkels ætt er frá kominn, oc var þetta laungu sídar er hèr er komit.

## LXVI. Kap. Rán á Miklabæ.

1476 Um vetrin eptir þat er at undanförnu var talid, adfaranótt laugardagsins fyrir Kyndilmessu, fór Sigmundr prestr Steindórsson, oc Einar Biarnarson mágr hans, oc synir Sigmundar prests Asgrímr oc Jónar tveir til Miklabæar med XV mönnum, oc Jóni Bupp hestastrák, settust þeir á stadinn oc eiddu þar matfaungum þeim er til voru, oc lètu slátra fyrir sic V kúm Jóns prests Broddasonar oc nockrum úngneytum, gáfu þeir heyinn hestum sínum en fluttu sum á brott, brutu upp hús oc hyrdslur, oc spilltu því öllu er þeir fundu, ráku þeir þadann X uxa gamla, X kyr, XII naut vetrgömul II qvígr tvævetrar, oc fimmtyu saudi vetrgamla, mörkudu fè þetta nema saudina, oc átti þó sumt Hólastadr. Jón prestr Broddason sendi þá í umbodi biskups, fullkomit forbodsbrèf undir embættis afsetníngu, ritad at Hólum laugardaginn fyrir passions sunnudag, til Magnúsar prests Illhugasonar, ef hann veitti prests þiónustu Einari Biarnarsyni (hann bió þá ad því er menn hyggia at Audkúlu) edr nockrum þeim er honum fylgdu at ráninu, nema þeir tæki vid lausn oc skript af Jóni presti; kom þá svo enn um haustid at Sigmundr prèstr oc Einar Biarnarson lètu reka þrettán kyr at Miklabæ, oc setia á hey Jóns prests í hans ólcifi meir en um hálfan mánud, enn er Jón prestr kom til á Símonsmessu, lèt hann þriá presta oc þriá leikmenn, skoda þær

oc uppskrifa med marki lit oc aldri, oc vyrda fyrir honum IX hundrud til halds, þar til er löglegr eigandi leiddi sic at, oc Jón prestr fengi bót fyrir skada sinn; vita menn eigi hversu mál þessi lyktudu med Jóni presti Broddasyni oc Einari, en mál Sigmundar prests stódu þanninn um hríd, medann Olafr biskup kom ecki út. Sveinbiörn prestr Þórdarson Officialis dæmdi med IX prestum, oc þremr diáknum í ákæru Jóns prests til Þórhalls Þorvaldssonar, at hann hefdi verit í heimsókn at Miklabæ, med þeim Sigmundi presti um vetrinn; enn Kètil Grímólfsson oc Þorvard Semíngsson oc fleyri presta, nefndi Jón prestr Broddason í dóm, at Hólum, mánudaginn fyrir Simonsmessu, um þat at Jón Þórdarson hefdi drepit hest fyrir stadnum, voru kyrkiunni dæmdar þriátyu merkr í fullrètti, oc eyrir á viku fyrir haldit; þetta vard af giörníngum sem teliandi er, edr nafnkèndir menn voru vidridnir. Húsfrú Oluf Loptsdóttir gaf Jóni Erlíngssyni í þiónustulaun Múla í Kollafyrdi oc XX kúgyldi, enn Þórdr Jónsson gaf Sigurdi presti Þórlákssyni á Mælifelli Hól í Siglufyrdi. Snorri Hallgrímsson oc Nicolás Þorsteinsson; qvittudu húsfrú Margrètu Vígfúsdóttr á Mödruvöllum um umbod þeirra, þar var Magnús Benedictsson á Espihóli fyrstr vottr at; Þórdr Jónsson hafdi gèfid Hól fyrir södul med öllum reidskap oc hest gódann bleikalóttan. Solveig Þorleifsdóttr oc Einar Biarnarson frændi hennar skiptust jördum vid.

## LXVII. Kap. Frá ímsum mönnum.

Um haustid oc vetrinn eptir giördi eldgáng oc bresti ógurlega 1477 med dynkium, öskufalli oc myrkri fyrir nordan land, svo at penfngr þreifst eigi, enn jörd var þó sniólaus, var þá haldinn samkoma lærdra oc leikra á þridiudaginn fyrstann í einmánudi at Grund í Eyafyrdi, oc settr heitdagr enn lögtekinn Einmánadar samkomann. Þá lèt Jón prestr Broddason Officialis oc rádsmádr Hóla kyrkiu, þau missiri dóm gánga á Seilu af tólf prestum um ákæru til Biarnar Jónssonar er vestann hafdi farid úr Húnavatnssyslu, oc settst á Flugumyri, oc sett þar nidr ófæra konu er hèt Hallótta. Þorleifr Biarnarson seldi Sveini Gudmundarsyni Krithól, en Arni Þorsteinsson med samþycki konu sinnar Þorbiargar Eyólfsdóttr syni Þorkèls prests Gudþiartssonar oc

Kristínu Eyólfsdóttr konu hans, Grenivík í Grítubakkasókn oc er þat sannara at Þorbiörg dóttir Eyólfs Arnfinssonar systir Kristínar hafi átt þennan Arna Þorsteinsson, en Arna son Pétrs Loptssonar sem ættartölr herma, því hann var þá traudliga fæddr í þenna tíma, var Eyólfr Arnfinsson þá andadr er þetta skèdi. Helga Þorleifsdóttr qvittadi Skúla Loptsson bónda sinn um þriátyu oc siö kúgildi, er hún hafdi erft eptir Gudrúnu systr sína at Audbrekku. Þá vard sætt um reka fyrir Vík á Flateyardal milli Einars ábóta oc Biarna Olasonar í Hvassafelli, var sett eitt lambsfódr frá Þverá á hveria jörd er Biarni átti vetrarlángt; í þann tíma kom til biskupsdóms í Skálholti Magnús Eyólfsson Mókolls er verid hafdi ábóti at Helgafelli, þar tók vid eptir hann Haldór Ormsson. Magnus biskup visiteradi þá Saurbæar kyrkiu á Kialarnesi, var oc um þær mundir giört kaupbrèf hans vid Gudna í Ögri son Jóns Asgeirssonar, er hann leifdi Gudna at leisa þau XV hundrud í Hiörtsey, er sett höfdu verit fyrir kyrkiufè Hiörtseyar. Hiörtsey fèkk eptir Gudna Helga dóttir hans í heimanmund, hana átti Torfi í Klofa son Jóns Olafssonar Loptssonár, sídann erfdi hana Þorsteinn son hennar oc þá hans dóttir Gudrún, enn hún seldi dóttr manni sínum Tyrfingi Asgeirssyni. Þessi missiri hafdi Finnbogi son Jóns prests Pálssonar syslu í Þíngeyarþíngi, því þá lèt hann dóm gánga at Liósavatni um handrán; Jón Magnússon á Felli hafdi kært þat til Arna Jónssonar, at hann hefdi jardvarpát sèr, oc tekit af sèr orf sitt oc liá Magnús biskup
1478 visiteradi Vestfyrdíngafiórdúng annad sumar, oc giördi þá máldaga Sydumúla kyrkiu; þá gaf hann út at Reykhólum sunnudaginn nærstann fyrir krossmessu á hausti, Þorleifi Biarnarsyni fullkomit qvittunarbrèf um allar sakir oc fèsektir, er hann hefr brotlegr ordid vid Gud, heilaga kyrkiu oc biskupinn, fyrir barneignir í fiórmenníngs meinum med Ingvildi Helgadóttr, þarmed fyrir allar biskupstyundir um nærstkomandi tyu ár. Svo segia sumir menn at Þorleifr væri þá hyrdstióri, enn ec ætla þá hafa sannara er segia at Didrik Pining hafi hyrdstiórn tekit þetta sumar, enn Þorleifr seinna. Þorleifr átti Flatey oc Reykhóla, oc margar eignir fleyri eptir Biörn hinn ríka födr sinn, oc hèldt Ingvildi fyrir konu sína dóttr Helga lögmanns á Ökrum, en bródir hennar var Þorsteinn á Reini í Myrdal fadir Eyríks á Kèldum, oc Sigrídar er átti Pètr Loptsson. Þau voru börn Þorleifs oc Ingvildar, Biörn á Reyk-

hólum fadir Þorleifs presta er Páli Jónssyni seldi Reykhóla, oc Jóns í Flatey er Flateyarætt er frá komin; Gudny, hún átti Grím Jónsson á Ökrum, Jardþrudr, hennar fèkk Gudmundr undir Felli í Kollafyrdi son Andrèsar Gudmundarsonar oc Þorbiargar, þadann er mikil ætt komin; Kristín, hennar fèkk Eyríkr son Haldórs ábóta á Helgafelli Ormssonar, Helga var hin fiórda, hún átti Eyólf Mókoll yngra í Haga son Gísla Philippussonar Sigurdarsonar Fóstra, þadann er Mókollsætt. Þorsteinn hèt launsonur Þorleifs. Þorleifr hafdi seldt Magnúsi Jónssyni á Krossi er Narfi Teitsson vo, Hóla í Vestrhópi, jafnann var íllt med þeim Þorleifi oc Andrèsi Gudmundarsyni. Einar brødir Þorleifs var þá at Kúlu í Svínadal, en stundum var hann utann. Húsfrú Oluf Loptsdóttir módir þeirra bió at Skardi á Skardströnd. Solveig dóttir Biarnar hins ríka systir Þorleifs bió at Hóli í Bolúngarvík; hún hafdi átt launbörn vid Jóni Þorlákssyni skrifara sínum oc rádsmanni, Jón, Biörn, Einar, Birgitu oc Kristínu, enn Biörn fadir hennar hafdi ei leyft henni at giptast Jóni; var sá Jón svo mikill ritari, at þat var at minnum giört, oc ritadi mest saungbækr, sem þá vard hollst tídt, en er hann var dáin, gyptist hún Páli á Skardi syni Jóns Asgeirssonar, bródr Gudna á Ögri oc Orms oc Sigurdar prests Beigalda í Hytardal, þeirra son var Þorleifr lögmadr. Þessir menn voru þá uppi er ritudu undir brèf þeirra Magnúsar biskups oc Gudna, Gisli Philippusson Sigurdarsonar Fóstra, hann bió í Haga eptir födr sinn, oc voru þeir brædr hans Hermann oc Olafr; Gunnar Jónsson í Sælíngsdalstúngu módr-fadir þeirra Loptssona Ormssonar Stephâns oc Pèturs; Finnr Pètrsson hann bió at Ökrum á Myrum oc var kalladr Laga-Finnr, er frá honum komin Akra ætt; var hann fadir þeirra Arnórs á Ökrum, Gudmundar födr Dada oc Þorarins; Brandr Jónsson hafdi þá lögsögn fyrir nordann, oc bió at Hofi, hann dæmdi þat sumar um rètt oc rádspiöll Gudrúnar Erlíngsdóttr, en Páll son hans vitum vèr ei víst hvar búit hefr, ef ei hefr verid á Mödruvöllum í Eyafyrdi, því húsfrú Margrèt var þar oc lifdi þá enn. Finnbogi, sem kalladr er bródir Brands oc syslu hafdi í Þíngeyarþíngi, sem fyrr segir, bió at Asi í Kèlduhverfi, þá hafdi Jón Þorkèlsson seldt honum Þverá í Laxárdal nordr, fyrir Torfustadi í Haukadal, en Jón Finnbogason Hofstadi vid Myvatn fyrir Hamra oc Hornstadi í Laxárdal; enn á

þessum missirum qvittadi þorkèll prestr Gudbiartsson, Magnús son sinn um reikníng oc rádmennsku á peníngum sínum; þeir brædr Gudni oc Páll sömdu um skipti eptir födr sinn Jón Asgeirsson, þá fór oc fram vitnisburdr svarinn fyrir Haldóri þorgeirsyni, er syslu hafdi milli Hytarár oc Skraumu, um þat at verit hefdi tuttugu oc fimm vetr frá því Ari bóndi Gudmundarson drucknadi, fadir Gudmundar hins ríka á Reykhólum, oc til þess er þeir þorleifssynir Biörn ríki oc Einar tóku at sèr Reykhóla, oc enn fleyri giörníngar. þat er lióst at þorleifr sættist hit sama sumar vid Magnús biskup, oc er þat ádr greint, en Didrik Pining höfudsmadr hafdi þar í milli gengit.

## LXVIII. Kap. Utkoma Olafs biskups.

Olafr biskup Rögnvaldsson hafdi verit utann þessa stund, oc kært fyrir Gauta erkibiskupi hálfkyrkna bændr í Hóla biskupsdæmi fyrir þat at þeir vildu engann reikníng standa honum af hálfkyrkium, ritadi erkibiskup þeim þá ámynníngarbrèf, útgèfid í Biörgvin daginn eptir Krossmessu, um haustid fyrir, oc qvad sèr þykia rèttvíst oc rádlegt, at þeir giördu biskupi sínum reikníngskap af hálfkyrkium þeirra, hid minsta einusinni um hans tíd; enn rita skyldu þeir sèr ástædur þeirra sem adrir, oc má vyrdast at erbiskup hafi ei ordit jafn hardtækr sem Olafr biskup hefdi viliat; sídan kom Olafr biskup út, oc samþyckti jardaskipti Sigurdar priórs á Mödruvöllum oc Magnúsar bónda Benedictssonar, enn Magnús prestr Einarson giördi testamentum sitt, oc gaf þar í Olafi biskupi giafir, oc húsfrú Margrètu Vígfúsdóttr því hann hafdi verit ómagi hennar, enn Arnoddi presti bródr sínum, oc Klangi presti á Mödruvöllum sumar. Páll bóndi Brandsson fèkk Olafi biskupi hálfann Hól í Laxárdal, enn sá madr er Marjón hèt fèkk honum Finnastadi í Grítubackasókn fyrir frændsemis spell Steinvarar dóttr sinnar med Sigurdi Grímssyni, er ádr hafdi átt systr hennar, þar voru fyrstir vottar at þorkèll prestr Gudbiartsson oc Nicolás þormódarson. Magnús prestr Asgrímsson fèkk Olafi biskupi Eyd á Lángarnesi, var þar vid Einar ábóti á þverá, oc Nicolás þormódarson; enn lèt Olafr biskup dóm gánga um kúgilda ávöxt; gèkk þá oc Sigmundr prestr Steindórsson til sátta vid hann nærri Kálfstödum í

Hialtadal föstudaginn fyrir Divisionem Apostolorum, þat er hinn 15 Juli; vitnadist at Jón Sigmundarson hefdi handlagt Sigmundi presti födr sínum Flatatungu til pantsetníngar, enn Sigmundr prestr handsaladi Olafi biskupi I hundrad hundrada til fullrar eignar, bædi í biskups tyundir er fyrr var gètid, oc fyrir allann hugmód oc óhlídni vid biskup, svo oc þá hann tók Miklabæ oc peninga Jóns prests Broddasonar oc ránglegt hald á þeim, þar fyrir setti hann biskupi í pant jördina Flatatúngu í Skagafyrdi fyrir LL hundrud, oc skyldi leysast innann þriggia ára, því Solveig Þorleifsdóttr gèkk í borgun fyrir Sigmund prest, oc lèt Jón son sinn fá honum Flatatúngu til þess, en tilskildi sèr oc erfíngium sínum aptr lausn á jördunni, innann þess tíma, med því hún qvadst af gódvild sinni vilia sitt tilleggia, at þeir Olafr biskup oc Sigmundr prestr sèu sáttir oc giördi þar um giörníngsbrèf eptir um vetrinn fimtudaginn í páskavíku at Stadarhóli í Saurbæ, því at þar er líkast til 1479 hún hafi búit.

## LXIX. Kap. Frá Olafi biskupi, oc ímsu ödru.

Þat vor var hafís mikill oc lá til Jónsmessu; þá fèck Einar ábóti Isleifsson undir Þverárklaustr, slíkann skóg í Vaglalandi í Fnióskadal, sem þeir áttu brædr þrír Önundarsynir Atli, Kári oc Eyólfr. Þá var oc fyrir skömmu andadr Steinmódr ábóti á Videy, honum hafdi Skúli bóndi Loptsson gèfit undir klaustrid Heidarhús í Utskálasókn, ef hann dæi á Sudrlandi, oc yrdi grafinn at Videyar klaustri, enn Gudmundr prestr son Skúla vildi ripta, vard hann af því fyrir stefnum oc málasóknum; gètid er þá jardaskipta Þorbiarnar Biarnasonar oc Sveins Jónssonar vestra, oc at Þorleifr Biarnarson fèkk Olafi biskupi jörd sína Galtarnes í Vídidal fyrir XL hundrud, enn Einar Biarnarson bródir hans Kamphól á Gálmanströnd XXX hundrud fyrir Þverárhlut í Vestrhópi, er hann hafdi pantsett biskupi fyrir sakir vid hann. Þorkèll prestr Gudbiartsson fèkk Magnúsi syni sínum þá en rádmensku yfir Laufási; fór oc fram vitnisburdr, at þeir brædr Haldór, Hrafn oc Sniólfr Brandssynir hefdi handabandad módr sinni Rögnu Hrafnsdóttr, at svara kyrkiufiám á Bardi, vegna Brands Haldórssonar födr þeirra.

Sumarlidi Eyríksson gallt oc fèkk Þorleifi Biarnarsyni Stóradal undir Eyafiöllum; er Þat at merkia at Þorleifr hafi Þá hyrdstiórn tekid. Þá setti Olafr biskup æfinlega messu daglega í Hóla dómkyrkiu fyrir öllum kristnum sálum vid altarid nordann fram, svo lengi sem kristinndómurinn stendr, skyldi prestr som til væri settr at halda Þá sálumessu, flytia hana ímist lesándi eda syngiandi hvern dag á XII mánudum, hann skyldi sitia til bords med kyrkiupresti oc liggia í prestabúri, oc hafa IV hundrud í kaup á ári, voru Þar jardir til teknar, enn Jón ábóti á Þíngeyrum, oc Einar ábóti á Þverá samÞycktu. Þá tók Olafur biskup miöc at áfellast Einar prest Benedictsson, er hann hafdi velttann Grenjadarstad, oc kærdi hann fyrir XII presta dómi föstudaginn fyrir Hallvardsmessu at Vidvík, fyrir óhlídni vid sic, qvadst hafa mist lax af honum í siö ár, oc var svo lángt sídann Jón prestr Pálsson dó, oc Einar prestr tók vid stadnum, var Grenjadarstadr Þá med sínum peníngum dæmdr í biskupsvald í fardögum án allrar mótstödu, oc skyldi Einar prestr gialda biskupi laxinn med jafngódum peníngum undir eyd, oc Hóla kyrkiu XV merkr í fullrètti sitt, ef laxinn verdr til hálfrar merkr á ári, en LX merkr ef hann var verdr hundrad á ári eda meir, má Þat ráda at prestr hafi mist stadinn at Því sinni, en seinna vard hann ábóti á MúnkaÞverá. Mánudaginn fyrir Mattheusmessu seldi húsfrú Solveig Þorleifsdóttir Jóni syni sínum Sigmundarsyni Stadarhól, er hún hafdi erft eptir son sinn Lopt Ormsson, enn áskildi sèr Þó ábúd, oc Þótti verid hafa hin mesta merkiskona. Fór fram vitnisburdr Sveinbiarnar prests Þórdarsonar oc Gudmundar prests Jónssonar, at Þeir voru á Breidabólstad í Vestrhópi Þegar Sigmundr prestr Steindórsson lysti Því at Solveig hefdi svo ákvedit í banasótt sinni, at Olafr biskup skyldi eiga Flatatúngu ef hún yrdi eigi leyst á tilteknum tíma; nefndi oc Þorleifr hyrdstióri XII menn í dóm, um giafir oc skuldir Solveigar, dæmdust Þær löglegar er hún gaf börnum sínum lifandi, Jóni, Bergliótu oc Lopti Ormssyni. Þá fór enn fram sá vitnisburdr: at Oluf Aradóttir á Kvennabecku systir Gudmundar ríka hefdi gèfit Byrni Þorleifssyni umbo, at krefia Gudmund bródr sinn hennar erfdafiár eptir Ara födr Þeirra IIII hundrud hundrada, oc svo eptir Þorgèrdi Olafsdóttr módr hennar fimm hundrud, er Gudmundr Arason hèldt í óleifi, oc skèdi Þat verit næsta, ádr Biörn ríki reid á Reykhóla, oc tók Þá at sèr; má af slíku marka.

at lengi hafa stadit deilr Vatnsfyrdínga oc Reykhólamanna, oc Biörn fyrirkomit Gudmundi, er hann var óvinsæll ádr, oc komist yfir fè hans, fyrir því veitti Andrès Gudmundarson tilkall oc heimreidir á Reykhóla, oc er líkast hann hafi halda viliat til barna sinna, oc hafa siálfr forrádin, sem þá giördu þeir höfdíngia synir, er laungètnir voru siálfir, en áttu börn skilgètinn. Þá fór fram kaupmáli at Hiardarholti fèkk Asgrímr son Sigmundar prests Steindórssonar Steinunnar dóttr Þórarins bónda Aronssonar, hann gaf henni, oc Hallr prestr bródr hennar, enn júnkæri Einar Biarnarson á Kúlu hafdi gèfit Asgrími jardir. Gísli Philippusson í Haga vo þann mann er Biörn Vilhiálmsson hèt, þat var kallat ofyrirsyniu sem þá var jafnann tídt um víg þau er ríkismènn vogu; þar um dæmdu XII menn á Alþíngi at Gisli væri feriandi til Noregs á konúngs nádir, oc mælt at Rafn-Brandsson lögmadr hafi samþyckt, segir þó í annálum at hann hafi þá ei enn lögmadr ordinn verid; enn Þorleifr hyrdstióri Biarnarson qvittadi Gisla konúngdómsins vegna um bóta lúkníng.

## LXX. Kap. Arna mál.

Arni hèt madr oc var Höskuldarson, má ætla verit hafa bródir eda frændi Runólfs Höskuldarsonar, er fyrr er gètid, hann átti jardir fyrir nordann oc þar med kyrkiustadina Núpafell oc Núpsstadi, reiknadi Olafr biskup at kyrkiur þær ætti mikit fè innistandandi hiá Arna, oc lèt gánga þar um XII prestadóm at Eyrarlandi í Eyafyrdi, oc dæmdi þat fè af honum, enn Arni vildi ei lúka, oc stód svo þat ár, þeir voru einir í þeim dómi Jón Gamlason ábóti á Þíngeyrum oc Sigurdr priór á Mödruvöllum, var þetta upphaf málaferla þeirra biskups oc Arna. Alyktadi nú biskup med brèfi sínu rituódu at Hólum föstudaginn fyrir uppstigníngardag hinn næsta eptir, bádar jardir þessar vera fallnar undir kyrkiuna, oc hennar formenn oc 1480
þar ad auki svo mikit lausafè, sem kyrkiufèn væri meiri, enn dyrleiki þessara jarda; lèt sídan lögfesta bádar jardirnar, oc fyrirbaud hverium manni þær at halda utann sitt leifi. Arna þótti mikit fyrir at missa höfudból sín oc hlíddi því ekki, leid svo framm um hríd fyrir því at Olafr biskup fèkk vid ödru at snúast er honum þótti fengvænlegra. Þá er gètid sídast brèfagiörda Jóns Gamlasonar ábóta á

Þíngeyrum, er hann ritadi undir jardaskipti Skúla bónda Loptssonar oc Thómasar Þorsteinssonar, þeir voru þá taldir fremstir prestar fyrir nordan land Þorsteinn Jónsson rádsmadr, Sveinbiörn Þórdarson í Múla, Gudmundr Skúlason, Jón Broddason, er Officialis var, Nicolás Þormódsson oc Sigmundr Steindórsson; Þorkèll prestr Gudbiartsson var gamall miöc oc [er Sveinbiörn prestr bádir. Þá fór fram kaupmáli Einars Oddssonar oc Asu Egilsdóttr at Stadarhóli í Saurbæ, þau biuggu sídann at Skardi í Lángadal; þá gáfu oc þau Scolastica Magnúsdóttir oc Einar Grímsson Magnús bónda son Þorkèlls prests Gudbiartssonar qvittann um sakir nockrar; Magnús bió í Skridu sídar, enn hèldt þá Laufás stad af födr sínum, oc var af sumum haldinn fiölkunnugr sem hann. Kristián konúngr sendi híngad brèf, oc fyrirbaud hèr eptirlegr útlendskra, hann gaf oc Gisla Philippussyni landsvist. Þá tók Þorleifr hyrdstióri vitni af Egli Grímssyni oc Oddi Pètrssyni oc fimm mönnum ödrum í Flatey, um hollustu sína vid konúnginn, því hann þóttist rægdr verit hafa, hygg eg Egill sè sá, er verid hafdi syslumadr Húnvetnínga oc fadir Asu sem Einar Oddsson átti, enn Oddr Pètrsson var fadir Einars. Þorleifr hafdi oc ádr tekit vitnisburd Steinmódar ábóta; hann ætladi utann, var hann þá oc tekinn í nockurshàttar brædralag í klaustri nockru í Norvegi. Þá úrskurdadi Eyólfr Einarsson lögmadr sunnann oc austann á Islandi jardir oc peninga Gunnlaugi Teitssyni frá Biarnarnesi, þær sem hann kærdi af Sophíu Loptsdóttr á Kèldum í Averiahrepp; gètid er oc giörnínga Eyólfs Gunnarssonar, er hann hafdi Skaptafellssyslu, oc lèt tólf menn dæma Páli Pálasyni Borgarhöfn, Gudina bónda Jónssonar, er Helgi Aronsson skipti jördum vid; lögsagnar Finnboga Jónssonar í Þíngeyarþíngi; osttolla heimtu Olafs biskups milli Hrauns á Skaga oc Hrauns í Fliótum, oc jardaskipta Gunnars bónda Jónssonar í Sælíngsdalstúngu oc Ingvildar Helgadóttr á Reykhólum, oc enn fleyri hluta.

## LXXI. Kap. Upphaf Hvassafellsmála.

I þann tíma höfust Hvafafellsmál, var Biarni Olason er þar bió audugr at jördum, oc tengdr vid Lopts ættmenn sem fyrr segir, var þar fiárvon ef honum yrdi sakir fundnar, en svo var háttad

at Biarni átti dóttr er Randýdr hèt; komst þat ord á at hún hefdi sèst nakinn í sæng hiá honum, med fleyrum atvikum ófögrum; oc bera sumir af, enn sumir á, um sannindi þess máls, vard Biarni ófrægdr af þessu, oc gèkk Olafr biskup svo ríkt eptir, at hann lèt fánga Biarna oc flytia heim til Hóla, oc hafdi þar undir kyrkiunnar valdi oc skript; tók biskup vitnisfast uppá hann í haldinu at hann hefdi medkènt fyrir sèr oc ödrum at hafa med fullu verki líkamlega legit svo opt med döttr sinni Randydi, at hann myndi þat ecki; gèkk hann þar undir skript oc lausn vid biskup fyrir þessi sín brot, oc var sídann laus látinn, enn Randýdr vildi engu á sic játa, oc var því forbodud af biskupi, oc sett út af kyrkiu oc Krists líkama medtekníngu. Þá bió í Skridu Rafn Brandsson frá Bardi; hann var þá lögmadr ordinn nordann oc vestann, enn þat bar svo vid, at því er Biörn á Skardsá segir, at nágranni Brands lögmans Jónssonar á Hofi var rigtadr um illmæli, oc var þar í grend sá madr er rigtid hafdi af qviknad, hafdi sá madr er fyrir vard nockrum sinnum fundit Brand lögmann oc bedit úr at ráda, enn hann hafdi hiá sèr vikit, hafdi hann oc enga syslu þá í Skagafyrdi; manni þeim þótti mikit at hann mátti engin rád edr tilhlutun fá af honum, oc for eitt qvöld til Hofs í húmi oc beid þar vid kyrkiu, því hann vissi at Brandr mundi til kyrkiu gánga oc giöra bæn sína, sem hann átti vanda til, oc þá mundi hann í þeim þaunkum at leggia sèr heil rád. Brandr gèkk til kyrkiu, enn madrinn var beint á leid hans svo at hann nádi ei greidliga kyrkiunni eptir því sem hann vildi, spurdi madur þessi hvad hann skyldi tilgiöra vid þann mann, er slíku vondu rigti hefdi uppkomit um sic, var þá Brandi óþægd í tálman kyrkiugaungunnar, oc hafdi ei annat hugfest at ræda, en lesa bænir síni, enn mælti þó: *hvad viltu giöra? Skèrdu úr honum túnguna*, madrinn hèldt þat heilrædi oc gèkk á brott, fèkk sèr adstod oc fór til óvinar sins, oc skar túngu úr honum. Þetta þótti Brandi fádæmi mikit at svo hefdi tiltekist, var ridit til Alþíngis oc málit fram haft, vildu margir giöra Brand lögmann syknann saka fyrir þetta, enn hann vildi þat ei, oc sagdi af sèr med öllu lögmansdæmit, vildu þá allir höfdíngiar hafa samt Brand at lögmanni, enn þat fèckst ei af honum, spurdi menn þá hvern hann vildi í sinn stad kiósa, enn hann mælti Finnboga brodr minn veit ec lögvitrastann í mín umdæmi, en þèr skulut ábyrgiast hve rèttdæmr sè; höfdíngiar

qvádu þat at sköpudu skeika mundi, enn Brandr hèldt svari fyrir manninn, er í málit ratadi, svo hann kom bótum fyrir sic, oc styrkti hann allvel bædi til máls oc fèbóta. Þessi saga þykir sumum oc þó fródum mönnum efanleg, oc þat med at Finnbogi hafi verid bródir Brands, því hann var miöc miklu yngri, þó ætla ec þat líkast at þeir hafi brædr verid af faderni, því þá voru nær siötyu vetr frá því er Jón prestr Pálsson var svo á legg kominn, at hann mátti vel sonar afla, enn at móderni hafa þeir ei brædr verit; var oc ei Finnbogi lögmadr eptir Brand, oc svo er at siá sem Rafn frá Bardi hafi lögmadr ordinn verit fyrir einum vetri eda tveimr, er Biörn telr þetta skèd hafa, oc má hann satt segia þó villa sè um tímann. Rafn lögmadr bió at Skridu í Hörgárdal sem ádr er sagt, oc voru foreldrar hans Brandr Haldórsson oc Ragna Rafnsdóttir, var Brandr dáinn; giördist missætti med þeim Olafi biskupi oc Rafni út af kyrkiufiám á Bardi, þoldi oc Rafn ei alla ásetnínga biskups; arfadeila var í milli Rafns oc Magnúsar Þorkèlssonar Gudbiartssonar, oc deildu þeir á Bakkagötum, oc sóktust med vopnum þar fram í skóginn, þat vitnudu þeir Jón prestr Olafsson oc Thómas Gudmundarson at Grítubackasókn fimtudaginn í páskaviku at Rafn oc hans menn hefdu höggvid fyrr til Magnúsar. Rafn tók Randydi Biarnadóttr í skiól sitt, oc lèt dóm gánga á Alþíngi um sumarit laugardaginn fyrir Pètrsmessu, þat hún mætti med tylftareydi, at nefndum vottum fría sic frá óqvædi því er Olafr biskup bar á hana; enn þau eydvætti er ei vildu sanna þau Biarna sek edr sykn skyldu engra vitna niótandi verda, oc skyldu hafa þann eyd svarit fyrir Rafni lögmanni fyrir nærstu mikialsmessu, eptir þeirri grein, at kona færi sic undann med eydi ef hún má, þó madr vændist hennar, oc svo giördi Randydr. I annann máta dæmdi Rafn lögmadr í sama stad, fángan Olafs biskups á Biarna ólögliga verit hafa, at óprófudu máli hans, oc þar sem hann fèkk ei færast undann med lögum, ef hann hefdi verit tilfær, dæmdi hann Biarna oc hans mál aptr undir konúngdómsins vald oc meiga færa sic undan med tylftareydi fyrir Rafni lögmanni, ef hann mætti, oc þann eyd vann Biarni. Fyrir þessar atgiördir setti biskup Rafn lögmann med forbodi út af kyrkiu inngaungu oc allri prestaþiónustu. Þridiudaginn nærstann fyrir Pètrsmessu oc Páls, á því ári hafdi Magnús biskup at almenniligri

prestastefnu í Skálholti látid gánga. VI presta dóm um fimm bæi í Stafholtstúngum: Steina, Lunda, Kadalstadi, Bakka oc Einifell, oc dæma þá aptr undir Hiardarhollts kyrkiu, eptir máldaga hins heilaga Þorláks biskups, oc skickunarbréfi Jóns biskups Stephánssonar, á móti bréfi Mattheusar lènsbiskups oc Officialis úrskurdi Steinmódar ábóta, oc Odd prest Pètrsson bródr Sveins biskups Spaka skyldugann at gialda aptr Hiardarhollts kyrkiu tyundir oc lysitolla sem af þeim bæum fallit hafa sídann hann tók vid; enn þridiudaginn eptir at Lundi í sydra Reykiadal ritudu menn til konúngs um skada af eptirlegum kaupmanna hèr, oc sendu honum med Þorleifi Biarnarsyni, er þá var enn ei utann farinn, oc bádu hann giöra bót á; ætla ec hann hafa haft syslu i Borgarfyrdi þángat til, því at hann hafdi dæmt um arftöku útlægs manns, eptir módr sína, sem dó ádr fadirinn fèkk frelsi; fór Þorleifr utann oc fèkk eyrindi sitt, oc er líkast at þá hafi fyrst útgèfit verit konúngsbrèfit, er fyrri er um gètit, en þat sumir segia Þorleifr hafi þá fyrst fengit hyrdstiórnina, ætla ec ósannara nema áratala sè raung í ákiærunni; hafdi Henrik Daniel hyrdstiórn þá er Þorleifr var erlendis.

## LXXII. Kap. Frá Olafi biskupi oc Rafni.

Litlu sídar seldi Magnús biskup Gísla Philippussyni mági sínum 1481 Gudlaugsvík í Hrútafyrdi undan dómkyrkiunni, fyrir Þínghes í Borgarfyrdi; þá deydi Kristián danakonúngr hinn 1sti af Oldinborgar ætt, oc tók vid ríki son hans hinn eldri er Hans hèt, hafdi þá Þorleifr Biarnarson hyrdstiórn nordann oc vestann, enn Didrik Pinning at því er menn hyggia sunnann oc austann, veitti Þorleifi hyrdstiórnina erkibiskup Gauti, því at konúngur var dáin, oc er svo at heyra sem hún hafi verit yfir land allt, því þar eru nefndar med Vestmannaeyar, hamlar þat þó ekki at Didrik Pinning hafi haft nockurn hlut í, ei heldr hinu at Þorleifr hafi ádr hyrdstiórí verit, sem ráda er af undanförnum málum, þó hann hafi þá tekit nya veitíngu, er konúngrinn var fráfallinn. Fyrir Kyndilmessu um vetrinn fundust þeir Olafr biskup Rögnvaldsson oc Rafn lögmadr Brandsson á Miklabæ í Skagafyrdi, beiddist Rafn lausnar af forbodi því er biskup hafdi sett hann í fyrir málafylgi vid Hvassafells-Biarna, en biskup qvadst þat giöra skyldi ef hann

skiladi Randýdi aptr undir kyrkiunnar rètt, oc hafi þat giört fyrir lángaföstu oc gángi sidann til hlídni vid sic; Rafn qvadst því ecki mundi heita, oc skildu þeir vid þat; enn föstudaginn eptir messuna gèkk at Grítubacka í Höfdahverfi XII manna dómr um ákæru Finnboga Jónssonar sýslumans í Þíngeyarþíngi konúngdómsins vegna til Magnúsar bónda Þorkèlssonar, at hann hefdi lagt Rafn Brandsson med knífi; sör Magnús at þat hefdi ei skèd nema í þeirra vopna vidskiptum, þá hann hefdi átt hendr sínar at veria, í fardaga vikunni, þá nær fyrir þrennum XII mánudum; er Finnbogi í þeim dómi lögmadr kalladr oc má vera at forbod Rafns hafi því orkat, at hann hafi ei þótt tilhæfr. Rafn hèldt Randýdi á heimili sínu, sem fyrr, oc samneytti henni sem óseknum manni, vóx þá því meir þycka med þeim biskupi, stefndi þá biskup Rafni lögmanni oc brædrum hans undir sinn oc átián presta dóm til Vídvíkr mánadaginn eptir Geisladag, um kyrkiufèna Bardi, voru þeir dæmdir skyldugir at lúka kyrkiunna alla peninga sem fallit höfdu í hennar portionem, Mortualia oc adra innstædu, bædi fyrir sic oc födr sinn, undir þeirra svarinn eyd oc tveggia votta med þeim, er giörst vita hvad fallit hefdi, oc lenge hefdi verit þar í sókn; frambar biskup hrörnun kyrkiunnar, oc kalladi kyrkiutyundir um lángann tíma uppapentar oc eyddar; fyrir þat voru þeir brædr dæmdir skyldugir at lúka Bards kyrkiu þriár merkr fyrir tyundarhald á hvöriu ári, oc tvígialda þó tyund árlega, oc hafa lokit alla þá peninga heima á Bardi í nærstu fardögum biskupi edr hans umbodsmanni í hönd, en lúkist þeir þá ekki, dæmdu dómsprestar jördina Bard kyrkiunnar eign, eda svo mikit í henni sem brestr á útsvörum peninganna. Þeir átián prestar dæmdu einninn Rafn til at giöra reikníng af hálfkyrkiu sinni í Skridu, oc alla bændr af hálfkyrkium sem giört væri í Noregi; vard ekki af útsvari Rafns, oc fèkk biskup engu áleidis komit vid hann, enn Rafn fyrirbaud konúngsþegnum at búa á biskups oc Hóla kyrkiu jördum, eda þióna á búum hans oc bannadi prestum at dæma í veraldligum málum, er þeim kæmi ekki vid; biskup hèt hinum mestu hardindum í móti, oc lèt þrisvar lýsa til banns yfir Rafni, en hann gèkk ei til hlídnis at heldr vid biskup; í þann tíma dæmdi hann dóm um arfleidslu í Snóksdal; biskup lèt lesa upp í lögrèttu um sumarit, oc tók sídar uppá þat XI presta vitnisburd, um privilegia er konúngr hefdi gèfit sèr oc Hóla

kyrkiu, oc forbodsbref sitt yfir Hrafni, sagdi at hann skyldi ekki skémma lögréttuna edr adra dándismenn med sinni náveru, oc forbaud öllum at gánga dóma med honum fyrrenn hann væri leystr; þar var Hrafn oc hans menn, kölludu upp oc bördu höndum samann oc giördu óp mikit, vildu ei heyra brèfinn, oc sumir lögréttumenn vildu láta skèra þau i sundr, oc budu at draga prestana út af lögréttu, kvádu lífi þeirra mundi hætt, ef þeir letu ei af upptektum sinum, oc ráku biskup út, lèt Rafn tvo votta sveria sakargift uppá Olaf biskup, oc stafadi þeim eydinn siálfr, enn dæmdi í málum Biarna Olasonar; biskup lèt oc XII presta klaga yfir bændum oc helst Hrafni lögmanni oc ætladi at bera þat fram fyrir erkibiskup. Fór Rafn utann um sumarit med þískum í forbodi biskups; enn Olafr biskup hugdi sèr þat all-óþarft verda mundi, oc fór utann oc skipadi ádr Sigurd prest Þorláksson á Mælifelli Officialem, er hann kom til Noregs kærdi hann Rafn þúnglega fyrir Gauta erkibiskupi í Nidarósi, fyrir mótblástr oc ofbeldi á móti sèr oc heilagri kyrkiu mörgum sinnum, bædi í Hvassafellsmálum oc ödrum, qvad hann ekki hafa giört sèr nockurn reikníngskap af hálfkyrkiu sinni á Skridu, oc eigi veitt biskupi skyldu veitslu í visitatiu hans, heldr fyrirbodid ödrum oc almúganum, at giöra nockurn reikníng af hálfkyrkium, frambar hann fimm presta vitnisburd at Biarni Olason hefdi játat fyrir þeim, um sitt hald oc adbúnat í vardhaldinu á Hólum, þat hann haft hefdi nógann mat oc dryck, klædi oc útbúnat medann hann var þar. Um jólaföstu hefdi hann fastat annan hvern dag eptir biskups skipan, en annann hvern etid fisk, oc aldrei haft hardara fángelsi, en rumann fiötrlás til skiptis á fótum sèr, en stundum gengit laus. Þessu hefdi Biarni lyst fyrir þeim heima á Hólum, sunnudaginn nærstann eptir Geisladag, vitnisburdrinn var útgèfinn á föstudaginn fyrir Jónsmessu Baptistæ þat sumar oc á sama stad. Olafr biskup hafdi oc samanhallat heima á Hólum marga presta sina á Jacobsmessu, voru þeir fyrstir Sveinbiörn Þórdarson Officialis oc Kètill Grímólfsson, hafdi hann látid þar samantaka lysíngu sina oc vitnisburd, um framferdir þeirra biskups oc Hrafns lögmans, oc þá XX oc IV presta lysíngu frambar hann fyrir erkibiskup, oc sidann konúnginn, þess innihalds, at prestar þessir bera þat þeir vita fyrir full sannindi, at Hrafn lögmadr hafi giört þeirra nádugum

herra oc andlegum födr Olafi biskupi, oc hans kyrkiu oc nád stóran mótblástr svo at hann hefdi ekki haldit þá dóma sem yfir honum hefdi dæmdir verit eptir rètti heilagrar kyrkiu, oc enginn hennar privilegia vildi hann halda, hafi hann oc almúgann í landinu dregit med sèr, oc tekit af þeim ófrægdarbrèf biskupinum oc kyrkiunni til skada, oc til at rygta hann fyrir konúnginum oc ödrum dándimönnum útannlands oc innann; enn Olafr biskup hafi byggt upp dómkyrkiuna, svo hún sè nu betr standandi, enn þá hann tók vid henni, lagt til hennar mörg Ornamenta í sylfri, klædum oc líkneskium, stiórnad vel sínu biskupsdæmi sem einn edla herra, hafi oc lagt allt kyrkiunnar sylfr undir prestanna geimslu, þá hann hafi af landi farid, oc enga peninga undir sic edr dómkyrkiuna dregit, nema med dómum, lögum oc saungum, viti þeir engar sakir med honum vid konúngsþegna oc almúgann, er honum megi til öfundar verda, heldr hafi almúginn skuld vid herra biskupinn, svo hann kunni ekki at framkoma kyrkiurètti fyrir ofsa þeirra, oc sè svo mikil óeiníng kominn milli lærdómsins oc almúgans á Islandi öllu, at þeir hyggi kristinndómrinn muni skiótt eydast ef svo skal framfara; var því allra audmiúk bón fyrir Guds skuld oc heilagrar kyrkiu, at konúngdómsins nád, erkibiskupinn oc allt ríkisrádit í Noregi, styrki svo kyrkiunnar rètt á landi hèr, þat hún oc kristinrèttr mætti vidhaldast. Olafr biskup hafdi þá ei farid þess á mis, ádr hann fór utann, at ná því er hann átti, meir enn hann var vanr; hafdi Gudmundr prestr Skúlason lokit honum Sydraholt í Svarfadardal fyrir skuldir sínar oc Skúla Loptssonar födr síns; enn Kolli Magnússon er briti hans hafdi verid Vatnsenda í Liósavatnssókn fyrir XV kundrud í skuld. Dómar höfdu oc gengit um mál Biarna Olasonar, höfdu XII menn dæmt í Saurbæ í Eyafyrdi, um afhendíngu fiár hans, at Margrèt Olafsdóttir kona hans skyldi fyrst hafa mála sinn enn syslumadr annast penningana, þat var Jón Sigmundarson, hann hafdi þá Vallaþíng oc samþykkti dóminn, enn Finnbogi Jónsson syslumadr í Þíngeyarþíngi, kyrrsetti þá penínga er samanstódu á Þverá í Fnióskadal búi Biarna; enn uppá ákæru Olafs biskups útgaf Gauti erkibiskup alvarlegt áminníngarbrèf ritad í Biörgvin í Ymbruviku um haustid, til allra lærdra oc leikra í Hóla biskupsdæmi, oc deilir fyrst á Rafn lögmann, oc atferd hans í Hvassafellsmálum, oc segir alla hans dóma um Randydi ónyta oc ógilda,

enn samþykkti alla dóma oc giörnínga Olafs biskups, rædr hann öllum hlídni vid Olaf biskup oc heilaga kyrkiu undir bannsþínu, enn vilie nokkr þriótskast þá stefnist þeim til Noregs fyrir erkibiskupinn. Biarna Olasyni tilsagdi hann at fara sem fyrst af landi ábrott á sinn fund, oc til annara helgra stada, eptir því sem Olafr biskup hefr uppálagt honum, oc bæta fyri brot sín, enn þriótskist hann, þá má hann bannfærast, oc ábyrgist siálfr hvad veraldligr rèttr giörir vid hann, enn Randydr taki skriptir heima í landinu, oc þeir med henni er Biarna rángliga svarid hafa oc fari eptir kristinrètti; er nú ekki lióst hvad í móti hefr komit af Hrafns hendi þó er líkast hann hafi ordid at vægia, enn aptrkom hann oc hèldt lögsögninni, oc er ei þess gètid at biskup hafi komit fram vid hann neinum píntíngum. Stód biskup í málum þessum um hríd, svo at ekki vard endir á.

## LXXIII. Kap. Frá ímsu.

Þessi missiri hinn sömu fór fram vitnisburdr um Dálkstadi í Svalbardsþíngum, er Jón Þystill var vidridinn, oc Biörg Þorkèlsdóttir kona hans, oc handlag Arna Þorleifssonar bródr Biarnar ins ríka á jördūni Merkigili í Abæarsókn til Þorgèrdar Hallsdóttr; einninn XII manna dómr í Hvolhrepp, er dæmdi Erlendi bónda Erlendssyni Lágafell í eystri Landeyum af Eyríki Jónssyni; samþykkti þennann dóm Eyólfr Einarsson lögmadr sunnann oc austann, oc enn fleyri giörníngar. Þá fèkk Einar ábóti Isleifsson Ærlæk í Axarfyrdi undir Þverárklaustr; Egill Grímsson oc Sigurdr son Dada Arasonar Dadaskalla voru þá syslumenn í Húnavatnsþíngi; enn á hinum nærstu missirum var Rafn lögmadr hèr, oc lèt gánga XII manna dóm at Þorkèlshóli í Vídidal um umbod Orms Biarnasonar, 1483 er því at siá sem hann hafi þá haft Húnavatnssyslu, dæmdist umbodid Gudmundi presti Skúlasyni enn húsfrú Margrèt Vígfúsdóttir hafdi í setst. Eyólfr lögmadr Einarsson hafdi látid grípa herra Jón Snorrasòn nockurn um nótt oc sett í stokk oc járn oc í annat sinn tekit hann út af kyrkiu í sama fángelsi, fèll hann fyrir þat í bann enn ólióst er um atburdi; hafdi Þorleifr Biarnarson hyrdstióri kært þat konúngdómsins vegna, enn Jón Smiör riddari, oc höfudsmadr

í Biörgvin. hêldt Eyólf þessvegna óbótamann nema hann sættist vid Þorleif; þá fóru fram vitnisburdir um brêf oc skilríki er Þorleifr fór med til Danmerkr oc giörníngar margir; eitt var þat er Arnfinnr Jónsson seldi Arnóri Finssyni á Ökrum Höskuldstadi í Laxárdal, oc at Magnús Þorkèlsson sættist um peníngá reikníng Kristínar konu sinnar eptir födr hennar Eyólf Arnfinsson, er Gudni bródir hennar hafdi ólögliga at sèr tekit. Didrik Pining var þá einn hyrdstióri hèr, en eigi Þorleifr. Didrik veitti Magnúsi at því er ec hygg Þorkèlssyni, þó hann sè annars kalladr Markús edr Vigfús Þorkèlsson, syslu milli Vargár oc Ulfdaláfialla, þat er Vadlaþíng, sex marka mál öll oc þar fyrir innann, oc skyldi mega hafa umbodsmann, enn svara siálfr skattinum til Bessastada; er þá engra gètid valda Þorleifs, oc er svo át siá sem þeir Didrik Píning hafi haft hyrdstiórn eitt ár hvör til skipta; enn frá Einari bródir Þorleifs er þat sagt; at hann lèt veita heimsókn þeim manni er Biarni hèt, oc var Þórarinsson vestr á Briamslæk, kalladr hinn gódi madr, oc var Þorsteinn er sumir kalla Jón launsonr Þorleifs hyrdstióra fyrirlidi, er þeir drápu hann, oc var þat um sakleisi var Einar þá enn á Kúlu. Um þat manndráp útnefndi Magnús biskup dóm í Skálholti nærsta dag eptir Simonsmessu oc Judæ, vard þó ei útgiört at því sinni; Jón var sonur Þorsteins Þorleifssonar, oc annar Eyvindr.

## LXXIV. Kap. Upphaf nokkurra manna.

Jón hèt madr oc var Egilsson bródir Hallberu módr Einars prests Olafssonar í Gördum; synir Jóns voru Stephán prestr, hann var lærdr vel oc framadr á Frakklandi oc vídar oc nefndr *Baccalaureus artium*, var hann fyrstr í þeim dómi Magnúsar biskups er nærst var gètid. Gudmundur hèt annar son Jóns, hann var fadir Þórdar prests, oc Brands á Leirá oc Valgèrdar er átti Pètr son Sveins biskups en sídann Hallkèll. Asmundr betri var hinn þridie hann vár prestr vestr á Eyri, þar vár þá alkyrkia í Eyrarsveit, hans son var Stephán srerki í Lá, þridie son Jóns var Asmundr illi, en dætr hans voru Ingirídr er fylgdi Einari presti hinum gamla Snorrasyni at Stad á Ölduhrygg, oc Margrèt er Þórvardr átti son Erlendar Erlendarsonar, þeirra börn: Erlendr á Strönd

oc Ragnheidr er átti Ormr Einarsson í Saurbæ. Páll hèt madr oc var Gudmundarson, hann bió á Vestfiördum, oc var nafnbótalans, Margrèt hèt kona hans Ögmundardóttir, hún var rîkra manna þar vestra, bródir hennar hèt Þórólfr kalladr biskup, ríkr madr, bió í Laugardal í Tálknafyrdi, hann hafdi áfinat bú at Hvammi í Hvamssveit, oc hafdi þá jörd at láni. Son þeirra Páls oc Margrètar hèt Ögmundr, hann var opt í förum til Noregs, oc framadist utannlands, enn dætr áttu þau margar. Nicolás hèt ríkr madr í Noregi, Rögnvaldsson Benedictssonar, bródir Olafs biskups á Hólum, Göttskálk hèt son hans, hann var klerkur oc verdr sídann vidgètid. Guttormr hèt bródir Nicolásar; þenna tíma fèkk Haldór ábóti Ormsson Munadarness í Trèkyllisvík undir Helgafell ádr hafdi hann fengid Biarnarfoss oc hálft Hraunsholt, oc Hnausa í Breiduvík oc Þverá er Sveinn Þorgeirsson taldi sína eign. Litlu sídar fór fram vitnisburdr at Finnbogi Jónsson hefdi greidt Didrik Pining hyrdstióra yfir allt land reikníng af þriggia ára skatti, af Þingeyarþíngi, enn hin sömu missiri tók Þorleifr Biarnarson hyrdstiórnina alla, því hann hafdi hana þá er hann lèt dóm gánga um peninga Andrèsar Gudmundarsonar, hafdi hann látid fánga Andrès fyrir margfaldar gripdeildir. Þá fór oc fram XII prestadómr er Sigurdr prestr Þorláksson Officialis Olafs biskups fyrir vèstann Yxnadalsheidi útnefndi at Hólum í Hialtadal, um ákæru Hrafns Haldórssonar, umbodsmans hans til Bödvars Finnssonar, at seldt hefdi selland kyrkiunnar at Bardi í Fliótum er kallat var Blákápusel, hygg ec sá Hrafn væri födurbródir Hrafns lögman. Sigurdr prestr ákærdi oc Jón prest Þorvaldsson fyrir margar greinir, oc hèldt þar um XII prestadóm at Geldíngaholti föstudaginn næstann fyrir Mikiálsmessu, fyrst at hann hefdi primsignt heidit barn, eda ei rètt skyrt, fyrir því var hann sekur XII aurum; annat þat hann hafi messat yfir Olafi Biarnarsyni í forbodi, oc samneytt honum á skyrdag, fyrir þat skyldi hann þá þegar vinna siöttar eyd, enn sekr annars III mörkum fyrir hveria messu sem hann hefr sagt sídann, oc fallinn í bann af siálfu verkinu, þarmed skyldugr at taka lausn oc skript, oc leggia af sèr messusaung, oc öll störf heilagrar kyrkiu, svó lengi sem hennar lög oc Officialis nád tilsegir. Þat þridia at hann hafi tekit at sèr rádsmannsstarf á Reynistadar klaustri, oc ef hann fengi ei framleidt tvö lögvitni, at Sigurdr prestr Officialis hafi leift abbadysinni á Stad at hafa 1481

í Biörgvin. hèldt Eyólf þessvegna óbótamann nema hann sættist vid Þorleif; þá fóru fram vitnisburdir um brèf oc skilríki er Þorleifr fór med til Danmerkr oc giörníngar margir; eitt var þat er Arnfinnr Jónsson seldi Arnóri Finssyni á Ökrum Höskuldstadi, í Laxárdal, oc at Magnús Þorkèlsson sættist um penínga reiknínga Kristínar konu sinnar eptir födr hennar Eyólf Arnfinsson, er Gudni brόdir hennar hafdi ólögliga at sèr tekit. Didrik Píning var þá einn hyrdstióri hèr, en eigi Þorleifr. Didrik veitti Magnúsi at því er ec hygg Þorkèlssyni, þó hann sè annars kalladr Markús edr Vigfús Þorkèlsson, syslu milli Vargár oc Ulfdaláfialla, þat er Vadlaþíng, sex marka mál öll oc þar fyrir innann, oc skyldi mega hafa umbodsmann, enn svara siálfr skattinum til Bessastada; er þá engra gètid valda Þorleifs, oc er svo át siá sem þeir Didrik Píning hafi haft hyrdstiórn eitt ár hvör til skipta; enn frá Einari brόdir Þorleifs er þat sagt; at hann lèt veita heimsókn þeim manni er Biárni hèt, oc var Þórarinsson vestr á Briamslæk, kalladr hinn gódi madr, oc var Þorsteinn er sumir kalla Jón launsonr Þorleifs hyrdstióra fyrirlidi, er þeir drápu hann, oc var þat um sakleisi var Einar þá enn á Kúlu. Um þat manndráp útnefndi Magnús biskup dóm í Skálholti nærsta dag eptir Simonsmessu oc Judæ, vard þó ei útgiört át því sinni; Jón var sonur Þorsteins Þorleifssonar, oc annar Eyvindr.

## LXXIV. Kap. Upphaf nokkurra manna.

Jón hèt madr oc var Egilsson brόdir Hallberu módr Einars prests Olafssonar í Gördum; synir Jóns voru Stephán prestr, hann var lærdr vel oc framadr á Frakklandi oc vídar oc nefndr *Baccalaureus artium*, var hann fyrstr í þeim dómi Magnúsar biskups er nærst var gètid. Gudmundur hèt annar son Jóns, hann var fadir Þórdar prests, oc Brands á Leirá oc Valgèrdar er átti Pètr son Sveins biskups en sídann Hallkèll. Asmundr betri var hinn þridie hann vár prestr vestr á Eyri, þar vár þá alkyrkia í Eyrarsveit, hans son var Stephán srerki í Lá, þridie son Jóns var Asmundr illi, en dætr hans voru Ingirídr er fylgdi Einari preati hinum gamla Snorrasyni at Stad á Ölduhrygg, oc Margrèt er Þórvardr átti son Erlendar Erlendarsonar, þeirra börn: Erlendr á strönd

oc Ragnheidr er átti Orm Einarsson í Saurbæ. Páll hèt madr oc var Gudmundarson, hann bió á Vestfiördum, oc var nafnbótalaus, Margrèt hèt kona hans Ögmundardóttir, hún var ríkra manna þar vestra, bródir hennar hèt Þórólfr kalladr biskup, ríkr madr, bió í Laugardal í Tálknafyrdi, hann hafdi áfnat bú at Hvammi í Hvamssveit, oc hafdi þá jörd at láni. Son þeirra Páls oc Margrètar hèt Ögmundr, hann var opt í förum til Noregs, oc framadist utannlands, enn dætr áttu þau margar. Nicolás hèt ríkr madr í Noregi, Rögnvaldsson Benedictssonar, bródir Olafs biskups á Hólum, Göttskálk hèt son hans, hann var klerkur oc verdr sídann vidgètid. Guttormr hèt bródir Nicolásar; þenna tíma fèkk Haldór ábóti Ormisson Munadarness í Trèkyllisvík undir Helgafell ádr hafdi hann fengid Biarnarfoss oc hálft Hraunsholt, oc Hnausa í Breiduvík oc Þverá er Sveinn Þorgeirsson taldi sína eign. Litlu sídar fór fram vitnisburdr at Finnbogi Jónsson hefdi greidt Didrik Pining hyrdstióra yfir allt land reikníng af þriggia ára skatti, af Þíngeyarþíngi, enn hin sömu missiri tók Þorleifr Biarnarson hyrdstiórnina alla, því hann hafdi hana þá er hann lèt dóm gánga 1481
um penínga Andrèsar Gudmundarsonar, hafdi hann látid fánga Andrès fyrir margfaldar gripdeildir. Þá fór oc fram XII prestadómr er Sigurdr prestr Þorláksson Officialis Olafs biskups fyrir vestann Yxnadalsheidi útnefndi at Hólum í Hialtadal, um ákæru Hrafns Haldórssonar, umbodsmans hans til Bödvars Finnssonar, at seldt hefdi selland kyrkiunnar at Bardi í Fliótum er kallat var Blákápusel, hygg ec sá Hrafn væri födurbródir Hrafns lögmans. Sigurdr prestr ákærdi oc Jón prest Þorvaldsson fyrir margar greinir, oc hèldt þar um XII prestadóm at Geldíngaholti föstudaginn næstann fyrir Mikiálsmessu, fyrst at hann hefdi primsignt heidit barn, eda ei rètt skyrt, fyrir því var hann sekur XII aurum; annat þat hann hafi messat yfir Olafi Biarnarsyni í forbodi, oc samneytt honum á skyrdag, fyrir þat skyldi hann þá þegar vinna siöttar eyd, enn sekr annars III mörkum fyrir hveria messu sem hann hefr sagt sídann, oc fallinn í bann af siálfu verkinu, þarmed skyldugr at taka lausn oc skript, oc leggia af sèr messusaung, oc öll störf heilagrar kyrkiu, svó lengi sem hennar lög oc Officialis nád tilsegir. Þat þridia at hann hafi tekit at sèr rádsmannsstarf á Reynistadar klaustri, oc ef hann fengi ei framleidt tvö lögvitni, at Sigurdr prestr Officialis hafi leift abbadysinni á Stad at hafa

Jón, prest edr nokkurn prest annann at rádamanni, þá var hann dæmdr í bann fallinn fyrir þriótsku oc óhlídni, oc sekr XV mörkum vid Hóla kyrkiu í hennar fullrètti, voru oc enn fleyri sakar giptir smærri, en sektir skyldu lúkast Officiali edr hans umbodsmanni í hönd; var þessi Jón prestr sídar Officialis, enn seinast ábóti á Þíngeyrum. Sveinbiörn prestr Þórdarson í Múla var Officialis fyrir nordann heidi, oc fyrir því at Þorkèll prestr Gudbiartsson andadist þá, oc var stadrinn í Laufási miöc eiddr at húsum nefndi hann XII presta í dóm at Laufási þegar at fardögum, um ákæru Kètils prests Grímólfssonar til Magnúsar Þorkèlssonar umbodsmans barna sinna er erft höfdu Þorkèl prest at þridiúngi, at gialda skyldi XIX hundrud í kyrkiuspiöll, enn XXXV hundrud fyrir stadinn, var þat hundrat fyrir hvört ár, er Þorkèll prestr hafdi stadinn haldit, sagdi Sveinbiörn prestr Officialis med laga úrskurdi, þann dóm löglegann í öllum greinum. Svo er sagt at Þorkèll prestr Gudbiartsson hafi átt þriátyu börn, oc at einn hans son væri Asgrímr fadir Jóns er sídann hafdi syslu í Eyafyrdi. Þau missiri seldi Helgi Sigurdarson Brynjólfi á Espihóli syni Magnúsar Benedictssonar, Hallgilstadi í Fnióskadal fyrir adra jörd enn Erlendr bóndi Erlendsson, Hafri Olafssyni Hrossatúngu í Skúmstadasókn er þess gètid svo at menn viti hvörier þá voru uppi.

## LXXV. Kap. Frá Olafi biskupi oc brúdkaupi Jóns.

Olafr biskup hafdi verit utann til þess er hèr var komit, oc borit framm mál sín oc erkibiskupsbréf fyrir Hans konúng, oc fengit þar uppá verndarbrèf hans á móti óhlídni oc refium nordlendínga vid biskup sinn, oc at lögmenn dæmi ekki í kyrkiulaga málum oc kristinrèttar, baud konúngr Þorleifi Biarnarsyni hyrdstióra at giöra honum rètt, var brèfit útgèfit sunnudaginn nærstann fyrir Jacobsmessu á hinum sömu missirum, er nú hefr verit frásagt; var þat all-óhægt í þann tíma, at skióta sèr undann biskupa valdi, fyrir leikmenn, því at konúngar siálfir blindudust af ætlan um helgi þeirra, oc rètthæd kyrkiunnar, oc vildu koma sèr frá óvild vid erkibiskupa; kom Olafr biskup út um sumarid, oc byrti málalok sín. Þau missiri var haldit í Vídidalstúngu brúdkaup Jóns Sigmundarsonar, oc Gudrúnar Gunnlaugsdóttr er var fyrri kona hans,

þar var at bædi Asgrímr Sigmundarson bródir Jóns, oc þeir Philippussynir frá Haga, Hermann, Gisli oc Olafr, þeim bar til vid Jón, enn Asgrímr hlióp til at veria hann, oc átti vid þá brædr alla saman höggvaskipti þar vid kyrkiugardinn, kom þá sá madr at baki Asgrími er Smidr Jónsson hèt, oc lagdi hann í gègn úr gardinum, en hlióp sídann í kyrkiu, Jón hlióp eptir honum oc lagdi í kyrkiuhurdina, oc hafdi hans ekki, urdu engar lyktir á þeim málum at því sinni.

## LXXVI. Kap. Andlát Olufar.

Oluf húsfrú hin ríka Loptsdóttir hafdi búit at Skardi at Skardströnd til þess er hèr var komit, um hana eru margar sagnir, þat er eitt at hún hafi bedit þess Gud, at láta skè nockrn mynniligan tilburd er hún dæi, oc um tídarækni hennar; Gisli Þorbiarnarson Salomonssonar var þíngaprestr hennar á hinum efri árum, hann fèkk sídann Gaulveriabæ í Flóa. Húsfrú Oluf andadist úr sótt oc var grafinn í kór at Skardi, giördi þá svo mikit vedr at kyrkiur hrundu vída oc mörg hús önnur, oc brotnudu fimtyu skip vid England, mælt er og at mörg hús hryndi í Noregi, oc var þat vedr kallat *Olufar-bilur*, skiptu þeir Þorleifr oc Einar synir hennar eptir hana, oc er at heyra af brèfinu, ef rètt er ártal á, at IV. vetrum fyrri skèd hafi, en hèr segir, en vèr kunnum ei at segia hvert sannara er, voru þeir fyrstir í skiptunum Oddr Pètrsson fadir Einars á Geitaskardi, oc Gisli Philippusson í Haga, fèkk hvör þeirra brædra þá meir enn X hundrud hundrada í jördum.

## LXXVII. Frá ímsu.

I þær mundir eda litlu fyrri, veitti Andrès Gudmundarson heimsókn á Reikhóla, tók hann gardinn oc alla þá peninga er þar stódu saman, oc þau Þorleifr oc Ingvildr áttu, voru med honum þrír menn útlendskir, er honum veittu fylgi oc lögdu þeir til bytis med sèr þat er þeir tóku. Þeir tóku oc peninga Einars Biarnarsonar bródr Þorleifs í Bœ á Raudasandi, oc fluttu til Reykhóla, en bördu á bændum er þar voru umkríng landsetum Þorleifs,

vördu þeir Þorleifi oc Einari gardinn, oc þat fè er þar var, slógu oc skutu á þá, svo at sumir urdu sárir, enn einn fèll, hygg ec þetta hafi verit virkis vetrinn, er Andrès sat at Reykhólum, enn XII lögrèttumenn vitnudu um þessa hina útlendu menn, oc athafnir þeirra þetta sumar undir Hallbiarnareyrum, oc úrskurdudu þá veria hafa óbótamenn oc rètt slegna, oc adra útlenda þeirra, líka, er þar af at ráda sem þeir hafi drepnir ordit. Þá fèkk Þorleifr Ingvildi eiginkonu sinni Svefneyar oc Midianes, átti hún þá mála í gardi Þorleifs IV hundrud hundrada. Þá var oc vitnad at Magnús biskup hefdi þat mælt, at hann vildi aldrei halda Eyólf Einarsson fyrir lögmann yfir sèr oc sínum mönnum, sídann Þorleifr lèt upplesa brèf Jóns Smiörs yfir honum, fyrir sakir hans vid Sira Jón Snorrason, oc engir vildu hans dóma gánga, enn biskup oc Didrik Píning vildu dagþínga af honum peninga fyrir hans tiltæki. Þá giördi Arni Höskuldarson testamentum sitt, oc gaf Núpufellskyrkiu Gilsá, enn Bödvar Finnsson lukti Katli presti Grímólfssyni, rádsmanni Hólakyrkiu, hálfa Þverá i Svarfadardal fyrir skuld til Hóla kyrkiu, er XII prestar höfdu dæmt honum; Conventu-brædr á Þverá Jón Magnússon, Þórdr Einarsson, Olafr Magnússon oc Þorvardr Hallgeirsson leifdu Einari ábóta at gefa Illhugastadi hverium hann vildi; þar sem klaustrid hefdi audgast um II hundrud hundrada oc LX betr á hans dögum, oc fleyri urdu giörníngar ómerkiligri. Þá sættist Einar Biarnarson at Skardi vid Magnús biskup um aftöku Biarna Þórarinssonar Gódamanns, mánudaginn fyrir afhöfdan Jóhannis Baptistæ, oc fèkk biskupi Bæ í Borgarfyrdi med Lángholti oc Hvítárbacka fyrir I hundrad hundrada, oc hálfa Asa í Skaptártúngu, Haukaberg oc Hreggstadi á Bardaströnd, oc þar til mikid lausafè fyrir I. hundrad hundrada eda meir; enn mánudaginn nærstann eptir Mikialsmessu var Magnús biskup staddr at Haga á Bardaströnd, oc gaf þá Ingibiörgu Eyólfsdóttr systr sinni, konu Gisla Philippussonar, Bæ med Lángholti oc Hvitárbacka, oc fyrirskildi at hún gæfi þær jardir Eyulfi syni hennar ef hann qvænltist; tóku nú þanninn at gánga útanad ínsum hætti eignir Biarnar hins ríka frá erfingium hans. Þá var þat mánudaginn fyrir Hallvardsmessu at Olafur biskup Rögnvaldsson, útnefndi XII prestadóm í Vidvík um mál Biarna Olasonar, sóru þá tveir prestar legordslýsingu hans med Randydi dóttr sinni, sanna at vera er Biarni hafdi á eptir tekit lausn oc skript af biskupi;

fyrir því dæmdu þessir tólf prestar med sampycki biskups, Biarna skylduganh at halda alla þá skript sem biskup setr honum eptir kyrkiunnar löguin, oc hann er madr til at halda, enn alla hálfa hans peninga fasta oc lausa, frída oc ófrída fallna undir heilaga kyrkiu fyrir slík óbótamál eptir kristnum rètti; er þess þó ei gètid at Biarni hafi af landi farid edr lausn tekit, heldr þriótskast þar til hann var bannfærdr, oc svo sídann, enn Randydr segia menn farid muni hafa sudr í Skálholt.

## LXXVIII Kap. Borin Jón Arason.

Þá bió at Grítu í Eyafyrdi Ari son Sigurdar priórs á Mödruvöllum, oc var hann óaudugr madr, Elin hèt kona hans köllut Blátönn edr Bláhosa Magnúsdóttr, enn módir hennar var Þóra Brók Isleifsdóttr hins Beltislausa systir Einars ábóta á Þverá, módir Þóru var Oddny Steinþórsdóttr, enn módir Steinþórs Oddny dóttir Brands á Svallbardi Eyríkssonar Einarssonar Gudmundarsonar hins Dyrá 341
á Backa, þau Ari oc Elin gátu í þenna tíma son er Jón hèt, er sídar vard hinn nafnfrægasti madr.

## LXXIX. Kap. Imsir atburdir.

Önnr minniri er gètid jardagiörnínga Olafs biskups, Bryniólfs á 1485
Espihóli Magnússonar Benedictssonar, Jóns Dans sonar Biarnar hins ríka, Arna Þorsteinssonar oc enn fleyri manna, þá var giört kaupmálabrèf Sveins Sumarlidasonar Eyríkssonar Loptssonar oc Gudrídar dóttr Finnboga Jónssonar, reiknadi Sumarlidi stadit hafa hiá Sophiu IV hundrud hundrada af arfi eptir Eyrík Loptsson, enn önnr IV hundrud hundrada hiá Olufu er þær vildu ekki lúka 341
þá fèkk Haldór Ormsson ábóti hálfann Arnarstapa undir Helgafellsklaustr, enn Einar ábóti undir Þverá, þat eptir var at Vaglaskógi; son Einars hèt Finnbogi, voru þeir fedgar í þann tíma hinir lærdustu menn á látinu fyrir nordan land oc stunddudu meir bækr sínar en veraldlegar syslanir eda fiárplóg, voru rádvandir menn oc sidgódir, er af slíku at siá sem ekki hafi verid med ójöfnudi nokkrum þó Einar ábóti audgadi klaustrid at löndum oc kökum;

þeir Brandr lögmadr höfdu fyrir átta vetrum sídann sett heitdaginn hinn 11ta Martii mánadar, er halda skyldi bænir og géfa ölmusr, oc áttu prestar at ræda um fyrir mönnum ádr, hellst sú venia fram á daga Kristiáns konúngs hins siötta. Einar ábóti keypti sídast Teig í Hrafnagilsþíngum af Sumarlida bónda Eyríkssyni, hann keypti oc jördum vid Magnús Jónsson, enn Olafi
1486 biskupi var þá fengin Þverá í Svarfadardal. Þá var præta med Olafi biskupi Rögnvaldssyni oc Sigurdi presti Þorlákssyni á Mælifelli er verid hafdi Officialis hans; enn á fimtudaginn nærstann fyrir Jónsmessu Hólabiskups, medkèndi Sigurdr prestr brèfl̃ega, at hann hefdi fengit Olafi biskupi jördina Hól í Siglufyrdi til fullkomlegrar eignar, fyrir þær sektir, sem hann vard biskupi oc Hóla kyrkiu skyldugur, oc fallit hefdi í þau þriú ár, medann hann var Officialis, oc biskup var erlendis. Þau missiri andadist húsfrú Margrèt Vígfúsdóttir á Mödruvöllum, oc var hún þá áttræd at aldri, var hún grafinn í Kór hiá Þorvardi Loptssyni bónda sínum. Um
1487 þær mundir var Finnbogi Jónsson lögmadr ordinn algiörlega, því at fyrir þat ár er þá fór í hönd tók hann lögmanskaup seinna, þat sumar dæmdi hann á Alþingi um ættleidslu enn brèfit var ritad í Liáskógum; fleyri urdú þá giörníngar er ec tel ekki, oc þat eitt at Einar Biarnarson sættist algiörliga vid Magnús biskup. Þá byrti Remundr páfa sendibodi mikil aflát þeim sem gæfi til kyrkiu einnar í útlöndum, fèkk þat aflát sá madr er Eylífr Þorbiarnarson hèt oc kona hans. Þá giördi Einar ábóti testamentum sitt, oc gaf marga hluti Stíg Einarssyni frænda sínum, en þeir er eptir hann komu vildu þat ei haldast láta, vard Einar ábóti skamlífr þadann af, oc andadist at því er menn hyggia, nær ára mótunum nærstu. Var þá at Grenjadarstad prestr sá er Eyríkr hèt oc var Einarsson, hann kom til Olafs biskups fyrir fárdaga um
1488 vorit eptir, oc beiddist eptir ábótadæmi á Þverá, biskup neytadi honum fyrir þá sök at hann hefdi ekki klaustr klöt; prestr hèt bót, oc bad hann þat leifa sèr, qvadst hafa heitit hinni heilögu mey Maríu klaustr lifnadi; lèt þá biskup honum eptir forrád klaustrsins, enn um vetrinn kom Eyríkr til Hóla, oc hafdi honum þá afleat sonr, beiddi hann biskup lausnar, oc þó jafnframt vígslu til ábóta, fèkk hann lausnina enn vígsluna ekki. Þau missiri deydi Jón Gamlason ábóti á Þíngeyrum, var hann þá gamall miöc, oc hafdi verit haldinn med hinum fremstu klerkum

nordanlands, vígdist þángad aptr til ábóta Ásgrímr Jónsson, hann keypti Melrackadal oc Hrísa undir klaustrid af Jóni Sigmundarsyni oc fèkk honum aptr Núp, enn Haldór Ormsson ábóti á Helgafelli fèkk þá undir þat klaustr Hraunhafnarbakka med nokkru af Geitabergi oc Þverá. Didrik Pining hafdi þá hyrdstiórn, enn Hendrik Mæding var umbodsmadr hans, oc hann fèkk Finnboga Jónssyni rentu alla af Þíngeyarþíngi í lögmanskaup hans, "því at hyrdstiórar guldu þat jafnann," oc tóku siálfir alla skatta í þann tíma; höfdu syslumenn sakeyri þann er ei nám stórfè, oc þat eina er þeir máttu fá, enda höfdu þeir ei annann vandann, enn innkalla tekiurnar, oc at nefna dómsmenn, enn margir voru þeir audugir af stórum örfum, en sumir af yfirgángi. Henrik Mæding gaf oc Pál Pálsson qvittann, um silfr þat er Biarni Marteinsson er verit hafdi á Kètilsstödum, hafdi at halda eptir Geirik gullsmid, því at Páll átti Holmfrídi dóttr Biarna; Biarni hafdi oc átt sonu, oc er Erlendr nefndr einn, Ragnhildr hèt oc dóttir Biarna, hennar fèkk Biörn son Gudna Jónssonar í Ögri. Jón Sigmundarson seldi Jóni Þórdarsyni Skardsdal, en Margrèt Olafsdóttir Loptssonar kona Hvassafells-Biarna, fèkk Ingibiörgu Þorvardsdóttr frændkonu sinni konu Páls Brandssonar fiórdúngsgiöf oc tyundargiöf, samþyckti Biarni þat, oc var hann þá enn fiár síns rádandi; hafdi hann oc traust af Páli. Gudmundr prestr Skúlason seldi Olafi biskupi, oc heilagri Hólakyrkiu Byaskèr á Rosmhvalanesi fyrir lausafie. Tók nú Olafr biskup at hafa fram mál sín þau hin gömlu, kærdi hann á Arna Höskuldarson at almennilegri prestastefnu at Vídivöllum mánudaginn fyrir Dyradag at hann hèldi jördunum Núpufelli oc Núpstödum edá Hnappstödum, dæmdu þá XXIV prestar honum X marka sekt til biskups í dómrof, oc hann skyldann at halda þó dóminn, fallinn í bann fyrir ránglegt hald á jördunum oc þeirra kyrkna peníngum, oc skyldugann at taka lausn oc skript af biskupi, enn med því at Arni deydi um þær mundir, samdist á þann hátt med Olafi biskupi oc Höskuldi syni Arna um Núpufell at Höskuldr hèt at lúka Núpufellskyrkiu hundrad hundrada í nærstu fardögum LX hundrud í jördum oc LX hundrud í lausafè, oc þared biskup hefdi tekit Núpufèll undir sic, sem fallit undir kyrkiuna, hèt hann fyrir bæn gódra manna at Höskuldr skyldi fá Núpufell aptr fyrir adra jafngóda LX hundrada iörd; jafnframmi þessu stefndi Olafr biskup Haldóri Brandssyni frá Bardi bródr Rafns

lögmans til prestastefnu á Vídivöllum mánudaginn eptir Dyradag, var hann þar dæmdr sekr VI mörkum í dómrof vid biskup, oc skyldr at halda þó dóminn, fallinn í bann fyrir ránglegt hald á Bardskyrkiu peníngum, oc fyrir því skyldugr at taka lausn oc skript af biskupi. Biskup nefndi oc XII presta í dóm um ákæru Jóns prests Þorvaldssonar rádsmans á Hólum til Sveins Oddssonar at hann hefdi setid á jördunni Efra Asi í Hialtadal ótekinni; margt er þat fleyra er Olafr biskup hafdi í frammi, enn hèr segir, því at bréfa giördir einarsaman hafa menn um þat er ritad verdr, oc þó ei allar; var þá oc fiárplógs öld mikil.

## LXXX. Kap. Upphaf Eggerts ættar.

Eggert Eggertsson var í þann tíma lögmadr í Víkinni í Norregi; honum gaf Hans konúngr fríheitabrèf eda edalmansnafnbót oc hans ættmönnum eptir hann; var markadr á hiálminum hálfr hvítr einhyrníngr í blámm feldi, oc annar hálfr á skyldinum; son þess Eggerts var Hannes, er sídar var hyrdstióri á Islandi, oc margt fólk er frá komit í landi hèr; enn midr hefr adlinum verid á lopt haldit bædi hans oc annara; er hèr voru ádr, Lopts oc Biarnar, Torfa oc Eydlfs, oc enn fleyri manna. Qvædi hefr verit orkt, þarí er þetta um Eggert Eggertsson:

Hans forfedur hreysti verk
höfdu jafnann unnid sterk.

## LXXXI. Kap. Frá höfdingium.

I þann tíma var Didrik Pining hyrdstióri yfir allt land, tóku þeir Magnús biskup saman giörd um tyundir oc jardir er fèllu í konúngsgard, sekt á Pètrspeníngs haldi XVIII álnir, oc hid sama á þeim sem ei vill giöra at kyrkiugardi ef prestr eda kyrkiubóndi ámynna; líksaungseyrir skyldi vera XI álnir vöru, oc gialdist eptir sèrhvern er nockud á, en ei öreiga, eindagi sè fimtudagr þá fiórar vikr eru af sumri, oc XVIII álna sekt á haldi hans; fylgia skyldu allir fátækum mönnum oc at biskup mætti rída í visitatiu sína med XIIIIda mann, hyrdstióri med IXda mann Officialis vid VIIIda prófastr oc syslumadr vid fimta mann. Vid þessar skipanir var

Eyólfr lögmadr Einarsson; Magnús biskup skipadi þá um kyrkna inntekt, Diáknahald, heytoll oc sekt á haldi hans; Magnús biskup keypti Lund í sydra Reykiadal at Ara Magnússyni; er svo at siá sem þeir Eyólfr lögmadr hafi þá verit velsáttir. Einar hèt son Eyólfs, hann fèkk Hólmfrídar dóttur Erlendar syslumans í Rángárþíngi, oc Gudrídar þorvardsdóttir, þau biuggu í Dal eptir Eyólf, enn Vigfús oc þorvardr voru synir Erlendar. Svo segia sumir menn at Finnbogi Jónsson í Asi hafi þessi missiri lögsögn tekit nyrdra, enn þat var víst fyrri sem ádr segir, Finnbogi var kalladr hinn Mariulausi; hann var höfdíngi mikill sem Jón prestr fadir hans, hann átti Málmfrídi dóttr Torfa riddara Arasonar hyrdstióra, þeirra börn voru þorsteinn oc Sigurdr oc Jónar tveir, Gudrídr, Kristín oc Gudlaug; Finnbogi var vitr madr oc málafylgismadr mikill; Brandr prestr hèt sonr Rafns lögmans Brandssonar, hann tók Hof þau missiri, oc hèldt mioc lengi sídann, hans synir voru þeir Rafn at Hofi, Arni oc Sniólfr, enn Solveig hèt systir Brands prests. Þá kom Biarnarfoss undir Helgafellsklaustr, enn Jón vard ábóti á þverá. Föstudaginn nærstann fyrir Pálsmessu, fór fram XII prestadómr í stórustofunni á Hólum er Olafr biskup kærdi til þórdar Sveinbiarnarsonar um jardaskipti, þóttist hann ei hafa fengit jafngóda jörd, enn talinn til kaupanna af Sveinbyrni presti födr þórdar. Jón þórdarson er vid syslu hafdi verid í Skagafyrdi, oc jafnann þiónustubundinn Olafi biskupi, gaf honum þá próventu sína, oc med sèr Skuggabiörg í Deildardal, XX hundrud, sèr til sáluhiálpar, áskildi sèr miólk oc blautann fisk til matar oc liggia innann kyrkiu fyrir framann St. Jóhannes; enn föstudaginn fyrir Laurentiusmessu útnefndi Olafr biskup XX presta í dóm at Vidvík um Eyrík prest Einarsson frá Grenjadarstad er fyrr var gètid, kærdi hann fyrir þá óhlídni oc þriótsku vid sic at hann hefdi farit af landi med bískupi, oc lokkad í þá óhlídni med sèr prest sinn Jón Gislason, enn sett eptir Grenjadarstad saunglausan oc forsvarslausan oc alla hans peninga móti skriflegri lofan sinni. Vard sú dómsályktan at biskup mætti taka í sitt vald bædi Grenjadarstad oc alla hans penínga fasta oc lausa, oc veita hvöriunn sem hann vildi. Þá er gètid enn húsfrúr Akra Kristínar, at hún seldi Gudmundi Jónssyni þorbiargarstadi í Laxárdal, og fleyri ordu giörníngar, er ec nenni ei at telia, var eitt kaupmáli millum þorvardar Biarnasonar oc Ingibiargar Ormsdóttr ár

komu saman at Mardarnúpi í Vatnsdal, veit ec þó ógiörla hvert merkilegra manna verid hafa eda ekki. Um þær mundir andadist Sveinbiörn prestr Þórdarson Officialis; hafdi hann svo lengst af komist, at ráda er, at Olufr biskup nè adrir menn höfdu hann ei fyrir sökum, oc ei er þess gètid, at biskup hafi talat um fylgikonr hans, er þó mælt hann ætti fimtyu börn er hann kèndist vid, enn hálfrefar væri at auki; ekki veit ec hvad komit er frá Þórdi syni hans, Þorsteini oc Arna, enn frá Sigurdi oc Hallgrími eru miklar ættir komnar.

## LXXXII. Kap. Fráfall Magnúsar biskups.

Eyólfr, son Gisla Philippussonar í Haga á Bardaströnd, hygg ec hafi verit sveinn Magnúsar biskups módrbródr síns; þeim bar til Eyólfi oc þeim manni er Jón Tumason hèt oc kalladr biskup, í stadarhúsinu í Grindavík, var Magnús biskup vidstaddr oc tók um háls Eyólfi, oc hèldt honum svo; foru vitni fram um þat sídar, at Eyólfr hefdi þá hverki slègit biskup nè viliat þat giöra, oc engan klerk, má siá af því at frændr Eyólfs hafa óttast um hann. Svo segir Jón prestr Egilsson at Magnús biskup, þá er hann var í visitatiu sinni um Sudrnes, kèndi hann sóttar oc vildi þá sem skiótast heimfara i Skálholt, enn sóttinn vóx ódum, svo at þá er hann reid yfir Brúará fyrir sunnan Reykianes, þar sem heitir á folaldavadi, studdu sveinar hans hann á baki yfir ána, en er hann kom á land, var hann med litlu lífi edr nær örendr; tiöldudu þeir þá yfir honum þar á bakkanum, bíuggu um lík hans oc fluttu þadann, enn prestar alskríddir oc kènnilídr gengu heimann frá stadnum á móti líkförinni, út ad Þorláksþúfu, sumir segia Þorlákshver, méd saungum oc hríngíngum, var hann jardadr á ödrum degi eptir, oc hafdi biskup verid af því sem ráda er í XII ár edr XIII; lèt hann ekki börn eptir sic, oc ei er þess gètid hann hafi verit vid konu kèndr; systr átti hann þá er hellst er gètid, Ingibiörgu, er átti Gísla í Haga, þeirra börn Eyólfr er fyrr var gètid, oc kalladr var Mókollr hinn yngri, oc átti margt barna er sídar mun sagt, Jón prestr, Erlíngr, Snæbiörn, Helgi, Oddr, Helga, Dyrfinna, Þórdys, Gudrún; er þat köllut Hagaætt, sem frá Gísla Philippussyni er komit, oc var fiölmenn mióc, þó at nú verdi ei talid frá öllum greinum hennar til vorra daga.

## LXXXIII. Kap. Frá ímsu.

Eptir andlát Sveinbiarnar prests Þórdarsonar veitti Olafr biskup 1490 Finnboga lögmanni Jónssyni Múlastad, oc útnefndi sídann sextán presta dóm at Hrafnagili í Eyafyrdi, mánudaginn fyrir Mikialsmessu, í millum þeirra Finnboga oc Þorsteins oc Arna Sveinbiarnarsona, oc dæmdust þeir brædr sem önnr börn Sveinbiarnar prests, þó ei væri skilgètnir siálfir at svara fyrir sonu sína skilgètna erfingia Sveinbiarnar at þridiúngi, oc skyldir at greida, edr sækia til þeirra er arfinn höfdu tekit, fimtyu hundrud, sem vantadi á penínga kyrkiunnar, at óreiknudum spiöllum kyrkiu oc stadar, oc tyunda hlut sem prestar græddi af kyrkiunar fè, oc falla áttu til hennar aptur, undir þann dóm var fyrst ritadur Jón ábóti á Þverá. Hallgrímr Sveinbiarnarson bió at Egilstödum, hann átti Gudnyu Sveinbiarnardóttr, þeirra börn Gamli prestr oc Þorlákr prestr à Stadarbacka, Einar prestr á Utskálum, Þorkèll, oc Gudmundr í Gröf, oc Gudny módir Þorláks prests Ivarssonar á Heidölum. Sigurdr Sveinbiarnarson var fadir Helgu er fylgdi fyrst Olafi Dadasyni, födr Þóru er Thomasi presti fylgdi, enn sídann Jóni biskupi, oc Laga-Audunnar födr Kolbeins prests í Húsavík, oc Margrètar er átti Hallsteinn Eyríksson í Gardi, oc Þórunnar er átti Jón Þórdarson austr á Valþiófstad, þann er tók annat hvert ár Aldísi, fylgikonu Kolbeins prests mágs síns frá honum, svo at hún sór börn uppá þá til skipta. A þessu sumri á Öxarárþíngi, daginn eptir Pètrsmessu oc Páls, útnefndi Didrik Pining hyrdstióri lögmenn báda Eyólf Einarsson oc Finnboga í dóm oc lögrèttumenn alla, um kauphöndlan útlendskra manna í landi hèr, at Enskir oc Þídskir hafi frid í milli sín, oc þeir hafi hafnir er fyrri koma til, en ónaudsynlegar vetrarverur kaupmanna edr eptirlegur lídist ekki, oc at búdarsetu menn er ei ættu qvikfè til at fæda sig vid til þriggia hundrada, skuli ei vera í landinu, oc hvör sem hèldr vill fara á húsgáng en vinna hiá bændum hafi refsíng til sex aura, einninn at nefndarmenn oc handgengnir menn konúngs gialdi ekki skatt; samþykti þenna dóm á þínginu Arni prestr Snæbiarnarson Officialis Skálholts kyrkiu, Haldór Ormsson ábóti á Helgafelli, Jón Arnason ábóti í Videy oc almúgi er þar var; er þetta kalladr Piningsdómr, oc var hann einhvör hinn þarfasti hyrdstióri

þó hann væri ei miöc lengi; hann er sumstadar kalladr höfudsmadr yfir Islandi oc Vardhúsum. Hann dæmdi oc annann dóm med Finnboga lögmanni oc XXIV mönnum, um giöld manna oc greidskap; eptir þeim skyldi skattbóndi hvör svara XX álnum, en hvör hinna X álnum undir þrettán marka sekt til konúngs, oc XV merkr í fullrétti lögmans, oc var þetta lögmans inntekt, þá hann ridi um land, oc annat meira, oc eigi hann öll þrettán marka mál oc minni, enn sæki undir konúnginn þau stærri eru. Þá gèkk dómr at Reykiaholti af Eyólfi Hialtasyni um IV skatthöld. Þá er gètid vid jardakaupa Sveins Sumarlidasonar oc samþyckis Gudrídar konu hans, dóttr Finnboga lögmans; tólf presta dóms Olafs biskups at Hrafnagili um hiúskap; medkènníngar Akra-Kristínar at hafa lúkt Ingvildi dóttr sinni á Reykhólum, minni Akra oc Diúpadal sydra; arfleidslu Ingvildar til dætra sinna Kristínar, Helgu oc Gudnyar Þorleifsdætra oc enn fleiri giörnínga.

## LXXXIV. Kap. Steinsmál.

Steinn hèt prestr oc var Þorvaldsson, honum stefndi Olafr biskup undir XXIV presta dóm í stóru stofunni á Hólum, föstudaginn eptir allra heilagramessu fyrir þessar sakir: fyrst at hann hefdi ekki lesid þat forbodsbrèf yfir Jóni nockrum, er biskup hefdi honum bodid undir hlídni oc bannspínu; fyrir þat var hann dæmdr fallinn í bann oc gialda Hóla kyrkiu XXX merkr í fullrètti, nema hann sverie siöttar eyd þar fyrir biskupi samstundis, at hann hafi þat ei giört til óhlídnis vid biskup eda kyrkiu edr vild oc kærleika vid adra menn, enn med því Steinn prestr kom ekki á fundinn vann hann ei þann eyd. Sú var önnr sök at hann hefdi gèfit eignar-umbod sitt, eptir þat hann fèll í sekt, Einari syni Biarnar þins ríka, oc viliat svo fyrra heilaga kyrkiu hennar rètti med fullri hriótsku, hugmóds ordum oc *conspiratione*; fyrir þat var hann dæmdur fallinn í hædsta bann af siálfu verkinu, oc sekur LX mörkum Hóla kyrkiu í fullrètti hennar. Sú var hin þridia, at hann hefdi án ordlofs biskups, í fullri óhlídni farid af biskupsdæminu, oc lagt kyrkiurnar saunglausar, en þínginn þiónustulaus, er honum voru skiput; fyrir þat dæmdist hann fall-

ilnn í bann, sekr LX mörkum í fullrètti kyrkiunrar, oc III mörkum fyrir hvern þann þínga-naut, sem hann setti skriptausann oc þiónustulausann. Þá var hid fiórda, at hann hefdi tekit Guds líkama í banni, oc skyldi hann sekr um þat VI mörkum (svo var þá köllud oblátan); fimta at hann hefdi því lyst, at hann skyldi fara af biskupsdæminu eda landinu, ef honum væri bodit hardara, enn honum þætti lög til standa; fyrir þat var hann dæmdr til at setia fulla edr vissa borgun, eda med eydi heita at vera kyrr í biskupsdæminu, eda biskup skyldi taka hann til halds oc vardveitslu, oc gialda biskupi fimtán merkr í fullrètti, oc taki af honum skript oc lausn oc hafi allt goldit í nærstu fardögum á heimili sínu í Húnavatnsþíngi; èr at siá sem sök Steins prests, er hann blaut af allann þúnga þennann, hafi sú ein verid, at hann las ei bannsbrèfit, oc vildi sídan umflya hardrædi biskups.

## LXXXV. Kap. Slag í Videy.

Einhveriusinni á þeim árum, oc þó heldr fyrri enn sídar er nú var komid, þó at því er vitrir menn ætla, sídann Jón Arnason tók ábótadæmi í Videy, voru kaupmenn enskir í Hafnarfyrdi, þeir voru tygiutygir oc jafnmargir sveinar þeirra, enn hinir þridiu tygiutygir voru skipmenn, þeir rændu miklu fiskifángi frá ábótanum, en hann þoldi þat illa oc safnadi mönnum oc fór at þeim, urdu þeir hann oc hans menn LX samann; enn er þeir komu í fiöruna, oc Islendíngar sáu lidsmun þann hinn mikla, þá flydu þriátyu, en ábóti oc adrir þriátyu lögdu til bardaga, oc gengu svo hart fram at ekki heldt vid fyrir áhlaupinu, komst ábóti á knè oc var nær fallinn, en madr hans nockur hiálpadi honum, oc gaf hann honum jörd sídann; flúdu þar hinir ensku, oc fèllu margir, enn einn madr af ábóta, Sniólfur sonr hans; guldu þeir manngiöld eptir hann er aptr höfdu snúit; enn þessi saga er höfd eptir Jóni presti Egilssyni, oc væri hin merkiligasta ef menn vissu fullann sann á. Þau missiri er vèr gátum sídast, lèt Eyólfr lögmadr dóm gánga um Horn oc Papafiörd jardir tvær, oc er þat

seinast um hans lögsögn gètid; enn margt hefur þat til tídinda ordit í þann tíma er vèr kunnum ekkert af at segia.

## LXXXVI. Kap. Stefnufarir Olafs biskups.

1491 Þessunærst er at gèta þess at Olafr biskup útnefndi í Vidvík tuttugu oc tveggia presta dóm, um ákæru hans til Höskuldar Arnasonar, fimtudaginn nærstann eptir Pálsmessu um vetrinn, at Höskuldr hefdi unnid ránganu bókareid med Biarna Olasyni, at ei hefdi hann legit med Randydi dóttr sinni, á móti lysíngu fyrir biskupi oc prestum oc tuttugu oc fiögra presta dómi, oc á þann hátt viliat giöra biskup, prestana oc kyrkiunnar rètti ómynduga. Þat annat, at hann hefdi sett sic inní kyrkiunnar vald, oc dæmt konúngdómsins vegna hálfa peninga Biarna fallna syslumanni til halds, á móti þeim tólf prestadómi sem dæmdu alla hálfa peninga Biarna fallna undir Hóla kyrkiu. Þat þridia, hann hefdi í VI ár ránglega tekit Guds þiónustu, sídan hann sór, oc í þriu ár sett sic út af Guds líkama, oc ei viliat taka lausn eda skriptir af biskupi, forsmád hans áminníngu, oc svo erkibiskupsbrèf oc bodskap; fyrir þat var Höskuldr dæmdr fallinn í hid hærsta páfans bann, oc allt hans fè fast oc laust undir Olaf biskup oc Hóla kyrkiu oc hann skyldr at taka skript eptir biskupsrádi, þar til hann fer til Róms at sækia lausn med föstum oc kárinum. Þá gèkk oc dómr Kètils prests Grímólfssonar Officialis fyrir nordann Yxnadalsheidi; Andrèsar Jónssonar rádsmans oc fleyri presta, mánudaginn i föstu inngáng heima á Hôlum, um ákæru Olafs biskups til Odds Arnórssonar: fyrst hefdi hann höggvid svein sinn Skeggia Oddsson ófærann í hans visitatiu, því nærst hlaupit í brott úr sinni þiónustu, í þridialagi hlaupit í dyrnar á Múnkaþverá med spent armbrysti oc pílu á lagda, oc viliat skióta menn ef honum hefdi ei verit hamlat; í fiórda máta slegit nidr bord sitt, oc uppá klædi sín mat oc öl, þá hann vildi höggva mann sinn á Bægisá í sömu *visitatione*. Þat fimta, at hann hefdi gripit sitt oc kyrkiunnar hengi, oc ei aptr skilat. I siötta lagi bölvad sèr á Mödruvöllum í Hörgárdal, oc bedit fiandann eiga sic, oc alla sína presta; Gudmundr prestr Jónsson kærdi oc Odd fyrir, at hafa verit í rádum med módr sinni Sigrídi, at grípa

hans peninga frá Hólum; í áttunda lagi kærdí Magnús prestr Jónsson Odd, fyrir at hafa látid sækia sic til konu sinnar siúkrar, enn taksett sic oc byrgt í húsi, oc stadit fyrir framann dyrnar med nakit sverd oc handske, oc skipat konu sinni oc módr at standa í dyrunum, oc lyst at þar skyldi hann bída til þess èr stefnudagrinn væri úti, hlaut því prestr naudugr at leggia af sèr stefnubrèf biskups til Odds, svo at hann nædi burt at komast, hafdi þó prestrinn á sèr Guds líkama, oc hlífdi honum þat ekki. Tólf klerka dómr gèkk enn midvikudaginn eptir Páskaviku, um ákæru biskups til Helga Asgrímssonar sveins síns, fyrir þat hann hefdi eí viliat rída nordr med Nicolási presti Vilhiálmssyni at lesa dóm yfir Oddi Arnórssyni, svo at prestr skyldi ósmádr vera af Oddi, einninn hefdi Helgi án ordlofs, farit úr þiónustu biskups. Midvikudaginn eptir Krossmessu um vorid, gèkk enn tuttugu oc fiögra presta dómr, at Vidivöllum, um ákæru Olafs biskups til Gudmundar prests Skúlasonar á Mel, at hann hefdi setit svo í þriú ár samfleitt í fullri óhlídni, at hann hefdi ei komit til prestastefnu, oc ei viliat í tvö ár í móti sèr taka á rèttri visitatiu oc engann reikníng giört sèr, heldr hlaupit á brott, var biskupi dæmt at taka at sèr stadinn á Mel, oc stadarins peninga í nærstu fardögum, nema Gudmundr prestr syndi forföll sín. Vitnisburdir oc giörníngar nockrir framfóru, oc gètr þar Sveins Sumarlidasonar, Erlendar Erlendssonar oc Gudrídar Þorvardsdóttr konu hans, Kètils prests Grimólfssonar, Nicolásar prests Þorsteinssonar oc fleiri manna. Var tekin stadr oc allr prests vegr af Gudmundi presti; enn Helgi Asgrímsson skyldi lúka Hóla kyrkiu LX merkur í fullrètti oc biskupi XXX; ekki er gètid útfara Odds, oc ei er gètid hvad manna hann var. Um þær mundir hyggia menn Hvassafells Biarna dáit hafa í banni.

## LXXXVII. Kap. Höfdíngiaskipti oc fèdráttr biskupa.

Um sumarit kom út Ambrosius Illiqvod med hyrdstiórn oc Stephán biskup til Skálholts, son Jóns Egilssonar er fyrr er gètid, kom Olafr biskup hyrdstióranum í Hvassafellsmál, reid hann nordr oc var settr fundr á Spialdhaga; sóktu þeir þar til eigna Biarna Olasonar biskup oc hyrdstióri, enn Páll Brandsson á Mödruvöllum

hafdi fyrir ellefutygi menn vópnada, oc vardi málid med kappi, svo þeir fengu ei at giört. Eptir þetta dó Jón Þórdarson pro-
1492 ventumadr Olafs biskups, þá giördi óáran þá er sídann varadi í tvo eda þriá vetr, tók frá fisk, laxveidi oc sílúng, oc var grasvöxtr litill á sumrum. Þá fèkk Sigurdr priór á Mödruvöllum Olafi biskupi Engihlíd í Yxnadal í skiptum fyrir Skollatúngu í Hörgárdal, oc er hans af því sídast gètid. Solveig dóttir Rafns lögmans Brandssonar var þá abbadís at Stad í Reyninesi. Olafr biskup fèkk margar jardir undir stólinn, fleyri enn hèr eru nefndar. Krossanes í Lögmanshlídarsókn gallt honum Sveinn Sumarlidason med átta kúgildum fyrir sakir oc hugmód, hafdi hann erft þat eptir Eyrík Loptsson födrfödr sinn, hèt hann at vera til reidu at styrkia biskup med öllum afla sínum, vid hvern sem hann ætti nema þá frændr Finnboga lögmann mág sinn oc Pál Brandsson. Á Pálsmessu eptir jól um vetrinn útgaf Stephán biskup í Skálholti brèf til Arna bónda Gudmundarsonar, oc mánudaginn eptir Benedictsmessu dæmdi hann þar dóm. Fimtudaginn fyrir *passionem domini* gèkk hann dóm í Skálholti, um misþyrmíngu þá, er Haldór bóndi Brynjólfsson í Túngufelli hafdi synt Gèsti Pálssyni landseta stadarins; enn þridiudaginn eptir Hallvardsmessu sættust þeir Stephán biskup oc Haldór bóndi, oc fèkk Haldór biskupi jördina Kètilshússhaga í Averiahrepp; þar eptir gèkk sex manna dómr milli biskups oc Haldórs, um Hraunholt í Hrunamannahrepp oc Hraun í Grímsnesi, oc dæmdust bádar af Haldóri undir Skálholts kyrkiu. Þridiudaginn fyrir Andrèsmessu lèt Stephán biskup í Skálholti dæma landseta stadarins skylduga, at láta til reidu lestfærann kapal undir þriggia vætta þúnga í Grindavík, á Rosmhvalanes, til Þerneyarsunds edr á nockurn þann annann stad er stadarins naudsyniar tilstanda, í þann tíma sem faramadr í Skálholti vitiar, þá hestar eru færir, oc svo lengi á haust sr m at komit sè forfallalaust á vetrnóttum, enn þann sekann III mörkum vid Skálholts kyrkiu sem ei lætur til kapallánid, hefir qvöd þessi sídan haldist í lángar tídir. Þá gèkk sextán presta dómr um ákæru Olafs biskups til Þorláks Semíngssonar um Skógarhögg í Hóla kyrkiu jördu, áttatyu hundrud í föstu oc lausu oc tvo gullkaleika; fèkk Þorlákr biskupi Þórustadi í Kaupángssveit fyrir gullkaleikana, XXX hundrud, hafdi Semíngr prestr fadir hans halt þá frá stadnum. Sveinn Sumarlidason skipti þá jördum vid Finn-

boga lögmann; en Olafr Halldórsson gaf Sturlu Magnússyni, bródr sínum at móderni, proventu. Þá var vitnad at Gudmundr Jónsson hefdi gèfit Hóla kyrkiu Þorbiargarstadi í Laxárdal oc IV kúgildi, til menníngar- oc kènslu sonum sínum; Haldór Brandsson samþyckti giöf Olafs sonar síns til Sturlu; Sveinn Gudmundarson gaf Hóla kyrkiu Krithól oc átta kúgildi, sumt í sálugiöf en sumt fyrir brot; vitnad var enn at Jón Þórdarson hefdi á sídustu dögum lífs síns gèfit Olafi biskupi Skardsdal í Siglunessókn oc þriú kúgildi. Vitni fór fram oc um tuttugu daga aflát er Stephán biskup hefdi gèfit þeim er lèti syngia eda segia messu, at Ness bænhúsi í Grunnavík, oc hann qvittadi Þórd bónda Helgason um kyrkiureikníng at Stadarfelli, urdu oc fleyri giörníngar. Þá hafdi Arnfinnr Jónsson syslu í Vadlaþíngi, oc gaf þá fedga Hákon Jónsson oc Þorstein son hans qvitta um sakir vid sic oc konúngdóminn. Sumir ætla at Finnbogi lögmadr hafi haft þar syslu á hinum sömu missirúm; enn Egill Grímsson hafi þá enn haldit Húnavatnsþíng, oc þó í umbodi Sigurdar Dadasonar. Þá fèkk Olafr Philippusson Vígdysar Jónsdóttr vestr í Ögri sunnudaginn eptir Mikiálsmessu.

## LXXXVIII. Kap. Endir Hvassafellsmála.

Midvikudaginn fyrir Mikiálsmessu var þriggia hreppa þíng á Spíaldhaga; kom þar Olafr. biskup oc Ambrosius Illiqvod hyrdstióri, tólf prestar Hóla biskupsdæmis, Páll bóndi Brandsson oc margir adrir, bædi lögrèttumenn oc bændr, voru þar biskup oc hyrdstióri komnir til at taka upp allt fè Biarna Olasonar, er dándis menn vissu at hann átti þá hann fèll í málinn, oc vildu skipta því eptir fyrrgiörfum dómum í tvo jafna helmínga milli konúngs, biskups oc kyrkiu, er ei gètid at lausafè hafi framkomit, oc ei annad uppspurst, en jardir; krafdi hyrdstiórinn lögrèttumenn at skipta þeim konúngdómsins vegna, enn þeir vildu þat ei giöra, skiptu þeir þá siálfir hyrdstióri oc Olafr biskup jördunum med sèr eptir hlutfalli med gódra manna rádi; fèllu í kyrkiunnar hlut, Þverá í Fnióskadal med kotinu, Heidarhús oc Vík á Flateyardal fyrir LXXX hundrud, enn í konúngs helmíng Þverá í Eyafyrdi oc Arndysarstadir, oc Kálfborgará í Bárdardal fyrir LXXX hundrud; mælti

þá Páll Brandsson mörgum hugmóds ordum til hyrdstióra oc biskups med fullri hindran á málinu, enn fèkk þó ei framar at giört, oc vard sá endir Hvassafellsmála. Eptir þat gèkk Höskuldr Arnason til hlídni oc sætta vid Olaf biskup mánudaginn fyrstann í jólaföstu, oc fèkk honum Blængshól í Svarfadardal fyrir XX hundrud oc XX hundrud í gèldum peníngum, svo at biskup gaf hann qvittann fyrir sic oc alla sína eptirkomendr Hólabiskupa, um þriótsku oc óhlídni, oc hans mál allt. Synist sem Höskuldr hafi haft sysluvald nockurt, oc Olafr biskup lagst á knèrunnann er þeir frændur áttu í hlut.

## LXXXIX. Kap. Enn frá málum Olafs biskups.

I þann tíma kom Eyríkr prestr Einarsson til Hóla, oc aptur í vikunni eptir þrettánda, oc vildi fá aptur Grenjadarstad oc alla
1493 hans peninga fasta oc lausa eptir brèfi erkibiskups, er hann hafdi útvegad, enn Olafr biskup syndi honum annat brèf erkibiskups nyrra, oc qvad hann ei fá Grenjadarstad, enn baud honum eptir erkibiskupsbodi, undir dóm Stephâns biskups, oc annara dánumanna; þá vildi Eyríkr prestr sættast enn leggja ei til laga, biskup tók því, enn qvad hann þó ei fá Grenjadarstad; vid þat vard presti ekki um sættina; þá baud biskup honum einhvöria kyrkiu, til at hafa mat oc fædi af, ef hann væri messufær, en ella diákna vist hvar sem hann væri í biskupsdæminu, eda gánga til kórs á Hólum, ef hann væri ei messufær; þat vildi Eyríkr prestr ekki, enn sagdi ef magt biskups kæmi ei til, skyldi hvör prestr í biskupsdæminu sem vildi, ekki Grenjadarstad hafa; gèkk hann svo frá biskupi oc qvaddi hann ekki, oc reid á brott, oc vitum vèr ekki hvad þeim hefur í milli farid sídann. Midvikudagin nærstann eptir páskaviku kærdi Olafr biskup at Vidvík þann mann, er Þorsteinn Þorleifsson hèt, fyrir átián presta dómi fyrir þat, at hann í fyrstu hefdi án biskups vilia tekit at sèr stadinn í Húsavík, oc alla hans peninga, fyrir þat var hann dæmdr fallinn í bann, oc fyrir burtflutníng peninganna ádr rètt skipti gengu á þeim kyrkiunnar vegna, skyldi hann allt aptur flytia til rèttra skipta undir eyd svárinn, oc vera þó sekur vid Hóla kyrkiu fullrètti hennar, oc taka lausn oc skript af biskupi; í annari grein fyrir þá liós-

tolla, sem hann tók úr Húsavíkr kyrkiu, þá tvígialdi hann hvern lióstoll aptr kyrkiunni, oc XII merkur í rètt hennar, en Hóla kyrkiu LX merkur, oc XXX merkur í fullrètti, ef hann tók ekki lióstollana úr kyrkiunni, oc sanni þat med tylftar eydi; oc þó fallinn í bann af siálfu verkinu. Þat þridia, at hann hefdi oc haft hefdi Hóla kyrkiu jardir, Brekku, Víkíngstadi oc Holtakot í Grenjadarstadar kyrkiusókn, sèr til nota oc ábata eptir siálfs síns medkènníngu, í siö ár hins fimta tugar, var honum dæmdr tylftar eydr, at hann hefdi haft fullt frelsi fyrir þeim, en fallist honum sá eydr, sè hann fallinn í bann, oc taki þar fyrir lausn oc skript af biskupi, enn gialdi Hóla kyrkiu LX merkur fyrir hvört ár, er hann má ekki syna löglegt frelsi fyrir jördunum. Tólf klerka lèt enn Olafr biskup dæma um ákæru sína til Hallkèls prests Gudmundarsonar, um þat at hann hefdi tekit à fyrir Haldóri Þorgrimssyni, enn tólf saudi oc XXI vod í Húnavatnsþíngi, er hann reiknadi til skuldar hiá kyrkiunni oc biskupinum. Hallr Asgrimsson fèkk Olafi biskupi stedia oc IV kúgildi, oc enn VI hundrud fyrir þau brot, at hann hefdi verid vid penínga grip úr kyrkiu í Kristnesi oc vídàr, oc ekki gætt barns eins, er honum bar at ábyrgiast, svo þat tyndist; fèkk nú Þorsteinn bóndi Þorleifsson nyrdra Olafi biskupi hálfann Presthvamm í Grenjadarstadarsókn, oc hálfa Túngu í Húsavíkursókn med rekum, oc vid þat qvittadi biskup hann af dómnum.

## XC. Kap. Fleyri giörníngar oc vidburdir.

Þat vor í víkunni fyrir Uppstigníngardag, giördi Stephán biskup Lund í sydra Reikiadal beneficium, med upplagi oc samþycki Ara bónda Magnússonar, eignarmanns þeirrar jardar. Þau missiri útgaf hann oc leifisbrèf at Asbiörn prestr Sigurdarson, er þá var skólameistari, enn hèlldt þó Reynivelli í Kiós, mætti setia rádsmann yfir stadinn á Reynivöllum, medann hann væri í Skálholti at því embætti. Sá Asbiörn prestr var fyrstur í dómi Stepháns biskups um kapallánid, oc nefnist *Baccalaureus artium*. Þá gaf Solveig dóttir Hrafns lögmans sic undir Benedicti reglu at Stad í Reyninesi, oc med sèr Skard í Fnióskadal oc giördist síðann ab-

badís. Arni Sveinbiarnarson var þá Officialis á Vestfiördum, en Haldór ábóti Ormsson kom undir Helgafells klaustr Ölviskrossi, Oddastödum oc Sídumúlaveggium. Stephán biskup skipadi þá Skridu-klaustr, því Hallsteinu Þorsteinsson oc Sesselia Þorsteinsdóttir, kona hans, höfdu gefit til þess jördina gudi almáttugum, Mariu meyu oc hinu heilaga blódi, enn giörníngsbrèf þarum, var giört laungu seinna. Þat hit Heilaga blód var komit upp út í Þískalandi, oc var sagt at væri blód af Kristi siáljum, leifar edr helgr dómr. Jón ábóti á Þverá krafdi þá Stíg Einarsson frænda Einars ábóta Isleifssonar, at leggia þá penínga aptr, er hann hafdi þadann á brottu haft eptir Einar, nema þá hann gæti sèr heimilad, oc lysti Illhugastadi í Fnióskadal eign jómfrú Mariu oc klaustrsins, sídann Marteinn bóndi Gamlason Marteinssonar oc Rannveig Sturludóttr kona hans, gáfu hana med sèr í próventu. Þá fóru fram skipti at Stadarfelli, eptir Þórd bónda Helgason, at forlagi Sturlu sonar hans, oc Jóns mágs hans, var oc virdtr máli Gudfinnu Jónsdóttr, ekkiu Þórdar heitins, oc er at siá sem Jón Asgeirsson fadir þeirra Gudna hafi þá lifat, enn þat er þó sídr trúanlegt; var í þann tíma óáran mikil í landi. A þeim missirum er sagt at andast hafi utannlands Einar son Biarnar hins ríka; oc hafi nær qvongadr verid borgmeistaradóttr einni; enn Þorleifr hyrdstióri var andadr fyrir laungu.

## XCI. Kap. Plágann seinni kèmr.

Um sumarid komu enskir kaupmenn út í Hafnarfyrdi; þar þótti mönnum sem fugl kæmi úr klædi bláu, at því er Jón prestr Egilson segir, oc þá var talat; giördi þvínærst sótt mikla, oc mannskiæda í landi hèr, voru þá lidnir XC vetr frá hinni fyrri sóttinni, er köllud var plágann mikla. Þeir lágu vid fornu búdir oc tókst mannfallid um alþíng oc stód yfir, fyrir sunnann land, fram yfir Krossmessu um haustid, en rènadi nockud þá lopt kólnadi, eyddust þá bæir nálega um allar sveitir vestr at Gilsfyrdi, oc var vída at ei lifdu eptir fleyri en tveir eda þrír menn, sumstadar únghörn, oc sugu mædr sínar daudar er til var komit; frá Botnsá oc at Hvammi í Kiós, lifdu eptir sveinar tveir ellefu vetra, oc var enginn jafnaldri þeirra í öllu Kialarnessþíngi, urdu þeir síd-

enn bádir tværdir, oc dóu í hinum sama mánudi; hèt annar Jón Oddsson oc bió í Niardvík, annar Biörn Olafsson oc vard prestr í Krísivík; ei lifdu fleiri enn tvö eda þriú af átta systkinum eda nyu, oc erfdu fyrir því sumir alla ætt sína, oc allt at fiórmenníngi, fengu margir vid þat stóran aud, oc er tilnefndr helst Haldór bóndi Brynjólfsson í Túngufelli, er málid hafdi átt vid Stephán biskup, vard hann sídann einn audugasti madr þar í sveitum. At mörgum kyrkium voru at hverium degi grafnir III eda IV í senn oc þó sex eda siö færi med þeim til grafar, komu ei aptr nema þrir eda fiórir, hinir dóu á leid til eda frá, oc fóru siálfir í þær grafir er þeir gröfu ödrum. Konr sátu daudar med skiólum sínum undir kúm á stödlum, edr vid kèrhöld í búrum; dó oc fiöldi kènnimanna oc klerka; þó voru sumir bæir midt í sveitum er enginn kom sótt á eda manndaudi, oc voru þessir í Arnessyslu: Hamarsholt oc As hiá Runa, Kaldárhöfdi, oc Þórustadir efri í Grímsnesi. Haldóra er talinn módir Gríms prests í Runa er vetrgömul var í plágunni, oc Jón Þorbiarnarson fadir Þordísar í Odda, módur Odds prests í Hraungèrdi, var fiórtán vetra, oc var þá í Asi þar sóttinn kom ei. Haldór bóndi Brynjólfsson sá er fyrr var gètid, var fadir Odds prests í Gaulveriabæ, födr Þórgèrdar er átti Stephán prestr í Odda; annar son Haldórs var Snæbiörn á Kèldum fadir Þorkötlu módr Snæbiarnar prests Torfasonar á Kyrkiubóli í Lángadal, oc enn fleira er frá Haldóri komid.

## XCII. Kap. Frá plágunni, utanför Olafs biskups oc ödru.

Olafr biskup Rögnvaldsson gaf út heima á Hólum laugardaginn 1494
fyrir páska nærst eptir, citátíubréf sitt til lærdra manna á milli Hrútarfiardarár oc Yxnadalsheidar, at koma til almenniligrar prestastefnu at Vídivöllum í Skagafyrdi, þridiudaginn fyrir tveggia Postulamessu, oc baud þeim undir skylduga hlídni vid heilaga kyrkiu, at hafa þángad sín innsigli, oc allt þat sem beri med sèr at hafa á prestastefnu oc statútann giöri rád fyrir, skyldadi hann þar til fyrst Asgrím ábóta á Þíngeyrum, oc fiórtán presta úr því takmarki adra, oc nefndi alla á nafn, eptir veniulegu citeranarformi, enn hvad meira hefr af ordid er ólióst, því hann tók sèr far

utann um vorid. Asgrímr ábóti seldi þá Biargastein í Núpssókn Gísla Philippusyni, enn Þrúdr Benedictsdóttr Magnússonar Benedictssonar Finnboga lögmanni Jónssyni Vík í Sæmundarhlíd; þá hafdi Jón Sigmundarson syslu milli Hrauns á Skaga oc Hrútafiardarár, þat er Húnavatnsþíng, oc lèt dóm gánga at Þorkèlshóli, um arf, laugardaginn fyrir hvítasunnu, enn Egill Grímsson lèt þó dóm gánga á sama ári í hinni sömu syslu, sídar, um fiárheimtu Þórdar Þórdarsonar, til Asgríms Þorbiarnarsonar oc konu hans Þorbiargar Brandsdóttr, oc sylfr-kross er Þórdr hafdi keypt af þeim fyrir fimm málnytu kúgildi; Þórdr bió á Tindum, oc var kalladr Tindaskriódr, enn þetta var árfr Ingibiargar Illhugadóttr eptir födr hennar, bródr Þórdar. Egill bió þá at Skardi í Lángadal, enn dómsmenn voru Grímr Pálsson, Jón Asgrímsson, Örnólfr Steinason, er ec hygg vera sonarson Brands lögmans Jónssonar, frænda Gríms oc nyu adrir. Olafr biskup fór utann um sumarit oc voru skipadir tveir Officiale yfir Hóla biskupsdæmi: Jón prestr Þorvaldsson, er fyrr var á Höskuldstödum, enn sídan ábóti á Þíngeyrum, oc Gudmundr prestr Jónsson; gèkk nú plágan yfir nordrland; andadist þá Ingibiörg Þorvardsdóttir kona Páls bónda Brandssonar, oc litlu sídar Biarni oc Benedict synir Páls skilgètnir, fèll þá fèd undir Pál bónda födr þeirra enn hans lögarfar voru börn Gríms Pálssonar launsonar Páls; urdu þó arfa deilur sídar. Þá kom hálf Hraunhöfn undir Helgafells klaustr. Petr Trúls var þá hyrdstióri yfir land allt, hann gaf qvittun Páli Jónssyni, er ófyrirsyniu hafdi vegit Bödvar Jónsson. Arnfinnr Jónsson hafdi syslu í Vadlaþíngi, fyrir honum voru leidd oc svarin vitni, at nedri Laungahlíd, um víglysíng Jóns Jónssonar, er ófyrirsyniu hefdi vegit Orm Sigurdarson um vetrinn. Stephán biskup gaf qvittann Þorbiörn Jónsson um sakir er hann hafdi í fallid, medan hann var med Magnúsi biskupi, oc svo sídann, oc gaf leifi at flytia frá Videy þá peninga, er fèllu eptir Vilhiálm Ormsson oc Gudrúnu Andrèsdóttr oc Þorbyrni bar at erfa eptir systr sína Gróu; fór oc fram vitnisburdr þriggia presta Eyríks Einarssonar, Nicolásar Þórmodssonar oc Hallvards Biarnasonar oc Hialta Arnkèlssonar leikmans, at Olafr biskup hefdi skipat Hóla kyrkiu alla sína peninga, nema þá er hans testamentisbrèf greinir; er at siá sem Olafr biskup hafi þá verid dáin, edr ei væntanlegr, oc var þat mánudaginn nærstann fyrir Jónsmessu, enda kom hann ei aptr,

oc hafdi biskup verid í fimm vetr oc þriátyn, sumir telia siö; nema þat sè sannara at þetta hafi skèd vetri sídar sem sumstadar segir; hefr hann kalladr verid af mörgum hardrádastr allra biskupa á Islandi, enn Officiales hans Jón prestr Þorvaldsson oc Gudmundr prestr Jónsson útnefndu dóm í Vídvík, midvikudaginn eptir Michjálsmessu um haustid í milli Einars ábóta á Þverá oc erfíngia Stígs Einarssonar, um jördina Illhugastadi í Fnióskadal, oc dæmdu hana undir Þverárklaustr aptr, þar til rèttr Hólabiskup giöri þar á fulla laga skipan; hafdi Gudmundr prestr Officialisstarf sídann fyrir nordan heidi um fióra vetr, oc fríudu þeir Officiales Olaf Philippusson frá kyrkiugards saurgun í Vídidalstúngu, þá er Asgrímr Sigmúndarson var þar veginn. Þetta haust gèkk plágan miöc yfir nyrdra, oc aleyddi suma hreppa, gaf þá Gottskálk prestr Nicolásson, er hin fyrri sumr hafdi verid í förum, bródrson Olafs biskups, medkènníngu sína ritada á Hólum, um landsvistar brèf Jóns Asgrímssonar, er vegid hafdi Gudmund Þorsteinsson, oc qvadst hafa sókt þat til konúngsins Cancellera í Óslo, útgèfid eptir páskir á því voti enn var þá komid til Stafángrs, lètst þó ei hafa nád því ásamt ödrum sínum peníngum, því hann hafi hlotid annad hvert giöra, skilia eptir brèfit oc peníngana, edr missa skipsins er hann fór út á. Skip hafdi komit af hafi um sumarid vid Bardaströnd, þeir höfdu fengit hafvillr allt sumarid, oc þecktu ei land, vissu oc ei til hafna, oc tyndust þar, var skipid hladid af víni, svo at siórinn syndist litast raudr, þá þat brotnadi; komst af styrimadr oc tveir adrir; var hann lángt utann úr löndum, oc vildi fara til brúdkaups síns, því hann var hinn audugasti madr. Fór hann utann med Enskum vorid eptir; skipit var af Cypressus vidi, 1495
oc var af þeim vidi giör badstofa at Bæ á Raudasandi.

## XCIII. Kap. Upphaf Biarnar Þorleifssonar.

Biörn hinn ríki oc Oluf Loptsdóttir höfdu átt þessi börn, Þorleif, Arna, Einar oc Solveigu, enn þessi voru launbörn Biarnar Jón Dunr oc Þóra, hennar fèkk Gudni á Kyrkiubóli son Jóns Asgeirssonar, þeirra börn vóru Biörn oc Ari, Gudna voru dæmdir þeir peninger frá Þórólfi Ögmundarsyni, er Pètr Loptson hafdi

erft eptir Stephán bródr sinn. Arni son Biarnar hins ríka fell á Brúnkabergi med Kristiáni konúngi, sem fyrr segir, en Einar var fyrir skömmu dáin barnlaus; Þorleifr hafdi verid hyrdst óri, oc var hann erfíngi Biarnar oc þau Solveig. Þorleifr átti börn med Ingvildi Helgadóttr, lögmans, fiórmenníngi sinum: Biörn er sídann bió á Reykhólum, Gudnyu er Grímr Jónsson átti á Ökrum, Jardþrúdi er Gudmundr átti undir Felli í Kollafyrdi son Andrésar Gudmundarsonar; Kristínu er átti Eyríkr son Haldórs ábóta á Helgafelli, hann bió at Alptanesi, oc Helgu er átti Eyólfr Mókollr í Haga son Gísla Philippussonar. Þau voru öll köllud gètinn í frillulífi oc meinum, enn Þorleifr hafdi fengid páfabrèf at fá Ingvildar oc at börninn yrdi arfgèng, þá hann hafdi sætt sic vid biskup; þau höfdu oc fengit brèf erkibiskups oc Kristiáns konúngs, oc þar med samþycki Magnúsar biskups Eyólfssonar, oc voru vígd saman oc börn Þorleifs arfgèng giör. Solveig systir Þorleifs átti Pál Jónsson á Skardi bródr Gudna, oc áttu þau börn saman, enn ei voru þau börn haldinn arfgeng, því þau Páll oc Solveig voru fiórmenníngar; þó fengu þau leifisbrèf af páfa, at biskup mætti giöra löglegt hiónaband þeirra, enn Magnús biskup hafdi þat ei giört. Biörn sonr Þorleifs var úngr er fadir hans deydi, oc ekki í landi hèr, fèkk hann þá ekki af födrfè sínu, edr systr hans, enn Einar födrbródir hans hafdi tekit fèd allt, oc kalladi þau systkyn eigi arfgeng; útlagdi hann svo páfabrèfit, at þau ein börn Þorleifs oc Ingvildar mætti skilgètinn heita, er borinn voru sídann þau voru samann vígd, en þau voru enginn. Andrès Gudmundarson oc synir hans kölludu oc til fiárins þess er Gudmundr Arason hafdi átt oc þeir Reykhóla menn, oc er at ráda sem þeir hafi haft hönd á, oc nú er hèr var komit oc Einar var daudr hafdi Solveig tekit arfinn í sama skyni sem Einar hèldt ádr; enn í plágunni flúdi Solveig frá Skardi vid átiánda mann, oc nordr at Kúlu sumarit sem Olafr biskup fór utan, oc kom aptr um haustid med fióra af þeim mönnum; hinir dóu, en enginn dó á Skardströnd, oc ei gèkk plágan um Vestfiördu, oc ekki fyrir vestann Holt í Saurbæ; þat var sídar af hinum óvitrari mönnum eignad fiölkíngi Vestfyrdínga. Jardir lögdust í eydi í plágunni enn sumar stigu nidr af landskyldum því at menn fengust ei til. Sídann er sagt at Solveig hafi dáit, þó annarstadar segi at þat hafi skèd miöc laungu sídar, at ósannara er, oc látid eptir stórfè, enn Þorleifr oc Gudrún börn

þeirra Páls Jónssonar köllúdu eptir arfi, einninn Einar son Olafs Philippussonar oc Vígdísar laundóttr Solveigar med Jóni Þorlákssyni skrifara; enn í þennann tíma hafdi hafid tilkall til fiárins Biörn son Gudna Jónssonar, oc tók Gudni fèd allt fast oc laust til halds oc umsiónar, eptir dómi er genginn var í Bólstadahlíd fyrir nordann, þar til er annar dómr úrskurdadi, hvör lögerfíngi Solveigar væri, qvadst hann til þess skyldastr vegna bródr-barna sinna, oc svo Biarnar sonar síns oc víkr þar frá at sinni; en hversu sem afstendst um tímann, ór hvad af þessu skèdi fyrir sic, þá var þessi missiri er næst var frásagt giört testamentisbrèf Solveigar Biarnardóttr, oc þá hafdi Gudni Jónsson syslu í Isafyrdi, milli Geirhólms oc Lánganess, oc lèt dæma Sigmundi syni Brands lögmans Bæ oc hálfan Vatnsdal er Brandr lögmadr hafdi gèfid honum; fra-uföru þá oc giörníngar nokkrir oc í einum dómi er gètid Helga Oddssonar lögmans fyrir sunnann.

## XCIV. Kap. Frá ímsu.

Nú gèkk plágann yfir Nordrland sem fyrr segir, oc dóu prestar flestir oc lærdir menn, svo ei voru eptir nema tuttugu prestar, oc vard hvör at þióna fimm, sex eda siö kyrkium; eptir þat fór margt fátækt barnafólk vestanad, oc settist í algiört bú sumstadar nyrdra, audgadist þat skiótt oc bygdi upp aptr sumar sveitir. Þá andadist ábóti á Þíngeyrum, oc tók þá stètt Jón Þorvaldsson Officialis eptir hann. Borg í Laxárdal kom þá undir Helgafells klaustr; þá vard Einar ábóti á Þverá Benedictsson, sá er fyrri hèldt Grenjadarstad, enn Gudmundr Sveinsson á Þyckvabæ, hann deildi vid Þorstein Arason um óleifda hrossa brúkun; þau missiri *in divisione apostolorum* segir sumstadar at framfarid hafi vitnisburdr sá er ádr er gètid um tilskipan Olafs biskups á fè hans, oc er þat ei ólíkara; hafdi sett sic á móti Jóni presti Þorvaldssyni, er hann var Officialis, rádsmadr á Hólum Jón Þorgeirsson Raumr, rymt hann út frá Hólum, enn setid þar vetrar-lángt med seytián eda átián mans, eydt oc spent kosti stadarins oc ödru. Þat hygg ec víst, at Páll bóndi Brandsson á Mödruvöllum hafi dáit í plágunni, því at þessi missiri dæmdi Finnbogi lögmadr á Spialdhaga med tuttugu oc tveimr mönnum, um Mödruvalla arf, oc aptr á al-

þíngi med tólf mönnum, enn Pètr Trúls er þá var hyrdstióri samþyckti. Hin nærstu missiri giördist Arni Sveinbiarnarson ábóti í Videy, sá er fyrri var rádsmadr, enn sídann Officialis, hann kom undir klaustrid Strönd, Stóruvogum oc Breidagèrdi í Kálfatiarnarsókn, Hesti í Borgarfyrdi, nockru af Strönd í Landeyum, þormódsdal oc Gröfum í Mosfellssókn, oc Kolbeinstödum í Rosmhvalanesshrepp.

1496

## XCV. Kap. Uppvöxtr Jóns Arasonar.

Um þessar mundir óx upp á Laugalandi sydra á Stadarbygd Jón sonr Ara Sigurdarsonar priórs med módr sinni, því hann misti födr síns úngr; þó bió Ari um hríd á Laugalandi, enn er hann var dáin, vann Jón fyrir módr sinni med litlum efnum, oc voru á einu hausti lítil matarfaung á búi, eda ekki, nema snembær kyr í vonum, þóttist Jón lída sullt sárann, medann kyrinn þrokadi, oc taladi eitthvört qvöld til vid módr sína, at hann yrdi at skèra einhveria ána úr innstædum, heldr enn lída neyd slíka, hún afrédi honum þat oc bad hann fyrir guds skuld at giörast ekki saudaþiófr, því ei væri neytt til borgunar, lèt kúna mundu bera skiótt; þau mæltust hid sama vid annat qvöld oc hid þridia, eptir þat kom svo, at Jón leiddi ána heim oc lagdi nidr til skurdar, hlióp þá Flin út oc qvadst fyrst mundi vitia um kúna, hafdi hún þá borid svo ekki vard af sláturstarfinu, myntist Jón opt á þetta sídar er hann kom til mannvyrdíngar; enn á barndóms árum hans, þá kom hann heim at þverá þess á millum, hafdi Einar ábóti opt gèfit honum siálfr oc giört til góda oc bodid múnkunum heimugliga mötunautum sínum, at fyrir guds skuld skyldi gèfa sinn bita hvör drengnum Jóni er þar sníkti, oc qvad sèr bióda svo hug um frænda sinn þennann, at hversu fátækr sem hann væri nú, mundi hann verda sèr meiri. Frá Laugalandi var honum komit at þverá, oc nam hann þar at því er menn hyggia saung oc rit sem klerkar þurftu, enn hreinsadi þó fiós oc hesthús, oc giördi slík önnr verk sem lèttapiltr, enn aldrei lærdi hann látínu; einhveriu sinni flutti hann torf úr flagi med ödrum sveinum, reid hann ofan á oc sofnadi, oc fèll af baki oc í kèldu nidr, oc mælti þá: *stydjid þèr biskupsefnia*, enn þótt þat væri í hygginleisi

mælt, þótti mönnum afrætast sídar; hann qvad þetta um fædíngarstad sinn Grítu, til vyrdíngar honum:

Itar budu *Grund* vid *Grítu*
*Gnúpufell* oc *Mödruvelli*
enn ábótinn því ekki játar (vill ekki láta)
adalbólid fylgi *Hólar* (ágiætt ból nema fylgi Hólar).

## XCVI. Kap. Kosníng Gottscalcs oc fleyra.

Þessi missiri er seinast var gètid, gaf höfudsmadrinn, Jón Oddsson qvittann um þat, er hann vóg ófyrirsyniu Arna Hallkèlsson bródrson sinn, þá seldi Gudrídr Finnbogadóttr, Finnboga lögmanni födr sínum Grund í Eyafyrdi, hafdi Sveinn Sumarlidason madr hennar andast í plágunni, oc einninn Gudni son Eyólfs Arnfinssonar; Eyríkur prestur Einarssón gaf Skriduklaustri Lækiardal í Skinnastadasókn, oc fleyri urdu giörníngar oc jardakaup. Einar Oddsson hafdi þá Húnavatnsþíng, hann nefndi tólf menn í dóm, midvikudaginn fyrir Calixtusmessu á Svínavatni, um ákæru oc tilkall Olafs Philippussonar til arfs eptir Solveigu Biarnardóttr, vegna Einars sonar síns, var honum dæmt at mega setiast í arfinn, enn þó málid til lögmans oc lögrèttunar, sakir tvímælis qvonfáng Páls Jónssonar oc Solveigar. Þá fór oc fram vitnisburdr um lysíng Jóns Andrèssonar, er skèdi undir Felli í Kollafyrdi, at hann oc Þórdr Arnason hefdi verit hiá í Holti í Saurbæ um vetrinn, er þeir fóru til vers, oc heyrt Þorbiörgu Gudnadóttr bidia Einar Biarnarson liá sèr tvo edr þriá menn at sækia vatn til dryckiar, var Einar kominn fyrir litlu utann frá Skardi oc ætladi til Reykiahóla til virkisins, þann vetr er kalladr var virkis-vetr, þá Andrès Gudmundarson sat þar; lèdi Einar mennina, oc viltust þeir lengi nætr í fiúki miklu. Enn á hinum nærstu missirum er þeirra hluta helstra gètid í giörníngum, at Eyríkr prestr Sumar- 1497
lidason gaf Gudnyu Þorleifsdóttr Kálmanstúngu í tyundargiöf, oc þá fóru fram dómar, einn þeirra Jóns prests Þorvaldssonar ábóta, oc Gudmundar prests Jónssonar er Officiales voru, um Illugastadi; einn sex manna dómr, er Torfi Jónsson lèt gánga, at Stadarhóli í Saurbæ, því hann hafdi þá konúngs umbod milli Gils-

skardar oc Skráinu, oc lèt dæma Byrni Gudnasyni arf allann eptir Solveigu Biarnardóttr, hygg ec þat væri Torfi son Jóns Olafssonar er sídann bió í Klofa, mágr Biarnar; annar gèkk at Bólstadahlíd í Lángadal, XII manna dómr midvikudaginn fyrir Jónsmessu at forlagi Einars Oddssonar, sá dæmdi arfinn syni Olafs Philippussonar, oc Biörn hafa ólöglega ísettst, er þar þess gètid at Olafur Philippusson var eigi lesandi; þat vor eptir Krossmessu heima á Hólum, kusu nordlendíngar til biskups Gottskalk prest Nicolásson, bródrson Olafs biskups, oc aptur í lögrèttu um sumarid á alþíngi; fór hann utann þat sumar eptir biskupsvígslu, oc kom ei skiótt út aptur. Þá var vígdur Narfi til fyrsta priórs at Skridu, oc keypti hálfann Sturluflöt til klaustrsins. Þá fèkk Jón Sigmundarson Biargar frá Móbergi Þorvaldsdóttr Jónssonar Búlands enn systr Jóns ábóta oc Officialis, hafdi ábóti alla varúd vid, sem kyrkiulöginn bióda at þeirra hiónaband yrdi lögfullt, oc þó þat yrdi Jóni sídann til mikillrar armædu, leiddi enginn madr þat í þann tíma í hug sèr, hvörsu sídar mundi útsetiast; er þat líkast at hin fyrri kona Jóns hafi ándast í plágunni. Þau missiri seldi Randydr dóttr Hvassafells-Biarna, Eyríki presti Biarnasyni Vad í Skridu hverfi, XIII hundrud at dyrleika, í kyrkiugardinum í Skálholti, fyrir frídvyrdta penínga, oc er hennar þá sídast gètid.

## XCVII. Kap. Líflát Páls Jónssonar.

Páll Jónsson bió at Skardi á Skardströnd sem fyrr segir, eptir þat Solveig var dáin, hann hafdi fyrrum leitat sèr qvonfángs nordr, oc leytadi Eyríkur í Alptanesi son Haldórs ábóta á Helgafelli í hinn sama Stad, segia menn sú kona hèti Akra Gudny, enn er Páll kom í annat sinn oc fèkk jáord, ritadi hann á kyrkiuþil stöku þessa:

> Þeckir þú ecki Val
> bió í Mosdal
> saudunum stal
> klippínginn hafdi hann sèr til þvengia
> öll skyldi Vala börninn hengia.

En er Eyríkur kom aptur oc sá vísuna, fèkk hann mesta fiandskap á Páli því at forfadir Haldórs ábóta hafdi heitid Valerianus;

en er Páll lèt flytia ölfaung sín nordann Sölvamannagötur, kom þar Eyríkur oc hió nidr allt ölid, Páll keypti öl eptr nyrdra oc fèkk konunnar; enn er hèr var komid, þat er miöc mörgum vetrum var seinna, oc Páll fór naudsynia erinda sinna út á Snæfells- 1498 nes á tólfæringi, lendti hann á Öndverdrieyri í Eyrarsveit, oc keypti þar hús sem hann hvíldi í, því honum var uggur at umsátrum Eyríks, oc lèt menn sína liggia tygiada í skálanum fram frá, en lá einn í húsinu innra med skósveini sínum; Eyríkr var staddr á Helgafelli oc frètti þat, oc fèkk þegar med sèr sextyu manna, en sumir segia ei fleyri enn átián, þar var Biörn Þorleifsson mágur Páls einn í adförinni, þeir komu um nótt til Eyrar oc brutust inn, fór Eyríkr fyrst uppá gluggann oc spurdi: *hvert skolli væri inni?* Páll mælti: *inni er hann oc ecki hræddr bid þú þess hann er klæddur*, þá tóku tveir oc tveir af Eyríks mönnum hvern Páls manna oc hèldu, enn Eyríkur oc nockrir sóktu inn ad svefnhúsdyrunum, er þat lióst at þeir hafa þá verid fleiri enn átián alls, þó þeir hefdu ei sextyu verit. Skósveinn Páls fèkk læst oc stód fyrir dyrunum medann Páll klæddist, oc komst í pansara, vardi þá Páll dyrnar lengi, svo þeir gátu ekki atgiört, oc vard hann ekki sár snemma, sá madr var med Eyríki er ádr hafdi verit sveinn Páls, oc hafdi gèfit honum sverd oc handska, sá sókti fast at, oc fèkk lagt Pál undir pansarann í gègnum larid, Páll mælti: þú mátt gánga diarflega at, því þú hefur á höndunum, eptir þat bugadist Páll, oc fèll um sidir, unnu þeir þá margir á honum, oc gengu út sídan; þeir sendu inn prest einn til hans at veita honum aflausn oc sacrament ádr hann dæi, ef hann vildi, oc sem prestur hafdi lokit erindum spurdi hann Pál at, hvört honum mundi líft; hann svaradi í trúnadi; líft mundi væri fliótt umbundid; prestr gèkk út oc spurdu þeir þá hinir, hversu Páli fæeri at? prestr svaradi: þèr megid giöra betur til vid hann, ef þèr viliet ekki eiga hann sidar yfir höfdi ydar, fóru þeir þá inn aptur oc afllífudu hann. Um sumarit eptir á alþínga kærdi Gudni Jónsson bródir Páls, oc adrir frændr málit, oc dæmdi Finnbogi lögmadr Jónsson, voru giör manngiöld, oc er sagt þau hafi mest verit giör sídann eptir Niál oc hafi litid skort á tvenn tyutyu hundrud; var þeim öllum, sem med Eyríki voru, dæmdr sá eydr, at ei hefdi farid til Eyrar med því hugarfari, at drepa Pál edr

meida, enn X hundrud dæmd af hverium, er ei mátti vinna þann eyd, oc fimm hundrud af hverium hinna, voru þeir dæmdir allir útlagar af nordrlöndum til páfans nádar, samþycti dóminn Petr Clausson hyrdstióri, er sumir ætla hinn sama sem Pètr Trúls; má af því siá at flest víg hafa þá med fè bætt verid, oc var ei undarlegt þó þau væri miôc tíd, í þann tíma, oc miklu tídari enn frá er sagt; fór Eyríkr oc tveir adrir í páfagard, til at útvega leifi til landsvistar; Eyríkr dó í Róm oc fèkk vyrduligann gröft; annar dó í þiskalandi; enn einn kom út, sá hèt Jón var Hallsson, hann var fadir Halls födr Bergliótar á Hvanneyri, er oc frá Eyríki ætt kominn. Frá Páli er kominn mikil ætt, sem enn mun greint verda.

## XCVIII Kap. Annat sem talit er.

þau missiri er Páll Jónsson var veginn, gaf Hans konúngr Gudmundi Andrèssyni landsvist, fyrir þat hann hafdi vegit Einar Hallsson; gallt Gudmundr þorbyrni Jónssyni Kaldbak oc Kleifar, enn Andrès Gudmundarson fadir hans samþyckti, oc Ari Andrèsson. þá sættist Biörn Junkæri son þorleifs hyrdstióra Biarnarsonar vid Andrès oc sonu hans Gudmund, Ara oc Biarna at Saurbæ á Raudasandi, med þeim hætti at hann lagdi þeim jardir allar í þeim hrepp, jardir í Tálknafyrdi, Núp oc allar jardir í Dyrafyrdi, Hest í Önundarfyrdi, oc allar jardir fyrir nordann Arnarfiörd allt at Lánganesi, Kaldadarnes oc allar jardir á Ströndum oc Steingrímsfyrdi, sem Gudmundr Arason fadir Andrèsar oc Helga þorleifsdóttir kona hans höfdu átt, enn þeir fedgar lögdu Byrni af Gudmundar eignum Reykhóla, oc allar jardir á Reykianesi, oc um Króksfiörd oc þorskafiörd oc Eyar á Breidafyrdi, lysti Biörn því yfir, at hann lagdi jardirnar þeim fedgum, sèr oc foreldrum sínum, er þær höfdu lengi haldit, til frelsis oc fridar, oc er at siá sem hann hafi ordit at vægia fyrir afarmennsku Andrèsar oc sona hans, svo hann hefdi þá ei móti sèr jafnframt þeim Ögursfedgum Gudna oc Byrni, oc tóku þá miôc at skiptast eignir Biarnar hins ríka. þá giördi Narfi ábóti í Skridu mörg jardakaup, oc ileyfi urdu þá giörníngar, er þar vidgètid Brands prests Hrafnssonar oc annara manna. þá vard skólasveinn í Skálholti ödrum at skada

í forstofunni, lagdi undir disk er hann hèldt á med knífi í glensi, vard nær en hann hugdi, gèkk knífurinn í brióstid, oc var þat bánasár. Þá stadfesti Finnbogi lögmadr dóm Einars Oddssonar, um Solveigar arf til handa Einari Olafssyne Philippussonar.

## XCIX. Kap. Frá Byrni Þorleifssyni oc ödru.

Biörn Þorleifsson hafdi ei þorat eda megnat hèr til at kalla eptir arfafè sínu, enn nú þótti honum þat illa komid undir Gudna oc þá frændr Biörn Gudnason, fèkk þó brèf Hans konúngs fyrir arfinum, því hann fylgdi sèr at. Þá stefndi Biörn Þorleifsson honum til alþíngis vegna sín oc systra sinna, oc málinu fyrir Finnboga lögmann, enn honum þótti vandi ákominn oc dæmdi málid undir konúngs úrskurd, fóru þeir þá bádir útann nafnar, oc báru málid fyrir Hans konúng, oc er konúngr heyrdi ástædr Biarnar Þorleifssonar, úrskurdadi hann honum oc systrum hans arfinn; eptir því brèfi dæmdi Finnbogi lögmadr aptr á alþíngi, med sex lögrèttumönnum, at fèn skyldi laus látast af þeim er þau hèldi 1499
vid Biörn Þorleifsson oc systr hans, oc giördu þat margir; enn fyrir ófurkappssakir Biarnar Gudnasonar vard ei endir á þeim málum. Þá dæmdi oc Finnbogi lögmadr, mánudaginn nærstann eptir Krossmessu um haustid, at Laugahlíd, um Mödruvallamál, tólf manna dóm, dæmdi hann Grími Pálssyni til halds fè Páls Brandssonar födr hans, vegna sona Gríms skilgètinna, þann dóm samþyckti Benedict Hersten, er þá var útkominn med hyrdstiórn, oc var vinr Finnboga; enn Þorvardr son Erlendar Erlendssonar tók þá lögsögn sunnann oc austann. Þá kom Máfahlíd undir Helgafell. Finnbogi lögmadr dæmdi oc med tólf mönnum á Öxarárþíngi mánudaginn eptir Pètrsmessu oc Páls, um ákæru Jóns bónda Biarnarsonar, oc hans umbodsmans Brúmanns Tumasonar, vegna húsfrú Kristínar Sumarlidadóttr Loptssonar, konu Jóns, um peninga er Gudmundr Arason á Reykhólum hafdi undir sic tekit oc hans ættmenn hèldu. Þá gallt Jón Jónsson Hóla kyrkiu, oc Gudmundi presti Jónssyni Officialis Bæ í Skagafiardardalum, fyrir andlega frændsemi oc líkamlega sambúd sína med barnsgètnadi, vid Rögnu Finnbogadóttr; Biörn Þorleifsson seldi Helga syni Gísla

Philippussonar Deildará á Skálmarnesi; enn Stephán biskup gaf Sturlu Þórdarsyni á Stadarfelli leifi til hiúskapar med Gudlaugu dóttr Finnboga lögmans; Gudfinna Jónsdóttir gaf Sturlu LXXX hundrud í arfahlut vid systr sínar, var med Kyrkinból á Skutulsfyrdi XXX hundrud, enn systr Sturlu hètu Valgèrdr oc Gudbiörg. Þá er gètid Jóns prests Jónssonar prófasts milli Geirhólms oc Hrútafiardar, hann gaf uppi sakir Þorbyrni Jónssyni frænda Gudmundar Andrèssonar, undir Felli, er Gudmundr gaf Kaldbak oc Kleifar, oc fleiri urdu giörníngar.

## C. Kap. Frá Gottskálki biskupi.

Þennann tíma var vígdr Gottskálk Nicolásson til biskups á Hólum af Gauta erkibiskupi, oc kom út um sumarid; hann giördi handsöl vid Ola Biarnason í votta vidurvist í ymbrudögum um haustid, at Miklagardi í Eyafyrdi, um hálfa jördina Hvassafell, er Oli fèkk þá biskupi til æfinlegrar eignar, enn biskup gaf Ola qvittann oc ákærulausann, fyrir sèr oc sínum eptirkomendum Hóla biskupum, um sakir þær er hann kærdi hann fyrir, er voru þær at Oli hefdi grafit í forbodi, módur sína Margrètu Olafsdóttr í kyrkiu á Hvassafelli, fyrir utann biskups ordlof, beiddist Oli nádar oc lausnar, fyrir sic oc kyrkiuna, oc módur sinni friáls kyrkiulegs oc lausnar; annat þat at Oli hefdi grafit Biarna Olason födr sinn bannfærdann í Miklagards kyrkiugardi, fyrir utann biskups ordlof; þar á beiddi Oli nádar oc lausnar oc kyrkiulegs fyrir Biarna födr sinn, enn gardinum hreinsunar; lèt biskup þat í tie fyrir gudsskuld, oc hans audmiúkrar bænar; er þat at líkindum at Oli hafi qvidit vid slíku andþófi sem fadir hans átti. Gottskálk biskup
1500 kærdi oc fyrir tólf prestadómi at Vídivöllum, þridiudaginn næstann eptir páskavíku þar eptir, Gunnlaug Helgason; vegna konu hans Ingileifar Kolladóttr, fyrir adtekt á arfi oc peníngum, eptir

Jón prest Kollason bródr hennar; lagdi hann framm handskriptar brèf Jóns prests, oc leiddi at vitni tvö, er þat sóru, at Jón prestr gallt oc gaf Hóla kyrkiu, alla þá peníngi fasta oc lausa, sem hann átti siálfr eda èrfdi eptir foreldra sína, Kolla Magnússon oc Ingibiörgu Þorláksdóttr, oc bródr sinn Gudmund prest Kollason, oc barn Bessa Kollasonar bródr síns; dæmdist Gunnlaugr skyldi undir svarinn eyd alla þá penínga aptr at leggia, oc afhenda í nærstu fardögum; biskup kærdi til Gunnlaugs um einn hest kyrkiunar er hann hafdi tekit oc markat sèr; skyldi hann gialda aptr jafngódann oc XV merkr í fullrètti dómkyrkiunnar, enn eyrir fyrir vinnumissir heila viku um sumar milli Krossmessna, hálfann eyrir um vetr. Þá dæmdi Finnbogi lögmadr oc hyrdstióri med tuttugu oc fiórum mönnum á Alþíngi um Mödruvalla arf, en lögmenn bádir Finnbogi oc Þorvardr Erlendsson um seckíagiöld, at enskir menn skyldu gialda sex fiska, af hveriu hundradi er þeir kaupa, því er skip dregr, hálft af hördu, enn hálft af blauta; einnin um hnífaskurd; enn Gudni Jónsson er syslu hafdi milli Geirhólms oc Lánganess, fadir Biarnar lèt dóm gánga, at Myrum í Dyrafyrdi, um ákiæru Jóns Dans Biarnarsonar, um þá penínga er Gudmundr Arason á Reykhólum hafdi fordum tekit at sèr med ófriki; Jón Danr vildi rída í Vatnsfiörd med Byrni Gudnasyni, enn Biörn Þorleifsson banadi honum allar heimreidir, oc fridhelgadi sitt til laga; lèt þá Finnbogi lögmadr tólf manna dóm gánga á alþíngi, þridiudaginn eptir Pètrsmessu oc Páls, oc dæmdi enn Byrni Þorleifssyni oc systrum hans, arfinn eptir Þorleif oc Ingvildi, eptir páfabrèfi, oc svo brèfi Kristiáns konúngs, oc Hans konúngs, Gauta erkibiskups oc Magnúsar biskups, oc enn tólf prestadómi, er skutu því undir Stephán biskup, oc hans úrskurdi; þá giördi Sigurdr prestr Jónsson í Hytardal *testamentum* sitt; frammfór oc lysing Finnboga lögmans, um þat hann væri erfíngi Gudrídar dóttr sinnar, oc Gudrúnar dóttr þeirra Sveins Sumarlidasonar. Grímr bóndi Pálsson lukti Gottskálki biskupi XIV hundrud í Hvassafelli í reikn-

íng Páls Brandssonar födr síns, oc XI hundrud í siálfs síns reikníng, oc enn fleyri urdu giörníngar. Þá gaf Biörn Gudnason Skridu klaustri, Sellátur í Reidarfyrdi, enn Þorvardr Biarnason heilagri Mariu oc hinu heilaga blódi, Hriót oc hálfann Hamarsgard fyrir velferd sálar sinnar oc konu sinnar. Kodran Jónsson gaf hlut af Anastödum, oc sagdi Sveinn prestr bródr sinn, hefdi ádr gèfit annann hluta. Þorvardr Biarnason játadi oc vid votta at hann oc kona hans hefdi gèfit ádr hún dó tvær jardir klaustrinu. Þat er enn mælt at þau missiri hafi rekit, fertugt stórtrè fadms; digurt í miórri enda oc meira enn tveggia í hinn, á Sólheimasandi, oc nyræda steipireidi med kálf þrítugann í burdarlid, oc þó þar med tröllkonu afarmíklu, telia þeir sem þat hafa ritad full sannindi á slíku. Var þá hardt í ári, oc segia frædimenn at fiöldi mikill hafi fallit af umferdar mönnum fátækum.



# Íslands Árbækur

## í sögu-formi,

Af

Jóni Espólin,
Syslumanni í Skagafjardar Syslu.

## III. Deild.

Kaupmannahöfn 1824.
Prentud á kostnad ens Islendska Bókmentafélags af P. E. Rangel.

Þridia deild Islands Árbóka kémr þannig fyrir almenníngs siónir, á líkan hátt og þær undanförnu — enn ymsar hindranir valda því, at þridji þáttr þeirra gat aungvanvegin fullprentadr ordid ádr skip í vor verda ferdbúin til Islands; enda má þad einnig virdaz almenníngi hentast, ad deild þessi er jafnsstór hinum fyrri, svo kaupeyrir ei þurfi at vaxa um of. Hin fjórda deild (sem verdr ein hin sögulegasta og efnisríkasta) mun út-koma at líkindum at næstkomanda vori. Félag vort og allir einlægir Islands vinir munu óska af alhuga, at verks þessa háttvirdti höfundr unni oss og alþydu þess framhalds og fullkomnunar.

Kaupmannahöfn, þann 5ta Aprilis 1824.

Finnur Magnússon.

---

Den tredie Afdeling af Islands Aarböger kommer saaledes for Lyset, paa en lignende Maade som de foregaaende — men formedelst forskjellige Hindringer kunde deres tredie Bog ingenlunde blive færdig fra Pressen, förend Skibene afgaae til Island i dette Foraar. Det synes desuden at være beqvemmest for Almeenheden at nærværende Afdeling er af lige Störrelse med de to förste, for at Udsalgsprisen ikke skal blive höiere paa den end paa de övrige. Den 4de Afdeling (som maa blive den interessanteste og indholdsrigeste) vil rimeligvis udkomme i Foraaret 1825. Det er vort Selskabs og alle Islands Venners oprigtige Önske, at Værkets værdie Forfatter glæder os med dets Fortsættelse og Slutning.

Kjöbenhavn, den 5te April 1824.

Finn Magnusen.

---

# Formáli.

Af öllum tímarúmum sem yfir Island hafa lidid, at þessu, eru þau tvö einna merkiligust, þat sem seinasti hlutr Sturlúngasögu grípr yfir, þá landid kom undir konúngdóminn í Noregi, og þat sem þessi Arbókanna þáttr hefir inni at halda. Hèr tekr Danakonúngr fyrst algiörliga at hlutast til um stjórn; hèr skiptir um fornann páfa sid, og hinn lutherska, og med meira umfángi enn annarstadar í Danmerkr ríki; skal nú aldar sagann leggia þad hlutdeildarlaust fyrir hvers manns siónir hversu slíkt hefir tilgèngid, og þarf þá enginn ad binda sig lengr vid fornar meiníngar, edr sagnir édr skrásetníngar útlendra, heldr er hverjum géfid siálfum ad dæma, hvad til batnadar giördist vid þau skipti, svo at enginn galli fylgdi, og hvad til betra var, enn hafdi þó bresti, edr giördi eigi slíkt gagn sem giöra mátti; einnig ef nockud hefir snúist á annan veg enn til var ætlad í öndverdu; hèr siá hverir sem vilja, hversu eignir landsmanna komu fyrst undir biskupana fyrir fávitsku sakir aldarinnar, og sídann undir konúngdóminn frá þeim; hèr sèst einnin hve lángt biskuparíkid hefir gèngid á landi þessu, og ad í deilum þeim er bædi áttu þeir vid leikmenn, og svo hinir sín á milli, hafa sjaldann málinn verid borinn rètt fyrir konúngana; bók þessi lysir einnin aldarhætti þeirrar aldar; ríki höfdíngia, og deilugyrni þeirra um eignir og arfa, enn vanhyrdíngu í landinu nálega allra hluta annara; húm

# Fortale.

Blandt alle Tidslöb i Islands Historie kunne disse to ansees for de mærkværdigste: det som Sturlunga-Sagas sidste Deel indbefatter, da Landet blev Norges Kongerige undergivet, og det som denne Bog af Aarbögerne omhandler. Her begynde Danmarks Konger först alvorligen at tage sig af Landets Bestyrelse; her fortrænges den gamle Pave-Tro af den evangelisk-lutherske, endog med större Besværlighed end andetsteds i de danske Besiddelser. Nu skal Aarhundredets Historie uden al Partiskhed bringe disse Begivenheders sande Gang for Lyset, saa at Ingen fremdeles behöver at binde sig til gamle Meninger eller udenlandske Forfatteres Beretninger, hvorimod Enhver nu selv kan bedömme denne Forandrings Beskaffenhed, hvorvidt den medförte virkelige Forbedringer, og om disse ikke tillige ledsagedes af visse Lyder og Mangler, saa at den stiftede Nytte ikke blev saa stor som den kunde være, især dersom adskillige Foretagender toge en anden Retning, end den, som man i Förstningen havde beregnet. Her kan enhver som vil, erfare: hvorledes Indbyggernes Ejendomme först tilfaldt Biskopperne, formedelst Tidsalderens Vankundighed, og siden kom i Kongemagtens Besiddelse. Her seer man og hvorvidt Biskoppernes Vælde har strakt sig i dette Land, og at Sagernes sande Beskaffenhed er sjelden bleven rigtig forklaret för Kongerne, i de Trætter, som de enten havde med Lægmændene eller mellem sig selv indbyrdes. Denne Bog oplyser ogsaa Datidens Aand og Væsen: Hövdingernes Herskesyge og idelige Trætter i Ejendoms- og Arvegangs-Sager, hvorover næsten alle andre

# Þridji Þáttur.

Hèr segir frá merkismönnum er uppi vóru vid aldamótin; oc frá Mödruvalla málum, er Grímr Pálsson, oc Þorvardr Erlendsson deildu; oc Vatnsfiardar málum þeirra Biarnar Gudnasonar, oc Biarnar Þorleifssonar. Torfi í Klofá lætr drepa Lienhard; en sidann segir frá Stepháni biskupi oc Gottskálki, oc málum Jóns Sigmundarsonar oc annara manna; Danskir giöra hark á Breidabólstad; enn biskupaþíki otþíngir leikmönnum. Enskir drepa hyrdstiórann. Taka til mál Jóns Sigmundarsonar oc Biarnar Gudnasonar af nyu. Frá hyrdstiórum, Stepháni biskupi, oc samtyck't þeirri er giör' var í Leidarhólmi, einninn frá Byrni Gudnasyni oc hans áskrifum, oc ödru er tilbar. Dauda Erlendar á Kétilstödum, oc Stepháns biskups; frá Gottskálki biskupi, oc dauda hans, oc Jóns Sigmundarsonar. Ögmundr ríkir í Skálhollti, en sidann segir frá Sveinstadareid

oc deilu Ögmundar vid Jòn Arason; hann fer þa utann, oc verdr biskup at Hòlum. Taka þá til Vatnsfiardar mál enn Hannes Eggertson drepr Thyla hyrdstióra. nockud um Teitsmál, oc þíngreid biskupa med her. Segir enn frá Ögmundi biskupi, andláti Gríms Pálssonar, Teitsmálum oc ödru. Veginn Rafn lögmadr; oc enn frá Ögmundi oc Jóni biskupum, oc Vatnsfiardar málum. Upphaf Gissurar Einarssonar. Slag í Grindavík. Frá Ögmundi biskupi oc Oddi Gottskalks syni oc ödru. Upphaf Marteins biskups. Didrich af Mynden veitir yfirgáng, oc er drepinn. Gissr fer utan, oc kèmr út aptr med biskupsdóm. Segir nockud frá Jóni biskupi, enn Ögmundr er tekinn, oc sidaskipti gánga yfir sunnanlands. Klaustrin eru tekinn; byriast prentverk. Biarnanessmál, oc frá Gissuri biskupi, oc Otta Stígssyni; Gissr deir; Marteinn er kosinn. Jòn biskup fer í Skálhollt, oc hefir sídann mikinn yfirgáng, oc tekr Martein biskup. Enn meiri yfirgángr Jóns biskups oc sona hans, partil þeir eru teknir, oc líflátnir sídann, en Nordmenn hefna. Koma út herramenn, oc setia Olaf Hiallt-áson til biskups á Hòlum, enn láta landid sveria kongínum, eyda, med ödru fleiru er þá fór fram.

## I. Cap. Hverir uppi voru merkismenn.

A öndverdum dögum Stephans biskups Jónssonar í Skálholti, oc Gottskálks biskups Nicolássonar at Hólum, voru þessir höfdingiar uppi á Islandi. Benedict Hersten var hyrdstióri, Finnbogi Jónsson oc Þorvardr Erlendsson lögmenn; Vigfus bródir Þorvardar var oc mikilsháttarmadr. Einar son Ejólfs lögmanns Einarssonar bió í Dal undir Eyafiöllum, oc átti Hólmfrídi systr þeirra. Erlendr son Hákalla Bjarna Marteinssonar hafdi syslu fyrir austan, í Múlaþingi. Torfi son Jóns Olafssonar í Klofa átti Helgu Gudnadóttr frá Kyrkjubóli, systr Biarnar, hann hafdi Arnes-syslu oc Rángárvalla syslu; er han kalladr ríki Torfi, enn sumstadar sterki Torfi, hann bió í Klofa, oc var yfirgángsmadr mikill. Þorgeir Olafsson segia sumir væri födrbródir hans, fadir Erlíngs, födr Jóns undir Múla á Skálmarnesi, födr Ingibiargar er átti Þorleif Gudmundarson, oc Ingu er átti Teit ríka í Glaumbæ. Arnór son Laga-Finns bió at Ökrum í Hraunhrepp, frá hönum er komin Akra ætt, Gudmundr var bródir hans, fadir Dada í Snóksdal. Sturla Þórdarson á Stadarfelli hafdi Syslu í Dölum. Biörn bió at Reykiahólum Þorleifsson, Biarnar sonar hins ríka. Sigurdr, Dadason mágr Gudmundar Finnssonar, er haft hafdi Húnavatnsþing, bió í Biarnarhöfn; Þórólfr Ögmundarson er kalladr var biskup, var ríkr madr á Vestfiördum. Andres Gudmundarson var þá gamall, enn synir hans stórbændr; Ari Andresson bió at Bæ á Raudasandi, hann var storrádr. Nefndr er oc Ari Gudmundarson Gudmundarsonar hins ríka, enn ef er oss á þat sè rétt, hyggium allan einn vera. Gudmundr Andresson bió undir Felli í Kollafyrdi, oc átti Jardþrúdi Þorleifsdóttr systr Biarnar at Reykhólum, þeirra synir voru Þorleifr, oc Olafr prestr er sidann hèllt Hiardarholt, oc prófastdæmi í Dölum, enn syslu á Ströndum, Ormr, Biarni oc Þorsteinn. Gudni Jonsson bió á Kyrkiubóli, enn Biörn sonr hans í Ögri, hann var hid mesta afarmenni. Ari annar son Gudna hafdi eina tíd syslu í Húnavatnsþingi, Gudni hafdi siálfr Isafiardar syslu. Þá voru þeir Philippussynir, Gísli í Haga oc brædr hans, Olafr oc Hermann, oc synir Gísla, Snæbiörn, Helgi oc Ejólfr Mókollr. Fyrir nordan voru þeir mestháttar af leikmönnum, Jón Sigmundarson, Einar Oddsson er hafdi Húnavatnsþing,

Þorsteinn oc Sigurdr synir Finnboga lögmanns; Grímr Pálsson á Mödruvöllum, hans synir voru þeir Þorleifr oc Benedict. Pétr í Stóradal sonr Orms Loptsonar. Teitr Þorleifsson er sídann var kalladr hinn ríki. Grímr Jónsson er seinna bió at Ökrum; Magnús Þorkèllsson Gudbjartssonar; Höskuldr Runólfsson Höskuldssonar; Jón Oddsson Kollr; Bryniólfr at Espihóli Magnússon Benedictssonar. Hákon Hallsson Finnbogasonar Jónssonar Långs bió at Vindheimum, hans son var Gísli sveinn Gottskálks biskups, er miklar ættir eru fràkomnar. Margir voru enn þeir er sumir voru ádr nefndir, enn sumir ókunnir.

## II. Cap. Frå Mödruvalla-målum.

I þann tíma stódu yfir Mödruvalla-mál; enn sá var uppruni þeirra, at Ingibjörg Þorvardsdóttir Loptssonar hins ríka, kona Páls bónda Brandssonar, hafdi dáit í plágunni hinni seinni, sem fyrr segir, oc synir hennar skilgetnir, Biarni oc Benedict; erfdi þá Páll Brandsson fèd; eptir þad andadist hann; enn Grímr laungsonr hans átti tvo sonu skilgètna, Þorleif oc Benedict, erfdu þeir födrfödr sinn. Enn uppá jardir þær allar, er átt hafdi Ingibjörg Þorvardsdóttir, sem voru Mödruvellir, oc miklar eignir adrar, kalldi í fyrstu systir hennar samborinn, Gudrídr Þorvardsdóttir, kona Erlends Erlendssonar, oc þottist lögerfingi at, eptir þeirri rèttarbót Hákonar konungs: *þar sem fadir edr módir erfdu fasteignir frá annari ætt, eptir börn sín; þá skyldu öll þau ódöl hverfa aptr til þeirrar ættar er þau voru í fyrstu fråkominn*; enn Grímr Pálsson sókti sonum sínum til handa, eptir venjulegu erfdatali lögbókar, allann arf eptir Pál Brandsson födr sin oc fèck þar uppá dóm af tvennum tylftum dómsmanna útnefndann af Finnboga lögmanni Jónssyni frænda sínum, á Spjaldhaga í Ejafyrdi, föstudaginn fyrir Jónsmessu Baptistæ, vetri eptir dauda Ingibjargar. Dæmdust þeir Þorleifr oc Benedict Grímssynir at vera lögarfar oc eignarmenn, at öllum þeim peníngum föstum oc lausum, sem þeir Biarni oc Benedict synir Páls oc Ingibiargar erfdu eptir módr sína, oc sídann erfdi fadir þeirra Páll eptir þá; enn Grímr Pálsson rèttr umbodsmadr sona sinna, eptir lögum Magnúsar konungs, enn á móti rèttarbót Hákonar konungs áurgreindri, er þeir segia alldrei hèr í landi fyri lög gengit hafa svo menn viti, og eigi híngad í

land gèfna; oc eptir á alþíngi hid sama ár, þridjudaginn næstann eptir Pètursmessu oc Páls; þá Pètr Trúls hyrdstjóri samþykti, sem ádr er gètit, enn Hlídarendamenn, Þorvardr oc Vigfús Erlendssynir, hèldu enn framm ákæru sinni uppá fèn; útgaf þá Finnbogi lögmadr stadfestíngar úrskurdi uppá dóma þessa, fyrst at Laugalandi í Hörgárdal, midvikudagin eptir krossmessu um haustid, þad ár sem Þorvardr tók lögsögu, oc sídan á alþíngi sumarit eptir, þau missiri sem seinast var fràsagt, midvikudaginn eptir Pètursmessu oc Páls, útnefndi hyrdstjórinn Benedict Hersten oc Finbogi lögmadr XXIV lögrèttumenn í dóm, oc stadfestu alla þessa dóma í öllum greinum þeirra, oc at lögbókarinnar texti skyldi standa um arftöku þessa, en Grím Pálsson engra svara skyldugann til þess máls ákæru framar meir, oc þá utanstefnu er Þorvardr hafdi Grími medstefnt til Noregs um þetta mál, ólöglega vera oc ógylda. Hèradauki samþykti Gottskálk biskup alla ádrskrifada dóma oc úrskurdi fyrir sig oc kyrkjuna, oc sagdi þá löglega, því honum litist þeir eptir lögum oc rèttu erfdatali dæmdir vera, oc var sá úrskurdr ritadr at Miklagardi í Eyafirdi mánadaginn fyri Matthæusmessu. Hèlldt þá Grímr Pálsson eignum þessum um hríd, oc giördist mikilmenni, sem frændur hans; hann átti Helgu döttr Narfa Þorvaldssonar frá Narfeyri, oc var hún módir þeirra brædra. Hafdi hann hid mesta traust af Finnboga lögmanni frænda sínum, því hann var vitrmadr, oc mikill fyrir sèr.

## III Cap. Mál um Solveigar arf.

Þá er Gottskálk biskup var setstr at stóli sínum, hófst þegar undirrót þeirra málaferla er þeir Jón Sigmundarson áttust vid. Jón hafdi sókt þá brædr Philippussyni, Hermann, Gísla oc Olaf, um kyrkjugards saurgun í Vídidalstúngu, þá er Asgrímr bródir hans var veginn, fyri dóm Olafs biskups, enn Officiales er eptir Olaf biskup voru, í frudu þá kreilr, því at Olafr Philippusson vann tylftareyd med nefndum vottum, at hann hefdi kyrkjugardinn nè kyrkjuna, hverki saurgad med höggum eda heiptarblódi, edr sært nockurn mann innan þeirra takmarka, sem heilög kyrkia eignar sèr til [illegible], oc þeim til fridar er til hennar flír. Olafr hafdi fengid Vagdi at [illegible] Solveigar Biarnadóttur, oc Jóns Þorlákssonar skrifad, hvat heil [illegible]. Enn er [illegible] vard um

arfinn Biarnar hins ríka, var Einar hinn úngi Olafsson, dæmdr erfingi Solveigar at þeim hluta er hann stód til; þat lèt dæma Einar Oddsson er þá hafdi Húnavatns syslu, tvisvar, ödru sinni at Svínavatni midvikudaginn fyri Calixtusmessu, vetri fyrri enn Gottskálk biskup fór utann eptir biskups vígslu; enn ödrusinni ári seinna á midvikudaginn nærstann eptir Jónsmessu Baptistæ, oc svo Finnbogi lögmadr, enn Olafr var dæmdr fiárhaldsmadr sonar síns þartil er hann kæmi til myndugra ára. Enn þótt þeir fedgar Gudni oc Biörn vildu hrekja Olaf oc Einar son hans frá þeim arfi, setti Olafr í fèn, oc hèldt þau sem lágu nordanlands oc nærri hönum voru; enn Gottskálk biskup keypti sídann af þeim fedgum Audkúlu oc fleiri jardir, oc bar þat sídann til greina milli biskups oc annara erfingia. Jón Sigmundarson vard þess skiótt var, at Gottskálk biskup hefdi nockurn ímugust á rádahag þeirra Biargar, vita menn ógiörla hvert hann spann þat upp siálfr, edr óvildarmenn Jóns; fór hann þá til Hóla, oc hreinsadi sig af því máli fullkomlega í vidrvist Jóns Þorvaldssonar ábóta mágs síns, var svo at siá sem biskupi lyndti, oc var þat mál kyrrt um hríd.

## IV Cap. Höskuldar-mál.

Mánadagin fyrir Olafsmessu fyrri, þau hin sömu missiri er næst voru talinn, nefndi Gottskálk biskup ábóta oc presta í dóm at Vidvík, um sakir þær er hann kærdi til Höskuldar Runólfssonar; fyrst þat at Höskuldr hefdi tekit, bundid oc meidt, oc flutt heim til sín smalamann stadarbúsins at Miklagardi, svo at hann var ófær í þriár vikr; þarfyrir var Höskuldr dæmdr fallinn í bann af siálfu verkinu, skyldr til at sæka lausn oc skript af biskupi, oc gialda hönum LX merkr í sitt fullrètti; þar at auki fyri búmissir medann smalamadrinn var ófær, at gialda svo mikinn mat sem af búinu giördist í þann tíma, oc hufi þad ordid hálfrar merkr skadi, dæmdust Hólakyrkju LX merkr í fullrètti hennar. Í annan máta um þad hross sem Höskuldr hefdi ádr afhendt í stadarins peninga, enn tók sídann aptr; var hann dæmdr at skila því eda iafngódu hrossi, oc fyri grip eda rán á hrossinu at gialda biskupi XV merkr í sinn rètt, oc eyrir á hverja viku í vinnumissir; skyldi fyrstá sú í sektum þeim vera innan XVI nátta at heyrdum dómi,

annad at Michialsmessu, þridja at nærstu fardögum, oc skyldi þá allt goldid. Hygg eg þad víst at Höskuldr þessi hafi verid sonr Runólfs Höskuldssonar er einn var þeirra manna er Olafr biskup hafdi fyri sektum haft.

## V Cap. Frá Stepháni biskupi.

Stephán biskup í Skálholti segia menn at verid hafi lítilætis madr mikill; hann var lærdr vel oc framadr umfram adra menn er þá voru á landi hèr; Stephán biskup var mikill framqvæmdar madr í mörgum greinum, hann feck af Hans Dana Konúngi leifisbrèf, at hann mætti láta kaupskip sitt gánga hvert er hann vildi til Dana-konúngs landa, til at kaupa náudsyniar sínar oc stadarins; var Ögmundr prestr Pálsson styrimadr oc formadr þess til Noregs nockrum sinnum. Stephán biskup lèt taka ofan Skálholltskyrkju, oc færa upp allann grundvöll hennar, bera mold í kyrkjugardinn, oc hæcka svo miög, at fullvöxnum manni tók í midt lær ofann ad hellum þeim sem liggia undir gardinum oc kyrkiunni; hann lèt oc hlada griótvegg í kríngum alla kyrkjuna, henni til skióls fyri vedrum; þó svo at rúmlega mátti gánga milli hennar oc veggiarins; þann gard lèt Ögmundur biskup sídann rífa, oc hlada med hönum Kyrkjugardinn. Hann lèt flytia griót mikid heim ad stadnum, voru tveir menn haldnir til þess vetr oc sumar, tóku þeir griót oc hellr miklar uppi hiá Vatnsleysu, oc fluttu á skipi þar til giörvu ofann eptir Túngnaflióti oc Hvítá, ad torfholltinu, oc í Hundapolls-ós, oc var þar náustid. Enn á vetrum óku þeir griótinu heim á akneytum oc sledum þá akfæri var. Svo bar til at prestr sá er Þorkèll hèt, oc griótmenn þessir bádir, oc tveir adrir, lètu smída sèr lykla at Skálhollts kyrkju, oc stúku þeirri í henni er þá var köllud stúdium, oc stálu þadan gulli, silfri oc klædum, oc enn ödrum hlutum, oc urdu uppvísir at fannst hiá prestinum svo mikid gull oc silfr í hálfrónum siövetlíngi, at rádsmadrinn baudst til ad taka þad í rádsmanns-kaup sitt, og qvadz mundi gèfa biskup þar med qvittann, var þó hitt ad auki, er hinir höfdu tekid, Prestrin var skríddr öllum prestabúníngi, oc leiddr inn at altari, þar er biskup var oc klerkar hans fyrir, sídann var allr messusaungr lesinn öfugr (at aptan frammeptir) oc hvert messuklædi tekid af hönum, eptir því sem

hann hafdi verit [illegible] vid vígsluna; því næst var hann leiddr út fyri kyrkiudyr, oc þarinn, hèr nordann ad laudastædi milli fiögra manna oc heilum [illegible], einn sá hann hreinsadr, at því er kallad var, med sópum, af biskupi oc tveimr prestum, oc kendi á þeim ótæpt Var þó þetta all-laungu sídar enn frásögunum er komit. Stephán biskup elskadi miög oc ydkadi lærdóma; var þad dagleg ydn hans at lesa oc rita oc kenna ödrum, fèck hann Latínu-vers þegar uppá hvert efni eda hlut sem um var rædt, eda medafarid. Hann hèllt Latínu skóla í Skálhollti, oc setti Asbjörn Baccalaureum skólameistara. Stephán biskup var miög settr í framgaungu oc líferni, oc lifdi straungum lífnadi eptir klaustra manna reglum. Hann drack aldrei miöd eda vín eda áfengann dryck svo mikinn í senn, at á hönum sæi, alla þá stund hann var biskup, oc át aldrei kiöt nema á stórhátídum, jóla degi, páskum oc hvítasunnu. Hann át aldrei hvítan mat nema á sunnudögum, oc reid aldrei hesti skeid. Eigi var hann vid konu kendr. Hann hèllt fastlega bænatíma á föstu, oc tídagiördir allar; árlega giördi hann Testamentum sitt ádr hann reid heimann í visitatiu sína, oc tilnefndi í því brèfi allar þær giafir er hann ætladi at gèfa vinum sínum oc vandamönnum, biskupinum á Hólum silfrstaup vænt, rádsmanni sínum V hundrud, kyrkiupresti III hundrud, hverjum hinna prestanna 1 hundrad, diákna X aura, hverjum annara klerka V aura; einnin tileinkadi hann vissar giafir ábótum, útbúa rádamönnum, oc ödrum vandamönnum. Í þann tíma dæmdu biskupar á landi hèr um legordssakir allir, hiúskaparmál, hórdóma, meinbuga oc blódskammir; voru slíkir stórbrotamenn skialdann líflátnir, enn biskupar lögdu miklar fèsektir á þá, oc þar med hardar skriptir eptir vild sinni; húdstrokr opinberar fyrir Kyrkiudyrum, oc myrkvastofu hald á stólnum, med salltspón oc vatnsbolla, föstr miklar, oc at gánga berfættir á hökul-seckum med berum iljum til kyrkju, oc standa svo fyri kyrkjudyrum alla messu oc tídir út, hversu sem vidradi, vetr eda sumar, oc slíkt annad. Eptir slíkar skriptir afstadnar oc medtekna lausn, var þeim mönnum gefid heimfararleifi til sinna, oc þoldu ei sídann adra hegníngu enn gialda fèsektir sínar. Enn med því at þesshattar stórglæpir gengust miög vid í landi hèr í þann tíma, oc mörg önnr stórvyrki oc ofbeldi, sem Stephán biskup hatadi oc vildi afvenia, þá þótti mörgum hann hardr oc

refsíngasamr vid þesshattar menn, oc kiöru sumir heldr dauda, enn þola slíkar pintíngar. Enn þvílíka menn alla tók Torfi Jónsson í Klofa í sína vernd þá er hann mätti, svo biskup feck naudunglega komid rètti og refsingum yfir þá, oc gengu þeir því óleystir oc óqvittir hvert ár at ödru; giördist af því med þeim biskupi oc Torfa hin mesta óvild. Á dögum Stephans biskups kom sá madur í Skálhollt á einu sumri, er Sveinn spaki skírdi oc spádi fyrir þá hann var prestr, hann var knálegr madr, oc þótti sèr ecki bodid til dryckju, fyrir þat hió hann í sundr hund biskups; enn um haustid eptir vo hann mann saklausann í Bískupstúngum, fyrir þad hann bannadi hönum at höggva hrís í skógi svo nálægt bœ sínum; oc fiorum vetrum sídar vard hann ödrum manni at skada í Grindavík, oc fór utan sídann med Vigfúsi Erlendssyni; hann feck hönum líf til handa. Var sá madr afi Teits hins sterka í Audshollti Ögmundarssonar.

## VI Cap. Vatnsfiardar mál.

Nú er at víkja þángad til er fyrr umgètr, at Biörn Þorleifsson á Reykhólum hafdi fengid konúngs úrskurd fyrir arfi Solveigar, oc svo dóm Finnboga lögmanns, enn Biörn Gudnason í Ögri reid ei at sídr med flock manna heim á Vatnsfiörd er Biörn Þorleifsson kalladi sína eign oc födrarf, oc Stad í Adalvík, oc tók at sèr báda þá garda dómlaust, oc jardirnar oc kúgyldi þau er fylgdu, oc allt er þar stód samann, qvikt oc daudt. Hann veitti oc heimreid at Reykhólum. Biörn hafdi Isafiardar sýslu, oc átti Ragnhildi dóttr Biarnar Marteinssonar á Kètilstödum austr, oc Ragnhildar Þorvardsdóttr, systr Erlendar. Vid þennan yfirgáng þóttist eigi Biörn Þorleifsson meiga búa, oc reid í Skálhollt eptir um sumarid, oc beiddist af Stepháni biskupi eptir bodi oc brèfi páfans Legáta, er hann framm bar, at giöra sèr lög oc rètt á slíku. Útnefndi þá Stephán biskup XII presta dóm í Skálhollti, oc dæmdu þeir at biskupi heyrdi til at enda þrætu þessa med úrskurdi sínum, hversu löglega þau systkyn Þorleifsbörn væri til arfs komin. Um sumarit reid Stephán biskup til alþíngs, oc áqvad þar med úrskurdi sínum, oc slíkt hid sama dæmdi Finnbogi lögmadr med XII lögrèttumönnum, at Biörn Þorleifsson oc systir hans ætti

hann hafdi verid æfdr vid vígsluna; því næst var hann leiddr út fyri kyrkiudyr, oc þarinn, bernofann ad lindastædi milli fiögra manna oc helldu áttunum, enda síklann hreinsadr, at því er kallad var, med sópum, af biskupi oc tveimr prestum, oc kèndi á þeim ótæpt. Var þó þetta all-laungu sídar enn frásögunum er komit. Stephán biskup elskadi miög oc ydkadi lærdóma; var þad dagleg ydn hans at lesa oc rita oc kènna ödrum, fèck hann Latínu-vers, þegar uppá hvert efni eda hlut sem um var rædt, eda medfarid. Hann hèllt Latínu skóla í Skálholti, oc setti Asbjörn Baccalaureum skólameistara. Stephán biskup var miög settr í framgaungu oc líferni, oc lifdi straungum lífnadi eptir klaustra manna reglum. Hann drack aldrei miöd eda vín eda áfengann dryck svo mikinn í senn, at á hönum sæi, alla þá stund hann var biskup, oc at aldrei kiöt nema á stórhátídum, jóla degi, páskum oc hvítasunnu. Hann át aldrei hvítan mat nema á sunnudögum, oc reid aldrei hesti skeid. Eigi var hann vid konu kendr. Hann hèllt fastlega bænatíma á föstu, oc tídagiördir allar; árlega giördi hann Testamentum sitt ádr hann reid heimann í visitatiu sína, oc tilnefndi í því brèfi allar þær giafir er hann ætladi at gèfa vinum sínum oc vandamönnum, biskupinum á Hólum silfrstaup vænt, rádsmanni sínum V. hundrudi, kyrkiupresti III hundrud, hverjum hinna prestanna I hundrad, diákna X aura, hverjum annara klerka V aura; einnin tileinkadi hann vissar giafir ábótum, útbúa rádamönnum, oc ödrum vandamönnum. Í þann tíma dæmdu biskupar á landi hèr um legordssakir allir, hiúskaparmál, hórdóma, meinbuga oc blódskammir; voru slíkir stórbrotamenn skialdann líflátnir, enn biskupar lögdu miklar fèsektir á þá, oc þar med hardar skriptir eptir vild sinni; húdstrokr opinberar fyrir Kyrkiudyrum, oc myrkvastofu hald á stólnum, med salltspón oc vatnsbolla, föstr miklar, oc at gánga berfættir á hökul-seckum med berum iljum til kyrkju, oc standa svo fyri kyrkjudyrum alla messu oc tídir út, hversu sem vidradi, vetr eda sumar, oc slíkt annad. Eptir slíkar skriptir afstadnar oc medtekna lausn, var þeim mönnum gefid heimfararleifi til sinna, oc þoldu ei sídann adra hegníngu enn gialda fèsektir sínar. Enn med því at þesshattar stórglæpir gengust miög vid í landi hèr í þann tíma, oc mörg önnr stórvyrki oc ofbeldi, sem Stephán biskup hatadi oc vildi afvenia, þá þótti mörgum hann hardr oc

refsíngasamr vid þesshàttar menn, oc kiöru sumir heldr dauda, enn þola slíkar pintíngar. Enn þvílíka menn alla tók Torfi Jónsson í Klofa í sína vernd þá er hann mátti, svo biskup feck nauduglega komid rètti og refsíngum yfir þá, oc gengu þeir því óleystir oc óqvittir hvert ár at ödru; giördist af því med þeim biskupi oc Torfa hin mesta óvild. A dögum Stepháns biskups kom sá madur í Skálhollt á einu sumri, er Sveinn spaki skírdi oc spádi fyrir þá hann var prestr, hann var knálegr madr, oc þótti sèr ecki bodid til drykkju, fyrir þat hió hann í sundr hund biskups; enn um haustid eptir vo hann mann saklausann í Biskupstúngum, fyrir þad hann bannadi hönum at höggva hrís í skógi svo nálægt bæ sínum; oc fiorum vetrum sídar vard hann ödrum manni at skada í Grindavík, oc fór utan sídann med Vigfúsi Erlendssyni; hann feck hönum líf til handa. Var sá madr afi Teits hins sterka í Audshollti Ögmundarssonar.

## VI Cap. Vatnsfiardar mál.

Nú er at víkja þángad til er fyrr umgètr, at Biörn Þorleifsson á Reykhólum hafdi fengid konúngs úrskurd fyrir arfi Solveigar, oc svo dóm Finnboga lögmanns, enn Biörn Gudnason í Ögri reid sí at sídr med flock manna heim á Vatnsfiörd er Biörn Þorleifsson kalladi sína eign oc födrarf, oc Stad í Adalvík, oc tók at sèr báda þá garda dómlaust, oc jardirnar oc kúgyldi þau er fylgdu, oc allt er þar stód samann, qvikt oc daudt. Hann veitti oc heimreid at Reykhólum. Biörn hafdi Isafiardar sýslu, oc átti Ragnhildi dóttr Biarnar Marteinssonar á Kètilstödum austr, oc Ragnhildar Þorvardsdóttr, systr Erlendar. Vid þennan yfirgáng þóttist eigi Biörn Þorleifsson meiga búa, oc reid í Skálhollt eptir um sumarid, oc beiddist af Stepháni biskupi eptir bodi oc brèfi páfans Legáta, er hann frammbar, at giöra sèr lög oc rètt á slíku. Utnefndi þá Stephán biskup XII presta dóm í Skálhollti, oc dæmdu þeir at biskupi heyrdi til at enda þrætu þessa med úrskurdi sínum, hverau löglega þau systkyn Þorleifsbörn væri til arfs komin. Um sumarit reid Stephán biskup til alþíngs, oc áqvad þar med úrskurdi sínum, oc slíkt hid sama dæmdi Finnbogi lögmadr med XII lögrèttumönnum, at Biörn Þorleifsson oc systir hans ætti

arf allann eptir foreldri sitt, og födrsystr sína Solveigu, enn eptir hana er sagt at hafi verid XXVI hundrud hundrada í kúgildum oc vyrdíngarfé enn XXIV hundrud hundrada í jördum, oc má þar vera medtalid þad fé er hún hafdi undir sig tekid eptir frændr sína sem fyrr segir. Dæmdu þeir þá fedga Gudna oc Biörn skyldnga aptr láta allar þær eignir er þeir helldu af þeim peníngum. Stephán biskup dæmdi oc í þann tíd, med dómsprestum sínum hiónaband Páls Jónasonar oc Solveigar Biarnadóttr ólöglegt verid hafa, oc börn þeirra ecki arfgeng; þar sem at Magnús biskup í Skálhollti hafdi ecki ad páfans forlagi dispenserad um þeirra hiúskap. Enn eptir þann XII manna dóm er fyrr var gètid, sendu hinir hellstu vestfyrdíngar, Jón Dan son Biarnar hins ríka, Gudni oc Biörn son hans, oc sextán adrir, Finnboga lögmanni, skarpa ákæru oc lánga protesteran, svo at þeir bædi siálfra sín oc alls almúgans vegna á Vestfiördum, qvádust hverki fyri sig nè sína nidia undir gángast vilia, oc hverki med blídu nè strídu, slíkt lagarof, rèttindarán, lögleysr oc lögvillr, sem leidast inní landid med þeim XII mannadómi, um arftöku Biarnar Þorleifssonar oc systra hans eptir födr þeirra Þorleif, oc adra frændr hans, því systkin þau öll sèu borinn í fridlulifi oc frændsemis spellum, ádr enn foreldrar þeirra fengi leifi Christiáns kóngs, páfa oc erkibiskups uppá arftöku skilgetinna barna þeirra, oc saman at giptast, oc hafi þad heyrt þeim börnum er Þorleifr oc Ingvildur ætti saman eptir festíngu, enn þau hiónabands börn hafi enginn ordid. Segiast þessir menn vel undirstanda þat dómr þessi samsettr verid hafi fyrir vináttu, mútr oc peninga, beidast því oc krefiast med mörgum skarpbeittum ordum af Finnboga lögmanni, at hann gæti lögmanns eyds síns oc embættis, oc haldi þeim fyri Guds oc laganna skuld til rèttra mála, med fullri vitsku, einörd oc hörku, enn önyti oc nidrþrycki nyúngar þessar oc lögleysr at fullu oc öllu; oc qvádust þartil vilia styrkia hann eptir öllum mætti þeirra. Enn er Stephán biskupi sá at deilr þessar mundu lángar verda oc erfidar, nytti hann sèr forna úrskurdi erkibiskupa um Vatnsfiardar stad, oc dæmdi hann því eginlegt Beneficium, oc fèck þar uppá sídar stadfestíngar brèf Gauta erkibiskups. Staðrafell í Trèkyllisvik hafdi Stephán biskup fengid med rekum oc öllum gædum VI hundrud at dyrleika til Laurentii kyrkju á Kyrkiubóli, í kyrkjureikníng af Gudna Jónssyni.

## VII Cap. Frá biskupum oc ödru.

Þá er Stephán hafdi biskup verid í X vetr, oc lidnir voru VI 1501
vetr frá plágunni, enn tveir frá útkomu Gotsskálks biskups kom
út Kaj von Ahlefeldt med hyrdstiórn, hann veitti Byrni Gudna-
syni eyslubrèfid á milli Geirhólms oc Lánganess, oc er þat Isa-
fiardar sysla, þó adrir haldi annad. At ödru er ei gètid um
þann hyrdstióra, enn þat hyggia menn at Lienhardr fógeti, sá er
fór med óspèktum oc ránum, hafi hans umbodsmadr verid. Um
þær mundir giördi Stephán biskup med XII presta rádi þau hagn-
adar umskipti vid Þíngvalla kyrkiu, at hann feck henni þriár
jardir, fyri skóg allann ofan Hrafnagiá, stóls landsetum til brúk-
unar. Fimtudaginnn nærstann fyrir Hallvards messu at almenni-
legri prestastefnu á Vídivöllum, lèt Gottskálk Hóla biskup ábota
oc presta játa því oc samþyckja, at í biskups tyund skyldi lúka
eyrir af öllum bygdum jördum smáum oc stórum, er þá voru undir
kyrkiuna komnar. Enn af hinum er þar eptir koma kynni, skyldu
tyundir lúkast sem lög til standa, oc kristinrèttr útvísar. Þá
er sagt at Jón prestr Þorvardsson er haldid hafdi Höskuldstadi
oc verid officialis, oc þarmed í mörg ár haft umrád Þíngeyra-
klaustrs, hafi fyrst vigdr verid þar undir ábotastètt, er hann þó
nefndr ábóti ádr. Þá var giör alþíngis samþyckt um nefndar-
manna kost. Stephán biskup qvittadi Jón Helgason um þad er
hann svo ófyrirsynju Þorleif Þórólfsson. Einar ábóti at Þverá oc
Jón ábóti á Þíngeyrum dæmdu Eyríki presti Einarssyni Kálfskinn.
Þá feck Gunnlaugr Helgason Gottskálki biskupi oc Hóla kyrkju
þat fè sem Ingibiörg Kolladóttir kona hans hafdi ádr gèfid í
próventu til stadarins, oc þat er Jón prestr Kollason hafdi erft,
enn biskup gaf Gunnlaugi upp sakir á móti. Fleirri urdu oc
giörníngar, oc er gètid vid suma Sturlu Þórdarsonar at Stadafelli.
Þat var eitt at þeir Erlendarsynir sömdu vid Grím Pálsson um
Mödruvalla arf, því at þeim leitst sitt óvænna sem þá stód; fór
sú sátt fram um haustid at Mödruvelli, í vidrvist Finnboga lög-
manns, Sigurdar prests Runúlfssonar oc þriggia lögrèttumanna;
afhendi Þorvardr lögmadr Grími: Hóla í Eyafirdi, Annastadi,
Vatnsenda, Jökul, Tjarnir, Ulfá, Torfufell, Villíngadali báda,
fyrir tvö hundrud hundrada oc áttatyu hundrud; enn Grímr
Þorvardi Breidabólstad í Ölvesi, Yxnalæk, fiögr hundrud í Þúfu-

landi, Grímslæk, Hraun, Biarnastadi, Götu, Eymu, Hlíd, allar í Ölvesi, Hof á Kialarnesi, Arnaholit, Skrauthóla, Öfugskeldu, Galltarvík á Akranesi fyri tvö hundrud hundrada oc LXX hundrud enn Grímr hèt til jafnadar XLVIII hundrudum í kúgildum oc ödrum þarflegum aurum; voru þeir þá fullkomlega sáttir, þó þad stædi ei all-lengi.

## VIII Cap. Frá Nicolási prior.

Í þann tíma var Nicolás prior Þormódsson á Mödruvöllum, oc hafdi hann verid prestr ádr, at því er siá er, at Upsum, dæmdi hann at Vídivöllum med ödrum, midvikudaginn nærstann fyrir Hallvardsmessu um Svein Jónsson er tveimr kúgildum hèldt fyrir
1502 Hólakyrkiu. Nicolás tók upp fátæka stúlku er Þórey hèt, oc átti hún tvo sonu, hètu Þorsteinn oc Þorbiörn; var Nicolás prior haldin af sumum fadir þeirra, þó þad mætti ecki uppbera. Er frá þeim ætt kominn; Þorsteinn var fadir Sigurdar prests, þess er hèldt vid Gudrúnu dóttr Finnboga ábóta, Einarssonar ábóta at Þverá Isleifssonar, þeirra son var Einar prestr er sídast var í Heydölum í Breiddal, oc er þadann mikil kynslód.

## IX Cap. Stórrædi Klofa-Torfa.

Þá var yfirgángr mikill Lienhards er verid hafdi fógèti á Bessastödum, oc giördi hann margt stórlega; hann hètz vid Torfa Jónsson í Klofa, oc settist á Arnarbæli med ráni, enn Islendíngar voru þá í þann tíma all-siálfrádir fyrir Dönum, oc svo hver fyrir ödrum,, nema þá er rèttarbætr voru sóktar til konúnga, enn þótt klerkaríki oc höfdíngiaríki væri mikid innanlands. Oc er Lienhardr var staddr at Hrauni í Ölvesi, fór Torfi þar at hönum vid marga menn; sá madr var med Lienhardi, úngur madr XVIII vetra gamall, er nefndr er Eysteinn Brandsson, allra manna karskastr, hann vardi bæardyrnar at Hrauni einsamann svo drengilega, at menn Torfa fengu ei atgiört, rufu þeir þá húsinn at baki hönum, oc var þá Lienhardr drepinn. Stephán biskup lèt sèr ei þad mislíka þó fátt væri med þeim Torfa, oc bad hann hafa unnid þad verk manna heppnastan. Geck Torfi til skripta vid

biskup, oc vard ecki fyrir miklum fèsektum; Eysteinn var oc ei heldr miög sektadr, hann var alla stund á landi hèr, oc vyrdr af mönnum fyri hreysti sína, var hann mikid afbragd annara manna, oc kalladr Eysteinn hinn sterki. Fiandskapr mikill giördist med biskupi oc Torfa, svo at einhverju sinni um vetr, gjördi Torfi sig heimann frá Klofa med XXX manna, oc ætladi at taka biskup höndum, þá er allir stadarmenn voru komnir til vers. Þiórsá lá öll milli fialls oc fiöru, enn er Torfi oc förunautar hans komu at Nautavadi, syndist þeim áll audr eptir midri ánni, ridu þeir sudr at Kaldárhollti, oc sneru þar aptr, enn þann dag var þiórsá ridinn á ísi eptir oc fyrir. I ödru sinni kom Torfi í Skálhollt med flock sinn er fátt manna var fyrir, var þá læst öllum dyrum at bodi biskupr, geck Torfi at kyrkiu, oc ofannad nordr dyrum, oc greiddi högg mikid á dyrnar, oc spurdi hvert skolli væri inni? biskups sveinn er Loptr hèt hlióp hertygiadr at dyrum í móti Torfa, oc mælti: inni er skolli oc ei hræddr, bíd þu þess hann er klæddr, hórusonrinn; hver sem þú ert. Torfi svaradi: er þú þar stráka Loptr? þessu mundir þú ecki ansa, ef þú þættist ei hafa yfir fleiru at búa enn eg af veit. Vard þá ei fleira til tídinda at því sinni, oc reid Torfi á braut vid svobuid. Þó lèt hann ei af ofsóknum vid biskup, oc urdu fleiri atvik þeirra á milli. Þá bar svo vid á Alþingi er Torfi geck til lögrèttu, at mönnum sýndist sem lítill svartr flóki í fugls líki kæmi nordann frá Skialdbreid, oc stypti sèr ofann yfir Torfa, rak hann þá upp hlióđ mikid, oc giördist svo ofr-sterkr at miög margir urdu at halda hönum, enn þó vard þat um sídir at hann vard bundinn, kom þá þángad Stephán biskup, oc allr kènnilídr med hönum, oc hvelfdi stackssermi sinni yfir höfud Torfa, því öllum ofbaud augnabragd hans oc andlit, oc ofr-hlióđ; fèll biskup á knè, oc allir med hönum til bænar, med lestrum oc saungum, sefadist þá Torfi nockud, oc batnadi sídann. Urdu þeir biskup oc hann vinir útvortis at kalla, enn þó aldrei þelalaust. Torfi kaus sèr legstad í Skálhollti, vard hann ecki madr gamall, segia sumir hann hefi fordruckid sig austr á Fiskhollta þíngi í ytri Lándeyum, enn adrir at hann hafi dáit í sótt á Skídisbacka í Lándeyum, oc hafi kona hans hlotid dyrt at kaupa kyrkiuleg hans í Skálhollti af Stèphani biskupi, því hönum hafi ei þótt Torfi kyrkiugræfr framar þeim er siálfum sèr fargar, oc litr þad

til hinnar fyrri sagnar, þó eumnis signi þad ovild þeirri er í milli var. Gaf Helga Gudnadóttir med líki bónda síns til Skálholts, silfrkross hinn besta, oc jardir þessar, Vindás, Hreidr oc Akbrautarhollt, enn sumir nefna enn til Lækjarbotn oc Híallanes eda Mykjunes, liggia þær jardir allar fyrir austan Þiórsá. Þau voru börn Torfa oc Helgu, Eyrikr í Klofa, Jón oc Biarni fadir Sigurdar á Stockseyri, Þorsteinn son Finnboga lögmanns, Kristín oc Halla; er þat köllud Klofa ætt som frá Torfa er komínn.

## X Cap. Fiárafli Stephans biskups.

Stephán biskup dró miög framm taum kyrkna oc klerka, oc kom undir lærda menn mörgum jördum oc fasta eign, fyrir forna oc mikla kyrkju reikninga oc sektafè; enn þó hann oc adrir biskupar þætti frekir í því, þá gáfu siálfir landsmenn oc þeir er kyrkjur vardveittu orsök þartil: voru margir örlátari vid kyrkiur oc kennimenn heldr enn nú, oc bættust kyrkjunum stórfè í sálugiöfum; heldu þá sumir kyrkjuverdir kyrkiurnar vyrduglega þaraf, enn adrir lètu þær nidast oc falla, sumir eiddu peníngum þeirra, oc sóudu med öllu, svo biskupar hlutu at halda stránga reikninga vid slíka menn, oc taka heldr jardir fyrir enn lausafè, hellst þar sem þeir voru fornir ordnir, því fasteigninni var eigi jafnaudveldt at briála, oc hægra at ripta þó briálad væri. Þó voru margar biskupar mikils til of frekir, heimtu heimajardir manna af þeim, oc fóru uppá hverskyns hardindi. Enn Stephán átti vid stórbocka, helst þá Torfa oc Biörn, var þat oc margra manna sidr í þann tíma at fara med allt þad fè sem þeir komu höndum á sem herfáng væri, því yfirgángr oc ofbeldi var miög tídt, oc þótti hver sá madr mestr sem hardfengastr var í fiáraflanum, oc mátti syna sig sem ríkmanlegastann; voru ei adrir hlutir vyrdir enn audr oc stórar ættir, oc at mestu var einnin hvorfinn skynhelgi sú er biskupar oc klerkar höfdu opt ádr, enn þeir voru nu yfirgángsmenn siálfir í því er þeir máttu, jafnt vid leikmenn, eda framar, þó þeir hefdi nockut meira laga yfirskyn. Voru þá oc nær engir lærdir menn uppi at kalla megi.

## XI Cap. Frá Stephání biskupi oc annara manna giörníngum.

Stephán biskup kom Hólmum í Reidarfyrdi undir sig oc Skál-

holts kyrkju, fyrir upphlaup nockurt. Vidr þremr höfdíngum, enn kyrkjann átti ádr einn í heimalandi. Reidarfell XXIII hundrad skipadi hann undir kyrkjuna at Húsafelli, til tyunda, lysitolla oc allra renta æfinlega. Þat er nú eydiból. Hèllt þá Húsafell Snorri prestr Þorgilsson. Kyrkjuból í Hvítársídu tólf hundrudum, kom hann undir Gilsbacka kyrkju med kaupi vid Þórd prest Jónsson á Gilsbacka fyrir XI hundrud af frídum peníngum kyrkjunnar. Lángadal hinn litla luku hönum til Martini kyrkju á Eyri í Alptafyrdi, Þurídr húsfreya, laundóttir Biarnar hins ríka oc Þorvaldr Narfason sonr hennar í kyrkjureikníngá fyri sig oc foreldri sitt, oc gaf biskup þau qvitt þarfyrir. Þau missiri er Lienhardr var drepin, vígdi Stephán biskup í visitatiu sinni at Hvammi í Kiós, kyrkju med þeim máldaga, at hun skyldi eiga VI kúgildi, Hvammsey med öllum gögnum, oc skógartorfu í Skorradal er næst liggr Reinivalla-skógi upp frá; hann vígdi þar oc Lucas líkneski, oc gaf hverjum aflát í XL daga skriptborinna synda, þá þeir bera þad í *processionem*, edr í gangdögum; oc þeim er góda hluti kyrkiunni giöra, oc í hvert sinn sem þeir fremia góda giörnínga vid þá kyrkju. I hinni sömu ferd midvikudaginn fyrir Dionysii dag, stadfesti hann at Hytárdal skickunarbrèf Jóns biskups um máldaga oc kyrkjusóknir í milli Krossholts oc Akrakyrkiu; var þá enn á lífi Sigurdr prestr Jónsson í Hytárdal, er Bergaldi var kalladr, bródir Páls oc Gudna, því þat segir sumstedar at hann hafi þá dæmt um hiónaband Dada Arasonar. Þá er getit Benedicts Hersten hyrdstióra, oc þess at hann gaf Vigfus Erlendsson qvittann konúngdómsins vegna um högg eda blák sem hann veitti Þórdi Brynjúlfssyni vid Kross-kyrkju í Landeyum. Geck dómr Einars ábota at Þverá Benedictssonar, oc Nicolásar priórs, oc fleiri klerka, um ákæru Gottskálks biskups til Sigurdar bónda Dadasonar, at hann hèldi sydri Þverá í Vestrhópi er Einar Einarson hafdi pantsett Olafi biskupi Rögnvaldssyni; dæmdist jördin Hóla kyrkju. VI prestadómr geck oc í Vidvík, af Eyriki presti Sumarlidasyni umbodsmanni Gottskálks biskups, um nockrar ákærur biskups. Magnús Jónsson fèck Gottskálki biskupi Sveinúngsvík í Þystilfyrdi fyri kennslu sonar hans. Grímr bóndi Pálsson galdt Gottskálki biskupi XX hundrud í Reidarstödum í Urdasókn, enn Finnbogi lögmadr Asgeirsár í Vídidal oc Lækjamót, fyli tilkall í Lögmannshlíd er biskup þóttist eiga,

Einar Oddsson nefndi XII menn í dóm at Vindhæli um umbodsfè, því hann hafdi þá Húnavatns syslu, þó sumir ætli at Jón Sigmundarson hafi einnin haft. Þá finnst oc at Biörn Gudnason hafi heitid Stephâni biskupi at skilja sig vid Vatnsfiörd, einnin er gètid þess um Gudna Jónsson födr Biarnar at hann hafi þá enn haft Isafiardarsyslu, oc hafa þeir fedgar þá haft hana bádir; nefndi Gudni VI menn í dóm um þrætu milli Jóns Dans oc Biarnar sonar síns, útaf noekru erfdafè Gudmundar ríka oc hans erfingia er Biörn vildi halda; dæmdu þeir Byrni fèd, ef hann gæti synt at Biörn Þorleifsson ríki hefdi sókt þat at Gudmundi Arasyni med lögum oc dómum, enn ei gripdeildum. Fleiri er enn gètit giörnínga.

## XII Cap. Dómar.

Eyríkr prestr Sumarlidason kalladi í þann tíma til arfs eptir Gudrúnu dóttr Sveins bródr síns oc Gudrídar dóttr Finnboga lögmanns, hafdi Finnbogi lögmadr þann arf at sèr tekid eptir lögbókinni, oc hinum sömu ástædum sem Grími Pálssyni var dæmdr Mödruvalla arfr, enn Eyríkr prestr hafdi fyrir sèr rèttrarbót Há-
1503 konar konúngs, hina sömu sem þeir Erlendssynir. Stefndi Eyríkr prestr Finnboga í Vidvík utann til Noregs, fyrir erkibiskup í Þrándheimi, oc ríkisins rád, fyrir þat hann hèldi ódalsjördu sinni Grund í Eyafyrdi, oc þeim jördum er þar til heira er hann qvadst erft hafa eptir Svein bródir sinn, enn hann eptir Eyrík Loptsson födrfödr sinn, oc giördist af þessu ysing á Mödruvalla málum er sidar kom framm. Þá fóru fram dómar; einn Arnórs Finssonar á Ökrum er þá hafdi Myra syslu, um peninga sem öreigum eru bygdir án landsdrottins vilja; annar um hrossavyrdingu at Lambey af Vigfúsi Erlendssyni; hinn þridja lèt Finnbogi lögmadr dæma at Sveinstödum í Vatnsdal um fiórdúngsgiöf Þorbiargar Brandsdóttr, konu Asgríms Þorbiarnarsonar; oc hinn fiórda Biörn Gudnason at Eyri í Skutulsfyrdi um ábúd jardar. Telst þá sumstadar fyrst útgèfid syslubrèf hanns. Annan dóm dæmdi hann um þriár vættir smiörs er gripnar voru, oc hinn þridju um sókt á landskuldarhaldi. Þorvardr lögmadr Erlendsson lèt þá dæma á alþíngi um prestavitni; annan dóm um höfudhögg at Borg í Grímsnesi; þridja um naudgun qvenna at Þíngskála í Rangár þíngi. Biörn Gudnason lèt enn dæma at Eyri í Skutulsfyrdi um landskuld af Kyrkjubóli,

Finnbogi lögmadr lèt enn dæma XII menn at Helgastödum í Reykjadal, at Torfi Finnbogason væri fridhelgr oc af landi færandi, fyrir þat er hann hafdi vegid ófyrirsyniu Þórd Bryniúlfsson, voru Magnús Þorkèlsson í Skridu oc Einar Einarsson fyrstir dómsmanna, Ecki er fullvíst at Torfi sá væri sonr lögmanns er svo hèt. Jón Sigmundarson nefndi VI manna dóm at Sveinstödum í Vatnsdal, þeir dæmdu Asgeirsárnar oc Lækiamót oc fleiri jardir Finnboga lögmanni; voru þar vidridnir Narfi bóndi Sigurdarson, oc Sigurdr sonr hans, oc Teitr bóndi Þorleifsson Árnasonar Þorleifssonar úr Vatnsfyrdi, sá Teitr bió sidann í Glaumbæ. Þá fór oc framm med ödrum giörníngum vitnisburdr um heimreid Jóns Dans Bjarnarsonar á Reykhóla, oc gripdeildir þar giörvar, svo at Biörn Þorleifsson oc hans menn urdu at rída á braut í myrkri oc hríd undir nóttu. Gètid er, oc þess í ödrum vitnisburdi at Torfi Jónsson í Klofa var þá dáin. Þann tíma dró Halldór ábóti Ormsson at Helgafelli undir klaustrid allann þann brygdarètt er Ormr Nicolásson þóttist hafa á Máfahlíd, Hollti oc Túngu. Oc nockru þar eptir feck hann Höfda í Eyrarsveit, oc Húsavík í Steingrímsfyrdi til klaustrsins. Þau missiri lèt Jón Þorvaldsson 1504
ábóti vyrda allar jardir Þíngeyra klaustrs. Þá var sídann goldid Róma-fè fyrir aflát af Stephàni biskupi í hönd hyrdssiórans Kai von Ahlefeldt, þriár lestir fiska hálf fiórda vætt í hvert hundrad. Hyrdstjórinn gaf oc Byrni Þorleifssyni grid konúngsins vegna til næsta alþíngs, fyrir þad er hann var med at vígi Páls Jónssonar; er at siá sem konúngsmenn hafi þad ei áfríad þegar í fyrstu. Gudni á Kyrkiubóli lèt þá enn dæma milli Jóns Murta Einarssonar oc Jóns Hallvardssonar, oc hafdi hann þá Stranda syslu. Enn Biörn sonr hans annann VI manna dóm um tyundarhald Einars Sveinssonar, oc annan um ólöglega ábúd Thómasar á Kyrkiubóli í Skutulsfyrdi. Finnbogi lögmadr nefndi XII menn á alþíngi, er stadfestu þá dóma er fyri áqvádu hönum Lækjamót oc þær jardir. Þá fór oc framm vitni um Einar Einarsson, hafdi Einar Oddsson á Skardi í Lángadal átt tvo sonu med Ásu Egilsdóttr konu sinni, Einar oc Jón er sidar mun gètit, var þad vitnad um Einar at hann hefdi slegid Einar Oddsson födr sinn tvö eda þriú högg liggiandi í sænginni, oc hrækt í andlit hönum, oc sættist ei vid hann þadann í frá; lísti þá oc Einar Oddsson því yfir, at hann

hefdi aldrei gèfid hönum Arnbiargarlæk, nema hann færi at sínum rádum. Gètid er oc margra jardarkaupa Gottskálks biskups oc þá enn Nicolásar priórs Þormódssonar, vid dóma oc giörnínga.

## XIII Cap. Frá Gottskálki biskupi oc Jóni Sigmundarsyni.

Þessunærst hóf Gottskálk biskup ákærur sínar um hiúskap Jóns Sigmundarsonar oc Biargar Þorvaldsdóttr. Var sú ætt Jóns sem mönnum var kunnug, Solveig módir hans Þorleifsdóttir oc Vatnsfiardar Kristínar, Biarnardóttr Jórsalafara, Einarssonar oc Grundar Helgu, Var Jón fimti madr frá Einari oc Helgu; enn Gottskálk biskup taldi þá ætt Biargar, at Jón Búland födrfadir hennar hefdi átt þá módr er Ingigèrdr hèt, oc sú hefdi verit dóttir Einars oc Helgu, enn systir Biarnar Jórsalafara; enn Ingigèrdr þessi reindist þó sídar at hafa verid Þorsteinsdóttir Kalladi Gottskálk biskup þetta fiórmenníngs meinbugi, oc dæmdi med XII presta dómi sundrskilid hiónaband þeirra Jóns oc Biargar; enn fyri slíka ofdyrfd í móti páfans hans heilagusta födrs leifi, dæmdi hann af Jóni sektagiald III hundrada eda meira, enn hann fallinn i bann, oc skyldugann at taka lausn oc skript af biskupi siálfum heima á Hólum; hefir svo sagt Gudbrandr biskup dóttrsonr Jóns, at hann hafi eydsform þad fundid í brèfabók Gottskálks biskups, er Jóni var stílad undir lausnina, oc var þannig: til þess leggr þú hönd á helga bók o. s. fr. v. at þú skalt svo hèdann í frá skilinn vera at fèlagi oc líkhams losta vid þá konu Biörgu Þorvaldsdttr, oc ei skaltu at bordi vera med henni edr innhysis um nótt, eda í nockrum grunsemdarstad. Ei skaltu tala vid hana nema í opinberum stödum at vitnum nærverendum, áheyrendum oc ásiáendum verk oc ord yckar; sè svo Gud þèr hollr ef þú heldr þetta, enn gramr ef þú lygr. Þessu hlyddi Jón Sigmundarson ecki, oc var bannsúnginn af biskupi, stód svo í því um hríd, því at Jón var vitr madr, audugr oc kappsfullr, oc at því skapi um annad átgiörvi; qvedr svo at hönum í þeirrar aldar sögnum: Jón bar jafnan í pússi sínùm bylæti hinnar helgu frúar Maríu, oc þótt hann væri ásóktr, vard hönum ei fyrirkomid, því hin heilaga mær oc Michael studdu; hann gaf kyrkium VI hundrud ann þad er satt at seigia um Jón, at hann hafdi þeckíngu betri

enn margir adrir í þann tíma á rèttri trú, enn þótt audveldléga megi hann hafa reidt sig á nockud slíkt at aldar sidnum, helst fyrri hlut hans æfi. Þá hèlldt Gottskálk biskup prestastefnu at Vídivöllum á Hallvardsmessu siálfa, oc útnefndi dóm um Skeggiastadi á Ströndum (vid Lánganes) er Kristín Jörundardóttir hafdi gèfid í fiórdúngsgiöf sína Jóni diákni kölludum Príórsbródr, enn Stephán biskup í Skálholti hèldt þá jörd, oc kalladi at Jón diákn hefdi gèfid hana fyrir beneficium undir Skálholts kyrkiu; lysti Gottskálk biskup fyri þessum dómi, at hinn sami Jón hefdi goldid Hólakyrkju oc sèr jördina Skeggiastadi, í sektir er hann var Hólakyrkiu skyldugr, fyrir hórdóma, frændsemis oc mægdaspiöll, þar med tvíqvæntr oc hlaupid svo frá Hóla biskupsdæmi ordlófslaust, án lausnar, skriptar oc yfirbótar, hvar fyrir hann mætti hverki vígslur taka nè Vótum segia í nockru biskupsdæmi án ordlofs Hólabiskups, dæmdu prestar at jördinn Skeggiastadir væri oc hefdi verid eign Hólakyrkiu oc Gottskálks biskups, í þeirra skuld oc reikníngskap, at þartil leiddum lögligum vitnum. Samt hèlldt Stephán biskup Skeggiastödum, oc eptir hans kaupi eignudu Skálhollts biskupar siö hluti lands Skálhollts kyrkiu, enn hinn áttunda Skeggiastada kyrkiu, var sá stadr sídann allr lagdr til prestunum. Þá giördi oc Stephán biskup skilmála med þeim Einari Þorólfssyni á Hofstödum, er kalladr hefir verid hyrdstjóri, því hann var umbodsmadr hyrdstjóra, oc Vígfúsi Þórdarsyni á Borg, er kalladr var ríki Fúsi.

## XIV Cap. Frá vígum oc ödru.

Þat sumar visíteradi Stephán biskup Ögrs kyrkiu í Isafyrdi. Þá vard víg sydra. Hans Ethen madr hyrdstióraus frá Bessastödum þískr, veitti Arna Eyrikssyni ákomr nockrar, hann var brædrúngr vid Teit hinn ríka Þorleifsson er sídan bió í Glaumbæ; reiddist Arni um sídir, oc vo hann, urdu bætr hægar fyrir naudveriusakir, oc svo fyrir þá sök at sá var eigi Dana-konúngs landa madr er veginn var, enn þó nockrar, er hann var madr hyrdstiórans; dæmdi Þorvardr lögmadr Erlendsson um málid, enn um útlegd Arna var dæmt til álþíngis fyrir Finnboga lögmann. Þorvardr dæmdi at Varmá med VI mönnum um slíkt mál. Þá gaf

Hans kónúngr. Vígfúsi Erlendssyni frid fyrir þad er hann handhjó Hall Brandsson, þat verk eigna ættatölu menn órèttilega Hólmfrídi systr hans. Oc svo Byrni Þorleifssyni full grid fyrir þat er hann hafdi verid med Eyríki Halldórssyni í atför vid Pál Jónsson er hann var veginn á Öndverdri-eyri. Enn Biörn pantsetti Hannesi Kruko oc Sunnivu húsfrú hans í Noregi jardir sínar á ströndum, því hönum þótti vansèd hann hèlldi þeim fyrir Byrni Gudnasyni, fyrir sex hundrud gyllini. Gottskálk biskup giördi þá mörg jardakaup. Enn eptir um sumarid var þat dómr Finnboga lögmanns á alþíngi, oc hans dómsmanna, um mál Arna Eyríkssonar, at Arni skyldi hafa fiórdúngs útlegd; segia menn hann hafi hlotid at bæta fimtán hundrudum, oc IX merkr konúngi í þegngyldi, enn þó ráku hyrdstjórarnir hann sídann af eignar jördu hans Sudr-Reykjum, oc fór hann miög á hraknfng. Þorvardr lögmadur dæmdi á því alþíngi um víg útlendsks manns med XII mönnum, enn Vígfús bródir hans einnin med XII mönnum at Vogi í Kialarnessþíngi skóbotadóm. Er sínt at landsmenn vildu færa slík mál sem Arna var til líkinda, enn hyrdstiórar beittu kappi oc óvild, því at nidjar Arna guldu einnin hiá þeim. Var margt í þann tíma öfugt í landi hèr oc helldr ógasamt. Þá giördist Þorvardr áboti á Skriduklaustri.

## XV Cap. Frá ímsum málum.

Nú taka sig samann Erlendssynir Þorvardr oc Vígfús, oc Eyríkprestr Sumarlidason, til at fá samþycki Dana-konúngs uppá rèttarr bót Hákonar konúngs, oc fóru utann, oc fengu þat er þeir beiddust af Kristiáni syni Hans konúngs seinna. Finnbogi lögmadr hafdi þá enn Þíngeyar-þíng, oc nefndi XII menn í dóm at Grítubacka á löglegu örvar Þíng, um víglysíngu Bessa Þorlákssonar, er vegid hafdi Hall Magnússon ófyrirsyniu, at því er þeir kölludu; seldi Magnús fadir Halls Bessa grid, oc var hann dæmdr ferlandi á konúngs nádir. Þá fór fram vitnisburdr Gudna Jónssonar, Þórólfs Ögmundarsonar, Trístrams Búasonar, oc fleirri manna er fylgdu Byrni Gudnasyni, um þad at Biörn hefdi stadid herra Grími Þorsteinssyni, umbodsmanni oc Officiali heilagrar Skálhollts kyrkju reikníng af portíón oc *mortalia* á Vatnsfyrdi

um XX vetr oc hundrad, enn þar eptir hefdi Stephán biskup tekid af Byrni stadinn lagalaust, med ofríki, enn sett Biörn í forbod, oc allt hans fólk út af kyrkiu, svo Biörn hlaut at gánga frá Vatnsfyrdi. Þorsteinn Finnbogason ákærdi Teit Þorleifsson, í umbodi Finnboga lögmanns födr síns, um peninga er Eyríkur Loptsson oc Biarni Ivarsson bóndi Sophíu Loptsdóttr, höfdu átt; qvad Þorleif Arnason födr Teits hafa flutt þá frá Grund í engu frelsi, enn þeir hefdi heyrt til Sveini Sumarlidasyni, oc hans erfíngia Finnboga lögmanni. Einnin at Teitr hefdi setid á þridjúngi af Asgeirsám oc Lækjamóti; geck um þad dómr, oc var Magnús Þorkèlsson í Skridu fyrstr dómsmanna. Nicolás príór oc XI prestar dœmdu um ákæru Gottskálks biskups til Páls Þorólfssonar um VI málnytu kúgildi. Gottskálk biskup skipadi Sigmund prest Gudmundarson fyrir þíngaprest til VII kyrkna um allan Axarfiörd. Enn giörníngar urdu ímsir. Um vetrinn stefndi Gottskálk Biörgu Þorvalldsdóttr fyrir sinn dóm heim til Hóla, at taka lausn oc 1507 skriptir, fyrir þat hún hafi vísvitandi bundid hiónaband vid Jón Sigmundarson í fiórmenníngs meinum, enn komi hún ecki um fiórtán daga at heyrdri stefnunni, segist hann muni forboda hana oc bannsetja. Biörg kom eptir stefnunni, oc dæmdi biskup med dómspresum sínum, fimtudaginn eptir Geisladag, af henni sektir þessar; fyrst fyrir ólöglegann hiúskapar giörníng med Jóni Sigmundarsyni XV merkr Hóla dómkyrkiu í fullrètti. Adrar XV merkr fyrir fyrstu barneign í þeim meinum; fyrir adra barneign í þeim sömu meinum XXX merkr, oc fyrir hina þridju LX merkr, fyrir þiónustutekjur sidann þau bundu þann hiúskap, enn þat voru tyu ár, þriár merkr í hvert sinn, urdu þat XXX merkr; fyrir hvert XVI daga hald, sem hún hefir í kyrkiu gengid XII merkur í tyu ár. Fyrir sunnudaga oc allar postulamesar oc adra helga daga í tyu ár, VI aura. Fyrir hvern einn helgann dag þau tyu ár, þriá aura. Fyrir líkhamlegar samvistir vid Jón Sigmundarson, at sverja siöttareyd, sídan skilnadardómr gèck um hiúskap þeirra, edr gialda Hóla kyrkju LX merkr. Fyrir svefn oc samvistir vid Jón, at sveria siöttareyd, eda gjalda biskupi oc Hóla kyrkiu LX merkr; skyldi þessi sakeyrir allr goldinn at nærstu fardögum. Jón lèt sig ei med öllu beigia af slíku; var hann lagamadr mikill oc stórhuga, sem módrfrændr hans Vatnsfiardarmenn, fór hann utann um sumarid, oc verdr seinna frásagt hvernu

hönnum vegnadi. Þau missiri seldi Sveinn Þorfinnsson Gottskálki biskupi jördina ytsta Gil í Lángadal, fyrir þad er biskup veitti stadinn Vestrhópshóla til halds oc medferdar, vegna Jóns sonar hans, sem þann stad skal hafa til æfinlegrar eignar, þegar hann verdr prestvígdr., skal biskup læra sveininn til prests, oc láta hann hafa af stadarins eign hempu efni oc brókar efni árlega, til þess hann vígist. Skal Sveinn halda alla stadarins penínga til medferdar oc ábyrgdar, þartil er hann afhendir hann aptr, oc eckert eptir gialda, nema biskups gistíngu eda útlausn, þá hann rídr.

## XVI Cap. Utkoma Erlendssona; lofun Biarnar Gudnasonar.

Um sumarid kom út Þorvardr Lögmadr Erlendsson, oc Vigfús bródir hans, hann hafdi fengid hyrdstjórn, oc bió eptir þad á Hlídarenda, oc Eyríkr prestr Sumarlidason, oc höfdu þeir samþycki Christiáns konúngs únga, er þá hafdi nockrn hlut í ríki med Hans konúngi födr sínum, oc hèldt Noreg, oc nefnist Christián annar, uppá rèttarbót Hákonar konúngs, at hún skyldi gylda hèr í landi fyrir lög, í slíkum tilfellum sem í Mödruvalla málum; sneri þá miög um fyri Grími Pálssyni oc Finnboga lögmanni. Vígfús veitti Þorsteini syni Finnboga lögmanns þó Vadlasyslu milli Vargár oc Ulfdala fialla, enn Jón Asgrímsson var þar umbodsmadr ádr oc svo sídann, son Asgríms Þorkèlssonar prests Gudbiartssonar, oc bródrson Magnúsar í Skridu. Frammfór vitnisburdr Sniólfs Hrafnssonar oc Sigurdar Dadasonar, at Hrafn lögmadr Brandsson hefdi úrskurdar ættleidíngu Stephàns Loptssonar löglega, at Leidarhólmi, þar þóttist Jón Sigmundarson hafa nockurt tilkall í móti. Biörn Gudnason oc Ragnhildr Biarnadóttir kona hans giördu helmínga fèlag. Gipti oc Biörn Gudrúnu dóttr sína Biarna Andressyni, bródr Gudmundar oc Ara, enn kaupmálagiörníng samþycktu þeir Ari oc Biarni oc Andres Gudmundarson fadir þeirra. Pètr bóndi Loptsson seldi Gottskálki biskupi Biarnahöfn. Biskup lèt oc dæma um ákæru sína til Höskuldar Runólfssonar um tyundarhald, þar var fyrstr dómenda Nicolás príór. Giörnínga er nockurra gètid. Um þær mundir fylgdi Stephán biskup því fram sem fyrr segir, at Vatnsfiördr væri Ben-

eficium, oc nytti sèr svo deilu þeirra Biarnar Þorleifssonar oc Biarnar Gudnasonar, sleppti þá Biörn Þorleifsson eptir þad tilkalli sínu, enn eigi Biörn Gudnason, hann vildi enga halda dóma Stepháns biskups um arf Sólveigar Biarnardóttr. Giördi hann þá af nyu heimreidir í Vatnsfiörd oc fiár upptektir, oc jókst af því fullkominn óþocki med biskupi oc hönum; þó geck Biörn at því svostöddu til hlídni vid biskup, er vidskipti hördnudu med þeim, svo at hann kom í Skálhollt, oc hèt þar biskupi, í vidrvist Arna 1508
ábóta í Videy oc Einars prests Ingimundarsonar Officialis er ádr hèllt Steinshollt, oc annara, oc vann þar at bókareyd, at láta kyrkiur á Vatnsfyrdi oc Adalvík fá aptr alla þá peninga, er þær höfdu mist at hans forlagi, rádum oc dádum, edr hans manna, oc at stadrin oc kyrkjann í Vatnsfyrdi skyldi halda öllum sínum peníngum fyrir hönum. Þar med sór hann at vera biskupi til gagns oc góda oc hans klerkum, oc giöra þará ofan bót oc betran med skriptum oc fèsektum, eptir því sem biskup hönum tilsagdi. Oc med sama skilyrdi vann Þórólfr Ögmundarson er þar var einnin kominn, biskupi eyda undir eins, at hann skyldi eptir fremsta megni stoda oc styrkja til þess, at bádar þessar kyrkjur fengi aptr alla peninga, er þær höfdu mista, fyrir hans stod oc fylgi, fyrst vid Gudna Jónsson (er þá var fyri skömmu andadr, sem siá má af dómi þeim er geck í Önundarfyrdi laugardaginn fyrir kyndilmessu, um giafir hans) oc sídan vid Biörn son hans; oc hefir þá forbod legit vid bord fyrir þeim Byrni oc Þórólfi; enn heit Biarnar efndust ecki, sem enn mun sagt verda. Skipadi þá Stephán biskup í Vatnsfiórd, Jón prest Eyríksson Sumarlidasonar oc Emerentianu Þorleifsdóttr, bródr Þorleifs prests at Breidabólstad oc Sæmundar í Ási í Holltum, oc setti hann Officialem yfir Vestfiördu.

## XVII. Cap. Frá imsu.

Agnes ábbadys á Reinistad, er þar hafdi rádid fyrir um XL vetr, hafdi þá andast fyrir einu ári. Enn á nyársdag hafdi þángad vígd verid systir Sólveig Rafnsdóttir lögmanns. Þá kom Háfey undir Helgafell. Jón Arason hafdi tekid allar klerkavígslur úngr sem tídt var, enn vígdist nú til prests at Helgastödum, oc tók sèr

til lags Helgu Sigurdardóttir Barna-Sveinbjarnarsonar prests frá Múla, oc hèldt sídann alla stund sem eginkonu sína. Þá hafdi syslu í Borgarfyrdi sunnan Hvítá, eda milli Hvítár oc Botnsár, Hákon á Fitjum Biörgólfsson Þorkèllssonar vellings, þá syslu höfdu þeir fedgar haft fyrir hann, lèt hann þá dóm gánga um afrètt í Skorradal. Þá er í giörníngum gètid Sturlu Magnússonar, oc þess er húsfrú Christín Sumarlidadóttir oc Biörn Gudnason lögdu fè Jóns Dana Biarnarsonar til helmínga med sèr. Einnin um afgreidíngu Biarnar Þorleifssonar á peníngum til Hannesar Kruko, í hönd Pètri presti Pálssyni, oc svo vitnisburdi um útgiöld Biarnar til Gudna Jónssonar, fyrir þat er hann var í átför vid Pál Jónsson med Eyríki Halldórssyni. Fastnadi Biörn þá Ingibiörgu Pálsdóttr á nyan leik, at forlagi oc med rád Stephána biskups. Magnús Hallsson qvittadi Bessa Þorláksson um vígsbætr eptir Hall són sínn, oc handabandadi þat Sæmundi Símonarsyni, er enn mun verda gètit vid. Stephán biskup hafdi visíterad um sumarid, oc komit á Eyri í Arnarfiörd ádr Jón Danr andadist, hann bió þar, oc Christín kona hans Sumarlidadóttir Loptssonar, þau áttu eigi börn. Hèt Jón at gèfa Rafnseyri fyri Beneficium af umtölum biskups, enn Christín hèt því er Jón var daudr oc laungu sídar, oc giördi þat, gaf hana Gudi, júngfrú Maríu oc St. Pètri æfinlega, oc þarmed XX málnytu kúgildi, VI hesta, tvö skip alfær med rá oc reida. Svo er sagt þar sem þetta er upptalid, at Jón hafi lifad sex vetr eptir giöfina, enn Christín IX oc er þá annadhvert villt andláts ár Jóns, edr ártal giafarinnar. Ögmundr prestr Pálsson hafdi opt verit í förum oc farid med skip Stephāns biskups; hann hèldt þá Breidabólstad í Fliótshlíd, oc keypti Ey í Breidabólstadar sókn sunnudaginn fyrir Olafsmessu fyrri, í Einarshöfn á Eyrarbacka fyrir XXI hundrad í þarflegum aurum, af Magnusi Magnússyni, skyldi Magnús hafa skip friálst med Ögmundi presti til Noregs oc aptr til Islands, oc mat oc dryck til oc frá, oc svo medann hann væri í Noregi, ef þeir hefdi herbergi hver svo nærr ödrum. Vor þetta hid aflidna var hardt til matfánga med almenníngi, enn fuglanet var uppspennt oc stód í stilli á páskum. Enn á páskadag siálfann var Ögmundi presti sagt til at fuglinn væri kominn í látrid. Prestr bannadi ad slá hann, sagdi at þá væri lífgunardagr enn ei dauda. Kyr var yxna í fiósi, hún sleit sig upp, oc hlióp út, híngad oc þángad um

grundirnar, oc snerti med fœtinum net-togid; hliop þá upp netstaunginn, svo netid slóst yfir fuglinn, nær þriú hundrud at tölu; var hann þá tekinn at bodi prests oc borinn inní stofu, oc geimdr framm yfir middegi á mánudaginn, enn sídann sleginn oc skiptr medal fólksins; var þat ordtak eptir Ögmundi presti sídann, at þá skal taka gæs er hún gèfst, qvad hann slíkt vera jardtikn af Gudi at biarga mönnum svo furdanlega. Margásir koma iafnan á vorum í stórhópum, af hafi á land eystra, oc eru þá miög spakar nockra daga, sem þreyttar sèu af laungu flugi, oc þá vorkuldar eru oc gnædíngar, knappast þær miög þètt vid vötn eda vermsli, oc er þá audveldast at spretta yfir þær neti, ef lagt væri til stillis. Ögmundr hafdi þá prestr verid IX vetr, hann var vel til aldrs kominn, mikilmenni oc stórlyndr. Þórólfr Ögmundarson, módrbródir hans, sættist þad sumar vid Stephán biskup, sem fyrr segir.

## XVIII Cap. Yfirgángr Erlendssona.

Nú átti Grímr Pálsson á Mödruvöllum miög vid ramman reip at draga, er óvildarmenn hans þeir Erlendssynir voru svo mikils rádandi; Þorvardr lögmadr, enn Vigfús hyrdstióri yfir land allt. Þorvardr hafdi útnefnt hèradsdóm at Vatnsleysu í Biskupstúngum fyrri um verid, oc aptr á alþíngi um sumarid tylftardóm; var Grímr Pálsson þar eptir rèttarbót Hákonar konúngs dæmdr skyldugr, undir óbótamál, at afhenda þeim brædrum Erlendssonum, oc systr þeirra Hólmfrídi, allar þær jardir er hann hefdi at ólögum at sèr tekid vegna sona sinna í eptir Ingibiörgu Þorvardsdóttir, þá þegar innan XIV nátta at heyrdum dóminum oc konúngsbrèfinu; var Einar Ejólfsson í Dal fyri hönd Hólmfrídar konu sinnar. Enn med því at Grímr hafdi fyrir sèr ádrgreinda hyrdstióra oc lögmannsdóma, oc úrskurdi, vildi hann ei í fyrstu sleppa fènu; ridu þeir brædr um sumarid nordr til Hóla, oc vingudust vid Gottskálk biskup, þadan ridu þeir í Eyafiörd, oc var mikil málasókn med Grími oc þeim um haustid, med kröfum, dómum oc fiár adtektum; lá vid heimreidum, oc annari stórrædi tilkekiu, því Grímr vard eigi liehlaupa; lysti þá hyrdstiórinn Vig-

fús Grím oc hans fylgiara fallna í óbótamál oc konúngsbrèfa brot, enn Þorvardr efldi sig at mægdum vid Gottskálk biskup, oc fèck Christínar dóttr hans, var þeirra brúdkaup haldid med mikilli rausn at Hólum, sunnudaginn eptir Ægidíus messu, oc voru CCC bodsmenn, taldi Þorvardr sèr X hundrud hundrada, hálft í jördum, enn hálft í lausafè, kúgildum, silfri oc ófrídum peníngum, enn henni voru talinn V hundrud hundrada, þriü ì jördum, enn tvö í lausafè. gaf Þorvardr í tilgiöf LX. hundrud, oc var tilnefndr Innrihólmr á Akranesi eda Saurbær á Kialarnesi, hvert er hún vildi heldr; í beckjargiöf gaf Þorvardr diásn gyllt af silfri er vog fiórar merkr; kiöri biskup dóttr sína helmíngakonu í gard Þorvards lögmanns, var á þeirra brúdkaupsdegi vígdr Helgi Sigurdarson til ábóta at Þíngeyrum. Þau voru systkin Christínar, börn Gottskálks biskups, Oddr hinn spaki oc Gudrún, enn Valgèrdr hèt módir þeirra, medhiálp Gottskálks biskups, dóttir Jóns á Mannskadahóli, kom nú svo um sídir med fylgi Gottskálks biskups, er Þorvardr vildi ei annad heira, enn ad öll jardarskipti þeirra Gríms hin fyrri væri ógyld, oc at hann hefdi lög ad mæla, enn Vigfús hafdi lyst stórmælum, oc biskup veitti þeim brædrum, at Grímr hlaut undan at láta, oc gánga at þeim sáttum er biskup bár á milli þeirra, at Miklagardi í Eyafyrdi föstudaginn fyrstann í vetri; skyldi Grímr oc hans landsetar med frelsi nióta ábúdar oc forverks sins til nærstu fardaga, oc gialda Erlendssonum fullar landskuldir, oc tregdulaust gánga af öllum þessum eignum, enn hyrdstiórinn gaf upp óbótamálinn oc konúngsbrèfabrotid, skyldi allr hugmódr nidrfalla á bádar sídr, oc urdu þau málalok at sinni. Þann tíma lèt Gottskálk biskup gánga dóm at Eyrarlandi um lambarekstr á Bleiksmyrardal; enn Einar Oddsson syslumadr í Húnavatns þíngi at Svínavatni um dómrof.

## XIX Cap. Frá Jóni Sigmundarsyni, oc dómi Jóns Arasonar.

Jafnframt þessu var Jón Sigmundarson utan, oc í Noregi, oc kærdi fyrir Christíanni konúngssyni, er þá var þar af hendi Hans konúngs födr síns, oc fyri Gauta erkibiskupi í Nidarósi, þat at Gottskálk biskup hefdi kúgad af sèr med ófríki oc ofbeldi mikid

sô, bannsúngid sig, oc skilid vid eginkonu sína, feck hann þar uppá brèf erkibiskups; umbaud hann þarí Stephâni Jónssyni í Skálhollti, Halldóri ábóta at Helgafèlli, oc Narfa ábóta er vard adstod- 1509
armadr hans, at þeir tæki med sèr ábóta, kyrkjunnar prælàta, oc hina vitrustu menn, stefni fyrir þá Gottskálki biskupi oc Jóni Sigmundarsyni, oc skilji þá at med dómi, enn láti Jón fá aptr konu sína ef þat reinist at þau hafi verid ránglega skilinn. Þarmed er þat rádandi, at Jón hafi í þær mundir fèngid lögmannsdæmi undann Finnboga, því hann var miög affluttr ádr vid konúngsson af Eyríki presti Sumarlidasyni; enn litlu rèdi Jón sem ádr í lögsögninni, fyrir sakir bannfæríngar Gottskálks biskups, oc lèt Finnbogi dóma gánga sem fyrri; enn í málum Jóns dæmdi Stephán biskup oc dómsmenn hans alla dóma Gottskálks biskups ónyndúga oc stadfesta, svo Jón feck ecki vidrèttíngu, oc þó hyggia vitrir menn at þeir hafi dæmt eptir gögnum þeim er þá komu fyrir; fór Jón vid þat utann aptr. Um þær mundir fór oc Þorvardr lögmadr Erlendsson utann, hann átti gard í Noregi. Þá kom Stórahraun oc Fáskrúdarbacki undir Helgafells klaustr, oc Halldór ábóti Ormsson lèt af ábótadæmi í þann tíma, var hann gamall miög. Katrín, hèt dóttir hans, systir Eyríks á Alptanesi, hún var vel at sèr, oc er frá henni ætt kominn allmikil. Þat sumar fór Jón prestr Arason til Hrafnagils í Eyafyrdi, oc var hann þá hálf-þrítugr; þar var hann prestr nockra hríd, hafdi þriár kyrkiur, oc var prófastr í Vadlaþíngi, oc dómandi milli Vargár oc Glerár; hann lèt dóm gánga at Hrafnagili, föstudaginn nærstann eptir kyndilmessu; oc ef sú árstala dómsins er rèttari, hefir hann komid þar vetri yngri enn segir; var hann siálfr stefnandi, sækjandi oc dómandi í móti Thómasi Hiálmssyni, oc gaf honum þad at sök: fyrst at hann hefdi ecki giört lagabrúdkaup til Helgu Þorvardsdóttr, enn haldid hana sem löglega eginkonu sína í XX ár eda lengr; dæmdi hann því Thómas skyldugann at gialda XII aura fyrir hvert ár sídann hann giördi þat hiónaband, nema hann leiddi til tvö lögleg vitni innan XIV nátta, at hann hafi sitt brúdkaup löglega giört, edr synji med siettar eydi at hann hafi þarum ámynntr verid af kyrkjunnar valdsmanni; í annan máta hafi Thómas ecki rètt goldid biskups tyund sína um III ár, oc fyri því dæmist hann sekr eptir Christin-rètti; hid

þridja at hann hafi ei viljad lesa christileg frædi sín fyri Jóni presti, þá hann þess beiddi oc krafdi, fyrir þad skyldi hann gialda VI aura fyrir sig, oc VI aura fyrir sérhvern hinna, oc skyldugr at lesa frædinn innan siö nátta fyrir Jóni presti, oc taka lausn oc skript fyrir sérhveria þessa sök; enn fyrir kyrkiugaungr oc þiónustutekjur er Thómas hefir haft í slíkum lögbrotum, dæmdi hann undir biskups úrskurd; er nú eigi gètid Jóns prests Arasonar lánga hríd hèr eptir, enn börn tóku þau Helga at gèta sín á milli; voru þessi er fulltída urdu: Ari, Magnús, Biörn, Sigurdr, Helga, Þorunn, oc verdr þeirra allra nockud vidgètid sídar.

## XX Cap. Hark á Breidabólstad.

Þetta sumar er nú var gètid, reid umbodsmadr eda forrádamadr frá Bessastödum um austr sveitir, vid siöunda mann; fundu þeir fylgiarar hans húskarla Ögmundar prests nálægt Breidabólstad, á hálsi þeim er þar er; bar þeim til vid þá svo þeir slóu þá oc hröktu heim at bænum, oc innad kirldyrum á stadnum; þar dyrfdust heimamenn oc tóku til varnar, oc ráku hina, enn einn eda tveir fèllu; sá hèt Jón Bagge norskr madr, er særdr var undir herdarbladid til ólífis. Ecki baud Ögmundr prestr slíkt, enn þó galdt hann þess sídar, enn Vigfús Erlendsson á Hlídarenda græddi hinn sára mann.

## XXI Cap. Frá ímsu.

1510 Nú leid svo af hinn nærsti vetr, enn tveim nóttum fyrir krossmessu um vorid, lèt Stephán biskup XII presta dóm gánga um heytolla, sem standa skyldi manna á milli, um aldr oc æfi; at hver sá madr er hefdi bú oc grasnyt skyldi gialda þíngatoll, sem er lamb at fódra, edr adra fèmuni þí sem í fullum aurum stædi, þeim sem taka ætti edr hans umbodsmanni, enn þeir sem ei vildi gialda, oc hèldu í þriótsku, skyldu tvígialda, oc sekir þrem aurum. Þar undir voru fyrstir ritadir Ögmundr prestr Pálsson, oc Halldór Tyrfingsson, oc en fleiri, oc svo nockrir lögrèttumenn, var Runólfr Höskuldsson einn þeirra; hefir hann þá verid úr umdæmi Gottskálks biskups, ef sá er hinn sami oc fyrr er gètid,

Þau missiri galdt Jón Jónsson Gottskálki biskupi Vindheima oc As í Bægisár sókn, oc Hóla í Yxnadal, fyrir brot med Rögnu Finnbogadóttr. Framfór á alþíngi vitnisburdr VI manna at forlagi Biarnar Gudnasonar, um skilríki hans fyrir arfi eptir Gudna oc Jón Dan; enn Finnbogi lögmadr var ei þar, þá er sá vitnisburdr fór fram; baud því Biörn málid undir nefnd Vigfúsar hyrdstjóra, enn hann neitadi. Jón Sigmundarson var þá lögmadr, reid vestur, oc nefndi tólf menn í dóm, oc dæmdu þeir bréf Biarnar gyld. Jón lèt oc tolf manna dóm gánga á alþíngi, um helmíngafèlag Sveins Sumarlidasonar oc Gudrídar Finnbogadóttr. Þá er þó talid í árbókum at Finnbogi lögmadr oc Þorvardr lögmadr Erlendsson edr hans umbodsmadr hafi látid dóm gánga á alþíngi um knífaskurd þann er margir menn höfdu þá um tíma med skèmdir verid, at þeir sem slíkt giördi væri sekir sem sá er legdi med knífi. Einar ábóti at Þverá, oc Jón ábóti at Þíngeyrum, oc fleiri klerkar, dæmdu á presta stefnu at Vídivöllum giöf Gottskálks biskups lögmæta til Christínar dóttr sinnar. Þá var eldgángr mikill í Heklu fialli, oc bar þá svo til at í Mörk á Landi var þá Eysteinn Brandsson hinn sterki, oc átti konu oc barn, oc vard at flía þadann, oc annar madr med hönum; þeir lömdust af eldi oc grióti, oc dó fylgdarmadr Eysteins, enn hann kom konunni undir melbacka, oc breiddi á hana föt oc þófa, svo hún hèldt lífi, oc fór siálfr med barnid; komst hann til bæa miög lerkadr oc barinn, enn vard þó heill, oc er þad allfrægt ordid. Jóhannes Krabbe giördist í þann tíma erkibiskup í Nidarósi. Enn eldgángr sá er þá var, er sagt hafi svo mikill ordid, at þá hann kom upp ætludu menn hús oc bæir mundu hrynja vid dynk þann er vard, oc var lopt allt sem glóandi at siá af eldflugum oc steinum brennandi, er margir komu fiærri nidr. Þará eptir giördi bólusótt 1511
mikla, svo at fiöldi manna dó, fertugir oc yngri; er sagt at fyrir nordann dæi fiögr hundrud, oc fengist ei konr til at miallta penníng, svo h nn geck baulandi, enn saudir hlupu til fialla: hefir þat svo miög valdid, at slíku sá svo mikinn stad, at mannfátt hefir verid ádr sídann pláguna þá fyrir XVI árum einum.

## XXII Cap. Frá Jóni, Byrni oc ödru.

Jón Sigmundarson hèlldz lítt vid í nordrlandi fyrir ríki Gottskálks

biskups, þótt hann hefdi lögsögn fengid, hann var oc í óþocka vid Stephán biskup, oc jafnvel banni, fór hann því á Vestfiördu til Biarnar Gudnasonar frænda síns, oc hèlldt sig þar í skióli hans; kærdi Biörn Þorleifsson til hans, at hann hefdi bædi verid med Byrni Gudnasyni oc Jóni Dan Biarnarsyni, í heimreidum sumum á garda sína, oc fiár upptektum, ádr, oc svo dæmt marga dóma á móti sèr í þeim málum, oc í vil vid Biörn Gudnason, oc hafi þeir þannig styrkt hver annan, Jón Biörn med dómum sínum oc úrskurdum, enn Biörn hann aptr med ríki sínu oc hlífdarskióli; hèlldu þeir þannin samann um stund; enn þó Gottskálk biskup bodadi Jón opt á sinn fund, eda stefndi hönum nordr til Hóla, at taka lausn oc skriptir, hellst á öskudag eda skýrdag, því hann hèldt hann vera í hinu hærsta páfabanni, þá lèt Jón sem hann vildi koma oc sættast, enn kom þó ecki, því hönum var alkunnugt hversu at Olafr biskup fór vid Hvassafells Biarna, oc adra menn er hann hafdi fyri sökum, oc vænti sèr hins sama af Gottskálki biskupi. Þá er vidgètit giörnínga Einars Þorólfssonar á Hofstödum, hann hafdi haft hyrdstióra umbod at því er menn hyggia, nærst eptir Didrik Piníng oc Þorleif Biarnarson, oc í því skyni qvittadi hann nú Biörn Þorleifsson fyrir skreidargiald nockut af födr hans til Didriks Pinings; enn svo er at heira sem Hans Rantzow hafi verid hyrdstióri hin nærstu misseri ádr hèr var komid. Þá útnefndi Grímr bóndi Pálsson um vórid, mánadaginn eptir Hallvardsmessu, VI manna dóm ad Helgastödum í Reykjadal, um ákæru Pèturs Thómassonar til Kolbeins Halldórssonar, á XII fullrèttisordum, oc sex hálfrèttis, oc um grip Pèturs á hesti fyrir Kolbeini. Var Magnús Þorkèlsson í Skridu fyrstr í dóminum, oc þá Jón Þorsteinsson; er at sií sem Grímr hafi þá syslu haft í Þíngeyra þíngi, oc hana hafdi hann sídann. Þá seldi Olafr Philippusson med samþykki Einarssonar síns Gottskálki biskupi Audkúlu í Svínadal, er var af eignum Einars Biarnarsonar. Þridiudaginn eptir Marteinsmessu, dæmdi Stephán biskup med þremr prestum oc þremr leikmönnum, at allir landsetar stadarins sem rói edr róa láti til siáfar, skyldu, ef á þá væri skilid undir heimatöku á iördum þeirra, fyrri róa á stadarins skipum enn annara manna, í öllum þeim verstödum sem þeir fengi ecki af tión eda skada. Sá þad ei giördi skyldi gialda stadnum fulla skipleigu, sem á því skipi félli er hönum

var tilsegt á at róa, oc þarad auki fullrètti Skálholts kyrkiu. Enn á hinum seinni tídum fengu landsetar ad gialda fyrir mannslán þetta XX álnir; eda róa siálfir. Litlu sídar var þat er Stephán biskup kom Þurs-stödum í Borgarhrepp, sem nú eru kalladir Þiótstadir, undir Borgar-kyrkju, XII hundrudum, oc var brèf um þat giört í Skálholti um vorid. 1512

## XXIII Cap. Illvyrki Enskra.

Þat sumar kom út Sveinn Þorleifsson med hyrdstiórn; voru þá Enskir menn í landi hèr, oc giördu mönnum skada sydra, oc rændu bædi nautum oc saudum, oc bygdu sèr kastala; var mælt at þeir mundu vilia koma undir sig landinu, oc var því vidbarid at bændr hefdi fyrir þá sök skorast undann skattgialdi vid Danakonúug oc ödrum tollum. Þessir eru nefndir til af hinum ensku mönnum; Jón Beer, Rikardr Thómasson af Lundunum, Thómas af Nordvík, meistari Chasius, Jörgen King, oc nockrir menn med þeim, oc veittu adgaungu Sveini hyrdstióra Þorleifssyni, oc drápu hann, oc XII menn adra. Þeir toku oc eitt kaupmannsskip úr höfnum, med allri áhöfn. Á þeim missirum er gètid Nícolásar priórs med Einari ábóta at Þverá, oc Jóni á Þingeyrum, í dómi at Vídivöllum, um tylftareyd Olafs Philippusonar, er hann hafdi svarit fyrir kyrkiugards saurgun í Vídidalstúngu, þá Asgrímr var veginn, oc var hann dæmdur gyldr, einnin í ödrum dómi, oc vid jardarskipti Gottskálks biskups. Keypti þá biskup enn jardir af Olafi Philippussyni, margar samann; þar er vidgètid Pèturs prests Pálssonar. Jón Sigmundarsson dæmdi XXII manna dóm vestra, at Mardarnúpi í Vatnsdal, um ákærur til Jóns Jónssonar, er Biörn Gudnason stefndi; Fyrst um þat hann tók Jón Þórdarson á frammfæri, enn módirinn misfórst; annad at hann hefdi eigi skatt goldid um IX ár, er Biörn hafdi syslu haft. Þridja um heimreid med flock manna til Eyrar í Seidisfyrdi um vorid, rán oc yfingar; fiórda at hann hefdi sendt þángad oc látid reka peninga Biarnar á fiall upp; hann var dæmdr rètttækr oc útlægr, oc hálft fè hans undir konúng; er at siá sem hann hafi verit af ætt Biarnar hins ríka. Olafr Didriksson er nefndr hyrdstióri, oc at hann hafi úrskurdad dóma Biarnar Gudnasonar gylda, oc fridhelgad hann, bannad oc at eiga kaup vid enska. Vitnisburdir fóru

framm um fiársóknir Biarnar Þorleifssonar oc míga hans, oc annara manna vestra. Var þá miöc deilusamt í landi. Grímr Pálsson lèt XII manna dóm gánga at Helgastödum í Reykjadal, um arfadeilu Þorleifs Þorleifssonar oc Asmundar Stúrlusonar, er eg hefi sèd talinn son Sturlu Þordarsonar at Stadafelli, oc fadir var Odds födr Hrafns í Skördum, skyldi Asmundr útsvara fènu med XII álna ávexti af geldfiár hundradi hverju. Benedict son Gríms, oc Sæmundr Símunarson voru stundum umbodsmenn hans.

## XXIV Cap. Börn Finnboga lögmanns.

Þat ár, oc sídann er Jón Sigmundarson kom út í seinna sinni med lögsögn, af konúngs hendi edr hans bodi, er þá hafdi eigi heyrst ádr, lèt Finnbogi af henni, enda var hann þá gamall miög, enn þótti sæ hinn mesti háttar madr. Hann hafdi átta Málmfrídi dóttr Torfa riddara Arasonar, sem fyrri segir, oc er þadann ættbríngr mikill. Þorsteinn Finnbogason hafdi Þíngeyar syslu, oc bió at Reykjahlíd, oc í Hafrafellstúngu, hann var fadir Nicolásar födr Einars í Hafrafellstúngu, oc Vigfúsar í Asi er syslu hafdi eptir födr sinn, födr Jóns at Galltalæk. Sigurdr Finnbogason átti Margrètu dóttr Þorvardar Biárnarsonar frá Kètilstödum Marteinssonar, systr Erlendar á Kètilstödum, því þeir taka villt til sem segia hana dóttr Þorvardar lögmanns Erlendssonar oc Kristínar Gottskálksdóttr biskups, var Sigurdr eldri enn at svo mætti vera; hans son var Ísleifr á Grund, enn dóttir Helga er átti Þorberg Bessason. Hafdi Sigurdr Hegraness syslu; Jón prestr son Finnboga lögmanns hafdi haldid Grenjadarstad í XVIII ár er hèr var komit, oc þótti einhver hinn merkilegasti klerkr. Annar Jón er oc talinn prestr, veit eg ei ljóslega hver þeirra var priór eda Officialis seinna. Gudrídr Finnbogadóttir hafdi átt Sveinn Sumarlidason, er andadr var fyrir laungu. Christín átti Sigurd Þorleifsson. Gudlaug átti Sturlu Þórdarson at Stadarfelli, enn ádr fyrri er sagt hún ætti Odd lögmann Asmundarson. Torfi var enn Finnbogason, oc hygg eg sie sá sem utann hafdi farid í vígsmálinu. Þeir brædr Þorsteinn oc Jón prestr lifdu miög lengi eptir þessar stundir. Þá var dáinn Halldór ábóti Ormsson at Helgafelli, enn Narfi vígdr.

## XXV Cap. Höfdíngia skipti.

A hinum nærstu missirum urdu mörg tídindi þau er frásögnum gegndu. Þá andadist konúngr, oc tók ríki Christián sonr hans þrítugr at aldri. Fridrekr hèt bródir Hans konúngs, oc var sá þeirra miklu yngri, hann hafdi hertogadóm á Holsetulandi. Eyríkr Valkendorf giördist þá erkibiskup í Nidarósi, enn Hans Rantzow hyrdstióri á Íslandi, frá hönum er Rantzows ætt kominn. Þá dó Þorvardr lögmadr Erlendsson á gardi sínum í Noregi, var hann mikill höfdíngi medann hann var uppi, oc var hans son. Erlendr á Strönd í Se vogi. Vígfús giördist lögmadr eptir Þorvard bródr sinn, oc bió at Hlídarenda, geck hann dóma um land allt, því at Jón Sigmundarson kom sèr óvída framm fyrir útistödum sínum; svo sega menn at Vígfús oc Hólmfrídr systir hanns í Dal hafi átt skærur saman, enn eigi veit ec sann á því, oc þad er sagt er hún hafi handhöggvid Hall, þá giördi þat Vígfús, enn þat er talid at bardagi hafi ordit med mönnum þeirra þar nidr á veitunnum. Hólmfrídr átti Einar Eiólfsson, oc med því hann giördist vanheill, er mælt hún hafi haldit vid Jón Hallsson svein þeirra, oc fengit af ámæli, unnit sídann eyd fyrir Stepháni biskupi, á líkann hátt sem sagt er um Spes í Grettis sögu; Jón giört sig at förukarli. Erlendr hèt son þeirra Jóns, er sagt Jón hafi eittsinn lostid hann er hann var adkomandi í Skálholti, enn Hólmfrídr var þar fyrir, oc Erlendr med henni, oc kallad hann hórkonu son, enn sveinnin kært þau ord fyrir módr sinni, hún tekid engu fiærri, oc iátad sig sídann fyrir biskupi, enn menn ætla þat væri giört til at koma upp hinu sanna, oc þau hafi sídan leitat lausnar oc fengit, sem kyrkjulög stódu til; enn vitnislaus er frásögn þessi at kalla. Grímr Pálsson tók at sèr Mödru valla eignir er Þorvardr var látinn, oc sinnti ecki rèttarbót þeirra frænda er Mödru valla rèttarbót var kölluð; var hann þá madr stóraudugr oc var fè hans reiknad XXI hundrud hundrada í jördum, enn V hundrud hundrada í lausafè. Hann tók arf eptir Benedict son sinn. Þá er gètit Olafs Gudmundarsonar er syslumadr hafi verit í Dölum, veit ec ecki giörla hvert verit hefir Olafr prófastr Gudmundarson er Hiardarhollt hèllt, oc sídann syslu á Ströndum, son Gudmundar Andrèssonar undir Felli, þó eg ætli þat sídr, eda Olafr son Gudmundar Þórd-

arsonar í Skötufyrdi, er sídar hafdi sysla í Isafyrdi oc bió í Þernuvík. Þá fèck Þorvardr priór at Skridu Brecku í Fliótsdal undir klaustrid af Einari Hallsteinssyni. Oc Vigfús lögmadr Erlends-son lèt gánga XII manna dóm um kapla vyrdíngu, at Lambey.

## XXVI Cap, Málasóknir,

Þridjudaginn fyrri Hallvardsmessu [um] vorid, á Þriggia hreppa þíngi, nefndi Jón lögmadr Sigmundarson XII menn í dóm, at Leidarhólmi í Breidafiardardölum, um ákæru Biarnar Gudnasonar til Audkúlu, oc allra penínga í Húnavatns þíngi er þar med fylgdu, sem Biörn hafdi fengit Jóni lögmanni til umbods, oc Byrni hafdi dæmt verid vegna Olafs Philippússonar., enn Olafr afgreiddi Jóni, hvert umbod þá vàr úti at nærstum fardögum; hafdi Olafr rænt oc gripid Kúlu oc þau önnr fè undann valdi Jóns oc sellt ödrum. Dæmdu þeir Byrni fèn, oc giörnínga Olafs ónita um þau, oc hann aldrei mátt giptast ad lögum, því Olafr, oc þeir brædr hans Gísli oc Hermann, hefdi eigi leidt lögleg vitni fyrir Olafi biskupi um kyrkiugards saurgun í Vídidalstúngu, eptir XII manna dómi at Seilu í Skagafyrdi. Dæmdu þeir Jón einnin þá Olaf útlaga til konúngsnádar, því at Asgrímr hafdi ákært, son Asgríms er veginn var en bródirson Jóns; hverfdist þá svo á sem allir giörníngar oc jardakaup Olafs vid Gottskálk biskup mundu ónytast, oc Einar son Olafs missa alls arfsins, er fadir hans var útlægr. Enn til þess at kaup á Audkúlu gengi ei aptr, biargadi Gottskálk biskup máli Olafs, oc feck af Jóni Einarssyni, er þá hafdi tekid vid Hunavatns syslu, syni Einars Oddsonar, at dæma Olafi siettareyd, at Bólstadahlíd, fostudaginn nærstann eptir tveggia postulamessu; sór þá Olafr at hann hefdi ei í þat sinn ridid med þeim huga til Vídidalstúngu, at Asgrímr Sigmundarson væri þar lífi sinu at fyrr, eda nockurri skömm at nær, oc ei rèdi hann hönum bana-rád; vid þat friadist Olafr. Enn Gottskálk biskup giördi þat aptr til óþocka vid Jón, at hann stefndi hönum fyrir stíng oc áverka á kyrkjuhurd oc þili at Vídidalstúngu, er Jón oc hans fylgdarmenn hefdi giört í þad sinn, í því hann sókti eptir Smid Jónssyni banamanni Asgríms bródur síns, þá hann hliöp í kyrkju, þá fyrir XXX vetrum, oc dæmdi Jón sekann fyrir þá kyrkjusaurgun; hann dæmdi oc Einar son Jóns vid hans

fyrri konu, er þá var frumvaxta, í hann fyrir þat at hann gaf födr sínum bannfærdum manni umbod sitt, er hönum bar sialfum at hafa, oc felldi hann í stórar sektir, enn Einar dró þá naudsyn til, því hann var eigi med fullri skynsemi. Þeir fedgar Einar Oddsson, oc Jón Einarson á Skardi sonr hans, voru oc iafnann hinir mestu óvinir Jóns Sigmundarsonar, enn fylgdu Gottskálki biskupi. Þá lèt Gottskálk biskup dóm gánga at Vídivöllum, á Bótólfsmessu; at allir skyldudust til at ala lamb frá Reinistadar klaustri, frá Hofi í Dölum, oc til Hrauns á Skaga, oc um allt Hegranes, var í þeim dómi Einar ábóti at Þverá, Nicolás priór oc tyu prestar. Enn þad er at segia frá Byrni Gudnasyni í annann stad, at hann tók at giöra heimreidir oc fiár adtektir á jördum Biarnar Þorleifssonar, bædi Reykhólum eign hans, er fadir hans hafdi gèfid hönum án arfs, oc ödrum, einnin á Vatnsfiörd oc hans eignarjardir, oc tók þar fè oc penínga, er bædi átti kyrkiann oc Jón prestr Eyriksson; þrútnadi þá meir oc meir óvild millum hans oc Stepháns biskups, enda sparadi Jón Sigmundarson ecki af at giöra biskupi til mótþægiu þat er hann mátti, oc í fylgi vid Biörn. Fór Biörn þat sumar utann, oc á fund Christiáns konúngs annars, oc feck af hönum, eptir þeirri undirvísan er hann gaf, þriú brèf, er hann hafdi út híngad sidar. Hljódadi eitt uppá at konúngr skipadi hönum góds hans, garda oc arf, eptir foreldri sitt, er hönum hefdi ránglega verit frá tekid oc var þar Vatnsfiördr med.

## XXVII Cap. Mál oc stórrædi Biarnar Gudnasonar.

Þá er Biörn Gudnason kom út med brèf sín, lèt hann upplesa 1514
þau í Vatnsfyrdi mánadaginn fyrir Olafsmessu seinni; lèt þá Jón lögmadr Sigmundarson XII manna dóm gánga þar; þá beiddist hann oc krafdist af dómsmönnum med laungum formála oc frekum atridis ordum, at þeir legdi ályktardóm á þat, hve miklu þeir menn skyldu sekir vera, sem med óhlídni oc illgyrni dyrfdist at rángsnúa, med styrk, rádum, adförum edr ofbeldis samheldi, þeim konúngsins nádarbrèfum er hliddu uppá eignir oc jardir þær sem Biörn Gudnason hefdi erft eptir foreldra sína, módrbródr sinn Jón Biarnarson Dan, oc sídann Vatnsfiörd er verit hafi eign

Solveigar Biarnardóttr; oc önnr fleiri fè er gódra manna dómar sína, oc konúngr hefir stadfest med brèfi sínu, oc Biörn Gudnason fèngit uppá verndarbrèf hans. Og ef konúnginum oc krúnunni verdr mestr skadi, ef ódöl oc jardir gánga undann leikmönnum, undir kyrkju oc klèrkavald med raungum fiárafla. Urskurdudu þá þessir dóms menn, at hver sem kunnr verdr oc sannr at slíkum verkum, med styrk, samheldi oc rádagiördum; skuli sekr vid konúng XIII mörkum, oc VIII ortugum; oc útlægr til Neregs undir konúngs nád um landsvist; einnin þeir sem verji þessar eignir á móti konúngsbrèfi, skuli rètt fángadir, hvar sem þeir verda gripnir, oc hús þeirra rètt brotinn, fyrir utann vígda stadi, oc fridlausir þeir þá verja; enn þeir sem eta oc drecka med þeim, hysa þá oc heimila, sèu sekir mörk fyri fyrstu nótt, tveim mörkum, fyrir adra, oc þremr fyri þá þridju, nema þeim sè óvísavargr sem hysir. Þeir sem vísvitandi kaupa af þessum mönnum þau góds, oc breyta svo verndarbrèfum konúngs er þar voru uppiesinn, edr þeir sem leigia af þeim skip oc jardir, oc adra þiónustu giöra, sèu sekir sem þeir er kaupa, vísvitandi vid útlæga menn; oc at fè þat sækist med adfara þíngi enn ei med fimtar stefnum framar enn hver vill. Atti at hræda med dómi þessum Stephán biskup til at kalla ei framar eptir Vatnsfyrdi, oc Biörn Þorleifsson frá ákæru fiárins, oc alla adra nockud af þeim at kaupa edr til leigu taka enn Biörn Þorleifsson kalladi þessar eignir rèttilega sèr tilfallnar eptir foreldri sitt, enn ei Byrni Gudnasyni, því hverki Gudni nè Þóra foreldrar hans átti þær nockurntíma. Þá var annad brèf Biarnar Gudnasonar til Stephàns biskups, oc Vígfúsar lögmanns Erlendssonar, at þeir skyldu ransaka um stad í Adalvík, oc adrar fleiri af þeim iördum, med hverri heimild Biörn Þorleifsson hefdi þær seldar. Utnefndi þá Stephán biskup oc Vígfús lögmadr XII presta oc XII lögrèttumenn í dóm at Skálhollti, oc stefndu þeim bádum Byrni Gudnasyni oc Byrni Þorleifssyni fyrir sig; hafdi Biörn Þorleifsson í utanferdum sínum selt jardirnar í Noregi, Hannesi Kroko oc Sunnivu frú hans fyrir gull, silfr, oc adra penínga, sem fyrr er gètid. Vard sá dómr þeirra sameginlegr, at jardir þær hefdi verid eign oc egindómr Biarnar Þorleifssonar, oc hann haft lagaheimild at selja. Hid þridja brèf var til Jóns lögmanns Sigmundarsonar, at han skyldi dæma lög oc rètt í milli Biarnar Gudnasonar oc Biarnar Þorleifssonar, fyrir því stefndi Jón

lögmadr þeim bádum nöfnum fyrr sig oc sinn dóm, at Hvammi í Hvamms sveit; kom ecki Biörn Þorleifsson, því hann kalladi Jón lögmann mótpart sinn, oc í sökum vid sig, oc óvildarmann, fyrir heimreidir oc fiárupptektir, oc þarmed í sökum vid biskupa báda. Þá dæmdi Jón lögmadr, at allt þat fè er átt höfdu þau systkin Þorleifr oa Einar oc Solveig, væri oc skyldi vera æfinlig eign Biarnar Gudnasonar oc hans samerfíngia med hördum atqvædum til hinna er því fè hèldu eda keypt höfdu, líkt sem í Vatnsfiardardómi er fyrri var greindr, oc fór utann med þann dóm sídar, til at fá stadfestu konúngs á hönum; enn vid slíka giörnínga Jóns upphvattist Biörn Gudnason til meira mótþróa, oc annara stórræda í móti Stepháni biskupi, oc ödrum sínum mótstödumönnum, enn biskup aptr á móti til frekari adgiörda, svo þar kom at hann forbodadi Biörn Gudnason, oc bannfærdi hann, med XII presta dómi; oc nockru sìdar forbodadi hann oc bannfærdi Jón lögmann Sigmundarson. Stephán biskup sendi prest þann til at lesa bannfæríngarbrèf yfir Byrni, er Jörundr hèt, oc var Steinmódarson, enn prestr vard at flía fyrir heitíngum Biarnar oc hans manna inní hálfkyrkjuna á Súdavík; ógnadi þá Biörn hönum dauda med stórum heitíngam, svo hann treystist ei ad haldast vid í kyrkiunni; sidann greip Biörn hann oc hans fylgdarmenn, undir áverka prísund, lèt rífa oc skèra af hönum klædi öll, oc binda sídann, oc tvo menn hída hann, þartil þeir voru yfirkomnir, þá feck Biörn til hinn þridja er Loptr hèt oc var Gudmundarson, oc var sá tveggia maki at afli, oc er hann tók til mælti prestr: lin eru högginn þín lángi Loptr; var hann svo vel vid, at fyrri mundi hann dauda þola enn láta á sèr heira; sá Biörn þá at hann mundi at bana kominn, oc baud Lopti at hætta, lèt leysa prest, leggia hann í sæng oc græda, oc sat yfir hönum siálfr medann hann lá sem hættulegast, oc leysti hann at sídustu vel af hendi.

## XXVIII Cap. Frá ímsu.

Þann tíma feck Stephán biskup Magnúsi Selárdal, syni Eiólfs Mókolls Gislasonar Philippussonar, var hann þá undir hendi Narfa ábóta at Helgafelli, er menn ætla kènsluskóla haldid hafa, oc var þat vetri ádr enn Magnús væri prestvígdr. Þá vard ágrein-

íngr á Vestmannaeyum, med Enskum mönnum oc Islendíngum af Sídu austann, oc því nærst bardagi, fellu XIV hinir Ensku, enn ei var gètid at Sídumenn hafi fallid, nema Jón prestr smiörnefr er Skard hèllt austr í Medallandi, svo segia menn at þá hafi setst út madr nockr á krossgötr austr hiá Kyrkjubæ, er Jón hèt, oc tæki at spá, enn þá spá er eptir hann finnst ritud, ætla margir miklu sídar samsetta, nær hún hverki iafnlángt nidr sem almenníngr segir, oc eigi til svo vída, enn hefst á þeim tilburdum er þá voru framkomnir er hèr var komid, oc skèdu á þeim dögum, oc um annad er hún allt ómerk, nema þat er hún telr þá nockra biskupa í Skálhollti er margir ætla fyrri lífat hafa enn hún er skrásett, oc miög í líkíngu af því sem Sveinn spaki hafdi sagt; er madr. þessi kalladr Jón Kruck af krossgötunum, þvi at þat var þá trúa at fornar útisetr heidínna manna mætti hnegia eptir helgidóma dyrdkun þeirri er þá var, enn þó er ei fullvist hvert han hefir til verid. Gètid er at Hannes Eggertsson hafi þá kon-úngs umbodsmadr verid í Islandi, því hann samþyckti arfadóm Jóns lögmanns Sigmundarson er fyrri er talinn, oc þeir Arnór Finnsson á Ökrum oc Jón Jónsson, konúngs lènsmenn eda syslumenn. Sigurdr son Finnboga lögmanns hafdi þá Hegraness þíng, oc lèt XII manna dóm gánga á leidarþíngi vid Vallalaug, um varníng, skreyd, lausamenn oc hiu, oc stadfestu þeir Píníngs dóm. Þeir dæmdu oc um verd á varníngi, oc sektir þeim er hèldi ecki, þar er, med ödru, XII stikr varníngsklædis fyrri hundrad, X stikr striga XX alnir, lerept meir enn hálfu dyrra, salttunna X aura, griónatunna X aura, nyu fiórdúnga vætt fiska fyrir hálfmörk, kaup á at slá vikuverk XL álnir, eyrir á dagsláttu, enn X álnir ef hún er slegin á dag. Gètid er Landbiartar Bárdarsonar syslumanns fyrri nordan Biargnúp, umbodsmanns Biarnar Gudnasonar, hann dæmdi um almenníng. Enn Jón lögmadr Sigmundarson dæmdi Jóni Murta Einarssyni hálft Nes í Grunnavík. Þorsteinn Finnbogason lèt XII manna dóm gánga at Liósavatni, at Þessi Þorláksson banamadr Halls Magnúsonar væri rádandi fiár síns; þar var fyrstr Audun Sigurdarson Sveinbiarnarsonar, sem kalladr var Laga-Audun. Gètid er einnin giörninga Biarnar Þorleifsonar, oc vitnisburda nockurra. Þá var prestr á Þíngvelli Alexius Pálsson, hann færdi kyrkiuna þadann sem hún var ádr fyrrir vatnaupgàngi, oc þángad sem hún nù er, oc setti í veggina steina þá

er ábóta steinar eru kalladir, þvì hann var ábóti seinna. Enn þótt þat sè mælt hann hafi komid þeim steinum einn þángat, þá er þat hègómi þeirrar aldar, eda hinna seinni manna, at því er synilegt er, nema hann hafdi beitt fyrir yxnum, oc svo enn þótt hann hefdi verid ærid sterkur, sem menn segia verid hafi.

## XXIX Cap. Frá hyrdstiòrum.

Nú leid svo hinn næsti vetr; kærdi þá Christián konúngr til Englakonúngs, Hinriks, hins áttunda med því nafni, at þat sam- 1515 band væri ei haldid er var giört á millum födr hans, oc fleiri Danmarkar konúnga vid Englismenn, ac allar þær óspektir er Enskir menn höfdu giört vid Island, þá þeir drápu Svein Þorleifsson hyrdstióra, oc frömdu annan óverknad, oc at þeir gæfi Islendskum mönnum stundum nockud fyrir sitt, enn stundum alls ecki; vildi konúngr hafa áqvedid giald oc verd fyrir skipid er þeir tóku, oc innin at þeir syndi rök fyrir hvadann þeir væri er undir Island sigldu, oc fari eigi fyrri frá landi enn þeir hafa goldid konúngsins lènsmanni hvad þeim ber, oc fengid þar sannindi fyrir. Var þá sendr út híngad hyrdstióri sá er Söfren Nordbye hèt, oc skyldi hann varda þeim yfirgáng, hann var norrænn at ætt, oc hafdi verid med Hans konúngi fyrrum fyrir skipalidi Dana, oc var hinn mesti stórgarpr oc fullhugi, oc iafnan miög trúr Christiáni konúngi, kalladi hann konúngi til handa XX fiska af hverjum bónda medann hann lifdi oc hefdi ríki, hvert ár, oc nefndu menn þann toll gíngiald. Þat giald hafdi þó Jón Sigmundarson lögmadr bodid Byrni Gudnasyni at heimta um Isafiardar syslu. Söfren Nordbye fell XV vetrum sidar fyrir Flórentz, á Italia-landi, er hann var fyrirlidi med Karli keisara hinum ríka, edr Vta med því nafni. Kom eptir hann til hyrdstiórnar á Islandi þat hid sama ár er hann kom út híngad, Hannes son Eggerts Eggertsonar lögmanns úr Vík austann, þess er Christián konúngr hinn fyrsti gaf edalsmanns-brèfid. Enn af því at Hannes er neindr umbodsmadr konúngs hid fyrra ár, þá er líkast hann hafi hyrdstiórn tekid fyrir Söfren Nordbye, verid hönum undirgefinn medann hann var út hèr, oc tekid sídann aptr vid at fullu því ad alikt var þá al-tídt. Þá stefndi Sólveig abdadys Brandi-

Olafssyni um fiskatoll til Hofs kyrkju á Skagaströnd, dæmdi Jón prestr Arason oc V prestar adrir þar um, oc var hann þá ráðsmadr Hólakyrkiu. Mælt er at þá hafi drukna̓d fimm menn í senn í ósnum hiá Arnarbæli, oc fyrir þá sök lagst af almenníngs vegr sá er þar var ádr.

## XYX Cap. Imsir giörníngar.

Föstudaginn nærsta fyrir Krossmessu um vorit, lagdi Gottskálk biskup, oc Eyríkr ábóti á Þíngeyrum Sumarlidason, sá er fyrri var prestr í Saurbæ, oc deildi vid Finnboga lögmann, enn hafdi nú tekid ábóta stètt eptir Jón ábóta Þorvaldsson, er ny-dáinn var, jördina Kaldadarnes í Biarnarfyrdi undir dóm; var þar einn dómandi Nicolás priór á Mödruvöllum Þormódsson. Frambar biskup þat brèf, at Jón Þorvaldsson ábóti hefdi lúkt sèr hana í skuldir þær er hann vard biskupi skyldugr, þá hann var prestr oc Officialis Hóla kyrkiu; þar í móti framm bar Eyrikr ábóti brèf med gódra manna innsiglum, at Biarni Þórarinsson (sá er kalladr var hinn gódi madr) oc Solveig Gudmundardóttir kona hans, hefdi selt Gunnari Jónssyni conventu bródir á Þíngeyrum þá jörd, oc medkenndist þat þau hefdi uppborid fyrir hana klaustrsins vegna II hundrud oc L gyllini, oc þad kaup hefdi Jón ábóti Gamlason stadfest med fullum giörníngi, vid fyrr-nefnd hión; fyri því hefdi Jón ábóti Þorvaldsson ecki mátt þessa jördu afsala, nema fyrir einhverja naudsyn klaustrsins, eda fyrir adra iafngóda fasteign, oc þó med samþycki brædranna, þarfyrir dæmdist jördinn Kaldadarnes óbrygdanleg eign Þíngeyra klaustrs vera oc verid hafa, sídann hún var því fyrst seld, enn biskup skyldi eiga löglegann adgáng at erfingium Jóns ábóta, til svo mikilla penínga sem hann tók jördina fyrir. Þat sumar á alþíngi dróg̓st samann sætt med þeim Mödruvellíngum, Grími Pálssyni oc börnum hans, oc Hlídarenda mönnum, Vígfúsi lögmanni Erlendssyni oc Hólmfrídi systr hans, enn ádr hafdi konúngr samþyckt makaskipti þeirra Gríms oc Hlídarenda manna; gengu nú bádir biskupar í milli Stephâns oc Gottskálks, Narfi ábóti at Helgafelli, Arni ábóti í Veri, Ögmundr prestr Pálsson at Breidabólstad, Einar prestr Snorrason at Stad á Ölduhrygg, er kalladr var Ölduhryggiar

skáld, oc margir adrir leikir oc lærdir, svo at hverutveggi skyldu alsáttir um allann hugmód, heimsóknir oc fiár upptektir; þarmed lögdu þau systkin aptr, Vigfús lögmadr oc Hólmfridr, Grími oc sonum hans, Mödruvelli oc Silfrastadi, oc alla þá penínga er ì Eyafyrdi lágu, oc fyrir nordann, sem þau höfdu ádr tekid, eptir rèttarbót Hákonar konúngs, oc þarmed fyrir sunnan jardirnar Kyrkiuvog, Kotvog, Merkines, Sandgerdi oc Straum, til æfinlegrar eignar; enn þar á móti skyldu þau systkin halda jördunum Laugarnesi, Engey, Galmanstjörn oc Kyrkiuhöfn, oc var þat endir Mödruvalla mála, svo at Grímr lèt ei sinn hlut med öllu, enda var ei dæmt sídann eptir Mödruvalla rèttarbót, svo at nokkru hafi ridid. Þar á þínginu stefndi Stephán biskup, at áheyranda Gottskálki biskupi oc allri lögrèttunni, Byrni Gudnasyni, bædi fyrir dómrof, oc hardrædi hans vid Jörund prest, undir dóm sinn. Á því hausti vard Ögmundr prestr Pálsson á Breidabólstad ábóti í Videy, eptir Arna Sveinbjarnarson; oc mánadaginn nærstann fyrir allraheilagra meßsu, útnefndi Stephán biskup dóm í málum þeirra Biarnar, var þar í Ögmundr ábóti, Einar prestr Snorrason Officialis, Helgi prestr Jónsson oc Jón prestr Hèdinsson, oc átta prestar adrir; kom ei Biörn Gudnason á stefnudaginn, oc var dæmdr sekr mörk ì stefnufall, oc V merkr í dómrof vid biskup, med því hann hefdi rofid dóm hans, oc Vigfúsar lögmanns Erlendssonar. Jörundr prestr oc tveir hans fylgdarmenn sönnudu þar hraknínga hans med eydi, oc var þat dæmt bannsverk oc óbóta mál, oc allt fè Biarnar fast oc laust fallid undir Konúng oc biskup, at luktum ádr öllum skuldum oc sektafiám; enn Ormr bóndi Jónsson födrbródir Biarnar, sem hinn nákomnasti svaramadr hans, var ályktadr afgreidslumadr allra þeirra skulda; enn ef hann vill þat ecki, þá sèu peníngarnir upptækir konúngsins oc kyrkjunnar umbods mönnum, med gódra manna yfirsyn. Þá segir sumstadar at Biörn bóndi Þorleifsson oc Ögmundr Tyrfíngsson sæmdi um arfs tilkall Biarnar, vegna Páls Jónssonar mágs hans til Sigrídar Jónsdóttr konu Ögmundar, er setst hafdi í arf eptir Pètr Jónsson bródr þeirra — samþyckti Olafr bóndi Gudmundarson í Þernuvík, konúngs umbodsmadr milli Gilsfiardar oc Gljúfrár. Þat er enn til sanninda, at Hannes væri hyrdstjóri á þessum missirum, at laugardaginn eptir Þorláksmessu um sumarid, fór fram brèf

þess innihalds, at Jón Einarsson fèck Kyrkiu Niardvík Olafi Didrichssyni höfudsmanni yfir skipi Söfrens Nordbyes, oc Hannesi Eggertssyni hyrdstjóra, konúngsins oc Söfrens Nordbyes vegna, til eignar; þá samþyckti Halldór bóndi Bryniúlfsson í Túngufelli giörníng bródr Freysteins sonar síns, er hann gaf Vídeyar-klaustri med sèr Vadnes í Grímsnesi med fimm kúgildum, undir hönd Ögmundar ábóta Pálssonar, í Skálhollti á Símonsmessu; var Ögmundr einnin Officialis Skálholltskyrkiu, oc prófastr oc almenniligr dómari í öllum andlegum málum, milli Botnsár oc Skaptár.

## XXXI Cap. Frá biskupum.

Stephán biskup í Skálhollti var ríkr oc audugr; höfdu biskupar þá miklar inntektir, tyundir af öllu fè föstu oc lausu, sektir á haldi þeirra, oc svo fyrir rán oc stuldi úr kyrkium oc helgum stödum, misþyrmíngar allar á kyrkjum oc klerkum, okr, meinsæri oc legordsmál, leikmenn voru margir óstírilátir oc ofbeldissamir, enn biskupar gengu ríkt eptir sektum; afladist þeim einnin mikid fè af Testamentum, heitum oc sálugiöfum; hefir svo sagt Jón prestr Egilsson, at födrfadir sinn Einar prestr Olafsson, frændi Stepháns biskups, hafi verit med hönum í seinustu visitatiureid hans í kríngum Snæfells iökul, þá er Halldór ábóti Ormsson var dáinn. Hafi biskup þá verid at Helgafelli viku, oc haft þadann med sèr svo mikil klædi skorinn oc óskorinn, sem hestr mátti bera, enn ei vissi hann hve mikid hann hafdi med sèr af silfri. Gottskálk biskup at Hólum var oc audugr vel; hann sendi Jón prest Arason tvisvar til Noregs, fyrst til at sækja kyrkjuvid er sett var vid Kolbeinsdalsár ós, eins at giörd oc timbrstofann at Hólum, nema hvad hún var öll af trè; enn í annann tíma med IX mörkum gulls, er hann lèt giöra gull-kaleikinn af, sem Danskir tóku eptir Jón biskup Arason. Atti þá Hóla kyrkia hafskip er dróg nær LXX lestum, hafdi Gottskálk biskup þat í förum til Noregs, oc audgadi hann Hóla kyrkiu um XXI hundrad hundrada í fasteign, enn gaf börnum sínum VI hundrud hundrada, fyrir útann lausa aura er hann átti, í silfri, kötlum, klædum, lèreptum oc tygium, oc ei var gètit í Testamenti hans, vildi erkibiskup í Nidarósi at brædr Gottskálks biskups skyldu erfa hann. Mælt er

at Gottskálk biskup hafi verit mikilmenni af siálfum sèr, oc ríkilátr, oc matmadr hinn mesti; enn at þat hafi verit med fádæmum, þá má vel skè at óvinir hans hafi tilfundit; þótti þeim hann ærid harddrægr, oc því hefir hann kalladr verit hinn grimmi, oc í öndverdu af ættmönnum Jóns Sigmundársonar, er hann hafdi hardast leikid, enn vid allan almenníng er ei at siá at hann hafi iafnóvæginn verid, sem Olafr biskup Rögnvaldsson er fyrir hann var, oc eru þó liósari sagnir um þá tíd, er hann var uppi á, enn hinn nærsta mannsaldr fyrir.

## XXXII Cap. Qvonfáng Jòns Einarssonar.

Vetri eptir sátt Mödruvellínga oc Hlídarendamanna, gipti Gottskálk biskup Christínu dóttr sína, at Hólum, Jóni Einarssyni Oddssonar er þá bjó at Geitaskardi, syslumanni í Húnavatns þíngi, þeirra börn voru sídann Olafr fadir Gudrúnar í Snóksdal, oc Gottskálk prestr í Glaumbæ, oc Egill er fèck Gudrúnar dóttr Þorleifs lögmanns at Skardi á Skardströnd, Pálssonar at Skardi Jónssonar. Þá hafdi Jón Asgrímsson Þorkèlssonar Gudbiartssonar, syslu í Vadla þíngi, oc lèt dæma jardir nockrar Þorleifi Grimssyni oc Sigrídi Sturludóttr konu hans. Grimr Pálsson lifdi þó. Þá þraungvadi Stephán biskup Jóni Sigmundarsyni til at vinna eyd um bót oc betran, oc at aptrkalla oc ónita alla sína dóma er voru í vil vid Biörn Gudnason, enn efla oc styrkja í öllum hlutum kyrkjuna oc biskupinn, oc leysti hann sídann af banni í margra manna vidrvist leikra oc lærdra, oc lysti því sídann opinberlega; er ei annars gètid á þeim missirum þess er tidíndum sætti. 1516

## XXXIII Cap. Aflát páfa.

Þessu nærst var þat, edr um þann tíma, at Helgi Höskuldarson giördist ábóti á Þíngeyrum; enn sumir segia þat væri þann dag er Gottskálk biskup gipti dóttr sína, því Eyrikr Sumarlidason var dáinn ádr; þar eptir var Finnbogi son Einars ábóta Isleifssonar kosinn til ábóta at Þverá til styrktar vid Einar Benedictsson, var 1517
þó jafnann kalladr prestr enn ei ábóti. Ögmundr var þá í Videy

Pálsson, fyrir hann dæmdi Stephán biskup klaustrinu Hestengi frá Jóni Þórdarsyni á Hvanneyri, oc jardir þessar lagdi Ögmundr undir klaustrid, Vadnes, Vatnsleysu, Byaskèr, Hvítárvelli, Backa oc fleiri, þá er oc enn gètid Nicolásar priórs í dómi um sydsta Hvamm á Vatnsnesi. Þetta sumar kom híngad í land sendibodi Páfans med aflátsbrèf, oc fór heim í Skálhollt, var hann þar XIV dags, oc fann at eins tvisvar Stephán biskup upp í skrúda húsi, alskrýddann hinum besta biskups búníngi, oc kennilídinn hjá hönum, mæltu þeir saman um afláts brèfinn á ókunna túngu þá er enginn skyldi nema þeir bádir, ætla menn verit hafa frönsku edr italisku, því Stephán biskup var hverium manni betr at sèr um slíkt, þeirra er þá voru uppi; vard sá endir á þeirri rædu, at biskup qvadst eigi mundi mótstanda páfanum, oc mætti Legátinn selia þessi bréf þeim er kaupa vildi, enn enginn skyldi þau kaupa sinna manna, edr þeir er sín rád vildu hafa; sídann fór Legátinn þadann, oc seldi vída brèfinn fyrir V aura, enn hiónum fyrir hundrad, oc fèck mikid fè; þat stód á brèfunum at hver þau keypti skyldi fá fullkomliga qvittun af öllum syndum sínum, sem siálfr Gud hefdi hann qvittann gèfit, var sà sendibodi útsendari Páfalegátans Angeli Archemboldi, þess er einnin sendi Joan Tetzel med þeim eyrendum um Þískaland, oc orsakadi þarmed mótmæli af Marteini Lúther, enn fór siálfr um Danmörku oc Svíþiód, oc safnadi þúsundsinnum þúsundi gullskildínga (Dúcata) þat tók Christján konúngr annar hálft frá hönum, enn hann slapp med hitt, oc þótti fótr sinn hinn fegursti; var þá í þann tíma þvílíkr formáli aflátsbrèfa: fyrst afleysi eg þig frá öllum kyrkjunnar dómi edr dóms úrskurdi, er þú kannt hafa verskuldad; þvínæst af öllum syndum þínum oc yfirtrodslum, sem þú hefir allt híngad til drygt, hversu stórar sem þær kunna at vera, oc eg fyrirgèf þèr oc uppgèf allt þat er þú verdskuldad hefir fyrir þær at lída í hreinsunareldinum, giöri eg þig nú aptr hluttakanda í kyrkiunnar sakramentum, oc set þig aptr í þad sakleysis stand er þú varst í nærst eptir skyrnina, svo at helvítis portsdyr skulu luktar vera fyrir þèr þá er þú deir, enn paradísar port skulu þèr opinn standa.

## XXXIV Cap. Samþyckt í Leidarhólmi.

Þá er þraungdi kostum þeirra frænda Jóns lögmanns Sigmundarsonar oc Biarnar Gudnasonar oc fèlaga þeirra, drógu þeir vini

sína oc vandamenn oc adra fleiri á sitt mál, oc settu þíng at Leidarhólmi í Dala syslu, komu þar saman hinir hellstu nafnbótamenn af leikmönnum, fyrir nordann oc vestan land, er illa kunnu, eda ugdu at, ríki oc ágángi biskupa oc klerka, og giördu samtök med sèr, þó sumir væri ósamþyckir ádr, oc ritudu lánga skrá eda samþyckt med áheyrilegum formála, oc mun þat hid hellsta inntak hèr greint verda, voru þessir taldir fyrir: Jón Sigmundarson lögmadr, Finnbogi Jónsson er lögmadr var fyrri, Teitr Þorleifsson hinn ríki í Glaumbæ, Biörn Gudnason, Biörn Þorleifsson at Reykhólum, enn þótt hann hefdi byr af Stepháni biskupi, Grímr Pálsson nordann frá Mödruvöllum og Þorleifr sonr hans, Þorleifr frá Skardi Pálsson Jónssonar, Þorsteinn oc Sigurdr synir Finnboga lögmans, syslumenn at nordann, Sturla Þórdarson at Stadarfelli syslumadr í Dölum, Arnór Finnsson á Ökrum, Gudmundr Andresson undir Felli, oc Þorleifr í Þyckvaskogi sonr hans, Ari Andresson í Bæ bródir Gudmundar, Sigurdr Dadason í Biarnarhöfn er syslu hafdi haft í Húnavatns þíngi; Sigurdr Narfason frá Eyri, Thómas Jónsson, Þórrólfr Ögmundarson af Vestfiördum, módrbródir Ögmundar ábóta, Narfi Jónsson, Eyvindr Gudmundarson, Thómas Oddsson frá Hvoli, Sigurdarsonar Geirmundarsonar, Asmundr Asmundarson, nefna þeir sig fógeta oc lögrettumenn milli Hvitár í Borgarfyrdi oc Helkundu heidar, oc giöra kunnugt lögrettumönnum oc skattbændum úr Húnavatns þíngi, Jóni Olafssyni, Brandi Olafssyni, Gudmundi Indridasyni, Örnólfi Steinssyni Brandssonar lögmanns, Sigurdi Ivarssyni, oc Ivari Brandssyni, oc úr Hegraness þíngi, Jóni Þorgeirssyni, Grími Jónssyni á Ökrum, Einari Einarssyni, Gudmundi Þorleifssyni, Halldóri Jónssyni, Hákoni Hallssyni á Vindheimum Finnbogasonar hins gamla, Halldóri Sigmundarsyni, Þórarni Jónssyni, oc svo öllum ödrum, úr Vadla þíngi oc Þingeyar þíngi, er þar voru eigi staddir, er kongúngsins trúir undirsátar vildu vera, oc þetta, segia þeir, hans fátæka, forstödulausa skattland, vort frelsi siálfra oc alls vors afsprengis, vilja stydia oc styrkia, undan því ánaudar oki sem yfir oss er komid, oc álagt af kyrkiunnar valdi, oc vèr höfum sèd oc undirstadid, sumir af reyndri raun oc framkomnu verki, þann stóra skada, fiártjón oc lastra eigna missu oc ödrum ógnarlegum ágángi oc ofbeldi, er almúgi alls þessa umdæmis fær af biskupum, prestum, klerkum oc þeirra fylgiurum, sumir af

hardlegum heitum, oc hótum, uppásetnínga, enn flestir med framkomnu ofbeldisverki, þeirra rángs oc lángs ágangs, med forbodum, útsetníngu af heilagri kyrkju oc skriptamálum, þiónustutekju oc heilögum legstad, syniun allrar slíkrar þiónustu, hvad lítid sem vidber, oc banns áfelli ef nockr syniar þeim þess er þeir beidast, oc bönnun samneytis alls christilegs fólks, erum svo kúgadir med þessu áfelli, reknir í armód, cymd oc útlegd, frá gódum gripum oc gángandi fè, oc vort afsprengi, á móti lögum oc tilsettum rètti. Er þat nú vor vilji oc samþyckt, allra hèr samankominna, med fullkomnu sambandi oc lófataki, at vèr viljum halda saminn oc svarinn sáttmála, sem giör var í milli krúnunnar í Noregi, oc kyrkjunnar oc klerkanna, um öll þau mál er þá var á sættst, tilgreind oc sundrskilinn, at hvad fyrir ödrum (hverjum) skyldi sækjast oc dæmast, konúngsvaldi eda kyrkiunnar, oc öllum er kunnugt at giördist í millum andlegra hluta oc ríkisins ráds í Tunsbergi, med rádi oc samþycki vyrdugligs Magnúsar konúngs oc Jóns erkibiskups, á Laurentii aptan anno MCCLXXVII; oc eptir framtölu þeirra mála er fyrir lærdum mönnum eigu at sækiast oc dæmast, sem oc at innfærdum nockrum rèttarbótum þar at lútandi, þá segiast fyrrnefndir menn gèfa öllum til vitundar, þat ecki vilji þeir skipta sèr af þeim málum sem kyrkjunni vidkomi í nockurn máta, enn hafa oc halda fastlega alla þá hluti sem þeim hafi játadir verid af konúngsdóminum, oc láta þat hvergi dragast, hvert sem, segia þeir, biskupar eda prestar leggia á oss bann eda forbod, oc hafa þad at engu, nema opinber bannsverk falli á nockurn, þá styrkium hann oc einnin til yfirbóta vid Gud. Enn ef leikmenn stydia oc styrkja presta til ágángs uppá konúngsins þegna, þá skulu þeir oc allt þeirra undirfólk engann rètt taka, oc sekir XIII mörkum oc VIII ortugum fyrir hvert þat fylgi oc styrk sem þeir veita þeim, enn allt fólk sem biskupum oc prestum þiónar, oc byr á þeirra jördum, þá greidi þeim sína landskuld, enn þióni þeim ecki med styrk á móti valdsmönnum, nema gángi frá þeim þegar þeir heyra þessa voru samþykt, ella gialdi sem fyrr segir, nema konúngr vilji meiri myskun á giöra. Svo oc þeir sem hlaupa undir vald biskupa, presta edr annara lærdra manna, oc selia þeim jardir eda leigia, sem brygd er á borinn at lögum, oc menn sína skiöl fyrir, þá haldist þat at engu, enn þeir rètttækir eptir landslögum er ábúa

edr burtselja. Svo oc um beit, áverka oc ísneytslu á kyrkiueignum, bætist med landnámi oc áverkabót lærdum mönnum sem lögbók vottar, enn hverki med banni eda forbodum, eda útsetníngu af heilagri kyrkju. Ef prestar oc lærdir menn gánga á leikmenn edr almúga framar enn lög standa til, þá dyrfist enginn leikmadr at vinna fyrir þeim, karl nè kona, úngr eda gamall; enn hver sem þat giörir, at upplesinni þessari vorri samþyckt, þá sè hann rètt fángadr útann gridastada, af syslumanni oc bændum, oc skiptist í þiónustu med þeim sem konúngsins rètt stydia, enn falli rèttlaus hvad sem misbodid er þar til gèngr frá þeim, útann vilji betra sig; enn þeir sem nú gánga í þessa voru samþyckt, oc laga styrkíngu, oc skilja sídann vid þetta vort samheldi, annadhvert fyrir ótta edr álögr lærdra manna edr adrar fortölur, edr illvilja, sèu sekir hver um sig XIII mörkum, oc útlagir, oc taki engan rètt, oc sæki enginn mál; oc undir sömu grein sè sá sem ecki vill hylla med oss þessa vora samþykt, enn hver sá madr, ríkr eda fátækr, sem verdr fyrir nöckrum órèttilegum sökum edr ágángi af kyrkiunnar mönnum, sá er í þessum samtökum hefir verid med oss, þá skulum vèr allir greindir menn, hver sem til er qvaddr, hiálpa hönum oc styrkia. Enn þótt at samtök þessi væri nytsamleg leikmönnum, oc sanngiarnlig at því er þá var hellst þörf til, þá fengu þau eigi framgáng, fyrir þá sök at bædi var biskupa ríki vaxid svo miög úr hófi, oc þarmed geck ecki Vígfús lögmadr Erlendsson í þau, oc engir nafnbótamenn af sunnan- eda austann- mönnum. Voru enn ríkismenn þeir til í Nordrlandi er hnegdust til Gottskálks biskups, sem var Jón Einarsson á Geitaskardi mágr hans. Þat sumar hid sama fór Jón Sigmundarson utann med Hvamms dóm, til þess at fá stadfestíngu konúngs á hönum.

## XXXV Cap. Frá Stepháni biskupi, Byrni oc Jóni.

Stephán biskup lèt eigi slíka hluti á sèr festa, oc reid þegar um sumarid med fiölmenni til vestfiarda, uppá Vatnsfiardarmál oc adrar sakir hans vid Biörn Gudnason; enn er Biörn spurdi til komu hans, safnadi hann at sèr mörgum mönnum oc hertygiadi þá; Biörn at Skardsá segir svo at biskup hafi haft CCC manna,

tíma skèdi sá tilburdr á Austfiördum, at konu þess manns er Steingrímr hèt gróf hol á qvidinn fyrir ofann nafla, oc leysti þar út bein öll barns hennar, enn hún vard alheil sídann.

## XXXVII Cap. Frá Ögmundi ábóta.

Ögmundr Pálsson ábóti í Videy hafdi hid fyrra árid sem ádr er sagt, nád jördu í Andakyl er Hestengi hèt, af Jóni bónda Þórdarsyni á Hvanneyri, med dómi Stepháns biskups, undir Hest, jörd Videyar klaustrs; hann keypti oc XX hundrud í Vatnsleysu af Jóni Sigurdarsyni fyrir XXV hundrud lausafiár, oc af Hannesi Eggertssyni sídann, Byaskèr hálf, oc Þórustadi á Rosmhvalanesi, fyrir jardir á Vestfiördum, Kyrkiuból XXX hundrud, í Selárdals sókn, oc Sudreyri oc hálfa Túngu XXXV hundrud; þat er í Laugardals sókn. Erlendr Jónsson feck hönum einnin Backa á Kialarnesi undir klaustrid, oc tyu kúgildi, fyrir æfilángt uppheldi á klaustrinu, enn V hundrudum í Vatnsleysu nádi hann
1518 af Olafi Ásbiarnarsyni, þeim er útleyst hafdi Jón Einarsson úr haldinu, oc Önnu Sniólfsdóttr, fyrir þat hann gaf upp Olafi sektafè, oc brot hans vid heilaga kyrkiu; enn þat var brotid, at Olafr hafdi látid landseta sína gialda til Kálfatiarnar, bædi kyrkiu- oc preststyund af þessum V hundrudum í Vatnsleysu, enn átti at gialdast þar heima, því þar var hálfkyrkia.

## XXXVIII Cap. Kètill vann biörninn.

Vetr þessi var nockud snarpr, enn þó heldu menn peníngum sínum; komu ísar fyrrir nordann, oc biörn einn mikill, raudkinnúngr, á land á Skaga vid Ásbúdartánga, sá þá hvergi til íss af slèttlendi, enn þó af háfiöllum; þat dyr var miög solltid, grimt oc mannskædt, drap þad VII menn edr VIII, oc voru fátækar konr med börnum er gengu yfir, oc vissu ei vonir dyrsins; þat braut nidr hialla alla á Skaga utann at Kètu, því sumstadar fann þat matfaung í, enn þetta var um sumarmál. Þá bió at Kètu Kètill Ingimundarson aflamadr mikill, enn þar var þá gód

veidistöd, lá hann úti á vorum á hákalla-skipi, enn lèt annad skip flytja í land, oc giöra til aflann, enn flytia til sín aptr kost oc dryck; völdust til hans úngir menn oc hraustir til siófara oc feck hann opt LXXX eda XC hákalla á vori. Þad var einn morgun árla at Kètill gèck til sióar, oc inn í hiall einn mikinn er þar stód med hákalli, oc vildi sækja morgunverd hjúum sínum; hann sá dyrid koma at utann, oc tók hákalls bægsl mikid, oc snaradi lángt út á svig vid dýrid ocdyrnar; biörnin greip vid, bar á bak vid hiallinn oc tók at eta, enn Kètill snaradist út oc med skyndi til bæarins; sendi hann þá þegar tvo menn, annan út á Skaga enn annan inn, at safna mönnum, oc komu skiótt fiórtán er vopn höfdu, oc gengu til siáfar; björninn var þá búinn med bægslid, oc ætludu þeir at ráda at hönum, enn hann veik sèr undann oc inn med siónum; þeir gengu eptir, oc inn yfir biörgina, enn þar sem björginn læckadi nockud, vafdi biörninn sig samann, oc vellti sèr í fiöru-nidr, oc syndti framm í skèr þad er þar liggr, oc kallad er Þursaskèr. Kètill skipti þá mönnum, oc lèt VII eptir, er mæta skyldu dyrinu, hvar sem þat kæmi at landi á Inn-Skaga, enn hann geck med VI mönnum heim til Kètu, þeir hrundu framm sexæríngi, oc rèru til skèrsins. Biörninn hlióp þá á sæ, oc lagdist útá fiördinn, enn þeir rèru eptir kappsamlega, mæddu þeir dyrid um sídir, enn þat lagdist þá í króka, oc vard miúkara í vikum enn bátrinn; geck svo lengi dags at þeir komu ecki vopnalögum vid, svo at björninn sakadi. Enn um sídir er at hönum þrengdi, hiddi hann hramminum uppá bordid, oc ætladi at hvolfa skipinu, svo þat drack í sig sió. Kètill þreif þá exi, oc hjó á hinn fremra hramminn vid bordinu, svo aftók, lagdi þá dyrid frá, oc dapradist heldr sundid, svo þeir fengu því nærst lagt þat til bana, drógu sídann í bátinn upp, oc hèldu at landi. Kètill átti dóttr er Gudrún hèt, hennar feck laungu seinna Jón at Ingvildarstödum, Jónsson Ormssonar skipara Runólfssonar, enn módir Jóns var Þórun Gisladóttir Arasonar Þorbjarnarsonar Arasonar Gulls; hann var því svo kalladr at hann kom út med gull mikid frá Englandi; þeirra son var Biörn at Skardsá er þessa sögu hefir sagt, því Kètill fór til Ingvildarstada í elli, oc dó þar nyrædr, þá Biörn var úngr.

## XXXIX Cap. Lyktir Biarnar Gudnasonar.

Nú stefndi Stephán biskup Byrni Gudnasyni fyrir margar þúngar sakir, oc nefndi í dóm Narfa ábóta at Helgafelli, Ögmund ábóta í Videy, oc tyu hina hellstu presta adra, at almennilegri presta-stefnu í Skálhollti, mánudaginn fyrir Pètursmessu oc Páls, enn er at stefnudögum kom var Biörn andadr; er svo at heyra sem margrædt hafi verid um hans dauda, oc lifdi hann X vetr eptir födr sínn, kom þángad enginn af hans erfíngium, edr af hans forsvarsmanna hendi; dæmdu þá dómsmenn erfíngia Biarnar oc umbodsmenn þeirra skylduga at halda alla þá dóma sem Stephán biskup hefir gánga látid um Vatnsfiardar kyrkiu oc hennar eignir, oc svo dóm hans um samtök þau er Biörn giördi móti hönum í Ögri, einnin úrskurd Stepháns biskups um testamentis giörd Solveigar Biarnardóttr. Þar ad auki frambar biskup fiögr dómrof Biarnar Gudnasonar, enn um hid fimta var ádr dæmt; fyrir tvær heimreidir med flock manna er Biörn hafdi giört í Vatnsfyrdi, oc manna faungun, dæmdu þeir Vatnsfiardar kyrkiu tólf merkr í fullrètti sitt fyrir hveria, enn Skálhollts kyrkju XXX merkr einnin fyrir hveria; oc Jóni presti Eyríkssyni er biskup hafdi skipad yfir kyrkiuna oc stadinn, tólf merkr fyrir hveria heimreid. Enn fyrir þad er Biörn hafdi brotid upp kyrkiu í Vatnsfyrdi, dregid kyrkiunnar þiónustumenn út af gardinum, oc fært þá í bönd oc fiötr, enn veitt Jóni presti oc hans mönnum, sem flúdu uppá kyrkiuna oc hennar nádir, ófridar umsátur, med vopnum oc hördum heitíngum, bannandi þeim öll hiálprædi, tekid einnin kyrkiuna oc hennar penínga fasta oc lausa, dæmdu þeir Vatnsfiardar kyrkju tvennar þrettán merkr, enn Jóni presti fyrir þad er hann var Officialis, tvennar XV merkr í tvöfaldt fullrètti sitt, oc Skálhollts kyrkju XC merkr; fyrir fiár adtekt úr Vatnsfiardar kyrkju, dæmdu þeir henni í fullrètti tólf merkr, enn Skálhollts kyrkju XXX merkr, oc alla þá peninga sem Biörn Gudnason oc hans fylgiendr tóku í Vatnsfyrdi fyrir Jóni presti oc kyrkjunni, innan-kyrkiu oc utann, leigr oc landskuldir, skyldu erfíngiar Biarnar gialda Jóni presti aptr; málnytu kúgildi med laga ávexti, gildfènad med aldri, enn tvígialda aptr dauda penínga. Enn þar sem Biörn Gudnason med sínum fylgiendum hafdi giört heimreid uppá Mariu kyrkiu í Grunnavík, brotid þar upp kyrkiuna oc stadinn, oc ruplad oc á

braut borid hennar penínga, var dæmt fyrir heimreid oc kyrkju uppbrot, kyrkiunni tvennar IX merkr, Jóni presti IX, oc Skálhollts kyrkiu XXX merkr; enn fyrir þat er Biörn hafdi í óhlídni oc sönnum banns- verkum gengid í kyrkiu á helgum dögum oc rúmhelgum, oc teygt med sèr adra menn í slíka óhæfu, þá var dæmt fyri þvílíka kyrkiugaungu um eitt ár LXXVI hundrud. Þetta skyldi allt goldit at þrennum sölum, hid fyrsta sinn á nærstkomandi hausti at Michiálsmessu, enn málnyta öll þarnærst, á nærsta vori í fardögum, oc allt at Michiálsmessu á ödru hausti. Þat sem Skálhollts kyrkju heyrdi til, skyldi gialda heima í Skálhollti, biskupi edr hans umbodsmanni í hönd, enn Vatnsfiardar oc Grúnnavíkr kyrkjum, oc Jóni presti Eyrikssyni, skyldi gialda heima í Vatnsfyrdi, í hönd Jóni presti edr hans umbodsmanni. Enn ef erfingiar Biarnar Gudnasónar kunna at hafa nockra löglega afsökun fyrir einnhverri þessari grein, þá skulu þeir hana framfært hafa innan þriggia mánada at heyrdum dóminum. Enn þó þannin væri nú hèr vid skilid, lauk þó ecki arfaþrætu þessari er slíkt allt reis af, sem enn mun sagt verda. Biörn Gudnason hafdi verid einhver hinn hardfengasti ríkismanná í landi hèr oc ærid hêradsríkr vid alþídu; eptir hann er gátann: rann eg frá raupi, ratadi sídann á tólf fiska, þar eptir feck eg þúngann mód; því hann var borinn á Hóli, enn bió fyrst at Eyri, enn sídann at Ögri.; brynia hans oc stálhúfa hafa verid til framm á þeirra manna daga sem enn lifa, oc var hverki svo mikid at medalmanni mætti ei hæfa. Ragnhildr kona hans bió eptir hann í Ögri, oc voru þessi börn þeirra, Torfi, Þóra, Gudrúnar tvær, Oluf, Sígrídr. Þóra giptist Jóni í Hiardardal Olafssyni frá Þernuvík Gudmundarsonar, þeirra son var Torfi syslumadr í Isafyrdi, at Kyrkiubóli í Lángadal, þadann er Kyrkjubóls ætt. Gudrún önnr átti Biarna Andrèsson, bródr Gudmundar undir Felli, oc Ara í Bæ; þeirra dóttir Solveig módir Hannesar í Hvammi í Kiós; sídann átti hún Hannes Eggertsson hyrdstjóra, þeirra son Eggert lögmadr. Oluf átti Sigfús son Sigurdar Brúmannssonar, þau biuggu at Eyri í Seydisfyrdi, þeirra son var Torfi at Hvammi í Dyrafyrdi. Sigrídr átti Biarna son Narfa ábóta Ivarssonar, þeirra synir Biörn oc Þorleifr. Fleiri verdr gètid dætrabarna Biarnar seinna, oc eru frá þeim ættir öllum. Ari Gudnason bródir Biarnar var syslumadr nyrdra, hans son var Þormódr. Helga Gudna-

dóttir átti Torfa í Klofa, oc eru börn þeirra ádr talinn. Þorbiörg Gudnadóttir systir Biarnar átti Jón Koll Oddsson, þeirra son var Ormr Kollsson at Draflastödum í Þíngeyarþingi, fadir Jóns at Einarsstödum; flest var stórmenni sem frá Byrni var komid.

## XL. Cap. Frá Erlendi Biarnasyni.

Erlendr son Hákalla-Biarna, mágr Biarnar, hafdi Múlasyslu o-bió at Kètilstödum; at hans forlagi, oc med tillagi hans var skip, ud þar Audrès postula kyrkja, þá fyri mörgum árum. Um hán, er þad sagt at hann hàfi tekid duggu enska á Lodmundarfyrdic oc drepid þá er á voru, enn einn komist undann á sundi til landsn oc nád ödrum duggum sídann. Olafr trölli á Hólalandi í Borgarfyrdi hèt sá madr er sagt er vègid hafi skipsstiórnarann, oc af því hafi bardaginn hafist; enn er sá vetr var lidinn er talid at Olafr hafi flúid í annan landsfiórdúng, þó er allt heldr óvist sem um hann er sagt. Sídann er mælt at enskir hafi komid um sumarid oc heitid gridum Erlendi, ef þeim væri goldid saudfè á hverju sumri, sem fyllti rètt þá er þeir lètu byggia í Stödvarfyrdi, oc þad um þriú sumr, enn hún tók nær VIII hundrudum. Hafi eigi ábrostid gialdid fyrri enn hid þridja sumar, enn þá hafi eina nótt kona vakad á Kètilstödum, sofnad, oc dreymt at madr kæmi at henni oc qvædi þetta:

Erlendr velkendr
ítum, fródr, vel gödur,
lagamadr listhagr
les á bók med ord klók,
skáld er hann, skíra kann
skèmti mest vel flest,
koma skal á kauptíd
klögumál fyrir hans sál;
seígdu Erlendi nú, sofandi frú! reynstu mèr trú.

hún vaknadi, oc geck nockru sídar inn til Erlendar, oc sagdi hönum; enn er hún geck út aptr, voru þar komnir hinir Ensku, oc tóku Erlend, oc sögdu austfyrdíngar þeir hefdi látid hann í gaddatúnnu. Þeir segia enn at skipstiórnarmadr sá er drepinn var hèti Adam, oc kæmi þar af sá málsháttr: at þat væri látid

í Adams gialdid, er litlu munar í stóra skuld; hygg eg hann meira eystra enn annarstadar; enn þessa sögu sagdist Pètr Þorsteinsson syslumadr heyrt hafa af mörgum merkum mönnum gömlum þá er hann var úngr, oc kunnum vèr þó ecki at kalla hana vissa med öllu, eda óvillta. Son Erlendar var Biarni er sídann bió at Kètilstödum, oc hafdi syslu þar eystra.

## XLI Cap. Frá ímsu.

Sumar þat er Biörn Gudnason deidi, kom út sá madr er Thyli hèt Pètursson; hann skyldi hafa hyrdstiórn med Hannesi, oc vera nordann oc austann, enn Hannes sunnan oc vestann land; litt fell á med þeim sem sídar reyndist. Þá er mælt at Hamborgarar hafi barist vid enska menn um hafnarlag í Hafnarfyrdi, oc þakid ádr skip sitt utann med sængum, fèllu XL af hinum þisku mönnum, enn þó med því at þeir foru at med rádum, þá ráku þeir hina Ensku, oc fluttust sídann framm í eyri, oc höfdu þar höfn þadan af. Þá kom út Jón lögmadr Sigmundarson, oc frètti lát Biarnar Gudnasonar; þótti hönum þá fokid í öll skiól, oc treystist ei til ad deila lengr vid biskupa báda, segia þeir sem þetta herma, at hann hafi þá tekid lausn af Stephání biskupi, enn þat ætla eg vist ádr skèd hafa sem fyrri segir. Vera má þó at vidskipti þeirra Gottskálks biskups hin sídustu er fyrri er gètid, hafi þá framfarid er hèr var komid. Þá var Einar prestr Snorrason at Stad á Öldnhrygg officialis milli Botnsár oc Gilsfiardar. Þá gaf Ari Andrèsson í Bæ, oc Þórdys kona hans Gísladóttir Philippussonar, Ormi syni Gudmundar Andrèssonar undir Felli, bródrsyni Ara, sex jardir á Ströndum í Arness kyrkiu sókn, oc XX kúgildi. Enn Stephán biskup oc Ögmundr ábóti oc adrir, vitnudu um Vígfús Erlendsson, at hann hafdi vel stadid í lögmanns embætti sínu, oc at þeir vildu hann at lögmanni hafa medann vera mátti; í þeim vitnisburdi var Thyli Pètursson, oc kalladi sig þá hyrdstióra yfir allt land. Þá lagdi Teitr Þorleifsson, er Hunavatnssyslu hèldt, dóm sinn fyrir Vígfus lögmann á alþingi, um ordbragd Þóris Þorlákssonar, enn lögmadr nefndi XII menn í dóm at Vogi á Kialarnesi um sektir Þóris; hann hafdi svo sagt: at hann vildi gialda konúngi, í sektagiald, skóbætr oc gullfætíngia

skinn, ólar ristnar úr skóbótum, oc ullarfracka ærulausann. Hönum voru dæmd tólf keirishögg á þínginu, sitt af hverjum dómsmanni, oc eitt af lögmanni, oc syslumanni upptækt fè hans til medferdar oc í konúngsgard; skyldi hann oc ei þadann af vera meir enn hálfrèttismadr. Þá lèt Gottskálk biskup dóm gánga at Vídivöllum um sumarid, um kyrkju forsómun (vanrækt) Einars Brynjúlfssonar at Espihóli, þá um tvö ár. Var sá Einar son Brynjúlfs er þar var ádr, Magnússonar, Benedictssonar, Brynjúlfssonar. Þar var Jón prestr Arason at Hrafnagili einn í dómi, oc er þess gètid at hann hafdi þá konúngs umbod eda syslu í Vadla þíngi.

## XLII Cap. Víg í Videy; fráfall Stepháns biskups.

Stephán biskup reid um Sudrnes, oc var staddr í Videy á visitatiu sinni; þar var þá med hönum Erlendr systr sonr hans oc sonr Þorvards lögmanns Erlendssonar. Þá bió á Saurbæ á Kialarnesi Ormr son Einars á Hofstödum Þórólfsonar, oc Katrínar dóttr Halldórs ábóta at Helgafelli, systr Eyriks; hann átti Ragnheidi Þorvardsdóttr systr Erlendar. Þá Orm oc Erlend greindi á um heimann-mund hennar, oc hiuggust sídan á med knífum í útidyrum í Videy, medann þar stód á biskupsveitslu; madr var med Ormi, oc biskupssveinn einn med Erlendi, urdu þeir fyrir áverkum, enn svo lauk, at Erlendur vard Ormi at bana; var þat hans hid fyrsta víg, enn sídann vo hann mörg. Var í fornum kèrlíngasögum sídan, at Erlendr, eda nockr hans forfedra at því er adrir segia, ætti barn vid álfkonu, því þá var slíku almennt trúat ad svo mætti vera, oc vildi eigi vidgánga, oc því yrdi hann vígamadr; er mælt hann hafi vegid mann nærri Kolbeinsstödum er sá vildi qvedia hann; enn slíkt er nockud óvíst, nema þad sem hèr er nú sagt, oc þat, at Erlendr var vígamadr mikill, sem þá var þó alltídt, medann víg öll voru bætt med fè oc utanferdum, er eigi voru mordvíg. Stepháni biskupi þótti sèr nær höggvid á bádar sídr; er þá mælt hann hafi kosid Ögmund ábóta til biskups eptir sig, svo at Erlendr fríadist þá heldr frá klaustrsaurgun, er eigi þótti minna verdt enn vígid siálft, med því fleiru sem hann hefir tildregid. I þann tíma var mikill átrúnadr á krossinum í Kaldadarnesi í Flóa, bædi med giöfum oc áheitum, oc kom þar samann slíkt fiölmenni á krossmessum vor oc haust,

sem mest var á mannfundum; enn þetta haust fór þángad fiöldi manna sem vant var; oc tveim nóttum eptir krossmessu, þá menn vildu fara þadan heimleidis, fórst tyæríngr, var ofhladinn af mönnum, oc sökk í midri ánni, tyndust XL eda L, oc komst engin af. Þar tyndist einhver hinn fremsti prestr sydra, Bödvar Jónsson frá Gördum á Alptanesi, rak líkid upp á Bæarfiöru, oc handbókinn á hálsi hönum; enn fiskimenn í Þorlákshöfn fundu dóttr hans á sió, med öllum klædnadi oc kvenn-silfri. Sídla um haustid, edr öndverdann vetr, tók Stephán biskup sótt í Skálhollti, oc var hann þá gamall; hann andadist á Andrèsmessu fyrir Jól um sólar uppkomu; var þá sendt eptir Ögmundi ábóta, at síngia hann til moldar, oc var hann jardadr á laugardag; hann var biskup nær áttu vetrum oc tuttugu; ei ber mönnum þó saman um andláts ár hans, telja samir þat ári seinna. Hann var settr oc vandlátr í lærdómi sínum oc lifnadi, oc svo hamíngiu-mikill at hann fèck lægt stórmensku sinna óvina. Eptir hann var ógrynni lausafiar. Þetta var med ödru talid: CCCC tólfræd hestar sem hann átti siálfr, CCC tólfræd stikr vadmáls, CCCC tólfræd oc XXXII stikr af gódu klædi, XXI stycki af varníngsklædi, VII hundrud tólfræd stikr lèrepts, hálfvætt silfrs, þriár merkr oc þrír aurar umfram; í gyllinum vyrdt fyrir LXIII hundrud, XI fíngrgull, XII handsol, tveir daggardar búnir, fiögr pör knífa búnir, krossfestarlaus, silfrlyndi oc af sprotinn, Agnus dei med festi, tvær kistr fullar med reikelsi, oc margt annad fleira, er Skálhollts kyrkia tók vid eptir hann, oc ógrynni jarda ad auki. Þá giördi vetr hardann, at því er Jón prestr Egilsson segir; enn í áttundu viku sumars giördi stórfiúk, svo at peninga fennti vída oc dóu. Var þá Vígfús Erlendsson lögmadr yfir land allt. Þá keypti Ögmundr ábóti, fimtudaginn fyrstann í sumri at Skálhollti, jardirnar Hvitárvelli oc Ardal í Andakyl, oc XXV hundrud í Nordtúngu, af Jóni bónda Hallssyni, í umbodi Gudlaugar Jónsdóttr, fyrir Gardsvika hinn mesta í Hvolhrepp, Sámstadi oc Túngu í Fljótshlíd, oc XI hundrud í lausafè. Hygg eg sá Jón sè hinn sami sem stadid hafdi at vígi Páls Jónssonar frá Skardi, med Eyríki Halldórssyni, oc farid útlægr á páfagard, oc komid svo út, oc var forfadir Bergliótar á Hvanneyri Hallsdóttr Olafssonar, því módir Halls var Karitas dóttir Jóns Hallssonar, þó er þat ei med

öllu fullyíst. Kom þat þá samarn lærdum mönnum oc leikum fyrir sunnan, eptir dauda Stephans biskups, at Ögmundr ábóti skyldi biskup vera í Skáhollti.

## XLIII Cap. Giörningar Gottskálks biskups oc annara.

Þridiudaginn nærstann fyrir Barnabæ, at almenniligri prestastefnu at Vídivöllum, kærdi Gottskálk biskup til Egils prests Hallssonar, at hann hefdi ecki fengid af Teiti bónda Þorleifssyni þau XIV hundrud sem hann hefdi heitid Hóla kyrkiu oc biskupinum, þá biskup tók Egil, úngann svein, til læríngar á kyrkiunnar kost at Hólum, sagdist hann opt hafa krafist þeirrar skuldar, oc ecki fengit annad svar af Teiti bónda, enn at Egill skyldi gialda þat siálfr. Var dæmt at Egill prestr væri qvittr oc skilinn vid þat mál, oc biskup eigi enga lagasókn at hönum um þá skuld, heldr at Teiti, sem því hèt þá Egill var ómagi fiár sins, oc skyldi Teitr gialda skuldina med laga ávexti í nærstu fardögum. I sama mánadi kærdi Gottskálk biskup til Jóns Sigmundarsonar, þat hann oc hans umbodsmenn hefdi ósvarlega farid med kyrkiufèn á Reykjum í Túngusveit, dregid þau undir sig án biskups leifis oc vilja, enn kyrkjann at öllu lítt haldinn. Sögdu þá máldagar henni goldist hafa LX hundrud í fornann reikníng, at auk hennar innstædu fiórtán hundrada í frídu oc daudu, oc óreiknud vyrdist þó inntekt hennar um CCIX ár, hafi þó aldrei minni tyund fallid enn eitt hundrad á hverju ári Var þat dæmt at fyrrgreindir peníngar væri fallnir uppí jördina Reyki eptir því sem hún er dyr til, oc biskup megi hana þá þegar at sèr taka kyrkjunnar vegna, oc öll hennar fè, oc halda þartil er þeir leysa, sem leysa eigu at lögum. Þar var einn dómsmanna Helgi ábóti at Þíngeyrum. Ögmundr var þá kosinn til biskups á alþíngi, oc sendr til vígslu, med gódum vitnisburdi Thyla hyrdstióra oc annara. Þar fór oc framm vitnisburdr um óspektir hyrdstiórans, oc hans manna, síndar Ögmundi ábóta á alþíngi um þriú undanfarinn sumr oc ímsir urdu giörníngar; er vid þá marga gètid Ejólfs Gíslasonar Phillippussonar, oc svo Erlíngs bródr hans, eitt var þad er Jón prestr Arason seldi Einari ábóta oc klaustrinu at Miúnkaþverá Midhús í Höfdahverfi fyrir próventu oc framfæri Einar Magnúsdóttr módr sinnar, oc svo nockud fè í vidbót.

Þat segir annarstadar at væri vetri seinna í majo. Þá hafdi Rafn son Brands prests austr á Hofi Rafnssonar lögmanns Halldórssonar, syslu í Skagafyrdi, oc var hann þá allúngr.

## XLIV Cap. Fèdráttr Gottskálks biskups.

Vetr giördi þar eptir hardann, oc fellir á peníngum manna; þan missiri lèt Gottskálk biskup rita brèf, midvikudaginn fyrir 1520
Barnabasmessu, oc telr þarí upp þær jardir, er hann hefir samandregid med ímsu móti, oc voru XI tugir jarda; gaf hann þær Hóla kyrkju med því skilyrdi at prestar síngi þar sálntídir tilteknar, oc til þess jók hann kaup þeirra; enn þar fyrir utann voru þær jardir er hann ætladi börnum sínum, gaf hann þeim VI hundrud hundrada, voru þar vid: Einar ábóti at Þverá, Helgi á Þíngeyrum, Nicolás príòr á Mödruvöllum Þormódsson, Jón prestr í Múla son Finnboga lögmanns; Pètr prestr Pálsson er þá var einn mesthattar presta, oc enn þessir prestar, Finnbogi son Einars ábóta Isleifssonar, Jón Þorgilsson, Gudmundr Jónsson, Nicolás Vilhiálmsson er enn mun gètid verda, Jón Finnbogason í Laufási, Jón Arnason, Gilbricht Jónsson, Þorsteinn Jónsson, Olafr Jónsson, Egill Hallsson, Jón Jónsson á Miklabæ, Jón Jónsson á Skinnastödum, Þorbjörn Jónsson á Bægisá, Þorbiörn Jónsson á Stadarbacka, Olafr Gudmundarson, Sniòlfr Jónsson, Jón Sveinsson, Halldór Narfason, Thómas Eyríksson er laungu seinna var at Mælifelli, Jón Andrêsson, Sigmundr Arason, Jón Philippusson, Steinn Markússon, Jón Olafsson, Jón Marteinsson, Sveinn Finnbogason, Loptr Pètursson at Vídidalstúngu, son Pèturs Loptssonar, enn bródir Arna í Stóradal, oc Ragnheidar er Jón átti sídar son Magnúsar Þorkèllssonar í Skridu, Magnús Gudmundarson, Einar Magnússon, Jón Brandsson, Gísli Gudmundarson, Thómas Jónsson, Thómas Einarsson oc Þorleifr Jónsson. Enn slíku ógrynni fiár safnadi Gottskálk biskup hellst med hördum kyrkiu reikníngum, oc sektum allra handa, opt á smásökum, ella lagdi hann vid bann oc forbodan ef ei voru jardir luktar, enda hafdi hann oc mikid í öllu fè Jóns Sigmundarsonar oc konu hans, oc því er eigi furda þó þeirra nidjar hafi ord giört á grimmleik hans. Midvikudaginn

fyrir Jónsmessu postula *ante portam latinam*, þat er hinn VIta dag Maii mánadar, segir sumstadar at Einar ábóti Benedictsson oc Jón prestr Arason hafi giört giörníng um Elini med samþycki Gottskálks biskups. Gètid er í giörníngum Gilbrichts prests oc Sigmundar prests Gudmundarsonar er fyrri voru nefndir, oc at Eiólfr Einarsson tók upp fè fyrir Runólfi Höskuldssyni at Backa í yxnadal, svo at ei var eptir meira enn til L hundrada. Þrettán prestar báru oc vitni Vigfúsi Erlendssyni um hyrdstjórn hans oc lögsögn góda, oc beiddust af Christiáni konúngi, at Breidabólstad í Fliótshlíd, laugardaginn fyrir *divisionem apostolorum*, at meiga nióta þess samníngs, er Hákon konúngr giördi fordum vid Islendínga, oc hafa hyrdstióra Islendskann, oc hellst Vígfús lögmann, er þetta skyldi frambera fyrir konúng, því at útlendir hyrdstiórar hefdi um þriú ár giört fridbrot á lögþíngum, gripid, slegid oc fángad lögrèttumenn fyrir rètta lögsögn, med mörgum ofsa oc óiafnadi. Þá er gètid dóms Snæbiarnar syslumanns í milli Gilsfiardar oc Lánganess um ákærur þískra kaupmanna til Eiólfs bónda Gíslasonar frá Haga, bródr Snæbiarnar; þeir voru synir Gísla Philippussonar. Einnin Thómasar prests Olafssonar, prófasts milli Lánganess oc Hvítár; oc enn fleiri manna.

## XLV Cap. Utanför Ögmundar Pálssonar oc tálman.

Um sumarid fór Ögmundr Pálsson utann eptir biskups vígslu til Skálhollts, oc med hönum Thyli Pètursson hyrdstióri, oc vildi fá hyrdstiórn yfir allt land; Ögmundr spurdi at hann væri í óvild vid Christián konúng sakir slagsins á Breidabólstad; hafdi hann fengid at giöf rostúngstennr tvær miklar fyrir um vetrinn, oc sendt adra Olafi presti Símonarsyni, er sumir kalla Sígmundarson, í Kálfhollti, enn adra Philippusi presti Gíslasyni af Haga ætt; þeir smídudu úr þeim sinn lúdr hver þeirra, svo vel oc snotrlega, oc svo líka synum, at hverugann kendi frá ödrum, því þeir voru þá manna hagastir á landi hèr á skurd oc gröft, oc Ari prestr Steinólfsson hinn þridji, sá er smídadi Skálhollts kyrkju, oc skar allann skurd á henni innan, bædi á stöfum oc hurdum. Ögmundr feck sióvolk mikid oc mótvydri, hraktist hann undir Grænland,

oc komst híngat aptr um haustid, oc fór eigi utann á því sumri.

## XLVI Cap. Andlát Jóns Sigmundarsonar oc Gottskálks biskups.

Jón Sigmundarson bió þá at Krossanesi á Vatnsnesi, oc var vinum horfinn oc snaudr at fè; hann tók sótt um haustid, þá er hann leiddi til bana; var í munnmælum at hann hefdi stefnt Gottskálki biskupi fyri dóm Guds, oc er þat satt at margr hefir um minni sakir skotid til Guds sínu málefni; hann ámynnti börn sín til gudlegs athæfis, oc fól sídann önd sína á hendr Gudi siálfum oc Jesu Christo, enn engum helgum mönnum sem þá var tídt; sídann andadist Jón; hafdi hann verid madr vel at sèr um allt atgiörvi, oc þó hinn mesti mótlætismadr. Börn hans voru Einar oc Helga, Gudrún oc Vilborg, hún var köllud Saungva Borga, oc vard úti sídast; Helga átti fyrst Krák Hallvardsson, þeirra börn voru Olafr prestr í Gördum oc Biörg er feck Erlendr prestr Pálsson, oc er þadann mikil ætt. Sídan giptist Helga Þorláki presti at Stadarbacka Hallgrímssyni frá Egilstödum austann, Sveinbiarnarsonar, prests í Múla Þórdarsonar; þeirra börn Þórdr at Mardarnúpi, oc Gudbrandr biskup. Gudrún dóttir Jóns átti Jón Hallvardsson bródr Kráks, þeirra son var Jón at Audunarstödum, er fèck Ingibiargar dóttr Lopts prests Þorkèlssonar at Húsafelli, þeirra son var Asgrímr prestr hinn lærdi. Gottskálk biskup var á veitslu at Greniadarstad, enn sumir segia at Hrafnagili, þá er hann spurdi andlát Jóns Sigmundarsonar; hann qvad þá mundi rád at búa sig til brottfarar, oc reid þadann skyndilega heim til Hóla; sídann tók hann sótt hastarliga, oc bad þá Gudmund hinn góda oc St. Johannes at þeir skyldi nú duga sèr; því nærst andadist Gottskálk biskup á Maríumessu á iólaföstu; hefir svo sagt Gottskálk Magnússon á Reykjum, at Magnús Biarnarson fadir sinn hafi þá verid sveinn hans; hafdi hann biskup verid XXI vetr, oc var hèr þá biskupslaust, oc hardt í ári. Komu nú samann, skömmu fyrir iólinn, Einar ábóti at Þverá, Nicolás priór á Mödruvöllum, oc prestar adrir fyrir nordann Yxnadalsheidi, oc samtóku af sinni hendi, at Jón prestr Arason at Hrafnagili, skyldi hafa forsión, hald oc medferd á dómkyrkjunni, oc öllum hennar peníngum föstum oc lausum, giördu þeir brèf þar

um, oc sendu til Hóla. Komu þá sàmann á Hólum, á Thómasmessu fyrir iól, Helgi ábóti at Þíngeyrum, oc hinnir hellstu prestar fyrir vestann heidi, oc samþycktu giörníng hinna, þó svo, at þeir settu af sinni hálfu Pètr prest Pálsson, til at hafa rád oc umbod yfir Hóla kyrkiu oc hennar fè, med Jóni presti; oc sèu þeir bádir jafnmyndugir í öllum greinum til nærstu almennilegrar prestastefnu; oc vildu at rádsmadr Hólakyrkiu oc adrir stadarins umbodsmenn, hèldi hverr sínu starfi oc umbodi þángad til, kyrkiunni at skadlausu, oc giördu þar brèf um; stód svo um vetrinn. Voru þeir þá officiales Helgi ábóti at Þíngeyrum fyrir vestann heidi, enn Jón prestr son Finnboga lögmanns fyrir nordann. Þann tíma kom nockud af Borgarhöfn undir Skridu klaustr, oc þá dó Arni ábóti at Þyckvabæ.

## XLVII Cap. Frá vígslu Ögmundar oc ödru.

Um vorid á mánudaginn nærstann fyrir krossmessu, var haldinn
1521 almennileg prestastefna at Eyrarlandi, samþycktu þar officialis, ábótar, oc hellstu prestar allir, at Jón prestr Arason skildi vera rádsmadr oc umbodsmadr Hólakirkiu, oc allra stadarins penínga, med öllum rètti oc rentu sem Hóla rádsmanni ber at hafa, skildi hann hafa fullkomid vald yfir leikum oc lærdum heima á dóm kyrkiunni, oc öllum þeim kyrkiunnar málefnum sem til kyrkiunni falla milli Vargár oc Ullfdalafialla, leysa *poenitentes* er brotlegir verda eda ordid hafa í því takmarki, sækia til sekta, oc dæma yfir kirkiunnar sakfalli, oc eignast siálfr öll XI marka mál oc smærri, enn hin stærri skyldi hann sækia, oc standa kirkiunni oc hennar officiali reikníng af. Hann skal setia rádsmenn oc umbodsmenn til stadarins oc útbúa, halda sveina oc þiónustu fólk á stadnum oc búunum, svomargt sem naudsinlegt er at skadlausu, lúka allar löglegar skuldir af kyrkiunnar fè, oc innheimta þær sem heimta skal. Alla þá sem kyrkiunnar penínga hafa oc halda ránglega, fyrir laungu eda skömmu, skal hann sækja, stefna þeim oc dóm yfir segia, oc láta gialda kyrkiunni rètt, eda semja um med rádi gódra manna; þiónustulaun sín skal hann taka af stadarins peníngum med siálfs síns afhendíngu, svo mikil sem officialis synist vel af haldinn, oc skal svo standa þar til er

erkibiskup í þrándheimi giörir adra skipun á. Qvádust prestar vilia halda þat sem Jón prestr giörir lögliga í umbodum þessum, enn fari hann óhaglega med stadar peninga, edr forsómi þá af sínum vilia edr völdum, meir enn hann hefir borgun fyrir, vilia þeir dæma af hönum umbodid á nærstu presta-stefnu. Skal hann standa réttum officiali reikníng á hverium tólf mánudum, medann hann hefir þat umbod, á þeim stad oc tíma er þeir tiltaka. Ritudu nú ábótar oc klerkar fyrir nordan land Eyríki erkibiskupi í Nídarósi, bædi fráfall Gottskálks biskups, oc hversu afstædist. Þá var Grímur Jónsson á Ökrum í Skagafirdi kosinn til lögmanns á alþíngi, oc sidann af VII lögrèttumönnum í hèradi. Þegar um vorid fór Ögmundr biskupsefni til Noregs, oc Thyli hyrdstióri til at fá forrád alls lands, hann hafdi þá um vetrinn fengid brèf útgèfid af herrum í Hamborg, segia þeir at Henrich Hornemann oc Henrich Vageth hafi þat svarid á alþíngi ádr, á Pètrsmessu oc Páls, at Hannes Eggertsson hafi lofad Thyla XCII gullgyllinum, enn Thyli lofad Ara Andrèssyni í Bæ fiám sínum öllum, oc sakir allar milli Hannesar oc Thyla skyldu nidrslegnar; má af því ráda at þeim Thyla oc Ara hefir nockud í milli farid. Þeim tókst greidlega utanförinn, oc spurdi Ögmundr óvild konúngs til sín, þó fór hann á konúngs fund; hafdi Thyli flutt mál hans í brèfi til konúngs oc erkibiskups, oc vænti eptr fylgis af Ögmundi. Christján konúngr annar hafdi átt fridlu hollenska þá hann var úngr, sú hèt Dyveke, hèldt hann vid hana þartil hann fèck drottníngar sinnar Elizabethar, dóttr Philippusar Spánar konúngs, enn systr Karls keisara hins ríka. Módir Dyviku hèt Sigbrit, hollendsk at allri ætt, oc hafdi fyrri verid eplakona í Amstrdammi, hèllt sídan króhús í Noregi; — var hún miög kæn, oc feck svo mikinn metnad af konúngi, at hann giördi flest at hennar rádum oc vilia, þótt hönum yrdi þat til óvinsælda sídan. Fyrir því leitudu flestir hennar medalgaungu oc tillaga, hverr er vildi heldr bidia af sèr reidi konúngs, edr fá nockud lèni edr gagn; fèck hún jáfnan þat er hún bad um. Ögmundr biskupsefni fór at dæmum annara, oc kom sèr í kunnleik oc þvínæst kærleika vid Sigbritu, tjádi henni öll sín efni oc eyrindi, oc gaf henni annan hlutinn góda, oc mikid gull oc silfr sèr til lidsinnis; lagdi hún þat þá til ráds, at hann skildi hafa hinn lidinn med sèr, þá hún giördi hönum bod at koma fyrir konúnginn, oc bióda

ætladi best færi á vera. Enn sem hún hafdi túlkad mál hans fyrir konúngi sendi hún hönum ord at koma á konúngs fund, hann brá vid skiótt, oc bióst hinum bestu klædum, lèt sæka sèr vín og drack þriá drycki í nafni heilagrar þrenníngar, bad gud láta þad uppkoma sem hönum líkadi hvert sem væri líf sitt eda daudi. Enn sem hann kom fyrir konúng, fèll hann á knè, oc gaf sig oc allt sitt málefni, á hans vald og nád oc rètti hönum lúdrinn. Konúngr tók vid, oc er hann hafdi horft á um stund, spurdi hann Sigbritu hvert hún hefdi sèd slíkann lúdr? hún qvad þat víst vera, kom þá svo langt med þeim at þau vedjudu C dölum at því er mælt er; enn hún síndi þegar sinn lúdr; konúngr spurdi hver henni hefdi fengit? hún svaradi: Islendíngr þessi, herra! oc bad um nád fyrir hann, oc at eyrindi hans mætti fá framgáng, feck hún bæn sína, oc Ögmundr biskupsdæmid, því at Dana konúngar voru ríkari þá, oc rèdu meiru vid klerkana enn Noregs konúngar ádr. Enn þó Ögmundr bæri fram brèf frá Englandi til lidsinnis vid Thyla, fèck hann ecki hyrdstiórnina, oc fór þvínærst til Svíþiódar; giördist hann þá víkíngr, oc kom opt til Islands at ræna; enn Hannes Eggertsson tók vid hyrdstiórn allri. Var Ögmundr vígdr til biskups af meistara Eyríki Valkendorf erkibiskupi í Nídarósi, oc kom út um sumarid eptir á Vestfiördum.

## XLVIII Cap. Giörníngar.

Þau missiri sem Ögmundr biskup fór utann, gaf Christián konúngr landsvist Olafi Ormssyni, er vegid hafdi Skúla Þormódsson; þá nefndu Officiales í Nordrlandi, Jón prestr Finnbogason oc Helgi ábóti, sex presta í dóm at Eyrarlandi, mánudaginn fyrir Philippimessu oc Jacobi, um hiúskap Jóns Hallgrímssonar oc Helenu Þórarinsdóttr. Þann dóm úrskurdadi Helgi ábóti sídann lögleganu, laugardaginn *infra corporis Christi* at Þíngeyrum.

## XLIX Cap. Sveinstada reid.

Teitr hinn ríki bió þá í Glaumbæ, Þorleifsson, Arnasonar, Þorleifssonar í Vatnsfyrdi, er átti Christínu, hann hafdi Húnavatns

þíng, Inga hèt kona hans, Jóns dóttir, einnig komin af gódum ættum. Teitr var mikill fyri sèr oc kappsamr miög í málasóknum. Madr nockur hèt Einar Jónsson, úr Húnavatns þíngi. Sagt er svo ad hann hafi flækst í einhverium sökum vid kyrkiu eda biskup, oc þesvegna verid dæmdr rètt tækr undir skript af kyrkiuvaldinu, enn allir hans peníngar fastir oc lausir fallnir undir Hólakyrkiu at helmíngi; flúdi Einar í skiól Teits, því hann var þá ríkastr madr þar í grend. Teitr tók Einar undir sína vernd oc peninga hans. Jóni presti biskupsefni þótti sèr bera at ná því fè undir dómkyrkiuna oc stefndi þeim málum til Sveinstada þíngs í Húnavatns syslu, fyrir lögmanninn, Grim á Ökrum Jónsson; ridu þeir Jón prestr oc lögmadr oc Rafn, son Brands prests austr á Hofi Rafnssonar, er um þær mundir var syslumadr í Skagafyrdi, med LX edr jafnvel nær LXXX hraustra manna til þíngsins, oc gistu fyrimenn flocksins at Þíngeyrum þá nærstu nótt fyrir stefnudaginn. Teitr sókti oc vestr til þíngsins oc kom á þíngstad fyrri; hafdi hann nær LXXX manna, vel vígra oc tygiadra; — enn er þeir ridu frá Þíngeyrum Jón prestr oc Grímr lögmadr, mættu þeim prestar tveir, oc bádú þá fara varliga; sögdu þeir Teit fyrir, mannadan vel, oc mundi veria þíngstadinn oc hamla því at málinn færi í dóm at því sinni. Þeir Jón prestr oc Grímr lögmadr ridu ei at sidr, til þess er þeir komu at hæd nockurri milli Sveinstada oc Steinness, hvar þeir námu stadar oc setti lögmadr þar þíng þó þar væri ei veniu þíngstadr. Enn er Teitr sá reid þeirra oc áform fór hann þángad med flock sinn allann, oc bad menn sína slá oc stínga sem þeir mætti, hófst hann oc fyrstr til atgaungu. Hinir voru lítt vidbúnir oc hrucku undann. Þar fèll af mönnum Jóns Arasonar Arni, son Bessa Þorláksonar er ádr er gètit, enn þar at auki urdu menn tyu sárir af grióti oc vopnum. Grímr lögmadr vildi stilla, enn fèck ei atgiört fyrir atgaungu þeirra Teitsmanna oc var hann þá sleginn. Hann þreif þá stálboga sinn, oc skant pílu í armlegg Teiti, oc vard hann sár, urdu oc nockrir sárir fleiri, enn vid þat vard hlè á bardaganum; kom þá oc at Helgi áboti frá Þíngeyrum med fiölmenni, oc geck á milli, oc fèck loks skilit þá enn litla þöck fèck hann, oc þó minni laun, af Jóni presti Arasyni, fyri þat starf. Ecki er þess gètid at vígi Arna hafi í þat sinn lyst verìd á Teit eda nockurn hans manna. Enn skömmu sidar

stefndi Jón Arason Teiti Þorleifssyni, til almennilegrar prestastefnu at Flugumyri, nærsta dag fyrir Jónsmessu Baptistæ, fyrir sig oc XII presta dóm sinn, oc kom ei Teitr; enn þær vòru sakir: fyrst ad Teitr hefdi tekid oc haldid alla þá peninga er Einar Jónsson hefdi átt, oc dæmdir voru Hóla kyrkiu; var Teitr dæmdr skyldugr til at gialda þá alla Hóla kyrkiu umbodsmanni Jóni presti, med fullum lagaávexti. I annan máta þat Teitr hefdi vísvitandi keypt Hóla kyrkiu jörd Galltarnes í Húnavatns þíngi; fyrir þat dæmdist hann fallinn í bann, oc skyldugr at taka lausn oc skript, enn gialda dómkyrkiunni fullrètti, nema hann sanni med siöttareydi at hann vissi hana ei vera kyrkiunnar eign. Þat þridja at Teitr hefdi vega látid sinn oc kyrkjunnar þènara, at sèr siálfum ásiáanda oc nærverauda, oc særa oc ófæra giöra sína oc marga kyrkjunnar þiónustumenn, móti brèfi herra Eríks erkibiskups, med hveriu hann hafdi tekid Jón prest Arason oc hans menn, í hins helga Olafs konúngs oc sinn frid oc vernd; var fyrir þat Teitr dæmdr skyldr at fara fyrir erkibiskup innann nærstu XII mánada, oc svara þar rèttum lögum, á þeim stad oc tíma sem hönum verdr skipad um þat mál. Teitur fór hvergi, enn Eyírkr erkibiskup dó á því ári, oc Grímr lèt af lögsögn, enn Teitr tók vid henni, oc fèck á alþíngi um sumarid XII lögrèttumanna dóm á því, at hann væri frí oc qvittr af vígi Arna, ef eckert sannadist med löglegum vitnum eda skilríkjum meira enn þá var komid framm; enn fyrir Sveinstada för, oc ófridar atvik á þeim fundi, tók hann qvittan af Hannesi Eggertssyni hyrdstióra, enn hann átti öll hálf sakfelli á landinu. Var Teitr sídann lögmadr um hríd, oc hèllt þetta fyrir lögvörn sína, móti ákærum Jóns prestr Arasonar, oc einnin Seiludómi Rafns Brandssonar sídar. Jón prests eignadi Helga ábóta á Þíngeyrum óhollustu vid sig í skiptum þeirra Teits, oc bió fyrir þá sök mál til á hendr hönum, oc stefndi hönum til Hóla, fyrir dóm Jóns prests Finnbogasonar Officialis oc XII presta hans, fyrir þat, at í fyrstu hefdi hann ecki lukt þau XX hundrud, er hann gèkk í borgun um fyrir Asgrím Finnsson, oc gialdast áttu Hólakyrkju í sakeyri, eptir reikníngi oc egin handskrift Gottskálks biskups; var þá dæmt at Asgrímr skyldi þau siálfr gialda ef ógoldinn væri í nærstu fardögum, enn Helgi ábóti skilinn vid þá skuld, ef hann hefir enga penínga af Asgrími uppborid, því hann ætti ecki í nockurri ver-

aldlegri borgun at standa um leikmanna mál. Þat var önnur sök, at ei hefdi hann aptr goldid þá penínga, er hann hefdi til láns tekid af Hóla kyrkiu, oc skyldu þeir goldnir í nærstu fardögum. Þat var hid þridja, þat hann hefdi eigi lokid dómkyrkiunni silfr þat er Gottskálk biskup hafdi hönum í hendr fengid. Þat dæmdist hann einnin skyldr at gialda í nærstu fardögum. Fiórda at hann hefdi samneytt þeim mönnum er gripid hefdi hesta fyrir Hóla kyrkiu; dæmdist þat at hann skyldi leida til tvö vitni lögleg, at hann hefdi þat ecki giört, sídann hann vissi þeim sök á gefna. Fimta um samneytn oc styrk er hann veitti þeim mönnum, er vogu Arna Bessason, kyrkiunnar þiónustumann, oc særdu tyu menn adra lærda oc leika; vottudu þá sök tveir prestar, oc adrir fleiri; fyrir þat skyldi Helgi ábóti synia med eydi, eda taka lausn oc skript af Jóni presti Finnbogasyni Officiáli; er þat at siá sem Officialis hafi ei viljad halla á Helga, oc vann Jón prestr Arason þar lítid á.

## L Cap. Utkoma Ögmundar biskups, oc frá ímsu.

Ögmundr biskup kom út, sem fyrr segir, um sumarid, hiá Saurbæ á Raudasandi; þar bió þá Ari Andrèsson Gudmundarsonar, oc Þórdys Gísladóttir Philippussonar, systrdóttir Magnúsar biskups, oc áttu gardinn; var biskup med þeim í viku vid tólfta mann í gódum beina, hann var hinn þrettándi; feck Ari hönum þrettán hesta járnada, reidtygi oc fylgdarmenn sem hann þurfti, austr í Skállhollt. Sídann var vinátta mikill med þeim biskupi jafnann. Þau Ari oc Þordys áttu ecki barn, oc gáfu þau Bæ fyrir Beneficium undir Skálhollts kyrkiu. I þann tíma voru þessir prestar at Stödum í Skálhollts umdæmi, svo menn viti med vissu: Brandr son Rafns lögmanns austr á Hofi, hann var fadir Rafns er þá hèllt Hegraness syslu, oc systkina hans. Jón Gislason í Hollti undir Eyafiöllum, son Gísla Philippussonar í Haga, enn bródir Erlíngs at Briámslæk, Snæbjarnar syslumanns vestra, Helga oc Vígfúsar, Eyólfs mókolls í Haga, Þórdysar í Bæ er Ari átti, oc Gudrúnar austr í Myrdal. Jón prestr var fadir Gunnlaugs oc Gísla er átti Margrètu, dóttr Snorra prests Hiálmssonar, oc Gudnyar er átti Pál son Vígfúsar lögmanns Erlendssonar. Olafr Sig-

mundarson smidr var í Kálfhollti, Stephán Gíslason at Gaulveriabæ, Jón Gíslason bródir hans í Hraungerdi, Felix Gíslason, hinn þridji þeirra í Brantarhollti á Kialarnesi; hann var haldinn af alþídu miög máttugr; þeir voru allir synir Gísla þíngaprests, Olufar ríku, Arnbjarnarsonar Salomonssonar. Gísli hèt sonr Jóns prests, er gètid verdr vid. Jón Einarsson var kyrkiuprestr í Skálhollti, Einar Olafsson á Seltiarnarnesi frændi Stephán's biskups. Olafr Gíslason í Reykhollti, Einar Snorrason Ölduhryggiar skáld af Stad á Snæfellsnesi, Halldór Tyrfingsson í Saurbæ vestr, Magnús son Eiólfs mókolls í Selárdal. Jón Eyriksson Sumalidasonar í Vatnsfyrdi, hann var bródir Sæmundar í Asi. Einar son Sigvalda lángalífs bió austr á sídu, hann átti Gunnhildi, oc var hann fátækra manna, þeirra börn voru Gissr, Þorlákur, Halldór, Jón, Arni, Oddny, giördist hún sídar nunna í Kyrkiubæ. Einar var allra manna hædstr sem fadir hans; hann vard eigi gamall, oc lifdi Gunnhildr eptir kona hans, med börninn vid fátæki; Þá var Halldóra abbadys at Kyrkjubæ, frændkona þeirra, dóttir Sigvalda lángalífs hún var skörúngr mikill, oc qvenna hædst vexti; hún hèllt þeim vid. Gissr var elldstr, oc miög hneygdr til boknáms, audsveipr oc skilníngsgódr, kom Halldóra hönum sídann í þiónustu Ögmundar biskups þá er hann var nockud vaxinn. Einar prestr Snorrason at Stad á Ölduhrygg hèlldt vid Ingirídi systr Stephán's biskups, þeirra börn voru Marteinn, Pètr, Brandr, Nicolás, Þorvardr; hann var yngstr, oc vard seinna baccalaureus í Danmörku, oc dó þar. Gudrún, hennar feck Dadi í Snoksdal, son Gudmundar Finnssonar frá Ökrum; Gudlaug, hún giptist enskum manni þeim er Robert hèt, er tvo vetr hafdi verid vetrtökumadr at Stad med Einari presti; var brudkaup þeirra haldid í Rifi á kost enskra, oc lögdu þeir samann af IX skipum, oc gáfu tunnu víns af hverju, stód veitslan hálfann mánud; fóru þau Robert oc Gudlaug hid sama sumar í England, oc Marteinn med þeim IX vetra, geck í skóla, lærdi latinu, oc málverk, oc vard vel at sèr í þeirri kunst; þeir voru hálfbrædr Marteins at móderni, Erlendr, Nicolás oc Magnús, synir Jóns smids Audunarsonar er Ingiridr átti fyrri, oc allra manna var hagastr á allt nema silfr, oc bió á Öndverdunesi. Erlendr var fadir Ingirídar í Túngu í Auddarsveit, enn Nicolás fadir Bergs prestr í Vestmannaeyum. Jón prestr Gíslason er fyrri var gètid, bió í Flóa, fylgikona hans hèt

Vilborg Þórdardóttir, oc vár þeirra son Gísli; dó Vilborg þar, enn Jón prestr fór med syni sínum til Ulfliótsvatns í Grafníngi, til eckju einnar, oc bió þar lengi med henni. Alexius Pálsson var þá prestr at Þíngvöllum, er sídar vard ábóti, til hans kom Jón prestr Gísla syni sínum í kennslu, oc ólst hann upp á Þíngvelli þartil er hann var X vetra, oc var þad nú er hèr var komid, enn sumir segia þar til er hann var sextán vetra, oc færi þá til Ögmundar biskups. Olafr hèt prestr einn, son Hiallta Arnkèlssonar, þess er umgètr í æfi Olafs biskups Rögnvaldssonar; Hiallti vard gamall madr, nær hálf-nyrædr, enn Olafr gèck í skóla utanlands á úngdóms-árum, sumir segia í Biörgvin; enn adrir í Hamborg, oc er þat líklegra, því at hann fèck kynníngu Luthers, enn lèt ei á sèr merkja í landi hèr; hann skildi latínu, enn taladi midr, var þó málframr oc tölugr; hann vigdist til prests ádr Gottskálk biskup dó, því at Jón prestr Finnbogason Officialis útnefndi hann med ödrum prestum í dóm, midvikudaginn eptir Matthiasmessu á Hólum, um ákærur Jóns prests Arasonar rádsmanns Hólakyrkiu, til Helga Höskuldssonar ábóta á Þíngeyrum, oc var um þann dóm gètid fyrir skèmstu; hann var oc med þeim prestum fyrir vestann heidi er ritudu Einari ábóta at Þverá, Nicolási priór, oc ödrum prestum fyrir nordann heidi, at fyrir kyrkjunnar naudsyn hefdi kosid Jón prest Arason at rádsmanni Hólastadar, oc til Officialis síns til nærstu prestastefnu. Þat vildi Jón Arason ecki undirgángast nema allra þeirra vilji væri til, oc því bádu þeir hina fyri nordann samþyckia þetta med sèr, er þeir viti hann best tilfallinn. Kom þá svo at allir urdu samþyckir at Jón prestr væri bædi rádsmadr oc Officialis, þvíad hann var höfdíngi mikill, oc hafdi mannhylli, ör oc málsniall, skáld gott oc gledimadr mikill; enn þetta var allt á einum missirum, oc útkoma Ögmundar biskups. Þá ættleiddi oc Jón prestr börn sín fiögr, Ara, Magnús, Biörn oc Þórunni, oc skyldi Þórunn hafa iafnt vid brædr sina, enn Halldóra Magnúsdóttir samþyckti, módrsystir hans. Þá tók af tvo bæi eystra fyri snióflódum, oc þá vígdist Helgi prestr Jónsson frá Hvammi í Nordrárdal til ábóta í Videy á Lúcasmessu, oc gaf Hvamm, Galltarhöfda oc Sanddalstúngu Ögmundi biskupi oc Skálhollts kyrkiu, hvert sem biskup vildi vera láta Beneficium edr Skálhollts eign; kaus biskup at væri beneficium. Þar med gaf Helgi kyrkjunni í Hvammi XX málnytu-kúgildi, oc X hundrud í

þarflegum peníngum, enn þá fèll nidr allr portíónareikníngr, er fyrir XIV árum hafdi verid XXVII hundrud, oc hvad vid aukist hafdi sídann. Videyar klaustri gaf hann XL hundrud í jördinni Nordtúngu í Þverárhlíd, oc XX kúgildi. Jóni Helgasyni sonarsyni sínum gaf hann Dyrastadi XXIV hundrud, Gèststadi XI hundrud, oc V hundrud í Desey; enn Helga Helgasyni bródr hans Hamar í Þverárhlíd XVI hundrud, Grísartúngu í Stafholltstúngum XXIV hundrud, oc hverium þeirra fyrir sig XX hundrud í kúgildum, oc þarflegum aurum; systrum sínum þremr, hverri fyrir sig V hundrud, enn fátækum þad er afgángs var, oc hafdi þó gèfid ádr góda oc þarflega peninga Videyar klaustri.

## LI Cap. Kosning Jóns Arasonar, oc kapp Ögmundar biskups.

A því sumri fengu Nordlendíngar brèf med innsiglum kórsbrædra í Nídarósi, oc gáfu þeir þeim fullt vald at kiósa sèr biskup at Hólum, hvern er þeir vildu, oc sæi best tilfallinn; kusu þá allir prestar fyrir nordann land Jón Arason, nema Pètr prestr Pálsson, er hid fyrra árit var Hólastadar rádsmadr med Jóni presti. Bödvar prestr fann þat til at Jón kynni ecki latínu er hellst var tídkud; hann qvad:

Latína er list mæt, lögsnar Bödvar!
í henni eg kann ecki par Bödvar!
til nauda hefir nóg tiád nu þar, Bödvar!
þótti mèr þó rètt þitt svar, Bödvar!
:|: míns ef væri módrlands málfar, Bödvar! :|:

ecki fór Jón Biskupsefni utan á því missiri; þá var Erlendr son Þorvards Erlendssonar lögmadr ordinn sunnan ob austan, oc vard hann þad fyrri enn Teitr nyrdra; enn þat er at segia frá Ögmundi biskupi, at þá er hann var útkominn, sem fyrri greinir, oc hafdi fengid af kórsbrædrum í Nidarósi vald til at vera umbodsmadr yfir Hóla kyrkiu, oc öllu hennar fè, oc *administrator* biskupsdæmisins, þá setti hann eptir sinni vild officialem yfir nordrland, oc rádsmann fyrir stólinn, oc svo umbodsmenn sína nyrdra, enn stód í móti kosníngu Jóns Arasonar, oc vildi ónyta, enn kiósa aptr til biskups vel-lærdann mann framadann, Jón prest, son Einars Þorólfssonar, sem hyrdstióri hefir verid kalladr, frá Hofstödum í

Miklaholltshrepp', oc Katrínar Halldórsdóttr ábóta at Helgafelli Ormssonar, bródr Orms er Erlendr vo; giördist þá rostusamt fyrir nordann land enn nordlendíngar hèldu at nyu samkomu fiölmenna at Hólum, næsta dag eptir Símonsmessu um haustid, ritudu þar ábótar oc prestar Hólabiskupsdæmis, XXIV ab tölu, mótmæla oc protesterunar brèf til erkibiskups, oc kórsbrædra í Nidarósi, móti Ögmundi biskupi oc hans giörníngum í Hóla umdæmi, oc innsigludu þat, þess innihalds: at í. fyrstu hafi þeir fengid vald til at kiósa biskup siálfir, ádr Ögmundr biskup kom út, oc þat hafi þeir giört; því næst sè þat ljóst af gömlum skilríkjum, at Hólakyrkia hafi iafnan fengid skada af Skálhollts biskupum, þá þeir hafi haft hennar forrád, hafi þeir tekid frá henni mikla penínga oc ecki aptr lagt; í þridja lagi haldi Ögmundr biskup peníngum Hóla dómkyrkiu, ei minna verdum enn työ hundrud tólfræd rínsk gyllini, er gèfid hafi verid hinum góda Gudmundi biskupi; oc þótt hinn verdugasti fadir Eyrikr erkibiskup hafi med innsigludu brèfi bodid, at skila aptr þeim Gvöndar-peníngum, haldi Ögmundr biskup þeim inni; í fiórda máta hafi hann, án þeirra samþyckis, skipad yfir þá umbodsmann oc officialem, fyrir því afsegi þeir allir þat Ögmundr biskup hafi nockr umrád Hóla kyrkiu oc hennar eigna, oc skióti sèr undann hans oc allra hans prælata oc presta dómum, enn undir dóm oc vald erkibiskups, oc hans capitula rád oc umsión, qvádust hid fyrsta vilia senda sinn útvalinn formann Jón prest Arason til Þrándheims dómskyrkiu Capitula, med varnir sínar þessar; enn med eyrindum Ögmundar biskups hafdi farid Pètr prestr Pálsson, af óvild til Jóns Arasonar. Enn af þessu öllu samann, vóx miög óþocki med þeim Ögmundi biskupi oc Jóni biskups efni; kènndi Ögmundr biskup Jóni þau mótmæli er prestar veittu hönum oc hans umrádum; var hann miög stórrádasamr, því at ecki stód hönum uggr eda ótti af leikmönnum í Skálhollts biskupsdæmi, hafdi Stephán biskup nidr lægt alla stórmensku þeirra, oc vildi hann hafa Jón prest Einarsson, er hönum var handgenginn, at biskupi á Hólum; hugdi sèr dælla oc audveldara at ráda med hönum enn Jóni presti Arasyni, oc fyri því setti hann forrádamann nyrdra sem ádr segir, enn þat var miög óþockad af Nordlendíngum; enn sem Ögmundr biskup vissi rádagiördir þeirra, leitadi hann vid af öllu afli at hindra kosníngu oc utanför Jóns Arasonar, enn þó Jón væri kappsamr einnin, í fór hann kænligras

oc sló undann stórmennsku Ögmundar biskups í sumum greinum.
1523 Ögmundr biskup fór á medann um austfyrdínga fiórdúng, oc kom at Hofi í Vopnafyrdi til Brands prests Rafnssonar, hann hèt at láta tvö kúgildi med hverri stadarins jördu þá hann sleppti. Þá fèll Róma-skattr talinn á nagla þar eystra, í kyrkiubæar þíngum CVI naglar, í Asþíngum XCV, í Hofteigsþíngum LIII, oc í Skeggiastadar þíngum LIV naglar, oc svo at því skapi vídar.

## LII Cap. Frá Ögmundi biskup, Thyla oc ödru.

Þau missiri var Christián annar Dana konúngr rekinn af ríki, enn Fridrikr födrbródir hans tók vid; þá giördist Olafr Engilbertson erkibiskup í Nidarósi; Vígdi þá Ögmundr biskup ábóta til Þyckvabæar, Kolgrím prest Kodransson frá Valþiólfstad; giördist med þeim kærleiki, oc tók biskup son hans sèr til hins hellsta sveins, sá hèt Eiólfr, mikill madr oc sterkr, oc ofláti. Þat sumar kom Thyli Pètursson, oc fór at hitta Hannes hyrdstióra; hann braut upp kyrkiu á Bessastödum oc önnr hús, oc rænti konúngs eignum oc annara manna, enn handtók Hannes, oc flútti út í hólm, oc hèllt þar hálfann mánud; dæmdi þá Erlendr lögmadr Þorvardsson á Strönd med XII mönnum í Kópavogi, laugardaginn eptir helgu viku, Thyla dræpann fyrir slíkann hernad; enn hann fór þá um sinn til Svíþiódar med herfáng sitt. Ögmundr biskup ákærdi Laga-Audun son Sigurdar. Sveinbiarnarsonar fyrir fylgi vid Jón Arason, oc dæmdi af hönum LX merkur; hann ákærdi einnin oc dæmdi í sektir Jón Einarsson fyrir ímsar sakir. Einnin dæmdi hann XC merkr af fè Vígfúsar lögmanns Erlendssonar er vinr hans hafdi verid, til sín, oc iafnmargar til Skálhollts kyrkiu, enn LX merkr fyrir kyrkiugaungu, fyrir þat er hann hafdi fengid Salgèrdar Sniólfsdóttr í fiórmennings meinum, enn allt hans fè upptækt fyrir kyrkiugaungu, oc var hann þá dáinn. Þau voru börn Vígfúsar Páll at Hlídarenda, oc Gudrídr er átti Sæmund Eyriksson at Asi, Kristín er hèldt vid Magnús son Jóns biskups, oc Anna er sídar átti Hiallti Magnússon í Teigi, enn laundætr Ingvildur oc Gudrún. Gèngu dómar á alþíngi um Sveinstada reid, oc var þar einn fyrir svörum Grímr Jónsson er lögmadr hafdi verid; oc svo presta dómar er Ögmundr biskup lèt útnefna í málum þeirra Jóns Arasonar er ádr var gètid, þá fór framm einn vitnisburdr um Hvallátr jördu

Biarnar Þorleifsonar; er gètid þess at Loptr Ormsson fadir Pètrs hafdi giört fyrrum heimreid oc fiár upptektir í Máfahlíd fyrir Þorleifi hyrdstjóra födr Biarnar á Reykhólum.

## LIII Cap. Vidreign Ögmundar biskups, oc Jóns Arasonar.

Jón prestr Arason ætladi nú utann med þískum, enn þeir urdu sídbúnir um haustid, oc komst hann ei utann; lá skipid í Kolbeinsárósi um vetrinn, eun skipveriar voru XX heima á Hólum; 1524 þótti þà Ögmundi biskupi ecki óvænkast sítt ráð, oc sendi nordr Olaf prest Gilsson, med forbodsbrèf at lesa yfir Jóni presti oc byrta hönum. Olafi presti þótti uggvænlegt at fara heim at Hólum med þann bodskap, reid hann í Vídirnes, oc giördi biskupsefni bod at hitta sig þar. Jón prestr Arason giördi hönum ord í móti, at hann mundi koma hinn nærsta dag, lèt hann þá leggia klædi sín, húfu oc strút sem þá var tídt at bera, yfir Þorstein prest Gunnason Hólaskálds, oc fara til fundar vid Olaf prest med alla sveina sína, oc Ara son sinn, hann var þá halfvaxinn sveinn; oc er þeir hittust, hugdi Olafr at Þorsteinn prestr mundi vera biskups efni, hneigdi hönum miög, oc lèt hatt undir hönd sèr, leitadi púngs síns, oc tók uppúr brèf Ögmundar biskups, oc afhendti Þorsteini; í því fèll nidr hattr hans, enn Þorsteinn prestr skipadi Ara af valdi at taka upp, oc svo giördi hann, mæltust þeir fátt vid, oc skildu svo at Olafi var heitid svari at morgni. Þorsteinn prestr sá rád fyrir brèfinu, svo biskupsefni sá þat aldrei, enn ritadi þó Ögmundi biskupi afsökunar brèf, oc vísu fyrir nedann, oc er þetta upphaf at:

Vasadi í Vídirnes valinn til at bera skial
enn þetta er nidrlag:
Setti nidr sinn hatt, þá sveininn fann hann Þorstein,

sá þá Ögmundr biskup at brögd voru vid höfd, oc líkadi stór illa; fyrir því sendi hann til Hóla nordr Pètr prest Pálsson vin sinn, enn er hann kom til Hóla, var hönum fylgt í arnarstofu, oc beid þar nockra stund, enn á medann reid Jón prestr Arason á braut

af stadnum nockud í syslu sína, oc vard ei meira hans eyrindi. Þá sendi Ögmundr biskup Jón prest Einarsson er hellstr var; hönum tók Jón Arason ágætlega, oc sló upp veitslu fyrir hönum oc hans mönnum, enn hverki vard af brèfalestri nè afhendíngu, oc urdu ferdir þær ónítar; enn er leid ad páskum sendi Jón prestr Arason svein sinn Olaf Ormsson, er sídann var í Dal, med fridmælíngar brèfi í Skálhollt, tók Ögmundr biskup vel vid hönum, oc lèt setia hönum dryckiu bord í einni stofu um páskirnar, oc tvo sveina sína vera hiá hönum, enn seint á fiórda í páskum hvurfu sveinarnir; frètti Olafr um morguninn eptir af ófródum mönnum, at biskup hefdi í gær ridid med fiölda manna nordr til Hóla, nádi hann seint hestum sínum; enn reid sídann sem mest mátti hann, oc nádi flocki biskups á Mælifellsdal, reid hann hiá þeim framm, oc sídann yfir Iökulsá at Þverá, þadann framm Vindárdal at Kiarvalstödum, oc svo heim til Hóla, oc sagdi hvad tídt var; voru þá hinir þísku menn komnir til skips síns, oc reid Jón prestr þá þegar af stadnum, ofann til þeirra, í Kolbeinsárós; lág svo nær at Ögmundr biskup mundi festa hendr á hönum, at hann fór hiá Skúfstödum, med CCC manna, þá biskupsefni reid hiá Ási, sendi hann þá hinum þísku forbod at flytia Jón prest Arason utann, ella qvadst hann koma mundi, oc hrekja bædi þá oc hann; enn þeir lètu aptr þau ord í móti koma, at þeir þyrdu at siá hann oc hans menn, oc mundu hverki spara þeim púdr nè lód medann til ynnist. Þá lèt Ögmundr biskup hardt bod útgánga, at enginn skyldi dyrfast at fá þeim kost eda nockra hiálp; biskup lá í arnarstofu á Hólum, oc lèt sveina sína XII vaka yfir sèr hveria nátt; enn Jón prestr Arason sendi Magnús klerk vid þridja mann, heim at Hólum eina nótt, at lesa yfir Ögmundi biskupi stefnu framm fyrir erkibiskup, uppá þeirra mál. Magnús var alkunnugr, oc fór hid efra til Hóla, svo einginn vard var vid, fyrrenn hann kom á arnarstofu glugga, oc las þar stefnuna yfir biskupi, oc fèck fylgdarmönnum sínum; fóru þeir sama veg aptr til skips, enn biskup vaknadi vid óþægann yfirlestr, oc kalladi á sveina sína; ætludu þeir þá at grípa Magnús heldr hvatlega, enn hann strauk inní stöpulinn, oc beid þess at kyrkiunni væri lokid upp, komst hann inní hana, oc allt í biskups kapellu, þar heldt hann sig, oc hafdi ærid at vinna at veriast ásókn biskupsmanna. Um máltíd voru tveir menn settir at varda stöpulsdyrnar; læddist

hann þá út, oc komst upp um stigann á stöpuls loptid, oc nádu þeir hönum ecki þadann; um nóttina eptir var haft vardhald á kyrkiunni, enn Magnus komst þá útum gluggann ofann á útbrotid, rendi sèr sídann ofann kyrkiustodina, oc slapp svo til sinna manna. Nú treystust ei hinir þísku menn oc biskupsefni at liggia lengr; lögdu í haf nær kostlausir; var Olafr prestr Hialltason med Jóni Arasyni oc capellan hans; þeir fengu vedr mikil oc rak undir Grænland, komust þeir þadann med stórum áheitum til Húsavíkr innan XIV daga, oc fengu þar kost hiá Þorleifi Þorgrímssyni, hann var fadir Asgríms á Nesium, oc þat hygg eg at Þorgrímr í Lögmanshlíd væri oc hans sonr. Þadann lètu þeir í haf til Noregs, oc urdu vel reidfara.

## LIV Cap. Frá Ögmundi biskupi, oc vígslu Jóns Arasonar.

Ögmundr biskup sat á Hólum framm eptir vorinu, oc skipadi ímsu at sínum vilja; setti hann *Administratorem* oc fullkominn umbodsmann yfir Hóla biskupsdæmi; enn Pètr prest Pálsson vin sinn skipadi hann rádsmann kyrkiunnar. Jón prestr Finnbogason var þá kominn at Mödruvöllum, oc var þar príór sídar enn. Finnbogi prestr Einarsson Isleifssonar var Officialis í hans stad fyrir nordann heidi; skipadi Ögmundr biskup þá almennilega prestastefnu at Vídivöllum í Skagafyrdi, mánadaginn nærstann fyrir Barnabæ messu; þángad stefndi Finnbogi prestr Officialis, at hans skipan, öllum lærdum mönnum á millum Yxnadalsheidar oc Helkunduheidar, enn stefnann var útgèfinn at Múnkáþverá fimtudáginn fyrir Jónsmessu Hólabiskups. A þeirri prestastefnu þraungvadi Ögmundr biskup öllum prestum nyrdra, til at taka aptr kosníngu þeirra um Jón prest Arason, enn kiósa aptr Jón prest Einarsson, nema Nicolási presti Vilhiálmssyni at Mælifelli rádsmanni Hólastadar, oc Thómasi presti Eyríkssyni, þeir lètu eigi kúgast; vard Nicolás prestr fyrir svo mikilli ásókn biskupsmanna, at hann fór fyrir háalltarid í Hólakyrkiu, lèt stadar lyklana uppá skrínid, oc tók mikinn kníf í hverja hönd sèr, oc vardist þadann sem hann mátti, þartil er þeir báru at hönum

þófa, oc handtóku hann svo, oc drógu úr kyrkjunni, höfdu sídann af stadnum brott í hrosstagli, allt framm á Mælifellsdal, þó gèck hann þeim aldrei til handa, oc slepptu þeir hönum sídann eptir miklar hrakníngar; enn Ögmundr biskup sendi Jón prest Einarsson utann til Noregs med þessa kosníngu, oc allar sakargiftir sínar, dóm oc forbod á móti Jóni presti Arasyni. Komu þau mál fyrir dóm Olafs Engilbertssonar, erkibiskups, oc var ein sakargift at Jón prestr hefdi stolid öllu silfri Hólakyrkju, oc haft á brott med sèr, enn þó hennar sè eigi gètid í dóms-brèfi erkibiskups; bar Jón prestr framm vitnisburdi Nicolásar prests rádsmanns, oc Thómasar prests, at þat væri allt í Hólakyrkju nidrgrafid oc geimt; oc med vidlíkum hætti eiddi hann flestum þeim sakargiftum, svo at þær ónyttust í Nidarósi, oc fèck Ögmundr biskup af óvyrdíngu; enn þó mönnum þætti Jón prestr Einarsson betr til biskups fallinn fyrir lærdómsökum enn Jón Arason, voru Nordlendíngar látnir ráda kosníngu sinni, oc fèck Jón Arason biskupsdæmi oc vígslu, oc svaradi Olafr prestr Hialltason spurníngum erkibiskups fyrir hann, því hann kunni ecki latínu mál, enn er hann gèck frá erkibiskupi eptir vígsluna, fèll af hönum mytrid; sveinar hans tóku þad upp med skyndi, oc mæltu: þat fòr ílla herra! at svo tókst til, hann svaradi: svo mun falla nidr med skyndíngu biskupsdómur minn; jafnann voru þeir Jón prestr Einarsson miklir vinir; hann var kyrkjuprestr í Skálhollti eptir þat, oc sídann í Odda, oc þótti jafnann mikilsháttar. Var þá Jón Arason fertugr er hann tók biskups vígslu.

## LV Cap. Vatnsfiardar mál.

Nú verdr þar til at-taka, sem frá var horfid eptir andlát Stepháns biskups, at Ragnhildr Biarnadóttir eckia Biarnar Gudnasonar hafdi sættst vid biskup um sektagiald, enn feck ei goldid allar sektirnar ádr hann dó; beiddist þá Ögmundr biskup, oc krafdist þeirra peninga er á skortu, oc geck ríkt eptir; hèt at láta grafa Biörn Gudnason upp, med því hann dó í banni, ef ei væri ríflega goldid, fèck þá Ragnhildr hönum Hvamm í Hvamms sveit forfedra eign Biarnar, oc Asgard, oc fleiri jardir adrar. Biörn Þorleifsson hafdi stefnt Ragnhildi oc börnum hennar til alþíngis

eitt sumar fyrir Vígfús lögmann Erlendsson, fyrir rángleg hald á eignum þeim er þeir Biörn Gudnason deildu um, frammbar hann þá tvö konúngsbréf fyrir eignunum, Christiáns fyrsta oc Hans, enn Ragnhildr lèt bera fram þriú eda fiögr brèf Christiáns annars, er hún hafdi fyrir sèr; hafdi Vígfús lögmadr dæmt málid oc málspartana fram fyrir konúng og ríkisrád hans í Noregi, fyrir nærstkomandi iól at forfallalausu, oc undir hans úrskurd hver brèfinn skyldu gyldari vera. Ragnhildr sendi þá þegar um Sumarid brèf sín fyrir Christián konúng annan, oc fèk stadfestíngu hans uppá þau sem fyrri, enn Ögmundr biskup hafdi tekid at sèr brèf Biarnar Þorleifssonar, oc borid þau framm þá hann fòr utann til vígslunnar fyrrum fyrir ríkisrád konúngs í Biörgvín oc Oslo, oc allt mál Biarnar, einnin fyrir erkibiskup í Nidarósi, oc studdi trúlega mál Biarnar Þorleifssonar; fèck hann þá nyann stadfestíngar úrskurd allra þeirra giörnínga, oc hans brèfa. Enn þetta jók allt þrætuna sèm von var til, því at hverir hèldu fram sínum brèfum til þrautar, oc mæltust þó alldrei vid fyrir hinum sama höfdíngia, nè heldr lögdu í giörd; því at miklu var þá meira kapp vid haft enn sanngyrni, oc atferd ólík því er fornir menn höfdu á landi hèr er þeir lögdu mál til laga. Risu af ákiærur hver at aunari, oc gripdeildir oc fiár upptektir, milli þeirra Biarnar Þorleifsonar oc erfíngia Barnar Gudnasonar. Biörn Gudnason hafdi tekid alla penínga fasta oc lausa eptir Jón Dan módrbródr sinn, launson Biarnar hins ríka, sem lögerfíngi, eptir þeim konúngsbrèfum sem hann þóttist fyrir sèr hafa; enn Biörn Þórleifsson þóttist standa nær arfi eptir födrbródr sinn, eptir konúnga brèfum þeim er hlíddu uppá skilgètníngu hans oc systra hans, gaf hann því syni sínum Þórleifi presti í arflausn móts vid önnr börn sín, nockrar af þeim jördum sem Jón Dan hafdi átt, Sæból med algiörfu oc Villíngadal, Brecku oc enn fleiri, er börn Biarnar Gudnasonar hèldu. Torfi son Biarnar Gudnasonar var þá tvítugr, hönum stefndi Þorleifr prestr son Biarnar Þórleifssonar til alþíngis, undir dóm Ögmundar biskups, fyrir hald á jördum þessum oc peníngum; dæmdi Ögmundr biskup þar á presta stefnu almennilegri, fimtudaginn næstan fyrir Pètursmessu, Torfa, oc þá sem hèldu Sæbóli oc öllum þeim jördum, skylda til at skila þeim aptr, oc svo frídum peníngum, hverutveggiu med laga ávexti, Þórleifi presti í hendr, innan hálfs mánadar at heyrdum dómin-

um; einnin dæmdi hann Sigrídi dóttr Biarnar Gudnasonar skylda þeim jördum aptr at skila, Gèrduhömrum, Arnarnesi oc Skaga, oc öllum þeim er vóru af eignum Jóns Dans oc þau systkin hèldu, med landskuldum, tollum oc lága ávexti öllum, innan hálfsmánadar at heyrdum þeim dómi; enn ef þau vildu ei þat, skyldi Þórleifr prestur meiga at sèr taka jardir þær oc penínga þar sem stædi; eptir þat stefndi Torfi Byrni Þórleifsyni utan, oc fyrir Fridrik konúng, oc fór utan siálfr, enn ecki fór Biörn Þórleifsson, oc enginn af hans hendi. Fyrir því fèck Torfi stadfestíngarbrèf konúngs uppá sín mál; sídan dó Torfi; enn brèfinn komu úthíngad ei at sídr, oc vóru lesinn upp á alþíngi í lögrèttu; var þeim þó ecki sinnt, oc kèndu þat nidjar Biarnar Gudnasonar magt oc ríki Ögmundar biskups, því hann efldi Biörn Þórleifsson í öllu því máli — var þó at kènna siálfum þeim, er þeir fylgdu málum sínum med slíku kappi, at ecki urdu lyktir á deilunum.

## LVI Cap. Ætt Ögmundar biskups.

Ögmundr biskup keypti Stadarhól í Saurbæ af Thómasi bónda Oddssyni þau missiri sem Jón Arason fór utann, eda tók XXXIV hundrud af gömlum kyrkjureikníngum er Thómas átti at lúka; (enn þótt annarstadar meigi heyra at Stadarhóll væri eign Pètrs Loptssonar oc hans frænda), þar til lagdi Ögmundr biskup Gilsfiardarmula med VI kúgildum fyrir XXX hundrud, oc giördi sídan beneficium, þó þat væri eigi lengi, enn hálfa Glerárskóga oc fleiri eignir lagdi hann til Hvamms í Hvamms-sveit. Eyvindarmúla hafdi Ögmundr biskup fengid Hólmfrídi Erlendsdóttr í Dal fyrir Sandgerdi. Gudmundr Þorvaldsson hèt madr er hönum fèck arf eptir Finn Þorvaldsson módrfödr barna sinna nordanlands, þat voru LXXX hundrud í jördum oc eitt hundrud hundrada oc XXXV hundrud í lausafè, enn gull oc silfr oc búshlutir ad auki, því at frændr barnanna vildu svipta þau arfinum, enn biskup baud at læra einn son Gudmundar til prests, ef hann væri tilfær. Thómas bóndi Oddsson sá er ádr er gètid átti Hvol oc eyarnar, hann var son Odds Sigurdarsonar Geirmundarsonar, þess er bródir var Olafs Geirmundarsonar á Raudamel, enn dóttrson Olafs Tóna; enn módir Thómasar var Oddny Finnsdóttir, systir Arnórs á Ökr-

um oc Gudmundar födr Dada. Thómas átti Gudrúnu dóttr ríka Fúsa Þórdarsonar á Borg; þeirra son var Oddr fadir Biarna á Skardi, enn bródir Thómasar var Sigurdr í Búdardal, fadir Jóns rebba. Ögmundr biskup gaf þá til giptíngar Jóni systrsyni sínum, vid Sigrídi dóttr Halldórs prests Tyrfíngssonar, eitt hundrad hundrada, voru þat Breckr bádar, oc hálf Saurbæar fiara, fyrir XX hundrud, oc XLIV hundrud at auki, var haldid brúdkaup þeirra. Jón sá var Þórdarson, oc bió at Hvoli, enn Elin módir hans var systir Ögmundar biskups; Jón átti fiölda barna, oc er frá hönum mikil ætt, var nafnkendastr hans sona Gudmundr at Hvoli, fadir Jóns prófasts í Hytardal, oc margra annara. Egill hèt bródir Ögmundar biskups, hans dóttir var Ingvildr módir Jóns Þórissonar í Flóa, födr Kaupa-Þóris. Salny systir Ögmundar biskups, átti Sniólf bónda í Asi, son Brands prests Rafnssonar at Hofi, enn sídann Torfa Þórgrímsson, hann sóadi fè þeirra. Asdys þridia sistir Ögmundar biskups átti Ejólf Jónsson á Hialla, þeirra börn voru Sigmundr biskup, oc Þórólfr, Páll, Olafr oc Oluf. Sigmundr var prestr fyrst í Hytardal, oc tók med stadnum fylgikonu Þórdar prests Einarssonar frá Hofstödum Þórólfssonar, Þurídi hina stóru Einarsdóttr, þeirra dóttir var Katrín. Þórdr prestr var bródir Jóns prests Einarssonar, vóru börn hans oc Þurídar Jórun kona Þórdar lögmanns Gudmundarsonar, oc Þórun kona Finnboga prests austr á Hofi. Sídast hèldt vid Þurídi Oddr son Gottskálks biskups, oc var þeirra son Pètr; sídan feck Oddr hennar, oc lifdi hún V árum lengr, enn þad var laungu seinna enn hèr var komid. Þórleifr átti Margrèti laundóttr Erlendar lögmanns Þórvardssonar á Strönd; þeirra börn Þórvardr á Sudr-Reykium, Sigmundr at Hofi á Rángárvöllum, Þórun sídari kona Erasmusar prests Villadtssonar at Breidabólstad, oc Vigdys er átti Þórlák Einarsson at Núpi bródir Gissurar biskups. Jardþrúdr átti Ján prest Kráksson í Gördum. Páll Ejólfsson bió í Hialla, hann átti Gudrúnu laundóttr Vígfúsar lögmanns Erlendssonar frá Hlídarenda. Olafr Ejólfsson bió í Backárholti í Ölvesi, enn Sturla átti Laugardal í Tálknafyrdi. Oluf Ejólfsdóttir átti Eyrík at Asi í Fellum son Sniólfs Brandssonar prests at Hofi, Rafnssonar lögmanns þess er deildi vid Olaf biskup Rögnvaldsson, Brandssonar á Bardi Halldórssonar.

## LVII Cap. Líflát Thyla; hyrdstjóraskipti.

Þat Sumar hid sama sem Jón Arason var útann, vár Hannes Eggertsson hyrdstióri staddr á alþíngi, at eyrindum konúngs; kom þá Thyli í Hafnarfiörd skiptafèlagi hans, oc braut upp Bessastada kyrkiu oc önnr hús, oc rændi bædi vöru oc sköttum konúngs er þar voru, oc lèt flytia á byrdíng er hann hafdi med sèr; þetta fretti Hannes, oc fór sem skjótast heim, safnadi at sèr Islendíngum, oc þískum kaupmönnum, oc lagdi at skipi Thyla, oc vann þat; var sídann Thyli afhöfdadr, oc lauk svo hans æfi; enn Hannes fór útann med konu sína Gudrúnu dóttr Biarnar Gudnasonar, oc voru þau um hríd í Altóna á Stórmari nærri Hamborg, enn sá hèt Johan Pètursson er útkom þá med hyrdstiórn. Þá hafdi Sæmundr Símonarson syslu í Þíngeyar þíngi, eda var umbodsmadr Gríms Pálssonar; hann lèt gánga XII manna dóm at Helgastödum í Reykiadal; um ákæru sína til Bergs Runólfssonar, í umbodi Asgríms Hallsonar, uppá arf, vegna Steinunnar Andrèsdóttr konu Asgríms, eptir Jón prest Andrèsson, er Bergr hafdi í setst dóttrmadr Jóns prests; mistu Sæmundr oc Asgrímr arfsins, enn Bergi dæmdist hann, oc Nicolási syni hans, eptir módrfödr sinn. Sæmundr var fadir Kárs födr Sæmundar prófasts í Glaumbæ. Þá dæmdi Ögmundr biskup í Skálhollti um mál þeirra Jóns biskups; einnin dæmdi hann sektir Olafi Asbiarnarsyni fyrir hórdom, hyrduleysi í syslan sinni dómkyrkiunnar vegna, dryckiuskap oc adrar sakir; þá var giör vyrdíng í Fagradal á arfafè eptir Ivar Narfason, enn Narfi Sigurdarson hèllt þat umbod; oc þá nefndi Pètr prestr Pálsson presta í dóm at Vidívöllum, um ákæru Solveigar Rafnsdóttr abbadysar at Stad í Reininesi til Jóns Gudmundarsonar; enn Þórleifr Þórleifsson arfleiddi börn sín Þorgrím oc Sesseliu til alls arfs, oc Asmund oc Jón til XX hundradra hvern. Ögmundr biskup fèck þá í hendr Byrni Þorleifssyni erfdafè eptir Jón Dan, enn hann hèt at láta þat vera óákært sem undir kyrkjuna var komid; fór þat framm at Reykhólum mánadaginn nærsta fyrir maríumessu sídari, oc voru þar hellstir vottar at Jón prestr Eyríkeson í Vatnsfyrdi, oc Olafr bóndi Gudmundarson í Þernuvík.

LVIII Cap. Vetrarríki; oc frá Ögmundi biskupi oc Teiti.

Vetr þann er þá fór í hönd giördi hardann med áttadegi, oc var 1525
því kalladr áttadags vetr, hèldust hardindi til sumars; þeir sem áttu CCC fiár um haustid, eda meira, sem Jón prestr Egilsson segir verid hafa flesta menn í Grímsnesi, hèldu eptir hid mesta X eda XXX saudum. Svo mikil frost voru, at hestar stódu daudir, frosnir í hel, magnfeitir, enn fannir oc snióþíngsli svo mikil at enginn mundi þá slik. I þann tíma giördist mikil vinátta med þeim Ögmundi biskupi oc Teiti Þorleifssyni í Glaumbæ; dróg þat hellst saman þeirra vináttu, at bádir þóttust hafa sakir vid Jón Arason; seldi Teitr lögmadr Ögmundi biskupi eignir þær í Hornafyrdi er hann hafdi erft eptir foreldri hans, Biarnanes XL hundrud, Dal X hundrud, Þínganes XVI hundrud, Hafnarnes XII hundrud, Dilknes VI hundrud, Krossnes XX hundrud, Hollt XXX hundrud, Borg XX hundrud, Fell hálft XX hundrad, Krossbæ VI hundrud, Hólma VIII hundrud, Kèlduhollt IV hundrud, Skèrinn XII hundrud, Hóla VIII hundrud, reka fyrir Uppsalalandi IV hundrud; voru þat eitt hundrud hundrada XCVI hundrud; enn biskup fèck hönum eignir vestra þar í móti, Hvamm í Hvamms sveit LX hundrud, Asgard L hundrud, Magnússkóga XXIV hundrud, Kètilstadi XXIV hundrud, allar í Hvamms sveit; Blöndubacka í Hofstadasókn XL hundrud, Hvamm á Vatnsnesi LX hundrud. Túngu í Bitru XXIV hundrud, Fiardarhorn hálft, í Prestabacka XII hundrud. Stód nú þetta svo um hríd, at Teitr hèldt vyrdíngu sinni, oc hafdi vináttu Ögmundar biskups. Þess er gètit um sumarid mánadaginn fyrir Þorláksmessu, at skipti voru giör med þeim mædgum Gudrúnu Biarnardóttr Gudnasonar, oc Solveigar Biarnadóttr Andrèssonar, oc at þar væri þá Hannes Eggertsson vid, oc nefndist þá ei hyrdstióri; enn ef þar er áratal rètt, verdr þat sannara at Hannes hafi hèr verid vetrinn nærstann eptir er hann lèt af hyrdstiórn, oc fyrst farid utann á þessu sumri; biuggu þau Gudrún at Núpi í Dyrafyrdi. Enn er hann fór utann, kærdi hann til Ögmundar biskups fyrir konúngi, at hann hèldi fiórum jördum, Vatnsfyrdi oc Stad í Adalvik er Biörn Þorleifsson hefdi gèfid hönum til málafylgis, Hvammi oc Asgardi,

í Hvamms-sveit, sem enn mun gètid verda. Þá lèt Erlendr lögmadr Þorvardsson, er í skránni kallast júngkæri, VI manna dóm gánga um ákæru Pètrs Loptssonar, vegna Sigrídar Þorsteinsdóttr konu hans, til Eyólfs Einarssonar, um arf eptir Ragnheidi Eyríksdóttr módr Sigrídar; oc þá fèck Þorvardr ábóti Seliamyri undir Skridu-klaustr. Jón biskup Arason kom út um sumarid, oc á alþíngi veitti Johan Pètursson hyrdstióri hönum Hegraness-syslu daginn fyrrir Pètursmessu oc Páls, hann hèllt þá oc Vadlasyslu, reid hann til Hóla oc settist þar at, oc þá seldi hann Byrni Jónssyni Gilhaga í Túngusveit XXX hundrud, fyrir Tyrfíngsstadi oc X hundrud í lausafè. Má þat ætla at sá Biörn hafi verid fadir Magnúsar á Reykium; enn kaupvottar voru Pètr prestr Pálsson, Gísli Hákonarson á Hafgrímsstödum oc tveir adrir. Gísli hafdi verid sveinn Gottskálks biskups, enn Hákon fadir hans á Vindheimum, var Hallsson, Finnbogasonar hins gamla í Asi, Jónssonar Lángs.

## LIX Cap. Frá Jóni biskupi.

1526 A tyunda dag Jóla, tók Jón biskup at Hólum, í vidrvist Helga ábóta á Þíngeyrum, Olafs prests Hialltasonar oc Thómasar prests Eyríkssonar, reikníng af Pètri presti Pálssyni rádsmanni, fyrir alla peninga Hólastadar, frída oc ófrída, heima oc á búum kyrkiunnar, *Ornamenta*, oc *Clenodia*, í kaleikum, bókum oc skrúda, einnin gamallt bordsilfr kyrkiunnar, oc búshluti stadarins; var allt líkt oc þá er Gottskálk biskup fèll frá. Málnytu kúgildi heima oc á búum, oc í byggíngu voru XVI hundrud tölfræd, í geldnautum III hundrud hundrada, í geldum saudum XC hundrud, kaplar at tölu vondir oc gódir fyrir utann úngkapla nær I hundrad tölfrædt, haffært skip nær uppá LXX lestir, tyæringr einn, sexæringar fimm; auglysti Ión biskup at leift væri at canónízera Gudmund biskup hinn góda, ef þad væri Guds vilji. Föstudaginn nærstann fyrir krossmessu, hèllt Jón biskup prestastefnu at Vídivöllum, þar voru Pètr prestr Pálsson, Nicolás Vilhiálmsson, Þorsteinn Jónsson er þá hèldt Mælifell, Gilbricht Jónsson at Höskuldstödum, Loptr Pètrsson at Vídidalstúngu, Þorbiörn Jónsson at Miklabæ, Magnús Gudmundarson, Jón Gudmundarson, Einar Ulfsson

oc Bersi Þorsteinsson, prestar. Um þær mundir gaf oc Jón biskup Helgu Sigurdardóttr í þiónustulaun Halland oc X kúgildi, enn hún gaf þat med sèr Hólakyrkiu í próventu hann lèt þá oc syslumanns dóm gánga at Spialdhaga um Biörg í Kinn; svo er sagt at hann hafi hrædt Einar son Jóns Sigmundarsonar at gèfa sèr próventu, þriú höfudból oc fiórar jardir adrar, enn þat gèck aptr laungu seinna, oc dæmdust jardirnar erfingium Jóns.

## LX Cap. Þíngreid biskupa, oc Skálholts kyrkiu brenna.

Nú þróadist óvild mikil med biskupum Ögmundi oc Jóni, oc kom svo at þeir skyldudu hvern prest oc svo bændr at fiölmenna sem mest til þíngs, oc skyldi hverr halda kost sínum flocki; úr Skálhollts umdæmi skyldu allir hittast annadhvert í Skálhollti eda vid Brúará, edr á Lyngdalsheidi; sídan kom samann lid mikit á hverutveggia sídu, oc ridu flockarnir heim á þíngid, var hiti svo mikill at jörreikina lagdi lángt í lopt upp, enn ef nockr fèll af baki, mátti sá hafa varhygd mikla vid, at eigi yrdi trodinn undir hesta fótum, eda lægi eptir svimadr oc hálfdaudr; Hafdi Jón biskup at nordann IX hundrud manna, enn Ögmundr biskup XIII hundrud eda meira, oc var þetta kallad þíngid mikla; var ei lengi annars kostr, enn þeir berdist biskuparnir med því lidi öllu, því svo var mikill ofsi þeirra at hverugr vildi vægia; þó vard þat fyrir lánga medalgaungu ábóta oc fremstu presta oc hinna bestu manna, at aptrad vard slíkum vandrædum; þó ei ödruvís, enn at madr af hvers lidi skyldi gánga til einvígis, oc beriast, svo hveritveggi sæi á, í hólmanum vid Öksará. Sá hèt Atli er til var kosinn af lidi Jóns biskups, manna sterkastr oc karskastr; enn af hendi Ögmundar biskups var Eysteinn hinn sterki Brandsson; þeir bördust hinn fyrsta dag Júlii mánadar, hardt oc lengi, svo at ei mátti á milli siá hver hníga mundi fyrir ödrum, vann hvergi á annann. Um sídir fèck Eysteinn barid handska af höndum Atla, hliópp sidann undir hann, oc feldi til jardar, því at Eysteinn var ramr at afli. Nordlendíngum eyrdi þat ílla, qvádu eigi hreint gengid at Atla; þó vard svo umstillt med þeim, at biskupar skildu vandrædalaust, oc sáttir at kalla, enn

drógst þó saman med þeim sídar. Var Eysteinn þá tveim vetrum betr enn fertugr, oc á aldr vid Jón biskup. Á því þíngi giördi Jón Pètursson hyrdstióri, oc allr almúgi samþyckt um vöruverd þískra manna oc enskra, oc hann gaf Biarna Erlendsson á Kètilstödum qvittann um sakfelli módr hans Vilborgar Loptsdóttr, er hún hafdi tekid annan mann framhiá Erlendi Biarnasyni bónda sínum; enn þat skèdi eigi þar á þíngi. Næsta dag eptir hólmgaunguna, á þíngmariumessu siálfa, um midjann aptan kom upp eldr í Skálhollts kyrkiu svo skiótt at á náttmálum var hún öll brunnin til ösku, enn engin vissi hvert var af lopteldi eda vodaeldi. Sumir mæltu farid hefdi verid med eld í glódakèri nockru ádr út vid stöpulinn, enn ei urdu menn vid varir fyrri enn eldrinn var svo magnadr at ei vard slöktr; þó var haft eptir kerlíngu nockurri: mörgum þótti eg málug, þó gat eg þagad þegar Skálhollts kyrkia brann; voru þá lidnir CC oc XVII vetr frá því hún brann af lopteldi nóttina fyrir Pálsmessu á dögum Arna biskups Helgasonar. Karlar voru flestir á þíngi med biskupi, enn þeir sem heima voru, oc klerkar á stadnum, oc konr, komu undan bókum, oc mest öllum messuskrúda; er þat mál manna at tvær konr hafi borit úr kyrkiunni bríkina miklu, oc adrar tvær Þorlákskrín med öllum búnadi, oc þótti jardteikn. Kluckr þær sem hátt voru í kyrkiunni runnu sumar nidr, oc var kopar af þeim í Skálhollti á dögum Gísla biskups Jónssonar. Vindr stód af nordri þá eldrinn kom fyrst upp í kyrkiunni, oc lagdi reykinn oc logann á prestaskálann, þar var sídann skólinn, oc framm á stadinn, svo húsinn svidnudu af loganum oc gneistunum, enn stadrinn í voda miklum; enn vindinum sneri, at guds vilia, skiótt til útsudrs, oc lagdi þá reikinn oc eldinn nordr eptir túni hiá vidarmanna húsi; enn iafnskiótt sem kyrkiann var brunnin, giördi hvelfiskúr svo mikla, at lækir runnu eptir vellinum, oc slöckti allan eld. Þess dags qvöld ætladi flest fiölmenni at rída af þíngi þá skúrinn kom, enn beid hans af sèr, oc var ei lengr enn ölhálftunna væri druckinn út, oc rynni iafnan af hananum; var þá þegar eptir ridid alment af þíngi; enn er Ögmundr biskup kom at giábacka heimleidis, mætti hönum kyrkiuprestrinn í Skálholti, oc bar hönum harmsögu þessa, oc fèll biskup vid af hesti í ómegin; annad óvit fèck hann þá hann sá heim á stadinn, oc hid þridia er hann kom á klifid; ætludu sídann sumir vitrir menn at hönum hefdi verid

sú bendíng af gudi giör, til at lægia metnad hans; þá mælti hann: mèr hefir híngad til margt at óskum gengid, því er makligt þó mèr gángi nockud á móti; er oc sögn manna at þadan af hafi hönum opt nockud á móti kastast, oc því meira sem lengra leid á æfi hans,

## LXI Cap. Frá Ögmundi biskupi.

Ögmundr biskup var skörúngr mikill og frammqvæmdarmadr; lèt hann þegar eptir alþíng giöra búd í kyrkiugardinum, er kalladist Þorlákskyrkia, oc var þar súngid oc messad í, þartil er kyrkiann var embættisfær; gáfu margir menn, lærdir oc leikir mikid fè til kyrkjugiördar, sumir trè oc timbr, V bord eda X eda XX, enn sumir XXX eda XL bord; um haustid lèt biskup dugguna sem stadrinn átti hlaupa austr oc vestr, til ad draga at vidu sem mesta, oc svo allstadar at á hestum. Ögmundr biskup var rausnarmadr mikill í skapi, oc gaf opt stórmannliga frændum sínum oc þiónustumönnum, fyrir því gáfust margir gódir menn i þiónustu hans; einhveriusinni er hann reid á vísitatiu sinni um nyrdra Reykjadal í Borgarfyrdi, oc hiá Stórakroppi, mælti einn af sveinum hans, at sú væri fögr jörd oc sætileg; biskup var í gódu skapi, oc vel til mannsins, oc mælti: viltu eiga hana sonr! ja, segir hann; þá gaf biskup hönum jördina, XL hundrud at dyrleika, til fullrar eignar; enn átti þó hverki siálfr nè vissi hver átti, eda spurdist fyrir um þat; um sumarid eptir á alþíngi kom ríkr madr, bóndi nockr af vestfiördum, til biskups, oc qvad sèr hafa borist til eyrna, þat biskup hefdi tekid til jardar sinnar í Borgarfyrdi í fyrra sumar, oc lètst eiga undir hans verdugri nád hverja rètting hann fengi þar á; biskup svaradi: misþockar ydr þetta vinr? hann qvad sèr ej svo miög mislíka, þóttist þó hafa verid fornspurdr giör; biskup svaradi: þèr skulud hafa aptr gardinn Garpsdal; bóndi þackadi þá góda fyrirgreidslu oc hagnadar skipti; at því skapi var hann oc mikilhæfr ef hann snèrist á annan veg, svo fáir sem engir þordu á móti at mæla því, sem hann vildi vera láta, kalladi hann hóru-pútu- eda skækju-son, jafnskiótt sem hönum mislíkadi, oc hafdi hann hid mesta álit oc audlegdar hamíngiu á landi hèr, einkum á fyrri árum biskups-

dæmis síns. Það sumar er Skálholltskyrkja brann, lèt Ögmundr biskup dæma at prestastefnu á Þingvelli, þrenn manngiöld eda LX hundrud, oc biskupi hærsta fullrètti, fyrir víg Vígfúsar prests Runólfssonar er Þorvardr vo í Hytardal, at brúdkaupi Þorleifs Einarssonar oc Christínar dóttr Torfa í Klofa. Þá lèt oc Erlendr lögmadr Þorvardsson XII lögrettumanna dóm gánga á alþíngi, at konúngr skyldi taka slíkt þegngyldi eptir Vígfús, oc hvern prest, sem adra menn, oc dæmdust konúngi XIII merkr.

## LXII Cap. Andlát Gríms Pálssonar, oc ættir.

Grímr bóndi Pálsson bió at Mödruvöllum í Eyafyrdi alla stund til þessa, oc hafdi lengi haldid þíngeyar þíng, oc svo eignir þær er hann hafdi til deilt vegna sona sinna, var allt fè þat XXI hundrad hundrada í jördum, enn VI hundrud hundrada í lausafè; tók Þorleifr sinn hluta, enn Benedict var andadr, oc erfdi Grímr eptir hann XIV hundrud hundrada, hafdi Benedict átt son eptir er Halldór hèt, oc var sá prestr seinna enn er hèr var komid, andadist Grímr; enn Jón biskup Arason er þá hèldt Vadla þíng,
1527 giördi skipti eptir hann á Spialdhaga, voru þar til arfs Þorleifr oc Páll synir Gríms, oc dætr hans. Þorleifr bió lengi at Mödruvöllum, oc var höfdíngi ríkr sem fadir hans, hann átti Sigrídi dóttr Sturlu Magnússonar oc Ingirídar Jónsdóttr; þeirra börn voru Halldóra er Ari fèck, son Jóns biskups, oc Þorbjörg, hennar fèck Ormr Sturluson; sídann átti Þorleifr Solveigu Hallsdóttr, þeirra börn Grímr, oc Hallótta er Brandr Ormsson á Silfrastödum átti laungu seinna; oc Þuridr er átti Eyrík son Sniólfs undir Asi, Rafnssonar lögmanns Brandssonar, enn sídann Arna í Stóradal son Pètrs Loptssonar, þeirra son var Magnús í Stóradal, er mikil ætt er frákomin. Sigrídr Þorleifsdóttir átti Eggert Hannesson, kom ei upp ætt þeirra. Þórdr hèt launsonr Þorleifs, hans son var Þorleifr fadir Þórdar födr Þordysar á Fæti. Páll sonr Gríms Pálssonar átti Margrètu dóttr Erlendar frá Ketilstödum er mælt er at Enskir tæki, Hákalla-Biarnarsonar, þeirra synir Biarni at Skridu fadir Halls at Mödrufelli oc systkina hans, oc Erlendr prestr, er átti Biörgu Kráksdóttr Hallvardssonar, fadir Olafs prests

at Breidabólstad, eru þat mannmargar ættir, oç svo adrar fleiri er frá Páli eru komnar. Ingibiörg dóttir Gríms Pálssonar átti Gísla á Hafgrímsstödum, son Hákonar á Vindheimum Hallssonar, þeirra börn Arni, Biörn prestr, Gunnar oc fleiri, sú var hin göfugasta ætt oc hin kynstærsta, sem enn mun heyrast. Valgerdr Gríms dóttir átti tvö börn Gudmund oc Sigrìdi. Solveig Grímsdóttir átti Einar at Espihóli Brynjúlfsson Magnússonar, Benedictssonar Brynjúlfsssonar, þeirra son var Jón. Þorbiörg Grímsdóttir átti Gudmund, þeirra son var Þorvardr; þriár voru dætr Gríms er arf tóku. Halldór prestr var son Benedicts Grímssonar, hans son var Benedict hinn ríki at Mödruvöllum í Hörgárdal, fadir Biarnar, födr Magnúsar lögmanns. Þat er oc göfug ætt; er mikid stórmenni komid frá Grími Pálssyni, oc heitir þad Mödruvellínga kyn. Sigurdr Dadason hafdi átta systr Helgu Narfadóttr frá Eyri, konu Gríms, þeirra son var Narfi; hans son hygg eg Arni væri Narfason, er ættartölr telja ósannlega bródr Helgu, oc átti Karítas dóttr Jóns prests Þorleifssonar Gudmundarsonar undir Felli Andréssonar, þeirra börn Halldór Indiafari, mikill madr oc sterkr, Þordr oc Jón silfrsmidr á Eyri, oc Inga. Pètr son Orms Loptssonar var hinn göfugasti madr oc hinn kynstærsti, oc þá gamall er hèr var komid, oc allir voru þeir mikilhæfir er frá Lopti ríka voru komnir. Pètr átti Sigrídi dóttr Þorsteins á Reini Helgasonar Lögmanns Ólafssonar og Ragnheidar Eyríksdóttr; þeirra börn voru Loptr prestr í Vídidalstúngu, oc Arni í Stóradal sem átti Þurídi dóttir Þorleifs Grímssonar, Sesselia oc Ragnheidr. Loptr prestr var ecki med fullum athuga í sumum greinum; Sesseliu átti sídar Sigurdr prestr son Jóns biskups Arasonar, enn Ragnheidi Jón á Svalbardi son Magnúsar í Skridu Þorkélssonar prests Gudbiartssonar, hún var kölluð Ragnheidr í raudum sockum; þeirra börn voru Sigurdr, Jón, Magnus, Páll, Þórdys, Steinún, var þat allt göfugmenni oc kynsælt, sem enn mun greint verda. Kolbeinn var launsonr Jons á Svalbardi.

## LXIII Cap. Teitsmál.

Nú er at segia frá Jóni biskupi Arasyni, at þá er hann hafdi lokid málum sinum vid Ögmund biskup, vildi hann rètta hlut

sinn á Teiti Þorleifssyni; fèck hann med kannsku komid því til vegar hin sömu missiri sem hann giördi skiptinn eptir Grím Pálsson, at Teiti var vikid frá lögmannsdæmi, enn Rafn Brandsson prests frá Hofi fèck þat aptr; er oc svo at siá sem Jón biskup hafi þá eptirlátid hönum Skagafiardar syslu. Þórunn dóttir Jóns biskups var þá XIV vetra, oc gipti biskup Rafni hana, enn sumstadar segir þat væri hid fyrra árid; þar var ritadr undir kaupmála Skúli son Gudmundar prests Skúlasonar Loptssonar, oc þeir Sniólfr Rafnsson, Magnús Arnason oc Gunni Jónsson. Skúli er mælt at hafi haft konúngs umbod sídann í Húnavatns þíngi; var nú mikill uppgángr þeirra mága Jóns biskups oc Rafns; hófu þeir þá þegar kærumál í móti Teiti, oc reid Rafn lögmadr med fiölmenni til Glaumbæar, oc stefndi Teiti fyrir XII manna dóm at Soilu, á mánadaginn nærstann fyrir Pálsmessu, um víg Arna Bessasonar; voru þar fyrstir dómsmenn, Þorsteinn Finnbogason lögmanns, er Þíngeyar syslu hèldt fyrir oc eptir Grím Pálsson, Einar Brynjúlfsson at Espihóli, Audun Sigurdarson Sveinbjarnarsonar, Pètr Thómasson, oc enn fleiri, Stígr Höskuldsson var einn; kom Teitr ei til Þíngs, oc var þó dæmdr löglega stefndr; framkom þar fyrir dómi vitnisburdr XII skilríkra manna, med þeirra innsiglum, oc bar þau ord Teits, at hann hefdi sagt á Sveinstada fundi, at þar skyldu engir dómar gánga, oc hann vildi þar enginn lög þola, enn bodid sínum mönnum at höggva, slá oc stínga, oc siálfr fyrstr slegid til manna þá Arni Bessason var veginn, oc adrir menn særdir; sóru þat þrír lögrèttumenn; var þá dæmt at hinn fyrri lögrèttumanna dómr hefdi eckert afl Teiti til varnar. Þar var fyrir dómi Bessi Þorláksson fadir Arna, oc beiddist bóta oc rèttar síns, voru hönum dæmd LX hundrud í tvöfaldar vígsbætr, sökum þínghelgi oc gridastada, af fè vegandans, oc XXX hundrud af fè Teits fyrir banarád oc atvist, þar sem hann baud at stínga þegar Arni fèll. Teitr var oc dæmdr útlægr til konúngs nádar, oc allt hans fè, fast oc laust, hálft fallid undir konúng, enn hálft undir erfíngia hans hina nánustu, at afteknum ádr löglegum skuldum; mætti Rafn lögmadr sem umbodsmadr konúngs, sèrhverium af gialda, hann mætti oc halda þann hlut fiárins sem erfíngium heyrdi, þar til er sá lögarfi Teits til kæmi sem fullar vördslur hefdi, hvert heldr væri einn eda fleiri, oc afhenda svo fèd ávagstarlaust; hann skyldi oc at sèr taka þann helmíng

fiárina er konúngdóminum tilheyrdi, oc halda þar til er, af hönum heimtr væri, oc afhenda þá ávagstarlausan; fór Rafn lögmadr utann um sumarid med dóminn, svo Teitr fengi sídr uppreisn, oc fyrir Fridrik konúng, oc fèck fyrir medalgaungu Jóhans Pètursonar hyrdstióra, stadfestíngu konúngs á hönum, útgèfna þat ár á Gottorps sloti; þarmed keypti hann af konúngi þá helft sem dæmd var undir konúng fallinn, fyrir CCC rínsk gyllini enn svo þótti mönnum sídann sem Rafni hvyrfi hamíngia.

## LXIV Cap. Frá Jóni biskupi oc Olafi presti.

Á Þorláksmessu siálfa skipadi Jón biskup Olaf prest Hialltason til at vera prófast oc almennilegann dómara í millum Vatnsdals ár í Húnavatnsþíngi oc Hrauns á Skaga oc Vatnsskards, yfir öllum Hólakyrkiu málum, skyldi hann taka próf á öllum málum, afleysa oc setia tilhlídilegar skriptir þeim sem brotlegir verda edr ordid hafa, at fráskildum prestum oc fridlum þeirra, siá at kyrkium oc þeirra eignum, oc vardveita allt sem christnum dómi tilheyri, taka saman Pèturs tolla, vinfè oc biskups tyund; tempra alla dóma sína med skynsemdar vog, oc láta gánga rèttvísi allra á milli, vera myskunsamir vid hlídna oc audvelda, enn þrótskum oc þrályndum rèttr dómari, skyldi hann sèr til lèttirs hafa helft af öllum IX marka málum, enn hinum stærri stefna fyrir biskup, oc þeim er hann þykist ei fá yfir tekit; skyldi þat umbod standa til Jónsmessu Baptistæ, edr hvad lengr biskup giörir ei adra skipan á. Olafr prestr hafdi fengit Vestrhópshóla, oc verid þar tvo vetr, enn af því hönum farnadist þar miög lítt búskapr, tók Jón biskup hann aptr heim til Hóla, oc var hann þar kyrkiuprestr umhríd, oc í miklum kærleikum vid biskup, því ei var annad at heyra, enn at hann hèldi vid hina gömlu sidu oc kenníngar. Svo segir sumstadar at þá væri giör samníngr á þíngi, med rádi Jóhans Pèturssonar hyrdstióra, millum þískra oc enskra manna, oc landsmanna hèr um kaup þeirra.

## LXV Cap. Frá Skáneyar-Lassa.

Í þann tíma gèck miög yfir á Íslandi hèr sótt sú er köllud var sárasótt, hèldst hún lengi vid, oc var bædi mannskæd oc torsótt at græda; vard hèr þá ílendr bartskèri eda læknir þískur, sá hèt Lazarus Mattheusson, oc kalladr Lassi; qvæntist hann vestr á Stad
1528 í Grunnavík, oc fèck Gudrúnar dóttr Olafs bónda Eyríkssonar, hann var bródir Jóns prests í Vatnsfyrdi oc Sæmundar í Ási, einn son Olafs bónda; bródir Gudrúnar, var Pantaleon prestr, hann seldi Ögmundi biskupi jördina Skáneyu í Reykholltsdal, LX hundrud, fyrir þat andvyrdi at Lassi skyldi græda hèr á landi tyntyu sára menn fátæka kauplaust; fór þá Lassi sudr, oc bió at Skáney, oc jók þar ætt sína; hann græddi L sára menn fátæka, oc urdu því sídar ágreiníngar um jördina hálfa. Lassi var haldinn marg-kunnugr.

## LXVI Cap. Frá Olafi presti Gudmundarsyni.

Þá bió at Hiardarhollti í Laxárdal Olafr prestr Gudmundarson undir Felli, Andrèssonar Gudmundarsonar; hann hafdi vid hönd Ingirídi Gudmundardóttr Finnssonar á Ökrum, systr Dada, þeirra börn voru Jón oc Olafr, Þórun oc Gudlaug. Jón var ættleiddr af módr sinni, hann giördist mikill oc sterkr þá hann ólst upp, oc verdr enn gètid oc hans afqvæmis, Olafr bió sídar í Fagradal oc eru frá hönum nockrir menn; Þórunnar fèck Einar prestr Marteinsson at Stad. Jón sterki á Hördubóli var launsonr Olafs prests, fadir Steingríms prests á Raudamel. Olafr prestr hafdi prófastsdæmi í Dölum, oc sídann ásamt syslu á Ströndum eptir födr sinn, enn Gudmundr Andrèsson lifdi þá er hèr var komid, oc enn lengi hèdann frá. Olafr prestr samþyckti á prestastefnu at Bæ í Borgarfyrdi mánudaginn nærstann fyrir *festum corporis Christi*, sölu Ögmundar biskups á jördinni Hamraendum XXIV hundrudum, med selför í Hlídartúnsjördu, undan Hiardarhollts kyrkiu í Laxárdal, fyrir Saudhús í Hiardarhollts sókn; var kaupbrèfid sídann giört á allraheilagramessu í Hiardarhollti. Þorleifr

bródir Olafs presta bió þá í Stóraskógi, enn Eyríkr í Asgardi, oc verdr þeirra frænda enn vidgètid.

## LXVII Cap. Frá Jóni biskupi, Rafni oc Teiti.

Þetta sumar sendi Ögmundr biskup skútu sína til Noregs eptir vidi; segir Jón prestr Egilsson at Skálhollts kyrkia hafi átt þar skóg, oc gard er kalladr var Islendínga gardr, oc haldid því framm á daga Marteins biskups, þá skútann brotnadi fyrir Eyrarbacka, enn lagdist af siglínginn, enn skógartakid gèck undan; lágu biskupsmenn í Noregi um vetrinn; voru þeir skipstiórnarmenn Ögmundar biskups, Sæmundr Eyríksson í Asi, oc Þorleifr prestr á Breidabólstad bródir hans, frá hönum er ætt kominn; Pètr hèt bródir þeirra hinn þridje; fiórdi Olafr bóndi vestra, mágr Skaneyar Lassa; fimti Jón prestr í Vatnsfyrdi, hann var svo hagr at hann hafdi smídad haffært skip, oc hafdi þriú járnföt í saumninn, oc annad minna, enn þó mátti vinda pípu á bordid, svo at hvergi halladist; hann smídadi oc trèmenn VI, oc lèt á sexæríng, þeir hèldu árum í brióstí sèr læstum í hlummum, enn völltr voru á knèsfótum þeirra oc blísacka í herdum; í þeim var snæri, oc hèllt prestr í oc kippti at sèr, enn þeir tóku bakföll er hann sleppti oc skèlldu árunum; lagdi hann med þá á bord vid Ögmund biskup, og vard ei unnid á hans hluta. Hid sama sumar kom út Rafn lögmadr aptr med brèf sín, oc tók undir sig allt fè Teits er hann fèck nád, med styrk Jóns biskups, hellst fyrir nordann land, voru þad svo miklar eignir, at menn ætla eigi skort hafa á XII hundrud hundrada eda meira hafi verid, var þat aldrei uppskrifad, vyrdt eda reiknad, voru þar med jardir þessar; Glaumbær, Medalheimr, Elvogar, Vatnsskard, Vatnshlíd, hlutr í Vík, Hof í Dölum, Gil, Þorlióts stadir, Vídivellir, Vatn, ytra Vallhollt, Krossanes, Lækiamót, oc enn fleiri; þarmed eignir Teits í Hornafyrdi er hann erfdi eptir foreldri sitt: Biarnanès, Dalr, Þíngsnes, Hafnarnes, Dilknes, Krossnes, Hollt, Borg, hálft Fell, Krossakèr, Hólmar, Kèlduhollt, Skèrinn, Hólar, reki fyrir Upsalandi; þad var til samans eitt hundrad hundrada XCVI hundrud; enn

þær eignir hafdi Teitr selt Ögmundi biskupi fyrir jardir vestra sem fyrri eru taldar; hèldt Teitr þeim eignum á medann hann lifdi; enn eptir þá Ögmund biskup taldi Jòn biskup til Biarnaness eigna, oc vildi einnin ná þeim sumum er fyrir þær komu. Rafn lögmadr lagdì eckert aptr af þessum fiám, oc baud engin lagaskipti; enn þó þat væri bædi í móti Sciludómi hans oc stadfestíngu konúngs á hönum. Teitr oc þau Inga áttu ecki börn, oc var nánastr erfíngi Arni Eyríksson brædrúngr hans, sá er vo hinn þíska manninn Hans Ethen; enn þó hönum dæmdist vægar sektir sem fyrri segir, þá var hann hrakinn af jördu sinni, oc fór miög landflótta, þar til Teitr frændi hans dæmdi hönum aptr jördina, er hann var lögmadr; enn med því at Arni hafdi lengi verid undirþryckter af hinum dönsku á Bessastödum, oc var mæddr af laungum mannraunum, treystist hann ei eptir arfi at sækia í hendr Jóni biskupi oc Rafni lögmanni, oc sættu þeir því lági, þó hverungum yrdi heillir at því fè. Enn þó erfíngiar Teits kærdi sidann opt eptir þeim eignum, fengu þeir lítid eda ecki af. Hlaut nú Teitr at ríma at nordann, oc víkja frá Glaumbæ oc jördum sínum fyrir Jóni biskupi, oc Rafni lögmanni; er svo mælt at hann stígi á bak framm undann karldyrum, eda nockru utar, þar sem hönum var lesinn stefnann, oc hardmælti þeim er vidtæki; fór hann vestr til Hvamms í Hvamms sveit, oc lifdi þar í skióli Ögmundar biskups, var kallad af eignum konu sinnar Ingu, enn Rafn lögmadr setti bú í Glaumbæ; hafdi Teitr búid þar XVI vetr, því at svo margar voru kyrnar er þau Inga höfdu gèfid Hofstada Mariu. Rafn bió siálfr at Hofi.

## LXVIII Cap. Frá Jóni biskupi, Páli Grímssyni oc ödru.

Mánadaginn fyrir *annunciationis Mariæ* at Hólum, seldi Jón biskup Páli bónda syni Gríms Pálssonar, Glaumbæ oc hálfa Hallbiarnarstadi í Reykiadal, Hálldórsstadi í Laxárdal, hálf Biörg í Kinn, oc enn XX hundrada jörd, fyrir Hof á Höfdaströnd, ytri oc sydri Brecku oc Hraun, enn Þrastarstadi oc Svínavelli lukti Páll í Hofs kyrkiu reikníng; er at siá sem Rafn lögmadr hafi þá fyrst

vid Hofi tekid. Þetta ákærdu erfingiar Páls miög laungu sídar, Páll var þá qvæntr fyrir VI árum. Þá samdi Jón biskup vid Ögmund um Myrakyrkiu, vegna Þorleifs bónda Grímssonar oc Ara sonar síns, oc aptrkalladi Ögmundr biskup þann dóm er hann hafdi dæmt at Stadarhóli, oc dæmt Myrar undir Skálholt. Litlu ádr hafdi andast Helgi àbóti Jónsson í Videy, oc var þar þá Gísli nockr; hann var í Oddadómi med Ögmundi biskupi, oc Halldór Tyrfingsson at Helgafelli; Jón priór var þá at Mödruvöllum Finnbogason lögmanns, oc seldi Jóni biskupi Lögmannshlíd. Þat segia menn oc, at Finnbogi Einarsson hafi þá afhendt Jóni biskupi Grenjadarstad; Magnúsi Biarnarsyni seldi Jón biskup Nautabú fyriRódugrund, oc Asgrímstadi; hann bió at Reykium í Túnguſveit; hann setti oc Magnús diákn Jónsson prófast milli Hrauns á Skaga, oc Hofs í Dölum, þann hygg eg vera son hans, því hann var þá at efla síg sem mest. Gètid er oc fleiri giörnínga, oc svo Biarnar bónda Þorleifssonar at hann var þá enn uppi; og at Ögmundr biskup giördi jardarskipti vid Eyrík bónda son Torfa á Klofa, med samþycki Ingigèrdar Thómasdóttr konu Eyríks.

## LXIX Cap. Daudi Rafns.

Þá er Rafn lögmadr hafdi haldid fè Teits nær tveim missirum, bar svo til, er hann var staddr at Glaumbæ, at hann vard missáttr vid dryckju vid svein sinn er Philippus hèt, oc baud hönum út til einvígis, hann fór undann lengi sem hann mátti, þartil er hönum bröck ei fyrir fríunarordum oc tiltektum lögmanns, hinggu þeir samann framm undan karldyrunum þar Teitr steig á hest, oc eptir fárra högga vidskipti veitti Philippus Rafni banasár. Rafn lögmadr kèndi siálfum sèr þau völd öll, oc sættist Philippus vid hann, fyrir þá sök at hann hefdi hlotid at veria hendr sínar; reid hann heim til Hofs, oc lifdi þriár nætr, oc andadist sídann, enn Philippus vard litlu sekr; hann var födrfadir Odds á Skídastödum, átti Jón födr Odds vid Marinu er þá var verkakona í Glaumbæ, enn deidi nær tyrædu á Skaga, þá Biörn at Skardsá rèri þar út XV vetra, oc sagdi hönum frá þessum tídindum, enn hann hefir skrásett. Þórun dóttir Jóns biskups vard þá eckja 1529

XVII vetra er Rafn var veginn, oc fór heim til Hóla, enn brædr Rafns Arni oc Sniólfr, oc nidiar þeirra eptir á, kölludu til arfs, oc fengu ecki af; var kallad at Rafn oc Þórun hefdi barn átt samann, enn aldrei var sannad at þat hefdi hlotid skyrn eda lifad födr sinn, oc tók Jón biskup undir sig eignir Rafns oc Teits, oc fóru þær sídann litum. Þá feck Jón biskup Ara syni sínum Vadlaþíng, oc var hann þó all-úngr. Jón biskup seldi Skúla Gudmundarsyni sydri Ey fyrir Holltastadi í Lángadal, oc gaf sídann Ara, oc fleiri jardir; hann ritadi oc lögrèttumönnum á alþíng, oc bad þá kiósa lögmann, þann er í Nordrlandi sæti, oc ætladi svo til at Ari yrdi kosinn; þá var sá syslumadr í Rángárþíngi er Nicolás hét, Biarnarson, hann lèt þar dóm gánga um skáldskap Erlendar Magnússonar.

## LXX Cap. Frá Ögmundi biskupi.

Um vorid komu út menn Ögmundar biskups med skipi hans oc vidarfarmi á, sóktu sídann á vestfiördu bædi timbr oc tyundir biskups, oc fluttu á Eyrarbacka. Naust at skútunni var fyrir utann Skúmstadi, oc stód hún í því á vetrum; enn ádr hún færi til Noregs, hlióp hún austr eda vestr á vorum, oc sókti þángad trè oc annad, oc flutti á Eyrarbacka, var þar smídad timbrhús mikid á stólpum, gólfid svo hátt frá jördu at tók manni í knè; þar var bædi geimsluhús mikid, badstofa oc fleiri herbergi önnr, svo þar var sofid, etid oc druckid; var þángad fluttr addráttr allr til stadarins, bædi úr Vestmannaeyum oc annarstadar ad, oc leigr oc önnr giöld úr flóa, setti biskup þar menn til at taka inn oc afhenda sèrhvad þat er sendt var til Noregs med skútunni, oc svo þad er híngad var flutt aptr. Skipstiórnarmenn hans voru fyrst þeir brædr Sæmundr oc Þorleifr prestr Eyríkssynir, sem ádr segir, enn sídann Ejólfr sveinn hans son Kolgríms ábóta Kodranssonar, oc Magnús son Pètrs Eyríkssonar, bródurson Sæmundar, hann bió at Grafarbacka í Hrunamannahrepp. Annad Geimsluhús lèt Ögmundr biskup smída fyrir utann Hraungerdi, oc hafdi bóndinn þar lykilinn ad; stadar landsetar í Flóa oc Ölvesi, oc sunnarlega í Grímsnesi, fluttu vidinn upp ad Brúnastödum vid klettinn,

fyrir utan túnid; enn Skigdamenn oc Hreppamenn eda Túngumenn fluttu eda drógu þadann heim í Skálhollt; biskup lèt oc siálfr draga vidu ad, þá er akfæri var, á akneytum járnudum; enn er heimkom, voru settir sögunarmenn tveir, at saga oc skamta nidr eptir fyrirsögn biskups, enn sèrhverjum var ætlad víst verk vid kyrkiu smídina, einnin at smída nagla, oc var Ari prestr Steinólfsson er fyrri er gètid, forsmidr at; var nú á þessu sumri reyst undirgrind kyrkjunnar, enn sídann fullbyggdist hún meir oc meira um öll þau ár sem Ögmundr var biskup, svo at ei skorti nema súdþak á framkyrkiuna, þá er hans misti vid, svo mikla rausn hafdi hann á þeirri framqvæmd; svo segir Biörn at Skardsá, at Ögmundr biskup hafi á þeim árum farid til Noregs eptir vidi siálfr, enn rekid á híngadför vestr um haf undir Grænland, oc nordr med landinu svo þeir þóttust kènna Heriólfsnes, og verid síd dags svo nær landi, at þeir hafi sèd fólk á landinu, oc fè vid stecki; fengid þadann beinan byr, oc varpad atkèrum morgunin eptir á Patríksfyrdi; hyggia vitrir menn adrir þar blandad málum, oc muni vera nockr fyrri sigling Ögmundar biskups, nema svo sè at hann hafi hrakid med skútu sinni frá vestfiördum. Þá seldi Johan Kroko í Biörgvin, er erft hafdi Hannes bródr sinn Ögmundi biskupi Stad í Adalvík, oc adrar þrætujardir, er Biörn Þorleifsson hafdi selt Hannesi, oc dæmt hafdi verid at hann hefdi fullt vald til haft, fyrir Byrni Gudnasyni oc hans erfingium, fyrir sex hundrud mörk í gulli og silfri, vadmálum, klædum, lèreptum, oc ödrum flytiandi eyri, skyldi allt fyrir goldid í þremr Noregs ferdum frá Íslandi, þridjúngr í hverri ferd, oc var brèfid giört fimtudaginn fyrir Gregóríusmessu. Ögmundr biskup vígdi þá oc Magnús til prests at nordann, son Jóns biskups, oc gaf hönum vígslubréf. Þat er enn mælt at Ögmundr biskup ritadi móti lærdómi Luthers, er þá tók at gánga yfir; hefir Arni Magnússon Assessor sèd þat rit, oc kalladi lítilsverdar ástædr í; komu sumar bækr Luthers híngad í land á dögum Ögmundar biskups, oc fèllu vel í skap möigum lærdum mönnum. Jón Einarsson kyrkiuprestr hans tok at lesa þær heimuglega, oc hóf fyrstr manna at kènna í móti páfakènníngum; hann taladi eina kyndilmessu í Skálhollti á móti ákallan heilagra manna, kalladi afgudadyrdkun, oc í móti hreinu gudsordi; fyrir þat reiddist bisk-

up hönum; qvadst ei hafa ætlad hónum at falla mundi til villu Lúthers; prestr svaradi fyrir sig héglega, oc fann grundvöll ordum sinum, kalladi ei allt bannad í gudsordi sem páfinn bannadi, svo sem prestum oc lærdum mönnum at qvongast, þarsem Páll postuli segdi þó lióslega, at prestr, biskup oc diákn skyldu vera eginqvæntir; biskup svarar: oc qvad Pál verid hafa lærimeistara heidinna þióda, enn ecki vor; vard sídann aldrei jafnblídt med þeim. Þá hafdi Gísli son Jóns prests Gíslasonar verid med Alexíusi presti Pálssyni á Þíngvelli, til þess er hér var komid. Jón fadir hans féck sídar Gaulveriabæ, eptir Stephán prest bródr sinn, oc var lengi rádsmadr Skálholltsstadar yfir Sudrnesia umbodi; óástudlegt var med þeim fedgum, sagdi Jón prestr fyrir, snemma á æfi Gísla, at hann mundi med ödrum fleirum verda flocksforíngi at framfylgia sid Lúthers, oc var sú hin hellsta skilnadar sök þeirra; einusinni sagdi Gísli födr sínum draum sinn; hann þóttist vera heima í Skálhollti, oc færdi Ögmundr biskup hann í allann biskupsskrúda; Jón prestr svarar: þar muntu biskup verda, oc hafna þinna forfedra sidum oc átrúnadi, enn frammfylgia hinum nya; var þetta meir enn XX vetrum ádr enn frammkom; fór Gísli í Skálholt, á þeim missirum er Rafn lögmadr var veginn, oc giördist sveinn Ögmundar biskups. Um þær mundir dó Þorvardr priór at Skridu, enn Jón Markússon vard priór aptr nockru
1530 seinna.

## LXXI Cap. Frá börnum Jóns biskups.

Didrich frá Bramstæed giördist nú hyrstióri; þá tók Magnús prestr Greniadarstad, son Jóns biskups; var hans fylgikona Christín dóttir Vígfúsar lögmanns at Hlídarenda, þeirra dóttir var Gudrún er Gunnar Gíslason átti. Ari son Jóns biskups tók þá lögsögn nordan oc vestann, þó úngr væri, oc adrir þætti fyrir þá sök betr tilfallnir; hann fèck sídann Halldóru dóttr Þorleifs Grímssonar á Mödruvöllum. Sat nú Jón biskup at Hólum; hann qvad þetta um skáld er þá voru best uppi:

Öld segir afbragd skálda
Einar prest fyrir vestann;

Hallsson hródrar snilli
hefir kunnad fyri sunnann;
Blind hafa bragnar fundid
bragtraustann, fyrir austann;
Gunna, er gètid at sönnu
greidordr sè fyrir nordann.

Gunni sá var Hóla rádsmadr, fadir Þorsteins prests Gunnasonar er ádr er gètid, oç einnin var skáld; Gunni var nockud nídskælldinn. Einar var prestr at Stad á Ölduhrygg Snorrason, oc kalladr Ölduhryggiarskáld; enn Jón Hallsson var fylgimadr Hólmfrídar á Dal, hann hafdi sídar syslu á Rángarvöllum, hefir hann qvedid elli-qvædi, oc var haldinn margkunnugr. Sigurdr blindi var eystra, hann hefir qvedid bædi rímr oc qvædi, oc var hid besta skáld eitt er þá var uppi. Brönu-rímr var eitt sem hann qvad. Þorsteinn son Gudmundar Andrèssonar undir Felli var sveinn Jóns biskups; var þá Þórun biskups dóttir heima, oc eckia eptir Rafn lögmann, oc fèck ord af Þorsteini; Ari hafdi grun af því, oc var Þorsteini ei óhætt um líf sitt fyrir hönum; Ari var drengilegr madr, lögvitr snemma oc látínu-lærdr, örlátr oc höfdínglegr í mörgu, hardsinnadr ef skipti gèdi hans; med hærri medalmönnum, frídr sínum, límadr vel, oc hinn fimasti vid allar íþróttir, frækinn oc kappsfullr; enn er Þorsteinn var búinn til brottferdar frá Hólum, fann Ari þau Þorstein á einmæli, oc ætladi at veita hönum tilrædi. Þorsteinn var manna fræknastr, oc fordadi sèr, komst í Hólakyrkiu uppá bitann, oc hljóp hvern af ödrum, til þess er hann komst í stöpulinn, oc þadann á hest sinn, er Solveig Abbadís á Reinistad hafdi sendt hönum, oc med hennar styrk komst hann vestr til Gudmundar födr síns, oc frænda sinna, oc er hann frá sögunni at sinni.

## LXXII Cap. Heldri menn uppi.

Þessir voru þá uppi höfdíngiar á landi hèr; biskupar Ögmundur oc Jón; Didrik af Bramsted hyndstjóri eda höfudsmadr; þat var ímist kallad. Erlendr Þorvardsson oc Ari Jónsson lögmenn, Ari hafdi oc Vadlasyslu. Þorleifr Grímsson bió at Mödru-

völlum, Ján Magnússon Þorkélssonar at Svalbardi, oc átti Ragnheidi dóttr Pèturs Loptssonar; Þorsteinn Finnbogason lögmanns bió í Hafrafellstúngu, hann hafdi Þíngeyar þing; Jón Einarsson at Geitaskardi, son hans var Egill er þar bió sídann, oc var stórbócki mikill. Olafr prestr Gudmundarson í Hiardarhollti hafdi Strandasyslu um hríd; Sturla Þórdarson Helgasonar bió at Stadarfelli, son hans var Ormr, Ásmundr var oc Sturluson, enn ef þeir voru albrædr, þá var hann miklu eldri. Asmundr var fadir Odds födr Hrafns í Skördum, enn Orms verdr opt vid gètid seinna. Páll Grímsson Pálssonar var enn ríkismadr í Húnavatns syslu. Þorleifr son Páls Jónssonar, oc Solveigar dóttr Biarnar hins ríki, bió at Skardi á Skardsströnd, oc var vitr madr; Biörn Þorleifsson bió at Reykhólum, hann var einna ættgöfugastr oc þá vid aldr; vestra voru mágar Biarnar Gudnasonar, Jón Olafsson dóttrmadr hans, oc Olafr fadir Jóns í Þernuvík, Gudmundarson, oc Sigfús son Sigurdar Brúmannssonar, hann bió at Hrauni; Ejólfr mókollr í Haga, ef hann var þá ecki dáinn, oc synir hans, Snæbiörn bródir Ejólfs oc þeir frændr fleiri. Ormr son Jóns kolls Oddssonar oc Þorbjárgar Gudnadóttr var mikilsháttar madr fyrir nordann, oc Gísli Hákonarson á Halgrímsstödum er átti Ingibjörgu dóttr Gríms Pálssonar, Þormódr Arason Gudnasonar, oc Stígr Höskuldsson. Audun Sigurdarson Sveinbiarnarsonar, er kalladr var Laga-Audun, bródir Helgu er fylgdi Jóni biskupi. Isleifr hèt son Sigurdar Finnbogasonar lögmanns, hann var þá frumvaxta, skartsmadr mikill oc íþróttamadr oc gètr sídar; Biarni son Erlendar Biarnasonar bió at Kètilstödum á Völlum oc hafdi Múlaþíng. Páll son Vígfúsar lögmanns Erlendssonar bió at Hlídarenda, oc voru þeir frændr mikilsháttar; Ejólfr Einarsson í Dal undir Ejafiöllum; Eyríkr Torfason bió í Klofa, Biarni var bródir hans, hann átti Ingibjörgu Sigurdardóttr Finnbogasonar lögmanns, oc er þadann ætt mikil; Þorsteinn Torfason bródir þeirra bió í Hiörtsey. Nicolás Biarnarson hafdi Rángárþing. Hákon Biörgólfsson Þorkêlssonar vellíngs bió at Fitjum í Skorradal; hann hafdi haft eina stund syslu fyrir sunnan Hvítá, oc var aldradr ef hann lifdi þá er hèr var komid, var miseldri mikid med þeim Lopti presti bródr hans er sídann var at Húsafelli, son Hákonar var Asgeir prestr; voru þeir frændr all-mikilhæfir. Jón Gudmundarson var þá oc uppi, oc Grímr sonr hans í Sídumúla. Finnr Arnórsson Finnssonar

bió at Ölrum í Hraunhrepp; þeir frændr voru menn óbernskir oc stórgódir. Dadi frændi hans Gudmundarson tók Snóksdal at erfdum oc bió þar sídann, þeir voru brædrúngar. Dadi hafdi konúngsvald frá Hítará, oc umhverfis allt í Gilsfiörd, oc giördist ríkr madr oc an...gr; fleiri voru enn uppi mikilsháttar menn. þessir voru prestar þá nafnkèndastir: Brandr Rafnsson at Hofi fadir Rafns lögmanns; Sigmundr Ejólfsson systrson Ögmundar biskups, hönum veitti hann þá Vallanes; enn Bartholómæus Egilssyni er þar hafdi verid, var fenginn Hallormsstadr. Jón Gíslason at Hollti; Jón Einarsson kyrkiuprestr í Skálhollti, hann var fyrir ödrum, oc veitti Ögmundr biskup hönum Oddastad á Rángárvöllum, þó kólnad hefdi milli þeirra. Alexius Pálsson at þíngvelli, hann var gæfr oc óáleitinn oc gègn, enn ramr at afli. þórdr Olafsson í Gördum á Alptanesi; hann var nærst fyrir Einar Olafsson þann er lengi hafdi Nesia umbod, födrfödr Jóns prests Egilssonar. Freysteinn Grímsson fèck þá Stafhollt, hann var þar lengi, oc talinn framarla. þórdr Einarsson í Hítardal; Einar Snorrason Officialis at stad á Ölduhrygg; Olafr prófastr Gudmundarson í Hiardarhollti; Magnús son Ejólfs Mókolls í Selárdal; Gísli Örnólfsson á Söndum. Jón Eyríksson Officialis í Vatnsfyrdi; oc er Sæmundr bródir hans enn ótalinn, einn hellstr leikmanna. Jón Oláfsson at Stad í Grunnavík, oc eptir hann Pantaleon Olafsson Eyríkssonar; fyrir nordan voru þeir nafnkèndastir presta, Pètr Pálsson, Magnús son Jóns biskups, Nicolás Vilhiálmsson, Thómas Eyríksson, þorlákr son Hallgríms Sveinbiarnarsonar; svo segia sumir menn at Jón biskup hafi keypt at Frídriki konúngi þann hluta úr fiám Teits þorleifssonar er hann mætti eiga, fyrir CCC rínsk gyllini, oc hafi þeir giört kaupinn Sigurdr sonr hans, oc Isleifr son Sigurdar Finnbogasonar, enn eg ætla þat allt eitt oc þat er sídar verdr greint. Teitr þorleifsson var þá oc enn uppi, er þetta var, oc einnin Gudmundr Andrèsson, af því er sumstadar er at ráda, enn synir hans voru allir rosknir; enn þó at fleiri menn megi telia, læt eg hèr vid standa um hríd.

## LXXIII Cap. Vatnsfiardarmál.

þetta Sumar er Erlendr þorvardsson oc Ari voru lögmenn, nefndi Erlendr í dóm XX oc fióra hina hellstu menn á alþíngi,

eptir bodi Fridriks konúngs, um framburd oc ákæru Hannesar Eggertssonar er hèr var ádr hyrdstjóri, vegna konu sinnar Gudrúnar Biarnardóttr Gudnasonar, at Ögmundr biskup heldi fyrir sèr oc henni jördum þessum, Vatnsfyrdi, Stad í Adalvík, Hvammi oc Asgardi, oc at Biörn þorleifsson hafi géfid Stepháni biskupi Stad í Adalvík oc Vatnsfiörd til málafylgis, enn þat fèck Hannes eigi sannad. Ögmundr biskup lagdi þá framm liós rök fyrir at Vatnsfiördr þá hefdi verid þrem sinnum dæmdr beneficium Skálhollts kyrkiu af erkibiskupinum í Nidarósi, fyrir því dæmdu fyrrgreindir menn hann vera oc vera eiga fullkomna eign Skálhollts kyrkiu, oc Hannes skyldugann at afhenda Ögmundi biskupi öll brèf oc skilríki er hann hefdi fyrir þeim gardi. Um Hvamm oc Asgard leiddi Ögmundr biskup framm svarinn vitni, at Ragnhildr húsfrú Biarnadóttir galdt þá báda garda, med samþycki Torfa sonar síns, Ögmundi biskupi, í sakfelli Biarnar Gudnasonar bónda síns, oc væri erfíngiar hans qvittir um svo mikid sakfall sem tilskilid var í sættinni. Stad í Adalvík hafi biskup keypt fyrir sína peninga af erfíngium Hannesar Kroko, enn Biörn þorleifsson hafi rèttilega mátt selia, eptir dómi Stepháns biskups oc Vígfúsar lögmanns Erlendssonar; dæmdu dómsmenn þá báda Hannes Eggertsson oc Biörn þorleifsson skylduga at forfallalausu, á næsta sumri, at fara framm fyrir konúng med þau brèf sem þeir höfdu, oc fá hans úrskurd um Stad, hvert brèfid væri gyldara; enn þó deilt hefdi verid um þær eignir, höfdu traudlega verid borinn málinn fyrir hinn sama konúng, oc sídst af hverutveggium í senn, oc fyrir því voru brèfinn svo gagnstæd; enn Didrich höfudsmadr samþyckti dóm þennann; rögsök þá hina miklu, er Ögmundr biskup kærdi til Hannesar, at hann hefdi rægt sig, oc forveriara sinn Stephán biskup, fyrir konúngi, ofrgaf biskup fyri bænastad dómsmanna oc annara, med því skilyrdi at Hannes yrdi sèr aldrei mótsnúinn sídann, edá heilagri Skálholltskyrkiu; vita menn ei til at þeir Biörn hafi á konúngsfund farid, enda gyrntist ecki Hannes at eiga lengr í lagasóknum vid Ögmund biskup, er hann vissi at var fulltrúi Biarnar þorleifssonar; enn þó lauk ecki þrætunum at heldr; er þá ecki meira sagt frá Hannesi; enn nafn hans er miög útbreidt ordid af hans ættmönnum á landi hèr. Biörn þorleifsson þurfti at selia jardir fyrir lausafè, oc var honum liúft at láta þær til þess gánga er deilt var um, helldr þær er hann

nádi litlum eda engum ágóda af; enn enginn treystist at kaupa fyrir ákærum oc atgángi nidia oc mága Biarnar Gudnasonar, voru þar fyrst Eggert son Hannesar Eggertsonar oc Gudrúnar Biarnardóttr, oc þarnærst Sigfús Sigurdarson Brúmannssonar, oc Jón Olafsson í Hiardardal, oc Biarni son Narfa ábóta Ivarssonar; áttu þeir Olufu, Þóru oc Sigrídi dætr Biarnar Gudnasonar, oc voru mikilhæfir menn oc stórrádasamir, enn þóttust hafa konúngabréf nóg; var þó Jón minst vidridinn; hann var son Olafs í Þernuvík, oc hafdi eina stund syslu í Isafyrdi. Þó kom svo at Ögmundr biskup rèdist í at kaupa jardir þessar fyri gott verd, oc svo Jón prestr Eyríksson; hlífdust nidjar Biarnar vid at rípta þær sem biskup keypti, því hann hafdi bædi andlegt vald oc veraldlegt, oc beitti hverutveggiu stórmannlega, þá honum syndist; Jón prestr Eyríksson sat oc í skioli hans medann þeir sátu uppi bádir saman, oc fór svo fram um hríd; er nú lokid at segia frá Byrni Þorleifssyni, oc deilum þeim er hann átti í at standa; tók þá at sundrast hid mikla fè Biarnar hins ríka, oc Olufar fódrforeldra hans. Biörn Þorleifsson átti Ingibjörgu Pálsdóttr, þeirra börn voru Þorleifr prestr, Jón, Olafr, Margrèt. Þorleifr prestr var sem rænulaps, enn þó manna hagastr, hann seldi Páli Jónssyni Reykhóla sídar, oc gèngu þeir svo úr ætt, hans son var Greypr prestr at Snæfiöllum, fadir Jóns, födr Greyps: Jón son Biarnar Þorleifssonar átti Flatèy oc Flateyareignir, hann fèck Christínar dóttr Finns Arnórssonar frá Okrum, þeirra börn voru Finnr í Flatèy, fadir Torfa prests, födr Jóns er fèck meistara Brynjúlfi biskupi Flateyarbók; hans son var Torfi syslumadr á Bardaströnd; oc Arni Jónsson, hann var prestr at Látrum, hans einn son var Sveinbiörn módrfadir Arnórs Jónssonar í Belgsholti. Gudrún Jónsdóttir átti Biarna son Jóns Olafssonar í Hiardardal, þeirra börn voru Brynjúlfr prófastr í Hiardarholti, Þorleifr prestr at Söndum, Torfi prestr at Stad í Grunnavík, oc Þorkatla. Olöf, dóttir Biarnar Þorleifssonar, átti Biarna bródr Dada í Snóksdal, þeirra son var Gudmundr fadir Ara á Dúnki. Margrèt dóttir Biarnar átti Jón Einarsson á Melgrásseyri, oc er margt manna frá þeim komid.

## LXXIV Cap. Mál Ögmundar biskups oc fleiri.

A þeim missirum öndverdum lèt Jón Hallsson konúngs umbodsmadr í Rángárþíngi, VI manna dóm gánga at Hvoli í Hvolhrepp, um ákæru Jóns prests Einarssonar til Eyríks oc Biarnar sona Torfa í Klofa, vegna Þórunnar systr Jóns prests um fè Jóns Torfasonar bródrs þeirra. Annar dómr gèck í Önundarfyrdi, af Olafi Gudmundarsyni í Þernuvík, med VI mönnum, um ótekna jördu er taldist arfafè barna Jóns sonar Biarna Gudnasonar; oc enn vitnisburdr um Akra oc Þorleifstadi í Blönduhlíd, er Biörn Þorleifsson hafdi fengid Grími Jónssyni oc Ejólfi Gíslasyni med konum þeirra, Helgu oc Gudnyu Þorleifsdætrum, systrum sínum. Ögmundur biskup lèt oc gánga helmíngadóma um Kalmanstúngu oc Hóla kyrkiu í Bolúngarvík. Þau missiri stefndi Ögmundr biskup Vigfúsi Magnússyni, fyrir þat hann hefdi heitid sèr þiónustu enn efnt eigi, þarmed komit Hannesi Eggertssyni til at taka undir sig Sæból, rægt sig med hönum oc Torfa Biarnasyni vid höfudsmanninn, enn Torfi mágr hans hefdi vegid mann í Alfdals kyrkiugardi, oc eigi hefdi hann edr hans foreldrar endrbætt Hiardardals kyrkiu; dæmdi hann af hönum LX merkr, enn XV merkr fyri kyrkiugards saurgun Torfa; hann dæmdi oc LX marka sekt á Jón Þórdarson fyrir nockrar sakir, oc XC merkr biskupi, enn adrar XC merkr dómkyrkiunni, fyrir þat hann hefdi skotid sèr undir veraldlegann rètt. Hann bar oc margar sakir á Þórd prest Einarsson í Hytardal, um missagnir á biskupinn, skèmmd á vidi Skálholts kyrkiu, at hann hafdi átt V börn í frillulífi, haft viskíngar vid annan prest á Barthólómæusmessu, brotid eyd sinn med óhlídni vid biskup, rægt sig vid erkibiskup, enn enga bót edr skriptir tekid; dæmdi hann af hönum embætti, enn fè hans kyrkiunni, oc hann rètt tækann af biskupi, ef ei beiddist lausnar, undir naudúngar skriptir; hönum þótti oc Jón biskup Arason hafa rofid sáttmál um Myrar, fyrir því stadfesti hann Stadarhólsdóm, oc lèt dæma sèr jördina oc LX merkr. Hann ákærdi oc Erlend lögmann Þorvardsson fyrir barsmíd á presti í Voga kyrkiu, oc at hafa sært annan prest á Kolbeinstödum, haft frillu heima, haldid eigu Skálhollts kyrkiu, stefnt biskupi fyrir konúngsdóm, brotid einnin konúngsbod oc haldid Háeyri, oc fleiri sakir

adrar, dæmdi hann í XC marka sekt, oc at vera fallinn í tvöfaldt bann, enn rèttækann af biskupi undir naudúngar skriptir ef hann þriótskadi, enn þá er þat óliöst hversu út hefir gèngid, enn þat ord hefir álagst at Erlendr hafi óvarlega farid, enn skialdann þurfi at vægia.

## LXXV Cap. Frá Gissuri Einarssyni.

Gissr son Einars Sigvaldasonar hafdi verit í Skálholltí med Ögmundi biskupi þegar á öndverdum árum hans, þóknadist hann biskupi svo vel, sökum næmis oc skilníngs, at hann kom hönum til læríngar í Hamborg á siálfs síns kostnad, þar hafdi hann gèngid í skóla í IV vetr eda VI, oc numid kostgæfilega bókvísi; hvad sem hann sá oc heyrdi, ritadi hann upp samstundis, svo meistari hans dádist at, oc mælti opt til hans: ef þèr audnast nockra stund at lifa Islendíngr! þá mun hönd þín oc kostgæfni koma þèr til sóma; þar fèck hann þeckíngu á lærdómi Lúthers, því at Jóan Bugenhagen kèndi öndverdlega í Hamborg þann lærdóm, enn sumir segia Gissr hafi verid III ár í Wittembergi, oc hefir hann þá heyrt kènníngar Lúthers siálfs oc Philippi Melancthons (ef svo er; sídann kom Gissr út híngad, oc er Ögmundr biskup vard þess vís, at hann hafdi inndruckid villudóm Lúthers, er hann kalladi, vildi hann hverki siá hann nè heira, nè gialda skuldir hans, var þá oc Halldóra abbadís födrsystir hans hönum fráhverf ordinn, fyrir hina sömu sök, oc fèck hann þá hvergi hæli hiá hinum heldri mönnum; hvarf hann vid þad austr til módr sinnar oc dvaldist med henni. Hún giördi út vinnumann sinn til Vestmanneya, oc fèck hann lestarhlut; var þad gód stod til at lúka skuldir Gissurar. Þá var Sigurdr ábóti í veri, hann var líttlærdr, enn unni þó bókmentum, voru fáir menn á landi hèr þá færir um at kènna túngumál oc adra frædi, oc fèck hann til þess Gissr at kènna sèr oc klerkum sínum, oc ödrum úngum mönnum, um þær mundir er hèr var komid. Hefir Gissr sagt svo at þarvera sín hafi komid sèr at miklu gagni, hafdi hann þar bækr gódar, oc tómstund í tvö ár, er hann dvaldi þar; enn þeim fer framm siálfum er ödrum kènnir kostgæfilega.

## LXXVI Cap. Frá ímsu.

Svo er sagt at vetri sídar enn Ögmundr biskup lèt dæma midli sín oc Hannesar Eggertssonar, gæfi hann Byrni Þorleifssyni landsvistar brèf, oc ráda sumir af, at hann hafi þá haft hyrdstióra vald; enn ecki kann eg skil á því, eda veit hvada brèf þarmed er meint. Sakir bar biskup á Sigurd ábóta í Þyckvabæ, oc dæmdi ábótadæmit í sitt vald. Þá um vorid föstudaginn nærstann eptir krossmessu, lèt Einar Brynjúlfsson á Espihóli VI manna dóm gánga at Saurbæ, í umbodi Ara lögmanns Jónssonar, um arf nockrun. Var Einar jafnan fylgiandi Jóni biskupi oc sonum hans; enn Ari lèt gánga lögmannsdóm á alþíngi um ólöglega lausamensku, landprang, varníngskaup oc óhóf í klædaburdi; voru XII dómsmenn, oc samþyckti Didrich hyrdstióri af Bramsted. Þá gipti Jón biskup Arason Helgu dóttr sína, Ejólfi syni Einars Ejólfssonar oc Hólmfrídar Erlendsdóttr í Dal, taldi Ejólfr sèr VI hundrud hundrada, oc gaf Helgu fiórdúngsgiöf úr, ef hún lifdi lengr, oc LX hundrud í tilgiöf; var Jón prestr Einarsson í Odda talsmadr Ejólfs, enn brúdkaupid var at Hólum nærsta sunnudag eptir Michialsmessu. Þau biuggu í Dal undir Ejafiöllum, voru þeirra börn Eyríkr at Eyvindarmúla, oc Anna í Dal seinni kona Vígfúsar bónda Þorsteinssonar Finnbogasonar lögmanns, þeirra börn Þorsteinn oc Jón fadir Þórunnar ríku, oc Þorbiörg er átti Hákon Arnason Gíslasonar, módir Gísla lögmanns. Einar var enn Ejólfsson, hann átti Vilborgu dóttr Biargar Erlendssonar á Kètilstödum, oc druknadi í fliótinu barnlaus. Magnús oc Ejólfr qvæntust ecki. Eiólfr Mókollr son Gísla Philippussonar Sigurdssonar fóstra, bió í Haga á Bardaströnd, hann hafdi átta Helgu dóttr Þorleifs hyrdstióra Biarnarsonar hins ríka, þeirra börn voru mörg, Magnús prestr í Selárdal var einn, Oddr yfirbriti í Skálhollti, Gísli, Christín oc Þórdys. Gísli barnadi bádar systr sínar, oc flúdu þau í Skálhollt á nádir dómkyrkiunnar öll, oc í skiól Ögmundar biskups. Þau systkin voru áudug at fè oc giörfugleg, fèck biskup hiá þeim þat er hann vildi, enn hann lèt fylgi í móti koma; skaut hann Gísla þegar í skip, oc fór hann utann, oc er mælt hann hafi þar veginn verid, enn þær systr voru eptir í Skálhollti í gódu haldi; er ei gètit þess at þær hafi sætt refsíng-

um. Þá var Halldór sveinn Ögmundar biskups, son Orms bónda Einarssonar er Erlendr vo í Videy, Þorvardsson; hann féck Þórdísar, binggu þau at Saurbæ á Kialarnesi, oc voru þeirra börn: Ejólfr í Saurbæ syslumadr í Rángárþíngi, er átti Solveigu dóttr Arna Gíslasonar, oc Valgérdr er átti Jón prestr Egilsson í Staf-holti; enn Christínar annarar systr Gísla mun sídar gètid verda.

## LXXVII Cap. Slag í Grindavík.

Um þær mundir er mælt at Finnbogi Einarsson, er í VII ár hafdi 1530 verit ábóti at Þverá, son Einars Ísleifssonar, hinn lærdasti madr þá á öld, hafi dáid; hanns dóttir Gudrún fylgdi Sigurdi presti, syni Þorsteins Þóreyarsonar, er var kènníngarson Nicolásar prióra. Einar var son þeirra, oc fleiri börn, oc voru enn ei borinn er hèr var komid; þau Sigurdr prestr voru miög fátæk, oc segir Einar Sigurdarson at því hafi spád þeim gamall madr; hann segir svo:

Um ætt Finnboga
einn karl spádi
at frábæra mundi
fátækt lída,
þá eyk sú hin gamla
Einars fellí,
enn í fiórda lid
öll vidrèttast.

Pètr prestr Pálsson giördist þar ábóti, oc hafdi jardaskipti mikil. Jón biskup skipti oc jördum vid Magnús Brynjúlfsson bródr Einars á Espihóli. Þat sumar urdu þau tídindi sydra, at enskr kaupmadr í Grindavík, sá er Jón Breidi hèt, vard missáttr vid hyrdstiórann Didrich af Bramsted, oc vildi eigi gialda hönum toll sem vera átti; hann átti oc illt vid Hamborgara er þar lágu á nesinnum med kaupför sín, oc hèlldt skreid nöckurri fyrir þeim; kom í med þeim þverúd, oc fóru ord í milli; giördi Jón sèr virki skamt frá búdum á Járngèrdarstödum, er sumir kalla Jardgiördarstadi, oc sá enn merki til á dögum Biarnar at Skardsá, oc

band Hamborgurum med kallsi at sækja til sín ekreidina; tóku sig þà samann hyrdstiórinn oc hinir þísku menn, oc komu óvart um nótt upp í Grindavík, komust þeir í vyrkid oc drápu Jón oc alla hans menn, enn tóku skip oc fè þad er þeir áttu; voru þar dysjar þeirra hiá vyrkisgardinum. Þá sömdu biskupar med sèr Ögmundr oc Jón um Myramál, fèck Ögmundr biskup Jóni biskupi jardir sínar fyrir nordann, Márstadi, Skútu, Siáfarborg, Akra, Kimbastadi, enn Jón biskup hönum sínar í Skálhollts biskupsdæmi, Ædey, Unadsdal, Sandey, oc átta jardir í Veidileysu.

## LXXVIII Cap. Konúnga oc höfdíngia skipti.

Vorid eptir, hinn XIXda dag Aprilis mánadar deidi Fridrikr
1533 konúngr Christiáns son í Danmörku; giördist þar þá mikill ófridr, því ad sumir vildu hafa Christián Hansson aptr at konúngi er fánginn var, enn sumir Christián son Fridriks konúngs, voru oc adrir höfdíngiar af konúnga ættinni, svo sem var Christófór Aldinborgargreifi, er þar vakti hina mestu styriöld; enn á medann því fór framm, vard ei miög margt til tídinda á Íslandi, sem talid er; á alþingi var samþycktr dómr Pínings er fyrrum var hyrdstióri, af Didrich höfudsmanni af Bramsted, biskupum bádum Ögmundi oc Jóni, oc lögmönnum Erlendi oc Ara, oc öllum þingmönnum. Þá giördist oc Alexíus Pálsson prestr á Þíngvelli, ábóti í Vídey; voru þeir ábótar Halldór Tyrfíngsson at Helgafelli, oc Alexíus, oc Sigurdr í Þyckvabæ í dómi á alþíngi, med Jóni Markússyni príóri at Skrídu, í máli Sigurdar Olafssonar. Páll Grímsson Pálssonar tók þá Húnavatns syslu. Biörn prestr Jónsson biskups, tók oc þá at sèr Steinunni dóttr Jóns Magnússonar á Svalbardi oc Ragnheidar Pètursdóttr, gáfu foreldrar hennar henni Ç hundrada, oc Biörn prestr vidlíkt ef hún þiónadi trúlega. Ísleifr son Sigurdar Finnbogasonar fèck þá oc Þórunni dóttr Jóns biskups, oc eru nú flest börn hans gipt, þá er hann siálfr var ei eldri enn fimtugr, var brúdkaup þeirra at Hólum; þar var Helgi ábóti frá Þíngeyrum, oc bródir Jón frá Mödruvöllum, oc margt annad vildarmanna fyrir nordann; þar er sagt at verid hafi hin mesta rausn, oc þá hafi Jón biskup qvedid marga

ölvísu fagra, oc skipt hinum mestu ölmusugiöfum med fátækum, er at sóktu. Þau Isleifr oc Þórun sátu at Grund í Eyafyrdi, oc áttu ecki börn saman, var Þórun heimskona mikil; hún lèt qveda um Isleif á vikivaka:

I Eyafyrdi uppá Grund, á þeim gardi frída,
þar hefir bóndi búid um stund, sem börn kann ei ad smída.

Enn þat var seinna. Þorsteinn Torfason seldi Eyríki bródr sínum í Klofa arfshlut sinn, eptir Ingibiörgu systr þeirra; í þann tíma skipadi Ögmundr biskup mörgu díarflega í Skálholts umdæmi, oc var þar sú sök til at konúnglaust var; er mælt hann hafi veitt Jóni Hallssyni þá syslu, þó ádr segi hann hafi syslumadr verid. Jón biskup tók sèr oc hid sama vald, því at menn ætla
þeir hafi tekid at sèr hyrdstiórnina. Þá var kaupmáli milli Biarnar 1534
Þorvalldssonar oc Herdísar Gísladóttr frá Hafgrímsstödum; um þær mundir deidi Magnús prestr at Grenjadarstad son Jóns biskups, oc kom þangad sídan Sigurdr prestr, annar son Jóns biskups. Jón Markússon príór at Skridu deidi þá einnin, oc var þangad
vígdr Brandr prestr Rafnsson frá Hofi, er þar hafdi lengi verid. 1535
Þá dæmdi Alexius ábóti milli sín oc Jóns Bergþórssonar, eda lèt dæma, hann hafdi hafa klaustrenet til at veida laxa í Ellídaá, enn þó klaustrid hálfa veidina. Erlendr lögmadr dæmdi um sumarid, oc Einar bóndi Brynjólfsson á Keppóli í umbodi Ara, á Öxarárþingi, med lögrèttumönnum, at biskupar skyldu standa fyrir hyrdstjórn, oc taka konúngsrentu, eptir erkibiskupsbodi; því ad Christián hertogi son Frídriks konúngs hafdi viliad skipa Didrik af Brensted aptr hyrdstiórnina, enn fèck þess ei rádid, med því at Olafr Lange erkibiskup, oc adrir Nordmenn lögdust á móti hertoganum, oc Hannes Eggertsson er fyrr var hyrdstjóri var dáinn, oc Gudrún kona hans þá kominn til Islands fyrir tveim vetrum; hugdu menn at Thyli hefdi aptr gengid, oc drepid Hannes. Christófór greifi hafdi skipad Markúsi Meyara hyrdstjórn; enn biskupar oc landsmenn hèr, möttu meira erkibiskups tilskipan, enn Christíans hertoga eda Christófórs greifa, er þar med voru ósáttir oc vissi enginn hvo reida mundi; fram fór dómrinn midvikudaginn næstann eptir Pètursmessu oc Páls, voru þar í, medal annara dándimanna, Eyríkr Sniólfsson undir Asi, oc

Gísli Hákonarson, at Hafgrímsstödum. Jón biskup hafdi jarda-skipti vid Biarna Skúlason; hann gaf oc Byrni presti syni sínum fremra Núp í Núpsdal. Biarni Vígfússon fèck Ögmundi biskupi Hamar í Borgarhrepp fyrir kyrkjureikninga. Þau urdu málalok med Dana höfdíngium; at Christián hertogi Fridriksson vann
1536 Kaupmannahafnarstad oc sigradi alla óvini sína; enn þar eptir giördi hann alla biskupa í Danmörku handtekna, er páfatrú héldu, oc svipti þá völdum, enn leiddi inn hinn lúthersku sid um allt ríkid; var hann kalladr Christián þridji, oc var ríkr konúngr, oc rèdi lengi fyrir Danmörku oc Noregi, oc þeim löndum er þar lágu til.

## LXXIX Cap. Sendiför Ögmundar biskups.

Þetta sumar kom út Claus af Mervits med hyrdstiórn; hann var illr oc ódæll, oc giördist brádt óvinsæll; þá hafdi Ögmundr biskup enn jafnan skip í förum til Noregs, oc hafdi kaupskap á vidi oc ödru, enn þurfti mörgum reikníngum at gegna, sídann hann héldt hyrdstiórnar valdid; tók hann þá fast at eldast, oc mædast í slíkum störfum; hann hafdi oc jafnann verid sliéf-skygn, oc færdist þat í vöxt heldr; hlaut hann því at senda eptir Gissuri Einarssyni austur til Þyckvabæar, oc taka hann til sín aptr, qvad engann svo kunnugann reikníngum sínum, edr jafnslíngann úr þeim at greida, eda ödrum naudsinium; litlu sídar sendi biskup til Noregs, med Ejólfi Kolgrímssyni, er þá var skipstiórnarmadr á skútu hans, til þess at greida reikrínga sína vid konúngsvaldid, oc adra menn; áttu þeir Gissr oc Ejólfr at fara bádir med bréf oc heimugleg eyrindi til Olafs Lunga erkibiskups í Nidarósi, enn hann hafdi miög mótfallid Christiáni konúngi, oc var óvild mikil med þeim; enn er lènsmenn konúngs í Noregi fengu grun af því, at þeir mundu færi med bréf oc heimugleg bod milli biskupa komust þeir Gissr oc Ejólfr vid [illegible], voru handteknir af konúngsmönnum, oc skildir at, sinn í hverju herbergi, afklæddir oc rannsakadir vandlega; enn þó gat Gissr falid bréfinn svo kænlega, at hverki fundust þau eda nockr líkindi til þeirra, oc við þat var þeim sleppt aptr; [illegible] sídan at líf þeirra hefdi [illegible], ef bréfinn hefdi fundist, fèck hann leyst af [illegible]

sendiförina, oc komu þeir Ejólfr út med heilu; þóknadist þá Gissr Ögmundi biskupi því framar, sem hann reindi hann at meiri hollustu, oc ætladi hann mundi fyrir laungu hafa kènningu Lúthers undir höfud lagid.

## LXXX Cap. Frá Oddi Gottskálkssyni oc Gisla.

Oddr son Gottskálks biskups Nicolássonar á Hólum, hafdi alist upp í Noregi med fœdrbródr sínum, frá því er hann var VI vetra, oc til þess hann var roskinn, var hann því kalladr Oddr hinn norski, hann var lærdr vel í latínumáli, þýsku oc dönsku, hafdi hann farid um Danmörk oc þýskaland, oc var lítinn hvervetna vel; hann hafdi fengid sanna kynníngu þess lærdóms er Marteinn Luther kènndi. Hefir Oddr svo sagt siálfr, at hann efadi lengi, oc volkadi huginn um þat, hverin hann skyldi framar trúa, enn nu sidir tók hann þat rád, at hann fór af sæng sinni í nærklædum nockrar nætr samt, oc bad Gud af alhuga byrta sèr, hver sannari væri, hinn nyi lærdómrinn, eda hinn forni, enn einhverin sinni brá svo vid, at hönum hugfestist þadann af eckert af hinum gamla sidnum, enn allt vard opid oc lióst í huga af hinum nyrri. Oddr var vitr madr, oc kalladr forspár miög, fyrir því trúdu einfaldir menn oc óvitrir, at hann skyldi hrafnamál. Oddr fór Skálholit til Ögmundar biskups, oc giördist ritari hans, oc kær vinr; hafdi hann út híngad margar bækr góder þýskar oc latínskar, oc þó miög á laun; þá var oc í Skálholti Gísli prestr Jónsson er fyrri var getid, oc Oddr yfirbriti Ejólfsson frá Haga; hann hafdi badstofu afsídis, oc skála oc enn hid þridia hús, fyrir framann hladgardinn, austr af stóru badstofunni; giördist med þessum öllum kunnleikr mikill; vóru þeir vinir öllum stundum sem þeir máttu í húsum Odds brita, oc lètu engan vita hvad þeir höfdust at, ydkudu þeir allir heimugliga þennann lærdóm. Oddr Gottskálksson lèt um vetrinn giöra sèr pall í fiósi, lèt þar vera hlirra, enn þat var raunar at hann þóttist heldr vera í nædi oc einsamann, lètst hann rita kyrkiubækr gamlar oc biskups statútur, oc sindi þeim er til hans komu, enn enginn visai þat er var. Lagdi hann þá út um vetrinn nya testamentid, Mattheus

gudspiöll; hann braut þá pappír, oc bad biskup um nockurn; biskup spurdi hvad hann hefdi þess at rita? Oddr segir at voru kyrkiulög oc biskupa skipanir. Biskup segir þá at fá skuli hann nægann pappír til þess, sem hann vildi. Þá mælti Oddr vid Gísla prest, at furdulig væri stiórnan Guds; sonr hanns blessadr fèck ei annad rúm at fædast í heim þennan, í géstaherberginu, enn stallinn; oc nú er eg tekst á hendr at leggia út á módurmál mitt gudspiöllinn, af syni Guds oc fædíngu hans, fæ eg ecki til þess annan stad óhultann, eda rúm hèr á stólnum, enn fiósid. Hann fór sídann med útleggíngu sína, oc fèck leifi Christjáns konúngs, at láta prenta hana í Róiskèldu; Gísli prestr hefir svo frásagt, at þá er hann var kyrkiuprestr í Skálholti, fèck hann nya testamentid til eignar; ætla menn þat þiskt verid hafa, oc útleggíngu Lúthers; hann hafdi þat í vasa sínum eda barmi, oc las öllum stundum, þá hann hugdi sèr óhætt, hvar sem hann var staddr. Eitt hvert sinn var hann uppi vid kyrkiu, oc las Lúkasar gudspiöll med siálfum sèr, vard hann ei fyrri var enn Ögmundr biskup kom þar at hönum, oc spurdi med hveria bók hann færi? prestr brá henni undir handkrika sèr, oc qvad vera sína bók; biskup vildi þó siá hana, enn hann var tregr at láta, þartil ér biskup reiddist, oc mælti at vana sínum at skækiuson sá skyldi láta hana fram; treistist hann þá ei ödru enn sleppa; enn er biskup leit á bókina, reiddist hann enn meira, oc spurdi hvert hann færi med villu Lúthers, fleigdi sídann bókinni nordr í tradir, oc hlióp inní kyrkiu; enn Gísli prestr tók aptr bókina þá hann sá sèr færi á, oc biskup var á brottu.

## LXXXI Cap. Ögmundr biskup vard blindr.

Einhverju sinni var Ögmundr biskup rídandi á förnum vegi med Ingólfsfialli, þá vard hann siónlaus med öllu á stuttum tíma; var biart vedr, oc spurdi hann sveina sína hvert þá tæki qvölda, því hönum sýndist svo dimt; þeir qvádu ney vid, oc sögdu sólskin vera skært; þá mælti hann: nú, nú, far vel veröld, þú hefir mér nógu lengi þiónad. Um þær mundir kaus hann med rádi presta, Sigmund prest systrson sinn, er þá var í Kyrtar-

dal til adstodar sèr, oc biskups eptir sig. Ögmundr biskup hafdi þá vígt fióra menn til presta er biskupar urdu, Sigmund oc Gissr Einarsson, Martein Einarsson oc Gísla Jónsson.

## LXXXII Cap. Frá Ögmundi biskupi oc frændum hans.

Ögmundr biskup hafdi mikin kaupskap í Noregi; lá skip hans laungum annan vetr hèr, enn annan þar; hann komst yfir miklar fasteignir, gaf opt lítid fyrir jardir, enda fór hönum oc stórmannlega vid vini sína, oc vandamenn; hann hafdi mörg jardaskipti, bædi á dómkyrkiu jördum, oc annara kyrkna, sumum til baga, enn sumum til hagnádar. Bæ á Raudasandi er gèfinn hafdi verid fyrir Beneficium af Ara Andrèssyni, gaf hann sveini sínum Sigurdi Jónssyni, Ormssonar þess er bródir var Gudna í Kyrkiubóli; hann lèt oc dæma sèr jördina fyrir lögbrot Ara; hann tók afgiöld at sèr fyrir fiögr âr, af því fè er kallad var Anastada arfr, barst oc mikid sem ádr segir af fiám Biarnar Gudnasonar, Biarnar Þorleifssonar oc Sólveigar Biarnardóttr. Hiallr segia sumir hann tekid hafa af Oddi presti í Gaulveriabæ syni Halldórs at Túngufelli, fyri nockr lögbrot er hönum þóttu í móti rètti kyrkiunnar, enn adrir segia hann keypt hafa at þeim brædrum Oddi presti oc Snæbyrni fyrir lítid verd; fèck hann svo þá jörd Asdysi systr sinni fyrir jardir á Vestfiördum, er hún hafdi erft eptir Þórólf Ögmundarson módrbródr sinn, hefir sídann Hialli verid í ætt Asdísar. Hofstadi í Alptanes hrepp XII hundr, er þá var Skálholts stadar jörd, oc fylgdi Heyness umbodi, seldi hann Þorleifi presti Eyríkssyni á Melum, uppí Varmalæk oc Maulustadi, Heggstadi, Grímstadi oc Belgshollt; oc lagdi í kaupbætir XV kúgildi, en setti aptr í Heyness umbod Fellsöxl, Hól oc Túngu í Skilmannahrepp oc Svínadal, þær tók hann frá dómkyrkiunni. Þorsteini Þórdarsyni systrsyni sínum, brôdr Jóns, gaf hann fyrir lánga þiónustu jördina Kalmanstúngu í Hvítársídu, undann sèr oc sínum eptirkomendum, Skálhollts dómkyrkiu formönnum, oc þartil XX hundrud; enn gengi Kalmanstúnga aptr, skyldi Þorsteinn eiga adgáng til Vidimyrar í Skagafyrdi. Þórólfi frænda

sínum fèck Ögmundr biskup fyrst Svínhól í Dölum fyrir lausafè, sídann þá Þórólfr græddi fè, skipti hann um, oc fèck hönum Hvassafell fyrir Svínhól, oc aptr seinna fyrir Hvassafell Brennistadi í Borgarhrepp XL hundrud, oc svo giördi hann vid fleiri frændr sína; sá Þórólfr var fadir Gudrúnar er átti Pétr prestr í Hvammi son Arna, prests Arnórssonar. Þá talad var um sveitir, í Arnessþíngi var þat máltæki Ögmundar biskups: Grímsnesid góda oc gull-Hrepparnir, sulltar-Túngr oc svarti Flói.

## LXXXIII Cap. Börn Þorleifs Gudmundarsonar.

Þau missiri er Claus frá Mervitz kom út med hyrdstiórn, druknadi Þorleifr bóndi frá Þyckvaskógi, son Gudmundar Andréssonar undir Felli oc Jardþrúdar Þorleifsdóttr, í Rifi vestr, miög drúckinn, med sonum sínum tveimr, enn módir þeirra nádist á floti þúngud, Ingibiörg dóttir Jóns Erlíngssonar undir Múla á Skálmarnesi, systir Ingu er Teitr átti; voru börn þeirra sem mönnudust, Jón prestr í Gufudal, er fyrri hafdi Vatnsfiörd, oc var Officialis, fadir Þorleifs er Múla-menn eru frákomnir; oc Orms, er frá eru komnir Arni Assessor oc þeir Magnússynir, oc þeirra ætt, oc Gudmundar prests at Stad á Reykianesi er margt afqvæmi átti; Ingu er átti Halldór prestr Einarsson í Selárdal; Ingibiargar er Olafr átti son Jóns Olafssonar í Hiardardal; oc Karítasar er Arni átti á Narfeyri, fadir Halldórs Indíafara oc Jóns silfrsmids. Gudmundr var annar son Þorleifs bónda, hann bió í Þyckvaskógi, oc keypti hann af brædrum sínum. Hans son var Biörn er þar bió, fadir Gudmundar oc Jóns, enn dætr voru fiórar, oc er ætt frá þeim öllum. Biarni hèt hinn þridji son Þorleifs, hann átti Sigrídi dóttr Jóns Þórdarsonar frá Hvanneyri, oc Ragnhildar Einarsdóttr, voru hans synir Þorleifr er margt manna er frákomid, oc Þórdr; annar Biarni Þorleifsson átti fátt afqvæmi.

## LXXXIV Cap. Frá sonum Jóns biskups.

Þann tíma féck Ari lögmadr son Jóns biskups Halldóru dóttr Þorleifs Grímssonar á Mödruvöllum, taldi hann sèr II hundrud

hundrada í lausafé, oc IV hundrud hundrada í jördum, voru þar med Hollztastadir, Mödrufell oc Núpufell, eitt hundrad hundrada hvert, oc Eyrarland tyutygi hundrud, þat gaf hann konu sinni Halldóru í fiórdúngsgiöf, oc fyrir þá sök fèll þat aldrei undir konúnginn; voru Halldóru talinn III hundrud hundrada, oc lifdi hún þeirra skèmr; börn þeirra er á fætr komust, voru Þóra oc Helga; bió Ari at Mödrufelli. Sigurdr prestr at Grenjadarstad sonr Jóns biskups, giördist oc höfdíngi mikill, hann hèldt vid Sesseliu dóttir Pètrs Loptssonar, systr Arna í Stóradal oc Lopts prests í Vídidalstúngu, oc Ragnheidar á Svalbardi; þeirra börn voru Pètr oc Halldóra, enn Þurídr var laundóttir Sigurdar prests. Sigurdr prestr hèldt optast VI sveina, oc prest annan, oc svo IX eda X karlmenn gylda, því at hraustir menn vöjdust til hans; voru þar oc laungum med hönum ríkra manna synir til kènslu. Capellan hans var Sigurdr prestr son Þorsteins Þóreyarsonar, hann var gudrækinn madr, oc spakr, enn hans fylgikona var Gudrún Finnbogadóttir, sem fyrri segir; optast vóru munngát á bordum at Sigurdar prests, svo at önnr voru heitt er önnr eyddust, var mióldrickia jafnan á helgum dögum, oc sedt nu lögl vid bord er gèstir vóru.

## LXXXV Cap. Mannalát oc annad.

Á þeim missirum er nærst hafa verid talinn, höfdu þeir skipti á mörgum jördum Ari lögmadr oc Páll bóndi Grímsson, tók Ari jerdir í Reykiadal; Einarstadi, Glaumbæ, Hallbiarnarstadi, Narfastadi, Eliótsbacka, Vídá oc Hellu vid Myvatn; enn Páll í Húnavatns þingi Hollztastadi, Lækiardal, Striúg, Ufagil, Vatnshverfi, Reistadi; var Jón biskup forsagnarvottr. Þá lèt Páll Grímsson VI manna dóm gánga at Asi í Vatnsdal um lambarekstr á Dalsheidi, er Liótr Asgrímsson kærdi at bændr forsómudu. Pètr Loptson hafdi þá jardaskipti vid Biörn Þorleifsson, oc því er lióst at þeir lifdu þá enn bádir, vóru kaupvottar Olafr Magnússon, oc Eyríkr í Asgardi Gudmundarson Andrèssonar. Olafr Gudmundarson í Þormóðvík, syslumadr í Isafirdi lèt VI manna dóm gánga í

Ögri um barns framfæri. Þá er oc gètid Þorgils Nicolássonar prófasts milli Hvítaness oc Lánganess, oc Jóns Eyríkssonar í Vatnsfyrdi prófasts milli Geirhólms oc Lánganess, at þeir gáfu qvittunarbréf fyrir barneignir. Um þær mundir er sagt at Islendingar hafi gèfid Cláus hyrdstióra af Mervitz sakir um rán oc manndráp, enn hann hafi því eydt, þó þeir ritudu konúngi þar um, oc fengid brèf fyrir því at hann mætti ad sèr taka Videyar klaustr, enn þó dulid þad um hríd, því þat er bert at ecki fylgdi hann því framm þau missiri er hann kom út, oc eigi hin næstu; var þá Alexíus ábóti í Videy, oc hafdí Officialis starf milli Botnsár oc Hvítskèggia hvamms, fyrir þremur vetrum sídann: þat er, Kialarness þíng; enn nú er hèr var komid, kaus Ögmundr biskup Sigmund prest Ejólfsson í Hytardal, systurson sinn, sèr til adstodar, sem ádr er gètid, oc biskupsdóms eptir sig, oc fór hann utann um sumarid. Þá var Jón Philipsson prófastr í Eyafyrdi, oc gaf Biörn Þorvaldsson qvittann um barneignir; Biörn bjó at Æsustödum, oc hans nidiar. Bárdr Pètrsson hèt annar prófastr milli Hvítaness oc Lánganess, hann gaf qvittunarbrèf Jóni Narfasyni oc Sesseliu Bessadóttr, oc giptuz þau samann. Fór oc framm vitnisburdr Erlíngs Gíslasonar um uppgiöf Ögmundar biskups á peníngum vid Jörund prest Steinmódarson, oc börn hans, fyrir brot hans, ætla eg þad sè hinn sami prestr er Biörn Gudnason lèt hida; gètid er oc qvonfángs Andrèsar sonar Biarnar Þorleifssonar oc Gudlaugar Jónsdóttr. Á þeim missirum gèck qvefsótt mikil, oc deydi Teitr bóndi Þorleifsson, hafdi hann verid bríóstveikr, oc margt fólk annad. Þá var Sigmundr prestr vígdr til biskups í Noregi, af Olafi Lungs erkibiskupi Engilbertssyni, skömmu ádr enn Christián konúngr rak hann úr landi; enn nóttina eptir þat hann vígdist dreymdi hann at kona kæmi at hönum, oc mælti: ef þú verdr biskup XX nætr, þá verdr þú þat einnin XX ár at Skálholti; um morguninn hafdi hann tekid fótarverk, þat var átumein sem kallast jötunuxi, dó hann af því í Noregi, þá er hann hafdi biskup verid í XIX nætr. Arni prestr hans, son Arnórs Finnssonar á Ökrum, hafdi utanfarid mèd hönum, oc fèck snert af því meini þá Sigmundr biskup var fráfallinn, enn enskr madr læknadi hann; fèck hann sídar Hytardal. Biörn var þá smásveinn Sigmundar biskups, launsonr Þorleifs Pálssonar á Skardi, hann bió sídar at Kelldum, oc var fadir

Eyriks at Keldum, oc Margrétar er Sigmundr Þórólfsson at Hofi átti. Komu þeir Arni prestr út um sumarid eptir med þessi tídindi. Katrín var dóttir Sigmundar biskups oc Þurídar stóru, hún var IX vetra þá er hún lá á fótum Ögmundar biskups, er hann var tekinn at Hialla; hennar féck sídann Egill son Einars prests Olafssonar í Gördum, þau bioggu at Snorrastödum í Laugardal í Grímsnesi, jördu sinni, vóru þeirra börn Jón prestr at Hrepphólum oc seinast veitslumadr í Skálhollti, sá er annálin reit; Ejólfr, er lengi bjó í Borgarfyrdi, oc átti Gudrídi dóttr Þorsteins Sighvatsonar, fadir Cláusar í Hólmum í Landeyum, födr þeirra Arna oc Þorleifs prests at Utskálum. Olafr prestr í Vestmannaeyum var hinn þridji, er Tyrkiar tóku, Einar hinn fiórdi at Berghil oc Midfelli í Hrunamanna hrepp, Sigmundr, Sæmundr, Þorgèrdr oc Þurídr. 1538

## LXXXVI Cap. Frá Marteini Einarssyni.

Marteinn son Einars prests Snorrasonar at Stad á Öldubrygg hafdi komid frá Englandi er hann var átján vetra; var hann latínulærdr, oc málari gódr, sem merki hefir til sèd í kórnum í Alptaness kyrkiu er hann hefir pentad á seinni árum sínum; hann var tvo vetr kaupmadr Enskra í Grindavík, enn fadir hans vildi þat ei; oc sendi þángad eptir hönum; máladi hann þá innan Stadarkyrkiu, oc svo Skálhollts kyrkiu kór, er sumir kölludu *Sancta Sanctorum*; enn er hèr var komid, hèldt hann Stad eptir födr sinn, oc var prestr; hann hèldt vid þá konu er Ingibiörg hèt, oc var lítilla manna, höfdu foreldrar hennar búid á Bolavöllum Stadar hiáleigu, oc Einar prestr tekid hana sakir fátækis þeirra, var hún jafngömul Marteini oc urdu med þeim kynni í æsku; fèck hann hennar seinna er prestar máttu qvongast, enn lítid var látid um mannvit hennar oc kosti, oc þótti festast af því keimr vid ætt þeirra. Börn þeirra vóru Halldór á Alptanesi, Gudrún er átti Einar prestr at Melum son Þórdar lögmanns, Ingirídr er átti Olaf Jónsson Bagga hyrdstióra-þènara danskann; enn launsynir Marteins: Jón er átti Gudbiörgu dóttr Erlendar

lögmanns Þorvardssonar, oc Einar prestr at Stad er átti Þórunni dóttr Olafs prófasts Gudmundarsonar at Hiardarhollti systr Jóns á Svarthóli. Ingiridir systr Marteins átti Dada Gudmundarson í Snóksdal. Marteinn prestr var Officialis Ögmundar biskups, oc dæmdi þá er hèr var komid um Einar Gamlason; enn Erlendr lögmadr dæmdi þá um fátæka menn oc utansveitarmenn, at Backárhollti í Ölvesi, föstudaginn fyrir krossmessu.

## LXXXVII Cap. Lát Ejólfs Kolgrímssonar.

Þat bar vid einhveriu sinni, er Ögmundr biskup fór í Visitatiuferd, oc sat at biskupsveitslu í Reykhollti at formann sid, at þá kom þar Lazarus meistari hinn þiski frá Skáney til fundar vid biskup; voru sveinar biskups drucknir oc gèmsudu mikid, oc spottudu Lassa, enn hann gaf sig fátt vid, oc reid aptr til Skáneyar, er hann hafdi lokid eyrindi vid biskup; qvad hann sig þá syfia, oc lagdist nidr, enn baud at binda hest sinn heima, lèt biskups sveina verid hafa nógu káta í Reykhollti, oc meiga skè, at einhver þeirra vitiadi sín ádr sá dagr væri allr. Ejólfr son Kolgríms ábóta hafdi lengi verid sveinn Ögmundar biskups, oc í gèngi miklu, var hann mikill fyrir sèr oc sterkr, ofláti oc ofstopamadr vid öl, oc hafdi veigid ádr mann saklausann, enn er ridid var um daginn frá Reykhollti ofann eptir dalnum, var Ejólfr druckinn, oc leitadi á ymsa menn, enn allir sneyddu hiá hönum, hann hafdi lensu mikla í hendi, oc veifdi henni í kríngum sig, stundum setti hann oddinn á södulbryggiu sína, þar til er oddrinn slap af bryggiunni, oc í qvid hönum, oc var þat fyrir nedann Kleppiarns Reyki, þar sem gríótbrúgann stendr vid götuna á melnum; var þá þegar sendt eptir Lassa lækni, oc er hann kom var Ejólfr nær örendr, fèck hann ei adgiört, oc hlaut Eiólfr bana; þá var þar Páll son Vígfúsar lögmanns Erlendssonar med Ögmundi biskupi, eda sveinn hans, fyri því upplaust prestr sá er Stephán hèt oc var Olafsson, þeirri ófrægd um hann, meir enn XX vetrum sídar, at hann hefdi ridid á spiótskapt Eiólfs, oc ordid hönum med þeim hætti at bana.

## LXXXVIII Cap. Frá imsu.

Þat sumar sem Ögmundr biskup spurdi fráfall Sigmundar systursonar síns, kaus hann aptr med rádi oc sampycki lærdra manna, Gissr prest Einarsson til biskups eptir sig. Þá var þat mánudaginn fyrir allraheilagra messu, at Jón biskup dæmdi at Hrafnagili med XII prestum Jón prest Finnbogason frá Laufásstad, fyrir þat, hann hefdi engann reikníng stadit kyrkiunni í þau XXX ár, sem hann hefdi haldid stadinn, enn þótt biskup hafi beidst, enn kyrkiann kominn undir fall, skyldi biskup taka at sér stadinn oc kyrkiuna í næstu fardögum, oc Jón prestr skyldi settr af embætti, ef hann geldr ei kyrkiunni svo mikla peninga sem hann medtók, oc giörir ei rèttann reikníngskap af *portione* oc *mortualiis* oc þat fér framm, því at Jón biskup veitti Olafi presti Hiallftasyni Laufás-stad ári seinna. Mánudaginn fyrir Dyradag útgaf Jón biskup brèf sitt um Myra kyrkiu í Dyrafyrdi, oc qvadst gialda henni LX hundrud, Fell XII hundrud, Rekavik X hundrud, í bókum XX hundrud, málnytu kúgildi X hundrud, í klædum II hundrud, í vadmálum II hundrud, í vaxi, reikelsi oc kreptum II hundrud, í gylltu oc brendu silfri II hundrud, ef hann oc hans eptirkomendr meigu frialslega halda þá kyrkiu oc hennar peninga, eptir því sem innihaldi innsiglad brèf síns brodrs Ögmundar biskups. Í þann tíma tók Ögmundr biskup af tyundinni í Vestmannaeyum til eflíngar kyrkiu-stadinum, oc lèt þat haldast, til afdráttar prestum þeim er þar voru; hann stefndi oc Ejolfi Einarssyni mági Jóns biskups, oc lèt dæma af hönum LX merkr til sín, oc jafnmikid til kyrkiunnar, fyrir fylgd nockurt vid Erlend brodr sinn, oc sva at taka lausn; enn fyrir þat hann skaut sèr undan biskups dómi skal hann gialda biskupi sem hann hefir kostad til utanfarar, oc kyrkiunni XC merkr, oc hid sama biskupi, enn sè fallinn í bann, oc skyldr at taka lausn oc skriptir. Á þeim missirum lèt Páll Grímsson dóm gánga um lambarekstr oc toll á Eyvindarstada heidi, því at Jón Halldórson kærdi þat til Þorláks Þórarinssonar, at hann vildi eigi reka nè gialda; var þá enn stadfestr dómr Einars Gilssonar lögmanns, oc sektir vidlegdar IV merkr til konúngs, oc IV merkr Eyvindarstada bónda, voru dómsmenn Jón Olafsson, Einar Einarsson, Egill á Skardi, Jónsson Einarssonar, oc fleiri. Ögmundr biskup haldi jardaskipti

vid Sigfús Sigurdarson Brúmanssonar, oc Olufu konu hans. Þá gèck XII manna dómr á alþíngi, tilskipadr af Jóni biskupi, Cláusi af Morvitz hyrdstióra, Erlendi oc Ara lögmönnum, um ákæru Ögmundar biskups til Sigurdar Olafssonar, at hann hefdi líkhamlega samlagast systr sinni, var hönum dæmdr tylftareydr, X vikr særar, ella skyldi hann takast af konúngsvaldi, hafdi Christián konúngr hlutast til at láta ransaka málid, enn þat hafdi ei fyrri skèd um slik mál. Enn er Ögmundr biskup vard þess vis hveriar nyúngar voru á ferdum, lèt hann rita lángt brèf til allra manna í biskupsdæminu, um þá villu, er hann kalladi, se n grámúnkr einn á Þískalandi hefdi uppfundid, oc varadi þar alla vid sem hann mátti.

## LXXXIX Cap. Frá Didrich.

Madr er nefndr Didrich af Mynden, hann hafdi verid umbodsmadr hyrdstiórans á Bessastödum um IX vetr eda X, hafdi hann verid med er biskupar bádir oc lögmenn, oc XXIV lögrèttumenn höfdu þad samantekid: "at allir haldi helga trú oc guds lögmál, sem gud hefir sett, oc heilagir fedr" var þat giört til varúdar af þeim, sakir nymæla þeirra er spurdust. Didrich var Hamborgari at ætt, oc illa þockadr af vondum ordum oc gripdeildum; höggum oc áverkum vid marga menn. Hefir svo sagt Jón prestr Egilsson, at Einar prestr Olafsson í Gördum, födrfadir sinn, oc Didrick, hafi laungum eldt grátt silfr, bædi med ordum oc áflogum, oc um sídir hafi Einar prestr heitid at lesa upp æfisögu hans á alþíngi, med því hann rændi bædi siálfr, oc leiddi þá adra til. Didrik vard þess vís at konúngr tók til sín forrád klaustra oc þeirra eigna í Danmörku; fyrir því tókst hann á hendr at taka klaustrinn á landi hèr undir konúnginn, enn syndi þó enga heimild fyrir, höfdu þá biskupar enn alla umsión þeirra í landi hèr.

## XC Cap. Yfirgángr Didrichs oc afdrif.

Vorid nærsta eptir þau tídindi er frá sagt hefir verid, þá er
1539 Alèxíus ábóti var heimann ridinn úr Videy í fardaga áttektir

Unar, oc fátt karlmanna var eptir heima, kom Didrik þar med sína menn öllum á óvart, þá sól rann, á hvítasunnu morgun sinnsann; bördu þeir á heimamönnum oc hröktu þá, fóru ílla vid allt fólk oc ráku á brott, enn Didrich settist á klaustrid siálfr, oc tók allt undir sig er þar var; þar var rænt XX kúm, CXX ám, LXX lestum fiska, oc mörgu ödru; þar um qvad svo Jón biskup, er hánn spurdi ránid:

sunnann at seigia menn
Sund-klaustr haldist laust,
þiskir giöra þat rask
þeigi gott í Videy;
öldinn hefir ómild
Ala bruggad vont kál;
undarlegt er Ísland
ef eingi réttir þess stétt

þar nefnir hann Alexíus ábóta Ala; lídr nú svó framm ad alþíngi; hittust þeir Ögmundr biskup oc Didrich vid þíngvalla kyrkiu, oc mæltust vid um adtekt á Videyar Klaustri; beiddist biskup af hönum bréfs eda sanninda fyrir, at slíkt væri konúngsins vilji eda skipan, lètst þá vilia hlída því; Didrik svaradi þar fáu til eda þagdi; biskup baud sig undir rétt lög vid hann eda hvern annann er sèr mætti nockud tiltala; Didrik mælti at pestilentian skyldi hafa þau lög; vid þat skildu þeir; lèt þá Ögmundr biskup XXIV menn dæma í Reykhollti, um óiöfnud Clausar af Mervitz, oc helst Didriks, oc báda í bann, enn eignir þeirra upptækar Skálhollts kyrkiu, þær sem hèr væri í landi, oc þær konúngi sem utanlands væri. þar ásakadi hann einnin Pètr Einarsson fyrir þat hann fyllti flock þeirra, oc hèt hönum banni, nema hann snéri frá því órádi, oc tæki lausn. Hann var bródir Marteins prests á Stad. Fiórum eda fimm nóttum fyrir Laurentiimessu um sumarid, reid Didrich frá Bessastödum vid Xdamann til at taka undir sig þyckvabæar klaustr oc Kyrkubæar, enn sem hann var kominn austr yfir Ölvesá hiá Kotferiu, oc lagt var á hesta hans, qvad hann þat upp, at hann mundi rída fyrst í Skálhollt oc hitta Ögmund biskup, hafdi hann ei ádr giört rád fyrir slíku; sagdi at Pètr Spons oc Hans Witt fylgdarmenn sínir, skyldu fara austr yfir þiórsá, oc bída sín í Odda. Rídr nú Didrich í Skálhollt, oc lætr setja tiald sitt fyrir framann timbrstof-

una, var hönum veitt öl oc matr sem hann vildi hafa, enn ecki fann hann Ögmund biskup á þeim degi. Um morguninn eptir hittust þeir, spurdi biskup hví Didrick færi því framm at taka klaustrinn undir sig, ef þat væri ecki greinileg skipan konúngs; Didrich svaradi þar fáu, oc illu einu, oc skildu þeir svo um sinn; eptir þat fór Didrick tvisvar eda þrisvar inní biskups badstofu til at skeyta skapi sínu, oc gaf þá biskupi mörg vond ord, ósæmilig oc frásaug, kalladi hann blinda biskup, hundsvott, oc slikt annad; lètst vilia taka inn allt Island vid VIIda mann; biskup qvad hann eiga ord sín siálfann, oc bad hann med gódu víkia brott af stadnum, seigir hann giarnan skyldi fá med sèr mat oc dryck oc hvad sem han vildi á veginn, lètst ei vilia at hönum væri giört neitt íllt, enn qvad hann siálfaun siá meiga at hann væri madr sionlaus, oc rèdi ecki vid fólk sitt, ef nockud kynni í at skèrast med þeim. Didrich gaf því engann gaum oc var því hardordari, vóru þeir med öllu uggalausir hann oc hans menn. Jón pretsr Hèdinsson var þá rádsmadr Skálhollts stadar, hann giördi ord bændum nockrum, stadar landsetum, oc ödrum mönnum, er hönum þótsu öruggir, komu þeir skiótt heim í Skálhollt, oc eru þessir tilgreindir fremstir, Jón Sigurdarson er kalladr var refr, hann bió á eignarjördu sinni Gröf í Grímsnesi, enn sídann at Búrfelli, Sveinn Þorsteinsson at Byldsfelli, Ögmundur briti, Jón Snorrason rádsmadr at Hömrum, oc Núpr verkmadr þar, hann hafdi verid ádr um vorid heimamadr í Videy er Didrich rændi þar, oc var þá illa leikinn, oc barinn med ködlum, oc þóttist eiga þeim fyri grátt at gialda; voru þeim gèfnar nockrar könnr öls, svo þeir voru vel hreifir, ádr enn þeir gèngu upp at herbergiunum. Jón prestr gèck inn til Ögmundar biskups, oc mælltust þeir vid af hliodi; enn sem þeir hættu, oc Jón prestr gèck á braut er mælt biskup hafi sagt: þú rædr verkum þínum Síra Jón Hèdinsson. Þar var þá Jón prestr Biarnarson á Narfastödum, hann var í nockrum stórsökum, oc var því skipadr til at skenkja fyrir Didrich oc hans menn svo mikid sem þeir vildu; enn er bændr komu upp at herberginum, hlupu sumir upp gardin hiá portinu, enn adrir þustu um dyrnar inn, vard vid þat dynkr mikill, enn hinum dönsku mönnum giördi bilt vid, spratt þá Didrich upp, oc sá vopnin um gluggann út, oc spurdi hvad um væri, oc til hvers þá skyldu svo mörg spiót oc lensr, byrlarinn

segir at þat voru stadarmenn oc skémtu sèr, qvad biskup hafa látid gèfa þeim nockrar könnr öls til vyrdíngar vid komu hans; þá band Didrich tveimr mönnum sínum þegar at sækia bysar út í tjald þeirra, enn jafnskiótt er þeir komu út, hiuggu hinir tjaldid oc felldu á þá, oc unnu á þeim bádum, hafdi annar XIV áverka ádr hann fèll, oc var Ögmundr briti banamadr hans; nú sèr Didrich hve verda vill, oc ætlar at bana Jóni presti Biarnarsyni, enn hann fleigdi kápu sinni, er hann hafdi á sèr oc hlióp á dyr, oc sló eptir sèr timbrstofunni í lás, hlióþu bændr þegar at henni; þeim mætti í gaungunum Olafr Ingimundarson lestarsveinn Didrichs, oc mælti er hann kom at biskups badstofunni: gèfid mèr lidugann gáng brædr mínir; fyrir því at eg em Islendskr sem þèr; einn þeirra svaradi: þú hefir nógu lengi stolid med þeim, oc fyrir þá, oc fylgt þeim lifandi, fyrir því máttu einnin fylgia þeim daudr, oc lagdi jafnskiótt í gègnum hann. Þeir freystudu at brióta upp timbrstofuna oc máttu ei, þar til er Sveinn Þorsteinsson tók upp stein mikinn, svo at tveir óvaldir mundu eigi meiri bera, oc fleigdi á hurdina, brotnadi hún þá í mola, enn þeir brutust inn, oc vóru fiórir taldir fremstir, Jón refr oc Sveinn, Jón Hamrarádsmadr oc Núpr, oc drápu þá er inni voru. Jón refr sókti at Didrich, oc hafdi í hendi krókalensu; enn Didrich hafdi ei nema stick-knif oc borddiskana, oc vandist med því lengi oc hraustlega, svo Jón kom eigi lagi á hann, um sídir krækti Jón lensu króknum í herdar hönum, oc kippti framm á gólfidi, oc vard þad tvisvar, kom hann hönum svo undir fætr sèr, oc rak lensu skaptid út um fremra glerglugga stofunnar, svo koma mætti lagidu fyrir sig, sídann lagdi hann oddinum í milli herda hönum, oc bad hann nú heitast at vinna Island allt vid VIIda mann. Smásveinn XII vetra gamall, smaug undir bordid, hann hèt Jacob, vildi Sveinn drepa hann, qvad hann mundi verda þeim at slidi. Jón qvad þad ei vera skyldi, segir at hann væri únge oc saklaus; hann vard sídar heirari vid Skálhollts skóla á dögum Marteins biskups; er svo mælt at hann hafi málad ásynd Jóns oc yfirlit, oc hafi hún verid í öllum kaupstödum sydra, svo at Jón treistist aldrei sídann at koma í nockrn kaupstad á var. Kort von Mynden bródir Didrichs, lengi kaupmadr á Hafnarfyrdi, oc syndr hans eptir þat. Hafdi

oc Jón mikla vareygd á sèr eptir víg þetta; hann átti tvo hesta bleika, miög lèttfæra, oc vandi þá at stöckva med sig á baki yfir grafarhlaupid, þat var lángt jardfall edr ós diúpr, oc var öllum hestum ödrum ófært yfir at hlaupa; hugdi hann sèr þat til undanbragds ef til þyrfti at taka; son hans var Jón fadir Jóns yfirbrita á dögum Brynjólfs biskups, sá Jón bjó at Hömrum sídar, hans synir voru Biörn prestr í Hrepphólum nærstr fyrir Eyrik prest Oddson, oc Jón í Laugardalshólum, Finnr at Búrfelli, oc Gudmundr er þar bjó einnin, lögrèttumadr, oc fleira fólk er í Grímsnesi ættad frá Jóni ref; enn Jón bar nafn hans, sonr Sigurdar Oddssonar í Búdardal, er oc var kalladr refr eda rebbi, var þó nú á legg kominn. Skèdu víg þessi á Laurentii messudag, oc voru þeir VII samans, Didrich oc hans menn er í Skálhollti fèllu, voru lík þeirra kösud úti fyrir portinu. Þar var ádr brunr í midiu hladi, var úr hönum ausid vatn til allrar neytslu í stadnum, oc lá úr hönum bunustockr inní heitu-húsid, rann þar inn vatn þat er haft var til ölbruggunar, oc ei sókt ödruvísi; rann blódid úr búkunum í brunninn, oc fyrir því var hann byrgdr sídann; því nærst voru búkarnir hafdir austryfir Sölfahóla, drepnir þar hestar þeirra, oc svo dysiad allt samann, med klædum oc reidtygium; þó flettu sumir þá hinum bestu klædunum, er svo vildu giöra, oc tóku þat er þeim sýndist fèmætast. Jafnskiótt eptir var madr sendr frá stadnum til Odda, at segia þeim Pètri Spons, oc Hans Witt at koma til Runa, því at Didrich vildi rída nordr Kialveg; þat þótti Pètri undarlegt, oc hitt med, at byssa hans vildi ecki hlaupa um daginn. Þeir tiöldudu í Runa nordr á túni, oc beiddust öls oc matar. Jón prestr Hèdinsson rádsmadr qvad þá skamma stund þurfa skyldu þess at bída. Pètr lagdist þá til svefns; var kallat at hann væri mestr íllvyrki allra þeirra; hinn vakti; oc urdu þeir ei fyrr varir, enn XII menn hliópu at þeim ofann af Runanum. Pètr spratt upp oc tók spiót sitt, oc vardist vel oc drengilega. Gudmundr hèt madr mikill oc knár, oc hinn hardfengasti, systrúngr vid Teit Ögmundarson í Audsholti, hann var altygiadr, oc sókti at Petri, enn vann ecki á. Þá kastadi sá madr exi er Jón Önnuson hèt, oc at Petri, oc mælti: Didrich bad heilsa þèr; kom exinn í höfud Petri oc vard hann sár, vildi hann þá hlaupa heim á kyrkiuna, oc komst frá þeim; enn rádsmadr þar heima er Stephán hèt, var at hlada

heyi; hann hliop ofann oc komst í veg fyrir Pétr í sáluhlidinu; oc vardi hönum kyrkinna; komu þá hinir skiótt á eptir oc unnu á hönum. Hans Witt hliép vestr í flódinn, oc bad sér grida, enn fèck ecki; Sigurdr hèt sá madr er ellti hann; sagdi Hans hann mundi drepinn aptr ef hann dræpi sig, enn Sigurdr fór ei at því, oc lagdi í gègnum hann; vard þat at spá, oc var Sigurdr drepinn XVI árum sídar. Þeir Pètr voru dysjadir nordr í litlu hólunum. Svo er sagt at skiótlegt yrdi um þá flesta er at vígum þessum stódu, hafi þeir eigi nád prestsfundi þótt óskad hafi, edr ordid málllausir.

## XCI Cap. Gíssr fer utann, oc frá ímsu.

Þetta sumar var Gíssur Einarsson kosinn af ábótum oc prestum í Skálholts umdæmi til þeirra formanns, med því þeir höfdu þá fregid andlát Sigmundar biskups; fór hann þá utann þegar, enn í Hamborg spurdi hann víg Didrichs oc hans fylgdarmanna; í Skálhollti; treystist hann þá ecki at fara til Kaupmannahafnar, því hann ugdi at því at slík stórvyrki mundi sèr til ólids koma, oc sínu eyrindi; ritadi því fyrst konúnginum, oc tiádi eyrindi sitt, fèck hann svar mildiligt, oc leidisbréf til Kaupmannahafnar oc á konúngs fund; tók Christián konúngr oc Dórothea drottníng vel vid hönum, oc er mælt at drottníng hafi ei trúad því at Gissr væri Islendskr, enn ætlad hann þiskann, því hann taladi svo þídversku sem modrmál sitt, allt þar til er íslendskr sveinn var fenginn til at lesa samann christin frædi vid hann, svo at hún heyrdi. Þá gaf Jón biskup Arason Olafi presti Hialltasyni Laufásstad á Marci dag Evangelistæ; enn nockru fyrri enn hálfum mánudi fyrir vetr, utnefndi Jón bóndi Biarnarson, í umbodi Erlendar lögmanns Þorvardssonar, hina hellstu oc vitrustu menn í dóm er þá voru uppi, Pál at Hlidarenda Vígfússon Erlendsonar, Sæmund Eyríksson í Asi, oc Dada Gudmundarson í Snóksdal, oc enn adra; dæmdu þeir Didrich af Mynden oc hans fylgismenn ábótamenn verid hafa, oc þá alla saklausa er at þeim hefdi vegid, fyrir rán oc oheirilegar athafnir þeirra med ordum og adtektum; voru þær sakir hellstar, fyrst at Didrich oc Kort Rafn hefdi rænt oc gripid fyrir Ögmundi biskupi II hundrud lybsk mörk í

gulli oc silfri heimildarlaust; í annann máta fiögr naut gömul á Hvannavöllum, oc þó rænt ádra menn jafnframmi; í þridia lagi hafi hann látid stínga lönd biskups oc kyrkiu í Grindavík oc byggia þar hús í óheimild; þat fiórda hann hafi tekid undir sig VI jardir biskups nidr vid sund; hid fimta at hann hefdi kallat biskup hundabrífara oc ödrum jafnvondum nöfnum; víg þessi kenndi Claus van Mervitz, er hyrdstióri var, Ögmundi biskupi oc hans skipan, oc rægdi hann um þad fyrir Christiáni konúngi; á þeim missirum skipadi Ögmundr biskup England í Lundar-Reykjadal med fiórum kúgildum, undir Mela kyrkja med brefi. Þorleifr prestr Eyríksson galdt þá jördu fyrir XX kúgildi er eydst höfdu; hann átti Alptanes á Myrum, oc hafdi samid vid Ögmund biskup um Alptaness kyrkiu, at hún skyldi eiga XV málnytu kúgildi, tvö hundrud í köplum, III hundrud í kötlum, sængrklædum oc búsgagni, X hundrud í heimalandi, oc Þormóds skér; þá var borinn Einar, son Sigurdar prests Þorsteinssonar oc Gudrúnar Finnbogadóttr, at Hrauni í Adalreykiadal, heldt Sigurdr prestr eptir þat Stad í Kinn, enn var skipadr þadann naudugr til Grímseyar, oc dó þar af vatni; þat er skyrbiúgs tegund er íllt vatn veldr, oc deya margir af, oc flestir fá þá syki adkomandi í eyuna, nema menn vita ei til um presta sídann, þó þángad hafi farid; þá gaf konúngr landsvistarbréf Jörundi Steinmódarsyni er fallid hafdi med systrum tveimr; slíkt höfdu biskupar annast þángad til; fèck Biörn Þorleifsson Jóni presti Eyríkssyni Heydal oc hálfa Skálavík í Isafyrdi, er Pètr bóndi Loptsson seldi hönum; Jón biskup setti þá Helga ábóta at Þíngeyrum skriptir um barngètnadar mál; gètid er enn þess at Pètr Loptsson fèck Arna syni sínum, er bió at Stóradal í Eyafyrdi, Akreyar vestra fyrir XL hundrud, oc skyldi hann lúka Drúpadals kyrkiu, svo hèt þá Stóridalr. Pétr ábóti útnefndi VI presta dóm í umbodi Jóns biskups at Hrafnagili, um ákæru Þorsteins Jónssonar til Högna prests Pèturssonar, at hann hefdi brotid hús sín, hrakid oc tekid menn oc fé; Ögmundr biskup hafdi jardaskipti vestra vid Jón prest Eyríksson í Vatnsfyrdi, oc fleiri voru slíkir giörníngar.

## XCII. Cap. Frá biskupum.

Gissr Einarsson var í Kaupmannahöfn um vetrinn, oc var vigdr til biskups at Skálhollti, af Pètri Palladio Siálands biskupi; því at Christián konúngr hafdi þá undirlagt allt klerkaveldi í Danmörku oc Noregi; var. hann hinn fyrsti íslendskr biskup, er vigdr var at konúngsbodi, oc ei af erkibiskupi, til Lútherskra kyrkju forráda, enn ei at páfamanna sid; var þá oc gèfinn út kyrkiulaga-tilskipan Christiáns konúngs hins þridia, oc kom út prentad nya Testamentid á Islendska túngu, er Oddr Gottskálksson hafdi lagt út; bióst Gissr biskup út híngad þegar skip géngu, 1540
þá var á föstudaginn eptir uppstigníngardag prestastefna at Vídivöllum í Skagafyrdi; lèt þar Jón biskup Arason frammleida vitnisburdi nockurra manna, um þat, at Teitr þorleifsson hefdi, ádr hann fèll í stórmæli, gèfid jördina Glaumbæ í Skagafyrdi eptir sinn dag, gudi oc St. Önnu, oc at Teitr átti þá svo mikla penínga at hann mátti hana gèfa; fyri því samþyckti Jón biskup med XII prestum sínum, jördina Glaumbæ verid hafa eign guds oc heilagrar Hólakyrkju sídann Teitr fèll frá; þá sendi Ögmundr biskups áminníngar brèf um allt biskupsdæmid, er lesast átti vid hveria kyrkiu, þar í bannadi hann allt samneyti vid óbótamenn, manndrápara, þá er láta börn sín fyrirfarast, edr hlaupa frá konum sínum oc taka adrar; hann tilsagdi oc öllum leikum oc lærdum, er í sökum voru fyrir helgibrot, eda slög á helgum dögum, at þeir taki lausn af prófasti, enn ei þíngapresti.

## XCIII Cap. Utkoma oc brèf Gissurar biskups.

Gissr biskup kom út snemma um sumarid; var þá haldinn prestastefna í Skálhollts biskupsdæmi, midvikudaginn næstann fyrir Pètrsmessu oc Páls; voru þessir hinir fremstu klerkar, Halldór ábóti at Helgafelli Tyrfíngsson, Alexíus ábóti í Vídey Pálsson, Jón prestr Hèdinsson í Runa rádamadr í Skálhollti, Marteinn prestr Einarsson at Stad á Ölduhrygg, þorleifr prestr Eyríksson at Breidabólsstad, Arni prestr í Hytardal Officialis Arnórsson frá Ökrum, Gudmundr prestr Jónsson er þá var rádamadr í Skál-

hollti, Jón prestr Biarnason kyrkiuprestr þar, Snorri prestr Hiálmsson í Hollti, Freysteinn prestr Grímsson í Stafhollti, Þórdr prestr Olafsson, Ejólfr prestr Grímsson er sídar hèldt Melastad, Gísli prestr Jónsson er fyrr er gètid at verid hafdi í Skálhollti enn seinna var í Selárdal, Olafr prestr Magnússon at Stad á Reykianesi, Jón prestur Þorleifsson í Hiardarhollti, Þorleifr prestr Eyríksson á Melum, Eyríkr prestr Jónsson í Reykhollti edr Gilsbakka, Olafr prestr Kolbeinsson at Saurbæ á Hvalfiardarströnd, sá er Halls ætt er frákominn, Snorri prestr Jónsson at Stadarhrauni, enn sídann at Gördum á Akranesi, Loptr prestr Narfason er seinna var í Hytardal, oc miög lengi lifdi frá því er þessi tídindi urdu, Magnús prestr í Selárdal Ejólfsson mókolls, Biarni prestr Jónsson, Gísli prestr Nicolásson, oc fleiri adrir; voru þeir nefndir í dóm af Ögmundi biskupi, er þeir kalla vyrduglegann herra, oc biskup med guds nád, sem sidr var til, um hina fornu biskupa, oc Gissuri Einarssyni, hann kalla þeir heidrlegann mann oc telia þat hann nefni sig *Superintendentem* biskupsdæmisins; til at ransaka oc fullnadar dóm leggia á brèf þau er þar tèduzt; var eitt umqvörtunar brèf Ögmundar biskups yfir elli oc vanmætti, oc at hann bidr konúng at skipa Gissr Einarsson fyrir ambodsmann biskupsdæmisins; annad var medkènníngar brèf beztu manna vid Kaupmannahafnar háskóla, at Gissr hefdi verid examíneradr, oc skipadr at konúngsbodi; hid þridia var brèf Christiáns konúngs siálfs, med hans hángandi innsigli, þar gètr konúngr þess at Gissr sè kosinn *superintendens* af Ögmundi biskupi, klerkum oc alþídu Skálhollts umdæmis, þarmed álitinn lærdr vel af meisturum í Kaupmannahöfn, oc at lifnadi þartil hæfilegr, fyrir því skipar konúngr hönum þat embætti, oc bydr öllum andlegrar oc veraldlegrar stèttar mönnum hönum at hlída, í öllum hans embættis eyrindum; enn hann skal vera konúngi oc hans ættmönnum trúr oc hollr, láta guds ord oc evangelium kènnt verda hreint almúganum, eptir kyrkiuskipunar bodi konúngs, oc hiálpa öllum, audugum oc óaudugum til rèttra laga, fyrir utann hyrduleysi, hylli oc gáfr; hid fiórda var uppgiafarbrèf Ögmundar biskups til Gissurar á biskupsdæminu oc öllum þess efnum, med hans hángandi innsigli; þessi brèf vyrdtust þeim í allann máta myndug oc skialleg, oc beiddist Gissr biskup viliugrar samþyktar allra klerka uppá þau; enn þeir samþycktu allir med

einni raustu, í nafni drottins: at hylla oc taka yfir sig Gissr fyrir fullkominn formann, oc *superintendentem* oc yfir allt biskupsdæmid, hètu hönum trú, hollustu oc hlídni, í öllu er þeir mætti, oc engum ödrum medann hann lifdi; enn hann hèt at halda öllum vid lög oc rètt eptir gömlum oc gódum kyrkiulögum oc *privilegiis*, oc enga breitni giöra nema med kyrkiunnar rádi, settu þeir þar allir undir innsigli sín; enn Gissr biskup gaf þeim heitord er svo hlíódar: »eg Gissr Einarson *Superintendens* Skálhollts stiptis giöri gódum mönnum kunnugt med þessu mínu opnu brèfi, ad eg hefi lofad oc tilsagt heidrlegum persónum, klerkum oc kennimönnum Skálhollts stiptis, at eg vil vid þá halda oc regera eptir gömlu oc gódu kyrkiunnar lögmáli, sèrlega eptir því sem þær statútur oc setníngar votta, er löglegar sínast oc naudsynligar, at ókrenktum þeirra kennimannlegu fríheitum, sömuleidis eptir því sem christin-rèttr inniheldr, oc ei er á móti sönnu guds lögmáli. Svo at eg vil veita þeim þann styrk oc forstödu, oc öllum oc sèrhveríum innlendskum oc útlendskum sem dómkyrkiunnar formanni ber. Hèr á móti hafa þeir játad mèr trúa hollustu, oc skylduga hlídni, sem til ber, oc því samþyckir ordid, at vera undir minni *jurisdictione* enn enkis annars, mína lífstíd; skrifad á þíngvelli *in festo apostolorum Petri et Pauli*;" er liòst af þessu at hverutveggi hafa haft varúd vid, oc klerkum eigi grunlaust at Gissr færi med nyúngar; samþyckti einnin á því þíngi Erlendr lögmadr þorvardsson oc lögrettann sunnan oc austann, at medtaka Gissr fyrir sinn rèttann biskup oc yfirmann.

## XCIV Cap. Dómar oc áfksipti nordlendínga.

Þá var framborid á þíngi konúngsbrèf, þat er kendi Ögmundi biskupi dráp Didrichs af Mynden, eptir því sem Cláus von Mervitz hyrdstióri hafdi ádr undirbúid; lèt þá Ari lögmadr nordann oc vestann son Jóns biskups, XII manna dóm gánga þar á þínginu, midvikudaginn nærtsann eptir Pétrsmessu oc Páls; þar sór Ögmundr biskup, at áheirandi lögrèttu allri, þann eyd, at hann hefdi hverki leint nè liòst, skipad eda rád til gefid, at vega nockurn christinn mann, oc þó nefnilega Didrich oc hans fylgiara. Þar var oc upplesid annad brèf, er Cláus von Mervitz hafdi ritid

Ara lögmanni, sama innihalds, at Ögmundr biskup hefdi bodid at drepa þessa menn. Fyrir slíkann róg dæmdu þeir, med fullu dóms atqvædi, Cláus von Mervitz ecki myndugann at taka kongúngsins skatt eda sakeyri, eda syslur at veita, skyldi alla rentu uppbera oc vardveita Ari lögmadr til nærsta alþíngis, oc heimila sèrhverium sína syslu sem fullar vördslr hefir; enn þær sem óveittar væri, oc stór naudsyn krefdi at umskipta sè ágiör, dæmdust í vardveitslu Ara lögmanns, til þess lögleg hyrdstióri kèmr skipadr af konúngi. Var þá í þann tíma sem mestr uppgángr Jóns biskups oc sona hans, hafdi Jón biskup haft syslur allar edr flestar fyrir nordann. Þeir létu giöra brèf til konúngs, oc telja sig bædi klerka oc leikmenn, þó voru leikmenn einir skrifadir undir, þar töldu þeir sakir á Cláus von Mervitz, oc voru þær sannar, oc svo á Didrich, oc gátu þess at hann var dæmdr óhelgr, enn hefdi Cláus rogborid þá; hneig þetta til þess at Jón biskup vildi hiásneyda at taka vid konúngs tilskipun um kyrkiuháttuna. Gátu þeir þess at þeim þótti þat undarlegt at konúngr skyldi hlutast til um klerkdóminn, oc skipti kènnimannlegs embættis oc christilega sidu, oc qvádust þat aldrei heyrt hafa frá því nordrlöndinn voru fyrst christnud, helldr at slíkt hafi heyrt undir páfann oc hina rómversku kyrkju; þar var fyrstr Ari lögmadr, Þorleifr Grímsson á Mödruvöllum, Grímr Jónsson á Ökrum, Gísli Hákonarson á Hafgrímsstödum, Skúli Gudmundarson Skúlasonar Loptssonar, Isleifr Sigurdarson á Grund mágr Jóns biskups, Jóns Magnússon á Svalbardi, Einar Brynjúlfsson at Espihóli, Einar Einarsson, Brandr Olafsson, Stígr Höskuldarson, Dadi Gudmundarson í Snóksdal, Erlíngr Gíslason Philippussonar at vestann, Olafr Gudmundarson í Þernuvík, Audun (Laga Audun) Sigurdarson Sveinbiarnarsonar, Gísli Jónsson, Páll Grímsson Pálssonar, er syslu hafdi í Húnavatnsþíngi, Þorleifr Einarsson, Eyvindr Gunnarson, Narfi Jngimundarson, Biarni Skúlason, Ormr at Draflastödum Jónsson Kolls Oddssonar, Jón Þorláksson, Þorsteinn Símonarson oc Biörn Þorvaldsson á Æsustödum í Eyafyrdi. Biarni Skúlason sá er hèr er getid, er talinn frá Gudmundi á Mödruvöllum í lángfedgatali þannin, at Skúli hafi verid Hákonarson Skúlasonar Jónssonar Grímssonar, Ejólfssonar, Rafnssonar, Þorkèllssonar, Halldórssonar þess er fèll í Briámsbardaga, Gudmundarsonar hins ríka, enn ef þat er rètt at þessir sèu lángfedg-

ar, þá vantar þriá eda fióra knèrunnslidi; segia þó sumir at Skúli fadir Biarna, oc Bessi fadir Þorbergs sylumanns hafi brædr verid, oc synir Hrólfs á Mói í Fliótum Þorsteinssonar Nicolássonar ábóta eins, oc eru þar einnin ættuölin. Son Biarna Skulasonar var Hrólfr, er kalladr var hinn sterki, sá er Hrólfs ætt er frákominn, enn módir Hrólfs segia sumir heitid hafi Geirþrúdr, oc verid dóttir Sigvalda lángalífs. I þann tíma dæmdi Erlendr lögmadr Þorvardsson at nedri Laungahlíd í Hörgárdal, med XII mönnum, um heimreid at Hólum í Yxnadal; enn Jón biskup dæmdi Glaumbæ at vera eign guds oc heilagrar Hóla kyrkju; Jón Jónsson var konúngs umbodsmadr milli Geirhólms oc Hrútafiardar ár, þat heitir nú Stranda sysla, hann nefndi Biarna Þorleifsson oc Odd Thómasson frá Hvoli, oc adra, í dóm, föstudaginn eptir Mariumessu seinni um sumarid, undir Felli í Kollafyrdi, oc dæmdi Ormi Gudmundarsyni Andrèssonar þær jardir er Ari Andrèsson í Bæ oc Þórdys Gísladóttir höfdu gèfid hönum, oc voru þau þá öndud bædi.

## XCV Cap. Frá Ögmundi oc Gissuri biskupum.

Ögmundr biskup flutti sig nú frá Skálhollti, oc á bú sitt í Haukadal, var hönum þar kostr at enda æfi sína í rósemi, oc halda öllum eignum sínum; enn er hann vissi at Gissr biskup fór med annan sid, lèt hann sig ángra slíkt, oc qvadst ej hafa kosid hann til biskups til þess, at falla skyldi frá skyldugri hlídni vid páfann í Róm, edr aftaka fornann lærdóm forfedra sinna, stód hann því á móti athöfnum hans med öllu afli, oc var þat audveldt, því ad allir sóktu á hans fund, enn einginn skeytti Gissuri biskupi, oc kom hann engu áleidis á þeim missirum, því er hann hafdi heitid gudi oc konúnginum, vildu hinir gömlu prestarnir í engu sinna Gissuri, oc ritadi hann konúngi þetta. Ögmundr biskup ritadi oc á því sumri Jóni biskupi Arasyni, um óvenjur þær er hönum þóttu framfara, oc vildi láta stefna allsherjar þing á Torfastödum, gètr hann þar þess at miög hryggilega fari framm, hiónabandi sè eigi sinnt, enn hann qvadst hvergi eiga kost í hús at koma, biskup Gissur geimi allt silfr oc háfr kyrkiunnar í lægtri

kistu í svefnherbergi hans, bagaldúkar oc *Clenodium* sè borid híngad oc þángad, allir menn sèu vel teknir oc fái eyrindi sitt sem hèr komi til stadarins, hvad sem undir búi. Gissr biskup vard áskynia um rádagiördir þeirra, oc giördi ord leikmönnum, voru þeir margir heldr vinir hans, því þeim var illa til klerka valds hins forna, fèck hann því svo komid at eigi vard af ásetníngi þeirra Ögmundar biskups. Þá ritadi Ögmundr biskup konúngi afsökunarbrèf frá þeim sökum, er hönum voru eignadar af Clánsi von Merwitz; enn ádr hafdi hann rtid almenníngi í biskups syslu sinni, oc fyrri enn Gissr vígdist, oc látid sem hann lofadi tilskipun Christíans konúngs í öllum höfudgreinum, enn vildi hafa sig undan þeginn at breyta því er til kyrkiu sida kom; fèck nú þó ei, er hann fann at allt gèck andsælis frá því er hann ætladi rèttast vera, haldid sèr frá at hlutast til um biskups sysluna, var oc klerkdómurinn fúsastr til hans, oc sá Gissur biskup þat, at aldreigi mundi hann fá neinu áleidis komid um sidaskiptinn, medann Ögmundr biskup lifdi, oc væri á landi hèr.

## XCVI Cap. Frá Jóni biskupi Arasyni.

Í þann tíma var mikill uppgángr Jóns biskups Arasonar á Hólum; hafdi hann mikinn aud oc fiárafla; Ari son hans var lögmadr, Sigurdr annar son hans prestr at Greniadarstad, Biörn prestr at Melstad; Helga dóttir hans var gipt Ejólfi í Dal undir Ejafiöllum, syni Einars Ejólfssonar, oc Hólmfrídar Erlendsdóttr, enn Þórun Isleifi syni Sigurdar Finnbogasonar. Voru þeir allir bundnir í tengd vid Jón biskup, Þorsteinn Finnbogason, Þorleifr Grímsson, Jón Magnússon, Árni son Pèturs Loptssonar. Jón biskup hafdi oc mikla vináttu lengi vid hyrdstjóra oc fógeta á landi hèr, svo þeir veittu hönum stundum flestar syslr eda allar fyrir nordann, eda hveriar sem hann vildi hafa siálfr, eda ödrum veita láta; einnin hafdi hann kaupskip í förum til Noregs, þat er seinna stradst fyrir stormi í Laxárvík fyrir vestann Ejlífsfiall er nú er kallad Tindastóll; þat fiall var þá kendt vid Ejlíf örn föður Kodráns at Giliá, oc Atla hins ramma, enn Laxarvík er nú kölluð Sævarlands-vík, segia menn at þat hafskip hafi Hólastadr átt

sídast. Af slíku vard Jón biskup stóraudugr, oc efldist svo miög at ríki oc fé, at eingin var þá hèr hans jafníngi um þat, oc svo rèdi hann bodi oc banni fyrir nordan land, at eingin treystist í móti at mæla því er hann vildi vèra láta. Hann var hinn mesti rausnar-madr, oc í mörgum manndómlegum háttum voru þeir vel á sig komnir hann oc synir hans; ör var hann oc kátr vid vini sína oc gèsti, oc baud þeim leikfáng eitt oc annat til skèmtunar; qvad hann vísu þessa einhverju sinni er hann þóttist ei hafa öl;

Til hefi eg tabl med spilum,
tölr sem leggi oc völr,
skák med sköfnum hrókum,
skiótt, oc kotru hornòtta
hörpu heldr snarpa
hreysta med gyrnis neistum;
Phón med fögrum sôni
fengid til lykt med strengium.

árlega hèldt hann jólaveitslu fiölmenna. Hann var málfæris gódr oc skáld mikid; kastadi skiótt fram gaman-vísum uppá hvad sem vidbar. Hann hefir qvedid píslargrát oc nidrstigs vísr, Davíds dikt oc Lióm. Til Hólakyrkju fèck hann bríkina miklu, oc kostulegann skrúda af flöjeli gullsaumadann. Fátækum gaf hann hvert ár XV hundrud, lèt skipta því upp á tveimr dögum á ári, Gudmundar degi oc Jóns deigi Hóla biskups. Vid vini sína oc þiónustumenn eda fylgdarmenn var hann ör oc stórgiöfull, voru þeir hönum heyrugir oc fylgisamir til hvers sem hann vildi þá qvedia; þá hann reid um land, fór hann vid miklu fiölmenni, helst á hinum sídari árum hans, til at sína rausn oc stórmensku, oc ægia óvinum sínum, stundum reid hann med II hundrud manna til alþíngis, stundum III hundrud eda IV, enn þeir synir hans Ari oc Biörn vid hundrad manna hver; því þat þótti þá hin mesta rausn oc höfdíngskapr, at fara med fiölmenni, oc ægia óvinum sínum, þó vera ætti á kostnad alþídu, oc á eignum oc höfudbólum manna; svo segir Olafr Thómasson prestr Eyríkssonar, fóstrsonr Jóns biskups, oc systrson biskupssona, í kvædi því er hann orkti um Jón biskup oc sonu hans:

Til alþíngis reid så aldrei enn
Islendíngum meiri,
at ei hefdi hundrud tvenn
hölda búna geiri. Stundum voru þau þriú;
skrautlegan tel eg þann fedga flock, fyrn þat þætti nú;
búinn var öll med brynju oc rock bragna sveitinn sú.

oc enn um Biörn prest:

Med hundrad menn at halrinn víkr,
höldar meiga þat frétta,
til alþíngis, reckrinn ríkr,
rædi eg allt af lètta um rausnar þegninn þann;
tygiad fólk í trausta ferd tel eg at hefdi hann,
hervopn góð, med handska oc sverd hver sig prýddi mann.

## XCVII Cap. Utkoma Christófors Hvítfelds.

Gissr biskup fylgdi fast at hinum nýa sid at konúngsbodi, at láta afleggia helgra manna tilbeidslu oc líkneskia, oc krossgaungr, oc baud at prestar væri qvæntir. Hafdi þá Ögmundr biskup rádagiördir til samfundar vid Jón biskup Arason sem ádr segir, enn
1541 Gissr vard þess vís, at þeim óvörum, oc ritadi Erlendi lögmanni Þorvardssyni á Ströndd, oc hafdi vidrbúnad er áleid vetrinn, svo ei vard af rádagiördum þeirra; þó giördi þat mest um, at annad bar til er þeir væntu ecki, því at í fardögum um vorid, adr nockrar samkomr urdu haldnar af öllu landi, á föstudag, komu út herskip tvö fyrir sunnan, oc á herlid, rédi fyrir þeim danskr herramadr Christófór Hvítfeldr af Steinvíkrhólms kastala í Þrándheimi; þann kastala hafdi Olafr Engilbertsson erkibiskup látid byggia til varnar í móti Christjáni konungi þridia, er hann tók völd af klerkunum þá fyrir nockrum árum, enn Christján konúngr rak erkibiskupinn úr landi, oc gafst þá kastalinn á konúngsvald. Christófór Hvitfeldr var riddari at nafnbót, oc umbodsmadr konúngs yfir Þrándheims biskupsdæmi, hafdi hann ímisleg konúngsbréf med [illegible]fara, var hid fyrsta til Gissurar biskups, útgefid annan dag páska, med hángandi innsigli konúngs; þarí gaf

konúngr Gissuri biskupi til vitundar, at med því hann var þess vís ordinn, at í þrætr væri komid í milli Cläusar von Mervitz oc nokkurra landsmanna, hafi hann sendt Christófór Hvítfeld med fullkomnu umbodi sínu, at giöra öllum mönnum, ríkum oc óríkum, lög oc rètt, þarmed hafi hann falid hönum mörg eyrindi, er hann siálfr skuli tiá Gissuri biskupi. Baud konúngr Gissuri at vera hönum fylgisamr oc hiálpandi at öllum konúngs eyrindum á landinu, oc qvad hann skyldi vísa eiga náduga þóknan oc vidrkènníngu. Var þá miög umskipt ordid, oc konúngs valdid miklu ríkara enn fyrri hafdi verid, þar sem biskupar áttu í hlut. Gissr biskup brá vid skiótt, oc reid sudr at Bessastödum til fundar vid herra Christófór, ræddu þeir samann um hríd, enn því nærst var stefnt þíng almenniligt á Kópavogi, voru þar byrt konúngs brèf. Þar mæltu þeir riddarinn oc biskup lengi saman, enn um sídir voru bændr bednir ut liá XIV hesta, oc láta vera komna hid skiótasta at Bessastödum, til at flytja á þeim miöl oc malst í Skálhollt, enn sækja þángad aptr smiör oc vadmál, oc komu hestarnir at áqvedinni tíd.

## XCVIII Cap. Tekinn Ögmundr biskup.

Þá er spurdist skipkomann austr, rèdu vinir Ögmundar biskups hönum at víkia lengra á brottu, oc fara austr til klaustranna á Kyrkinbæ eda Þyckvabæ, oc dveliast þar medann herramadrinn oc herskipinn voru vid land; hann tók því líklega, enn lètst þó fyrri verda at fara ofann til Hialla, á fund vid Ásdýsi systr sína, eptir innilegri bón hennar; fór hann nú at heimann, oc er hann kom at Reykium í Ölvesi þar bú hans var annad, mætti madr hönum at sunnan, med brèf frá Gissuri biskupi; þat sagdi svo at Ögmundr biskup mætti óhræddr vera fyrir Christófór Hvítfeldi, því hann vildi eigi giöra honum nockurt mein, því trúdi Ögmundr biskup, oc qvadst mundi verda nockrar nætr at Hialla; reid sendimadrinn vid þat sudr aptr, enn Ögmundr biskup fór til Hialla sem hann hafdi ætlad; enn á móti aptni annann dag, sendi hyrdstiórinn XIII eda XIV menn frá Bessastödum til Hialla, at sækia Ögmund biskup, enn sumir segia hann færi siálfr med, oc

yrdi þeir Gissr biskup samfara upp undir Hellisheidi, þar skildi leid þeirra oc reid Gissr biskup í Skálhollt. Ejólfr hèt madr oc var Halldórsson, hann segia flestir verid hafa leidtoga eda fyrirlida þeirra er til Hialla fóru, hann var nordlendskr, oc var hönum eignad víg Arna Bessasonar á Sveinsstada fundi, var hann sídann med Jóni biskupi Arasyni til þess er hann var ordadr af Þórunni dóttr hans, þá strauk hann sudr, oc undir skiól Ögmundar biskups, oc var med hönum lengi, enn eptir dráp Didrichs von Mynden hljóp hann frá hönum, því hönum vard vid þat ílla til biskups, fyrir þá sök at Didrich hafdi haldid vid systr hans eda frændkonu; einn af þeim sendimönnum hèt Christián þískr madr, hann hafdi lengi verid á Bessastödum, oc var vel til Ögmundar biskups, enn er þeir komu at Videyarseli, oc hann vissi af tali þeirra, at þeir ætludu at taka biskup naudugann, ef hann færi ei viljugr, fór hann eigi lengra, oc snèri til Bessastada, oc var hann settr fyrir þat í járn sídar; enn hinir fóru leidar sinnar austr Olafsskard, oc komu til Hialla fyrir dagmál; lá Ögmundr biskup þá í sæng sinni, enn þeir tóku hann, oc báru út úr bænum fáklæddann, sumir seigia í línskyrtu einni, færdu hann sídann í klædi sín; hann var nær áttrædr at aldri oc blindr med öllu. Asdys systir hans breiddi sig yfir hann, oc grátbeiddi þá at láta hann kyrrann, enn þat tiadi ecki; hann hèllt á bellti sínu oc púngi, þeim er í var innsigli hans, því nádu þeir ei af hönum, tóku þá fiórir á, oc vannst ecki at, fyrr enn gèck í sundr þá kom þar Ejólfr sá er ádr var gètid, oc heimti af hönum kaup sitt; hann qvadst ei þá vidlátinn at greida, ætladi eg oc ecki at þú mundir af mèr heimta, sagdi hann; þá kastadi hann frammm vísu þessari til Asdysar er hann qvaddi hana;

Hugsadu um þat hríngalád!
hvad blautst af vilia þínum,
köld eru iafnan kvenna rád,
kèmr at ordum mínum.

Sídann var hann settr á hest-bak, oc teymdi drengr einn undir hönum sudr, var hann þvínærst fluttr framm á herskipid, oc fenginn þar einn sveinn til þiónustu; sumir segia sá væri úr Videy, oc hèti Erlendr, enn sumir at hann væri danskr oc hèti Olafr, oc yrdi sídar skólameistari í Skálhollti, enn druknadi í Brúará seinast; átti sá at lesa gudsord fyrir hönum til huggunar

hyrdstiórinn vissi at biskup var audugr af gulli, silfri oc gersemum, var hönum þá heitid lausn ef hann fengi þeim allt gull hans oc silfr; fyrir því giördi hann ord Einari presti Olafssyni í Gördum, kom hann oc ritadi brèf fyrir hann, eptir því sem biskup stíladi fyrir; vildi hann þá hvísla nockru at Einari presti, oc þreifadi til hvar hann væri, enn Einar prestr laut at hönum, oc lagdi vid eyrad, riddarinn stód yfir þeim, oc sá þat, oc tók sinni hendi í höfud hverium þeirra, oc dró þá í sundr; sídann baud hann Einari presti at fara med sèr upp til Hialla, oc þad giördi hann, ridu þeir þángad, riddarinn oc þeir XL samann; var brèf biskups til Asdysar systr hans, at hún skyldi framláta þad silfr er hann tilnefndi, oc svo hyrdslr; hann hafdi látid geima í urdinni ofann Hialla kistil einn fullann af gulli oc silfri, var þeim vísad á hann; þar átti Asdys í Agnus dei eda gull nisti svo kallad, því at á því var mótad guds lamb, þat kostadi V hundrud eda meira, oc tók hún þat til sín; þá bádu þeir at láta biskup lausann, ef hún lèti þad, oc allt qvenn-silfr sitt; hún lèt þat ecki í vegi standa, enn þeir veittu hönum eigi lausn at heldr; hètu henni ef hann fengi konúnginum allar jardir sínar; þat giördi Ögmundr biskup, oc lèt skrifa þær upp allar med nafni, tölu oc kúgildum, oc hvar þær lágu; þó lètu þeir hann eigi lausann, oc fellu med þeim hætti allar jardir hans undir konúnginn, án dóms oc laga oc sakargifta; voru þar med XIV jardir í Borgarfyrdi, er Asdys systir hans sór sèr á ödru alþíngi fyrir Gissuri biskupi oc bádum lögmönnum, oc qvadst aldrei hafa giöfum gefit nè sölum selt nockrum manni, nema fiórar er hún hefdi fengid Ögmundi biskupi bródr sínum til eignar, enn hinar at eins til umráda oc afgialds, fyrir afgiöld af ödrum nálægari; gèck þá dómr um hvar hún skyldi adgáng eiga, sem sídar skal greint.

e.

## XCIX Cap. Jardir Ögmundar biskups.

Þessar vóru jardir þær er Ögmundr biskup átti á Vestfiördum, Atlastadir, Glúmstadir, Steckadalr, Midvík stærri, Önundarfiördr, Villíngadalr, Gérdahamrar, Horn, Kúla, Gröf á Raudasandi, Siglunes, Múli í Kollafyrdi, Túnga, Midvík minni, Rekavík, stóri

Hiardardalr, Brecka, Arnarnes, Biartstadir, Lángaból, Klúka oc Móberg, Skammnirdalr hálfr, Skalánes, Ingunnarstadir, Mydalagröf, Haukatúngr hálfar, Giögr, Fiardarbotn; enn í Borgarfyrdi þessar: Fliótstúnga, Þorvaldstadir, Hallkellstadir, Hvammr, Amót, Dyrastadir, Géststadir, Brúar-Reikir, Hamar, Ölverstadir, Haukagil, Uppsalir, Búrfell, Raudsgil, Ulfstadir, Hurdarbak hálft, Litli-Kroppr, Heggstadir, Hvítárvellir; ei vita menn hveriar jardir hann átti fyrir sunnan oc nordann. Sumar af jördum þessum er nú eru kalladar Alptafiardar oc Adalvíkr oc Isafiardar konúngs jardir, oc Borgarfiardar jardir í Myrasyslu; þá kærdu dætr Biarnar Gudnasonar til XI af þeim, Gudrún eldri, Oluf oc Sigrídr, oc kölludu födr sínum hafa til fallid, eptir Jón Biarnarson Dan módrbródr hans, því þær voru af eignum Biarnar hins ríka, enn fengu hverki medann Ögmundr biskup hafdi forrád þeirra nè sídann, því um sumarid er Ögmundr biskup var tekinn, læsti Pètr Einarsson þær undir konúngs lás, hafdi hann þá umbod konúngs yfir land allt; enn þær sem lágu fyrir sunnan Hvítá, komust sídar meir undir Skálholts kyrkiu í umskiptum fyrir sudr-nesia jardir, oc fylgdu Heyness umbodi; fèll nú þetta allt svo skiótt undir konúnginn, at Ögmundr biskup fèck eigi, sem þá var sidr ríkra manna, gèfid löggiafir eda vingiafir, testamentis eda sálugiafir; þá missi oc Skálhólltskyrkia lausafiár þess hins mikla er hún fèck eptir Stephán biskup; þat var oc enkanlega til ángurs Ögmundi biskupi í elli hans, at hann qvad þá mest hafa prettad sig er hann hefdi mest hafid, meinti hann þat hellst til Gissurar biskups oc Pèturs Einarssonar; þó vorkènna menn Gissuri þat er hann veitti at alíku, fyrir þá sök at Ögmundr biskup hindradi eyrindi hans, oc eydstaf vid konúnginn, oc þarmed voru samtök búinn í móti hönum; enn mörgum þykir hellst um of, er hann taldi Ögmund biskup í, at ília ecki fund hyrdstiórans; hefir oc sagt Einar prestr Olafsson, at hann hafi nærstaddr verid, þá er herra Christófór var afhendt bréf nockud til hans ritad, vissi hann ógiörla frá hverium var, enn þat stód í því, at hann skyldi ei láta hinu gamla ref sleppa aptr á land upp; sagdi hann svo at þá hefdi hyrdstiórinn hrist höfudid, oc vyrdt illa fyrir þeim er ritad hafdi; var Ögmundr biskup fluttr til Danmerkur um sumarid, oc mislíkadi konúngi, er þeir höfdu ónádad hann, oc burtflutt af föstrlandi sínu, siónlausann oc afgamlann; lèt hann færa hann til

Sóreyarklaustri í Sjálandi, oc var þar vel haldinn á medann hann lifdi, enn þat var á annat ár. Andlátsdagr hans var nærri kyndilmessu, enn sumir segia undir midt sumar eptir, oc var þar vyrdulega grafinn, oc sett á legstein hans: *hic jacet Ögmundus episcopus Skálholtensis.* Hann var biskup í Skálhollti um XVIII vetr, oc hefir hann þá verid sextugr eda meir, er hann vígdist, enn umrád stiptisins hafdi hann um IV vetr oc XX.

## C Cap. Frá biskupum oc sidabreytni.

Sumar þat er Ögmundr biskup var tekinn, kom oc út konúngs bréf til biskupa beggia, Jóns Arasonar oc Gissurar Einarssonar, útgéfid á Gottorpssloti laugardaginn eptir *dominicam lætare*, bad knoúngr Gissr at koma til sín í Kaupmannahöfn med þeim skipum, til at vita vilia konúngs um andlèga skipun oc sidabreytni, sem hann hefdi giört med Danmarkar oc Noregs ríkisrádi oc med lærdra manna samþycki; segist konúngr slíkt hid sama ritad hafa Jóni biskupi til Hóla, at hann komi einnin á sinn fund, oc hèt at láta sídann flytia þá til Islands aptr á skipi sínu. Eigi fór þó Gissr biskup þat sumar utann, heldr sysladi í biskupssyslu sinni, þvi at margt var órádstafad. Hann samþyckti giöf Ögmundar biskup sá Kalmanstúngu, til Þorsteins Þórdarsonar systrsonar hans, því Þorsteinn hadi heitid hönum styrk sem hann mætti. Hyggia menn hann þá oc visíterad hafa austfiordu, enn bændr, þar ámynnti hann um óskil á bænhúsa kúgilda medférd, oc íll giöld til presta. Gissr biskup hèldt prestastefnu á Þíngvelli, *in vigilia Petri et Pauli*, oc nefndi menn í dóm um þat er hann kærdi vegna dómkyrkiunnar í Skálhollti, at hún ætti óútsvarad af Ögmundi biskupi; voru þeir þessir: Alexíus ábóti í Videy, Marteinn prestr Einarsson at Stad, Magnús prestr Ejólfsson officialis yfir Vestfiördum, Snorri prestr Hiálmsson, Oddr prestr Halldórsson bónda Brynjúlfssonar at Túngufelli, Jón prestr Biarnason kyrkjuprestr, Arni prestr Halldórsson, Freysteinn prestr Grímsson í Stafhollti, Einar prestr Olafsson í Gördum, Olafr prestr Kolbeinson í Saurbæ, Biörn prestr Olafsson; qvádu þeir

þat upp: at Ögmundr biskup hefdi ei stadid Skálhollts kyrkiu fullan reikníng, fyrir þat er hann hafdi medtekid eptir Stephán biskup forvera sinn, kom þó nú framm at hann hefdi játad konúnginum í vald alla sína peninga; enn af því at einginn má géfa þat fé nockrum sem stendr fyrir kyrkiueign oc innstædu, eda ödrum löglegum skuldum, þá dœmdu þeir XII prestar Skálhollts kyrkju fullann oc allann reiknîngskap af peníngum Ögmundar biskups, eptir því sem Gissr biskup mætti framast prófa oc skilríkium adkoma, at Skálhollts kyrkia ætti, oc Ögmundr biskup hefdi medtekid eptir Stephán formann sinn. Gissr ámynnti þá oc presta at qvongast, ef þeir mætti ei vera konulausir, oc nefndi helst til Einar Árnason; hann var sídann Officialis hans í Múlasyslu, oc qvæntist einna fyrstr allra presta er þá voru á landi hér; þat sumar var undirskrifud fyrir sunnan land kyrkiusida-tilskipan Christjáns konungs; treystist einginn á móti at mæla fyrir hyrdstióranum, med fylgi Gissurar biskups. Tók hyrdstiórinn eyd at mönnum á þínginu, oc samþyckti medal annara qvittunar bréf Ögmundar biskups til Dada í Snóksdal, tók hann þá Dada í vináttu oc vernd sína.



## Leidrètting Prentvillna í annari Deild, send frá höfundi siálfum.

Bls. 2 l. 12. Biarna l. Biarnar.
— 4 l. 6. Gunnlaug l. Gudlaug.
— 5 l. 6. hinn l. hin. l. 32. XII hundr l. XII hundrud hundrada.
— 6 l. 19. sá Vigfús l. sá Gísli, er annars stángt í Exscripto.
— 7 l. 35. hygg eg hana l. oc því hygg eg hana.
— 8 l. 1. bygg l. byggt.
— 13 l. 2. Helgranesi l. Hegranesi. l. 7 Lángalandi l. Laugalandi.
— 14 l. 26. hví l. hve.
— 15 l. 1. hönnum l. hönum. l. 23. Oddr þórdarson, Leppr og. l. O. þórdarson Leppr, og.
— 18 l. 27. er þorsteinn l. enn þorsteinn.
— 19 l. 21. Martteo l. Mattheo.
— 23 l. 17. yfir kyrkiu í l. yfir í kyrkiu á.
— 24 l. 19. í Höfdahverfi l. í Höfda í Höfdahverfi. l. 22. Kón l. Kár.
— 33 l. 5. fyrir pláguna l. eptir pláguna
— 34 l. 11-12. þá hafi verit l. á þá hafi verit.
— 35 l. 8. jördinni í Nylendi l. jördinni Nylendi.
— 36 l. 19 á Mödruvöllum l. á Siáfarborg.
— 37 l. 31. Langabóli l. Laugabóli it. post.
— 43 l. 1. muna valla l. munu valla.
— 45 l. 5. Gerhards l. Adolfs (er feil í Exscripto, þeir nefndust og eiginl. greifar.)
— 46 l. 4-5. því hafi verit í óvenju l. því hafi sá vitnisburdr tekin verit, at komit hafi verit í óvenju. l. 17. oc bon l. at bón.
— 47 l. 21. þá ecki l. þó ecki. l. 25 Calleisen l. Calteisen.
— 49 l. 6. Ilandi l. Islandi.
— 50 l. 13. prestr l. prestar.
— 54 l. 14. til seinasta l. hid seinasta. l. 25 af riddara l. hann at riddara.
— 55 l. 3. officialis l. officiales.
— 56 l. 18. þat l. þar.
— 57 l. 3. kánnúkum l. Kanúkum.
— 58 l. 21. Calleisen l. Calteisen.
— 60 l. 9. Arason l. Arasonar.
— 61 l. 12. þá l. þau.
— 62 l. 18 Búnkabergi l. Brúnkabergi. l. 21. þá þóttu l. þar þóttu.
— 63 l. 12. Gíslason l. Gilsson. l. 20. Asmundars l. Amundason.
— 64 l. 12. Ejólfi Magnússyni Hvestu l. í Hvestu.
— 69 l. 33. á Skardströnd:
Hallvardr sem ádr er kalladr Asmundarson er í öllum 56 Cap. kall.

adr Amundason, enn þat er rétt eptir Exscripto, oc veit ei hvört heldr sé.

Bls 72 l. 19. mikil l. mikill.
— 74 l. 9. verdt l verd. l. 10. atqvæmi l. afqvæmi. l. 17. l mikil.
— 78 l. 20. 1743 l 1473.
— 79 l 25. Skrúdahusina l. skrúdahúsinu. l. 32. l. var Eyólfsson.
— 84 l. 31. ymbradögum l. ymbrudögum.
— 87 l. 5. prest l. prests. l. 14. l. vidridnir: l. 18. þorsteinsson; qvittudu l. Nicolás þorsteinsson qvittudu. l. ult. Magnúsi syni þ pr.
— 89 l. 20. á Ögri l. í Ögri.
— 90 l. 2. rádmensku l. rádsmennsku. l. 20. erbiskup l. erkibiskup.
— 92 l. 34. l umbod, at.
— 95 l. 28. bænir sini l. bænir sínar. l. 36 l. spurdu. l. 37. unn l. enn.
— 96 l. 19. l. at Grítubacka. l. 36. l. prestsþiónustu.
— 98 l. 16. l. kyrkiunni. l. 19 l. lengst.
— 100 l 31. l. peníngana, eins l. 33
— 101 l. 1-2. rædr hann öllum blídni l. rædr hann öllum er setit höfdu dóma edr samþyckt med Rafni, eda því máli voru fylgiandi, at gánga til blídni. l. 9. er Biarna l. oc Biarna.
— 102 l. 31-32. Eyrarsveit, hans son var Stephan sts l. Eyrarsveit, hans son var þórdr í kyrkiufelli, enn annar Jón prestr sá er útgéck á Grundármöl vid þiska, oc vard maunsbani, enn annar fordadi sér med sundi, hans son var Stephan st.
— 103 l. 17. l. 1483.
— 105 l. 10. at Skardströnd l. á Skardströnd. l. 16. l. á spátsiunni vantar ártal 1484
— 107 l. 15 Svallbardi l. Svalbardi. l. 27. l. af Vaglaskógi.
— 118 l. 7 af því l. at því. l. . fadir hans halt l. haft.
— 121 l. 17. stedia l. Stedia (villam.)
— 123 l. 8. at hverium degi l. á hverium degi.
— 124 l. 16 officiale syfir l. officiales yfir.
— 129 l. 20. tvímælis qvonfáng l. tvímælis um qvonfáng.
— 130 l. 1. l Skraumu. l. 5. dæmdi arfinn l. dæmdi Einari arfinn. l 17. utsetiast l. útseliast.
— 131 l. 32. alþinga l. alþingi.
— 132 l. 9. l. Jón oc var H. s.
— 133 l. 9. l. Gudnason.
— 134 l. 4. l. var þar med Kyrkiuból. l. 7. uppi l. upp
— 136 l. 3. peningi l. peninga. l. 6. skyldi l. skyldr. l. 16. l. blautu. l. 22. banadi l. bannadi. l. 29. fromfe l. framfér.

---

# Íslands Árbækur

## í sögu-formi.

Af

Jóni Espolin,
Syslumanni í Skagafiardar Syslu,

## IV. Deild.

Kaupmannahöfn 1825.
Prentud á kostnad ens Islendska Bókmentafélags af þ. E. Rangel.

Þessi Deild Islands Arbóka vidlík ad stærd og þær undanförnu inniheldr nidurlag þeirra þridja þáttar og byrjun hins fjórda; — hefi eg lesid prófðrk hennar úr prentsmidjunni svo náqvæmlega sem tæp tíd og margskonar annir leyft hafa. Eptirstödvar sídarnefnds þáttar eru þegar í vördslum hins íslenska bókmentafélags, og um frekara framhald ritsins er ósk og von mín hin sama sem í fyrra, hvörjar sídan þannig eru ad nockru leiti uppfyldar. Höfundinum sè þökk og heidar fyri starfa sinn; lengi hvíli andi hans yfir sonum vorrar fósturjardar at aldrei giörit saga þess svo myrk framvegis, sem ein edr fleiri þeirra allda, er rit þettad aptr hefir frammdregid úr þeim dimmasta gleymsku-skugga!

Kaupmannahöfn, þann 19da Martii 1825.

F. Magnússon.

Nærværende Afdeling af *Islands Aarböger*, omtrent af samme Störrelse som de foregaaende, indeholder Slutningen af tredje Bog og Begyndelsen til den fjerde. Correctur-Arkene fra Trykkeriet har jeg selv saa nöjagtig gjennemseet som min knappe Tid og mangeartede Forretninger have kunnet tillade. Resten af sidstmeldte Bog er allerede i det islandske literære Selskabs Værge, og om Skriftets videre Fortsættelse nærer jeg det samme Önske og Haab som i Fjor, hvilke ogsaa siden allerede tildels ere blevne opfyldte. Takket og æret være Forfatteren for sit Arbejde! Længe hvile hans Aand over vort Födelands Sönner, at dets Historie aldrig fremdeles skal indhylles i et saadant Mulm, som i et eller flere af de Aarhundreder, hvilke dette Skrift atter har fremdraget af Forglemmelsens mörkeste Skygge!

Kjöbenhavn, den 19de Marts 1825.

F. Magnusen.

# Formáli.

Tími sá sem árbók þessi fer yfir, er sá inn sami sem mest hefir komit Islandi í þat horf sem enn er þat, í tilliti landstiórnar, eda þó heldr þat sem þat hefir verit í til XVIIIdu aldar enda, enn allrahellzt hèldt þat því formi sem nú ákomit, til ofanverd-rar XVIIdu aldar, þá Norsku laug innkomu, oc eginlega kalladir amtmenn voru skipadir, enn fólks edr haufdíngia stiórnar eptir-leifar, sem hvervetna finnast í dómum laugrèttunnar, oc svo í hèrádsdómum, smámsamann fór at aftakast med aullu. Annars kèmr furdulega fyrir í þessu tímabili, hversu Islandi stórlega hnignadi á því allr manndómr, árferdi oc biargrædi, oc er sann-lega íhugunarverdt, þar þó áþián klerkanna hafdi lètt á; enn þó veruleg upplysíng ecki framadist heldr á því, er ei svo miög at undra, því sú eina sem til var, oc þá uppkominn, oc í raun sú besta oc naudsynlegasta ef henni er synnt, ritníngin oc Guds ord, var ny innkomit, oc af allfáum brynt sem skyldi, enn of-mörgum vanhyrdt; þarí móti hèldt landsfolkit þá oc lengi síd-ann, eins oc samt vídar hèr á Nordrlaundum, ofrfast vid vana oc forn hindrvitni, sem ei mátti út af bregda, oc þánkafrelsid alls eckert; miklu heldr sínist þat eina sem til hafdi verit af því undir páfadóminum, í veraldlegum efnum, enn sem þó laut til stórmensku, oc iafnvel ósida, at hafa verit nidrbarit á þessum tíma, án þess nockut annad sómasamlegt siálfs álit væri innleidt aptr; komst þiódinn svo af óvyrdíngu sem á hana var laugd af út-

# Fortale.

Det Tidsrum, som omhandles i denne Deel af nærværende Aarböger er det, som har bragt Island til den Forfatning, hvori det nu befinder sig, eller dog snarere den, hvori det har været til det 18de Aarhundredes Udgang, men egentligst talt beholdt det dog den Skikkelse, som det nu fik, til seent i det 17de, da Norske Lov indförtes, og de saakaldte Amtmænd bleve beskikkede, men Levningerne af Folkets eller Hövdingernes Bestyrelse, som overalt findes i Lavrettens Domme og tillige i Herredsdommene, efterhaanden begyndte at afskaffes for fuldt og fast. Ellers maa man forbauses over Begivenhedernes Gang i dette Tidsrum, som i saa höj en Grad medförte Islands Forfald saavel ved Uaar, som ved mandig Virksomheds Aftagelse og Næringsvejenes Forringelse, og det er sandelig værdt at overveje, da Geistlighedens Aag ikke længere trykkede Folket. Dog kan man ikke undres over at sand Oplysning ej befordredes i dette Tidslöb, eftersom den eneste Art deraf som var at faae og da var oprundet, i Virkeligheden den bedste og nödvendigste naar den kun ændses, Skriften og Guds Ord, vare nylig komne for Dagen, og forkyndtes kun alvorlig af meget faa, men forsömtes af alt for mange. Derimod hængte Landets Beboere da, og længe derefter, ligesom Tilfældet ellers var paa flere Steder i de nordiske Lande, særdeles fast ved Vaner og forældet Slendrian, hvorfra man ikke maatte vige; Tænkefrihed gaves her slet ikke, thi endog den Gren deraf, (om verdslige Anliggender) som dyrkedes i Pavedömmets Tid, men som dog befordrede Pragt og Overmod, ja vel endog Usædelighed, synes nu at være bleven nedtrykt i dette Tidsrum, uden at noget Hæderligt, der kunde give Landet Anseelse, blev sat isteden derfor. Saaledes

lendum (sem hún þó ei verdskuldadi fyrir hráleik sinn, framar svo mörgum ödrum í þann tíma) ásamt adþrengiandi fátækt oc kunnáttuleysi, sem mannfæckuninn í plágunum hafdi mest lagt drög til, enn ei svo áborit fyrr enn fólkit var fullfiölgad, oc landid þreyngdist, misst allann dug oc dád; verdr því fátt til frásagna um þessa tíd, at tilburdir voru fáir, þeir er nockrs væri verdir, enn þó er þat at segia, at því meir sem á lídr aldirnar, er líklegt at eitt oc annat kunni til at vera uppskrifad edr máskè vissara, frammyfir þat eg hefi gètad komist yfir, oc þarf því samtyníngr minn þess vægari dóms, sem heldr nálgast sá tími, er mögulegt verdr at uppgötva um fleira enn einn madr fær í hendr fengit, oc þess dóms væntir mig, því svo hefir giört verit hèr til, at verksmídar hafa ei verit nidrfelldar, þó þær hafi mátt ófullkomnar vera med köflum, eda til enda; vil ec oc þá fella mitt verk er adrir vilia vidtaka er betri áhauld hafa, oc eptirláta þeim til styrktar undirbuníng minn, ef þá er framhaldit, oc er þat betra enn hann falli allr nidr þá ec fæ ei at dugad.

Frostastödum þann 26ta Julii 1824.

Jón Espolin.

udsattes Folket for Udlændinges Ringeagt, (hvilken det dog ej fortjente for sin Raahed, mere end saa mange andre i den Periode) plaget af tiltagende Armod og Vankundighed, hvortil Pestens Ödelæggelser för havde lagt Grund ved Folkemængdens Formindskelse, skjönt Virkningerne ikke ret kom tilsyne förend nu, da den igjen betydelig var tiltaget uden at kunne finde fornöden Næring — og alt dette bidrog da til at udrydde dets Mod og Daad. Dette Tidsrum giver saaledes kun et ringe Stof til Beretninger, da de Tildragelser og vare faa, som kunne siges at være af nogen Vigtighed; dog maa jeg bemærke Sandsynligheden af, at der for de senere Aar gives adskillige flere Optegnelser, som indeholde noget mere, endog tildels vissere, end de som jeg har kunnet overkomme, og derfor behöve mine her forenede Samlinger en des mildere Bedömmelse, som de Tider nærme sig, der gjöre det mueligt, at opdage meget mere om deres Tildragelser, end en Mand kan komme til Kundskab om; en saadan Bedömmelse venter jeg og, da Man hidindtil gjerne har fulgt den Regel, ej at nedrive slige Arbeider, skjönt de kunne have været ufuldkomne i visse Dele, eller endog helt igjennem. Ogsaa er jeg villig til at slutte mit Værk, naar andre ville tage fat derpaa, som have bedre Hjelpemidler, samt overlade dem min Forberedelse til Lettelse ved Arbejdet, hvis det virkelig fortsættes, og det er da bedre end at den ront skulde gaa til Spilde, naar jeg selv ikke længer kan virke.

Frostastade, den 26de Julii 1824.

John Espolin.

# Prentfeil í IIIdiu Deild Árbóka.

Pag. 1 lin. 12 samtyckt l. samþyckt.
— 4 — 26 sin l. sinn.
— 5 — 35 Biarnadottr l. Biarnardottr.
— 9 — 25 Biarnar Marteinssonar l. Biarna M. s. l. 35 systir l. systr plurál.
— 11 — 28 fleirri l. fleiri. l. 29 l. Stadarfelli.
— 13 — 13 biskupr l. biskups.
— 14 — 17 þorsteinn son Finnboga lögmanns, Kristin oc Halla; l. þorsteinn í Hiörtsey, Cecilia er átti þorsteinn son Finnboga lögmanns, Katrin i Brædratungu, Kristin oc Halla.
— 15 — 4 allra l. allrar.
— 17 — 30 menn á alþ. l. menn í dóm á alþ. l. 31 fyri l. fyrri.
— 18 — 6 in margine 1505. l. 25 dttr l. dóttr. l. 36 ann l. enn.
— 20 — 10 in margine 1506. l. 23 Eyrik l. Eyríkr.
— 22 — 1 hönnum l. hönum. l. 32 Biarnahöfn l. Biarnarhöfn.
— 23 — 11 l. í Vatnsfyrdi
— 25 — 7 jardtikn l. jardteikn. l. 14 sættist l. sættist. l. 21 verit l. verit.
— 26 — 33 Christianni l. Christiani.
— 27 — 2 Stephani Jónssyni l. Stephani biskupi Jónssyni. l. 25 iét l. lét.
— 30 — 29 þingeyra l. þingeyar.
— 31 — 23 jardarskipti l. jardaskipti oc sæpius
— 32 — 5 Stadafelli l. Stadarfelli. l. 19 l. Biarnasonar. l. 28 Sveinn l. Svein.
— 33 — 2 1513 in marg. l. 3 l. Hans konúngr. l. 16 l. Selvogi sæpius caret literas
— 35 — 3 þá l. þó.
— 37 — 1 fyrr l. fyri. l. 26 var hann svo vel l. vard hann etc.
— 38 — 4 Medallandi, l. Medallandi; vel: svo segia menn etc. l. 17 l. á Íslandi. l. 18 Sigmundarson l. Sigmundarsonar.
— 39 — 21 l. sjógarpr.
— 40 — 23 Stepháns oc Gottskálks l. Stephán oc Gottskálk.
— 44 — 27 l. verdskuldad.
— 46 — 23 l. konúngdóminum. l. 33 voru l. vóru.
— 51 — 32 l. Arnasonar. l. 33 ogsvo l. Arnasonar.
— 52 — 34 gildfénad l. géldfénad.
— 53 — 34 Hvammi l. Hrauni.
— 54 — 6 o l. oc. l. 8 han, l. hann. l. 9 fyrdic l. fyrdi. l. 10 landsn l. lands.
— 57 — 18 attu l. átta. l. 27 in marg. 1519.
— 58 — 33 Phillippussonar l. Philippussonar. l. 35 Miunkaþverá l. Munkaþverá. l. 36 Einar l. Elínar.

Pag. 61 lin. 22 Asgrímr l. Arngrímr.
— 63 — 32 vildi l. vildu.
— 65 — 2 ættum, Teitr var l. ættum; þau gáfu hvert ár hina bestu kú sina Hofstada Mariu, svo voru þau trúrækinn. Teitr var etc. l 7 in marg. 1522. l. 26 fyrstr til, l. fyrstr kanda til.
— 66 — 29 Jón prests l. Jón prestr.
— 67 — 24 mikill l. mikil.
— 68 — 4 þingaprests, Olufar, l. þingaprests Olufar etc. l. 9 l. ad Stad. l. 10 l. Sumarlida. l. 12 var hann l. var hun. l. 36 Audarsveit l. Stadarsveit. l. 37 prestr l. prests.
— 71 — 37 Jón, l. Jóns U. s.
— 75 — 18 sídar enn Finnbogi prestr l. sídar; enn Finnbogi etc.
— 78 — 18 l. tók fyrir XXXIV h.
— 79 — 26 þorleifr l. þorolfr. l. 33 í Hialla l. á Hialla.
— 80 — 16 uppi l. uppá.
— 84 — 3 Jón Petursson l. Joan vel Johan P. s.
— 86 — 16 prestr seinna enn er her var komit l. prestr seinna; enn er her var komit.
— 90 — 7 Sæmundar í Asi, enn son Olafs bónda; brédir Gudrunar, l. Sæmundar á Asi; enn son Olafs bónda bródir Gudrunar, var etc.
— 91 — 33 samann l. samana.
— 95 — 1 Skigdamenn l. Skeydamenn.
— 98 — 11 hins ríki l. ríka. l. 15 l. fadir Jóns, í þernuvík, Gudmundars.
— 99 — 21 af því l. at því.
— 102 — 8 Biarna l. Biarnar G. s. l. 13 Hóla l. Hóls. l. 16 l. Biarnarsyni.
— 103 — 3 þriótskadi l. þriótskadist. þá l. þó.
— 104 — 2 in marg. l. 1531. l. 10 l. nockrn. l. 24 Biargar l. Biarna.
— 109 — 32 biskups l. biskupa.
— 110 — 10 fór sídann med, l. fór sídann utann med.
— 114 — 11 sídann þat er, l. sídann, þat er Kialarn þ. l. 15 l. Philippusson.
— 116 — 3 Svarthóli l. Svarfhóli. Ingiridir l. Ingiridi. Dada l. Dadi.
— 118 — 25 leiddi þá l. leiddi þar.
— 123 — 32 l. óbótamenn.
— 127 — 9 l. Superintendentem yfir.
— 128 — 7 l. umskipti.
— 130 — 20 fiárafla l. frændafla.
— 131 — 34 prestr Eyrikssonar l. prests Eyrikssonar.
— 136 — 1 Langabol l. Laugaból. l. 2 l. Skálanes. l. 21 l. missti.
— 137 — 12 kaoúngr l. konúngr. l. 20 biskup sá l. biskups á. l. 21 hadi l. hafdi.

# Frammhalld 3ia Þáttar.

## CI Cap. Frá Jóni biskupi oc lögmanna skipti.

Jón biskup Arason oc synir hans ridu til alþíngis um sumarit sem þeir voru vanir, enn er þeir komu til Kalmanstúngu biskup oc Ari lögmadr, spurdu þeir greinilega hvad hyrdstjórinn hefdi at sysla, oc at Ögmundr biskup væri tekinn, brá þeim miög vid, oc hugdu rádlegast at fara ei lengra framm um sinn, oc hvurfu þar aptr; þó sendi biskup Olaf prest Hialltason med afsökunar brèfum sínum til hyrdstiórans, oc Ari sagdi siálfr af sèr lögsögnina, enda grunadi hyrdstiórann um trúleik hans vid kónginn, er hann kom ei til þíngs, at gègna svo stórum eyrindum er konúngr hafdi bodid framm at fylgia, oc því sættu nockurir menn, er þótti mikill oc uggvænlegr afli þeirra fedga, edr hardindum þóttust af þeim sætt hafa, oc báru því nockrir hinir heldri menn fyrir hyrdstiórann jafnframmi, at þeir vildu ei at Ari væri lögmadr lengr, oc var Þorleifr at Skardi son Páls Jónssonar oc Solveigar Biarnardóttr hins ríka, til lögmanns kosinn. Var hann spakr madr oc roskinn, oc hafdi lengi þótt vel tilfallinn; enn Jón biskup oc Ari, oc þeirra frændr oc vinir, qvádu róg valda oc íllmæli, er þau skipti urdu, oc hötudust vid Þorleif lögmann. Svo segir Olafr Thómásson í qvædi sínu um þá fedga:

A

Lugu þá af hönum lögmanns nafn
landsins vondir þegnar,
sá var ecki at sæmdum jafn
settr var til at gègna, lögunum landi í.
útlendsk þiódinn allramest ágyrnd hafdi af því;
svo rakna skildi rádinn flest, reystu upp klamarí.

Ari hafdi þá syslu í Eyafyrdi. Ecki fystist Jón biskup utan at fara at konúngsbodi, þóttist bædi taka til at eldast, oc þó hellst, vegna eyrindis, edr sidaskiptanna; vildi hann eigi láta hinn forna sidinn; þóttist hafa lítils góds at vænta, þar sem biskupsdómr hefdi verid tekinn af öllum biskupum í Danakonúngs ríkjum. England oc einnin fallid frá hlídni vid páfann. Enn þó hönum gætist ecki at um Gissr biskup oc þætti lítils verdt um hann fyrir ands oc ættar sakir, sá hann þó at hann hafdi traust mikid, oc mæltist því til vináttu vid hann sem sídar mun sagt verda. Eigi vildu oc klerkar fyrir nordann taka vid kyrkjuskipan Christjáns konúngs, sömdu þeir brèf til konúngs midvikudaginn fyrir dyradag, oc afsökudu sig, var þar einn med ödrum Pétr Pálsson ábóti. Þau missiri dæmdi Páll Vígfússon at Hlídarenda um útródrarmenn.

## CII Cap. Frá Pètri Einarssyni oc Bryniúlfi.

Pètr son Einars prests Snorrasonar Öldubryggiar skálds, bródir Marteins prests Einarsonar, hafdi þá Kiósarsyslu, oc dæmdi at Esiubergi um Skrauthóla oc Backa, föstudaginn eptir Michiálsmessu; hann giördist umbodsmadr hyrdstiórans, oc var miög í áliti oc vingan vid Dani, oc hafdi gèfid sig mest í fylgd med þeim er þeir tóku Videy; hann var hinn annar fremstu manna er Ögmundr biskup þóttist reina vanþöck af; er svo sagt at Videy væri tekinn af dönskum mönnum þann tíma er Ögmundr biskup var fanginn, enn Alexíus ábóti var fallin í sid med konúngsmönnum, oc til hinnar nyu trúar, oc lèt af ábótadæminu, hèldu þeir Videyar jardir um nesinn; enn þiskir menn höfdu hálfann fimta tug ródrarskipa á Sudrnesjum, þeir sem hèr höfdu kaupskap, enn Danir engann, því at þeir voru í þann tíma miklu

óvinsælli Islendíngum enn hinir Þísku, þóttu gánga freklega at öllu, oc neyta þess er landid lá undir þeirra konúng, enn auka ríki konúngs síns; höfdu Islendíngar alla stund, þó þeir gæfi sig undir Noregs konúng, haldid nockurri höfdíngia stjórn á landinu, sem sést af skilmálum þeim er þeir höfdu jafnan vid hina fyrri konúnga, oc svo af dómum mörgum, er dæmdir voru í landinu af landsmönnum siálfum, oc höfdu laga afl; vildu þeir hellst leita konúnganna er höfdíngiar deildu sín à milli, oc var ríkismanna vald mikid á landinu, enn þó mest biskupa valdid. Þat jók oc miklu à óvild landsmanna hèr vid Dani, at þeir tóku nú at innleida nya sidu, oc fóru at því nockud hardfengilega, oc eigi allskostar drengilega, enn þat efldi helst konúngsvaldid aptr, at leikmönnum ríkum var leidt ordid biskupa ríkid. Þat er mælt at Pétr Einarsson hafi látid rífa nidr Videyarkyrkiu velsmídada, oc *dòmum* brædranna, oc bera moldina alla í midjan kyrkjugardinn, giört þar sídann badstofu oc kockhús, oc þár aptr af nádhús, oc látid ræsid horfa í kyrkju-stadinn; enn skrûda oc kaleika tæki Danir til sín. Seinna keypti Pètr Arnarstapa, oc bygdi hann upp, ætla eg verid hafi eptir þat er Helgafélls klaustr var tekid, oc Pètr hafdi þar umbod jardanna. Brynjúlfr hèt madr oc var Jónsson, hönum lènti konúngr Biarnanes oc Horn, er voru af eignum Teits Þorleifssonar hins ríka; hafdi hann lyst því á alþíngi, enn Pètr Einarsson umbodsmadr, oc lögmenn bádir, oc alþíngismenn álycktudu þá, at þær væri í umsiá Gissurar biskups, þartil er hann fengi sitt mál siálfr borid fyrir konúng; enn um þessar jardir var deilt af Jóni biskupi sem fyrri segir, oc enn mun sagt verda, þó hafdi hann eigi þá til þeirra kallat, fyrir því at hann kom ei à þíngid. Þá seigia sumir at sótt mikil hafi gengid, oc dáid hellst hión; ellefu hión hafi dáid í eystri Landeyum. Leid nú svo af vetrinn sá hinn nærsti.

## CIII Cap. Frá Gissuri biskupi.

Fimtudaginn í páskaviku útnefndi Gissr biskup VI presta í dóm at Kyraugastödum á Landi, voru þeir Snorri Hiálmsson, Jón Hèdinsson, Þorleifr Eyríksson at Breidabólstad, bródir Sæmundar at 1542

Asi, Brynjúlfr Halldórsson, Jón Gíslason, oc Jón Biarnarson; enn þessa leikmenn Sæmund Eyríksson, Jón Þorvardsson, Jón Biarnarson, Snæbjörn at Kéldum son Halldórs Brynjúlfssonar frá Túngufelli, Erlend Jónsson, er eg hygg son Jóns Hallssonar, oc Hólmfrídar í Dal, oc Philippus Runólfsson; lagdi biskup framm fyrir þá alþíngis presta stefnu dóm, oc reikníngsskapar qver Ögmundar biskups, er svo sagdi, at Ögmundr hefdi medtekit eptir Stephán biskup, í gulli, silfri oc gódum klædum, léreptum oc ófrídum peníngum, svo at talid var, IV hundrud stikr oc XXXII stikr af gódu klædi, allt vyrdt fyrir áttatygi hundrud; XXI stycki varníngs klædis fyrir XXI hundrad; hálfvætt silfrs, þriár morkr oc þriá aura, fyrir II hundrud hundrada oc III hundrud; í gyllinum, rósenoblum oc engelóttum LXIII hundrud, XI fíngrgull, XII handsól, tveir daggardar búnir, fiögr pör knífa búnir, kross festarlaus, sylfrlyndi oc af sprotinn, *agnus dei* med festi, tvær kistr fullar med vax, oc enn fleira er þar stód á. Qvádust dómsmenn þessir engan vita umbodsmann Ögmundar biskups nálægann, er med rèttu kunni fyrir at kallast þeim reikníngum at svara; fyrir því dæmdu þeir at Gissr biskup mætti at sér taka þá peninga alla sem Ögmundr biskup hefdi medtekid, í nockurskáttar aurum, sem til eru nálægt dómkyrkjunni, enn ef þeir eru engir, skyldi hann taka jardir oc lausafè sem dómkyrkjunni er nærst, þartil hann hefir fengid fullt; enn þótt útlendir menn kærdi eptir skuldum hiá Ögmundi biskupi, skyldi herra Gissr vera vidskilinn, oc engu skyldr fyrir at svara, eptir því lögmáli at madr svari þar engu sem hann medtók eckert. Slíkt er nú allt á annan hátt á vorum dögum. Þat vita menn þó ei giörla hverju Gissr biskup hefir nád, enn þó eru líkindi til at bú Ögmundar biskups í Haukadal, oc at Reykium í Ölvesi edr annarstadar, hafi svo audug verid, oc nockud hafi mátt Júka dómkyrkjunni, oc Gissr biskup eigi sleppt því er hann mátti fá. Hinn XVda *Calendas Aprilis*, edr XVIIda dag Martii mánadar, gaf Gissr biskup Dada Gudmundarsyni í Snókadal qvittunar bréf, fyrir fiögr barngétnadar brot hans, í hórdómi, med Ingvildi Arnadóttr, enn hún var skyld hönum í annar oc þridia lid. Enn mánudaginn eptir uppstigníngardag, giördi Jón biskup Arason, at Lögmannshlíd í Eyafyrdi, sáttmálsbréf vid Gissr biskup; vildi hann eiga gótt vid hann, fyrir þá sök helst at Gissur biskup ætladi at-

enn um sumarid, oc hugdi sèr mundi verda slíkt til formælis vid konúnginn, er hann þóttist vita at eigi væri sèr vinveittr, — þar sem hann hefdi tekid völd af öllum hinum fornu biskupum, nema hönum einum samann, oc var þat á þennan hátt: "vèr Jón "med guds nád biskup á Holum, — giörum gódum mönnum "kunnugt, at vèr höfum sett oc samanbundid bródrlegann kær-"leika, vinskap oc trygd, vid heidrlegann herra, herra Gissr yfir-"mann Skálholltsstiptis, med þeim skilmála, at hver ockar styrki "annann med magt oc manndómi, fylgi oc fiárlögum, til "allra rèttra mála, bádum ockr at skadalausu — kunni "nockr rógr borinn verda ockar í millum, viljum vèr þar engan "trúnad áleggia, fyrrenn þat er skiallega reynt, med skilvissra "manna yfir yn. Skal þessi vor lofun ecki af oss rofinn, svo lengi "sem hún er af greindum herra Gissuri vel haldinn. Item um "þann ágreiníng sem ockar er á milli um Biarnarnes, oc þá pen-"ínga þar til heyra, þat viljum vid eiga undir VI eda XII manna "dómi, sem vid siálfir tilnefnum, jafnmarga hver, oc halda þat "þeir giöra þar um." Þvílíka lofun hyggia menn einninn Gissr biskup giört hafi ámóti. Gissr biskup leifdi oc Jóni Grímssyni oc Þórunni Helgadóttir hiónskap, var fiórmenníngs mægd á med þeim, enn ádr var svo nákomnum bannad at tengiast; hann heldt þó vid skriptum, oc tók Pèturs penínga enn hverjum hann galdt vita menn eigi. — Á því sumri kom út Otti Stigsson med hyrdstiórn. Þá lèt Olafr bóndi Gudmundarson syslumadr í Isafyrdi dóm gánga um ákæru Gudrúnar Biarnardóttr Gudnasonar, til Fúsa (Sigurdarsonar) Brámanssonar, um hval sem Brynjólfr tók fyrir hennar landi. Frammfóru oc giörníngar fleiri þau missari. Eitt var vitnisburdr Kolbeins prests Audunnarsonar Sigurdssonar, oc Teits prests um þat er Jón Skúlason festi Ingibiörgu Sigurdardóttur Finnbogasonar, systr Isleifs á Grund, oc VI presta dómr Jóns biskups um ákæru Olafs prests Gudmundarsonar til Biarnar prests Jónssonar, eg bigg biskupssonar, at hann heldi hálfum Reykjum í Midfyrdi, sem Gudmundr Olafsson hafdi lagt í mála konu sinnar Bergliótar Sigmundardóttr módr Olafs prests, enn hún gaf hönum jafnt vid Jón prest bródir hans. Þorleifi lögmanni dæmdu XII menn á alþíngi, um jardir vestr í Skálavík, er Sólveig módir hans hafdi gèfid hönum, enn Olafr bóndi Ey-

ríksson brôdir Sæmundar í Asi oc Jóns presta í Vatnsfyrdi lengi haldid, oc Pantaleón prestr son Olafs vændist nú at hafa umbod yfir.

## CIV Cap. Klaustramenn sídastir sydra.

Þessir voru ábótar oc múnkar er Gissr biskup tók vid Skálhollts umdæmi: í Videy Alexíus ábóti Pálsson, enn brædr Pétr, Þorleifr, Hallvardr, Jörundr klukkari, alls V, var því klaustrlífi nú lokid er hèr var komid. At Helgafelli var Halldór ábóti Tyrfingsson, oc þrír brædr, — Olafr, Jón oc Gunnar. A Þyckvabæ Sigurdr ábóti, oc V brædr, Jón Arnason, Jón Oddsson, Magnús, Jón Grímsson oc Sæmundr. At Skriduklaustri Brandr priór Rafnsson, fadir Rafns lögmanns, oc fiórir brædr, Olafr, Brandr, Magnús oc Þorsteinn. At Kyrkiubæar klaustri Halldóra abbadys Sigvaldadóttir, födr systir Gissurar biskups, enn systr sex, Gudrídr, Oddny, Arnleif, Astrídr, Margrèt, Valgèrdr. Prestar voru alls í Skálhollti biskupsdæmi CL.

## CV Cap. Frá Gissuri biskupi oc prestum.

Gissr biskup tók nú med alhuga at hefia hinn nya sidinn oc fylgia framm, bannadi páfa lærdóm í sínu umdæmi, messr, vigiliur, tída saungva oc lestra, tulna saungva oc helgra manna ákallan, enn fylgdi fast tilskipun Christjáns konúngs um kyrkiusidina, stefndi hann til þess fiölmenna presta stefnu at Middal í Laugardal, at sunnann oc vestan, oc skildadi presta til at taka þar á móti tilskipun konúngs, oc fremja eptir henni þeirra embættisgiörd, kènníngu oc kyrkiusidi, sem lióst er af medkènníngu þeirra presta siálfra, oc var sú samkoma midvikudaginn nærstann fyrir Pèturs messu oc Páls, samþycktu þar XXIII klerkar kyrkju ordinantíuna, ef þeir fengi at halda fríheitum sínum oc kennimanna rentu, oc hètu konúngi öllum trúnadi, hlídni oc hollustu, enn beiddust umbreitíngar á því sem ei fengi stadist í landi hèr,

eptir því sem Gissr biskup kynni segia, — settu þeir sín innsigli fyrir brèfid, oc voru þessir: Alexíus ábóti Pálsson, Bryniúlfr prestr í Odda Halldórsson frá Túngufelli, Marteinn prestr Einarsson at Stad, Bárdr prestr Ejólfsson á Reinivöllum, Freysteinn prestr Grímsson at Stafhollti, Gudmundr prestr Jónson oc Eyríkr prestr Jónsson at Reykhollti oc Gilsbacka, Magnús prestr Jónsson, Jón prestr Biarnarson er sídar var at Breidabólssad, Sveinn prestr Þorbiarnarson í Hvammi, Eyríkr prestr Grímsson er sídar var at Gilsbacka, — bródir Freysteins prests, Biörn prestr Olafsson í Runa, Jón prestr Þorleifsson Gudmundarsonar Andréssonar, er sídann var í Hiardarhollti, Loptr prestr Narfason at Stadarhrauni, Jòn prestr Einarsson, Arni prestr í Hytardal, Arnórsson frá Ökrum, Tumi prestr Gudmundarson, Stephán prestr Hallkèlsson í Laugardælum frændi Stephàns biskups, Jón prestr Jónsson, Asgeir prestr at Lundi son Hákonar Biörgólfssonar, Þórdr prestr Gíslason, Oddr prestr í Gaulverjabæ Halldórsson frá Túngufelli, Magnús prestr í Selárdal Ejólfsson Mókolls, Einar prestr Olafsson í Gördum á Alptanesi, Snorri prestr Hiálmsson at Hollti undir Eyafiöllum, Gísli prestr Nicólásson, Gísla prests Jónssonar Gíslasonar er opt er gètid ádr, oc Olafr prestr Jónsson; enn VI afsökudu sig med elli sinni oc veikleika frá nyum sidum, oc bádu kónúng ei þraungva þeim þartil, voru þat Sigurdr ábóti í Þykkvabæ, Bergr prestr Jónsson at Reinivöllum, Þorleifr prestr Eyríksson at Breidabòlstad í Fliótshlíd, Jón prestr Hèdinsson í Runa, Olafr prestr Kolbeinsson í Saurbæ, oc Jón prestr Eyríksson í Vatnsfyrdi. Stephán prestr Hallkéllsson í Laugardælum sá er hèr var gètid, var fadir Hallkèlls prests á Ferinbacka, hans son var Stephán prestr er átti Ulfhildi dóttr Jóns Oddssonar í Reykjavík, oc Þórdysar Henriksdóttr Gerkens, þeirra börn Hallkèll prestr á Hvalsnesi fadir Stephàns prests í Grindavík, oc Biörn prestr at Snæfokstödum módrfadir Einns biskups, oc Jónar tveir; þat er köllud Hallkèls ætt, oc voru þeir frændr allir sydra. Asgeir prestr Hákonarson at Lundi var athafnamadr mikill, þat er sagt hann kæmi þángad annarstadar frá, allfátækr, oc rydi í járnsödli fornum, enn hann græddi þar mikid fè; hann átti fyrri Jngibiörgu Gudmundardóttr frá Þingnesi systr Þórdar er enn verdr gètid, enn sídann Gudrúnu Snorradóttr; þau voru börn hans, Astrídr er átti Gudmund son Halls, Olafssonar prests Kolbeinssonar Ragn-

hildr er átti Sigurd Einarsson, — þann er Einar ness ætt er frákominn, Tyrfingr, Biörgólfr er átti Sesseliu dóttr Halls Olafssonar, Sigurdr fadir Jóns í Alptartángu, Snorri, Nicólás, Ingibiörg, Þóra, Þuríðr er Helga átti Vigfússon Jónssonar í Kalmanstúngu Grímssonar í Sydumúla Jonssonar Gudmundarsonar, þeirra börn voru Vígfús prestr, er Sigurdur Vigfú son í Stóraskógi er frákominn, oc systkin hans Herdys er átti Laga Arnór í Liáskógum, son Lopts Gudlaugssonar Loptssonar Ormssonar Loptssonar hins ríka, þadann er Liáskóga ætt. Hákon oc Þórdr voru launsynir Asgeirs prests. Einar prestr Olafsson í Görðum var fadir Egils, födr Jóns prests er ritad hefir annálin, oc Oafs prests er hertekinn var í Vestmannaeyum, oc brædra þeirra. Olafr prestr Kolbeinsson í Saurbæ var mikilsháttar, enn gamall í þennan tíma sem hèr seigir; Kolbeinn Sigurdarson hét fadir hans; enn son hans var Hallr er átti Gudrún dóttr Þorsteins í Hiörtsey Torfasonar frá Klofa, vid hann er kènnd Hallsætt; hans börn voru þau Ögmundr, fadir Torfa á Leirá, Sigurdar, Halls, Odds oc Snorra; Gudmundr er átti Astrídi Asgeirsdóttr, frá hönum er kominn Gudmundr prestr í Fliótshlíd, oc Halldór í Olafsvík, födrfadir Pètrs prests Einarssonar í Miklaholti, oc Gudmundr snickari, Þórdys er átti Tyrfing son Asgeirs prests Hákonarsonar hann bió í Hiörtsey, þeirra son einn var Þorsteinn prestr í Hvammi. Sesselia, hún àtti Biörgólf Asgeirsson; Bergliót atti Einar Eyríksson á Hvanneyri. Bergþór Hallsson var laungètinn; eru þetta allt ættir miklar.

## CVI Cap. Frá imsu.

Eptir presta stefnu þessa ridu menn á alþing; segir þá sumstadar at til kæmi deilurnar um Horn oc Biarnanes er fyrri er gètid, oc færi framm dómar med forsiá Pèturs Einarssonar. Þá kærdi Asdys systir Ögmundar biskups jardamissir sinn sem ádr er á vikád; var þat dæmt at hún skyldi eiga atgáng at fè Ögmundar biskups, hvar sem hittist, enn eigi nádi hún eda nockrir frændr Ögmundar biskups því fè. Um sumarid sannspurdist andlát Ögmundar biskups. Rafn hèt prestr er bió at Arnarbæli í Flóa, hann fór,

med ödrum mönnum úr Þorlákshöfn á skipi, fluttu þeir miöl oc skreyd inná Oseyri, þeir voru X samann, bar þeim til á skipinu oc flugust á, oc steiptu skipinu, drukknudu þeir þar allir samann. Annar prestr drukknadi fyrir Osinunnanum í Skálhollti, þeir fleyttu triám eptir ósnum, lagdist hann til sunds med trè, oc batt um sig snæri, enn sem hann hafdi syndt um hríd, losnudu hosuböndhans, oc flettust nidr hosurnar, dróg hann vid þat nidr oc tyndist. I þann tíma bió at Stadarbacka Þorlákr prestr Hallgrímsson Barna-Sveinbjarnarsonar, hann hèldt þá vid Helgu dóttr Jons lögmanns Sigmundarsonar, hana hafdi ádr átta Krákr Hallvardsson á Audunarstödum, oc tyndist hann í Vìdidalsfljóti, oc Jón bródir hans, er þeir fóru til veidiskapar; þeirra börn voru Jón prestr Kráksson í Gördum, oc Biörg er átti Erlendr prestr son Páls Grímssonar Pálssonar, sumir nefna oc Olaf prest Kráksson. Jón Hallvardsson hafdi átta Gudrúnu dóttr Jóns lögmanns Sigmundarsonar, þeirra son var Jón fadir Arngríms prests hins lærda. Þorlákr prestr hafdi haldid fyrst Stad í Hrútafyrdi, hafdi hann þarmed Eyrarkyrkju í Bitru, oc var opt kominn fyrir dag í túngslysi á vetrum þángad til messugiördar. Þau Helga gátu son á þessum missirum, er nefndr var Gudbrandr, oc vard sídar hinn ágætasti; Þórdr bródir hans var tveimr vetrum yngri.

## Cap. CVII Utanför oc bréf Gissurar biskups oc annad þar vid.

Gissr biskup baud prestum at qvængast, oc var þat miög lastad af mörgum sem fleiri sidaskipti; hann keypti um sumarid, enn sumir segia hann hafi einnin fastnad sèr til eiginkonu Gudrunu, dóttr Gottskálks biskups Nicolássonar, systr Odds hins spaka, oc Christínar er ádr átti Þorvard Erlendsson, enn sídann Jón Einarsson at Skardi; enn at því framkomnu, oc er til þótti skipad sem þurfti, fór Giser biskup utann, oc med hönum Pètr prestr Andrèsson, til Kaupmannahafnar; einnin menn af hendi Jóns biskups Arasonar: Sigurdr prestr at Grenjadarstad sonr hans, oc Isleifr mágr hans, oc Olafr prestr Hialltason, med bréf hans; bad Jón biskup

konúnginn audmjúklega hlífa sér vid utanferd, er aldr færdist á hann, enn hèt trú oc hollustu; unnu þeir Sigurdr prestr oc Olafr prestr oc Isleifr eyd á kniám bædi sín oc hans vegna, at sína konúngi trúleik oc hollustu, bædi um sidaskiptinn oc kyrkiu tilskipunina; fèck Jón biskup einn-samann af öllum biskupum, þeim er páfa-trúnni fylgdu, í ríkiu.n Dana konúngs, at sitja at völdum sínum oc vyrdíngum á medann hann lifdi, því at konúngi var grunlaust um alla tálman síns vilja af hans hendi. I þeirri ferd fèck Gissr biskup mörg brèf af konúngi, ráda sumir af þeim, at Christófór Hvitfeldr hafi verid í landi hèr sumarid fyrir; eitt var qvittun fyrir afhendíngu *Clenodia* oc peninga Skálhollts kyrkiu til Hvitfeldts, DCC lóda silfrs, gull-kaleiks, LX Jóachims dala, oc XX engelotts. Þat var seint um haustid útgèfid; hafdi konúngr slegid hendi yfir klerkafèd allt. Annad var um þad, hvad prestar skyldu kénna alþídu til sáluhiálpar. Þridia var um uppeldi presta, med því vigiliur, oc ábati sá er af hiátrú reis aftókst, gaf hann hyrdstióranum oc biskupinum umbod at ransaka hvo prestar þyrfti med til framfæris, oc leggia þeim til af kyrknatyundum, þarmed skyldu heytollar haldast, oc prestum ei áþián veitast af konúngsvaldinu. Hid fiórda var til Halldórs ábóta at Helgafelli, oc conventubrædra í Videy, at þeir hèldu skóla á bádum þeim klaustrum; því var sídan spillt af ágyrni konúngsmanna. Hid fimta var til Sigurdar ábóta í Veri, Brands priórs á Skridu oc Halldóru abbadysar, at þau hèldu lestra-skóla á þeim klaustrum; voru þessi skólahöld skipud at forlagi oc rádum Gissurar biskups, oc gódvilia konúngs at öndverdu, enn þess vard ei audid, því at svo er sagt, at þegar hann var á heimleid oc kominn í Hamborg, hafi konúngr sendt þángad eptir brèfunum, fyrir því at Jóhann Friis, Cancelleri hafi sagt at ríkid eda krúnann stædist ecki ef öll klaustr gengi undann. Vard á þann hátt, þat sem vera skyldi landinu hinn mesti frami oc hagnadr, at forlagi Gissurar biskups oc vitra manna, at útdrætti einum, oc leiglendínga skyldu undir konúnginn, oc litlum mun þarfara enn fyrri hafdi verid. XVII vikr var Gissr biskup í Kaupmannahöfn, oc hafdi bord hiá Herra Christjáni Þorkèllssyni, þadann fór hann til Raudstocks, oc kom þar þridja sunnudag í Adventu, þadann til Hamborgar, oc var þar til hins VIta dag Aprílis mánadar um vorid eptir, voru med hönum Snorri prestr Hiálmsson, Gísli prestr Jónsson, oc Eggèrt son Hannesar

hyrdstiórs. Gísli prestr Jónsson er oc mælt at efnt hafi heit sitt um þessar mundir, at egta Chrisínu Ejólfsdóttr mókolls, fengid lausn fyrir hana af Christjáni konúungi, oc leifi til at fá hennar; hafi konúngr oc ríkisrád hans ógiörla vitad sakfelli þeirra systkina, þat hún væri krenkt oc þær bádar systr af bródr sínum, heldr at vandalaus mundi hafa verid karlmadrinn. Hyggium vèr at Gísli prestr hafi þá fyrst þessa leitad er prestum var leyft at qvongast, oc Gissr biskup siálfr hafdi keypt konu. Verdr sídann meira gètid Gísla prests oc Christínar. A jóladaginn gaf Christján konúngr brèf út, er bannadi eptirliggiarum oc útlendum hèr kaupskap, oc laut þad til hinna þísku manna.

## Cap. CVIII Frá Gudrúnu Gottskálksdòttr. Tekid Helgafells klaustr.

Eysteinn hinn sterki Brandsson var i þennan tíma kyrkiu-prestr í Skálhollti, oc skorti þá vetr á sextugann; hann komst yfir Gudrúnu Gottskálksdóttr festarkonu Gissurar biskups, medan hann var utann. Enn um vorid er von var á útkomu Gissurar biskups, 1543
fór hún úr Skálhollti upp at Túngu, oc er hann kom út, vildi hún ei fara til fundar vid hann. Jón prestr yngri Einarsson bródir hans, sagdi hönum hvad í hafdi giörst; leid svo hin fyrsta nótt frá því biskup var heimkominn, enn um morguninn bannadi hann Eysteini at messa, því þar var þá messad hvern dag. Gudrún sendi oc Eysteini ord at hafa sig sem skiótast af stadnum, enn hann vildi ecki, oc gèck til máltídar; oc sem hann var setstr at bordum, komu þar inn brædr biskups, Jón prestr med taparexi í hendi, oc Þorlákr med kordakníf, allir voru þeir frændr miklir menn oc knáir sem þeir áttu kyn til. Þorlákr var bædi mikill oc sterkr, svo at hann hafdi vel tveggia megn, oc þó vel gyldra, enn Eysteinn var óvidbúinn oc hlióp upp undir hábordid, oc vafdi kàpunni at höndum sèr oc bar svo af sér högginn, enn knífr Þorláks beit svo at gèck í gègnum allt, oc vard Eysteinn miög sár, þá sá hann at hönum mundi ei duga svobúid, oc hlióp upp yfir bordid, oc framm á gólfid oc beid þeirra, dró út sleddu

hildr er átti Sigurd Einarsson, — þann er Einar ness ætt er frákominn, Tyrfingr, Biörgólfr er átti Sesseliu dóttr Halls Olafssonar, Sigurdr fadir Jóns í Alptartúngu, Snorri, Nicólás, Ingibiörg, þóra, þurídr er Helga átti Vigfússon Jónssonar í Kalmanstúngu Grímssonar í Sydumúla Jonssonar Gudmundarsonar, þeirra börn voru Vigfus prestr, er Sigurdur Vigfú son í Stóraskógi er frákominn, oc systkin hans Herdys er átti Laga Arnór í Lidskógum, son Lopts Gudlaugssonar Loptssonar Ormssonar Loptssonar hins ríka, þadann er Liáskóga ætt. Hákon oc þórdr voru launsynir Asgeirs prests. Einar prestr Olafsson í Gördum var fadir Egils, födr Jóns prests er ritad hefir annálin, oc Oafs prests er hertekinn var í Vestmannaeyum, oc brædra þeirra. Olafr prestr Kolbeinsson í Saurbæ var mikilsháttar, enn gamall í þennan tíma sem hèr seigir; Kolbeinn Sigurdarson hét fadir hans; enn son hans var Hallr er átti Gudrún dóttr þorsteins í Hiörtsey Torfasonar frá Klofa, vid hann er kènnd Hallsætt; hans börn voru þau Ögmundr, fadir Torfa á Leirá, Sigurdar, Halls, Odds oc Snorra; Gudmundr er átti Astrídi Asgeirsdóttr, frá hönum er kominn Gudmundr prestr í Fliótshlíd, oc Halldór í Olafsvík, födrfadir Pètrs prests Einarssonar í Miklaholtti, oc Gudmundr snickari, þórdys er átti Tyrfing son Asgeirs prests Hákonarsonar hann bió í Hiörtsey, þeirra son einn var þorsteinn prestr í Hvammi. Sesselia, hún àtti Biörgólf Asgeirsson; Bergliót atti Einar Eyríksson á Hvanneyri. Bergþór Hallsson var laungètinn; eru þetta allt ættir miklar.

## CVI Cap. Frá ímsu.

Eptir presta stefnu þessa ridu menn á alþing; segir þá sumstadar at til kæmi deilurnar um Horn oc Biarnanes er fyrri er gètid, oc færi framm dómar med forsiá Pèturs Einarssonar. þá kærdi Asdys systir Ögmundar biskups jardamissir sinn sem ádr er á vikád; var þat dæmt at hún skyldi eiga atgáng at fè Ögmundar biskups, hvar sem hittist, enn eigi nádi hún eda nockrir frændr Ögmundar biskups því fè. Um sumarid sannspurdist andlát Ögmundar biskups. Rafn hèt prestr er bió at Arnarbæli í Flóa, hann fó,

med ödrum mönnum úr Þorlákshöfn á skipi, fluttu þeir miöl oc skreyd inná Oseyri, þeir voru X samann, bar þeim til á skipinu oc flugust á, oc steiptu skipinu, drukknudu þeir þar allir samann. Annar prestr drukknadi fyrir Osmunnanum í Skálhollti, þeir fleyttu triám eptir ónum, lagdist hann til sunds med trè, oc batt um sig snæri, enn sem hann hafdi syndt um hríd, losnudu hosubönd hans, oc flettust nidr hosurnar, dróg hann vid þat nidr oc tyndist. I þann tíma bió at Stadarbacka Þorlákr prestr Hallgrímsson Barna-Sveinbjarnarsonar, hann hèldt þá vid Helgu dóttr Jons lögmanns Sigmundarsonar, hana hafdi ádr átta Krákr Hallvardsson á Audunarstödum, oc tyndist hann í Vídidalsfljóti, oc Jón bródir hans, er þeir fóru til veidiskapar; þeirra börn voru Jón prestr Kráksson í Gördum, oc Biörg er átti Erlendr prestr son Páls Grímssonar Pálssonar, sumir nefna oc Olaf prest Kráksson. Jón Hallvardsson hafdi átta Gudrúnu dóttr Jóns lögmanns Sigmundarsonar, þeirra son var Jón fadir Arngríms prests hins lærda. Þorlákr prestr hafdi haldid fyrst Stad í Hrútafyrdi, hafdi hann þarmed Eyrarkyrkju í Bitru, oc var opt kominn fyrir dag í túnglsysi á vetrum þángad til messugiördar. Þau Helga gátu son á þessum missirum, er nefndr var Gudbrandr, oc vard sídar hinn ágætasti; Þórdr bródir hans var tveimr vetrum yngri.

## Cap. CVII Utanför oc bréf Gissurar biskups oc annad þar vid.

Gisur biskup baud prestum at qvængast, oc var þat miög lastad af mörgum sem fleiri sidaskipti; hann keypti um sumarid, enn sumir segia hann hafi einnin fastnad sèr til eginkonu Gudrunu, dóttr Gottskálks biskups Nicolássonar, systr Odds hins spaka, oc Christínar er ádr átti Þorvard Erlendsson, enn sídann Jón Einarsson at Skardi; enn at því framkomnu, oc er til þótti skipad sem þurfti, fór Giser biskup utann, oc med hönum Pètr prestr Andrèsson, til Kaupmannahafnar; einnin menn af hendi Jóns biskups Arasonar: Sigurdr prestr at Grenjadarstad sonr hans, oc Isleifr mágr hans, oc Olafr prestr Hialltason, med bréf hans; bad Jón biskup

konúnginn audmjúklega hlífa sér vid utanferd, er aldr færdist á hann, enn hèt trú oc hollustu; unnu þeir Sigurdr prestr oc Olafr prestr oc Isleifr eyd á kniám bædi sín oc hans vegna, at sína konúngi trúleik oc hollustu, bædi um sidaskiptinn oc kyrkiu tilskipunina; fèck Jón biskup einn-samann af öllum biskupum, þeim er páfa-trúnni fylgdu, í ríkiunn Dana konúngs, at sitja at völdum sínum oc vyrdíngum á medann hann lifdi, því at konúngi var grunlaust um alla tálman síns vilja af hans hendi. I þeirri ferd fèck Gissr biskup mörg brèf af konúngi, ráda sumir af þeim, at Christófór Hvítfeldr hafi verid í landi hèr sumarid fyrir; eitt var qvittun fyrir afhendíngu *Clenodia* oc penínga Skálhollts kyrkiu til Hvitfeldts, DCC lóda silfrs, gull-kaleiks, LX Jóachims dala, oc XX engelotts. Þat var seint um haustid útgèfid; hafdi konúngr slegid hendi yfir klerkafèd allt. Annad var um þad, hvad prestar skyldu kènna alþýdu til sáluhiálpar. Þridia var um uppeldi presta, med því *vigiliur*, oc ábati sá er af hiátrú reis aftókst, gaf hann hyrdstióranum oc biskupinum umbod at ransaka hve prestar þyrfti med til framfæris, oc leggia þeim til af kyrknatyundum, þarmed skyldu heytollar haldast, oc prestum ei áþián veitast af konúngsvaldinu. Hid fiórda var til Halldórs ábóta at Helgafelli, oc conventubrædra í Videy, at þeir hèldu skóla á bádnm þeim klaustrum; því var sídan spillt af ágyrni konúngsmanna. Hid fimta var til Sigurdar ábóta í Veri, Brands priórs á Skridu oc Halldóru abbadysar, at þau hèldu lestra-skóla á þeim klaustrum; voru þessi skólahöld skipud at forlagi oc rádum Gissurar biskups, oc gódvilia konúngs at öndverdu, enn þess vard ei audid, því at svo er sagt, at þegar hann var á heimleid oc kominn í Hamborg, hafi konúngr sendt þángad eptir brèfunum, fyrir því at Jóhann Friis, Cancelleri hafi sagt at ríkid eda krúnann stædist ecki ef öll klaustr gengi undann. Vard á þann hátt, þat sem vera skyldi landinu hinn mesti frami oc hagnadr, at forlagi Gissurar biskups oc vitra manna, at útdrætti einum, oc leiglendínga skyldu undir konúnginn, oc litlum mun þarfara enn fyrri hafdi verid. XVII vikr var Gissr biskup í Kaupmannahöfn, oc hafdi bord hiá Herra Christjáni Þorkèllssyni, þadann fór hann til Raudstocks, oc kom þar þridja sunnudag í Adventu, þadann til Hamborgar, oc var þar til hins VIta dag Aprílis mánadar um vorid eptir, voru med hönum Snorri prestr Hiálmsson, Gísli prestr Jónsson, oc Eggèrt son Hannesar

hyrdstiórn. Gísli prestr Jónsson er oc mælt at efnt hafi heit sitt um þessar mundir, at egta Christínu Ejólfsdóttr mókolls, fengid lausn fyrir hana af Christjáni konúungi, oc leifi til at fá hennar; hafi konúngr oc ríkisrád hans ógiörla vitad sakfelli þeirra systkina, þat hún væri krenkt oc þær bádar systr af bródr sínum, heldr at vandalaus mundi hafa verid karlmadrinn. Hyggium vèr at Gísli prestr hafi þá fyrst þessa leitad er prestum var leyft at qvongast, oc Gissr biskup siálfr hafdi keypt konu. Verdr sídann meira gètid Gísla prests oc Christínar. Á jóladaginn gaf Christján konúngr brèf út, er bannadi eptirliggiarum oc útlendum hèr kaupskap, oc laut þad til hinna þísku manna.

## Cap. CVIII Frá Gudrúnu Gottskálksdòttr. Tekid Helgafells klaustr.

Eysteinn hinn sterki Brandsson var í þennan tíma kyrkiu-prestr í Skálholti, oc skorti þá vetr á sextugann; hann komst yfir Gudrúnu Gottskálksdóttr festarkonu Gissurar biskups, medan hann var utann. Enn um vorid er von var á útkomu Gissurar biskups, 1543
fór hún úr Skálholti upp at Túngu, oc er hann kom út, vildi hún ei fara til fundar vid hann. Jón prestr yngri Einarsson bródir hans, sagdi hönum hvad í hafdi giörst; leid svo hin fyrsta nótt frá því biskup var heimkominn, enn um morguninn bannadi hann Eysteini at messa, því þar var þá messad hveru dag. Gudrún sendi oc Eysteini ord at hafa sig sem skiótast af stadnum, enn hann vildi ecki, oc gèck til máltídar; oc sem hann var setstr at bordum, komu þar inn brædr biskups, Jón prestr med taparexi í hendi, oc Þorlákr med kordakníf, allir voru þeir frændr miklir menn oc knáir sem þeir áttu kyn til. Þorlákr var bædi mikill oc sterkr, svo at hann hafdi vel tveggia megn, oc þó vel gyldra, enn Eysteinn var óvidbúinn oc hlióp upp undir hábordid, oc vafdi kàpunni at höndum sèr oc bar svo af sèr högginn, enn knífr Þorláks beit svo at gèck í gègnum allt, oc vard Eysteinn miög sár, þá sá hann at hönum mundi ei duga svobúid, oc hlióp upp yfir bordid, oc framm á gólfid oc beid þeirra, dró út sleddu

mikla er hann hafdi á sèr, oc bar fyrir högginn; Þorlákr sókti fast at, enn Eysteinn rann þá á hann, oc rak hann þegar undir sig, oc setti sleddúna fyrir brióst hönum, oc hlióp á ofann af öllu afli, enn hún bognadi í keng, því at Þorlákr var í pansara; Jón prestr hió þá Eystein miög í útlimuna med taparnum, þartil er hann mæddi blódrás, kom þá at Arni briti Olafsson bródir Einars prests í Gördum, oc skildi þá; enn er Eysteinn var kominn framm í dyrnar, vildi hann inn aptr at þeim enn fèck því ei rádid; hann hafdi XIII sár, oc var sídann græddr í Hólum. Þótti mönnum þetta giört Gissuri biskupi oc hinum nya sid til svívirdíngar, oc voru hönum dæmdar af Eysteini tyutígi merkr í fullrètti sitt, eptir fornum kyrkjulögum. Um sumarid ól Gudrún þribura í Túngu, hlutu skyrn allir oc öndudust sídann. Þá mælti Gissr biskup: þat var hlaup oc hofmannshlaup, oc skal eg þó taka Gudrúnu mína aptr í sátt; enn Oddr Gottskálksson bródir hennar rèdi biskupi frá því fyrir hneigslis sakir, enda vildi hún eigi siálf, seigia sumir valdid hafi stórlyndi hennar, enn adrir blygdan oc ángrsemi; er oc eigi gètid Eysteins þadann af. Þá tók Pètr Einarsson Helgafells klaustr, var þar þá Halldór ábóti, oc brædr, Olafr, Jón oc Gunnar, er mælt þeir hafi naudugir farid, oc óskad berhöfdadir oc berfættir ílls þeim er vidtæki. Var ábótanum bodíd at kiósa svo margar jardir, sem hann mætti vel fæda prest á, enn hann ann þess ílla þeim er vidtæki eptir sig, oc nefndi IV kot. Eru Helgafells jardir, nefndar Stapaumbod, oc Skógarsandar jardir, oc voru þær lèntar Dada Gudmundarsyni til umráda oc afgialda, vóx þá enn vid þat uppgángr hans oc audr, oc segia sumir menn at hann hafi tekid diarflega til sumra hluta er at Helgafelli voru. Dadi hafdi þá syslu fyrir vestann, gèck hann ríkt eptir sektum, því hann hafdi prófastsdæmi, oc efldist miög; enn svó er sagt at Pètr Einarsson hafi haldid Helgafells umbod, þá hann bjó at Arnarstapa.

## Cap. CIX Byriad prentverk; mord eystra.

Þá hèldt Jón prestr svenski Matthiasson Breidabólastad í Vestrhópi, var hann borinn í Svíþiód, hann var skickanlegr madr oc

vel aidadr; hafdi hann fyrstr híngad á land prentsmidju, oc hóf at prenta á Breidabolstad, handbók presta, sunnudaga gudspiöll, oc annad fleira. Var þat nockud at forlagi Jóns biskups. Jón svenski þótti nær ypparstr presta nordanlands i þann tíma; hans son var Jón er prentverks ydn lærdi af hönum, oc prentadi sídann at Núpufelli sem enn mun sagt verda. Þat vor eptir krossmessu, lèt Ari Jónsson biskups XII manna dóm gánga at Einarstödum í Kraklínga hlíd, um ránga tyundargiörd; voru þeir dæmdir til at twígialda tyund, oc þriggja marka sekt í fyrsta sinni, sem ei giördi tyund nè gyldi af X aurum til V hundrada. Enn Stígr Höskuldsson lèt XII manna dóm gánga vid Vallalaug í Skagafyrdi, um ákiæru Herdísar Helgadóttr til Iclis, þýsks manns, at hann hefdi naudgad henni, hann var förunautr Hans Benicks kaupmans, oc Hans Mejers skipara, oc lídsinnti Jón biskup hönum oc þeim útlendu mönnum, var Iclis dæmdr tylftareydr fyrir verknadinn enn ella frá fè oc fridi, enn líf hans þó til konúngs nádar, oc fyrir því at á hann sönnudust vidburdir, var dæmdr af hönum hinn minnsti fíngr, oc tveir ef hönum fèllist eydr, oc tvöfaldt fullrètti Herdysi; var Stígr þá konúngs umbodsmadr í Skagafyrdi. Þorleifr prestr Biarnarson Þorleifssonar hèt Ragnhildi Jónsdóttr, at halda vid hana medann þau lifdi, enn giörá hiónaband þegar þat giördu fleiri prestar, oc almúginn samþyckti edr yfirmenn bydi svo skyldi vera, enn ella arfleida börninn. Jón Olafsson í Hiardardal lèt XII manna dóm gánga um ómegd, í umbodi Olafs Gudmundarsonar födr síns, er þá hafdi enn syslu í Isafyrdi. Vígfús oc Oddr Helgasynir, af Haga ætt, gáfu qvittun Andrèsi Arasyni at Saurbæ á Raudasandi; þann hygg eg verid hafa launson Ara Andrèssonar. Ormr son Sturlu Þórdarsonar at Stadarfelli, er átti Þorbjörgu dóttr Þorleifs Grímssonar at Mödruvöllum, seldi Ara Jónssyni Hleidargard. Þá arfleiddi oc Biörn prestr son Jóns biskups börn sín, Jón, Magnús, oc Ragnheidi, oc fleiri urdu giörníngar. Þá skèdi mordvíg eystra, drap sú kona er Sesselia Loptsdóttir hèt bónda sinn Steingrím Bödvarsson, oc myrdi hann, oc sá madr med henni er vid hana hafdi haldid; var Erlendi lögmanni Þorvardssyni bodid at gánga eptir því, var fyrir þá sök Steingrímr grafinn upp, oc fannst stíngr á þunnvömbinni, oc var svarid manna verk, sídann var Sesselíu dæmdr tylftareydr eptir líkindum, enn enginn var med henni á bænum þá Steingrímr dó, nema

fylgimadr hennar, fyrir því vildi enginn med henni sverja; var hún þá dæmd réttitæk af valdsmanni, ef eydr félli innan ásetts tíma, nema ef hún kæmist á adrahveria dómkyrkiuna, oc hálfir hennar peníngar undir konúng fastir oc lausir, var þar med jördinn Egilsstadir; komst Sesselia á Hólakyrkju. Þá dæmdi Þorbergr Bessason at Spialdhaga í Eyafyrdi med XII mönnum, um mála tilgiöf oc löggiafir Þórunnar á Grund, dóttr Jóns biskups.

## CX Cap. Qvonfaung Einarssona.

Þá er Jón biskup spurdi útkomu Gissurar, ritadi hann hönum þackarbréf vinsamlegt, fyri sínda mann-æru sendimönnum sínum, enn æskti at midlan mætti á komast med þeim um Biarnanes, er hann hefdi keypt af Fridriki konúngi; lètst hann heyrt hafa Gissr biskup vildi fara *visitatiu* ferd til vestfiarda, oc kalladi vel verda at þeir fyndust siálfir, taldi þat ómaksminnst verda meiga í Hrutafyrdi, oc bad hann rita sèr þar um aptr med Olafi Ormssyni er brèfid bar. Gissr biskup var þá kominn á *visitatiu* ferd sína, oc ritadi aptr Jóni biskupi, qvadst hafa fengid brèf hans med Olafi, oc lèt sèr skyldt at halda vináttumál þeirra, enn skilríki fyri Biarnanesi þóttist hann ei hafa svo nær hendi at sinni, at þau mætti fá ádr hann kæmist heimann; qvadst hann mundi, svo giört hafa, at hitta Jón biskup í Hrútafyrdi, ef hann hefdi fyrri vitad, enn nú mætti þat bída hins næsta alþíngis, ef Jóni biskupi sýndist, þá var Jón biskup sextugr at aldri; á ferd þessari trúlofadi Gissr biskup sèr Katrínu, dóttr Hannesar hyrdstióra Eggertssonar oc Gudrúnar Biarnardóttr Gudnasonar, enn at Helgafelli um vetrinn, hinn XIXda Januarii mánadar, gaf hann
1544 Dada bónda Gudmundarsyni stadfestíngar brèf uppá þær qvittanir, sem Ögmundr biskup oc svo siálfr hann, höfdu gèfid Dada fyrri, fyri brot hans vid Gud, biskupana oc heilaga Skálholtskyrkiu, þat framast sem Gissr biskup mætti at lögum, helst um hans qvennamál, oc barneignir med Ingvildi Arnadóttr eda hverri annari, er hann hefdi þar til mátt verda brotlegr med; enn Dadi hét herra Gissuri oc dómkyrkiunni trúr oc hollr at vera, í öllu því er hann mætti; eptir þat fór Gissr biskup í Skálholt, oc

hèldt brúdkaup til Katrínar; enn Gudrún módir hennar Biarnardóttir, oc Gudrún systir hennar, fylgdu henni austr þángad, oc voru þar um vetrinn; enn hinn fiórda sunnudag eptir Páskir, giördist hjónabands skilmáli, í stóru stofunni í Skálhollti, í millum Þorláks Einarssonar, bródr biskups, oc Gudrúnar Hannesdóttr systr Katrinar, med samþycki oc jáyrdi Gudrúnar módr hennar, oc brædra hennar Biarnar oc Biarna; voru hönum talinn L hundrud í frídum peníngum oc frídvyrdtum, enn Gudrúnn ön. r L, oc í þeim tilskiiinn jördinn Gèstseyri í Dalskyrkjusókn, XI hundrud í silfri oc IX hundrud í frídum oc frídvyrdtum peníngum; tilskildi Gudrún, at Gisar biskup styrkti Þorlák, oc veitti hönum nockurt *beneficium*, edr annad slíkt; voru forsagnar vottar skilmálans: Brynjulfr prestr Halldórsson í Odda, Simon prestr Jónsson, Jón Biarnarson er syslu hafdi þar eystra, oc enn fleiri; enn þat hyggia menn at Eggert Hannesson hafi þá ei verid á landi hèr. Simon prestr sá er hèr var gétid, son Jóns raudkolls Hedinssonar, var fyrst kyrkjuprestr í Skálhollti, sídann at Kálfhollti oc í Runa, hans son var Sveinn prófastr í Hollti, fadir meistara Brynjúlfs biskups. Þorlákr Einarsson bió sídann at Nupi í Dyrafyrdi, oc hafdi seinna Isafiardarsyslu; hans son var Gissr at Núpi, er fyrr átti Ragnheidi Pálsdóttr frá Reikhólum enn Sveinn prestr Simonarson; sídann átti Þorlákr Vigdysi dóttr Þórólfs Ejólfssonar frá Engey, þeirra börn voru Jón, Ingvildr, Gudrún, Margrèt, Gunnhildr.

## CXI Cap. Frá Gísla Finnbogasyni.

Gísli hèt prestr oc var Finnbogason; Finnbogi fadir hans ætla eg hellst at verid hafi son Gisla Finnbogasonar hins gamla Jónssonar lánga. Gísli prestr var mikill oc sterkr, hann vó þann mann er Þorarinn hèt, í Bolstadarhlíd, oc var Steindórsson Bergssonar, enn Bergr var frá Dálki Einarssyni, er búid hafdi í Bolstadarhlíd fyrir plágunna fyrri; son Þórarins var Einar, hans synir voru þeir Gudmundr, Jón á Gunnsteinstödum, oc Skúli fadir Þorláks biskups. Jón biskup Arason hèldt prestastefnu at Vídimyri föstudaginn næsta fyrir Jónsmessu baptistæ, oc rádgadist

þar vid presta, hvad þeim syndist giörandi vid Gísla, sagdi hann hafa audmjúklega, med allri hlídni oc sönnu ydrunar yfirbragdi, gèngid undir þær skriptir sem hönum voru settar; fyrir því var þat bædi rád oc bón prestanna, at Jón biskup mætti af gódgyrni sinni oc biskuplegu valdi, dispensera oc ráda í þessu, svo at Gísli prestr kynni at fá aptr heidr sinn oc messusaung, Gudi til dyrdar, enn siálfum hönum oc hans fátæku fólki oc húsi til hiálpar oc atvinnu; vard biskup því samþyckr, oc veitti Gísla leifi til at fremia allt prestslegt embætti, jafnt oc ádr; gaf hann hönum þar uppá opinberliga hönd sína, oc biskuplega blessan; dóttir þess Gísla prests var Gudrún, vid henni gat Gudbrandr biskup Steinunni, enn hennar fèck Skúli son Einars, Þórarinssonar þess er Gísli prestr vo, Steindórsson, þeirra son var Þorlákr biskup.

## CXII Cap. Biarnaness mál oc önnr.

Nú rída menn til alþíngis, oc kom Gisar biskup ei á þíng, þó ritadi hann þángad, oc taldi forföll; þar dæmdi Erlendr lögmadr Þorvardsson um rèttaryrdi; hann dæmdi oc at Nesi í Selvogi um ordid þiófsbarn; þá hafdi farid framm sá giörníngr um vorid, at Magnús prestr Ejólfsson gaf upp arfs tilkall eptir Þorleif bródr sinn, ef hann arfleiddi syni sína Magnús oc Þorkel. Biskupar lögdu bádir undir giörd sex klerka þrætu þeirra um Biarnanes, voru af Jóns biskups hendi Pètr Pálsson ábóti at Múnkaþverá, Helgi ábóti at Þíngeyrum oc Thomas prestr Eyríksson, hann var þá rádsmadr á Hólum; enn af hendi Gissurar biskups Marteinn prestr Einarsson at Stad, hann fylgdi þann tíd stödugliga framm lærdómi Lúthers, Brynjúlfr prestr Halldórsson í Odda, oc Jón prestr Biarnason; var sú ályktan þeirra, at öll bréf oc skilríki beggia biskupanna, skyldu á því ári flytiast framm fyrir konúnginn, oc hans ríkisrád, oc þeir bádir skyldugir at halda þat sem þar yrdi áqvedid; sú ályktan var giör á Þíngvelli, oc svo dómsbrèfit, næsta dag eptir Pètursmessu oc Páls, enn Jón biskup beid ecki þess konúngs-úrskurdar, oc reid um haustid austr í Hornafiörd, á fund vid Gissr biskup, oc tók at sèr Biarnanes, oc eignir þær. Sigurdr blindi var á austfiördum; hann qvad þetta vid biskup:

Margt snyst miög fort,
minnst tón herra Jón!
Er því fuckann ókyrr
um frón, herra Jón?
vildu kóngar vardhöld,
veik sión herra Jón!
skiljid svo mitt skírt mál,
skal bón, herra Jón!

Enn er Gissr biskup spurdi þetta, ritadi hann Jóni biskupi bréf alvarlegt, oc qvad sig undra miög, er hann hafi þannig giört, fyrri enn konúngs dómr oc ríkis rádsins væri til kominn, eptir því sem giördarmenn upp qvádu, oc þeir höfdu ásáttir ordid; létst ei mundi sleppa þeim jördum dóm laust, oc tók nú heldr at grynnast á vináttu þeirra. Laugardaginn fyrstann í vetri, lèt Ari Jónsson dóm gánga at Spialdhaga í Eyafyrdi, um hysingar fátækra manna, vóru fremstir dómamenn: Jón á Svalbardi Magnússon Þorkèllssonar, Einar Brynjúlfsson at Espihóli, Árni í Stóradal Pètrsson Loptssonar, Magnús Brynjúlfsson bródir Einars, þeir dæmdu at hysa skyldi innan-sveitar menn fiórum sinnum á ári, á hveriu bygdu bóli, enn utann-sveitarmenn tvisvar, enn sekir þeir er úthysa fiórum mörkum í dómrof, oc úthysíngar máli; var þá allt flutt eda geck siálft yfir þat er anandt var. Sunnudaginn eptir seldi Sveinn Þorleifsson Ólafi presti Hialltasyni siálfdæmi, fyrir svik er hann hefdi giört í sambúd vid Hallfrídi dóttr hans, enn þau bædi hètu hönum trú. Helga Gudnadóttir gaf Eyríki Torfasyni í Klofa qvittun um penínga skipti fyrir jólinn, vóru þá meir enn XL vetra sídann Torfi bóndi hennar dó. Í þann tíma krafdi Otti Stígsson höfudsmadr lögmenn báda, Erlend oc Þorleif Pálsson, til at dæma um fiskiskip útlendra kaupmanna, er þeir höfdu móti lögum, enn drógu landsmenn til at eiga hlut í, til hylmíngar, sèr; dæmdu lögmenn at hvad skipa sem útlendir ætti þannig, skyldu falla hálft undir konúng enn hálft undir hyrdstiórann, enn Islendíngar haldi því er þeir æiga; þetta kölludu kaupmenn ójöfnud, oc báru fyrir konúng, enn hann skaut því til landslaga. 1545
Lauk svo þeim málum, at hyrdstjórinn lèt dæma konungi fiskiskip þeirra öll, hálfann fimta tug, enn banna þeim vetrarlegu at mestu; sagt er at Danir hafi haldit skipum þeirra í tvö ár eda þriú.

## Cap. CXIII Frá Gissuri biskupi oc ödru.

Jón biskup hafdi mikid jardakaupa bráll í Hólakyrkiujördum, seldi hann LXXXIII jardir, voru þær XV hundrud hundrada LIX hundrud, enn tók aptr í móti LXVI jardir, er voru XIV hundrud hundrada LIII hundrud; ætla menn þó at hann muni hafa viljad láta Hólakyrkiu hafa fullt fyrir, ef hann hefdi til endst. Gissr biskup hafdi visíterad Austfiördu um sumarid, því hann ugdi at trúleik austfyrdínga, reid hann vid X eda XII sveina, hrausta menn oc vel vopnada, lèt fióra halda vörd yfir sèr, oc fara ei af hertyginum fyrri enn allir hinir heldri prestar á Austfiördum höfdu heitid hönum hollustu oc hlídni; enn hafdi ádr sendt undan sér bréf til þeirra oc allra austfyrdínga, oc bodat visítatiu sína, oc bodid þeim öllum at hitta sig á leid er eigi faung á at taka í móti sér, tilsagt einnin öllum at hafa kyrkju reikninga til reidu. Gissr biskup var skörúngr mikill, enn átti þó miög mótdrægt oc erfidt, svo engin Skálhollts biskup hefir átt framar, nema Isleifr er fyrstr var, oc eingir meiru orkad. Fylgdi Gissr fast aftökur hinna fornu sidá, oc fèck af því stóra óvilu oc mótþróa, bædi af meiri oc minni háttar mönnum, er eigi vildu láta af fornum hindrvitnum, enn taka betri sid; vildu þeir sídst afleggia lángar latínu þulr er þeir skildu ecki, tídalestra, mariutídir, föstr áqvednar, vökr oc hríngíngar, er þeir ætludu vera sèr til sáluhiálpar. Kölludu þeir umbreytíngu þessa hina mestu villu, oc þá alla bannsetta villumenn er med fóru, oc slíku framfylgdu, oc lögdu þá sumir hinir gömlu prestarnir af alla messugiörd; fylgdi almúgi allmargr þeirra fótsporum, svó hverugir vildu med nockru móti taka presta þiónustu af hinum lúthersku prestum, IV eda V ár eda lengr. Ei vildu þeir heldr láta læra sonu sína eda vígia til presta, var því hin mesta ekla á prestunum; því biskup fèck fáa er sig vildu þar gèfa til. Sumir höfdu leida á hinum nyu sidunum, enn sumir qvidu vid óvilja oc mótmælum alþídunnar oc árásum stórbocka er hèldu hinn forna sid; fengust nálega engir, nema þeir sem fáa eda enga adstodarmenn áttu; þá tók biskup helst, oc hveria sem hann fèck oc sá hæfiliga til at síngia oc lesa Guds ord fyrir alþídu; neiddist hann til at vígia slíka, oc fá þeim bækr hagligar,

eda predikanir; urdu þeir margir í fyrstu at hafa þriár eda fleiri; hánn vígdi oc til presta sidláta lögréttumenn oc gudhrædda, sem voru Þórdr prestr at Steinsholllti í Hreppum, Þorlákr prestr í Middal, Gudmundr prestr í Arnarbæli, oc enn fleiri. Gissr biskup tók oc at útleggia ritnínguna á íslendska túngu, var þat sem menn vita med vissu Syraks bók oc ordsqvidir Salómons. Gissr biskup hafdi skriptir miög líkar því er hinir fyrri biskupar höfdu; hann setti Þorláki Arngrímssyni skript, er tvisvar barnadi brædrúngu sína, at gánga ecki í kyrkiu, rída ecki nema í naudsyn, vera í kárínu hvern föstudag oc hafa vatn oc brand, oc hardan mat hvern laugardag; vatnfasta fyri Maríumessu hveria oc lesa saltara, bera ei skéföt eda vopn, samlagast ei konu, oc sitia kyrr heima, gánga ecki á samfundi eda dryckiur, taka ecki drottins líkama fyrri enn leifft væri, oc slíkt annad. Enn fyrir því at Gissr biskup lagdi af barnafermíngar, chrisma oc vígslr er hinir fyrri biskupar höfdu framid, þá vildu margir ecki greida hönum biskups tyundir edr adrar skyldr; fyrir því nefndi hann XII menn í dóm at Reykium á Skeydum, midvikudaginn nærstan eptir þrettánda, um þessar tyundir, ógoldnar um nockr ár af sumum mönnum, sökum þörfnunar þess biskupslegs embættis, sem venjulegt hefir verid at fremia af hinum fyrrum. Dæmdu þeir þat oc úrskurdudu, at Gissr biskup væri löglegr oc fullkominn eignarmadr þessara biskups tyunda, oc at hann ætti fullkomna sök vid þá er þeim hafa rángliga án hans vilia haldid, eptir því sem hann fær eannad. Voru þeir dómsmenn, Brynjúlfr prestr Halldórsson er þá var rádsmadr í Skálhollti, Jón prestr Einarsson kyrkiu prestr þar, bródir biskups, Gudmundr prestr Jónsson, Jón prestr Biarnason, Símon prestr Jónsson, Þorkéll prestr Gudmundarson, Þórdr prestr Ólafsson, Höskuldr prestr Kolgrímsson, Jón prestr Pétursson, oc þessir leikmenn, Páll Vígfússon at Hlídarenda, oc Magnúsar tveir Jónssynir, svarnir lögréttumenn. Þat var í þann tíma miög diúpt innrætt hiá mönnum, at prestum oc klerkum öllum væri hardlega bannad at qvongast, undir töpun embættis oc andligs frelsis, enn þó þeir hélldi fridlur, oc stundum hvoria eptir adra berlega, oc öllndu barna med, var ei miög umtalad. Lögdu biskupar ad eins á þá nockrar fésektir oc skriptir vid hvert brot,

oc at lidnum fyrirmæltum útistödu tíma; leifdu þeir þeim at fremja alla prestlega þiénustu; höfdu biskupar opt mikinn fiárplóg med þessum hætti af hinum audugu prestunum; enn Gissur biskup útvegadi í móti slíkum sid bréf Christjáns konúngs, útgèfid á Koldíngshúsi, friádaginn nærstan fyrir *Dominicam oculi*, þar í leifdi konúngr öllum prestum oc klerkum á Islandi at qvongast, oc skyldu þau börn er þeir ætti med eginkonum sínum, vera þeirra löglegir erfingiar. Um vorid, midvikudaginn nærstann eptir krossmessu, lèt Ari Jónsson dóm gánga at Einarstödum í Kraklíngahlíd, um þiófnadar rygti Stígs Jonssonar oc Páls Brandssonar. Ei veit eg víst hvert at er hinn sami dómr sem hann lèt þar XII mann dæma, um XV menn er stórlega voru rygtadir um þiófnad á qviku oc daudu, þó hygg eg þat, oc voru þeir Einar oc Magnús Brynjúlfssynir fyrstir dómsmenn; var þeim dæmdr sjöttar eydr fyri nærstu fardaga, oc er mælt þeir hafi fallid á eydnum allir, oc fengid sumir lífitión enn sumir lima, edr adrar refsíngar. Þá var Eggèrt Hannesson syslumadr í Þorskafiardar þíngi; þar fóthiuggu brædr tveir, Olafr oc Sigmundr Gunnarssynir, Brynjúlf Jónsson. Sumir mæla at gengi nautadaudi undarlegr á Hömrum, — kunnum vèr eigi þar um lióst eda satt at seigia.

## CXIV Cap. Utkoma Otta.

Otti Stígsson hyrdstiéri kom út um sumarid med nockr brèf Christjáns konúngs til Jóns biskups, oc afhendi Byrni presti syni hans, þar var í medal annars konúngs úrskurdr um Biarnanes, útgèfinn á Koldíngshúss sloti mánadaginn eptir *dominicam oculi*, qvadst konúngr hafa sèd oc yfirlesid brèf oc dóma, er biskupar höfdu fyrir fiám Teits Þorleifssonar, oc med því at Jón biskup hafi goldid med gódri reídu Fridriki konúngi födr sínum CCC rinsk gyllini fyri þær jardir, þá skuli hann oc hans erfingiar þeim halda, enn kaupbrèf Ögmundar biskups sè ógyldt um þat fè. Enn fyri því at konúngr fèck sídar at vita, at Jón biskup hefdi fengid fullt af fiám Teits fyrir gyllinin, oc þarmed opt farid í Biarnanes oc tekid þar upp ærid fè, þá veitti hann at nía Biarnanes Brynjúlfi Jónssyni, oc var kallad sem fallid væri undir kon-

ánginn med jördum Ögmundar biskups, enn Brynjólfr kendi þá fiárupptektir þær fyrir konúngi, er Jón biskup hefdi giört, svo at biskupi var gèfid þat at sök sídann. Þess gètr Olafr Thòmassen í vìsum þeim er hann orkti um þá fedga:

Pillta-Brynki, oc prestr einn
píndir öfundar strídi,
þá var Pètr hinn þridji Sveinn,
þessir sigldu um vídi, med ríkann rógin mest.

Þridjudaginn eptir Pétursmessu gaf Gissr biskup ùt á alþíngi, fyrir sig oc sína eptirkomendr, fullkomid qvittunarbréf Dada bónda Gudmundarsyni, fyri fimta barngétnad hans med Ingvildi Arnadóttr, í einföldum hórdómi, oc frændsemis spellum at ödrum oc þridja lid, qvadst hafa leist Dada, oc tekid fulla fésekt fyrir þau bædi, enn bodid presti sínum Byrni Össurarsyni at leisa Ingvildi, oc setia henni mögulegar skriptir, oc stadfesta med þeim hætti allar hinar fyrri qvittanir Dada. Þá var oc umrædt at prestastefnu þar, um naudsyn þá, at Oddr Gottskálksson, er þá bió at ~~Kleifum~~ í Ölvesi, færi um sumarid til Danmarkar, til at láta prenta þær bækr oc postillr, sem hann hafdi lagt ùt á íslendsku, af ödrum túngum, til uppfrædíngar alþídu, oc lidsinnis úngum prestum oc líttlærdum; oc þat vard at hann fór utann. ✝ Reykjum

## CXV Cap. Tilburdir.

At álidnu sumri um engiaslátt féll skrida mikil í Vatnsdal eina nótt, á þeim bæ er Skídastadir heita, þar urdu XIV menn undir, oc bóndinn, sá hét Sæmundr, oc var vel fiáreigandi; fannst ecki í Skridunni þó leitad væri, annad enn hönd Sæmundar bónda sù hin hægri, oc kèndist af því at silfrbaugur var á. Svo var metid sem sù hönd skyldi fá kyrkjuleg, fyrir ölmusugiafir er hùn var tilhöfd. Völlr hliop lángt yfirframm á eyrar, oc er nù kallat at Hnausum, þar er nù bygd, oc heiskapr gódr; hafdi vatnshlaup komid ùr hrauninu oc hrundid framm túni, enn þar vard stöduvatn á sléttlendinu er vatnid nam stadar. Þat er sagt at um vorid fyrir hafi þytr heirst ùr hveriu fialli í annad, frá Reykianesi til Kialarness, oc ætludu menn verid mundi hafa forbodi

sóttar þeirrar er mælt er gengid hafi um haustid, oc framm á vetrinn; oc at í þeirri sótt hafi dáid margt sydra, svo at L líka kæmi til Gardakyrkiu á Alptanasi.

## CXVI Cap. Frá ímsu.

1546 Þessunærst andadist Jón priór Finnbogason lögmanns, er Officialis hafdi verid fyrrum; hans son var Torfi prestr í Saurbæ, er mikil ætt er frákominn. Þá dó einninn Pétr Pálsson ábóti at Þverá er opt er gétid, enn Thómas prestr Eyríksson tók þar vid. Thómas prestr hellt einusinni Mælifell, oc er sagt at á hans dögum hafi þar ordid bardagi nærri gardi. Um sumarid kom út Oddr Gottskálsson, med bækr sínar prentadar, oc ritadi Gissr biskup þat til officialis síns á Vestfiördum, at Gud hefdi géfid eyrindi Odds góda framqvæmd; oc hann hefdi útkomid med postillr sínar prentadar; þat hyggia menn *Corvini postillu*; sagdi biskup at flestir Prestar mætti ecki vera án þeirra, sem ej hefdi ádr skiallega Sermona edr Predikanir framm at bera, oc med því at Gud géfi slíka hiálp oc styrk til at predika sitt heilaga ord, mætti med engu móti lídast lengr papista þulr oc æfintyri, er annadhvert væri mótstædileg gudsordi eda eigi á því bygd. Þá var samþyckt giör á alþingi um ómaga óvarna; enn Gissr biskup fór um vestfiördu um sumarid, oc lagdi svo til vid Magnús prest Eyjólfsson mókolls, at hann feck stadinn Selárdal er hann hafdi haldid, Gisla presti Jónssyni, þeim er opt er gétid, oc átti Christíni systr hans, enn fór siálfr á jörd sína Haga á Bardaströnd; var þar bréf giört um í Haga næsta dag fyrir Maríumessu sídari; þá skar Jón biskup úr ágreiningi, föstudaginn eptir Michialsmessu á milli Olafs prests Hialltasonar, oc Magnúsar bónda Brynjulfssonar, um Laufáskyrkiu ítak í hval á Látra rekum, oc úrskurdadi þat undir kyrkiuna. Isleifr Sigurdarson tók þá Vadlasyslu, hann gaf Eyvind Magnússon qvittann um sektir til konúngsins fyrir blök eda réttaryrdi vid Svein Jónsson, oc qvad hann svarid hafa fyrir sér at hann hefdi ecki vegid Svein; þat var ritad at Hofi á Höfdaströnd sunnudagin eptir Marteinsmessu.

## CXVII Cap. Frá Otta.

Eptir Jón Finnbogason setti Jón biskup yfir Mödruvallaklaustr 1547
Biörn son Gísla Hakonarsonar at Hafgrimstödum, kauplaust, oc var þar þá einginn Prior, stod svo medann Jón biskup lifdi. Fyrir midiann vetr leigdi Christián konúngr valdamönnum Kaupmannahafnar alla tolla oc tekjur af Islandi, gèck þá vid þat hyrdstjórninn frá Otta Stigssyni til Laurusar Múla, er var formadr einn í Kaupmannahöfn. Þó kom Otti Stigsson út um sumarit, því hann gaf handskrift sína Gissuri biskupi á Bessastödum, föstudaginn fyrir Jónsmessu baptistæ, at hann hefdi fèngid af hönum XXX Joachimsdali, fyrir kostnad uppá konúngsbréf þat er leifdi prestum qvonfaung; hann hafdi II skip, oc CC manna vopnadra, oc kom öllum landsmönnum, úr þremr fiórdungum, þeim er undir Skálhollts stipti heyrdu, til at vinna eyda konúngi; eptir þat fór hann alfarinn hèdann. Gissr biskup lèt VI presta dóm gánga þridjudaginn fyrir Pètursmessu oc Páls, um ákæru til Biarna Narfasonar fyrir kyrkiureikníng vestr á Myrum.

## CXVIII Cap. Frá Jóni biskupi.

Jón biskup var þess nú vís ordinn, at konúngr hafdi lènt at nyu Brynjulfi Jónssyni Biarnanes; reid þá Jón biskup med fiölmenni frá Hólum nordr í visitatiu sína, oc þadan til austfiarda allt í Biarnanes, tók hann þar undir sig jardir þær er hann þóttist tilkall til eiga, oc þótti austfyrdíngum hann diarftækr um marga hluti, ef ei voru jafnskiótt látnir til, sem hann oc hans menn qvádu á; hvatti hann oc heldr menn til at hafna hinum nyu sidum, enn halda fast vid hina fornu; um þær mundir reid hann oc í Vatnsfiörd vestr, þar hafdi lengi verid deilt um, hvert *beneficium* væri edr bóndaeign, þar til Stephán biskup nádi hönum til fulls undir kyrkjuna, oc veitti Jóni presti Eyríkssyni; Jón biskup hafdi fiölmenni er hann fór þángad, oc vildi vita hvad Skálhollts biskupar hefdi fyrir stadnum, oc hve fastr mundi fyrir liggia ef á væri leitad; enn Jón prestr Eyríksson var ecki varbúinn vid

hönum, hverki at mannafla nè ölfaungum; oc tók vel vid biskupi; enn er hann hafdi umskygnst, oc síndist ei árædilegt, qvad hann þetta þà er þeir sátu at dryckiu:

Vyrdist mèr Vatnsfiördr
vera svo sem sagdr er,
heidarlega húsadr
horfinn um med grænt torf;
Christín hefir byggt best
oc búit þar vel frú,
hann kalla eg keppinn
er hlotid fengi slíkt slot;

ecki bryddi hann þar á stórmensku sinni, oc skildu þeir Jón prestr vel. Jón biskup vód ecki uppá presta sína edr adra menn med forbod oc stórsakir edr bannfæríngar, sem giört höfdu forveriar hans Olafr oc Gottskálk, heldr linadi opt oc vægdi til, jafnvel í þúngum sökum, þar sem hann átti ecki siálfr sakir, eda menn voru litils máttar oc leitudu vægdar til hans; enn þeir gjördust hönum aptr á móti hlídugir oc handgengnir; enn þeir sem beittu vid hann kappi eda stórmensku, reindu af hönum hina hördustu strídu, sem enn mun heyrast. Þann tíma var Snorri prestr Hiálmsson settr officialis Skálhollts kyrkiu af Gissuri biskupi; hann dæmdi í Lambey, um hiónaband.

## CXIX Cap. Gissr biskup strídir vid hiátrú.

Þá var hèr á landi, oc hafdi lengi verid, oc hellst í Skálhollts biskupsdæmi, hinn mesti átrunadr á helgi Þorláks biskups, bædi med audgum oc snaudum; ef menn kendu nockrs meins eda lidu tión nockud, var þegar heitid á Þorlák biskup, oc til stadar hans (Skálhollts) gaungum eda giöfum, messum eda tídasaungum; ef kyr eda hestr laskadist eda syktiz, var heitid kerti eda þvílíku til at loga fyri Þorláks skríni, ef því batnadi aptr; þá kú vantadi úr haga, var heitid at gèfa Þorláki biskupi kálfinn ef hún fyndist aptr; þóttust siúkir menn fá fulla heilsu ef þeir máttu striúka lófum um Þorláks skrín, er í voru geimdir forkunnar vel príddir helgir dómar, eda bein hans, í Skálhollts kyrkiu; eda um siálfann líkamann, oc sídan um augu sèr, eda hvar hellst sem þeir

báru á sèr meinsemdir; var Þorláks-messa á sumri, er haldinn var í minníngu beina upptöku Þorláks biskups, oc í lög tekinn sídan, talinn medal hinna stærstu hátída; safnadist þá mikill mannfiöldi úr ímsum hèrudum í Skálhollt, med stórum átrúnadi oc áheitum; var þá sem mest vid haft í því at bera Þorláks skrín út, oc í kríngum stadinn oc kyrkiugardinn, med mikilli *processione* og helgigaungu, hríngíngum, vaxliósum brennandi, oc kèrtum, oc fleirum slíkum atvikum; biskup oc allr kennilídr háfdi skrídst hinum bestu messuklædum, gèngu þeir á undann, enn allr mannfiöldi á eptir, med saungum oc talnalestrum; oc þótti þat hin mesta vyrdíng at fá at bera skrínid, oc var kallad ad stydia Þorláks hönd; töldu menn sèr þat fulla synda-qvittun at gánga undir skrínid; var þá hin mesta veitsla haldinn í Skálhollti, oc gáfust þángat stór fè; þótti ærinn naudsyn til at Skálhollts biskup væri þá heima, oc fremdi alla biskups þiónustu siálfr; var þat af því haldinn lögskylda, at biskup færi ei at heimann í visitatiu sína fyrri enn Þorláksmessa væri lidinn; þennan sid tók Gissr biskup af, oc setti Þorláks skrín afsídis í kyrkiu, bannadi mönnum slíkar samkomr, átrùnad oc tídahald, oc lèt ei ná til skrínsins, enn lærleggr var til framm á daga Jóns biskups Vídalíns, er sagt var at væri Þorláks biskups. Af þeim sid er nú var talinn, kom sá upp annar med alþídu, hellst á Austr-Sveitum, er kalladr var Smalabúsreid; var því svo háttad at sérhver smalamadr, karl eda kona, ef svo vel geymdi málnytu á búi, at eckert af henni misti máls framm til Þorláksmessu á sumri, þóttist eiga med siálfskyldu fríun frá allri þiónustu húsbónda síns á Þorláksmessu, oc þar at auki málsmjólk undan bestu kú á búi; giördu þar af osta, grauta eda vellínga, oc ridu sídann, drengir oc stúlkr, um sveitina med smalabú sín, hittust þau hópum saman í ímsum stödum, oc hèldu sèr veitslu, med ímsum ósidum oc íllum látum; þóttist sá rækilegast halda Þorláksmessu, er mest fèck látid; hèldst sá ósídr alla stund á daga Odds biskups Einarsonar. Eigi verdr þat med fám ordum greint, hve mikinn átrúnad menn höfdu í þann tíma á krossinum at Kaldadarnesi í Flóa, sókti þángad múgr oc margmenni, úr öllum sveitum fyrir sunnan land, á krossmessum bádum haust oc vor; var opt fyri því haft mikid ómak, enn stundum vard af manntión, sem þá er Bödvar prestr oc þeir XL samann tyndust af

ofhlödnu skipi, á dögum Stepháns biskups; gáfust þángat stórfé, oc voru giörvar heitgaungr; enn þeir sumir sem voru fyri sunnan Hellisheidi, oc eigi máttu fyrir vanmætti eda forföllum komast lengra enn austr á kamba edr heidarbrún, þá þóttust þeir fá huggun oc heilsubót, ef þeir sáu til Kaldadarness þar er krossinn var. Þetta þótti Gissuri biskupi eigi lìdandi, fyri því reid hann ofann at Kaldadarnesi oc tók ofann krossinn, oc setti afsìdis, enn fyrirbaud alvarlega slík áheit, oc alla dyrdkun; enn þann kross er þar stód sídann, gaf Halldór prestr Jónsson at Stad í Grunnavik, þá hann var rádsmadr í Skálhóllti, at áfysíngu meistara Bryniulfs biskups; enn krossinn er Gissr biskup tók, stód í kórnum til þess er Gisli biskup Jónsson lèt kliúfa hann, oc brenna sídann til ösku, sóktu þó þá hinir gömlu menn eptir spónunum eda öskunni, bundu í knytilskauta, oc báru á sèr.

## CXX Cap. Andlát Gissurar biskups.

Gissr biskup tók sótt í þann tíd er hann fór úr Kaldadarnesi,
1548 eignudu menn þat því at Gud hefdi hefnt þess á hönum er hann tók ofann krossinn, oc lètu ei af átrúnadi sínum; hann lá lengi um vetrinn, oc andadíst á lángaföstu í biskups badstofunni, þar Stephán biskup hafdi andast, fèck hann gott andlát, oc hafdi vit oc mál til hins sídasta; hann klæddist oc sat á biskupsstólnum á medann hann var þiónustadr; oc var jardadr í Skálhollti fyrir framann *studium* edr stúkuna; Gissr var VIII ár biskup í Skálhollti, oc var fertugr at aldri eda lítid meir edr minna er hann deidi; hann var hàr madr vexti oc sterkr, á þann hátt sem födrfrændr hans voru, gladr oc gestrisinn, litilátr oc sídprúdr, hèldt sig vel at mat oc klædum, oc menn sína at vopnum oc tygium; hafdi hann þá opt allmarga med sèr fyrir vareygdarsakir, vard hönum af því kostnadarsamt, oc af utanförum sínum; brædr sína oc frændr hóf hann upp, ef hann sá þá hæfa til; hann var hagr madr oc ydinn, svo þá hann reit ecki, eda las eda útlagdi, eda gegndi málum manna, eda gladdi gesti sína eda vini, smídadi hann nockud; hefir Jón prestr Halldórsson, prófastr í Hytardal, er einna mest hefir samandregit um biskupa, sagt svo, at hann

hafi sèd eptir hann trèflöskr tvær, líkar sleggiuflöskum er af glási eru giörfar, med hálsi oc tinskrúfum, tók tvær merkr hver, oc med stètt at nedann á hveria hlid, mátti þar gánga hánki í gegnum lítill, svo bædi mátti reida þær oc hengia oc setia á bord. Var þat undr hve mikid Gissr biskup hafdi afrekad, oc var mikill mannskadi at hönum frændum hans oc vinum, oc svo öllum landslíd, því at ei vard af yfirgángi Jóns biskups medann Gissr sat uppi, var hann bædi röggsamligr oc hafdi konúngstraust mikid. Þau Katrín Hannesdóttir áttu tvö börn, dóu þau bædi skiótt, oc sögdu menn þau hefdi verid vansköpud; erfdu brædr hans hann, enn Katrín giptist aptr Jóni presti nöckrum austr, áttu þó ei börn samann, gaf hún proventu sína Eggert lögmanni bródr sínum, oc lifdi nær *XXX* vetr eptir Gissr biskup; brædr Gissurar biskups voru Þorlàkr á Nupi er fyrri var gètid; Halldór prestr í Selárdal, hann átti fyrst Margrètu Hannesdóttr systr Katrinar oc Gudrúnar, þeirra son var Biarni prestr í Selárdal, fadir Halldórs prests er gaf upp stadinn vid Pál prófast Biarnarson, oc systkina hans; sídann átti Halldór prestr Ingu dóttr Jóns prests i Gufudal Þorleifssonar Gudmundarsonar undir Felli Andrèssonar, þeirra börn Teitr prestr í Gufudal, Ingibiörg er átti Ásmundr prestr Þormodsson, Margrét oc Halldóra, oc er ætt frá þeim öllum. Jón prestr Einarsson í Reykhollti var hinn þridji bródir Gissurar biskups, hann átti Gudrídi Sigurdardóttr, var þeirra son Bödvar prestr í Reykhollti, þadann er kominn Reykhollts ætt, Arni Einarsson hinn fiórdi, ólst upp med Halldóru abbadys á Kyrkiubæ, oc jók þar ætt sína eystra. Jón prestr Einarsson hinn eldri var laungetinn, hann sat at Stafafelli í Lóni, hans son var Gissr prestr, oc er þadann kyn komid. Oddny Einarsdóttir var systir á Kyrkiubæ. Svó segir Biörn at Skardsá, at Isleifr á Grund hafi dáid VI vetrum fyrri enn Gissr biskup, enn Jón prófastr Halldorsson þrem vetrum, enn rök eru tilleidd at hann hafdi lifat nockru meir enn einum missirum ádr hèr var komid, hefir því þótt líklegt at hann muni á þessum vetri dáit hafa, oc þeir sem Jón prófastr Halldorsson hefir eptir ritad hafi talid hann fyrir átta, sem miög fær skéd audveldlega; segir Jón prófastr svo at hann hafi tekid sótt á Skírdág, enn dáid annan dag páska; fèck Þórunn Grund eptir hann tyutygi hundrud, enn

Hof á Höfdaströnd tyutygi hundrud hafdi hún féngid eptir Rafn; er mælt Isleifr hafi géfid henni hálfa Grund, enn selt hálfa, kærdi til þess helmíngs Ingibjörg systir Isleifs, kona Biarna Torfasónar frá Klofa, formódir Stockseyrar-Biarna oc hennar erfíngiar, enn nádu ecki at heldr.

## CXXI Cap. Frá Jóni biskupí, oc kosníngu Marteins.

Eptir lát Gissurar biskup stód miög tæpt í landi hér hinn nyi sidrinn; var Jóni biskupi skadi at hans fráfalli eigi sídr enn ödrum, því hann dyrfdist vid þat sèr til óheilla; hvattist hann til at hefia sig upp af áföllum þeim er Lùtherslærdómr hafdi fèngid hid fyrra vorid, eda þeir hann efldu, því at Karl keisari hinn ríki, er hinn fimti var med því nafni, oc eg nefni svo fyrir því at hann hefir ríkastr oc vídlendastr komid á þískaland, hafdi sigrad í orustu höfdíngiana á Saxlandi oc Hessalandi, er þann lærdóm vördu, oc fángad þá, enn lagt undir lönd þeirra; enn á adra sídu af afla sínum oc ríki oc frændastyrk vildi Jón biskup nyta tækifærid til at eyda villu Lùthers, er hann kalladi, oc halda landinu undir Páfann; bió hann sig þá þegar til at rída sudr med fiölmenni, á bak páskum, oc kom til Kalmanstúngu, oc lysti því þar yfir, at hann ætladi at skipa öllu í Skálhollts umdæmi, oc fór um Borgarfiörd enn prestar þeir hinir Lùthersku í Skálhollts biskupsdæmi, oc nockrir leikmenn er þeim fylgdu, urdu varir hans fyrirætlana, oc vildu víst ecki verda seinni til at bragdi; hèldu þeir þá samkomu í Skálhollti, undir alþíng siálft, margir lærdir oc leikir, oc vildu kiósa biskup yfir sig, enn urdu ei á eitt sáttir, því þeir sem hnigu heldr til hins forna sidar, kusu Sigurd ábóta í þyckvabæ; þá mælti Gísli prestr Jónsson í Selárdal, at engann vildi hann þann at biskupi hafa, èr eigi legdí af mytr oc bagal, þótti mönnum þat spakmæli þeim er þar voru, oc at hætt mundi flestum vid því at snúast aptr á hinn forna sidinn, ef nockr sá væri kosinn er færi at þeim vana er ádr var; kom þeim þat samann at kiósa Martein prest Einarsson at Stad; hann var frómlundadr madr, framadr vel oc audugr, oc settu hann á biskupsstolinn, var hann all-naudugr, enn lèt þó leidast til; var þá giör XII presta dómr í Skálhollti, næsta dag eptir

Pètursmessu oc Páls, á milli Marteins' biskupsefnis, oc þriggia skilgetinna brædra Gissurar biskups, Jóns, Halldórs oc Þorláks, um hrörnan dómkyrkiunnar oc nidrfall, sem ordid hefdi um þau VIII ár er Gissr biskup hèldt stadinn, oc svo þat fé kyrkiunnar, gull oc silfr, sem fargast hafdi um hans tíd; skodudu þeir kyrkiuna vandlega, oc leitst miög hafa hrörnad, af ágángi vatns oc fúa, oc söknudu margra hluta, í gulli, silfri oc ödru er þeir vissu at til var þá hann tók vid; giördu þeir þann sáttmála, at dómkyrkiann skyldi halda öllum ávöxtum þeim er ordid hefdi á qvikum peníngi, nema þat sem þeir brædr höfdu at sèr tèkid oc á brott haft, hvert sem væri í föstu eda lausu; enn af þeim peníngum öllum sem þar voru heima á Stadnum, oc Gissr biskup hafdi átt, gulli, silfri, klædum oc vadmálum, smiörum, leireptum, vopnum, tygium, oc ödrum hlutum, skyldi dómkyrkiann eignast tvo hluti, enn þeir brædr þridiúng, oc vera þarmed qvittir, oc ákærulausir, um reiknfng dómkyrkiunnar, oc spiöll hennar á dögum Gissurar biskups; hètu þeir at vera kyrkiunni til styrks oc góda, oc biskupsefni þeim, setti electus Skálhollts kyrkiu herra Marteinn innsigli sitt fyrir brèfid, oc svo Giördarmenn; voru þat prestar þessir: Gudmundr Jónsson, Snorri Hiálmsson, Brynjúlfr Halldórsson, Einar Arnason, Magnús Ejólfsson, Gísli Jónsson, Arni Arnórsson í Hytardal, er Marteinn biskups efni skipadi officialem heilagrar Skálhollts kyrkiu medann hann færi utann, Jón Biarnason er hann skipadi rádsmann, Finnr Þorláksson, Kodran Steingrímsson, Snorri Jónsson, oc Höskuldr Steingrímsson. Marteinn biskups-efni skipadi þeim Arna presti til adstodar, medann hann væri á brottu, Pètr Einarsson brødr sinn, oc Dada Gudmundarson mág sinn, fór hann svo utann, oc med hönum Þórdr prestr Marteinsson, vellærdr madr oc veltalandi, oc Þorvardr prestr sem var at Setbergi; vard hann vel reidfara, hitti konúnginn, oc sór hönum trú oc hollustu, oc at hindra oc aftaka páfalegann átrúnad, enn framfylgia tilskipun konúngs. Sigurdr ábóti fór oc utann, oc vildi fá biskups vígslu, þar tók hann hinn nya sid, oc lifdi tvo vetr sídann.

## CXXII Cap. Upphaf Þórdar Gudmundarsonar.

Gudmundr hèt madr, hann bió í Þíngnesi, enn ádr at Deildartúngu í Borgarfyrdi; hann seigia sumir verid hafa í ætt vid

Stephán biskup, oc Erlendsson, enn adrir Gíslason, oc at fadir hans væri son Arnbjarnar Salomonssonar, bródir Gísla prests, födr Jóns prests, födr Gísla prests í Selárdal; Þórdr hèt son Gudmundar, hann var efnilegr madr, hann ólst upp med födr sínum til þess er hann komst í þiónustu ábótans at Helgafelli, eptir þat mannadist hann vel, oc vard rádsmadr þar, oc nú er hèr var komit, bió hann í Þíngnesi, oc var lögrettumadr; hann fèck Jórunnar dóttr Þórdar prests í Hytardal Einarssonar frá Hofstödum Þórólfssonar, oc Þurídar stóru Einarsdóttr, þeirra börn voru Gísli, Gudmundr, Einar oc Ragnhildr, oc verdr sídann gètid vid. Þau missiri er Marteinn biskups-efni fór utann, hafdi Eggert Hannesson syslu í Þorskafiardar þíngi, hann dæmdi at Mosvöllum í Önundarfyrdi um fóthögg Brynjúlfs Sigurdarsonar, oc vard Olafr Gunnarsson útlægr oc fridlaus, enn Sigmundr bródir hans til konúngs náda. Þeir Einarssynir hétu Katrinu eckiu Gissurar biskups fiórdúngs giöf, oc vidbæti í tilgiöf Gissurar biskups; þá giördist Þorbergr son Bessa Hrolfssonar Nicolássonar syslumadr í Vadlaþíngi; hann átti Helgu dóttr Sigurdar Finnbogasonar, systr Isleifs á Grund, þeirra börn voru Sigurdr, Isleifr oc Þorbjörg. Egill á Skardi son Jóns Einarssonar hyggia-menn þá hefdi Hunavatns syslu, hann var hèradsríkr oc áseilinn.

## CXXIII Cap. Frá Jóni biskupi oc Skálholltsför hans.

Þá var öndud Halldóra dóttir Þorleifs Grímssonar à Mödruvöllum, kona Ara er lögmadr hafdi verid, Jónssonar biskups, hún taldi hann jafnann af stórrædum, svo hann sneyddi hià fylgi vid födr sinn um hrìd; enn Jón biskup þóttist nú mest þurfa fylgi sona sinna oc annara vandamanna, er hann tók fast at eldast; sagdi Ari biskup ætti eigi med hversu fraumm færi í Skálhollts umdæmi, enn biskup qvadst þó þar um sysla vilia til hollustu vid páfann, oc af hans valdi, lètst hönum hollr vera skyldi til dauda; slík ord oc önnr fóru milli þeirra fedga vid dryckiu at Hólum eitt qveld, oc skyldu þeir í styttíngi; enn um morgunin eptir kom Helga módir Ara til hans þar hann svaf, oc hèldt á qvenn-skauti; hann spurdi hvad þat skyldi? hún qvadst mundi skauta hönum sem dóttr sinni, þar sem hann taldist undann at

fylgia födr sinum til rèttra màla, med fleirum friu-ordum. Ari létst fara meiga med hönum fyrir ord hennar, þótt hann vissi þat kostadi líf allra þeirra at lyktum; reid hann sídann nordr at Mödrufelli, þar hann bjó, oc var þúngt í skapi. Jón biskup reid til þíngs um sumarid med fiölmenni miklu, oc kom því til vegar med ríki sinu at hinir gömlu prestar sunnanlands, er annadhvert höfdu af yfirvarpi einu nidrlagt hinn forna sidinn, edr oc ecki, samþycktu þat med sumum veraldlegum oc alþídunni, at Jón biskup skyldi vera umsiónarmadr oc administrator Skálhollts biskupsdæmis, var hönum þat oc fálid á hönd af Sigurdi ábóta, ádr hann fór utann; í þeirri ferd bördu biskupsmenn á nockrum mönnum Dada í Snókadal, oc rændu fé hans; oc eptir því valdi er Jón biskup þóttist hafa, skipadi hann Officiales oc embættismenn hvervetna, oc giördi ymislega rádstöfun sem fullkominn umbodsmadr, stundadi hann at hindra utanfór Marteins biskupsefnis, enn féck ei þar at giört, oc reid vid þat nordr aptr; þat hafdi verid kært fyrir konúngi, bædi af konúngs lénsmanni oc Islendíngum sumum, hid fyrra àrid, at Jón biskup hefdi yfirgàng í frammi haft bædi í Biarnaness reid, oc ödrum stórrædum; var þat borid framm at hann hefdi framit óspektir oc fiárupptektir í Biarnanesi, oc svo vid Indrida Kètilsson þeir Ari oc Sigurdr prestr synir Jóns biskup, oc fylgdarmenn þeirra, Olafr prestr Hialltason, Högni prestr, Illhugi prestr Gudmundarson, oc Kètill prestr Hallsson, Þorkéll Olafsson, oc Olafr Thomasson, hann var þá úngr sveinn; þótti Petri biskupi Palladio þat hinn mesti skadi er Olafr prestr Hialtason hefdi svo snúist í síd med Jóni biskupi, enn hann giördist þó allr annar sídann er hann vard siàlfràdr; fyrir þessar sakir sendi Christián konúngr þetta sumar brèf sitt, ùtgèfid à Koldíngs-hùss sloti, til Jóns biskups, oc tilsagdi hönum at koma á sinn fund á hinu sama sumri, oc mæla vid sig siálfr, oc afsaka sig frá þeim áburdi er hann var fyrir ordinn; oc svo at hann fordist eigi slíkt, edr óttist um ferd sina, gaf konúngr hönum traust leidibréf at koma til sín friálslega, oc svo hid sama heim at fara; jafnframmi sendi konúngr annad nádarbréf öllum undirsátum sínum á Islandi, andlegum oc veraldlegum, qvadst hann þarí þat heyrt hafa, at Jón biskup fremdi fermíngar, oc adrar óchristilegar athafnir, à móti hreinu Guds ordi oc Evangélio, oc sinni tilskipun, þarmed yfirfalli þiónustumenn sína þar

á landinn, oc giöri þeim ófrid, á móti sínum vilia, segist konúngr nú hafa ritad hönum at koma á sinn fund à því sumri, oc afsaka sig, oc géfid hönum leidisbréf áleidis oc til baka, enn ef hann væri því óhlídugr, oc kæmi ecki á sinn fund, fyrirbaud konúngr hardlega öllum at veita hönum fylgi oc hiástod à nockurn hátt, enn hver sem reindr yrdi at því, skyldi taka hegníngu, oc fara útlægr af landi; eigi hlíddi Jón biskup þessu bodi konúngs, oc fór hvergi, oc ecki er þess gètid at hann hafi sendt nockra afsökun af sinni hendi, enn giördi heldr þverlega í móti bodi hans; hefir mörgum þótt þat undarlegt, svo vel sem konúngr hafdi farid vid hann einan saman af biskupum, oc svo mikid ofrefli sem vid var at eiga, ef kappi skyldi etja vid svo ríkann konúng, er miklu var meir enn ófært fyrir alla Islendínga, þó eins hugar hefdi verid; ætladi nú Jón biskup at halda almennilega prestastefnu í Skálhollti, oc taka at sèr bædi biskupsdæmid oc stadinn; reid hann fyrir því um sumarid er áleid nordan frá Hólum, oc sudr Kialveg ofann í Biskupstúngr med C menn tygiada eda fleiri; þótti Túngnamönnum ferd þeirra ecki fridsamleg, tóku biskupsmenn hesta nockra fyrir bóndanum í Uthlíd, þordi hann hvergi nærri at koma, oc hèldt sig heima í kyrkjunni, enn sendi konu sína á biskupsfund til at ná aptr hestunum; tókst þà svo illa til at strákar nockrir illgiarnir af fylgdarmönnum biskups tóku hana afsídis, oc naudgudu henni hver at ödrum, svo henni lá vid vitfyrríngu, oc nádi hún ei biskupsfundi; frá því sagdi Andrès Magnússon óskreytinn madr, er heimamadr var þá í Skálhollti, oc sendr hafdi verid at niósna um ferd Jóns biskups, hann var seinna lögrèttumadr, oc bió í Ölvesi; Jón prestr Biarnason rádsmadr í Skálhollti hafdi féngid vitneskiu af ferdum Jóns biskups, oc at hann ætladi at rída á stadinn; hèldt hann niósnum fyrir í öllum áttum, oc frètti af hans ferd er hann kom í bygdina; hann var þá staddr nidri á Hömrum í Grímsnesi, oc giördi þegar ord stadar landsetum, at koma sem skiótast samann í Skálhollti med vopnum oc tygium enn slíkt áttu þá margir bændr í þann tíma; komu þar skiótt samann CCC menn eda fleiri lærdir oc leikir, voru þar oc fyrir Pètr Einarsson oc Dadi Gudmundarson med sveinum sínum adkomandi; Pètr hafdi verid í Danmörku oc þískalandi þá hann var úngr, hann rédi til þess at giöra skansa oc varnir, eptir því formi sem hann

hafdi sèd erlendis, oc hlada vyrki í kyrkiugardinum fyrir nordan búdina, oc bera þángad byssurnar, oc var svo giört; sudr vid smidiu var einnin til varnar búist med boga oc byssr oc annann búnad, oc svo lidinu skipt í þriá flocka, matadist C manna í senn, oc tók hvild eda svefn, eda var búid til varnar þar sem fyrir var mælt, stód svo i V daga. Jón biskup oc hans menn ridu fyrst heim at nordr-túni, oc tiöldudu á forna stödli, þar komu til móts vid hann, Freysteinn prestr í Stafhollti, oc Eyríkr prestr at Gilsbacka, brædr Grímssynir, þeir voru miklir vinir Jóns biskups, oc svo fleiri sunnan-prestar; enn er biskup sá mann-söfnudinn, oc vörn þá er fyrir var í Skálhollti, sendi hann Eyrík prest med bréf oc bod heim til stadarins, þau, at sunnlendíngar væri allir í banni nema þeir gæfi upp stadinn, oc hèldi allt þat er hann vildi á þá leggia; vid þad espudust sunnlendíngar, oc qvádust ei at eins búnir at veita hönum oc hans mönnum mótstödu, heldr högg, sár oc bana ef þeir vildu at sækja; fór prestr med þeim bodum til biskups aptr; hann sendi þá Freystein prest til þeirra, med hinu sama eyrinde, ef sunnan menn vildu heldr skipast vid hans umrædu, því hann var talinn med hinum fremstu prestum fyrir sunnan land. Jón rádsmadr Biarnason svaradi máli hans; qvadst þess búinn at láta leida hann ofann at hrískösti oc stríkia af húd alla, fyrir ótrúleik vid hans rèttann yfirmann Skálhollts biskup, þar sem hann fèll frá hönum í sid med óvin hans Jóni biskupi; þótti Freisteini presti fótr sinn fegurstr at hann slapp ómeiddr oc óhrakinn, oc sagdi biskupi at engin væri annar enn at sunnlendíngar ætludu at veria stadinn, oc berjaz ef at þeim væri sókt, qvad þá hafa valid lid oc allskonar vopn oc varnir; þá þagnadi biskup oc setti dreyrraudan, oc engin mælti þá ord; enn er lítil stund leid, mælti hann at allir menn sínir skyldu tygiast, oc gánga heim sem hvatlegast; þeir giördu svo; enn er þeir komu yfir túngardinn, skutu sunnan menn ór vyrkinu oc kyrkiugardínum sem ákafast, svo biskupsmenn hörfudu aptr til tjalda sinna; enn er þeir höfdu verid þar þriá daga, reid Jón biskup med allt sitt lid á braut frá Skálhollti vid svo búid, oc framdi biskups embætti þar sem hann fór, oc lèt dóma gánga sem hönum sýndist.

## CXXIV Cap. Vidbúnadr Jóns biskups.

Þetta sumar hafdi Jón biskup skipti mikil vid Hollendska oc Enska; var hann vanr at rita Páfanum til Hollands, oc þat hyggia menn at hann hafi þá ritad Karli keisara hinum ífka, oc viljad koma landi undir hann ef hann veitti sèr traust, þó sumir beri þat af hönum; enn brèfinn til páfans fóru med Ulfi Hanssyni, oc var þat á þeim, at med því at erkibiskup var þá engin í Nidarósi til at taka vid Róma-skatti, beiddist Jón biskup at meiga vita hversu hann skyldi med fara, oc annad fleira; hin urdu tekinn á Þískalandi vetri sídar, at því er Biörn at Skardsá segir; enn af því at Jón biskup vildi hverki mykia sig fyrir konúnginum nè láta af stórmensku, sá hann at eigi mundi svo búid duga, oc hugdi því at treysta sèr vináttu-ríkra höfdíngia í ödrum löndum, enn búa á medann sem best um sig siálfann, med yfirgángi innanlands, enn vörnum heima; tók hann þat ród at efla oc giöra vyrki upp frá kyrkiunni á Hólum, oc kalladi slot, þar lèt hann giöra diúpa gröf í kríngum, oc veita í vatni, færa sídann þángad stycki, byssr oc adrar varnir, oc skyldi vera kastali hans, voru þadann giör leynigaung á lopti, í múrinn oc kyrkiunna, oc önnr út af slotinu, svo komast mátti med leynd af stadnum.

## CXXV Cap. Ovingan Jóns biskups oc sona hans vid menn.

Stadarhóll í Saurbæ fór í þann tíma litum; var optast haldinn bónda eign, enn stundum beneficium; er svo sagt at Thómas bóndi Oddsson, bródir Sigurdar í Budardal, enn födrfadir Biarna Oddssonar at Skardi, hafi selt hann Ögmundi biskupi fyrir XXXIV hundrud er hann átti at lúka í kyrkjureikníng, oc þarmed Gilsfiardarmúla med VI kugildum fyrir XXX hundrud, hafi sídann Ögmundr biskup giört Stadarhól beneficium, oc þat haldid sídast Þórdr prestr Olafsson módrfadir Pèturs Ormsonar í Tialdanesi; at hönum fór Biörn prestr son Jóns biskups med fiölmenni; hann hèldt Melstad, oc hafdi prófastsdæmi, enn fylgikona hans var Steinun dóttir Jóns Magnússonar á Svalbardi oc Ragnheidar, Pètrsdóttr Loptssonar, þess er átt hafdi Stadarhól; rak hann Þórd

prest frá Stadarhóli oc setti þar bú sitt, stód þat þar um II ár eda III; hann hafdi þat fyrir sér at Pétr Loptsson hefdi gèfid Steinunni dóttr sinni tilkall til Stadarhóls; vitum vèr ei giörla hvert þetta var ádr enn hèr var tíma komid, edr þat sumar sem Jón biskup fór í Skálhollti; enn af þessum tiltektum oc þvílíkum, urdu þeir Jón biskup oc synir hans óþockadir af mörgum, oc komu þadann frá ýmsar ákærur fyrir konúnginn. Þorleifr Pálsson lögmadr bió þá at Skardi á Skardströnd, á hönum höfdu þeir Jón biskup oc synir hans hina mestu óvild; ætla menn þat til hafa borid, at hann hafdi verid kosinn til lögmanns í stad Ara, enn sumir segia þat oc hafa tilfallid, at Jón biskup hefdi átt laundóttr er Þurídr hèt, er verid hefdi nunna at stad i Reininesi, enn vildi vera siálfrád, enda hafi Solveig abbadys Rafnsdóttir ei viljad halda hana, hafi hún farid vestr til Þorleifs lögmanns, enn ei kann eg sann á því; eigi nennti Þorleifr at standa í ófridi vid þá fedga, var hann oc vid aldr, oc lèt af lögsögninni; tók þá aptr vid henni Ormr son Sturlu Þórdarsonar, hann lèt gánga XII manna dóm um jarda-kæru mál Biarna Narfasonar til Ögmundar biskups, oc dæmdu þeir þat til alþíngis; þann tíma sendi Jón biskup Þorlák prest Hallgrímsson á Stadarbacka med XII menn vestr at Skardi, þó voru þeir XVI alls, oc bad þá handtaka Þorleif oc færa nordr til Hóla; prestr fór meir af ysirvarpi enn til stórræda, oc reid aptr svo búinn, enn Þorleifr hafdi þó ecki karla fyrir; Jóni biskupi þótti ill ferdinn, oc qvad þetta um:

Sendir voru sextán menn,  
sagann er þessi uppi enn;  
ridu þeir heim á ríkann gard,  
rausnar-lítid eyrindid vard,  
höldar segia höfudból þetta heiti Skard.  
Einn fór heiman elli-raumr,  
augnastyrdr, af gialdi naumr,  
aldrei var á orustu frægr,  
ítum þótti ráda-slægr,  
sagt hefir jafnan sína vild í svörunum hægr.

Bisar voru á bænum þriár,
brögnum þótti kátligt fár,
karlmadr engin kom þar út sem kvædid gár.

* * *

Oddvitinn var ecki frekr,
engin þeirra giördist sekr,
hægt er þeim sem heilum vagni heim ad ekr.

Þorleifr qvad oc þetta um varnar lid sitt, oc nefndi þar fyrst til konu sína Steinunni Eyríksdóttir; voru þau þó allakialdan saman því þeim samdi lítt:

Steinunn heitir stoltar qvendi,
stóra tel eg ecki Þóru,
Biörgin Þórs oc bádar Siggr,
bendir vísann tveimr Dísum,
Gunnur fimm eg greini at sönnu,
gèfid er mèr at telia Olöfu,
Þurídi man eg enn Þorlaugu varla,
þagna bad mig píkann Ragna.

Nefnd er þar Þurídr þó önnr meigi vera enn dóttir Jóns biskups; enn þá hyggium vèr verid hafa hina sönnustu sök vid Þorleif at hann hafdi kosid til lögmanns eptir sig, hid fyrra árid, Dada Gudmundarson frænda sinn; er til efna kom, vildi Dadi ecki undirgánga, enn Jón biskup mikill fiandmadr Dada fyrir ímsar sakir, oc fann sèr til hórdóma hans, er sèr hæfdi at refsa, enn hellst sídann hann var einn lidsmanna foríngi í móti hönum í Skálhollti. Ari giördist óvinr Dada fyrir þá sök, at Ormr lögmadr Sturluson, er átti Þorbiörgu dóttr Þorleifs Grímssonar, systir Halldóru er Ari hafdi átta, hafdi vedsett þeim bádum Saudafell í í Middölum, — Ara oc Dada, því Ormr sagdi engum ney, oc var laus í öllum rádum, fyrir því sóktu þeir fedgar meira á Saudafell enn önnr bú Dada. Hafdi oc fleira í milli farid, sem þat er Jón biskup oc menn hans höfdu ádr látid slá menn Dada, oc taka vopn oc fè af, oc VI hesta Dada oc þat er á var, er hann ætladi til þíngskostar sèr, oc var VI vodir vadmála úr kyrkjunni á Þíngvelli, eptir því sem Dadi lysti siálfr seinna.

## CXXVI Cap. Atfarir Jóns biskups vid Dada.

Jón biskup var heima eptir Skálhollts för um hríd, enn um haustid, nær Mikialsmessu, reid hann oc synir hans bádir Ari oc Biörn vestr til Dala med fiölmenni, oc heim á þriá garda Dada, Snóksdal, Hvamm oc Saudafell; höfdu þeir þadan slíkt er þeir nádu, brutu upp hús oc spilltu því er þeir máttu eigi med sèr hafa; eigi fundu þeir Dada, enn budu hönum þó at svara til þeirra saka er þeir báru á hann, hræddu konu hans oc heima menn. Stefndi Jón biskup hönum fyrir sig í Hvamms sveit, mánadagenn eptir Michialsmessu, fyrir VII stórmæli, oc útnefndi XII presta dóm úr bádum biskupsdæmunum, enn ei kom Dadi þar. Sú var hin fyrsta sök at Dadi hefdi sett sig í Officialis vald oc prófasts embætti, veitt beneficia oc siálfr haldid, látid gánga dóm um hiónaskilnad oc önur andleg mál, sem Jóni biskupi, umbodsmanni Skálhóllts biskupsdæmis, heyrdi at giöra oc veita, eptir því valdi sem hann hefdi af páfanum oc kyrkjunnar lögum, einnin samþycki oc útvalníngu hinna eldstu oc ædstu klerka Skálhollts biskupsdæmis, med styrk oc vilia almúgans á alþíngi; þar fyrir var Dadi fallinn í páfans bann, oc allir þeir sem hann hafa hèr til styrkt, oc allir hans dómar oc giörníngar ónytir, nema þeir sem hann hefdi giört med rádi Ögmundar biskups. I annan máta hefdi Dadi vísvitandi giört sitt hiónaband med Gudrúnu Einarsdóttr í opinberum mægdaspellum í þridia oc fiórda lid, oc haft sambúd vid hana í barneignum meir enn um XII ár, fyrir því voru þau bædi dæmd fallin í bann, skyldug at taka lausn oc skriptir, oc sek X mörkum hvert um sig, hálft konúngi enn hálft biskupi til handa, enn hvert þeirra sem med tylftareydi fær synjad at vitad hafi meininn þá hiúskapinn bundu, þá falli þar nidr fèsektinn. Þat var í þridiu grein at Dadi væri opinber at mörgum barneignum med Ingvildi Arnadóttr hálf systrúngu sinni í hórdómi, oc hefdi bædi verid ámyntr oc lofad at skilia vid þá konu oc sömu synd, enn sè þremsinnum oc þó optar ordinn heitrofi oc skriptrofi; fyri þat var hann dæmdr útlægr, skyldr at skilia vid þá konu, oc taka lausn af biskupi siálfum. I fiórda lagi þar sem Dadi var hermanna flocks foríngi í kyrkjugardinum í Skálhollti, oc hindradi þarmed biskupinn oc hans kènnimenn, frá at giöra á almennilegri prestastefnu Guds

embætti í kyrkiunni, vígia hana, börn at ferma, bannsmenn at leysa, christinn líd at leidrétta, oc adra biskups þiónustu at fremja, svo at Skálhollts kyrkia væri fyrir þá sök enn saurug; þarfyrir var Dadi dæmdr fallinn í páfans bann, skyldugr at taka lausn oc skript á þeim tíma oc stad sem Jón biskup tilsetr; allt hans fè fallid undir konúng oc kyrkiunnar vald, oc konúngr oc biskup meiga þat at sèr taka, enn Dadi siálfr sè rètt-tækr undir kyrkiunnar skriptir, ef þat verdr giört mannslagalaust, utann hann verdi fyrri gripinn af konúngsvaldinu, undir dóm oc refsíngu leikmanna. I fimta lagi hefdi Dadi þrifid brèf med hendi oc innsígli Jóns biskups, úr höndum Olafs prests Semíngssonar í kyrkiugardinum í Hvammi, oc rifid í marga hluti svo þat mátti ei lesast, enn þad brèf tilheirdi páfans valdi, oc ætladi biskup at innsenda þat til Rómakyrkiu; hèr fyrir var hann dæmdr í útlegdarmál fallinn, oc allt hans fè hálft undir konúng enn hálft undir kyrkiuna, oc hann engra brèfa nxiótandi verda meiga nema þeirra sem konúngr oc hans ríkisrád finna falslaus vera. I siötta máta kiærdi Jón biskup þat til Dada, at hann hefdi ránglega II hundrud hundrada, eda meira, sem tilheyrdi Skálhollts kyrkiu, var dæmt at þat skyldi skodast á almennilegri presta stefnu Skálhollts biskupsdæmis hinni nærstu, fyrir dómi Jóns biskups, enn um jördina Hvamm í Hvamms-sveit, oc þær jardir sem Jón biskup kærdi at Dadi hefdi undir sig dregid, kom framm prestadómr Skálhollts biskupsdæmis, at Jón biskup skyldi halda Hvammi til laga; var nú sá dómr dæmdr myndugr í öllum greinum; enn adrar jardir sem biskup kærdi at Dadi hefdi undir sig dregid, þá var dæmt at þær skyldi sækiast af Jóni biskupi eda löglegum umbodsmanni Skálhollts kyrkiu, í þeim þíngsóknum er þær jardir liggia. Hid siöunda kærdi biskup til Dada, at hann hefdi haldid jördu sinni Skarfstödum med IX málnytu kúgildum um IX ár eda lengr, í óleifi sínu, var þat dæmt at Dadi skyldi sína lagakaup fyrir þeirri jördu, eda vinna siöttar eyd at því at hann hugdi sèr hana heimila verid hafa; ella gialda biskupi jörd oc kúgildi aptr med landskuld oc laga ávöxtum oc LX merkr í fullrètti hans. Þat frambar Dadi sídar, at þeir fedgar Jón biskup oc Ari hefdi í ferd þessari brotid upp þriú hús í Hvammi, tekid mat oc annad úr, enn spillt sumu, oc er á þat vikid ádr. Ur hrískèstinum, þar menn hans vildu hyrda ímsa hluti, hafi þeir

tekid til XII hundrada, oc margt annad; sídann hafi Jón biskup bodid at leggia eld í hann oc brenna, oc mundi þat framm hafa farid, ef godir menn hefdi eigi lagt til ord sín.

## CXXII Cap. Dómar Orms lögmanns.

Þessi tidindi, oc svo dóminn, ritadi Dadi til Christjáns skrifara, umbodsmanns hyrdstiórans Laurusar Múla, því at hann var þá eigi í landi, oc bad hann koma sèr til verndar siálfann, eda fá þat af Erlendi lögmanni Þorvardssyni, oc hinum vitrustu lögrèttumönnum oc höfdíngium, at ónyta slíka dóma, enn at þridia kosti senda sèr þó verndarbrèf; Christján svaradi því, at eigi var þörf á hans ferd, enn Ormr lögmadr Sturluson ætti þat at annast at skipa lög í lögdæmi sínu medal manna; þá beiddist Dadi þíngs oc laga af Ormi lögmanni sèr til varnar, oc var útnefndr dómr í Hvammi föstudaginn eptir Marteinsmessu um haustid; þar framlagdi Dadi fyrst brèf Christjáns konúngs þridia, útgèfid af hönum á jóladaginn, fyrir VI árum sídann, med því tók konúngrinn Dada, konu hans, börn oc sveina, góds oc garda, undir nàd oc vernd sína, oc bannadi öllum lærdum oc leikum at ónáda hann, edr sína ójöfnud í nockru. Þvínærst brèf Ögmundar biskups, giört med rádi oc samþycki Gissurar biskups, med beggia þeirra innsiglum; stód þar í at þeir veittu hönum Hvamm á medann hann lifdi med öllum hans eignum, föstum oc lausum, er fylgt hafa at fornu oc nyu, oc fylgia eigu med rèttu; þar eptir qvittuna brèf biskupa beggia, Ögmundar oc Gissurar, kyrkjunnar vegna, uppá brot hans; eptir þeim brèfum dæmdi Ormr lögmadr Dada meiga rèttiliga halda alla sína penínga, med fridi oc frelsi fyri hverium manni, hann oc hans menn fridhelga er slíka hluti veria, enn hina ógylda er eptirsækia, oc þar med seka at lögum; enn fyrir sín fyrstu brot tvö med Ingvildi, hafdi Dadi ádr tekid lausn af Olafi prófasti Gudmundarsyni í Hiardarhollti, umbodsmanni biskups, oc Einari presti Snorrasyni á Stad Officiali; hina þridju qvittun sem hèr segir, af Ögmundi biskupi; oc hina fiórdu oc fimtu af Gissuri biskupi. Voru í þessum dómi med Ormi lögmanni, Sigurdr Oddsson í Búdardal bródir Thómasar, Biarni Sum-

arlidason í Fellsenda oc fórir adrir. Þann dóm stadfesti Ormr
1549 lögmadr sídar at nyu, fimtudaginn fyrir Geisladag nærst eptir, heima í Snókadal, med brèfi, oc bannadi öllum at veita Dada nockra áreitíngu til nærsta alþíngis, enn skyldadi alla konúngs eydsvara til at styrkia hann. Slíka dóma bar Dadi á móti Hvammsdómi Jóns biskups, oc stód fast á því at Jón biskup hefdi eckert vald yfir sèr, eda mætti leggia á sig fèsektir.. Galdt hann því hverki, nè fór á hans fund at taka lausn eda skriptir.

## CXXVIII Cap. Jón biskup sendir til Skálhollts.

Jón biskup hafdi þat spurt at Jón prestr Biarnason, rádsmadr í Skálhollti, hefdi orkt hádvísr um veru hans á forna stödli um sumarid, oc kalladi hann af því stödla-skáld; sendi hann eptir Jól tvo menn at nordann, med brèf sín austr til klaustranna, oc til Ejólfs í Dal mágs síns, oc svo fleiri þeirra hinna eldri presta oc vina sinna, tóku sendimenn at hans forlagi, Eyrík prest Grímsson at Gilsbacka, sèr at foríngia; þeir fóru leiniliga sudr Tvídægru, oc svo austr yfir fiöll; oc komú hvergi til bæa, svo at nockr nióסn færi fyrir þeim, fyrr enn í Hrossahaga fyrir ofan Skálhollt, þar ádu þeir hestum sínum, oc giördu rád fyrir at gista um nóttina í Brædratúngu, at Katrínar húsfreiu Torfadóttr frá Klofa; enn er þeir voru ridnir, fór bóndinn frá Hrosshaga ofann í Skálhollt, oc sagdi frá ferdum þeirra; Jón prestr Biarnarson rádsmadr var þá nidri í fialli er hann fèck bodinn, oc kom heim þegar um nóttina, oc sendi, er dagadi, VII menn karska í veg fyrir biskupsmenn, þeir bidu sendimannanna upp hiá Selium, var fundr þeirra þar á ísunum, oc vildu hinir nordlendsku ei verjast, enn Eyríkr prestr hafdi gódann hest vel vakrann, elltu þeir hann lengi, oc vard miög mikid fyrir at ná hönum, svo menn hugdu þá eigi mundi feingid hafa fáng á hönum, ef hann hefdi ridid beint sem horfdi; um sídir nádu þeir hönum, oc höfdu hann oc fylgdarmenn hans heim í Skálhollt, lèt Jón prestr fletta hann klædum, oc fundust brèfinn í barmi hans, hèldu þau öll eitt at Jón biskup bad láta ná stödlaskáldinn, oc senda sèr nordr. Jón prestr spurdi Eyrík prest

hvert hann hefdi eigi svarist undir Skálhollts biskup enn ecki Héla, oc qvad maklegt hann væri híddr; fóru sendimenn þessir vid þat tilbaka, oc þótti þeirra för all-ill.

## CXXIX Cap. Bannfærdr Dadi.

Jón biskup forbodadi Dada þennan vetr, oc bannfærdi hann síd-ann, oc sendi presta sína út oc marga menn adra, bædi vestr í Dali, oc vídar um Skálhollts biskupsdæmi, til at lesa yfir hönum ef þeir mætti oc hans mönnum þau forbod oc bannsbréf, oc giöra sem flestum kunnug; Arni prestr Arnorsson í Hytardal Officialis, var brædrúngr vid Dada, oc var med þeim gód frændsemi oc samheldi í móti fyrirtektum Jóns biskups í Skálhollts biskups-dæmi; hann var farinn á kynnisför um vetrinn í Snóksdal, oc er hann oc Dadi sátu samann, oc mæltust vid, kom at Dada higstí hardr, svo hann undradi, oc ætladi mundi slíta önd af sér; hann mælti: nú em eg þar at ordi sem eg er þó ei at bordi; Arni prestr var haldinn margvís; hann mælti: satt vil eg ydr segia; þér erud nú á ordi nordr á Hólum, oc er Jón biskup nú at bannsíngia ydr; Dadi mælti; þér skulud eiga hiá mér V hundrud, ef þér siáid svo vid at bannsaungr sá hríni ecki á mèr; þat vinn oc ei fyrir nockra peninga at setja mig svo í ved, segir prestr, enn fyrir frændsemis sakir, oc vináttu þeirra, oc innilegrar bænar Dada, qvadst hann vilia giöra þat hann mætti, enn þó gruni sig at bagi nockr muni á eptir koma; sídann gèngu þeir bádir til kyrkiu; læsti Arni prestr Dada þar inni, enn var siálfr úti lengi þar til er hann lauk upp aptr kyrkiunni, kalladi á Dada oc mælti: þar megid þér siá Dadi bóndi! hvad ydr var ætlad; Dadi sá þar trippi vetrgamallt er hann átti, þat hlióp upp eda nidr med á eda læk er þar var, sem ært væri, enn stack sèr at lykt-um ofann í pitt oc drapst. Dadi þackadi Arna presti, oc laun-adi; enn Jóni biskupi gramdist vid Arna prest er hann spurdi þetta, oc hugdi at launa þó seinna yrdi; hafdi Arni slíkt at sök, oc þat er hann fylgdi hinum nya síd, til þess at hann þoldi þær hrakníngar er sídar segir, af Joni biskupi oc sonum hans; þessi er söga Jóns prests Egilssonar, er hann hefir þó af ödrum numid,

oc þeirra er hönum fylgia; mótmælum vér ecki því at Dadi oc Arni prestr, hafi haft geig af banni Jóns biskups, mest fyrir þá sök at Dadi vissi brot á höndum sèr med sèr siálfum, þótt hann væri qvittr at lögum, enn öld sú festi trúnad á mörg hindrvitni, oc Dadi siálfr ei laus vid Páfatrúna; enn bædi vitu menn at bannid var ómerkilegt í siálfu sèr, oc jafnóvitrlegt at fiölkyngi fèngi afstyrt því, oc vitrir menn jafnvel í þá daga hræddust þat aldrei annars vegna enn fiárupptekta, oc annara veraldlegra ókosta er því fylgdu, enda kom þat aldrei nockrum sagnamanni í hug at segia frá því at nockru sinni hafi bannid ært eda deidt skyndilega nockurn þann er bannfærdr var; er oc þá því einfaldlegra at ætla þat hafi komid nidr á trippinu, oc þó rætst á Dada siálfum eptir fráfall Arna prests, sem Jón prestr Egilsson ætlar; vitu menn engin dæmi til slíks, oc eigi skrásett af Páfamönnum siálfum, þó réttr biskup hafi banni líst, enda er þat eigi skynsamlegt at ætla; enn þá er engu líkara at bann þetta hafi þvílíku orkat þar fyrir at Jón biskup var eigi formadr Dada, oc átti vid hann engar sakir, enn Dadi mikla meiri vid þá fedga, oc er undarlegt ef Jón prestr Egilsson hefir trúad slíku.

## CXXX Cap. Jón biskup reid sudr.

Um vorid eptir Páskir spurdi Dadi, at Jón biskup ætlar af rída med fiölmenni vestr í Dali, oc sækia hann heim, oc flytia nordr til Hóla, undir tilhlídilegar skriptir eptir Hamms dómi; safnadi Dadi þá mönnum, oc hèldt heima í Snoksdal, voru þar jafnan frá Páskum, oc framm yfir fardaga LX menn, enn stundum LXXX eda fleiri, röskvir oc tygiadir, á hans kostnad. Jón biskup reid vestr sem hann hafdi ætlad, enn er hann var á leid kominn, spurdi hann at Dadi hafdi vidrbúnad, oc vildi ei hætta á heimsókn vid hann; sneri þá sudr til Borgarfiardar, oc reid heim á Signyarstadi, jörd Dada í Reykhollts-Reykjadal; þar markadi hann sèr IX málnytu kúgildi, enn lysti sinni eign á öllum þeim peníngum er þar stódu samann, hvert sem Dadi átti edr adrir menn, þadan reid Jón biskup, oc hans menn nordr aptr; hyggia sumir menn hann þareptir ridid hafa í Biarnanes í þridja sinni, oc giört þar fiár upptektir, enn adrir ætla hann ei nema tveim sinnum þangad farid hafa.

## CXXXI Cap. Vígdr Marteinn biskup; konúngsbréf.

Nú er at segia frá Marteini Einarssyni, at medan þessu fór framm, var hann vígdr til biskups í Kaupmannahöfn, af Doctor Petri Palladio, oc sem hann hafdi unnid eyd konúnginum, taldi hann fyrir hönum í hverium vanda prestar oc adrir menn á Islandi voru staddir, þeir er hans vilia vildu giöra; gaf þá konúngr þeim öllum ágætt verndarbrèf, oc varnadi þeirra, þar med voru þà send út híngad fleiri brèf Christiáns konúngs, var eitt útgèfid á Koldíngshuss sloti mánadaginn eptir Scolasticæ virginis, þar í giördi konùngr Jón biskup fridlausann oc rèttækann fyrir yfirgáng, oc óhlídni vid sig, enn annad var til Dada Gudmundarsonar, útgèfid á Vebiargasloti, at hann skyldi handtaka Jón biskup oc sonu hans med styrk vina sinna, svo konúngr þyrfti ei at senda her til landsins; vid þat dyrfdist Dadi til at veita þeim fedgum mótstödu, enn Jón biskup treistist þá ei til at rída til þíngs um sumarid. Þann tíma skèdi dómr Þórbergs Bessasonar syslumanns í Eyafyrdi, um málagiöf Þórunnar á Grund, eptir Isleif, á Hallvardsmessu; oc annar um tyundar giöf, á Spialdhaga. Konúngr gaf þá Þórláki Einarssyni, oc Katrínu Hannesdóttr eckju Gissurar biskups, verndarbrèf; oc Biörn prestr biskups son giördi fèskipti milli barna sinna hinna arfleiddu, Jóns, Magnúsar oc Ragnheidar, enn gaf löggiafir Teiti oc Biarna er ei voru arfleiddir, oc fleiri urdu giörníngar.

## CXXXII Cap. Frá Marteini biskupi.

Marteinn biskup kom út um sumarid undir Alþíng, spurdi hann þá giörla allar athafnir Jóns biskups í Skálhollts biskupsdæmi, oc árásir hans vid vini sína oc vandamenn; hugdi oc Jón biskup at útvega Byrni syni sínum þat biskupsdæmi; þá stefndi Marteinn biskup prestastefnu fiölmenna á Þíngvelli, oc auglysti þar embættis brèf sitt, hafdi hann oc vitnisburdi ágæta, frá Pètri biskupi Palladio; nefndi hann XXIV presta í dóm, er voru þessir: Jón prestr Biarnason rádsmadr, Arni prestr Arnorsson í Hytardal Officialis, Einar prestr Arnason í Vallanesi, Bryniúlfr prestr Hall-

dórsson í Odda, Oddr prestr Halldórsson í Gaulveriabæ, Snorri prestr Hiálmsson í Hollti, Gudmundr prestr Jónsson, Gisli prestr Jónsson í Selárdal, Olafr prestr Sveinsson, Snorri prestr Jónsson, Loptr prestr Narfason er sídar var í Gördum oc Hytárdal, Jón prestr Halldórsson, Simon prestr Jónsson í Kálfhollti, Jón prestr Einarsson bródir Gissurar biskups, Finnr prestr Þorláksson, Biörn prestr Olafsson í Runa, Jón prestr Þorleifsson í Hiardarhollti, Olafr prestr Kolbeinsson í Saurbæ, Einar prestr Olafsson í Gördum, Þórdr prestr Pálsson, Stephán prestr Hallkellsson í Laugardælum, Þórdr prestr annar Pálsson, Greipr prestr Jónsson; voru þeir beiddir úr at skéra hve gylda skyldu dómar oc giörníngar Jóns Hólabiskups í Skálhollts stipti, í umreidum hans oc adtektum á kyrkiunnar peníngum, valdsmanna skipun, bannfæríngum, forbodum oc ödru slíku; dæmdu prestar þessir med fullu dóms atqvædi, alla dóma, bréf oc giörnínga Jóns biskups í Skálhollts umdæmi; ónyta oc at engu haldandi, fyrr oc sídar, fyrir utann þat sem hann hefdi mátt vera löglega til bodinn (qvaddr) af réttum Skálhollts kyrkiu umbodsmanni; enn til þessa dyrfdu Martein biskup konúngsbréf þau er ádr er gétid, oc svo huggunarbréf er biskupinn Petr Palladius skrifadi prestum þeim er Guds ordi vildu frammfylgia, oc gódum sidum, oc vera konúnginum trúir.

## CXXXIII Cap. Jón biskup fær Páfabréf.

Nú sá Jón biskup at eigi mundi duga svo búid; hann fèck þúnga óvild til Marteins biskups, bædi fyrir sakir hins nya sidar, oc hellst fyrir þat er hann hafdi utann farid eptir biskups vígslu, enn aptrad þar med kosníngu Biarnar prests, oc þar at auki látid ónyta dóma oc giördir Jóns biskups í Skálhollts biskupsdæmi; oc þessar sakir er hönum var eigi hægt hiá at sneyda, færdu biskupssynir hönum til, enn þat aldreigi er sumir hafa sagt, at hann hafi hlífst vid at straffa Dada, því þar til hafdi hann hverki vald, fyri þeim qvittunum er Dadi hafdi ádr tèkid, ei hèldr tómstund, sem enn mun greint verda, oc ei gáfu þeir frændr Marteini biskupi þat at sök; Marteinn biskup fór af Þíngvelli í Skálhollt, oc skipadi ímsum hlutum sem þurfti, þar oc í syslu

sinni sídann, hvar sem hann fór því næst yfir; þá fór hann til Stadar á Ölduhrygg, oc settist þar at búi sínu, var hann alls ugglaus, oc treysti konúngsbréfum þeim er hann hafdi, oc hylli gódra manna; Jón biskup dyrfdist í annan stad vid bréf eitt, er hann fèck frá Páli páfa hinum þridia med því nafni, útgèfit IXda Martii mánadar um vorid; var þat svar uppá hitt er hann hafdi rítid hid fyrra sumarid, oc hafdi komid út med Ulfi oc Lodvik Hamborgar kaupmönnum; sagdi Páfin svo at hann þackadi hönum allann trúnad, oc hèt hönum sínu traustì oc vináttu, bad hann skipta Pèturs peníngi med fátækum mönnum; enn hin brèfinn er sagt er hann hafi ritad Karli keisara, oc á hafi stadid at hann vildi af ást til fóstrlands síns oc eptirkomenda, koma landinu undan yfirgángi oc ágyrni Dana, oc undir keisarann, kalla menn at tekinn hafi verid á þískalandi; enn þó vinir Jóns biskups hafi borid þetta af hönum, þá hefir hann at vìsu ætlad sèr til nockrs öflugs traušts, svo mikid sem hann fókst á hendr; þó þat væri ecki vænlega rádid, því at Karl keisari hafdi heldr margt at annast til þess at hann fèngi ordid jáfnskiótr at géfa sig vid Islendíngum sem Christián konúngr. Þar er Jón biskup fèck páfabrèfid, stefndi hann prestum sínum saman í Hólakyrkiu, oc bióst hinum besta biskups skrúda, sètti upp mytr oc tók bagal í hönd, géck fyrir há-alltari, oc hóf hendr oc augu til himins, lèt sídann lesa brèfid fyrir klerkunum öllum, er þar stódu umhverfis hann, sem best skryddir, oc er þeim lestri var lokid, oc klerkarnir höfdu gladt sig med hönum, yfir þeirri vyrdíngu er hönum var veitt, giördi hann þackir Gudi oc Páfanum, oc hèt at láta fyrri lífid enn trúnad sinn vid Páfann; lèt sídan skrifa út brèfid, oc votta bera um at rètt væri ritad eptir, oc senda hvervetna til vina sinna, enn snúa á íslendska túngu fyrir almúgann, byrta sídann hvar sem samfundir voru; hann lèt lítid á bera um sumarid, hvad hann hafdi í hyggiu, enn er haustadi, fór hann til Húnavatns syslu at visitera, oc var þat sídst grunad, enn þadann er skèmst sudr í landit; oc med því at vída skiptist folkid í sveitir, svo at nockrir heldu med hinum nya sidnum um sumt, giördi hann sèr þat at eyrindi til prestafundar, er hann stefndi at Þíngeyra klaustri, þó ei miög margmennan, svo sídr skyldi grunad verda; lèt hann dæma um villumenn, er af leggia olean, vígalr oc bannfæríngar, oc vanrækia slíka hluti, enn útbreida villr oc nyungar, hvad vid

þá skuli giöra; enn svo lèt hann haga orda tiltækium, at ei mátti skilia hveria hann meinti hèllst; þótti hönum þat varlegra at hafa dóm fyrir sèr, um þat stórrædi er hann hafdi í hyggiu; var á þvedid sem hann vildi, at slíkir allir væri rètt sekir, oc hafdir í höptum, þartil er tèkid hefdi fulla ydran; enn hann samþyckti siálfr, oc Biörn prestr sonr hans, er prófastr var þar í syslunni, oc officialis.

## CXXXIV Cap. Tekinn Marteinn biskup oc Arni prestr.

Í þessari ferd fèck Jón biskup þann qvitt af niósnar-mönnum sínum, at Marteinn biskup var farinn at visitera í Þórness þíngi, sendi hann þá sonu sína Biörn prest oc Ara med hundrad menn tygiada, at handtaka Martein biskup, Dada í Snóksdal, Arna prest Arnórsson, oc fleiri menn fyrir sunnan land er þeir fedgar höfdu óvild á, oc færa nordr til Hóla; um þá sendiför qvad hann þetta:

Bóndi nockr bar sig ad, biskups veldi styra
því dyra;
enn hönum fòr illa þad,
öllu var hönum betra á Stad, heima at hyra
Bóndi einn Skálhollts bar sig at biskupsstolnum styra
þeim dyra;
villu marga oc vantrú baud,
vox hönum af því sárleg naud, sem skáldinn skyra.
Skyrnar oleum skipar hann af, oa skaparans módr at bidja,
þat þridja,
vatnit bannar vígt at sè
verdr því at spotti oc spè hans aumlig ydia.
Stendr á móti stafkarl einn, styrdr í öllum hætti
oc mætti;
sendi hann sína sonu tvo
at sækia hann, oc fánga svo, nema bóndinn bætti.

Þeir brædr ridu nordan fiöll hit beinasta oc bradasta, oc vissi enginn um ferd þeirra, fyrri enn þeir komu í Hytardal; lètu eigi

fridsamlega, leitudu at Arna presti, enn hann var ei heima; fengu þeir þá nióśn af ferdum hans, enn hann enga af þeim, oc komu þeir at hönum á Stackhamarsfiörum, hafdi hann ridid frá Stad, oc var nískilinn vid Martein biskup; þar tóku þeir hann í tialdi sínu, nakinn eda fáklæddann, oc lèku hann hardt; er mælt þeir hafi reidt hann um þvert bak, sem torfu úr flagi, med mörgu spotti, því hann var þeim baldinn, oc óvæginn í ordum, blótadi þeim oc hardmælti. Þadan ridu þeir til Stadar med flockinn, oc var Marteinn biskup óbúinn at öllu vid slíku ofrefli. Sveinar hans oc heimamenn tóku miöltunnr, kistr, oc hvad sem fá mátti, oc báru fyrir bæar hurdu til at veria þeim inngaungu, enn þat vann ecki, móti afla þeirra brædra; giördu þeir þar Martein biskup handtekinn, oc höfdu í vardhaldi sterku; tók Ari af hönum silfrbúna knífa; biskup sagdi hann skyldi nióta þeirra manna best, qvadst enginn óþocki heita vilja fyrir þá; þeir binggu þar búi biskups, oc hèldu sig ríkmannliga, oc tóku þeim ósparlega er á þeirra fund komu. Þeir höfdu nióśn af Dada, at hann mundi vestr í Rifi, oc ei fiölmennr, hugdu þá at grípa hann sem saud í qví, oc fóru þángat sem skiótast; vard Dadi nauduglega staddr, enn fèck þó nockru pata af för þeirra, hann reid brúnum hesti er Markúsar-brúnn var kalladr, allra hesta bestum, þat var lífhestr hans, oc höfdu þeir hans ei; var þá sagt: þar var Dadi enn á brún sínum. Biskups synir snèru aptr at Stad, oc slóu upp veitslu; oc er þeir sátu at dryckiu oc giördust ölvadir, rædda Nordlendíngar margt um fyrirætlan sína, oc spurdu at hvad fréttist til Dada, oc hvad hann mundi þá hafast at. Jón rebbi var þá sveinn Dada, son Sigurdar bónda Oddssonar í Búdardal, hann var haldinn kiænn, árædinn oc hardfengr, var hann giör til nióśnar um fyrirætlan biskupssona, oc reid Markusar-brún; kom hann til dryckiu at Stad, oc torkèndi sig at búníngi, enn gaf sig lítt framm í almenníng; hann batt hestinn í sundi nockru at húsabaki, gèck til dryckiustofunnar, oc settist ytst vid dyrnar, sem væri sveitarmadr þar; hlíddi hann á tal oc rádagiördir þeirra brædra um hríd, þartil er qvölda tók, enn þá læddist hann út oc til hests síns. Sá var nockr af höfdíngium er saknadi hans skiótt, oc spurdi hver sá mundi vera er setid hafdi vid dyr um daginn; menn qvádust hann ei þeckt hafa; voru þá nockrir sendir út eptir hönum; þeir komu skiótt aptr oc sögdu hann ei finn-

ast, enn madr rídr vakrt ofann eptir holltinu; biskupsynir qvádu vera mundi niósnar mann Dada, oc sendu þegar fióra menn at rída eptir hönum. Stórstraums flód var í Stadará, reid Jón hana á sund, þar sem hann kom at henni í flóanum, var djúpt sudr vid backann, sló hann þá keyrinu um eyru hestinum, enn hann stöck med hann upp á; hinir voru þá komnir at ánni, enn Jón qvaddi þá med kalsi, oc reid veg sinn upp at Hofstödum, sídann inn Kèrlíngarskard oc Skógarströnd oc heim í Snóksdal, fann Dada, oc sagdi hönum þad er hann vissi, enn þeir sneru aptr undir Hafursfelli er hann elltu. Jón bió sídar í Búdardal eptir födr sinn, hans son var Olafr, fadir Haldórs lögmanns. Dadi safnadi þá at sèr hinum hraustustu mönnum; úr öllum Breidafiardardölum, oc ödrum sveitum er hann nádi til, urdu tvennir áttatygi, voru þeir vel búnir at vopnum, oc höfdu sverd oc handska, lagvopn oc axir lángskèptar, byssr oc boga; átti Dadi vopn oc tygi á XXX menn siálfr. Biskups synir ridu Randamelsheidi, oc höfdu med sèr Martein biskup oc Arna prest illa leikinn, oc vildu hitta Dada; hann var heima, oc stódu menn hans vid veggi oc skansa kríngum bæinn í Snókadal er þeir komu at; þótti þeim ecki árennilegt, enda rédi Dadi ei heldr á Nordan-menn; þeir tjölldudu skamt frá Snóksdalstúni, oc sendu Dada heim fríunar brèf, bádu hann sæ?ja Martein biskup oc Arna prest vini sína oc tengdamenn í hendr þeim, qvádu þeim nú meira á liggia, enn þegar hann hefdi verid fyrir hermanna flocki í Skálholti, oc varid þar dómkyrkiuna fyrir födr sínum hid fyrra sumarid. Gudrún Einarsdóttir kona Dada gèck at tjaldi þeirra brædra biskupssona, oc fèck at mæla vid þá, hún bad þá med mörgum fögrum ordum, oc fyrir Jèsú Christi V píslarsár at gèfa Martein biskup bródr sinn lausann, oc á hennar vald, enn þeir tóku því med glensi oc qvádu hana hafa barnaskap. Þadann fóru þeir nordr med Martein biskup oc Arna prest, enn Dadamenn viku eigi fyrri úr stödu sinni, enn þeir voru á brott; þeir komu til Hóla, oc voru Marteinn biskup oc Arni geimdir í sterku vardhaldi, þó Arni prestr miklu hardlegar, því hann var þverbrotinn, oc ei ordvar; þrengdu þeir hönum nidr undir smiörpall, oc beigdu í kufúng, oc fóru vid hann miög óvyrduglega, svo sem segir í vísu Jóns biskups:

Hann vard sídann haldinn midr, heldr tók at kárna
fyrir Arna,
þrengdr undir þverpall nidr,
þá nam bædi brióst oc qvidr, med sídum sárna.

oc enn þetta:

þeir festu uppá hann fúlann kopp, sem fyrr var hafdr á
bordum, hiá skordum

Var þar med enn fleira spott oc hrakníngar er hann leid; var hann í því haldi fióra mánadi eda lengr, lá Jón Gíslason til fóta hönum, kalladr hinn Mariulausi; til þess er kona hans kom nordr til Hóla, oc fêck hönum lausn med fylgi gódra manna, oc lagdi þó ádr ærid út fyrir hann í silfri oc gripum; hlaut hann oc ádr at vinna þeim fedgum eyd sterkan, at vera aldrei á móti þeim sídann, oc þat endti hann. Má þat eigi vera, sem sumir hafa sagt, at hönum hafi mest þraungvad verid fyrir þá sök, at hann hafi eigi viljad vera med er Jón biskup krafdiz hans þiónustu til at bannfæra Dada, því at þat var skêd nær tveimr missirum ádr enn Arni prestr var tekinn, oc hann eigi í Nordrlandi.

## CXXXV Cap. Hald Marteins biskup.

Marteinn biskup var í haldi á Hólum framm eptir Vetrinum, oc var fenginn til gætslu þeim manni er Steinn hêt, lêt Jón biskup hann mála innan sal einn er hann lêt byggia; hann komst eittsinn leinilega af stadnum yfir Hialltadalsá, stefndi sídann uppá Vindárdál, oc vildi komast framm í Skagafiörd; enn er vard vart vid brottför hans, var ridid eptir hönum, nádist hann á dalnum, því hann var illa útbúin at klædum oc skófötum; var fluttr heim aptr sídann, oc hafdr í fastara haldi enn ádr; þar um qvad Jón biskup þetta:

Biskup Marteinn brá sitt tal,
burt hlióp hann frá Steini,
vasadi framm á Vindárdal,
vard hönum þat at meini.

Nockru sídar var Marteinn biskup látinn fara nordr at Mödrufelli til Ara, hann fór vel vid hann, oc hafdi opt med sèr vid öldryckiu, er hann veitti vinum sínum oc gestum; einhverjusinni þá er Ari var ölgladr, oc Marteinn biskup sat vid bordid, drack Ari hönum til, oc qvad stöku þessa hina fornu:

Svo er mér gott oc gledisamt, því veldr þú;
mig lángar út í lundinn med þá jungfrú.

Biskup tók vid bikarnum, oc qvad aptr hina sömu, enn meni nockrum ordum:

Svo er mér illt oc ángrsamt, því veldr þú,
mig lángar ecki í lundinn med þá jungfrú.

Ari þycktist vid þat, oc mælti: burt, burt í seckinn, þetta giördu Eyfyrdíngar ádr; géck Marteinn biskup þá undann bordunum, oc var Ari færri til hans sídann; sat hann í vardhaldi þeirra fedga framm á sumar.

## CXXXVI. Cap. Hrakníng oc utanför Olafs prests.

Olafr prestr Hialtason hafdi jafnann verid í hinni kærustu vináttu vid Jón biskup, hèldt hann þá enn Laufás; hann tók til at banna imsa pápiska hiátrú, áköllun helgra manna, krossagaungr, liósa qveikíngar fyrir líkneskium, oc slíka hluti, kom þetta fyrir Jón biskup, oc vard hann vid þat afarreidr Olafi presti, oc stefndi hönum fyrir sig til prestastefnu. Olafr prestr hafdi fengid nockra skilvísa menn til afsökunar sèr, báru þeir hann undan sökum, oc sögdu hvern mann meiga halda trú fedra sinna, oc fornum sidum fyrir hönum, trúdi Jón biskup þeim mönnum, oc tók ofann höfudklædi sitt, oc þackadi Gudi þat slíkr madr var ei fallinn frá sid forfedra þeirra, skildu þeir þá enn gódir vinir; enn litlu sídar spurdi Jón biskup at Olafr prestr væri sannr at sök, svo at hann fyrirbiódi at ákalla Mariu, Pètr, Pál oc adra helga menn, kalladi þat villu oc hiátrú, oc fleira annat kendi hann slíkt; gramdist nú biskupi vid hann miklu meira enn ádr, oc stefndi

hönum aptr til prestastefnu at Hrafnagili, géck þar málid á Olaf prest, oc vár dæmdr af hönum Laufás stadr, oc prests þiónusta, enn hönum siálfum hrundid út úr kyrkiu svo hardt, at fótr hans festist í gátt, oc laskadist illa, bar hann þat mein til grafar; sídan flúdi hann vid annan mann á fiöll sudr, þar beid hann Þorleifs bónda Grímssonar á Mödruvöllum, er hann reid sudr, oc fór í skióli hans med hönum; hafdi skip stadid uppi um vetrinn í Straumi á Vatnsleysuströnd, oc var þá búid til brottfarar, med því tók Olafr prestr sèr far, oc fór til Danmarkar, fyrstr Islendskra manna á því sumri, kærdi hann fyrir konúnginum hrakninga sína, fyrir sakir Guds ords oc boda konúngs; hann sagdi oc at Marteinn biskup sæti fánginn, oc engum væri vært á landinu þeim er mótfèlli Jóni biskupi.

## CXXXVII Cap. Giörníngar.

Mánadaginn eptir krossmessu um vorid, hèldt Jón biskup prestastefnu á Eyrarlandi; þar giördi hann med samþycki presta, umbreytíngu þá um Núpufell oc Glaumbæ; Núpufell hafdi Gottskálk biskup skipad fyrir beneficium, því hann hèldt þat fallid undir kyrkiuna fyrir forn kyrkiufè, enn Jón biskup tók Núpufell frá kyrkiunni, oc seldi Ara syni sínum fyrir adrar jardir, enn skipadi Glaumbæ fyrir beneficium, oc lagdi til jardir er hann tók fyrir Núpufell, eda verd þeirra, er var Sydriey LX hundrud, oc Ytriey XXX hundrud, bádar í Höskuldstadasókn, Vatnskard XX hundrud, oc XX málnytu kúgildi; hefir Glaumbær verid beneficium sídann, enn Núpufell fèll undir konúnginn, eptir Ara Jónsson. A þeim Missirum var Þormódr son Ara Gudnasonar, bródrson Biarnar í Ögri, syslumadr í Húnavatns þíngi, enn Gudmundr Nicolásson umbodsmadr Þorbergs Bessasonar í Eyafyrdi; hann lèt gánga VI manna dóm at Launguhlíd, um umbod hins óda manns Gríms Jónssonar tvídauda, hann var son Jóns Sturlusonar í Dunhaga, oc Gudnyar Grímsdóttr Pálssonar, enn Magnús son Jóns Magnússonar á Svalbardi átti Elínu systr hans, var því Grímr dæmdr undir umsiá þeirra fedga Jóns oc Magnúsar, skyldi Magnús annast hann, oc hafa VII hundrud, enn Grímr fyrir ættarsakir

oc fær V hundrud til ársmötu, tvö hundrud til gángklæda, oc eitt hundrad til sængrklæda, þat eru XV hundrud á ári; tvo menn skyldi Magnus láta gæta hans, oc hafa stock á höndum hans umnætr enn handariárn um daga. Helgi ábóti lèt þá af þíngeyra klaustri sakir elli oc kránkleika, enn Biörn prestr biskups son annadist þat; hönum hèt þá Ormr lögmadr vináttu sinni, oc at styrkia hann til at koma lögum yfir Dada, enn þat loford vard eigi miög stödugt.

## CXXXVIII Cap: Yfirgángr Jóns biskups oc sona hans.

I þann tíma fiölgudu miög ákærur í móti Jóni biskupi þær er komu fyrir Christián konúng þridia; baud hann þá höfudsmanninum Laurusi Mula at taka Jón biskup; hann ritadi einnin Dada Gudmundarsyni, oc Petri Einarssyni, oc bad þá styrkia hyrdstiórann til slíkra hluta, svo konúngr þyrfti ei at senda her í landid, er ei fengi skèd án þyngsla oc þraungvunar fyrir landsmenn; var brèf þetta útgèfid á Nyuborgar sloti mánadaginn nærstann eptir Pálsmessu. Doctor Pétr Palladius á Siálandi ritadi þá einnin ágætt brèf til Jóns biskups Arasonar, voru þarí mörg merkileg heilrædi oc vidvaranir, vændist hann í því þess, at Jón biskup mætti enn þá nockra líkn fá af konúnginum, ef hann skipti um háttu sína, taldi hönum dæmi Páls postula, er hann ofsókti christna menn af rángri vandlætíngu fyrir Mósislög, oc hafdi þó meiri grundvöll fyrir sèr, enn Páfadomrinn var, sem mest var fólginn í messum oc reglum, enn eigi í kærleika, trú eda sannarlegri myskun; sagdi hönum at Sigurdr ábóti væri horfinn til hinna nyu sidanna, enn Páfinn væri daudr, oc bad Jón biskup eigi hönum treysta; qvad hann siálfann mundi verda undir lok lidinn, ádr þrætu væri lokid um Páfakosnínguna; var þat brèf ritad dominica lætare; ecki hyrdti Jón biskup þessum rádum at fylgia; fèck hann þat at vita at Laurusi Mula, Petri Einarssyni oc Dada, væri bodid af konúngi at taka sig, hugdi hann þá heldr med fullkominni stórmensku at stöckva öllum sínum óvinum, oc þraungva þeirra kosti; reid nú til alþíngis med II hundrud manna eda fleiri, oc synir hans Ari oc Biörn prestr vid hundrad manna hver, höfdu þeir med sèr Martein biskup í þraungu vardhaldi; enn er þeir

komu á þíng, gèck Ari til lögrèttu, hún stód þá í Öxárhólma, oc taldi hyrdstióranum sýslu giald nockurt, at mælt er, í peníngum eda dölum; kastadi þeim at sídustu í nasir hönum, oc bad hann eta; enn þótt hyrdstiórinn væri ecki óbúinn vid, oc hefdi med sèr nockra menn, búna knífum, þá vard hann ei vidlátinn at gegna slíku ofrefli, því Ari hafdi þar á eyrinni fyrir ofann lögrèttuna IV hundrud menn vopnada, edr á fiórda hundradi, sem Olafr Thomasson segir í qvædi sínu, var hann þar med frændum sínum, oc færir þeim þat til ágætis:

Til alþíngis enn þá reid
eydir blárra skialda,
í lögrèttu lagdi leid,
lètst þar mundi gialda, dalina danskri drótt;
kastadi silfri kappinn dýr, kom þat í nasir fliótt
hyrdstiórans, sá hríngatýr hvergi fór þá ódt.

Et þú þat nú örfa þundr!
Ari nam hátt at greina,
hinn rèd skèlfast hríngalundr
þó hefdi marga sveina, oc hèldi hnífum á;
engin þordi ordit eitt aptr gialda þá,
annars hefdi lífid leidt látid búkum frá.

Hundrud þriú og þarmed hálft
höldar stódu í kransi,
á eyrinni fyrir ofan siálft;
öllum var búinn vansi Ara óvinum þá;
búnir allir biörtum geir ef bryddi illu á,
skyldu allir skatnar þeir skeynu í hausinn fá.

Var þá svo mikill yfirgángr Jóns biskups at hann settist í veraldlegt vald; afsetti Orm lögmann, enn skipadi Ara syni sínum lögsögu aptr; treystist þá enginn at mæla móti bodi hans eda banni, sakir mannafla þess er hann hafdi; qvad hann þetta um ferd sína:

Þessi karl á þíngid reid
þá med marga þegna, svo gegna,
öllum þótti hann ellidiarfr
Islandi nærsta þarfr, og mikid megna,

þadann reid Jón biskup í Skálhollt med allann flockinn, oc hafdi med sèr Martein biskup, lèt hann tialda á forna stödli sem fyrrum; Jón prestr Biarnason rádsmadr, oc þeir er med hönum voru, biuggust til varnar, oc vildu ei uppgèfast; sendi þá Jón biskup þeim brèf sín, oc lèt þat fylgia at hann mundi heim at rída, oc láta Martein biskup vera fremstann í flocki til at mæta skotum, ef heimamenn vildu veriast, þeir sinntu því ecki, þartil er Marteinn biskup ritadi þeim heim, bad þá láta lausann stadinn fyrir sína skuld, því hann vissi ei hvad þeir fedgar mundu giöra vid sig, oc med þeim hætti fengu þeir stadinn; svo segir Jón prestr Egilsson, at þiskr madr nockr hafi verid í Skálholtti, sá hafi bodid sig til at skióta Jón biskup er hann ridi heim, ef þeir sindu hönum hvar hann var í flockinum, enn þeir qvádu hann þat ei meiga; hann lètst mundi sína þeim, oc skaut Maríuerluna er sat á kyrkiunni, oc lodnuna á bifukollunni nordr á vidarmannahùsi; enn fyrirmennirnir leifdu hönum þat ei at heldr, þó Jón biskup væri óvinr þeirra; enn er Jón biskup oc synir hans voru komnir heim, oc setstir undir bord, fleigdi Jón prestr Biarnason kyrkiu oc stadar lyklum á bordid, oc qvad Martein biskup nú meiga vidtaka oc siá fyrir öllu siálfann, enn þó rèdist þat af um sídir at Jón prestr var samt rádsmadr; Jón biskup var viku í Skálhollti eda meir, oc framdi þar vígslr oc saunga, barnafermíngar oc lestra, hann vígdi upp aptr Skálhollts kyrkiu alla, taldi hana saurgada oc óhreina af hinum nya sid, oc lèt grafa upp Gissr biskup, oc jarda fyrir útann kyrkiugard, kalladi hann hverki kyrkiuhæfann nè græfann; sídann kalladi hann presta til prestastefnu, oc gèngu hinir eldri prestar margir þegar í sid med hönum, oc töldu hann rèttann umbodsmann Skálhollts biskupsdæmis; dæmdu XII prestar hönum þar Biarnaness eignir, fyrir því at ecki hefdi Teitr mátt afsala sèr þær til annara, þarmed hefdi konúngr úrskurdad Jóni biskupi þær, oc Marteinn biskup afhendt Ara; voru sumir þessir dómsmenn hræddir þar til, því at þeir vissu giörla, at þeir sem í móti skyldu mæla voru óstefndir; voru þar þessir prestar: Bryniólfr Halldórsson, Snorri Hiálmsson, Arni Arnórsson, Freysteinn Grimsson, er allir höfdu verid Officiales, Jón Biarnason rádsmadr, Eiólfr Grímsson dómkyrkiu prestr, Oddr Halldorsson, Gudmundr Jónsson, Eyríkr Grímsson, Þórdr Pálsson, Stephán Hallkélsson oc Olafr Semíngsson; hafdi Jón biskup laga-

form á þessu, er hann lèt Skálhollts umdæmis presta hina göfugustu dæma um slíkt, enn ei Nordlendska. Þorleifr prestr Eyríksson á Melum var Officialis hans þar sydra, enn eigi Marteinn biskup, sem sumir hafa ætlad; enn þar lèt hann Martein biskup eptir í vardhaldi, oc ráda engu. Jón biskup vígdi þár fióra presta á stadnum, alla lítt lærda oc lèt þar eptir, var einn Jón Gíslason hinn Maríulausi er fyrri gètr, hann var fatabúrs piltr á Hólum ádr; enn er Jón biskup hafdi slíkt syslad sem hann vildi, sagdi hann svo: at hann hefdi þá allt Island í valdi sèr, fyrir utan hálfann annan Kotúngsson; hyggia menn hann hafi nefnt heilann Kotúngsson Þorleif Pálsson á Skardi, eda Pál Vígfússon á Hlídarenda, eda þó helldst Petr Einarsson, enn hálfann Kotúngsson kalladi hann Dada, því hönum þótti hann smàættadr; ridu þeir fedgar frá Skálhollti med yfirlæti miklu, sudr til Videyar klaustrs, er Danir höfdu þá undir sig tekid fyrir nockrum árum; þadan rak biskup hyrdstiórann Laurus Mula, oc alla hina dönsku menn á skip út, enn skipadi öllu sem fyrr hafdi verid á dögum ábótanna, oc setti Alexius ábóta yfir klaustrid af nyu, enn vígdi kyrkiuna oc klaustrid; þar um qvad hann þetta:

Víkr hann sèr í Videyarklaustr,
  vída trui' eg hann svamli, hinn gamli,
vid danska var hann diarfr oc hraustr
dreifdi hann þeim á flædar flaustr med brauki oc bramli.

þadann reid hann um Kialarnes oc Borgarfiörd, oc framdi vígslr, fermíngar oc biskupanir; hann kom í Þíngnes til Þordar Gudmundarsonar, hann átti Jórunni dóttr Þordar prests í Hytardal Einarssonar frá Hofstödum Þorólfssonar oc Þurídar stóru Einarsdóttir, oc biskupadi börn hans Gisla, oc Ragnheidi er sídar átti Vigfus Jónsson á Kalastödum; þadan reid hann vestr yfir Hvítá oc út sveitir; þá bió at Snorrastödum í Kolbeinstadahrepp Brandr Einarsson, bródir Marteins biskups, hann var hóglátr, oc skipti sèr lítt um deilr biskupanna, átti hann börn mörg, oc hísti vel jörd sína; var hann at húsastarfi er þeir ridu vestr, oc lèt flytia hnaus úr flagi; ferd biskups oc hans manna bar skiótara at enn Brand vardi, sá hann sèr þá ei færi undann at komast, enn vænti lítils góds af biskups mönnum, sakir frændsemis oc mægda vid

Martein biskup oc Dada; veggia smidrinn rèdi hönum at hafa verka skipti oc klæda vid þann sem flutti ùr flaginu, oc svo giördi hann; í því komu biskupsmenn, voru þeir gèmsmiklir, oc spurdu miög at Brandi, sögdu hann maklegann til hraknínga nockurra edr kúgunar; var þeim sagt hann væri ecki heima, enn þeir tortrygdu, oc vildu giöra þar óspektir. Kona Brands fèck nád fundi biskups, oc bad hann fagrlega grátandi at vægia manni sínum, oc barnahóp; biskup spurdi hana at Brandi, enn hún qvad hann ei heima, oc lètst ei vita hvar hann var; í annan stad kalladi veggia smidrinn hastúdlega at þeim er torfid flutti, svo biskup oc menn hans heyrdu á, bad hann hrada sér, oc láta ei skorta hledslu hnausinn, Brandr fór ei sídr seint oc letilega at verkinu, þar til er hinn hlióp at hönum reiduglega, oc sagdi at sá letíngi svikist hellst um verkid er húsbondi hans væri fiærri staddr, sem hann væri vanr, oc laust hann med moldarvöttunum saurugum gyldann snoppúng á bádar kinnar, med fleirum atvikum samaháttar; Brandr þagdi, oc þoldi þà umvöndun, enn biskups menn hlóu at, oc grunadi ecki; biskup bad þá rída, oc mælti: látid hann vera hann Moldar-Brand; — var hann svo kalladr sídann. Biskup reid til Helgafells, oc giördi þar vígslr, oc setti þar inn ábóta gamlann, Narfa, er verid hafdi fyrir Halldór Tyrfingsson, oc baud hvervetna at halda hinn forna sid; hann bodadi þángad til sín Orm lögmann Sturluson, oc kom hönum til at setia sèr dag, til at dæma um þrætr þeirra Dada um Saudafell, oc stadfesta Hvammsdóm, er Ormr hafdi siálfr rengdann ádr; konúngr hafdi veitt Ormi Múnkaþverár klaustr, enn hann naut þess ecki fyrir ríki Jóns biskups, því hann hèldt þar vid Thomasi ábóta Eyríkssyni; hafdi oc biskup haft allþúngann hug á Ormi, sakir þess er hann var lögmadr; höfdu menn fyrrum, ádr Ari tæki lögsögn, viliad kiósa Þorleif Pálsson, enn Jón biskup unnid þat á er Ari vard lögmadr; enn sídann er Christófor Hvitfeldr hafdi tekid Ögmund biskup, oc Ari treystist ei lögsögn at halda, kusu menn Þorleif; því nærst er vóga yfirgángr Jóns biskups, lèt Þorleifr af, oc vildi kiósa Dada í sinn stad; hönum var líaft í fyrstu, enn sá sig þó um hönd, oc tók Ormr lögsögnina, oc dæmdi í móti Hvammsdómi Jóns biskups; um þær þrætr lètst biskup vilia semia vid Orm, enn Ari kærdi þat til hans, at hann hefdi selt Dada Saudafell þat er hann vedsetti ádr; þeir settu Orm af

lögsögn á þíngi, enn Ara í hana aptr, enn þó nefndi Ari sig eigi lögmann; vildi nú Jón biskup at Ormr, er þá hafdi syslu í Þornessþíngi, rengdi lögmannsdóm sinn siálfs, því hann hefdi eigi verid til lögmanns fallinn, enn stadfesti Hvammsdóm, oc allar sektir Dada, oc neytti þartil hjól-lyndis Orms; sídann reid hann frá Helgafelli oc nordr um; er ei gétid þess hvad til hafi borid, er hann rèdist ei á Saudafell, þar sem þat var í vegi hans; kom hann svo til Hóla; þar um qvad hann þetta:

Nú er hann kominn til Hóla heim
hægr í sínu sinni, eg inni;
órdinn er hann af elli móddr;
aldrei trui' eg hann verdi hræddr; þó liódinn lini.

Ari mælti þat opt, at þat vissi hann, at fadir hans giördi eigi rètt, enn qvadst þó ei vilia vid hann skilia í elli hans.

## CXXXIV Cap. Frá biskupssonum oc Gisla presti.

Eptir þetta lèt Jón biskup sonu sína Ara oc Biörn prest rita Joanni Friis Cancellera konúngsins; þat rit var giört at Hólum á Laurentii messudag; töldu þeir þar cancelleranum at þeir væri rægdir oc affluttir, qvádust rèttilega hafa fángat Martein biskup eptir dómi, fyrir þat hann hafi logid um biskups kosníngu sína, þar sem hann hafi þó ecki verid kosinn nema af VI eda VIII prestum, þar med hafi hann ónytt dóma oc giörnínga Jóns biskups; Laurus Múla qvádu þeir fara framm órádvandlega, oc hafa notid konúngsins eins at í því, at Islendíngar hefdi ecki drepid hann. Petr Einarsson, Bryniúlf Jónsson í Biarnanesi, Gunnlaug Arnason Múnk, oc Olaf Hialltason, kölludu þeir hlaupid hafa af landinu, fyrir vond ord, þiófnad oc gudlöstun; Gunnlaugr hafdi verid at Helgafelli, oc óskad af konúngi, at þar yrdi skóli settr í stad klaustursins; ritadi konúngr þar um Laurusi Múla oc Marteini biskupi, enn þat vard þó ei framgèngt; lètust þeir vilia halda öll bod konúnga, oc fylgia hans tilskipan, enn beiddust at sá væri til biskups tekinn í Skálhollti, er allr almúgi samþycktist á al-

þíngi; enn brèf þar uppá skyldi verda leyst med svo miklum peníngum af þeirra hendi, sem Cancelleranum vel hugnadi; var þetta fyrir þá sök þannin lagad, at Jón biskup treysti sèr til med ríki sínu, ef hann fengi unnid Cancelleranu, at koma Byrni syni sínum til biskupsdóms í Skálhollti; enn í ödru lagi voru þeir þess vísir ordnir, at Christiàn konúngr hafdi med öllu afsett Jón biskup, oc bodid at kiósa Gisla prest Jónsson ì Selárdal, eda nockurn annan er hans bodum vildi framfylgia, oc senda til Kaupmannahafnar, til at vinna konúngi eyd, oc taka biskupsvígslu, fyrir þá sök hafdi Jón biskup þúngann hug á Gisla presti, oc svo þat er hann hafdi kosid Martein til biskups, enn ecki Biörn biskupsson, eda nockurn af hinum forna sid, oc þarmed lagst í móti giörníngum Jóns biskups fyrir sunnan; lèt hann nú Jón prest Matthiasson hinn svenska, á Breidábolstad, dikta oc samsetia eptir sinni fyrirsögn, bannfæríngar-brèf yfir Gisla presti, fyrir hiónaband hans med Christínu Eiólfsdóttr, oc fylgi vid hinn nya sid, oc sendi Gisla presti; hann rèdist þá um vid konu sína, oc spurdi hvert hún vildi heldr vita sig hèr á landi, undir ánaud oc yfirgángi Jóns biskups oc sona hans, edr utanlands í frelsi med gódum vinum; hún bad hann fara utann í Drottins nafni, hversu sem um sig yrdi; oc þat giördi hann; enn litlu sídar sendi Jón biskup Biörn prest son sinn vestr á sveitir, med menn marga; hann kom til Selárdals viku eptir utsiglingu Gisla prests, oc stefndi prestum samann, oc lét dæma af Gisla prestskap, stad, oc alla aleigu hans. Sídann rak hann Christinu á brott frá Selárdal, snauda, med börnum þeirra; fóru þau til Magnúsar prests bródr hennar í Haga, oc voru þar medann Gisli prestr var utann.

## CXL Cap. Saudafells för.

Nú hugdi Jón biskup at eiga Dada Gudmundarson ei lengr yfir höfdi sèr, þar sem konúngr hefdi umbodid hönum at taka sig, enn hann hefdi þó ærnar sakir; vildi hann verda fyrri til at bragdi at taka hann, oc láta lög yfir hann gánga; fyrir því reid hann at nordann nær Michialsmessu, oc synir hans Ari oc Biörn med hönum, þeir höfdu XC manna; hugdist hann meiga auka lid sitt á sudrlandi, oc sendi ord Borgfyrdíngum. Helga fylgikona

hans áfrèdi hönum þeirri för, qvad hann enga hamíngiu sækia mundi vestr þángat at því sinni, enn hann lèt sem hann heyrdi eigi slíkt, oc treysti afla sinum; hann qvad um þá ferd, oc sneyddi til Dada oc fylgikonu hans:

Geitar hvanna grunn rót
galar hátt í Snókadal
heyrdust hennar heimsk-ord
hörd allt í Eyafiörd;
þoldu ecki þegnar vel
þetta hrópid Dala-glóp,
foru af stad med fiölda her
oc fengu med sèr margann dreng.

Var þat nú fyrirætlan þeirra fedga, at giöra upptæka alla penínga Dada, qvika oc dauda, fasta oc lausa, til handa konúngi oc kyrkiu, enn Ari þóttist eiga Saudafell; ridu þeir nú vestr at Saudafelli; þar komu til lids vid þá Borgfyrdíngar, vinir Jóns biskups, Freysteinn prestr Grímsson í Stafhollti oc Jón Jónsson í Bæ syslumadr, med XXX eda XL manna, þó var för þeirra giör, meir til fylgdar enn stórræda; segir Biörn at Skardsá, at Dadi hafi komid til fundar vid þá þángad med LXXX manna, oc bodid sættir, sagt svo at þeir skyldu eiga qvittar allar fiárupptektir fyrir sèr, oc þarmed eitt hundrad hundrada, ef þeir færi á braut oc lètu eigi aukast vandrædi; hafi Ari þá mælt: nú er vel bodid fadir minn! enn biskup svarad: ertu nú hræddr? frændi! Nei, herra! sagdi hann, enn um fleira er at hugsa enn ákèfd eina; þá hafi Dadi svo sagt: ef þèr viljid ei þessum bodum taka, skulud þèr siá mig oc pillta mína hèr á Saudafelli innann skams, oc ridid sídann; þá hafi Ari mælt, at sèr þætti lid þeirra eigi margt af þeirra siálfra mönnum, oc lítt duganlegt, oc kallat rád at snúa frá at svostöddu, eda senda sem skiótast nordr eptir fleirum mönnum, enn biskup eigi viliad hlída því, oc kallad at Borgfyrdíngar sínir mundu duga lengi vel; svo at af hverugu vard.

## CXLI Cap. Frásögn Magnúsar Biarnarsonar oc Orms.

Svo segir Magnus Biarnarson í æfi Jóns biskups födrfödr sins, at Ormr Sturluson hafi sett þíng í Snókadal milli þeirra Jóns

biskups oc Dada, enn gètr þess ei hvert til dóma hafi komid; eigi gat Dadi þess þíngs edr adrir í frammburdi sínum seinna; þó hefir Ormr siálfr svoleidis ritat, at Jón biskup oc synir hans Biörn prestr oc Ari, hafi kært fyrir sèr, þat Dadi Gudmundarson hafi med ofríki sett sig inn í kyrkiunnar vald, oc þeir eigi komit lögum yfir hann, hafi svo kyrkiann oc konúngrinn mist rèttar síns; því þeir hafi fyrir sèr lyst, at konúngr ætti hálfa penínga hans, enn kyrkiann hálfa, eptir Hvammsdómi sem Dadi vildi eigi halda; sagdi hann þá fedga hafa krafid sig at Helgafelli, konúngdómsins vegna, at láta lög þar um gánga, oc setia þíng at Saudafelli, oc heitid siálfir, med hendi oc munni, at svara þar þeim sem vid þá vildu lög eiga; qvadst hann fyrir því hafa látid bod upp skèra, oc þíng stefna at Saudafelli, oc skyldu þar hvertveggi koma med öll próf sín oc skiöl, enn er þeir voru at Saudafelli, oc hann vildi þar lögum fara framm, hafi sèr þat eigi gagnast, því Dadi Gudmundarson hafi í allann stad afsagt, at þar skyldi nockurt þíng framm fara á þeim degi; hafi þá Jón biskup gengid til sín oc sagt sig leggia lög oc dóm fyri sig oc sína menn, oc lyst sig undir konúngsins nád oc fridi, enn bedid Orm lögmann gèfa sèr oc sínum mönnum grid konúngsins vegna, þartil er lög gengi um mál þeirra; hann qvedst svo giört hafa sem hann hefdi framast mátt at lögum, oc bannadi öllum mönnum at vekja þar víg eda vandrædi, enn Dadi eigi viliad hlída því, heldr skipad sèr frá kyrkiudyrum, gengid at kyrkiunni med hermönnum, þar Jón biskup oc synir hans voru, sèr til fridar oc grida, oc bodid at slá oc skióta á þá, oc sídann hafi þeir oc hann svo giört, á móti kyrkiu fridi oc landsins lögum; med því fleiru er hann hefir þar um talid. Enn af slíkri frásögn er audsèd, at þíng hefir átt at halda, at forlagi biskups, eptir því sem þeir Ormr höfdu samid med sèr, oc þó at Saudafelli, enn ecki í Snókadal, því biskup ætladi at láta Orm lögmann taka upp hálft fè Dada konúngsins vegna, — enn taka siálfr vegna kyrkjunnar; sá Dadi at því mundi Ormr þá fylgia, oc þótti því einsætt at veria aleigu sína, oc þarmed frelsi sitt oc sinna, er þá átti at svipta hann.

## CXLII Cap. Bardagi at Saudafelli.

Þat er at segia frá Dada, at hann safnadi at sèr hinum röskvastu mönnum er hann mátti fá, oc hann ætladi sèr tryggvasta

til fylgdar, voru þeir LXXX samann, vel búnir at vopnum oc tygium, enn sumir seigia C, þar voru med skyttr nockrar; hann giördi þat samband vid þá, at hann hèt at annast börn þeirra oc ómegd sem bana fengi, enn græda þá á sinn kost er sârir yrdi, oc veita þeim öllum oc þeirra þá lidsemd er hann mætti, oc þeir þyrfti vid á medann þeir lifdi. Hann sendi einnin undan sèr til Saudafells, oc lèt þar lesa brèf þetta: "Gud gèfi ydr «góda oc christilega stadfestu, í öllum naudsynium, erlegir dánd«ismenn, lærdir oc leikir! sem nú erud samann komnir at Sauda«felli í Breidafiardardölum, oc heimilisfastir erud hèr í Skálhollts «stipti; ydr vil eg kunnugt sé, at eg berst fyrir at rída á mína «eign Saudafell í dag, at forfallalausu, med Guds tilsiá, því er «þat mín bón oc rád, at þèr sláid ydr ei til nockurs fylgis edr «lidsinnis, med biskupi Jóni Arasyni oc hans fylgiurum, því full«komliga skal eg þángad minna húsa oc heimiliskynna vitia, «med öllum þeim styrk oc manndómi sem minn skapari vill mèr «þartil veita; þurfid þèr hèr eigi í at efast; oc fyrir því at ydr «megi mín skrásett ord trúlig vyrdast, þrycki eg mitt innsigli á «þetta pappírsblad, skrifad í Snóksdal nú í morgun; hèr med ydr «Guds nád befalandi.» Sídann reid Dadi frá Snóksdal med allann flock sinn, fimtudaginn nærstann eptir Michialsmessu, sem var annar Octobris mánadar, oc stefndi til Saudafells; þoka var á, oc dimmvidri, oc lèt hann menn sína hafa sídhempr gráar oc illa litar, samlitar þokunnni, svo margar sem fengust, oc tvímenna sem flesta, svo þeir syndust færri, enn frá Saudafelli er at siá framann á fáng manni, er frá Snóksdal rídr; enn er þeir komu upp á teiginn fyrir nedann Hamraenda, tók Dadi at reina lid sitt af nyu, oc bad þá eina fylgia sér sem fullhuga væri, oc búnir vid öllu því er at kæmi, enn hina aptr hverfa; snèri þá einn aptr, landseti hanns Jón á Hördubóli, er kalladr var hinn sterki, oc var allra manna sterkastr, launsonr Olafs prófasts Gudmundarsonar í Hiardarhollti, enn hálfbródir Jóns á Svarfhóli systrsonar Dada; hann var fadir Steingríms prests at Raudamel, oc þreifst aldrei sídann vel, oc var óþockadr af mörgum, oc eigi voru nidjar hans hamíngiusamir, þó þeir væri drengilegir synum, svo sem voru synir Steingríms prests, Jón er atgiörvismadr var mikill, oc Petr manna sterkastr, enn þó vesælir miög. Dadi reid med flockinn upp at Tungu-á, vard lítt vart vid ferd hans fyrri enn

hann kom fyrir fellsendann, at bænum á Saudafelli, oc reid diarflega heim; biskups synir Ari oc Biörn prestr gengu med sína menn á móti hönum, enn sneru þó aptr, er þeir sáu eckert vard hikat, reid hann þá med sína menn heim á túnid, oc tók þar stödu á hóli einum litlum er Kötluhóll heitir, þar lèt hann þá suma stínga hnausa oc hlada gard undir bisar sínar; biskupsmenn voru oc útbúnir med bisar, sverd oc handska, oc stódu sumir vid stadinn hiá sydri bæardyrum; Ari oc nockrir menn med hönum fóru uppá húsinn, oc sottu byssr á Dada oc hans menn; Biörn prestr kalladi þá til Dada oc mælti: þêr er best at fara heim aptr oc binda inn nautinn; Dadi mælti: yckr er best, Jón biskup oc Sira Biörn, at hafa yckr braut hèdann, því eg vil fullkomlega hafa minn stad, hùs oc heimili, hèr at Saudafelli, friálslega fyrir mig oc menn mína, ádr dagrinn sè úti; Biörn prestr svarar: svei þér, oc far þú heim aptr, eckert áttu í Saudafelli, oc aldrei skalt þú at því eigandi verda. Þá mælti Dadi til Orms Sturlusonar, er þar var vid staddr; at hann skyldi þà, ef hann væri dugandi madr, segia uppá sannindi sín hreinlega, hvert hann hefdi nockrum manni selt eda vedsett Saudafell ödrum enn sèr, oc ef hann hefdi selt þat þeim brædrum. Ormr neytadi því þverlega at þeim hefdi selt, enn medkèndist kaupgiörning sinn vid Dada. Biörn prestr kalladi þá aptr til Dada, oc qvad hann aldrei skyldi Saudafells niótandi verdá; sveiadi hönum þremsinnum, oc mælti sídann; veitstu ecki fiandans strákrinn! hversu þú ert gètinn? Þá mælti Ari: þèr er best Dadi! at fara heim aptr, því annars verda hèr æfintyri med os í dag; Dadi mælti: ydr er best Ari bóndi! at hafa ydr brott af stadnum, oc skulud þèr fara meiga friálsir oc óhindradir fyrir mèr oc mínum mönnum, hvert þèr viljid, oc þeir dáudismenn allir oc dugandi sveinar sem hèr eru med Jóni biskupi oc yckr brædrum. Taladi Dadi þá opinberlega til allra, at hann vildi enga óhlutvendni edr árás giöra nockrum þeim sem frá gengi, oc ei fyllti flock þann, at ræna síg fè sínu oc faunguni; bad menn hugsa um hvad eptir kæmi, oc létst fullkomlega hafa vilia stadinn ádr dagr þryti; enn Jón biskup oc Biörn prestr skyldu ei fara þadann óhindradir, nema þeir gángi at þeim bodum hans, at fara viliuglega á brott, oc gèfa sèr oc sínum mönnum dag, oc svo hverir ödrum, til næsta alþíngis at sumri, oc settist þeir þá lög vid, um allt, er hverir meigu til annars kæra,

Hefir Dadi svo sagt, at hann hafi bodid þau bod þrisvar eda optar. Þá kalladi Biörn prestr aptr oc mælti: svei þèr Dadi! óbóckastrákrinn! ecki ertu þess verdugr at þèr sè dagr gèfinn. Sumir seigia Dadi hafi kallad af hólnum til Ara, oc bodid þeim fedgum I hundrad hundrada fyrir allt fè sitt, ef þat mætti í fridi vera; hafi Ari borid þau bod födr sínum, enn hann ei viliad taka þeim; þá hafi Dadi bodid II hundrud hundrada, oc Ari þá sagt at því bodi skyldi hann taka, ef hann mætti ráda, enn Biörn prestr svarad, at eigi mætti minna koma fyrir fridkaupid, enn III hundrud hundrada, svo at sitt hundrad hundrada hafi hverr þeirra fedga; enn þat mun vera sannara sem Dadi hefir frágreint siálfr, os sannar hann eigi þessa sögn. Þá veik Dadi oc þeir sem med hönum voru, bak vid þá sem hlódu gardinn undir bissr hans, oc bad þá verda búna sem skiótast; komu þar Borgfyrdíngar til tals vid hann, oc fleiri menn er fylltu flock Jóns biskups, enn eigi voru rádnir til at beriast. Sá þá Jón biskup oc synir hans, oc menn þeirra, at þeir höfdu eigi jafnlidad, er Sunnlendíngar XXX eda XL vildi eigi fylgia þeim til stórræda; geck biskup til kyrkiu oc synir hans oc fleiri menn þeirra, oc færdu byssr sínar oc varnir á kyrkiugardinn, oc tópt litla þar hiá, oc biugguzt fyrir í gardinum, enn hann var vídr, oc illr til vígis. Stódu þeir þètt samann fyrir kyrkiudyrunum med lagvópn, axir lángskèftar, sverd brugdinn, oc hanska. Gísli prestr Finnbogason er fyrri er gètid at vegid hafdi Þórarinn Steindórsson, var þar med Jóni biskupi, hann setti byssr á Dada oc hans menn, oc fleiri med hönum, ádr þeir Dadi viku á bak vid gardinn, segia sumir menn hann hafi bodid Jóni biskupi at skióta Dada, lètst kènna hann, med rauda fiödr í hatti, oc hafi biskup ei viliad; enn þat er eigi miög samqvæmt því er Gísli mælti vid Dada; því þá er gardrinn var upphladinn, kom Dadi aptr heim á hólinn; setti Gísli prestr oc nordanmenn á þá byssurnar aptr; Dadi kalladi til hans, oc spurdi hvad hann hèti, hann qvadst Gísli heita oc vera Finnbogason, oc giöra slíkt at skipan Jóns biskups húsbónda síns, lèt ei Dada mundi víta sig fyrir þat; Dadi mælti: þat er vel fyrst þat er hans skipan. Hann lèt þá eptir hiá byssunum nær XXX sinna er ótygiadir voru, enn gèck heim med hinum örugguztu, er bezt voru búnir; fór hann siálfr vid nockra menn fyrir sunnan kyrkiuna, enn hinir fyrir nordann kyrkiugardinn. Hlupu

þeir yfir hann med skyndíngu inn á biskupsmenn, svo þeir hrucku undann framm fyrir kyrkiunna; enn er Dadi kom framm fyrir vegginn sunnan stód Ari fyrir kyrkiudyrum med steytta byssu oc setti á Dada, þótti mestr veidr í hönum; þat sá einn af mönnum Dada, hlióp framm oc laust undir byssuna med spióti lángskèptu, svo hun hlióp af fyrir ofann höfud Dada, enn Ari fèck skeynu á hökuna, svo sprack fyrir; hann mælti þá: þat hefir lengi verid mark mitt sylt. I því skaut þiskr madr til Dada, oc flaug kúlann hjá kinn hönum; Dada vard skapbrádt, oc bad menn sína gánga at í fiandans nafni. Bárust þá miög sár oc áverkar á biskupsmenn, svo þeir hrucku undan, enn Ari stód einna lengst, oc bardist ákaflega. Biörn prestr stód í kyrkiudyrum med kordahnif nakinn, oc er hann sá Dada, bad hann fiandann eiga hann, oc sagdi þeir skyldu fundnir enn ei skyldir. Þá reiddi þraungina svo fast er biskups menn tródust inn í kyrkjuna, at Ara vard hrundid inn; enn um sídir læstu þeir kyrkiunni, oc báru kistr fyrir oc hvad sem þeir fundu; menn Dada skutu þá inn um þilid, oc var Biörn prestr skotinn í handlegginn, lagdist hann þá fyrir í kyrkjunni, oc var breyddr yfir hann þófi; enn biskups menn sem úti voru, fengu högg oc skeynr, fèll þó enginn. Olafr Thómasson hálf-systr son þeirra brædra, enn fóstri Jóns biskups, fèck mörg sár, var höggvinn í andlitid, flett ofaun mest allri vángafyllunni oc vard hann snemma óvígr; enn Gudmundr Gíslason sveinn Biarnar prests var lagdr í lærid; þeir voru bádir XVIII vetra; lèt Dadi bera þá inn oc græda, oc fleiri af Nordlendíngum sem sárir urdu, þartil er þeir voru siálffærir at komast heim. Olafr átti Halgrímsstadi í Skagafyrdi, oc bió þar sídann, Er nú mælt, sem fyrr greinir at Ormr lögmadr bar, at Jón biskup hafi viljad bióda lögbod fyrir sig, er hann sá í hvert efni var komid, enn Dadi trúdi ei Ormi, oc vyrdti ei hans tillögr. Jón Jónsson í Bæ bad þá Dada leifis, at ná mætti syni sínum Sturlu úr kyrkiunni, því hann hafdi verid í kyrkjugardinum med biskups mönnum; þat leifdi Dadi; enn hversu sem Jón bad þá er inni voru at leyfa syni sínum útgaungu, gáfu þeir engan gaum at. Lét þá Dadi fyrir audmjúka bón hans, slá fialir eina eda tvær úr biórþili kyrkiunnar at framan, oc leifdi Sturlu þar út at fara, oc nockrum fleiri sunnanmönnum; sídann lèt Dadi rifa þilgaflinn í kórnum, var þar Jón biskup fyrir altarinu alskríddr, oc hèldt á

braudi helgudu í annari hendi, enn Maríu bílæti í annari; lögdu Dada menn þar hendur á biskup oc sonu hans, oc þeirra fylgdarmenn, oc lètu þá leggia af öll vopn. Markús hèt madr, er var med Dada, kalladr Dala Markús, bædi mikill oc sterkr, hann dró biskup óþyrmsamlega út um biérinn á kórgaflinum, oc er hann streyttist í móti, laust Markús hann svo hardt, at úr fóru tvær tennurnar; þá kalladi Jón biskup til Dada, oc mælti: gefdu grid, Dadi! hann geck at, oc rètti hönum höndina, oc mælti: kysstu þá á handska minn; Dadi geck at Markúsi, oc sló hann, oc vítti miög fyri medferd á biskupi; sídan lèt hann flytia þá fedga, oc hina hellstu menn þeirra, lærda oc leika, ofan í Snóksdal, oc hafdi þar í haldi til þess á föstudags qvöldid; lèt hann þá alla menn þeirra fara hvert þeir vildu, enn heita sèr trygdum ádr; enn þá fedga þriá saman hafdi hann í vardhaldi þraungu í Snóksdal, alls um þriár vikur, oc tvo daga; medkendi þá Jón biskup, at nú hefdi Helga kona sín haft sannara, er hún taldi hann af þeirri ferd.

## CXLIII Cap. Frá Sigurdi presti.

Sigurd prest son Jóns biskups grunadi þat, at fadir sinn mundi lids þurfa, enn hann var heldr fiærstaddr; þó reid hann eptir hönum, er hann spurdi um ferd hans, med XXX manna, allt í Hrútafiörd; þar mættu hönum fylgdarmenn þeirra fedga, er komu frá Saudafells fundi, oc sögdu hönum tídindin, fór hann þá ei áframm lengra, enn sendi Gottskálk prest í Glaumbæ, son Jóns Einarssonar á Geitaskardi, oc Christínar Gottskálksdóttur biskups, med XII menn vestr til Snóksdals, at bióda sættir, oc leita fridar þeim fedgum. Gottskálk prestr fèck at mæla vid þá Jón biskup, þó svo at Dadi var vidstaddr; enn ei fèck hann þeim lausn, hvad sem í bodi var; enn vopn oc tygi þeirra fedga, oc manna þeirra, sem tekin voru af þeim á Saudafelli, oc svo hesta, köstudu sumir Dada menn á eign sinni, oc kölludu herfang sitt, sem Oddr handi qvad:

Reckar giördu at ræna
röskva drengi oc væna,

höfudbúnáng oc hnífa,
hver sem nádi at þrífa:
völdu um voldug klædi,
vopn oc tygin bædi,
þat eru þúngleg gædi.

Hvarf Gottskálk prestr aptr, oc þeir Sigurdr prestr bádir.

## CXLIV Cap. Hald þeirra fedga oc sakargiftir.

Nú sendi Dadi þegar sudr at Bessastödum, til Christiáns skrifara, umbodsmanns Laurusar Múla hirdstióra, oc ritadi hönum hvar komid væri; lèt þat um mælt at Christián vissi vel bod konúngs til höfudsmannsins, at taka Jón biskup, enn nú byrji hönum hans eyrindum at gegna, þar hann sè eigi í landi, oc taka vid þessum mönnum, er nú sèu hiá sèr í vardhaldi; bad hann koma sem skiótast á sinn fund. Christián brá vid skiótt, oc voru giör ord Marteini biskupi, er þá var hid fyrsta fullkomlega friáls madr; ridu þeir til Snóksdals, oc fleiri adrir vitrir menn, til rádagiördar um þat vandrædi; vard þat af eptir ósk Dada, at Ormr lögmadr Sturluson setti þíng um þat hvad giöra skyldi af þeim fedgum, oc var dæmdr dómr, sá er Snóksdalsdómr er kalladr, fimtudaginn nærstann fyrir Simonsmessu, dæmdust þeir fedgar rèttiliga fángadir at konúngsbodi, enn Dadi oc hans fylgdarmenn saklausir, þar med Dadi vid þá skilinn, enn Christián skrifari skyldr þá at vardveita til nærsta Öxarár þíngs, med styrk lögmanna beggia, Erlendar Þorvardssonar oc Orms Sturlusonar, einnin Marteins biskups; enn skilöl þeirra oc skilríki skyldu koma til nærsta alþíngis at sumri, oc þeirra fyrirsvarsmenn; enn ef nockrir at nordan koma med hernadi fyrir þeirra sakir, þá skyldu þeir vera landrádamenn; voru dómsmenn Þorleifr á Hofstödum Einarsson Þórólfssonar, Oddr son Thómasar bonda Oddssonar, Gudmundr Gíslason, Jón Grimsson, lögrèttu menn; Brandr Einarsson á Snorrastödum bródir Marteins biskups, Steindór Finnsson Arnorssonar á Ökrum, Erlendr á Hvoli Jónsson Hallssonar, Jón Olafsson, Egill á Skardi Jónsson Einarssonar, Illhugi Sveinsson, Þorvaldr Einarsson, Þorsteinn Oddsson; enn Ormr lögmadr oc Christián skrifari samþycktu; þann dom sagdi Ari sèr líka fyrir

sig oc sín börn; oc eptir hönum sagdi Dadi þá fedga úr sinni ábyrgd, enn Christián skrifari tók vid umsión þeirra, svo aldrei komu þeir undir vardveitslu Dada edr hans manna frá því þeir ridu úr hladi í Snóksdal; enn á medan þeir voru þar, mæltu þeir þat eitt sinn, at fögr væri veröldin ef þeir fengi þá einusinni at siá hana um stund; þá Dadi heyrdi þat, geck hann til þeirra, oc spurdi hvert þeir vildu vera dyggvir oc tryggir, ef hann leyfdi þeim samsæti med ödrum gódum mönnum í dag; bad og Marteinn biskup fyrir þá, oc hellst fyrir Ara, at hann mætti laus vera þann dag oc í sæti med þeim; þeir hètu trú oc dygd, oc var þeim leyft þat; enn í samsætinu nádi Ari knífi eda daggardi, oc seildist er minst vardi yfir Marteinn biskup, oc ætladi at leggia Dada; vard tilrædid hindrad, enn þeir voru þegar leiddir í vardhaldid aptr, oc geymdir fastlegar enn ádr. Reid nú Christián skrifari med þá fedga áleidis í Skálhollt, oc med hönum Marteinn biskup, Dadi oc adrir, til at rádgast um vardhald á þeim um vetrinn; þeir höfdu gistíngu at Reykhollti, oc segir Magnús Biarnarson at Ari hafi þá sèd tækifæri nockurt at komast úr vardhaldinu, oc keypt af hestamanni Christiáns, at vísa sèr at hinum besta hesti þeirra, oc láta hann vera í vísum stad til reidu, oc at hann hafi svo giört; enn er Ari sá sèr færi, komst hann at hestinum, oc á bak, oc ætladi at rída á brant; var hestrinn þá svo stadr at hann geck hvergi, oc vard ei af brottför hans; hyggia menn þetta heldr sannara enn hitt, at Ari hafi ætlad at komast á hest sinn siálfs í Skálhollti seinast, oc hafi þá ei af stad komist fyrir því at á var heptíngrinn. Þá þeir komu í Skálhollt, afleysti Marteinn biskup Dada oc alla hans fylgdarmenn í Saudafellsför, af þeirri kyrkiu saurgun edr kyrkiugards at Saudafelli, sem verda hefdi mátt eptir fornri venju, þá er þeir fedgar voru teknir, oc gaf þeim qvittunar brèf, med rádi oc samþycki prælata oc presta, oc Skálhollts kyrkju rádsmanna, föstudagin fyrir allraheilagra messu; settu þeir innsigli sín fyrir þat, hann oc Jón prestr Biarnason rádsmadr, Arni prestr Arnórsson officialis, Snorri prestr Jónsson, Jón prestr Halldórsson, Loptr prestr Narfason, oc Pètr prestr Einarsson. Voru því nærst þángat kalladir margir hinir vitrari menn úr Arnessþíngi, oc nálægum sveitum til rádagiördar, oc til at heyra á konúngsbrèf oc sakargiftir, er á þá fedga voru

bornar; flutti Christián þær framm: fyrst þá at Jón biskup hefdi látid handtaka Martein biskup á siálfs hans heimili, beria menn hans, brióta hús, oc halda hönum fángnum um heilt ár, X dögum fátt í; þarnærst at þeir fedgar hefdi tekid öll giöld af öllum syslum í Nordrlandi, oc svo Flatey, þau er konúngr átti, oc sagt sig eckert vilja vid konúng eiga; þat þridja at þeir hefdi forsmád konúngsbód um klaustrin oc beneficia; þat hid fiórda at þeir hefdi tekid eignir klaustra, oc beneficia, Biarnanes, Odda, Hóla, oc hellst Fiardarhorn, er Þorsteinn Þórdarson systrson Ögmundar biskups var skyldugr um hálft til konúngs fyrir sakir hans, oc at þeir hefdi þraungvad undir sig hálfu Islandi; í fimta lagi hefdi leikir oc lærdir ordid at flya fyrir þeirra ofríki; í siöttu grein þat er þeir hefdi med öllu afli stadit í móti Guds ordi; í siöunda máta hrædist þá allir, þó þeir sèu fángnir ordnir, því þeir hafi heitast um, ef þeir losni, at vera tíu hlutum verri enn ádr vid innlenda oc útlenda, þarmed hafi þeir þat ritad sèr um sumarid, at hann oc allir Danir, skyldu fá refsíng at norrænum lögum, ef þeir kæmist í hendr Jóni biskupi; hid áttunda at biskup hafi heitid því Hamborgar kaupmönnum, at siá svo um, hvad sem á eptir kæmi, at enginn af Dönum skyldi verda eptir med lífi hèr vid land hid nærsta vór; þat hid níunda at þeir kalli konúngsbrèfin ósönn vera, þó innsigli hans sè undir, oc login út, enn strokumenn þá sem þau bera; þat tíunda at Jón biskup hafi hótad því opinberlega (auglioslega) at hann oc Laurus Múle, skyldu ecki vera hirdstiórar bádir jafnframt á hinu nærsta vori; þat ellefta, sem mörg vítni hafi sannad, at Jón biskup hafi sagt, at hann oc villumadrinn skyldu ecki annad vor vera biskupar bádir, hvert konúngi líkadi betr eda verr; oc þat í tólfta máta, at hann hafi á nærstlidnum föstudegi heitast um, svo at almenníngr hafi áheyrt, at halda ecki þá naudúngar lofan er hann giöri nú, nær sem hann yrdi laus, heldr hefna sem fyrst hann mætti, þótt allr heimr bidji fyrir óvini hans.

## CXLV Cap. Aftaka Jóns biskups oc sona hans.

Nú var þat ród giört af flestum, at Marteinn biskup oc Christián skrifari skyldi vardveita þá Jón biskup eptir Snóksdalsdómi; oc

sem þar var rædt um, oc mest af Christiáni, bandst Dadi til at geyma einhvern þeirra, enn enkum Ara, því hönum var til hans hugþeckast, oc þó hvern sem þeir vildu; var þá talat um at Jón biskup væri vardveittr í Skálhollti, enn Biörn prestr at Bessastödum; Marteinn biskup var fúsastr til at geyma Ara, því hann hafdi hönum miúkastr verid um vetrinn fyrir; Christián skrifari oc hinir dönsku töldust undan, oc treystust ecki til at geyma neinn þeirra fedga á Bessastödum, sakir útródrarmanna nordlendskra á sudrnesjum, þar sem Bessastadir eru í leid þeirra; stód svo þessi tvídrægni nockra daga; enn einn morgun er fyrirmenn tóku ábit í biskups badstofunni, oc ræddu um geymslu þessa; mælti Jón prestr Biarnason rádsmadr: eg em fávísastr allra ydar, oc sè eg þó rád til at geyma þá; þeir hinir qvádust þat heyra vilia; hann svaradi at exin oc jördin geymdi þá best; enn þótt þar væri nockud umtalad, þá samþycktist Christián skrifari því fyrstr, enn þadan af var eigi lengi, ádr Marteinn biskup fèllst á hid sama. Dadi var [illegible] tregr oc Jón Biarnason syslumadr í Arness þíngi, qvádu þa[illegible]gi hæfa á móti konúngs úrskurdi oc lögmannsdómi, enn enginn dómr væri fyrir á adra sídu; þó kom svo at Dadi vildi eigi móti mæla, qvadst vera skilinn vid þat mál. Enn er þetta var borid fyrir fleiri menn, mæltu margir í móti því, enn Christián skrifari þaggadi þá nidr med stórum ordum oc illum, oc lá vid hann lèti beria á sumum. Sögdu þeir þat einardlega Magnús bóndi at Núpi, oc Arnór í Arnarbæli, er eg hygg vera Laga-Arnór son Lopts Gudlaugssonar Loptssonar Ormssonar Loptssonar hins ríka, enn hefir þó þá verid allúngr, at slíkt væri hverki tilheyrilegt nè mannlegt, heldr hefnda-vænlegt, at aflífa þá menn án dóms oc laga; enn þat tiádi ecki, oc lá nærri at Christián skrifari lèti grípa þá, oc helst Arnór; þó segia sumir Christián hafi beiskastr ordid vid Jón Biarnason. Var nú þeim fedgum sagt hvad af var rádid, enn þángat til voru þeir lengi gódrar vonar, at þeir mundu lausir látnir, oc mælti Jón biskup þat opt: á jólum verdum vèr á Hólum: enn nú tók hann at kannast vid hve lángt hann hefdi frámfarid í slíkum stórrædum, oc qvad þetta:

Vondsliga hefir oss veröldin bleckt,
vèlad og tælt oss nógu frekt,

af eg skal dæmdr af danskri slekt,
oc deya svo fyrir kóngsins mekt.

Biörn barst af aumlega, enn Ari vard hreystilega vid. Eigi geck dómr um slíkt stórvirki, oc reiddi því illa at flasad var at, sem enn mun sagt verda. Var nú sendt eptir Jóni Olafssyni Bessastada bödli, dreng lítilnytum. Þeir fedgar höfdu geymdir verid allir saman í biskups badstofunni í Skálhollti, þar til er þetta var ordid, enn nú voru þeir adskildir, var biskup í hinni sömu badstofu, enn Biörn prestr var látinn í Asmundar stofu, hún stód þar sem sídar var gengid inní herbergin, á vinstri hönd úr nördrgaungunum; enn Ari var í presta badstofunni, þar stód sídan skólinn; var sérhverium þeirra fenginn prestr, til at hafa fyrir þeim christilegar fortölur, biuggust þeir oc vel vid dauda sínum, þat á var at siá; þeir höfdu messu hvern dag, medan þeir voru í Skálhollti, oc gaf biskup sér oc þeim Guds líkama at því er þeir kölludu, oc eins hinn sídasta daginn upp í kyrkju. Var hellz ord á giört hve karlmannlega Ari hefdi vid ordid; þá hina sídurstu nótt geck hann um gólf med saungum oc lestrum, enn féll stundum á knè til bænar; þar var hiá hönum Jón Olafsson systrson Dada, oc er þat sannara enn verid hafi Jón Halldórsson stiúpsonr hans; þeir voru þó bádir í Skálhollti, oc var hverutveggi hinn hraustasti madr; Ari bad hann höggva sig, oc baud hönum til hinn besta klædnad sinn, oc þann kostgrip úr eigu sinni sem hann vildi, sagdi at mannleysi þat megnadi því ei er þat skyldi vinna; Jón vildi þat ecki, qvadst ei hafa mátt þá hann vildi, enn þat var á Saudafellsfundi. Vindustockr forn frá kyrkjunni var fluttr fyrst austr á klettana, oc ætladr fyrir höggstock, enn skard höggvid í fyrir hökunni; hann stód fyrir austan túnid siálft, fyrir ofan Þorlákssæti. Mælt er Ari hafi á föstudags morguninn, þann er var hinn VIIdi Decembris mánadar, oc nærstr eptir þá nótt er nú var getid, bedid Ingibiörgu konu Marteins biskups, at láta sig fá hreina skyrtu, enn hún hafi synjad, oc kallad at hann hefdi nú ei fyrir ödrum at skarta enn meldinni: þat þótti ódrengilega vid ordid, var oc lítid afsagt viti hennar oc mannkostum. Um sólar uppkomu þá er þeir fedgar höfdu tekid ádr Guds líkama sem fyrr segir, var Ari leiddr fyrst út af presta stofunni, hann mælti þá: hédan mun margr göfugr

útgánga; þat þykir ordid hafa at spá; oc er hann geck lengra fram, mælti hann: naudugr geck eg til þessa leiks, enn þó skal eg nú viljugr útgánga, vildi eg at kálfs-hiartad úr Sira Sigurdi bródur mínum væri komid í mig, enn mitt í hann aptr; enn sem hann kom á höggstockinn mælti hann: skal hèr nú stadar nema, minn herra! já, sagdi Christián skrifari. Ari mælti: svei þèr, þinn prackari, aldrei kalladi eg þig minn herra, heldr taladi eg til míns drottins. Svo er sagt hönum hafi þá verid bodid líf, ef hann hèti því at hefna aldrei þessa, enn því hafi hann ei viliad heita; hann geck til fyrirmannamanna flestra, qvaddi þá oc mælti; gef mèr til, Marteinn; gef mèr til, Dadi! oc svo til fleiri; vid Jón Halldórsson mælti hann, (höfdu þeir verid vinir,) ecki þenkti eg þú mundir standa yfir höfudsvirdum mínum; Jón qvadst þess nú ei siálfrádr. Margir hörmudu hann, oc qvádu mikinn skada í aftöku slíks manns, oc vildu eigi vera þar vidstaddir. Eigi vildi hann láta binda fyrir augu sèr, oc er hann kraup á höggstockinn, mælti hann at bödullinn skyldi eiga hatt sinn, ef hann höggvi sig hreinlega, stód svo á kniánum, oc las bænir sínar, oc seinast: in manus túas domine commendo spiritum meum. Sídann setti hann hökuna í skardid á stocknum, oc teigdi hálsinn, svo sá til allra sina oc æda, tók höfudid af í einu höggi. Biörn prestr hafdi mest ámæli af mörgum manni af tillögum sínum oc tiltektum medan hamíngian lèt hönum, enn nú var hann fullr trega, oc bar sig hörmulega, skaut hellst vid um börn sín; hann bad um líf, oc hèt at hefna aldrei þess er þá var ordid, enn þat fèckst eigi, því hann var þeim óþockadr miög, enn sá þótti ágætari er látinn var. Höggstockrinn var þá fluttr upp med túninu, á adra kletta nockru ofar; var Biörn prestr leiddr þángad, oc var miög aumlegt at siá til hans oc heyra; hann mælti opt: æ! æ! börnin mín úng oc smá; enn er hann lagdist á höggstockinn kreppti hann hálsinn af harmi oc qvída, svo ei tók af höfudid fyrrenn í fiórda höggi. Enn svo sögdu ættmenn Jóns biskups, at bödullinn hefdi höggvid í fyrstu mikid sár, oc Biörn þá enn bedid um líf sakir barna sinna úngra, oc giört formála fagrann, svo stans hafi ordid á um líflát hans, þar til Dadi hafi gengit at, oc skipad bödlinum at höggva sem skiótast; enn þeir sem kunnugast var um geta þess ecki. Nú var Jóni biskupi sagt líflát sona hans, oc hönum þá bodid líf, enn hann qvad þá sèr svo fylgt hafa, at hann

vildi nú fylgia þeim; oc er hann geck framm úr kórnum í kyrkjunni, oc hafdi krossmark í hendi, vildi hann kriúpa framm fyrir Maríu líkneski, er þar var nærri, enn prestr sá er hönum fylgdi, oc hafdi christilegar fortölur fyrir hönum, er Sveinn hèt, bad hann láta af slíkri hèrvillu, oc mælti þat medal annars: líf er eptir þetta líf, herra. Biskup snerist vid hönum snögglega oc mælti: veit eg þat, Sveinki! Höggstockrinn var þá fluttr upp undir klettana hiá almenníngs götu, oc er biskup var leiddr þángat stódu þeir skamt þadann á þúfu einni Marteinn biskup, Christián oc Dadí; biskup geck at Dada, oc baud hönum at leysa hann úr banninu; Dadi mælti: þú sèr nú ecki meira bann á mèr enn þèr; vid þat geck biskup hryggr at höggstocknum, oc fól sig Gudi; kraup framm oc mælti: in manus túas, domine! commendo spíritum meum. Var hann ordinn boginn miög á herdarnar, svo höfudid var nær framm úr bríngunni, kómu axarhögginn miög á axlirnar, svo ecki tók af fyrri enn í fimta höggi eda siötta; lágu svo líkamir þeirra fedga þar framm eptir deginum, oc var lítt umhirdt, þartil er þeir fengu kyrkjuleg fyrir tillögur gódra manna, oc vóru jardadir skamt fyrir aptan kórinn; skedi þessi tilburdr á föstudag hinn siöunda Novembris mánadar, þá Jón Arason hafdi biskup verid í sex vetr oc tuttugu, enn skorti IIII vetr á siötugann; sannadist spá hans, at med skyndíngu mundi biskups tign hans nidrfalla.

## CXLVI Cap. Ætt frá Jóni biskupi.

Jón biskup hafdi sendt úr Skálhollti med trunadar manni sínum gull-innsigli sitt til Sigurdar prests sonar síns, oc Helgu fylgikonu sinnar, at þau skyldu láta skipta upp LX hundrudum, eptir sig oc sonu sína, med snaudum mönnum; var fyrir þá sök skipt á Hólum LX vættum smiörs, oc XII hundrudum fiska, XVIII staupum flots, XVI vodum vadmáls, X húdarskinnum, oc þartil gángandi fè; fór Sigurdr prestr heim til Hóla, oc hèldt stadinn med módur sinni um vetrinn; ádr hafdi Helga fylgt Olafi presti, var þeirra dóttir þóra, fylgikona Thómasar prests Eyríkssonar, þeirra börn Biörn prestr, oc Olafr á Hafgrímstödum, oc þóra er átti Jón á Ökrum Grímsson lögmanns, módir Gudnyar er Sigurdr

Jónsson at Reinistad átti Helga var enn Thomasdóttir, vid henni er sagt at Arni son Gisla Hákonarsonar ætti Gudrúnu lanndóttr sína, konu Jóns á Svarfhóli; sidann telst at Helga ætti Svein bónda í Malmey er kalladr var Drumba-Sveinn, fyrir þat hann fór í land á spítunum, er skip var ei til. Jón biskup átti öll börn sín med Helgu Sigurdardóttr, oc vard hann miög kynsæll; hann hafdi dreymt þad í Skálhollti skömmu fyrir andlát sitt, at hann legdi glófa sinn á altarid í Skálhollltskyrkju oc skildi þar eptir, þat rèdi prestr nockur skynsamr þannin, at V. biskupar mundu frá hönum koma eptir fingratölunni, oc eigi ólíkt allir í Skálhollti, eru oc frá hönum komnir þar, Gisli Oddsson, oc meistari Brynjólfr í fiórda lid, meistari Þórdr í siötta lid, oc meistari Jón Arnason í fimta lid, enn Doctor Hannes í áttunda lid, enn þrír biskupar á Hólum, Assessor Arni, oc margir lögmenn oc annad stórmenni. Ari Jónsson átti Halldóru dóttr Þorleifs Grímssonar, þeirra börn voru mörg, enn lifdu tvær dætr, Helga er ólst upp á Grund, oc Þóra er sídar átti Sigurd son Þorbergs Bessasonar oc Helgu Sigurdardóttr Finnbogasonar lögmanns, hún vard miög varhluta í skiptum vid Helgu. Páll son Jóns Magnússonar á Svalbardi var þá XVII vetra, oc er mælt hann hafi qvedid vísr þessar, oc sendt Helgu Aradóttr, oc mun haft eptir Brynjulfi biskupi dóttrsyni Páls;

Víst hefir vordid nærsta
vandinn hèr á landi,
fyrdum heldr hardann
hygg eg þeim er byggia;
öll ódæmi at kalla
unnu þeir fyrir sunnan,
mynnist þegnar þannin,
þetta trui eg gud rètti.

Oc enn: Gaman er sagt at fyrdar fremji
falslega med nógu kallsi,
ángr er þat liótast laungum,
leidist mèr slíkt, fyri þornareidi,

Karl mun vera gott at gylla
glotta margir at hónum skotta,

mist hefir sveinnin fingr flestar;
fær hann aldrei slíka æru.

Hæla jafnan mest (minst) í málum
manni þeim er heitir þannin.

Magnús prestr at Grenjadarstad, son Jóns biskups, hafdi haldid vid Christinu dóttr Vígfúsar lögmanns Erlendssonar, þeirra dóttir var Gudrún. Biörn prestr hèldt vid Steinunni dóttr Jóns Magnússonar á Svalbardi, hún var skörúngr mikill, þeirra börn voru Magnús oc Jón er ættleiddir voru, Teitr, Biarni, Arni, Ragnhildr Halldóra. Magnús átti Halldóru dóttr Eyríks bónda Sniólfssonar at Asi oc Þurídar Þorleifsdóttr Grímssonar. Jón Bjarnarson bjó lengi at Holltastödum, enn seinast at Grund í Eyafyrdi, hann átti Gudrúnu dóttr Arna Gislasonar, oc þótti ágætr madr, er frá hönum komid hid mesta mannval. Teitr Biarnarson átti Þurídi dóttr Erlendar prests at Breidabólstad Pálssonar Grímssonar, oc Bjargar Kráksdóttr, er oc frá þeim ætt. Ari átti Önnu Biarnar dóttr Hannessonar, oc Þórunnar Dadadóttr frá Snóksdal, þau bioggu at Saudafelli, oc jóku þar ætt sina. Biarni bió at Briámslæk, hann átti Sesseliu, dóttrdóttr Þorleifs prests, Biarnarsonar frá Reykhólum Þorleifssonar, þeirra dóttir var Þórunn í Sælingsdal. Ragnhildr giptist Sigurdi, syni Biarna Torfasonar frá Klófa, oc Ingibjargar Sigurdardóttr Finnbogasonar lögmanns, þeirra son var Biarni gamli á Stockseyri; sidar fèck hennar Markus Olafsson í Hèradsdal. Halldóra giptist Biarna syni Páls Grímssonar, þeirra börn voru Hallr hardi oc hans systkini. Sigurdr prestr son Jóns biskups var ágætr madr, hann hèldt Grenjadarstad í LX vetr, oc var mikill höfdíngi, enn sneyddi hiá stórrædum, fylgdi hann hinum nya sid, enn hèldt optast prest annan til at þióna sóknunum; hann var eginqvæntr, oc átti Sesseliu dóttr Pètrs Loptssonar hins göfugasta manns, oc Sigrídar Þorsteinsdóttr Helgasonar lögmanns, voru börn þeirra Pètr oc Halldóra, hún var trúlofud Jóni murta Eggertssyni, enn dó þá úr sótt; laundóttir Sigurdar prests var Þurídr, hennar feck Magnús í Stóradal Arnason Pèturssonar Loptssonar, oc er þadan mikill ætthríngr. Helga dóttir Jóns biskups átti Ejólf son Einars Ejólfssonar oc Holmfrídar Erlendsdóttr, þau bioggu í Dal undir Eyafiöllum; þeirra börn voru Eyríkr í Eyvindarmúla, Anna er átti Vígfús son Þorsteins Finnbogasonar,

Einar, Magnús oc Isleifr. Þórunn dóttir Jóns biskups bió at Grund í Eyafyrdi; hún átti fyrst Rafn lögmann, þá Isleif Sigurdarsón, oc eigi börn; enn eptir þat er hèr var komid, giptiz hún Þorsteini, er hún hafdi fyrrum kynni af, syni Gudmundar Andrèssonar, áttu þau oc eigi börn; enn tvisvar var hún fífld í milli manna; hún lifdi menn sína alla, oc sagdi svo um þá: Rafn minn var höfdíngsmadr mestr, Isleifr minn skartsmadr mestr enn Þorsteinn minn heimsmadr mestr; hún var hardlynd, oc æ föst vid hinn forna sid allann, enn gaf ölmusr stórar, oc skipti med fátækum jafnan á líflátsdegi þeirra fedga, oc á Laurentius messu dag, því hann var patronus þeirra á Grund, oc vard hún gömull miög.

## CXLVII Cap. Hefndir Nordanmanna.

Christián umbodsmadr á Bessastödum, var kalladr skrifari fyrir þá sök, at sumir segia hann hafi verid râdstofu skrifari fyrrum; hann reid þegar eptir aftöku þeirra fedga sudr at Bessastödum, oc sendi jafnskiótt eptir Einari presti Olafssyni í Gördum, oc sagdi hönum tídindinn. Einar prestr spurdi hví hann hefdi hrapad svo miög at slíku, oc qvad vissulega mundi illt á eptir koma. Christián samsinnti því, oc qvadst vita at bædi mundi hann oc adrir þess þúnglega gjalda, ádr sá vetr lidi, kalladi þó Martein biskup oc rádsmann hans Jón prest Biarnasón valdid hafa; lidu nú af jólinn, oc komu vermenn eptir venju at nordann til utrodrar á sudrnesjum, nær þremr hundrudum, oc voru í þeirra flocki nockrir menn, er ætladir voru af frændum Jóns biskups til at leita á hefndir eptir þá fedga; þeir þóttust vída í sveitum þar sem þeir fóru yfir, heyra skapraunarord mörg oc fríanir, at aptr færi nú Nordlendíngum, þar sem þeir lèti enga hefnd koma framm, eptir slíka menn sem þeir fedgar hefdi verid; drógust þeir þá því fleiri samann sem lengra kom sudr, þartil er þeir voru XXX, at því er Biörn at Skardsá segir, enn Jón prestr Egilsson segir LX; nærri Pálsmessu fór Christián skrifari, sem hann var vanr, sudr á Nes til at skipa þar fyrir, oc hafdi fylgdarmenn fleiri enn ella, oc þá tygiada, því hann grunadi um Nordlendínga; hann reid 1551

um í Görðum, oc fann Egil son Einars prests, oc spurdi hvad hann vissi til nordann-manna, oc hvert þeir væri farnir sudr um? hann lètst ei vita til þeirra, enn qvad þá þó umfarna, oc rádlegra hann færi hvergi lengra; Christián reid þó, þartil er hann kom at kyrkjubóli á Midnesi, oc tók þar gistíngu; komu þángad nordann menn med hettum nidrflettum, oc hökustöllum fyrir andliti, svo þeir yrdi sídr kendir, oc tóku hús á hönum; geck einn at bæardyrum oc spurdi hvart þar væri sá madr er Jón hèti oc væri Bárdarson, bad hann útgánga, svo hönum yrdi ei meint; hann giördi svo; þá geck annar at dyrum, úngr madr um tvítugt, þrekinn oc knálegr, oc spurdi hvert þar var sá madr inni er Sveinn hèt, vel hagr á skurd oc sátún, hefdi ordid manni at skada fyrir nordann, oc af því flúid til Bessastada, bad hann skrída út, ef hann vildi lífi hálda. Sveinn geck seinlega fram í dyrinn, enn hinn seildist til hans, kippti hönum út, oc fleigdi framm á bladid, oc bad hann liggia þar þat skarn, segir at hann nyti þess at hann væri skyldr hönum, ella skyldi hann drepinn; þeir bádu bóndann á Kyrkjubóli at leifa sèr at riúfa húsinn, hann hèt Jón Kenichs son, oc qvad svo vera mætti ef þeir bætti aptr; lèt Páll Hvítfeldr sumarid eptir höggva hann fyrir þat í Straumi, oc hiáleigumann hans, oc setia höfud þeirra á stengr enn búka á hiól, oc sá þess merki um XX ár; sídann veittu þeir Christiáni oc hans mönnum atgaungu harda, oc drápu VII eda VIII menn dánska, oc fíngann son Christiáns er Baldvin hèt; Christián komst út nockud sár eda lítt, því hann var í treyu er ei bitu járn á, kom þá madr at hönum XVIII vetra, sveinn Þórunnar á Grund, oc hafdi lensu í hendi, oc mælti: ec skal finna á hönum lagid; hann lagdi undir treyuna oc upp í smáþarmana, enn Christián æpti vid, oc lysti hann banamann sinn; madr þessi leit skamt frá sèr hest gráann, er Ari biskups son hafdi átt, oc hlióp á bak hönum, oc reid á þremr dögum, at því er mælt er, nordr í Eyafiörd. Þat segia sumir menn at þeir hafi hellt blyi heitu ofann í Jón Olafsson bödul, enn adrir herma at Christián hafi siálfr kallat hann óverdugann at bera hatt Ara, oc hrakmælt hönum fyrir þat hve illa hann hafi unnid at þeim fedgum, oc drepid hann siálfr, ádr hinir komu at nordann; í Mársbudum voru tveir fylgdarmenn Christiáns, þar drápu þeir annan; hinn er Pètr hèt, oc kalladr sídann Mársbuda Pètr, lèt hann fyrir byssu sína, oc

skaut med einn af nordann-mönnum, oc komst sídann undann í Skálhollt. Nordann menn fóru um sudrnes öll, oc drápu alla eptirlegu menn danska sem þeir fundu XIV at tölu, enn tóku altrþat er þeir áttu; einn þeirra átti bú oc börn at Búrstödum, þa tóku þeir upp, oc vildu drepa börninn, þó vard ei af því; þá sem þeir drápu á Kyrkiubóli dysiudu þeir fyrir nordann gard; þeim þótti þar reymt, foru því til aptr, grófu þá upp oc hiuggu af höfudinn, oc settu néfin milli þióanna; þat gramdist Dönskum mest er þeir frèttu, sumarid eptir, oc þótti nídst á líkunum.

## CXLVIII Cap. Þeir fedgar jardsettir at Hólum.

A annan dag páska sendi Sigurdr prestr biskupsson XXX menn karska sudr í Skálhollt, voru þrír prestar fyrirlidar þeirra, Grettir prestr Þorvardsson af Siglunesi, Jón prestr frá Bardi í Fliótum, oc Magnús klerkr; sumir hafa nefnt í þeim flocki Halfdán er seinna var prestr at Felli, oc óvitrir menn hafa samid margar fiölkyngis sögr um, oc sagt samtída Sæmundi fróda er meir var enn fiórum hundrudum ára fyrri. Þeir höfdu med sèr líkkistr oc allan útbúnad, oc flestir hettr med höku-stöllum fyrir andliti. Þá er þeir komu nærri Skálhollti, sendu þeir menn heim med því eyrindi, at þeir beiddu leifis at meiga grafa upp líkama þeirra fedga, lèt Marteinn biskup þat til reidu; töfdu þeir eigi lengr, enn á medann þeir grófu upp likinn, oc lögdu moldug í kisturnar, enn fyrir grafarstædinu vottar enn, því þat var óbyrgt; voru festar bióllr nedann í kistunum, ein í kistu Ara, tvær í kistu Biarnar prests, enn þriár í kistu Jóns biskups, oc hríngdust þær er kisturnar hrærdust; fóru þeir til Torfustada um qveldid, enn annan dag at Laugarvatni Mársbúda-Pètr hafdi viljad skióta at þeim er þeir störfudu at gröfinni, enn Marteinn biskup bannadi; var Pètr seinna víntappari í Kaupmannahöfn hiá rádhúsinu, oc giördi Islendíngum meira gott enn illt; á Laugarvatni tjölduðu Nordlendíngar yfir líkunum, þvodu þau, oc biuggu um sem best máttu, oc fluttu nordr til Hóla sídann. Jökulsá, er kallast Hèradsvötn, var í leysíngu, komust þeir yfir um á ís-brú einni, enn þegar er þeir voru yfir komnir, rak af spöngina; hvar sem þeir komu nærri kyrkium í Hóla biskupsdæmi, var hríngt klukum

öllum, oc er fyrst sá til líkfararinnar frá Hólum, hiá Laufskála-hollti, var öllum kluckum hríngt þartil er líkinn voru í kyrkiu borinn, enn kennimenn oc allr lídr gengu út yfir tröd í móti líkunum med saungum oc harmi; voru þau jördud í Hólakyrkiu fyrir framann kór-dyr, þvert yfir frá kapellunni, vyrduglega, eptir fyrirsögn Sigurdar prests, oc þeir tregadir miög af mörgum nordan lands; enn siónlitlir menn, oc vanfærir med ímsum hætti kèpptust vid at snerta kistr þeirra, oc þóttust fá af heilsubót, kölludu þá heilaga menn oc guds píslarvotta, oc var þat á diúpum rótum sett miög lengi í nordrlandi sídann, oc svo hatr þat hid mikla er menn höfdu á öllum mótstödumönnum þeirra. Var þá Biörn prestr Gislason kiörinn til at vera officialis; hann kalladi saman alla lærda menn heim at Hólum, mánadaginn nærstann fyrir tveggia postula messu, oc nefndi í dóm Thómas ábóta at Þverá, Jón prest Matthiasson á Breidabolstad, Gottskálk prest Jónsson í Glaumbæ, oc alls XX presta, um penínga Jóns biskups, dæmdu þeir at hann mætti erfast, er hann hefdi hverki verid vígdr bródir nè ábóti, sögdu þeir Sigurd prest biskups son hafa stadid reikníng kyrkiu, oc at auk inventarii væri reiknad XII hundrud hundrada, oc þarmed talinn ornamenta kyrkiunnar er aukist höfdu á dögum Jóns biskups, af því mætti erfíngiar hans eignast fiórda hlut, enn annad standi fyrir skuldum, med fleirum greinum, er þó gengu aptr med Oddeyrar dómi; var Sigurdr prestr til biskups kosinn af XX oc fiórum prestum, oc kosníngar brèfid af þeim innsiglad, þó þat gengi ecki framm.

## CXLIX Cap. Utkoma herskipa.

Christián konúngr hafdi nú sannspurt þann yfirgáng er Jón biskup oc synir hans veittu í Skálholts umdæmi, oc at þeir hefdi þraungvad öllum mönnum, enn landflæmt suma; kærdu þeir Oláfr prestr Hialltason oc Gisli prestr Jónsson vandrædi sín þar fyrir konúngi, oc svo hyrdstiórinn oc hans menn er flúid höfdu af landinu; hugdi konúngr at þeir fedgar mundu nú þegar hafa giört sèr landid allt frá horfid; fyrir því sendi hann um vorid þriú skip med hermönnum; kom eitt fyrir sunnan land, oc rèdi fyrir því Otti Stigsson er fyrri var hyrdstióri, oc hafdi CC manna,

hann kom út í Straumi, oc med hönum Gisli prestr Jónsson í Selárdal, oc fór vestr til bús síns; enn fyrir nordan komu tvö skip, oc á D menn, rédu fyrir þeim herramenn tveir, Christófor Trondsen af Ebeltoft oc Axel Juul af Vildstrup; þeir skyldu taka Jón biskup oc sonu hans, oc flytia til Danmarkar, enn leysa Martein biskup úr vardhaldi, oc innsetia aptr í biskupsdæmid; enn ef hann væri látinn, at skipa annan skickanlegann mann er kèndi guds ord rèttilega; þeir skyldu oc taka hollustu eyda af landsmönnum, med spekt í fyrstu, enn med hördu ef eigi mætti á annann hátt, med ödrum eyrindum er þeim voru skipud. Þá ritadi konúngr einnin brèf Dada Gudmundarsyni, oc taldi þar sakir á Jón biskup, enn bad Dada fyrir trúleika þann er hann hefdi sèr sínt, at vera fylgisamr höfudsmanninum, oc hèt hönum vináttu sinni; var þat útgèfid í Flensborg fimtudaginn eptir qvasi modo geniti sunnudag; einnin ritadi konúngr hinum hellstu mönnum á landi hèr, Erlendi lögmanni Þorvardssyni á Strönd, Páli Vígfússyni at Hlídarenda, Ejólfi Einarssyni í Dal mági Jóns biskups, Þorleifi Grímssyni á Mödruvöllum, Biarna Erlendssyni á Kètilstödum, Byrni Jónssyni at Eyvindará, Þorsteini Finnbogasyni í Hafrafellstúngu, Jóni Magnússyni at Svalbardi, Ormi Jónssyni á Draflastödum, Egli Jónssyni at Geitaskardi, þackadi þeim at þeir hefdi allt þartil verid hönum hollir oc trúir undirsátar, oc hlídugir hans tilsögn á móti Jóni biskupi, oc hèt at þat skyldi þeim med allri nád vidrkennt. Otti Stígsson sendi bod oc konúngs eyrindi Marteini biskupi, enn hann ritadi þegar öllum prestum í Skálhollts biskupsdæmi, einnin lögmennirnir syslumönnum, lögrèttumönnum oc allri alþídu, fyrir sunnan oc austann land, oc búdu þeim at koma til alþíngis; vann þar Marteinn biskup eyd, oc lögmenn bádir, lögrèttumenn oc öll alþídá er þángad mátti komast, oc sóru Christiáni konúngi hollustu, oc Fridriki syni hans, midvikudaginn eptir Pètrs messu oc Páls; eptir þat fór Otti Stígsson utann aptr. Þau missiri á Galli dag confessoris, útgaf Christián konúngr brèf sitt um þat í Kaupmannahöfn, at allir prestar á Islandi mætti qvongast, oc börn þeirra væri arfgeng eptir hverutveggia foreldri sitt.

## CL Cap. Syslanir herramanna fyrir nordan.

Christófor Trondsen oc Axel Juul komu skipum sínum inná Eyafiörd, oc spurdu þar aftöku Jóns biskups; eyrdi þar herfólkid miög illa vid, er þat mátti eigi giöra hernad í landinu; enn edalmennirnir stefndu hinum hellstu oc ríkustu mönnum samann fyrir nordan land, lærdum oc leikum til Oddeyrar, Ormi lögmanni oc mörgum ödrum; oc allri alþídu er komast mátti, til at taka af þeim hollustu eyda; var Olafr prestr Hialltason þar med þeim, oc átti at setiast í kall sitt Sigurdr prestr biskupsson treystist ei at gèfa sig framm med biskups-kosníngu sína, er hann vissi um herskipinn, enn Danir höfdu óvild á Jóni biskupi oc hans ættmönnum; fyri því giordu edalmennirnar kosníngu hans ónyta, ugdu at hönum mundi kippa í kyn oc fallast á sid forfedra sinna, enn þess urdu menn þó aldrei varir, sídann hann vann konúngi eydinn fyrrum; skipudu þeir Olafi presti Hialltasyni biskupsdæmid, oc treystust Nordlendíngar ei ödru, enn samþyckiast því at svo væri; var hönum þá fenginn Hólastadr af herramönnum; segir Biörn at Skardsá þeir hafi fengid hönum ritníngu danska útlagda eptir ritníngu Luthers, skyldi sá henni framfylgia ef konúngi likadi, er biskup yrdi at Hólum. Helga fylgikona Jóns biskups flúdi frá Hólum er hún spurdi til herskipanna, oc konr flestar med henni, var hún oc Gudrún Magnúsdóttir sonardóttir hennar, med leyud í fialli nærri Ökrum er Glóafeykir heitir, oc höfdu tiáld mosalitad, medann herramennirnir dvöldu hèr vid land um sumarid, oc var fært þángad þad sem þær þurftu; höfdu þær tekid med sèr þat fémætt í silfri, er flytia mátti; enn þat er at segia frá herramönnum, at þeir tóku hollustu-eydana á Oddeyri, af leikum oc lærdum oc allri alþídu í Hóla biskupsdæmi; var Olafr Hialltason, útvalinn superintendens, fyrirlidi þeirra höfdíngia er alþída gaf sitt umbod til at vinna eydana sín vegna, Thómas Eyríksson ábóti at Þverá, Sigurdr prestr Jónsson at Grenjadarstad officialis, Torfi prestr Jónsson í Saurbæ, son Jóns príórs Finnbogasonar lögmanns, hann var þó æ jafnan sídann fastr vid hinn forna sid, oc vildi ei vera vid prestskap, Jón prestr Matthiasson svenski, Loptr prestr Pètursson Loptssonar, Högni prestr Petursson, Gudmundr prestr Biarnarson oc Sturla prestr Einarsson. Ormr Sturluson lögmadr nord-

ann oc vestann, Þorsteinn Finnbogason, Þorleifr Grímsson, Þormódr Arasón syslumenn; (Þorsteinn hafdi þá Þíngeyar þíng, oc var elletr, enn Þorleifr Grímsson Vadlaþíng, oc hafdi látid dóm gánga um vorid, er dæmdi Orm lögmann réttann umbodsmann Múnkaþverár klausters eptir konúngsbréfi. Þormódr var bródrson Biarnar Gudnasonar, oc hafdi þá Húnavatns þíng); Jón á Svalbardi Magnússon Þorkélssonar, Ormr á Draflastödum Jónsson Oddssonar, Einar Bryniúlfsson at Espihóli, Magnus Biarnarson at Reykium, Gísli Hákonarson á Hafgrímstödum, Gísli Jónsson, Þorbergr Bessason er syslumadr hafdi verid, Eyvindr Gunnarsson, Hallr Egilsson lögrettumenn; Nicolás son Þorsteins Finnbogasonar, Grímr son Þorleifs Grímssonar, Magnús son Jóns Magnússonar, Brynjúlfr Jónsson, Pètr Einarsson, Þórdr Pètursson, Þorgrímr Gudmundarson oc Tumi Þorgrímsson er seinna bió at Skídastödum, oc adrir hinir bestu menn fyrir nordann oc vestann land; er ecki frá því sagt þó sumum oc hellst klerkunum, hafi nockr naudúng í verid; var þat inntak eydsins, at med því gud hefdi nidrslöckt allri ókyrrd blódsúthellíngarlaust, enn Christián konúngr þyrmi landsmönnum vid hegningu af herlidi sínu, oc land þetta jafnann legid undir Noregs krúnu lánga æfi, þá sóru þeir allir fyrir edalmönnunum sín oc allra landsmanna vegna, borinna oc óborinna, æfinlegan trúleik Christiáni konúngi oc Fridriki syni hans, svo sterkann sem verda mátti frekast at ordi qvedid; undir þat ritudu þeir nöfn sín oc settu innsígli á Oddeyri í Eyafyrdi, Mánadaginn nærstann eptir Barnabæ messu. Þá lètu einnin herramennirnir dóm gánga um þær sakir er þeir kærdu til Jóns biskups oc sona hans, enn beiddust varna oc forsvars í móti, ef nockr vildi eda fengi haldid uppi svörum barna Ará oc Biarnar prests, enn hellst af Þorleifi Grímssyni eda Jóni Magnússyni módrfedrum þeirra, svo at fè þeirra fèlli ei undan þeim oc undir konúnginn fyrir lögbrot fedra þeirra, enn hverki Þorleifr eda Jón eda nockr annara treystist at taka til varna, bádu heldr nádar oc vægdar fyrir barnanna hönd, at eigi væri þau svipt öllu, oc fengi fè til sæmilegs uppeldis, oc lögdu herramennirnir þat ríflega til; í því bréfi er þar var um giört, settu þeir Petr Einarsson fyrir umbodsmann sinn, oc svo giördi Otti Stígsson fyrir sunnan; var hverutveggia at Nordlendíngum haldi mióg

hiarta í stall drepid, enda verdr svó jafnan þá er menn ætla sèr ei hóf; var þó meiri hamíngia enn forsiá þeirra, er Jón biskup sat ei uppi oc synir hans, hefdi þá verr farid; syndist þar hugrecki þeirra manna, er höfdíngiar hafa verid þá í öld, oc svo sídann, at hid fyrra árid þordi enginn at mæla í móti einu ordi Jóns biskups, enn nú ecki lögvarnir framm at færa fyrir frændr sína þó þeim væri þat bodid; oc fer svo jafnann óvidbúnum oc fyrirhyggiulitlum er fènu treysta, oc egingiarnir eru; var nú dómr saminn sá er Oddeyrardómr er nefndr, þridjudaginn nærstann eptir Barnabæ messu; voru þeir fedgar dæmdir sannir landrádamenn, oc allt þeirra fè fast oc laust fallid undir konúnginn, at fráteknum lögmætum skuldum oc giöfum, oc þat er menn skyldu hafa fyrir skemdir af þeim; var fyrir dóminum Ormr Sturluson lögmadr, oc dómsmenn Þorsteinn Finnbogason, Ormr Jónsson, Gísli Jónsson, Vígfús son Þorsteins Finnbogasonar, Nicolás bródir hans, Einar Brynjúlfsson, Þormódr Árason, Þorsteinn Símonsson, Biörn Þorvaldsson á Æsustödum, Jón Grímsson á Ökrum, Asgrímr Jónsson, Brynjúlfr Jónsson, Hallr Egilsson, Þorsteinn Jónsson, Tumi Þorgrímsson, Jón Gíslason, Einar Sigurdarson, Ejólfr Arngrímsson, Eyvindr Gunnarsson, Jón Einarsson Brynjúlfssonar, Magnús Biarnason á Reykinm, Oddr Asmundarson Sturlusonar frændi Orms lögmanns, oc Þórdr Þorgrímsson; er svo sagt at Biörn prestr Gíslason hafi stadid upp úr Oddeyrardómi, hann hafdi verid sveinn Jóns biskups; enn klerkar eru þó ei nefndir med dómsmönnum; sídann ridu herramennirnir vestr til Hóla, oc margir Danir med þeim, var þar miög fámennt fyrir, enn þeir rannsökudu uppi oc nidri, oc tóku á brótt med sèr gullkaleikinn mikla, oc marga dyrgripi kyrkiunnar adra; fèll þá oc mikid í jördum undir konúnginn, eptir þá fedga, átti Biörn prestr þessar jardir á vestfiördum, oc fyrir nordann land, er svo hètu: Kaldadarnes oc Biarnanes, Backi, Reykiavík, Eyapartr, Kjós, Kèblavík, Kambr, Kèrsvogar, Finnbogastadir, Bær, Eyri, Ingólfsfiördr, Naust, Reykir halfir, Krákustadir, Torfustadir, Biarg, Biarghóll, Uppsalir, Túnga, Kollufoss, Svertíngstadir, Kálfstadir, Syrar, sydsti Hvammr, Gröf, Hlíd, Tannstadir, litla Hvalsá, Saurbær, As, Egilstadir, Skard í Skagafyrdi, Forsæludalr, Brecka, Litlihamar, stóra Borg, litla Borg, Vatnsendi, Hóll, Myri, Kressanes, Refsteinstadir, Titlíngstadir, efri Múli, Skaravík; þat voru

VII jardir hins fimta tugar, oc á hundrad kugildi, enn landskuld XLVI hundrud oc XL álnir; hafdi Biörn prestr alla stund verid fengsamr oc hneigdr til jardakaupa, oc var því svo audugr ordinn; enn eptir Ara féllu þessar jardir undir konúng: þverá, Hrafnstadir, Hollt, Gardshorn, Steindyr, Backi, Skáldalækr, Andresstadir, Halldórstadir, Vidir, Laugar, Dadastadir, Breidamyri, Hallbiarnarstadir, Gautlönd, Mödrufell, Hús, Núpufell, Skutr, Meldhaugar, Kjarni, Hraungerdi, Gilsbacki, Ingvildarstadir, Dadastadir; eru þær jardir hálfr þridji túgr, enn kúgildi med þeim voru I hundrad oc XL, landskuld var XXX oc IIII hundrud oc LX álnir; þarad auki voru jardir allar eptir Jón biskup, Biarnaness eignir oc adrar fleiri.

## CLI. Cap. Utanför herramanna.

Enn er herramenn höfdu lokid störfum sínum, fóru þeir utan um sumarid, var Nordlendíngum kærri qvedia þeirra enn koma, oc hellst fyrir þá sök at þeir óttudust óspektir af hernum, enn Helga Sigurdardóttir fór þá heim til Hóla, oc var henni leift at taka þat er hún átti þar; hún fór sídann at Ökrum til Gunnars Gíslasonar, er átti Gudrúnu sonardóttr hennar, oc var þar medann hún lifdi, höfdu herramenn látid stefna henni, þann mann er þorsteinn Jónsson hèt, því þeir vildu ná til alls fiár hennar, oc Jóns oc Gottskálks fylgdarmanna hennar; þar um lèt Ormr lögmadr dóm gánga vid Vallalaug, föstudaginn fyrir þórláksmessu, oc var dæmt málid undir hina skynsömustu menn, midvikudaginn eptir Michialsmessu; voru dómsmenn Magnús Biarnason á Reykium, þorsteinn Gudmundarson Andressonar, Sæmundr Simonarson, Oddr Philippusson, þorgrímr Gudmundarson oc Magnús Jónsson; enn ógiörla vitum vèr hvad hinir seinni dómsmenn dæmt hafa eda hverir voru, enn líkast at fallid hafi sakargiftir oc þótt ómerkar, er herramenn voru á brottu, enda konúngr eigi kallad eptir sídann jafnt sem þeir. Olafr biskupsefni Hialltason fór utann med edalmönnum; afhendu þeir konúngi mörg dyrindi, gull-kaleikin, oc ærid gull oc silfr, bagla silfrslegna af rostúngstönnum oc margt annad, oc gaf þó konúngr þeim herra-

mönnum aumt at auki; í þann tíma var uppgrafid at konúngsbodi lík Gissurar biskups, þar sèm Jón biskup hafdi látid þat nidrsetia, oc fært í hina fyrri gröf sína innann kyrkiu; þá komu oc út brèf Doctors Pètrs biskups Palladii til presta, bannadi hann þeim öllum þiónustu at fremia sem hèldu vid hinn forna sidinn, oc síndi í því ríki mikid er konúngr veitti hönum, þó hann væri ecki kalladr erkibiskup.

## CLII Cap. Dómar.

Þorsteinn bóndi Finnbogason lèt VI manna dóm gánga at Presthólum laugardaginn fyrir krossmessu um haustid; voru hönum þar dæmdar jardir nockrar, sem hann skyldi meiga helga sèr eptir Oddeyrardómi, oc giöf Finnboga lögmanns födr síns fiögr hundrud; enn Midvikudaginn eptir Michialsmessu, lèt Ormr lögmadr dóm gánga vid Vallalaug, um Kaupmálabrèf Þórunnar í Grund, oc um samkaup Isleifs bónda oc Þórunnar; hann dæmdi oc at Múnkaþverá um landamerki milli Baldrsheims oc Grænavatns; Erlendr lögmadr lèt dóm gánga at Backárholltí í Ölvesi, um þá menn er heitast vid adra, þá var enn dæmdr dómr um efaskatts; oc enn at Hólum af Byrni presti Gislasyni er Officialis var, um sydri Ey á Skagáströnd, er Gottskálk prestr Jónsson í Glaumbæ kærdi til, vegna Christínar Gottskálksdóttr módr sinnar.

## CLIII Cap. Frá Klaustra mönnum.

Þessi missiri lagdi Helgi ábóti Höskuldsson af Þíngeyraklaustr med öllu, því fylgdi hálfr siöundi tugr jarda er fèll undir konúnginn, enn Helgi átti þá X vetr eptir ólifada, oc vard hann gamall miög; þar var Þíngaprestr þá um átta vetr Þorlákr Hallgrímsson frá Stadarbacka, oc var þar Gudbrandr sonr hans med hönum, enn Helga var á búi þeirra á Torfalæk oc Þórdr son þeirra; þá lèt oc Thómas abóti Eyríksson af Múnkaþverár klaustri, af því at hann hafdi svarid konúnginum, enn Ormr lögmadr hèldt klaustrid, fylgdu því VII jardir hins VIta tugar, er mælt þar hafi verit brèfa safn mikit, oc sá málsháttr þar af kominn, at nockud

sè eptir gömlum Múnkaþverár brèfum. Þyckvabæar klaustri fylgdu VII oc XL jardir, þar hafdi enginn ábóti verid eptir Sigurd; enn Helgafells klaustri, er fyrir laungu var tekid af Petri oc Dada, fylgdu X tygi jardir; II oc XL jardir fylgdu Kyrkiubæ, enn hundrad oc XVI Videy; þát klaustr tóku Danir fyrir laungu, oc fyrst allra, enn Alexius ábóti fór til Klaustrhóla í Árnessþíngi, oc hafdi Grímsness jardir, hönum var óleidr hinn nýi sídrinn; þar eru hellr undir kyrkiunni eda bænum er ábóta hellr eru kalladar, þær er mælt hann hafi flutt þángad einn samann, oc var þá gamladr, enn ólíkindi eru til þess fyrir vaxtar sakir þeirra, VII jardir hins VIta tugar fylgdu Mödruvallaklaustri, enn VI oc XL Reinistad; þar var Solveig Abbadys Rafnsdóttir, systir Brands priórs, oc sá konúngr henni farborda sem ödrum klaustra mönnum, lifdi hún eptir þat XI vetr oc vard gömul miög. Brandr priór bródir hennar var seinastr at Skriduklaustri, hann var þar XVII vetr, enn ádr miög lengi prestr at Hofi í Vopnafyrdi, oc fadir þeirra Rafns lögmanns er Þórun Jónsdóttir átti fyrrum, Árna oc Sniólfs; hálfr þridji tugr jarda fylgdi Skriduklaustri siálfu, enn XII nefnast austfiardajardir þar at auki.

## CLIV Cap. Leitat hefnda eptir Christián.

Þessu nærst giördi vetr hardann, oc kom á Magnúsmessu fyrir jól, þat er hinn XIIIdi Decembris mánadar, med blotum oc miklum fannfergium, linadi eigi fyrri enn á páskadaginn, enn þat var fiórdi dagr Aprilis, fèll þá mikill qvikfènadr, oc hellst fyrir Skálhelltsstad, svo at Votmúli í Flóa er þá var eydiból, var seldr undann dómkyrkiunni um vorid fyrir qvikfè, oc L kúgyldi lèt Marteinn biskup færa heim til sín úr Biskupstúngum, giördi þá oc landskiálfta mikinn. Þá gèck domr at Krossholltí í Eyahrepp at Dada Gudmundarsyni, þvi hann hafdi þá syslu í Þórnessþíngi, um hreppstióra skipan; gaf Christián konungr Torfa Syni Sigfúsar (Sigurdarsonar) Brumanssonar, grid fyrir víg Hálfdánar Þórarinssonar, er hann hafdi bættann XL hundrudum, sá Torfi bió sídann at Hrauni; enn Þorleifr Grímsson sættist vid Þorstein Gudmundarson um fegord frændkonu sinnar; þeir Þorsteinn Finnbogason oc Sigurdr prestr Jónsson sömdu oc med sèr um jarda

hinum nya sid á, oc fylgia framm hreinni kenníngu Guds orda, oc sídann alla stund médann hann var biskup; hann galdt þá Halldóri Sigurdarsyni nockrar jardir í þiónustulaun, sem hönum höfdu dæmdar verid fyrir bót á Laufás-stad, oc til skildi at Halldór gæfi Bergliótu Oddsdóttr Neslönd í tilgiöf, ef rádahagr þeirra tækist. Þat var eitt af eyrindum Páls Hvítfelds höfudsmanns, at konúngr baud hönum at skipa hèr tvo latínu skóla til læríngar úngum mönnum, sinn ú hverium biskups stól, oc skyldi setiast gudhræddr oc vellærdr rector eda meistari yfir hvern, oc svo heyrari; þar med skyldi Páll Hvítfeldr med rádi biskupa beggia, taka svo mörg kúgyldi oc hundrud eptir landsvísu, af dómkyrknanna fè sem þörf syndist oc leggia til launa skólameistrurum oc heyrurum, oc svo skólasveinum til klædnadar oc fædis, oc skipa þessu öllu svo fastlega, at enginn fègiarn biskup, ef sá yrdi nockr, kynni at spilla á nockrn hátt þeirri rentu skólanna, til þess er konúngr giördi þará vissa skipan siálfr, oc verdr sagt frá því seinna, hversu þat gèck; enn þó at sumar þær atferdir Dana vid landit er nú hafa verid táldar, þætti nockud harddrægar, eptir því sem þeim mönnum var varid, er þeim skyldu framfylgia, oc þarmed miduđu þá í bráđ til at mínka ríki biskupanna, enn einnin annara valdamanna sídar, þat er haldist hafdi sídann höfdíngia stiórninn var í landinu, oc yrdi fyrir þá sök óvinsælar, svo at þær gáfu Jóni biskupi Arasyni oc ödrum stóreflismönnum tilefni til at leggiast í móti konúngsvaldinu, oc telia sèr þat fyrir födrlands hollustu, þó straumbrot þau væri stofnud af órádi á móti sínilegu ofrefli; þá giördist þessi umhyggia Christiáns konúngs, oc annara hans kynsmanna sídann, at hinum mesta hagnadi alþídunni er stundir lidu, því at svo tókst happsamlega til at konúngarnir voru mildir oc giörhugulir, oc fóru vel med yfirrádum sínum.



# IVdi Hluti

tekr yfir ofanverda XVIdu Auld, framm yfir harda vetr; í saugu-formi.

Hèr segir frá Höfdíngia tölu vid sidaskiptin, oc sonum Jóns Magnússonar á Svalbardi; skòli er skipadr, oc frá sidabreytni; frá Oddi Gottskálkssyni oc ödrum höfdíngium, oc utanför Marteins biskups; fráfall Odds; oc frá ímsu er vidbar; vígist Gísli Jónsson til Skálhollts, oc frá höfdíngia dauda oc lyktum Vatnsfiardamála; frá Gísla oc Olafi biskupum, oc fráfalli Dada í Snóksdal; um Pètr Einarsson, Orm Sturluson, oc adra hluti er þá skèdu; audlát Olafs biskups oc höfdíngiaskipti á landi, Gudbrandr Þorláksson vígdr til Hóla; segir frá Arna Gíslasyni oc hans frændlidi, ydn Gudbrands biskups; aftekin vopn, oc frá

M

ímsu því er sídann skèdi; rœndr Eggert Hannesson á Raudasandi, enn frá biskupum, Gudbrandi oc Gísla; Gudbrandr óvingast vid Jón lögmann. Magnús Jónsson dœmir vopnadóm; fráfall Arna Gíslasonar, oc Gísla biskups, enn Oddr Einarsson kemr í hans stad; taka til mál Gudbrands biskups oc Jóns lögmans, oc segir jafnframt frá mörgu ödru; enn Páll á Stadarhóli vill fá Halldóru biskupsdóttr, at Helgu Aradóttr konu sinni lifandi. Mál Gudbrands biskups oc annara manna; einnin frá máli Biarnar Magnússonar; enn eptir þat kemr hardi vetr, oc mörg umskipti; segir medal annars frá vidtali Odds biskups Einarssonar, oc Ragnheidar Pálsdóttr at Hollti í Önundarfyrdi.

## I Cap. Imsir höfdíngiar taldir, oc fleiri menn.

I þann tíma er Islendíngar unnu eyda Kristiáni þridia Dana konúngi oc Fridriki syni hans, oc páfatrú var fyrirbodinn á öllu landi, var Otti Stigsson hyrdstióri eda höfudsmadr, enn biskupar, Marteinn Einarsson í Skálhollti, oc Olafr Hialltason at Hólum; Erlendr Þorvardsson á Strönd í Selvogi, hafdi lögsögn sunnan oc austann, enn Ormr Sturluson nordann oc vestann; Ormr hafdi farid utann, er hann var úngr, oc sem hann var í Danmörku, í húsi nockurs tígins manns vid dryckiu, hafdi hann hengt hvaltannar lúdr sinn silfrbúinn á nagla einn; þar kom inn Frídrikr son Christiáns konúngs med hofmeistara sínum oc ödrum sveinum, enn Ormr kenndi hann ei. Konúngs son leit á lúdrinn, oc skodadi hann, oc spurdi hverr ætti? Ormr svaradi at hann heyrdi hinum únga herra til ef hann vildi eiga. Konúngs son leit til hofmeistarans, oc vildi láta hann launa fè, enn þess er ei gètit hvert af því vard; er mælt at konúngsson hafi heitid því, at reinast Ormi nádugr herra, þegar hann fengi meiri rád enn þá voru, oc neyta hönum aldrei um þat er hönum væri gagn í, oc þess naut Ormr opt sídann; Ormr setti saman sakargiptir um Þorleif lögmann Pálsson, Petr Einarsson, oc Dada, er þeir kölludu róg, er þó ei gètid at til skada kæmi. Ormr fèck Þorbiargar dóttr Þorleifs Grímssonar á Mödruvöllum, oc Sigrídar Sturludóttr, er þau voru bædi XIX vetra, þau biuggu undir Felli á Fellsströnd, hafdi Ormr talid sèr VI hundrud hundrada, hálft í föstu enn hálft í lausu, enn sumir segia XII hundrud hundrada; enn Þorbjörgu voru gefinn III hundrud hundrada, adrir segia VI; Ormr tók vid lögsögn eptir Þorleif Pálsson, oc hèllt Múnkaþverár klaustr, hann seldi Dada í Snóksdal Saudafell, er þeir Jón biskup oc synir hans ákærdu, oc fleiri jardir; hann var eptirlátr vid of í lögsögn sinni, oc neytadi engum, var þat máltak hans vid hvern mann: þat skaltu fá, þat skaltu fá; var opt hver hans úrskurdr í móti ödrum, svo at dómar hans voru nærsta haldnir ómyndugir, fèck hann af slíkum undarlegum frammferdum óvild höfdíngia, oc kom svo at þeir klögudu hann; var oc eckert hóf á örleika hans, oc hèt hann því mörgu er hann hafdi eigi til,

fyrir því endtist hönum lítt, þó hann tæki erfdir miklar, oc hefdi inntektir stórar. Asmundr er sagt hafi heitid bródir hans Sturluson, oc hefir hann annad tveggia eldri verid miklu oc ecki sammædra, edr hann hefir verit bródir Orms at móderni einu, því at Gudlaug dóttir Finnboga lögmanns, módir Orms, var fyrri gipt Oddi lögmanni Asmundarsyni; son Asmundar Oddr var þá roskinn er hèr var komid, hann var fadir Rafns í Skördum; enn þeir voru synir Rafns, Petr hinn sterki, oc Jón fadir Rafns á Ketilsstödum, oc Eyríkr. Erlendr lögmadr var vígamadr sem sagt hefir verid, oc kom sèr framm med því hann fylgdi vel Gissuri biskupi móti páfasid, hann var forn í háttum, enn þó vitr oc forsiáll, hann var haldinn qvenna madr oc margkunnugr. Sigurdr í Búdardal átti Steinunni systr Orms lögmanns, þeirra son var Jón rebbi er niósnadi til Stadar fyrir Dada; Eggert son Hannesar hyrdstjóra Eggertssonar, oc Gudrúnar Biarnardóttr Gudnasonar, bió at Bæ á Raudasandi, hann var edalmadr ríkr, oc óvildarmadr Orms, hafdi hann hyrdstjóra umbod nockra hríd; Biörn hèt bródir hans, er mægdist vid Dada; fleiri voru nidiar Biarnar Gudnasonar ríkismenn vestra, Torfi son Sigfúsar Brúmannssonar, oc Jón Olafsson í Hiardardal, hann hafdi syslu í Dölum medan Olafr fadir hans í Þernuvík lifdi, sá er hafdi syslu í Isafyrdi um hríd; Jón átti Þóru dóttr Biarnar Gudnasonar, oc höfdu þau samann verid XVII vetr er aftaka Jóns biskups skèdi; Torfi á Kyrkiubóli í Lángadal var son þeirra, er sídann fèck Þorkötlu dóttr Snæbiarnar Halldórssonar austann frá Keldum, hún var mikil skartskona, þeirra son var Snæbjörn prestr á Kyrkiubóli; Olafr í Hiardardal oc Biarni í Önundarfyrdi fadir Brynjólfs prests í Hiardarholti, oc Brynjólfr er átti Brigidu dóttr Pantaleons prests, voru seinni konu synir Jóns Olafssonar, þá bió í Snóksdal Dadi Gudmundarson, oc var ríkr oc audugr, oc hafdi konúngstraust mikid; hann hafdi ímist syslr, stundum Stranda eda Dala eda Bardastrandar, stundum allt Þórnessþing eda Borgarfiörd, oc þarmed Prófastsdæmi. Ingvildr Arnadóttir var lengi fylgikona hans, enn önnr Evphemia Petursdóttir, hún var heima í Snókdal, oc vyrdi hann hana sem eginkonu sína, enn þó gipti hann hana Biarna Sumarlidasyni á Feltsenda, oc gat henni Bæ í Hrútafyrdi L hundrud, skyldi sú jörd aptrhverfa í ætt Dada, ef hún ætti ei börn, oc vard þat. Dadi átti Gudrúnu Einarsdóttr systr Marteins

biskups, þeirra son var Einar; Þórun hèt dóttir Dada, hennar fèck Biörn Hannesson bródir Eggerts, oc er margt folk frá þeim; margt er oc komid frá systkinum Dada í Dölum oc vídar. Petr Einarsson bródir Marteins biskups hafdi þá einn mestann uppgáng í landi hèr; Jón Jónsson í Bæ hafdi Borgarfiardar syslu, Jón Biarnarson Arness-syslu, Páll Vígfússon at Hlídarenda Ràngárþíng; Jón Hallsson skáld at Næfrhollti, oc at Eyvindará, hafdi haft þar syslu, oc átt þá Holmfrídi Erlendsdóttr, veit eg ógiörla hvert hann lifdi er hèr var komid; Biarni Erlendsson á Ketilstödum hafdi Múlaþíng. Þorsteinn Finnbogason lögmanns þíngeyar þíng, hann var þá gamall, enn synir hans nefndarmenn, Nicolaus oc Vígfús; Þorleifr Grímsson bió at Mödruvöllum í Eyafyrdi, oc hafdi Vadlasyslu er hèr var komid, hann var audugr miög, Grímr hèt son hans, enn dætr Halldóra, er Ari lögmadr hafdi átta, Þurídr, hún var gipt Eyriki syni Sniólfs undir Asi Rafnssonar lögmanns; Þorbjörg átti Orm Sturluson, Sigrídr Eggert Hannesson. Hallótta var lengi ógèfinn heima. Þormódr Arason hafdi Húnavatnsþíng, bródrson Biarnar í Ögri. Gísli Hákonarson bió at Hafgrímstödum í Skagafyrdi, enn adra stund at Leiníngi í Eyafiardardal, hann var þá gamall, enn synir hans voru mannadir; Biörn prestr var officialis; Gunnar er sagt búid hafi at Ökrum í Skagafyrdi, enn þat var þó eign Jóns Grímssonar, oc seinna bió hann at Vídivöllum; Arni hèt einn, hann giördist seinna mikill höfdíngi, oc med því bragdi voru Gíslasynir allir; margir voru þá uppi fleiri nefndarmenn, þótt eg kunni fáa at nefna, enn þessara má gèta. Jón Magnússon bió at Svalbardi vid Eyafiörd, Þorlákr Einarsson bródir Gissurar biskups at Núpi í Dyrafyrdi, Þórdr Gudmundarson at Þíngnesi í Borgarfyrdi, Brynjólfr Jónsson í Biarnanesi austr, Biörn Þorvaldsson at Æsustödum í Eyafyrdi, Ormr Jónsson at Drablastödum nordr, Einar Brynjólfsson at Espihóli, Magnús Biarnarson at Reykium í Túngusveit; þá voru enn Jón Grímsson, Stígr Höskuldarson, oc synir Torfa í Klofá oc sonasynir; Torfi Sigfússon at Hrauni í Dyrafyrdi, Egill Jónsson at Skardi í Lángadal Einarssonar, hann var yfirgángs mikill, Oddr Gottskálksson at Reykiahollti, Snæbiörn Halldórsson at Heidum, Arni Petrsson í Storadal í Eyafyrdi, Þorbergr Bessason, Biarni Skúlason voru enn uppi. Þessir voru fremstir af Klerkum er þá voru: Sigurdr prestr Jónsson at Grenj-

jadarstad nordr, Biörn prestr Gíslason, hann hèllt þá Mödruvalla klaustr, Jón prestr Matthiasson at Breidabólstad, Loptr prestr Petursson í Vídidalstúngu, Gottskálk prestr Jónsson í Glaumbæ bródir Egils at Skardi, Torfi prestr í Saurbæ, son Jóns priors Finnbogasonar lögmanns, hann var svo fastheldinn vid hinn forna sid, at hann misti prestskapar sídann, hans dóttir var Málmfrídr milda; fleiri voru mikilsháttar fyrir nordann land, enn fyrir sunnann, oc svo vestra oc eystra: Snorri Hiálmsson í Hollti prófastr, Brynjólfr Halldórsson í Odda, Oddr Halldórsson í Gaulveriabæ, Simon Jónsson í Kálfhollti, son Jóns raudkolls Hédinssonar, Biörn Olafsson í Hruna, Loptr Narfason í Gördum á Alptanesi, þar lifdi þó Einar prestr Olafsson, oc svo miög lengi þar eptir, var hann gamall heldr enn þótti jafnan mikilmenni; Olafr Kolbeinsson var at Saurbæ á Hvalfiardarströnd; Jón Einarsson yngri bródir Gissurar biskups at Mosfelli í Grímsnesi, Asgeir Hákonarson at Lundi, Eyrikr Jónsson at Reykiahollti, Loptr Þorkelsson at Husafelli, hann segia menn verid hafi son Þorkels Vellíngs í Skorradal, oc födrfödrbródr Asgeirs prests at Lundi, hefir hann verid yngri miklu brædra ef svo er, oc þó gamall er hèr var komid, hann var fadir Skapta prests at Setbergi, oc Ingibiargar módr Arngríms lærda, oc þiónadi Reykhollts kyrkiu þá Oddr Gottskálksson hèldt stadinn. Eyrikr Grímsson var at Gilsbacka, Freysteinn Grímsson í Stafhollti, Arni Arnórsson í Hytardal, sá er mest var hraktr, Finnr bródir hans var oc prestr, hann átti Jófridi, þeirra son var Steinþór ér syslu hafdi á ströndum, oc Akramenn eru frákomnir. Þorleifr son Biarnar Þorleifssonar var at Stad á Reykianesi, Gísli Jónsson í Selárdal, Jón Þorleifsson í Vatnsfyrdi, Einar Arnason eystra.

## II Cap. Frá sonum Jòns Magnússonar, oc Helgu.

Jón Magnússon at Svalbardi átti Ragnheidi Petrsdóttr Loptssonar, þeirra synir voru Magnús, Jón, Páll oc Sigurdr, þeir voru allir mannvænlegir at siá oc vel viti bornir, oc launson átti Jón Magnússon er Kolbeinn hèt, sem Magnús segir í visunni;

Sigurdr, Jón oc Kolbeinn Klackr,
kenni eg giörla hann Mánga,
oc þó hann Páll sè augnaskackr,
allir meiga þeir gánga.

Magnús bió í þann tíma oc var qvæntr; dætr Jóns Magnússonar voru: Þórdys er gipt var Þorgrími Þorleifssyni í Lögmannshlíd, Steinun er fylgt hafdi Byrni presti biskupssyni, oc Solveig er átti Philippus er veginn var at Svínavatni. Ragnheidr kona Jóns Magnússonar var öndud, oc hafdi hann fengid Gudnyar dóttr Gríms Pálssonar, hún hafdi ádr verit gipt Jóni Sturlusyni, oc var þeirra son Grímr tvídaudi, hinn ódi madr, enn dóttir hennar var kona Magnúsar; ecki áttu þau Jón Magnússon oc Gudny börn samann, voru þau gömul bædi, enn Jón hafdi umbod Gríms í fyrstu, því Grímr átti LXVII hundrud, enn Magnús tók vid sídann, oc hafdi umbodid í VI ár; var þeim fedgum dæmt at gæta Gríms, oc lagt fyrir hann forlag, enn þareptir erfdi Gudny Grím. Jón Magnússon var sár lengi, því at sú sótt var þá tíd, enn nú veit engin víst hve hún var, vildi hann ei láta græda sig. Þórunn dóttir Jóns biskups Arasonar bió at Grund í Eyafyrdi, oc var köllud húsfrú, hún var hardsinna oc ríklundud, þar ólst upp med henni Helga dóttir Ara lögmanns, henni var miög haldid framm, oc hafdi mikid yfirlæti. Þat var einn dag at Þorleifr á Mödruvöllum módrfadir hennar reid í Kaupstad, oc Solveig kona hans; þá fôr Helga at heimann, oc reid vid fimta mann til Mödruvalla, allt at túngardinum, oc lèt þá þar aptr hverfa, enn hún fôr heim; Hallótta var heima oc nockr úngmenni. Helga var allann dag í Kyrkjunni, oc leitadi lykla Þorleifs, fann hún þá um sídir undir Þilgólfinu, oc lauk upp kistum þeirra Solveigar, skodadi hún öll brèf þeirra, oc tók sitt brèf úr hverri kistu Þorleifs, þau voru III, vár eitt med þremr innsiglum, annad med tólf, hid þridia var pappírsblad, þat reif hún í sundr, oc trad ofann í gólfþilsholurnar med knífi; Hallótta gèck framm oc aptr um kyrkiuna og gætti ecki ad, enn bad hiartans systr sína ad taka ecki brèfinn. Helga svaradi: Gud láti þat satt vera systir mín god! eg svíki þig ecki; hún var þar allan dag til náttmála, komu þá aptr menn hennar og reiddu hana heim. Þorleifr fèck aldrei at vita þennan atburd, enn saknadi þó brèfanna, fèck Sol-

veig svo umstillt at Helga skiladi þeim eptr þremr vetrum seinna, er hûn hafdi látid eptir þeim ríta, var þeim komid í kistu Þorleifs, oc fann hann þau þar ófyrirsyniu; mælti hann þá sem hann var vanr þá hönum gèck nockud í vil: Gud oc hinn mildi Martinus sè lofadr, hann gefr oss nógu gott. Þó var spillt brèfum Þorleifs af ættmönnum Jóns biskups, oc leiddi af ágreiníngs sídann. Páll son Jóns Magnússonar á Svalbardi, setti miög hug sinn eptir Helgu, hann var brotamikill, oc undarlega látadr enn þó vel viti borinn,

## III Cap. Skólaskipan oc önnr breytni.

1552 Páll Hvitfeldr höfudsmadr skipadi tvö Latínuskóla at konúngsbodi, annan í Skálhollti enn annann at Hólum, skyldi at Hólum vera einn skólameistari oc einn heyrari, oc XXIV ölmussusveinar á stólsins kost, enn til launa skólameistaranum oc heyraranum, skyldi Páll Hvitfeldr taka af Dómkyrkiupeníngunum, svo margar jardir oc kúgildi sem þörf syndist; fyri því kom út med Olafi biskupi til Hóla skólameistari danskr, sá er Laurentius hèt; enn í Skálhollti skyldi vera einn Rector, tveir heyrarar oc XL skólasveinar, var ætlad í laun skólameistarans afgiald af Þerney, oc VI jördum ödrum er Skálhollts kyrkia átti þá sudr med sundum; oc svo at þvílík skipan konúngs hindradist sídar, fyrir lærdómsleysi manna í landi hér, var sendr út til Skálhollts danskr skóla-
1553 meistari er Olafr hèt; enn Christián konúngr gaf út nádarbrèf sitt sunnudaginn Oculi þar eptir, í Nyuborg, fyrir medalgaungu Doctors Petrs Palladii, oc lagdi Skólameistaranum á Hólum Krossanes med tveggia hundrada landskuld oc V kúgildum, Hól med hundrads landskuld V kúgildum, Asláksstadi med hundrads landskuld, V kúgildum, Steinstadi med II hundrada landskuld, V kúgildum, Engimyri med hundrads landskuld, V kúgildum, Búdarnes med hundrads landskuld, V kúgildum, Efstaland med hundrads landskuld, V Kúgildum, oc Myrkárdal med hundrads landskuld V kúgildum; enn heyraranum lagdi hann Gardshorn med hundrads landskuld oc V kúgildum, Litla Arskóg med tveggia hundrada landskuld VI kúgildum, oc Halland med tveggia hundrada landskuld V kúgildum; skyldu þær landskuldir oc kúgildi haldast vid

af fè stiptisins svo at eigi fèlli af; fóru í þann tíma þángad med ödrum í skolann Gudbrandr son Þorláks prests Hallgrímssonar, hann var þá XI vetra, oc Einar son Sigurdar prests Þorsteinssonar oc Gudrúnar Finnbogadóttr, hann var þremr vetrum eldri; lagdi nú Olafr alla stund á er mátti, at burttaka oc brióta krossa oc líkneskiur, þar sem hann ætladi til vantrúar oc áheita haft vera; hann braut kross á Stad, oc annan at Bardi er mestr átrúnadr var á hafdr; enn ei hafdi hann miög at fagna biskupstigninni, heldr vard hann at mæta margskonar mædu oc mótgángi, óvild oc fyrirlitníngu af sumum, er fast fylgdu hinum forna sid, enn hötudu hinn nya; þótti þeim hann smáættadr, oc rausnarminni enn þeir er fyrir hann voru, oc mundu þó þat framar auglyst hafa, nema hrædsla fyrir konunginum oc eydum þeim hinum sterku, er þeir höfdu hlotid at vinna, hefdi í móti stadit; var enginn erfidari enn Þorunn á Grund dóttir Jóns biskups, vildi hún enganveginn afleggia hinn forna átrúnadinn, oc ecki gialda skyldr sóknarpresti þeim er biskup skipadi þángad; bækr voru þó þá útkomnar fáeinar í landi, prentadar, hafdi Oddr Gottskálksson lagt út nya Testament oc Corvinusar postillu, einnin píníngar historíu, hinn LIII Capitula Esajæ spámanns med nockurri útskyríngu, oc um eydíngu Jorsalaborgar, enn þat þrennt eptir þat er Olafr biskup kom út. Miög var þat á annan hátt enn fyrr hafdi verid, um fèdrátt undir kyrkiur, á dögum Olafs biskups, því hann giördi bréf oc samníng um kyrkiuskuld at Asi í Kelduhverfi, þridjudaginn fyrir Ægidiusmessu, vid Vígfús bónda Þorsteinsson er Þíngeyar syslu tók eptir födr sinn; gètr hann þar þess, at Vígfús bóndi sagdi kyrkiuna eiga XX hundrud í heimalandi at skipan biskupa; enn kyrkiur eigi ecki, at Guds lögum fornum, oc tilætlan þeirra er þær lètu smída af ást vid Gud, at eiga neina fasteign, hèldr uppheldi þeirra er þeim þiónudu, fyri því skyldi Vígfús bóndi laus vera af þeirri áþian er hinir fyrir biskupar hefdi ránglega innleidt, oc greida kyrkiunni at eins XX hundrud í frídum peníngi, taka þar uppi kyrkiu uppgiördina fyrir XII hundrud oc þat hann galdt henni merkr kaleik fyrir IV hundrud, messubók fyrir þriú hundrud, oc tvo koparhiálma fyrir I hundrad, oc giöra uppkórinn, enn leysa til sín ólöglega undandregid heimaland, fyrir þetta hèt Vígfús biskupi

fylgi sínu, oc svo þeir hverr ödrum; oc má þat ætla at eigi hafi minnst studt ráð hinna fyrstu biskupa er fylgdu hinum nyu sidum, þá er þeir fengu fylgi leikmanna ríkra, er leidr var hinn forni ágángr.

## IV Cap. Frá Marteini biskupi.

Marteinn biskup í Skálholti lèt þessi missiri reka heim XIV kúgildi frá Hofi, hann átti oc vid at strída margfalda þverúd oc þrályndi flestra hinna eldri manna, er ei vildu láta hinn forna sidinn, oc svo fáfrædi hinná úngu presta, er hann hlaut at vígia hveria þá sem hann fèck, oc fá þeim bækr er þeir þurftu at hafa, ef þeir máttu lesa á bók, hafdi oc hatr oc óvild af vinum oc vandamönnum Jóns biskups Arasonar, einnin í embættisferdum sínum; hann visiteradi þetta sumar er nú hefir verid getid, þar qvedr svo at í visitatiu hans um Rángarvalla syslu: kyrkiann at Eyvindarmúla á prestskyldu í heimalandi eptir gömlum máldaga, oc liggia til tveir bæir, þar fæ eg eckert svar. Kyrkiunni í Dal hafdi Ejólfr lögmadr gèfid hálfa sydstu Mörk, oc Sandahússvöll hálfann undir Ejafiöllum, átti kyrkiann ádr bádar þessar jardir hálfar fullkomlega, þar fæ eg hiá Ejólfi engann reikníng, segir Marteinn biskup; enn Ejólfr var mágr Jóns biskups sem menn vita, oc sonarsonr Ejólfs lögmanns; oc svo var vídar, seinna var oc fleira þat er tilbar, Marteini biskupi til mótfallis, oc mun þat enn greint verda.

## V Cap. Frá ríkismönnum.

Um sumarid kom út Páll Hvítfeldr hyrdstióri, oc med hönum konúngsmadr Danskr Jacob Hvíti, oc Jón Simonarson lögmadr í Noregi, nafnkunnr madr; Páll Hvítfeldr lèt Eggert Hannesson halda umbodi því er hann hafdi; hönum höfdu fyrst verid fengnir Bessastadir oc Gullbríngusysla, enn þat ár er Jón biskup fèlst, hafdi hann haldit Isafiardarsyslu, oc látid þá dóm gánga um Olaf Gunnarsson oc brædr hans, er söthiuggu Brynjólf Sigurdarson; sídann hafdi hann farid til Flensborgar, enn komid út aptr vetri

sidar; Páll Hvítfeldr var bródir Kristófors Hvítfelds, oc hraustr madr, hann flutti út vid til Dómkyrknanna; hann útgaf þetta summar medkenníngarbréf sitt konúngsins vegna, fyrir hálfu lausa fè Jóns biskups oc sona hans, er konúngi hafdi dæmt verid. Pètr Einarsson hèldt þá Reinistadar klaustr eitt ár, oc skyldi gialda eptir XV Joachimsdali, oc uppheldi abbadysarinnar oc systranna; hann vildi ecki gialda, oc því tók hyrdstiórinn þat af hönum med brèfi at bodi konúngs, tók þá fyrst at þverra vinátta Dana vid hann; ímsir ríkismenn hèldu konúngsjardir í fyrstu fyrir lítil afgiöld, vídar enn þeir sátu siálfir á. Páll Vígfússon at Hlídarenda segia menn um nockr ár hafi goldid XIV dali eptir XIII jardir í Kiósar oc Árnesssyslum, oc V í Rángarvallasyslu; enn Dadi eptir alla þá syslu er hann hèldt, III tunnr smiörs, oc tveggia edr þriggia manna útgiörd sudr á Nes um vertíd; Dadi hafdi oc haft fyrir nockrum árum af Marteini biskupi prófastsdæmi milli Geirhólms oc Lánganess, enn prófastar tóku þá sakeyri oc giafstolla; þessi missiri fóru fram dómar nockrir; einn af Jóni bónda Jónssyni syslumanni í Þverárþíngi um ólöglega jarda ábúd; annar at Storólfshvoli, lèt Páll Vígfússon dæma um vinnufolk siúkt, enn Dadi Gudmundarson XII manna dóm um lausa menn; hyrdstjórinn hafdi tekid af Ormi Sturlusyni lögdæmi oc Múnkaþverár klaustr, oc veitt klaustrid Grími syni Þorleifs Grímssonar, hann hafdi þá umbod födr sins í syslunni; hann lèt dóm gánga at Spialdhaga á þriggia hreppaþíngi um klögun Þorleifs, at Grímr fadir hans hefdi fengid Vígfúsi Erlendssyni jardir, í samníng uppá rèttarbót Hákonar konúngs, er Þorleifr þóttist eiga oc systkin hans, med því rèttarbót sú hefdi ónytt verit, oc dæmdust Þorleifi oc hans systkinum jardirnar. Konungr veitti Ormi aptr lögsögu oc klaustrid, enn þó skyldi hann eigi lög seigia fyrrenn goldit hefdi konúngi skuldir sínir. Þorsteinn bóndi Finnbogason gaf Byrni presti Gíslasyni, þá hann lifdi, brennistein í fremri námum, því hann átti brennistein allann; ætla eg hann andaet hafi á þeim missirum í Hafrafellstúngu, oc þótti verid hafa höfdíngi mikill, því þá fèck Nicolás Þorsteinsson Vígfúsi bródr sínum brennistein í fremri námum oc Hlídarnámum. Vígfús hafdi lengi haft syslu í Þíngeyarþíngi med födr sínum, edr til skipta vid hann, hann bió at Asi í Keldubverfi, oc átti Onnu Ejólfsdóttr frá Dal, oc Hólm-

fridar Erlendsdóttr, voru þeirra börn Þorsteinn, Jón oc Þorbjörg. Þau missiri hafdi Ormr Sturluson Húnavatns syslu, því konúngr hafdi veitt hönum hana ásamt lögdæmi, oc skyldi hann hafa afgiöld hennar í lögmannslaun, enn þat vard eigi lengi. Þá festi Þorsteinn Gudmundarson Þorunni á Grund, unnustu sína forna, med rádi Sigurdar prests bródr hennar, oc taldi sèr III hundrud hundrada, enn Þorunni VII hundrud hundrada, voru þrímennings mægdir á, enn Olafr biskup oc Ormr lögmadr leifdu þat hiónaband eptir rèttum Gudslögum; gètit er oc fleiri giörnínga Orms, oc svo annara manna, medal þess var at Jón bóndi Magnússon á Svalbardi oc Gudny kona hans, seldu Gunnari Gíslasyni Mannskadahól, í umbodi Magnúsar sonar Jóns, oc Jón Olafsson keypti tilkall í Hiardardölum bádum, er Gudmundr Gudmundarson oc Sigrídr kona hans mætti eiga.

## VI Cap. Tregleiki á Sidabreytni.

Ecki var þat svo audveldt sem menn kynni hyggia verid hafa, þar sem svo mikill ótti hafdi verit syndr landsmönnum, at koma hinum nya síd á, enn aftaka forn hindrvitni; hèldu þar til margar orsakir; lènsmenn þeir er af konúngs hendi voru skipadir, höfdu byriad sidaskiptinn med ágyrni oc áseilni, oc urdu þau því framar óvinsæl, enn af hinum nískipudu biskupum leitudust þeir vid at draga valdid med öllum hætti, þar sem andlegir voru nú jafnt sem veraldlegir komnir undir konúnginn, þurfti sá afdráttr at vera um sumt er offrekt var ádr, enn hvergi nær um allt. Þverrudu oc inntektir biskupa stórum þegar aflögdust vökr, messr, sálumessr, osttollr, skædatollr, lambatollr, fiskatollr, oc annad er fskylda var köllud, oc fylgdi hinum forna síd, oc renadi álit þeirra med mínkun inntektar; enn vid þat er slíkt vald gèck frá biskupum sem ádr var, at refsa stórbrotamönnum, voxu ósidir oc siálfrædi, er folk allt var þeckíngarlaust, oc hafdi ei enn med röksemdum kènnt ordit at hinn nyi sidrinn væri betri, nè hafdi vit eda vilja til at siá slíkt; mönnum var at eins naudgat til at fylgia hönum; ætludu þá sumir at lausir mundu vera vid allt lögmál, oc alla kyrkiusidi, enn tilbádu þó ei at sídr helga menn, bylæti oc krossa; prestar fengu ei at halda hinum fornu tekium

sínum sem þeim var heitid, oc vildu þá ecki briótast í at framfylgia nyum sid í móti svo margra vild annara; fengust engir til þeirrar þiónustu, nema þeir sem nálega áttu ei annars úrkosti, úngir oc líttlærdir, oc óstyrkvir í trúnni, oc vildi engin þeim hlída; prófastar höfdu fyrrum sókt sakeyri biskups af hverium manni, enn til þess at menn þyrftu ei at standa undir ákærum þeirra fyrir hveria smámuni, var þeim lagdr giaftollr af hverium manni, þat embætti tóku nú lögmenn oc syslumenn; ríkismenn framfylgdu mest hinum nya sid, oc þó meir af yfirvarpi enn enn alvoru, því þeim var leidt biskuparíkid, oc fengu nú sum þau völd er klerkar höfdu fyrri, oc gèck þat til meira enn trú, enn hiátrú, oc ósidir hèldust sem ádr; voru sumir sem sáu, at raung var tilbeidsla helgra manna oc líkneskia oc slík dyrkan, höfdu þó vyrdíngu á því, oc fengu eigi skiótt upprætt med sèr ímsar hegomlegar meiníngar; adrir löstudu oc svívyrdtu allt þat er helgir dómar voru kalladir, oc höfdu þat í saur, oc til alls þess er verst var, voru þeir menn opt þeckíngarminstir, oc hneigdudu hinn fyrri, enn hugdu mest á siálfrædi oc ósid; hinir þridiu voru med öllu papiskir, oc fullir hiátrúar, oc hötudu allann hinn nya sidinn, þó þeir þyrdi er berlega upp at qveda, vildu eigi hlída kenníngum nè tídagiörd hinni nyu, oc fengu sèr allt til undanbragda, giördist þá mikil óstjórn í landinu, oc hefdi meiri ordit ef menn hefdi ei brostit árædi oc færi til berlegrar uppreistar.

## VII Cap. Frá Oddi Gottskálkssyni.

Þá bió í Reykiaholti Oddr Gottskálksson; hann hafdi fyrst alist upp í Noregi med Guttormi Nicolássyni fódrbródr sínum, lögmanni í Gulaþíngslögum, oc gengit í skóla í Biorgvin hiá meistara Gebelius Peturssyni, er þar var sídann biskup, oc hinn fyrsti Lútherskr, þar hlaut hann fyrst kynníngu ins nya sidar, oc styrktist í hönum med þeim hætti sem fyrri er sagt; þadann hyggia menn hann farit hafa til þískalands, oc svo til Íslands frá Hamborg eda Biörgvin, oc var med Ögmundi biskupi, þar lagdi hann út nya Testamentid, oc setti þvínærst bú at Reykium í Ölvesi; fór hann þadann útann, oc lèt prenta útleggíngu sína í

Róiskeldu; hann bió þá enn at Reykium nockra vetr, þartil hann fór útann á Vta ári biskupsdóms Gissurar, oc lèt prenta Corvinus-Postilln, hann útlagdi oc fleiri bækr, oc var ágætr madr oc nytsamr; þadann fór hann til Reykiaholltz, oc hèldt þat af Gissuri biskupi, enn prestr þiónadi sóknunum; hann var oc prófastr í Borgarfyrdi, sumir seigia hann hafi oc haldid Mela, enn ei vildi hann vígslu taka, þó Petr biskup Palladius oc Gissr biskup beiddi hann þess; mælt er hann hafi ritat oc lagt út fiölda bóka, oc hafi átt af þeim kista fulla sem taka mundi XX vættir smiörs; hann var stórvitr madr oc haldinn miög forspár. Þá er þeir Gissr biskup höfdu verit bádir samann í Kaupmannahöfn, oc eitt qveld úti staddir, sagdi hann at þeir hefdi misst á þeirri stundu, biskup afqvæmi sitt enn Oddr ætterni, ritudu upp stundina oc daginn, oc bárn samann, reindist þat barn Gissrar biskups; annat sinn þá hann var utann med Gísla presti Jónssyni, á dögum Marteins biskups, er mælt hann hafi bodist til at sína Gísla Selárdal enn hann tók því, oc at Oddr tæki þá stein, oc hèlldi hönum í þá átt sem Island var, oc sæi hann þá Selárdal, oc Kristínu oc börninn, oc hvern mann sitia oc vera þar sem vera átti, enn slíkt er ei audveldt at sanna; svo sagdi Gudmundr Þórisson er sveinn var Odds í Reykiaholltí, at einhveriusinni var Oddr staddr úti í kyrkiu, oc vinnumadr hans einn, þar kom hrafn, settist í skèmmu oc gall miög; madrinn mælti: vita vildi eg nú hvad hrafninn segir; Oddr mællti: hvern góda hefir þú þaraf; enn ef þèr er mikil forvitni á þá mun eg segia þèr; hann segist kroppa úr þèr augun á morgun um þetta mund, oc þad annad at ostr sè í glugganum á skemmunni oc fái hann ei nád, enn sè ostrinn ei þar, þá ligr hann allt. Ostrinn var þar, enn madrinn reid um morguninn til Snældubeinsstada at sækia hest oc teimdi hann, enn hann tók í tauminn, oc kippti hönum af baki ofann í ána, rak hann þar ofann á eyri eina, oc fannst þá hrafninn hió ur hönum augunn, oc er þar sídann köllud Hrafnseyri; af þessu hugdu menn at Oddr skildi fuglsrödd, enn þó er þat líkara at forspá hans hafi ein valdit; hann sagdi oc fyrir dauda sinn, oc med hverium atburdum skè mundi; Oddr var hár madr vexti oc þrekinn, fridr sinnum, þat lítti hann þó, at hann hafdi verit stunginn í kinnina, þá hann var ungr sveinn med fódr sínum, af Olafi í Dal födr Markúsar; hönum var veitt Reinistadar klaustr

þá er hèr var komit, þat er tekid var af Petri Einarssyni, oc fór hann þángad nordr, hann tók oc vid syslu í Skagafyrdi þadann af, enn Tumi Þorgrímsson á Skídastödum var umbodsmadr hans. Oddr fèck oc brádt Húnavatnsþing siálfr, eda höldt þat ella í umbodi Orms lögmanns, enn Petr fór til Arnarstapa, oc sat þar med rausn um hríd, hafdi hann þar hyst miög ríkmannlega; hann átti Ingiríd systr Dada í Snóksdal er ádr hafdi at lagi verit med Olafi presti Gudmundarsyni, enn hún áskildi þat at Petr tæki vígslu.

## VIII Cap. Tilburdir.

Skriptir voru þá enn brúkadar þegar menn fèllu í stórmæli, bar þat til stundum at þær voru skipadar med ímisleguın hætti, svo sem þá giördi Marteinn biskup Biarna nockrum fyrir austann; enn þat bar svo til um þann Biarna, at kona hans var málgifr mikil, oc hafdi vond ord fyri börnum þeirra, svo þar af orsakadist at hinn eldri sveinninn lagdi hinn yngra nidr, er hún var ei vid, oc skar af hönum kynsliminn, svo hann dó, enn konann bardi þann til bana er hún kom at, oc svo Biarni konuna, því hönum vard heldr til skapbrádt er hann vissi tveggia sveinanna bana af henni stadid hafa; var þeim Biarna bodid at gánga kringum Island, oc á hveria kyrkiu, oc berfættr þá er hann þyldi, enn hann þótti ecki fær at fara útlægr af landi fyrir ángrsemi, er þat mælt at Biarni hafi gèngid þrem sinnum kríngum allt land, oc numid stadar í Skagafyrdi, oc qvænst þar oc buid, enn verit jafnan sem syrgiandi; hann bió at Efranesi á Skaga, oc hèt Arndys kona hans, enn Jón sonr þeirra, sá er ætlad var at Gudmundr Ottarsson oc synir hans hefdi myrdann í Keblavík á sió; ecki vard þat þó sannad, þó málit væri frammi haft; — þat bar enn vid nær þeim tídum, at menn ridu adfángadag fyrir jól til tída úr grafníngi upp yfir Þíngvallavatn X samann, fèll hsinn miög undir þeim á vatninu, svo menn oc hestar suckn, þeir komust allir upp, enn einn vantadi, sídann drógu þeir upp hestana alla, enn sáu ecki til mannsins, oc bidu hryggvir meir enn hálfa eykt, ef hönum kynni skióta upp, ridu á brott sídann; enn er þeir voru eigi miög lángt komnir, oc eyktinn var at

mestu lidinn frá því er hann fèll í vatnid, heyrdu þeir kall á eptir sèr, oc snèru þegar aptr at vökinni, hafdi hann þá komid upp hökunni, oc fest á skörinni, oc hèldt sèr svo, enn þeir drógu hann upp oc færdu í þurrklædi, var hann óskèmdr, oc reid eptir þeim til Þíngvalla, oc qvad sèr svo verit hafa, sem vatninu hefdi verit haldit frá vitum sèr.

## IX Cap. Frá höfdíngium.

Vetr sá hinn næsti var fellivetr mikill; oc giördi öskufall, kom upp eldr í fiöllunum fyrir framann Heklu milli krossmessu oc fardaga oc var uppi VI vikr, hann var döckraudr at siá, oc voru þrír á qvöldinn, stódu þeir rètt í lopt upp, hátt miög, oc voru þá landskiálftar miklir í hálfann mánud, svo enginn þordi inni at vera, oc lágu menn í tiöldum; þá kom út med hyrdstiórn Knútr Steinsson, oc med hönum Páll Hvitfeldr, hann var á þíngi um sumarit, enn fór sídann útann, oc hafdi þar hin mestu völd; hann nádadi þá Odd prest, launson Þorsteins Gudmundarsonar á Grund, Oddr átti Geirdysi Torfadóttr frá Saurbæ, enn naudgadi systr hennar er Arnfrídr hèt, hún var á barnsaldri, oc var sídann gipt Halli Magnússyni; Oddr fèck at halda lífi, enn var þó dæmdr ádr til limaláts, oc vard hann prestr aptr seinna í Tungu í Steingrímsfyrdi, hans börn voru skilgetinn, Nicolás, Jón, Þorsteinn prestr, Sigrídr oc Gudrún. Þeir voru bodadir útann um sumarit á konúngsfund, Marteinn biskup oc Jón prestr Biarnason þá kom oc út brèf konúngs er dæmdi erfíngium Lopts Ormssonar Stadarhól; Einar prestr Árnason fèck Skrídu klaustr med XXX dala afgialdi, oc Kyrkiubæar klaustr fyrir XL; madr var veginn í Tungurèttum, oc annar andlitsklófinn í Grafarrèttum; hyrdstjórinn tók klaustr af Ormi Sturlúsyni, því hann fèck ei eptir goldit, oc hafdi þó seldt eina konúngsjörd í óheimild, oc þar med lögsögnina; er mælt at konúngi hafi þat mislikad, enn höfudsmadrinn þó rádit, enda fèck Ormr þúng mótmæli; giördist Oddr Gottskálksson lögmadr í stad Orms; Erlendr lögmadr Þorvardsson var þá blindr af elli, oc lèt af lögsögn fyrir sunnan, tók þar vid henni Eggert Hannesson, hann bió þá at Nesi vid Seltiörn, oc fèck forrád yfir Bessastödum, þar misti hann konu sinnar Sigrídar

þorleifsdóttr, oc sídann barns þeirra, oc erfdi bædi; hann hèldt oc bú í Vídey, oc var Cecilia Jónsdóttir rádakona hans fyrir því, hún var fylgikona hans, oc jafnvel medann Sigrídr lifdi, voru þeirra börn Jón murtr oc Ragnheidr. I þann tíma var mikill uppgángr sona Gísla Hákonarsonar á Hafgrímstödum, Biörn prestr fyrir nordann var fyrir þeim, oc Arni, hann átti Gudrúnu dóttr Sæmundar Eyríkssonar í Asi í Holltum oc Gudrídar Vígfússonar lögmanns Erlendssonar; Sæmundr var bródir Jóns prèsts í Vatnsfyrdi, oc erfdi Jón prest bródr sinn, enn Arni Sæmund, því Gudrún var einberni hans. Arni var vel viti borinn, einardr oc hamíngiusamr, á lèttasta skeydi, hann hèldt Vatnsfiardarstad nockr ár fyrir Jón prest, oc tók upp mál hans fyrir Oddi lögmanni á alþíngi, taldi heimsóknir oc fiár upptektir mága Biarnar Gudnasonar fyrir Jóni presti er þá var andadr, oc las upp lánga rollu lióta med brèfum oc sannindum, um margar hardar heitíngar, stórlát oc ill ord oc verk þeirra vid Jón prest, oc menn hans oc landseta, hellst þat er Sigfus Brúmannsson hefdi tvisvar eda optar gripit penínga í Hörgshlíd, oc Botni í Míófafyrdi, jördum Jóns prests, brotit upp hús med reiddri öxi, hótad ábúandanum sjúkum liggianda í rúmi sínu bana, med stórum heitíngum, oc kallad af hönum í landskuldar skyni hvad sem hann vildi hafa; einnin af konum þeirra manna er þær voru einmana heima, hafi hann hrædt oc kúgad hvad er hann vildi; einnin hafi Eggert Hannesson ridit heim í Vatnsfiörd med flock manna, oc giört þar miklar árásir Jóni presti, oc hversu mörg gód ord oc fridsamleg lagabod sem hann hafi fyrir sig bodit, hafi þat alls ecki stodad, enn Eggert lyst sektum yfir mönnum Jóns prests, oc útlegd, fyrir þat þeir vildu fylgia húsbónda sínum; fyrir því hafi jardir hans legit í eydi X eda XI ár, er enginn treystist at taka þær til leigu af hönum, enn þessir arfar Biarnar Gudnasonar tóku kúgildinn; enn er Jón prestr var siónlitill ordinn oc nær áttrædr, qvad hann Eggert hafa tekit skip af mönnum hans í Bolúngarvík oc Furufyrdi, hrædt af landsetum hans landskuld oc kúgildi, svo hann hafi neydst at sídustu til at fridkaupa sig med því at fá Eggerti farmaskip mikit fyrir engann peníng; þar med þá mága Eggerts, Biarna Narfason oc Sigfús Brúmannsson farit hafa at Sæbóli í Adalvik, borit þar út úr bænhúsinu skreyd Jóns prests,

oc flutt á brott at hönum í siáanda oc mönnum hans, oc þótt hann bydi þeim lög fyrir sig, oc sína menn oc peninga, afsögdu þeir slík bod med mörgum ovyrdíngar ordum; lysti Arni Gislason fyrir dómi fullum sökum oc sektum vegná konúngs oc karls, þessum mönnum á hendr, fyrir allar adtektir í því máli; dæmdi þá Oddr lögmadr um eitt grípdeildamál á þeim jördum, í millum Arna, oc Torfa sonar Sígfúsar Brúmannssonar, oc vard Torfi skyldugr því aptr at skila sem hann hefdi ránglega gripit, oc svara lagasektum; enn af því at hveritveggi frambáru at nyu konúngabrèf oc lögmannadóma fyrir sínu máli, þá voru hverstveggia brèf oc skilríki dæmd framm fyrir konúnginn oc hans ríkisrád, oc hveritveggi skyldugir at vera til andsvara á hinu nærsta sumri; þau missiri lèt Oddr lögmadr dóm gánga í Bólstadahlíd med VI mönnum, um grip á hesti fyrir Þórdi Gudmundarsyni, er Gunnlaugr prestr hafdi fengit Eggerti bartskèra, oc hann selt sudr í Ölvesi, voru dómsmenn Gísli Jónsson, Jón Gíslason, Gudmundr Skúlason oc þrír adrir, urdu dæmdar sektir til konúngs oc karls, presti; annan dóm lèt hann gánga á Spialdhaga, eptir höfudsmannsbodi, um Odd prest Þorsteinsson er fyrri gètr; þeir voru þá at eins lögrèttumenn, er ádr voru syslumenn í Húnavatnsþíngi, Þórmódr Arason, oc Páll Grímsson, ásamt Oddi Asmundarsyni, Gudmundi Skúlasyni, er eg hygg son Skúla Gudmundarsonar Skúlasonar Loptssonar, oc ödrum. Oddr lögmadr dæmdi oc á alþíngi um arf eptir Halldór Brandsson, er Tumi Þorgrímsson á Skídastödum deildi um vegna Jóns Finnbogasonar, vid Einar prest Magnússon; sá Einar var son Magnusár á Reykjum Biarnarsonar, oc fór austr sídann, hann var óeyrinn, oc verdr enn nefndr; gétit er oc fleiri dóma oc giörnínga, oc þess at Jón prestr Þorleifsson Gudmundarsonar Andressonar, var þá officialis Skálhollts kyrkiu, oc prófastr milli Gilsfiardar oc Audna, oc gaf menn qvitta um sakfelli.

## X Cap. Frá Sturlu Smid, Sagnir.

Þann tíma var uppi sá madr er Smída-Sturla var kalladr; svo seg'a sumir menn, enn eigi veit eg sann á því, at Vilhiálmr hèti fadir hans, oc hafi verit biskupssveinn, manna frídastr oc

gervimadr mikill, oc kalladr af því barna Vilhiálmr at hann afladi á einni för med biskupi margra barna. Sturla var knálegr madr, oc hinn mesti smidr, er mælt hann færi úngr útann, oc kæmi sèr svo framm, at hann fengi heit fyrir greifadóttr einni, ef hönum misynnist eigi smída-þraut sú er fyrir hann var lögd, hafi hún setit á stóli fyrir hönum í skarti, medann hann vann verkid, oc þat hafi glapt hann svo, at nockut misvannst ádr lauk, hafi hann þá ei viliad nióta hennar, oc átt þó enn kost, oc þat verit illa vyrdt fyrir hönum; sídann færi hann til Islands, oc hefdi lítit yfirlæti. Þat er enn sagt hann kæmi á Strandir á bæ einn er bóndi var ei heima, oc bædi húsfreyu gistíngar ókenndr; þar eru smídud kerhöld, oc tæki hann gyrdi oc giördi bönd af, enn smídadi sídann stafina, lèti svo liggia þá er hann fór á brott; enn er húsfreya síndi bónda bæri hann samann, oc væri allt til hæfis; hafi hann þá svo mælt: þar hefir þú hystann Smída Sturlu, oc engann mann annann; son Sturlu var Biarni, hann var þá á ungum aldri er hèr var komit, mikill madr oc knár, oc giördist sveinn Olafs biskups Hiálltasonar á Hólum.

## XI Cap. Utanför Marteins biskups, oc frá bólu.

Nú er at segia frá því fyrir hveriar sakir Marteini biskupi var utanstefnt; enn þat reis af því at engar mannhefndir komu eptir Christián skrifara svo at konúngi líkadi; báru þá ei at eins frændr oc vinir Jóns biskups föll á Martein biskup, heldr einnin hid Danska vald á Bessastödum, oc qvádu hann oc Jón prest Biarnason rádsmann hafa því rádit, at Snóksdalsdómr Orms lögmanns um þá fedga, oc geimslu á þeim var ei haldinn, oc þeir svo drepnir án dóms oc laga, oc Nordlendíngar sídann snúit hefndum á Christián skrifara; fyrir því voru þeir biskup oc Jón prestr bádir bodadir utann, enn var þó í konúngsbrèfinu siálfu áqvedit, at tala skyldi um trúar efni; fóru þeir utann um sumarit, var med biskupi Biörn prestr Olafsson í Runa, oc sveinn hans Arni Oddsson, er sídar bjó í Midgördum oc átti Dórótheu þísku; þeir fundu Christián konúng miög illa haldinn í fæti, oc var um þat kennt galdrakonu nockurri; tiádu þeir mál sitt, oc er Marteinn

biskup hafdi talid hrakníngar sínar, oc mælt þat hann væri eigi madr til at standa í slíku, oc vildi láta af biskupsdæminu ádr hinar bestu eignir dómkyrkiunnar gengi undann henni, þá var ei mikit giört úr sökum, oc dvöldust þeir þar um vetrinn; lèt Marteinn biskup prenta þar handbók presta, þar í var sá einn sidr at madr skyldi kyssa konu sína er þau voru vígd samann; oc svo nockra messu-sálma Lúthers, er hann hafdi snúit á Islendsk lióð, at því er Jón prestr Þorsteinsson í Vestmannaeyum hefir vottad. Um þær mundir fèll til Jóni presti Biarnasyni fásinna, er hann kèndi alla æfi sídann; þeir Marteinn biskup komu út um sumarit
1555 eptir, oc úrdu þá enn fleiri tídindi; kom híngad í land bólusótt sú er köllud var bólann mikla, oc andadist hinn mesti mannfiöldi; Einar son Dada í Snóksdal andadist þá, oc allr fiöldi úngra manna milli tvítugs oc fertugs, giördi þá oc peníngafellir á Nordrlandi, oc mannfall af hallæri; þá lèt Oddr lögmadr Gottskálksson dæma at Saudá í Sæmundarhlíd um rekaþiófa, enn þeir bádir Olafr biskup oc hann á alþíngi, um Núp oc Núpsdal; Dadi Gudmundarson lèt dæma um lausamenn at Gördum í Stadarsveit, enn Vígfús Jónsson um hagabeit á Kialarnesi, hygg eg vera Vígfús á Kalastödum, oc hefir hann þá verit all-úngr; þá var oc dæmt um stráks nafn á alþíngi; gètit er oc enn fleiri giörnínga, oc var þat eitt at Olafr biskup hèldt Þorláki presti Hallgrímssyni til at fastna Helgu barnamódr sína, Jónsdóttr Sigmundarsonar, oc þat giördi hann; var þá Gudbrandr sonr þeirra XIII vetra.

## XII Cap. Konúngs Eyrindi oc annat.

Knútr Steinsson höfudmadr kom þá enn út med eyrinda-giördir konúngs, hann lèt stefna samann höfdíngium á alþíngi, enn þá vard þó ecki af eyrindum hans; fyrir því stefndi hann þeim þegar eptir þíngit til Bessastada at konúngsbodi, oc eru þessir tilnefndir, biskupar bádir Marteinn oc Olafr, lögmenn bádir Eggert Hannessón oc Oddr Gottskálksson, Jón prestr Biarnason oc Biörn prestr Olafsson at sunnan, Biörn prestr Gíslason oc Jón Matthiasson svenski at nordann; Páll Vigfússon at Hlídarenda, Dadi Gudmundarson í Snóksdal leikmenn at sunnan, enn Þor-

módr Arason oc Philippus Runólfsson at nordann; skyldu þessir allir géfa svör sín um þessi naudsynja efni; í fyrsta máta um bænhús oc hálfkyrkiur ónaudsynlegar er aftakast skyldi, enn kúgildi þeirra oc lausafè skiptast í tvo hluti, leggiast annar prestum til uppheldis, oc til spítala er vera skyldi fyrir likþráa menn fátæka einn í hverium landsfiórdúngi, var tilnefnt Biarnanes í Hornafyrdi fyrir austann, Kaldadarnes í Flóa fyrir sunnan, Gufudalr vestra, oc Glaumbær nyrdra; enn annar helmíngr oc svo rekar oc ítök slíkra hálfkyrkna oc bænhúsa, leggist til alkyrkna þeirra er þau heira undir, oc messuskrúdi til þeirra kyrkna er hellst þurfa í því hèradi; í annan máta at fiársóknir presta skyldi sækjast fyrir syslumanni oc lögmanni; í þridia grein at jardir allar tyundist fiórum tyundum, hvert sem væri krúnunnar, skóla, kyrkna eda bænda eignir, nema heimaland sem hver kyrkia á, med eginligri innstædu sinni, oc sá partr sem kyrkiur eiga í heima landi á bænda eignum med þeirra ítökum öllum; í fiórda lagi um skólana, skyldi standa eptir konúngsbrèfinu án öls fyrir skólasveinana, skyldi þeim nægiast almennilegr dryckr á landsvísu, sem hèr gengr milli manna; í fimta máta um Beneficia oc prestasetr skyldi haldast eptir konúngsbrèfi, þegar fengist lærdir prestar oc velmentadir, þó frómir leikmenn hèldi þau þángat til, oc úngan predikara er biskup fengi til; í siötta lagi at biskup skyldi fara í visitatiu sína med VIII menn, enn syslumadr hvör med V menn, oc skyldi hver í sinni syslu veita biskupi fylgi í visitatiu hans, óhlídugum mönnum til skelfíngar; skyldi konúngs umbodsmadr skipa þá til syslumanna er væri gudhræddir dánumenn, rèttvísir oc líknsamir almuganum; var þessi samþyckt köllud Bessastada samþyckt, bádu þeir konúnginn stadfesta hana med nádarbrèfi hans, oc verdr enn frá því sagt sídar. Svo segir Biörn at Skardsá, at um þennan tíma, edr á dögum Marteins biskups, hafi Ögmundr briti uppvís ordit at barngetnadi med stiupmódr sinni Christínu Sveinsdóttr, hálfsystr Gísla Sveinssonar er var at Midfelli; Sveinn fadir Gísla var Hólmfastsson, enn Gudlaug hèt módir hennar, oc var dóttir Jóns Erlendssonar, er bródir var Þorvards lögmanns oc Vígfúsar; Grímr oc Laga-Þórarinn voru brædr Gísla.

## XIII Cap. Frá Arna Gíslasyni.

Þetta sumar fór Arni Gíslason utan vegna Vatnsfiardarmála sem til var skilit, oc med hönum sveinn hans Benedict, son Halldórs prests hins ríka, Benedictssonar, Grímssonar á Mödruvöllum, fèck hann þá svo mikla vidrèttíngu, at hann hlífdist ei vid at ákæra Eggert lögmann, þá í uppgángi hans hinum mesta, svo Eggert qvartadi sídann þar yfir hve hardt tiltal hann mætti lída, jafnvel á mannfundum, í lögrèttu á alþíngi, af Arna, svo hann hefdi eigi mátt segia lög oc gánga dôma medal manna, oc baud sig til andsvara á móti hönum, fyrir þeim sem rètt hefdi at dæma yfir sèr oc sínum málum, hvert sem væri lènsmadr konúngs edr lögmadr, oc stód nú svo í þessu þófi med þeim um stund; þau Arni oc Gudrún Sæmundardóttir áttu börn miög mörg, voru þessi sem til menníngar komu, Sæmundr, Hákon, Gísli, Halldóra, Gudrún, Sigrídr, Holmfrídr, Ingibiörg, Solveig, Anna; Gudrún hèt laundóttir Arna er Jón Olafsson á Svarfhóli átti; allt mannadist kyn Arna vel, oc var þat þá í þann tíma mestr ættbogi er frá Grími Pálssyni var komit; Arni hafdi þá Rángárþíng, oc lèt dóm gánga at Hollti undir Eyafiöllum um fátækra hysíngar; giördist hann höfdíngi mikill, oc bió sídar at Hlídarenda; Eggert fór frá Nesi í þann tíma, enn Biörn bródir hans ætladi at flytia sig þángat, dóttrmadr Dada í Snóksdal, í þeirri ferd drucknadi Biörn.

## XIV Cap. Mísfarir; oc frá biskupum.

Þau missiri er Bessastada samþyckt var giör, bar þat til at Olafr danski skólameistari reid yfir ána á Bemódstadavadi, fèll hann í ána oc tyndist í henni, enn lík hans fanst sídar, og var grafit hiá Gissuri biskupi. Jacob hèt heyrari hans, sá er fyrrum var smásveinn med Didrik af Mynden þá hann var veginn í Skálhollti, oc máladi ásynd Jóns refs; var þá tekinn fyrir skólann, svo hann væri ei forstödulaus, Jón prestr Loptsson frá Mosfelli, hann þótti mikilshàttar madr, oc med hinum lærdari, enn var þó eigi vel fær at siá fyrir skólanum, oc hèldust ei hans forrád lengi; á þeim tíma forgèck ferjann eda skútann er Skál-

hollts stadr átti, oc lagdist þá af sigling þadann til Noregs, oc kaupferd, enn greni-skógar ítakid geck undann stadnum, þat er í Noregi var. Marteinn biskup fèck oc grun af því, at Danir mundu vilia draga undann Skálhollti Nesia jardir á sudr-nesium, nær XXX at tölu, er bestar voru til útvegs, oc annar fótr undann Skálhollts stad, voru landskuldir af þeim goldnar í skreyd oc miöli, eitt hundrad oc XVI vættir fiska, enn smiör-leigr flattar í Grindavík oc önnr útver, í mötr stadar vinnumanna oc önnr giöld; hèldt Einar prestr Olafsson í Gördum þat umbod í XII ár; enn vid þennan oc allann annann mótgáng mæddist Marteinn biskup miög, oc þarmed þá vanheilsu er hönum fèll til, oc hann kèndi æ sídann; var hann oc madr einfaldr, spaklyndr oc hógvær, enn eigi jafnmikill skörúngr at skynsemd, skarpleika edr hugdyrfd, er slíkr madr þurfti at vera á svo mikilli styrjaldar tíd, til at deimpa nidr þverúd oc þrályndi, ofsa oc yfirgáng margra manna; hafdi hann naudugr undir gengist þann vanda í öndverdu, enn vildi nú fúslega vid skilia, er hann hafdi átt vid sífeldt mótkast at eiga; fyrir þessar sakir beiddist hann af konúngi at meiga skiliast vid slíkt; tóku þeir sem á hinn forna sid voru trúadir, þat fyrir hegníngu aftöku Jóns biskups oc sona hans, er Marteini biskupi oc Jóni presti Biarnasyni fèll til vanheilsa. Olafr biskup hafdi brjálkaup á nockrum jördum Hólakyrkiu, sem hinum pápisku biskupum var altídt ádr, oc lèt sumar í burt fyrir ónaudsynlegt andvyrdi, þó ætla menn uppdiktad hönum til óhródurs af óvinum hans oc mótstödu mönnum, at verit hafi fyrir bönd, þrádarleggi oc annan óþarfa; fóru þessar jardir á hans dögum frá Hólakyrkiu, Mannskadahóll LX hundrud, ytra Vatn XXX hundr, ytra Vallhollt XX hundrud, Þórisstadir L hundr, Audunnarstadir LX hundr., Núpr LX hundr., Harrastadir XL hundr., Túngufell XL hundrud, í Einarstödum L hundr., Saurar X hundr., Stafn hálft X hundr., Stóridalr XL hundr, Eydar XII hundr., enn Christián konúngr gaf út brèf sitt, at þær jardir mætti aptr leggiast án lagasóknar, oc var eptir því brèfi gengit seinna.

## XV Cap. Frá ímsu.

Þann missiri arfleiddi Jón í Flatey, son Biarnar Þorleifssonar á Reykhólum, dætr sínar Margrètu oc Gróu, med samþycki Þorleifs

prests brédr sins; þá lèt Þorbergr Bessason dóm gánga at Hofi um skattgiald ómaga í umbodi Odds Gottskálkssonar, oc dæmdist þeim at gialda sem skattfè átti; enn Vígfús bóndi Þorsteinsson syslumadr í Þíngeyarþíngi er oc hafdi prófastsvald, lèt dæma sektir Starkadi Valtyrssyni á Öndóttstödum fyrir hald á tyund, heytolli oc líksaungseyri um II ár, IX merkr oc III aura, auk gialdanna siálfra; voru dómsmenn Illhugi prestr Gudmundarson er Illhuga ætt er frákominn, sá er í Múla var, oc Olafr prestr Arnason, Jón son Orms Jónssonar á Draflastödum, hann bió at Einarstödum seinna, Þorgrímr Þorleifsson er sídann bió í Lögmannshlíd, Þorsteinn Vígfússon, oc Magnús Biarnarson. Arni Oddsson er í Midgördum bió er þá sagt haft hafi syslu í Þornessþíngi, oc látit dóm gánga at Stadarhóli í Saurbæ um utansveitarmenn þá er jardir eru bygdar, oc enn fleira. Knútr Steinsson höfudsmadr kom út um sumarit, oc hafdi konúngs eyrindi allmörg, var eitt konúngsbrèf um Bessastáda samþyckt, var sumt í henni stadfest, sumt aftekit, enn sumu gengit framm hiá med þögn; eigi vildi oc konúngr þá láta setia spitala; annad var þat at konúngr vildi siálfr undir sig taka fiórda part af tyundunum, þær sem biskupum höfdu verid goldnar, enn Olafr biskup Hialltason beiddist þar vægdar á, sem sídar segir.

## XVI Cap. Fráfall Odds lögmanns.

Oddr lögmadr Gottskálksson reid at nordann til alþíngis, oc er mælt hann hafi qvadt menn, oc bedit marga láta heita eptir sèr, enn er hann kom í Borgarfiörd, vildi hann sigla þadann til Bessastada, med syslugiald sitt, á skipi miklu er hann átti; hönum gaf ei, enn beid þó í hálfann mánud, reid sídann landveg; enn er hann reid eptir ödrum framm í Laxá í Kiós, fèll hestrinn undir hönum aptann, svo hann hraut úr södlinum, oc rak þegar at eyri einni, komst þar á knè oc hendr, enn kápunni sló þá um höfud hönum, oc rak svo lengra ofann at nockru atkasti; þar nádu menn hans hönum lifandi, þat voru þeir Einar kyrkiuprestr hans, son Hallgríms Sveinbiarnarsonar, er seinna var at Utakálum, Þorsteinn Einarsson búsveinn hans, oc Petr son hans, oc hestamenn; um midnætti vaknadi hann, oc qvadst allr lerkadr;

menn hans qvádu þat eigi kyniandi, þarsem hann hefdi fallit í óna; litlu sídar taladi hann aptr til þeirra, oc baud at flytia sig í Skálholt, oc bad menn sína segia fyrir sig öllum vinum sínum gódar nætr, oc andadist sídann, oc var grafinn í Skálhollti hiá Gissuri biskupi oc Olafi skólameistara; hann hafdi átt utann at fara at konúngsbodi á því sumri; Þurídr lifdi V vetrum lengr, oc var Petr einberni þeirra; Petr var eigi fulltída, oc tók Þórdr Gudmundarson umbod hans. Petr qvæntist hèr í landi, oc fór til Noregs med konu sína, oc er ei manna hèr frá hönum komit; Eggert Hannesson giördist lögmadr nordann eptir Odd andadann, enn Páll Vigfússon at Hlídarenda sunnann oc austann í hans stad aptr; hann dæmdi á alþingi um umbod; þá var oc dæmt um konr þúngadar, oc vinnumenn sem liggia siúkir um heyannir, oc at Hvoli um sama. Þá var uppi sá madr er Pètr hèt, oc var Oddsson, hann átti Helgu dóttr Arna þess er brædrúngr var vid Teit hinn ríka, oc vog Hans Ethen; fyrir þat kærdi Pètr uppá fè Teits, giördi Olafr biskup samníng vid hann um þat af því fè sem til Hólakyrkiu var inn rúnnit, enn Þorvardr son Pètrs hafdi ádr kært fyrir herramönnunum eptir aftöku Jóns biskups, oc höfdu þeir tilsagt hönum Asgeirsá. Einar Oddsson hèt madr er átti Olufu dóttr Þorvarda, oc fèck hann úrskurd Orms lögmanns

## XVII Cap. Marteinn lætr af biskupsdómi.

Marteinn biskup fèck konúngsbrèf med Knúti Steinssyni höfudsmanni, um þat, at hann mætti leggia af biskups embætti oc Skálhollts stad, var þat auglyst á alþíngi; þángat var þá kominn Gísli prestr Jónsson frá Selárdal, oc var hann þá officialis yfir vestfiördu; sagdi Marteinn biskup þar af sèr vanda oc þúnga embættis, oc var Gísli prestr Jónsson kosinn aptr; kom hönum þat miög á óvart, oc fór því ecki utann um sumarit, enn reid vestr þegar, at sækia konu sína, börn oc heimamenn; jafnskiótt tók höfudsmadrinn þegar, at konúngsbodi, Nesiaiardir VIII samann frá Skálhollts kyrkiu, oc lagdi undir krúnuna, Nes, Skildínganess, Eydi, Lambastadi, Eyvindarstadi, Svidhollt, Skogtiörn oc Brecku, eptir því sem Marteinn biskup hafdi ætlad, enn fèck þó

aptr dómkyrkiunni iardir austr í Hornafyrdi, er fyrir skömmu voru fallnar undir konúnginn, Biarnanes, Hornfyrdi tvö, Hafnarnes, Hollta, Berg, Krossbæ, Kelduhollt, Hólma oc Dilknes, oc lagdi þartil X kúgildi í fridu, er vera skyldu í kaupbætir fyrir fiærlægd oc óhægdir; þar var kaupbréf giört um í Skálhollti, föstudaginn nærstann eptir vitiunardag Maríu, oc mátti Gísli biskupsefni ecki ord í móti mæla; var höfudsmanninum kènnt um þat konúngsbod; þá er Gísli biskupsefni var kominn til Skálhollts, afhendi Marteinn biskup hönum stadinn um haustid, oc alla hans penninga qvika oc dauda, var þá Pètr Einarsson rádsmadr, enn ei vitum vèr þó med sönnu at hann hafi skilinn verid vid Arnarstapa, hann var óvígdr, enn ádr höfdu prestar einir verit rádsmenn; er til skilmáli sá er Marteinn biskup hefir annadtveggiá samsett oc þeir Pètr bádir, at semia vid stadarfolk, oc skapa sektir oc víti þeim er óhlídnudust, edr þeir háfa haft frá hinum fyrrum biskupum, oc hagad eptir sinni tíd, oc kalladr Pètrs-orda; enn fyrrum hafdi þat dæmt verit at enginn prestr mætti synia þess biskupi at vera rádsmadr, sá er hann vildi til nefna; mælt er at Pètr hafi þá afhendt fyrir hönd Marteins biskups, svo margt af frídum peníngum, geldum nautum, saudum oc hrossum med Skálhollts stad, at sú tala þeirra sem var um vetrinn, eptir alla förgun oc lógun til búsins, hafi verit upphæd þeirrar innstædu sem stadnum fylgdi sídann, fyrir utann leigu kúgildi med stólsjördum oc á stadarbúunum, enn þat var eptir Gísla, geld naut IIIIa vetra oc eldri XLVIII, þrevetr I oc LXX, tvævetr CXII, vetrgömul hálfr tyundi tugr, landnaut eda landkálfar stórt hundrad oc V, geldsaudir tvævetrir oc eldri III hundrud tólfræd oc III, vetrgamlir III hundrud tólfræd CXIII, hestar roskmir XCVI, þrevetrir III, tvævetrir II, vetrgamlir IV, hest-folöld V, hross roskinn XLVI, þrevetr IIII, tvævetr VIII, vetrgömul VIII, merfolöld V; þar eptir fór Marteinn biskup á Michaelsmessu frá Skálhollti upp at Haukadal á bú sitt, oc sat þar um vetrinn í kyrrd, at eignum sínum, oc sísladi sídann aldrei um biskupsdæmit; hann hèldt þat um VIII ár, enn þiónadi VII, oc þoldi í því meira mein oc mótgáng enn flestir biskupar adrir, oc hefir einn samann hèr á landi þat embætti frá sèr lagt á midium aldri; hann hèldt Stad á Ölduhrygg alla stund med biskupsdóminum, oc svo sídann; oc flutti um vorit bygd sína til Alptaness á Myrum, oc bió

þar; var hann sídann officialis, oc mest vyrdr af öllum kènnidóminum. Þorleifr prestr á Melum, Eyríksson þess er vog Pál Jónsson, Halldórssonar ábóta at Helgafelli, oc Kristínar Þorleifsdóttr Biarnarsonar hins ríka, átti Alptanes í módrarf sinn; voru synir hans Eyríkr, Sigurdr oc Þórdr, enn Kristín hèt systir þeirra, þau seldu þá jörd Marteini biskupi fyrir Alptarós oc Midhús, enn nidiar Marteins biskups seldu hana fyrir smájardarparta; þessi voru börn Marteins biskups oc Ingibiargar, oc kallat at þau sum oc þeirra ættmenn hafi miög líkst í módrkyn: Halldór á Alptanesi, hann átti Herdísi dóttr Nicolásar Biarnarsonar frá Selialandi austr, frá þeim er komit mikit fólk á Myrum, oc heitir Alptaness ætt; Gudrún átti Einar prest á Melum son Þórdar Gudmundarsonar, þau áttu III dætr, var ein módir Einars biskups; Ingirídr, hún var gipt Olafi Jónssyni Bagga dönskum manni, er verit hafdi sveinn Páls Stígssonar höfudsmann, enn sídann fógeti Kristophors Valkendorfs, þau áttu ecki barn sem lifdi; launsynir Marteins biskups voru: Jón er átti Gudbiörgu dóttr Erlendar lögmanns Þorvardssonar, oc fyrri konu hans Þórunnar Sturludóttr, systr Orms, þeirra dóttir var Solveig er gipt var Hákoni í Nesi, syni Biarnar prófasts Gíslasonar, er þadann mikil ætt, oc verdr sagt frá Jóni sídar; annar var Einar prestr er Stad tók eptir födr sinn, einfaldr madr oc hneigdr til qvenna-vinnu, hann átti Þórunni dóttr Olafs prófasts Gudmundarsonar í Hiardarhollti, þeirra dóttir var Gudrún er Jón lögmadr átti, enn Steindór Gíslason seinna; Þórdr er enn sagt at heitit hafi launsonr Marteins biskups.

## XVIII Cap. Frá ímsu.

Páll, sonr Jóns Magnússonar á Svalbardi, tók þá í þann tíma at kæra til Stadarhóls, því hann var tilenkadr erfingium Pètrs Loptssonar módrfödr hans; höfum vèr eigi heyrt hversu hann leiddi Arna Petrsson í Stóradal af, edr hans erfingia, edr systkin sín, enn Lopt prest í Vídidalstúngu annan módrbródr sinn, er mælt hann hafi fengit til at gèfa sèr hans rètt fyrir adra jörd, enn sú var hverki ánöfnud nè útgoldinn, því Loptr prestr var miög

óráðinn í öllu, oc sem sinnulaus, svo hann gaf hid sama sitt hverium; enn med því at Dadi Gudmundarson hèldt Stadarhóli í þann tíma, var þar nockud fastara fyrir, oc vard Páll at fá brèf Kristiáns konúngs til höfudsmannsins Knúts Steinssonar, at hann efldi hann med styrk lögrèttunnar at sækia Stadarhól í hendr Dada; vildi höfudsmadrinn dæma í þrætu þeirri á alþíngi, enn er þó ei þess getit at af því hafi ordit; Páll bad Helgu dóttr Ara lögmanns, enn hún var ríkilát, oc svo þórunn á Grund fóstrmódir hennar fyrir hennar hönd, er mælt at Páll hafi látit dæma sig iafnrædi Helgu fyrrenn hann fèngi hennar, enn sumir bæta því vid at Jón Magnússon fadir hans hafi beitt þar til nockurri kunnáttu sinni, því hann var haldinn margvís; þau biuggu fyrst at Eyrarlandi, enn er þau fóru þadann urdu margir fegnir brottför Helgu, voru þau sídann í Reykiadal at Helgastödum eda Einarstödum, þar er sagt at Páll hafi látit ala XII kálfa einn vetr, sumir segia XIX, oc lèti þá út til leiks einn dag um vorit, enn sæti á húsmæni oc horfdi á, hafi þeir hlaupit allir í ána oc drepist, enn Páli þá ordit at munni: rú þig spú þig Reykiadalr, rotinn hunda hnúta; þat er sagt at þeir brædr Jóns synir hafi örvænt sèr at fá metord nyrdra, fyrir uppgángi Jóns Marteinssonar, oc þeirra Nicolásar oc Vígfúsar þorsteinssona, oc farit því vestr er Páll hafdi fengit rád yfir Stadarhóli, því þá var Dadi frá; Gunnar bóndi Gíslason tók þá Reinistadar klaustr eptir Odd, oc hèldt XII ár sídann, gallt hann eptir XXX dali á ari, oc hafdi sysluna edr var umbodsmadr þau missiri, því þá lèt hann dóm gánga fyrir fardaga um kaupmála-brèf, milli þórdar, sonar þorleifs Grímssonar á Mödruvöllum, oc Steinunnar dóttr Olafs bónda Ormssonar; þórdr var eigi skilgetinn; Olafr Thomasson á Hafgrimstödum, oc Tumi þorgrímsson á Skídastödum voru þar fyrstir dómsmenn; Gunnar átti Gudrúnu Magnúsdóttr Jónssonar biskups, eitt þeirra barn var Solveig er haldit hafdi undir skyrn Solveig abbadys Brandsdóttir, oc gefit nafn sitt, oc qvedit þá þetta:

Sèrtu af gudi gædd oc vís, hann giörir þig nógu ríka
sú hin unga abbádys allvel skal mèr líka.

þorbergr Bessason hafdi haft syslu um ein missiri nærst eptir Odd, í Skagafyrdi, enn Húnavatns syslu hyggia menn um þessar

mundir tekit hafa Arna Gíslason, oc voru þeir brædr þá nærstir í sinni syslu hverr, Biörn prestr, Gunnar oc Arni. þann tíma dæmdi Olafr biskup um framfæri presta fátækra, at þeir heldi sig á egin fè þó uppgefnir væri; hann veitti oc Jóni presti syni Lopts prests Peturssonar Skinnastadi, at bón Sigurdar prests at Greniadarstad biskupssonar, því hann átti dóttr Petrs Loptssonar födrsystr Jóns prests. þorbergr Bessason dæmdi oc um haustit at Ökrum med VI prestum oc IIIr bændum, at biskup væri ei skyldr at fá nockrum presti jardir leigulausar, þar sem hann skipadi þeim II eda III þínghár er þeir mætti vidhiálpast, er af því at siá sem þorbergr hafi þá heldr sysluna haft enn Gunnar. þorleifr prestr Biarnarson þorleifssonar, arfleiddi þá börn sín Greip, Herdysi, Jál oc Gudrúnu, med samþycki Jóns bónda í Flatey bródr síns, oc galdt hönum Berufiörd XVI hundrud, fyrir uppleg á árfi, enn Benedict son Halldórs prests Benedictssonar Grímssonar, er utan hafdi farit med Arna Gíslasyni, oc Valgerdr Biarnardóttir frá Æsustödum, giördu kaupmála sinn, sunnudaginn fyrstann í vetri, at Mödruvöllum í Hörgárdal, voru vottar Olafr biskup, oc V prestar oc IV leikmenn. Olafr biskup beiddist vægdar á at tyundinn væri med öllu tekinn frá Hólastól sem ádr greinir, oc med hönum XII hinir hellstu prestar, Sigurdr Jónsson at Grenjadarstad, Biörn Gíslason, Illhugi Gudmundarson í Múla, Gottskálk Jónsson í Glaumbæ, þorsteinn Hallsson, Thómas Eyríksson at Mælifelli, þorsteinn Gunnason Hólaskálds, Jón Matthiasson Svenski á Breidabólstad, þorgils Sigurdarson, þorkell Olafsson, Oddr Jónsson oc Jón Kráksson, undirskrifudu þeir þat bréf oc innsigludu at Hólum hinn XVIda dag Júnii mánadar, oc báru framm stórhardindi þau er þá voru í Hólabiskupsdæmi á þeim árum, svo margir farist af hungri oc klædleysi, enn sumir fái eigi lokit gjöld sín; hinn fátæki Superintendens Olafr Hialltason, er konúngr hefdi sitt yfir þá, hafi fylgt framm eptir megni hreinum Evangelii lærdómi um allt biskupsdæmit, betrad dómkyrkiuna oc stadinn, oc skólahúsinn uppbyggt af nyu, at því er hann hafi mátt, enn þurfi sem fyrri at klæda alla menn á stadnum, skólasveina, oc fátækt oc nakid folk, kaupa pappír, skóledr til skólans, vín, vid til dómkyrkiunnar oc annad; enn þat allt falli hönum yfrid þúngt, oc hann muni naumlega fá stadist, ef tyundirnar séu frateknar, sem frá upphafi Kristindómsins hafi til biskupsins

lagdar verit; bádu þeir því fyrir Guds skuld konúnginn slíkt eptir at gèfa, svo naudþurftugum mætti útbíta at gódum oc fornum lands vana, oc standast annan kostnad; bænheyrdi konúngr þetta oc eptir-lèt Hólabiskupi tyundir af Skegafiardar oc Eiafiardar syslum. Þá var Einar son Sigurdar prests Þorsteinssonar vígdr af Olafi biskupi til kyrkiuprests at Mödruvöllum, at Biarnar prests Gíslasonar, hèldt Biörn prestr Klaustrid XVIII vetr, enn Einar var XVIII vetra þá er hann vígdist, oc fèck þegar rádskonunnar á klaustrinu, Margretar dóttr Helga Eiolfssonar, bónda eins úr Hörgárdal, enn þat vard mikid afsprings efni; þat hyggia menn at Þórdr launsonr Marteins biskups hafi verid eptir Jón prest Loptsson fyrir skólanum í Skálhollti, enn nú var Hans Lollich útlendr þar skólameistari.

## XIX Cap. Vígdr Gísli biskup.

A alþíngi um sumarit hafdi Jón prestr Biarnason ordid ofsterkr, svo hann var vafinn í vadmálum, enn er Gísli biskupsefni kom til hans oc prestarnir, oc bádu fyrir hönum med knèfalli, batnadi hönum nockud, svo hann komst heim á vikufresti; Gísli biskupsefni fór þvínærst utann eptir vígslu, enn Snórri prestr Hiálmsson var officialis í Skálhollti; lèt Gísli prenta um vetrinn píníngar historiu er Oddr Gottskálksson hafdi útlagt, med nockurri útskyríngu oc formála Doctors Peturs Palladii, oc þar aptann vid Jorsalaborgar eydileggíngu; var hann þar vígdr af Doc-
1558 tor Petri Palladio, oc kom út aptr med þessar bækr, oc Margaritam, oc nockra sálma; hann skyldi hafá biskupstyundir af fiórum syslum, tveimr fyrir umreid sína, enn tveimr fyrir skólahald, oc hafdi fengit þat af konúngi, enn ölmusu sveinum skólans skyldi tilleggiast pappír, liós, klædi oc skædi þaraf, fèck hvörr þeirra VII edr VIII alnir vadmáls árlega, enn hinir audgari í hempu oc buxr, at því er sagt hefir Jón prestr Egilsson er þá gèck í skóla; þá hóf Ari son Þorvards Petrssonar at kæra Teits eignir oc kærdi sídann hvert ár. Knútr Stenssoon höfudsmadr gaf Eggerti lögmanni þá brèf fyrir Snæfell oc Isafiardar syslum; þá var í Gördum Loptr prestr Narfason, id hann skipti höfudsmadrinn oc vid kyrkiuna, lèt Vífilstadi fyrir Hlíd, oc hèt

malt-tunnu hvert ár i kaupbætir, hèllst þat til þess er höfudsmönnum oc Gardaprestum bar á milli; svo segia menn at Knútr Steinsson hafi leigt öll klaustrinn, oc fært framm eptirgialdit; hafdi Arni Gíslason þá Húnavatnsþíng, oc lèt VI manna dóm gánga um fardagana, um umbod barna Biarnar prests Jónssonar biskups, var Jón Biarnarson tvítugr fyrit dómi, oc beiddist úrskurdar á hvört hann skyldi hafa umbod systkina sinna, var hönum dæmt þat eptir Herjólfs rèttarbót, at því leiti sem hann hefdi vördslr fyrir. Giörníngar foru framm fleiri er eg hyrdi ei at telia. Grímr son Þorleifs á Mödruvöllum hafdi þá Múnkaþverár klaustr sídann Ormr misti; hafdi Ormr ridid ádr med XVIII sveina, enn nú fór hann fyrst milli frænda sinna, oc giördist sídann lestreki Nicolásar bónda Þorsteinssonar, var þat svo um nockra hríd at hann fèck enga uppreisn. Erlendi Þorvardssyni höfdu þá verit gefnar sakir fyrir forn illvyrki, enn hann var þá til enkis fær, oc gallt D dali, oc fèck vid þat uppgiöf af konúngi.

## XX Cap. Konúngaskipti oc annat.

A nyársdag um vetr þann hinn nærsta andadist Kristián konúngr í Kolding, oc sögdu menn at engill hefdi advarat hann ádr; þá 1559
andadist oc litlu sídar Kristián konúngr Hansson er lengi hafdi fánginn verit, oc fyrrum rádit löndum; tók þá ríki í Danmörku Fridrikr son Kristiáns konúngs þridia; hann veitti Arna Gíslasyni Þíngeyraklaustr ofannverdann vetr, med hundrad Joachimsdala afgialdi; Arni hafdi inn vetrinn dæmt helmíngadóm med Þorsteini prófasti Gunnarssyni oc sundrad hiónaband eitt; þá lèt Gísli biskup gánga XII manna dóm á Nedri Reykium á Skeydum, laugardaginn nærstann fyrir Þorláksmessu um sumarit, þat var helmíngadómr, qvádust dómsmenn vita fyrir full sannindi, at sumir menn hefdi tekid sèr til eginqvenna hórkonr sínar, sem þeir hefdi ádr haft frammhiá eginkonum, adrir hafi giört hiónaband sitt á þann hátt, at þeir hafi keypt sèr konr at morgni dags, fastnad þær at qveldi, enn samrockt þeim nóttina eptir; hinir þridiu hafi qvænt sig í berlegum frændsemis oc mægda meinum, enn sumir hlaupit úr ödrum landsfiórdúngum oc ókunnum sveitum, qvænt sig þars þeir stadnæmdust, oc reinst sídann

eginqvænstr ádr; afdæmdu þeir slíkt allt med öllu, enn settu refsíngu at áqveda til hinna ædsta landstiórnenda, voru þeir dómsmenn, prestar, Biörn Olafsson í Runa, Einar Olafsson, rádsmenn bádir, Gudmundr Olafsson, Þórdr Jónsson, Símon Jónsson í Hálfhollti, oc Oddr Halldórsson at Gaulveriabæ, enn leikmenn, Magnúsar tveir Jónssynir, annar at Núpi, Magnús Petursson, Olafr Asbiarnarson, Gísli Sveinsson at Midfelli, oc Jón Gíslason, svarnir lögréttumenn; þá kom Knútr Steinsson hyrdstióri seinast út híngad med nytt umbod, oc tók hollustu eyda til handa Fridríki konúngi er kalladr var hinn annar med því nafni; enn Páll Stígsson er umbod hafdi tekit á Bessastödum næst eptir Eggert, þá fyrir V árum sídann, tèck hyrdstiórnina, því hann qvittadi þat sumar Magnús son Jóns á Svalbardi um afgiald Þíngeyarsyslu, oc Eggert lögmann um afgiald Helgafells klausturs, hann giördist brádt stiórnsamr, oc rètti lærdóm oc sidu manna; þá dæmdi Eggert lögmadr Hannesson á alþíngi, um Hof á Höfdaströnd med XII mönnum, enn Gísli biskup gaf Þorleifi presti Biarnarsyni Þorleifssonar qvittun, Skálhollts kyrkiu vegna, um misfelli hans med Ragnhildi Jónsdóttr, oc prestskap hans aptr, um haustit; á því sumri var borinn í Mödruvalla seli Oddr son Einars prests Sigurdarsonar oc Margretar Helgadóttr, nær viku fyrir Mariumessu sídari, var þá Einar prestr fadir hans XX vetra, hann var sídann Þíngaprestr vid Myvötn, enn þar eptir at Nesi í Adalreykjadal, oc var þat laungu seinna.

## XXI Cap. Höfdíngiadaudi.

1560 Eptir þessa atburdi andadist Egill á Geitaskardi son Jóns Einarssonar, oc Kristínar Gottskálksdóttr biskups, ágangsmadr mikill; einnin Þorleifr Pálsson at Skardi á Skardströnd er lögmadr hafdi verit; hans son var Biörn at Keldum, fadir Eyrí s er þar bió, oc átti Þórunni Snæbiarnardóttr frá Keldum Hall órsesona, oc margt barna; Gudrún hèt dóttir Þorleifs, hún fèll í stór legordsmál, enn Arni Gíslason útvegadi henni qvittan af konúngi, seldi hún hönum þá Hól í Bolúngarvík fyrir Stórnborg, giptist sídann Egli at Skardi sem nú var getit, oc voru þeirra börn, Jón, Eyríkar tveir, Gudrúnar tvær, Rannveig, Ragnhildr, Gudrídr Þor,

valdr á Reykium var son Jóns Egilssonar, fadir Steinunnar er Eggert á Ökrum átti, Egill, Jónar tveir oc Gunnlaugr á Gullbrecku. Sigrídr var önnr dóttir Þorleifs lögmanns, hún gat einnin barn ógèfinn, hennar fèck Biarni at Skardi son Odds Thomassonar Oddssonar frá Búdardal, Dadi fylgdi at því at hann fèck hennar, oc gaf hönum LX hundrada jörd, því hann hafdi verit sveinn hans, þeirra börn voru Dadi at Skardi er átti Arnfrídi dóttr Benedicts Halldórssonar frá Mödruvöllum, fadir Sigrídar, módr Eggerts ríka, oc Þorleifr í Búdardal, fadir Bergs, Odds á Borg, oc Benedicts í Búdardal. Asmundr var launsonr Þorleifs lögmanns, hann var fadir Erlendar at Hvoli oc hans systkina; Sigmundr oc Olafr voru enn launsynir Þorleifs lögmanns; það missiri deidi oc Pètr Palladius Siálands biskup; þá andadist einnin Þorleifr bóndi Grímsson at Mödruvöllum, oc Grímr sonr hans, hann var fadir Einars födr Gríms í Teigi; lèt þá Ormr Jónsson dóm gánga at Spialdhaga, í umbodi Páls Stígssonar höfudsmanns, oc hans nærveru, midvikudaginn eptir Bartholomæus-messu um sumarit, um þat hvert afl hafa skyldi giöf Þorleifs til Gríms, oc var hún dæmd gyld, þar Þorleifr átti XVI hundrud hundrada. Jón Marteinsson leitadi eptir giöfinni seinna, vegna Einars Grímssonar stiúpsonar síns, oc sonarsonar Þorleifs; settust þeir á Mödruvöllu bádir, Ormr Sturluson oc Páll Jónsson, oc sóktu eptir arfi Þorleifs vegna qvenna sinna, enn ráku á brott Gudbiörgu Erlendsdóttr konu Gríms, er Jón Marteinsson átti sídar, fór hún til Hóla í Eyafyrdi, oc þar giptist hún Jóni, enn lèt halda þángat til XXX menn, adrir segia C, um þriár vikr framm yfir alþing, medann þeir Páll oc Ormr sóktu á; þeir vildu láta Grím, oc öll börn Solveigar Hallsdóttr seinni konu Þorleifs vera óarfgeng; enn á alþingi var dæmt af þrennum tylftum manna, at öll börn Þorleifs væri arfgèng, oc keypti Jón Marteinsson af höfudsmanni fyrir LXX Jóakimsdali, at fá stadfestann þann dóm af konúngi; þeir Ormr oc Páll skeyttu því lítt, oc var Solveig Hallsdóttir nauduglega stödd; hún sendi V menn í brennisteins-nám þeirra Þorsteinssona Vígfúsar oc Nicolásar vid Myvötn, oc fèck LX tunnr, reid til eyrar oc seldi siálf; þeir Ormr oc Páll sátu í fènu oc eyddu öllu, stód þat svo á tvennum missirum, þeim

samdi miög illa, því Ormr var prúdlyndr oc þótti íllt at eiga vid hióllyndi Páls; þar um qvad Hallr Magnússon þetta:

A Mödruvöllum mynkar gull,
mest er af stadnum vyrdíng full
Páll oc Ormr med penínga krúll
plocka þann gard oc halda;
hvad skal eg grundum gialda, fyrir góda skemtan víns?

## XXII Cap. Lyktir á Vatnsfiardar málum.

Eggert lögmadr Hannesson hafdi átt þrætr vid Arna Gíslason til þess er hèr var komit, þá er þat ætlan manna, at hann hafi hlotit odd at brióta af oflæti, svo at Páll Stígsson höfudsmadr, biskupar bádir Olafr oc Gísli, oc Páll Vígfússon lögmadr, fóru med sáttabodum á milli þeirra í Vatnsfiardar málum, oc fleiri hinir betri menn, oc bádu Arna medtaka oc halda þat sáttmál er þeir vildu giöra med þeim; Arni qvadst þat giöra vilia fyrir ord þeirra, ef hann fengi þá sæmd af málunum sem hönum líkadi, ella þyrfti þeir ei um slíkt at ræda nema med dómi oc lögum, handsöludu þá þeir fiórir höfdíngiar, höfudsmadrinn, biskupar bádir, oc Páll lögmadr, fyrir hönd Eggerts XL hundrud í gódum oc gyldum peníngum; þat líkadi Arna at medtaka, oc skyldi hverr þeirra hafa goldit hönum X hundrud fyrir sig í nærstu fardögum; enn þat afsagdi Arni at refiast eptir þessum peníngum, oc qvad sáttinni vera skyldi af sèr med öllu uppbrugdit, ef ei væri rétt goldit í tiltekinn gialddaga, lètst hvorki vilia nè vera tilfær at sækia þá med lögum fyrir þetta fè, oc eiga þá heldr um vid Eggert; einnin tilskildi hann at Eggert hèti því, at kæra aldrei, medann hann lifdi, upp á þá penínga sem Jón prestr Eyríksson hefdi keypt af Byrni Þorleifssyni, oc med því skilyrdi gaf Arni Eggert lögmann qvittann fyrir sig oc sína erfíngia um fè Jóns prests Eyríkssonar, oc allar hrakníngar sem hönum voru giörfar af Eggerti oc hans fylgiurum; fór þetta framm á alþíngi mánadaginn eptir Pètrs messu oc Páls um sumarit, oc var þat nockr lykt á Vatnsfiardarmálum, milli Biarnar Gudnasonar oc Biarnar Þorleifssonar, oc þeirra nidía, er þau

höfdu yfirstadit nær um LXXX ár, oc voru þá vída komnar jardir þær hinar mörgu er Biörn Þorleifsson hinn ríki hafdi átt oc samandregit; þá er mælt at Eggert hafi arfleidt börn sín. Fridrikr konúngr annar hafdi spurt þat, at hèr á landi vidgengist miög hórdómar, blódskammir oc ímisligt saurlífi, oc væri skialdann hegnt af veraldlegu yfirvaldi, heldr hefdi biskupar hinir fornu dæmt öll slík mál eptir kristnumrètti, oc lagt ímsar skriptir á slíka menn, fèpínr, útlegd oc peníngasektir sem þeim líkadi, enn skialdann líflát; fyrir því hafdi hann sendann híngad Pál Stígsson höfudsmann, bródrson Otta, oc mann miklu betri, oc ritadi biskupum bádum, Olafi Hialltasyni oc Gísla Jónssyni, oc baud þeim at taka samann af Guds ordi oc konúngslögum tilskipan um refsíngu á þeim brotum, oc senda sèr til yfirskodunar oc endrbótar, enn þeir ritudu hönum aptr, oc töldu á fáfrædi sína, oc bádu hann vægia sèr vid slíkum vanda, oc leggia heldr á lærda menn í Kaupmannahöfn; þat vard þá enn til tídinda, at Arni prestr Arnórsson í Hytardal var staddr á Arnarstapa, hann gèck óvarlega út um nótt, oc fèll í Stapa-læk, oc tyndist þar; tók eptir hann vid Hytardal Loptr prestr Narfason; enn um þær mundir eda nockru fyrri, tók Dadi Gudmundarson at krenkiast af átumeini í andlíti, fyrir því drógu óvitrir menn þat samann, at bann Jóns biskups hefdi ei á hönum hrínid medann Arni prestr lifdi, oc hafa sett samann kyniasögr um siúkleik hans; oc ei at eins trúdu því frændr oc vinir Jóns biskups, at bannit hefdi bitit Dada, heldr einnin allr fiöldi manna, sem lióst er af meiníngu Jóns prests Egilssonar í riti hans, er í þennan tíma var uppvaxandi madr, enn þá voru lidinn X ár er hèr var komit, frá aftöku Jóns biskups oc sona hans; gátu oc Dalamenn til, er vinir voru Dada, enn litlir vinir Jóns biskups, at heldr mundi verit hafa af húfu töfradri er hann hefdi tekit eptir biskup, oc var nockru nær at halda, er Arni prestr var haldinn margvís, at hann hefdi aptrad fiölkíngi medann hann lifdi heldr enn banni, enn hvergt er þó sannlegt. Þá giördist Gudbrandr Þorláksson heyrari í Hólaskóla, oc var hann þá XVIII vetra gamall.

## XXIII Cap. Frá Gísla biskupi Iónssyni.

Gísli biskup Jónsson í Skálhollti átti lengi mótdrægt í biskups syslu sinni, á líkann hátt oc þeir er fyrir hann voru; þat var eitt at inntekt stólsins mynkadi hvad eptir annad, oc þat þó hellst frátekit er mest var stod oc styrkr at; tók Fridrikr konúngr eptir undirvísan höfudsmanna, til sín, allar eignir Skálhollts stadar á Sudrnesium, hinar bestu plógs oc útvegs jardir, Hvalnes med Hvalness-hverfi eitt hundrad hundrada, Lambastadi XX hundrud, Garda XII hundr.; Skeggiastadi X hundr., Kothús X hundr., Gufuskálir XX hundr., Hólm L hundr., Niardvík X hundr., Hvassahraun hálft X hundr., Helgafell VIII hundr., Þerneyu LX hundr., Ofridarstadi X hundr., Audnukot VIII hundr., Helliskot VIII hundr., oc Kópávog til bygýngar oc umsiónar, enn um landskuld skyldi fara sem ádr hafdi verit; voru med þessum jördum kúgildi, hálfr þridji tugr; voru dómkyrkiunni aptr fengnar jardir Videyarklaustrs í Borgarfyrdi, oc eignir þær er Ögmundr biskup hafdi þar átt fyrir sunnan Hvítá, Uppsalir XXIII hundr., Búrfell XXIIII hundr., Raudsgil XXIV hundr., Ulfstadir XX hundrud, Kleppjárnsreykir XII hundr., Hurdarbak hálft XII hundr., Litli Kroppr XX hundr., Heggstadir XL hundr., Hvítárvellir LX hundr., Brautartúnga XI hundr., Höll XXIIII hundr., Snartastadir XVI hundr., Brecka XL hundr., Hestr XL hundr., Hálsar XVI hundr., Galltarhollt XII hundr., oc Hrisakot VIII hundr., med iafnmörgum kúgildum oc hinum fylgdu, oc þartil Vælugerdi á Asum í Flóa austr. Gísli biskup átti oc erfidt at aftaka forna páfatrú oc sidu, áheit, liósa qveikíngar fyrir líkneskium, talna saungva, Mariutídir oc önnr hindrvitni, enn þó miklu erfidara at koma á aptr gódum sidum, oc christilegum kyrkiuháttum, hiá fávísum almúga oc þverlyndum, hellst medann hid gamla stórlundada fólk lifdi, er traudlega vildi láta hinn forna sid; enkum til þess er Páll Stígsson giördist höfudsmadr, er fastlega fylgdi biskupum at sliku; mundi torveldara hafa gengit um alla sidbót, nema sá ótti hefdi stadit af konúngsvaldinu; Gísli biskup lagdi þó allt kapp á at fárád alþýda frædd-ist í trúargreinum sínum, oc giördi hann þat siálfr munnlega, þá hann visiteradi, oc svo brèflega, þar sem hönum þótti umbóta vant, sem lióst er af sendibrèfum hans til safnadanna undir Eja-

söllum; þar taldi hann þeim fastlega trú um at Christr einn væri medalgángari, enn engir helgir menn; var eitt hid heldsta útgefit tveimr árum ádr enn Páll Stígsson kom út oc hèr var komit; einnin til Jóns bónda Magnússonar fyrir austann, oc fleiri þeirra er hann fann miög fastheldna vid ákallan Mariu oc annara helgra manna, afrèdi þeim slíku med hógværum ordum, enn syndi med skyrum ritníngar greinum þat er sannara var; hann lèt oc höggva nidr oc brenna Kaldadarness krossinn, enn veikir menn oc vanfærir sóktu þó eptir spónunum oc öskunni á medann þeir máttu; hann skipadi Lækjarbug í Hraunhrepp, er annad ár lá til Krosshollts, enn annad at Stadarhrauni, til Stadarhrauns árlega, því kyrkia lá nidri í Krosshollti, oc hèldst þat sídann; einnin giördi hann skipun á milli Akra oc Krosshollts kyrkiu, sóknarmönnum til hægdar; hann skipadi oc Leysíngiastadi oc Magnúss-skoga til Asgards kyrkiu henni til betra vidhalds; miög var hönum erfidt vid at eiga lærdómsleysi oc fáfrædi presta, vildu hinir eldri eigi láta sonu sína til presta læra, hlaut hann því at vígia hvern er hann fèck til, sem Gisser biskup oc Marteinn höfdu hlotit, einnin únglínga úr skólanum, oc fá þeim hentugar bækr oc predikanir, hellst á hinum fyrrum árum biskupsdómsins; oc fyrir því at slíkir úngir prestsmenn voru eigi færir um at hafa umsión oc ábyrgd á kyrkium oc kyrkiufiám, voru þeir haldnir sem heimilisprestar med audugum bændum oc forsiónarsömum er stadina hèldu med biskups leifi, oc voru prófastar sumir; Dadi Gudmundarson hèldt Hvamm í Hvamms sveit, enn Jón Grímsson Hvamm í Nordrárdal, son Gríms Jónssonar í Sydumúla, hann bió í Kalmanstúngu. Þórdr Gudmundarson frá Þíngnesi hèldt Reykhollt eptir Odd lögmann Gottskálksson, oc sídann Mela, oc var prófastr í Borgarfyrdi oc enn voru svo fleiri; enn prestarna hina úngu oc lítlærdu vyrdu þrályndir menn lítils, sem vita má. Kènnendr til skólans vard Gísli biskup at útvega danska; Hans Lollich er sídarst var nefndr, hann var undarlegr í skapi, oc hafdi verit IIII ár; eptir hann kom Erasmus Villadtsson, Jótskr at ætt, oc hinn nytasti madr, sá er sídann var prestr at Odda; 1563 fóru gódra manna synir í þann tíma margir utann er námgiarnir voru, til Kaupmannahafnar, Raudstocks, Bríma oc vídar; Stephán Iaunsonr Gunnars Gíslasonar, Sigurdr Jónsson at nordann, Gísli Gudbrandsson er seinna hèldt Hvamm vestr, oc Jón Gudmundar-

son er seinast var prestr í Hytardal; Gudmundr Jónsson fadir hans bió á Hvoli, oc var vitr madr, son Jóns Þórdarsonar systrsonar Ögmundar biskups; tók Gísli biskup þá at sèr alla oc efldi til frama er hann sá at námgiarnir voru.

## XXIV Cap. Frá ímsu.

Nú andast Helgi er verit hafdi ábóti á Þíngeyrum; þá lèt Þórdr Gudmundarson dæma um ósvarinn frillubörn at Lundi í sydra Reykiadal, hann hafdi þá syslu fyrir sunnann Hvitá. Mánadaginn eptir páskavikn, lèt oc Vigfús bóndi Þorsteinsson syslumadr í Þíngeyar þíngi dóm gánga, um hardrædi Halldórs prests (ins ríka) Benedictssonar, vid Helgu konu sína, dóttr Illhuga prests Gudmundarsonar í Múla, oc at hún mætti víkia frá hönum til syslumanns, edr födr síns, ef henni væri ei vært ella. Magnús Jónsson frá Svalbardi var þó þá enn kalladr þar syslumadr iafnframt, bió hann at Skridu; má vera hann hafi haft hálfa syslu; gètit er enn fleiri giörnínga oc dóma, oc jarda sölu Olafs biskups til Illhuga prests Gudmundarsonar, oc Hrólfs bónda, sonar Biarna Skúlasonar, sem Hrólfs ætt er frákominn, hann bió í Skagafyrdi í ímsum jördum; var oc dæmt um qvenna legord á alþíngi. Þá gaf Páll Stígsson höfudsmadr brèf út til lærdra oc leikra á landi hèr, at Múnkaþverá þann XXXIta dag Julii mánadar, oc lagdi sekt vid at halda þær helgar sem bannadar voru, einnin um lióssaqveikíngar fyrir líkneskinm, skyldi slíkt varda konúngsbrèfa brót VIII merkr, oc med því menn máttu þá ei berlega slíkt æfa, var þat giört á laun; stadfesti hann brèfit aptr at Midgördum í Stadarsveit um haustit; þann tíma bar þat til at Oddr prestr Halldórsson í Gaulveriabæ gèck nordr á tún eitt qvöld, oc vard þá máttlaus, oc lá sídann í IIII ár; Dadi Gudmundarson í Snóksdal krenktist þá miög, svo hann lagdist í kör, enn lengi hafdi hann kránkr verit á fótum, var enginn látinn til hans koma nema kona hans oc smásveinn, oc Gísli biskup þá hann visiteradi, var lengi bedit fyrir hönum í Skálholti, enn iafnann var hann med heilli rænu; giördi hann um þessar mundir Testamentum sitt, oc kaus sèr legstad at Snóksdals kyrkiu, enn gaf mörgum manni stórmiklar giafir í því, oc sumum jardir LXXX eda hundrad hundrada;

## XXV Cap. Frá biskupi.

Olafr biskup Hialltason at Hólum átti allerfidt vid Nordlendínga sem fyrr segir, vyrdu þeir hann lítils oc hinn nya sid, var hönum einna mest mótfallinn Þórunn á Grund, dóttir Jóns biskups, hún vildi ei afleggia pápiskann átrúnad, oc eigi gialda rèttar skyldr soknarpresti þeim er biskup hafdi þángat skipad, oc taldi adra marga med sèr til slíkra hluta; lèt biskup þá til kalla góda menn, oc yfirskoda allar máldagabækr Hóla kyrkiu, allt til Gottskálks biskups hins seinna, sögdu þeir fiórir máldagar eitt, at kyrkiann á Grund í Eyafyrdi ætti tveggia presta heimilis-skyldu at jafnadi, oc diáknans med; frammbar biskup at húsfrú Þorunn hefdi at engu metit sína skipann, svo prestr sá er hann hafdi þángad sett um tvö ár, fèck ecki nema hálfa skyldu-veru, hverki fyrir skipanir nè audmjúka bón; hann átti oc vid at strída fákunnáttu oc lærdómsleysi prestanna, hellst á medann hinir úngu skólamenn voxu ei upp, enn þó kom hann smámsamann sálmasaung oc skickanlegum Ceremonium í gott lag, enkum med fylgi Páls Stígssonar höfudsmanns; hverki var Olafr biskup stolltr nè stórmenskusamr, nè áseilinn til fèdráttar; ei var hann mikill spekíngr kalladr, nè skörúngr, heldr fridsamr, einfaldr oc óáleitinn, oc vel látinn af gódum mönnum oc fridsömum; var hann gagnsamr eptir mætti eda framar von í biskupsdómi sínum; hann skipadi visitatiubók í V hlutum; var einn um þann sid er prestar skyldu halda, bænir oc heyrn guds orda, sacramentisbrúkun, skriptamál oc sálmasaung, oc svo ölmusugiördir; annar um prestinn oc diáknann, oc alla þeirra embættis skyldu oc tekiur; þridji um helgihöld, pílagrímsferdir oc fóstr; fiórdi um ölmusugiafir; fimti um bækr sem kyrkiubændr skyldu kaupa, forbódan, fiölkíngi, hiónabands mál, veitslur, prestafundi oc prófasta, oc sídast um visitatiu hversu framm skyldi fylgia; ritadi hann eina bók fyrir presta oc adra fyrir prófasta til eptirbreytnis, oc var þat allt vel samit at meiníngu oc tilætlan, svo at ei má hönum ámæla med sönnu fyrir nockrsháttar hyrduleysi; hann lèt giöra til Hóla kyrkiu kluckuna miklu er ástódu þessi ord:

Herra Olaf heidrsmann
er Hólakyrkiu styrir rann
stóra kluckn á stadarins torg
steypa lèt í Hamborg.

Sigrídr Sigurdardóttir hèt fylgikona hans, er hann tók til eginkonu sèr þá hann var biskup ordinn, Sigurdr fadir hennar var son Jóns priórs, Finnbogasonar lögmanns; hún launadi hönum eigi betr trúfesti enn svo, at hún tók undir hann svein hans, Biarna son Sturlu smids, segia menn at Biarni hafi lyst því siálfr vid biskup á þíngi, enn flúit sídann land fyrir þá sök, oc komist á Brimaraholm, hafi konúngr sídann gefit hönum upp sakir fyrir karlmennsku hans, oc tekit hann í lífher sinn; kom hann út sídann, oc var lengi lögrèttumadr, oc fèck Ingibiargar dóttr Páls syslumanns, Grímssonar á Mödruvöllum, þeirra son var Oddr hinn sterki á Melum í Svarfadardal, er Mela menn eru frákomnir; enn biskupi var þetta bædi til hugraunar oc vanvyrdu, því Sigrídr qvad hann ecki verda sèr at manni; var þat mælt, er hann var ádr í hrakníngum sínum oc utanförum, at hann hefdi komist í kunnleik vid eckiu nockra í Noregi, oc heitit henni eginordi, enn efnt ecki, oc hún fengit sídann af Finni nockrum eda fiölkunnugum manni, at giöra hönum glettíngar þær, er hann yrdi sídr til qvenna, oc hafi hann fengit af því lífsiki; enn þat eitt vitu menn med sanni, at hann vard aldrei heill, sídann Jón biskup lèt hrinda hönum á prestafundinum, hvert sem hann hefir hlotit af því fótlamann einann edr adra vanheilsu jafnframt; var hann oc madr gamall er hèr var komit.

## XXVI Cap. Frá ímsu.

Þá var vetr medallagi, enn kom á nordann hríd á skírdag, 1562 oc fellir mikill; í þann tíma lèt Olafr biskup Jón prest Matthiasson prenta nya sálma, Gudspiallabók, handbók presta, oc Lúthers frædi at Breidabolstad; hann lèt oc stadfesta heitdag Olafs biskups Rögnvaldssonar oc betra atferdina; þá deidi Solveig Rafnsdóttir er Abbadys hafdi verit at Stad í Reininesi, oc var þá gömlud miög, enn Gunnar bóndi Gíslason hèldt stadinn, oc lifdu þar þá enn systr nockrar; þá fór Gudbrandr Þorláksson frá Hólum utann á Patriksfyrdi, oc fèck friann kost hiá Siálands biskupi; þau missiri dæmdi Eyrikr í Asgardi son Gudmundar Andréssonar um ved í jördu at Stadarfelli; hann hafdi umbod Pètrs bónda Einarssonar syslumanns í Þórness þíngi, oc hefir þá

Pètr haldit þeim völdum enn; Jón Marteinsson hafdi þá Vadlaþíng, enn Tumi Þorgrímsson Skagafiardarsyslu, hann lèt dæma um framfæri barna Dada Steinþórssonar, oc Helgu Þorláksdóttr at Vallalaug.

## XXVII Cap. Frá Stepháni presti oc ödru, enkum Gísla biskupi.

Stephán hèt prestr einn, oc var Olafsson; hann oc Erlendr Þórdarson höfdu qveikt þann róg, oc borit brèf um þat Páli Stígssyni höfudsmanni, er hann lagdi framm á þíngi, at Stephán prestr hefdi séd Pál Vígfússon lögmann, þá fyrir meira enn XX vetrum sídann, rída á spiótskapt Ejólfs heitins Kolgrímssonar at hönum óvörum, oc hefdi Ejólfr fengit af því bana er spiótid hefdi gengit í qvid hönum, oc lyst Pál banamann sinn fyrir Stepháni; nefndi höfudsmadrinn þarum XXIV menn í dóm í Ölvesi, var Stephán fyrir dómi, oc medkendist at hafa ritat brèfit oc innsiglad; Páll lögmadr beiddist undanfæris, oc dæmdu þeir hönum tylftareyd; þann eyd vann hann þar, med þeim formála, at Ejólfr Kolgrímsson hefdi ecki bana fengit af sínum verkum nè vilia, hverki leinilega nè opinberlega oc hverki viliandi nè óviliandi; medkendi Stephán þá, at hann hefdi fyrir þær sakir ritat brèfit, at sèr hefdi misþóknast ord lögmanns, er hann kom heim til hans at Hlídarenda, enn þau vyrdust þó dómendum sönn, oc skyldug umvöndunar ord, oc dæmdu þetta rètt banarád, oc Páli lögmanni LX hundrud af Stepháni í bætr; oc í annari grein eptir rógs capitula, at sá skuli slíku sekr, sem rægir vid konúng, biskup, jarl edr syslumann, oc svo ef madr lysir ecki vígi; dæmdu þeir landsvist oc líf Stepháns til konúngsnáda, á hvern hátt sem hönum synist vid hann at giöra, fyrir slíkt óheirilegt verk. Eggert lögmadr útnefndi þá oc dóm á Öxarár þíngi, um þá menn sem lofa med vottum oc handsölum meiar eda konu at fá, oc leggiast sídann med, láta lysa, enn vilia ei sídann festa, edr þær vilia þá ei samhyllast til löglegrar festíngar; vyrdtist dómsmönnum slíkt ólöglegt oc óleifilegt at guds bodum oc manna, oc dæmdu þá skylduga þær konr at festa; enn ef þeir vilia ei at lidnum lys-

íngum, skyldi þíngaprestr giöra þeim ámynníngu næsta sunnudag eptir, at festa þær, ella gialda giptíngarmanni fullrètti; enn á ödrum sunnudegi med samri ámynníngu, at gialda giptíngarmanni tvöfaldann rètt; oc á þridia sunnudegi med hinni sömu, tvöfaldann rètt giptíngarmanni, enn konúngi IIII merkr í dómrof; enn lídr sídann mánudr upp frá því, oc festir hann eigi, þá sè fángadr af konúngsvaldi, undir þá refsíngu sem XII menn dæma; um sumarit kom út híngad brèf Fridriks konúngs, at hyrdstiórinn mætti med XXIIIIr hinum skilvísustu mönnum dæma yfir lögmanna dómum ef þeir væri rángir; veikti sú tilskipun nockut svo höfdíngia stjórn Islendínga, oc hneigdist til einvalds-stjórnarinnar, oc mátti þó vera þörf at nockru, enn var bodi meiri umskipta seinna af tilstilli landstióra. Þat haust hinn XXta dag Septembris mánadar, giördi höfudsmadrinn brèf oc giörníng vid Gísla biskup Jónsson um þau jardaskipti er fyrr er gètit; mátti hann ei þar í móti mæla, ella voru hönum vís svör, oc brugdit hiónabandi hans vid Kristinu, því annad reindist sannara enn þat er hann hafdi tilsagt um sakir hennar; var í stad afgialds af þerneyu, oc þeim jördum sem skólameisturum voru lagdar til, oc nú á konúngsvaldi, biskupi bodit at gialda skólameistara hvört ár af sinni inntekt LX dali, oc naut gott í kost, IIII saudi gamla, VI tunnr mallts, III tunnr miöls, eina tunnu sallts, eina tunnu smiörs, II hundrud fiska tólfræd, oc þar til miólk oc skyr sem hann þyrfti, enn heyraranum XX dali, oc kost tilbærilegann;
1563 leid nú svo af hinn næsti vetr.

## XXVIII Cap. Fráfall Dada oc Ætt.

Þessu nærst andadist Dadi í Snóksdal er hann hafdi legit tvo vetr; Gudrún Einarsdóttir kóná hans var þá nær hálf áttræd, oc lifdu ei börn þeirra; enn erfingi var Hannes son Biarnar Hannessonar, dóttrson Dada, oc var hann í ómegd, vildu Danir taka upp allt fè Dada fyrir sakfelli hans, enn Eggert lögmadr samdi vid Pál Stígsson höfudsmann, vegna Hannesar bródrsonar síns, því hönum var dæmt umbod hans í Snóksdal, oc jafnframt þat, at Dadi hefdi ei átt þeim sökum at svara medann lifdi at fè hans væri upptækt, því hann hefdi tekid fulla qvittun fyrir brot sín;

hafdi höfudsmadrinn sendt Andrès Hoffmann umbodsmann sinn â þíngit; Eggert lögmadr galdt höfudsmanni D dali, oc leysti med því fèn, enn Hannes skyldi svara hönum fyrir þat er hann kæmi til lögaldrs, Sæbóli á Ingialdssandi LX hundrudum; þat gèck sídann til Ragnheidar Eggertsdóttr, oc eptir hana til Elínar Magnúsdóttr dóttr hennar; frá Hannesi er kominn mikil ætt er Snóksdals ætt heitir; Eggert var sonr hans er var í Snóksdal, oc átti Halldóru dóttr Hákonar Biarnarsonar í Nesi, fadir Jôna tveggia, oc Hannesar í Snóksdal, oc Ragnheidar sem fyrr átti Sigurd prest Olafsson, Brandssonar bródr Marteins biskups, Einarssonar, enn sídar Þorvard Runólfsson; Olafr var annar son Hannesar, fadir Gísla, födr Sigurdar Dalaskálds; Steinun Hannesdóttir átti Arna son Gísla Þórdarsonar, þeirra börn Þórdr smidr mikill oc námsmadr, Hannes oc fleiri; Þórun Hannesdóttir átti Gísla Biarnarson prests bródr Arna, Gíslasonar, þeirra son var Biörn fadir Sigurdar lögmanns, var sú ætt fiölmenn oc gôdmenn; Ragnheidr Hannesdóttir átti Jón Sigurdarson í Einarsnesi, þeirra son var Sigurdr lögmadr, þat er Einarsness ætt. Hallbiörg oc Anna voru systr Hannesar. Biarni Gudmundarson bródir Dada bió á Dúnki í Hördadal, hans synir voru Gudmundr á Dúnki, oc Biarni í Bæ í Króksfyrdi, Jón á Hrodnyarstödum, oc Hallgerdr dóttir; Sigurdr var launsonr Biarna, eru þadan oc ættir komnar; Halldór Gudmundarson var annar bródir Dada, hans börn voru Þórdr í Tungu, Gudmundr í Hlíd oc Ingibiörg, frá þeim öllum eru ættir; frá Ingirídi systr Dada er ádr talit, hún var módir Jóns á Svarfhóli; Þorbiörg oc Gudrùn voru enn systr Dada; Háldán Gudmundarson bródir Dada var fadir Jóns, födr Skúla sem margt fólk er frá komit, Halldórs oc Jóns; flestum hafdi Dadi gèfit frændum sínum giafir stórar.

## XXIX Cap. Imsar Tilskipanir, oc annad.

Nú kom út bréf Fridriks konúngs, er orsakadist af svari biskupa til hans um hórdóma, oc adra ósidu oc þverúd, at þeir treystust ei um slíkt lög at semia; baud hann at flockadrættir, hórdómar oc blódskammir skyldu med lífláti refsast, oc þótti þat heldr ad-

greiníngarlaust; fyrir því vildi Páll Stígsson áqveda láta, hverir af slíkum sakamönnum skyldu lífi halda, oc hverir eigi, oc var þat tilefni til dóms þess er þar um var dæmdr sídar; enn á alþíngi áqvad hyrdstiórinn á þessu sumri, ásamt med biskupum bádum, af hverja prestar uppgefnir skyldu alast, því at Spitali sá er Arni biskup Helgason hafdi sett fordum, oc duga mátti prestum sem óqvæntir voru, dugdi nú ei lengr er þeir höfdu konr oc börn; voru þeim tilnefndir stadir er þeim skyldi veitast uppheldi af; í Austfiördum Hof í Vopnafyrdi, Kyrkiubær, Valþiófstadr, Vallanes, Heydalir, Stafafell í Lóni; fyrir sunnann Hollt undir Eyafiöllum, Breidabólstadr í Fliótshlíd, Oddi, Runi, Gaulveriabær, Gardar á Alptanesi, Melar, Reykiahollt; í Vestfyrdínga fiórdúngi, Stafhollt, Hytardalr, Setberg í Eyrar sveit, Selárdalr, Hollt í Önundarfyrdi, Vatnsfiördr, Stadr í Steingrímsfyrdi, Stadr í Grunnavík; enn miög þótti misiafnt nidrskipad á þessa stadi presta uppheldinu lengi, eptir vild oc vináttu biskupa; eitt konúngs brèf baud at klerkar tæki collation af lènsmanni, oc gengi eptir ordinantiunni, þvarr vid þat köllunar rettr eigenda kyrknanna; var stefnt utann Páli Vígfússyni. Höfudsmadrinn lèt oc á því alþíngi XII manna dóm ganga um ordrygti; annar dómr gèck at forlagi höfudsmanns oc Gísla biskups, um tregleika úngra skólamanna til prestavígslu, var dæmt at þeir sem rèdi sèr siálfir, oc ei vildi prestvígiast, skyldu aptr gialda edr af sèr vinna vid dómkyrkiuna, klædi oc fædi er þeir nutu í skólanum; höfudsmadr baud at gialda sèr oc sínum umbodsmönnum prófaststoll eda giaftoll af þeim syslum er Gísla biskupi voru léntar tyundir af; þau missiri giördi Þorleifr prestr Biarnarson Testamentum sitt, oc fól Eggerti lögmanni Hannessyni konu sína oc börn, hann hafdi fengit Páli Jónssyni frá Svalbardi Reykhóla; Eggert gaf Gudmundi Helgasyni á Eyri vid Arnarfiörd qvittun konúngdómsins vegna um misfelli hans vid Jón Guttormsson. Eptir alþíng reid Páll Stígsson hyrdstióri nordr í Eyafiörd at konúngsbodi, oc Niels Olafsson fógeti, oc Jón prestr Lopts son í Gördum skriptafadir hans, oc margir adrir; þar kom samann vid þá Olafr biskup Hialltason, Vígfús Þorsteinsson syslumadr úr Þíngeyarþíngi oc Nicolás bródir hans, oc Jón Marteinsson syslumadr í Eyafyrdi, enn kaupmenn konúngs voru fyrir, Hans Nansen er sídann vard borgmeistari, oc Frants Lauritsson; á þeim fundi keypti höfudsmadrinn konúngi til handa

brennisteins-námurnar nyrdra af þeim Þorsteinssonum, oc skyldi Nicolás hafa Múnkaþverár klaustr afgialdslaust um IIII ár, enn afgiald var LXXX dalir, oc var þó frestrinn lengdr sídar um tvenn missiri; enn Vígfús bóndi Þíngeyarþíng um VI sumr afgialdslaust, oc Mödrufell med Gilsbacka jafnlengi, enn sídann skyldi hann gialda eptir sysluna XXX dali freka edr sem hefir verit; hönum voru oc fenginn öll VI marka mál oc minni til eignar; um haustit hinn XXVIIda dag Septembris mánadar komu samann at Bessastödum, at forlagi höfudsmanns, Gísli biskup oc Marteinn biskup, Loptr prestr Narfason í Hytardal, Olafr prestr Sveinsson, Jón Halldórsson á Fródá stiúpsonr Dada, Brandr bródir Marteins biskups, oc Arni Oddsson í Midgördum, oc giördu skipun um kyrkiur oc kyrkiusóknir í Snæfellsness syslu, prestum oc sóknarmönnum til hagnadar, lögdu þeir alla bæi á Skógarströnd frá Holmlátri at Örlygstödum, er ádr lágu til Narfeyrar kyrkiu, til Breidabólstadar, þar alkyrkia skyldi byggiast; enn þá sem voru fyrir utann Háls oc Ulfarsfell til Eyrar kyrkiu, oc skyldi einn prestr þióna þeim kyrkium bádum; Eyrarsveit öll, nær XXX bæa, lá ádr til Eyrarkyrkiu, er þá var köllud Öndverdeyri, enn var nú lögd til Setbergs kyrkiu oc skyldi enginn kyrkia vera á Eyri; Hollt oc Tunga lágu fyrr undir Máfahlídar kyrkiu, hún skyldi nú aftakast, oc allir bæir milli Ennis oc Búlandshöfda liggia til Frodár kyrkiu; alkyrkia hafdi verit at Saxahóli, oc lá þangat Beruvík oc Öndverdtnes, hún skyldi aftakast, oc Saxahóll oc Öndverdtnes sækia at Ingialdshóli, enn alkyrkia byggiast í Lóni, oc þángat liggia Beruvík öll, Hólar oc Dritvík; skyldu gèfa búdarmenn allir oc útródrarmenn í Lóni oc Dritvík hvert ár einn fisk til kyrkiunnar, oc syslumadr hafa fulla magt at taka þann fisk af hlutum þeirra, ef þeir vildu eigi gialda; at Laugarbrecku skyldi vera sóknarkyrkia, oc þángat liggia bæir fyrir utann Sleggiubeinsá; X eda XI bæir í Eyarhrepp lágu ádr til Hafrsfiardareyar kyrkiu, hún skyldi nú med öllu aftakast, því sóknarmönnum hafdi fyrir stuttu borist þar á, oc drucknad í Hafrsfiardareyar sundi, er þeir fóru til jóla tída, enn af henni skyldi giörast lítil kyrkia í Krosshollti, svo prestr sá er þènti Kolbeinstada kyrkiu mætti tvær nætr samt hvílast þá hann fremr þar þiónustu, vegna fólksins naudsynia, oc skyldu liggia til Kolbeinstada kyrkiu til sóknar oc rentu allir bæir í Eyarhrepp

fyrir sunnan Nupá, enn þeir fyrir sunnan hana, Hafrsfiardarey oc Hausthús, at Miklahollti; aftakast skyldi kyrkia at Raudamel sydra, enn þeir sem giördu þessu í móti skyldu svara IIII mörkum sem í dómrôf; þá tók Einar prestr son Marteins biskups vid Reykiahollti af Þórdi Gudmundarsyni, enn hann tók Mela, oc hèldt prófastsdæmit.

## XXX Cap. Krísivíkr mál.

Krísivík var Beneficium, oc lá þar undir Herdysarvík; Gísli biskup fór til Krísivíkr þetta haust, hèldt stadinn prestr sá er Biörn hèt, oc bad biskup dóttr hans til handa mági sínum einum er Biarni er nefndr; prestr neitadi; enn biskup þycktist vid, oc qvadst mundi verda presti vid iafnmikla muni; sídann reid hann til Bessastada, oc kærdi fyrir höfudsmanninum naud oc þraung Skálhollts stadar, oc at skólinn verdi eigi haldinn fyrir því at skreidargialdit af sudrnesia jördum sè allt frá tekit; fyrir því bad hann höfudsmanninn um nockra ásiá, sagdi enga naudsyn til at Krísivík væri Beneficium, mætti heldr vera stólnum nockrt gagn ef hann fengi Krísivík oc Herdysarvík; kom biskup svo sínu máli at höfudsmadrinn dæmdi bádar þær jardir af prestinum undir Skálhollts stad, oc VIII kúgildi Krísivíkr kyrkiu til Strandar kyrkiu í Selvogi, oc var þat eignarmanni Strandar til þúnga; enn IV kyrkiu kúgildi oc XV aurar skyldu þó vera í Krísivík; var þetta dæmt at Bessastödum, mánadaginn nærstann fyrir Michaelsmessu, enn biskup reid til baka, oc fann Biörn prest at Strönd í Selvogi, oc tiádi hönum dóminn, oc lèt hann nú leggia skyldi frá sèr Krísivík; fylgdu þær iardir Skálhollts stad sídann, oc fèck biskup af því ámæli mikit; litlu sídar ritadi hann til presta í Höfnum sudr, at þeir mætti eigi þiónustu veita ímislegum óskila mönnum, er útreru oc ókèndir voru, sumir papistar, enn sumir hórdómsmenn, eda adrir glæpamenn; þat var ritat á IIIIda dag iola.

## XXXI Cap. Frá Petri Einarssyni, oc fleiru.

Þat er at segia frá Petri bónda Einarssyni, at hann komst í svo mikla óvild vid hyrdstióran, at hann var rekinn frá Arnar-

stapa; oc þarmed var hönum gefit at sök at hann hefdi logit til um svo ríkann gard, oc keypt af konúngi fyrir miklu minni enn verdr var, oc dregit dul at hönum; átti at færa hann til Danmarkar, oc hafdi þetta ordit ádr enn Dadi lagdist, því hann bad fyrir hann oc adrir fleiri; fèck hann at halda Ellidaey, oc var þar til þess er hèr var komit; enn aldrei var hönum óhætt, þángat til hann tók þat til ráds, at hann lèt vígia sig til prests, 1564.
oc fèck Hiardarhollt í Laxárdal; hann var þá sextugr at aldri, oc tók at daprast syn, enda hafdi hann gleymt andlegum frædum er hann hafdi lært úngr, því hann hafdi haft annad at sysla, oc hlaut því at lesa á bók vid gleraugur, þau voru hér þá fátíd, oc var hann sídann kalladr Gleraugna-Pètr; Brandr bródir þeirra Marteins biskups er kalladr var Moldar-Brandr, var fadir Olafs prests á Kvennabrecku hins sídara, oc Þórdar prests í Hiardarhollti, er frá hönum ætt mikil; dóttir Olafs prests var Sigrídr er átti Biarni Sveinsson at Jörva, þeirra son var Þorgils fadir Sigurdar á Jörva, födr Þorsteins er syslumadr var í Mulaþíngi; frá Brandi er oc Pètr í Tialdanesi; þá var sela-vorit mikla, því at ísar lágu vid land, oc voru teknir selar á þeim nær óteliandi fyrir nordann land, fór almenníngr úr sveitum útá ísana, oc báru selana lestum samann, eda drógu oc óku til bygda framm; þá tók Gísli biskup Vatnsfiardar stad af Jóni presti Þorleifssyni Gudmundarsonar, oc vard hann at víkia at Gufudal, enn fèck hann Jóni presti Loptssyni, var hann officialis, oc þótti biskupi hann betr tilfallinn enn hinn. Jón prestr Þorleifsson var sonarson Gudmundar Andrèssonar undir Felli, hann var fadir Þorleifs, oc Gudmundar prests, oc Orms födr Jóns prests at Kvennabrecku, födr Leirulækiar-Fúsa, oc Magnúsar prests födr Arna Assessors oc Jóns syslumanns. Jón prestr Loptsson átti Gudrídi dóttr Jóns prests á Ondverdrieyri, er útgèck á Grundarmöl vid skiparana, Asmundarsonar betra bródr Stephàns biskups, hún var systir Stephàns hins sterka í Lá, er í riskíngum á sió tyndi hásetum sínum oc komst einn á land, oc fyrir þat gèck Lá undir konúnginn; synir þeirra Jóns presta voru Gunnlaugr prestr í Hruna oc Jón prestr í Steinshollti; var Jón prestr Loptsson þá í vyrdíngu; vildi Gísli biskup hellst hafa þá officiales fiærst sèr, er vitrastir voru oc rögsamlegastir, oc lèt þá dæma öll hin smærri

mál; var fyrir austann Einar prestr Arnason í Vallanesi til þess er hèr var komit.

## XXXII Cap. Dómar.

Þetta sumar var dæmt um jardakaup qvenna í Nordfyrdi; getit er oc hyrdstióra leifis at Þorleifr prestr Biarnarson fengi Ragnhildar Jónsdóttr barnamódr sinnar, oc hefir hún þá ei verit eginkona hans ádr; einnin Olafs Hallssonar er átti Sigrídi dóttr Lopts prestr Pètrssonar í Vídidalstúngu, oc seldi Sælíngsdalslaugar Jóni Biarnarsynì, er eg hygg bródr Þorleifs prests, þann er í Flatey bió; Olafr Hallsson oc þau Sigrídr biuggu á Enni í Bitru, oc er ætt frá þeim; fleiri voru giörníngàr; á alþíngi var dæmt, fyrir því at ádr var undirlagt, um stórbrot þau er Fridrikr konúngr hafdi svo hardlega refsa viliad, oc sektir á þeim; sá dómr þótti mörgum hardr, oc var af því kalladr stóri dómr, er þó miög vant at vita at konúngr mundi stadfest hafa hefdi hann vægri verit, því at menn vitu mörg dæmi þess at Danir gengu þá miög hardt eptir slíku, oc lá vid stundum at hardara yrdi refsad enn sá dómr qvad á, vildu Islendíngar allt heldr vægia þeim sökum oc fengu ei, sem enn mun synast; er því höfdíngium þeim er dóminn sömdu ámælt ófyrírsyniu, oc því vidaukid at þeim hafi flestum viliat til slis eda brot þar eptir siálfum; má þat oc vel vera fyrir því at satt sè, at þeir dæmdu ei allshendis at sínu skapi; miklu meira höfdu fyrirmenn hèr þángat til gèfit sig vid kvenná ást enn at svo mætti vera; hafdi oc enginn skipan á verit sídann skriptirnar tókust heldr af, oc menn máttu fara taumlaust framm. Dómsmenn voru lögmenn bádir Páll Vígfússon oc Eggert Hannesson, Arni Gíslason syslumadr úr Húnavatnsþíngi, Gísli Sveinsson at Midfelli Hólmfastssonar, Gudmundur Jónsson at Hvoli Þórdarsonar systrsonar Ögmundar biskups, Þorlákr Einarsson at Núpi vestra, Gunnar Gíslason frá Reinistad bródir Arna, Halldór Einarsson, Biörn Þorleifsson, eg hygg son Þorleifs lögmanns, sá er á Kèldum bió, Jón Olafsson á Svarfholi, Brandr Einarsson bródir Marteins biskups, Þórdr Gudmundarson syslumadr úr Borgarfyrdi, Þorsteinn Oddsson, Hallr Olafsson prests Kolbeinssonar, Þorvaldr Biarnason frá Æsustödum, Þórir Sveins-

son, Einar Gíslason, Jón Sigurdarson, og ætla Jón rebba í Búdardal, Magnús Kètilsson, Pètr Þorleifsson, Ari Magnússon austann frá Núpi bródir Jóns, Magnúsar Jónssynir tveir, Oddr Thomasson Oddssonar í Búdardal fadir Biarna á Skardi; var dómrinn sendr konúngi til stadfestíngar, fór höfudsmadrinn siálfr med, oc kom hún út ári sídar, lèt konúngrinn þat eptir at erfíngiar þeirra 1565.
XVII manna er dræpir yrdu fyrir slíkar sakir, hèldi jördum þeirra, enn lausafè fèlli undir konúnginn; var þó eigi dæmt eptir hönum á landi hèr þat fólk er brotlegt varđ eptir hann, fyrir þær sakir er þat hafdi brotit ádr oc tekit qvittan fyrir.

## XXXIII Cap. Imisligt.

Vor þetta var lángt oc hardt framm yfir fardaga; þá gèngu dómar, einn at Vallalaug í Skagafyrdi af Gottskálki Magnússyni frá Reykium, er þá hafdi þar konúngsumbod, um fátæka menn, med XII mönnum; annar at Sveinstödum í Vatnsdal af Þormódi Arasyni, hafdi hann þá aptr syslu í Húnavatnsþíngi, eda var umbodsmadr Arna; þridji at Helgastödum um hiónaband Halldórs prests Benediotssonar oc Helgu Illhugadóttr, oc hardídgi hans vid hana, nema sè sá allr hinn sami er fyrri gètr af Vígfúsi bónda Þorsteinssyni; tók þá oc Olafr biskup reiknìng af Halldóri presti fyrir Múnkaþverár klaustrs peninga; Vígfús bóndi lèt oc dóm gánga um prestslambs eldi, oc hafdi hann þá prófastsdæmi í Þíngeyarþíngi ásamt syslunni, oc höfdíngi allmikill. Nicolás bródir hans átti Sigrídi dóttr Einars Bryniólfssonar at Espihóli, börn þeirra voru Einar oc Hallgrímr, Þorsteinn oc Katrín. Einar bió at Hèdinshöfda, oc fèck dóttr Jóns prests á Skinnastödum Loptssonar prests Petrssonar, er frá hönum mikil ætt; enn voru börn Nicolásar, Solveig oc Ingirídr, Gudmundr á Laxamyri, Ingibiörg oc Oluf. Þat var áqvedit í dómi Þormódar Arasonar, at flytia skyldi fátæka menn eptir rèttum bodburdi um alla syslu, oc hysa á hverium bygdu bóli, skyldi svo einvyrki flytia sem bóndi, ènn utan-sveitarmenn fara sem dagr endist, oc sè beint nockru á hverium bæ, enn veri burt úr syslu á vetr-nóttum, oc var þat hinn sami sidr sem vetit hafdi, því at þá var eigi sett á sveitir; Gudni í Hraun-

höfn oc Ari voru synir Þormódar; Gottskálk á Reykium sá er getit var, sonr Magnúsar Biarnasonar, var bródir Einars prests, þess er nefndr hefir verit, oc fèck sídar Valþiófstad, oc var óeyrinn, födr Rögnvalds prests í Hólmum, födr Marteins syslumanns; Gottskálk átti Gudrúnu dóttr Gottskálks prests í Glaumbæ oc margt barna; einn hans son var Sölvi prestr í Mödrudal fadir Gunnlaugs prests, er Skiöldólfstada brædr voru frákomnir; hid fyrra árit hafdi dómr gengit at Backarholti í Ölvesi af Niels Olafssyni, umbodsmanni höfudsmannsins, um reka á Þorlákshafnar skeidi; hann nefndi sig umbodsmann yfir þremr landsfiórdúngum; enn Henrik Krag frændi höfudsmannsins, er þá hèldt Stapasyslu oc umbod eptir Pètr, var yfir einum, hann lèt gánga dóm í Midgördum þessi missiri; ecki kom skip fyrir nordann um sumarit; Gudbrandr Þorláksson kom út í Seilunni á konúngs skipinu, oc var med Páli Stígssyni höfudsmanni á Bessastödum, fór hann med hönum til alþíngis, oc þadann í Skálhollt, oc var þar skólameistari fyrstr Islendskra manna; hafdi hann konúngstraust oc hylli höfudsmannsins; hann var mikill hagleiksmadr, oc hafdi smidiuhús lítit í Skálhollti austr á hladi, þar smídadi hann látun, oc gróf; sumir segia hann kæmi út hid fyrra sumarit; þá gaf Páll Stígsson tvö brèf út til presta, at þeir ámynni þá sem vanrækia Guds ord, oc ef þeir vilia samt ei hlída, straffist þeir af valdsmanni; hann setti fyrstr giald á klaustr oc veitíngar konú..., oc lèt setia borgun fyrir afgialdit; þá var haust gott, oc vetr öndverdr.

## XXXIV Cap. Frá ímsum atburdum, Höfudsmanna skipti.

1566 Þessu nærst giördi mikinn snió oc felli-vetr, enn kom bati á páskadaginn, oc var hálfa adra viku, þar eptir komu hafísar oc vor-kuldar miklir, fèll þá margt af fátækum mönnum; lágu hafísar fyrir nordann land til midsumars, oc fèll svo mikill snıór seinast í Júnio eda Júlio at tók í qvid hesti; þá voru dæmdir margir dómar; Olafr biskup nefndi XII presta í dóm, at prestastefnu á Vídivöllum, mánadaginn nærstann fyrir hvítasunnu, oc var dæmt at preststyundir oc lióstollar, heytollar oc legkaup oc líksaungseyrir, skyldu gialdast kyrkium oc prestum í þann ein-

daga, oc eptir því sem at fornu hefdi verit, fyrir þá sök at menn voru í slíku miög þverir sídann skipt var um sidinn, enn þeir skyldu sekir eptir kyrkiulögum sem í móti mæla, nema konúngr oc ríkisrád hans giöri adra rádstöfun; enn Þórdr Gudmundarson syslumadr í Borgarfyrdi lèt dæma at Heggstödum at forlagi Gísla biskups um kyrknatè, oc annan dóm at Heggstödum med VI mönnum; Arni bóndi Olafsson dæmdi um utansveitarmenn at Stadarhóli, í Saurbæ, oc annar Arni Jónsson, er syslu hafdi milli Gilsfiardar oc Gliúfrár, um hina sömu er byggt væri inn í hreppa, nema eá sè hinn sami madr oc dómr; Henrik Krag hèldt þá Snæfells syslu oc umbodit, hann lèt XV manna dóm gánga í Midgördum, um giaftolla, tyundir oc þíngsóknir; þá tók Jón prestr Svenski Matthiasson á Breidabólstad at giörast gamall miög oc hrumr af elli, vildu margir fá stadinn, enn Páll Stígsson höfudsmadr veitti hann Gudbrandi Þorlákssyni, oc var hann þá vígdr, enn þó fór hann ei þángat medan Jón prestr lifdi oc gat haldit hann. Páll Stígsson setti skipalög fyrir sunnan, þau er sídann hèldust; hann deidi hinn 1ta dag Maii mánadar, oc var jardadr at Bessastödum, oc legsteinn mikill af marmara settr yfir hann, svo ej hafdi slíkr komit á Island; voru þar á grafinn vers þessi:

*Paulus Stigotti Danorum ex sangvine clarus*
*justus, castus, amans rèlligionis erat.*

Var Henrik Krag kosinn til höfudsmanns eptir hann á alþíngi, oc er mælt þeir hafi verit brædr at móderni, oc fór hann utann; giörnínga þá er urdu á þeim missirum tel eg ei; þá var fiski-ár, oc haust gott, enn viku fyrir vetr giördi fiúk mikit, svo bædi drap fè oc naut; á jóladaginn giördi oc fiúk, oc urdu menn vída úti; kom nú aptr vetr á snemma, oc fèllu sumstadar peníngar, 1567
enn batnadi med sumri, oc giördi sumar grasgott oc þerrasamt; þá dó Jón Svenski, oc tók Gudbrandr Þorláksson vid Breidabólstad, fóru foreldrar hans til hans, Þorlákr prestr oc Helga; Alexius Pálsson í Klaustrhólum er fyrr var ábóti í Videy deidi þá einnin, oc urdu manntapar. Kristián Villadtsson vard skólameistari í Skálhollti eptir Gudbrand, bródir Erasmusar er þar var fyrri, hann hefir ritat lækníngabók þá er Kristiáns-bók er köllud; sumir segia Henrik Krag væri þá fyrst kosinn til höfudsmanns oc

færi utann, oc ætti at qvitta erfingia Dada af konúngshendi; oc hann gaf qvittun fyrir tvær barngetnadar sektir Hiallta Vígfússyni oc Önnu systr Páls lögmanns, þær voru taldar eptir stóra dómi, enn þau voru þó opinber VI sinnum ádr at barngetnadi sín á milli, oc stód þat ei fyrir at þau giördi sídann hiónaband sitt; þá gèck Spialdhagadómr, at hverr bóndi sè skyldr at hísa oc flytia fátæka menn eptir bodleid, oc fæara til allra þeirra er í skiptityund eru, enn hverr búfastr madr skyldr at hysa, oc fylgia vanfærum at hreppstióra rádi; tveim aurum skyldi svara fyrir hvern fátækann, er hús vill þyggia oc fær eigi; þá gèck enn Húsatopta dómr oc Gísli biskup lèt endrbæta Skálhollts kyrkiu. Sigurdr prestr Jónsson, at Greniadarstad, gaf þá Magnúsi brodrsyni sínum Biarnarsyni LX hundrud í jördum, enn Jón Marteinsson átti skipti vid Magnús at Mödruvöllum um haustit; Vígfús Þorsteinsson lèt dóm gánga at Helgastödum, oc dæmi Sigurdi presti Jónssyni atgáng at Meyarhóli.



# Íslands Árbækur

## í sögu-formi.

Af

Jóni Espolin,

Sýslumanni í Skagafiardar Sýslu.

## V. Deild.

Kaupmannahöfn, 1826.

Prentud á kostnad ens Íslendska Bókmentafélags

í sál. Þ. E. Rangels eptirlátna prentverki.

# Formáli.

I Formála þeim er settr var fyrir framann IVda hlut árbóka minna, oc prentadr er fyri framan IVdu deild, og eginlega hlídir til eptir daga Jóns Arasonar, edr yfir sagnirnar frá 1552 til 1605 (hvörsvegna oc þessi hlídir fyrra parti XVIIdu aldar, hversu sem tilheyrilegt þyckir at skipta tèdum árbókum vid prentunina) mynntist eg þess, at því meir sem lídr á aldirnar, er líklegt at eitt oc annat kunni til at vera uppskrifad, edr máskè vissara, framyfir þat eg hefi gètad komist yfir, oc þurfi samtyníngr minn þess vægari dóms sem heldr nálgast sá tími at mögulegt verdi at uppgötva fleira enn einn madr fær í hendr fengit, m. m. Þetta vil eg nú þessheldr ámálga, eittsinn fyrir öll, at slíkr tími nálægist jafnan meira í frásögninni, oc hefi eg því eckert á móti, at hverr sem betr kann, færi til þat hönum er ljósara hedann af; edr, med því hid loflega fèlag vill at eg enn nú framhaldi tèdum samtyníngi mínum, útgèfi sídann frá þeim tíma sem synist, nyar árbækr undir sínu nafni, þó svo, at mynnst verdi jafnframt þess er eg hefi fyrirgreidt. Enn um auld þá er þessi árbók frá 1605 til 1657 yfirfer, er þat at segia, at mèr vyrdist hún med sínum undarlega litlu breytíngum, svo hèr á landi sem annarstadar, hafa þó vakit á ny nockrskonar endrlífgun hiá Islendíngum, þó lítil sè, oc tel eg hellst þar til kynníngu guds ords er þá jókst, kynníngu nockra í fornfrædum er biskuparnir Þorlákr oc Brynjúlfr komu á lopt, oc einskonar endrlífgun skáldskapar anda Islendínga; — at ödru var hún lík nærstu L árum fyrirfarandi, enn syndi þeirri tíd framar veikleika sinn (at hann hafi í þeirri grein meiri verit í raun segi eg ecki) at hindrvitni galdratrúar voru meiri, oc eins

# Fortale.

Den Fortale, som blev sat foran den 4de trykte Del af disse mine Aarböger, skulde ledsage deres 4de Part, og henhörer egentlig til det Tidslöb som fulgte paa Biskop Jon Aresens Död eller til Begivenhederne fra 1552 til 1605, hvorfor nærværende Fortale ogsaa angaar det 17de Aarhundredes förste Hælvte, i hvordan man end maatte finde det passende at afdele Haandskriftet ved Trykningen i visse Hefter. Paa förstnævnte Sted bemærkede jeg, at jo længere Tiderne glide frem, jo rimeligere er det, at adskilligt mere eller sikkrere kan haves optegnet, end de Efterretninger medföre som jeg har kunnet tilvejebringe, hvorfor mine Samlinger og behöve et des mildere Omdömme, som de mere nærme sig til de Tider, der gjöre det muesligt for Forskjellige at opdage flere historiske Mærkværdigheder, end en Forfatter kan overkomme, o. s. v. Dette vil jeg her des snarere erindre engang for alle, som et saadant Tidslöb nu virkelig möder os, hvorfor jeg aldeles intet kan have derimod, at de, som bedre ere istand dertil, herefter meddele de Tillæg, hvilke de have kunnet erhverve, eller (da det hæderlige Selskab önsker at jeg endnu fortsætter disse historiske Samlinger) udgive under eget Navn andre (islandske) Aarböger, dog saaledes, at mine Forarbeider derved erindres. — Tidsrummet fra 1605 til 1657, som omhandles i den fölgende Part af nærværende Værk, var vel underkastet saare faa Forandringer, saavel i dette Land som paa flere Steder, men det forekommer mig dog ikke desmindre, at det har paa ny, skjönt i en ringe Grad, oplivet Islænderne, især ved Gudsords da forögede Udbredelse, den Oldgrandskningslyst, som Biskopperne Thorlak Skulesen og Brynjulf Svendsen opmuntrede, samt endelig ved etslags Gjenoplivelse af Islændernes Digteraand. I andre Henseender lignede det de næst foregaaende 50 Aar. Dets Svaghed (om i Grunden större end det forlöbnes, kan jeg ikke sige) syntes at forværres ved Hexetroens

óvidrqvæmlegleiki atferlis vid hneckíngu fiölkíngis; samt kauphöndlunni enn þá verri oc bundnari. Ei verdr því neytad, at lærdómr jókst mikid á tèdum L ára tíma, enn þó ecki þánkafrelsi edr almenn upplysíng; meiri mentamenn urdu þessvegna til enn ádr, enn ecki nema fáir. Landstjórnin synist allvel til hafa gengit, enn var þó of greinarlaus oc straung um sumt, enkum í sakamálum, enn þótt hún væri betri hvad suma innanlandshætti snerti, enn seinna, allrahelist næst eptir stórar breytíngar, sem jafnan er hætt vid margr misbrúki. Frelsisandi þiódarinnar synist ei á þessu tímabili hafa tapad sèr svo mikit sem líkindi væri til, vid svo sterklega takmarkada kauphöndlun oc straung lög, edr sem á hinu nærsta fyrir (frá 1552 til 1605) oc yfirhöfud vyrdist þjódarandinn mikid hafa vidhaldit sèr frá gamalli tíd, þó at vonum sá manndómr sem nidrlagdist í oc eptir Sturlúnga-auld, oc enkum eptir fyrri pláguna, ei hafi gètad vidrètt sig aptr, oc vanafestinn væri ofmikil ordinn. Veraldarinnar, oc sèrilagi þessara nordrlendsku ríkja tilburdir, gáfu oc eigi í þann tíma efni til nyrra uppvakníngа; enn af því sem til batnadar hafdi snúíst eptir sidaskiptinn hefir þat þó leidt, at fyrirmenn í landi voru á því umrædda tímabili, miklu rádsvinnari, enn fyrrum hafdi verit, oc er líklegt at sidferdi alþídunnar vída hvar hafi farit þar eptir, hversu sem var um hleypidóma oc hindrvitni, oc varla hefir spakara verit med almenníngi hèr, enn þá oc á inum nærsta mannsaldri eptir. Þess vil eg gèta, at eina uppsprettu til framhalds árbóka minna, hefir mig vantad med öllu, sem er Vatnsfiardar-Annáll hinn seinni, oc fleiri kunnu vera.

Prestastödum, þann 16 Júlii 1825.

Jón Espolin.

Tilvæxt, samt utilbörlig Fremfærd ved Troldfolks Forfölgelse. Handelens Frihed og Gavnlighed aftog ligeledes. Vel kan man ikke nægte, at Lærdommen tiltog i dette halve Aarhundrede, men det samme kan ikke siges om Tænkefrihed eller almeen Oplysning; Landet fik vel lærdere Mænd end forhen, men deres Tal var kun ringe. Islands Bestyrelse synes at have havt en god Gang, skjönt dens Forholdsregler i nogle Poster vare altfor utydelige og strænge; dog var den, hvad visse indenlandske Indretninger angik, bedre end længer hen i Tiden, især efter store Forandringer, hvilke mange saa let kunne misbruge. Folkets Frihedsaand synes ikke i det omhandlede Tidslöb at være bleven svækket i den Grad, som i det næstforegaaende (fra 1552 til 1605) skjönt man vel kunde formode det af Handelsfrihedens Indskrænkning og Lovenes Strænghed. Ligeledes synes det gamle nationale Sindelag at have holdt sig temmelig vedlige, skjönt den Kjekhed og Raskhed, som nedtryktes i og efter Sturlungernes Tidsalder, samt især efter den förste af de to Pestsyger, ikke kunde reise sig paa ny, og Tilböjeligheden til indgroete Vaner var bleven altfor rodfæstet. Verdens, og mindst disse nordiske Rigers Begivenheder, gave ej heller i denne Tid Anledning til nye Opmuntringer, men de Forbedringer, som vare blevne indförte ved Reformationen, var det dog vist at takke, at Landets Övrighedspersoner nu viste et meget anstændigere Forhold end forhen, og det er sandsynligt, at Almuens Sædelighed paa de fleste Steder har rettet sig derefter, hvorledes det end gik til med Fordomme og Overtro. Neppe har her i Landet nogensinde hersket saadan almindelig Rolighed, som i det omhandlede Tidsrum og den næstpaafölgende Menneskealder. — Endelig maa jeg bemærke, at jeg ved disse Aarbögers Fortsættelse har maattet savne en vigtig Kilde, nemlig de senere *Vatnsfiords-Annaler*, og saaledes kan det vel være Tilfældet med flere slige.

Frostastade, den 16 Julii 1825.

John Espolin.

# Prentfeil fundinn í IV^da Deild Arbóka.

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| Pag. | IV | lín. | 6 | giörit l. giörist |
| — | VII | — | 15 | ængere l. længere. |
| — | 4 | — | 5 | af því l. á því. |
| — | 5 | — | 15 | Bianarnes l. Biarnanes. lín. 26 um jardir l. jardir. |
| — | 7 | — | 19 | Gísla prests Jónssonar, l. Gísli prestr Jónsson. lín. 31 l. Finns. |
| — | 8 | — | 1 | Einarson l. Gudmundarson. |
| — | 9 | — | 18 | l. Túngls. lín. 24 l. qvongast. |
| — | 12 | — | 24 | Skógarsandar l. Skógarstrandar |
| — | 16 | — | 13 | l. Steindórsson. |
| — | 19 | — | 21 | l. hinum fyrrum biskupum. |
| — | 37 | — | 9 | í Hvamms sveit l. til Hvamms í Hvamms sveit. |
| — | 42 | — | 23 | Hvammsd. l. Hvammsdómi. |
| — | 46 | — | 4 | l. áqvedit. |
| — | 49 | — | 11 | *in Marg.* 1550. |
| — | 53 | — | 1 | l. Öxarár |
| — | 56 | — | 27 | l. því (óskírt) |
| — | 63 | — | 36 | l. sinna manna. |
| — | 64 | — | 36 | l. biórþili. |
| — | 69 | — | 17 | l. Jón Biarnarson *et post.* |
| — | 71 | — | 13 | l. höfudsverdum. |
| — | 74 | — | 16 | Ari l. Arni |
| — | 77 | — | 13 | l. prestr. |
| — | 97 | — | 5 | l. Olafr biskup. |
| — | 104 | — | 8 | *in Marg.* l. 1554. |
| — | 111 | — | 32 | *in Marg.* l. 1556. |
| — | 114 | — | 8 | am l. um. lín. 38 *in Marg.* l. 1557. |
| — | 118 | — | 33 | l. Snæfells. lín. 34 l. vid. |
| — | 120 | — | 30 | l. Halldórssonar. |
| — | 124 | — | 36 | fárád l. fáfród. |
| — | 125 | — | 20 | l. biskupdóms síns. |
| — | 127 | — | 1 | l. Olafi biskupi. |
| — | 135 | — | 2 | l. minna. |

# Frammhald 4da Þáttar.

## XXXV Cap. Frá Ormi Sturlusyni oc utanferdum.

Jón Marteinsson hafdi nú haldid Mödruvöllum oc Vadlasyslu, sídann þeir Ormr Sturluson, oc Páll Jónsson fóru á brott, var þá svo mikit yfirlæti hans, at hann lèt bændr vyrda sig med hesti oc reidtygium á Eiafiardarböckum, fyrir III hundrud hundrada; enn Páll fór vestr, oc þeir Magnús bródir hans bádir, er mælt þeir hafi haft bádir syslu í Þíngeyarþíngi, ádr Vígfús Þorsteinsson yard þeim þar at ofrefli. Ormr Sturluson hafdi verit lángar stundir á rekníngi, oc var þat seinast at hann var lestreki Nicolásar bónda Þorsteinssonar; hann geymdi hesta hans í Hvammi, oc tók saud á Naustum sèr til fædis; þó opinberlega; enn kona hans hafdi verit á Aungulstödum þá Helga Aradóttir var þar, enn þat hefir verit ádr Páll fór vestr, oc borit út sorp oc hreinsad bæ. Ormr hafdi verit qvennsamr miög, oc svallad med imsum konum fè sínu, giptum oc ógiptum; hann var þrisvar í haldi á Bessastödum, oc hafdi þá Þorbiörg kona hans ordit at leysa hann út med stór-fè; Eggert Hannesson hafdi á hönum óvild mikla, oc ugdi hann mundi rægia sig ef hann kæmist utan, oc fyrirbaud því öllum at flytia hann; fyrir þá sök hafdi Ormr ei utan komist, at í alla kaupstadi kom þat forbod; hafdist Ormr þá vid í austfiördum med Biarna bónda Erlendssyni á Kètilstödum, oc Gudrídi Þorsteinsdóttr Finnbogasonar, systr Vígfúsar, þau

voru systkina börn, oc hiálp hún Ormi, reid í kaupstadin oc gaf þískum mönnum er þar voru uxa-gamlann til at flytia hann, þeir hètu.því med þeim hætti, at þeir mætti setia hann á land hvar sem þeim væri hægast, í löndum Danakonúngs; fór Ormr med þeim utann þetta sumar er fyrr var gètit, oc lètu þeir hann af skipi nordarlega vid Noreg, fór hann þá vid vonarvöl, til þess er hann hitti Fridrik konúng af hendíngu einni, oc gèck á veg fyrir hann í vadmáls hempu grárri, fèll á knè oc bad um nád; konúngr spurdi hvad hann skadadi, oc hvad hann væri at manni; Ormr sagdi til sín, oc taldi hönum eymdar hag sinn; konúngr kannadist þá vid hann, oc spurdi hvert hann væri sá er sèr hefdi gefit lúdrinn fordum, laungu ádr enn hann tók konúngdóm? Ormr játadi því; þá baud konúngr at gèfa hönum klædi ny, oc skipadi hönum aptr lögmannsdæmit, oc Bardastrandarsyslu fyrir utann XXX marka sakir, fór hann vid þat út til Islands, oc lèt þegar er hann kom út tvo menn sveria á Vallalaugarþíngi, at med Þorleifi Grímssyni á Mödruvöllum oc Solveigu Halladóttr hefdi verit fiórmenníngsmægdir, oc dæma sèr Silfrastadi af Brandi Ormssyni er þar bió þá oc átti Hallóttu dóttr Þorleifs, þótti audveldara at ráda á þau enn á Jón Marteinsson; sídan setti hann alþíng at bodi Henriks Krags höfudsmanns, enn ecki var at því farit, því at Eggert Hannesson mótmælti hönum oc brá brigslum á þíngi, enn höfudsmadrinn dó, oc vard ecki af neinum dómum; stefndi Ormr Eggerti þá utann, enn Jón Marteinsson stefndi Ormi oc fór utann á Akreyrarskipi, oc med hönum sveinn hans Jón Jónsson frá Svalbardi, bródir Magnúsar oc Páls; hann bió þá á Vindheimum á Þelamörk oc var af því kalladr Vindheima Jón, enn smásveinn hans var Thómas launsonr Gríms Þorleifssonar. Marteinn biskup fadir hans hafdi sendt hönum kedju er metinn var fyrir XII hundrud í fasteign, oc þótti þó kediann betri, hana hafdi Jón gefit höfudsmanninum til fylgis. Ormr Sturluson oc Páll Jónsson tóku sig þá einnin samann, oc fóru utann á Hialltaeyri, ætladi Páll at ákæra erfíngia Dada Gudmundarsonar um Stadarhól. Arni Gíslason fór oc utann; Jón prestr Kráksson halfbródir Gudbrands prests Þorlákssonar hafdi til Danmarkar farit, at átelia um jardir þær oc fè er Gottskálk biskup Nicolásson hafdi dæmt af módrforeldrum hans Jóni Sigmundarsyni oc Biörgu Þorvaldsdóttr, oc Einari módrbródr hans, hafdi kon-

úngr þá bodit Páli Stígssyni höfudsmanni at láta Jón prest fá rétt af slíku máli; hönum þótti þat erfidt því málit var fornt ordit oc flókit, oc hafdi viliad semia med Jóni presti oc mótstödumönnum hans, enn í því andadist hann, oc leiddist Jóni presti þá at eiga í þeirri þrætu; tók nú Gudbrandr prestr Þorláksson vid málinu, því hann var jafnt tilkominn, oc fór þetta sumar utann til at kæra þat fyrir konúngi, komu öll málinn at hid sama sumar. Jón Jónsson frá Vindheimum átti Helgu systr Arna oc Gunnars Gíslasona, hann afflutti þar miög Gunnar mág sinn, oc vildi ná frá hönum Reinistadar klaustri; enn med Ormi oc Páli oc Jóni Marteinssyni urdu þær lyktir á, at ríkisrádit dæmdi hálft fè Þorleifs Grímssonar börnum hans oc Solveigar, enn hálft Þorbiörgu konu Orms, nema Mödruvelli er Páll sókti heldst eptir vegna Helgu Aradóttr konu sinnar, dóttrdóttr Þorleifs, sagdi Þorleif hafa gèfit Halldóru dóttr sinni Mödruvelli í heimanmund á brúdkaupsdegi þeirra Ara, þat hafdi þó Þorleifr aldrei medkennt, enn brèf hans oc innsigli fannst þar fyrir, oc var eignad brögdum Jóns biskups oc hans ættmanna; fèck nú hverr VI-hundrud hundráda, oc Páll Mödruvöllu at auki, enn Jón Marteinsson nádi þeim aldrei sídann, hèldt þó rentu allri af Mödruvöllum oc öllu fènu þángat til, hvörsu sem þeir Páll oc Ormr ákærdu, oc olli því kediann þó hún fengi ei meira adgiört; enn Kristophor Valchendorf var sá höfudsmadr er hana hlaut, því hann tók vid eptir Henrik Krag, oc verdr enn getit um útkomu þessara manna; fèck þá Ormr Mödruvalla klaustr at auki þess er ádr segir, oc verndarbrèf konúngs; hafdi hann dæmt ádr hann fór utann Henrik Gerken Hannessyni þískum manni á landi hèr oc qvæntum, hálft Svignaskard oc hálft Sigmundarnes vegna konu hans.

## XXXVI Cap. Tilburdir, oc frá kyrkium.

Þá er þess getit at Gísli Sveinsson í Midfelli hafdi Arnessyslu; þá deidi oc Biörn prestr Olafsson í Runa med þeim hætti, at hann hafdi fallit af hestsbaki hid fyrra árit, oc túngann ordit í milli tanna hönum oc marist svo þar kom ber í; gróf úr hön-

um túnguna oc túngurætrnar, oc lá hann svo meir enn ár oc andadist í föstu inngang, sáust þá allir lidir oc sinar í hans líkama, oc jafnvel hriggiarlidirnir innan á hriggnum at framanverdu á qvidnum, svo var hann inndreginn; einnin deidi Freysteinn prestr Grímsson í Stafhollti er opt hefir verit getit ádr; þá tók Húsafell Grímr Jónsson í Sídumula, fadir Jóns er Hvamm hèldt í Nordrardal, oc um hríd bió í Kalmanstúngu, hèldt hann þat fyrstr leikmanna. Um þær mundir qvartadi sóknarfólk í Eyarhrepp fyrir sunnan Gnúpá yfir því, at opt væri ófært at sækia til Kolbeinsstada kyrkiu, yfir Hafrsfiardará oc adrar torfærur, eda ná til þíngaprests í naudsynium; var þá Marteinn Erasmusson umbodsmadr á Arnarstapa, oc afsagdi hann at taka kyrkiuna á nockra konúngsins jörd í Eyarhrepp, edr hafa af veg oc vanda; enn Einar prestr Marteinsson biskups, er Stad tók á Ölduhrygg í þann tíma, átti þá hálfann ytra Raudamel, oc baud at kyrkiann mætti smídast á sinni lód, ef hún fengi aptr allar eignir oc itök sem átt hafdi Hafrsfiardareyar kyrkia; vard þat oc sídann á dögum Johans Bucholts at Hafrsfiardarey oc Hömluhollt med kúgildum þeirra, oc allir sóknarbæir í Eyarhrepp fyrir utann Höfda lögdust til Raudamels sóknar, því lest fiska míkti mál Einars prests, þó sóknarmönnum væri óhægd í, enn annad af Hafrsfiardareyar kyrkiu fiám fèck Raudamels kyrkia ecki, því rekinn fyrir Haffiardarey, er ádr var Beneficium, var lagdr til Breidabólstadar kyrkiu, kluckann hin mesta til Bessastada, enn þriár minni til Hytardals, messu klædi til Lóns kyrkiu, IIII málnytu kúgildi til Stadarhrauns, hundrads hestr oc hundrad í daudu, enn til Feriubacka hálfkyrkiu eitt málnytu kúgildi, tveir hundrads hestar, naut VI vetra, oc *XII* saudir þrèvetrir, eptir því sem Gísli biskup skipti því þá Hafrsfiardareyar kyrkia lagdist af til fulls, oc var þat á því ári er nærst var talit; Marteinn biskup hafdi giört skipti milli kyrkna í Miklahollti oc Hafrsfiardarey sakir nálægdar, lagdist Hömluhollt til Hafrsfiardareyar kyrkiu í stad Hólslands er fylgdi Hafrsfiardarey oc fèll sídann til Miklahollts, þiónadi þadann af hinn sami prestr Kolbeinstödum oc Raudamel, oc var þar um þessar mundir Steingrímr son Jóns sterka á Hördubóli, sá er einnin var í Breiduvík, oc at Ingialdshóli sídar.

## XXXVII Cap. Andlát Olafs biskups oc enn fleira.

Olafr biskup Hiallltason var vanr at halda vinaveitslu annan sunnudag eptir þrettánda í jólum, þá gudspiall er um brúdkaupid í Cana, oc hèldt miög til þess dags jafnan, bar oc svo til er hann hafdi ádr qvilladr verit at ödru hveriu um vetr, enn 1569 legit sídann þriár vikr, at hann andadist þann dag heima at Hólum medann Gudspiallit var lesit; var hann biskup í XVII vetr, enn frá því hann vard prestr, voru eigi færri enn L vetr, sumir ætla fleiri enn LX, oc var hann madr gamall; hann hafdi saman tekit nyann Kristinrètt med Arna Gíslasyni, oc vard sá eigi lögleiddr, oc þó meira vid tímann enn sá er ádr var eptir Arna biskup; vid hann eru kendir vardar þeir er standa fyrir sunnan sand, oc heita Olafsvardar eda biskups vardar, er mælt at hann oc sveinar hans hafi hladit þá einhveriusinni er þeir voru nær villtir; son hans var Hiallti prestr at Fagranesi á Reykiaströnd, enn Sigrídr, Snorri oc Ingibiörg vitu menn ei hvört voru systkin Hiallta edr börn, oc er hid seinna þó líkara; Snorri bió á Reykiaströnd oc hèt Þorun kona hans; enn Ingibiörg giptist Jóni Jónssyni er Gudbrandr biskup ól upp, þau biuggu at Biarnastödum í Kolbeinsdal, voru synir þeirra Þorleifr, oc Hiallti, hann var í skóla oc fór utann, kom sídann aptr, oc fór vistum í austfiördu. Um vorit eptir andlát Olafs biskups, var fundr lærdra manna oc leikra at Flugumyri enn sumir segia at Hólum, var þá Sigurdr prestr Jónsson á Grenïadarstad kosinn Officialis yfir stólinn oc biskupsdæmit; hann var oc í annad sinn kiörinn til biskups, oc kosníngarbrèfit innsiglad af XXIV prestum, enn sumir vildu til biskups kiósa Biörn prest Gíslason, er þá var í Saurbæ; kom engum þá í hug um Gudbrand prest Þorláksson, er úngr var í prestskap oc þá utanfarinn; fór Sigurdr prestr til stólsins, oc var at því sinni giört Sigurdar registr er kallad er; þar var þá skólameistari sá er Marteinn hèt; Erasmus Villadtsson giördist þann tíd prestr í Odda; Sigurdr Þormódsson er tók vid syslu í Húnavatns þíngi eptir Þormód födr sinn, lèt XII manna dóm gánga at Torfustödum í Midfyrdi, midvikudaginn eptir Trinitatis sunnudag, um bygdar rygti, hèt sá Erlendr Thómasson er fyrir var hafdr; oc aptr um vid í fiskhelgi fyrir Myrum í Hrutafyrdi; þó veit eg ei hvert Sigurdr var nema umbodsmadr, því at Jón

Biarnarson Jónssonar biskups tók þá vid sýslunni, oc bió hann at Holltastödum, enn sumir segia þíngeyrum um hríd; þorbergr Bessason hafdi þá haft umbod yfir Miklagardi, oc giördi Officiali reikníng fyrir; Benedict son Halldórs prests hins ríka Benedictssonar Grímssonar á Mödruvöllum, tók nú Vadlaþíng, oc fyrst í umbodi Jóns Marteinssonar, oc hèldt þat lengi sídann, hann bió at Mödruvöllum í Hörgárdal, oc var kalladr hinn ríki, hann lèt gánga dóm á Spialdhaga um refsíng stráka oc stelpna; Valgerdr hèt kona hans, dóttir Biarnar þorvaldssonar frá Æsustödum, og Herdysar* frilludóttr Gísla Hákonarsonar, börn þeirra voru Biörn, Elín, Arnfrídr oc þórunnar tvær; Benedict var medalmadr vexti, medallagi frídr sínum; þá tók vid Reykiahollti eptir Einar prest Marteinsson er hann var farinn til Stadar, Jón prestr Einarsson, bródir Gissurar biskups, oc Halldórs prests í Selárdal, oc þorláks á Núpi, oc hèldt þann stad lengi sídann, oc hans ættmenn optir hann; hann átti Gudrídi Sigurdardóttr af ætt Slítandastada manna, er búrkona hafdi verit í Skálhollti, Bödvar prestr var sonr þeirra ádr þau komu samann, enn sídann voru dætr Gudrún oc Margret; Bödvar var nær frumvaxta er hèr var komit.

## XXXVIII Cap. Frá Höfdíngium.

Nú kom út um sumarit höfudsmadrinn Kristófór Valkendorf af Glorup, mikilsháttar herramadr í Danmörku, oc skyldi prófa ákærur þær er fyrir konúng voru komnar, höfdu þeir Ormr oc Páll miög rægt Eggert Hannesson, oc heitit höfudsmanni stórum veitíngum á sínum gördum, bar svo vid at skipit rak á Vestfiördu nálægt Bæ á Raudasandi þar Eggert bió, tók hann miög vel höfudsmanninum, lagdi hönum til hesta oc annan fararbeina allann, oc reid med hönum siálfr sudr um land undir alþíng, oc fèck allvel túlkat mál sitt, oc Hannesar bródrsonar sins. Páli var eignad at vilia koma fè Dada undir konúnginn, oc er þeir ridu um Saurbæ vildi höfudsmadrinn sækia Pál heim, oc siá gard hans á Stadarhóli, því hann var útkominn ádr, oc hafdi verndarbrèf konúngs, enn þó ei allskostar eyrindum feginn, þar var myrótt heimreidar, oc fèck Eggert kunnugann mann til fylgdar, oc bad hann fara hvert fen at ödru; hann giördi svo oc velltust menn

oc hestar um, oc er heim kom var Páll hverki heima né vidbúinn, spyr þá höfudsmadrinn at stofu hanns, enn Eggert lètst ei af vita, nema topt einni er hann kynni máskè at byggia í stofu seinna, fèck hann svó til hagad at höfudsmadrinn vyrdi Páli flest fyrir skrum oc raup; enn er hann kom á alþíng, tafdi hann þar vel hálfann dag, oc baud höfdíngium at bera allt fyrir sig á Bessastödum, kærdi höfudsmadrinn í fyrstu til alls fiár Dada, enn Eggert komst af med þá D dali, sem ádr er gètit, oc dæmdi Ormr lögmadr þar um hinn VIIda dag Julii; voru borinn sáttamál af Gísla biskupi oc ödrum höfdíngium, milli Orms og Eggerts, oc annara erfíngia Þorleifs Grimssonar, oc skiptabrèf giört, enn annad at Skridu í Hörgardal, oc fèck Ormr sakir konúngsbrèfsins V hundrud hundrada oc XII hundrud, enn sóadist þó brádt. Gudbrandr prestr Þorláksson var útkominn, oc hafdi konúngr bodit at giöra hönum rètt um eignir Jóns Sigmundarsonar, lèt þá Ormr lögmadr med Eggerti oc ödrum, dóm gánga at Bessastödum, oc dæmdu þeir at Gottskálk biskup hefdi raungum meinum upplostit millum Jóns Sigmundarsonar oc Biargar Þorvaldsdóttr, ónyttust þá allir hans dómar oc giörníngar um eignir Jóns oc Biargar, oc svo þær jardir, er Einar Jónsson hafdi látit, dæmdust Gudbrandi presti oc hans samörfum; enn þótt Ormr hefdi fengit lögdæmit undann Eggerti, endrnyadi höfudsmadrinn syslu veitíngu Eggerts í Isafiardarsyslu, oc skipadi hönum einnin prófastdæmi, oc baud honum at dæma hiónabandsmál med VI mönnum, þremr klerkum oc þremr leikmönnum; oc öllum skipadi hann málunum at Bessastödum, oc fór utann sídann, enn skipadi Olaf Bagga umbodsmann sinn, bió hann at Nesi vid Seltiörn. Eggert fór vestr til Bæar, oc leisti út fè Hannesar frænda sins, oc bió Hannes í Snóksdal sídann. Páll bió at Stadarhóli oc at Reykhólum, oc var optast kalladr Stadarhóls Páll, hann var stórhuga oc nynæmr, enn lagamadr gódr, eru um hann frásagnir margar kátlegar, svo sem þat hann hefdi stefnt konúngi oc lotit á annad knè á medann, oc sagt sig lúta tigninni enn standa á rèttinum; sú er önnr at hann hafi siglt skipi sínu nyu á skèr, oc qvedit þetta:

Itar sigli austr um sió öldujórnum káta,
skipit er nytt enn skerit hró, skal því undan láta.

Skipit klofnadi, enn hann bargst á skerinu; þar kom at óvildarmadr hans, oc spurdi hvert hann vildi þyggia líf; giördu hvert er þèr sóma þykir, sagdi Páll; sá madr hiálp hönum á land, enn Páll laust hann kinnhesti, oc gaf hönum sídann jörd XX hundrud, qvad þat vera skyldi fyrir lífgiöfina, enn kinnhestinn fyrir ummæli; sú er hin þridia at hann reid eittsinn at hitta einhvern bródr sinn, oc reid í skóg nálægt bæ hans, þàr hitti hann smalamann, oc spurdi sá hverr hann var, hann lètst heita vídt út um skóginn oc diúpt ofann í jördina, oc bad hann svo seigia húsbónda sínum, oc reid vid þat heim. Arni Gíslason var útkominn, oc Jón Marteinsson, oc er sagt at þeir hafi haft lèni; Vindheima Jón bródir Páls einnin, hafdi hann fengit Reinistadar klaustr undann Gunnari, oc þar med Hegranesssyslu; Gudbrandr prestr hafdi fengit skóla á Hólum, oc fór hann nordr þángat, oc giördist skólameistari um haustit, enn eptirlèt Breidabólstad Erlendi presti, syni Páls syslumanns Grímssonar frá Mödruvöllum, átti Erlendr prestr Biörgu Kráksdóttr hálfsystr hans, oc var madr vellærdr, oc attestatus fyrstr á landi hèr; hann var fadir Páls syslumanns, oc Olafs prests at Breidabólstad, födr Þorvards prests. Þat haust ámynnti Gísli biskup sóknarpresta, um at yfirheyra sóknarmenn á hverium bæ, oc leifdi at veita sacramentum í öllum hálfkyrkium er ei væri afteknar, gömlum mönnum oc veikum þeim er ei fengi til kyrkiu komist.

## XXXIX Cap. Höfdíngiaskipti á landi hèr.

Þessu nærst tók Páll Vígfússon lögmadr at Hlídarenda sótt oc andadist; hann var barnlaus; Gudrídr var systir hans, módir Gudrúnar Sæmundardóttr er átti Arni Gíslason, fyrir því bió Arni at Hlídarenda eptir hann. Magnús Jónsson bródir Páls oc Jóns hafdi þá umbod á vestfiördum, oc dæmdi markáungladóm, hann fèck, seinna er kona hans hin fyrri var dáinn, Ragnheidar dóttr Eggerts Hannessonar; Olafr Bagge lèt gánga tvo dóma sydra; þá voru í lögmanns kiörum fyrir sudrland eptir Pál, Þorlákr Einarsson at Núpi bródir Gissurar biskups, Þórdr Gudmundarson syslumadr í Borgarfyrdi, oc Gísli Sveinsson í Midfelli, syslumadr í Arnessþíngi, oc hlaut Þórdr; kærdi þá Gudbrandr Þorláksson

fyrir lögmönnum, Ormi oc Þórdi próventugiörníng Jóns biskups Arasonar, oc Einars módrbródr síns, dæmdu þeir hann ónytann, því Einar var ei med fullri skynsemi, oc baud sig ecki nánustu frændum til umsiónar; hann kærdi oc af Hólakyrkiu Vídidalstúngu oc Urdir, oc dæmdu lögmenn hönum þær bádar jardir, því þær voru eign Jóns Sigmundarsonar; þeir dæmdu oc þá um jardar ákæru Þórdar Þorleifssonar í Eyafyrdi til Magnúsar Biarnarsonar. Jón Marteinsson var þá enn syslumadr í Vadlaþíngi, oc Benedict Halldórsson umbodsmadr hans, lèt hann VI manna dóm gánga um stærra Hollt í Svarfadardàl, er þeir Jón Jónsson frá Vindheimum oc Brandr Helgason deildu um, hèldt Jón þá Skagafiörd oc Reinistadar klaustr sem fyrr segir, oc dæmdu þeir Benedict Jóni jördina. Jóhan Bucholt kom út um sumarit med hyrdstjórn, oc hafdi konúngr spurt andlát Olafs biskups, oc vildi ecki annad enn at Gudbrandr færi utann eptir biskups vígslu, enn skipadi Hans Gillebrún Danskann mann fyrir skólameistara; var þá enn sem fyrri afslegit biskups kosníngu Sigurdar prests Jónssonar á Greniadarstad, oc fór Gudbrandr utann; þó sat Sigurdr prestr á Hólum; Gudmundr á Laxamyri son Nicolásar Þorsteinssonar afhendi þá Benedict Halldórssyni Mödruvalla klaustr, at skipan Johans Bucholts höfudsmanns, enn í umbodi Orms Sturlusonar. A því sumri lèt enn Ormr lögmadr dóm gánga á alþíngi um Hofstadi á Myrum, hafdi Ögmundr biskup selt þá jörd Skálhollts stadar, XV hundrud at dyrleika, Þorleifi presti Eyrikssyni á Melum, fyrir Varmalæk, Maulustadi, Heggstadi, Belgshollt oc Grímstadi eitt hundrad hundrada oc XL hundrud at dyrleika, oc þótti rán heldr enn kaup, enn lagt þó Skálhollts kyrkiu til fullnustu Fellsöxl, Hól oc Túngu i Skilmannahrepp; ei sídr á kærdi Gísli biskup Hofstadi, oc heimti undir dómkyrkiuna af Sigurdi syni Þorleifs prests, barnamanni litt fiáreiganda, þar sem sú jörd hefdi verit eign Skálhollts kyrkiu fyrir XL vetrum; dæmdu þeir Ormr í vil biskupi, enn Sigurdr lèt sídann ei af at kæra fyrir Jóhanni Bucholt höfudsmanni, at hann fengi alls ecki fyrir þær jardir er fadir hans lèt í stad Hofstada, oc stód í því um hríd.

## XL Cap. Fráfall Marteins biskups oc Jóns prests.

Marteinn biskup var þá í þann tíma í Midhúsum hiá Alptanesi, því Halldór sonr hans bægdi hönum þar frá; þar andadist Marteinn biskup, XIV vetrum eptir þat er hann hafdi aflagt biskupsdóm, enn Halldór bió at Alptanesi sídann; segir Biörn at Skardsá, oc eptir hönum Jón prófastr Halldórsson, at Marteinn biskup hafi lifad VI árum lengr, enn þetta hygg eg þó sannara. Loptr prestr Narfason í Hytardal var officialis Gísla biskups eptir Martein; hans son var Greipr prestr, er þessi missiri dó af dryckiu. Um þær mundir deidi oc Jón prestr Biarnason, er fyrr var í Skálhollti.

## XLI Cap. Frá Vígslu Gudbrands biskups, oc ímsu ödru.

1571 Um vetrinn eptir var Gudbrandr Þorláksson vigdr í Kaupmannahöfn til biskups at Hólum, af Doctor Páli Matthiassyni Siálands biskupi, hafdi hann miög fylgt at vígslu hans, enda var þá eigi völ á lærdara manni hèr lendum, skorti þá Gudbrand vetr á þrítugann; þeir biskupar bádir Gísli oc Gudbrandr tiádu konúngi audmjúklega skort oc uppheldisleysi presta hèr á landi, oc bádu þeim hiálpar; hèt þá Fridrikr konúngr þeim tveim hundrudum dala í Skálhollts biskupsdæmi, enn einu hundradi í Hóla, árlega af rentu sinni, kjöri Gísli biskup í þat jardir prestunum til friálslegs ábylis, þóttu þær vissari enn at sækia penínga hvert ár í hendr konúngs umbodsmanni, oc tók sídann til skodunar hveriar líklegastar væri; enn Gudbrandr biskup kaus penínga, þótti hægra at skipta þeim, áttu þeir at gialdast af Mödruvalla klausters inntekt, oc þóttist hann seint fá þá stundum af Johanni Bucholt höfudsmanni; höfudsmadr kærdi um vorit, hinn XIta dag Maji mánadar, sakir á Pètr skraddara, fyrir dómi Bertels Olafssonar syslumanns í Gullbríngusyslu, á Kópavogi, fyrst at Gabriel drengr einn, hefdi ordit úti á fialli um vetr, af völdum Peturs, er þeir vóru sendir í Skálhollt; oc annad at hann hafi ætlad at slá sig med staf, þá hann hafi verit lagstr á sæng sína; höfudsmanninnin var þá alvarlega umbodit af konúngi at refsa hordómum, blódskömmum oc þvílíku; þá er Arni Gíslason kominn til Hlídarenda, enn Jón Biarnarson Jónssonar biskups dóttrmadr hans

hèldt Húnavatnssyslu; Sigurdr prestr Jónsson hafdi enn öll forrád Hóla; hann skipadi kyrkiusókn frá Vikrlöndum á Skaga til Hvamms kyrkiu, at bón Jóns bónda Grímssonar á Ökrum, oc Biörn prest Thómasson bródr Olafs á Hafgrímstödum fyrir rádsmann oc umbodsmann Hólakyrkiu um Svarfadardal, hann hèldt Velli. Johann Bucholt lèt lögmenn Orm oc Þórd útnefna XII manna dóm á alþíngi, oc dæma Nicolási oc Jóni, sonum Odds prests Þorsteinssonar, arf eptir Þorstein Gudmundarson á Grund födrfödr þeirra, enn undan Eyríki Gudmundarsyni í Asgardi, hafdi Oddr prestr fengit qvittan af Knúti Steinssyni höfudsmanni fyrir brot sitt med Arnfrídi Torfadóttr. Gudbrandr biskup kom út hid sama sumar, átti hann þá dóttr er Steinunn hèt vid Gudrúnu dóttr Gísla prests Finnbogasonar, oc kom sídar frá henni kyn mikit er heitir Steinunnar ætt. Þá vard víg í Sídumúla, var lagdr undir bordi vid dryckiu Jón Grímsson í Kalmanstúngu, af Jóni murta syni Eggerts lögmanns Hannessonar; Jón fór utann, oc kom ei út aptr; þar um dæmdi Þordr lögmadr, oc annann dóm um Hofstadi á Myrum, segir Jón prófastr Halldórsson at þat mál yrdi ei útgiört fyrrenn þremr vetrum sídar enn hèr var komit, oc at Sigurdi dæmdust þá Hofstadir; son Jóns Grímssonar var Grímr prestr at Húsafelli, fadir Helga prests er fór í Þórisdal med Byrni presti Stephánssyni; launsonr Jóns, oc eldri, var Vígfús, er átti Margretu Helgadóttr systr Gudmundar á Eyri í Arnarfyrdi, þeirra son var Helgi er bió á ímsum jördum í Borgarfyrdi, fadir Vígfúsar prests vid Hellna oc hans systkina; Helgi var son Vígfúsar prests, fadir Helga, födr Vígfúsar á Eyri í Eyraraveit; annar son Vígfúsar prests var Arni á Heydalsá, fadir Vígfúsar á Eyri, födr Sigurdar. Þetta sumar dæmdi Ormr lögmadr um Túngufell á Spialdhaga, þótti Jóni Marteinssyni hann hlutsamr í sinni syslu; enn Johann Bucholt höfudsmadr lèt útnefna dóm at Indridastödum í Skorradal, um illvirki Katrínar Magnúsdóttr, er hún hèldt Þórdi Gudmundarssyni, medann Jón Ejólfsson veitti hönum áverka. Gudbrandr biskup giördi amynníngu Halldóri presti Benedictssyni, um kaupverslan hans mikla, oc adra hluti, því at Halldór prestr var fèdrattarmadr mikill. Þá fór Kristián Villadtsson frá Skálhollts-skóla, oc tók Helgafells

stad, hann var þar prestr um hríd oc hinn mesti læknir er þá var hèr út, enn krenktist þó, oc fór til Biarnarhafnar ádr hann deidi.

## XLII Cap. Imislegt er framm fór.

1572 Vetr hinn nærsti var gódr, fór Sigurdr prestr um þann tíma heim til Greniadarstadar; þá var almennilega qveinad yfir at sökum hardinda íengi fullríkir menn traudlega keypt messuvín til kyrkna, enn sídr þeir sem fátækir voru; var þá útnefndr helmíngadómr á alþíngi af XXIV mönnum leikum oc lærdum, Johann Bucholt höfudsmanni, biskupum bádum Gísla oc Gudbrandi, oc lögmönnum Þórdi Gudmundarsyni oc Ormi Sturlusyni, dæmdu dómsmenn presta oc kyrkiubændr skylduga, at láta aldrei vanta braud nè vín á kyrkum, oc skyldu hinar audgari kyrkiur stoda hinar fátækari í slíkri naudsyn; oc svo at ei skorti med öllu vín í landinu, dæmdu þeir dómkyrkiurnar bádar skyldugar at láta braud oc vín hönum til reidu keypt, oc reis þat þadan af, at fylgia skyldi inventario Skálhollts kyrkiu hálf önnr tunna víns; eigi mátti þó Ormr lögmadr þá allskostar útnefna dóma á alþíngi, því at hönum var brugdit mörgum þúngum sökum er snertu æru hans, oc fèck hann ei af sèr borit; enn Þórdr lögmadr ætla menn dæmt hafi öll mál; Ormr dæmdi þó i Berufyrdi þat sumar, um Einar Jónsson er syniadi hönum greida í yfirreid hans því hönum þótti hann ei rèttr lögmadr, oc kalladi Ormr sig þá lögmann nordann oc vestann. Jón Marteinsson ákærdi hann einn, um þat hann hefdi hlaupit inní syslumanns embætti; þá er getit seinast Tuma Þorgrímssonar í vitnisburdi nockrum. Jón bóndi Biarnarson lèt VI manna dóm gánga at Bólstadahlíd, um jardaeignar ágreiníng Arna Einarssonar oc Gudmundar Gíslasonar, enn Þórdr lögmadr lèt ónytt dæma at Smidjuhóli tilkall Ara Ormssonar, sonarsonar eins Gudmundar Andrèssonar undir Felli, vegna konu hans, til Herseyar á Myrum, eptir Þorstein Torfason í Hiörtsey er þá var dáinn; Stóri Gardr í Dyrafyrdi var oc á alþíngi dæmdr erfingium Þorsteins Torfasonar, oc fleiri urdu jarda tilköll, vitnisburdir oc giörníngar; Gísli biskup seldi jardir undan dómkyrkjunni, sem adrir fleiri biskupar á þeim tímum, sumar fyrir laus-

afè, var þó optast yfir helgad at væri med höfudsmanns rádi. Biörk í Flóa, X hundrud, seldi hann fyri lausafè med höfudsmanns vitund, þó med því skilyrdi at dómkyrkiann ætti kaup á henni aptr fyri lausafè þá föl yrdi. Eyri í Kiós seldi hann einnin Olafi Jónssyni hinn IXda dag Augusti þessa sumars, med þridiúngi laxveidar í laxfossi í Laxá, oc medkendist at hafa fengit af Olafi jafngóda jörd, at dyrleika oc landskuldar hæd.

## XLIII Cap. Frá börnum Arna Gíslasonar, Gudbrandi biskupi oc fleiru.

Johann Bucholt fór utan um sumarit, oc lèt eptir Benedict Petursson umbodsmann sinn; þá hafdi Arni Gíslason at Hlídarenda Skaptafells syslu, oc var höfdíngi mikill, svo at ei voru í þann tíma adrir taldir fremri jafnbornir. Gudbrandur biskup bad Halldóru dóttr hans, oc fèck hennar, sóktu menn brúdkaupit at Hlídarenda austr, oc var þar veitsla mikil, gaf Arni giafir öllum nordan mönnum er voru med biskupi. Gudbrandr biskup gaf Halldóru qvennhatt dyrann enskann, oc qvennsödul ágætann útlendskann, oc lèt hana hafa á heimleid; var hverigt ádr til í landi hèr, at því er gamlir menn sögdu gömlum mönnum á öndverdri XVIIIdu öld; öll mönnudust börn Arna vel. Hákon átti Þorbiörgu dóttr Vígfúsar bónda Þorsteinssonar úr Þíngeyarþíngi, þeirra synir voru Gísli lögmadr, Einar oc Biarni. Sæmundr átti Elínu dóttr Magnúsar bónda Jónssonar at vestann seinna, oc margt barna. Gísli átti dóttr Gudmundar Helgasonar vestann frá Eyri. Gísli son Þórdar lögmanns átti Ingibiörgu Arnadóttr, enn Jón bóndi Biarnarson Jónssonar biskups Gudrúnu. Þorsteinn prestr í Múla son Illhuga prests Gudmundarsonar Sigrídi, oc eru frá þessum mönnum öllum ættir komnar. Arni prestr í Hollti undir Ejafiöllum, son Gísla biskups Jónssonar fèck Hólmfrídar dóttr Arna, vetri sídar enn Gudbrandr biskup Halldóru; 1573
þá var svo mikit hita sumar at eldr qviknadi vída í skógum, oc brendi þá; urdu manntapar miklir af skipum í Hornafyrdi austr. Þá kom út brèf Fridriks konúngs, at Islendíngar færi útann til læríngar frama, oc at prestar hefdi prófastdæmi heldr enn syslumenn, oc stórbrotamenn afleiddist á dómkyrkium; þat konúngsbrèf

um utanumför lærdra manna útvegadi Gudbrandr biskup, var þat útgèfit á Skanderborgar sloti hinn XXVIta dag Martii mánadar, á móti þeirri alþingis samþyckt er ádr var giör, at enginn mátti fara af landi hèr án leifis höfdíngia; annad hinn XXta sama mánadar út af því at hönum þótti Johann Bucholt höfudsmadr gialda seint presta peníngana, fèok höfudsmadrinn af þeim þrætum óvild mikla ádr lángt leid um til Gudbrands biskups oc presta hans, enn þótt þat dygdi ecki medann Fridrikr konúngr annar var á dögum; hann reyndist svo Islendíngum, at hann var hinn stríngasti vid ósidamenn, enn trúlyndr oc hègómalaus. Gudbrandr biskup lèt taka samann á prestafundi, at prestar skyldu messu fremia í kyrkium oc ecki kapellum, patronusdagar skyldu fyrirbiódast, þverbrotnir syndarar skyldu ámynnast þremsinnum, fyrst einslega, sídann vid vitni, oc svo fyrir söfnudinum, enn þar eptir tilkynnast um þá biskupi; prestum skuli kennast rètt at skyra, enn leikmenn giöri þat ei nema í naudsyn; menn sèu kalladir samann á heimilum vid barna skyrn oc þiónustu tekiu, svo þeir heyri guds ord, prestar skulu ei taka til alltaris þá er ei kunna frædinn, edr þiónusta ei menn fyrr enn í daudanum siálfum, sem óvenja hefir verit hingad til; eigi skulu þeir syngia sacramentis messu þá enginn er til altaris. Gudbrandr biskup fèck Asgeirsá í skiptum, lèt þá Pètr Þorvardsson af at kæra til þeirrar jardar, oc dó sídann at því er mælt er af vesöld, enn Ari sonr hans kalladi þadann af hvört ár til Teits fiár. Þá gèck dómr yfir Orm Sturlusyni, oc dæmt af hönum lögmanns embætti; kom oc Gudbiörg Sveinsdóttir fyrir lögmanna dóm, hún hafdi fallit þrisvar í hordómi fyrir stóra dóm, oc var ei at því farit, enn sídann hafdi hún fallit med jöfnum hætti tveim sinnum, oc þarmed hlaupit frá manni sínum, fyrir þat var hún dæmd frá lífi; þau missiri lèt Vígfús bóndi Þorsteinsson dóm gánga at Liósavatni um fiölmæli oc blök, oc adra heimsku er Loptr Jónsson syndi fátækri konu, oc sekt hans fyrir slíkt; oc var vitnisburdr Hrólfs Biarnasonar oc Magnúsar Jónssonar um höfudsmannsbrèf til Gudbrands biskups, at hann lèti dæma ákæru Jóns Jónssonar á Reinistad um Bard í Fliótum, oc tvær jardir adrar; má þó vera þetta sè nockru fyrri talit enn skèdi; enn byriad hafdi þá hèr var komit um tal þetta med Gudbrandi biskupi oc Jóni; Sigurdr Jónsson giördist þá skólameistari á Hólum, hann var

halltr frá öndverdu, oc hafdi lengi verit utann í Kaupmannshöfn oc Raudstock, oc lært hebreska túngu fyrstr Islendínga, var hann Nordlendskr, oc hardr í refsíngum vid skólamenn.

## XLIV Cap. Frændlid Arna Gíslasonar oc Gísla biskups.

Svo er sagt at Vilborg dóttir Gísla biskups hafi nær því trúlofud verit Gudbrandi biskupi, enn hafi neitad þá hún skyldi játa, oc giptist hún sídann Þórvardi Þórólfssyni á Sudr-Reykium, oc jók þar kyn sitt; hún var opt med fásinnu svo hana vard athuga, hellst tveim eda þremsinnum, enn Gísli sonr hennar hvarf; er mælt sú fásinne væri kynfylgía Mókolls ættar; Stephán var son Gísli biskups er sídann var prestr í Odda, hann átti Þorgerdi dóttr Odds prests í Gaulverjabæ Halldórssonar bónda í Túngufelli Brynjólfssonar. Arni prestr í Hollti var annar son Gísla biskups, hann átti Hólmfridi Arnadóttr sem fyrr segir: Helga Gísladóttir átti Erasmus prest Villadtsson; Gudrún átti Gísla bónda Sveinsson í Midfelli, enn sídar Stephán Gunnarsson Gíslasonar; Gísli biskup lifdi Kristinu, oc fèck sídann Þórdysar Jónsdóttr eckiu Odds prests Halldórssonar, þau áttu ecki börn svo um sè gètid. Stephán Gunnarson var launsonr Gunnars; enn börn Gunnars Gíslasonar oc Gudrúnar dóttr Magnúsar prests, Jónssonar biskups Arasonar, voru Biörn á Asbrandsstödum oc á Bustarfelli, er Múla syslu hafdi, oc druknadi af feriu hiá Kyrkiubæ í Utmannasveit, fadir Jóns er hèldt Skriduklaustr, oc Þórunnar er gipt var Biarna Oddsyni at Asi í Fellum, oc Páls. Gísli var annar Gunnarsson, hann þiónadi lengi tignum mönnum oc dó útanlands. Páll Gunnarsson druknadi á Hamborgar elfi. Pètr son Gunnars átti Halldóru dóttr Gunnlaugs í Leiníngi Ormssonar lögmanns, einn hans son var Magnús prófastr á Hörgslandi. Ingibiörg Gunnarsdóttir átti Isleif yngra Þórbergsson á Hofi. Solveig Gunnarsdóttir átti Arngrím prest lærda, hún var hverri konu frídari sínum; Gudrún Gunnarsdóttir var laungetinn, hún var gipt Halldóri syni Odds Arnfinnssonar oc átti margt afqvæmi Gudrún dóttir Páls Biarnarsonar Gunnarssonar, átti fyrst Olaf í Gilhaga Markússon af Stóradalsætt, þeirra son einn var Markus á Breid; sídann fèck hennar Sigurdr prestr í Presthólum Jónsson prests Biarnasonar,

skáld mikit. Biörn prestr Gíslason bródir Gunnars, oc Arna at Hlídarenda, var oc höfdíngi mikill, hann hèldt þá Saurbæ í Eyafyrdi, oc átti Malmfrídi hina mildu dóttr Torfa prests er þar var ádr, Jónssonar priors, Finnbogasonar lögmanns, þeirra börn voru Hákon, Gísli, Ingibiörg, Elin. Hákon bió at Nesi vid Selstiörn oc var merkilegr madr, hann átti Solveigu dóttr Jóns Marteinssonar, þeirra son einn var Gudmundr á Þíngeyrum. Gísli átti Jórunni dóttr Hannesar í Snóksdal Biarnarsonar Hannessonar, þau áttu margt barna, eitt var Biörn fadir Sigurdar lögmanns. Ingibiörg var gipt Jóni syni Vígfúsar bónda Þorsteinssonar, er sídann hafdi syslu nyrdra eptir födr sinn, oc var audugr miög, þeirra dóttir var Þórunn ríka á Skútustödum. Elin átti Pètr Magnússon frá Stóradal Arnasonar Pètrssonar Loptssonar, bródr Þórsteins í Þyckvabæ, oc Biarnar á Laxamyri, eru frá þeim öllum ættir komnar.

## XLV Cap. Dómar ímsir.

Þau hin nærstu missiri fór bóla um land; þá kom út Johan
1574 Bucholt höfudsmadr oc var á alþíngi; þar voru sett nidr III hundrud hundrada til eins hundr. hundrada í tyund, oc rèdu lögmenn því, þat var leikmönnum gagnsamt, enn klerkum ógagn; var þá Jón Jónsson frá Reinistad lögmadr ordinn med Þórdi, oc er hann æ sídann kalladr Jón lögmadr; hann hafdi Skagafiardarsyslu, oc lètu þeir Gudbrandr biskup dóm gánga um fèlausa frillulífismenn at Bólstadahlíd; dæmdist þeim at setja borgun, edr leggia sig undir refsíng þá er gódum mönnum þætti sæma; Henrik Gerken Hannesson hafdi þá umbod þar í syslunni, enn þessir voru dómsmenn, prestar Erlendr at Breidabólstad Pálsson Grímssonar, Þorsteinn Gunnason Hólaskálds; Stígr; hann var frilluson Biarnar prests Gíslasonar; Brynjólfr Arnason hann var á Bergstödum, oc hinn mesti rostumadr í háttum, Styrkár Hallsson, Gamli Hallgrímsson Sveinbiarnarsonar födrbródir biskups, oc leikmenn, Olafr Thómasson á Hafgrímstödum, Gottskálk Magnússon á Reykjum, Einar Magnússon, er eg hygg bródr hans þann er sídann var prestr eystra, Biarni Sturluson smids, Jón Grímsson á Ökrum, Einar í Bólstadahlíd Þórarinnsson Steindórssonar. Henrik Gerken

hèldt Þíngeyraklaustr, enn Jón lögmadr nádi því undann hönum med fylgi Jóhans Bucholts, er hann fèck sèr jafnann at vin, þó hinn hefdi höfudsmanns brèf fyrir; hann nádi oc sídann Húnavatnssyslu oc Vatnsdalsjördum, Strandajördum oc Midfiardarjördum, Snæfellsness syslu oc Stapa umbodi, oc hèldt þeim öllum lènum; var hann hinn mesti uppgángsmadr, hèradsríkr oc fègiarn, túngumiúkr vid höfdíngia oc stórlátr, oc hinn mesti óvin óvina sinna. Gudbrandr biskup lèt annann helmíngadóm gánga á Spialdhaga, med Benedict Halldórssyni, er þá hafdi tekit siálfr syslu í Eyafyrdi, um trúlofan. Nicolás Biarnarson, syslumadr í Rángárþíngi, lèt dóm gánga at Hollti undir Eyafiöllum, um qvedskap; oc þeir Gudbrandr biskup oc Vígfús bóndi Þorsteinsson enn helmíngadóm at Grítubacka um haustit, um samvistir oc hiónaband Magna Jónssonar oc Kötlu Þorsteinsdóttr, er keypt hafdi verit af ödrum manni med eginn vilia oc módr sinnar, enn ecki giptíngarmanns, dæmdu þeir þeim Magna oc Kötlu hórdómssekt, enn settu til biskups oc lögmanns um hiónabandit. Þar voru dómsmenn Sigurdr prestr á Grenjadarstad Jónsson oc V prestar adrir, enn leikmenn, Sigurdr Jónsson, hygg eg son Jóns á Svalbardi Magnússonar, Magnús Biarnarson, Jón Ormsson á Einarstödum, Gudmundr á Laxamyri Nicolásson Þorsteinssonar, oc Oddr Asmundarson Sturlusonar; lögmenn samþycktu at lènsmenn konúngs skyldu hafa þá hèradsstjórn alla, sem brèf standa uppá, orsakadist þat af því, at Vígfús bóndi Þorsteinsson hafdi borit sig upp um ríki Gudbrands biskups, þótti hann ei svo eptirlátr sèr sem Olafr biskup Hialltason. Þá var borinn Halldóra dóttir Gudbrands biskups. Um sumarit stadfesti Johan Bucholt höfudsmadr sölu Gísla biskups á jördinni Eyri í Kiós til Olafs Jónssonar. Ormr Sturluson fór þá utann, oc vildi hitta Fridrik konúng, oc leita sèr þar trausts.

## XLVI Cap. Frá Gudbrandi biskupi oc prentsmidiu.

Þat er nú at segia frá Gudbrandi biskupi, at hönum þótti stórum ábóta-vant um uppfrædíngu manna oc adra háttsemi, hafdi hann frá því er hann kom út, lagt alla stund á at framm-fylgia

því er Olafr biskup Hialltason hafdi upphafit, oc þó med því meiri rausn sem hann var skörúngr meiri oc lærdari. Fann hann þat med siálfum sèr af vitru sinni, at einfaldr almúgi hafdi meiri nytsemd af einum gódum bæklíngi, þar er lióslega væri útlagdar í módrmáli höfudgreinir kristilegs lærdóms, enn af mörgum óskilmerkilegum sermonum oc laungum predikunar-þulum lítt lærdra presta, nykominna úr páfadóms villu, ef bæklíngr sá gengi út á prenti oc bærist um land til allra þeirra er nockud gott vildu nema. Fyrir því tókst hann á hendr at uppreisa prentsmidju algiörfa heima á Hólum, oc gafst hönum tilefni af því, at Jón prestr Svenski Matthiasson, er fyrr var á Breidabólstad, hafdi haft hèr prentverk lítit, svo hann prentadi gudspiallabók í fiögra blada broti fyrir Jón biskup Arason, oc bæklínga nockra fyrir Olaf biskup; fèck hann af því numit atferli, þó slíkt sínishorn prentsmidju kæmist í engan samjöfnud vid fyrirtæki hans; fyrir því áfísti hann Jón son Jóns prests Matthiassonar, til at fara utann, oc nema til fullnustu prentverk, oc sídann bædi fremja þat hèr oc kenna ödrum, svo land vort vantadi ecki bókþryckjara; fèck Gudbrandr biskup af Fridriki konúngi jördina Núpufell í Eyafirdi til ábylis oc alls ágóda. Jón var fadir Brands prentara, födr Jóns prests í Hytarnesi, födr annars Jóns prests, er í Stocksmálit kom. Var prentsmidjann algiör í þann tíma er fyrr var fráhorfit tilburdum. Þá lèt oc Gudbrandr biskup samtaka á prestastefnu, at ei skuli prestar at óleifdu útdeila sacramentum annara presta sóknarmönnum, eigi heldr úngir menn takast til altaris óspurdir um þeckíngu sína; prestar skuli gèfa biskupi til kynna hversu á standi hórdóms sökum, ádr til laga komi, oc at born megi grafa í kyrkiugardi þó deyi óskyrd, enn þó saunglaust; enginn börn skuli skyra fyrr enn þau sèu fædd med öllu; hann ritadi Jóni lögmanni um uppheldi presta nockurra, oc hafdi þat verit um vorit, oc þá þegar tekit til at falla illa á med þeim um ímsar greinir.

## XLVII Cap. Upphaf Biarnar at Skardsá.

Jón hèt madr, hann bió at Ingvildarstödum á Reykiaströnd, hann var marga vetr formadr í Höfnum sudr fyrir konúngs skipi, oc hafdi Ingvildarstadi oc þær jardir lengi, voru VIII eda IX hundr-

ada hlutir eda lestar hlutir þá opt sydra, oc fèck Jón lestarhlut marga vetr; hann var Jónsson Ormssonar skipara Runólfssonar; systir Orms var Gudrún, hún átti tvo sonu vid Sæmundi Simonarsyni, Jón prest er lengi hèldt Kvíabeck oc átti margt barna, oc Kár, hann átti XVI börn, er úr barnæsku komust, eitt var Sæmundr prestr er lengi hèldt Glaumbæ. Módir Jóns á Ingvildarstödum var Þórun Gisladóttir, Arnasonar, Þorbiarnarsonar, Arnasonar Gulls, hann var því svo kalladr at hann hafdi komit út med gull mikit frá Englandi. Arni hèt bródir Þórunnar, hann átti dætr margar, Kimbastadi átti hann í Sæmundarhlíd, oc bjó þar lengi, kona hans var Kristín Jónsdóttir, frá Geitakardi, Einarssonar Oddssonar, systir Egils. Gróa hèt módir Þórunnar Asgrímsdóttir Sigmundarsonar; Asgrímr hafdi komit úr Steingrímsfyrdi vestann, oc Sigrídr kona hans eptir pláguna seinni. Jón var lágr madr, þreklegr, gæfr í skapi, óreidinn optast, hann misti födr síns úngr oc hlióp einn vetr sudr med vermönnum, þeir skildu hann eptir sudr vid Ellidaár, oc komst hann ei eptir þeim; hvarfladi hann þá framm á Seltjarnarnes, þar bió Gudrún Ormsdóttir födrsystir hans, hún var eckia, oc tók vid hönum, ólst hann þar upp oc mannadist, fór nordr sídann oc qvæntist, tók Ingvildarstadi oc græddi mikit lausafè; hann hafdi opt mikinn byr hiá dönskum á Bessastödum; einhverjusinni kom hann þángat þá þar var umbodsmadr sá er Eyríkr Jacobsson hèt, þeir drucku samann oc gèck Jón út, oc er hann kom inn aptr, mælti Eyrikr: sit nú enn hjá mèr um stund Jón Titlíngr; Jón gèck at hönum, oc laust hann kinnhest all-óþeckilegann, oc mælti: sè eg titlíngr, skaltu fá titlíngs slag; tveir menn Nordlenskir voru med Jóni í stofunni, oc hliópu til hans, enn V voru útlendir; Eyríkr sat oc þagdi um hríd, mælti sídann á dönsku: þorir þú Jón at slá fógeta konúngs hèr í hans stofu? Jón mælti: þú hefir sèd at titlíngrinn flígr opt svo hátt sem örninn. Eyríkr bad hann þá drecka, oc sættust þeir svo at Jón kom hægum bótum fyrir sig, svo at lítt ædr ecki vard þó hliódbært. Jón fèck Gudrúnar dóttr Kètils Ingimundarsonar á Ketu þess er biörninn vann fordum, oc fór Kètill til þeirra, var hann þá gamall miög. Biörn var son þeirra, sá er sídann bió at Skardsá, oc var lögrèttumadr, oc frædimadr; hann var borinn þau missiri er Gudbrandr biskup kom upp prentsmidjunni.

## XLVIII Cap. Aftekinn vopn.

I þann tíma voru landsmenn hèr geigadir af konúngsvaldinu meir enn fyrr hafdi verit, oc færdist þat í vöxt sídann biskuparnir voru bugadir, oc hinn forni sidrinn aftekinn oc bannadr; var þat vel fyrir sumra hluta sakir, því þar vid aftókst margr ójöfnudr, vigaferli oc rán, þó hindrvitni oc hiátrú hèldist enn vída vid sem í mörgum ödrum löndum í þann tíma; enn þó tóku þá sumir egingiarnir menn oc sèrgódir er völd höfdu, sèr þar af tilefni til at þraungva kosti landsmanna, at því er vyrdist, oc lètust giöra þat til trygda vid konúnginn; því svo sagdi Magnús bóndi Jónsson í dómi sínum, at á þessum árum hafi nockrir óforsiálir fógetar oc syslumenn, ei at eins afskipad, heldr oc med' heypt oc valdi fyrir mörgum dugandismönnum brióta látit vopn oc verjur, oc öll þau afdæmt, svo at ei hafi fundist edr varla, um allt land, sá madr er lagvopn hafi átt eda þorat at hafa, til at reina ís eda vötn, eda reka frá sèr hund grimmann. Má þat ætla, at ei hafi margir syslumenn jafnsnemma þessu framfylgt, nema þeir hafi haft nockra oddvita; voru þá einir til þess líklegir Johann Bucholt, eda Jón lögmadr, því þeir höfdu hèr þá mest völd; er þat þeim mun líkara oc trúlegra, sem Jón lögmadr tradkadi þeim dómi er þar um var dæmdr sídar. Þó er þat annarskostar undarligt, at skial finnst eckert fyrir afdæmíngu vopna, oc hitt hve greidt hefir gengit at uppræta þau giörsamlega, ef almenníngr hefir átt þau ádr; voru oc enn sumir menn sídann sem áttu nockr vopn, oc er at siá sem hverki vopn eda víg hafi svo miög aflagst í einu; hitt er oc á at líta, at Islendíngar höfdu lítit þarft med vopnum unnit innanlands, oc haft mest hverir vid adra, því ei var annars kostr, þó hafdi þat borit til stundum vid útlenda; spiltist þar lítit vid, þó þeim væri eydt, medann konúngdómr oc lög hèldu vörn yfir landinu, nema í sumum stödum þar ófridr kom at seinna; enn hvert er þat var meira þarft edr óþarft fyrir flestra hluta sakir, oc hverir sem þess voru valdir, er þau tókust af, þá vard sem jafnan verdr vid hverr umskipti, oc þó hin þarflegustu sè, at æ fer þar samann vid nockud íllt eda óþarft, á annan hátt enn ádr var; jókst vid alltsamann ódugnadr oc hugleysi í landsmönnum, svo nálega lögdust allar íþróttir oc frammqvæmdir fyrir ódal, oc kom svo at landsfólkit giördi hrygglyndt, oc óliúft á at freysta nockra hlut-

ar, vitu menn þat af því sem lengi var sídann tídt, at nálega var mest víti vidlagt af hiátrúargiörnum, ef nockr manndómr var stundadr, oc af qvedlíngum oc frásögnum úr öndverdri XVIIdu öld, er liósslega sindu ótta einann oc hrygglyndi. Þó þvarr eigi vid slíkt mótvilji sumra þverbrotinna manna, er nockud þóttust eiga undir fiármagni sínu eda karlmensku, í öllu því er hlídni skyldi heita vid lög oc yfirmenn, enda var í þann tíma nockr sök hiá yfirmönnum siálfum, er lítt betrudu sidu sína, því þeir einir voru áleitnir er fiármagn oc frændafla höfdu til at þraungva kosti annara, oc egndu svo þá alþídu menn til mótþróa er nockru treystust, enn hinum drap nidr at meira er lítils máttar voru eda óhardlyndir; enn at telia slíkt greinilega er þó mikit vandhæfi á, því blindni sú hin mikla oc rángar ætlanir, sem ædri oc lægri menn höfdu í verit medan páfatrúinn stód, hefir seint ordit upprætt, oc sídann margt annad vardat þeckíngu manna oc sidabetrun; fer oc eigi betr at gánga til annars óhófs enn ádr var, enn hóf er vandhitt, oc stendr eigi lengi um sinn hvert um sig.

## XLIX Cap. Tilburdir ímsir, oc frá biskupum.

Ormr Sturluson var í þennan tíma utann, oc vitum vèr eigi hvert hann nádi konúngsfundi; hann var í húsi Johans Schougaards, þar höfdu Islendíngar kynni; þar andadist Ormr, oc var þá enn 1575 snaudr ordinn; son Orms var Sturla, hann fór utann, oc framadist ecki, því hann var allheimskr. Helga dóttir Orms dó í bólu, enn Gudlaug giptist vestr oc var gód kona. Gunnlaugr Ormsson bió í Leiníngi, hans dóttir Halldóra var gift Petri syni Gunnars Gíslasonar. Liótun systir Orms var módir Ceciliu er Hallr átti son Olafs prests Kolbeinssonar, þadann er Halls ætt. Steinunn systir Orms var módir Jóns rebba í Búdardal. Þá var þat er Þórun Jónsdóttir biskups seldi Sigurdi presti á Grenjadarstad bródr sínum Grund, enn skildi sèr til ábúd, var hún þá eckia í þridia sinni; samþycktu þat Helga Sigurdardóttir Finnbogasonar, oc synir hennar Sigurdr oc Isleifr; má ætla Þórbergr Bessason, bóndi Helgu, hafi þá dáinn verit. Fridrikr konúngr sendi út híngad brèf sín um sumarit; var eitt um stadi er leikmenn höfdu haldit, at þeir skipist prestum, ef þeir fást er þá

vilia taka; annad at prestar skyldu hafa öll giöld sem fyrr hefdi verit; þridia at þeim skyldi tyund gialdast af öllum jördum nema klaustrum; hid fiórda um þat at sóknarprestr oc djákn skyldi haldast á klaustri hveriu, hafa III hundrud í kaup enn tolla oc tyundir at auki, enn ef prestr er eginqvæntr, skal hann hafa klaustrs jörd til ábylis, enn diákninn mat oc dryck af klaustrinu; þá er sagt at hin fyrsta bók hafi prentud verit í Hóla prentsmidju, lífsins vegr Hemmíngii med tveimr sálmum, at beidni Arna Gíslasonar at Hlídarenda, oc tileignud hönum, enn Gudbrandr biskup hafdi útlagt; var þá borinn Páll son Gudbrands biskups, oc hafdi nafn Páls Vígfússonar at Hlídarenda, ætla eg þat sannara enn þat er sumir segia, at hann væri borinn tveim vetrum fyrri; Gudbrandr biskup lèt samtaka þat á prestastefnu, at ef prestr ber á leikmanni naudverin-laust, skal hann missa embættis til þess er hann hefir bætt, prestar væri oc skyldugir til at kenna börnum sínum at lesa oc Catechismus, bænir oc bordsálma; eigi skulu þeir hafa raud klædi, gul eda græn, oc eigi felda undir stacki, oc stuttvídar buxur, enn af því má ráda at þá hafi eigi prestar hempr borit; sá prestr skuli afsetiast er haldi forbodnar helgar, því Páfadómr sè ei þolandi; allir skuli prestar vardveita kall sitt eda setia borgun fyrir; þennan tíma andadist Einar prestr Olafsson í Gördum, födrfadir þeirra Egilssona, oc var þá gamall miög; þat sumar segir Jón prófastr Halldórsson at dæmdir hafi verit Hofstadir Sigurdi Þorleifssyni, enn Gísla biskupi eyrdi þat illa, oc hafdi umbrot mikil fyrir at halda jördinni med lögfestum oc stefnum oc ölrum umsvifum, einnin eptir dóminn, oc vann þá ei á, oc vard Sigurdr fyrir þúngri óvild af hönum. Gísli biskup veitti Bödvari presti syni Jóns prests Einarssonar í Reykiahollti Stad í Grunnavík, oc bad miög Johan Bucholt höfudsmann stadfesta þá veitíngu, qvad miklu meiri þörf á slíkum prestum á útkiálkum heldr enn nær sèr í midiu biskupsdæmi, oc svo giördi hann vídar; rád vildi hann oc hafa yfir prestum at færa þá úr einum stad í annann, enn þeim var þat opt óliúft, fyrir því kærdi hann nù fyrir höfudsmanni slíka óhlídni þeirra, oc beiddist dóms á, hvert ei væri þeir skyldir upp at standa frá stad eda sókn er biskup bidr, oc fara til annarar; þar um nefndi Þórdr lögmadr Gudmundarson út helmíngadóm, med þremr prestum oc þremr lögrèttumönnum, at Melum

í Borgarfyrdi hinn XVIIIda Augusti mánadar, at skipan höfudsmanns, dæmdu þeir prestum at vísu byria eptir eydi sínum at audsyna biskupi hlídni í því sem þeir mætti, enn margt mætti hindra þá, oc giöra þeim ófært at víkia til fiærlægra stada, oc væri farandi at kyrkiu-ordinantiu konúngs; er ávíkr at hverr sókn skuli velia sèr þíngaprest siálf, fyrir því dæmdu þeir málit til alþíngis á næsta sumri; voru þeir dómsmenn Jón prestr Egilsson Einarssonar prests Olafssonar, Þorvardr prestr Einarsson oc Jón prestr Magnússon, enn leikmenn Einar Eyríksson á Hvanneyri, er lögvitr var, oc sagt er verit hafi rádgiafi Þórdar lögmanns, Vígfús Jónsson á Kalastödum, oc Ögmundr Hallsson Olafssonar prests Kolbeinssonar; lèt þá biskup af at ákæra slíkt er hönum gèck eigi greidara; þat sumar skipadi hann hálfkyrkiu at Dúnki í Hördudal med gódra manna rádi; tók oc prestskap af mörgum, er annadtveggia voru blandnir páfadómi edr ódugan-ligir; var einn Indridi er Páll Jónsson á Stadarhóli vildi láta þióna Kaldadarness kyrkiu, því hann hafdi selt hönum Kálfanes; vard kaldt af því oc ödru med Gísla biskupi oc Páli; oc svo tók hann embætti af Þórleifi presti á Reykhólum Biarnarsyni Þorleifs-sonar, því at sannad var fyrir biskupi at menn fóru jafnnær frá kenníngu hans, sökum hans ásmælgi, enn hann seldi Páli Jónssyni Reykhóla, oc er hans opt ádr gètit; son hans var Greipr prestr á Snæfiöllum, fadir Jóns, födr Greips födr Jóns; enn Jón í Flatey var bródir hans, fadir Finns, födr Torfa prests, födr Jóns í Flatey. A slíkann hátt lagdi Gísli biskup alla stund á uppfrædíngu alþídunnar, oc einnin á at halda rètti kyrknanna, því at ei höfdu þær í Skálhollts umdæmi slíkar menjar eptir nöckurn biskup sídann Vilchin var; samdi Gísli biskup Máldagabók þat ár sem fyrr er gètit, yfir allar þeirra eignir, qvikar oc daudar, fastar oc lausar, er ella mundu hafa undangengit, oc var sú lögtekinn sídar, þó ei sè hvervetna samsaga, hvar sem ecki kæmi önnr skilríki liósari í móti.

## L Cap. Frá Höfdíngium.

Önnr missiri endrnyadi Johan Bucholt skipan Páls Hvitfelds um þá er eigi sæki sóknarkyrkiur, einnin at prestar hlídi biskupi, oc 1576

hiálpi til at taka samann tyundir hans; þá giördist Þorvardr prestr Magnússon í Vallanesi prófastr oc officialis Gísla biskups í Austfiördum í stad Einars Arnasonar; Gudbrandr biskup lagdi þá út oc lèt prenta Cathechismum Palladii, bók um rèttlæting oc gódverk, Avenarii bænir oc Calendarium; Jóns bók var þar oc prentut; var nú borinn Kristín dóttir hans; þá fèck hann brèf frá Fridriki konúngi er leifdi hönum at hafa skip í förum, oc taka hina bestu menn í syslunni til at útreida þat; keypti þá Gudbrandr biskup skipit af Hamborgurum, LX lesta far; enn lögmenn bádir oc lögrèttann, lögdust á móti slíku fyrirtæki biskups, oc kærdu fyrir konúngi, qvádu mikinn óþarfa oc hættu at landsmenn ætti siálfir kaupfar, enn því var ecki svarad; tókst þó svo illa til at þeim vard þat til vilia, at skipit tyndist nockru sídar á útsiglíngu, svo ei hefir tilspurst, var á því Arngrímr prestr Jónsson vellærdr madr, er fram átti at bera eyrindi biskups, hann var fadir Jóns prests at Bardi í Fliótum, oc Laurentii prests at Upsum; freistudu oc eigi innlendir höfdíngiar, þó allríkir væri, slíks fyrirtækis sídann. Johann Bucholt höfudsmadr fór utann um sumarit; þá andadist Erlendr Þórvardsson á Strönd er lögmadr hafdi verit, oc var þá ærid gamall. Matthias fór utann, skólameistari í Skálhollti, oc prestvígdist þó ádr; hann var gódlyndr madr, tók vid af hönum Stephán son Gunnars Gíslasonar; enn af Sigurdi Jónssyni á Hólum tók vid Biarni son Gamla prests Hallgrímssonar Barna-Sveinbiarnarsonar, brædrúngr Gudbrands biskups, oc var allt á einum missirum.

## LI Cap. Frá ímsu.

1577 Vetrinn eptir sat Johan Bucholt í Kaupmannahöfn, oc medtók hinn þridia dag Aprilis mánadar heit Eyríks Arnasonar, at hann skyldi gialda honum CCC Joachims dali fyrir brot sín ádr kæmi Michaelsmessa; þat hygg ec væri Eyríkr sá er hèldt Skridu klaustr, son Arna Brandssonar priors, Rafnssonar lögmanns; hann var kalladr prestahatari, fyrir því at hann setti presta í hald oc giördi þeim margt íllt; hann átti Gudrúnu Arnadóttr Petrssonar Loptssonar, oc eigi börn, enn hún var gód kona oc bætti ríd hans, oc hèllst hann eigi vid hèr á landi er hún var dáinn, oc

fór til Hamborgar, eptir þat kóm höfudsmadrinn út aptr hingad, oc gaf út amynníngarbrèf til presta, hellst á hinum audgari Beneficiis fyrir sunnann, at þeir sèu hlídnir Gísla biskupi; úngir oc heilbrygdir sem haldi ríka stadi, taki sèr ei Capellana, enn leggist í leti siálfir, oc vilji eigi kenna úngum sveinum sem biskup á skilji til eflíngar Kristninni; enn hann lofadi miög Freystein prest Grímsson í Stafhollti er þá var dáinn fyrir LX vetrum, fyrir þat at hann hefdi svo giört; hann kærdi á alþíngi til Benedicts Petrssonar, er þá var daudr, at hann hefdi eigi goldit tyundir oc haft tvær konr; þá fór framm vitnisburdr Páls presta Brandssonar at Bardi í Fljótum, at hann medkendist ei at hafa selt Jóni lögmanni Jónssyni Bard, enn hann hefdi tælt sig til at gèfa sèr proventu, oc eckert haldit af heitum vid sig, fyrir því væri giörníngr sá ólöglegr; med því oc at Páll prestr hefdi V eda VI vetr um áttrædann, oc hefdi verit VIII vetra í plágunni seinni; qvad hann oc mundi skrád hafa oc innsiglad uppá sig mörg giörníngsbrèf, er hann hefdi eigi fengit at siá nè heyra, nè vissi hvad innihèldi; þá lèt Gudbrandr biskup prenta bók er hann hafdi lagt út eptir Nicolási Palladius, um kristilegann afgáng manns, kristilegann riddaraskap oc svo papiskenn's rèttlætíngu mannsins, oc dóma dag; enn því innfæri ec hveriar skipanir voru giörfar, eda bækr útkomu, at mèr þykir þat merkilegra fyrir allann landalíd, enn óvenjulegr daudi eins eda annars ómerkilegs manns, sem ærit er af í árabókum; enn himin-teikn oc loptsjónir, myrkva á sólu edr mána edr slíka hluti er menn hræddust í þá daga, færum vèr nálega aldrei í frásögr, oc þykir þat allt einna merkilegast þó litilvægt synist, sem auglysir hverir fremri menn hafa uppi verit í hverium stad þann eda hinn tíma, eda hver trú eda áhyggia mest hefir verit hiá alþýdu, oc hvad skapfèldast, eda hverr landstiórnar háttr var oc sidir einn tíma eda annan. Þessi míssiri lèt Arni Gíslason at Hlídarenda dóm gánga at Leidvelli í Skaptafells sýslu, um manndráparygti, annan dag Septembris; enn Nicolás Biarnarson sýslumadr í Arnessþíngi um hald á hesti, at Krossi.

## LII Cap. Frá Ormi Þorleifssyni.

Ormr hèt madr oc var Þorleifsson Einarssonar frá Hofstödum Þórólfssonar, hann bió á Knerri í Breiduvík; módir hans var

Kristin dóttir Torfa í Klofa; hann var audugr at jördum oc lausafè, mikilmenni oc hardlyndr; þat var máltak hans er talat var til hardlyndra manna: enginn er verri enn Ormr á Knerri. Alexius Þorvardsson hèt annar madr sá er deildi vid hann, sá gördi sig á veg fyrir hann oc hió uppá hann, vardist Ormr, enn þó hió Alexius um sídir hægri hönd af hönum í úlflid, því Jón sonr hans var med, oc veitti adbeina; mál þat kom til alþíngis um sumarit, oc nefndu lögmenn Þórdr oc Jón XII menn í dóm, þeir dæmdu Alexius útlægann, oc at eiga aldrei aptrqvæmt, nema bæri hersögu sanna, sem landsmenn vissu ei ádr; gialdist Ormi XX hundrud af fè hans, enn konúngi IIII merkr, ef fè væri svo mikit, fátækum erfíngium ef meira væri þá eptir; enn um áverka þann sem Ormr bóndi bar Jóni, oc qvad hann sèr veitt hafa á handlegginn, dæmdu þeir Jóni lyrittar eyd frá því í hèrad kæmi innan mánadar, enn sekann konúngi tveim mörkum oc Ormi þríu hundrud ef eydrinn fèlle; enn fyrir steinshögg er Ormr bar Jóni var konúngi dæmd mörk, enn Ormi X aurar, oc skyldi Jón rækr úr sveit fyrir atvist sína; Ormr átti dóttr eina laungetna, enn ei annat barna, þó segja sumir hann ætti einninn frilluson, vildu hennar nidjar erfa hann er skilgetnir voru, enn adrir vildu rengia fadernit hennar, oc urdu af því deilr miklar seinna.

## LIII Cap. Frá Gudbrandi biskupi oc ímsu ödru.

Gudbrandr biskup hafdi brèfagiördir vid Doctor Pál Matthiasson biskup í Sialandi, oc adra mikilaháttar menn, oc bar af sèr í þeim brèfum sakir þær er sumir óvildarmenn hans fengu hönum, svo sem var um óþarfar breytíngar oc slíkt annad; lagdist þúngt á med þeim Johanni Bucholt höfudmanni, oc voru vidsiár; þótti leikmönnum sumum vid of, at stórbrotamenn væri leystir á dómkyrkiu af biskupinum, oc fengu konúngabrèf uppá at þat mætti
1578 skè af prófasti; á þeim missirum var Jónabók prentud í Núpufèlli, enn antidotum animæ eda sálar lækníng at Hólum, útlögd af Gudbrandi biskupi, oc líkrædr nockrar Johans Spangenbergs; Gudbrandr biskup lagdi oc alla stund á at koma mönnum til at læra börn sín; gèck þat miög tregt at því yrdi á komit at mönnum væri ei gefit sacrament þá eckert kynni eda vissi, oc samdi hann

um þat fermíngar bók oc spurníngar nockrar, oc var þat lengi ádr hann fengi því hvervetna á komid; voru prestar hyrdulausir oc lauslátir, margir fávísir oc fátækir, enn alþýdann þverlynd oc treg at láta hinn forna sidinn, oc átrúnad helgra dóma; þá var prentverkid flutt at Núpufelli, oc var þar um hríd, því Jón prentari fèck þá lènsbréf Fridriks konúngs fyrir jördinni; giörníngа er nockurra gètit; þá gèck dómr á alþíngi um konr þúngadar, er ei vildu segia til fadernis barna þeirra, oc þat skèdi optar, enn í einhverium dómi var þeim áqvedinn hídíng hvert ár, til þess er þær kæmist af landi; lèt oc Jón Jónsson lögmadr oc Magnús Magnússon prófastr helmíngadóm gánga um hiónaband, at Sveinstödum í Vatnsdal, því at Jón lögmadr hafdi þá allar syslr nærhendis. Jacob Meyer hafdi komit út um sumarit, hann hafdi bréf Kristófórs Valkendorfs er fyrr var höfudsmadr, hins ríkasta edalmanns; var þar í bodit at flytia arf Benedicts Peturssonar til Kaupmannahafnar, enn þat var dæmt, at svo mikit af því fè skyldi eptir verda, sem þyrfti til skuldalukníngar, ödru skyldi þeir halda er konúngr vildi, enn sakeyrir fèlli nidr, fyrir þat er hann hafdi tvær konr. Um þær mundir skèdi Ulfhildarbrènna; hún bió í Arnarhollti í Túngum, oc qveikti ófyrirsynju í þíngvallaskógi, oc brendi mikit skógaland; þá kom upp eldr um haustit í Heklu, oc giördi landskiálfta, svo margir bæir hrundu í Ölvesi; hús hristust hálfa stund, oc var þat eptir allra heilagra messu; fèll þá fè sumstadar; nockru sídar var þat at 1579
Kristin andadist, dóttir Gottskálks biskups Nicolássónar, at Gottskálks prests sonar síns í Glaumbæ; þeir voru þrír synir hennar oc Jóns Einarssonar: Gottskálk prestr, oc Egill er bió at Skardi í Langadal, eptir födr sinn, oc átt hafdi Gudrúnu dóttr þorleifs lögmanns Pálssonar, oc fyrir laungu var dáinn er hèr var komid, oc mikil ætt er frá; Olafr hét hinn þridji, hann átti Steinunni dóttr Jóns Magnússonar á Svalbardi, er fyrri fylgdi Byrni presti Jóns biskups Arasonar, þeirra dóttir var Gudrún er gipt var Hannesi Biarnarsyni èr þá bió í Snóksdal, dóttursyni Dada; hún var góð kona. Nú féck Sigurdr Jónsson, bródir þeirra Jóns lögmanns, Páls oc Magnúsar Reinistadar klaustr, oc bió þar, því Jón lögmadr bió at þíngeyrum; Magnús bródir þeirra hafdi þorskafiardarþíng, hann bió í Ögri, enn seinna í Bæ á Raudasandi eptir

Eggert Hanneason; Sigurdr Jónsson átti Gudnyu Jónsdóttr frá Ökrum Grímsonar lögmanns Jónssonar, þeirra börn voru Jón, Elin, Halldóra, Gudlaugr, Ragnheidr.

## LIV Cap. Imislegt.

Um sumarit komu út bréf Fridriks konúngs, er Gudbrandur biskup hafdi sum útvegad; var eitt um þat at hann mætti útgéfa ritnínguna á íslendska túngu, oc hvör kyrkia skyldi þar leggia til einn dal; annad sama efnis, oc at hvör kyrkia skyldi kaupa eina bibliu; þridja at dómkyrkiu jardir væri eigi seldar; fiórda at saminu væri tilskipan um hverau tillags peníngum skyldi skipta med prestum; hafdi þá Gudbrandr biskup fullgiört útleggíngu ritníngarinnar, enn lèt prenta Huberini bók um guds nád oc reidi er Olafr biskup Hialltason hafdi lagt út; hann lèt þá skipa Erlendi presti Pálssyni Breidabólstad aptr, er leikmenn vildu taka frá hönum, fyrir þat er hann hafdi gengit í þíngdeild fyrir bródr sinn um Narfastadi, er Páll Jónsson á Stadarhóli vildi taka af hönum; oc svo Jóni presti Fell, hann höfdu leikmenn sakad um hórdóm, enn fengu ei sannad; tóku þá heldr at skèrast í greinir med Gudbrandi biskupi oc Jóni lögmanni, oc báru þar til margir hlutir, fyrst þat tvennt er margir hafa fundit, annad þat er bádir voru stórlyndir, biskup fèglöggr oc keppinn, enn lögmadr ágengr, uppödslumikill oc undirförull í senn; oc annad hitt, at þeir urdu svo yfrit margt samann at eiga; enn þat var hid þridia er fáir hafa getit, oc eg ætla mest hafa umspillt, at leikmenn allir drógu fúslega taum med Jóni lögmanni oc löttu hann ecki, því hatr var innkomit milli þeirra oc klerkdómsins at fornu, oc vildu nú giarnan vinna þat upp er þeir þóttust afllaga bornir af hinum fyrri biskupum, enn vissu at biskup var í engri velsemd vid höfudsmannin, oc fundu þó at hann keppti vid þá; er svo æ jafnann þegar umskiptir háttu, eda meiníngar, at ei er haft hóf vid oc þykir engu nýtt þat er ádr þótti merkilegast, enn menn gialda stèttar sinnar ef hún var höfud ádr, þegar þeim þykir rúmt um sig sem undir hafa ordit; var vid kapp biskups, oc metnad Jóns lögmanns, oc öfund á framqvæmdum þeim er biskup hafdi, oc allar samann þessar orsakir, med ríki lögmanns oc fylgi höfudsmanns oc allra leikmanna, engin von á

at þeir mætti sáttir eiga margt oc lengi samann; biskup lèt banna prestum at taka heimuglegar skriptir, þá þeir fóru at skyra börn eda grafa menn, oc at bidia fyrir daudum. Um vorit var þriggia hreppa þíng at Helgastödum í Reykiadal, oc lèt Vigfús Þorsteinsson VI manna dóm gánga um leigu kúgildi er ei höfdu bætt verit upp um XXXII ár, hafdi Starkadr Valtyrsson drepit þau óleift, enn Sigurdr Jónsson, er konúngs umbod hafdi, kalladi eptir; oc dæmdist Starkadi at svara þeim jafngódum í fardögum, nema at aldri, enn Sigurdr hafi atgáng at þeim er ádr hèldt umbodit; hygg eg þat sè Sigurdr á Reinistad, oc hafi hann haft umbod þar nyrdra til þessa; þá voru teknir margir vitnisburdir at forlagi Gudbrands biskups oc annara, um Hólakyrkiu jardir eptir Jón biskup, sölu hans oc skipti á þeim oc margt annad; eru þeir í þeim vitnisburdum taldir medal annara, Arngrímr Jónsson, oc Stígr Biarnarson Gíslasonar, prestar, Kolbeinn prestr Audunnarson Sigurdarsonar, Halldór prestr Brandsson, Illhugi prestr Gudmundarson í Mula, Sigurdr prestr Jónsson at Greniadarstad, Oddr Asmundarson lögrèttumadr, hann var áttrædr, oc bar þat framm at Grund í Eyafyrdi ætti allann reka fyrir Hallbiarnarstödum á Tjornesi nema álnar-keffi, enn hálfann í Sandhólum móts vid Múnkaþverár klaustr. Þorsteinn prestr Gunnason var einn þar nefndr, hann hafdi þá einn um áttrædann; þá var fiúk svo mikit á Jónsmessu at margir peníngar dóu; sendu Islendíngar bænarbrèf sitt fram fyrir Fridrik konúng med Olafi Bagga, þar qvedr svo at: «um þá miklu vetrarneyd oc hardindi, med sniá oc «frostum, oc sumstadar med eldi, sem þetta land er undir orpit, «oc æ meir oc meir foreydist, svo þar fyrir minkar vor atvinna, «oc peníngs afli, á vorum qvikfènadi, sem allr almúgi hefir mest «til klæda, fædis oc lifsnæringar, sömuleidis hversu fiskirfid hverfr «frá landinu, þarmed eru oc vida konúngdómsins jardir oc gardar «alètt eydilagdir, sem annara manna, oc litlar eda engar leigr «edr afgift goldnar, fyrir fátæktar sakir landsins oc hardinda; oss «þvíngar hermed vor fátækdómr, eymd oc armæda, ydar mildi«liga nád at bidia, tilsión at hafa um vort hiálpræði oc lifsnær«íngu, svo at þessi ydar fátæki lidr oc ydar nádar skattland, «fyrirfarist ei, af því húngr oc klædleysi þiáir oc þvíngar þessa «lands almúga mest.» Þá var giör reikníngr yfir þær jardir er gengit höfdu undann Hólastól medann Olafr biskup lifdi, oc fyrr er

getit. Kom þá oc bréf Fridriks konúngs hingad í land, er spurdi eptir hverium prófasts-giaftollrinn heyrdi til med rèttu, hvert heldr konúngi edr andlegum kyrkiunnar vegna; þarum nefndu lögmenn bádir Þórdr Gudmundarson oc Jón Jónsson XII hina vitrustu menn í dóm á alþíngi, alla þó veraldlega, voru þeir Arni Gíslason at Hlídarenda, Magnús oc Sigurdr Jónssynir Magnússonar, Benedict Halldórsson frá Mödruvöllum, Þorlákr Einarsson at Núpi, Olafr Jónsson, Nicolás Biarnarson syslúmadr í Arnessþíngi, Vígfús Þorsteinsson frá Asi nordann, Markús Olafsson í Hèradsdal, Jón Olafsson, Tyrfíngr Halldórsson, oc Gísli Þórdarson lögmanns; qvádust þeir dómsmenn vita at giaftollr sá hafi at undanförnu haldinn verit fyrir uppgiöf eda vægd á sektum, enn nú sèu allar sektir fallnar til konúngsins, fyrir því leitst þeim at giaftollrinn heyrdi til þeim er sektirnar ætti at taka; gèck hann þadan af til fulls frá prófóstum til syslumanna. Dómr gèck enn af Sigurdi Jónssyni at Egilstödum í Fliótsdals hèradi, um skattgiald þeirra er missa fè sitt um vetr; þá tók Sigurdr Jónsson skólameistara starf í Skálhollti, sá er fyrri hafdi at Hólum, oc var hann qvæntr fyrstr þeirra, enn Stephán Gunnarsson giördist rádsmadr.

## LV Cap. Eggert ræntr, oc utanför hans.

Þetta sumar komu víkíngar Enskir frá Hollandi á Vestfiördu, þeir ræntu kyrkiur, enn drápu suma menn, oc naudgudu konum, oc giördu annad íllt; þar er sagt at verit hafi á skipi med þeim fálkafángari einn, er óvild hafdi á Eggerti Hannessyni; þeir komu til Bæar í Raudasandi þar hann bió, oc tóku hann, oc ræntu öllu því er þeir komu höndum á; hefir hann svo sagt siálfr at ecki hafi skort á VIII þúsundir marka Lybskra; þeir fluttu Eggert á skip oc hèldu hönum í mánud, vard hann þá leystr út med svo miklu qvennsilfri, at Ragnheidr dóttir hans sagdi verit hafa uppá XIII konr oc lètu þeir hann vinna eyd at því, at klaga þá ecki fyrir konúngi, oc þar med heita meiru fè, oc fá borgunarmann fyrir sig utannlands, skipara einn frá Stadi, fóru sídann á brott med herfángi sínu; Eggert hèldt ecki naudúngar eydinn, oc fór utann eptir þeim, oc ritadi konúngi sögu af því

ráni oc ójöfnudi; enn Fridrikr konúngr ritadi höfdíngium í Stadi um vetrinn skömmu fyrir iól, oc bad þá komast eptir hvar víkíngarnir væri, urdu þeir teknir í Flissing á Hollandi, oc hengdir, enn Fridrikr konúngr gaf til Islands VI bissr í hveria syslu oc VIII spiót, svo menn mætti veria sig heldr, svo fiærri var þat hans vilia, er fyrir skömmu hafdi giört verit at aftaka vopn öll, enn svo var þá frammqvæmdarlaust, at menn gáfu sig ei vid slíku, oc er all undarlegt ef almenníngr átti vopn fyrir skèmstu. Eggert kom út aptr, hafdi þá Magnús Jónsson í Ögri dóttrmadr hans Bardastrandarsyslu, enn er at siá sem tekit hafi Isafiardarsyslu er Eggert var alfarinn hèdann, sem litlu var sídar. Eggert hafdi lengi safnad fè oc sendt utann, einnin skreid, smiör oc vadmál, oc látit setia á ávöxtu í Hamborg, svo þat var kallad þríkleift vid jardir oc lausafè þat er hann lèt hèr eptir Ragnheidi dóttr sinni, kona Magnúsar. Eggert fór til skips á Vatneyri oc var þar dryckia mikil, enn er hann stèig á skip, qvaddi hann vini sína oc qvad þetta: 1580

Eitt sinn kèmr hvert endadægr, allra lída um sídir,
svo finnst enginn siklíng frægr, sínum dauda ei qvídir.

Jón murti sonr hans var utann farinn ádr, sem fyrri segir, er hann vog Jón Grímsson, oc qvæntust þeir bádir fedgar í Hamborg, þó Eggert væri þá vid elli, oc komu aldrei út aptr; hètu Eggert oc Arni synir Jóns Eggertssonar; qvæntist Arni í Hamborg oc átti dætr tvær, oc þykir Eggert Hannesson hid mesta ríkmenni verit hafa.

## LVI. Cap. Oárann.

I þann tíma gèck Kreffdubólann, oc var kallat kreffdu sumar, einninn engingarsótt at því er Biörn at Skardsá segir, oc dóu margir af; hliop þá framm Myrdals jökull med eldgángi, sudr hiá Þyckvabæar klaustri, eidduft bæirj enn menn sakadi ecki, þá dó Þorsteinn prestr Gunnason, oc hafdi lengi vid klerkdóm verit, sídann hann var heimamadr Jóns biskups Arasonar þá hann var í biskups kosníngu; svo segia sumir at Látra-Clemens hafi þá siglt med enskum í Gunnbiarnareyar, oc at þar sèist úr hellu-

gati á fiallinu Rít vid Isafiardarmynni, oc at sá Clemens hafi seinna verit svikinn af Þórdi þiónustumanni sínum, er þadann af var kalladr Trygdrofi; þar veit eg engann sann á; mælt er oc at verit hafi nautadaudi í Kálfholti oc slátrit banvænt; grasleysi var þá mikit, svo mælt er at allt samtalit er fèll af tödu í hverium Hreppanna í Arnessyslu, hafi verit nær einu hundradi hesta; jafnlítit í Biskupstúngum, oc stórt hundrad eitt á Landi, oc er lítt skiljanlegt, oc var þó verra sídar, oc mátti kalla at landinu hnignadi miög árferdit um þennan tíma, frá því er nockra hríd hafdi verit; er oc svo at siá sem fleiri slags manndóm hafi dregit til þurdar med alþýdunni, þótt áþiánin væri heldr minni enn þá er hinir papisku biskupar rèdu öllu fyrrum; skipaninn var nockut med ödrum hætti enn ádr, oc þó þeim er landsfolkit var óvanara, enn mikit var þá enn höfdíngiaríki yfir alþýdunni, oc miklu meira enn í vorum dögum hefir verit.

## LVII Cap. Jarda afhendíng til Gísla biskups.

Johan Bucholt höfudsmadr afhendi Gísli biskupi Jónssyni þennan tíma, at konúngsbodi, hinn þridja dag Octobris mánadar, jardir þær er biskup hafdi kosit prestum til handa, med landskuld oc leigum, er hliópu til tveggia hundrada Joachimsdala, voru þær Straumr í Austfiördum med IIIIum kúgildum oc hundrads landskuld, Steinar í Hornafyrdi med jafnmiklu, hálfr Foss á Sídu med hundrads landskuld, Backi á Sídu med IIIIum kúgildum oc tveggia hundrada landskuld, þær þriár til Kyrkiubæar klausturs prests; Asar meiri med VIII kúgildum, smiörvætt oc vadmálsvod oc vetrgömlu nauti í landskuld, presti í Skaptártúngu. Myrar med IIIIm kúgildum, smiörvætt, vod vadmáls oc kálfi í landskuld, presti í Þyckvabæ; Gata med IIIIm kúgildum, smiörvætt, vetrgömlu nauti oc hundradi fiska í landskuld, presti at Dyrhólum oc Sólheimum; Heidi med IIIIm kúgildum oc hinni sömu landskuld, presti at Reini oc Höfdabrecku, Skógar eystri med hundrads oc XX alna landskuld, presti í Medallandi. Midmörk med hundrads oc XL alna landskuld presti í Dalaþíngum, Torfastadir í Fliótshlíd med tveggia hundrada landskuld Fliótshlídar presti, Bolaholt med hundrads landskuld, oc Saurbær med C álna landskuld Hvols

oc Skámstada prestum; Stærri Borg í Grímsnesi med V kúgildum, oc hundrads landskuld, oc Hóll í Ölvesi med IIIIum kúgildum oc iafnri landskuld, þær tvær presti í Grindavík; Breidhóll med IIIIum kúgildum oc hundrads landskuld, oc Háls í Kiós med VII kúgildum, tveggia hundrada landskuld, bádir presti á Seltjarnarnesi; Skrauthólar med V kúgildum oc hundrads landskuld Kialarness presti. Mógilsá med VI kúgildum, hundrads landskuld, oc Mosfell med IVum kúgildum oc samri landskuld, presti í Mosfellssveit bádar; Haukagil oc Brúarreykir med VI kúgildum oc hundrads landskuld hvert, Húsafells presti. Litli Kambr med sömum leigumála presti í Breiduvik. Þæfusteinn med II kúgildum oc hundrads landskuld presti í Neshrepp. Skorravík med VI kúgildum oc hundrads landskuld Skardsstrandar presti. Múli med IVum kúgildum oc LX álna landskuld presti í Saurbæ. Fiardarhorn oc Gröf med IVum kúgildum oc LXXX álna landskuld hvert Bitrar presti, Midanes med IVum kúgildum oc hundrads landskuld presti í Flatey. Ingunnarstadir med hundrads landskuld oc VI kúgildum presti í Garpsdal, oc Svarfhóll med VI kúgildum, oc XXX álna landskuld. Þar lagdi Gísli biskup til af dómkyrkiu jördum prestum til uppheldis oc ábylis: Utskála í Gardi, Arnarbæli í Ölvesi, Villíngahollt í Flóa, Guttormshaga í Holltum, Fellsmúla á Landi, oc Andakylspresti í Borgarfyrdi fyrst Bæ, sídann Hvítárvelli, enn seinast Hest, oc hefir þat haldist. Húsafell taldi hann oc adrir biskupar, eptir Grím Jónsson, med leigujördum Skálhollts stadar, þó sumir léti presta nióta jardarinnar eptirgialds laust, því skógr var þar gagnsamr lengi; þá var kyrkiuprestr til Skálhollts Sveinn son Simonar prests Jónssonar í Kálfhollti, hafdi Gísli biskup vígt hann XVIII vetra gamlann, þá fyrir þremr árum.

## LVIII Cap. Frá Gudbrandi biskupi.

Gudbrandr biskup lèt þessi missiri prenta Salomons ordsqvidu oc Syrachs bók; hann skyldi skipta þeim peníngum er prestum voru lagdir vid syslumanns rád í Skagafyrdi, lagdi hann oc prestum til ábylis edr afgialds jardir þessar, Ríp, Myrká, Audkúlu, Eyadalsá,

oc útvegadi þeim Arnarvatn vid Myvötn undan Múnkaþverár klaustri, enn undan Þíngeyraklaustri Hialltabacká, oc Reinistadar klaustri, Hof á Hofdaströnd, oc hafdi fengit þar um stadfestíngu Fridriks konúngs, undir eins oc um presta tyundirnar; ritníngar útleggíngu hans höfdu þeir greidt ádr fyrir, Oddr Gottskálksson, er út hafdi lagt nya Testamentit, oc Gissr biskup med útleggíngu Salomons ordsqvida oc Syrachs bókar; Gísli biskup hafdi lagt út spámanna bækr flestar, oc Olafr biskup Hialltason nockud, enn þó þurfti hann flest at laga, svo hann vardi ei þar til miklu minna ómaki enn þótt hann hefdi lagt út; hafdi þó ærit margt annad til lærdóms oc sidbóta hvert ár fyrir stafni, sem sagt hefir verit af; þó færdu öfundarmenn hans hönum þat til ámælis, at hann eignadi sèr þat er adrir höfdu giört, þar sem hann bar þó allt samann vid útleggíngu Luthers siálfs, oc þurfti þó at gegna mörgum störfum ödrum, enn fáir svo lærdir at hann mætti rádast um vid; valdi hann oc gagnorda, audskilda oc hreina islendska túngu; hann hlaut sinnin siálfr at hyggia at prentverkinu oc stílnum, dró siálfr upp oc gróf hina miklu stafi oc brotaknúta á biblíu sinni af hagleik sínum; vandadi hann sem mest pappírinn oc svo bandit, oc fèck til frá Hamborg myndir til liósara skilníngs oc prídis, vitnisburdar tialdbúdarinnar oc verkfæra hennar, skrúda Aarons, sáttmáls arkarinnar, Salomons musteris oc fleiri hluta; gèck hönum verkit furdu skiótt oc lidléga, enda studdi Fridrikr konúngr hann med skipan sinni um tillög af kyrkium sem ádr segir; enn útgáfa sú er frá hönum kom, er nú á vorum dögum, þar sem svo lángt er um lidit, ordinn torfeng, enn þótt hún væri allvaranleg; mun hún bera sèr liósast vitni siálf medann til verdr; miöc brautst Gudbrandr biskup fyrir at innkalla undir Hólakyrkiu jardir þær er hönum þóttu ránglega undann hafa gèngit, af völdum Gottskálks biskups Nicolássonar, èda þeirra Jóns oc Olafs biskupa; þar med adrar til sín oc sinna samarfa; átti hann af því laungum í lagadeilum vid ímsa menn er þær jardir hèldu, oc eigi vildu láta, því andvyrdi voru þeim ei vís; þótti hann miög kappsamr í þeim málasóknum, oc er mælt hann hafi nád med þeim hætti þremr hundrudum hundrada, eda meira í jördum undir Hólakyrkiu er undann henni höfdu gengit, oc jafnmiklu undir sig oc samarfa sína; af því vard hann fyrir óvild mikilli oc hatri af mörgum, hellst valdamönnum, er kölludu hann

óeyrinn, oc qvádu hann hefia eina jarda ákæru er annari lètti. Gudbrandr biskup var fésæll oc audugr, oc fyrirhygginmadr mikill; svo er sagt at hann hafi viljad ná til gagns af Kolbeinseyu, oc fengid til brædr þriá, sonu Thomasar á Hvanndölum, Biarna, Jón oc Einar, at finna eyuna, enn hún er meir enn XVIII vikr siáfar í hafi; þeir tveir voru yngri enn twítugir, enn allir voru þeir knálegir menn, oc kunnu vel til á sjó, sterkir oc hugadir vel; fóru þeir til Kolbeinseyar þrír á skipi áttæru, oc rákust í hafi í hinni fyrstu ferd, enn nádu þó landi at tveggia dægra fresti; í annad sinn nádu þeir eyunni med hinum sama útbunadi, oc var hún full af fugli, þeir mistu skipit út, enn fengu kastad steini undir stafnlokit, oc dregit sídann at sèr; hina þridju ferd fóru þeir svo at ei barst á; svo sem segir í qvædi því er þar um er orkt; þar segir svo um þá brædr:

Kunnir voru at karlmanns hörku
kompánlegir á æsku stund,
ecki fiærri eydimörku
uppólust vid síldar grund,
vantadi hverki afl nè orku
ofrhuga í sinni lund.

Eru þar taldir upp í allir þeir tilburdir sem hèr er gètit, oc mikit sagt af háska, þeim er þeir voru vidkomnir. Gudbrandr biskup var vel á sig kominn um allt atgiörfi; vel í vexti, oc gyldr at karlmensku, oc at öllu mikill höfdíngi.

## LIX Cap. Gudbrandi biskupi oc Jóni lögmanni bar til.

Jón Jónsson lögmadr hafdi þá í þann tíma mikinn uppgáng; hann var syslunarsamr oc fèdrögull, oc hafdi gengi af höfudsmanni jafnann; vingott var med þeim biskupi í fyrstu, enn hafdi spillst brádt, med því at bádir voru kappsfullir, oc svo því ödru er til bar og gètit er, oc snerist at lyktum í óvild oc hatr svo eigi dugdi til hlítar, þó þeir væri sættir; þótti biskupi at hann nædi illa rètti hiá Jóni lögmanni, oc at þeir Johan Bucholt höfudsmadr legdist bádir í móti sèr, enn vildi eigi vægia fyrir þeim;

voru þeir nærstir hverr ödrum til þess at þeim bæri samann þegar í öndverdu er Jón hafdi Skagafiardar syslu; þat var vani biskups at halda vina veitslu hvert ár heima á Hólum átta dag jóla, oc bióda þar til hinum helstu mönnum í nálægum herudum; baud hann Jóni lögmanni til þess bods medann vel var med þeim; bar svó vid einhverju sinni at lögmadr kom ecki qvöldit fyrir veitsluna, fyrr enn lidit var á nótt framm, oc voru fyrirmenn komnir í hvílu; lèt þó biskup vera herbergi tilreidt, oc sæng oc hvad annad er lögmadr þurfti at hafa; um morguninn spurdi hann at lögmadr var kominn, oc hafdi tekit svefn oc hvild, gèck í herbergit, oc heilsadi hönum, bad hann vera velkominn, oc fór allt vel med þeim þá enn; þar var kakalofn í húsinu kyndtr oc vel heitr ordinn; fèll samræda þeirra um nockra þá hlúti er á milli báru, oc kom í kapp med bádum, tók lögmadr at klædast, oc því nærst tók hann handlaug, oc var þá ei varfærinn er hönum var í skapi, oc hristi vatnit af höndum sèr ádr hann þerrdi þær, svo droparnir hrutu á kakalofninn brennheitann, enn hann sprack í sundr med brestum stórum; segia þó adrir hann hafi fyrir kappssakir í rædunni, kastad bikarnum er vatnit var í, oc sprengt med kakalofninn, enn spillt bikarnum, oc hafi þó sá bikar verit lengi til sídann; biskup mælti þá at Jón lögmadr skyldi hefnast heldr á sèr enn kakalofninum saklausum, oc fór þar um nockrum ordum; er svó sagt at þetta væri upphaf at óvináttu þeirra, oc hafi aldrei um heilt gróit sídann.

## LX Cap. Nafnkunnugir menn þá í landi.

Nú vil ec til fródleiks gèta þeirra manna nockurra er nafnkendastir voru þá samtídis uppi edr nær þeim tíma; siá menn af því hverir samann áttu, enn sumir fá rakit at þeim ættir sínar; er fyrst at telja nærst biskupum oc Jóni lögmanni, Þórd lögmann Gudmundarson; Sigurdr Jónsson á Reinistad tók um þessar mundir eda litlu sídar syslu í Skagafyrdi. Magnús bródir þeirra bjó at Bæ á Raudasandi, oc var höfdíngi mikill, oc vel á sig kominn, hann hafdi þá Bardastrandar syslu, enn Páll annar bródir þeirra, bió at Stadarhóli, oc hafdi Isafiardarsyslu nockra stund eptir Eggert, er frá hönum nockut sagt ádr, oc brotum hans, enn þó var

hann vel á sig kominn; allir voru þeir brædr miklir vexti, vænir at áliti, oc gyldir til karlmensku. Páll átti Helgu Aradóttr, hún var strídlynd miög; voru þeirra börn Petr, Elín oc Ragnheidr. Þeim Páli oc Helgu samdi illa, oc áttust jafnan málasoknir vid, enn hèldu þó samvistir, hefir Páll qvedit um Helgu:

Ecki skal greyid gánga, gefa skal henni hest etc.

oc enn þetta:

Allskjaldann verdr á ángri bót
illa konu eg eiga hlaut,
verra dyr eg veit ei snart,
enn vonda konu af illri art,
þó madrinn deyi er mannord eptir mikinn part.

Þóttu mörgum þá af dáleikar hinir miklu er Páll hafdi lagt á Helgu. Arni Gíslason at Hlídarenda hafdi Skaptafells syslu, Nicolás Biarnarson Arnessa eda Rángarvalla syslu. Gísli Sveinsson at Midfelli hafdi haft Arness syslu um hríd; hann átti Gudrúnu dóttr Gísla biskups oc margt afqvæmi; einn hans son var Biarni prestr fadir Gísla prests at Stad í Grindavík, födr Olafs prests, födr Gísla, födr Olafs biskups. Þorlákr Einarsson bródir Gissurar biskups bjó at Núpi í Dyrafirdi, má þat ætla at hann hafi syslu haft um hríd; hann átti fyrri Gudrunu systr Eggerts Hannessonar, þeirra son var Gissr fadir Magnúsar bartskèra, Jóns á Núpi oc Torfa; sídan átti hann Vígdysi dóttr Þórólfs Ejólfssonar oc Margretar Erlendsdóttr, oc börn. Sigurdr Jónsson hafdi syslu í Múlaþíngi Vígfús bóndi Þorsteinsson í Þíngeyar þíngi; Nicolás bródir hans hèldt Múnkaþverár klaustr, frá hönum er mikil ætt. Benedict ríki Halldórsson á Mödruvöllum hafdi Vadlaþíng; Þórun bió at Grund dóttir Jóns biskups, oc átti ecki börn, var Þorsteinn madr hennar andadr; þeir voru sonarsynir Þorsteins, Nicolás oc Jón undir Felli í Kollafyrdi, oc Þorsteinn prestr í Túngu Oddssynir, oc slísnir sem fadir þeirra. Asmundr var enn launsonr Þorsteins, fadir Þorbergs prests oc Þorsteins prests. Þorsteinn prestr átti Margretu dóttr Biarna í Skridu Pálssonar Grímssonar á Mödruvöllum, þeirra son var Biarni prestr í Vestrhopshólum. Gunnar Gíslason bjó at Vídivöllum oc hafdi þá enginn völd, Markús Olafsson í Hèradsdal, Jón Jónsson at Ingvildarstödum. Hrólfr Biarnason at Vídimyri oc Geldíngaholti, hann var manna sterkastr í Skagafyrdi; hans synir voru þeir Sigurdr oc Þorbergr, Biarnar tveir, Bessi oc enn

fleiri; þeir frændr voru knálegir menn; þat var kölluð Hrólfs ætt. Eigi veit eg giörla hvar Biarni Sturluson bjó. Kár hèt son Sæmundar Simonarsonar sá er Kárs ætt er vidkènd. Grímr son Jóns Grímssonar bió at Ökrum, Gudmundr son Hallgríms Sveinbiarnarsonar at Gröf á Höfdaströnd, Gottskálk Magnússon at Reykium í Túnguaveit. Jón Biarnarson Jónssonar biskups bjó at Holltastödum í Lángadal oc hafdi syslu, hann var vinsæll madr. Halldóru systr hans átti Biarni í Skridu son Páls Grímssonar, oc margt afqvæmi. Teitr bródir Jóns átti þurídi dóttr Erlendar prests Pálssonar, bródr Biarna; Magnús annar bródir Jóns átti Halldóru dóttr Eyríks Sniólfssonar undir Asi, Rafnssonar lögmanns; þeirra synir voru Biörn, er sídann verdr getit, Eyríkr oc Jón. Arni var enn bródir Jóns á Holltastödum, hann átti Önnu dóttr Hannesar í Snóksdal, oc Biarni var enn á Briámslæk, fadir þórunnar sem Loptr átti í Sælíngsdalstúngu. Ragnheidi systr Jóns átti Sigurdr Biarnason Torfasonar frá Klofa. Jón Jónsson Hallvardssonar bjó at Audunnarstödum í Vídidal, fadir Arngríms prests lærda. Biarni son Páls Grímssonar at Skridu í Hörgardal; synir Illhuga prests Gudmundarsonar binggu í þíngeyar þíngi; at Einarstödum í Reykiadal bjó Jón son Orms á Draflastödum Jónssonar Kolls Oddssonar, hann átti margt afqvæmi oc stórmannlegt. Gudmundr son Nicolásar þorsteinssonar bjó at Laxamyri, hann var fadir Jóns födr þórdar, födr Sigurdar prests á Briámslæk; Einar son Nicolásar þorsteinssonar bjó at Hedinshöfda oc átti margt afqvæmi; Gudni son Eyriks Torfasonar bjó í Klofa á Landi, enn Jón bródir hans í Skardi, fadir Brynjólfs; Sigurdr son Biarna Torfasonar, at Stockseyri, hans son var Biarni gamli er þar bjó. Teitr hinn Sterki Ögmundarson hafdi búit í Audshollti, enn ei veit eg hvört hann lifdi þá. Magnús Arnason Petrssonar Loptssonar bjó nordr í Stóradal á frændleifd sinni, frá hönum er mikit kyn oc mannvænt, oc verdr enn getit. þormódr bjó í Brædratúngu, er sagt hefir frá Oddi Gottskálksyni, Asmundarson Lytíngssonar, hann var fadir Asmundar prests í Hvammi. Einar at Hvanneyri lagamadr mikill oc aldvin þórdar lögmanns, Eyríksson Jónssonar hins ríka þórdarsonar á Borg. Vígfús Jónsson at Kalastödum; synir Asgeirs prests at Lundi, í Borgarfyrdi, var einn Tyrfíngr í Hiörtsey. Ögmundr Hallssonar Olafssonar prests Kolbeinssonar bjó at Leirá; þorsteinn Sighvatsson mágr Einars á Hvanneyri var oc nefndar

madr þar í sveit, sá er Þorsteins ætt er vidkénd. Sigurdr Gudmundarson í Einarsnesi, hann átti Þorlaugu dóttr Olafs prests Kolbeinssonar, þeirra son var Jón syslumadr í Einarsnesi hinn fyrri. Halldór var í Skaptafells syslu Skúlason, Gudmundarsonar Sigvaldasonar Langalífs, hann var fadir Sigvalda á Búlandi. Biörn son Þorleifs lögmanns Pálssonar bjó at Keldum; Halldór Marteinsson biskups í Alptanesi; Arni Oddsson í Midgördum fadir Dáda; Jón Halldórsson á Fródá, stiúpsonr Dada í Snóksdal. Gudmundr son Þorleifs Gudmundarsonar Andressonar, hafdi búit í Stóraskógi enn var dáinn er hèr var komit, hans son var Biörn fadir Gudmundar oc Jóns, oc mikil ætt er frá hönum. Teitr son Eyríks Gudmundarsonar Andressonar bjó í Asgardi, hann átti Katrínu dóttr Petrs prests Einarssonar, er þá hèldt Hiardarholt, oc var kalladr Asgards Teitr, oc er þadann Asgards ætt. Jón rebbi bió í Búdardal, hans son var Olafr fadir Halldórs lögmanns; Biarni Oddsson á Skardi frændi hans. Steindór son Finns Arnórssonar mágr Einars á Hvanneyri, bjó at Ökrum á Myrum, oc er sagt hafi haft syslu á Ströndum, hans synir voru Finnr oc Eyríkr, oc er þadann Akra ætt. Hannes Biarnarson dóttrson Dada bió í Snóksdal, oc var mikils háttar oc audugr. Jón Olafsson prests Gudmundarsonar Andressonar, systrson Dada bjó at Svarthóli í Laxárdal oc í Galltardalstúngu, hann átti Gudrúnu laundóttr Arna Gíslasonar, þeirra börn voru Gísli, er ólst upp at Hlídarenda, Dadi silfrsmidr, Olafr, Ingibiörg, er átti Ejólf prest Arnþórsson, Elin, er átti Arna Magnússon Vígfússonar syslumanns Þorsteinssonar; Jón var mikill oc svo sterkr madr at óvída mun sá fást er lengra komist enn til hálfs vid hann, oc allir voru þeir frændr mannvænlegir at siá, bjó Gísli sonr hans at Stadarfelli, enn Olafr at Svarthóli oc var kalladr illi Láfi; Jón páski var launsonr Jóns er einnsaman komst til jafns vid hann at afli. Arnór Loptsson bjó í Liáskógum, lögvitr madr oc vel at sèr, hans son var Asgeir fadir Arnórs, þat heitir Liáskóga ætt. Gudmundr son Jóns Þórdarsonar oc Elinar systr Ögmundar biskups bió at Hvoli í Saurbæ, hann var spakr madr oc forspár, oc hafdi lengi umbod Gísla biskups á Vestfiördum, hans son einn var Jón prestr í Hytardal. Gudmundr Helgason bió á Eyri í Arnarfyrdi, Torfi Sigfússon Brúmannssonar at Hrauni í Dyrafyrdi. Torfi Jónsson Olafssonar Gudmundarsonar at Kyrkiubóli í Lángadal, hann átti Þorkötlu Snæ-

biarnardóttr austan frá Keldum Halldórsonar í Túngufelli, hún var skartskona mikil, oc er þadan Kyrkiubólsætt. Jón Biarnarson Þorleifssonar bjó í Flatey oc synir hans, oc fleira stórmenni var vestra. Þá eru enn ótaldir Eyríkr Sniolfsson austr í Asi, Hrafn í Skördum son Odds Asmundarsonar, Gunnlaugr í Leiníngi Ormsson Sturlusonar, oc synir Einars Þórarinssonar í Bólstadahlíd, Jón á Gunnrsteinstödum, Gudmundr sá er átti Liótunni dóttr Páll Grímssonar, oc Skúli í Svartárdal, er sídann mægdist vid Gudbrand biskup, oc svo þeir synir Egils á Skardi; mætti oc enn fleiri telia, enn eg læt standa svobúit.

## LXI Cap. Taldir hellstu klerkar.

Prestar voru þá þessir uppi nafnkendastir: Sigurdr prestr son Jóns biskups hèldt Greniadarstad; hann var fyrir ödrum um ætterni oc rísnu, oc allann höfdíngskap; hann átti Ceciliu dóttr Petrs Loptssonar; þeirra börn voru Petr oc Halldóra. Petr hafdi andast fulltída barnlaus, oc svo Halldóra, þá hún hafdi heitinn verit Jóni murta Eggertssyni. Þurídr hèt launóttir Sigurdar prestr, hafdi hann arfleidt hana, oc er hann las brefit, hafdi Halldóra dóttir hans þrifit til oc mælt: ei skal sonr ambáttarinnar erfa med syni hinnar friálsu. Hann mælti: láttu svo vera dóttir mín, þú fær nóg sem ádr. Þá mælti Þurídr: Gud eigi hana módr mína hún valdi mèr svo gódann födrinn. Þurídr fèck Magnús Arnason í Stóradal, bródrson Ceciliu; þeirra börn voru Arni á Grítubacka sá er átti Sigrídi dóttr Arna Gíslasonar at Hlídarenda fyrri, Petr í Vík á Svalbardströnd; Þrúdr, hennar fèck Einar son Gríms Þorleifssonar frá Mödruvöllum; þeirra son var Grímr í Teigi; Biörn á Laxamyri; Þorsteinn í Þyckvabæ; þeir urdu miklir menn, oc eru frá þeim öllum ættir stórar. Illhugi prestr Gudmundarson hèldt Múla, oc lifdi þá enn; um hann var þetta qvedit:

Þá í Múla fellr hin mikla eyk munu þat flestir sanna
seint mun önnr komast á kreyk, svo kær sè gèdi manna.

Jón prestr Loptsson Petrssonar Loptssonar hèldt Skinnastadi, Biarni prestr Finnbogason Hof í Vopnafyrdi, Þorvardr prestr Magnússon Vallanes, hann var prófastr oc officialis; Erasmus prestr Villadtsson

Breidabólstad í Fljótshlíd, oc var prófastr; Stephán prestr son Gísla biskups Jónssonar Odda, Ormr Ofeigsson Þíngvelli, hann var rostumadr mikill, oc spillti þar veidi í vík einni í vatninu med griótvelltu adr hann fór þadann. Einar prestr son Hallgríms Sveinbjarnarsonar hèldt Útskálar, Ormr prestr Egilsson Kálfatjörn, hann var prófastr; Jón prestr Kráksson Hallvardssonar Garda á Alptanesi; Jón prestr Magnússon Hvanneyrarþíng; Sigurdr Lund, oc misti prestskap; Jón prestr Einarsson Reykhollt, hann var prófastr; Eyríkr Grímsson Húsafell, brôdir Freysteins prests, sá er Jón biskup sendi í Skálhollt fyrrum, var hann þá gamall er hèr var komit. Salomon prestr Gudmundarson Hvamm í Nordrárdal; Jón prestr Egilsson Stafhollt; Loptr prestr Narfason Hytrardal, hann var prófastr oc officialis. Einar prestr son Marteins biskups hèldt Stad á Ölduhrygg, Skapti prestr son Lopts prests á Húsafelli Þorkelssonar Setberg, hann var prófastr, oc mikilhæfr; Kristián prestr Villadtsson Helgafell. Olafr Olafsson hèllt Kvennabrecku, hann er sagt at hafi verit bródrson Jóns prests Eyríkssonar oc Sæmundar í Asi, oc er kalladr Olafr prestr hinn fyrri; hans synir voru þeir Eyríkr oc Geirmundr sem ættir eru frákomnar. Þórdr prestr son Brands Einarssonar hèldt þá Hiardarholt, því Pètr Einarsson födrbródir hans var uppgefinn, hann átti Þóru dóttr Gudmundar Þorleifssonar í stóra Skógi, oc eru þadann ættir. Gudmundr Jónsson hèldt Stad á Reykjanesi, Halldór Einarsson Selárdal, bródir Gissurar biskups; Jón prestr Loptsson Vatnsfiörd, hann var prófastr oc officialis Gísla biskups, oc er ádr gètit; Sveinn prestr Simonarson giördist officialis er Jón prestr tók at rínglast, oc hafdi þat starf á vestfiördum, enn Jón prestr Þorleifsson á Bardaströnd; hann var son Þorleifs í Þyckvaskógi Gudmundarsonar Andressonar. Greipr Þorleifsson prests Biarnarsonar frá Reykhólum hèldt Stad á Snæfiallaströnd, sá ættlidr úrkyniadist miög at öllu; Bödvar prestr son Jóns prests Einarssonar í Reykiahollti Stad í Grunnavík, Erlendr Þórdarson prófastr Stad í Steingrimsfyrdi. Gamli prestr Hallgrímsson Stadarbacka, frændi Gudbrands biskups, hönum er sagt at verit hafi íllt at siá vel rád fyrir svo hönum farnadist. Erlendr prestr Pálsson hèldt Breidabolstad í Vestrhopi, oc var med hinum fremstu, Gottskálk prestr Jónsson Glaumbæ, Hálfdán prestr Fell, Jón prestr Gudmundarson

Þrinni Siglunes, Biörn Thomasson Velli í Svarfadardal brodir Olafs á Hafgrímsstödum, Biörn prófastr Gíslason Saurbæ í Eyafyrdi, hann var annar mestr höfdíngi af prestum enn Sigurdr á Grenjadarstad. Vigfús prestr Gudmundarson hèldt Stad í Kinn, oc Olafr prestr brodir hans Saudanes, þeir voru skáld bádir, oc gyldir at mörgu. Einar prestr son Sigurdar prests Þorsteinssonar oc Gudrúnar Finnbogadóttir hèldt Nes í Adal-Reykiadal, hann hafdi ádr verit vid Myvatn vid fátæki oc elian, oc var þó meir fyrir qvedskap enn búskap, enn átti börn mörg; er svo sagt at Oddr sonr hans hafi verit þar smalasveinn oc lítt hyrdr, oc at þar hafi verit einn böndi læs er bió at Gautlöndum, af hönum lærdi Oddr af lesa á laun; oc eitt sinn er hann kom heim, deildi fadir hans á hann, oc laust til hans, hraut þá qverit er hann hafdi á sèr, oc fèck hann vid þat bardara enn ádr; oc med því Oddr var svo námgiarn, hafdi Biörn prestr Gíslason komit hönum í skóla, enn sídann utann; var Oddr vid Kaupmannahafnar háskóla, oc framadist þar af kostgæfni sinni, oc nam einnin af Tycho Brahe stiörnumeistara, svo hann vard fródr í þeirri lyst; bió Tycho Brahe á eynni Hven, oc spádi Oddi frama; um sídir vard Oddr Baccalaureus, oc vice-prófastr á klaustri svo kölludu; þat var sú tilskipan er konúngr hafdi giört fyri námsmenn; víkr nú aptr þángat til, er frá var horfit tilburdum.

## LXII Cap. Vopnadómr, oc annad.

1581 Nærstu misttiri eptir þat er Gísli biskup tók vid prestajördunum, er sagt at eldr hafi verit í Heklu oc Kötlugiá, oc hrunit bæir á Rángarvöllum, oc í Hvolhrepp af landskiálftum; þá lèt Gudbrandr biskup prenta Dominicale. Benedict Halldórsson lèt þá dóm gánga um fátæka menn at Spialdhaga hinn XVIIda dag Januarii; var þar samþycktr hísínga oc flutníngadómr Ara lögmanns; enn Gísli biskup skipadi hálfkyrkiu at Múla í Kollafyrdi; hönum gaf Johan Bucholt leifi til at hafa skóga þá til bygginga er Beneficia áttu, þeir voru jafnan vinir, enn Gudbrandr biskup kærdi á Johan Bucholt um hald á peníngum presta. Þá lèt Magnús böndi Jónsson dóm gánga í Ögri, um ósid þann hinn mikla, er hann oc dómsmenn kölludu, skada krúnunnar, oc fyrirlitníngu

konúngsins, er af sumum valdamönnum var orsökud fyrir nockrum árum, þá þeir tóku af med hardindum vopn oc veriur manna, oc töldu dómsmenn forn dæmi til, um ófrid þann er á hefdi gengit af útlendum, lètust ei verda vilia ætthlerar edr fordiarfendr sins födrlands, oc þarmed landrádamenn vid konúnginn, at setia svo siálfa sig oc sína oc allt landit í ved, med ónytiúngskap; qvádu Johan Bucholt samþyckt hafa, at hèr um mætti fullnadar dómr gánga, enn konúnginn siálfann sendt hafa VI byssr oc VIII spiót í hveria syslu, til at koma mönnum til at hafa varnir fyrir sèr; oc þó þeir sèu ófærir lög at semia um slíkt vandamál, qvádust þeir vilia giöra þat at er þeir mætti; dæmdu þeir alla skylduga til at halda frid vid útlenda menn, medann svo mætti vera, oc semia um þrætr sínar vid þá med lögum, enn ella skyldu allir veria fóstrland sitt, oc konúngs umbodsmadr vera þeirra foríngi, enn hönum allir hlída; hverr skyldi kosta sig oc sína menn medann hernadr stædi, oc hreppstjórar skyldir menn at kalla, oc qveikia eld á hærstu hædum, fyrir nærstu krossmessu, þar siá mætti reyki í bygdir, enn þeir skyldu vita kynda, oc vörd halda sem hreppstiórum syndist líklegastir, oc giöra syslumann sem fyrst varann vid; syslumenn skyldu oc rádast um vid skynsama menn, hvar best væri vyrki at hafa, svo gamalmenni, börn oc búsmála mætti þángat færa í naud; enn þeir sem vopnfærir væri vördudu órádvöndum mönnum stigu oc eptirfarir; hreppstiórar skyldu telia vopnfæra menn oc tilkynna syslumanni; hverium manni skyldi skyldt at eiga lúdr til at vara med adra, enn sumum sem þat mætti, kláfa eda vögr, til at láta í varnad sinn, þar sem ei kæmi skipum vid, oc svo axir, pála oc rekr til gyrdínga smídar, læra at giöra fylkíng med viti, hvert er kyrru skyldi fyrir halda, snúast eda eptir renna, oc skylda at fylgia þeirra rádum er til slíkra hluta kynni; því nærst viku þeir til laga um vopna eign, oc dæmdu þeim skyldugt at eiga flest vopn sem mest metord höfdu af konúngi, svo sem skutulsveinum var fyrrum bodit, at eiga spandylar vopn, treyu, bryniu, brynkollu oc brynglófa, brynhosr, hiálm, stálhúfu, skiöld oc sverd, plátu, spiót oc búklara, handboga med tvennum tylftum brodda; enn nú dæmdu þeir alla skattbændr skylda til at kaupa oc eiga luntabyssu oc III merkr púdurs, oc atgeir edr annat lagvopn; enn

hvörn einhleypann, sem á X aura skuldlausa, lagvopn oc stíngknif, oc bera ei nema móti útlendskum ránsmönnum, enn alla adra XV vetra menn eitt lagvopn; sá sem ætti XX hundrud skyldi kaupa byssu, boga oc lángspiót, hverr vígfær, oc adrar verjur eptir efnum, þar sem menn væri hèr fryir fyrir öllum útbodum; dæmdu þeir dóminn fyrst undir lögmannanna yfirsyn til at auka edr vana; oc veit eg eigi hvört meiri furda er at enginn madr skyldi taka slíkt upp aptr eptir Magnúsi, oc at konúngs vilja, er svo fyrir skömmu var af lagt, edr hitt at lögmenn Jón oc Þórdr hafa hleypt hiá sèr dómi þessum, oc miög undrast Biörn at Skardsá yfir at sá dómr gèck ei framm, oc lofar Magnús; enn til þessa er at siá sem Magnús hafi dregit med siálfs hans stórhuga, rán þat er fyrir skömmu gèck yfir Eggert Hannesson mág hans oc adra, var oc eigi all-lángt til þess er slíkt kom at á vestfiördum, oc er þá svo at siá sem allmargir menn hafi vopn haft í Isafyrdi. Magnús var oc ágætr höfdíngi, hann reid jafnann svo á alþíng at fylgd hans var audkend, því þeir höfdu allir lagvopn XL menn eda fleiri, oc setti hverr vopninn upp fyrst er heim reid á Þíngvöll; var þat svo hvert sumar medann hann sat uppi, oc vildu sem flestir vera í hans för; hann var miög vitr madr, oc skáld gott, hefir hann qvedit Pontusrímr oc fleira; hann kunni oc vel þíska túngu; hann átti Ragnheidi dóttr Eggerts Hannessonar, þeirra börn voru Jónar tveir, Ari, Biörn, Þorleifr, Elin, Cecelia, Gudrún, Katrin, Ragnheidr, Kristín; þeim Arna bónda Gislasyni at Hlídarenda, oc Magnúsi, bar einhveriusinni til á alþíngi, oc senntu í ordum; er svo sagt at verit hafi ríkisrígr med þeim; þá mælti Magnús, at ei þyrftu þeir at vera at slíku, mestar mundu tengdir verda á Islandi millum þeirra oc þeirra nidia; hefir þat þótt miög eptirgánga. Jón Magnússon var syslumadr í Dölum, vitr madr oc vel at sèr, hann átti Astrídi dóttr Gísla Þordarsonar lögmanns, oc börn mörg. Ari var lengi syslumadr í Isafyrdi, oc á Ströndum, oc verdr hans enn gètit. Jón annar Magnússon var kalladr Dan, hann átti Ingvildi dóttr Gudmundar Helgasonar at Eyri í Arnarfyrdi, oc hafdi ecki syslr. Biörn Magnússon hafdi Bardastrandarsyslu, oc átti Sigrídi dóttr Dada frá Skardi, Biarnasonar Oddssonar, oc Arnfrídar dóttr Benedicts ríka á Mödruvöllum Halldórssonar; þeirra son var Eggert ríki; sídann átti Biörn Helgu dóttr Arngríms prests hins lærda,

þeirra börn voru Páll prestr í Selárdal, oc Sigrídr í Odda. Þorleifr Magnússon bió at Hlídarenda, oc hafdi Skaptafells-syslu; hann átti Gróu dóttr Gísla Arnasonar frá Hlídarenda Gíslasonar, oc eina dóttr; enn sídar Ceciliu dóttr Biarnar at Laxamyri Magnússonar Arnasonar Pètrssonar Loptssonar, þeirra son var Þorsteinn. Þorleifr var vitr madr, en sumir hèldu hann fiölkunnugann. Elin Magnúsdóttir var gipt Sæmundi syni Arna Gíslasonar at Hlídarenda, þau áttu margt barna. Cecilía Magnúsdóttir átti Ejólf Isleifsson oc börn mörg. Gudrúnar Magnúsdóttr fèck Henrik Gíslason Þórdarsonar lögmanns, dóttrson Arna Gíslasonar; þeir fedgar höfdu Borgarfiardar syslu. Ragnheidr Magnúsdóttir átti Einar Hákonarson Arnasonar Gíslasonar. Katrin átti Biarna bródr hans. Margar urdu enn fleiri tengdir med sídari nidium Arna oc Magnúsar.

## LXIII Cap. Frá ímsu.

Vetri eptir vopnadóm dó Jón á Ingvildarstödum; var þá Biörn 1582
sonr hans VIII vetra; hann var í nordrför um vorit eptir vertíd; fór þá til Ingvildarstada Jón Jónsson lögmadr frá Þíngeyrum, oc qvad Jón sig bedit hafa um vetrinn, at taka at sèr konu hans oc börn oc peninga, ef hann kæmi ei aptr at sunnann; hann tók þar fè allt litt vyrdt, fyrst XX hundrud er Gudrún skyldi eiga, oc enginn XXX betri; hann tók oc IIII börninn, voru VI brædr oc III systr; fèck hvör brædranna XIV hundrud, enn sumt fè kom ei framm; fór Biörn til Sigurdar á Reinistad. Margir dómar gèngu þá er menn hafa. Jón lögmadr lèt dæma drumbadóm á Seilu, um rekavidar þiófnad; enn Arni Gíslason um fátæklínga at Hollti undir Eyafiöllum hinn XVda Maii, var þat dæmt at fátækt fólk sem sveit á, flytiest bodburd rèttann, oc sè hyst oc tært á hverju bygdu bóli; enn utansveitar fólk fari sem dagr hröckr, oc sè tært nockut á hverju bygdu bóli, var þá mikill húsgángr. Vígfús bóndi Þorsteinsson lèt dóm gánga med XII mönnum at Helgastödum í Reykiadal, hinn XVda dag Julii, um tyundargiald, er menn þóttust ei lokit gèta í vadmálum, því at vída var saudlaust; enn syslumenn vildu ei taka eyrir silfrs fyri meira enn X álnir, hann vildi alþida láta gánga fyrir V aura; syslumenn vildu

oc ei frída aura nè prestar sumir, enn II eda III hundrud fátækir gèngu yfir í Þíngeyar þíngi; var eyrir silfrs dæmdr fyrir XIV álnir oc VIII þumlúnga þar til málit kæmi til lögrèttunnar. Jón Illhugason prests Gudmundarsonar umbodsmadr hans, lèt gánga dóm um vistarfólk; hann var fadir Gudmundar at Laugum, oc Illhuga Hóla rádsmanns, oc Halldóru módr Þorgríms prests Olafssonar; hann gèck oc helmíngadóm med Þorsteini prófasti bródr sínum, dæmdi Arnarvatn undir Hólakyrkiu, er Olafr biskup Hialltason hafdi sett Jóni presti Sigurdarsyni í Laufási mági sínum, oc kallar sig þá konúngs umbodsmann. Þorsteinn hèt son Vígfúsar Þorsteinssonar, er druknadi á Hamborgarelfi seinna, annar Jón, hann átti fyrst Ingibjörgu dóttr Biarnar prófasts Gíslasonar oc Malmfridar mildu; enn sídann tvær konr adrar oc var hinn audugasti madr. Þridia barn Vígfúsar var Þorbjörg, er gipt var Hákoni syni Arna Gíslasonar; fiórda Ingibjörg, er átti Biarni prestr Finnbogason at Hofi austr, þeirra dóttir Þorbjörg er Pètr Pálsson átti at Stadarhóli. Bènedict Halldórsson lèt gánga dóm eptir ákæru Halls Magnussonar, um sölu Jóns Marteinssonar á Nesi í Eyafyrdi, oc vard hún ógyld, er þess eigi gètit hvad rak fyrir Jóni Marteinssyni siálfum um þessar tídir, sídann Benedict tók algiörlega syslu í Eyafyrdi. Þá stefndi konúngr Johanni Bucholt oc bádum biskupum útan um prestapenínga mál.

## LXIV Cap. Dómar.

1583 Önnr missiri urdu stórir manntapar af skipum í veidistödum; þá seldi Þórun Jónsdóttir á Grund Magnúsi bródrsyni sínum Vetrlidastadi. Andadist þá Halldór prestr Einarsson í Selárdal bródir Gissurar biskups. Sigurdr at Reinistad hèldt nú Hegraness þíng, enn dómr hans nockr var ákærdr, oc dæmdi Jón lögmadr hann ógyldann at Ökrum oc dómsmenn hans Gottskálk Magnússon á Reykium, Gunnar Gíslason at Vídivöllum, Jón Jónsson, Biarni Sturluson, Jón Einarsson oc Ari Gudmundarson. Gudbrandr biskup lèt oc lesa upp skrá í XI greinum vid Vallalaug til utskyríngar skrifi sínu til Markúsar bónda Olafssonar í Hèradsdal, um dóm Sigurdar syslumans er biskupi þótti ránglega hafa skilit á sig ómaga framfæri. Jón lögmadr lèt VI manna dóm gánga at Sveinstödum

í Vatnsdal um lambatolla af Kúluheidi er Eyríkr prestr Magnússon á Audkúlu ákærdi, oc Forsæludalsheidi, er Loptr Ljótsson í Forsæludal ákærdi, var Vatnsdœlum oc Asamönnum dæmt at reka á þær heidar oc gialda afréttartoll, enn ella IIII merkr í dómrof. Eyríkr prestr sá er getit var, var födrfadir Jóns prestr Magnússonar í Laufási, skálds, oc Sigurdar prests á Audkúlu, hann var vel fiáreigandi, oc qvad þessa vísu um bú sitt:

Nyú á eg börn, enn nytián kyr, nær fimm hundrud saudi,
Sex oc tuttugu södladýr, svo er háttad audi.

Þórdr lögmadr lèt dóm gánga at Byaskerium um utansveitarmenn, XXIIan dag Aprilis; var oc dæmt á alþíngi um nefndarmanna kaup; enn sumstadar segir at Byaskeriadómr væri dæmdr ári seinna, 1584
oc þá um kaupskap útlendskra med VI mönnum á alþíngi, oc um aflausn sakamanna, af Gudbrandi biskupi oc Jóni lögmanni at Bólstadahlíd; at Sandatorfu í Borgarfyrdi gèck dómr á leidarþíngi, um nautarekstr í Skorradalskóg, því Vígfús Jónsson á Kalastödum ákærdi, at þar vid lidi skada jardir hans tvær, Vatnshorn oc Kálfastadir; var Þórdr lögmadr fyrir dóminum, því hann hafdi iafnann Borgarfiardarsyslu. Þá kom út biblia Gudbrands biskups prentud at öllu; á þeim missirum var landskiálfti mikill; önnr missiri 1585
kom út konúngsbrèf um hórdóma oc slíkar sakir, oc annad gefit út á Fridriksborg hinn XXXta Aprilis mánadar, er Gudbrandr biskup hafdi útvegad, at mönnum mætti leifast í landi hèr, sem annarstadar í ríkium konúngs, at giptast samann í þridia oc fiórda lid, því veldamenn sumir vildu at enginn giptist fyrir innan fiórmenníng; þá hefir Markús Olafsson tekit lögsögn í Skagafiardarsyslu, eda jafnvel hid fyrra árit, því um vetrinn lét hann XII manná dóm gánga at Seilu, um ákæru Thomasar prests Þorsteinssonas til Stíga Þorkelssonar, voru þar Gunnar Gíslason, Gottskálk Magnússon, Jón bródir Markúsar, Biarni Sturluson lögrettumenn, Isleifr Þorbergsson á Hofi, Arni Biarnarson Jónssonar biskups, Oddr Thomasson, Ari Gudmundarson Einarssonar, oc enn fleiri; annann dóm lèt hann gánga í Vidvík um fátæka menn, þar eru fyrstir dómsmenn Olafr Thómasson á Hafgrímstödum, Gottskálk Magnússon á Reykium, oc Gudmundr í Gröf Hallgrímsson Sveinbiarnarsonar födrbródir Gudbrands biskups. Arni Gíslason á Hlíd-

arenda lèt dæma um hysingar á hiáleigum oc tvíbylum, at Hollti undir Eyafiöllum; enn á alþíngi giördu lögmenn Þórdr oc Jón samþyckt, vár oc dæmt um skipti-tyund oc skattgiald. Gísli biskup sendi sonu sína í Austfiördu med umbod sitt at visitera, Stephán prest oc Arna prest, oc lètu þeir, med Byrni syni Gunnars Gíslasonar, er þá hafdi syslu á öllum Austfiördum, XII manna helmíngadóm gánga, um fátæka presta eginqvænta, er falla frá, oc ei eigu fyri kyrkiufè oc konumála, hvert heldr skyldi missa kyrkiann eda konann; dæmdu þeir konunni heimanfylgiu tilgiaflarlausa, enn kyrkian hefdi afgáng, enn eigi sídánn adgáng at þeim er hyggia eiga um fè hennar. Biörn Gunnarsson bió þá at Asbrandstödum í Vopnafyrdi, oc er sagt hann hafi tyundad C hundrud lausafiár.

## LXV Cap. Frá Gudbrandi biskupi, missir hans, oc tilburdum.

Halldóra Arnadóttir kona Gudbrands biskups var merkileg at öllu, fríd sínum, oc at því at kostum, hún var þennann tíma ei einsamann; bar þá til um haustit, mánadags qveld fyrir Michaelsmessu, at hún fèck þrengsl í qverkarnar, enn lá á midvikudaginn, oc hafdi eckert mál, oc ritadi med krít þat er hún vildi vera láta; sídann ól hún barn á fimtudags qveldit, þat hèt Sigrídr, eptir Sigrídi Einarsdóttr á Munkaþverá konu Nicolásar bonda Þorsteinssonar; Halldóra hafdi mál ímillum hrídanna, enn sem barnit var fædt, dróg af henni, oc andadist um morguninn, stód líkit uppi í þríár nætr, oc á hinni sídurstu andadist barnit, svo þær fóru í eina gröf bádar. Halldóru skorti II vetr á fertugann, enn Gudbrandr biskup var V vetrum eldri; hvarf hönum þá heilsann þadann af alla stund medann hann lifdi, enn ydni hans oc ástundan þreyttist ei at heldr. Þat bar til einhveriu sinni um vetrinn,
1586 at Gudbrandr biskup gèck í kyrkiu at giöra bæn sína, sem hann var vanr qveld oc morgna, þá fann hann á bak vid altarit, enn innan múrinn, at Vígfús uppvaxtar-sveinn er í skóla hafdi verit, son Jóns prests Gudmundarsonar prinna á Síglunesi, hafdi hengt sig yfir um þverbita í snæri, oc hugdi biskup hann ei med öllu örendann, oc lèt dreipa á hann, enn þat dugdi ei; menn

sögdu hann hefdi verit ónæmr í skóla oc skilníngslítill, oc hefdi fyrir því bundit félag vid Satan, oc voru þar um sagnir all-hègómlegar. Þá vard víg undir Jökli; Arnór Arnason oc Gudmundr Sturluson vogu Ingimund Jónsson; þat kom til Alþíngis í XII manna dóm, oc vildi Gudmundr ei vidkannast um atvist, enn Arnór medkendist at hafa veitt Ingimundi ákomr nockrar, oc var hann dæmdr útlægr til konúngsnádar, oc flytiandi med rádi lögmanns oc syslumanns; enn ef hann yrdi flendr, skyldi hann svara fullum bótum erfíngium hins vegna, nema Gudmundr fèlli á eydi, þá skyldi hverr þeirra svara hálfum. Þá dæmdi oc Þórdr lögmadr Gudmundarson um Jón letíngia at Dyrastödum í Nordrárdal. Jón lögmadr seldi Benedict bónda Halldórssyni Audbrecku, fyrir sex hundrud dala verd. Þá fór sótt yfir land; kom eldr í Þíngvallaskóg oc brann mikit af; hann qviknadi um fardaga, enn lifdi framm yfir þíng. Biörn son Benedicts ríka á Mödruvöllum, fèck þá Elínar dóttr Páls á Stadarhóli, hönum töldust IIII hundrud hundrada í föstu, Mödruvellir í Eyafyrdi fyrir annad, enn Reykhólar fyrir annad; jafnmikit fèck Petr Pálsson í módrarf sinn, oc kyrkiueign í föstu LX hundrud, enn aflafè Páls var eitt hundrud hundrada LII hundrud. Þat sumar kom Oddr út, son Einars prests Sigurdarsonar, oc giördist skólameistari at Hólum, því Biarni Gamlason, er skólameistari var fyrri, var þá ordinn prestr. Fyrir nockrum vetrum var út kominn Jón son Gudmundar Þórdarsonar á Hvoli, hann hafdi verit í Brimum oc Kaupmannahöfn, oc framast vel, oc hafdi frammhaldsbrèf af Páli biskupi Matthiassyni á Siálandi, oc konúngsbrèf fyrir Hytardal, þá Loptr prestr Narfason fèlli frá; enn Loptr prestr var þá enn í fullum burdum, oc hèldt Jón til med Gísla biskupi í Skálhollti; biskup hafdi skipat fyrir skólameistara, þá er Sigurdr Jónsson skildi vid, Gísla nockru; enn er hann giördist prestr í Hvammi, tveim vetrum ádr enn hèr var komit, giördist Jón skólameistari í Skálhollti oc hafdi þar vid alla stundan, oc svo var nú er Oddr var ordinn skólameistari á Hólum, enn Sigurdr Jónsson hafdi farit nordr oc bjó búi sínu. Gísli prestr í Hvammi sá er vid skóla var fyrir Jón, var Gudbrandsson bródrson Biarna á Fellsenda, oc atgervimadr mikill. Gudbrandr biskup vildi afnema þann sid, er lengi hafdi verit í páfadómi, oc svo sídann, at kyrkiur voru frelsisstadir fyrir óbótamenn; útvegadi

1587 hann uppá þat bréf Fridriks konúngs, at slíkt var aftekit; þá voru oc sendir hjónabands-articular til Islands, er eptir skyldi dæma, oc leifi til Gudbrands biskups at láta prenta sálmasafn; gètit er þess, at þá hafi enn svo stadit vinátta Gudbrands biskup oc Jóns lögmanns, at ei hafi stórum áskyad. Johan Bucholt veitti þeim manni Skriduklaustr er Jón hèt, Einarsson frá Espihóli Brynjólfssonar, oc er þess seinast gètit um höfudsmanns embætti hans at því sinni; lagdi hann þat af, oc skipadi konúngr Pètr Thómasson í hans stad hinn XXXta Maii, var Bucholt bodit at afnenda hönum höfudsmanns inventarium í vidrvist lögmanna beggia, oc Islendíngum at halda hann fyrir rèttann höfudsmann. Manntaper urdu á skírdag af tveimr áttæríngum, oc dóu XX menn, voru sumir í skipunum, enn fiórir komust upp, ráfadi einn þeirra á brottu, svo hann fannst ei aptr.

## LXVI Cap. Skipti eptir Arna.

Nú andadist Arni Gíslason at Hlídarenda, oc fóru framm skipti eptir hann, hinn IVda dag Julii, á X hundrudum hundrada LIII hundrudum, milli Gudrúnar Sæmundardóttr oc barna hennar; fèck Hákon Arnason Reini I hundrud hundrada, oc Völl oc Arngeirstadi LXXX hundrud; Sæmundr Hól í Bolúngarvík LX hundrud, Meirihlíd XXIV hundrud, Minnihlíd VIII hundrud, Túngu XII h. Myrardal XII hundrud, Os XXIV hundrud, Meiribacka XII hundrud, Hanahól XII hundrud, Meirahraun VIII hundrud, Grundarhól VIII hundrud, Kèldu V hundrud, Minnahraun III hundrud, Gil XII hundrud. Gísli fèck Hlídarenda oc Þverá XC hundrud, Gálmatjörn oc Kyrkiuhöfn L hundrud, Vindás XX hundrud, Stad í Adalvík XXIV hundrud, Þverdal XVI hundrud, Berustadi X hundrud. Jón bóndi Biarnarson hafdi fengit ádr vegna Gudrúnar konu sinnar, Steiná XXXVI hundrud, Hlíd undir fiöllum XX hundrud, Gard XII hundrud, Skálardal VI hundrud, Steig VI hundrud, í Adalvík XX hundrud. Anna Arnadóttir var þá enn ógèfinn, hún fèck Reykiarfiörd XXX hundrud, Arngerdareyri XXIV hundrud, Furufiörd XII hundrud, Hallstadi VIII hundrud, Eyri VIII hundrud, Biarnastadi XII hundrud, Kroppstadi VI hundrud. Arni prestr Gíslason biskups hafdi ádr fengit vegna konu sinnar,

í Asi LX hundrud; enn nú Midbæli XXX hundrud, í Ey VII hundrud, Sæból XII hundrud. Ejólfr hafdi fengit í jördum LX hundrud, enn nú fèck hann XXXV hundrud í Rángárfelli, oc X hundrud í Þyckvabæ. Arni Magnússon á Grítubacka hafdi ádr fengit LXV hundrud, enn nú fèck hann í Ey XL hundrud. Ei er gètit um arf barna Gudbrands biskups, nema þat sè meint til hans er brefit segir, at einn erfingi hafi fengit LX hundrud, oc var bætt vid Gellti XIII hundrudrum, minni Backa VIII hundrudrum, Breidabóli XXIV hundrudum, oc Keblavík VIII hundrudum; enn hvad dyrra hverr dóttrmadr hafdi enn C hundrud, skyldi leggiast ofann á gædi jardanna, oc svo fyrir sonunum, hvert sem er lakara eda frekara. Er hèr oc vant enn fleiri erfíngia, því at brèfit fæst ei fullkomit er giört var.

## LXVII Cap. Frá Helga Ulfhèdinssyni.

Helgi hèt madr oc var Ulfhèdinsson, hann bjó í Grindavík, hann var mágr Biarnar Sturlusonar, Biörn var vel vyrdr madr oc skáld gott; Helgi átti nockud vid þann mann er Ingimundr Hákonarson hèt, oc um haustit er Helgi var í kyrkiu oc Jón prestr at Stad í Grindavík med hönum, kom Ingimundr oc manadi hann út at sèr; Helgi þoldi þat ei, oc hliób út, oc hafdi ecki í höndum, enn prestr vildi halda hönum, oc fèck ei atgiört, því Helgi var bædi mikill oc sterkr; Ingimundr hafdi sett kordakníf sinn fyrir utann kyrkiugardinn, enn Biörn Sturluson var hlaupinn inn í bæ; enn er Helgi kom út, hjó Ingimundr til hans í höfudit, oc vard mikill áverki; annad högg hjó hann á höndina, þridia á handlegginn; þá fèck Helgi tekit hönd hans, oc kèndi svo miög aflsmunar, at hann fèck af hönum knífinn, oc hjó hann eitt högg í höfudit, svo hann fèll á knè; kom þá Biörn at, oc sögdu menn hann mundi hafa bætt á; Ingimundr lifdi tvær nætr eda þriár, enn Helgi vard aldrei örkumslalaus; hann lysti á sig vígi. Biörn fór utann fyrir þat mál. Helgi átti Margretu Kètilsdóttr, hennar módir var Valdys systir Gísla biskups; þeirra synir voru Jacob á Þorkötlustödum, oc Þorsteinn, Jón oc Kètill fadir Helga í Grindavík. Anna Helgadóttir átti Biörn Sturluson, enn Gunnhildr var módir Hèdins á Ofridarstödum.

## LXVIII Cap. Fráfall Gísla biskups oc afqvæmi.

Gísli biskup hafdi veitt Gunnari presti Þorgeirssyne Arnes í Trèkyllisvík, fyrir bæn Ara Magnússonar; hann giördi hönum skarpa ámynníngu í brèfinu, at stunda alvarlega prests embætti sitt, oc fara varliga vid fátækann oc einfaldann almúga, leida hann til sáluhiálpligrar kynníngar med hógværd, enn ei strídlyndi oc hardindum. Þetta haust var Gísli biskup á visitatiu sinni um sudrnes; hann var þá lasinn miög af elli, enn þó ósjúkr, oc hafdi dagleidir sem hann hafdi ætlad. Enn er hann kom at Gördum á Alptanesi til Jóns prests Krákssonar, var hann heill oc ósjúkr at vana um qveldit, oc þá heim á leid aptr til Skálhollts, lèt hann í kyrkiunni halda qveldsaung sem vant var, oc lesa fyrir sèr fyrsta Johannis pistil; enn er lokit var bæn, gèck hann til borda, oc sat lengi um qveldit, med gódu tali oc kristilegu, sem venia hans var til yfir bordum, gèck sídann til sængr. A Midvikudagsmorgunninn, er var hinn XXXti dagr Augusti, vakti hann upp alla fylgdarmenn sína, oc baud þeim at klædast, oc er hann var klæddr siálfr, las hann fyrst cathechismum, sídann heilags andabænir, þá krosstídir, þá einn octonarium af Davids saltara, sem hann var vanr, þareptir capitula af Salomons lofqvædi, oc sídast eina bæn Johannis Avenarii. Því nærst lèt hann prest sinn Asmund Þormódsson rita tvö brèf, annad Pètri Thomassyni umbodsmanni á Bessastödum, enn annad Gudbrandi biskupi; þar eptir var gèngit til kyrkiu, oc lèt hann lesa Páls pistil til Titum, oc síngia eptir veniulegt: beidrum gud födr himnum á. Þar var kominn sakamadr einn frá Bessastödum er Gudlaugr hèt, oc leitadi náda til biskups, oc er hann vissi eyrindi hans, veitti hann hönum vidtal, oc las qvittunarbrèf hans; giördi hönum áminníngu kristilega med allri hógværd til alvarlegrar ydrunar, med svo náqvæmum ordum, at hönum oc ödrum mönnum voru vel mynnis-stæd; enn sem hann lengdi rædunа, sló at hönum kulda, er hann var med öllu fastandi, svo gamall madr; hönum var þá fylgt inní stofuna, er hann hafdi talad út, þángat sem hann hafdi setit qvöldinu fyrri, oc er hann skyldi taka til matar, vard hann miög siúkr vid bordit, var hönum þá borit varmt vín, oc drack hann þat, enn sídann seig at hönum ómeigi; oc er hann raknadi vid aptr, var hönum fylgt til sængr med studníngi, lá hann svo um qvöldit í sænginni

í klædum sínum öllum, enn menn hans stódu hiá, oc heyrdu giörla at hann var at ákalla gud med inniligri bæn. Þá stund lítil var lidinn, leit hann upp til manna sinna, oc mælti: pilltar mínir! sem nú standid hèr hiá mèr, farid þèr heim í Skálhollt, oc segid kæra qvediu mína konu minni oc börnum mínum, oc öllum kunníngium, oc segid þeim öllum góda nótt frá mèr, bidjid fyrir mèr til guds oc fyrirgèfid mèr; enn sídast mælti hann: fadir í þínar hendr fel eg minn anda, oc andadist þareptir; þat var hinn XXXta dag Augusti mánadar, er hann hafdi biskup verit XXX vetr, enn einum vetri betr sídann hann var kosinn; hann skorti oc einn vetr á hálf-áttrædann, oc var borinn á því ári sem Þorvardr lögmadr Erlendsson dó, fimm vetrum fyrir fráfall Stephåns biskups; voru þar vidstaddir Jón prestr Kráksson, Teitr prestr Helgason, Hákon Asgeirsson frá Lundi, Asmundr prestr Þormódsson frá Brædratúngu, Þórarinn Stephánsson oc Þorleikr Jónsson; var lík hans flutt eptir II nætr fyrstu dagleid til Sudr-Reykia, adra á Þíngvöll, þridiu í Skálhollt, med miklu fiölmenni vina hans oc náunga, oc þar jardad innan kyrkiu fyrir framan predikunarstólinn, enn adrir segia fyrir framann nordr stúkudyr. Margt fólk er komit frá Gísla biskupi oc Kristínu Eyólfsdóttr; Stephán prestr Gíslason hèldt Odda, oc átti Þorgèrdi dóttr Odds prests frá Gaulveriabæ, Halldórssonar frá Túngufelli; þeirra börn voru Sigurdr skólameistari, oc Oddr prestr í Gaulveriabæ fadir Sigurdar prests í Arnarbæli oc Vígfúsar prests í Gaulveriabæ, oc Snæbiörn prestr í Odda, fadir Markúsar syslumanns í Vestmannaeyum, oc Ragnheidar er Hákon átti, son Biarna Hákonarsonar. Kristín Stephánsdóttir var gipt Olafi presti Einarssyni at Kyrkiubæ, þeirra son var Stephán prestr í Vallanesi. Helga Stephánsdóttir átti Eyrík Jónsson, oc miög margt afqvæmi á Rángárvöllum. Þurídr Stephánsdóttir átti Þorleif í Myrdal. Jónar tveir voru Stephánssynir, annar var prestr oc hèldt Kálfhollt, oc átti margt barna. Salvör Stephánsdóttir átti Jón skólameistara, son Einars Eyríkssonar á Hvanneyri, enn sídann Erlendr Asmundarson í Hvoli, þeirra dóttir Katrín módir Jóns biskups Vígfússonar, oc er margt manna komit frá Salvöru. Arni son Gísla biskups var prestr at Hollti undir Eyafiöllum, oc átti Hólmfrídi dóttr Arna Gíslasonar; hún ól XXIV börn, komust þessi á fót: Gíslar tveir, annar var prestr, oc fèck Margrètar dóttr Sigurdar prests Einarssonar á Breidabólstad, hann

var fadir Jóns á Velli í Hvolhrepp oc Gísla tveggia. Olafr hèt hinn þridji Arnason, hann átti Solveigu dóttr Einars Grímssonar í Teigi; þeirra son var Jón prestr. Þorleifr, Eyríkr oc Páll voru enn Arnasynir; Gudrídr Arnadóttir átti Orm í Eyum son Vígfúsar á Kalastödum Jónssonar; frá þeim er miög margt afqvæmi. Gudrídr önnr átti Þorsteinn bónda í Þyckvabæ austr, syslumann eystra, Magnússon frá Stóradal, Arnasonar Pètrssonar Loptssonar, bródr Biarnar á Laxamyri, oc afqvæmi margt. Cecilia Arnadóttir átti Illhuga Vígfússon bródr Orms, hún var svarkr mikill, enn hann gæfr í skapi; þeirra börn voru Vígfús prestr á Setbergi, fadir Illhuga prests, Einar prestr á Reinivöllum fadir Einars prests í Gördum oc Snæbiarnar prests at Reinivöllum, annar Einar oc Þórarinn, Jón oc Nicolás, Þórdr, Jórun er átti Gudmund prest á Þæfusteini, Gudrídr, Ingibiörg; miög er margt manna komit frá Ceciliu oc Illhuga. Kristín Arnadóttir átti Magnús son Eyríks Ejólfssonar frá Kyrkiubæ, oc afqvæmi. Helga dóttir Gísla biskups átti Erasmus prest Villadtston at Odda oc Breidabólstad; þeirra son var Páll prestr í Hólum fadir Erasmusar prests oc Gudlaugar er átti Kètill prestr Jörundarson fadir Páls prests. Gísli hèt annar Erasmusson er einnin er ætt frá. Marin Erasmusdóttir átti Snorra prest Asgeirsson frá Lundi, födr Sigurdar prests á Hrafnseyri, oc Erasmusar prests, oc Helgu er Einar prestr Sigurdarson átti prófastr í Stranda syslu, oc er margt manna frá þeim komit. Þórdys Erasmusdóttir átti Þorleif Asmundarson oc börn. Gudrídr Erasmusdóttir átti Biörn son Gudmundar Ejólfssonar á Flagvelltu; launsonr Biarnar var Adam, oc arfleiddi Biörn hann. Gudlaug Erasmusdóttir átti ecki barn. Kristín átti Pál son Sigmundar Þorólfssonar. Helga Erasmusdóttir átti Ögmund bródr Páls. Margrèt átti Arna Ejólfsson frá Saurbæ. Gudrún dóttir Gísla biskups var gipt Gísla Sveinssyni í Midfelli, oc var þadan fiölmenn ætt. Vilborg dóttir Gísla biskups átti Þorvard á Sudr-Reykium Þórólfsson, bródrson Sigmundar biskups; þeirra börn voru Erlendr, oc Magnús er margt manna er frákomit, oc Gísli sem hvarf, oc Kristín er átti Jón í Galltalæk, son Vígfúsar bónda Þorsteinssonar, hún krenktist, oc átti ei börn, Þórdr. Margt stórmenni er komit frá Gísla biskupi. Þórdys kona Gísla biskups fór til Odda eptir andlát hans, oc var þar med dóttr sinni oc dóttrmanni medann hún lífdi, hún vard gömul, oc svo elli-óra at hún mundi ecki þat hús

hefdi komit í Skálhollt. Var þá Erasmus prestr Villadtsson skipadr Officialis, oc hönum afhendr stadrinn af Stepháni presti oc Árna presti, sonum Gísla biskups, var hann lengstum í Skálhollti.

## LXIX Cap. Konúngaskipti; Oddr vard biskup.

Um vetrinn útgaf Fridrikr konúngr brèf um húsgángsmenn; hann 1588
andadist hinn IVda dag Aprilis, á Antvorskógs sloti á Sælandi, oc var Kristián sonr hans úngr, er kalladr hefir verit hinn IVdi, voru þá skipadir fiórir forustumenn yfir ríkit, oc var Kristophor Valkendorf einn af þeim, er verit hafdi höfudsmadr út hèr; hann leifdi mönnum at giptast hèr í þridia oc fiórda lid. Þá voru dæmdir margir dómar. Jón lögmadr lèt XII manna dóm gánga um Jón Jónsson, er legit hafdi med konu húsbónda síns Gísla Höskuldssonar, dæmdust Gisla XX hundrud, eda Jón fari útlægr, voru dómsmenn fyrstir Jón bóndi Biarnarson, oc Einar Þórarinsson; annann XII manna dóm lètu þeir Gudbrandr biskup oc Jón lögmadr gánga um framfæri uppgèfinna presta, þat var helmíngadómr. Vermenn dóu XIII á Tvídægra, enn margir fengu örkumsl Klerkar urdu ei á eitt sáttir hverr biskup skyldi vera í Skálhollti, vildu sumir hafa Erasmus prest Villadtsson, enn adrir Jón Gudmundarson skólameistara, grunadi þó suma um hinn fyrra, er hann var danskr, at biskupsdómr mundi þadann af komast undir útlenda menn oc ókunna, enn þat hafdi ecki vel reynst; enn um hinn sídara var þat mælt, at hann mundi hneigiast í sumum greinum eptir lærdómi Calvinista er hann hafdi umgengist utanlands, þóttu þó bádir at öllu ödru vel til fallnir; var þá ritad Pètri Thomassyni höfudsmanni, oc sókt rád hans, enn hann ritadi Gudbrandi biskupi, oc bad hann koma til alþíngis til gódra ráda oc tillaga, um biskups kosníngu; hann þóttist vant vidkominn, oc kom ecki, enn ritadi höfudsmanninum meiníngu sína, oc svo prestunum í ödru brèfi, þó nockud óliósara, oc sendi Odd skólameistara Einarsson, med brèfinn til þings, var hann öllum mönnum ókendr þar sydra, enn mátti þó ráda at Gudbrandr biskup dró framm hans taum þótt hann nefndi engann; gat þess í brèfinu at óhagr mætti at verda, ef biskupar yrdi útlendir, oc svo hinu, ef fylgdu meiníngum Calvinista, enn qvad miklu mest á

rida at så væri lærdr er til væri kosinn, oc meira enn á audi, eda ætterni, edr hvers fiórdúngs madr væri, lètst hafa völ á þeim manni er lærdastr væri allra Islendskra manna, er þá væri uppi; var brèfit giört laugardaginn fyrir Jónsmessu-Baptistæ; hann ritadi einum hinum hellstu prófóstum oc prestum sunnanlands um hid sama, var einn Bödvar prestr í Reykiahollti son Jóns prests Einarssonar, hann var þá sudr kominn fyrir VI vetrum, því Jón prestr hans tók at veikiast af elli, þeir fedgar voru prófastar bádir; vorü þær tillögr teknar svo gyldar, at Sunnlendíngar kusu Odd Einarsson fyrir biskup sinn, oc fór hann utann eptir vígslu um sumarit, oc hóf svo upp ætt sína, sem Einar prestr fadir hans segir í æfiqvædi sínu:

Um ætt Finnboga
einn karl spádi
at frábæra mundi
fátækt lida,
þá eyk sú hin gamla
Einars felli
enn í fiórda lid
öll vid rèttast.
Einar Sigurdsson
sannar þetta,
sá var dóttrson
fróms Finnboga
úr berri fátækt
best vid rèttr
af sannri guds mildi,
sem hèr vottar.
Fedgin þessi tvö
Finnboga ættar
eptir fornri spá
fátækt lidu,
enn Oddr fyrstr
í fiórda lid kominn,
af guds rádi
ætt þá vidrètti.

Þá var grasvöxtr lítill, svo dóu XL kyr í Eystrahrepp; enn um haustit, annan dag Septembris mánadar, var Lauritz Kruse Thygason af Svenstrup edalmadr danskr, oc í vináttu fyrrum vid Fridrik kónúng, oc hafdi verit höfudsmadr í Vardhúsum, skipadr höfudsmadr híngad í land, oc gófnar eptir allar tekiur af Islandi fyrir þriár þúsundir oc CC dali, med þeim skilmála at hann lèti fátæka presta hafa þat er þeim bæri, oc svaradi sakeyri öllum, enn nyti þridiúngs af hönum til launa, gætti lærdóms oc lifnadar klerka, oc hefdi engann kaupskap, tæki samann greinilega jardabók yfir jardir allar, oc dæmdi menn at landslögum. Þá druknadi Hiallti prestr á Fagranesi á Reykiaströnd, son Olafs biskups, med fiórum mönnum, á Þorláksdag fyrir Jól.

## LXX Cap. Frá biskupum.

Oddr Einarsson var vígdr til biskups af Doctor Páli Matthiassyni 1589
Siálands biskupi, á Mariumessu á lángaföstu, oc bió sig sídann til Islandsfarar. Þá dæmdi Nicolás Biarnarson hinn IVdá dag Aprilis um leigulida ábúd á jördu; enn Magnús Jónsson konúngs umbodsmadr í Bardastrandar syslu hinn XXta Maii mánadar um löggiöf. Þá lèt Gudbrandr biskup prenta sálmabókina, oc *Summaria Bibliorum*, er hann hafdi lagt út. Um sumarit undir Alþíng, kom út hyrdstiórinn í Seilunni, oc Oddr biskup med hönum; fóru þeir uppá þíng; þar var giör samþyckt um aflausn stórglæpamanna, af biskupi oc prestum; komu þá oc út konúngsbrèf nockr; eitt var um Sigurd Jónsson er skólameistari hafdi verit at höfudsmadrinn skyldi siá hönum fyrir braudi nockru, enn Sigurdr vard líkþrár, oc dó á jördu sinni Hóli í Kinn. Arngrímr Jónsson Jónssonar Hallvardssonar, frændi Gudbrands biskups, hinn lærdasti madr, tók þá vid Hólaskóla. Jón Sigmundarson var födrmódrfadir hans, enn módir hans var Ingibiörg dóttir Lopts prests Þorkelssonar, systir Skapta prests; deilr voru þá med Gudbrandi biskupi oc þeim Stóradals (Hèradsdals) brædrum Markúsi Olafssyni oc Jóni, oc svo deila þeirra Jóns lögmanns um Bard. Hyrdstiórinn ætladi nordr af þíngi, oc vitum vèr ei hvad af því vard, enn Oddr biskup fór til Skálhollts, oc tók vid stadnum oc hans inventario, af Erasmusi presti Villadtssyni officiali, afhendi hann med þeim hætti hann tók vid, öll leigu-kúgildi afnámslaus, eptir tölu enn eigi vyrdíngu; Gèldnaut stadarins fiögra vetra eda eldri voru reiknud fyri gömul, oc saudir tvævetrir oc eldri fyrir gamla; eckert var vyrdt nema stadar skipinn eptir fornri venju, oc var því registri fylgt sídann. Stephán Gunnarsson var þá rádsmadr, oc svo alla stund medan Oddr biskup sat at stólnum; reid þá Oddr biskup þvínærst nordr til Hóla, oc hitti Gudbrand biskup, hann tók hönum forkunnar vel, oc hèldt hönum veitslu ágæta, bundu þeir þá at nyu trygd oc vináttu med sèr, oc hèldst þat medann þeir lifdu bádir. Þar var kominn til Hóla Einar prestr Sigurdarsson fadir Odds biskups, oc ridu þeir bádir nordr at Nesi í Adalreikiadal; baud biskup hönum til sín, oc svo Sigurdi presti albródr sínum, hann hafdi fengit þeirrar konu er Ingun hèt,

dóttir Jóns Ormssonar á Einarsstödum, oc áttu eitt barn. Þadann hóf Oddr biskup visitatiuför sína hina fyrstu um Austfiördu, oc samdi tvo dóma, at Vallanesi hinn XIIta dag Augusti mánadar, annar var um skyldr presta, af hálfkyrkium oc bænhúsum, er þá voru at því er dómsmenn köllndu, vída nidrfallnar, af vild alþídu oc vanrækt yfirmanna; dæmdist prestum uppheldi af öllum bænhúsa kúgildum, vikuvist af kúgildi hveriu, oc þarmed kaupgiald af bænhúsum oc hálfkyrkium eptir máldögum; enn þar sem kúgildinn væri fallinn, skyldi þau aptr leggiast af kyrkiubændum edr erfingium þeirra, enn þriár álnir skyldi prestr hafa fyrir hveria messu þar enginn kúgildi væri. Annar dómr var um Beneficia, dæmdist at biskup mætti taka stadi af þeim prestum, er hverki ætti fyrir innstædunni nè gæti sett borgun, oc fá þeim annad uppheldi; oc at þar sem vant væri kyrkiupenínga, skyldu erfíngiar gialda, enn ef þeir hefdi ecki, þá sá sem athuga átti, oc þat vanrækti. Þat sumar var oc dæmt á Leidvelli, um þá sem gánga leifislaust af skipum; oc Magnús bóndi Jónsson dæmdi at Torflaukshaugum í Túngu um tvítugt barn ættfært, hinn IXda dag Octobris mánadar. Einar prestr kom þá at nordann, er Oddr biskup var heimkominn, hann fór Vatnahialla, oc Oluf Þórarinsdóttir kona hans, oc öll börn þeirra, Sigurdr prestr oc Ingun oc þeirra barn, oc bródir Ingunnar, þau voru öll XVI samann, oc sátu í Skalhollti um vetrinn, enn sum lengr, medann biskup fèck ei rádstafad þeim á annann hátt. Þann vetr brunnu hei öll í
1590 Skálhollti LXXX kúafódr; á þeim missirum gèck bóla, oc þá andadist Markús bóndi Olafsson í Hèradsdal, syslumadr í Skagafyrdi, hann hafdi þá nídæmda jörd undir Hóla kyrkiu er Olafr biskup hafdi selt, í helmíngadómi med Gudbrandi biskupi at Vidvík; hann hafdi VI vetr um fertugann, oc hèldt VI ár syslunna; kona hans var Ragnheidr dóttir Biarnar prests Jónssonar biskups, þeirra börn voru Rannveig sem gipt var Egli syni Jóns Egilssonar á Skardi, Sigurdr í Hèradsdal, Margret er Snæbiörn prestr átti Stephánsson Gíslasonar biskups, oc Olafr fadir Markúsar á Breyd. Þá lèt Gudbrandr biskup oc Jón lögmadr helmíngadóm gánga at Ökrum, um hiónaband Helga Einarssonar oc Agnesar Olafsdóttr, enn sumir segia væri þrem vetrum sídar, voru prestar í dómi Arngrímr Jónsson hinn lærdi, Biarni Gamlason oc Jón Arngrímsson, enn lögrèttumenn Jón oc Grímr Jónssynir frá Ökrum Gríms-

sonar, oc Jón Þórdarson; var þá þó eigi gott med biskupi oc lögmanni. Gètit er peninga sem Magnús Biarnarson galdt Grundarkyrkiu í umbodi Þórunnar födrsystr sinnar, fyrir XXIX ára portion, oc at Biörn Gíslason hafi þá enn prófastr verit, oc vyrdt þá at bodi Gudbrands biskups; einnin eru nefndir vid giörnínga Jón bóndi Biarnarson í Flatey oc synir hans vestra, Hannes Biarnarson í Snóksdal, oc enn fleiri menn. Konúngsbrèf nockr voru útgèfinn um ímsa þíngaháttu, oc Bardsmál voru þá uppi.

## LXXI Cap. Mál Gudbrands biskups.

Rafn lögmadr Brandsson er deildi vid Ólaf biskup Rögnvaldsson hafdi átt Bard, enn biskup tók þat af erfíngium hans, oc giördi at eign Hólakyrkiu, fengu sídann leikmenn eigi vald yfir því, enn Jón lögmadr treysti afla sínum oc ríki, oc keypti af erfíngium tilkallit, eptir svo lángann tíma, hèt sá Pètr er hann fèck af; vildi þá ei Gudbrandr biskup sleppa því er kyrkiann hafdi svo lengi haldit, lèt svo vera medann vinátta þeirra Jóns lögmanns stód, enn ákærdi sídann er á henni grynnti, kom hann enga áleidis um þat medann. Jóhann Bucholt var höfudsmadr, enn Lauritz Kruse kom lögmanni til at láta stadinn; enn á Alþíngi þetta sumar kom málit í dóm, var þá enn gèngit ímilli af Lauritz Kruse hyrdstjóra, Þórdi lögmanni Gudmundarsyni, Benedict ríka Halldórssyni frá Mödruvöllum, oc Byrni syni hans, oc ödrum gódum mönnum; vard komit á sáttum, svo at sundrlyndi állt oc misklíd milli Jóns lögmanns oc biskups skyldi vera nidrslegit, daudt oc magtarlaust; tilskildi hverutveggi at hinn væri ödrum til gagns oc góda í sínu embætti, oc hèldi hverr trúlega vinsemd vid annann, leynt oc lióst; lagdi Jón lögmadr í vald höfudsmannsins jördina Bard undir kyrkiuna, med öllu því er henni fylgdi, oc hèt at endrbæta fall kyrkiunnar, er hún hefdi fengit medann hann hèldt stadinn, svo hún væri eigi midr enn þá hann tók vid; enn eigi vard sætt þessi lánggæd, sem enn mun heyrast. Á því þíngi kærdu þeir frændr Gudbrandr biskup oc Arngrímr prestr Jónsson uppá tvær jardir Hól oc Bessastadi í Sæmundarhlíd. Arngrímr var vel framadr at lærdómi utanlands oc innan; hafdi Jón

Sigmundarson átt þær jardir, enn Gottskálk biskup tekit þær af hönum, þá fyrir LXXXVI árum, höfdu þeir Markús oc Jón Olafssynir haldit þær. Kom málit undir dóm höfudsmansins Laurusar Krusa, enn mótmælendr biskups vildu enginn skjöl edr bréf leggia framm fyrir þeim jördum, oc vard eckert atgiört; Arngrímr prestr skaut þá máli beggia þeirra til konúngs, oc qvadst enga réttíngu á hafa fengit. Þar samdi höfudsmadrinn oc lögmenn bádir at gialda skyldi manntalsfiska, hverr útródrarmadr í Gullbríngu syslu er fengi XXX í hlut, tvo fiska hverr, enn sekr IIIIm mörkum ella. Lauk svo því þíngi, oc fór höfudsmadrinn utann, oc hafdi ádr hlut í Reykiavík undann Ormi Narfasyni med ójöfnudi, fór Ormr þadann grátandi. Þat ár lèt Gudbrandr biskup prenta stuttu bibliu, er Arngrímr prestr hafdi lagt út, oc bænabók Musculi, hana hafdi hann útlagt siálfr, oc enn harmaklögun fordæmdra.

## LXXII Cap. Frá Oddi biskupi.

Þetta sumar setti Oddr biskup Einar prest födr sinn á Hvamm í Nordrárdal, því eckert audgara beneficium var þá laust; Salomon prestr Gudmundarson er þann stad hafdi haldit um XXX ár, vard naudugr upp at standa fyrir hönum, oc var hönum fengit Húsafell, fór hann grátandi þángat, oc er ei þess gètit at, hönum væri til saka fundit, enn Einar prestr var eitt ár í Hvammi. Oddr biskup tók þá þegar til at umbæta lærdóm oc lífnad líttlærdra presta, oc sidferdi í embætti þeirra, oc setti þeim fyrir þarflegar reglr; hèldt hann prestastefnu í Skálhollti, oc lagdi þar fyrst fyrir um barna skyrn, at hún skyldi fremiast einfaldlega eptir handbók Luthers, einasta í kyrkiunni, oc skyldi allt heimilisfólk vidstadt vera til uppfrædíngar sèr; prestar skyldu oc meiga skyra börn sín siálfir, oc veita konum sínum aflausn oc sacrament; heima skyldu oc skynsamir menn oc yfirsetu-konr meiga börn skyra, oc fylgia til prests til yfirheyrslu, enn ecki fáfród úngmenni, ambáttir edr órádvandir menn; til yfirsetuqvenna skyldu takast skynsamar konr, enn prestar kènna sem flestum konum skickanlegar bænir þartil þènanlegar. I annann máta um opinberar aflausnir, þá skyldi þeir sem brotlegir yrdu í þridia sinni í frillulífi, oc allir er stærra bróta, leysast, sökum kunnáttuleysis presta, á dómkyrk-

funni; enn um þá sem gèngu at eiga frillr sínar, setti hann í vald skynsömum prestum, hvert vildu afleysa þá fyrir brúdkaupit, edr áhræra brot þeirra af predikunarstól á brúdkaupsdegi þeirra, med kristiligri ámynníngu, þó svo at eigi sturladi samvitskr þeirra sem med ydran oc betran vildu byria hiónaband sitt. Þridia lági at allir stórbrotamenn skyldu vera utann kyrkiu nema prestr leifdi, enn þar med hafa ámynníngu um eilífa útilokun hræsnara oc ydrunarleysíngia frá gudi oc allri gledivon. Þat fiórda at prestar sem sína próföstum sínum óhlídni í andlegum efnum, skyldu siálfsettir af embætti, til þess er þeir fyndi biskup til yfirbótar. I fimta máta um frillulífi presta; þar kom prestum ei siálfum samann, vildu sumir at fyrir fyrsta barngètnad skyldu prestar vera þiónustulausir í þriá sunnudaga, svo sem var í hinum forna sid, enn adrir hèldu tilheyrilegt at þat væri um III mánadi, fyrir annann barngètnad VI mánudi, fyrir þridia XII mánudi, sem var fyrir hórdóm fyrrum; þá skyldi oc prestr fyrir hórdóm bædi missa kalls oc embættis, nema yfirvaldit giöri meiri myskun á; enn höfudsmadrinn ályktadi at prestar skyldu missa hverstveggia fyrir fyrsta hórdóm, oc aldrei eiga von aptr kallsins, enn nádast mætti þeir til embættis aptr eptir III ár, oc samþycktu þat bædi biskupar oc lögmenn; enn Oddr biskup tók eigi miög hardt á slíku í þann tíma, því þá var borinn Bergliót laundóttir hans, hana gat hann vid vinnukonu í Skálhollti atqvædalausri, sú hèt Hallfridr Bergsteinsdóttir, oc köllud sídann biskups Frída; segia menn at módir Bergsteins hèti Agnes, oc væri hiágètinn dóttir Halldórs Skulasonar á Þyckvabæ; enn ádr hafdi biskup átt adra laundóttr er Kristín hèt; hann galdt sekt höfudsmanninum fyrir karl gamlann í Biskupstúngum, er Oddr hèt oc var Einarsson.

## LXXIII Cap. Frá biskupi, oc börnum Þórdar lögmanns.

Hyrdstiórinn hafdi enn ádr hann fór utann, fyrirbodid Oddi biskupi at hafa þat mark sem lengst hafdi verit á nautum oc saudum stadarins, enn þat var styft á bádum eyrum, kom þat svo lángt med þeim, at lagt var undir dóm Gísla, sonar Þórdar lögmanns, hann hafdi þá syslu í Arness þíngi, sló þá biskup undann oc lèt breyta af stadarmarkinu hinu forna, oc hafa sylt í stúf á bádum

eyrum. Gísli Þórdarson átti Ingibiörgu dóttr Arna Gíslasonar at Hlídarenda; þeirra börn voru Arni, Henrik, Steindór, Gudrídr, Astrídr, Páll, Gudrún, Sigurdr, Halldóra, Jórun; þau mönnudust flest vel, oc voru miög á legg kominn í þennan tíma. Gudmundr son Þórdar lögmanns átti Onnu dóttr Arna Gíslasonar, þeirra son er uppkomst var Arni, er átti Þorgèrdi Tyrfíngsdóttr Asgeirssonar, hann var fadir Hákonar á Vatnshorni. Ragnhildr dóttir Þórdar lögmanns átti Vígfús Jónsson á Kalastödum, þeirra synir voru Ormr í Eyum í Kjós oc Illhugi. Einar prestr son Þórdar lögmanns hèldt Mela, hann átti Gudrúnu dóttr Marteins biskups; enn er hèr var komit, gaf Loptr prestr Narfason frá sèr Hytardal, enn Jón Gudmundarson skólameistari vígdist þángad, oc gèck hann sídann at eiga Gudrídi dóttr Gísla Þórdarsonar; vard þá aptr skólameistari í Skálholti Jón son Einars Eyríkssonar á Hvanneyri, er, þá var mestr lagamadr. Þá er oc þess gètit, at Snæbiörn var prestr at Kyrkiubóli í Lángadal, son Torfa syslumanns, Jónssonar á Hiardardal Olafssonar, oc Þorkötlu Snæbiarnardóttr frá Kèldum, Halldórssonar frá Túngufelli, oc er þadann Kyrkiubóls ætt.

## LXXIV Cap. Qvonfáng Odds biskups, oc höfdíngiaskipti.

Næstu missiri hófst nautadaudi, hesta oc hunda um allt Island, oc svo refa, sögdu menn þat hlotist hefdi af enskum hundi er drepinn var vestra, oc hefir sá hègómi helst til lengi haldist med alþídu; at hyggia slíkt af fiölkíngi útlendra manna; voru oc mörg hindrvitni oc ósidir, oc vox heldr enn þvarr fiölkíngistrúinn, eptir þat er átrúnadr helgra dóma oc helgra manna mínkadi, jafnframt því er undir lok lidu þeir menn, er úngir höfdu inndruckit páfadóm. Þat sumar var haldit brúdkaup Odds biskups Einarssonar, oc Helgu dóttr Jóns bónda frá Holtastödum, Biarnarsonar Jónssonar biskups; tók Jón bóndi um þær mundir Skagafiardar syslu. Gudbrandr biskup var svaramadr Odds, oc þar vid staddr, oc Einar prestr fadir Odda biskups, oc margir hinir hellstu menn. Módir Helgu var Gudrún, dóttir Arna Gíslasonar at Hlídarenda; þessi voru börn þeirra Odds biskups, Arni, Gísli, Sigurdar tveir, Eyríkr, Margrèt. Þau missiri andadist Magnús bóndi Jónsson í Bæ á Raudasandi, syslumadr í Bardastrandar syslu. Þá giördist

Henrik Krag höfudsmadr at nyu, med hinum sömu skilmálum oc formadr hans, hann hafdi konúngsbrèf þat er kærdi miög þverúd Islendínga í at gialda kyrkium tyundir oc skyldir; hann giördi á Alþíngi um sumarit skipan um heilbrygda húsgángsmenn oc letíngia, oc hèt þeim hegníngu; var oc dæmt af lögmönnum Þórdi oc Jóni hinn 1ta dag Junii um ölmusumenn. Þá var oc dæmt um fátækra oc öreiga skuldir, oc ef annara peníngr deyr hjá þeim, af Eyólfi Halldórssyni, at Reidarvatni, hann hafdi þá syslu á Rángárvöllum. Vígfús bóndi Þorsteinsson lèt gánga tvo helmíngadóma med Þorsteini prófasti Illhugasyni, annann um kyrkiupenínga á Draflastödum, er Jón bóndi Ormsson skyldi svara; annan helmíngadóm lèt Þorsteinn prófastr oc Jón Illhugason gánga, eptir ákæru Gudbrands biskups, um jörd er Olafr biskup hafdi selda. Jón bóndi Biarnarson dæmdi hálft Osland undir Hólakyrkiu. Þrútnadi þá miög óvild med Gudbrandi biskupi oc Jóni lögmanni. Á Alþíngi var dæmt med XII mönnum um kaupskap Enskra í Vestmannaeyum; oc Magnúsi Biarnarsyni reki fyrir Hallbiarnarstödum eptir Grundar máldaga. Einar Asmundarson oc Malmfrídr Biarnadóttir frá Kètilstödum Erlendssonar, er ádr átti Jón Einarsson frá Espihóli, fengu Biarna syni sínum hálfan Espihól oc Merkigil, oc fleiri urdu giörníngar. Þau missiri lèt Gudbrandr biskup prenta lækníngu sálarinnar, oc summaria bibliorum af nyu. Þá kom út konúngsbrèf til Henriks Krags höfudsmanns, um at láta Arngrím prest fá lög oc rètt af erfíngium Góttskálks biskups.

## LXXV Cap. Afqvæmi Einars prests Sigurdarsonar.

Oddr biskup veitti þá Einari presti födr sínum Heydali í Breiddal, oc lagdi hönum inntekt oc leigr af Biarnaness umbodi, fór hann austr þángat um vetrnætr oc var prófastr í Mulasyslu, var hann þar æ sídann medann hann lífdi; hann var skáld oc meira hneygdr til qvedskapar enn búskapar, orkti hann optast eitthvad hvern dag, hellst andlegt, sem vísnabókinn vottar hinn prentada, hefir hann qvedit mestann hinn fyrri hlutinn; synir hans voru einnin skáld, Oddr biskup þó hann qvædi skialdann, oc Olafr prestr í Kyrkiubæ fadir Stephàns prests í Vallanesi. Einar prestr var heilsugódr madr oc styrkr; hann átti fyrri Margrètu Helga-

dóttr, þeirra börn voru Oddr biskup, oc Sigurdr prestr at Breidabólstad í Fliótshlíd, fadir Einars presta at Stad í Steingrímsfyrdi, er margt fólk er frákomit; Jóns prests at Breidabólstad; Elinar er átti Biörn son Páls Magnússonar í Teigi; Þórarins prests at Stad í Steingrímsfyrdi; Margrétar er átti Gísli prestr Arnason Gíslasonar biskups; oc Þórunnar er giptist Eyríki á Búlandi Sigvaldasyni, Halldórssonar, Skúlasonar; enn med Olufu dóttr Laga-Þórarins úr Húnavatnsþíngi, seinni konu sinni, gat Einar prestr Gísla oc Olaf, Höskuld oc Eyrík, Ceciliu, Margrètu, Önnu, Sigrídi, Gudrúnu. Margt var afqvæmi hans heilsugott oc styrkt, oc margt skáld. Gísli var seinna prestr í Vatnsfyrdi, hann átti Þórnyu dóttr Narfa Ormssonar, sudr í Reykiavík, oc Gudrúnar Magnúsdóttr, systr Halls skálds, sem qvad Hallsdrápu, voru þeirra börn mörg. Olafr Einarsson var prestr í Kyrkiubæ oc prófastr, hann var skáld mikit, oc verdr opt vidgètit, hann átti Kristínu Stephánsdóttr frá Odda Gíslasonar biskups; þeirra synir Eyríkr prestr, oc Stephán prestr í Vallanesi skáld, oc Jón, enn dætur Margrèt, Þórdys, Þorgèrdr, Gudrún. Jón Einarsson var prestr at Hálsi í Alptafyrdi, hann átti Gudrúnu dóttr Arna á Eydum Magnússonar Vígfússonar bónda Þorsteinssonar, þeirra son var Jón Búrmann. Höskuldr Einarsson hèldt Heydali, oc var prestr eptir födr sinn, hann átti Ulfhildi Þorvardsdóttr, þeirra börn voru Eyríkr prestr at Hálsi, Biörn prestr at Reidarvatni, Jón prestr at Hálsi, oc enn fleiri. Eyríkr dó úngr. Cecilia Einarsdóttir var gipt Halli presti í Biarnanesi Hávardssyni, VI voru börn þeirra. Margrèt Einarsdóttir var kona Arna prests Þorvardarsonar er seinast var í Vallanesi. Anna Einarsdóttir átti Kètil prest, son Olafs prests at Saudanesi Gudmundarsonar, hann hèldt Kálfafell, þeirra synir voru Eyríkr, Halldór, Olafr, Gudmundr, Jón. Eyríkr prestr hèldt Vallanes, lærdr vel oc málsnotr, hann átti mörg börn, eitt var Kétill prestr á Svalbardi. Halldór prestr hèldt Kalfafell, hann átti Gudrúnu dóttr Orms í Eyum, oc margt afqvæmi; einn hans son var Arni fadir Halldórs prests at Húsafelli födr Biarna oc brædra hans. Olafr prestr Ketilsson átti Ceciliu dóttr Torfa á Hafrsá. Gudmundr prestr Ketilsson hèldt Refstad oc átti eigi börn. Jón Ketilsson bjó í Hornafyrdi, hans son var Eyríkr fadir Gísla, födr Gísla prests hins gamla á Desjarmyri. Oluf Kètilsdóttir systir þeirra átti Þorvard prest Arnason. Sigrídr Einarsdóttir var gipt Biarna silfr-

smid á Berunesi, þeirra börn voru prestar eystra, oc verdr enn gètit. Gudrún Einarsdóttir átti Gissr prest Gíslason í Þíngmúla, þeirra son var Biarni prestr skáld gott. Margt sá Einar prestr af þessum afkomendum sínum, oc svo öll börn Odds biskups, vard hann madr kynsæll. Oddr biskup var manna lærdastr oc stiörnufródr, skáld oc forspár, hann var mikill oc sterkr, oc manna hædstr, sem þá voru á Islandi, enn annar var Ari Magnússon í Ögri, hann bar einnin nálega höfud yfir þíngheim allann, enn þó var Oddr biskup hærri, er þat med sannindum sagt at hann hafi skort eitt qvarter á IIII álnir eptir Hamborgarmáli, enn þat eru LXXXIV þumlúngar danskir.

## LXXVI Cap. Frá ímsu.

Um vorit eptir er gètit dóma Ejólfs bónda Halldórssonar syslu- 1592
manns í Rángárþíngi, at Fíflhollti IXda dag Maii mánadar, um fiörugeimslu fyrir annara landi; hann var son Halldórs, Ormssonar bónda, þess er Erlendr Þorvardsson vog í Videy, Einarssonar frá Hofstödum, Þórólfssonar, oc átti Solveigu dóttr Arna Gíslasonar, voru þeirra synir Isleifr oc Þórdr. Isleifr átti þau börn, Magnús, Solveigu, Ejólf er fèck Agathu dóttr Helga Vígfússonar, Þórd, Arna, Elizabethu, Solveigu er átti Þorstein son Jóns prests í Vestmannaeyum Þorsteinssonar Sighvatssonar, Sigrídi er átti Joseph Loptsson prest á Olafsvöllum, Valgerdi er átti Þorvard prest son Olafs prests Erlendssonar á Breidabólstad í Vestrhópi; enn börn Þórdar voru Sturla strídsmadr, Arni er átti Margretu Erasmusdóttr, oc var fadir Högna prests í Eyvindarhólum, Þórdys, oc Gudrídr er gipt var Biarna presti syni Orms prests at Kálfatjörn Egilssonar, þeirra son var Ejólfr prestr, þeir hèldu Kolfreyustad. Sagt er at í þann tíma lèti Þorsteinn son Vígfúsar bónda Þorsteinssonar XII manna dóm gánga at Helgastödum í Reykiadal um ránglega adtekt á jördu; enn þó var þá Jón Illhugason umbodsmadr, oc lèt helmíngadóm gánga med Þorsteini prófasti bródr sínum; tók Vígfús bóndi Þorsteinsson fast at eldast. Dæmt var oc um fátæka hreppsmenn, at þeir rádi engum kaupmönnum, oc um mál Þorsteins Jónssonar á alþíngi med XII mönnum.

Jón bóndi Biarnarson gèck dóma í Skagafyrdi. Jón prestr Loptsson vestra lysti skilgètnadi barna sinna med Sigrídi Grímsdóttr, oc at þau ætti Þernuvík í módrarf; enn húsfrú Gudbiörg Erlendsdóttir seldi med samþycki Jóns Marteinssonar, bónda síns, dóttrmanni sínum Hâkoni í Nesí, syni Biarnar prófasts Gíslasonar, Götu í Selvogi; þau Jón Marteinsson voru þá fyrir sunnann, oc hefir þeirra eigi lengi getit verit, er svo sagt hann hafi einhveria stund haft Arness syslu, enn tók nú at giörast skuldugr, oc fór at selia konúngi brennistein úr jörðu sinni. Þau missiri gèck faraldr mikit yfir land á qvikfènadi, hellst nautum, oc svo hundum. Þá lèt Gudbrandr biskup prenta Commentarium Arngríms prests Jónssonar um Island. Oddr biskup hèldt prestastefnu fiölmenna, at Kyraugastödum á Lundi, oc lagdi þá enn leidrèttingar reglr fyrir presta sína; fyrst um sakafólk ydrunarlaust, at þat sè eigi tekit til heimuglegrar aflausnar, þó syslumenn skrifi med því; þarnærst um þá sem fara med rúnir, ristíngar, særíngar, qveisublöd, oc slíka hluti, at þeir sèu settir af sacramenti, ef ei atgiöra fyrir áminníngu; í þridialagi at prestar fyrirbiódi hestaþíng, smalabús reidir, oc vöku-nætr á helgum dögum; í fiórda máta, at á ári hveriu haldist III bænadagar í hverri sókn, hinn fyrsti á Pálsmessu siálfa, annar midvikudaginu fyrir vor-krossmessu, þridji midvikudaginn fyrir krossmessu á hausti, oc fysi þá prestar bændr til ölmusugiörda; í fimta lagi at hiónum þolist ecki at setia hvört ödru ólöglegar fiærvistir, oc enn IX greinir adrar er til sidbóta horfdu. Höfudsmadrinn var í landi hèr; var þá blódsótt mannskæd.

## LXXVII Cap. Sóknir Gudbrands biskups oc Jóns lögmanns.

A alþíngi um sumarit bar höfudsmadrinn þat framm til lögmanns úrskurdar, hveriu þeir skyldi sekir vera, sem settu sik ímóti konúngs umbodsmanni ólöglega, svo sem giört hefdi Biarni Hrólfsson Skagfyrdíngr, hefdi hann vardat sèr oc sínum mönnum at hepta þann mann, sem bædi var reindr at óhlutvendi at austann oc nordann. Þat er í sögnum at Biarni hafi giört hark eda barsmídi sökum manntalsfiska gialds, oc hafi verit tekinn sydra oc luktr inn, enn Hrólfr fadir hans hafi þá farit at nordann tyadr, oc brotit upp hús at hönum, oc tekit hann út. Veit eg ei hvad

sannast er, at Biarni hafi verit tekinn fyrir harkit um manntals-fiskana, oda þetta er hann tók vid óreidumanni, nema svo sè at villt-sè sögninn, oc Biarni hafi brotit upp at manni þessum, enn aldrei verit tekinn siálfr, oc þat eignad Hrólfi födr hans er hann giördi, fyrir-því at á hönum lèk ord meira um afl oc þrekvyrki. Þá tók höfudsmadrinn mál þeirra Arngríms, er þá var prestr ordinn at Miklabæ, enn ádr hafdi búit at Ökrum á jördu sinni, undir dóm XXIVra manna, voru þá lögd framm af mótmælendum forn brèf nockr, var eitt um Hól oc Bessastadi, at Biörg Þorvaldsdóttir kona Jóns Sigmundarsonar, enn módrmódir Gudbrands biskups, hefdi fengit þær Gottskálki biskupi fyrir þat er hún hefdi eydt fè fyrir stólnum; annad um Jón Sigmundarson, at hann hefdi ófyrirsyniu drepit Asgrím bródr sinn í kyrkiugardinum í Vididalstúngu, oc dreckt barni sínu twævetru í soðkatli, enn ödru í Gliúfrá, med enn fleiru. Voru þau stílud á dögum Gottskálks biskups, oc sum undir hans nafni; enn Gudbrandr biskup qvad þau sett samann af öfundarmönnum sínum, oc loginn sèr til ófrægdar, svo sem væri hann kominn frá óbótamönnum, oc óbættum íllvyrkium, oc lèt mundi eiga at hræda sig frá jarda ákærunum med slíku, oc hrinda sèr oc samörfum sínum frá öllum þeim eignum, er hann oc þeir hefdi aptr fengit, eda mætti fá. Hugdu margir hann mundi þá yfirbugast, at standa lengr í slíku; enn hann feck ei þolat þá svívyrdu giörfa módrfödr sínum framm lidnum, oc beiddist þegar á því þíngi dóms á þeim brèfum, oc at færa framm svör í móti þeim; útnefndi þá Henrik Krag menn þessa til at giöra grein á þeim málum öllum, enn þeir vildu enganna urskurd á leggia, oc skutu undir konúngsdóm, enn greindu þó ecki neinar þær varnir er Gudbrandr biskup bar framm. Þat syndist honum giört til at tradka málum sínum, oc í vil vid Jón lögmann, oc adra óvini sína, giördist þá med þeim Jóni lögmanni fullr fiandskapr, oc stefndi hverr ödrum framm fyrir konúnginn oc hans ríkiserád, oc fundu til ímsar sakir. Var þá kallad at margt færi óskipulega framm í landi hèr, oc var þat satt, enn þó var þat færra enn fyrri hafdi verit. Lètst Jón lögmadr vilia takast á hendr at koma slíku til leidrèttíngar ásamt sínum málum, oc fèck af Þórdi lögmanni at fela sèr á hendr landsins eyrindi, því hann var hönum miög fylgisamr; svo fèck hann oc af ödrum

hinum heldri mönnum; er margir voru tengdir oc vingadir Jóni lögmanni; var játadr af lögmönnum óc öllum lögrèttumönnum á alþíngi, V álna tollr af hverium skattbónda, þeim manni í kost oc tæríngu sem utan færi med slíkar naudsyniar. Reid Gudbrandr biskup nordr af þíngi, oc var svo siúkr, at hann ætladi hann mundi þá skiótt andast, enn hafdi þarmed ærna skapraun af þeim sökum er bornar voru á módrforeldra hans saklausa, oc at svör hans þar ímóti voru eigi heyrd; geymdi hann í huga sèr þat er hann mundi af þeim afsökunum, oc þóttist eigi meiga samsinna med þögn óvinum sínum; fyrir því ritadi hann samann í litla bók þat er hann hafdi munad, þeirra ástædum til eydíngar, oc lèt prenta, oc var sú bók hóflega skrád, oç var hin fyrsta afsökun hans fyrir Jón Sigmundarson. Jón lögmadr reid oc nordr, oc fór sídann utann í Höfda á Skagaströnd, oc med hönum Jón Sigurdarson frá Reinistad bródrsonr hans, hann skorti þá III vetr á þrítugann, hann ritadi brèf hans; oc Jón á Siáfarborg Jónsson Grímssonar frá Ökrum, hann var námægdr Jóni lögmanni oc mikill vin hans, oc merkilegr madr; hann bjó sídann at Draflastödum eignar-jördu sinni; enn af hendi Gudbrands biskups fór utann Arngrímr prestr Jónsson frændi hans, oc Gudmundr son Einars prests at Utskálum, Hallgrímssonar Sveinbiarnarsonar, brædrúngr vid biskup, enn yngri miklu. Bar þá Jón lögmadr, er hann kom utann, mikinn róg framm fyrir Kristián konúng hinn únga, um biskupa báda, oc allann klerkdóminn, qvad þá vera þrætugiarna, oc hefia eina ákæru er annari væri lokit vid ímsa menn, oc kaupa sakir af mönnum, oc þraungva mönnum med miklum oc fornum kyrkiureikníngum, til at ná fè þeirra oc jördum, líkt sem hinir pápísku biskupar fordum, med því fleiru er hann tyndi. Arngrímr prestr bar þar ímóti þat er hann mátti; var þar þá Jóhan Bucholt, vinr Jóns lögmanns, er hèr hafdi verit höfudsmadr, oc var hönum bodit af stiórnar-herrunum at vitna um þessar sakir; bar hann þá framm brèf fyrir konúnginn oc stiórnarherrana, fullt ófrægdar um Gudbrand biskup oc presta hans, enn þeim vyrdust þær ástædr sumar heldr öfundsamar, oc segir enn frá því sídar.

## LXXVIII Cap. Imislegt.

Þá var skólameistari at Hólum Jón, sá er nærst var í Skálhollti, Einarsson Eyríkssonar; enn í Skálhollti Oddr Stephánsson Gíslasonar biskups; þeir voru mágar. Þá var laugardaginn nærstann eptir Michaelsmessu, samtekit af öllum almúga í Heyness-hrepp í Borgarfyrdi, at bidia af alvöru med hreinu hiarta gud almáttugann, at afstyra því fári oc faraldri sem yfir gèck, oc hètu allir med lófataki at gèfa fátækum mönnum alinn af hveriu hundradi sem áttu, oc skyldi goldit í nærstu fardögum med hreppstjóra vitund. Þá andadist Jón prestr Einarsson í Reykiahollti; voru þau börn hans, önnr enn Bödvar prestr, Halldóra, Gudrún oc Margrèt. Halldóru átti Styr Þorvaldsson Styrssonar frá Varmalæk, oc afqvæmi; Margrètu átti Jón Pètrsson, Snorri á Geldíngaá var einn son þeirra, enn Margrèt dóttir, hennar fèck Jón prestr í Vetmannaeyum, son Þorsteins Sighvatssonar, oc áttu þau margt afqvæmi. Oddny var ein dóttir Snorra á Geldíngaá, hana átti Þorsteinn í Höfn Þorgeirsson, dóttrson Illhuga, bródr Þórdar lögmanns, hann var afburdamadr þar í sveit um afl, þeirra son var Biörn, fadir Snorra prests at Húsafelli. Gudrún Jónsdóttir átti Rafn prest Þorvaldsson at Saurbæ vid Hvalfiörd, þeirra son einn var Halldór prestr á Skardströnd. Þat er köllud Reykholts ætt, er frá Jóni presti Einarssyni er komit, oc er þó mest frá Bödvari presti syni hans, oc verdr enn gètit. Vetri eptir lát Jóns prests Einarssonar, lèt Hákon son Arna Gíslasonar dóm gánga at Lambey hinn XXXta dag Maii, um ordbragd íllt, í umbodi Ejólfs Halldórssonar syslumanns, mágs sins. Ejólfr lèt þar einnin gánga dóm 1593
um fátæka menn, enn Jón bóndi Biarnarson syslumadr í Skagafyrdi vid Vallalaug, um þat er Þorsteinn Jónsson sló Skúla Hákonarson tvisvar í höfud á helgum degi, var hönum dæmt hálft annad hundrad í fullrètti, kongi IIII merkr, oc VI aurar í helgidagsbrot, Olafr Thomasson var fyrstr dómsmanna, Arni Biarnarson Jónssonar biskups, Ari son Olafs Thomassonar, Jón Olafsson í Hèradsdal bródir Markúsar, Sturla Sigurdarson, Gísli Gottskálksson, Jón Jónsson frá Sjáfarborg, oc er ei at siá sem hann hafi þá verit utann, nema villt sè um, Bessi son Hrólfs Biarnasonar, Einar Grímsson, Biarni Sturluson oc Oddr Thómasson. Annann dóm lèt hann gánga í Vidvík um Stafshól, er Olafr biskup Hiallta-

son hafdi tekid af Biarna Sturlusyni; í þeim dómi voru Magnús Biarnarson oc Isleifr at Hofi son Þórbergs Bessasonar; Jón var vinsæll höfdíngi, oc var Isleifr þá umbodsmadr hans. Þá gèck oc Kleifadómr um vistarrád; oc gaf húsfrú Anna Ejólfsdóttir Jóni syni sínum úr erfdafè sínu tyundargiöf XXXI hundrad, enn fiórdúngsgiöf úr aflafè, med samþycki bónda síns, Vígfúsar Þorsteinssonar syslumanns.

## LXXIX Cap. Brèf Páls Jónssonar.

Þá var lítil vinátta med þeim brædrum Jóni lögmanni, oc Páli at Stadarhóli, enn Páll þóttist hvorfinn til Gudbrands biskups, oc ritadi hönum brèf til at bidia Halldóru dóttr hans; tók þó Páll at eldast, enn alsagt at Helga kona hans hafi verit enn á lífi, þó er líkara Páll hafi þá haft í rádi at skiliast vid hana; enn brèfit skyrir skapferli þess er ritar, oc þarmed nockud um adra þá hluti, er ei mætti vita ella, oc fyrir því vil eg ei fella þat undann, enn þat er á þessa leid: Almáttugr gud gèfi ydr heill, lucku oc velferd, lífs oc sálar; ydr þacka eg allt gott; sendi eg ydr nú þat brèf er eg skrifadi í haust, oc hiá mèr hefir legit, sömuleidis þat brèf sem skrifad hefir verit fyrir fiórum árum, oc hjá mèr hefir hèr til af sèrdeilis forhugsan geymt verit; it. útskrift af brèfi í vetr; eg þenkti ydr at skrifa oc senda, hefdi mig ecki forfallad snióar oc ófærd; þessi öll brèf hafa eitt innihald, hvad eg bid ydr af ydar gódvild, mèr til hins besta at vyrda, oc megid merkia sama gódann vilia minn til ydar oc ydvarra. Syndinn ástrídir alltíd guds verk. Laungu fyrri enn þèr vorud skapadr, hafdi gud fyrirhugad ydr biskup verda á Hólum; hvert meinid þèr ei, at gud hafi oc sèd fyrir hvert Helga skyldi víkia? nei, þó gud sè gladr, þá er hann þó engin gárúngr; hver var Þórdr, Benedict, eda fleiri? gud hæckar, gud læckar; | himin, stiörnr oc heljarkóng, hvergi gèt eg komit á gáng, | andi mannsins einna mest, | ætla eg heldr verki flest. Hugleidit þessa vísu:

Þó hardr einn hafi ordit, útaf leysi eg hnútinn  
meiri hættu hverri, hnútinn leysi eg útaf,  
vill gud unna ellr, útaf leysi eg hnútinn,  
bundinn hardt at hendi, hnútinn leysi eg útaf.

Þèr vitid ej nema så gódi gud, hafi fyrir hugad mig, aumann jardarmadk — því svo er eg fyrir gudi — ydr oc ydrum til styrktar oc adstodar; sömuleidis vitid þèr ei hverr ætthríngr bak vid þessa stúlku standa kann. Hverr hefdi svo undarlega þenkt! Magnús heitinn mundi verda svo fiölmennr, nema gud; næst gudi hiálpadi ek hönum þar til; Stúlkann var ádr handlögd Þorleifi Jónssyni — Jón Jónsson sigldi med Jóni Marteinssyni móti mèr, svo hiálpadi eg hönum í Danmörk hjá Schougaard heitnum, svo hann fecк Reinines oc Skagafiardar syslu; hverneginn launudu þeir brædr mèr? utann ofsóktu mig leynt oc lióst, sem Ismael Isaac, Esau Jacob, Patriarchar Joseph. A Stadarhóli, í Flatey, á Berufiardarþíngi, síndi sá lögmann (gud hönum fyrirgèfi) sig, líka vel lagda eg Ara gott til at hann hèldt sinni syslu. At eg sendi til ydar um þetta efni, er eg fyrir guds oc hans anda drift tilknúinn, meir enn af siálfum mèr. Gud sè vitni! Meinid þèr eg viti ei hverr vandi, kostnadr, frammistada, stát oc vyrdíngar (fyrir utann þetta skadlega ófall) þèr Nordlendíngar viljid hafa, þar sem eg veit mèr nálægra, ef fást mætti; enn hvad skrifa eg rádleysu! /raun-miög eru þau rádinn ill, at rœna því sem hamíngiann vill./ Þetta allt finnid þèr at leidarlengd í þeim bæklíngi er ec sendi Halldóru ydvarri minni; med guds orlofi oc ydar, ætla eg hèdann af svo at skrifa, treystandi gudi oc ydr hún megi ecki úr fángi briótast. Gud almáttugr gèfi þat, at eg meigi alla mína lífdaga, ef þat er guds, ydar oc hennar vilji, svo vera henni til gledi oc yndis, ydr til heidrs oc sæmdar, oc hennar systkinum, ydar börnum, til adstodar oc gódra ráda. Ydar objecta oc mótkast í greindum bæklíngi med gódum grundvelli aptr lagt; hefi eg svo þar yfirhlaupit ydvart mál; bid eg ydr oc Halldóru mína, at láta ei þann bæklíng neina siá nema systr sína. Er þar fyrst af gódri oc illri túngu, náttúrlegri vörn, eyktardiktr, hiónadans, af náttúrunni, neydinni, vitskunni, útlagníng Halldóru minnar, mótkast, aptrlagníng, míns siálfs practica leinileg; nockr stycki af nyrri kynníngu Doctors Nicolai Machiavelli Florentini, hvers heila practicam eg hefi fyrir fáum árum oc med vísum begripit. It. ydar vísr, eitt lítit qvædi Halldóru, af kristilegri Oeconomia stycki, bodit til brullaups. Hyggit mitt sinni; bindist ei mikils til í sumar; eg leiddi ydr ei þá eg band ydr til brullaupsins; forlátid fyrir guds skuld eg giöri svo lángann Catalogum. Nú heyrdud þèr mig ei í dag; sè nockud nytsamlegt,

ræna

svo er þat af gudi; gódar bækr eru oc, þenki eg; med húsum þessa arss:

Má eg hverki mas nè raup mæla úngum svanna,
Þó mun lodit lifrar kaup leggia fátt til manna.

Mèr er sagt þær bádar Halldóra oc Kristín kunni at skrifa, oc skilja Þísku; þat prísa eg; bid eg ydr at leggia til ydar gód ord, Halldóra skrifi, at siái hennar handskrift, þó ei framar enn yckr lyndi vid mig at byta frammvegis. Bid eg ydr at vyrda vel fyrir mèr mín friálsyrdi, svo sem þeim frá barnæsku oc allt hèr til hefir med stórherrum, oc mikils háttar mönnum umgèngist, sem raun skal á verda med guds hiálp ef þörf krefr; betra mikils til hefda eg forsèd mig til ydar, ydvarra; óhræddr er eg vid Eyfyrdínga, Hunvetnínga, vanr er eg slíkum smáherrum. Item: lángt hefir mèr þótt í vetr, sídann eg settest at; opt hefi eg óskad at koma til ydar, eda þèr værud komnir til mín; vid munum oc skulum med guds hiálp bestir vinir verda. Item: gud gèfi ydr oc ydar börnum at gánga vel um lángann veg æfinlega, Gudbrandr minn! hefi eg gódann vilia til ydar haft, oc enn hefi eg. Item: ecki er eg ills verdr, þótt eg ynnti ydr oc ydrum minna gótsa fyrir alla adra eptir mig, edr hvert ætlid þèr mig svo atburda lítinn at ek fái ei minn líka; svo er hverr hlutr sem reinist. It. er sú mín ljúfleg ámynníng, þèr varist allt stórlæti oc stollt, því þat er án efa fallsins vísasti oc varlegasti undanfari; forsmáid engann, farid sem spakast, oc munid hvad ödrum hefir ordit; talid vel um afheyrandi menn. Er þess nú ecki gètit at brèfi þessu hafi annad verit.

## LXXX Cap. Frá skyríngargrein.

Svo er á at siá sem brèf þetta sè frammhald af ödru, eda fleirum er Páll hafi bedit Halldóru í, oc med því þat má vera at ei skilji allir hvar um þat hliódar sumstadar, eda hvad þat upplysir, þá vil eg víkia nokrum ordum til at skyra þat. Víkr hann fyrst til fyrirhyggiu guds, oc gètr Helgu konu sinnar, at því er eg hygg; upphefdar Þórdar lögmanns, oc Benedicts ríka, oc snyr því til sín; oc svo um Magnús bródr sinn, oc lætr þat mæla framm med sèr, at hann hafi studt hann til qvonfángs, oc Jón lögmann til at

fá Reinistad oc Skagafiardar syslu, enn hann hafi lannad sèr illa einu; svo er oc at sjá sem hann telji sèr at hafa styrkt Ara son Magnúsar til at halda syslu, eptir fráfall födr síns; víkr þá til konumálanna, oc lætst leita þeirra af ást einni, enn ei fyrir hagsmuna sakir svo mikilla, enn sídann talar hann um bækling sinn, oc önnr vinmæli. Þá talar hann svo um Eyfyrdínga oc Húnvetnínga sem öfundarmenn sína ef mægdir takist, oc meinar þat til hinna ædstu manna í þeim sveitum, var þat Jón lögmadr í Húnavatnsþíngi; enn at lyktum er at ráda, sem hann uggi biskup muni vyrda sig all-lítt, oc snyr því til heilræda. Enn þat annad sem brèfit hermir er flest audveldt at skilia, enn nockud má vera ókunnugt þat er í því er. Vandt er fleira á at ætla í því efni, oc mest fyrir þá sök, at bædi er ólióst hversu stód hagr Páls, oc svo hitt hvort nockr svör hafa veitt verid nockuru sinni, af biskups hendi eda Halldóru, eda nockr kostr á verit eda enginn.

## LXXXI Cap. Mál Gudbrands biskups.

Jón lögmadr fèck þat svár af konúngi um ákærur sínar, at hann mundi vita biskupum, oc banna þeim at sysla um þat, er ei var þeirra embætti, oc er hann hafdi borit framm önnr eyrindi þau er hönum þótti þurfa, lèt hann í haf, oc fór út til Islands; baud konúngr oc rádaneyti hans höfudsmanninum at sætta Gudbrand biskup oc Jón lögmann edr láta XXIV menn dæma málinn ella. Kom Jón lögmadr á alþíng, oc svo Henrik Krag höfudsmadr oc Gudbrandr biskup, enn Arngrímr prestr kom ei fyrr enn eptir þíng; lèt höfudsmadrinn brèfinn koma fyrir XX oc fiögra manna dóm, þau er Gudbrandr biskup vildi hneckja, oc köllud voru mordbrèf, voru þau dæmd uppdigtud falsbrèf, ónyt oc at engu vyrdandi, oc skorinn í sundr, enn þó geymd til synis; voru þeir sumir í þeim dómi er ei þóttust fá yfirtekid hid fyrra árit. Var á einu brèfinu fyrst hálf önnr lína, er innihèldt nafn vottanna, ritad med fornum bókstöfum oc bleki, oc innsiglinn samhlióda þeim nöfnum, enn hitt annad af brèfinu er var pergament fornt, var nylega skafit upp, med nyum stíl oc stafagiörd, voru oc ordtök ny sumstadar; má af slíku siá hve umskipt hefir slíkt í XVIdu öld. Vard ei heldr komit samann stödum oc tímum í hinum

ödrum, oc mátti Gudbrandr biskup vel vid una úr því sem ráda var; voru þeir fyrstir í dóminum, Þórdr lögmadr oc Benedict Halldórsson, oc þessir adrir, Hákon Arnason Gíslasonar, Nicolás Biarnarson syslumenn sydra; Vígfús Þorsteinsson úr Þíngeyarþíngi, Biörn Benedictsson Halldórssonar at Múnkaþverá, Arni Oddsson í Midgördum, Vígfús Jónsson á Kalastödum, Magnús Hialltason Pálssonar, Gudmundr Þórdarson lögmanns, Ejólfr Halldórsson syslumadr, Einar Eyríksson á Hvanneyri, Sæmundr Arnason Gíslasonar, Þorvardr á Sudr-Reykium Þórólfsson Ejólfssonar, Skúli Jónsson, Jón Einarsson, Sigurdr Jónsson, Þormódr Asmundarson í Brædratúngu, hann var þá gamall, Jón Jónsson, Dadi Arnason Oddssonar, Hallr Jónsson, Arni Geirmundarson, Ari Olafsson Thómassonar at nordann, oc Gísli Þórdarson lögmanns. Eckert gátu þeir Hóls oc Bessastada, oc líkadi biskupi þat illa. Þá urdu þeir oc sættir Gudbrandr biskup oc Jón lögmadr, oc sterkr formáli hafdr fyrir, vard þó biskup heldr til at vægia, því hann hafdi ritad sumt heldr frekliga um Jón lögmann, oc um fiölkíngi Jóns Magnússonar á Svalbardi födr hans, er hann fèck eigi sannad, var hann því skyldadr til at ná aptr því brèfi oc brytia þat. Voru þeir nú sáttir at kalla, enn þó grèri aldrei um heilt med þeim. Urdu þar þó margra manna bænir til at koma med höfudsmanninum, ádr hverugr vildi í nockru vægia; enn ecki var biskup í þíngdeildum þadann af, oc var þar eitt efni til konúngabrèf þat, er bannadi klerkum þratr; hefdi þat vel verit, ef hann hefdi ei á bækr sett fleira enn þá var ordit til afsökunar sèr oc frændum sínum, enn þat vard nockud á annann veg, fyrir því at hann var kappsmadr mikill, enn þóttist fyrir rángindum ordit hafa. Þau missiri lèt hann prenta eintal sálarinnar, er Arngrímr prestr hafdi útlagt.

## LXXXII Cap. Brèf Jóns lögmanns.

Mörg konúngabrèf komu út med Jóni lögmanni, oc voru lesinn upp á alþíngi þessu; eitt um innsigli Islands; annad um at Islendíngar heldi þíngskrifara; var til þess kosinn Gudmundr son Þórdar lögmanns, oc var hann eigi lengi; tóku lögmenn sèr sinn ritara hvorr, valinkunna menn, oc jafnan sá sem dóma lèt gánga,

oc báru svo samann þíngbækr sínar at bádar hèlldu eitt; var Jón Jónsson frá Siáfarborg ritari Jóns lögmanns, oc ritadi vel; hann átti Sigrídi dóttr Þorgríms Þorleifssonar í Lögmannshlíd, oc Þórdysar Jónsdóttr, systr Jóns lögmanns. — Eitt var um Supplicatiu Odds biskups til konúngs; hann hafdi kært þraung oc lítil laun presta, er þeir höfdu mist þeirra inntekta, er fyrrum voru af messum oc vökum, oc slíkum hlutum, oc voru þá einhleypir, enn áttu nú at ala konu oc börn; var höfudsmanninum bodit þat at ransaka. Tvö voru um Magnús Jónsson at hann hefdi brennistein í landi sínu; eitt var verndarbrèf Ragnheidar Eggertsdóttr, oc svo þau er ádr er gètit, oc til biskupa um kaupverslan. Jón lögmadr fór at sækia þessi brèf siálfr: eitt um Spitala; annad um innsigli Islands, þridja um þíngskrifara; fiórda at hann beiddist eptir skynsömum höfudsmanni; Vta um afgiöld af lènum; VIta um passabrèf þyskra manna oc vöru þeirra; VIIda um andlega oc klerka, at þeir lèti sèr nægia þat er þeir hafa af kyrkiunni; áttunda at alþíng standi VIII daga ef þörf krefr, oc enn hid nyunda um alþíng. Oddr biskup þóttist lítinn góda fengit hafa af utannför hans, oc fyrirbaud fyrir því landsetum Skálholltsstadar at gialda hönum tollinn, nema bestu menn í landinu dæmdu þat, oc hèt at vera í fullu svari fyrir bændr, þó þeir hèldi hönum þángad til; hvervetna var tollrinn heimtr, oc goldinn Jóni lögmanni sumstadar. Oddr biskup visiteradi þá Sudrnes, oc gaf út brèf at Mosfelli, oc baud prestum fastlegá at yfirheira menn, oc halda þeim til kyrkiugaungu, eptir því sem Páll Stígsson hefdi bodit, oc fara um alla hluti at kyrkiuordinantiunni oc ödrum konúngsbodum; enn svo þeim yrdi heldr ágèngt, rèdi hann þeim til at hittast opt, oc ræda um slíkar naudsyniar; enn prófastar skyldu einusinni á ári hveriu safna prestum í einn stad, oc yfirheyra þá, rita sídann biskupi þat er þyrfti, oc rádast um vid hann.

## LXXXIII Cap. Frá Henriki Krag.

Henrik Krag hyrdstióri ætladi utann um haustit, oc vildi leysa vel af hendi syslan sína, fyri því spurdi hann at opinberlega, hvert hönum var þat borit, at hafa á burtu selt nockrar konúngs-

jardir, eda hafa skipat nockrn syslumann, er óhæfilegr var? enn ef konúngsbrèf nockr væri hiá nockrum dulinn eda geymd, bad hann at hann mætti fá þau til at rita eptir, ef þau væri almennilegri naudsyn vidkomandi, oc geymdist á Bessastödum. Lögmenn bad hann taka þíngskrifara þann at eins er vel væri tilfallinn, oc leifdi at kaupa mætti vid þann er konúngr hafdi ætlad til Skálholltskyrkiu oc annara hluta; enn ef nockr vildi bera naudsyniar sínar fyrir konúng, baud hann þartil lidsinni sitt, oc at sídustu, at þínglausnum, bad hann Odd biskup setia presta nockra aptr af því, at locka eda þraungva jardir frá bændum; sídann setti hann Erasmus Michaelsson fyrir umbodsmann sinn, oc fór utann vid allgódann ordstyr.

## LXXXIV Cap. Imsir tilburdir.

1594 Þareptir giördi fellivetr mikinn fyrir nordann land allstadar, svo at jólum fèll í ófeiti bædi fè oc færleikar, kom aldrei bati edr jörd fyrrenn á fiórda dag páska; madr einn reid frá Odda sudr, oc þóttist siá dreka fliúga nedarlega í lopti, sem lindorm, oc syndist allt í loga, fór hann beint í austr, vard madrinn aptr at snúa, því hestrinn vildi hvergi gánga, sakadi þó ecki. Þá útnefndi Þórdr lögmadr hinn IXda dag Februarii, XII manná dóm at Eskihollti í Borgarfyrdi, oc dæmdi alla skattbændr skylda at gialda Jóni lögmanni utannfarartollinn, eptir samþyckt þeirri er fyrr var giör, oc höfdu lögmenn svo framm sitt mál; hvergi þeirrá var fylgisamr klerkum. Gudbrandr biskup lèt þá prenta Graduale, oc Lyseri bók um gódverkinn, oc um dómsdag, ámynníngar bækling Pèturs Vinstrups, oc lítla Cathechismus, oc Confirmationarbók úngra manna, oc enn daglega ydkun er Arngrímr prestr hafdi samit. Þeir Oddr biskup innleiddu bádir messusaungsbókina þat ár; oc þá gipti Gudbrandr biskup Kristínu dóttr sína Ara syni Magnúsar Jónssonar, hann bjó í Ögri, oc hafdi Isafiardarsyslu lánga æfi. Gudmundr Einarsson frændi Gudbrands biskups var utann farinn, enn Olafr Jónsson hafdi verit skólameistari eptir Arngrím prest. Sigurdr Stephánsson, skólameistari í Skálhollti, hafdi druknad í Bruará, sofnad á backanum medann feriamanninum dvaldist, oc velltst í ána, hafdi hann verit á leid frá Mosfelli; hann var lærdr

madr oc skáld gott, saungmadr oc málari. Oddr biskup hafdi skipad aptr Gísla Einarsson hálfbródr sinn, hann var eigi tilfær, enn hèldt þó út vetrinn. Þá var þat í áttundu viku sumars, at Jón bóndi Biarnarson lèt dóm gánga at Vídvík, med Isleifi Þorbergssyni, Biarna Sturlusyni oc ödrum, um ákæru Bessa Gudmundarsonar móti Gudbrandi biskupi um hálfann Stafshól, oc vann biskup málit. Þat ár var Isleifr umbodsmadr Jóns.

## LXXXV Cap. Frá höfudsmanni oc dómum.

Henrik Krag höfudsmadr kom út um sumarit, oc bad lögmenn giöra úrskurd á hve mikit kostudu LXIV kúgildi, oc annad er fylgdi Múnkaþverár klaustri, er Nicolás bóndi Þorsteinsson var fráfallinn, oc erfíngiar hans fengu eigi greidt, eda vildu ei. Lögmenn dæmdu med XII mönnum hvad miklu þeir skyldu sekir, er tæki at sèr eignir oc ódöl manna, án dóms oc laga; oc Jón Biarnarson vid Vallalaug um Sigmund Olafsson þióf af sudrlandi, einnin um hrossakiöts át í Flókadal í Fliótum, oc var því skotit til lögmanna; Þórdr lögmadr lèt dæma at Lundi í syslu sinni um bónda oc vinnumann med VI mönnum; enn á alþíngi var dæmt um arf eptir Gudrúnu dóttr Jóns Hallssonar gamla á Rángárvöllum, var skilgètinni dóttr Katrínar laundóttr Jóns Hallssonar dæmdr arfr, enn Holmfrídr dæmdist frá, skilgètinn dóttir Erlendar, sem var sonr Jóns í hórdómi med húsfrú Holmfrídi. Þeir Oddr biskup oc lögmadr lètu gánga helmíngadóm XXIVa manna um hjónaband, oc þvílíkt lèt biskup dæma á prestastefnu. Þórun andadist þá á Grund Jónsdóttir biskups, tveim vetrum meir enn áttræd, oc átti eigi börn eptir, urdu því deilr um arf eptir hana; hafdi konúngr lènt henni Grund í Svarfadardal oc Liósavatn medann hún lifdi, at forlagi Kristophors Trondsens oc Axels Júls, oc kalladi höfudsmadrinn þær jardir oc fèck þær; hann lèt einnin samankalla biskupa báda, oc lögmenn báda med XXIIIIum mönnum, til at skoda hver bót yrdi rádinn á inntektaleysi presta, er Oddr biskup hafdi borit fyrir konúnginn; enn med því þeir menn margir voru hlutadeigandi, er áttu kyrkiujardirnar, þá neytudu þeir at vísu ei, at prestar hefdi ádr haft meira af kyrkiufiánum, enn qvádu eigi jafnt á öllum standa, oc at biskup þyrfti í visitatiu sinni,

mód hverjum syslumanni er þar hafdi lögsögn, at meta hvad prestar ætti at hafa af hverri kyrkiu. Oddr biskup lèt sèr þat lynda, enn lögmenn eyddu at því sinni hans máli, því þat var reyndar at sumir kyrkiueigendr vildu eigi láta presta hafa neitt. Höfudsmadrinn ritadi oc ámynníngu skarpa kyrkiu-eigendum oc kyrkiubændum í Nordrlandi, at hlída konúngsskipun, ella skyldu syslumenn stefna þeim oc sekta. Leifdi einnin at sóknir nockrar smáar væri lagdar samann í Skagafyrdi, at forlagi Gudbrands biskups. Hann bad oc biskupa báda, sem þeir höfdu æskt eptir at þeir mætti, at hafa tekit saman nya kyrkiu ordinantiu fyrir annad alþíng, oc hèt at bera hana fyrir konúng; oc at sídustu bannadi hann Enskum mönnum at fiska vid Island, enn lagdi syslumönnum fyrir at taka þá oc hegna ella, oc bad adra vera þar til styrkiandi. Þetta sumar kom út þat brèf frá Kristiáni konúng fiórda, er Jón lögmadr hafdi afrekad, at sèrhverr skyldi leysast af presti sínum einum samann; eptir þat fór höfudsmadrinn utann, oc kom ei aptr. Þá þvarr Hvítá í tveim stödum, nær þvert yfir um, oc þótti mönnum undarlegt, því áinn var mikil oc rauk af vedri annarstadar, enn brimgángr hinn mesti, sáu menn þar þá skrímsl á Eyrarbacka, Háeyri oc Skumstödum; vídar þóttust menn siá ókunnugt dyr. Þórdr lögmadr hafdi konúngstyund af prestum í Borgarfyrdi, enn Bödvar prófastr Jónsson í Reykiahollti hafdi í móti mælt, oc kallat þat ólög, kom þó eigi sínu máli framm at því sinni, enn þó þat væri hvergi annarstadar enn þar at prestar gyldi konúngi; þó heimti Hákon Arnason giaftoll af þeim í Arnessþíngi, enn fèck ecki. Þá lèt Benedict Halldórsson dóm gánga at Spialdhaga hinn Vta dag Octobris um giafir Þórunnar á Grund, oc dæmdust hennar löggiafir úr föstu oc lausu LXXI hundrad, því hún hafdi aldrei tyundad meira enn II hundrud hundrada oc LXX hundrud, enn þeir Jón oc Magnús bródrsynir hennar höfdu verit skyldadir til at svara skuldum hennar. Þeir deildu um arf eptir Þórunni, Pètr, son Páls á Stadarhóli, oc Helgu Aradóttr, oc þeir brædr Jón oc Magnús Biarnarsynir; Pètr átti Þorbiörgu, dóttr Biarna prests Finnbogasonar at Hofi, oc Ingibjargar Vígfúsdóttr Þorsteinssonar Finnbogasonar lögmanns, þeirra son var Biarni á Stadarhóli.

## LXXXVI Cap. Tilburdir, dómar, mannalát.

I þann tíma giördist ærinn trú á siónum oc fyrirburdum, þvíat svo var þá í Þískalandi oc Danmörku, trúdu menn at hvad eina mundi merkia heimsendir edr sèrlegar hegníngar, þvíat allir fornir tilburdir, er meiri voru enn þá skèdu daglega, voru nálega öllum mönnum ókunnir, oc undir lok lidnir, vissu menn eigi þat er fyrr hafdi verit hèr í landi, oc miklu sídr annarstadar, nema af einum samann sögnum, oc miög fáeinir menn sem sögrnar áttu, lásu þær, voru þá ei adrar lesnar enn riddarasögr einar, því þær lögdu allir menn trúnad á; þó mun eg nú fátt nefna af siónum þeim er þá voru sènar. Þat ætludu menn þá, er hardt var í ári, oc sumt þótti fara óskipulega át aldrei mundi jafnill öld verid hafa. Giördi þá gódann bata hinn nærsta vetr eptir þá tilburdi 1595 seinast voru taldir. Var sá vetr afbragdsgódr, þurfti aldrei at gèfa geldum nautum hey; þó gèck naútadaudi. Þá andadist Sigurdr prestr at Grenjadarstad, oc eru nú dáinn öll börn Jóns biskups, tók vid stadnum Biarni prestr Gamlason, er skólameistari hafdi verit at Hólum. Olafr Thómasson á Hafgrímsstödum andadist einnin, oc er frá hönum margt fólk í Skagafyrdi. Mikla kind skjöldótta sáu menn þá í Hvítá, er þeir fóru til tída í Skálholt austr yfir ána, þat var á ferinstadnum, oc hugdu menn hún ætti þar heima. — Mánadaginn eptir krossmessu lèt Bènedict Halldórsson VI manna dóm gánga at Spialdhaga, merkilegann; um þeirra manna sekt er vitandi keyptu þiófstolit, oc at hinir skyldu undannfærast er óvitandi keyptu; at öreigakaup skuli aptr gánga, oc upptækt þat fè skuldamanni er öreigi selr, enn kaupandi sektist fyrir dómrof; um þá er skèrá innstædr oc sekt á því, um hysíngar fátækra manna oc flutníng, þar stadfestu þeir hinn fyrra Spialdhaga dóm, því at um slíkt vard engu ödru ákomit; um þiófnadar rygti, at þess sè syniad med siettareidi; at öreigar vinni fyrst þeim sem þeir eru skyldugir, fyrir skuld sinni; um utansveitar oc óskilamenn. Þá tók oc Gudmundr Illhugason eptir skipan Biarnar Benedictssonar húsbónda sins, eyd af Gudrúnu Arnadóttr, fyrir alla menn, nema Jón Biarnarson bónda sinn, oc af Kristínu dóttr hennar fyrir alla adra enn Biörn son Magnúsar Biarnarsonar at Grund, því at med hönum hafdi Kristín gètit barn ógèfinn, í frændsemi, svo at konúngs líknar vard at leita. At Hrafnagili

lèt Bènedict dæma um höfudhögg, hírreitíngu oc illyrdi, voru þá höfd lófatök at dómum, oc lengi sídann. Spialdhagadómr Benedicts var samþycktr sídar á alþíngi, oc vard þá sem landslög. Þeir Gudbrandr biskup oc Benedict lètu helmíngadóm gánga á þeim missirum, er skyldadi Jón Biarnarson til at svara kyrkiupeníngum á Grund, hygg eg þá at Jón væri kominn til Grundar, því þar bjó hann einnin, enn aldrei í Skagafyrdi þar hann hafdi syslu. * Gudbrandr biskup oc Jón lètu oc álíta um hálfkyrkiur í Skagafyrdi, oc þat ætla menn, at Jón hafi þá skipt ámilli dætra sinna sjö, bjó hann á Grund eptir þat. Gudbrandr biskup tók þá at prenta forsvar Jóns Sigmundarsonar módrfödr síns í ödru sinni, oc var þat hardordara enn hid fyrra; giördist Gudmundr Einarsson skólameistari at Hólum. — Þau missiri andadist Loptr prestr Narfason at Hytardal, oc tveim dögum sídar Gudmundr á Hvoli Þórdarson, hafdi hann sagt fyrir andlát beggia þeirra, oc giört rádstöfun á öllu húsi sínu, oc gèfit giafir mörgum. Jón lögmadr bad skoda þessar greinir, at Ökrum í Skagafyrdi; fyrst um þat leigufè sem deir fyrir fátækum mönnum, er svo missa at ecki hafa til skulda, hversu fara skal med giöld þess fiár, oc hver leiga gialdast, oc svo um jardabyggíngu þeirra manna, er adrir byggia þeim edr hafa þeirra þiónustu, enn þeir ádr áttu peninga at þeim fá ecki parit, oc dregst í óvenju at hverr kaupir vid annars skuldamenn. Þarnærst um þau vanqvædi, er hinn fátæki deir af kulda fyrir klædleysis sakir; í þridja lagi um yfirferd, er enginn þykist skyldugr framfæri at veita nema hann eigi forlagseyri eptir bók; í fiórda lagi at hreppar megu ecki þola þat ómagi komi á þá, því at enginn hiálp verdr veitt í þeim sökum örfátæktar. Fimta um þau þrot, sem svo eru vanfær oc þíngd at eigi verda flutt, edr þær fiölskyldr sem engann eiga færleik á at flytia, oc þó margir búandi í sveitunum, sem hverki gèta flutt nè fædt. VIta um þat utansveitar fólk sem kæfir nidr sveitirnar á vetrum, oc sveitarmenn gánga hiálprædis á mis er hverutveggia verdr eigi geymt. I siöunda lagi um þær jardir er eigi byggiast, oc eigi verdr eptirgoldit; ei heldr gialdast leigr edr landskyldir, oc eigi verda til nema óskilamenn, drepa innstædu, oc segia eigi til húsbændum fyrrenn dandt er oc eydt. VIIIda um okr oc leigufè er misferst fyrir fátækum mönnum er eigi hafa borgun. IXda at vadmál verda eigi goldinn, má oc vera at af þeim litlum ullum,

sem til eru hiá fátæku fólki, tækist í prjónasaum, oc seljist þiskum fyrir óþarflega hluti, sem strútsfiadrir, bordaböndd, þunnflókahatta, konupúnga, oc annann óþarfa; þar med sama hætti seljast vadmál, naut, sandir, lömb, smjör, fiskr oc lysi, edr önnr slík lífsbjörg, í þvílíku hallæri, hvar eg held, sagdi hann, stóra naudsyn at gá at i slíkri fátækt, bædi med útlenskum oc íslenskum; í tyundalagi um þá menn oc konr, sem hlaupa úr syslum frá börnum sínum, oc í adra fiærlæga stadi, oc giptast þar, hvert um sig; þar næst um verkamannakaup, lausamennsku, lagaslætti, þótt þetta sè allt ádr dæmt, heldst at engu, því hverki er skeytt lögum eda lögdómum þeim er gengit hafa, hverr vill vera siálfrádr at selia lög þau líkar, enn fylgi þeirra sem at eiga at siá oc umvanda, giörist hèldr lidfátt oc framqvæmdar-lítit. I ellefta máta um vidaleysi, at jördum verdr ecki uppi haldit. XIIti um matgiafir oc manneldi, oc at eigi takist barnamenn inní sveitirnar; einnin hversu fara skal med þær jardir er eigi verda bygdar, eda tyundir afgoldnar, eda fyrirsvarat. Af slíku siá menn yfrinn þúnga hefir álagt í hardindum, er èigi var oc undarligt vid þann leigumála sem þá var á kotúnginum, tvígyldr vid þat er á vorum dögum er enn sumstadar meiri, oc svo at margt hefir annad öfuglega gengit þá eigi midr enn sídann, oc hitt ásamt, at Jón lögmadr hefir þá látit sèr hugat um hèradsstjórn.

## LXXXVII Cap. Frá hyrdstióra oc alþíngi.

Um sumarit kom út Brostrup Giedde af Tommerup, danskr edalmadr, oc var höfudsmadr hèr, hann lèt dæma um þat á alþíngi hverjum Enskt skip átti til at heyra, er laskest hafdi í Stödvarfyrdi, oc Erlendr Magnússon syslumadr, fadir Torfa, hafdi tekid til sín, enn Hákon Arnason hafdi dæmt mál þat undir lögrèttuna; komst Erlendr af því í vandrædi, oc fór sídann utann, oc dó í Hamborg. Hann lèt oc taka ákæru þeirra Gudbrands biskups oc Arngríms prests, um Hól oc Bessastadi, undir dóm XXIIIIa manna, þar bar Jón framm Olafsson, brèf þat er hann hafdi vænst ádr, um samþycki Biargar Þorvaldsdóttr, þat þótti dómsmönnum sem eigi væri ónytt giört, oc mætti vel standast; sættust

þá hveritveggi, oc gáfu hverir adra qvitta oc ákærulausa um allt þat er þeim hefdi í milli farit þángat til; dróg þat til, at biskup hafdi miög stúngit at Jóni Olafssyni í riti sínu hinu nya um falsbrèfinn, oc kallad hann ærulausann; hèt Gudbrandr biskup oc Arngrímr prestr, at kalla aldrei eptir þeim jördum sídann, fyrir sig oc svo erfingia sína. Kouúngsbrèf byrti höfudsmadr þar, um at leggia samann sóknir smáar, oc um þriá bænadaga, oc enn önnr fleiri. Var eitt um Pètr Pálsson, at hönum væri rètt giört, annad um vogrek oc medferd á þeim, þat kom eigi samann vid íslendsk lög. Samþyckt var oc á alþíngi, at forlagi Odds biskups af leikum oc lærdum, enn þó eigi fyllilega dæmt, at prestasynir nyti kallanna fremr ödrum eptir fedr sína, oc at presta efni úr Skálhollts biskupsdæmi fengi eigi stadi fyrir nordann, nè at nordann sydra, ei heldr skólasveinar væri teknir úr ödru stipti í annad; var þat eptirleif af fornum kala er í milli þeirra landshluta var. Margt fór framm á því alþíngi annad. Þar var dæmt um hiónaband Páls á Stadarhóli oc Helgu Aradóttr, hafdi Páll stefnt Helgu fyrir fiórum árum, enn voru þó enn ei skilinn, þarí dæmdu biskupar bádir Gudbrandr oc Oddr, oc Þórdr oc Jón lögmenn; dæmt var oc um hiónabandslofun oc fleiri dómar. Magnús son Hiallta Pálssonar í Teigi sókti sök vegna barna Einars Grímssonar Þórleifssonar frá Mödruvöllum, á hendr Jóni Marteinssyni, oc lèt Oddr biskup oc lögmenn bádir dóm gánga þarum, oc dæmdu Jóni skyldugt at gialda fè Hólakyrkiu í Eyafyrdi, þat er hann var kærdr um. Höfudsmadrinn lèt dæma um laxveidi í Nicolásarkeri; sídann fór hann utann, oc med hönum Ormr son Vígfúsar Jónssonar á Kalastödum, hann var þá XVIII vetra. Veidiskapr hèldst þá í vötnum framm á jól; þau missiri andadist Vígfús á Kalastödum, voru þeir brædr hans, Asmundr prestr oc Páll rádsmadr í Vídey. Þar eptir giördi snióavetr mikinn, oc lá allt fólk
1596 úti á heidum í verferd.

## LXXXVIII Cap. Málaferli ímisleg.

Þorlákr Einarsson á Núpi vestra, andadist hálfum mánadi fyrir fardaga, var hann þá gamall miög, oc eru nú andadir allir brædr Gissurar biskups. Þá var Jón prestr Loptsson í Vatnsfyrdi tekinn

at rínglást svo miög, at hann framdi alla prests þiónustu siálfr, þá er hann qvæntist í þridia sinni, oc meddeildi siálfum sèr blessan, fyrir því tók Oddr biskup af hönum stadinn, oc vígdi þángat Gísla Einarsson bródr sinn; Jón prestr fór naudugr, oc bad þeim ills er vidtæki; fór hann til Páls sonar síns í þernuvík, enn Gísli prestr þángat oc var þar lengi, enn gèck þó eigi vel. Þá lèt Gudbrandr biskup prenta Confirmatiónarbók í ödrusinni, oc bók um lyklavaldit, píníngar oc upprisu historiu Christs, oc um Jorsalaborgarbrot, aldingard sálarinnar, oc ámynníngu til presta, oc Antidotum Hemmíngii, er Gudmundr Einarsson hafdi útlagt; opt lèt hann prenta fræđi Luthers, oc postillr fyrir fáfroda presta; hann vard nú at fá sèr Arngrím prest Jónsson til adstodar, sökum heilsu-brests hans. Þat sumar kom út aptr höfudsmadrinn Brostrup Giëddè, oc bad lögmenn láta gánga dóm um Grænavatn, enn fyrirbaud leikmönnum at kaupa sakir á hendr klerkum, oc prófföstum á leikmenn edr klerka. Einnin baud hann at prestar þeir er eigi vilji prófastar vera, þá er biskup bydr, skuli missa prestskapar; lögmenn oc syslumenn skyldu eigi dæma um landamerki konúngsjarda oc kyrkna, nema höfudsmadr eda biskup væri vid. Þeir sem hèldi beneficia skyldu missa þau ef níddi miög, oc hefdi verit þremsinnum varadir vid af biskupi. Gudmundi Helgasyni á Eyri í Arnarfyrdi, gaf höfudsmadr upp lífssakir til nærsta þíngs oc konúngs úrskurdar, hann hafdi fallit í hórdómi þremsinnum, enn mágar hans studdu hann, átti hann Arndysi dóttr Sigfúsar Brúmannssonar; konúngr gaf hönum oc sídann líf oc landsvist. Þá var Oddr son Stephans prests Gíslasonar, skólameistari í Skálhollti, bródir Sigurdar, hann var oc vel at sèr. Þessir dómar gengu þá: Gudbrandr biskup oc Jón Biarnarson syslumadr í Skagafyrdi, nefndu Arngrím prest Jónsson oc þriá leikmenn í dóm at Vidvík, þeir dæmdu Magnúsi Biarnarsyni, bródr Jóns, eignarmanni Hofs á Höfdaströnd at vera þar sóknari kyrkiutyunda, sídann Jón seldi Rafni lögmanni, oc Þórunni dóttr sinni jördina. Þá seldi oc Einar bóndi at Hèdinshöfda Nicolásson Þorsteinssonar, med samþycki Kristínar konu sinnar, Gudmundi Illhugasyni Rúgstadi, Gudmundar er fyrri gètit, hann var son Illhuga prests Gudmundarsonar. í Múla, enn bródir Jóns Illhugasonar oc Þorsteins prófasts, oc Ingialds at Reykium í Midfyrdi, er sumir kalla

hinn sterka, enn frá Einari Nicolássyni er mikit kyn komit nyrdra. Benedict Halldórsson lèt dóm gánga á Spialdhaga um Erlend Oddsson, er tekit hafdi undir sig Audbreckn í Hörgárdal jörd hans, oc rofit tvo hèradsdóma oc vísudu þeir til Öxarárþíngs. Gísli bóndi Þórdarson lögmanns, dæmdi um kauparád hreppsmanna, hann hafdi þá fyrir vetri sídann gipt Gudrídi dóttr sína Jóni presti Gudmundarsyni í Hytardal; enn á alþíngi var dæmt um mála qvenna, oc um hrossakjöts átit úr Fliótum, oc tekit heldr hardt á þó hardindi væri i landi, hèt þó svo at þeir einir sektudust er at naudsyniulausu átu, enn sektinn var III merkr, oc húdlát med. I annan stad um vergáng, oc var þar minna vidlagt, skyldi engínn meiga dæmast á fè eda frændr, er siálfr væri fær um at flytia sig, eda foreldrar hans, á hrossi edr annann veg, um allar sveitir, enn ef vant er færleiks, skulu nánustu náúngar til frammfærslunnar skyldir at liá hönum þángat í sveitir, sem hann veit sèr hellst biargarvon. Fyrir þessa skuld þyrptust snaudir menn oc vanfærir svo lengi til hinna betri sveitanna, at þær urdu ofþíngdar, fèllu þeir siálfir unnvörpum er hardnadi, enn frændr þeirra, audugir lidu af þeim engann þúnga. Um sumarit fór höfudsmadrinn aptr utann, oc lèt eptir Erasmus Nicolásson umbodsmann sinn, hann fór vestr í Vatnsfiörd at beidni Isfyrdínga, oc þíngadi þar um lagaleysi Páls á Stadarhóli er þá hafdi Isafiardarsyslu; gèck þar Oddr biskup á milli, enn Páll hèt umbót, oc sefadist med því.

## LXXXIX Cap. Frá Axlar-Birni.

Biörn hèt madr oc var Pètrsson, hann bió at Öxl í Breidavík; til hans kom einn sveinn med systr sinni um qvöld, oc er þau vóru adskilinn, heyrdi sveinninn emjan til hennar, vildi hann þá komast út oc forda sèr, enn fèck því eigi orkad; í því fann hann fyrir sèr ræsi er lá í fiósit oc duldist þar; var hans leitad med med liósi, oc komst hann þó á brott, enn stulkann var drepinn. Kom þetta fyrir Jón lögmann, er þá syslu hafdi med fleirum ödrum, oc Stapa umbod, oc lèt hann taka Biörn; medkèndist hann þá at hafa drepit oc myrdt IX menn, suma til fiár, enn adra fátæka er í nánd voru þá er hann myrdi hina, enn ef hönum vard áfkostr, þá veitti kona hans hönum lid, brá snæri um hals

þeim, oc rotadi med sleggju; gróf hann þá í fiósi oc heygardi, oc fundust fleiri manna bein enn hann medkèndi at hafa myrda, qvadst hann hafa fundit þá dauda, oc nennt ei at flytia til kyrkiu, enn þaraf hafa menn dregit likindi, at hann hafi myrda XIV enn sumir segia XVIII menn; lèt Jón lögmadr dæma hann á Laugarbrecku-þíngi, oc var hann beinbrotinn fyrst á útlimum med sleggium, oc afhöfdadr sídann, enn þar eptir hlutadr, oc sett styckinn á stengr. Er þat mælt, hann gengi hardmannlega at dauda sínum, oc viknadi ecki. Kona hans var þúngud, oc var því ei drepinn, fór hún nordr at Skottastödum í Svartárdal, oc ól þar barn, þat hèt Sveinn, oc var kalladr sídan skotti, oc vard hinn mesti ónytiúngr oc óreidumadr.

## XC Cap. Tilburdir um vetrinn.

Þetta haust var kórónadr Kristián konúngr fiórdi; þá var þat 1597 um vetrinn hinn Xda dag jóla, um qveldit eptir dagsetr, at giördi dunr miklar med stórbrestum sem fallbyssuskot væri, svo heyrdist nordr í land, nær um XII dægr; vedr voru optast kyrr med frostum miklum oc dimmu, oc gèck þat vetrinn allann framm at einmánadi; kom slíkt úr Heklufialli med eldgángi miklum oc landskiálftum, svo at XVIII eldar sáust í fiallinu af sumum bæum; fólk var miög hrædt, enn hverki sakadi menn nè penínga, kom askann í Borgarfiörd, oc í Lón austr, oc allt nordr í Bárdardal, enn í Myrdal var hún í skóvarp eda meira; stód reikrinn úr fiallinu framm um alþíng. Þann vetr á þorra seint, fór Gissr, son Þorláks Einarssonar, med tveimr mönnum frá Rafnseyri, þeir urdu fyrir snióflódi, oc fundust nockru sídar, voru lík þeirra flutt út undir Nup, oc þar jardad lík Gissurar hiá födr sínum, fyrir framan kyrkiudyr. Gissr hafdi verit XII vetr eda meir samann vid Ragnheidi Pálsdóttr frá Stadarhóli konu sína, börn þeirra dóu flest úng, nema tveir synir Jón oc Magnús. Jón átti sídar Þóru Olafsdóttr, oc bió at Núpi í Dyrafyrdi, hann fór utann úngr, oc framadist vel í þískri túngu, oc hagleik í gullsmídi, oc vard svo mikill bókritari, at fáir störfudu eins í slíku á hans dögum, ritadi postillur oc helgar bækr, oc margar frædibækr af fornum sögum ímisligra þióda, landnámum oc annálum, rímnaflockum, oc allskonar qvedl-

íngum, svo nálega mátti í hans rit leita allrar fornar frædi. Sonr hans var Torfi prestr, er fadir hans hèldt til skóla, enn sídann framadist hann í Danmörku um IIII vetr, oc var eitt ár conrector í Skálhollti, enn hèldt sídann Gaulverjabæ, oc verdr seinna getit. Magnús Gissurarson átti Þorkötlu Snæbjarnardóttr frá Kyrkiubóli Torfasonar, Jónssonar í Hiardardal Olafssonar, oc bjó sídann á Lokinhömrum, er sumir kalla Lodkinnuhamra, vitr madr, oc málsnjallr, oc skáld gott.

## XCI Cap. Imislegt.

Um vorit var kránkleikr á sudrnesium, blódsótt, oc dó margt manna; þá var landskiálfti, svo at hrundu bæir í Ölvesi, hrapadi bærinn á Hialla í grunn, oc hvarf hverinn mikli Geysir í Hveragerdi, fyrir sunnann Reyki, oc kom upp annar fyrir ofann túnit, sá gaus miög, enn þó ei sem hinn fyrri, því ei var óhætt at fara um veginn hiá hönum; þar er nú áinn í milli þess sem nú er oc hins fyrra. Oddr biskup hafdi bodit at halda III bænadaga, til at afbidia verdskuldad syndastraff, þegar Hekla gaus. Gudbrandr biskup lèt þá prenta bænabók Andreæ Músculi, spegil hins syndugа, er Gudmundr prestr Einarsson útlagdi, oc ágrip Davids saltara, er Arngrímr prestr tók samann, einnin postillu yfir gudspiöllinn, er hann hafdi siálfr samantekit. Þá brann bær at Miklahóli í Vidvíkrsveit, oc margt fólk inni. Jón bóndi Biarnarson lèt dóm gánga um kyr, er Hólastóls landsetar guldu stólnum med leinandi jöstum, at Vídvík; Arni Biarnarson bródir Jóns, Isleifr Þorbergsson oc Dadi Arnason voru fyrstir dómsmanna. Fór framm vitnisburdr um brèf, sem Jón Pálmason hafdi frammborit í dóm á alþíngi, þá Gudbrandr biskup oc Jón lögmadr deildu um Ósland, at þat var álitit ærulaust, oc innsigli Tuma Þorgrímssonar var ei fyrir því. Gudbrandr biskup oc Jón lögmadr lètu gánga helmíngadóm med XII mönnum, um kærumál Arngríms prests oc Jóns prests Gíslasonar; enn Hákon Arnason um hestsborgun vinnumanns til húsbónda síns. Johan Bucholt kom út þat sumar, oc var höfudsmadr af nyu; hann beiddist á alþíngi dóms á, um Jón Jónsson fánga, er slapp af Arnarstapa fyrir Kristiáni Reeb. Þar dæmdi Þórdr lögmadr um Kolgrímastadi, oc um rángann eyd

svarinn; ecki er þess gètit at öfundarmenn Gudbrands biskups, er verit höfdu, hafi neytt höfudsmanna skiptanna til neinna yfíngá vid hann. Þá hafdi hann gipt Steinunni laundóttr sína Skúla bónda á Eyríkstödum í Svartárdal, Einarssyni, Þórarinssonar, Steindórssonar; þau gátu son í þessum missirum er Þorlákr hèt. Þá andadist Helga á Þíngeyrum Gísladóttr kona Jóns lögmanns, þau höfdu lengi samann verit, oc vard þó ei barna audit svo lifdi; enn Gunnar, bródir Helgu, bjó alla stund at Vídivöllum, sídann Jón lögmadr nádi Reinistad. Biörn Gunnarsson hèldt Múlasyslu oc misti hana, þess gètr Einar prestr Sigurdarson í Heydölum í æfiqvædi sínu, því þeir voru vinir miklir:

Biörn Gunnarsson
Guds vinr sannr
festi vid Einar
fullar ástir;
sá var tekinn
af syslu rádum,
umskipti þau
Einar sturludu.

Þá dó einnin Eyríkr prestr Grímsson bródir Freysteins prests, er gètit er opt ádr, oc mest í æfi Jóns biskups, oc var hann gamall miög.

## XCII Cap. Tilburdir.

Vorit eptir var hey-ekla, oc dæmdi Hákon Arnason at Dyrhólum 1598
í Myrdal um hey-sölu. Þá druknudu X menn af skipi at Hópi í Grindavík. Gudbrandr biskup lèt prenta píníngar historíuna, oc um krossgaungu Christs, oc brunn lífsins, er hann hafdi lagt út siálfr, einnin Galli bók um sacramentit. Gètit er þá vitnisburdar um Hálfdan prest Narfason, at hann hafi at Felli verit um XX vetr í fyrra sinni; hann var veitslumadr at Hólum med Gudbrandi biskupi, oc dó þar; oc er allólíkligt at biskup hefdi viljad annast þann mann, er sannprófadr hefdi verit at hinu mesta fiölkíngi, því minni afgudadyrkan var hiátrú á steinum, oc setti Gudbrandr biskup útaf kyrkiu fyrir þat ef ei var adgiört; oc minna var þat er hann lèt ámynna hardlega um Jón, bónda einn í Túngusveit, er trú hafdi á álfum, minna var oc ordrygti þat er lá á Jóni Magnússyni á Svalbardi um fiölkyngi, oc biskup kastadi þó framm vid Jón lögmann, enn fiölkíngis-sagnir þær hinar miklu um Hálf-

dán prest; má oc vera jafnmikil sè missögn um galdra Hálfdánar sem Sæmundar fróda, oc eigi ólíkara at þar skacki um sannindi, enn í þeirri sögn at þeir Sæmundr hafi skólabrædr verit, þar sem nær fimm hundrud ára eru á milli þess er þeir voru á dögum. Erlíngr hèt son Hálfdánar prests, fra hönum voru komnir Jón oc Sigurdr Ivarssynir, er á Hólum voru á dögum Steins biskups oc knálegir menn. Páll Jónsson á Stadarhóli andadist, nær viku fyrir páskir, hann hafdi IX sinnum utan farit, stundum í málum vid Helgu konu sína, enn stundum í ödrum eyrindum, oc var þrem vetrum betr enn sextugr. Kalladi þá Biörn Benedictsson til Reykhóla, vegna Elínar konu sinnar Pálsdóttr, þar um dæmdu lögmenn Þórdr oc Jón, gètit er oc dóms Gísla Þórdarsonar. Jón lögmadr var vetri yngri enn Páll. Jóhann Bucholt höfudsmadr nefndi biskupa báda í dóm Gudbrand oc Odd, lögmenn báda oc XII lögrèttumenn, þeir qvádust ei vita til at konúngr hefdi stadfest Bessastada samþyckt, þó þat sè hèr ádr synt at svo hafi verit, fyrir því skyldu allar hálfkyrkiur standa med allri þeirra rentu eptir máldögum; skyldu prestar fremia í þeim alla þiónustu á rúmhelgum dögum þegar þyrfti, oc jarda eigendr vidhalda, einnin leggia til braud oc vín, enn taka í stadinn tyundir, lióstolla oc heytolla, er annarstadar guldust presti. Ecki gátu biskupar oc lögmenn samit med sèr kyrkiu-ordinantiuna þó konúngr bydi, því þeim kom ei samann, oc hèldu hverir sínu svari, var þat orsök til at Kristián konúngr fiórdi gaf hana út siálfr sídar. Þá var Jacob Hildibrandsson Vinoch syslumadr í Múlaþíngi, ætla menn hann verit hafi Hamborgari, oc ei miög þockadr þar, hann vildi kaupa af prestum bænhúsa oc hálfkyrknaleigr, oc íllt áttust þeir vid Einar prestr Magnússon frá Reykium Biarnarsonar, hann hèldt þá Valþiófstad, enda var Einar prestr óþeyrinn, oc íllt átti hann, ákærur oc ryskíngar vid prófast sinn Einar prest Sigurdarson í Heydölum, oc marga adra. Þeir Gudbrandr biskup oc Jón lögmadr hèldu þá samkomu at Giliá um uppheldi fátækra presta uppgefinna, af hinum ríkustu beneficiis. Jón lögmadr bad þá Gudrúnar dóttr Einars prests at Stad á Ölduhrygg, Marteinssonar biskups, hún var treg í fyrstu, þótti madrinn gamall, er sagt at Einar prestr hafi látit búa hana sem best, leidt hana fyrir lögmann, oc þrifit af henni faldinn; gèck samann med þeim, oc tókst þat rád, áttu þau eigi börn sem lifdu. Þá qvæntist oc Arngrímr prestr

Jónsson at Hólum, hann fèck Solveigar dóttr Gunnars Gíslasonar oc Gudrúnar Magnúsdóttr Jónssonar biskups, hún var allra qvénna frídust. I þann tíma var prestr í Túngu í Steingrímsfyrdi Þorsteinn son Odds prests Þorsteinssonar á Grund, hönum fòr líkt oc födr hans, fèll í hórdómi med ómaga stúlku, er veiktist af vidskiptum þeirra, misti hann tvisvar prestskapar, enn fèck þó af konúngi uppgiöf saka sinna. Þá skèdi uppgröftr Gvöndar Loka, hann var karl einn illordr oc leidinlegr, oc vildi ná hreppsvist í í Hialltadal er hann var gamall ordinn, enn Þorkèll Gamlason Hallgrímssonar rádsmadr á Hólum, oc hreppstiórar, bægdu hönum frá, hètst hann þá vid Þorkel edr hans nidja, oc dó sídann framm í Skagafiardardölum, oc var grafinn at Goddölum. Þorkell átti dóttr únga er Sigrídr hèt, hún fèck atsókn oc ónádir miklar, oc var foreldrum hennar mein at. Enn eina nótt vakti Arngrímr prestr Jónsson hjá henni um stund, oc hafdi hana í fángi sèr med guds orda lestri oc gódum bænum, qvadst hann þess vænta at vondr andi mundi henni enga ónád veita, medann hún væri sèr í höndum, vard þat oc eigi þann tíma, oc þótti brugdit venju; litlu sídar reid Arngrímr prestr leid sína nordr trödina frá stadnum, fèll þá undir hönum hestrinn, oc svo hann siálfr, enn hann feck áverka af steini í andlitit, oc bar örid alla æfi sídann. Þóttust menn nockrir sèd hafa Loka hrinda hestinum; var þat rád tekit sem haft var í fyrri öld vid þá er heitast höfdu, at Loki var grafinn upp, oc afhöfdadr, oc gengit milli bols oc höfuds; batnadi stúlkunni þó hún væri veikleg, oc lifdi eigi lengi. Enn óvinir Hólamanna lögdu þeim þetta mjög til líta, ei sídr Gudbrandi biskupi enn Þorkeli, oc ætla menn þó at biskup hafi engu um valdit, oc ei hafi verit um rádist vid hann, enn kyr var sagt at Loki hefdi drepit fyrir biskupi, oc keypti hann adrar, oc qvadst kaupa mundi medann nockr fengit í Skagafyrdi, lètti þá oc kúadaudanum.

## XCIII Cap. Frá Grími Jónssyni oc ödru.

I þann tíma var Grímr son Jóns Grímssonar á Ökrum fallinn í útlegdarmál, oc sat á Hólum; hann átti Þorbjörgu systr Þorbergs

Bessasonar, oc voru þeirra börn Jón oc Olafr, Kristín oc Margrét. Grímr átti oc launson er Gunnlaugr hèt, hann var fadir Þorvalds í Hrísey. Þann vetr er Grímr var seinna á Hólum ritadi Gud-
1599 brandr biskup til Bessastada um þarveru hans, enn höfudsmadrinn ritadi til Sigurdar Jónssonar á Reinistad, er þá var syslumadr, at taka hann, vildu engir til verda, er syslumadr var mágr hans, enn Grímr frændmargr, drógst þat svo undann til þess er Grímr fèck landsvist. Þau missiri var dæmt um vígs undanfærlu, oc um vinnufólk, af Gísla Brandssyni, at Stórólfshvoli, enn at Spialdhaga í Eyafyrdi af Byrni Benedictssyni, er þá var umbodsmadr födr síns, um ordinn sveitarskömm oc hvelpa-þiófr; oc af Jóni Illhugasyni nyrdra, umbodsmanni Vígfúsar Þorsteinssonar, um jardir er Olafr biskup hafdi seldar undann Hóla kyrkiu, einnin um kyrkiuskuld, at Sandatorfu, af Þórdi lögmanni Gudmundarsyni syslumanni í Þverárþingi, oc konu dreckt at Backárhollti í Ölvesi, er barn gat vid tveimr brædrum. Biörn Benedictsson keypti hálfa Mödruvelli í Eyafyrdi C hundrud fyrir jardir adrar. Á alþingi dæmdi Oddr biskup oc Jón lögmadr, med XII prestum oc XII leikmönnum, um konur sem ei vilja fedra börn sín; oc samþyckt var þar, at XV vetra gamall madr mætti vitni bera, oc enn um þegngyldi oc þinggiald. Gudbrandr biskup lèt þá prenta eintal sálarinnar at nyu, lífsins veg oc Dominicale, enn í fyrsta sinn leikmanna biblíu, oc þar á bak vid um qvöldmáltidina oc særinguna.

## XCIV Cap. Mál Biarnar Magnússonar.

Biörn sonr Magnúsar Biarnarsonar Jónssonar biskups, hafdi sókt Oddnyu dóttr Jóns Einarssonar frá Bólstadahlíd, heim á heimili hans, Gunnsteinsstadi í Língadal, oc haft hana ofann til Hollta-stada til Teits Biarnarsonar födrbródr síns; Eyríkr bródir Biarnar var med hönum, oc hafdi sett hana á bak med Byrni, enn Jón fadir hennar var ei heima; hafdi bedit Oddnyar Jón Dan af Vest-fiördum, son Magnúsar Jónssonar, oc var hún hönum heitinn, enn kunnleiki var kalladr med þeim Byrni oc Oddnyu; var mál um þetta hátt reist af Jóni Einarssyni födr hennar, oc svo af þeim Magnússonum Jóni Dan oc brædrum hans. Hafdi Johan Bucholt höfudsmadr ridis nordr um land um sumarit fyrir at þinga um

þat at Sveinstödum, oc voru þar Magnússynir nockrir, med Jóni lögmanni födrbródr þeirra, oc þeir brædr Biörn oc Eyríkr, oc Teitr Biarnarson, hafdi þar gengit dómr oc þótti hardmæltr uppá Biörn oc hans fylgiara, oc var mannhelgisgrein sett í dóminn til ályktunar, er hlídir uppá þá menn er hlaupa á braut med eginkonr eda frændkonr manna, at þeir sèu óbotamenn, oc svo þeir sem veita þeim lid; fóru þeir þá utann brædr Biörn oc Eyríkr, oc Teitr födrbródir þeirra, oc komu út aptr þetta sumar, er nú var ádr talit, var málit skodad á alþíngi, oc nefndi Þórdr lögmadr Gudmundarson XII menn í dóm um þau óbótamál er þeir köllndu, er Biörn Magnússon oc hans fylgiarar væri klagadir um. I fyrstu töldu þeir Jóhan Búcholt byrt hafa konúngsbréf, þat, er baud at ransaka mál þessi á Islandi, lètust oc sèd hafa þá súpplicatiu, er þeir brædr höfdu borit fyrir konúnginn, oc þyki þeim eigi rètt í þeirri grein at þar segir Oddny hafi trúlofast Byrni, enn sídr at hún hafi verit hans festarmey, oc töldu sèr lítist þat ránglega fyrir konúnginn borit. I þridju grein qvádu þeir fyrir sig borit hafa dóm Jóhans Bucholts, er hann hafi dæma látit med innsetníngu þeirrar lögmáls greinar, at hverir sem at slíkum óknyttum verda kenndir, at hlaupa ábrott med eginkonr oc frændkonr manna, sèu óbótamenn, oc svo hverir sem veita þeim lid til þess. Enn sídarst hafi verit ályktad, at Eyríkr oc Biörn, oc Teitr Biarnarson skyldu sekir eptir þeirri lögmálsgrein, þar sem þeir sóktu oc fluttu Oddnyu Jónsdóttr frá hennar födrs heimili, enn hafi þó eigi nefnt þá útlaga nè óbótamenn. Nú qvádu þessir dómsmenn þat koma framm, at stúlkann hefdi ecki verit flutt naudug, heldr med liúfum vilia hennar, enn þat standi lióslega í lögum, at þeir sèu óbótamenn, sem taki konr naudugar med ráni oc herfángi, hvert sem eru frændkonr manna eda dætr, fyrir utann vilia þeirra manna, er forrædi eigu á þeim at lögum, oc svo sialfra þeirra fyri því leitst þeim ei þetta óbótamál, nè heldr útlegdarverk fyrir Biörn Magnússon; enn vegna þess Biörn hafi rángt mál borit fyrir konúnginn, leitst þeim hann forgèfins utann farit hafa, oc skyldi hann því nú vera útlægr til náda konúngs, undir slíka myskun oc fridkaup, sem konúngr vill giört hafa, enn Eyríkr haldi landsvist, oc greidi konúngi X merkr, oc Jóni Einarssyni fullrètti, einkum fyrir þá grein: hefdi hann ecki arfborinn verit. Eptir þat

fór Biörn utann, oc fèck qvittan þessara mála utanlands oc innann; fèck hann þá Oddnyar, oc unntust þau vel. Gunnar prestr at Hofi var son þeirra, oc annar Benedict, er átti Gudrúnu dóttr Þorsteins prests Tyrfíngssonar, þeirra son var Þorsteinn í Bólstadahlíd, fadir Benedicts lögmanns, enn dætr þeirra Biarnar voru Rannveig, er gipt var Einari, syni Pètrs Gunnarssonar, oc Solveig, hennar fèck Þorlákr, son Þórdar á Mardarnúpi bródr Gudbrands biskups; þeirra börn voru Þórdr prestr, oc Halldóra, Biörn oc Philippía módr Páls prests Biarnasonar at Upsum. Eyríkr Magnússon, bródir Biarnar, átti Gudfinnu, dóttr Isleifs yngra at Hofi á Höfdaströnd, Þorbergssonar syslumanns Bessasonar, þau gátu mörg börn, eitt var Magnús, er átti Gudrúnu dóttr Jóns Oddssonar í Reykiavík, þeirra synir voru Eyríkr, oc Jón fadir Odds, födr Jóns Hialtalíns, oc var þadann fiölmenn ætt. Teitr Biarnarson födrbródir þeirra Biarnar, átti Þurídi, dóttr Erlendar prests Pálssonar oc Biargar Kráksdóttr, þeirra synir voru Gunnlaugr í Bæ í Borgarfyrdi, Arni fadir Þurídar, er Sæmundr Eggertsson átti, oc födrfadir Þóru konu Páls prests í Selárdal. Jón var hinn þridji Teitsson, hans son var Sigurdr á Backa, oc margt afqvæmi átti hann oc gyldlegt, enn þó fleiri alþídumenn. Þennan tíma band konúngr at reka mál innan VI vikna.

## XCV Cap. Frá ímsu.

1600 Nærstu missiri lèt Gudbrandr biskup prenta Hemmíngii Antidotum ödru sinni, enn af nyu huggunarbæklíng, oc Passíu-prèdikanir, er Gudmundr prestr Einarsson hafdi útlagt, oc svo handbók um trúargreinir, er hann tók samann úr annari bók siálfr. Jón Magnússon, syslumadr í Dölum, dæmdi um misgrun skatts oc tyundar hinn VIIIda dag Maii, enn VI dögum sídar Jón Einarsson á Gunnsteinstödum í umbodi Jóns lögmanns, um landamerki at Bólstadahlíd med VI mönnum. Gudbrandr biskup lèt XII presta dóm gánga at Flugumyri hinn IVda dag Júnii, oc dæma Jón prest Magnússon rèttilega afsettann prestskap, fyrir falsbrèfagiörd med Grími Þórdarsyni, uppá V menn í Fliótum, er þeir sóru fyrir, í nærveru Isleifs Þorbergssonar, umbodsmanns Sigurdar syslumanns at Reinistad; hann setti oc frá prestskap Biarna Olafs-

son í Blöndudalshólum, fyrir vondann lifnad med stelpu. A þeim tíma var miög fátídt í landi; þóttust menn siá orma í vötnum; þat sumar fór utann Páll sonr Gudbrands biskups, til frömunar sèr í lærdómi. Um sumarit nefndi Oddr biskup oc Þórdr lögmadr út helmíngadóm, hinn XVIda dag Augusti, VI presta oc VI leikmenn at Saurbæ á Hvalfiardarströnd, um hálfkyrkiur í Þverárþíngi, eptir þeim dómi er fyrir tveim vetrum var saminn á alþíngi, oc dæmdu þessir vera naudsynlegar, eina á Alptanesi, adra at Lángárfossi, þridju á Ferjubacka, fiórdu at Eskihollti, Vtu at Svignaskardi, VItu at Stóru Gröf, siöunndu at Skardshömrum, áttundu á Sámstödum, IXdu á Hæli, Xdu í Deildartúngu, elleftu at Hesti, tólftu á Indridastödum, XIIIdu at Höfn, fiórtándu í Kialardal; skyldu þær allar haldast med sínum rètti oc rentu, oc sama skilyrdi er alþíngisdómrinn qvad á. Hinn XIVda dag Septembris mánadar þar eptir, var haldit brudkaup Ragnheidar Pálsdóttr, er hún giptist í ödru sinni, med rádi Ara Magnússonar í Ögri frænda síns, hafdi hún kiörit hann fyrir giptíngarmann; fèck hennar Sveinn prestr Símonarson í Hollti, oc fór brúdkaupit framm at Núpi í Dyrafyrdi. Þá var Joachim Solke umbodsmadr á Bessastödum.

## XCVI Cap. Hardi vetr; ímsir dómar oc atburdir.

A Magnúsmessu fyrir jól, dróg myrqva á alla sólina, oc skipti med þeim degi til hardinda; var sá vetr aftaka hardr frá jólum 1601
um allt Island, oc kalladr Lurkr, enn sumir kölludu Þiófr; þá hefi eg heyrt at nordann-menn margir er sudr fóru, hafi ordit úti á Tvídægru, oc er brugdit vid karlmennsku sumra; þeirra hestar frusu þá til bana med dægri, oc engir menn mundu þvílíkann vetr; giördi penínga fellir almennann, var grasleysi, oc lágu hafísar vid land lángt framm á sumar. Saudgródr var fyrst á Jónsmessu, enn fisk tók frá fyri nordann; var þá kallat kynia-ár. Þá var oc kallad í Noregi harda árit mikla, oc alvída voru hardindi; syslumenn ridu nordann Holltavörduheid til þíngs um sumarit; Benedict bóndi hinn ríki frá Mödruvöllum úr Vadlaþíngi; Sigurdr Jónsson frá Reinistad oc Jón sonr hans at nordann úr Þíngeyarþíngi, hann hafdi þar umbod Vigfúsar bónda Þorsteinssonar, er

þá var svo gamall, at Arni Magnússon sonarson hans hafdi tekit vid Múlaþíngi. Jón lögmadr kom at vestann frá Arnarstapa. Þá fór framm vitnisburdr at Jón bóndi Biarnarson hefdi selt, fyrir VI árum þá, Magnúsi bródr sínum hálfa Grund á Eyafyrdi, med reknum oc stökum á Tiörn-nesi, þann tíd misfelli nockrt yard med þeim. Jacob Vinoch lèt dóm gánga at Heydölum í Breiddal um rèttaryrdi, ádr Arni tók þar vid syslu; enn Gísli Arnason Gíslasonar í Rángárþíngi, um óskilamenn vid húsbændr. Lögmenn dæmdu á alþíngi um arfleidslu Olafs prests Kolbeinssonar, oc hórdóm Bessa Arnasonar, hygg eg son Arna er veginn var í Sveinstadareid; einnin um fátæka presta oc beneficia var þar dæmt, oc um fiska skuldir er Islendskir menn ætti þiskum at gialda fyrir sunnann, oc væri ei fiskr til; skyldi gialda fyrir tólfrædt hundrud fiska VI fiórdúnga smiörs, eda XX álnir vadmáls, naut tvævett, eda II saudi gamla, eda XX pör socka; enn fiögra vetra uxi skyldi vera fyrir tvö hundrud fiska tólfræd; sex vetra fyrir þriú hundrud; skyldi svo vera fyrir þá sök at varann þiska var lakari enn fyrir XX árum hafdi verit; mælt er at konúngr hafi þá med brèfi bodit lögmönnum, at hafa dóma endilega í öllum löglegum málum. Þat hafdi ordit, at Johann Búcholt höfudsmadr hafdi tekit skip fyrir einum bónda á sudrnesium, enn Þórdr lögmadr dæmdi bóndanum skipit, þrútnadi þá óvild milli höfudsmanns oc Þórdar lögmanns oc Gísla sonar hans, oc sendi Þórdr lögmadr dóttrson sinn Jón yngra Vígfússon frá Kalastödum, med brèf oc eyrindi fyrir konúng. Jón hafdi verit fióra vetr í þiónustu herra Henriks Rantzows, hins tígnasta manns, oc fengit gódann vitnisburd af hönum oc þat formæli, at börn sín oc nidjar skyldu stoda hann ef hann þyrfti vid, kunni hann oc at haga sèr vel oc var skynsamr oc einardr jafnan. Höfudsmadr sendi bod í allar hafnir vestra oc sydra, oc fyrirbaud at flytia Jón af landi, enn forbodit var ei komit í Vestmannaeyar, oc kaupfarit búit til byriar. Ormr bródir Jóns var þá í Hollti undir Eyafiöllum nyqvæntr, hann tók vid hönum, oc vildi feria hann í eyarnar, oc bad Orm prest Ofeigsson er verit hafdi á Þíngvelli, oc þar var þá, um far, qvad naudsyn vera bráda, prestr synjadi, oc var hann laungum erfidr vidfángs; enn Ormr var svo mikill fyrir sèr, at hann bardi á presti miög svo, tók skipit, oc kom Jóni í farit til Kaupmannahafnar. Jón hitti þar einn sona Henriks Rantzows, því hann var dáinn

siálfr, var sá miög vyrdr af konúngi, oc tiádi hann hönum eyrindi sitt, oc bad um rád oc adstod; sá taldi hann af þeirri ætlan, enn Jón lèt ecki letjast, til þess er hann flutti mál hans vid konúnginn, svo at sakirnar komu aptr undir ransókn; þær þóttu þá ófagrar, enn Johan Búcholt dó ádr þeim lauk; hafdi Jón af þessu nafn mikit, allt til þess er hann eldtist, oc synir hans Jón skön oc Bödvar tóku at brydda á refium sínum, er menn hugdu af hans toga spunnit; enn Ormr bródir hans flúdi austann, undann sonum Orms prests Ofeigssonar, oc bjó sídann at Eyum í Kjós, oc átti mikit afqvæmi.

## XCVII Cap. Skadar.

Þat vard enn til tídinda á þeim missirum, at Hallr Magnússon skáld dó af brennivíns-dryckju; oc skip týndist á Hópi í Grindavík; enn Jón bóndi á Járngerdarstödum, son Teits prests Helgasonar at Reinivöllum, brendi sig til bana á eldi er kom í tjöru, er hann var at skipabrædslu. Gudbrandr biskup lèt prenta bækling um ódaudleik sálarinnar, hreinsunar-eldinn, bænir til heilagra, endir veraldar, upprisu frammlidinna, sídarsta dóm, helvíti oc eilífft líf; oc svo spurníngaqver af trúargreinum; enn þar nærst eptir registr yfir ritnínguna; oc rit Lúthers um andleg hervopn 1602
Sá var annar vetr í hardindunum, oc var hann gódr at vedrátt í fyrstu, enn þó giördi mannfall mikit af sótt oc hallæri, oc var kalladr píníngsvetr; saudfellir vard þá ógrlegr. Þá tyndist á fyrsta föstudag í þorra, farmaskip Skálholltsstadar hid mikla, fyri framann Þorkötlustadi í Grindavík, því ofgrunnt vard fyrir landi, enn geck at fiúk oc myrkr, svo þat nádi ecki Járngerdarstada sundi; var formadr Þórarinn Stephánsson Hallkèlssonar, bródir Jóns prests í Laugardælum, oc Hallkèls prests á Ferjubacka; þeir höfdu lagt út af Eyrarbacka, enn gèck upp landnyrdíngr, oc tyndust fiórir menn hins þridia tugar, oc ein stúlka; þeir voru flestir grafnir at bænhúsinu at Hrauni í Grindavík; oc hefir eigi Skálholltsstadr átt farmaskip sídann. Fiöldi manna flosnadi þá upp, oc er þess gètit at mikil atsókn vard at Skálhollts stad; hugdi bitinn at henni mundi lètta, ef brúinn sú hin siálfgiörfa, eda steinboginn á Brúará, sá er hún hefir nafn af tekit, væri brotinn; fór hann þá

til med vitund eda rádi Helgu Jónsdóttr biskups-frúvar, enn án vitundar biskups, oc braut brúna med mannafla. Biskupi líkadi ílla er hann fèck slíkt at vitá, oc qvad hverki sèr nè hönum happ mundi af verda. Druknadi britinn litlu sídar í Brúará; enn mönnum þótti bindíng á hinum yngri börnum biskups, at Eyríkr hafdi vitsmuna brest mikinn, enn Margrèt var qvenna frídust ödrumeginn á andliti, svo at kinninn var fagrrjód oc blómleg, enn önnr hvít oc visinn. Þá var Oddr Stephánsson skólameistari í Skálholti prestr ordinn í Gaulverjabæ fyrir einum vetri, er Gudmundr prestr Gíslason hafdi uppgèfit, enn Olafr Einarsson hálfbródir biskups hafdi vidtekit skólanum; hann var hinn lærdasti madr oc skáld gott.

## XCVIII Cap. Hyrdstióraskipti oc sakir.

Jóhan Búcholt höfudsmadr andadist á álidnu vori, oc var þá utanstefnt umbodsmanni hans er þá var, Jóhanni Sodecke, at svara málum hans vegna; enn Enwolt Kruse af Wingegardi var höfudsmadr giör, oc kom út; var hann á alþíngi, oc lèt dæma Papey undir konúnginn, fyrir þat er ei voru goldnar þadann tyundir um III ár. Oddr biskup hafdi keypt hana af Jóni á Skridu Biarnarsyni Gunnarssonar, oc var hann afsakadr. Biörn Benedictsson hafdi þá tekit vid Vadlaþíngi af födr sínum, oc hèldt Múnkaþverár-klaustr; enn Jón Sigurdarson lèt dæma at Helgastödum í Reykiadal um frammfærslu; sídann sleppti hann umbodi í Þíngeyarþíngi, oc tók syslu í Skagafyrdi eptir födr sinn, oc lèt gánga dóm at Ökrum um utann-sveitarfólk úr Eyafyrdi, at því vísist tilbaka; enn annann at Lytíngstödum um sveitarmenn fátæka í hrepp at þeir hysist á hverjum bæ. Jón sonr Vígfúsar Þorsteinssonar tók nú vid Þíngeyarþíngi af födr sínum. Madr var tekinn af á alþíngi fyrir qvennamál oc svall, sá hèt Biörn Þorleifsson, biskup ámynnti hann siálfr, oc bióst hann vel vid dauda sínum, qvaddi menn med handabandi ádr hann lagdist nidr, oc baud öllum góda nótt, var hann laus med öllu. Jón bödull er höggva skyldi var gamall oc slæmr oc krassadi miög, enn Biörn lá kyrr fyrir, enn er sex voru kominn högginn leit hann vid oc mælti: högg þú betr madr! lág hann svo kyrr, oc urdu högginn XXX

ádr af fór höfudit. Þat þótti mönnum ángr er á horfdu, oc voru þá valdamenn ámynntir at hafa til slíks starfa örugga menn, svo at landit yrdi ei at undri fyrir þá sök. Þetta sumar vard Gudmundr Helgason á Eyri uppvís at hinum fiórda hórdómi, enn þeir borgudu hann út dætramenn hans, Gísli Arnason Gíslasonar oc Jón Magnússon D..n, med hálfu fiórda hundradi dala; hann hafdi legit sídann fyrir jól, enn andadist í hugsyki eptir alþíng. Helgi Vígfússon Jónssonar Grímssonar frá Sydumúla systrson hans, var lengi kalladr fadir at einu barni hans; hann var fadir Vígfúsar Hellnaprests, födr Arna, födr Vígfúsar, födr Sigurdar skólameistara, er sídann hafdi Dalasýslu, oc bjó í Stóraskógi.

## XCIX Cap. Kauphöndlunar skipti.

Þá kom fyrst dönsk siglíng hingad til lands, er hafdi fengit hafnir allar af konúngi, þvíat Kristián konúngr fiórdi lagdi allann hug á at Danir einir nyti sem mestra kaupfara; urdu þá mikil oc vond umskipti á kaupskap med ödru því er at þraungdi, þó konúngr hefdi allvel fyrir kaupmenn lagt; skyldi svo standa um XIV ár, oc þriár borgir hafa landit, Kaupmannahöfn, Helsíngiaeyri oc Málmey, oc sigla á XX hafnir umhverfis land, oc koma þá í hverja höfn er pass-brèf þeirra endudu er ádr höfdu haft, hvert er voru Hamborgarar, Bremskir eda Lybskir eda hvadann sem voru; gat konúngr þess at hann þóttist án efa hyggia at slíkir kaupmenn hefdi ei haft all-lítit gagn af landinu, enn hann sæi giarnann at hans ríkis undirsátar yrdi þess heldr niótandi, því þeir væri svó meigandi at skipum oc vöru, at slíkt fengi at sèr tekit, væri þeir því skyldir at flytia Islendíngum góda oc ófalsada kaupmannsvöru, heldst miöl, bjór, mallt oc vín, brennivín, klædi oc lèrept, oc hvad sem vidþarf, oc alþídann mætti fá med mögulegu verdi oc kristilegu; enn ef þat væri ei haldit, skyldi sá borgari er móti bryti, svara konúngi; ei skyldu þeir annad flytja enn kaupmanns-vöru, enn eckert sem ónytt væri; ei heldr hæcka verd á vöru sinni, heldr selja sem fyrri hefdi verit eptir fornum landsvana; ei skyldu þeir hafa adra alin, mælir eda vigt enn á Islandi var haft. Þadann var þat at Hamborgar alinn geck hèr lengi

sídann; enn ef ágreiníngr verdr milli nockra kaupmanns oc landsmanna um slíka vigt edr mælir, skyldi kaupmadr skyldr at selja framm pundara sinn eda stiku, eda hvad sem leidrèttíngar kynni þurfa, fyrir lögmann oc lögrèttuna, í þeirri syslu sem höfninn væri, oc skyldi fara at dómi; því þá voru eigi konúngsmælar hjá syslumönnum. Kaupmenn sæki sakir sínar skickanlega fyrir dómum, enn ei med herfángi, ógnan eda hrifsi, oc skal ei kaupmönnum tregdun giörast á málum þeirra. Þvínæst baud hann þeim at hafa lènsmenn landsins í vyrdíngu í öllum málaferlum, oc umgángast vinsamlega vid landsmenn andlega oc veraldlega, svo enginn mætti á þá kæra; bjór ímisleganu, er hinir fyrri kaupmenn höfdu fluttann, afskipadi konúngr med öllu, oc baud at flytia ei annad enn danskt öl vel bruggad, svo at óskemt mætti geyma allann vetr fyrir þá er þat fengi keypt; er svo at sjá sem ölheitr hafi miög aflagst med hinum heldri mönnum hèr ádr þetta var, oc mest sídann; hann bannadi þeim at láta undirmenn sína marga liggia hèr eptir í landinu á vetrum, svo at landsmenn fengi sókt þá heim med vöru sína, mætti þat gèfa efni til dryckiuskapar edr annara ónaudsynlegra hluta, enn hafa lèt hann þá meiga tvo þènara í hverri höfn til at sysla í eyrindum sínum, enn verda landsmönnum til hagnadar þar sem þeir lægi, eda þó til minna tións; XX skip skyldi hvert ár koma út, oc hver borg hafa áqvednar hafnir at annast, enn því at eins fleiri, at naudsyn drægi til, oc konúngr vildi svo. XVI Joachims dali skyldu þeir gialda fyrir hveria höfn, oc afhenda lènsmanninum ádr hann færi hèdann, oc taka medkenníngu hans fyrir; enn ella missa veitíngar þessar. Þau missiri útvegadi Oddr biskup jardir prèsta í Vestmannaeyum.

## C Cap. Andlát oc afqvæmi Sigurdar Jónssonar.

Þetta haust hinn XVIda dag Septembris mánadar, er var fimtudagr í ymbru-viku, andadist Sigurdr bóndi Jónsson at Reinistad, at qveldi fyrir dagsetr, hafdi hann haldit klaustrit XXV vetr; tók Jón sonr hans klaustrid eptir hann med syslunni. Jón lögmadr lifdi þá einn eptir af þeim brædrum. Jón Sigurdarson var eigi líkr födrfrændum sínum at áliti stórmannligu, var módrkyn hans

ei miög fridt sínum. Jón átti Þorbjörgu Magnúsdóttr austann frá Dal Vígfússonar Þorsteinssonar, systr Arna á Eydum, þeirra börn voru Vígfús, fadir Jóns í Lögmannshlíd, Jón fadir Sigurdar á Svalbardi er Gudmundr at Ingialdshóli oc Þorgrímr at Hiardarhollti, syslumenn, eru frákomnir; Oluf er fyrst var gipt Sigurdi presti Jónssyni, sídann Jóni Arngrímssyni prests hins lærda, enn seinast Hallgrími Halldórssyni; oc Kristín, hennar fèck Þorlákr son Páls Gudbrandssonar, þadann er Páll Vidalín. Elín systir Jóns Sigurdarsonar var kona Gudmundar prests at Stadarstad, Einarssonar prests Hallgrímssonar, eru þadann ættir komnar. Önnr systir Jóns Halldóra var gipt Þorbergi á Seilu, syni Hrólfs Biarnasonar, sem Hrólfs ætt er vidkend. Ragnheidr hèt hin þridja, hennar fèck Sæmundr prestr í Glaumbæ Kársson Sæmundarsonar Simonarsonar, þeirra börn voru Kár, Olafr, Sigurdr, Bergþór, Gudrún, Bergþóra. Kár bjó í Vatnshlíd, oc er kyn frá hönum; Olafr var fadir Skúla á Seilu, födr Biarnar prests, födr Jóns prests, oc Stephåns. Bergþór átti Biörgu, dóttr Skúla Einarssonar oc Steinunnar Gudbrandsdóttr biskups, þeirra son var Kár, fadir Olafs, födr Jóns, födr Olafs á Frostastödum, födr Olafs Lectors. Gudrún átti Sigurd son Hrólfs Biarnasonar, gètr seinna afqvæmis þeirra. Bergþóru fèck Arni son Biarnar á Laxamyri, Magnussonar frá Stóradal, Arnasonar Pètrssonar Loptssonar, þeirra börn voru mörg, einn son þeirra var Olafr syslumadr í Vestmannaeyum, annar Jón í Keldunesi, sá er úti vard á Reykiaheidi, módrfadir þeirra Magnússona, Skúla landfogeta oc Jóns prófasts at Stadarstad.

## CI Cap. Hardindi, oc dómar þar útaf.

Nú kèmr hinn þridji vetr í hardindum; vard þá mannfall mikit 1603 af fátæku fólki af sullti um allt Island. Þar um komust þeir á þá leid at ordi, Einar prófastr Sigurdarson í Heydölum fadir Odds biskups, oc Hákon syslumadr Arnason Gíslasonar, merkir menn bádir, í dómi þeim er þeir dæmdu at Egilstödum á Völlum, hinn IIIda Maii, um tyundarhald á jördu. "Sakir mannfalls, húngrs »oc hallæris, falls fátækra, ráns oc dyrtídar, er nú allavega at

»landinu oc landsins innbyggiurum þrengir, hvad lifandi gud betri!" Þá var oc fiskleysi, oc blódsott sú er menn dóu af mörgum tugum samann, í kyrkiusókn hverri, oc eiddust bæir. Ari son Gudmundar Einarssonar lèt um vetrinn XII manna dóm gánga, í umbodi Jóns Sigurdarsonar á Stad, um hve fara skyldi med fátækt flackandi fólk nordann oc vestann ad, er í Skagafyrdi lendir; Isleifr Þorbergsson var fyrstr dómsmanna, oc Arni Biarnarson, Thomas son Olafs Thomassonar, Grímr Jónsson Grímssonar, Sigurdr Markússon frá Hèradsdal Olafssonar, Skúli Einarsson Þórarinssonar; enn Jón Sigurdarson sídar siálfr at Ökrum um þá er drepa innstædr manna; var oc slíkt eigi undarlegt, því at fiöldi manna fèll í Skagafyrdi. Gísli Þórdarson lèt oc dóm gánga um utansveitar menn at Byaskerjum annann dag Maii; enn Jón Marteinsson, er þá er enn sagt at haft hafi Arness þíng, VII dögum sídar at Vatnsleysu, um þá er skèra nidr annara manna pening; Þórdr lögmadr um sveitar tiltölu ómaga, at Heggstödum; Gísli Arnason at Reidarvatni VIIda dag Maii, um þá er eigi flytia lík til kyrkju; oc hinn sama dag at Eskiholti Hans, umbodsmadr son Hannesar Gerkens, um öreiga sem jardir eru bygdar án hreppstjóra ráds. Jón Sigurdarson lèt enn dóm gánga at Vallalaug, um hysíngu á flutníngsmönnum, oc orsökudust slíkir allir dómar af hardindunum, er þá voru miög mikil; enn voru dæmdir fleiri dómar um adra hluti. Jón Sigurdarson dæmdi at Ríp um rèttaryrdi, enn at Lækjarbug var dæmd IVra marka sekt á at sleppa þiófi med þyfi Danir komu þá í allar hafnir, oc var ecki haldit konúngsbrèf, giördust ágreiníngar med landsmönnum oc kaupmönnum. Jacob Winoch hèt kaupmadr í Hofsós, hann drap kock sinn; lèt þá Jón Sigurdarson syslumadr taka hann, oc var þíngat vid Vallalaug, var hann dæmdr utann oc mál hans. Þá deidi Gudrún Arnadóttir á Grund í Eyafyrdi, kona Jóns Biarnarsonar; enn Magnús Vígfússon Þorsteinssonar fèck Sigurdi presti Olafssyni, er átti Ciciliu dóttr hans, oc þeim bádum, Fell í Vopnafyrdi, eru frá þeim ættir, oc því er þessa hèr gètit. Barna prèdikanir voru prentadar á Hólum, er Gudbrandr biskup hafdi útlagt. Þat sumar á alþíngi bad Enwold Krúse höfudsmadr lögmenn dæma um hverjum vogrek skyldi til heyra; ætla menn at þeir hafi ecki grein viliad giöra án konúngs atqvæda, qvádu á

hans valdi þau er voru, á konúngs oc kyrkna jördum, enn dæmdu ei at heldr um önnur at landslögum þó þeir væri beiddir.

## CII Cap. Sama.

Þau hin næstu missiri, er var hid fiórda hardindis-árit, gèck 1604
enn blódsóttinn, oc féllu yfirferdamenn, komu þá hafísar, oc var kallad Eymdar ár; var svo tölu á orpit, at þau þriú ár hefdi fallit í Hegraness þíngi af yfirferdamönnum snaudum VIII hundrud manna, enn yfir allt land IX þúsúndir; voru þó hlutir hinir bestu fyrir sunnann oc vestann. Komu þá qvartanir sárar til konúngsins oc svo höfudsmannsins, oc slíkt hid sama ritadi Þórdr lögmadr til valdamanna í landinu; gengu þá enn dómar margir er af slíku orsökudust. Gísli Arnason dæmdi at Hvoli í Hvolhrepp um fátæka menn sem hnupla oc stela; enn Jón Sigurdarson af Ökrum um vetrinn um óskil leigulida, þar beiddist Þorkèll Gamlason dóms á. Oddr biskup oc Hákon Arnason dæmdu med VI prestum oc VI leikmönnum at Borg í Grímsnesi hinn XIIta dag Maii um fátækra frammfæri; enn Jón Magnússon í Dölum um öreiga oc innstædr manna. A alþíngi var dæmt um eydijardir oc prests-tyundir, oc hve hjón skyldi á framfæri dæma, oc enn fleiri dómar. Jón Sigurdarson er sagt þá hafi enn haft, edr aptr fengit Þíngeyarsyslu, oc Olafr Jónsson hafdi þar umbod oc lèt dóma gánga, er sumir hyggia væri Olafr Bugge, enn adrir ætla Olaf son Jóns rebba Sigurdarsonar í Búdardal, þann er átti Þórunni dóttr Benedicts ríka, oc var fadir þeirra Halldórs lögmanns, Þorvalds oc Sigfúsar; sá Olafr ætla eg oc at væri umbodsmadr Biarnar Benedictssonar mágs síns í Vadlaþíngi, oc hann lèt þar gánga dóm. Þat er þó ei sídr víst at Sigurdr Markússon frá Hèradsdal var fyrir dómum bædi í Skagafyrdi oc Þíngeyarþíngi þessi missiri, oc ætla sumir hann umbodsmann Jóns Sigurdarsonar í hverutveggia stad, enn adrir at hafi þá fengit Þíngeyarþíng. Gudbrandr biskup lèt XII presta dóm gánga at Flugumyri, á almennilegri prestastefnu, hinn XIIIda dag Júnii, oc dæma Jón prest Gottskálksson frá öllu prestsembætti, fyrir þat hann vildi ei synia fyrir dauda tveggia ómaga sinna í húngri, oc svo fyrir óhreinann eyd, bréfa giörd, oc heitbrygdi hans um betran, sídann er hann misti prestskapar í fyrra sinni

fyrir órádvanda medferd á fèmunum Reinistadar kyrkju, er Jón lögmadr hafdi hönum sök gèfit á. Þá fór oc framm sáttargiörd sú vestra, er Ragnheidr Eggertsdóttir í Bæ á Raudasandi, gaf upp Magnúsi presti Jónssyni sakir um ordmælgi oc brígsli vid hana oc fólk hennar, fyrir medalgaungu gódra manna. Getit er oc vid giörnínga, Jóns í Skridu austr, sonar Biarnar Gunnarssonar er þá var andadr, oc Ara Gudmundarsonar í Skagafyrdi. Þá skadadist kona á Skinnastödum í Asum á líáum til bana; oc var prentud útleggíng Selnecceri yfir Esaiam er Gudbrandr biskup hafdi giört. Enwoldt Krúse höfudsmadr kom út um sumarit, oc á alþíng; þó segia adrir hann hafi ei þat sumar út komit. Báru landsmenn fyrir hann naudsyniar sínar, oc bádu hann flytia konúngi allar slíkar þrengíngar er þeir lidu; oc hèt hann því. Bar hann þat framm af konúngs hendi, at prestar skyldu ei tyund gialda konúngi; krafdi þá Oddr biskup at lögmenn oc lögrèttann dæmdi eptir því konúngsbodi, oc var þat giört, oc hefir haldist sídann. Gudmundr prestr Einarsson kom þá út, oc hafdi fengit Stad á Ölduhrygg, oc eigi fyrri, enn Einar prestr Marteinsson var nydáinn. Þá var Hákon Arnason stadfestr af höfudsmanninum, oc hafdi fyrri skipadr verit eptir konúngsbrefi, til at vera giptíngarmadr Helgu Eyríksdóttr danska Jacobssonar. Snæbjörn son Stephans prests Gíslasonar biskups bad hennar, enn módir hennar Gudrún Biarnardóttir stód í móti, enn Hákon samþyckti, oc allir frændr hennar adrir, oc voru þau gefinn samann at Klofa þar Hákon bjó, annan dag Augusti um sumarit; þau áttu eitt barn er Eyríkr hèt, oc lifdi þat módr sína, enn dó sídann, oc erfdi þá fadirinn; þó taladi Biörn Grímsson málari uppá þat hiónaband oc arf eptir Helgu seinna.

## CIII Cap. Dómar oc syslanir.

1605 Vetr sá er þar giördi nærstann, var enn hardr, oc hlutir í útverum litlir, enn engir fyrir nordann land; kom ís mikill fyrir austann, oc rak umhverfis landit, oc sunnan fyrir Grindavík um vertídarlok; rak undann tvö vertídar skip undir jökli. Þá andadist Benedict bóndi Halldórsson hinn ríki í Eyafyrdi, oc þótti verit hafa merkilegr höfdíngi; hèldt Olafr mágr hans Mödruvalla klaustr

eptir hann. Gengu dómar þessir er hellst eru teljandi: Biörn Benedictsson oc Sigurdr prófastr Einarsson létu helmíngadóm gánga um hiónaband á Spialdhaga, var hann þó óendilegr, oc skotit til biskups. Sigurdr bóndi Markússon syslumadr í Þíngeyarþíngi dæmdi VI manna dóm at Keldunesi, um ómaga, eptir ákæru Jóns Vígfússonar syslumanns; þeir vóru fiórir, oc dæmdust þeir at meira hlut á Magnús Vígfússon bródr hans; annann at Grítubacka um Fagrabæ, er Jón prestr Sigurdarson hafdi fengit Olafi syni sínum, at Gudmundr Illhugason mætti þá jörd af Olafi heimta, enn Olafr eiga tilkall til andvyrdis Arnarvatns, er þeir brædr Jón oc Þorsteinn prófastr Illhugasynir, höfdu fyrir III árum oc XX dæmt Hólakyrkiu-eign; var Olafr illa sáttr vid þann dóm oc ákærdi sídar. Jón Illhugason lét enn VI manna dóm gánga í umbodi Sigurdar Markússonar, oc Sigurdr Markússon enn, um selaveidi Múla kyrkiu, oc nótalög á Beneficii lód. Jón Sigurdarson dæmdi at Lytingstödum um kvedskap; er oc getit dóms Hákonar Arnasonar; tel eg því þetta at menn viti hverir þá höfdu syslr, oc hversu lög gengu. Þiófar tveir voru hengdir á Svarthamri vid Blöndu, Jón oc Gunnar. Þau missiri deidi Gunnar bóndi Gíslason at Vídivöllum, er margt fólk frá hönum komit, oc barnabörn öll voru þá frumvaxta. Mikil var þá enn qvörtun um hardindi þau hin miklu, oc þat er af þeim leiddi, bædi vid konúng oc höfudsmann, enda var mikil þraung á fyrir mönnum, ei sídst fyrir klædleysis sakir, þvíad kvikfénadr var svo miög fallinn. Höfudsmadr var á þíngi um sumarit, oc bad lögmenn dæma, hvert konúngr, eda hann, eda syslumadr, skal skada hljóta af því er prestar svara ei tyundum, enn þeir sögdu svo, at med því þær voru ránglega af þeim heimtar í fyrstu, þá væntu menn at konúngr gæfi þeim eptir jafnmikit í stadinn, oc þat vard. Þar lét höfudsmadrinn dæma Ara Þorvardsson réttann erfíngia at Teits fé, þar til annar löglegri reindist. Sídann fór hann utann, oc lét eptir Enwoldt Kristiánsson umbodsmann sinn, syslumann í Gullbríngu syslu, enn vard siálfr lögmadr á Jótlandi; féll þá nidr ákæra Ara vid höfudsmanna-skiptinn. Þá fékk enn Oddr biskup af lögmönnum oc lögréttu, at þeir dæmdu tyundir skyldu gialdast af öllum konúngs oc kyrkiu-jördum til prests oc kyrkiu. Þetta sumar kom út Páll Gudbrandsson, var þat mælt at hann hefdi útanlands eigi midr stundad krúsina enn lærdóminn, oc var födr hans þat harmr;

hann fèck þá Sigrídar, dóttr Biarnar bónda Benedictssonar frá Múnkaþverá, oc Elínar Pálsdóttr, taldi Gudbrandr biskup hönum til qvonarmundar IIII hundrad hundrada, enn Biörg dóttr sinni hálft slíkt; giördist Páll sídann vinsæll madr, enn afbragdsmadr var hann enginn um lærdóm eda adra hluti, oc af veitslum konúngs vid hann segir sídar, voru synir þeirra Sigrídar, Biörn, Þorlákr, Benedict, Páll oc Hákon. Þat sumar baud konúngr at flytia XV lestir brennisteins til Hafnarfiardar, undir umsión Hákonar Arnasonar syslumanns.

## CIV Cap. Frá Oddi biskupi oc Ragnheidi.

Þat bar vid einhvern tíma um sumarit, er Oddr biskup visiteradi Vestfiördu, at hann kom í Hollt í Önundarfyrdi, oc var Sveinn prestr Símonarson farinn í kaupstad, hann var þá prófastr í Vestrsyslunni vid Isafiörd: tók Ragnheidr Pálsdóttir biskupi oc sveinum hans vel oc höfdínglega; sátu þau bædi til samans, oc töludu ímsa hluti at gamni sèr; oc sem biskup var ordinn nockud ölgladr, qvad hann sig þat gruna at einhverr sona Sveins prests mundi verda biskup eptir sig í Skálhollti, oc lètst vilja siá þá. Hún tók því ólíklega, bædi sakir fiölskyldu Sveins prests, oc fleiri annara hluta er hún fann til; voru þá stjúpsynir hennar leiddir framm, synir Sveins prests; biskup leit á þá, oc blessadi, oc er þeir voru frágengnir, qvad hann engann þeirra mundi biskup verda; sídann lèt hún framm leida Gissr son Sveins prests oc hennar tvævetrann, leit biskup á sveininn oc blessadi, oc qvad hann ei heldr mundi biskup verda; Ragnheidr mælti þá: svo er sem ec sagda, at ydr ætlar nú at skiótast herra! hún var þúngud, oc lagdi biskup hönd sína fyrir nedann brióst henni, oc mælti: ecki mun mèr skiótast svo mikit ef sá verdr biskup eptir mig, sem nú ber þú undir þínu brjósti; hún mælti: satt mun þat herra! annadhvert mun hann verda biskup eda meistari, oc felldu þau svo talit. Ragnheidr vard lèttari um haustit, hinn XIVda dag Septembris mánadar, á föstudag um midjann aptan, oc ól svein, oc var sá nefndr Brynjúlfr. Ragnheidr var mikill qvennskörúngr,

vitr, örlát oc höfdíngiadiörf. Sveinn prestr var oc hinn mesti merkismadr í allri hegdan, hvert sem hann var ódruckinn edr eigi, at því er í frædibókum segir.

## CV Cap. Alyktar ord.

Nú er talit hvad til hefir borit á XVIdu öld í landi hèr, eptir því sem eg vissi framast, oc byriud hin XVIIda, vitum vèr þat med sanni at enginn hardindi hafa jafnmikil gengit yfir land þetta, frá því í XIVdu öld, oc til þess er hèr var komit, sem þau er nú eru talinn, oc nærst hefir verit frásagt. Draup vid þat nidr landit, meir enn á hinum nærstu mannsöldrum hafdi verit, oc fyrntist æ meir allr manndómr oc upphressíngar hugr, svo sem merkja má af mörgum qvedlíngum er í þennann tíma oc þar eptir hafa qvednir verit; þó auka þeir meir enn vana þá eymd oc volædi er margir menn reyndu, sem jafnann verdr þegar skiptir til verra; oc er þar um til dæma eitt med mörgu ödru, qvædi er um þennan tíma var orkt, enn nockru seinna prentad í vísnabókinni, oc kallast samanburdr þessarar aldar er nú er vid hina fyrri; þar segir svo:

Frost oc kuldi kvelia þiód,
koma nú skialdann árinn góð,
ecki er nærri öld svo fród
í guds ordi kláru,
sem var hún á villu-árum.

Má þat hèr heyra at aukit er þat sem segir í hinum seinni hendíngunum; má þó til sanns færa, er menn rækti midr at skilja eda stunda rèttann kristindóm, enn giört var ádr vid páfadóm, oc festu færra í mynni, eptir tiltölu, sem laungum hefir þó samfara ordit tækifæri upplysíngar. Enn þó var hleypidóma-samt, oc ecki þess vant, þó hvorfnir væri flestir vidburdir hinna fyrri manna, at margir hèldi fast vid allann óvana fornann oc hindrvitni í öllu því er þeir máttu eda þórdu. Verdr slíkt oc jafnan,

at dæmi eru tekinn til eptirbreytnis af fornum mönnum, edr af ödrum þeim er menn vyrda mikils, um þat er eigi skyldi, enn ecki at manndómi eda dád. Enn svo mikil fávitska var þá med mörgum almúga um andlega hluti, oc þánkaleysi um annad enn vanann einann, at eigi mundu menn eda varla trúa á vorum dögum. Voru þeir oc allfærstir til þess er hèr var komit, sem fræði stundudu, eda vissu hvad ádr hafdi til borit, enn hèdann af tók heldr skyn þat nockut at lysa.

---

# V^ti^ Hluti

tekr yfir öndverda XVII^du^ öld, til dauda Þorláks biskups.

Hèr segir frá fyrirmönnum þeim er uppi voru voru eptir harda vetr; Gudbrandi biskupi, oc fráfalli Jóns lögmanns, er hann var at bódi med Herluff Daae; ritadr mordbrèfa bæklíngr; daudi Þórdar lögmanns oc ímisleg tídindi. Rán Gascona á Vestfiördum, oc Enskra í Vestmanna-eyum. Gasconar afrádnir. Frá Oddi biskupi, oc óvild þeirra Herluffs Daae, oc því ödru er vidbar til þess Commissarii komu út. Mál Gudbrands biskups oc mótgángr, oc lögmanna scipti; andlát Páls Gudbrandssonar, oc frá forspá Odds biskups; sagt frá hestavígi oc ödrum tilburdum, siúkleika Gudbrands biskups, oc herförum Kristiáns konúngs; hefst

at brenna galdramenn. Þar eptir segir frá ímsum hlutum oc fráfalli merkismanna; enn Algiers Tyrkiar koma hèr víd land, heria oc ræna Vestmanna eyar; vörn á móti þeim í Seilunni. Gudbrandr biskup deir; Arngrímr lærdi stendr fyrir stiptinu, enn Þorlákr verdr biskup. Segir frá Gísla Hákonarsyni oc Oddi biskupi oc sonum hans; qvonfáng Þorláks biskups, oc daudi Odds, oc Gísla lögmanns; Gísli Oddsson tekr vid stóli, oc segir frá ímsum fyrirmönnum, enkum Bryniúlfi Sveinssyni; frá Jóni lærda; kemr Hvítivetr oc Pros Mundt verdr höfudsmadr. Segir sídann frá ímsum mönnum til þess er Gísli biskup oc Halldór lögmadr deja; enn í þeirra stad koma meistari Brynjúlfr oc Magnús Biarnarson; batnar sídann árferdit, oc segir frá ímsu því er til bar, oc byggíngum Brynjúlfs biskups; gètr medal annars um mál Gudmundar Andressonar, oc Hospitala setningu; er þó stórtídinda lítit í landi, oc allgott, undir stiórn Henriks Bielka höfudsmanns; fer svo framm þartil er Þorlákr biskup deir.

---

## I Cap. Höfdíngiar oc heldri menn taldir.

Fiórum vetrum eptir Lurk, er einn hefir mestr vetr komit á landi hèr, var þraung mikil medal manna. Þá voru þessir uppi höfdíngiar í landi, svo at vèr kunnum frá at segia: höfudsmadr var Enwold Kruse, Gudbrandr oc Oddr biskupar, Gudbrandr var þeirra miklu eldri; Þórdr oc Jón voru lögmenn, þeir voru miög gamladir bádir, Jón VI vetrum eldri enn Gudbrandr biskup, enn þó var Þórdr eldri, því börn hans voru biskupud fordum, af Jóni biskupi Arasyni, oc skorti fátt í sextygi vetr sídann. Ari son Magnúsar Jónssonar, bródrson Jóns lögmanns, bió í Ögri oc hafdi Isafiardar syslu, hann var manna mestr oc göfuglegastr at siá, rausnarmadr mikill oc audugr, hann átti Kristínu dóttr Gudbrands biskups, þeirra börn voru Magnús á Reykhólum, er átti Þórunni ríku dóttr Jóns á Galtalæk, Vígfússonar Þorsteinssonar; Jón prestr í Vatnsfyrdi er sídann átti Hólmfrídi Sigurdardóttr Oddssonar biskups; Þorlákr er átti Málmfrídi dóttr Gísla Biarnarsonar prófasts Gíslasonar, oc Þórunnar Hannesdóttr frá Snoksdal. Helga, hún ólst upp at Hólum med Gudbrandi biskupi módrfödr sínum, oc fèck hennar sídar Gudmundr Hákonarson. Halldóra, hún var giörfugleg miög, enn giptist ecki. Jón eldri Magnússon bródir Ara bjó at Reykhólum, oc átti Astrídi dóttr Gísla, Þórdarsonar lögmanns, oc börn mörg, oc margt stórmenni er frá hönum; hann var vitr madr, oc hèldt Dala syslu. Jón yngri Magnússon Dan hafdi ecki syslu, hann átti Ingvildi dóttr Gudmundar Helgasonar á Eyri í Arnafyrdi; Biarni var einn son þeirra, fadir Biarna, födr Ingvildar, módr Boga Benedictssonar. Biörn Magnússon bjó á Raudasandi, oc hèldt Bardastrandar syslu, hann var fadir Eggerts á Skardi oc Páls prests í Selárdal. Snæfellsness syslu oc Stapa umbod, oc svo Húnavatns syslu, hèldt Jón lögmadr oc sat at Þíngeyrum, oc hafdi klaustr umbod, enn stundum var hann á Arnarstapa, enn Borgarfiardar syslu alla hèldt Þórdr lögmadr Gudmundarson. Gísli son hans bjó at ytra Hólmi, oc hafdi haldit eda hèldt þá enn syslr sydra, voru börn hans öll roskinn. Steindór son hans var utanlands oc á hendi tignum mönnum. Árni annar son Gísla átti Steinunni, dóttr Hannesar í Snóksdal Biarnarsonar. Henrik átti Gudrúnu Magnúsdóttr systr Ara í Ögri; Gudrídr var gipt

Jóni presti Gudmundarsyni í Hytardal, hann var prófastr; Astrídr Jóni Magnússyni, enn sum voru enn ógipt. Hákon Arnason Gíslasonar hafdi Arness syslu oc bjó í Klofa á Landi; Gísli bródir hans Rángárvalla syslu; Arni á Eydum Magnússon, Vígfússonar Þorsteinssonar, Múla syslu; Sigurdr Markússon Þíngeyar syslu, enn Jón Vígfússon lifdi þá embættislaus; Jón var álitlegr ásyndum, oc hinn audugasti madr, enn lítill skörúngr hafdi hann verit í ödru enn fèsyslan sinni; Biörn Benedictsson á Múnkaþverá hafdi Vadlaþíng; Jón Sigurdarson á Reinistad Hegraness syslu; enn voru þessir menn þá uppi þeir er mannsmót var at, oc ættir eru tilraknar: Finnr son Jóns í Flatey, Biarnarsonar Þorleifssonar oc synir hans; Hannes Biarnarson í Snóksdal; Einar Þorleifsson frá Múla á Skálmarnesi Jónssonar, fadir Þórólfs oc brædra hans; Ormr Jónsson prests Þorleifssonar Gudmundarsonar Andressonar, hann var fadir Jóns prests á Kvennabrecku, födr Magnúsar prests, födr Arna Assessors oc hans systkina; Gudmundr oc Jón Biarnarsynir frá Stóraskógi Gudmundarsonar Þorleifssonar; Einar Teitsson frá Asgardi Eyrikssonar Gudmundarsonar Andressonar. Pètr hèt madr er bjó í Vestfiördum, son hans var Jón er hann kom utan til Englands, oc bjó sídann í Brokey, oc var Fálkafángari, oc kalladr Brokeyar Jón; synir Jóns Olafssonar á Svarfhóli oc í Galltardalstúngu, Dadi silfrsmidr at Felli á Fellsströnd, hann var fadir Halldórs prófasts í Hruna, oc Gísli, oc Olafr á Svarfhóli, er kalladr var illi Láfi, hann var mikill fyrir sèr oc audugr at fè, oc fadir Jóns prests er sídann var í Hvammi í Nordrárdal; Þorleifr á Fellsenda oc Jón synir Biarna Sumarlidasonar; Arnór Loptsson í Liáskógum oc Asgeir son hans; Arni í Sælingsdal son Lopts prests Pètrssonar Loptssonar, hans son hèt Loptr; Skúli Hálfdánarson Gudmundarsonar bródrson Dada, oc synir hans; Dadi á Skardi oc Þorleifr í Búdardal synir Biarna Oddssonar; Gísli bjó í Galltardalstúngu son Jóns Olafssonar á Svarfhóli, hann var fadir Jóns bartskèra oc hans systkina oc Sigmundar, módrfödr Jóns biskups Arnasonar. Pètr Pálsson bjó at Stadarhóli, segia sumir hann hefdi syslu nockra hríd, hann vard snemma blindr; Jón Egilsson at Skardi í Lángadal oc Eyríkr bródir hans; Jón Einarsson Þórarinssonar í Bólstadahlíd bjó át Gunnsteinstödum, Gudmundr bródir hans oc hans son Ari voru í Skagafyrdi, Skúli Einarsson bródir þeirra bjó at Eyríksstödum í Svartárdal, oc átti Steinunni dóttr

Gudbrands biskups, oc börn mörg, hann var kalladr Sauda-Skúli. Ari Gudmundarson sá er gètit var, var fadir Gudmundar í Flatatúngu, sem Flatatúngu ætt er frá kominn. Synir Olafs Thomassonar á Hafgrímsstödum bjuggu í Skagafyrdi, Jón Jónsson Grímssonar frá Ökrum, var annadtveggia á Sjáfarborg eda farinn nordr, hann var fadir Magnúsar á Sjáfarborg, oc Þórdysar er Arni Oddsson átti; uppi voru allir synir Biarnar prests Jónssonar biskups, eda flestir, Jón bóndi á Grund í Eyafyrdi, er syslumadr hafdi verit, Arni í Skagafyrdi, Teitr á Holltastödum, oc Biarni vestr á Briámslæk, oc sonarsynir hans, Biörn oc Eyríkr Magnússynir, Isleifr á Hofi Þorbergsson oc Sigurdr bródir hans; Gudmundr í Gröf Hallgrímsson Sveinbjarnarsonar, hans son var Hallgrímr í Gröf, enn annar Pètr oc var skynsemdarlítill, enn þó frómr, oc tók Gudbrandr biskup hann fyrir hríngiara á Hólum sakir frændsemi. Hrólfr Biarnason bjó í Skagafyrdi fyri vestan Jökulsá, oc synir hans sumir, Sigurdr var mest kunnugr oc Þorbergr, Biarni oc Bessi, þeir voru menn knálegir oc sterkir, enn þó ei á þann hátt, sem fadir þeirra hafdi verit, enn hann var gamall mjög er hèr var komit. Biörn Jónsson bjó at Skardsá; Ingialdr á Reykjum í Midfyrdi son Illhuga prests Gudmundarsonar í Múla, oc hafdi Midfiardar jardir; Gudmundr Illhugason bródir hans í Eyafyrdi, Jón Illhugason hin þridji í Þíngeyar þíngi, er lögsagnari var oc opt er getit; Jón bóndi Ormsson á Einarstödum, oc synir hans þar nyrdra; Olafr Jónsson rebba at Mödruvöllum í Hörgárdal, synir hans voru á legg komnir, Halldór, Þorvaldr, oc Sigfús. Arní Magnússon Arnasonar Pètrssonar Loptssonar bjó at Grítubacka í Höfdahverfi, frá hönum er Grítubacka ætt, Pètr bródir hans í Vík, enn Biörn bródir þeirra á Laxamyri, hann var gyldr um allt oc mikill fyrir sèr. Gudmundr bjó á Siglunesi Jónsson, oc Jón sonr hans eptir hann, sá er fèck Steinvarar Olafsdóttir, oc var fadir Sveins prests á Bardi oc Gudmundar, sem stórmenni er mest frákomit á ofanverdri XVIIIdu öld. Hrafn bjó í Skördum Oddsson Asmundarsonar Sturlusonar, oc synir hans þar nyrdra, þeir frændr voru miklir fyrir sèr oc ódælir. Einar son Nicolásar Þorsteinssonar bjó at Hèdinshöfda, oc synir hans þar nyrdra Nicolás í Reykiahlíd, oc Jón í Hafrafellstúngu oc enn fleiri. Magnús var eystra son Vigfúsar Þorsteinssonar oc bródir Jóns á Galltalæk at faderni, enn fadir Arna á Eydum, oc Einar Asmundarson er átti

Málmfrídi dóttr Biarna Erlendssonar á Kètilstödum; Þorsteinn Magnússon bródir Biarnar á Laxamyri, var oc mikilsháttar madr eystra, oc verdr enn gètit. Þorleifr Magnússon bródir Ara í Ögri bjó at Hlídarenda, enn ei veit eg hvert þá var ordit. Erlendr bjó at Hvoli Asmundarson Þorleifssonar lögmanns. Henrik var fyrir sunnan land oc Torfi, synir Erlendar Magnússonar sem duggúna tók Ensku; Torfi var fadir Þormódar; enn voru Isleifr oc Þórdr synir Ejólfs Halldórssonar, oc synir Ejólfs Einarssonar í Dal, oc synir Hiallta Magnússonar í Teigi, oc allir synir Arna Gíslasonar at Hlídarenda er ei eru ádr nefndir. Didrik son Þorsteins Sighvatssonar; þeir Asgeirssynir frá Lundi, Biörgólfr oc Tyrfíngr, Sigurdr oc Snorri; Jón oc Gudni Eyrikssynir Torfasonar frá Klofa, oc synir þeirra; Brynjólfr á Skardi á Landi var son Jóns, Hákon bjó at Nesi vid Seltjörn, son Biarnar prófasts Gíslasonar, oc var göfugr madr oc ágætr, hann átti Solveigu dóttr Jóns Marteinssonar, Gudmundr var merkilegastr barna þeirra; Gísli bródir Hákonar bjó á ímsum jördum, er hann átti í Dölum oc vídar oc hfsti þær allar; Biörn á Vatnsenda var merkilegastr sona hans, enn mikit var hans afqvæmi. Helgi bjó á ímsum stödum í Borgarfyrdi Vígfússon Jónssonar Grímssonar, oc var fiölhæfr oc allmikill fyrir sèr, oc brugdinn vid margt, hann átti Þurídi, dóttr Asgeirs prests Hákonarsonar, oc jardir margar, oc var fadir Vígfúsar Hellna prests ok systkina hans. Gudmundr oc Ögmundr voru enn uppi synir Halls Olafssonar. Ormr Vígfússon bjó at Eyum í Kjós, enn Illhugi bródir hans at Kalastödum; Vilbiálmr hèt einn bródir þeirra, oc var í Borgarfyrdi oc átti Astrídi dóttr Bödvars prófasts, oc Jónar voru tveir, var annar prestr í Middölum, enn annar Jón sem utan fór med brèf Þórdar lögmanns módrfödr þeirra, oc var sá kalladr Jón Krákr; Gudmundr var einn, er átti dóttr Hannesar frá Hvammi í Kjós, er þá bjó þar, oc var þeirra dóttir Jórun kona Vígfusar í Kyrkiubæ Magnússonar Eyrikssonar, er köllud er Höfdabrecku-Jóka; enn systur Orms í Eyum, voru Þurídr er gipt var Gísla syni Jóns á Svarfhóli, oc Ingibjörg er Olafr átti bródir hans, oc Asta er Þorsteinn átti Magnússon, oc Ingvildr er Jón prestr átti, son Þormóds í Brædratúngu Finnr Steindórsson Finnssonar Arnórssonar á Ökrum, bjó at Ökrum í Hraunhrepp, hans synir voru Sigurdr prestr er seinast var í Miklaholti, oc mikil ætt er frá, Steindór á Ingialdshóli, Jón prestr oc

Eyríkr at Kálfalæk. Eyríkr Steindórsson á Lángárfossi var bródir Finns, oc voru þeir systrsynir Einars Eyríkssonar á Hvanneyri, oc allvel á sig komnir; átti Eyríkr Helgu systr Jóns prests Gudmundarsonar í Hytardal, oc er þadann mikid kyn. Þá voru enn uppi brædrasynir Sigmundar biskups, oc Erlíngr, Jón oc Ormr synir Erlíngs Gíslasonar Jónssonar prests í Hollti Gíslasonar Philippussonar frá Haga, nema þeir hafi þennan tíma dánir verit. Jón var fadir Olafs prests hins fyrra á Söndum, Jón oc Magnús voru í Isafyrdi Gissurarsynir frá Núpi Þorlákssonar Einarssonar, oc enn fleiri meigu merkismenn verit hafa, þótt eg nefni ei alla.

## II Cap. Taldir nockrir prestar.

Prestar voru þá þessir nafnkunnugastir uppi svo at eg viti. Oddr prestr austr í Hofi, son Þorkèls Hallgrímssonar Barna-Sveinbjarnarsonar, oc brædrúngr vid Gudbrand biskup, hann var mikilhæfr; hans son var Biarni er bjó at Asi í Fellum oc hafdi syslu, enn at Bustarfelli sídar, oc Bustarfells ætt er frá kominn. Arni prestr var í Vallanesi Þorvardsson, Einar prestr Sigurdarson í Heydölum prófastr oc officialis; Arni prestr Gíslason biskups at Hollti undir Eyafiöllum, Sigurdr Einarsson at Breidabólstad, prófastr, bródir Odds biskups, Stephán prestr Gíslason biskups í Odda; Ormr Ofeigsson at Kyrkjubæ í Vestmannaeyum, sá er fyrr var á Þíngvelli, oc vellti þar grióti í vík eina til at spilla veidi, nóttu ádr enn hann fór þadann, enn flaugst á vid prest þann er til kom, um hurd; hafdi hann oc átt vid Orm Vígfússon sídann hann kom í Vestmanna-eyar. Olafr Egilsson var þar prestr fyrir ofann leiti, bródir Jóns prests í Hreppholum oc sonr Egils Einarssonar prests hins gamla í Görðum Olafssonar. Henrik Evertsson var í Villíngaholti, hann var þiskr, son hans var Evert sem komst í konumálit, oc rakst af því undir jökul vestr, fadir Snorra á Vadstacksheidi. Gudmundr prestr í Gaulveriabæ son Gísla Sveinssonar, andadist þessi missiri. Páll prestr Erasmusson Villadtssonar var í Hólum. Gunnlaugr í Hruna Jónsson prests frá Vatnsfyrdi, er Oddr biskup tók stad af, Loptssonar. Jón prestr var at Torfastödum, son Þorsteins Sighvatssonar, hann var skáld oc klerkr ágætr,

oc var í Vestmannaeyum sídar. Oddr prestr Oddsson hèldt Stad í Grindavík, enn sídann hèldt hann Reinivelli, oc var merkilegr madr; Ormr Egilsson Kálfatjörn, hann var prófastr. Jón prestr Kráksson var í Gördum, Hallkell Stephánsson Hallkèlssonar á Seltjarnarnesi, Ormr Þorvardsson at Reinivöllum, Einar son Þórdar lögmanns á Melum. Jón Salomonsson prests Gudmundarsonar, at Hesti. Bödvar prófastr Jónsson at Reykiaholti; Jón eldri son hans at Húsafelli, Asmundr Þormódsson frá Brædratúngu Asmundarsonar at Hvammi í Nordrárdal. Jón Jónsson gamli at Stadarhrauni, hann hafdi verit þar er hèr var komit í XVII vetr, enn var sídann í III vetr hins sètta túgar. Jón prófastr Gudmundarson í Hytardal, hann var einna lærdastr þessvegar lands; Gudmundr prestr Einarsson á Stad á Ölduhrygg eda Stadarstad, brædrúngr Gudbrands biskups, Sigurdr prestr Finnsson frá Ökrum Steindórssonar, var í Breiduvík; Skapti prófastr Loptsson Þorkelssonar at Sètbergi; Þórdr prestr Brandsson Einarssonar at Hiardarholti, frá hönum er margt fólk; Gísli prestr Gudbrandsson at Hvammi í Hvammssveit, sá er skólameistari hafdi verit, oc gervilegr madr bródrson Biarna á Fellsenda; Biarni Halldórsson prófastr í Selárdal bródrson Gissurar biskups. Ólafr Jónsson Erlíngssonar af Mókollsætt, á Söndum í Dyrafyrdi, hann var skáld, oc hefir orkt margt andlegt oc klöckt. Sveinn prestr Símonarson at Holti í Önundarfyrdi, prófastr oc merkilegr madr. Gísli Einarsson í Vatnsfyrdi bródir Odds biskups; Snæbjörn at Kyrkjubóli, Torfason, Jónssonar frá Hiardardal, Olafssonar í Þernuvík, hann var prófastr, oc var hans son Torfi prestr fadir þeirra Kyrkjubólsbrædra. Þeir voru nafnkunnugastir prestar fyrir nordann land: Arngrímr Jónsson lærdi, Sæmundr Kársson í Glaumbæ, Olafr Erlendsson at Breidibólstad í Vestrhópi, Sigurdr Einarsson prófastr í Eyafyrdi, Biarni Gamlason at Grenjadarstad, Brynjúlfr Arnason at Bergstödum, er í mörgum þrætum átti, Biarni son Jóns Ormssonar frá Einarsstödum, hann hèldt Helgastadi, oc synir Olafs prests Gudmundarsonar á Saudanesi.

## III Cap. Frá Gudbrandi biskupi.

Gudbrandr biskup var fyrir öllum mönnum á landi hèr í þann tíma um nytsemdir; hann var oc lærdari á flest enn þeir menn

allir er nærstir voru eptir páfadóminn; hafdi hann gódann skilníng á stiörnulyst, oc smídadi af hagleiks gáfu sinni mynd eptir himinhvelfíngu, oc tók poli hæd Islands; tileignadi hann þat fyrrum Johanni Búcholt höfudsmanni, medann vinátta þeirra stód; kalladi hann polihædina á Hólum LXV gradr XLV minútr; adra mynd smídadi hann eptir jardar-knettinum meistaralega, oc tókst á hendr at sína afstödu Islands auglióssari oc rèttari enn fyrri var málud á sjó-kortum, enn þat hindradist fyrir annríkis sakir, mótfalls oc heilsubrests. Af hans undirvísan oc upphvatníngu jokst oc efldist lærdómrinn nordannlands í mörgum greinum, oc heldst heima á Hólum. Jafnann þá er hann var ósjúkr eda óhindradr, vakti hann samtal nockrt yfir bordum, vid lærda menn oc vitra er þá voru nær hendi, um andlegt efni eda veraldligt, eda nockud þat er naudsyn var til, eda nytsemd at, svo menn máttu fara svo fródari sem mettari frá bordi hans, ef mannræñu höfdu eda skynsemd eptir at taka; af þeim hlutum urdu heimamenn hans fróddari oc betr mentadir enn adrir menn, svo sem var Arngrímr prestr Jónsson hinn lærdi, Þorlákr Skúlason dóttrsonr hans, því hann ólst upp med hönum, Gudmundr prestr Einarson at Stad, oc Magnús prestr Olafsson í Laufási; jafnann ydjadi hann nockud, oc var hinn mesti hugvitsmadr oc hinn hagasti, svo hann smídadi nálega eptir öllu því er hann sá, enn var kappsamr at fullgiöra sèrhvad er hann tók upp. Mest sá hann um at vanda prentverk sitt, oc at þat gengi sem best framm, var hann fær um at lagfæra, oc svo segia fyrir hve lagfæra skyldi. Hann hafdi mikla hamíngiu medann Fridrikr annar var konúngr, oc fèck jafnann þat er hann bad hann fyrir sig edr adra, oc var í vináttu vid hina lærdustu menn erlendis, Doctor Pál Matthiasson, Doctor Pètr Winstrup, Doctor Johan Pauli Resenium Siálands biskupa hvern eptir annann; Doctor Nicolaum Hemmíngium, oc Doctor Philippum Nicolaum í Hamborg, er eignadi Gudbrandi biskupi eina bók er hann lèt prenta; enn á dögum Kristiáns konúngs fiórda veitti hönum margt þíngra. Hann var gèstrisinn oc veitíngasamr, ör oc einlægr vid vini sína, gagnordr oc slèttordr, oc miög í móti hræsni oc hègóma hæversku; hann var audugr at fè, oc lèt miög bata Hólastad, oc byggia nya húsit, studiudyr oc lopt yfir; keppinn var hann oc viljamikill, hvad sem hann tókst á hendr,

oc vildi þat framm láta gánga, oc heldr til beiordr vid mótstödumenn sína; þótti þeim hann ágiarn oc óeyrinn fyrir jarda ákærur hans, oc því var jafnann illa med þeim Jóni lögmanni. Hann lèt eptir sig sálma nockra oc eignar sèr siálfum tvo eda þriá; er einn sálmrinn: Gudi lof skalt önd mín inna; oc er nafn hans fólgit í hinum fyrstu ordum í versunum; enn annar: Gud þinn oc herra einn yfir allt; þar er nafn hans hèr oc þar innann um versinn, oc á þann hátt: Gudbrandr Þorláksson biskup yfir allt Hóla dómkyrkiu umdæmi.

## IV Cap. Fráfall Jóns lögmanns oc annat.

Um vetrinn eptir þat er Enwoldt Krúse höfudsmadr var utann farinn, hyggia sumir menn at Jón lögmadr hafi verit umbodsmadr höfudsmanns, oc má þat sannara vera enn hitt er nockrir segia, at hann hafi fengit forrád yfir landi öllu þegar annar höfudsmadr kom; svo er sagt at hann hafi gefit Gudrúnu konu sinni festi eina, oc bedit hana ei lóga, hvad sem í skærist. Þá lèt Gudbrandr biskup
1606 prenta bók Lúthers um andleg hervopn ödru sinni, oc útleggíngu yfir fadir vor Mariagers, er hann hafdi siálfr giört, einnin utleggíngu yfir ydrunar-sálma Davids, oc frædi Lúthers. Þat ætla menn hann hafi þá búist vid nockru áhlaupi, því hann ritadi lánga afsakan, oc fèck hana einum vin sínum, oc bad hann afhenda höfudsmanni þeim sem skipadr yrdi, er hann kæmi út; þar var miög talad um óvild oc rángdæmi manna, qvad hann menn bera sèr í brín konúngsbréf nockr er hann hefdi útvegad; eitt um þat at kyrkiur væri eigi lengr ræníngia bæli, enn annad at menn mættu giptast samann at þridia oc fiórda lid, oc kalla sig efla þar med ósidu, oc annad slíkt; taldi hann fleira er fyrir laungu var skèd; einnin at þeir kalli hann þrætusamann fyrir þá sök at hann vilji hneckja því er órètt var, oc bad höfudsmanninn trúa ecki slíkum sögum. Hafa menn dregit þat samann vid sumt er á eptir kom. Páll son Gudbrands biskups var skólameistari at Hólum eptir Gudmund prest Einarsson. Þá fóru framm dómar at Lambey í Borgarfyrdi um giafir, oc gèldneytarekstr; enn Jón Sigurdarson dæmdi at Vallalaug um illa vadmálagiörd. Þorbergr oc Sigurdr synir Hrólfs Biarnasonar fengu Þíngeyarþíng bádir, oc lèt Þorbergr XII

manna dóm gánga um vorit, at Helgastödum í Reykiadal, um Gudrúnu Þorsteinsdóttr, sem ordit hefdi at bana barni Olafs Jónssonar, var hún dæmd dræp oc deydandi; segir Biörn at Skardsá hún hafi brennt barnit í grautarpotti. Um sumarit kom út höfudsmadr hinn nyi, Herluff Daae af Snödinge, hönum var fastlega bodit at dæma menn at Islendskum lögum; sendi hann jafnskiótt bod eptir Jóni lögmanni vestr á Arnarstapa, oc bad hann koma þegar á fund vid sig, brá hann vid, oc reid skiótt sudr á Nes, var hann fótstyrdr oc þúngfær, því hann var þá siötugr at aldri; hann kom til Bessastada qveldinu fyrir Jónsmessu, oc var hönum vel tekit oc fast druckit, því Herluff Daae var ör at veita; segia menn svo at þá hafi Jón lögmadr þetta mælt: Nú skal Gutti setja ofann; enn óskad sèr at vera þá tvíelleftr; hann gèck í tjald sitt um qveldit at sofa, enn at morgni gèck kona dönsk út undir kyrkiugardinn þar tjaldit stód, oc inn, oc sá at hann var andadr, enn menn hans sváfu þar umhverfis hann; hún sagdi þá til, oc var lík hans látit í kistu, oc grafit vyrduglega hiá kistu Páls Stígssonar höfudsmanns, er þar var sett nidr XL vetrum ádr; ætludu sumir koddinn mundi hafa kæft hann. Hann var lögmadr um II vetr hins fiórda tugar, oc syslunarmadr hinn mesti, oc vel at sèr um atgervi alla. Þórdr lögmadr þóttist þá ei til fær fyrir elli sakir, oc lèt af lögsögn, var kosinn Gísli sonr hans eptir hann; enn fyrir nordann oc vestann komu fiórir undir kosníngu, þeir Magnússynir, Ari í Ögri oc Jón eldri, Biörn Benedictsson at Múnkaþverá, oc Jón Sigurdarson at Reinistad bródrsonr Jóns lögmanns, var hlutad um, oc hlaut Jón Sigurdarson; hann tók þá oc Húnavatnssyslu um hríd, oc var þar umbodsmadr hans Ingialdr Illhugason prests Gudmundarsonar, oc lèt gánga dóm um kúgildi; hann hafdi þá Midfiardarjardir oc bjó at Reykium, kölludu sumir hann Ingiald sterka, var hann fadir Illhuga prests á Vatnsnesi, födr Erlendar prests. Páll Gudbrandsson fèck sídann Húnavatnssyslu. Þá var tekinn af á alþíngi sá madr er Biarni hèt Hildibrandsson, hann hafdi fallit med systrum tveimr; enn um haustid dó Ingibiörg kona Þormódar Asmundarsonar í Brædratúngu, hún var dóttir Þorsteins í Hiörtsey, Torfasonar í Klofa. Þá var oc Jón Sigurdarson á Reinistad ákærdr um peníngahald, af brædr sínum er Þorfinnr hèt.

## V Cap. Frá ímsu.

Eptir andlát Jóns lögmanns andadist mey sú er þau Gudrún höfdt átt samann; bar þá fèd allt undir Gudrúnu, oc var nú kvennsilfr hennar VIII fiórdúngar, enn sumir segia XII. Þótti Arn Magnússyni þat ílla er Gudrún hafdi allt fèd, oc tók at sèr nockud umbod hennar, edr lètst taka, oc hafdi af henni Silfrastadi í Skagafyrdi X tygi hundrud í umbodslaun. Gudmundr Stephánsson sveinn Jóns lögmanns, var rádsmadr hennar, oc vildi fá hennar, enn þat var meinad. Þá vard hún ordud af hönum, enn hún vann eyd fyrir alla menn nema bónda sinn; þó var hún vel til Gudmundar, oc gaf hönum jörd í þiónustulaun hans; svo segia menn at Gísli lögmadr Þórdarson hafi þá ritad Steindóri syni sínum til Kaupmannahafnar, oc rádit hönum til at koma út híngad, oc fá Gudrúnar, því þar var fè vænlegt, enn þat drógst undann at því sinni, oc fèck þó Steindór ærit. Þá var Loptr son Skapta prófasts Loptssonar at Setbergi, prestr at Bessastödum, oc bad konúngr at fá hönum annad kall, var hann þar eptir at Mikla-
1607 hollti. Herluff Daae höfudsmadr var utann um vetrinn. Þá lèt Gudbrandr biskup prenta graduale, bænabók sína, oc forfedra bænabók. Gètit er þá dóms Arna Magnússonar syslumanns at Hialltastödum í Múlaþíngi um vorit. Um sumarit kóm út Herluff Daae, oc hafdi konúngsbrèf um lèni oc festr fyrir syslum oc klaustrum, at menn skyldu halda þeim á medann lifdu, giördi þat mikil umskipti frá því sem ádr hafdi verit; var Jóni Sigurdarsyni med þeim hætti veitt Skagafiardar sysla oc Reinistadar klaustr, oc enn fiórar jardir, enn Páli Gudbrandssyni Húnavátns sysla oc Þíngeyra klaustr, oc Vatnsdalsjardir; oc svo Gísla lögmanni Þórdarsyni Stapa umbod. Þormódr Kortsson Lydssonar ens Danska hèldt þá Kyrkjubæár klaustr. Eitt brèf var um þat at höfudsmenn þeir er nítekit höfdu vid, skyldu stadfesta enn rengia ecki giördir formanna sinna. Reid Herluff Daae nordr til Hóla, fyrir Alþíng, oc med hönum Biörn bóndi Benedictsson, at reka nockr sèrleg eyrindi konúngs vid Gudbrand biskup, er eptirleifar voru af ágreiníngum þeirra Jóns lögmanns; sídann reid hann sudr med XL pund silfrs, reid hann Kiöl til Skálhollts, oc sást þar um sem hönum líkadi, oc þadann á alþíng. Giörnínga fæ eg þá eigi talit merkilega; enn ecki vildi Gudrún Einarsdóttir edr

Ari Magnússon hennar vegna, skila svo Þíngeyra klaustri oc kyrkju Páli Gudbrandssyni í hönd at hönum líkadi, oc vard ágreiníngr med þeim. Þá var prentud kyrkju-ordinantia Kristiáns konúngs. I þann tíma þótti mönnum sem þeir sæi orm þann er sagt er sě í Lagarflióti, oc svo giörla í þremr bugtum, at madr hefdi mátt gánga undir hverja med lángvopnum ef á landi hefdi verit; voru þat þá kalladir fyrirburdir.

## VI Cap. Ritadr mordbrěfa bæklíngr.

Þar eptir giördi vetr gódann miög, enn spillti med sumrinu, 1608
komu þá ísar oc mikil hardindi, oc lá ísinn til Jónsmessu; enn á mánadaginn eptir pálmadag tyndust X menn af skipi á Hópi í Grindavík; þá giördist Olafr bródir Odds biskups prestr í Kyrkiubæ í Túngu, oc hěldt lengi sídann, enn Jón Biarnason var skólameistari eptir hann, frændi biskups, hafdi þó ei utann farit. Þá lět Gudbrandr biskup prenta spegil eilífs lífs; oc hina þridju afsökun Jóns Sigmundarsonar, er hann kalladi sanna undirvísun um þau hrædilegu morda- oc manndrápsbrěf uppá Jón Sigmundarson. Var hann þar í hellst til frekr oc berordr, ámælti oc mótstödumönnum, mest þeim Jóni Olafssyni í Stóradal, sneyddi at þeim falsbrěfa giördina, oc enkanlega Biarna Sigurdarsyni Biarnasonar Torfasonar frá Klofa, er sídar bjó at Stockseyri, enn alist hafdi upp med Markúsi Olafssyni syslumanni, stiúpfödr sínum, bródr Jóns, er þá var fyrir laungu dáinn; setti hann framm sem í spurníngu, hvert hönd Biarna hefdi ecki komit vid þau falsbrěf, enn Biarni vann fyrir þat tylftareyd á alþíngi. Biskup ámælti þar oc miög mörgum fleirum meiri oc minni háttar mönnum, yfirmönnum oc dómendum, fyrir lögleysr oc misjafna dóma, oc kenndi fylgi vid Jón lögmann oc ránglæti hans; fěck hann af því þúnga óvild oc árásir, þó ei yrdi þá at sinni. Enn um þetta leiti kom framm ófrægd sú er hann hafdi fengit af uppgrefti Gvöndar Loka, oc fěck hann ámynníngu harda af konúnginum; fengu oc óvildarmenn hans sěr þadann af ímsa hluti til, sem enn mun seinna sagt verda; voru þá flestir höfdíngiar í tengdum eda mægdum eda ætterni vid Jón lögmann, oc þá adra er hann hafdi ámælt. Þá

kom konúngsbod at þísk oc Ensk hús á landi hèr brytist oc legdist til konúngsjarda er fallnar voru.

## VII Cap. Tilburdir ímsir, oc frá Páli Gudbrandssyni.

Þau missiri var konann brend, sem barninu fargadi í katlinum; þá var á alþíngi dæmt, at ríkisdalr gyldi VI aura í sakeyri, V aura í prestgiöld, tyund oc landskuld, enn VIII álnir vadmáls í konúngs skatt; annar dómr var um hrísklyfiar leyfislaust teknar úr annara landi; þridji var um twísögn á barnsfaderni, einnin um fullrèttis oc hálfrèttis ord. Þeir voru dæmdir rèttir erfíngiar Jón oc Magnús synir Biarnar prests, Jónssonar biskups Arasonar, at fè Þórunnar á Grund, enn Pètr Pálsson á Stadarhóli dæmdist frá því; giördi Jón Biarnarson á Grund, oc frændur hans, þarum, samníng vid Pètr Pálsson oc Biörn Benedictsson mág hans. Ari Magnússon beiddist oc dóms á hvert Gudrún Einarsdóttir væri skyldug at bæta fyrníngu oc vyrdíngar mismun á Þíngeyra kyrkiu, þar sem hún bar framm brèf Johans Búcholts, Laurusar Krúsa, oc Henriks Kraggs höfudsmanna, gèfit Jóni lögmanni, svo látandi, at kyrkiann skyldi standa medann hún væri embættisfær, enn sídann mætti hún mynkast; enn Páll Gudbrandsson bar framm at kórinn væri fallinn; var Gudrún dæmd skyldug, á egin kostnad at láta byggia kórinn, oc betra kyrkiuna oc mynka; enn kúgildunum skyldi hún svara leigufærum, gyldum oc afnámslausum, sem lifad gæti í tvo vetr; skyldi Ari ei fyrri vid klaustr-kúgildin skilinn enn Páli bónda Gudbrandssyni væri þau afhendt. Var þat enn lítit fyrir Silfrastadi, því at eigi vanst á; var konúngsleifi fyrir at kyrkiann væri mynkud; oc er Páll hafdi fengit álag ríflegt svo at hönum líkadi, lèt hann taka til at efna til kóra oc kyrkiu at Þíngeyrum, stód þat smídi nockr ár ádr fullgiört yrdi, enn vandad var þat oc prýdt. Páll skyldi gialda af klaustrinu twö hundrud dali, oc hálfann þrítugasta oc sètta, oc eina ort árlega, enn af Vatnsdalsjördum III oc XL dali oc mann til rédra, oc hálfann fimta tug dala í lögmanns laun, enn af rekum kiöri konúngr sèr, bjarnarfeldi, hvalatennr oc hvalambr. Páll lèt gánga dóm hinn XXIXda dag Julii at Sveinstödum í Vatnsdal um ákæru Þorkèls Gamlasonar Hólarádsmanns kyrkjunnar vegna, til Egils Jónssonar

á Skardi, um selpeníngs-beit hans í Núpsland í Laxárdal; var beitinn dæmd raung, því hún vard ei sönnud, þó Skards-máldagi nefndi selstödu í því takmarki; var Ingialdr Illhugason fyrstr dómsmanna, Brandr Jónsson, Benedict son Teits Biarnarsonar Jónssonar biskups, Biarni son Hrólfs Biarnarsonar, Arni Biarnarson Jónssonar biskups, oc Einar Jónsson. Páll bóndi Gudbrandsson giördist allvinsæll sem sagt er, enn ei miög mikill skörúngr, gódlátr oc veitíngasamr, oc vard eigi all-driúgt í höndum, líkr födr sínum á vöxt, med hærri medalmönnum, biartlitadr oc höfdínglegr at siá. Þau missiri eyddi tvo bæi fyrir austann af ormi, er menn kalla rigni; þá andadist Hákon bóndi Arnason í Klofa, hinn göfugasti madr, enn Einar son hans fèck Ragnheidar Magnúsdóttr systr Ara í Ögri, oc átti II hundrud hundrada í jördum, oc LX málnytukúgildi, var þar í Brautarhollt eitt hundrad hundrada, oc III hundrud hundrada í þarflegum aurum, enn hún II hundrud hundrada, töldu brædr hennar framm hennar peninga, Ari, Biörn oc Þorleifr. Þórdys hèt kona oc var Halldórsdóttir, hún var til heimilis at Sólheimum í Sæmundarhlíd med Thómasi Bödvarssyni systrmanni sínum, hún vann eyd fyrir alla menn, oc var þá med barni, er þess því at eins gètit, at þar urdu af meiri tídindi seinna. Þá hafdi Einar Hákonarson syslumadr, er fyrr var gètit, Arnór Jónsson holgóma fyrir sökum.

## VIII Cap. Imislegt er vid bar.

Vetrinn eptir var í medallagi frá jólum, enn hlutir miög litlir í 1609
útverum; fèllu skridr oc snióflód vída, tók ein hálfann bæ oc fiós at Leifstödum í Svartárdal, oc lètust V menn fyrir, enn bóndi oc húsfreya lifdu í badstofu. Sex-æríngar tveir tyndust sydra med XII mönnum; enn V menn druknudu af skipi fyrir Eyafiöllum, var einn Símon hálfbródir Sveins prófasts Símonarsonar í Hollti vestr; braut vída kaupför; oc brann fiárhús oc stórt hundrad sauda, at Brenniborg í Skagafyrdi, þar datt skar af liósi. Þá var prentad á Hólum Dominicale oc postilla, oo nya Testamentid í VIII blada broti, því þat vildu þá flestir hafa af ritníngunni. Um vorit hálfum mánudi fyrir sumar tók Þórdr lögmadr Gudmundarson sótt

þá er hann leiddi til bana; hann giördi Testamentum sitt, var þat lángt oc gudrækiligt, þar skipti hann med börnum sínum oc barnabörnum fasteigninni, enn ánafnadi sumum jardirnar; áttunda hlut lausafiár síns gaf hann fátækum, oc tilenkadi nockud bædi í qviku oc daudu, sídann andadist hann. Hafdi hann verit III vetr embættislaus, enn VI vetr hins fiórda tugar var hann lögmadr, oc syslumadr í Borgarfyrdi lengi ádr, oc svo alla stund. Páll Gudbrandsson lèt gánga dóm um þrætuland milli Hóls oc Hvamms, er Brynjúlf prest Arnason oc Biarna Olafsson ágreindi um; sá Biarni var son Olafs á Hafgrímsstödum, oc átti XXX börn; hann bjó at Stafni í Svartárdal, enn Bryniúlfr prestr at Bergstödum, oc var jafnann ôeyrinn, var málinu skotit undir Jón lögmann Sigurdarson; hann dæmdi Hóli landit, nema Biarni gæti sannad XX ára hefd. Gudbrandr biskup oc Biörn Benedictsson lètu oc helmínga dóma gánga. Herluff Daae kom út um sumarit, oc byrti konúngsbrèf; eitt at leysast mætti inventaria klaustranna; annad um at syslumadr væri í Vestmannaeyum; hid þridja at lögmenn væri vyrdir; IIIIda at enginn mætti grafa upp dauda menn, sem giört var um Gyönd Loka, enn Þórdysar máli var skotit á frest til annars alþíngis. Pètr Brenner var þá umbodsmadr höfudsmanns. Dómr gèck á þíngi um Fagrabæ at skipan höfudsmanns, af lögmönnum, Gísla Þórdarsyni oc Jóni Sigurdarsyni, oc XXIIIIm ödrum. Þá var Dadi son Arna Biarnarsonar prests Jónssonar biskups, sveinn Odds biskups, hann vildi draga upp hest annars manns úr ísi á Hvitá, oc druknadi þar; sumir segia Arni bródir hans hafi þá oc druknad á ísi í Hrútafyrdi. Vígfús Bödvarsson prófasts frá Reykjahollti var sveinn Jóns Magnússonar, hann reid med húsbónda sínum frá Olafsvík, oc hafdi skilit eptir dómabók Jóns þar þeir höfdu fráridit; reid hann eptir henni, enn Jón oc hans fylgdarmenn bidu hans á medann, oc sátu á hestum, vid fossinn, fyrir nedann Fossárdal, enn er þeir litu vid, var Vígfús á fiórum fótum at grubla í Fossá, sáu þeir þá at hann hlióp á bak hesti sínum, oc er þeir litu hann á bak kominn, ridu þeir af stad, enn sem þeir litu vid aptr var hann horfinn, oc fannst þá daudr í ánni vid sióinn. Jón prestr prinni af Siglunesi druknadi oc þá í Hrauna-ósi, hann hafdi sagt fyrir hvar hann mundi liggia í Bardskyrkiu þann dag er hann reid at heimann. Um haustit gengu dómar; einn af Jóni Magnússyni

syslumanni í Dölum at Ballará, med XII mönnum, hinn VIta Octobris mánadar um íllt rygti; annar at Stadarbacka í Hvammssveit XXta dag Novembris, oc hinn IIIdi í Hvammi XIta dag Decembris, XII manna dómar, um hid sama. Þá var stórfiúkasamt til jóla, oc urdu menn undir snjóflódum, lestist Hólakyrkia annann dag Decembris, oc gèck nær þriár álnir úr farveg sínum; giördi þá þvínærst hardann vetr oc lánghrídasamann; kom fiúk á 1610 einmánadi á Geirþrúdardag, oc hefir verit kallad Geirþrúdarbilr, urdu menn þá úti med fiám sínum í Midfyrdi, oc XIV menn í Borgarfyrdi, oc svo vestr í Kolbeinsstadahrepp; urdu fiártión ógrleg um allar þær sveitir, oc fèllu miög vída peníngar; mundu menn ei slíkann skada ordit hafa í eins dags vedri á landi. Þá druknadi Olafr Clemensson í Stadarsundi í Grindavík med IX mönnum. Sá madr dó at Lundi í sydra Reykiadal er Biarni hèt, lögrèttumadr at vestann, af munnbita sínum, hann var son Moldar-Brands, enn bródir Þórdar prests í Hiardarhollti, oc Olafs prests hins seinna á Kvennabrecku. Þau missiri tóku Vestfyrdíngar upp aptr hvalaskutlan; þá var dæmt mál Páls Alexiussonar úr syslu Einars Hákonarsonar, hann brendi hey fyrir þat hann þóttist eiga tiltölu til jardar.

## IX Cap. Frá Oddssonum, oc enn fleirum.

Oddr prestr son Þorsteins Gudmundarsonar Andressonar, hafdi átta Geirdysi dóttr Torfa prests í Saurbæ Jónssonar priórs Finnbogasonar lögmanns; hann hafdi komist med naudúng yfir Arnfrídi únga, enn sumir ætludu med töfrum, hafdi Oddr lögmadr Gottskálksson þá dæmt af hönum hægri hönd oc eyrunn, enn Páll Stígsson höfudsmadr nádad hann. Arnfrídi hafdi eignast Hallr Magnússon, enn Oddr hèldt Túngu í Steingrímsfyrdi oc dó þar. Seinni kona hans er sagt at hafi verit Sigþrúdr Magnúsdóttir, oc þeirra synir þeir þrír, Þorsteinn prestr í Túngu, er fèll fyrst í hórdóm med úngri stúlku, oc sídann einusinni eda tvisvar, fór útann oc var nádadr af konúngi, oc hèldt Skards þíng seinna; oc Nicolás oc Jón; enn dætr Odds voru Sigrídr oc Gudrún. Nicolás var lögrèttumadr, hann átti Gudrúnu laundóttr Biarna Odds-

sonar á Skardi, þeirra dætur voru Gudrún, er átti Arna Sæmundarson Arnasonar frá Hlídarenda, módir Hákonar í Gördum í Stadarsveit, oc Halldóra, er Vigfús prestr átti vid Hellna Helgason Vigfússonar; fiögr launbörn átti Nicolás, eitt var Barbara módir Magnúsar Hrómundssonar syslumanns í Hnappadalssyslu. Þat er mælt þeir brædr Oddssynir med fleirum mönnum, hafi brotit Mókollshaug vestra, oc fundit kistu í haugnum med hríng miklum í loki, oc undit upp med böndum; enn er hún var á lopt kominn, hafi einn mælt: nú tekst ef gud vill; enn annar því svarad: nú tekst hvert gud vill edr ecki; hafi þá sloppit hríngrinn úr kistulokinu, enn þeim ordit litid til bæarins, oc med því þeir voru fullir hiátrúar, syndist þeim hann allr loga, oc hlupu heim med skyndi at hiálpa bænum, var þá ecki sem þeim syndist; vitjudu þeir aptr haugsins, oc þótti sem hann væri órofinn; létu þeir þá fyrirfarast ætlan sína; eptir þat féllu þeir í qvennamálinn, oc fleirum fylgdarmönnum þeirra vildu til slis; var þat dregit samann at þetta hefdi valdit, því at átrúnadr á slíkum hlut heldst framm á vora daga med alþidu sumri; enn helist til ættgengt var þeim qvennafarit oc eigi gróf fadir þeirra í hauga. Jón Oddsson bjó undir Felli í Kollafyrdi, oc sídann í Tialdanesi, enn seinast í Fagrey; hann átti Steinunni dóttr Jóns Halldórssonar at Fródá, oc Ragnhildar Egilsdóttr, enn systir hennar var Sigrídr, sem hafdi selt Dada Biarnasyni á Skardi hlut í jördu ári ádr enn nú er komit tilburdum, oc átti at vera hjá hönum; hafdi Jón flutt hana þángad á páskadaginn, oc var hún framm um hvítasunnu, oc þycknadi alltjafnt, sem barnsþúnga hefdi, enn hún sagdi blód stædi med sér; um hvítasunnu beiddist hún orlofs at finna systr sína í Fagrey; kom Jón eptir henni, oc fór hún med hönum; enn er hún hafdi verit í Fagrey V eda VI víkr, tók hún miög at þíngiast, flutti Jón hana þá í land, oc fèck hún hrídir á siónum, þau komust til Dagverdarness, því þar hafdi Jón fengit sér selstödu, oc var kona hans í selinu allt sumarit; oc sem fólk þar merkti siúkleika hennar, vildu konr vera hjá henni, enn hún þádi þat ecki; þau Jón fóru badi úti fiós, oc konr eptir þeim; hún sturladist því meir sem þær vildu lidsinna henni, enn Jón bannadi þeim at leggia til hennar. Þadann fóru þau ofann ad sió at lóni nockru, oc dvöldust þar framm á nótt, sídann komu þau heim, bar hann hana eda studdi, oc fóru í badstofu, bjó hann

um hana undir palli, oc mátti enginn annar nærri koma. Þar lá hún í III daga, stód sídann upp oc var horfinn þycktinn, oc fór med Jóni í Fagrey, þóttust menn hafa séd þau í einni sæng; var þá Jón rygtadr um haustit um dulmæli oc mord, þíngadi Jón Magnússon syslumadr um þat þau þíng er fyrr er getit, oc var Jóni dæmdr siöttareidr. Seinna var þíngad á Stadarbacka, oc Jóni bodit at koma, enn hann strauk frá Konu sinni oc VII börnum úngum; tók Gísli prestr Gudbrandsson Sigrídi til Hvamms, því hann átti módr hennar; ritadi þá syslumadr Gísla presti at hann vildi ei hann hefdi Sigrídi á bæ sínum oc hlíddi hann því, lèt hana frá sèr til Leysíngiastada nærsta bæar, oc fæddi hana þó, enn hún hvarf um qveld, oc hlióp á brott med Jóni Oddssyni; gengu þau yfir Svínadal, nordr í Kollafiörd, oc hôfdust vid í hellir einum nærri Felli, þartil er annad sumar kom, oc nú er komit frásögnum. Leitudust þau þá vid at komast af landi, oc komst Jón á skip til Enskra í Dyrafyrdi, enn henni skutu þeir á land, því hún var þúngud oc kominn at falli, var hún þá med aungvitum oc örvæntíngar ordum. Þar var hún tekinn oc færd syslumanni, oc ól barn, þat hèt Þorleifr. Komst Jón í England oc qvæntist þar, oc vegnadi allvel; hann kom híngad undir land á fiskiduggum sídann; oc átti hann afqvæmi vestra; son hans einn var Brandr, fadir Kára oc Jóns í Ædey. Þau missiri var Sigurdr Markússon umbodsmadr Jóns lögmanns Sigurdarsonar í Skagafiardar syslu, oc lèt þat dæma at steck eda fiárhús mætti ei setja nær annars manns landi enn tvôhundrud fadma tólfræd, nema þar sem eru löggardar í milli bæa, eda þeirra gyldi. Þá dó í Skálhollti Gudny Sigurdardóttir födrsystir Odds biskups, oc Þórunn eckja Einars prests Marteinssonar at Stadarstad, systir Jóns á Svarfhóli. Þá andadist oc Jón Vígfússon at Galltalæk, í fadmi Önnu Eyólfsdóttr módr sinnar, oc tók miög litlu ádr hann dó móti öllum giöldum af jördum sínum á XVII hestum, oc gegndi þeim öllum; voru dætr hans Helga, Hólmfrídr oc Þórunn allar yngri enn tvítugar, oc áttu þær VI jardir í módrarf, enn Jón átti siálfr XXXII jardir. Svo segia menn at þau missiri hafi háfis komit fyrir sunnann, oc verit mikill selafengr á, oc þá væri biörn unninn í Herdysarvík af Knúti Hermannssyni, hinu mesta vesælmenni. Þá var Herluff Daae utann, enn Pètr Brenner umbodsmadr hans. Giördist þá Jón Biarnason skólameistari í Skálhollti prestr at Fells-

múla, enn tók vid af hönum Jón son Sigurdar prests Einarssonar at Breidabólstad, bródrson Odds biskups. Lèt þá Gudbrandr biskup prenta frædi Lúthers hin meiri, oc Pancratii postillu, er hann hafdi lagt út siálfr.

## X Cap. Frá ímsu.

1611 Önnr missiri var vetr gódr; enn menn urdu bráddaudir vída; myrdtu tveir menn einn í sió eystra, oc vóru þeir afteknir, oc svo madr í Steingrímsfyrdi er víg vann, oc Sigrídr barnsmódir Jóns Oddssonar, henni var dreckt í Ballarárhlíd; mörg voru þá mord oc óöld, enn sumir sködudu sig siálfir; Stephán prestr Gudmundarson á Undirfelli var einn, er stack sig viljandi med knífi til bana; á Vestfiördum voru skutladir hvalir margir; þar þóttust menn siá aptrgaungu, oc þreifa á; tóku margir menn miög at leggia trúnad á galdra oc forneskju í þann tíma; var sá madr á Vestfiördum er nafnkendr var ærit, oc haldinn fiölkunnugr miög, Þorleifr er kalladr var Galdra-Leifi Þórdarson, launsonar Þorleifs á Mödruvöllum. Gudbrandr biskup lèt þá prenta Calendarium, oc bænabók Musculi, eintal Mölleri, oc um dómsdag, ydrunarspegil oc handbók Mölleri, er hann hafdi lagt út. Jón Sigurdarson lögmadr lèt dóm gánga at Hofi hinn VIta Aprilis um rádspiöll, enn Páll Gudbrandsson hinn XXIta dag Maii um Gil í Svartárdal; eru þar fyrstir dómsmenn Isleifr Þorbergsson, Thomas Olafsson oc Biarni Hrólfsson; á alþíngi var dæmt um skatt oc skatthald; þá kærdi Gudbrandr biskup Jón lögmann Sigurdarson fyrir tilhlidran vid Biarna Þorkelsson á Vidvík, er biskup átti mál vid um Háls í Kinn; enn Gísli lögmadr Þórdarson oc Jörgen Daniel umbodsmadr höfudsmannsins, oc lögrèttann öll, fríkendi lögmann frá þeirri ákæru; taldi oc biskup á Jón Sigurdarson, at tæki reka frá stólnum á Skaga, enn Jörgen Daniel gèck á milli oc adrif, oc komst á sætt hinn VIIda dag Augusti; mánadi sídar eda hinn XIta Septembris, giördi Gudbrandr biskup Testament um prentverk sitt; qvad Pál son sinn skyldi med fara eptir sig, ef hann hefdi vilia eda manndóm til, enn ella skyldi þat vera á Hólum, ef eptirkomendr sínir vildu nockud prenta láta gudi til dyrdar, oc gódum mönnum at gagni. Biörn bóndi Benedictsson

lysti því yfir at hann hefdi goldit C dali fyrir þridja hórdóms brot Pèturs Þorgrímssonar, hann hafdi fengit þá linun. Þá var kallat skridnahaust því at þær fèllu vída oc spilltu.

## XI Cap. Frá Gudbrandi biskupi oc málum.

Vorit eptir komu hafísar, oc giördi hardindi oc fiárfellir, þó ei 1612
yrdi til lángframa þadann af; enn fyrir því at svo mikil hardindi voru á undann farinn, veitti landinu vidrèttínginn torveldlega; voru regn stór fyrir Jónsmessu, oc jardföll ógrleg í austrdölum í Skagafyrdi, hliópu framm skógar yfrit miklir, oc rak ofann í hólm, oc vídar um Skagafiörd, því at Hèradsvötn stemmdust, enn fórust bæir tveir. Þá hlióp framm Eyafialla jökull austr í siá, oc kom upp eldr svo mikill at sá hvervetna fyrir nordann land; nú lætr Gudbrandr biskup prenta vísnabókina, oc rit Arngríms prests lærda móti Blefken, er lastadi Islendínga úr hófi, rak hann þar í med sannindum allann þann hègóma er hann hafdi sett samann. Hinn XXta dag Martii mánadar ritadi Gudbrandr biskup brèf um Jón Jónsson at Helgavatni, sagdi hann hafa fyrrum, þá Jón Jónsson lögmadr hèldt Þingeyra klaustr, farit med drauma-vitranir, oc spáfarir, oc nockrir hefdi þar hneigslast af, oc haldit slíkt gudlegar oc sannar opinberanir, enn þó viti menn at þat voru ei nema diöfullegar missyníngar; nú kèmr enn fyrir mig, sagdi hann, at hinn sami Jón kèmr upp med enn annat sèrlegt, þat ecki er samhliódandi vid guds ords kènníngar, um álfamenn oc annad þvílíkt; oc sè þetta sannfregit, þá hæfir ecki at slíkr sè lidinn í kristilegri samkundu, ef hann vill ecki af slíku láta; ecki hæfir oc heldr at hönum sè þar byggt í midri sveit; hafi hann svo mikil mök oc slíkt vid álfamenn edr huldufólk, hví gèfr hann sig þá ecki til þeirra? Þat á ecki samann at hann hafi sámlag vid kristiliga kyrkiu oc kristna menn, oc diöfla edr álfafólk; hèr fyrir ámynni eg enn-nú ádr nefndann Jón at hann leggi af slíka forneskju, oc láti sèr nægia guds ord þat fyrir hönum er kènnt oc predikát, oc hann siálfr les oc veit; enn verdi hann at því kunnr edr sannr hèr eptir, þá hæfir ecki at hönum sè gèfit heilagt sacramentum; enn hvad hann fer med annad þá heyrir þat veraldlegu valdi at straffa eptir lögum oc dómi, oc gódra manna rádi; bífala

ec svo hans presti sira Steingrími at lesa þetta brèf fyrir Jóni ádrnefndum, almennilega, vid kyrkiu edr á þíngi, svo hann heyri; oc svo líka skicka sèr hèr eptir oc hegda, ef nefndr Jón vill ecki at sèr siá oc afláta; þetta er mín fullkominn bífaling, oc þar fyrir set eg mitt vanalegt signet. Gudbrandr biskup var þá siötugr er þetta bar til. Lèt þá Þorbergr Hrólfsson hinn 1ta dag Maii gánga XII manna dóm at Helgastödum í Reykiadal, um siö áverka er Jón Hallsson fèck af exi Biarna Magnússonar, er þeir skiptust vid, oc Jón hafdi vanvyrda dóttr Biarna; dæmdu þeir konúngi mörk fyrir hverja ákomu á höfdinu, enn hálfa mörk fyrir hverja á höndunum, oc fèlli nidr fiórdúngr bóta fyrir sakir Jóns. Þorbergr bjó at Seilu í Skagafyrdi, þó hann hefdi Þíngeyar þíng, enn Sigurdr á Vídimyri, oc áttu því allopt lángt tildráttar til at gegna þar vel málum; þeir voru gæflyndir menn optast, enn sterkir at afli; Sigurdr var mikill, enn Þorbergr var medalmadr vexti, oc álitlegr ásyndum. Þat vor tók Halfdán prestr Rafnsson Undirfell, hans nafn hafdi Magister Halfdán laungu sídar; þar var Páll bóndi Gudbrandsson vid staddr. Þá lèt Jón Sigurdarson VI manna dóm gánga vid Vallalaug, hinn XVIda Julii um þíngvíti oc bodfall, dæmdist þíngvíti eyrir, enn fyrir konúngsbrèfa-þíng oc manntals-þíng, manndráps-þíng oc hreppstjórnar-þíng tveir aurar, svo af einyyrkia sem gyldum bónda. Þar hèldt hann oc þíng um Þórdysi Halldórsdóttr, svo at Gudbrandr biskup var vid, oc Jörgen Daniel, hann hafdi komit út um sumarit med Herluff Daae, oc var umbodsmadr hans, því at hann fór utann; medgèck nú Þórdys at hún hefdi fallit med Thómasi Bödvarssyni, systrmanni sinum; hann hliop af þínginu, oc var elltr, enn nádist ei; komst hann austr á land, oc þadann í England, enn Bergliót kona hans giptist aptr í Vestfiördum; kom hann aptr oc vildi sækia hana seinna, enn hún vildi ecki fara. Konúngsbrèf hafdi komit med Herluff Daae, um konr þær er eigi vildu segia til fadernis barna þeirra, at þeir skyldu ámynnast þrisvar, enn ef ei skipudust vid at því giörfu, skyldi syslumadr láta pinta þær í vidrvist prófasts oc VI merkilegra manna, svo at bödullinn lèti klemmu á fingr þeim; konu var dreckt á Vestfiördum er fèll med fedgum tveimr. Þá fèck Gísli lögmadr Þórdarson þat af konúngi, at Steindór sonr hans skyldi vera skólameistari í Skálhollti, enn af því hönum dvaldist utannlands, í

þiónustu Steins Brahe, hins tignasta manns, þá var Arni sonr Odds biskups settr fyrir skóla, tvítugr at aldri, hafdi hann verit þó III vetr í Kaupmannahöfn. Sótt gèck um haustit framm um jól, er köllud var mergrunasótt, oc var hún ecki mannskæd.

## XII Cap. Frá Gvascónum, oc nockud um landshöfdíngia.

Önnr missiri var vedrátt stormasöm med siáfargángi, enn hluta- 1613
samt um Sudrnes; druknudu þá ímsir menn; einn var Jón skútuformadr í Selvogi. Þá er gètit um vorit dóms Jóns lögmanns Sigurdarsonar, at Lytíngstödum, um bit á fíngri Jóns Jónssonar, er hann kèndi Magnúsi Oddssyni; oc helmíngadóms med Arngrími presti, um Lögmannshlídar kyrkjuportión, er erfíngiar Helgu í Dal Jónsdóttr biskups Arasonar skyldu svara; seinna dæmdi hann annann med Gudbrandi biskupi, um ágreiníng Skúla Einarssonar á Eyríksstödum er átti Stafn, oc Brynjúlfs prests Arnasonar á Bergstödum um Fossárdal. Þá lágu hvalaskutlarar úr Gvasconia, þát er á milli Fracklands oc Spánar, hèr vid land, adrir kalla þá spanska verit hafa, eda frá Biscaja, þeir voru á XVIII skipum, oc meinlitlir í fyrstu, enn er stund leid tóku þeir at giöra glettíngar sumstadar; eitt skip þeirra fyrir Vestfiördum fèck hafvillu, oc rákust þeir vestr í haf, oc rötudu í ís oc voru í IX daga, komu sídann at landi er menn ætludu Grænland verit hafa, oc þó med hörkubrögdum. Skrælíngiar skutu á þá beinörvum sínum oc felldu III menn, enn fólust svo at hinir sáu engann; sídann hèldu þeir frá landi oc þóttust heppnir, enn er þeir komu framm á sjóinn, sáu þeir söfnudinn á landinu, oc var ógrynni lids at siá; þeir sigldu þadann til Islands, undu upp skip sitt oc bættu, oc fóru brott um vetrnætr. Islendíngar budu þeim engann ómaka þó þeir ertust vid þá. Um sumarit kom út Herluff Daae, oc hafdi ímsar sakir á hendr Gísla lögmanni Þórdarsyni, var sú ein, at hann hefdi leift fálka tekju nockrum útlendum manni á Snæfellsnesi. Þá qvæntist Arni sonr Odds biskups, oc tók at stunda lögvísi, hann fèck Helgu dóttr Jóns Vígfússonar á Galltalæk, oc Ingibiargar Biarnardóttr prófasts Gíslasonar; þau áttu eitt barn er Ingibiörg hèt. Herluff Daae hafdi út konúngsbrèf uppá supplicatiu Gud-

brands biskups um Hólastóls jardir er seldar höfdu verit undann stólnum; sendi hann eptir Gudbrandi biskupi, oc bad hann koma til alþíngis; biskup sendi Þorkel Gamlason, oc dæmdu lögmenn bádir, Gísli Þórdarson oc Jón Sigurdarson eptir brèfi Kristiáns konúngs þrídja fyrir LVII vetrum, at aptr skyldi leggiast án lagasóknar jardir þær allar, er Olafr biskup oc Gudbrandr biskup siálfr hefdi selt undann dómkyrkiunni, oc biskup skyldr at næstkomandi fardögum at taka þær aptr allar, oc selja þat lausafè er fyrir hverja þeirra er til hans komit, þeim mönnum í hönd er leida sig til, enn þar sem kyrkjan hefir eckert fengit svari hann engu; skyldi syslumönnum öllum í hverri syslu þar sem þær jardir liggia, skyldt at fylgia framm þeim dómi, svo kyrkiann nædi síuu, enn þeir andvyrdi er áttu at hafa. Þá fèck Ari Þorvardsson Herluff Daae skjöl sín er hann hafdi fyrir Teits eignum, oc samdi vid þá er í móti hönum voru, Hannes Biarnarson í Snóksdal oc erfíngia hans, oc gaf þá qvitta. Mörg voru í þann tíma barngetnadar mál í landi.

## XIII Cap. Andlát oc ætt Jóns Biarnarsonar.

Þetta sumar andadist Jón bóndi Biarnarson at Grund, merkilegr höfdíngi; hann átti mörg börn, dætur allt. Helgu átti Oddr biskup; Halldóru átti Halldór son Olafs á Mödruvöllum Jónssonar rebbá í Búdardal, þeirra börn voru Benedict oc Hallgrímr, Jón, Gudrún, Margrèt, Helga, Sigrídr, Valgerdr. Halldóra önnr var gipt Þorvaldi Olafssyni á Audbrecku, bródr Halldórs; þeirra börn voru Jón, Benedict, Biörn, Dadi, Gudrún, Þórun; þat heitir Audbrecku ætt. Þóru dóttr Jóns bónda átti Snæbjörn prestr á Kyrkiubóli í Lángadal, Torfason, Jónssonar frá Hiardardal Olafssonar, hann var prófastr, oc vard ofsterkr, oc gaf þá Kyrkiuból fyrir beneficium, þeirra börn voru Biörn prestr, oc Torfi prestr oc Þorkatla. Biörn prestr var lærdr vel, oc verdr hans gètit sídar; Þorkatla átti Magnús bartskèra son Gissurar Þorlákssonar oc Ragnheidar Pálsdóttr; Torfi var prestr at Kyrkiubóli, hans synir voru Snæbjörn fadir Eggerts á Kyrkiubóli, Teitr er sídar mun gètit, Einar prestr at Stad í Steingrímsfyrdi, oc Páll syslumadr í Isafyrdi, fadir Snæbjarnar födr Magnúsar prófasts á Söndum oc brædra

hans, einnin Þorsteins í Búdardal, oc Teits prests födr Jóns biskups; Þorsteinn var enn Torfason, enn dætr voru Ragnheidr, Ragnhildr oc Margrèt. Kristín dóttir Jóns Biarnarsonar gat barn vid Byrni Magnússyni brædrúngi sínum, Þeim er fèck Oddnyar, konúngr nádadi Þau, enn Kristínar fèck Dadi son Arna Oddssonar í Midgördum oc Dortheu Þísku, hann fór nordr oc var syslumadr; Þeirra börn voru Þorleifr bartskèri, annar Arni at Asgeirsá, fadir Þeirra Dada, Þorleifs, Magnúsar oc Jóns, Odds snickara er vída fór um lönd, oc fánginn vard med Tyrkium oc leid margt íllt, oc hreysti sig æ vid Þat at úti á Islandi mundi hann deja oc drukna annadhvert í Svartá edr Laxá, oc svo vard, oc Þorleifs prests at Kalfafelli, hann var prófastr, oc fadir Biarna prófasts. Elín var dóttir Arna, módrmódir Biarna á Þíngeyrum. Margrèt hèt ein dóttir Dada, er átti Jón prestr á Melum, son Jóns prests í Vestmannaeyum, Þorsteinssonar, Sighvatssonar, Þeirra son var Dadi syslumadr í Kjós, enn annar Þorleifr prestr á Kvennabrecku. Gudrídi dóttr Jóns Biarnarsonar átti Torfi prestr í Flatey, Finnsson Jónssonar, Biarnarsonar á Reykhólum Þorleifssonar, Þeirra son var Jón í Flatey. Rannveig dóttir Jóns bónda giptist ecki, hún bjó at Háeyri, oc var köllud Rannveig miófa, oc fèck ord mikit. Ætt mikil er kominn frá Jóni Biarnarsyni oc hin göfugasta, oc er sá kynÞáttr ættsælastr af öllum ættum frá Jóni biskupi Arasyni; voru Þá lidnir LXIII vetr frá láti födr Jóns oc födrfödrs, er hann deidi, oc er Þat kalladr medal-mannsaldr. Þat haust gèck Þúng landfarsótt yfir, oc öndudust Þó eigi margir, var hún hardt nær frá hausti til nyárs.

## XIV Cap. Frá ímsu; lögmanna skipti; ránskapr.

Vetrinn var gódr til Lúciusmessu, enn spilltist Þadann af, urdu manntapar á sjó allvída; Sigvaldi Eyríksson í Kaldadarnesi fèll á exi, oc blæddi af Því til bana. Þá giördi landskiálfta mikinn sydra oc hrundu bæir, var einn Fiall á Skeydum, Þar hvarf reidíngstorfa er lá á hladinu, oc ætludu menn í jörd farit hafa. Gudbrandr biskup lèt prenta hugganargreinir, oc um gódverkinn, oc Nicolaum Selneccerum yfir Jónas spámann, er hann hafdi út- 1614

lagt. Þau missiri var borinn Hallgrímr son Pètrs hríngiara Gudmundarsonar Hallgrímssonar, er sídar vard hid merkilegasta skáld. Pètr dó at Hólum. Þá var þræta med Páli bónda Gudbrandssyni, oc Arngrími presti at Mel um reka; oc stefndi Páll Arnfinni presti Sigurdarsyni at Stad í Hrútafyrdi, fyrir dóm Jóns lögmanns Sigurdarsonar oc Olafs prófasts Jónssonar í því máli; sá Arnfinnr prestr var fadir Einars prests oc Vilhiálms oc þeirra systkina. Páll var oc vid helmíngadóm Arngríms prests í umbodi Gudbrands biskups, oc Jóns lögmanns, um hiúskapar mál Steingríms prests prests Þióddólfssonar; fleira tel eg ecki slíkt. Herluff Daae höfudsmadr kom út um sumarit, oc háfdi Gísla lögmann Þórdarson fyrir sökum, var lögmadr miög vid aldr oc þrotinn at heilsu, galdt hann höfudsmanninum fyrir sig, svo hönum líkadi, enn kom ei á alþíng, oc lèt af lögsögn; enn aptr var kosinn til lögmanns sunnann oc austann, Gísli son Hákonar Arnasonar í Klofa, hann bjó í Brædratúngu oc var höfdíngi oc velþockadr, enn þat hafa sagt merkilegir menn at hann var ríkilátr, oc hafdi á sèr herrasnid mikit, hann var mikill vexti oc tíguglegr at siá, oc vel at afli búinn, lèttfær oc hvatligr, ádr hann þyngdist af holdum. Var upplesit á alþíngi passabrèf danskra kaupmanna fyrir höfnunum í XI sumr, þóttust Islendíngar sakna miög þeirrar kauptídar er fyrri var, því sendimenn hinna dönsku reidara er híngad komu margir hverir, huxudu lítt um hvert varann gèck út eda ecki, höfdu hana stundum utann, enn lètu hana stundum eptir liggia. A því þíngi var samþyckt giör um þriú einföld hórdómsbrot, oc önnr um konúngstyund. Þá tóku hinir spönsku menn er kalladir voru, at ræna nautum oc saudum á Vestfiördum, oc hræddu af mönnum penínga; brotnadi skip þeirra eitt, enn menn komust af; er ei þess gètit at hafist hafi handa í móti þeim, hverki Danir nè Islendíngar; ecki drápu þeir menn, oc ecki ræntu þeir konum eda meyum; heldst fóru þeir um Strandir oc Isafiörd, oc hefir Olafr prestr Jónsson á Söndum orkt um þá qvædi, tökum vèr þar meira af, oc trúum betr, enn því er Jón lærdi hefir skrád um þat efni. Sjóvíkíngar komu einnin til Vestmannaeya, þeir voru flestir Enskir, er sá nefndr Jón Gentelmann er fyrir þeim var; þeir ræntu mörg hús, oc spilltu mörgu oc hiuggu sundr; miklu fè ræntu þeir úr hinum dönsku húsum, enn báru sumt í sió; þeir settu oc byssr fyrir bríóst mönnum med spotti oc hlátri.

þeir tóku kluckuna miklu frá Landa kyrkiu, oc festu í skipreida, enn skipit höfdu þeir tekit; engann mann drápu þeir, oc fóru til Englands þadann; er mælt þeir hafi þar drepnir verit, enn Engla konúngr sendt út kluckuna sídar, því stafir á henni sögdu hvadann hún var. Kaupfar var þá oc rænt í Djúpavogi. Jón prestr Þorsteinsson Sighvatssonar, var þá kominn í eyar, qvad sálm um ránid oc ámælti miög þar í athæfi Vestmannaeyínga, hafa þeir oc jafnann ósidvandastir verit, spádi hann þeim hardari skript í þeim sálmi, oc lígr hann eigi til þess, enn þat þótti at fullu rætast sídar nockru; hann var skáld gott oc taladr vel, oc hefir qvedit sálma af Genesi oc Davids saltara; hann var þá prestr í Kyrkjubæ í eyunum, enn Olafr prestr Egilsson var fyrir ofann leiti, bródir Jóns prests er Annálinn reit, oc Ejólfs, enn þeir voru synir Jóns prests Egilssonar, Brandr prestr í Guttormshaga oc brædr hans. Mál féll til at Stad nordr í Kinn; þar var Illhugi prestr Helgason, fadir Jóns lærda er í Skógum bjó á Þelamörk sídar, hann var dóttrson Illhuga prests Gudmundarsonar í Múla, hann hýddi stelpr tvær í kyrkju vid tídir, oc fletti fötum, oc voru qvednar um hádvísur, kom þat til biskups, oc ritadi hann þar um seinna þeim Hrólfssonum Sigurdi oc Þorbergi, er syslu höfdu þar nyrdra.

## XV Cap. Andlát oc afqvæmi Hannesar Biarnarsonar; Hardæri.

Þessu næst eptir giördi vetr hardann med miklum jardbönnum, 1615 féllu þá nær allir útigángs peníngar um land allt er höfdu hey; rak inn ís á þorra fyrir nordann land, oc kríngdi um landit allt; vard ei rótt fyrir hönum fyrir sunnann Skaga, oc þar drucknudu á hönum tveir menn er voru at seladrápi; hann rak fyrir Reykianes-röst, oc inn á voga, oc fyrir öll Sudrnes, oc mundu þat engir menn, var drepit margt af selum á hönum sydra, enn fyrir nordann lá hann til fardaga; var þá mest peníngahrun um vanalegar gódsveitir. Allfáir menn komust sudr yfir heidar fyrir snjóum, oc sneru aptr, enn hafskip brotnudu vída vid ísinn; byrnir gengu um land, oc voru ecki meinsamir, voru margir unnir sudr oc austr á landinu, enn einn at Hólum í Hialltadal. Marga menn

kól þá til dauds, var einn Gunnlaugr bóndi at Bæ í Borgarfyrdi son Teits Biarnarsonar Jónssonar biskups. I þeim hardindum oc svo hinum fyrri, fór miög aptr skatta- oc tyundagialdi alþídu til konúngs, oc sagdi höfudsmadrinn þá konúngi at minna væri enn var, enn Arni Oddsson qvad hans frammburd ósannann, oc baudst til at koma gögnum at; var þat eitt sundrþyckju-efni med þeim höfudsmanni oc Oddi biskupi. Þá druknadi Skáldstada Eyríkr úr Eyafyrdi fyrir Stafnesi. Hannes bóndi Biarnarson í Snóksdal var þá gamall, oc nær sjötugu, hann reid úr Kumbaravogi nockud drnckinn, oc Arni Jónsson systrson hans XVI vetra, enn Olafr sonr hans reid eptir. Hannes reid á sund yfir Vík litla er gengr austnordr úr Hraunsfyrdi, enn hèldt ofmiög í tauminn, svo hestinn dróg nidr, fèll hann þá aptr úr södlinum oc druknadi, oc fannst ei í mánud, hèt Gudrún Olafsdóttir at gèfa þeim V hundrud er fyndi hann, enn sumir segia fátækum, ef hann fengi kyrkjuleg; fann ein stúlka líkid, oc sagdi Dada Biarnasyni í Helgafellssveit; er mælt hann hafi keypt at henni at leyna, oc lyst sig fyrstann fundit hafa, kom þar á tvímæli, oc vann Dadi eyd, oc nádi svo laununum, voru hönum gèfinn klædi öll af Hannesi, enn líkit flutt heim í Snóksdal, oc jardad þar í kyrkiunni. Gudrún vard hálftyræd, oc bjó í Snóksdal lánga æfi med tillagi barna sinna, oc var ölmusugiörn jafnann. Eggert son Hannesar erfdi Snóksdal, hann átti Halldóru dóttr Hákonar Biarnarsonar at Nesi vid Seltjörn, voru hönum talinn III hundrud hundrada oc henni eitt, oc skildi Hákon sèr II hundrud af; þau voru börn þeirra, Jón sem átti Sandgerdi oc Jón á Hofstödum er fèck Margretar dóttr Steindórs Finnssonar; hann krenktist, oc dó snemma, þá áttu þau börn nockr. Hannes var hinn þridji, sá er fèck Jórunnar dóttr Jóns Dans Magnússonar, hann bjó í Snóksdal, oc var greindr vel, oc þau bædi, oc áttu þar afqvæmi. Ragnheidr hèt dóttir Eggerts, hennar fèck Sigurdr prestr í Middölum, son Olafs prests á Kvennabrecku Moldar-Brandssonar; enn sídar gèck hún at eiga Pálma Henriksson Gíslasonar lögmanns Þórdarsonar. Þórun hèt önnr dóttir Eggerts, hún átti fyrri Finn Steindórsson Finnssonar, enn sídar Þorvard Runólfsson frá Brennistödnm, er illa fór vid hana, oc vard hún mótlætt. Olafr son Hannesar bónda Biarnarsonar átti Sandafell, oc jardir margar, oc var vel um sig at mörgu, enn hèldst illa á fè, hann fèck Halldóru dóttr Gísla lögmanns Þórdar-

sonar, oc áttu börn mörg, einn son þeirra var Gísli fadir Sigurdar Dala-skálds; í annad sinn qvæntist Olafr oc fèck Steinunnar dóttr Biarnar á Laxamyri Magnússonar, oc voru börn þeirra miög mörg. Steinunn Hannesdóttir var gipt Arna syni Gísla lögmanns Þórdarsonar, merkilegum manni oc ágætum, þeirra synir voru Þórdr, hagleiksmadr mikill oc vel at sèr, oc Hannes fadir Hákonar syslumanns, oc enn fleiri, oc verdr getit seinna. Þórun Hannesdóttir Biarnarsonar var gipt Gísla, syni Biarnar prófasts Gíslasonar, bródr Hákonar í Nesi, þeirra börn voru mörg, oc mikill afsprîngr; eitt var Biörn Gíslason í Bæ fadir Sigurdar lögmanns, hann bió oc at Vatnsenda, oc var merkilegr madr; eitt var Ragnheidr, hennar fèck Þórgils á Brimilsvöllum son Jóns Þórgilssonar, oc Helgu Skaptadóttr prests frá Setbergi Loptssonar; Þórgils var lögmadr, hann var mikill oc sterkr, sem tveir menn, oc þó gyldir, er mælt hann hafi borit helluna miklu fyrir bæardyr á Brimilsvöllum; dóttir þeirra var Gudrún er Magnús lögmadr átti, son Jóns í Midhúsum, Magnússonar á Reykhólum Arasonar í Ögri, þeirra dóttir Margrèt er Gísla átti son Jóns biskups Vigfússonar, þeirra son Magnús amtmadr. Margt er fleira komit frá Hannesi í Snóksdal. Þau missiri er hann druknadi, stack sig Thómas Gunnlaugsson á Hvanndölum, til bana, ófyrirsyniu á vetlîngaprióni. Þá fyrirfór sú kona barni sínu V vikna gömlu, er Ragnheidr Magnúsdóttir hèt, í læk, nordr á Svalbardsströnd; var henni dreckt á Helgastödum. Þá lèt Gudbrandr biskup ödru sinni prenta qver um rèttlætîng mannsins, oc annad um gódverkinn, oc Mölleri mysterium magnum.

## XVI Cap. Ránsmenn afrádnir á Vestfiördum.

Þann tíma seldi Gudrún Magnúsdóttir Herluff Daae höfudsmanni L hundrud í Reykjavík fyrir III jardir adrar; oc þau missiri var borinn Margrèt dóttir Halldórs Olafssonar, oc Halldóru Jónsdóttr Biarnarsonar, er sídar vard göfug kona. Þá komu um sumarit sióvíkîngar á Patriksfiörd, oc ætludu at ræna Vestfiördu, þeir höfdu tekit nockra Enska menn med sèr nauduga, enn er þeir komu á land, oc sióvíkîngar ætludu at ræna Dani á Vatneyri, rèdust hinir ensku menn á þá, oc urpu þeim í sióinn oc drápu marga, enn

tóku tvo fyrirlida oc fóru á brott sídann. Hinir spönsku menn er kalladir voru, lágu þar á þremr skipum á sumri álidnu, eru fyrirlidar nefndir Marteinn, Stephán oc Domingo, þeir særdu nockrá menn, oc rændu suma, enn ecki drápu þeir menn eda tóku konr; þeir brutu skip sín í útsynníngsbil á einni nóttu, oc voru þá eptir á VIII bátum LXXX samann, oc á einni skútu; þeir rændu ei at sídr, oc hafdi konúngsbrèf oc höfudsmannsbod útkomit, at þeir skyldu dræpir vera, oc eptir því dæmdi Ari Magnússon í Ögri med XII mönnum. Þeir ræntu Gunnstein bónda Grímsson í Jökulfiördum, oc tóku skútu á Dynianda, þeir stefndu oc til Ögrs til Ara, er þar var vörn fyrir. Jón hèt madr oc var Gudmundarson, hann var kalladr hinn lærdí, var hann alinn upp á Ströndum, oc hafdi qvænst þar, oc fengit þeirrar konu er haldinn var fiölkunnug; hann fór med mörg hindrvitni, kunni rúnir, oc lètst hafa til galdra, oc í sumum hlutum var hann ecki ofródr; hann þóttist hafa kynni mikil af álfum, oc leitadi vid at kènna mönnum at vekia upp drauga, hafdi hann oc átrúnad mikinn á grösum oc steinum, enn hèldt þá alla fiölkunnuga er í móti hönum lögdust at nockru; hann hafdi mikil mök vid ránsmenn þessa, oc var eigi traust um at hann vísadi þeim á hafnir edr þángat sem fèfaung voru fyrir; taldi hann kyngi-vedr hefdi brotit skip þeirra; enn Ari Magnússon í Ögri, safnadi bændum um fiördinn oc fór at þeim, var þá Jón hlaupinn sudr um fiall, enn þeir svúfu, voru XXXI drepnir í Isafyrdi, enn XIII í Dyrafyrdi á Skaga, ætludu vestannmenn þeir mundu vera fiölkunnugir, því þeir voru fiörsegir. Marteinn var drepinn í Ædey, oc syndi ádr hraustlega vörn; XVIII samann voru þeir drepnir í Ædey oc á Sandeyri; enn er Ari fór at þeim í þridja sinni, giördi óvedr mikit, oc sneru menn aptr; rændu þeir sem eptir urdu Enskri duggu med mönnum oc áhöfn, oc drápu einn, oc komust svo á brott, mælt er at Nordannmenn hafi drepit XI er þeir mættu í verferd. Jón komst undann, oc flæktist vída um land, hann sagdi svo frá, at miög illa hafdi verit at þeim unnit, oc má í því nockud satt vera, þó hann hafi aukid, oc þat annad at Ari hafi tekit herfáng allt, enn bændr ei af haft nema þat er líttnytt var af klædaslitrum þeirra; er þat oc líklegt, því Ari hefir metit konúngi fèd, enn þó ei hafi sem fyllst verit útgoldit. Enn margt er í sögn Jóns er hann hefir logit med öllu, var þat hellst at hann qvad þá

saklausa hafa drepna verit, oc prest einn þar vestra; Jón Grímsson nálega hafa tekit af þeim óviljugum hvad er hann vildi, oc Ara vera hid mesta íllmenni annad enn þann prest, oc hinn fiölkunnugasta mann.

## XVII Cap. Tilburdir ímsir oc sóttir.

Um vetrinn var hlutasamt í útverum, enn tyndist skip á Stafnesi, oc þó vídar. Þá lágu ránsmenn þeir er eptir urdu L samann í Vatneyrarbúdum ádr þeir komust utann. Gudbrandr biskup lèt prenta Cathechismum Luthers hinn minna, Donat oc Grammaticam; er oc mælt hann giördi skipan um dagsverk presta, af þeim er ecki tyunda eda gru fyrir, innann skípti-tyund. Olafr Olafsson, sem kalladr var lærdi karl, hafdi þá verit nockra stund skólameistari at Hólum, enn Torfi Finnsson úr Flatey einn vetr í Skálhollti. Þá lèt Jón Magnússon á Reykhólum XII manna dóm gánga í Dölum hinn XVda dag Maii mánadar um vanvyrdíngu dóma. Þat bar til at skip kom út enskt, á Hiallasandi undir jökli, þar var á íslendskr madr Olafr Gottskálksson frá Hundadal, hann var bólusiúkr fluttr í land, oc sló þegar sóttinni á landsmenn, oc dó miög margt, oc hid mannvænsta fólk, innann þrítugs oc ei eldra; vard mikit mannfall, oc dóu LXX menn í Ingialdshóls sókn; í Arnessþíngi dóu CCC manna, enn í Húnavatnsþíngi hálft annad hundrad, CC í Hegranessþíngi, oc CC í Vadlaþíngi; kölludu þessa margir miklu bólu. Þá dó úr henni Helga kona Arna Oddssonar; gèck oc annar kránkleiki af taki, oc dóu margir. Þá dó Jón prentari, son Jóns prests Matthiassonar svenska, hann var fadir Brands prentara födr Jóns prests í Hytarnesi, födr annars Jóns prests er olli Kryumálum. Einnin Kolbeinn Hiálmsson bartskèri Gudbrands biskups, hann var fadir Gudmundar, födr Eyríka tveggia, er annar var á Steinstödum, enn annar prestr á Fagranesi, hans son var Gudmundr prestr í Middölum, fadir Eyríks prests at Stad í Hrútafyrdi, födr Gudmundar prests. Þorlákr Skúlason dóttrson Gudbrands biskups var XVIII vetra, oc fèck þá bóluna, hann æfdi sig vel vid háskólann. I Gufudal vestr dóu þrír menn í bólu, oc syndist þar öllum mönnum þeir vera á ferli, 1616

þat voru konr tvær, hafdi heitast hver vid adra, oc úngr madr er Steindór hèt, hann hafdi haft leik vid stúlku eina þar, oc þótti sækja at henni, þartil er henni var komit á brott; spilla þóttu þau verki med skrækjum oc illum látum, oc standa at messu oc lestrum úti oc inni. Þá tyndist farmaskip Jóns Magnússonar eldra, oc druknudu XV menn, er þeir fóru med vöru úr kaupstad. Drengir oc stúlkr voru þá flutt sunnann nordr oc í Austfiördu, oc tekinn fyrir þóknan LX eda LXXX álnir fyrir dreng, enn XL fyrir stúlku, olli því mannekla af úngmenni.

## XVIII Cap. Fiallvegr Odds biskups.

Oddr biskup reid jafnann þá leid til Austfiarda er skèmst var fyrrum á sumrum, fyrst nordr yfir Sprengisand, oc sídann austr um Odádahraun til Mödrudals á fialli; fèck hann sèr jafnann vissann leidsögumann yfir hraunit at austann, er hönum skyldi mæta gil þat er kallad er kidagil fyrir nordann Sprengisand, at áqvednum degi. Sá var gamall bóndi fèlítill er Þórdr hèt, oc kalladr Barna-Þórdr. Þat var einhveriu sinni á hinum seinni árum Odds biskups, þá er hèr var komit eda nockru ádr, var hann enn fenginn, enn biskup kom ecki á nefndum degi, oc ei þess gètit hvad olli. Þórdr kom, enn mátti ecki bída lengr enn til var tekit, nema litla hríd, sakir matleysis. Hann setti upp merki vid uppþornad moldflag eda tjarnarstædi, svo sæist hann hefdi þar verit, oc ritadi þetta med staf sínum:

Biskups hefi eg bedit med raun, oc bitit lítinn kost,
ádr eg lagdi á Odádahraun át eg þurrann ost.

Litlu eptir þat er hann var brott farinn, kom biskup oc menn hans, oc lásu visuna, oc sáu at ei var at treysta fylgd hans. Biskups sveinar voru í þann tíma engir audqvísar, því at höfdíngiar völdu menn at sèr, enn þá voru enn í landi hèr margir gyldir menn at karlmennsku ef nockru vöndust; þeim þótti lángt at krækja nordr til Myvatns, oc rída þadann til Mödrudals, töldu fyrir því biskup á at leggia á hraunit, qvádust vilja í rádast med hans umsjá oc eptirtekt um veginn. Rèdist þat af fyrir umtölr þeirra at lagt var á hraunit, enn biskup sagdi fyrir leidinni. Þar

var öræfis vidátta, enn þó vídast grasi vaxit, oc enginn kennileiti þeckianlig, enn vegrinn mundi svara áfánga; oc er þeir voru komnir austr á hraunit sló yfir þoku, svo þeir vissu ei hvad þeir fóru, oc voru lengir villir, til þess er þeir þóttust kènna reykiarþef, ridu þeir þar eptir, allt at því er fyrir þeim vard kotbær lítill, oc fólk nockrt karlar oc konr, oc nockr málnyta, nam biskup þar stadar, oc lèt slá tialdi, oc hafdi þar náttstad, enn bannadi mönnum sínum at skygnast miög um háttu þess fólks, oc lèt suma vaka alla nóttina; var hönum veittr þar gódr greidi, oc jafnvel siálfum borinn miödr edr útlendr dryckr; var fólk þat hverki ómennilegt eda búnadr þess; oc um daginn eptir fylgdi bóndi biskupi á leid rètta yfir hraunit, oc svo Jökulsá, oc tókst vel, ridu þeir bádir undann um daginn allann, oc töludu þat er enginn vissi annar, enn at skilnadi gaf bóndi biskupi hest góďann, er sídann var kalladr biskupsgráni. Hann bannadi at segia margt frá þessu, enn Grímr prestr at Húsafelli son Jóns Grímssonar er veginn var í Sydumúla, var þá sveinn oc fylgdarmadr biskups, oc sagdi þat Helga presti syni sínum, oc voru þeir merkir menn bádir, oc Halldóri prófasti í Reykiahollti syni Jóns prests Bödvarssonar, enn Helgi prestr oc Halldór prófastr sögdu bádir Jóni prófasti Halldórssyni er hann var úngr, oc hefir hann í rit fært. Ætludu menn þetta mundu ei illvyrkiar hafa verit, enn heldr sakafólk nockrt, er komist hefdi í qvennamál, oc fordat sèr á þeim stad; oc hafa fáir farit sídann þann veg, til þess á þeirra manna dögum er lifdu vid endir XVIIIdu aldar, nema Biarni Oddsson syslumadr, hann reid þar um jafnann, oc gisti í hrauninu, oc reid einn frá mönnum sínum á qvöldum, enn kom aptr öldruckinn, þá menn vissu hann ei hafa drycki medferdar; madr druknadi af hönum seinast í Jökulsá, oc var þat miklu seinna enn hèr var komit.

## XIX Cap. Tilburdir.

Herluff Daae höfudsmadr kom út bólu sumarit, oc lèt lesa konúngsbrèf um at leggia fè til uppbyggíngar Bessastadakyrkiu, af öllum kyrkium ödrum á Islandi; skyldu syslumenn taka þat samann; hugdu menn svo giört at rádum Jörgens Danielssonar. Enskt

skip brotnadi í þíngeyarþíngi um haustit, oc urdu IX menn af vetrarfastir. þá giördist Gísli son Odds biskups kyrkiuprestr í Skálhollti, hann vígdi Einar þormódsson oc Jóhönnu Einarsdóttr samann hinn XXta dag Octobris mánadar, oc var forsagnarvottr at hinu sama hiónabandi, oc spannst þar af mikil deila sídann. þat bar til vestra at III menn sátu hiá fiám sínum í fiúkgeifu allir samann, kom bilr, oc sló þeim til jardar, komst einn heim vid illann leik styrdr oc laminn, enn tveir fundust, annar vitlaus, enn annar daudr oc af hálft höfudit, oc tveir saudir hjá hönum daudir. þetta sumar sendi Kristián konúngr IVdi verndarskip kaupförum til lids híngad undir landit; var þá miög hardlega fyrirbodinn kauphöndlan vid útlenda.

## XX Cap. Ovild med höfudsmanni oc Oddi biskupi.

I þann tíma þróadist miög óvild med Herluff Daae höfudsmanni oc Oddi biskupi Einarssyni; bar þeim margt til sundrþyckiu, sem opt kann verda er slíkir menn eiga laung skipti samann. Herluff Daae leifdi Jóni syni Biarnar Gunnarssonar, er þá hèldt Skriduklaustr, at fá Margrètar dóttr Odds prests þorkèlssonar á Hofi, systr Biarna Oddssonar, þrímenníngs síns, án konúngs vitundar, enn Oddr biskup hafdi rádit hönum frá því; bádir voru þeir stórlundadir oc þoldu illa hvorr ödrum; bar höfudsmadr þá ófrægd fyrir konúnginn um biskup, qvad hann vígia þá suma til presta er ólærdir væri, oc hverki hefdi lært í latinuskóla nè kynni latinu, oc þat fyrir venslasakir eda vináttu eda fiár; var miög hæft í því, at þeir voru vígdir, hellst til fátækra kalla, er miög lítt voru latinu-lærdir, enn skildu þó vel þísku oc dönsku, oc hiálpudust vid gódar bækr í þeim túngum. Lèt Oddr biskup, til at hneckja slíku, tvo menn fara utann, er lært höfdu í heimahúsum, Sigurd son Odds prests í Gaulverjabæ Stephánssonar Gíslasonar biskups, hann var prestr í Arnarbæli, vellærdr madr oc vitr, oc Sigurd prest á Rafnseyri son Snorra á Varmalæk Asgeirssonar prests at Lundi, reyndust þeir bádir vel, oc vard biskupi þat til afsökunar. Nockud var þó tilhafit í því fleira er höfudsmadr mælti, því svosem Oddr biskup var ágætr madr fyrir margra hluta sakir, oc hiálp mörgum til menta oc menníngar, svo framadi hann hellst ættmenn sína ef hann mátti, oc þeir voru tilfærir;

þótti Sunnlendíngum, þeim er hann hafdi ei frændsemi eda mægdir at telia vid, sem hann væri þeim bágr oc erfidr, því hann studdi þá til hinna betra kallanna er hönum voru vensladir, þó lítt væri lærdir oc atgiörfislausir, enn vel lærdir menn luktust úti fyrir þeirra sakir. Tóku þá margir at leita Gísla lögmanns Hákonarsonar, oc vard at afhvarfi gódu, því hönum var höfdínglega háttad vid þá er hans leitudu, oc í vináttu vid höfudsmenn; fèck Gísli lögmadr af því vinsældir, enn mörgum líkadi lítt til biskups. Oddr biskup græddi oc mikit fè, oc var miög eptir jardakaupum hvar sem fengust; þótti mörgum torveldt at fá börnum sínum skólaveru, nema jardarpartr eda ved í jördu væri gèfit med ef til var, hellst ef þær voru gyrnilegar; svo segir Biarni Jónsson skáldi í qvedlíngi sínum einum:

Lènsfènu ólust á
óríkra börninn smá,
þau eru nú öll á róli
einu fæst varla skóli,
ef ódulinn undir þau bæri,
öll þau í kennslu færi.

A þann hátt áttu Akrar, födrleifd þeirra Finnssona, Sigurdar prests oc Jóns prests á Melum, at seljast fyrir skólavist þeirra, oc svo annad fè, enn fiárhaldsmenn þeirra höfdu ei viljad gánga at því, oc fór Bödvar prestr í Reykiahollti Jónsson, stiúpfadir þeirra, med þá á fund höfudsmannsinns, oc bad hann láta prófa skilníng þeirra oc næmi í lærdómum, qvadst ei vilja halda þeim til slíks, ef þeir væri ei færir til bóknáms; voru þeir ádr svo undir búnir at þeir reyndust vel er prófat var, oc fèck biskup alvarlega tilsögn af höfudsmanninum, at taka þá í skóla, oc þvaungva ei af þeim födrleifd þeirra; sídann urdu þeir teknir hversu sem biskupi líkadi; þó lèt biskup ecki Finn oc Jón yngra, sonu Bödvars prests gialda þess at neinu, oc tók þá mótmælislaust til skólavistar, áttu þeir oc ecki fasteign mikla. Finnr Bödvarsson var efnilegr madr fyrir flestra hluta sakir, hann andadist utanlands, oc er sagt at Bödvar prófastr yrdi ecki samr madr eptir lát hans, enn Jón vard prestr í Reykiahollti eptir födr sinn, oc var fadir Halldórs prófasts. Svo segir Biörn at Skardsá, at Oddr biskup kæmi einhverju sinni til Bessastada nær Jónsmessu, tók Herluff Daae vel í móti hönum, oc giördi hönum veitslu mikla, því hann var rausnarmadr

til veitínga; var í þeirri veitslu settr upp mynnisbikar konúngs, oc drack höfudsmadrinn til biskupi oc drack af; biskup tók vid er á var skenkt aptr, oc fèck þá pata af því at hellt var úr annari könnu enn höfudsmadrinn úr drack, tók þó vid skálinni; enn adrir segia at skenkjarinn, þiónustumadr höfudsmanns, hafi bendt biskupi eda sveini hans til, at hann drycki varliga; hafi biskup þá tekit upp hiá sèr silfrskál lítla er hann var vanr at drecka af, oc hellt á af bikarnum, oc mælt þessi ord Christs: þó þeir drecki nockut banvænlegt, þá mun þeim þat ecki granda; oc druckit af sídann; sveif þá at hönum, svo hann fèll í ómegin, oc var borinn af sveinum sínum til tjalds síns; lá hann þar II eda III nætr til þess er hann hresstist aptr, med þeim medölum er fyrir hendi voru; oc var mönnum ecki grunlaust at trútt hefdi verit um allt.

## XXI Cap. Mannadruknan oc annat.

1617 Vetrinn eptir bólukomuna vard sá atburdr, at Þorsteinn prestr Olafsson í Vestrhopshólum fell af hestbaki, kom svartr fleckr á háls hönum, oc vard af mikit mein, svo hann dó af hinn XIta dag Martii; hann var hálfsextugr. Þá gèck bólann um Austrlandit, oc dó margt manna; hlutir voru gódir í útverum, oc árgott í landi. XXX manna druknudu austr vid Eyasand, oc hèldt einn á barni sínu er hann rak upp; urdu oc manntapar vídar. VI menn tyndust af skipi í Eyrarsveit, oc ætludu menn at hvalr mundi hafa gleypt hvern at ödrum. Þá druknadi oc Sigurdr son Odds biskups, hiá Oddgeirshólum í Flóa, í Hvítá, oc madr hans er Bergr hèt, fannst lík Sigurdar, enn Bergs ecki; segia menn at hani hafi verit hafdr á skipi, oc galat þar yfir er líkit fannst. Sigurdr átti Þórunni ríku dóttr Jóns Vígfússonar á Galltalæk; hafdi Jón eptirlátit ærit fè sem ádr segir, oc vard Þórunn ein erfíngi at sídarst, var dóttir þeirra Sigurdar Hólmfrídr er Jón prestr Arason í Vatnsfyrdi átti. Hvanndala Biarni Thómasson druknadi þá á Skagafyrdi, var róinn á siá vid annann mann, oc hafdi opt farit slíkar ferdir hættilegar, lángt framm yfir alla menn adra, sídann er hann fór til Kolbeinseyar, enn ofttreysti at lyktum karlmennsku sinni. Þá dæmdu þeir samann í Þíngeyarþíngi um vorit at Helgastödum, Þorbergr Hrólfsson, oc Þorsteinn

prófastr Illhugason, helmíngadóm, um hjónaband; þar er enn gètit Biarna prests at Helgastödum, sonar Jóns Ormssonar, oc þeirra Illhugasona Jóns oc Gudmundar, oc svo Jóns prests Þorvaldssonar á Skinnastödum. Enn Jón lögmadr Sigurdarson lèt dóm gánga at Sveinstödum um öreiga hinn VIIIda dag Maii, oc hann oc Skapti prófastr Loptsson á Setbergi helmíngadóm um ákærur nockrar, at Midgördum í Stadarsveit XIVda dag Junii. Gudbrandr biskup lèt þá prenta Dominicale, oc lítla Cathechismum af nyu. Ecki kom Herluff Daae út um sumarit, enn sendi Jörgen Danielsson, var þá lesit upp í lögrèttu konúngsbrèf um Velli í Hólmi, at leggiast skyldi aptr undir Hólakyrkiu med dómi, oc lèt Jón lögmadr Sigurdarson hann gánga; þar var Isleifr Þorbergsson einn dómsmadr, oc þeir Hrólfssynir. Þat var annad brèf at prófastsgardar eda kyrkiur veitist engum at þeim lifendum er halda. Konúngr baud oc á þeim árum, at syslumenn skyldu vinna embættis eyd, því hann frètti at margt gèngi óskipulega, enn þeir voru tregir til. Vidr var þá fluttr út til Bessastada kyrkiu, oc hún reyst oc byggd sídann, hávaxinn oc mikil, enn þó bitalaus, sagdi Jörgen Danielsson at slíkt hús mætti ei falla, enn þó vard þat á adra leid; var CCCC dalir kyrkna gialdit er utann fór ádr hún væri byggd. A þeim missirum var Brynjúlfr son Sveins prests Símonarsonar í Hollti XII vetra gamall, oc hafdi þá lesit alla rítnínguna fiórum sinnum, oc gat giört grein fyrir því er hann las, er þess fyrir því gètit, at þat þótti þá frábært, enn hann verdr nefndr seinna.

## XXII Cap. Frá ímsu.

Um haustit hinn XXIta dag Augutsi mánadar, andadist Biörn bóndi Benedictsson af Múnkaþverá; kallar Biörn at Skardsá hann frómann höfdíngsmann, fridsamann oc lítilátann, hann var oc ecki starfsmadr mikill, enn kalladr lögvitr, oc var madr gódgjarn; lítt var hann vid aldr. Magnús sonr hans tók Múnkaþverá oc Vadlasyslu eptir hann, hann giördist brádt ríkr oc audugr, oc var skáld; hann átti Gudrúnu dóttr Gísla lögmanns Þórdarsonar, oc voru synir þeirra Biörn oc Gísli, enn dætr Jórun, er fèck Jón Magnússon frá Reykiahólum Arasonar; Helga, hana átti Hákon Gíslason

lögmanns Hákonarsonar, oc Solveig kona Þorkels Gudmundrsonar Hákonarsonar; enn systr Magnúsar voru Sigrídr kona Páls Gudbrandssonar, oc Gudrún, er Gísli prestr son Odds biskups átti. Arni Oddsson fór þá utann med frammburd sinn í málum vid höfudsmanninn, oc kom því svo at konúngr rèdi af at senda Commissarios út híngad. Jón lærdi hafdi farit nordr til Hóla, oc skrumat svo fyrir Gudbrandi biskupi, at hann tók í skóla Gudmund son hans; hældi hann af því biskupi miög, oc dvaldist um hríd í Nordrlandi, til þess er hann var rekinn þadann er menn urdu þess varir at hann kenndi fiölkíngi oc hiátrú, fór hann þá vestr á Snæfellsnes, oc skaut Steindór son Gísla lögmanns Þórdarsonar skjóli yfir hann, oc hafdi í vyrdíngum nockra stund, bjó hann þar í ímsum stödum, oc sídarst á Hiallasandi, þar sem hann kalladi at Uppsöndum. Steindór hafdi komit út, oc fengit Gudrúnar Einarsdóttr eckju Jóns lögmanns, enn búit fyrst at Stóruborg nordr, enn sídann at Laugarbrecku oc Knerri, hafdi hann nockra stund Stapa umbod oc syslu, oc eigi smátt fè. Misþyckin giördi í þann tíma med Oddi biskupi oc Gísla lögmanni Hákonarsyni, þó tengdir væri á milli; bar þeim margt til, enn þat hellst er lögmadr keypti Brædratúngu oc Túngueey LXXX hundrud at dyrleika, at þeim Þormódssonum Asmundi presti í Hvammi oc Jóni presti at Helgafelli; fór þat framm í Klofa, þar Gísli lögmadr bjó fyrst eptir födr sinn, hinn Xda dag Decembris, oc fèck hann Asmundi presti fyrir hans helmíng, hálfann Straumfiörd á Myrum XX hundrud, oc Brecku oc Dalsmynni í Nordrárdal LX hundrud, enn Jóni Svefneyar á Breydafyrdi XL hundrud, oc Hamra í Reykhollts Reykiadal XXIII hundrud. Gísli prestr Oddsson þóttist eiga ved í XL hundrudum í Túngu, enn Oddr biskup eignadi Túngueey Skálholltsstad, edr stadar-jördinni Höfda; þeim bar oc á milli um Baugstadi, sem enn mun greint verda.

---

